# SÝSLUMANNAÆFIR

EPTIR

BOGA BENEDIKTSSON
Á STAÐARFELLI.

## MEÐ SKÝRINGUM OG VIÐAUKUM

EPTIR

JÓN PÉTURSSON OG HANNES ÞORSTEINSSON.

## II. BINDI.





REYKJAVÍK
PRENTSMIÐJA ÍSAFOLDAR OG ÞJÓÐÓLFS
1889—1904.

# B. I.

## Vestfirðingafjórðungur.

# B. Vestfirðingafjórðungur.

## A.

## þorskafjarðarþing.

Þorskafjarðarþing nefndist fyrrum frá *Steinadalsá* í Gilsfjarðarbotni til *Hrútafjarðarár* í Hrútafirði; innan tèðra ummerkja eru 3 sýslur, er nefnast *Barðastrandar* sýsla, *Ísafjarðar* sýsla og *Stranda* sýsla; er því athugasamt, þá er í fornritum nefnast sýslumenn í þorskafjarðarþingi, að aðgreina, hvort þeir hèldu það allt, eða einhvern hluta þess. Eg vil hèr taka hverja sýslu út af fyrir sig og minnast nokkuð á þá fáeinu, sem eg af fræðibókum veit að hafa haldið tèðar sýslur, eða verið þar maktarmenn fremur öðrum á þeirra dögum.

### I. Barðastrandarsýsla.

Hinir gömlu þingstaðir í Barðastrandarsýslu:

1. Berufjörður í Reykhólasveit.
2. Skálmarnes við Gufufjörð.
3. Vattarnes við Skálmarfjörð.
4. Svefneyjar á Breiðafirði.
5. Vaðall á Barðaströnd.
6. Sauðlauksdalur við Patreksfjörð.
7. Laugardalur (nú Fell) í Tálknafirði.
8. Fífustaðir í Dalasveit við Arnarfjörð.

[NB. Fyr var og þingstaður í Hvestu í Arnarfirði og í Tungu við Örlygshöfn.]

Barðastrandarsýsla aðgreinist frá Dalasýslu við Gilsfjarðarbotn, og nær vestur á Langanes, sem gengur fram í Arnarfjörð, því norðurhluti þess ness liggur til Ísafjarðarsýslu.

Innan tèðra takmarka hafa opt búið höfðingjar og valdamenn; fáeina þeirra vil eg nefna, þó óvíss sè um sýsluvöld þeirra sumra og valdstjórnarár margra hinna, þeim til fróðleiks, er lesa vilja, eða hafa þar um litla þekkingu; hina, sem betur vita, bið eg að lagfæra og við bæta.

---

## A.

### Höfðingjar

(er eg held, að þar hafi haft völd).

**Þorleifur Svartsson Þorleifssonar**[1]

tjáist fæddur 1307[2]; hann var höfðingi auðigur, átti Reykhóla[3] og miklar eignir aðrar. Hann tjáist að hafa búið á Reykhólum, og máske hann hafi verið hirðstjóra umboðsmaður nálægt 1340 og þar eptir. — Þorleifur er ritað að hafi dáið 1379, aðrir 1380. -- Bróðir Þorleifs var Gísli, en sonur Þorleifs var Ólafur fyrri Tóni, sem kallaður var mjög fjölkunnigur, en drukknaði í Steinólfsdalsá 1393; hans dóttir var Guðrún, er átti Geirmund frá Hvoli í Saurbæ; þeirra son Ólafur yngri Tóni á Rauðamel. Son Þorleifs mun og hafa verið Svartur bóndi Þorleifsson[4], hvers utanferðar getið er 1392, en dó sama ár, og einnig Páll sonur hans.

---

1) Faðir Þorleifs Svartssonar virðist að hafa verið Svartur Þorleifsson, er 1300 kom út í Dýrafirði á Gullskónum ásamt með Filippusi Loptssyni og fleirum Íslendingum.

2) Þetta er rètt; í deildinni A hèr á undan, bls. 81, er sú prentvilla, að Þorleifur hafi verið fæddur 1301.

3) Gísli, bróðir Þorleifs, hefir og átt Reykhólana, og fengið þá alla, er Þorleifur dó, af erfingjum hans; þó hefir Ólafur Tóni hinn eldri, sonur Þorleifs, haldið eyjunum, því synir Guðrúnar dóttur hans, Ólafur Tóni hinn yngri og Sigurður, skiptu þeim millum sín, og voru þær eyjarnar, er Sigurður fèkk, seinna kallaðar Oddsnautar, eptir Oddi syni hans; Tómas sonur Odds seldi þær Halldóri Tyrfingssyni.

4) Þessi Svartur Þorleifsson virðist að hafa verið sá Svartur Þorleifsson, er særður var mjög á alþingi 1361, er menn Árna

## Þórður Sigmundsson,

sem bjó undir Núpi í Dýrafirði, var og mikill höfðingi, auðigur og yfirgangsmaður; er ekki ólíklegt, að hann hafi verið valdamaður og það helzt í Barðastrandarsýslu. — Þórður átti kíf við Björn Jórsalafara 1392—1393, en þeir sættust 1394 (sjá Ísafjarðarsýslu)[1]. Hvaða ættar þessi Þórður hefir verið, er

---

Þórðarsonar og Jóns Guttormssonar börðust þar; var Svartur í liði Árna.

1) Það er víst, að það mun enginn hafa grafizt eptir því, hverrar ættar Þórður Sigmundsson hefir verið, en mèr sýnist það auðsætt, að hann hafi verið kominn af herra Rafni Oddssyni; Rafn átti eignir miklar í Dýrafirði; dótturson hans var herra Sturla Jónsson, sem sè son Hallkötlu Rafnsdóttur og Jóns Pèturssonar, og hefir hann víst fengið nokkuð af eignum Rafns afa síns, er þar voru; hann andaðist 1305; hans son hefir auðsjáanlega verið Þórður Sturluson, er á fyrra hluta 14. aldarinnar átti Gnúp og Alviðru í Dýrafirði og fleiri jarðir þar; hans son hefir Sigmundur verið, faðir Þórðar, er dó, sem hèr síðar segir, 1403, og sem líka átti Gnúp og Alviðru, og hefir hann heitið eptir afa sínum Þórði Sturlusyni; Gnúp og Alviðru eignaðist síðan Ari Guðmundsson á Reykhólum, og hefir hann fengið þær jarðir með Ólöfu konu sinni, dóttur Þórðar Sigmundssonar. Móðir Þórðar Sturlusonar og því kona herra Sturlu Jónssonar hefir heitið Birgitta eður Brigida, og verið Böðvarsdóttir, er sèst af Mýrnakirkju máldaga; hún gaf fè bæði til þeirrar kirkju og eins til Gnúpskirkju. Það er til brèf nokkurt, útgefið á Hrauni í Dýrafirði á Símonsmessu 1380, af Hjalta Lýtingssyni, Jóni Þorleifssyni, Þorláki Vigfússyni og Birn-Magnússyni, um landamerki og ítök Gnúps, Alviðru og Gerðihamra í Dýrafirði. Þegar menn þessir eru búnir að segja frá landamerkjum og ítökum jarða þessara, halda þeir þannig áfram: »erum vèr nú sjötugir menn og sumir áttræðir nærri að aldri, og vissum vèr Þórð bónda Sturluson og svo móður hans Brigittu þetta svo halda, þá þau áttu þessar allar eigur og aðrar meiri um Dýrafjörð«.

mèr dulið, en hann var mágur Gísla Svartssonar á Reykhólum[1] (og hefir máske átt dóttur Gísla). Gísli var þá gamall, er þetta tilfèll, en ekki er ólíklegt, að hann hafi eptir 1360 haft einhver völd í Barðastrandarsýslu, þar hann var og á Reykhólum, en Þórður hafi seinna eða nálægt 1380 haft þar völd (fyrir þessu er samt engin vissa); máske þessi Þórður hafi verið faðir Odds Lepps[2] og þeirra bræðra, því sumar ættir kalla

---

1) Kona Þórðar Sigmundssonar og dóttir Gísla hèt Solveig, og eptir henni hefir Guðmundur ríki Arason á Reykhólum látið heita Solveigu dóttur sína.

2) Sú getgáta, að Þórður Sigmundsson hafi verið faðir Odds Lepps og Sigurðar Fóstra, er með öllu röng, en eins og hèr er sagt síðar, er það víst, að Ólöf kona Ara Guðmundssonar, var dóttir Þórðar Sigmundssonar. Árni Magnússon hefir ritað, sjálfsagt eptir gömlum skjölum, að faðir Odds Lepps hafi verið Þórður Flosason; þessi Þórður kemur fyrir í nokkrum brèfum og þar á meðal í einu frá 1362; þar eru nefndir fyrstir kaupvottar, síra Snorri officialis, síra Flosi, Þórður Flosason, og síðan fleiri; í öðru brèfi frá sömu tíð er og talað um Þórð son síra Flosa. Síra Flosi var Jónsson og hefir verið mikill höfðingi; þannig var hann 1360 skipaður ráðamaður í Skálholti. Það virðist og sem hann hafi haldið Staðastað. Faðir hans hefir verið Jón Erlendsson á Ferjubakka; er hann nefndur í sögu Þorláks biskups helga; þar er og getið Flosa sonar hans, er þá var 10 ára gamall, er sá viðburður tilbar, sem þar er talað um. Jón Erlendsson hefir verið stórbóndi, og er þess getið, að hann hafi komið út 1310; hefir hann verið bróðir Hauks lögmanns Erlendssonar, en móðir Erlendar lögmanns sterka var Valgerður Flosadóttir, og er ætt sú rakin í Landnámu upp til Flosa landnámsmanns, er nam alla Rangárvöllu hina eystri; Jón Erlendsson hefir þannig látið son sinn, síra Flosa, heita eptir fyrnefndum Flosa, langafa sínum. Þórður Flosason átti og þann son, er Erlendur hèt; hefir hann eigi átt skilgetið afkvæmi, því Oddur Leppur erfði hann. Enn hèt son Þórðar Skúli; honum hafði konungur gefið jarðir og eyjar vestra; þenna bróður sinn erfði og Oddur. Annar son síra Flosa hefir verið Vigfús Flosason í Krossholti; er hans fyrst getið í annálum 1384, og

þann Þórð Jörundarson, aðrar Sigurðarson og enn aðrar Sigmundsson; en sè þessi Þórður faðir Odds Lepps, mætti telja börn Þórðar, er menn hafa vitneskju um:

1. Odd Lepp á Ósi í Bolungarvík (sjá Ísafjarðarsýslu).
2. Sigurð Fóstra[1] (skáld Björns Jórsalafara). Sonur þess Sigurðar var
   Filippus í Haga, faðir
   Gísla í Haga, sem átti Ingibjörgu, dóttur Eyjólfs eldra Mókolls (en Sigurður og Oddur meinast eigi sammæðra)
3. Ólöf er víst að var dóttir Þórðar Sigmundssonar; Þórður gipti hana 1394 Ara Guðmundssyni á Reykhólum (sjá Strandasýslu).

Þórður Sigmundsson og Gísli Svartsson dóu í plágunni 1403. Þórður hafði opt farið utan: ein af utanferðum hans var 1384, önnur 1395, þá er hann vegna sakferlis við Björn

---

hefir hann verið hinn mesti stórbokki; hans son var Narfi á Kolbeinsstöðum, faðir Erlendar, er þar bjó síðar, föður Erlendar á Strönd í Selvogi, er átti dóttur Þorvarðar á Möðruvöllum, sonar Lopts ríka Guttormssonar; þannig hefir Erlendarnafnið komið upp í Kolbeinstaðarættinni og Erlendur eldri á Kolbeinsstöðum verið 5. maður frá Erlendi lögmanni sterka Ólafssyni í beinan karllegg að telja.—Í deildinni A hèr á undan, bls. 13 og 14, hefi eg látið í ljósi þá meiningu mína, að Narfi Vigfússon á Kolbeinsstöðum muni hafa átt dóttur herra Ketils Þorlákssonar; en þetta er eigi alveg rètt, því Narfi hefir verið seinna uppi, heldur hefir Vigfús Flosason átt dóttur herra Ketils, og Narfi Vigfússon verið son þeirra og látinn heita eptir Narfa föður föður herra Ketils Þorlákssonar. Síra Flosi gaf og fè til Kolbeinsstaðarkirkju.

1) Það mun vera almenn sögn, að Sigurður Fóstri Þórðarson hafi verð bróðir Odds lögmanns Lepps Þórðarsonar; en með því það mun vera rètt, að Sigurður Fóstri (sjá og Safn til sögu Íslands 1. B., bls. 119 og 120) var son Þórðar Gíslasonar í Haga, geta þeir Oddur Leppur og Sigurður Fóstri eigi hafa verið samfeðra, eins og þeir og yfir höfuð eigi hafa verið bræður, því svo virðist sem Oddur hafi einn tekið arfinn ptir Skúla og Erlend bræður sína.

Jórsalafara varð utan að fara; yfirgangur hans mun hafa orsakað missætti þeirra.

1330 giptist Katrín Filippusdóttir í Haga og voru þar saman komnir flestir stórhöfðingjar á landinu; en 1363 drukknaði nefnd Katrín með Þórði syni sínum; getur Espólín fróði, að tèður Þórður[1] kynni hafa verið faðir Odds Lepps og Sigurðar Fóstra.

Guðmundur[2] Arason eða Ormsson.

*Börn:* 1. Þorbjörg, sem giptist Guðna syni Odds lögmanns

---

1) Hver verið hafi faðir þessa Þórðar, sonar Katrínar, eður hvort nokkur ætt sè frá honum komin, er víst bágt að segja með nokkurri vissu; en það er auðsèð, að það er röng getgáta, að hann hafi verið faðir Sigurðar Fóstra, því Gísli Filippusson í Haga, faðir Þórðar, föður Sigurðar, var bróðir Katrínar; eigi heldur gat Þórður, son Katrínar, verið faðir Odds Lepps, því þá hefði maður Katrínar átt að vera síra Flosi; nú máttu prestar ekki giptast þá á dögum, en það stendur með berum orðum í annálum, að Gísli Filippusson hafi 1330 veitt brúðkaup Katrínar systur sinnar; maður Katrínar hefir því orðið að vera leikmaður. Ekki er betri sú getgáta, er stendur í Safni til sögu Íslands 1. B., bls. 119, að Þórður faðir Guðnýjar, konu Filippusar, sonar Gísla í Haga Filippussonar, hafi verið son Katrínar þessarar, því þá hefðu þau hjónin, Filippus og Guðný, verið að öðrum og þriðja, og því langt um of skyld til að mega eigast.

2) Þess finnst hvergi getið, hvers son Guðmundur faðir Ara á Reykhólum og Rafns lögmanns Guðmundssonar, hafi verið, og eigi heldur, hvað kona hans hefir heitið, eður hvaða manna hún hefir verið.

Eins og getið er hèr að framan (sjá A. bls. 24) áleit Hannes biskup, að Rafn lögmaður Guðmundsson hefði verið bróður eða systurson Rafns lögmanns Bótólfssonar, og það getur varla verið nokkur vafi á því, að hann hefir verið systurson hans; það stendur heima við tímann, sem báðir lifðu á; Rafn Bótólfsson dó 1390, og hefir eigi orðið gamall, en Rafn Guðmundsson varð gamall og dó 1432; Rafns nafnið lifði þá

Lepps, nálægt 1400, hún dó voveiflega 1431, sjá þar um fremur við Ísafjarðarsýslu.

---

varla í öðrum merkilegum ættum, en þeirri, sem komin var frá Rafni Sveinbjarnarsyni á Eyri, en í þeirri ættinni blómgaðist það; þannig var herra Rafn Oddsson dótturson Rafns Sveinbjarnarsonar, og sonarson Rafns Oddssonar Glaumbæjar Rafn og hans dótturson Rafn lögmaður Bótólfsson, og þá horfir beinast við, eptir því fyrsagða, að Rafn lögmaður Guðmundsson hafi verið dóttur dótturson Glaumbæjar Rafns, eður systurson Rafns Bótólfssonar. Þess má enn geta, að það var títt fyrrum, að lögmannaembættin gengu fram í sumum ættum mjög lengi; þannig var Þorsteinn Eyjólfsson lögmaður, og tengdason hans Rafn Bótólfsson, líka lögmaður; Rafn Guðmundsson lögmaður; dótturson hans Rafn Brandsson lögmaður, og sonarson hans Rafn yngri Brandsson lögmaður. Auk þessa virðist það fyllilega lúta að hinu sama, að Guðmundur ríki á Reykhólum, sonarson Guðmundar föður þeirra Rafns lögmanns Guðmundssonar og Ara á Reykhólum, lèt son sinn heita Andrès, því eins og hann lèt hin tvö börn sín heita eptir mönnum, er hann var kominn af, Ara, eptir föður sínum, og Solveigu, eptir Solveigu ömmu sinni, eins eru allar líkur til þess, að hann hafi látið Andrès, þriðja barnið sitt, heita í ætt sína, og þá eptir Andrèsi, föður Bótólfs langafa síns.

Það er nú enn fremur auðsætt, að Guðmundur faðir þeirra Ara, Rafns og Þorbjargar, konu Guðna, sonar Odds lögmanns Lepps, hefir hlotið að vera mikill maktarmaður og mjög auðigur, það sýnir það, hvernig börn hans komust upp. Nú er eigi getið neins annars maktarmanns um þær mundir, svo eg viti, utan Guðmundar Ormssonar, sem hèr að ofan er nefndur og tel eg það því víst að hann hafi verið faðir þessara systkina og átt dóttur Bótólfs hirðstjóra, kemur og Ormsnafnið fljótt fram í ættinni.

Að ímynda sèr að Guðmundur Arason ábóti á Helgafelli, sem dó 1390 hafi verið faðir þeirra Rafns lögmanns og systkina hans, er án efa skakkt, því áður enn hann varð ábóti virðist hann hafa verið munkur, og hefir því enginn arfur fallið eptir hann, en það er til vitnisburður, útgefinn 1424 á

2. Rafn lögmaður Guðmundsson 1409 N. og V. átti Margrèti Bjarnadóttur Ólafssonar hirðstjóra Bjarnasonar, sjá Vaðlaþing.

3. Ormur[1] Guðmundsson.

4. Ari Guðmundsson, sjá um hann seinna.

Hafi þessi Guðmundur verið Arason og af ætt Ingimundar Jónssonar og ættin sè svo á sig komin, sem Espólín fróði tilgetur, getur það gjarnan verið, að hann hafi haft um tíma völd í Barðastrandarsýslu, en hafi hann verið sá Guðmundur Ormsson, sem var með Eiríki Guðmundssyni 1385 að fanga Þórð Jónsson, og sem þröng mikil var gjörð að á alþingi 1386 og týndist undarlega við Færeyjar 1388, þá mun þar á meiri vafi.

### Ari Guðmundsson[2].

*Faðir:* Guðmundur, fyrnefndur, Ara eða Ormsson.

*Móðir:* Hver hún hefir verið, er með öllu óvíst.

*Kona fyrri:* Ólöf dóttir Þórðar Sigmundssonar undir Núpi í Dýrafirði; þeirra

*Son*, sem sögur fara af, var Guðmundur ríki á Reykhólum, sjá Strandasýslu.

*Kona seinni*, eða fylgikona: Þorgerður Ólafsdóttir[3], sjá Strandasýslu; þeirra

---

Möðruvöllum í Eyjafirði af Gunnlaugi Teitssyni og Sigurði Þorbjarnarsyni, um viðurvist þeirra og áheyrn í Króksfirði fyrir vestan Borg þann sama vetur, er Rafn Guðmundsson reið fyrst til Reykhóla eptir pláguna, að þeir bræður Rafn og Ari Guðmundarsynir sættust um arf sinn og peninga.

1) Það er sagt af sumum, að Ormur þessi hafi verið faðir Ólafar, konu Sumarliða Loptssonar, en það er skakkt, og hefir hann líklega ekkert afkvæmi átt, hafi hann annars nokkurn tíma til verið.

2) Um foreldra Ara, sjá það sem hèr að framan er sagt.

3) Sjá deildina A. bls. 24. Þorgerður Ólafsdóttir var seinni kona Ara, en ekki fylgikona hans; er sagt að þau hafi gipzt 1401, og hefir hann þá verið mjög stutta stund saman við Ólöfu fyrri konu sína. Þegar Ari dó, átti Þorgerður inni í bú-

*Dóttir:* Olöf, er átti Sumarliða, launson Lopts ríka Guttormssonar, sjá Hegranesþing.

*Dóttur* aðra átti og Ari (máske laundóttur),er hèt Oddfríður[1]. Ari gaf henni hálft Kirkjuból í Valþjófsdal, til kaups við bónda hennar Halldór Jónsson, en seldi Halldóri hálft með samþykki sonar síns, Guðmundar Arasonar, fyrir 21 hundrað í Álfadal, Vífilsmýrar 18 hundruð, 11 kúgildi og 4 hesta; einnig gaf Ari Oddfríði Þorfinnsstaði 12 hndr. og í Grafargili og Tungu 12 hndr.; fyrir tèðar jarðir seldi Halldór Oddfríði hina hálflendu Kirkjubóls. Með Oddfríði átti Halldór Ingibjörgu[2] og

---

nu 5 hundruð hundraða eður 4 hundruð hundraða í fasteign, 80 kúgildi og 40 hndr. í virðingargózi; þessum mundi Þorgerðar svaraði Guðmundur sonur Ara út, og voru jarðir þær, er hann fèkk henni, Kirkjuból á Hvalsnesi, Fúlavík, Þórisstaðir, Hrafnkelsstaðir fyrir 1 hundrað hundraða, item Rafnseyri í Arnarfirði fyrir 1 hundrað hundraða, item Horn, Kirkjuból og Skógar, þessar 3 jarðir í Mosdal, fyrir 1 hundrað hundraða, Dynjandi, hálf Borg, Skjaldfönn, Álfadalur á Ingjaldssandi, þessar jarðir fyrir 1 hundrað hundraða, og gaf henni þar að auki Barðsvík á Ströndum, en hún gaf Guðmundi rètt á eptir umboð sitt yfir þessu fè, en er hún giptist aptur Birni Jónssyni, vildi Guðmundur eigi svara því, hefir hún, ef til vill, eigi gipzt að hans ráði, eður frænda sinna.

1) Oddfríður hefir verið laundóttir Ara; þau Halldór og Oddfríður giptust 1420, hafði hann áður verið sveinn Þorleifs Árnasonar, en móðir hans hèt Guðrún Sigmundardóttir, er sagt að hún hafi orðið 92 ára gömul.

2) Maður Ingibjargar Halldórsdóttur var Þórður son Sigurðar fóstra; þau giptust 1439 og 1458 gáfu þau Halldóri Hákonarsyni, er hèr verður síðar nefndur, upp alla tiltölu til Kirkjubóls í Valþjófsdal.

Bergljótu[1]; seinna giptist Oddfríður Hákoni[2]. þeirra börn: Halldór, Jón og Guðrún. Halldór fèkk Kirkjuból í arf,

---

1) Maður Bergljótar Halldórsdóttur hèt Þorsteinn Sveinsson Díli. Eitt af börnum þeirra var:

a, síra Grímur Þorsteinsson, er lengi var officíalis á Vestfjörðum; og annað.

b, Jón Þorsteinsson; hans son
síra Halldór Jónsson. —

Halldór Jónsson hefir verið giptur áður enn hann eignaðist Oddfríði, og átt með þeirri konu sinni tvo sonu: Þórð og Þorstein.

2) Hákon, seinni maður Oddfríðar, var Jónsson. þeirra börn sem hèr er sagt:

a, Jón.

b, Guðrún.

c, Halldór; hann hefir verið hinn mesti merkismaður í sinni tíð, og kemur víða fyrir; hann var 1467 í skiptum eptir Björn ríka, og 1480 í skiptadómi, er skipt var eigum Guðmundar ríka Arasonar. Kona Halldórs var Guðfinna, dóttir Jóns Ásgeirssonar, og þeirra dóttir Vigdís, sem hèr segir. Seinni maður Guðfinnu var Þórður Helgason, og þeirra son Sturla sýslumaður Þórðarson.

Enn eru talin börn Hákonar:

d. Indriði Hákonarson, hans kona Guðríður Gísladóttir.

e, Ingibjörg Hákonardóttir, hennar maður Jón Erlingsson; honum gaf Ólöf ríka 1476 í sín þjónustulaun jörðina Múla í Kollafirði og 20 kúgildi, þau seldu 1460 Einari Markússyni 6 hndr. í Arnardal neðra; börn:

α, síra Hákon.

β, Erlingur; honum gaf Jón Björnsson til giptumála 1485 40 hndr.; hans son:

Jón Erlingsson; hans dætur:

1. Inga Jónsdóttir, kona Teits lögmanns Þorleifssonar.
2. Ingibjörg Jónsdóttir, kona Þorleifs Guðmundssonar.

f, Hallgerður Hákonardóttir, hennar maður Halldór Sumar-

þá Vigdís dóttir hans, þá Kristín Guðnadóttir, eptir dóttur dóttur sína Vigdísi. Kristín gaf það syni sínum Páli; Ormur og Guðni erfðu það eptir Pál[1].

Eg held að Ari hafi haft í Barðastrandarsýslu hirðstjóra umboð hèr um 1395 til 1418, því að hann var þá auðugastur og mestur bóndi í Barðastrandarsýslu; þó er það óvíst, því eigi eru skjöl fyrir því. — Ari keypti Reykhóla af erfingjum Þorleifs Svartssonar[2]. — Ritfært er, að árið 1418 hafi Ari[3] drukknað og þá verið með þeim auðugustu mönnum í Barðastrandarsýslu.

### Filippus Sigurðsson.

*Faðir:* Sigurður Fóstri Þórðarson.
*Móðir:*

---

liðason Brandssonar lögmanns Jónssonar; þau gáfu Sumarliða syni sínum Meiragarð í Dýrafirði móts við Birgittu dóttur sína. Maður Birgittu hèt Tómas Jónsson, þeirra börn Jón og Guðmundur. Seinna varð þras út af Meiragarði. Eg efast um, að þessi 3 seinastnefndu Hákonar börn hafi verið börn Hákonar seinna manns Oddfríðar, nema hann hafi átt þau áður en hann giptist Oddfríði, því þau eru ekki nefnd í gjafabrèfi Oddfríðar, er hún fèkk Halldóri Hákonarsyni, syni sínum, Kirkjuból; þar er sagt að hún hafi gjört það með samþykki barna sinna, Jóns Hákonarsoar, Guðrúnar Hákonardóttur, Ingibjargar Halldórsdóttur og Bergljótar Halldórsdóttur, og þeirra bræðra, Þórðar og Þorsteins.

1) Þetta er eptir skrá, er Björn Guðnason lèt gjöra yfir óðul þau, er hann erfði eptir Guðna föður sinn. Þeir bræður, Sveinbjörn og Vigfús, synir Odds Vigfússonar, fengu 1442 Hákoni Jónssyni, föður Halldórs, erfðahluta sinn í Kirkjubóli.

2) Ari hefir fengið Reykhólana, eða nokkurn hluta þeirra, með Ólöfu konu sinni, er komin var af Gísla Svartssyni, sem fyr segir. — Ari virðist hafa verið sýslumaður í Barðastrandarsýslu 1412, (sjá Safn til s. Ísl. II. B bls. 71).

3) Ari hefir orðið að deyja seinna, sjá það sem hèr að framan er sagt um dóttur hans, Oddfríði.

*Kona*[1]:
*Börn*: 1. Hermann.
2. Ólafur[2].
3. Gísli, átti Ingibjörgu Eyjólfsdóttur Mókolls[3], þeirra börn, sjá hèr síðar.
4. Katrín[4].

Filippus bjó í Haga á Barðaströnd og varð maður auðigur og í heldri bænda röð; gáta mín er, að hann kunni að hafa verið hirðstjóraumboðsmaður eða sveinn frá 1318, í Barðastrandarsýslu, því að hann var maður vel metinn[5].

1342 var lýst stórmælum yfir Gísla Filippussyni; 1344 var hann bannsunginn af Jóni biskupi Sigurðssyni, en 1345 sættust þeir Jón biskup og Gísli, Gísli dó 1370, og meina eg að hann hafi haft sýsluvöld um hríð.

### Guðmundur Arason ríki[6].

*Faðir:* Ari á Reykhólum Guðmundsson.
*Móðir:* Ólöf Þórðardóttir Sigmundssonar.

---

1) Kona Filippusar hèt Gróa Ketilsdóttir.

2) Ólafur átti Vigdísi, dóttur Jóns Þorlákssonar og Solveigar, dóttur Björns ríka Þorleifssonar; hann gjörði tilkall til arfs eptir Solveigu fyrir hönd Einars sonar síns.

3) hins eldra.

4) Að Filippus þessi hafi átt Katrínu fyrir dóttur, man eg ekki að eg hafi sèð annarstaðar og held eg að það sè ekki rètt. Katrín Filippusdóttir, sú, er hèr áður hefir verið nefnd var ekki dóttir þessa Filippusar.

5) Það er auðsèð, að hèr er að nokkru leyti blandað saman Filippusi Loptssyni og Filippusi Sigurðarsyni. Filippus Loptsson í Haga hefir verið maktarmaður; hann kom út í Dýrafirði 1300 á Gullskónum og dó 1326; hans son var Gísli sá, er 1330 gipti Katrínu systur sína og sem var í stórmælum 1342, og dó 1370; hann hefir einnig verið mikill stórbóndi. — Filippus Sigurðarson í Haga varð fyrir árásum af þjónum Jóns biskups Gerrekssonar við vísitatíu biskups á Reykhólum.

6) Sjá um Guðmund Arason ríka Strandasýslu.

*Kona:* Helga, dóttir þorleifs Árnasonar í Vatnsfirði og Kristínar Björnsdóttur Jórsalafara.

*Börn:* Solveig, sem átti góða manninn, Bjarna þórarinsson á Brjánslæk, er veginn var af sveinum Einars hirðstjóra Björnssonar 1482; áttu eigi börn, sem getið sè.

*Launson* Guðmundar var Andrés (sjá Strandasýslu). Ekki er ólíklegt að Guðmundur hafi um hríð verið umboðsmaður Einars þorleifssonar nálægt 1436, meðan vel fèll á með þeim.

**Eyjólfur eldri Mókollur**[1], meinast Magnússon.

Dulinn er mèr faðir hans, móðir og kona; á honum hefst *Mókollsætt*, og nefnast hans börn:

1. Magnús biskup í Skálholti 1477.
2. Margrèt átti Pál, þeirra dóttir var Ingibjörg, sem átti Björn þorleifsson á Reykhólum, sjá Dalasýslu.
3. Ingibjörg, sem átti Gísla í Haga Filippusson Sigurðssonar Fóstra þórðarsonar. þeirra börn:
   a. Erlingur, átti Kristínu Ormsdóttur Jónssonar sýslumanns Ásgeirssonar, þeirra börn:
      α, Jón[2].
      β, Ormur[3].
      Af þeim er margt fólk.
   b. Helgi, átti Sigríði Andrèsdóttur, Guðmundssonar, sjá Strandasýslu. Börn:
      α, Vigfús, sem átti Margrèti Ólafsdóttur, og börn.
      β, Oddur.
      γ, Guðrún.
   c. Snæbjörn Gíslason, lögsagnari, sjá hèr síðar.

---

1) Eyjólfur Mókollur hinn eldri var Magnússon, hèt kona hans Helga þórðardóttir, hafa þau gipzt um 1434; síra þorkell Ólafsson, bróðir Árna biskups milda, og síra Jón Magnússon, bróðir Eyjólfs, gáfu honum fè til giptingar.

2) Jón átti Kristínu Ólafsdóttur, systur Hannesar í Kjós, sjá um hann hèr síðar.

3) Ormur átti Valgerði Brandsdóttur, bróðurdóttur Marteins biskups.

d. Þórdís átti Ara í Bæ Andrèsson, sjá hèr síðar.
e. Helga átti Einar[1] Jónsson Þorlákssonar, þeirra börn:
α, Bjarni dó 1555, faðir Þórdísar, konu Jóns prests Egilssonar í Hrepphólum, annálaritara.
f. Dýrfinna[2], sem síðar átti Konráð, en fyr Jón Íslending.
g. Oddur.
h. Eyjólfur yngri Mókollur í Haga átti Helgu dóttur Þorleifs hirðstjóra Björnssonar ríka, þeirra börn:
α, Kristín, hústrú Gísla biskups Jónssonar.
β, Þórdís kona Halldórs Ormssonar í Saurbæ.
γ, Síra Magnús[3] í Selárdal.
δ, Þorleifur.
ε, Gísli[4].
ζ, Ingveldur[5].
η, Herdís[6].
ϑ, Oddur[7]
(flest barnafólk og heimsfólk, en frítt og vel að sèr í mörgu).

---

1) Móðir Einars var Solveig dóttir Björns ríka Þorleifssonar.

2) Sumir láta Dýrfinnu hafa verið eingipta, sem víst er rèttara, og telja mann hennar að eins Jón Islending og þeirra sonu:
α, síra Greip.
β, síra Filippus.
γ, Konráð; hans synir:
1. Björn
2. Jón
} þeir bræður voru kallaðir „*Konráðs synir*„.

3) Kristín Nikulásdóttir var kona síra Magnúsar og áttu þau börn.

4) Gísli fèll með systrum sínum Kristínu og Þórdísi.

5) Ingveldur átti Þorlák Egilsson og bjuggu þau í Hundadal.

6) Herdís er sagt að átt hafi einhvern síra Jörund, og er ætt sú úrelt.

7) Oddur bryti í Skálholti.

i. Síra Jón í Holti[1].
k. Guðrún[2].

Eg hygg, að Eyjólfur eldri Mókollur hafi haldið Barðastrandarsýslu 1450, en eigi hefi eg vissu fyrir því; fleira af Mókollsfólki held eg að hafi haft þar í sýslu sýsluvöld, en þó er það allt óáreiðanleg getgáta mín.

Um þær mundir voru sýslumenn, sem fyr sagt, eigi annað en hirðstjóraumboðsmenn og þeirra lögsagnarar. Einar Þorleifsson tók hirðstjórn 1436, og aptur 1442 (þá er Karl Stagenberg sleppti umboðinu) og mun hafa haldið hirðstjórn bæði sem umboðsmaður og að veitingu til 1450, að Torfi Arason við tók, en 1457 tók Björn Þorleifsson hirðstjórn til 1467, þá er hann fèll, en Þorleifur sonur hans við tók; hèldu þeir sjálfir sýslurnar, en settu ýmsa umboðsmenn sína í þær um tíma, einkum höfðu Skarðs- og Reykhólamenn mest afskipti sjálfir í Dala- og Barðastrandarsýslum, helzt eptir 1442[3], þá er þeir höfðu rekið Guðmund ríka frá Reykhólum, og höfðu þar sjálfir bú.

## B.

## Sýslumenn.

### Örnúlfur Einarsson

nefnist sýslumaður á Barðaströnd, og lèt þar dóm ganga 1463 með 6 mönnum, sem dæmdu Deildará á Skálmarnesi Eyjólfi Magnússyni í Hvestu í Arnarfirði (það mun hafa verið Eyjólfur eldri Mókollur). Þar var fyrstur dómsmanna Filippus, son Sigurðar Fóstra. Þessi Örnúlfur keypti 1467 nokkrar jarðir af Birni ríka, og 1468 keypti hann enn jarðir af Ólöfu ríku, hefir hann því verið auðmaður og líkast til umboðsmaður Skarðsfólks[4].

---

1) Síra Jón var prestur í Holti undir Eyjafjöllum, hann átti börn.

2) Guðrún var á Sólheimum í Mýrdal.

3) Rèttara: 1446.

4) Örnúlfur Einarsson keypti og 1444 í Hèraðsdal af Ara Bessasyni með samþykki Margrètar konu Ara, Tannstaðabakka í Hrútafirði; fyrsti af kaupvottunum var Brandur Jónsson (lögmaður ?) og brèfið skrifað á Hofi á Höfðaströnd.

## Þorleifur Björnsson hirðstjóri.

Sjá um hann við Dalasýslu. -- Hann mun þar eptir hafa haldið Barðastrandarsýslu til 1485 ásamt öðrum lènum, sem hann hafði. — 1483 nefndi hann 12 menn í dóm á Berufirði um gripdeildir Andrèsar Guðmundssonar og fleira. Þorleifur bjó á Reykhólum, og dó 1484 að flestra sögn.—Í þessari sýslu hèlt hann jafnast umboðsmenn, því sjálfur hafði hann optast Borgarfjörð og Þórnessþing, var og opt í utanferðum, hafði og hirðstjórn við og við.

## Ari Andrèsson.

*Faðir:* Andrès launsonur Guðmundar ríka á Reykhólum,—sjá Strandasýslu.

*Móðir:* Þorbjörg dóttir Ólafs yngra Tóna Geirmundarsonar (sumar ættir segja, að Ari hafi verið launsonur Andrèsar).

*Kona:* Þórdís dóttir Gísla Filippussonar, Sigurðssonar Fóstra (bróður Odds lögmanns Lepps) Þórðarsonar.

*Son:* Andrès[1] átti Guðrúnu yngri dóttur Björns sýslumanns Guðnasonar í Ögri; son:
Torfi, laungetinn[2]; hans dóttir
Guðrún átti Jón Konráðsson Þorkelssonar[3], þeirra dóttir
Þorgerður seinni kona Einars[4], sonar Bjarna á Brjánslæk, sonar síra Björns officialis á Melstað; þeirra börn:

---

Börn Örnúlfs Einarssonar voru:

a. Rannveig, hennar maður Ólafur Jónsson.

b. Þorleifur (Þorgautur ?), laungetinn; hans afkomendur:

α. Jón } Þorgautssynir.
β. Ólafur }

1) Andrés hefir verið laungetinn, er og sagt, að Þórdís kona Ara hafi ekkert barn átt.

2) Kona Torfa er talin Margrét Jónsdóttir, er seina hafi átt síra Gísla Jónsson.

3) Faðir Konráðs, var Þorlákur prestur í Eydölum Ivarsson.

4) Einar hefir víst eigi verið nema eingiptur, en hann hafði átt barn áður en hann giptist.

a. Jón, átti fyr Þóru; þeirra börn:
1. Konráð.
2. Einar.
3. Þórarinn[1].
Seinni kona Jóns var Ragnhildur Þorvaldsdóttir Ásmundssonar; þeirra börn:
4. Arnbjörn.
5. Jörundur.
6. Guðrún; allt óþýði, urðu eigi að mönnum.

b. Guðrún Einarsdóttir átti Jakob Lassason; þeirra börn:
1. Diðrik.
2. Jón.
3. Einar.
4. Helga.

Ari bjó í Bæ á Rauðasandi, átti þá jörð og fleiri. Ari held eg að hafi haft hèr sýsluvöld, eptir Þorleif Björnsson, og líkindi eru, að þá er hann sleppti hèr sýsluvöldum, hafi hann um hríð haldið Dalasýslu, því 1506 undirskrifar hann fyrstur skiptabrèfið á Hvoli í Saurbæ; hann samþykkti 1498 ásamt systkinum sínum jarðaskipti við Björn junkera Þorleifsson.

Þegar Ari auðgaðist, gjörðist hann ásælinn og dró undir sig arf Gríms Jónssonar[2], Guðmundssonar, en Björn sýslumaður Guðnason dæmdi hann Grími 1517.

1518 gáfu þau Ari og Þórdís Gísladóttir Ormi syni Guð-

---

1) Aðrir Þórunn.

2) Sonur Gríms var Jón Grímsson í Norðtungu, er veginn var í Syðra-Múla af Jóni Murta syni Eggerts lögmanns Hannessonar. Móðir Grímsog kona Jóns Guðmundssonar var Sesselja, laundóttir Sumarliða Loptssonar ríka. Sumarliði átti Ólöfu Aradóttur, hálfsystur Guðmundar ríka Arasonar; þeirra dóttir Kristín, er átti Jón Dan, launson Björns ríka Þorleifssonar; þau Jón og Kristín voru barnlaus; Grímur var nú, 1517, dæmdur erfingi Kristínar móðursystur sinnar, en Ari Andrèsson hafði setzt í arfinn.

mundar Andrèssonar undir Felli í Kollafirði 6 jarðir á Ströndum og 20 málnytukúgildi.

1519 og 1520 varð misklíð mikil millum Ara og Týla hirðstjóra, sem settist niður með því, að Týli lofaði Ara 1521 öllum sínum eignum, þó öðruvísi útseldist seinna.

1498 samþykkti Ari bætur þær, sem Guðmundur bróðir hans galt í jörðum fyrir víg Einars Hallsonar.

1517 var Ari ásamt öðrum á Leiðarhólmsamfundi.

1521, þá er Ögmundur kom út með biskupsvígslu og gekk af skipsfjöl við Rauðasand, tóku þau Ari og Þórdís honum ágæta vel, og gáfu Bæ í biskupsvald, hvort heldur biskup vildi gjöra hann beneficium eða eign Skálholtskirkju eptir sinn dag. Seinna gaf Ögmundur biskup sveini sínum, Sigurði Ormssyni, Bæ, en lagði þar á móti aðrar jarðir til Skálholtskirkju.—Sigurður fèkk frænda sínum, Erlingi sýslumanni, Bæ til eignar; Ormur og Jón Erlingssynir urðu seinna sveinar Eggerts lögmanns Hannessonar, og seldu honum Bæ.

1523 sætti Ögmundur biskup Hannes hirðstjóra Eggertsson og Ara bónda Andrèsson, sem hafði gjört rán á fè Hannesar; skyldi Ari borga Hannesi 2 hundruð hundraða, en biskup gekk í borgun fyrir Ara og tók þar fyrir Bæ á Rauðasandi og fleira seinna[1]. Teitur Þorleifsson og Erlendur Þorvarðarson lögmenn voru þar við.

1540 hafa þau Ari og Þórdís verið dáin, því það ár hefir Jón Strandasýslumaður (sonur Jóns skrifara og Solveigar Björnsdóttur Þorleifssonar) látið dæma Ormi Guðmundssyni þær jarðir og lausafè, sem Ari og Þórdís höfðu gefið honum eptir sig og áður er umgetið. Litlu fyrri sýnist sem Ögmundur biskup hafi undir sig tekið Bæ á Rauðasandi og strax burt gefið.

## Björn Þorleifsson.

Sjá um ætt hans, afsprengi og málaferli við Dalasýslu. — Þótt eigi hafi eg dómaraatgjörðir sèð eptir Björn Þorleifsson

---

1) Það virðist sem Ögmundur biskup eigi hafi fengið Bæ hjá Ara, fyrri en hann gekkst fyrir því, að sætta þá Ara og Hannes.

á Reykhólum, held eg víst, að hann hafi haldið Barðastrandarsýslu lengi, eptir 1500; hann var vinur Skálholtsbiskupa, sem styrktu hann; hafði og margra höfuðsmanna hylli; held eg hann hafi tekið Barðastrandarsýslu næst eptir Ara, en haldið ýmsa umboðsmenn, og haft sýsluna til síns dauða, um 1546, eða fyr. — Jón sonur Jóns skrifara og Solveigar Björnsdóttur ríka var dæmdur útlægur 1512, og mun hann þá hafa farið utan og verið kallaður þar Jón Íslendingur; eptir það mun hann hafa út komið, og orðið umboðsmaður Björns Þorleifssonar, en seinna fèkk hann Strandasýslu; sjá þar um hann.

### Jón lögmaður Sigmundsson[1].

Sjá um hann og hans málaferli við Húnavatnsþing. Eptir að hann missti Húnaþing, flúði hann í skjól Björns sýslumanns Guðnasonar vestur. Guðbrandur biskup tjáir hann að hafa haldið Barðastrandarsýslu, en eg efa það, nema ef vera kann, að hann hafi verið umboðsmaður um hríð eða í stöku málum Björns Þorleifssonar um 1512—1513, áður enn mesta óvild kom þeirra á milli. Enga hans dóma finn eg hèr í sýslu, verður hver að hafa sína meiningu þar um, til þess hið sanna kemst upp.

### Snæbjörn Gíslason.

*Faðir:* Gísli Filippusson, Sigurðarsonar Fóstra, Þórðarsonar.
*Móðir:* Ingibjörg, dóttir Eyjólfs eldra Mókolls.
*Sonur:* Snæbjarnar var Gísli, hans börn:

1. Erlendur[2] á Felli í Ölvesi, átti Sigríði, þeirra börn:
   a. Guðrún, aðrir Guðríður, átti Björn Pálsson á Hjalla í Ölvesi; þeirra barn:
      Páll á Hlíðarenda í Ölvesi, átti Kristínu Ásbjörnsdóttur og 14 börn.
   b. Þorsteinn, átti Halldóru Pálsdóttur, systur Björns.
   c. Þorsteinn annar átti Bríet, systur Halldóru.

---

1) Sjá Safn til sögu Ísl. II., B.
2) Sumir nefna hann, sem víst mun réttara, Erling.

2. Snæbjörn Gíslason; hans son síra Erlendur á Stað í Súgandafirði, átti Valgerði Torfadóttur[1], þeirra börn:
   a. Jón.
   b. Ragnheiður.
   c. Hallgríma.
   d. Snæbjörn.
   e. Katrín.
3. Valgerður Gísladóttir átti Kára, þeirra son Snæbjörn átti börn.
4. Þorgrímur.
5. Þorsteinn.

Snæbjörn nefndist sýslumaður millum Gilsfjarðar og Langaness í dómi þeim, er hann 1520 lèt ganga um ákæru Þjóðverja til Eyjólfs bónda Gíslasonar í Haga (sem sè Eyjólfs yngra Mókolls, bróður hans). Hygg eg Snæbjörn hafi þá verið lögsagnari Björn Þorleifssonar á Reykhólum, heldur enn haft veitingu.—Af því Eyjólfur yngri Mókollur nefnist þar *bóndi*, held eg hann og svo verið hafa umboðsmann Björns, en hvoriga hafa haft sýsluveitingu; fyrir þessu hefi eg þó eigi fullvissu,

1501 er Snæbjörn fyrstur talinn votta við kaupmála Björns Þorleifssonar og Ingibjargar á Reykhólum.

## Daði Guðmundsson.

Sjá um hann við Snæfellsnessýslu.

Þar biskup Finnur í Hist. eccles. Tom. III., bls. 216, og Magnús sýslumaður Ketilsson í uppkasti sínu til sýslumannaregisturs setur hann hèr sem sýslumann, nefni eg hann hèr líka, þó eg haldi að í þessari sýslu hafi hann aldrei verið sýslumaður, utan ef vera kynni eptir 1530, þá er hann hafði prófastsdæmi á Vestfjörðum, að hann hafi gjört sýslumanns verk fyrir Björn Þorleifsson í elli hans við eitthvert tækifæri, því Hagamenn voru þá optast við sýsluverk og í uppgangi.

---

1) Torfi þessi var á Hrauni í Dýrafirði, og var faðir hans Vigfús Brunmann; Vigfús kallast í dómi Ögmundar biskups Magnússon; hann átti Hjarðardal, þá jörð hafði faðir hans átt.

Hver hefir sína meiningu og það getur verið, að 1536, þegar Björn Þorleifsson dó, og Ögmundur biskup tók sèr hirðstjóravald, að hann hafi sett Daða þar fyrir umboðsmann, en það hefir verið lítinn tíma, hafi það annars verið.

### Erlingur Gíslason.

*Faðir:* Gísli í Haga Filippusson, Sigurðarsonar Fóstra.
*Móðir:* Ingibjörg, dóttir Eyjólfs eldra Mókolls.
*Kona:* Kristín Ormsdóttir Jónssonar (bróður Guðna sýslumanns).
*Börn:* A. Jón átti Kristínu Ólafsdóttur Narfasonar Þorvaldssonar (móðir Kristínar var Solveig, dóttir Bjarna á Brjánslæk og Guðrúnar eldri Björnsdóttur sýslumanns í Ögri. Þessa Solveigu nam síra Filippus frá Látrum og átti barn með henni, en hún giptist seinna frá Skálholti Ólafi frá Hvammi í Kjós). Börn Jóns og Kristínar:

1. Síra Ólafur, skáld, á Söndum í Dýrafirði, átti Guðrúnu Pálsdóttur frá Sæbóli Sveinssonar[1]; þeirra börn:
   a. Guðmundur skáld dó barnlaus.
   b. Páll, faðir Jóns í Haukadal, átti konu og börn.
   c. Halldóra
   d. Ingveldur[2]
   e. Valgerður
   f. Jón
   g. Dorothea
   (c.–g.) Þau giptust flest og áttu afkomendur.
2. Jón, kallaður *sauður*, í Miðskógi í Miðdölum; hans börn:

---

1) Sveinn var bróðir Sesselju, miðkonu Eggerts lögmanns Hannessonar.

2) Í stað Ingveldar hafa sumir Kristínu.
Enn var dóttir síra Ólafs
   h. Vigdís; hún var 3. kona Þorsteins sýslumanns Magnússonar; þau voru barnlaus.

a. Guðrún[1].
b. Jón.
c. Margrèt.

B. Ormur átti Valgerði, dóttir Moldarbrands; börn:
1. Þorsteinn á Stökkum átti Guðnýju Magnúsdóttur[2]; börn:
a. Jón.
b. Ingibjörg.
c. Ragnheiður[3].
2. Einar í Stóruhvestu átti Þuríði Árnadóttur frá Sauðafelli Björnssonar offic. á Melstað, Jónssonar biskups Arasonar; börn:
a. Ormur á Klúku í Selárdal.
b. Björn.
3. Jón átti Kristínu Ólafsdóttur.
4. Þóra, átti Þórð Jónsson; barnlaus.

Erlingur bjó á Brjámslæk, en fjekk Bæ á Rauðasandi hjá Sigurði Ormssyni mági sínum. Jón og Ormur, synir Erlings, erfðu Bæ, urðu sveinar Eggerts lögmanns, og seldu honum Bæ, sem fyr er sagt. Eg held að Erlingur hafi fengið veitingu fyrir Barðastrandarsýslu nálægt 1530, en sleppt henni eða dáið 1544. Ekki hefi eg fundið dóma eptir Erling, en síra Björn Halldórsson, í æfi Jóns Íslendings, segir, að Erlingur hafi haldið Barðastrandarsýslu næstur fyrir Eggert Hannesson.

1532 út nefndi Erlingur sjö manna dóm um helmingafjelag millum Ara og Þórdísar; nefndist hann þá konungsumboðsmaður millum Gilsfjarðar og Langaness.

## Björn Hannesson.

*Faðir:* Hannes hirðstjóri Eggertsson.
*Móðir:* Guðrún, dóttir Björns sýslumanns í Ögri Guðnasonar.

---

1) Maður Guðrúnar var Ormur Guðmundsson, Ormssonar, Guðmundssonar, Andrèssonar, sonar Guðmundar hins ríka Arasonar.

2) Magnús faðir Guðýjar var síra Magnús son Eyjólfs yngra Mókolls, sjá hèr að framan.

3) Aðrir nefna hana Sigríði.

*Kona:* Þórunn, dóttir Daða sýslumanns í Snóksdal, Guðmundssonar, henni giptist Björn að tilhlutun Eggerts bróður síns, sem þá fèkk völd, árið 1545.

*Börn* þeirra, sem til aldurs komu, voru:

A. Hannes í Snóksdal, fæddur 1547, giptist 1567 Guðrúnu Ólafsdóttur. Hannes dó 1617; sjá fremur um hann og börn hans við Snæfellsnessýslu.

B. Hallbjörg Björnsdóttir átti Þorleif undir Múla á Skálmarnesi Jónsson; um þeirra börn sjá Snæfellssýslu.

C. Anna Björnsdóttir dó 1642, 90 ára, átti fyr Árna son Björns officialis á Melstað og börn, sjá Snæfellssýslu; seinni maður Önnu var síra Jón Vigfússon; þeirra börn:

1. Vigfús, átti Ragnhildi Gottskálksdóttur frá Hundadal; sjá Snæfellssýslu.
2. Árni, dó barnlaus.

Laundóttir Björn Hannessonar var

D. Þórunn, átti síra Svein Símonarson, sem 1576 vígðist til kirkjuprests í Skálholti, hvar hann var prestur í 4 ár (hann vígðist 18 vetra), gjörðist svo prestur í Holti í Önundarfirði, hvar hann var prestur og prófastur í 63 ár; dó 1644, 85 ára. Hann missti konu sína, Þórunni, eptir 1594. Börn hans og Þórunnar voru:

1. Jón prófastur í Holti, dó 1630, átti Þorbjörgu dóttur Guðmundar í Gröf á Svalbarðsströnd, Hallgrímssonar á Egilsstöðum Sveinbjarnarsonar prests; þeirra börn[1]:
   a. Ástríður, fyrri kona Magnúsar bónda í Vigur.
   b. Þórunn, átti síra Björn Snæbjörnsson.

---

1) a. Síra Jón Jónsson í Holti eptir föður sinn átti Halldóru Jónsdóttur, Magnússonar og Ástríðar Gísladóttur; dóttir: Ástríður, fyrri kona Magnúsar Jónssonar í Vigri.
b. Þórunn, átti síra Björn Snæbjörnsson á Staðastað.

2. Björn Sveinsson járnsmiður, átti Guðnýju Pálsdóttur[1]; þeirra börn:
   a. Þórunn.
   b. Þórður.
   c. Páll.
   d. Einar.
   e. Þóra.
   f. Jón.
3. Þorleifur í Hjarðardal, tvígiptur, barnlaus.
4. Þórunn, fyrri kona síra Jóns Böðvarssonar á Húsafelli; þeirra börn:
   a. Einar.
   b. Pantaleon.
   c. Sigríður.
   d. Ástríður. Allt fátækt fólk.
5. Páll bartskeri, dó utanlands.

Þá er Eggert hafði fengið lèni syðra og Þorskafjarðarþing, setti hann Björn bróður sinn fyrir umboðsmann sinn í Barðastrandarsýslu, og tók hann sèr bústað í Bæ á Rauðasandi. 1550 lènaði Marteinn biskup Birni Hvamm í Hvammssveit, af stóð þeim stað þá Daði sýslumaður, þá hann sama ár fèkk af biskupi sèr lèntan Staðarhól. Um þær mundir hafði Eggert svo mikil völd á hendi, að hann gat eigi þar við snúizt einn, og varð því að halda umboðsmenn og sveina, meðal hverra voru synir Erlings sýslumanns. Eggert hafði um þessar mundir hirðstjóraumboð, en þá er hann sleppti því, og flutti að Bæ vestur til lèna sinna, ætlaði Björn aptur að flytja sig að Nesi við Seltjörn sjóveg 1555, aðrir 1554, en týndist með konu sinni, nokkrum mönnum og miklum fjárhlut í þeirri ferð. Hafði hann þá haft umboð Eggerts bróður síns í 10 ár og Hvamm í Hvammssveit í 5 ár, ásamt nokkrum konungsjörðum þar vestra.

## Eggert Hannesson.

Sjá um hann við Gullbringusýslu.

---

1) Páll var Ormsson, Sigurðssonar, Narfasonar, Þorvaldssonar á Geirrauðareyri.

Um völd hans er þetta hið helzta. Hann tjáist að hafa tekið Gullbringusýslu, Viðey og Þorskafjarðarþing 1545; þó er eigi fullvíst um Þorskafjarðarþing fyr enn 1548 (Barðastrandar og Ísafjarðarsýslu).—1551—1554 var hann fullmektugur hirðstjórans P. Hvítfelds. — 1554 flutti hann að Bæ á Rauðasandi. — 1558 hèlt hann Helgafellsklaustur, og (eg meina) Snæfellsnesssýslu 1559, en Dalasýslu 1560.— 1553 gjörðist hann lögmaður sunnan og austan eptir Erlend á Strönd. 1556 hafði hann lögdæmaskipti við Pál lögmann Vigfússon — 1554 byrjaði þras Árna sýslumanns Gíslasonar og Eggerts. 1556 missti Eggert Ísafjarðarsýslu og konungsjarðir þar, þá er Árni sýslumaður Gíslason þrengdi sèr þar inn. — 1558 veitti Knútur Steinsson Eggerti Helgafellsklaustur, þá er Daði sleppti því, en strax Snæfells og Ísafjarðarsýslur; 1560 sleppti hann Snæfellssýslu, en þá meinast hann að hafa tekið Dalasýslu. Það ár sættust þeir Árni Gíslason og Eggert, og þá arfleiddi Eggert börn sín og Sesselju við Núpskirkju. — 1568 var Ormi Sturlusyni veitt lögmannsdæmið undan Eggerti, og Barðastrandarsýsla í lögmannslaun; það ár hèlt þó Eggert hvorutveggju, en varð að sleppa lögmannsdæminu 1569. Það ár staðfesti Walkendorph veitingu Eggerts fyrir Ísafjarðarsýslu; er líkast, að hann hafi þá og með sáttmála við Orm haldið Barðastrandarsýslu, og eigi sleppt henni alshendis fyrri en hann fór utan 1579. Hvort Eggert hefir sleppt Ísafjarðarsýslu við dótturmann sinn, Magnús, 1570, eða fengið honum umboð sitt yfir henni, vitum vèr ekki. Hitt er víst, að eptir það að Eggert fór alfarinn utan, hèlt Magnús norðurhluta Ísafjarðarsýslu ásamt Barðastrandarsýslu að veitingu. — Það er víst, að frá 1544 til 1580 hafði Eggert ýms völd hèr á landi; 1579 var Eggert rændur og fór utan samsumars; kom út árið eptir, en fór þó samsumars alfarinn utan til Hamborgar, hvar hann enti æfi sína; sumir rita að Eggert hafi dáið 1584.

Þar eð eg hefi í höndum rit þau, sem þeim Eggerti lögmanni og Árna sýslumanni Gíslasyni millum fóru, samt supplicatíu Eggerts til konungs og konungsbrèfið, læt eg það hèr með fylgja til fróðleiks fyrir þá, er lesa vilja, og að sjá til þeirrar aldar orðfæri, einkum í lagadeilum, sem þá voru mjög tíðar.

*Rit Eggerts Hannessonar um fè og peninga Þorleifs Björnsonar og Björns Þorleifssonar.*

»Friður og blessun Guðs föðurs almáttugs og hans elskulega sonar náð, sem er vor ljúfi lausnari Jesús Kristur, sem er alls mannkynsins, er á hann trúir, mýking og miskun lifandi manna og framfarinna og hans verulegasta upprunninnar ættar von, hver að er einn guð alsvaldandi í algjörðri þrenningu, hver að virðist nú að vera í för og fylgi, framdrætti og föruneyti með oss öllum og sèrhverjum, sem nú hèr samankomnir erum á Öxarárþingi, hirðstjóra og hirð alri, biskupum, prestum og prelátum, þar með lögmönnum, sýslumönnum og lögrèttunni, sem nú eru hèr samankomnir utan lögrèttu og innan. Herrar og höfðingjar, ríkir og fátækir, ungir og gamlir, hver í sinni tegund, tilsettu valdi og nafnbót, sem styrkja vilja guðs rjett og vors náðuga herra konungsins og krúnunnar í Noregi samheldi, vor sjálfra frelsi og friðkaup, sem oss var að öndverðu af Guði játað og hinum heilaga Ólafi kóngi, og hans öllum rèttum eptirkomendum, af hverjum hver einn eptir annan hafa nú samþykkt, allt til þeirrar stundar, sem nú er yfir oss komin, að vèr skyldum auðveldlega, án allrar nauðungar og afarkosta hafa og halda lög og landsins rètt, sem svarið var, sambundið og samþykkt á meðal krúnunnar og kóngsins þegna og alls almúgans.

Yður öllum, sem þessa mína opinberu framburðar brèfaskrá sjá eður heyra, vil eg Eggert Hannesson auglýsa auðmjúklega, og opinberlega greinilega, hvað gamlir og skilvísir dándismenn hafa ávísað og tilsagt hèr, um kóngsbrèf, dómaatkvæði og önnur skýr skilríki undir góðra manna innsiglum uppáfundið, hver uppruni og tilgangur verið hefir á meðal Bjarnar Guðnasonar og Bjarnar Þorleifssonar, (sem guð almáttugur þeirra sál náði), um þá langa þrætu, sem þeirra var á milli og enn nú er milli þeirra erfingja og afsprengis, sem er um arf eptir Þorleif Björnsson, Einar Björnsson og Solveigu Björnsdóttur.

I fyrstu var Þorleifur Björnsson að ráði við þá konu, sem hèt Ingveldur og var Helgadóttir, með hverri hann átti fast fimm börn, hver að svo heita, Kristín, Björn, Þrúða, Helga, Guðný; gátu þau Þorleifur og Ingveldur þessi börn öll í frillu-

lífi og frændsemisspjöllum[1], sem brèf og dómar þar um útvísa Síðan eptir þessi öll fyrgreind börn saman átt, sem fyr segir, þá fèkk síðan Þorleifur Björnsson brèf, af páfalegri náð útgefið, svohljóðandi millum annara orða, að sögn þeirra, er þessi brèf hafa sèð útlögð á norrænu, að Þorleifur Björnsson og Ingveldur Helgadóttir skyldu taka lausn heilagrar kirkju fyrir þau frillulífs og frændsemisspjöll, og eptir gjörða dispenseran mega samanvígjast í hjónaband, að fenginni lausn af sínum brotum; skyldu þeirra börn, sem þau þaðan í frá saman ættu, álítast skilgetin og eptir lögum rètt til arfa borin; en þau skyldu engin skilgetin börn eptir, eptir það þeirra leyfi var útgefið, önnur en þau saman áttu áður en þetta leyfi var útgefið.

Hèr með upp á sama leyfisbrèf fengið kóngs Kristjáns brèf hins fyrsta, þar með hans náðar sonar, kóngs Hans samþykktarbrèf, og erkibiskupsins brèf af Niðarósi og önnur brèf fleiri; hljóða öll þessi fyrgreindra herra og konunga brèf eptirhinu rómverska brèfinu; ekki annað frekara, ef þau eru rèttilega undirstaðin.

Nú síðan eptir öll þessi fyrgreind brèf útgefin og þar eptir að nokkurum árum liðnum kallaði guð til sinnar náðar áðurgreindan Þorleif Björnsson; tók þá Einar Björnsson bróður hans arf eptir hann og var þá haldinn löglegur erfingi bróður síns Þorleifs, þar fyrir, að öll börn Þorleifs og Ingveldar voru getin í frillulífi og frændsemisspjöllum, sem fyr segir. Einar hèlt, átti og sat í þeim góssum, sem hans bróðir Þorleifur Björnsson átt hafði til dauðadags, án allrar klögunar og á, kæru Björns Þorleifssonar og hans systra. Síðan kallaði guð

1) Þau Þorleifur og Ingveldur voru fjórmenningar og bæði komin af Eiríki Magnússyni ríka á Svalbarði; móðir Þorleifs var Ólöf ríka dóttir Lopts ríka, hans móðir Sofía, dóttir Eiríks á Svalbarði. Móðir Ingveldar var þar á móti Akra-Kristíni hennar móðir Sigríður Björnsdóttir, hennar móðir Málmfríður systir Sofíu og dóttir Eiríks á Svalbarði. Annars var sagt að áður en Þorleifur tók saman við Ingveldi, hafi hann átt barn með eða haldið saman við aðra stúlku, er hafi verið þrímenningur við Ingveldi, en það virðist, sem Eggert ekki hafi byggt neitt á því.

til sinnar náðar sagðan Einar Björnsson; en eptir hann fráfallinn, þá settist Solveig Björnsdóttir, systir fyrgreindra bræðra, í arf og alla þá peninga, sem Einar Björnsson hafði átt og honum höfðu til erfða fallið eptir föður sinn og móður og bróður sinn Þorleif, og hèlt fyrgreind Solveig Björnsdóttir opt og áður skrifaðan Björn Þorleifsson ekki skilgetinn nè hans systur þar fyrir, að þau voru öll getin í frillulífi og frændsemisspjöllum, sem fyr greinir. Sat nefnd Solveig í, hèlt og hafði öll þessi góss til deyjanda dags, og var að ráði við Pál Jónsson og átti við honum tvo sonu, einn hèt Jón, annar Þorleifur. Voru og fjórmenningamein á með fyrgreindum mönnum, Páli og Solveigu, höfðu og fyrir sèr rómverskt brèf, að þau skyldu mega sinn ektaskap binda, að áður tiltekinni dispenseran, en Magnús biskup ríkti þá í Skálholti, og vildi aldrei dispensera með þeim Páli og Solveigu þarfyrir; hann sagði það vera í móti veraldlegu og andlegu lögmáli hèr á landi, að maður skyldi eiga sína frændkonu eða sifkonu nær meir, en lög lofuðu í þær mundir, lögbók og kristinnrèttur; en hafði þó áður dispenserað með Þorleifi og Ingveldi og hèlt skilgetinn Björn Þorleifsson fyrir það, að hann átti systurdóttur hans[1], en var þó getinn í frillulífi og frændsemisspjöllum á móti lögmáli og áður enn leyfisbrèfið var út gefið. Þykir mörgum skilvísum mönnum líklegt, að muni það rómverska brèf, sem Þorleifur og Ingveldur höfðu fyrir sèr, eiga að halda sig svo með sínum greinum, sem það biskup Magnús vildi, að það leyfisbrèf skyldi sig halda, er Páll og Solveig Björnsdóttir höfðu fyrir sèr. Síðan kallaði guð til sinnar náðar áðurgreinda Solveigu Björnsdóttur, og fáum árum seinna Pál Jónsson, hver eð með níðingskap var í hel sleginn á Öndverðareyri í Eyrarsveit, var greindur Björn Þorleifsson þar atvistarmaður, og var sem hinn fyrsti og fremsti í þessari atför, og sem hinn seinasti í fráför, næst Eiríki Halldórssyni, er á Páli vann, og er gott að sjá, að áðurgreindur Björn Þorleifsson hafi þar kvittun fyrir fengið af konungdóminum til, því þeir voru dæmdir útlægir af landinu, sem í fyrsagðri för voru með greindum Eiríki Halldórssyni. Nú

---

1) Margrèt hèt systir Magnúsar biskups, hennar dóttir Ingibjörg, kona Björns Þorleifssonar.

eptir þeirra fráfall Páls og Solveigar þá hófst fyrst þræta og ágreiningur um þessi öll áðurgreind góss millum Bjarnar Guðnasonar og Bjarnar Þorleifssonar þar fyrir, að festing sú, sem sagt var að Páll Jónsson hefði gert við áðurgreinda Solveigu Björnsdóttur var dæmd og gerð ólögleg í prestastefnu af biskupi Stefáni og 6 prestum þar fyrir, að aldrei hefði með þeim dispenserað verið um þau fjórmenningsmein sem á voru með þeim. Settist þá Björn Guðnason í alla áðurgreinda peninga, og lagði fyrir lög og dóm, þar fyrir, að hann var systurson skilgetinn af samfeðrasystur tilkominn, svo að hvorki var getinn í hórdómi, frændsemisspjöllum eða sifjaspjöllum, nær meir en lög hèr á landi andleg eða veraldleg lofuðu. En af öðrum parti klagaði til þessara góssa Björn Þorleifsson og kallar sig bróðurson skilgetinn, en var þó getinn í frillulífi og frændsemisspjöllum, þvert á móti lögum og landsins rètti, og áður en leyfið var út gefið.

Fór þá svo, að þessir áðurnefndu menn, Björn Guðnason og Björn Þorleifsson, stefndu þá hvor öðrum til alþingis næsta sumarið eptir, fyrir Finnboga Jónsson lögmann N. og V. á Íslandi, var þá öll þeirra ágreining dæmd fram á konungsnáðir. Sigldi þá Björn Guðnason með þennan dóm fram fyrir konung Hans, og fèkk hans náðarbrèf upp á sama dóm, sem það sjálft útvísar og inniheldur; liðu þá enn nokkur ár að ýmsir hèldu þessu góssi; brutu þá og rufu á þessum Birni Guðnasyni þetta konungsins brèf og fyrskrifaðan tylftardóm. Bauð greindur Björn Guðnason sig og sitt mál þá enn upp á ný undir lögrèttuna, sem brèf undir góðra manna innsiglum tilvísa, og var honum þess þá synjað. Síðan sigldi Björn Guðnason aptur með fyrirskrifaðan dóm fram fyrir hávelbornasta herra, sem var Kristján annar með því nafni, og gaf hans náð honum þá út þrjú brèf, með þeim greinum, sem þau útvísa og innihalda, hver brèf hèr í landið hafa verið dæmd myndug, og að haldast skuli til óbrigðanlegrar staðfestu, og hver þau bryti, skyldi vera sekur XIII mörkum og VIII örtugum við konung með þeim fleirum greinum, sem á þeim dómum standa. Hjer með skrifaði konungsins náð Jóni Sigmundssyni lögmanni N. og V. á Íslandi, að hann skyldi segja lög millum Björns Guðnasonar og Björns Þorleifssonar um þeirra ágreining, og svo gjörði hann að hann stefndi þeim báðum fyrir sig í Hvammi í Hvamssveit

og lèt þar lög og dóm ganga þeirra í millum með þeirra beztu manna ráði og yfirsýn, er þá voru hjá honum, og voru þá öll þessi góss, sem átt hafði Þorleifur Björnsson, Einar Björnsson og Solveig Björnsdóttir, dæmd Birni Guðnasyni og hans erfingjum til eignar, með hvern dóm og úrskurð greindur Jón Sigmundsson sigldi þar eptir nokkrum árum seinna sjálfur fram á konungsins náðir, hvern hans náð styrkti þá og staðfesti, með sínu náðar innsiglaða úrskurðarbrèfi, sem sjást má etc., og þar eptir kallaði guð til sinnar náðar þráttnefndan Björn Guðnason. Settist hans kvinna Ragnhildur Bjarnadóttir, sinna barna vegna, á alla þá peninga, er Björn Guðnason hafði átt og með höndum haft; en ári seinna eptir hann fráfallinn stefndi Björn Þorleifsson henni til alþingis fyrir Vigfús Erlendsson, er þá var lögmaður yfir allt Ísland, fyrir þá sök: að Björn Þorleifsson sagði, að hún hefði haldið ranglega ávexti fyrir sèr af sínum peningum. Komu þá enn hvorttveggja brèf og skilríki undir dóm þá þar; voru þá enn hvorutveggi brèfin framdæmd á konungs náðir, og þeirra svarsmenn hvorutveggju og skyldu vera komnir fyrir jól, en greind Ragnhildur skyldi með frí og frelsi sitja og halda sögðum peningum, þar til svar kæmi aptur frá konunginum inn í landið, sem þessi dómur útvísar og inniheldur. Sendi Ragnhildur þá fram sín brèf sama sumar með Þorleifi Örnólfssyni á Haufdagseyri í Tálknafirði. En strax á sama hausti, meðan brèfin voru fyrir utan, fóru norður til Aðalvíkur Björn Þorleifsson og með honum síra Jón Eiríksson og þeirra meðfylgjarar, gripu þar og tóku að sèr allar þær jarðir og öll þau kúgildi, er þar með voru, undan lagahaldi Ragnhildar, rutu svo á henni hennar fyrirskrifaðan lagadóm, og þar standa þau kúgildi enn nú í dag eða þeirra virði. En annað sumarið eptir kom þá svar aptur frá konunginum inn í landið með hans náðarbrèfi og innsigli, svohljóðandi: að hans náð skipaði og skikkaði börnum Björns heitins Guðnasonar öll fyrskrifuð góss til æfinlegrar eignar. Synti þá ekki Björn Þorleifsson um það, og kom biskupi Ögmundi og síra Jóni Eiríkssyni í fylgi með sèr; seldi þeim þá margar jarðir af þessum góssum og gjörði gott verð á; en þeir voru fèþyrstir, og fúsir til að kaupa þvert á móti konungsins brèfi og fyrirsögðum dómi; brutu svo og rufu með valdi og ofbeldi þetta og önnur fleiri konungsbrèf og fyrirskrifaða dóma sem Ragn-

hildur og hennar börn höfðu fyrir sèr, og urðu þar með að sitja og svobúið hafa. Ofan á allt þetta varð greind Ragnhildur fyrir hræðslusakir að láta úti Hvamm í Hvammssveit og Ásgarð með öðrum fleirum jörðum sem þar með voru, við biskup Ögmund í sakfelli Björns heitins Guðnasonar, að hann lèt flengja einn mann, þann er prestnafn var gefið, ellegar sagðist biskup Ögmundur skyldi bregða þeirri sátt, sem biskup Steffán hafði gjört við greindan Björn Guðnason, um sömu flenging, ef eigi væri Hvammur laus látinn, og heitaðist við að bannfæra hans líkama þar hann lá í jörðunni og láta grafa hann þar upp. Leið þá svo þar til Torfi heitinn Björnsson var orðinn XX vetra gamall; stefndi hann þá Birni Þorleifssyni fram fyrir hábornasta herra og konung Friðrik, og kom Björn Þorleifsson þá ekki sem optar, og ekki neitt svar af hans hendi. Gaf konungur Friðrik greindum Torfa tvö brèf sem hljóða upp á sama góss, með fleiri orðum og articulum sem þau innihalda. Kallaði guð þá sagðan Torfa til sinnar náðar á hingaðsiglingunni; en þessi tvö brèf konungs komu til landsins, og voru samsumars bæði upplesin í lögrèttu, og var þeim þá engin magt gefin fyrir sakir ofríkis biskups Ögmundar; en Björn Þorleifsson og síra Jón Eiríksson hèldu sama fram um sínar aðtektir og kaupskap, þvert á móti konungsbrèfum þessum og fleirum öðrum. Hafa nú með þessum hætti og öðrum þvílíkum gengið undan erfingjum Björns Guðnasonar þau óðul og þær eignir, sem átt hefir Þorleifur Björnsson, Einar Björnsson og Solveig Björnsdóttir, og greindur Björn Guðnason var erfingi að eptir Noregs og íslenzkum lögum og erfðatali, var hvorki hann nè hans móðir Þóra Björnsdóttir getin í hórdómi, frændsemisspjöllum nè sifjaspjöllum og eigi heldur í útlegð nè óbótamálum. Vanst engum hèr á móti að tala, svo lengi sem biskup Ögmundur ríkti, þar fyrir að hann styrkti mál Bjarnar Þorleifssonar, því ekki lá á utan forboð, útsetning af heilagri kirkju, skriptamál, þjónustutekja, gröftur heilags legstaðar, synjun allrar slíkrar þjónustu, hjermeð bannsáfelli og bönnun samneytis við kristið fólk. Kúgaðir með þessu áfelli frá góðum gripum og gangandi fè, reknir svo í armóð, eymd og útlegð móti guðs lögum og landsins rètti, þeim sem vorir forfeður hafa sig áður og sitt afsprengi undir svarið og hverr Noregs konungur eptir annan hefir lofað oss að ná og

halda í sínum brèfum. Og nú sakir þess, að mörgum dugandis mönnum er vel vitanlegt fyrir hverri sök og ágangi eg hefi orðið, um nokkur ár í lögrèttu af Árna Gíslasyni og sèrdeilis í fyrrasumar, svo að eg hefi varla kunnað að segja lög yfir þeirra dándismannadómum, sem sig hafa fyrir mèr klagað, þá býð eg mig nú hèr í lögrèttu undir þann lögrèttumanna dóm, sem sá hèr útnefnir, er með rèttu á lög yfir mér að segja, hvort heldur það er míns náðuga herra fógeti, eða lögmann hèr í landið, um öll þau mál, er greindur Árni Gíslason má með rètt til mín tala, og hann er aðili eða löglegur sóknari þar til, og þó í soddan máta, að Árni svari mèr lögum, ef það er nokkuð, sem eg má til hans tala, eður til nokkra hans, hvort heldur þeir hafa verið honum skyldir eða mægðir. Býð eg mig og mín mál öll í vörn og sókn undir ómenguð íslenzk lög, og skil frá mèr og af mèr allar lögleysur og lagavillur, hvort heldur þær eru frá páfanum, eða nokkrum hans limum eða erindisrekum, þá sendi eg þær aptur þangað og þá þaðan sem þær eru komnar. En ef mín málaferli eru dæmd með menguðu lögmáli, þá appellera jeg mitt mál, konungabrèf og dóma fram á míns hábornast konungs náðir nú í sumar eða að sumri komandi, hvort heldur lögrèttunni þykir eg án forfalla helst við koma. Lýsi eg mig og allt mitt undir míns náðugasta hábornasta herra konungsins náðarfrið, vernd og beskermelsi, og undir hans náð vil jeg blífa og vera, og af honum mèr væntandi náðar og línkindar og rètts lögmáls, eptir því sem hans náð mèr og öðrum sínum undirsátum lofaði í fyrrasumar. Hvað mér hefir orðið oftalað eða vantalað í þessu máli, þá beiði eg minn guð fyrir síns sonar skuld mig þar um mildilega yfirsjá, og góða menn mig þar um að leiðrétta með rèttum hreinum greinum og það bezt bæta. Hèr með befala èg yður alla og sèrhverja, herra og höfðingja, ríka og fátæka, snauða og sæla, undir vernd og varðveizlu guðs föðurs, sonar og heilags anda nú og að eilífu.

*Eggert Hannesson.*

Þetta skjal las Eggert upp í lögrèttu, en Árni Gíslason svaraði fáu þar til, en saman tók svo felda klögun þar á móti:

Svo feldar sakir og framburð hefi eg, Árni Gíslason, fram

að segja, að Eggert Hannesson með sínum fylgjurum, Jóni Ólafssyni, Bjarna Narfasyni, Fúsa Brúmannssyni, tóku að sèr jarðir og lausafè, er síra Jón heitinn Eiríksson átti og hafði kaup fyrir af Birni Þorleifssyni og svo út fyrir goldið sína eigin peninga. Gjörðu þessir fyrgreindir menn skipti á síra Jóns peningum, að honum lifandi án hans vilja, synjandi honum lögmáli, svo segjandi: að þeir skyldu aldrei lögmál um þær jarðir hafa, er hann keypti af Birni Þorleifssyni. Hèr með gripu þeir leigur og landskuldir af fyrsögðum jörðum í svo máta, að þeir fátækir menn, er presturinn hafði byggt, voguðu eigi annað en skrá við þá og skamta svo sem þeim líkaði, sakir þeirra stórra orða og hárra heitinga, er þessir fyrgreindir menn höfðu við fátæka landseta síra Jóns Eiríkssonar, hvað augljóst og opinbert var, að Fúsi Brúmannsson fór heim til Hörgshlíðar í Mjóafirði, þar Markús Sveinsson bjó, var þar þá ekki heima utan kona Markúsar með sínum börnum; greip Fúsi þar þá landskuldina og heitaðist við, að hafa í burtu allt það, sem þá var fèmætt í kvikum peningum. Svo var sagt, að hann mundi hafa gjört, hefðu þar ekki menn um ráðið. — Sömuleiðis fór Fúsi til Botns í Mjóafirði, var þar og ekki heima nema kona með sínum börnum, bjó þar þá Jón Sveinsson; kúgaði Fúsi þá af konu hans þá kúna, er þau áttu, og hafði hana út í Ögur; en Jón Sveinsson vegna sinnar fátæktar og fjölskyldu barna keypti aptur af Fúsa þessa sömu kú með sínum peningum. Annað ár þar eptir fór Fúsi Brúmannsson heim til fyrnefnds Markúsar Sveinssonar til Hörgshlíðar, braut þar upp bæinn, bjó sig til og bar sig að berja Markús og bera hann ofríki. Þar með gekk Fúsi inn í skálann með reidda öxi, og reiddi til, en hann lá sjúkur í sænginni, svo öxin nam staðar í rúmstokknum, er fyrir framan rúmið var. Bað Markús þá Fúsa, að láta svo lengi bíða, að hann mætti orðum fyrir sig koma. En Fúsi spurði: hvað sá hóruson og pútuson hefði að tala, því hann hefði rænt og stolið sinni jörðu sem þjófur. En Markús vændist byggingar síra Jóns Eiríkssonar fyrir jörðinni. Talaði Fúsi þá þeim orðum, að síra Jón ætti ekki meira í þeirri jörðu en kötturinn í himnaríki, hvað varla er eptir hafandi. Hjer með braut Torfi sonur Fúsa upp bænhúsið þar. Varð það skilnaður Markúsar og Fúsa, að Markús lagði honum

svo mikla peninga, sem Fúsa líkaði, og skildi þar með þeim að sinni. Hjer með fór Eggert Hannesson heim í Vatnsfjörð með flokk og fjölmenni, klagaði og kærði síra Jón Eiríksson og stefndi honum fyrir hald og meðferð á þeim peningum, er presturinn hafði fullt verð fyrir gefið, útgoldið og kvittun fyrir fengið af Birni Þorleifssyni, er honum hafði selt; hvað síra Jón bauð alla tíma lög og dóm fyrir fyrsagða peninga, og hann vildi gjarnsamlega til laga koma um þá peninga, er þeir uppáklöguðu ; en Eggert og hans mágar sögðu þar alltíð nei til, og fyrir því skyldi aldrei lögmál um hafa, hvað þeir fullkomlega framkváðu og enda á bundu; þá þeir Fúsi Brúmannsson og Bjarni Narfason fóru til Sæbóls í Aðalvík, gripu þar og tóku landskuld af þeim jörðum, er síra Jón hafði keypt af Birni Þorleifssyni, báru þar út skreiðina úr bænhúsinu á Sæbóli, ásjáanda prestinum og hans mönnum; bauð síra Jón enn sem optar lögmál fyrir sig og sína peninga, en þeir Fúsi og Bjarni því þverlega neituðu og höfðu sitt hið sama sjerlega svar um þær jarðir, sem presturinn hafði keypt af Birni Þorleifssyni, skyldu þeir aldrei þaðan af lögmál um hafa. Hèr ofan á tóku þessir menn þau kúgildi, sem prestinum tilheyrðu og hann hafði bygt með þessum jörðum, og bygðu þau öðrum mönnum, svo þau hafa ekki enn í dag aptur fengizt; en jarðsíra Jóns lögðust þar fyrir í eyði, og missti þar fyrir leigur af kúgildum og landsskuldir af jörðunum XI eða XII ár. Svo og lýsti Eggert útlegð á menn síra Jóns fyrir þá sök, að þeir vildu fylgja sínum húsbónda, svo hann mætti sínu halda með rèttu, svo þeir þorðu ekki hans útvegum fram að fylgja, en hann, presturinn, sjálfur svo nær sjónlaus og mjög máttdreginn af sinni elli, því hann var þá nær áttræður að aldri. — Sýndi Eggert sig í því í Bolungarvík um vorið, að hann eigi vildi þá að bíða lögmálsins, að hann ætlaði að taka skip af mönnum síra Jóns í Bolungarvík, lagði hendur á það og lýsti það sína eign og fyrirbauð mönnum prestsins að standa fyrir því. Svo og hefir Guttormur Árnason því lýst fyrir mèr og fleirum öðrum, að Eggert hafi farið heim til Furufjarðar og hrætt sig að gjalda landsskuldina af Furufirði. Nú þegar Eggert og hans mágar höfðu þetta áður greint ómak gjört um prestsins peninga, svo í eyði lágu jarðirnar, en frátekin kúgildin, þar þá eptir fór Eggert heim í Vatnsfjörð til síra Jóns, og

samdi þá af honum nýtt farmaskip stórt, og það hafði Eggert fyrir engan pening, utan hann lofaði að láta af ómaki, er hann hafði haft af peningum sira Jóns Eiríkssonar og hans manna. Svo varð síra Jón sig í frið að kaupa með sínum eigin peningum, sem hann sjálfur lýsti fyrir nokkrum mönnum, að hann hefði ekki vogað annað en kaupa af sèr og sínum mönnmönnum það ómak, er hann hefði fyrir orðið af Eggert og hans meðfylgjurum, og hann óttaðist að hann mundi þá fyrir verða og hans fátækir landbúar.

Lýsi eg þessa fyrnefnda menn þeim sökum sektuga, sem lögmálið útvísar bæði upp á kóngdómsins vegna og minna, að vitni allra þeirra, er orð mín heyra.

[NB. Árið fyrir hafði Árni látið mikla dælu ganga í lögrèttu, og klagað Eggert sjálfan um fleiri greinir en hèr segir, sem ráða má af mótskrifi Eggerts, er hann enn fremur lèt upp lesa í lögrèttu þetta ár, og varð þetta]

*Svar Eggerts upp á fyrra árs klögun Árna.*

Svofelt svar og appelleran gef og gjöri eg Eggert Hannesson upp á þær sakir, svo margar, sem eg kann þeirra að minnast, er Árni Gíslason lagði mèr til í fyrrasumar á þingi, sem hèr eptir fylgir.

In primis, item í fyrstu fyrir það skip, sem hann sagði, að minn faðir hefði haft úr Vatnsfirði, þá gef eg það svar þar upp á, að það sama skip fjekk honum og afgreiddi til eignar Björn Guðnason, hver þá hèlt og hafði konunglega heimild fyrir tèðum garði, Vatnsfirði, og greindur Björn kallaði þenna sama garð sína eign vera, en kirkjan í Vatnsfirði átti þetta sama skip, og þóttist Björn vel mega gjöra af því hvað hann vildi. En sira Jón Eiríksson með styrk Stefáns biskups greip og tók greindan garð undan lagahaldi og konunglegri heimild Bjarnar Guðnasonar. Braut og rauf þrátt nefndur síra Jón svo með valdi og ofbeldi konungsins brèf á Birni og rauf á honum tvo tylftardóma.—Í annari grein þá gaf biskup Stefán hann kvittan í þeirra sáttargjörð um allt, hvað hann að sèr tekið hafði kirkjunnar vegna etc.

Sú önnur sök, er Árni lagði mèr til, að síra Jón hefði fengið mér skip fyrir kúgun og hræðslu, þar gef eg svoddan

svar upp á, að síra Jón fèkk mèr það skip með sínum góðum vilja, mörgum góðum mönnum nærverandi, eptir því sem okkar gjörningsbrèf tilvísar og lèt sjálfur sína eigin menn hafa þetta skip um vorið út til Bolungarvíkur, og hans heimamenn afgreiddu mèr það þar eptir hans skipun, en hann þá af mèr í staðinn til lèns um sína daga tvær jarðir, þær eg tilkallaði, og eg held nú enn mína eign vera, og aldrei hefir þá nokkur maður vitanlegan gjörning við mig gjört, ef síra Jón Eiríksson var ekki vitanlegur til þessa gjörnings við mig, allt það eg kunni að merkja, bæði að sýn og heyrn, orðum og handarbandi, en hans hugskot var mèr óvitanlegt. En eg, greindur Eggert Hannesson, gef Árna Gíslasyni hèr á fullar sakir og allar, eptir því sem eg má það framast að lögum gjöra, að hann ber mig þessari sök, að eg hafi kúgað fè af mönnum etc.

Sú er hin þriðja sök, er Árni Gíslaon lagði mèr til, að eg hefði haldið landi að Furufirði og Reykjarfirði upp á mörg ár; þar til gef eg svoddan svar upp á, að eg kennist, að eg meðtók nokkra peninga í afla og búsgagni, af þeim mönnum, sem þar á fyrgreindum jörðum bjuggu þá, en eigi voru þeir heldur greiddir í landi, en aðrar þeirra skuldir og sektir, er voru mér skyldugir konungdómsins vegna, utan allt átti með þessum peningum svo upp að jafnast, bæði um jarðarábýlið og aðrar þeirra skuldir og sektir. En víst var það, og er enn svo, að eg kallaði og enn kalla upp á þessar jarðir, sem aðrar fleiri, þar eg hefi fyrir brèf og skilríki, en þar eð Árni Gíslason gefur mèr þá sök í sínum sakargiptum, að eg hafi ómakað þá peninga, sem síra Jón Eiríksson hefir haft að halda, þá gef eg svoddan svar þar upp á, að eg hefi þózt klaga mitt, en eigi hans, allt það, sem þeim argata er, sem Björn Þorleifsson hefir honum selt, er ekki átti hann, ef eg og aðrir mínir sambornir skulu íslenzkra laga aðnjótandi verða. Og biður eg yður um, Árni bóndi, að gefa mèr það til, þó eg kunni eigi þar þar um að iðrast. Gott er eigi að verða fyrir höfðingja reiði.

Sú er hin fjórða sök, er Árni Gíslason klagaði til mín, að eg hèldi tveimur konungsins kúgildum; þar segi eg nei fyrir, það er mèr óvitanlegt, að nokkur kúgildi vantaði upp á konungsins umboð, þá eg það af höndum lèt, svo að ekki fyrirstæði annaðhvort ungt eða gamalt, eptir því sem eg meðtók

það; en þau tvö kúgildi, sem Arni skrifaði mèr til um, til Þingeyra um veturinn með Þórarni Gíslasyni, að vanta skyldi í Mosdal, þá hafði eg þau afgreitt hans umboðsmanni, Helgu Jónsdóttur; en kunni Arni að bevísa með vitnum og svörnum bókareiðum, að nokkurt kúgildi hafi annarstaðar í þetta umboð vantað, þá hefir þar aldrei verið tillagt nè brigður á borið fyrir mèr, en ef það reynist, þá vil eg þeim þar til svara, sem eg hafði þetta umboð af, því hver á við sinn sala og heimildarmann, en Árni var aldrei hvorki minn kaupi nè sali að þessu né neinu öðru umboði við mig; og ef öðru vísi reynist, en hann hefir fram borið hèr um, þá gefir eg honum fulla sök þar upp á, að hann hefir svo rægt mig fyrir (yfir)valdi.

Sú hin fimmta sök, er Árni hefir mér gefið, að eg hèldi tveim kúgildum, er síra Jón Eiríksson hefði átt, svara eg svo þar til, að eg veit mig aldrei hafa haft fyrir síra Jóni Eiríkssyni svo mikið sem tuttugu álna virði, en þau tvö kúgildi, sem eg meðtók á Jökli í Aðalvík, þar hefi eg kaup fyrir. En eg vona, að Árni gjöri grein fyrir sínum orðum.

Sú er hin sjötta sök, er Árni gaf mèr, að eg hefði brotið konungs Kristjáns brèf, þá kann eg ekki þar fyrir svar upp á að gefa, fyrri en eg veit, hverju máli þau tilhlýða, og eg má sjálfur þau sjá og yfir lesa, hvað þessara voldugra og virðulegra herra og konunga brèf útvísa og innihalda, því mörg konungabrèf eru alls til í landi voru, og vil eg þeim gjarnan hlýða og hljóð gefa, þá eg þau heyri og sè etc.

Sú sjöunda sök, er Árni Gíslason gaf mèr, að eg hefði rofið dóm Finnboga Jónssonar og Fúsa Erlendssonar, hèr með brèf Þorleifs Pálssonar og Orms Sturlusonar (straffa eg þessara dándismanna bréf í engan máta) eru mèr þessir dómar og brèf í allan máta ókunnugir, og eigi veit eg hverju máli þau hlýða, fyrri en eg heyri þau upp lesin, hvað þau innihalda etc. En hafi eg nokkrum af hans sakargiptum gleymt, þá má Árni eptir þeim leita, ef hann vill svo, etc.

Til sanninda sinni sögu frambar Árni Gíslason sína klögun á alþingi 1554 með

*eptirfylgjandi vitnisburði:*

Það gjörum vèr Jón Illugason, Markús Sveinsson, Jón Jónsson og Jón Sveinsson góðum mönnum kunnugt, að vèr

höfum verið undir vernd síra Jóns heitins Eiríkssonar (guð hans sál náði) og búið á hans jörðum. Sömuleiðis höfum vèr verið vistfastir heima á garði síra Jóns Eiríkssonar í langan tíma, svo og hefir oss kunnugt verið það ómak með klögun og kærumálum, hugmál og heitingum, er síra Jón heitinn varð fyrir af erfingjum Bjarnar heitins Guðnasonar, Eggerti og öðrum hans mágum og meðfylgjurum, svo og vitum vèr fyrir full sannindi, að allur sá framburður, sem hèr skrifaður er (við klögun Árna sjá fyrr) og þessu voru bréfi meðfestist, er allur sannur, því vèr höfum hér með verið, heyrt og sèð uppá bæði orð og gjörninga, sem á fyrskrifuðu brèfi standa; það einn af oss, sem fyrir þetta brèf eru skrifaðir, hefir ekki heyrt, hjá verið eður sèð upp á, þá hefir þar annar af þessum mönnum heyrt og sèð uppá. Og til sanninda hèr um setjum vèr vor innsigli fyrir þetta brèf, sem skrifað var í Vatnsfirði þriðjudaginn nærsta Passionis Domini árum eptir guðs burð M. D. L. IV.

Þessi mál komu á alþingi undir dóm Odds lögmanns Gottskálkssonar. Voru þá framlögð af beggja hálfu öll konungsbrèf og dómar. Dæmdi lögmaður í aðalmálinu enn á ný allt undir konungsdóm; en um gripdeilur Fúsa Brúmannssonar var dæmdur

*fylgjandi dómur:*

Það gjörum vèr Páll Grímsson, Sigurður Oddsson, Gísli Jónsson, Björn[1] Skúlason, Jón Einarsson, Tumi Þorgrímsson, Jón Gíslason, Guðmundur Skúlason, Hallur Egilsson, Einar Sigurðsson, Jón Tumason, Guðmundur Nikulásson góðum mönnum kunnugt með þessu voru opnu brèfi, að árum eptir guðs burð 1554 laugardaginn næstan eptir Pètursmessu og Páls á alþingi vorum vèr í dóm nefndir af heiðarlegum herra Oddi Gottskálkssyni lögmanni S. og A. á Íslandi, til að skoða, rannsaka og fullnaðardóms atkvæði á að leggja um þau brèf og áklögun, er Árni Gíslason beiddist dóms á, um þær jarðir, er hann hafði kaup fyrir og síra Jón Eiríksson hafði keypt af Birni Þorleifssyni og hans kvinnu hafði til erfða fallið eptir

1) mun hèr eigi misskrifað »Björn« fyrir »Bjarni«, sem sè: Bjarni faðir Hrólfs sterka?

sinn föður Sæmund Eiríksson, en Sæmundur tók í erfð eptir bróður sinn sira Jón Eiríksson, en í öðru lagi tilkallaði af slekti Björns Guðnasonar, sem var Torfi Fúsason og aðrir fleiri er þar að standa af því slekti. Nú sakir þess, að hvorutveggi höfðu konungabrèf, alþingisdóma og lögmannsúrskurði upp á þessi góðs, en af því að hér skulu ekki konungabrèf rjúfast nè lögmannsúrskurðir hèr á landi, nema konungur sjái annað sannara með ríkisins ráði, því dæmum vér fyr nefndir dómsmenn með fullu dómsatkvæði þessi hvorutveggi brèf og svaramenn til konungsins náðar, hvor hann vill myndugri láta vera en hin önnur, og þá hvorutveggi skylduga þar til svars að koma, eður þeirra umboðsmenn, með sín brèf að sumri komanda, nema þeir sjálfir vilji fyrri fara, svo hvorutveggi sèu fyrir herra konunginum undir eins til svars. En hvorir haldi þeim góðsum, sem haldið hafa og kaupbrèf fyrir liggja, til þess konungs skikkun kemur inn í landið aptur. En um þær deildir, sem Árni Gíslason klagaði til Torfa Fúsasonar, þá dæmum vèr fyrnefndan Torfa skyldugan aptur að leggja sem fyr var frá tekið, og konungi þrjá aura, eptir því, sem bókin segir, innan 14 nátta, þaðan frá hann kemur til síns heimilis, það hann hefir frá þeim tekið og fyrr gripið.

Árni Gíslason útvegaði sèr þetta ár afskript af þeim eiði og meðkenningu, sem biskup Stefán hafði neytt Jón lögmann Sigmundsson að afleggja í Skálholti 1518, einkum meðkenning Jóns, að hann í þessu máli hefði dæmt rangan dóm millum Björns Guðnasonar og Björns Þorleifssonar. Sýnist og sem Árni hafi þetta sumar, 1554, siglt til Kaupmannahafnar að framfylgja þessum dómi, og fèkk þar upp á konungsdóm; þar Jón lögmaður Sigmundsson hefði rangt borið undir konung, skyldu fén til heyra Birni Þorleifssyni og hans erfingjum; kom svo Árni út 1555, og 1556 fèkk hann eptir konungs veitingu undan Eggert Hannessyni Ísafjarðarsýslu og konungsjarðir þar, og líka jarðir Ögmundar biskups; 1558 fèkk hann Húnavatnsþing, 1559 Þingeyrarklaustur, en 1569 Rangárþing hálft og Skaptárþing hálft, samt klaustur eystra. Benedikt Halldórsson ríka var sveinn Árna í þessari utanferð. Eigi er þess getið, að nokkur hafi siglt af Eggerts hálfu, að standa fyrir málinu utanlands og bera fram brèf sín.

Svoleiðis vann Árni þetta arfaþrætumál eptir konungsbrèfi

útgefnu af Kristjáni þriðja, laugardag næstan eptir Pèturs og Pálsmessu árið 1555, eptir að svo mörg konungsbrèf áður höfðu verið útgefin Birni Guðnasyni og hans erfingjum, fyrst af konungi Hans á Föstunni 1498, síðan af Kristjáni II 1514 og aptur 1518, 1519 og 1527, auk fjölda dóma hèr á landi genginna um sama efni, mest af því, að öll bréf og ástæður beggja málsparta voru aldrei fyrir sama konung framborin í senn, og seinast eigi nógu vel fylgt málinu af Eggert og hans meðerfingjum. — Brèf Kristjáns konungs III. hefir inn komið 1556, þegar Árni hafði áður undirbúið málið, var sjálfur innkominn og hafði fengið undan Eggert annaðhvort alla eða hálfa Ísafjarðsýsla og þar verandi konungsjarðir. Þá fór og Árni að klaga Eggert á alþingi, sem sèst af framanskrifuðu og svari Eggerts, af hverju má merkja, að Eggert hefir þá eigi vitað um kóngsbrèf, sem Árni fékk.—Þegar Árni hafði fengið Þingeyraklaustur og Húnavatnsþing, veitti Knútur Steinsson 1558 Eggert Ísafjarðarssýslu og Snæfellssýslu með Stapaumboði; Snæfellssýslu hèlt hann ei utan 2 eða 3 ár, en lengi Ísafjarðarsýslu. Megn óvild varaði millum Árna Gíslasonar og Eggerts, og klagaði hvor annan mest á alþingi, sem áður er sýnt; þó fóru eigi fram stefnufarir þeirra á millum.—Landshöfðingjar sáu, að svo búið mátti eigi standa, tóku mestu menn sig þá til að sætta þá, varð þeim þó treglega komið til sátta, því Eggert vildi ekkert til láta, en Árni vildi hafa virðing af málinu. Dró það helzt til sátta, að Eggert tvílaði um uppreisn á málinu, þá hann fèkk að heyra kóngsbrèfið, vildi þó hvorugi þeirra ritfæra sættina, og var Sigurður Þormóðsson þar til fenginn.

*Sættin hljóðar þannig:*

Það gjöri eg Sigurður Þormóðsson góðum mönnum kunnugt með þessu mínu opnu brèfi: að árum eptir Krists burð 1560, mánudaginn næstan eptir Pèturs messu og Páls, á almennilegu Öxarárþingi, var eg hjá, sá og heyrði á þann sáttmála, er gjörður var millum þeirra Eggerts lögmanns og Árna Gíslasonar fyrir bón, tillögu og meðalgöngu þeirra herramanna. Í fyrstu Páls Stigssonar, míns herra konungsins befalingsmanns yfir allt Ísland; Páls Vigfússonar lögmanns S. og A. á Íslandi; herra Ólafs Hjaltasonar biskups á Hólum, og herra Gísla Jóns-

sonar biskups í Skálholti, og svo fleiri góðra manna tillögur, er þar voru þá saman komnir. Kom svo þeirra sáttmála, að þeir beiddu greindan Árna Gíslason, að halda þá sama, sem þessir fyrrgreindir herramenn vilja semja þeirra á millum (áður nefnds Eggerts og Árna Gíslasonar); gaf Árni það svar, að hann vildi það gjöra fyrir þeirra bón, í svoddan máta, að hann fengi sæmd upp á þeirra ágreiningar, sem þeim hafði á millum borið (Eggert lögmanni og honum), annars þyrftu þeir eigi þar um að tala, utan með lögmáli þeirra á millum. Gjörðu greindir herramenn þá þann sama milli áðurgreindra manna, Eggerts lögmanns og Árna Gíslasonar, að Eggert skyldi gjalda Árna Gíslasyni fjörutygu hundruð í góðum peningum. Gengu þessir fyrrnefndir menn til Árna Gíslasonar og lofuðu að gjalda honum fyrrgreind 40 hndr. í góðum peningum þeim Árna Gíslasyni líkaði að taka, sín 10 hndr. hvor þeirra, og skyldi það allt vera goldið að næst eptir komandi fardögum. Sagðist Árni eigi vilja refjast eptir þessum peningum, heldur sagðist vilja fá þá greiðlega útgoldna, því hann sagðist eigi vera maður til sèrhvern þeirra til laga að sækja hér um; en þeir gáfu svo svar: að hann skyldi þess eigi þurfa, og því þeir hefðu lofað honum hèr um, þá skyldu þeir greiðlega útgjalda, eður sendast á næstu fardögum. Svo og skyldi greindur Árni þá og til við Eggert lögmann, að hann skyldi aldrei ómaka á gjöra nè upp á klaga þá peninga, er síra Jón Eiríksson hafi keypt af Björns Þorleifssonar peningum. Og að þessu höldnu og fyrr greindum peningum betöluðum, þá gaf Árni Gíslason opt nefndan Eggert lögmann öldungis kvittan og ákærulausan fyrir sèr og sínum eptirkomendum, um allt það, er mætti með lögum tiltala, og Árna tilheyrði, og hann mætti með lögum fyrir kvittun gefa, nema ef svo væri, að Árna brygðist opt nefnt peningagjald af fyrrskrifuðum herramönnum, þá sagðist Árni í engan máta þessa kvittan og lofan halda, heldur sagði hann hana þá lausa og rofna í allan máta. Svo og gaf Eggert Árna Gíslason öldungis kvittan og ákærulausan fyrir sér og sínum eptirkomendum og erfingjum, um allt það, sem hann mátti með lögum til hans tala. Hèr með skildu þeir alsáttum sáttir eptir því sem fyrr skrifað stendur, og til sanninda hèr um set eg

mitt innsigli fyrir þetta brèf í sama stað, degi og ári, sem fyr segir.

Sigurður Þormóðsson.
L. S.

Þó þeir sættust, varð ekki þelalaust þeirra á millum, og eigi heldur millum Magnúsar, dótturmanns Eggerts, og Árna. Rættist þó spá Magnúsar, að mestar tengdir mundu verða milli afkomenda þeirra. Eggert varð lögmaður 1553, þá Erlendur á Strönd lèt af lögsögn S. og A. En þá Oddur lögmaður Gottskálksson deyði 1556, tók Eggert lögsögu norðan og vestan, en Páll Vigfússon sunnan og austan. Ormur Sturluson hafði misst lögdæmið N. og V. 1553, þá Oddur gerðist í hans stað lögmaður. En nálægt 1560 fèkk Ormur af konungi aptur lögdæmið, en Eggert vildi ekki sleppa því við hann. Eptir mikil æfintýri fèkk Ormur nú lögdæmið norðan og vestan 1568, vildi Eggert það enn eigi laust láta. Stefndi Ormur þá Eggert fyrir konung og sigldi, en Eggert fór hvergi; 1569 kom Ormur inn með lögdæmið, og Barðastrandarsýslu átti hann að hafa í lögmannslaun. Mátti þá Eggert sleppa lögdæminu, en höfuðsmaður gerði samning þeirra á milli um sýsluna og fleira. Eggert hèlt Barðastrandarsýslu að vísu frá 1572—1580, en hvort hann hafði eins lengi í veiting Ísafjarðarsýslu vitum vèr ekki fyrir víst.

Þá Eggert var utanlands 1551, gaf konungur Kristján III. honum staðfestingu uppá það aðalsbrèf, sem föðurfaðir hans Eggert lögmaður í Víkinni í Noregi hafði hjá Hans konungi áður fengið, og um sama sótti Jón eldri Magnússon seinna; voru þeir því riddarar að nafnbót og höfðu merki sín á skildi og hjálmi sínum. Þá Eggert var rændur og fanginn í Bæ, skrifaði hann til konungs 1579 svo látandi

*Supplicatiu :*

Stórmektugasti konungur! náðugasti herra! yðar konunglegu Majestæt alla tíma reiðubúin mín pliktskyldugasta þènusta.

Eg fátækur maður er með allri undirgefni fyrir yðar Majestæt klagandi, með hverjum hætti á þessu nærverandi ári 1579 á Pètursmessu og Páls snemma morguns nær um þriðju stund

hafa til míns garðs komið 60 fótgangandi menn, sem síg fyrir Engelska útgáfu, og eg meinti þá verið hafa, hverjir strax með ofbeldi hafa garðsins dyr uppbrotið, og með skotum og slögum svoddan upphlaup gjört, að eg meina að Tyrkjar skyldu eigi hafa kunnað það ver að gjöra. Í hverjum órum þeir hafa einn af mínum þènurum í gegn um brjóstið og í handlegginn skotið, af hverju skoti hann hafði nær dauða beðið. Eptir það hafa þeir mig fátækan mann til fanga tekið og öllum mínum beztu eigum rænt, sem verðar voru til 500 rd. í gulli og silfri, og þar að auki tveimur silfurdálkum, sem og allt mitt góðs annað, sem þar var saman komið, einninn mitt heimafólk smánað, og eg hefi ekki svo miklu eptir haldið, sem eg kynni undir mitt höfuð að leggja. Einninn hafa þeir kyrkjuna þar upptrotið, og því öllu rænt, sem þeir kunnu með sèr færa, síðan mig klæðflett og nöktum upp á einn klárhest kastað, og færðu mig svo með sér 6 mílur vegar til þeirra skips og þar í fangelsi settu. Síðan sigldu þeir til Vatneyrar, sem er ein höfn á Patreksfirði, og hafa þar 14 daga haldið mèr í fangelsi, og af mèr kúgað naut, sauði, fisk og nokkurt silfur, sem mínir góðir vinir meintu mig með að friðkaupa. Hvað þó í það sinn ekki fèkst. Þar að auk hafa þeir frá mèr rænt nokkrum kost og öðrum nauðsynlegum hlutum, sem eg (eptir yðar Majestæts Befaling og gömlum siðvana yðar undirsátum þar með að hjálpa) hafði keypt í Hamborg, og mig þar í fyrsta kaupi 2000 (aðrir: 200) mörk lybsk kostuðu, hvers vega yðar Majestæts undirsátar hafa þess ekki notið og þar af stóra neyð á kost liðið.

Á þeirri sömu höfn hafa þeir nokkra menn til fanga tekið, og þvingað þá til að kaupa sig út, með meiru gjaldi, en þeir formáttu; og einn minn góðan vin, sem til þeirra kom og um mína hagi rannsaka vildi, hafa þeir með eldi kvalarlega brennt og pínt; og hvern dag hafa þeir mèr stórlega hótað, svo eg var ekki eina stund um mitt líf ugglaus. Þessi reifara Capteinn, sem sig nefndi William Smith, hafði á skipinu 70 manns, og 60 af þeim hlupu þar um nálæga staði, 20 mílur um kring, rænandi allt það þeir náðu, og það, sem þeim þènaði ekki, hafa þeir fordjarfað, þar að auki ótugt og illan lifnað með konum og stúlkum nauðugum aðhafzt. En þegar þessir 14 dagar voru úti, og þeir höfðu alla þessa vondsku aðhafzt, og sáu að eg kunni þeim ekki lengur gjald eður peninga að

gefa, hótuðu þeir að flytja mig svo langt í burtu, að eg skyldi hvorki í Ísland nè þýzkaland til kunnugra manna aptur komast, ef eg vildi ekki enn nú gefa þeim 200 rd., og sigldu svo inn á Ísafjörð inn á eina höfn, sem heitir Skutulsfjörður, og hèldu mèr þar um 14 daga í fangelsi, og þennan allan tíma umgengust þeir eins og við Vatneyri, og enn meira, með ráni og skammarlegum lifnaði með konum og stúlkum, móti þeirra eigin vilja. Einninn hafa þeir þar eina kirkju uppbrotið og rænt, og þar nálægt eða á Súgandafirði, fjóra menn, yðar konunglegu Majestæts undirsáta, myrðt og drepið, og mátti eg aumur maður á hverri stundu míns dauða væntandi vera; svo að um síðir fyrir mína og míns dótturmanns auðmjúka og alúðlega bón og tilleitni hafa góðir menn fengið einn skipherra frá Stade í Holstein, að nafni Henrik Gever, og sendu hann til þessa capteins William Schmidt; hver skipherra með sèr færði það, sem mínir góðir vinir og náungar höfðu saman tekið, og sent til að frelsa mig með, sem var II pd. silfurs og 35 rd., 5 uxar, 20 sauðir; hvað allt þessi skipherra færði kapteininum, og vildi mig þar með lausan kaupa; og enn þó þessi kapteinn hefði mig áður rænt öllu mínu góðsi, gjaldi og silfri, þá lèt hann sèr þetta þó eigi nægja, heldur útheimti enn nú fyrir mig 300 rd. til lausnargjalds; en eptir því mèr var ómögulegt þessum 300 rd. til vegar að koma, hefi eg þennan áður nefndan skipherra, Henrik Gever, þar til fengið, að hann gengi í borgun fyrir mig við kapteininn, og tilsagði skipherranum þessa summu gjalds að betala sínum reiðurum eða þeirra fullmektugum til Flyssingen í Hollandi, hvar uppá eg varð skipherranum mína handskript að gefa, að þegar eg sæi bevising, að þetta gjald væri útlagt, skyldi eg það aptur í Hamborg þeim betala, og svo varð eg laus úr mínu fangelsi og aumkvunarlegu haldi. En áður en eg fór burt hótaði mèr kapteinninn og hans lieutenant, að ef eg klagaði þetta fyrir yðar Majestæt, skyldu þeir annað ár aptur koma, og miklu verra en nú plága og útleika. —Ofan á allt þetta hafa þessir reifarar plundrað 2 skip í yðar Majestæts fríum straumum og af öðru því skipi 3 menn svo með eldi pínt, að einn af þeim hefir dáið. — Og að allt þetta, náðugasti herra! sè svo í sannleika, að eg hjá þeim ræningjum og morðurum hafi í 4 vikur í fangelsi setið, og af þeim öllu mínu góðsi, gulli og silfri rændur verið, hvers summa að

reiknast 8,000 mark lybsk, fyrir utan kyrkjunnar góðs og allt annað, sem þeir hafa rænt af yðar Majestæts undirsátum, hvers verð mèr er ómögulegt að vita; og ofan á allt þetta, þá handskript ómaklega af mèr kúgað; svo er þá til yðar Majestæts mín undirgefin, auðmjúk og lítillátleg bón, að yðar Majestæt vildi, af konunglegri meðfæddri náð, góðsemd og mildi, þessu mínu aumkunarlegu tilfelli og stórum skaða ráð og bót á vinna, og mèr náðuglegast ráð og befaling gefa, hvernig eg skal mèr um þessa af mèr kúguðu handskript skikka og halda, því til yðar konunglegu Majestæt hefi eg allt mitt tilflugt hèr á jörðu, næst guði almáttugum, í þessari minni þrenging og fátækt.

Og eptir því eg, svo sem einn fátækur undirsáti, er yðar konunglegri Majestæt með eiðspligt skyldugur og undirgefinn, og mèr byrjar í engan máta að þegja yfir þessara illvirkja ofbeldi, ráni og morðum, þá er eg í allri undirgefni beztu vonar, að yðar konungleg Majestæt muni þessa mína suplicatiu náðarlega álíta, hvar um eg yðar Majestæt í allri undirgefni biðjandi er; það mun guð almáttugur yðar Majestæt ríkuglega endurgjalda, og eg, yðar Majestæts fátækur undirsáti, játa mig skyldugan yðar Majestæt til þènustu líf og blóð í hættu að setja.— Yðar konunglegri Majestæt undirgefinn, hlýðinn, pligtskyldugur og fátækur undirsáti. Eggert Hannesson frá Bæ á Rauðasandi Íslandi.

### *Konungs Friðriks II. brèf*
#### *til ráðherranna af Stade.*

Friðrich etc. Þèr kunnið af þessu læsta brèfi að skilja og formerkja, hvað vor undirsáti frá Íslandi, Eggert Hannesson frá Bæ á Rauðasandi, hefir fyrir oss klagað, sem er: á næsta fyrirfaranda sumri sèu nokkrir reifarar þar inn í landið fallnir og frá þessum supplicant öllu sínu góðsi, gjaldi og silfri rænt, fyrir utan það, sem þeir frá kyrkjum og öðrum útí frá rænt og splundrað hafa. Þar að auki hafa þeir þennan supplicant tilkúgað, að fá til borgunarmann fyrir sig um 300 rd., einn skipherra frá Stade, að nafni Henrich Gever, hverja 300 rd. þessi skipherra lofaði reifaranum, captein William Smidt að nafni, til Flessing að betala. Og eptir því vèr verðum endilega að tilhlutast um þennan óbillega ræningjaskap (vorum trúum undirsátum ómaklega gjörðan), en kunnum fyrir vora

persónu þennan skipherra frá yðar stað ekki óforþeinktan láta, eptir því, að þessir reifarar vildu hann til borgunarmanns sèr líka láta, og hann undirgekst þetta gjald til Flyssingen að betala. Þar að auk færði hann þessum reifurum bæði þá og fyrri gull og silfur og allra handa fè, en þó það væri sent af þessa suplicants góðum vinum honum til lausnar. Þar fyrir höfum vèr yður þetta vita látið, og óskum náðuglega, að þèr vilduð, vorra vegna, þessum skipherra tilhalda, að hann þá 300 rd., sem hann hefir í borgun umgengið, ekki útleggi, heldur þeim innihaldi; hvað þó þessi skipherra annaðhvort af yfirvarpi eða í sannleika borgi eða borgað hafi reifaranna captein eða hans meðtökumanni til Flessingen, eða annnarstaðar, þá skal þó vor áðurnefndi undirsáti eða nokkur annar hans vegna ekki skyldugur skipherranum þá aptur að betala. — Þar næst er vor ósk og vilji, að þèr þessum skipherra endilega þar til haldið, og sannar sögur af honum hafið, hvað hann til þessara reifara þekki? Hvað þeirra athafnir sèu?, og hvar þeir finnast megi? með því fleira, sem í þessu efni nauðsynlegt er að vita. En kunni nokkur misgrunur hèr um hjá þessum skipherra finnast þá er vor ósk og vilji, að þèr honum til rètta haldið, og oss það sem fyrst vita látið, svo vèr framvegis hèr um höndlum, sem tilheyrir, og nauðsyn krefur. Svo og ef þessir reifarar hafa selt eða fengið einhverjum af yðar fólki nokkuð af þessu rænta góðsi, að þèr látið það þessum suplicant aptur afhendast, með því vèr formerkjum hann nú þess erindis til yðar reisir. — Og svo biðjum vér yður þennan supplicant og hans erindi við yður á beztan hátt framkvæma, og yður í öllu svo við hann tjá og auðsýna, sem þèr gjarnan óska vilduð, að yðar undirsátum væri í vorum löndum og ríkjum aptur gjört. — Hér til viljum vèr náðuglegast oss forláta og blífum yður velviljaðir.—Datum Schaumborg, 12. december (al. 12. september) 1579.

(Auðvitað er, að þessum brèfum hefir verið snúið á íslenzku.)

Konungsbrèfið finnst á dönsku í Hist. Eccl. Tom. III., pag. 79, og M. Ketilssonar For. Saml. 2. Deel, pag. 95—6—7 á dönsku, en mun hafa verið í fyrstu á þýzku; af því sèst, að Eggert hefir strax sama haustið siglt til Kaupmannahafnar, og ferðazt þaðan til Stade, að grenslast eptir og ná sínu. Urðu

ræningjarnir uppvísir, og voru þeir hengdir. — Árið 1580 kom Eggert út aptur, en sigldi hèðan alfarinn sama ár til Hamborgar, hvar sagt er hann hafi giptst (sjá fleira um Eggert við Gullbringusýslu). — Bær á Rauðasandi var svo undir kominn, að Ari Andrésson og Þórdís Gísladóttir gáfu hann fyrir beneficium (sjá um Ara hèr að framan). Ögmundur biskup tók þann stað til sín, og gaf hann sveini sínum Sigurði Ormssyni til eignar; en Sigurður fèkk frænda sínum Erlingi sýslumanni Gíslasyni Bæ. — Ormur og Jón Erlingssynir urðu sveinar Eggert lögmanns Hannessonar og seldu honum Bæ.

Orsök til þess, að Árni sýslumaður Gíslason vann með konungsdómi erfðamálið móti Eggert lögmanni var: þá Jón lögmaður Sigmundsson var kominn á vald Stephàns biskups, og af hræðslu neyddist til að láta allt vera, sem biskup vildi, hafði hann meðgengið, að hafa dæmt ranga dóma í vil Birni sýslumanni Guðnasyni, en móti Birni sýslumanni Þorleifssyni. Afskript þar af útvegaði Árni sýslumaður Gíslason sèr, og frambar hana fyrir konung, en Eggert var þá hvergi nærri, að framfæra varnir þar á móti.

Biskup Hannes Finnsson tjáir, að upp muni af Stepháni biskupi vera login meðkenning Jóns lögmanns Sigmundssonar, eins orðuð, og hún nú finnst; en tjáir, að önnur meðkenning, öðruvísi orðuð, hafi eptir Jón Sigmundsson fundizt, hvar í ekkert var um rangdæmi hans í málum; vitnar Doctor Hannes biskup til skripts Guðbrandar biskups þar um, en hvort sem var, gilti sú almenna viðurkenning til falls Eggerti lögmanni í arfamálinu.

## Ormur Sturluson.

(Sjá um hann við Snæfellssýslu.) Konungur veitti Ormi þessa sýslu í lögmannslaun 1568; en Eggert hèlt henni að vísu það ár ásamt lögdæminu. Ormur stefndi þá Eggerti fyrir konungs dóm og sigldi, en Eggert fór hvergi; 1569 kom inn höfuðsmaður Christopher Valkendorph, gjörði hann og Gísli biskup sáttmál ásamt fleirum með Ormi og Eggert; meinast að Eggert hèldi þó sýslunni, eða Ormur hèlt hana eigi yfir 4 ár (sem þó er óvíst).

## Magnús Jónsson.

*Faðir:* Jón á Svalbarði norður Magnússon sýslumanns Þor-

kelssonar í Skriðu í Reykjadal (sjá Strandasýslu, Vaðlaþing og Þingeyjarþing).

*Móðir:* Ragnheiður í rauðum sokkum Pètursdóttir Loptssonar Ormssonar Loptssonar ríka á Möðruvöllum.

*Kona:* hin fyrri, Elín, dóttir Jóns Sturlusonar og Guðnýjar Grímsdóttur, eigi lifðu börn þeirra.

*Kona:* seinni, Ragnheiður dóttir Eggerts lögmanns Hannessonar hirðstjóra.

*Börn:* 1. Jón eldri, sýslumaður í Dalasýslu, dó 1641, sjá þar um hann.

2. Þorleifur á Hlíðarenda, sýslumaður í Skaptafellssýslu, dó 1652, 87 ára (sjá Skaptafellssýslu).

3. Pètur, dó ungur, barnlaus.

4. Elín, átti Sæmund sýslumann í Snæfellsnesssýslu, Árnason sýslumanns á Hlíðarenda (sjá Snæfellsnessýslu).

5. Ari, sýslumaður í Barðastrandarsýslu, dó 1652, 81 árs, sjá um hann hèr síðar.

6. Björn, sýslumaður í Barðastrandarsýslu, dó 1635, sjá um hann hèr síðar.

7. Jón yngri Dan átti Yngveldi, dóttur Guðmundar Helgasonar og Arndísar á Eyri í Seyðisfirði, þar bjó og Jón seinna og dó 1651, þeirra börn:

a, Bjarni[1] bjó undir Hafurshesti í Önundarfirði, átti Ingibjörgu Pálsdóttur frá Hafnarhólmi Magnússonar (hún var systir síra Gunnars), þeirra son. α, Bjarni, lögsagnari í Arnarbæli, sjá Dalasýslu.

b, Guðrún kona Guðmundar Ásmundssonar, Þormóðssonar, Þorsteinssonar Torfasonar frá Klofa (sjá hèr síðar). Þeirra dóttir

---

1) Það var sagt um Bjarna, að hann hefði dáið af göldrum og var maður brenndur á alþingi fyrir það. Það var sumra manna mál, að Bjarni væri eigi skilgetinn; kom eitt sinn karl nokkur til hans og bað hann ölmusu, en Bjarni lèt lítið afhendi rakna, er þá mælt að karlinn hafi sagt, að þetta væri lítil sonarútlát.

α, Ólöf, átti Magnús sýslumann Magnússon, á Eyri í Seyðisfirði, sjá Ísafjarðarsýslu.

c, Sigríður átti Jón Egilsson á Geitaskarði, sjá Húnavatnssýslu. Börn þeirra:

α, Halldór lögrèttumaður átti Halldóru Benidiktsdóttur og börn.

β, Jón á Gunnsteinsstöðum, tvígiptur, átti börn.

γ, Ragnheiður átti Guðbrand sýslumann Arngrímsson, sjá Húnavatnsþing.

δ, Arndís átti síra Jón Eyjólfsson á Gilsbakka og börn.

ε, Guðmundur.

8. Ragnheiður Magnúsdóttir átti Einar sýslumann í Árnessþingi Hákonarson, sjá Árnessþing.

9. Katrín Magnúsdóttir átti fyr Bjarna Hákonarson sýslumanns, sjá Árnessýslu, svo átti hún Torfa son Eiríks á Keldum, hún dó 1652.

10. Guðrún Magnúsdóttir átti Hinrik sýslumann Gíslason (sjá um afkvæmi þeirra í Borgarfjarðarsýslu), hún dó 1652.

11. Sesselja Magnúsdóttir átti Ísleif Eyjólfsson í Saurbæ á Kjalarnesi 1605, þeirra börn:

a, Magnús átti Helgu Oddsdóttur[1], þeirra börn:

α, Henrik á Hvítárvöllum átti Eygerði[2], sjá Kjósarsýslu.

β, Solveig átti Þorvarð Erlendsson og börn.

γ, Guðmundur.

δ, Jón.

b, Eyjólfur Ísleifsson átti Agötu Helgadóttur, þeirra börn:

α, Sesselja átti Halldór Þórðarson, og börn.

β, Erlendur[3] í Brautarholti átti Ingibjörgu Pálsdóttur og börn.

---

1) Helga var systurdóttir síra Arngríms lærða.

2) Hún er sumstaðar kölluð Eydís.

3) Hann hèt Erlingur.

γ, Þuríður, átti Jón Pálsson.

δ, Elín átti Jón[1] Jakobsson á Eyri og börn.

ε, Valgerður.

ζ, Guðmundur.

η, Helgi, áttu öll börn.

c, Solveig Ísleifsdóttir átti síra Þorstein Jónsson[2]; börn:

α, Margrèt átti síra Þorkel Arngrímsson og börn.

β, Hildur átti síra Odd Eyjólfsson og börn.

d, Elísabet átti Halldór Helgason[3], þeirra börn.

α, síra Guðmundur í Ögursþingum átti Ragnhildi Daðadóttur og börn.

β, Þórður smiður átti Ragnhildi Bjarnadóttur og börn. Þórður var afbragðs smiður, smíðaði 1676—78 vönduð bæjarhús á Bæ á Rauðasandi fyrir Björn sýslumann Gíslason[4].

γ, Guðrún átti Þorleif Einarsson og börn.

δ, Katrín átti síra Guðmund Einarsson og börn.

ε, Sesselja f. k. Odds Eiríkssonar á Fitjum, átti börn.

ζ, Árni í Arnarholti, átti börn[5].

e, Sigríður Ísleifsdóttir átti síra Jósep Loptsson, börn:

α, síra Loptur í Skálholti, dó 1724, 84 ára.

β, Skapti lögrèttumaður á Flugumýri og Frostastöðum, átti Guðrúnu Steingrímsdóttur, og

---

1) Maður Elínar var Ólafur Jakobsson frá Eyri í Kjós.

2) í Holti undir Eyjafjöllum.

3) Helgi var Vigfússon, og sá Vigfús son Jóns Grímssonar, er veginn var í Síðumúla og Kristínar Vigfúsdóttur hirðstjóra Erlendssonar.

4) Dóttir Þórðar var Elísabet, er launson átti með Ólafi á Eyri, föður Jóns vísilögmanns Ólafssonar og þeirra systkina; þessi launson Elísabetar var síra Árni í Gufudal, hans dóttir Guðrún, móðir herra Árna biskups í Görðum Helgasonar.

5) Eitt af börnum Árna var Halldóra, móðir síra Pèturs **Björnssonar á Tjörn á Vatnsnesi.**

börn; hann var og lögsagnari, sjá Hegranesþing.
γ, Þorleifur.
δ, Þórður.
ε, Ísleifur.
ζ, Björn.
η, Árni
ϑ, Sesselja.
ι, Kristín, áttu öll börn.
f, Valgerður Ísleifsdóttir átti síra Þorvarð Ólafsson, börn :
α, síra Ólafur á Breiðabólstað í Vesturhópi, átti börn.
β, Sigríður, átti Hákon Þorkelsson.
γ, Sesselja, átti síra Bjarna Arngrímsson og börn.
δ, sira Páll.
ε, Ísleifur.
g, Árni Ísleifsson dó 1646.
h, Þorgerður Ísleifsdóttir.
Áður en Sesselja giptist átti hún launbörn með síra Sigurði Einarssyni á Rauðasandi.
i, Anna átti Þorvald Rafnsson.
k, Guðleif átti Þorlák Bjarnason.
12. Kristín Magnúsdóttir, dó barnlaus.
13. Eyjólfur hèt launson Magnúsar.
*Bræður*[1] Magnúsar voru þeir sem mönnuðust:
1. Jón lögmaður.
2. Sigurður sýslumaður á Reynistað.
3. Páll, er kenndur var við Staðarhól.
4. Kolbeinn[2], meinast frilluborinn, barnlaus.
*Systur* : 1. Steinunn fylgdi fyrst að lagi síra Birni á Melstað, officialis, Jónssyni biskups Arasonar, börn:

---

1) Börn Jóns Magnússonar á Svalbarði eru nefnd hèr að framan, A. bls. 192—193.
2) Um Kolbein sjá A. bls. 54.

a, Jón sýslumaður[1].
b, Árni á Sauðafelli.
c, Bjarni á Brjámslæk.
d, Halldóra.
e, Teitur á Holtastöðum.
f, Magnús.
g, Ragnheiður.
Svo giptist Steinunn Ólafi frá Geitisskarði Jónssyni Einarssonar, þeirra dóttir
h, Guðrún.
Seinast giptist Steinunn Eggerti lögmanni Hannessyni, barnlaus.

2. Þórdís átti Þorgrím Þorleifsson Þorgrímssonar á Núpum Þórðarsonar, og bjuggu í Lögmannshlíð, þeirra börn[2]:
a, Sigríður.
b, Hildur.
c, Sesselja.
d, Guðrún.

3. Solveig átti Filippus[3] frá Svínavatni (er veginn var) Þórðarson. Þeirra börn:
a, Rannveig.
b, Pètur.

4. Guðrún[4] átti Bjarna. Þeirra börn:
a, Ragnheiður.
b, Anna.

Magnús mannaðist vel á ungdómsárum. En fyrst finn eg getið sýslumannsverka hans í Ísafjarðarsýslu, þá er hann 1547, 12. apríl, með 6 mönnum á Nautseyri dæmdi marköngladóm; hefir Magnús þá heldur haft umboð Eggerts lögmanns, en að hann hafi haft veitingu Ísafjarðarsýslu, eða norðurpart hennar

---

1) Sjá um börn Steinunnar og síra Björns, A. bls. 323—7.

2) Sjá um börn Þórdísar A. bls. 193.

3) Filippus var Þórarinsson, hèt sá Steinn, er vo hann. Það er sögn, að þessi Filippus hafi verið Filippus sá, er varð Rafni lögmanni Brandssyni að bana í Glaumbæ.

4) Guðrún var laungetin, sjá A. bls. 193.

það ár; en þar eptir kom Magnús aptur til norðurlands til frænda sinna.

Jón hèt maður, og var Sturluson Magnússonar[1], en sá Magnús meinast son Jóns og Helgu frá Djúpadal, Einarsdóttur, Árnasonar Dalskeggs, Magnússonar. Er mælt, að Eyjólfur lögmaður hafi verið sonur þessa Einars frá Djúpadal og Bessi, er átti Sæunni Guðnadóttur, Oddssonar Lepps, Þórðarsonar. Jón Sturluson bjó í Dunhaga, og átti Guðnýju dóttur Gríms á Möðruvöllum, Pálssonar; þeirra börn voru:

1. Þorsteinn; hann ætlaði að ekta Önnu í Dal, en þá hann reið frá handsalsöli, drukknaði hann í Markarfljóti; ei er getið hans barna.
2. Elín, hennar fèkk fyrnefndur Magnús til ekta, hèr um 1550 eða 1548 (sjá að framan).
3. Grímur var hinn efnilegasti maður og vinsæll; varð frávita; dó barnlaus.
4. Sigríður, ogsvo efnileg; hún dó jómfrú síðar í svokallaðri miklu bólu.

Grímur áður nefndur Jónsson tók þunga sótt, þá hann var 18 vetra, og gekk svo nærri honum, að hann var haldinn dauður. Það þótti Guðnýju móður hans mikið, bar sig mjög illa, og hét fyrir honum, ef hann lifnaði, og svo skeði; var því kallað, að hún hefði heitið hann úr dauða; en þó Grímur lifnaði við, varð hann aldrei jafngóður; máttu menn vakta hann, því hann var ær með köflum. Var hann því kallaður Grímur tvídauði, að hann meintist dáið hafa. Móðir hans átti bágt með hans vöktun, þar hún þá hafði misst mann sinn Jón, og son sinn Þorstein; leitaði hún því ráðs hjá valdsmanni í Vaðlasýslu, hvað hún skyldi til gjöra, þar um var útnefndur fylgjandi *dómur:*

Anno 1550 (al. 1549) útnefndi Guðmundur Niculásson í umboði Þorbergs Bessasonar 6 menn í dóm í Neðri Lönguhlíð í Hörgárdal, mánudaginn næstan fyrir Johannis Episcopi et Martyris, um það, hver umboð þess óða manns Gríms Jónssonar skyldi hafa (voru tvær systur Gríms, önnur gipt, en önnur mær í móðurgarði), og hvað hann skyldi fortæra árlega

---

1) Sjá um Magnús föður Sturlu, A. bls. 25, 147 og víðar.

í mat og klæðnaði, og hvað umboðsmenn skyldu hafa fyrir sitt ómak. Dæmdu dómendur Magnús Jónsson vegna kvinnu hans Elínar, skyldugan að annast Grím; og skyldi Magnús hafa VII hndr. fyrir sitt starf árlega; en Grímur, vegna sinna burða, slektis og fjár V hndr. árlega í mötu, II hndr. til gangklæða og I hndr. til sængurklæða (til samans um árið XV hndr.); skyldi Magnús fá Grími tvo menn til varðveizlu, svo hann engan skaða gjöri, og þar með fá hreinlegt varðhald; skyldi stakkur vera á höndum hans um nætur, en handjárn um daga. — Tók Magnús þá við Grími, og var hann hjá honum í 6 ár; var Grímur hneptur í þiljað einhýsi, en eigi fengnir gæzlumenn eptir dóminum, og gjörðist þar um ágreiningur seinna.

Guðný giptist síðan 1553 Jóni á Svalbarði Magnússyni: mun hann þá og tekið hafa Grím. Með þessum ærslum lifði Grímur nálægt 18 árum, dó þó fyrr en móðir hans; þau Guðný og Grímur voru seinna grafin að Möðruvallaklaustri. Ekkert barn, sem á fætur komst, átti Guðný við Jóni Magnússyni á Svalbarði. Um 1560 var Jón sjúkur mjög af svo kallaðri sárasótt, sem hèr á landi gekk mikið um þær mundir; vildi Jón eigi láta lækna sig, og deyði úr þeim krankleik. — Flutti Guðný þá aptur að Dunhaga.

Þess er að geta, að Þorsteinn Finnbogason var lengi sýslumaður í Þingeyjarsýslu; tók hann í elli sinni Vigfús son sinn til meðhjálpara, og hafði hann líka fengið veiting fyrir hálfu Þingeyjarþingi 1553. En þá Þorsteinn deyði um 1553, mun Magnús hafa fengið veiting fyrir hálfu Þingeyjarþingi móts við Vigfús, og þar var Magnús orðinn sýslumaður 1555; því það ár lèt hann 6 manna dóm ganga á Helgastöðum í Reykjadal um framfæri Finnu Ivarsdóttur[1], og um páska 1561 kallast hann þar sýslumaður. Eigi er heldur ólíklegt, að hann hafi í allri sýslunni gegnt sýslumannsverkum 1555, þá Vigfús Þorsteinsson var fyrir sunnan og gegndi sýslumanns verkum í Rangárþingi. En 1563 hefir Magnús misst þennan sýslupart, þá þeir Vigfús og Niculás Þorsteinssynir seldu konungi brennisteinsnámurnar (sjá þar um Þingeyjarþing) og Vigfús fèkk

---

1) Þenna dóm dæmdi Magnús í umboði Páls bróður síns, er þá hèlt hálfa Þingeyjarsýslu, sjá A. bls. 74.

alla sýsluna. Magnús hefir mist Elínu kvinnu sína að líkindum nálægt 1560, og börn þeirra deyðu ung. Flutti hann þá vestur á Barðaströnd 1563 til Eggerts Hannessonar lögmanns, og fèkk til ekta Ragnheiðar dóttur hans sama ár, var hún þá 15 vetra (og þóttist Páll bróðir hans, í brèfi til Guðbrands biskups, hafa því til leiðar komið); gjörðist því Magnús umboðsmaður Eggerts um hríð í sýslum hans; flutti síðan að Ögri við Ísafjörð, og bjó þar fram til 1580. Hvort hann hefir í umboði Eggerts eða fyrir veitingu haft Ísafjarðarsýslu, vitum vèr eigi með vissu; þó er líklegt, að Magnús hafi fengið veitingu fyrir norðurpartinum. En þá Eggert slepti Barðastrandarsýslu og fór utan 1580, tók Magnús tèða sýslu með norðurparti Ísafjarðarsýslu, og flutti að Bæ á Rauðasandi; var hann þá hniginn að aldri, og fèkk Torfa sýslumann á Kirkjubóli fyrir sinn umboðsmann. Þá mörgu dóma, sem hann gekk í sýslum sínum, er of langt á að minnast, enda veit eg eigi þá alla; get þess einasta, að hann endurnýjaði markögladóm. Og af ránskap útlendra lèt hann dæma vopnadóm. — Hann varð með auðugustu mönnum hèr á landi eptir það Eggert fór utan, og hafði fengið dóttur sinni jarðagóðs á áttunda hundrað hundraða fyrir utan annað lausafé.

Mikill rígur var á millum Árna sýslumanns Gíslasonar og Magnúsar; komu þeir í stóra deilu á Skutulfirði og aptur á alþingi; þá er mælt, að Magnús hafi sagt: að eigi þyrftu þeir svo að deila, því millum þeirra afkomenda mundu verða hinar mestu tengdir. Aldrei kom þó til markverðra lögsókna þeirra á millum, en hvorugur lèt sig fyrir öðrum; af því elti og, þá Sæmundur Árnason lèt biðja Elínar dóttur Magnúsar; þá kvað Magnús:

»Fæst ei skjól hjá faldasól
firðar honum það segi,
nema fái hann Hól fyrir höfuðból
hana fær hann eigi.«

Hèr er meintur Hóll í Bolungarvík; Sæmundur fèkk síðar Elínar og Bolungarvík í arf. — Magnús hèlt völdum sínum til dauðadags, og þótti hinn mesti höfðingi og var vinsæll. Hann deyði á Bæ á Rauðasandi 1592 (al. 1591) sjá grafskript Ragnheiðar hér síðar. Ragnheiður kvinna hans lifði lengi þar eptir,

og flutti við dauða Magnúsar að Sauðlauksdal og dó þar. Hennar prestur skuldaði hana fyrir ósæmilegt lauslæti og þess háttar í drykkjuskap. Ari og Jón synir hennar tóku upp orð prestsins. En af því að prestur tók þau aptur, og bað fyrirgefningar á orðunum, þá fyrirgaf Ragnheiður þau presti guðs vegna.—Ragnheiður deyði þann 6. ágúst 1642, og eptirlèt börnum sínum í arf níu hundruð hundraða. Erfingjar lètu gjöra eptir hana utanlands mikinn legstein; mælt er að sá hafi kostað 50 rd. Hann kom út í Flatey, var þaðan fluttur að Haga á Barðaströnd, og lá þar við sjóinn nokkra vetur; en löngu seinna ætlaði Jón Magnússon eldri, sýslumaður, að láta menn sína flytja hann til Bæjar sjóleiðis; tókst þeim illa þá inn komu í Bæjarós, mistu steininn þar, og lá sjálfum við líftjóni. Bar svo sand yfir steininn og var hans lengi leitað með hverri fjöru; fanst þó loks, og var þá færður yfir leiðið. Þetta er á þeim steini: Hèr hvílir sú guðhrædda, göfuga og dygðaríka höfðingskvinna *Ragnheiður Eggertsdóttur*, hvor sætlega í guði burtsofnaði 6. águst Anno 1642 á sínu aldurs 94. ári, er hún hafði í heiðurlegum hjúskap erlega lifað frá sínu 15. ári með sínum elskulegum ektamanni þeim vísa og nafnfræga höfðingja *Magnúsi Jónssyni* nær 30 ár; átti 12 börn, sat í heilögu ekkjusæti yfir 50 ár.

Hennar síðustu orð:

Heilög guðdómsins þrenning, bú þú nú í mínu brjósti, því eg befala mig þèr.

Apoc. 2. Vertu trúaður alt til enda, og mun eg gefa þèr lífsins kórónu. 1644.

Magnús var spakmenni, og kallaður hinn *prúði*; hann var og spakvitur, mesti framkvæmdamaður, ástsæll og forkunnar skáld eptir þeirrar tíðar máta; hann hefir orkt rímur af Pontusi, og nokkrir eigna honum Ingvarsrímur, Konráðs keisarasonar og nokkuð af Amici og Emilii sögu, og margar stakar vísur; um sig og bræður sína orkti hann þessa:

»Sigurður, Jón og Kolbeinn klakkur,
kenni eg gjörla hann Manga;
og þó hann Páll sè augnaskakkur,
allir fá þeir að ganga.«

Ekki varð ástúðlegt í ellinni millum þeirra Páls; voru þeir ekki lyndislíkir, því Páll var mjög breytinn.

Ritfært er og, að Magnús hafi og haldið Strandasýslu; er líkast til, að það hafi verið á því tímabili frá 1563 til 1575, en þó eigi víst, hver ár eða hvað lengi. En víst var, að hann hèlt Þorskafjarðarþing 1579; meinast þar með Barðastrandar- og Ísafjarðarsýsla (og máske Strandasýsla) eptir 1563, en vesturpart Ísafjarðarsýslu tók um það leyti Þorlákur á Núpi. Norðurpart sýslunnar hélt Magnús 1581, þá hann dæmdi vopnadóm; og mjög marga dóma dæmdi hann aðra til dæmis í Barðastrandarsýslu 1589 um löggjöf, og sama ár 9. október að Torflaugshaugum í Tungu um tvítugt barn ættfært.

Eins og nú hefir að nokkru leyti verið sagt, virðist Magnús fyrstur að hafa orðið lögsagnari Eggerts lögmanns í Ísafjarðarsýslu og lét þar dæma 12. apríl 1547 um ýmsa hegðun við Ísafjörð, þar á meðal var dómsins 15. póstur um marköngla og stúfa, sem hann með öllu afdæmdi undir 4 marka sekt, á Nauteyrarþingi. — 1553 til 1563 tók hann hálfa Norðursýslu og Flatey að lèni.—1563 hèlt hann í umboði Eggerts norðurpart Ísafjarðarsýslu, og um það leyti og þar eptir hálfa Strandasýslu. — 1574, 13. maí að Ögri, endurnýjaði hann márköngladóm (þann dóm endurnýjaði Ari son hans 1602 á Súðavíkurþingi, og aptur 1616 á Ögursþingi, og Árni Magnússon lögsagnari 1689, 8. júlí, á Súðavíkurþingi, er staðfestur var í lögréttu sama ár).—1579 tók Magnús Barðastrandarsýslu, hélt þó norðurparti Ísafjarðarsýslu með til 1585; dó 1591.

## Torfi Jónsson.

*Faðir:* Jón sýslumaður Ólafsson í Hjarðardal. Sjá Dalasýslu.
*Móðir:* Þóra, dóttir Björns sýslumanns Guðnasonar.
*Kona:* Þorkatla[1], dóttir Snæbjarnar frá Keldum eystra og Katrínar frá Þykkvabæ. Faðir Snæbjarnar var Halldór ríki í Tungufelli Brynjólfsson, er málið átti við Stefán biskup.

---

1) Það er sagt um Þorkötlu, að hún hafi verið mikil röggsemdarkona og skrautsöm.

*Börn:* 1. Síra Snæbjörn[1] á Kirkjubóli í Langadal átti Þóru dóttur Jóns sýslumanns Björnssonar á Holtastöðum; þeirra börn[2]:

α. Síra Björn[3] á Staðastað, átti Þórunni, dóttur síra Jóns í Holti í Önundarfirði, Sveinssonar prófasts sama staðar. Þeirra börn:

a. Snæbjörn.
b. Þóra.
c. Þorbjörg.
d. Þorbjörg yngri.

β. Þorkatla átti Magnús Gissurarson á Lokinhömrum; barnlaus.

γ. Síra Torfi[4] á Kirkjubóli, átti Helgu dóttur síra Guðmundar Einarssonar (sjá Hegranessþing). Þeirra börn:

a. Snæbjörn á Kirkjubóli; hann var lögrèttumaður, bjó á Bæ í Króksfirði, dó í heimreið af alþingi 1666; hans son Eggert á Kirkjubóli, faðir Margrètar, konu Teits sýslumanns Arasonar.
b. Síra Einar á Stað á Reykjanesi.
c. Teitur, ráðsmaður í Skálholti.
d. Páll sýslumaður.
e. Margrèt.
f. Ragnheiður.
g. Ragnhildur.

---

1) Síra Snæbjörn gaf Stað í Aðalvík fyrir beneficium í veikleika sínum, er hann varð ofsterkur, og dó í því.

2) Sjá um börn síra Snæbjarnar og Þóru A, bls. 523 – 4.

3) Síra Björn var baccalaureus, og fyrst skólameistari í Skálholti, meðan hann var það, bjó hann fyrir vestan, en flutti bygð sína haust og vor, fèkk Staðastað 1647, giptist 1644, dó 1679. Það er sagt um hann, að hann hafi verið vandlætingasamur og sýslunarsamur, en nokkuð tortrygginn.

4) Síra Torfi dó 1668, var höfðingi og mikilmenni, sem forfeður hans, en hèlt lengi við prestskap nær heyrnarlaus í elli, og hafði þá gengið nokkuð skrykkjótt.

δ. Valgerður, laundóttir síra Snæbjarnar, átti Þorleif á Kirkjubóli; barnlaus[1].

2. Þóra, fyrri kona síra Teits[2] í Gufudal Halldórssonar; þeirra börn:

α. Síra Halldór[3] í Gufudal átti fyr Helgu Sæmundardóttur; barnlaus; svo Guðrúnu dóttur Skúla Einarssonar, systur Þorláks biskups Skúlasonar; þeirra börn:

a. Síra Teitur í Gufudal[4].

b. Þorgeir á Svínanesi[5].

c. Þóra átti síra Hannes Benidiktsson.

β. Kristín Teitsdóttir, átti fyrr Þorleif[6] Björnsson, barnlaus, svo var hún seinni kona síra Jóns[7] Sigurðssonar á Breiðabólstað; þeirra dóttir Guðrún, seinni kona Magnúsar Þorsteinssonar.

γ. Ólöf, átti Hákon Þorsteinsson; barnlaus.

δ. Þorgrímur, barnlaus.

3. Ragnhildur Torfadóttir átti Finn í Flatey, son Jóns Björnssonar, sama staðar, Þorleifssonar (sjá Dalasýslu), þeirra börn:

α. Torfi[8] prestur í Hvammi átti Guðríði dóttur Jóns sýslumanns á Holtastöðum, Björnssonar, Jónssonar biskups; þeirra börn:

---

1) Valgerður átti að vísu börn, en ætt frá henni mun nú vart verða rakin.

2) Síra Teitur hèlt Gufudal um 50 ár; hann dó 1633.

3) Síra Halldór dó 1669.

4) Síra Teitur var prestur í Gufudal eptir föður sinn, dó 1680, barnlaus.

5) Sumir nefna hann Þorgrím, sem mun rèttara; frá honum verður nú vart talið.

6) Þorleifur var Bjarnason Björnssonar.

7) Síra Jón, seinni maður Kristínar, var prestur á Breiðabólstað í Fljótshlíð.

8) Síra Torfi var sigldur og vel lærður, mjög hógvær; hann var 6 ár skólameistari í Skálholti, fèkk svo Hvamm í Norðurárdal; græddi þar mikla peninga, var þó búlaus. Um börn hans sjá A, bls. 525.

a. Jón[1] í Flatey, dó 1661.
b. Guðrún átti Bjarna sýslumann.

β. Jón Finnsson í Flatey átti barnsmóður sína Sigríði Loptsdóttir Árnasonar, Loptssonar Pèturssonar; börn:
a. Tómas[2].
b. Finnur[3].
c. Loptur[4].
d. Ólafur.
e. Guðrún.
f. Ragnheiður.
g. Þuríður.

γ. Guðmundur, sigldi og varð prentari í Hamborg.

δ. Guðrún, átti síra Gissur Sveinsson, barnlaus.

ε. Þuríður, fyrri kona Jóns Árnasonar, barnlaus.

ζ. Þorkatla, átti Þórólf undir Múla Einarsson; þeirra börn:
a. Finnur, skólagenginn.
b. Einar; dóu báðir barnlausir.
c. Ragnhildur.
d. Ingibjörg; þær giptust og áttu börn.

η. Þóra Finnsdóttir átti síra Einar á Stað á Reykjanesi (hann misti stað og prest út af deilum við Magnús sýslumann Arason, og bjó síðan á eignarjörð sinni Kleifum); þeirra börn:
a. Síra Guðmundur.
b. Tyrfingur.
c. Kristín.

---

1) Jón Torfason í Flatey var fróður maður, en gaf Brynjólfi biskupi Flateyjarbók, er þeir langfeðgar höfðu átt og viðhaldið hafði fornfræðum.

2) Tómas átti Guðrúnu Ögmundsdóttur frá Galtarey, eitt þeirra barna var
Guðrún kona síra Sigurðar Sigurðssonar í Flatey, hans son
Sigurður sýslumaður í Vestmannaeyjum.

3) Finnur giptist ekki.

4) Loptur átti Helgu, systur Jóns biskups Árnasonar.

d. Ingibjörg.

4. Þorkatla Torfadóttir (aðrir Guðríður) átti Jón í Kristnesi Sigurðsson og Þóru Aradóttur lögmanns; þeirra börn:
   α. Síra Sigurður á Helgafelli átti Ólöfu Jónsdóttur lögmanns, barnlaus.
   β. Þóra, átti Pál landskrifara Gíslason; barnlaus.
   γ. Þorkatla, átti Björn á Bakka í Öxnadal Hákonarson sýslumanns í Nesi Björnssonar; þeirra börn:
      a. Jón.
      b. Málmfríður.
      c. Halldóra.
      d. Þóra.
      e. Ástríður.
5. Guðbjörg Torfadóttir átti Sigurð í Stóradal Markússon (Espólín efar, að það hafi verið þessi Guðbjörg); börn:
   α. Steinunn, átti Magnús Jónsson á Sjávarborg; þeirra börn:
      a. Sigríður stórráða.
      b. Jón.
   β. Þóra, átti Jón son Jóns lögmanns Sigurðssonar (sjá Húnavatnsþing); þeirra börn:
      a. Ragnheiður.
      b. Sigurður, og fleiri.
6. Jón Torfason átti hvorki konu nè börn. Síra Snæbjörn bróðir hans erfði hann[1].

Torfi mannaðist vel, fór svo austur og giptist á Keldum Þorkötlu, er var þá hin mesta tilhalds- og skrautkona. Bjuggu þau fyrst í Árbæ; seldu síðan Árna Gíslasyni þá jörð fyrir Stað í Aðalvík, svo fluttu þau vestur að Kirkjubóli í Langadal á höfuðból Torfa og bjuggu þar síðan alla æfi.—Eg efast um, að Torfi hafi haft sýsluveiting, en hafi það verið, er líkast,

1) Ætt sú, sem komin er af Torfa sýslumanni, kallast Kirkjubólsætt.

fyrir hálfri Ísafjarðarsýslu um tíma, um 1585; hitt er víst, að bæði Eggert Hannesson og einkum Magnús Jónsson um og og eptir 1580 höfðu hann opt fyrir sinn umboðsmann, bæði í Ísafjarðarsýslu norðurparti og Magnús líka í Barðastrandarsýslu, sem dómur Torfa í Berufirði 1581 sýnir, hvern hann í umboði Magnúsar Jónssonar útnefndi; en óljós eru oss hans valdaár. — Hann var maður auðugur, og af sjálfum sér mikilmenni og höfðinglega lundaður, sem hann átti kyn til, einkum í móðurætt sína; hann var og vel viti borinn, en lengi þóttu stórlyndir í skapi niðjar hans. — Eigi er ólíklegt, að hann hafi haldið um hríð hálfa Strandasýslu, en óljóst er hvert ár. — Í flestum ættartölum kallast Torfi sýslumaður, en eigi hefi eg sèð dóma hans. – Eptir 1585 mætti vera að Torfi hefði um hríð haldið Ísafjarðarsýslu norðurpart, en óvíst hvort öðruvísi en í umboði Magnúsar. Hákon Árnason tjáist og að hafa haldið norðurpart þeirrar sýslu um hríð. — Síra Jón Ólafsson í Melanesi nefnir Torfa sýslumann í Ísafjarðarsýslu, líkast í umboði Magnúsar, er fluttist á Rauðasand 1580 búferlum frá Ögri, og lögsögu Magnúsar hafði hann um hríð í suðurhluta Barðastrandarsýslu, sem áður er sagt.

## Ormur Jónsson.

Til að vita rètta undirstöðu um ætt hans, sem mörgum er mjög ókunn, er þetta: Annálar, fræðibækur og ættartölur segja, að Þórður Sigmundsson á Núpi, sem átti í deilu við Björn Jórsalafara Einarsson, hafi gipt Ólöfu dóttir sína Ara Guðmundssyni, og meinast, að tèður Ari hafi verið faðir Guðmundar ríka á Reykhólum, sem átti Helgu, dóttur Þorleifs og Vatnsfjarðar-Kristínar (dóttir Guðmundar og Helgu var Solveig, er seldist arfsali Guðmundi og Ara Andrèssonum). Andrès var launsonur Guðmundar ríka.

*Kona* Andrèsar var Þorbjörg, dóttir Ólafs yngra Tóna Geirmundssonar; þeirra.

*Börn:* 1. Ari, sem átti og bjó á Bæ á Rauðasandi, og gaf þann stað fyrir beneficium, en biskup Ögmundur tók Bæ til sín og gaf hann burt. — Þórdís Gísladóttir var kona Ara, þau voru barnlaus.

2. Bjarni Andrèsson fyrri maður Guðrúnar eldri, móður Eggerts lögmanns Hannessonar.

3. Guðmundur Andrèsson giptist Jarðþrúði dóttur Þorleifs hirðstjóra, sonar Björns ríka og Ólafar Loptsdóttur; þeirra börn:

α. Þorleifur[1].
β. Síra Ólafur[2].
γ. Þorsteinn[3].
δ. Ormur.[4]
ε. Eiríkur[5].
ζ. Ólöf[6].
η. Guðrún[7], hún var laundóttir Guðmundar.

Þorleifur Guðmundsson (α) giptist Ingibjörgu dóttur Jóns Erlingssonar og Ingibjargar Árnadóttur[8], sem bjó undir Skálmarnessmúla, en þessi Erlingur var sonur Þorgeirs í Ögri, Ólafssonar, Loptssonar ríka[9].—Ingibjörg tjáist systir Ingu, sem Glaumbæjar-Teitur átti. — Þorleifur bjó í Þykkvaskógi í Dölum; hann drukknaði 1536 í Rifi undir Jökli og tveir synir hans, en

---

1) Þorleifur bjó í Þykkvaskógi, átti Ingibjörgu dóttur Jóns undir Múla á Skálmarnesi Erlingssonar; er þeirra getið hèr að framan.

2) Síra Ólafur í Hjarðarholti var prófastur í Dölum og sýslumaður í Strandasýslu (sjá þar um hann).

3) Þorsteinn, seinasti maður Þórunnar, dóttur Jóns biskups Arasonar.

4) Ormur átti Guðlaugu Brandsdóttur, bróður Marteins biskups.

5) Eiríkur bjó í Ásgarði, átti Guðrúnu Gunnlaugsdóttur, launsonar Teits ríka í Bjarnanesi Gunnlaugssonar.

6) Ólöf átti Ívar son Narfa ábóta á Helgafelli.

7) Guðrún átti Bjarna Sumarliðason á Fellsenda.

8) Eg veit ekki hvað hefir heitið kona Jóns Erlingssonar yngra, en kona Jóns Erlingssonar eldra var Ingibjörg Hákonardóttir.

9) Það hefir áður verið sýnt, að það getur ekki staðizt, að Erlingur hafi verið son Þorgeirs sonar Ólafs Loptssonar.

Ingibjörg kona Þorleifs náðist á floti, því hún var ólètt; börn Þorleifs og Ingibjargar voru:

a. Síra Jón[1].
b. Bjarni[2].
c. Bjarni annar[3].
d. Guðmundur[4].

Ingibjörg ekkja Þorleifs erfði Ingu systur sína, náði þó eigi arfinum af Teiti, utan síra Jón son hennar náði 1 hundraði hundraða og XL hundruðum; hin börnin voru ung og framkvæmdarminni; og Ögmundur biskup sölsaði að lokum fjármuni Teits, þá er hann deyði.

*Faðir* öndverðlega nefnds Orms var síra Jón Þorleifsson fyrnefnds í Þykkvaskógi; þessi síra Jón hèlt Vatnsfjarðarstað eptir síra Jón Eiríksson og fèkk þann stað fyrir 1546, en sleppti Vatnsfirði og tók Gufudal 1564, þegar síra Jón Loptsson tók Vatnsfjörð.

*Móðir* Orms og kvinna síra Jóns Þorleifssonar var Sigríður Guðmundsdóttir úr Borgarfirði af lágum stigum, móðir hennar var Helga Sigurðardóttir.

*Systkini* Orms Jónssonar voru:

1. Þorleifur Jónsson (átti Múla á Skálmarnesi 60 hndr.), hans kvinna var Hallbjörg Björnsdóttir (systir Hannesar[5] Björnssonar; börn;
   α. Einar Þorleifsson (átti hálfan Múla), hans kona Guðrún dóttir Þorláks sýslumanns Einarssonar á Núpi í Dýrafirði, þeirra börn:

---

1) Sjá hèr rètt á eptir.

2) Bjarni eldri átti Sigríði dóttur Jóns Þórðarsonar og Ragnhildur Einarsdóttur frá Hvanneyri.

3) Bjarni yngri átti Þórdísi, dóttur Guðmundar Guttormssonar í Gröf.

4) Guðmundur í Stóraskógi átti fyrst Sigríði dóttur síra Ólafs Magnússonar á Stað á Reykjanesi, síðan Kristínu Sigurðardóttur að norðan hjá abbadís Solveigu.

5) ɔ: í Snóksdal.

a. Þórólfur Einarsson (átti hálfan Múla), hans kona Þorkatla, dóttir Finns í Flatey, þeirra börn:
 a. Ragnhildur[1].
 b. Ingibjörg[2].
b. Þorleifur.
c. Þorlákur; druknuðu báðir.

β. Björn Þorleifsson, átti Helgu Guðmundsdóttur frá Sölvatungu; þeirra börn:
a. Guðmundur.
b. Hallbjörg; bæði barnlaus.
c. Sigríður, giptist síra Ásgeiri[3] í Tröllatungu Einarssyni prests frá Stað í Steingrímsfirði, börn:
 a. Snorri[4].
 b. Einar[5].
 c. Helga[6].
 d. Björn.
 e. Helga.
d. Guðrún Björnsdóttir átti síra Arna bróður síra Ásgeirs; hann missti prestinn, áður en hann giptist, og átti tvö launbörn, bjó svo á Ósi í Steingrímsfirði; hans börn voru þessi:
 a. Helga[7].

---

1) Ragnhildur átti fyrst síra Erlend Einarsson í Hjarðarholti; barnlaus; svo Þórð Steindórsson frá Ingjaldshóli.

2) Ingibjörg átti síra Nikulás í Flatey Guðmundsson.

3) Síra Ásgeir var prestur 69 ár, dó 1702.

4) Síra Snorri í Tungu, hann dó 1717, átti Gunnhildi Bjarnadóttur.

5) Einar á Heydalsá, lögrèttumaður, átti Gróu Jónsdóttur að norðan.

6) Helga átti síra Sigurð Hallsson á Rafnseyri.—Fleiri voru börn síra Ásgeirs og Sigríðar.

7) Helga Árnadóttir átti Ásgeir snikkara á Ósi Sigurðsson.

b. Guðrún[1].
c. Guðrún önnur.
d. Sigríður[2].
e. Björn.

γ. Jón Þorleifsson, átti Kirkjuból á Bæjarnesi, hans fyrri kona Helga dóttir Bjarna Magnússonar; þeirra börn:

a. Þorleifur, átti fyr Valgerði Torfadóttur[3]; börn:
a. Guðrún[4].
b. Jón.
Svo Steinvöru Andrèsdóttur[5], börn:
c. Þorlákur[6].
d. Valgerður[7].

b. Hallbjörg átti fyrr Steindór Eiríksson, þeirra börn:
a. Eiríkur.
b. Helga[8].
c. Jón[9].
Svo átti Hallbjörg Jón sýslumann Ólafsson[10], börn:
d. Steindór.
e. Ólafur.
f. Jón.

---

1) Guðrún átti síra Bjarna í Árnesi Guðmundsson.

2) Sigríður og önnur Guðrúnin voru laundætur síra Árna.

3) Valgerður var dóttir síra Snæbjarnar á Kirkjubóli sonar Torfa sýslumanns Jónssonar (sjá hèr að framan).

4) Guðrún átti Snorra Jónsson, Halldórssonar frá Fróðá.

5) Steinvör var úr Eyjafirði.

6) Kona Þorláks var Þóra, dóttir Snæbjarnar Torfasonar prests Snæbjarnarsonar.

7) Valgerður átti síra Einar í Aðalvík Ólafsson.

8) Helga átti Pètur son Guðmundar Þórarinssonar frá Melum.

9) Jón átti Þuríði dóttur Ólafs Bjarnasonar.

10) Sjá Snæfellsnesssýslu.

g. Guðrún.

h. Einar Þorleifsson yngri[1], átti Skáleyjar 40 hndr.; hans kona Ragnhildur Eiríksdóttir, systir Steindórs Eiríkssonar; Einar druknaði á Breiðafirði. — Þeirra son:

a. Einar, heitinn eptir föður sínum, varð úti á Hallruna á haustkrossmessu 1632 í fjúki, barnlaus; erfði svo Ragnhildur Skáleyjar og giptist aptur Arna Gíslasyni, Jónssonar á Svarfhóli Ólafssonar; þeirra dætur:

b. Ragnhildur.

c. Halldóra, barnlaus.

ε. Þórunn Þorleifsdóttir átti síra Árna[2] í Látrum prest yfir 50 ár, þar og í Tröllatungu, Jónsson; börn:

a. Snæbjörn átti Guðrúnu Sigmundsdóttur frá Fagradal, börn:

a. Gísli[3].

b. Guðrún[4].

c. Páll.

d. Gunnlaugur.

e. Þórunn.

f. Guðrún önnur.

b. Snæbjörn[5], átti Jórunni Stígsdóttur prests Jónssonar; þeirra börn:

---

1) Hann var í Skáleyjum.

2) Síra Árni varð 95 ára, dó 1655.

3) Gísli átti Gróu Gísladóttur Steinssonar í Látrum.

4) Ein Guðrúnanna (því sumir telja þær þrjár) átti Jón Arnórsson Ásgeirssonar; Jón var lögrèttumaður, bjó í Ljáskógum.

5) Kona Snæbjarnar hèt Þórunn Jónsdóttir, Stígssonar prests á Miklabæ.

𝔞. Þórður[1].
𝔟. Þorleifur[2].
𝔠. Einar[3].
𝔡. Þórunn[4].
𝔢. Guðríður[5].
𝔣. Sigríður[6].
c. Kristín Árnadóttir, átti launbarn, Helgu, giptist síðan Guðmundi Ingimundarsyni frá Otrardal.
d. Þorleifur Árnason, barnlaus.
e. Hallbjörg[7].
f. Odda.
ζ. Guðrún.
η. Guðrún önnur, Þorleifsdóttur, giptust ekki, barnlausar.
ϑ. Guðrún, þriðja, Þorleifsdóttir, átti Pál Jónsson; börn.
a. Hallbjörg, giptist austur; dó barnlaus.
b. Sigríður, tvígipt.
5 önnur voru börn Páls.
ι. Sigríður Þorleifsdóttir, átti Eirík Finnsson; barnlaus.
κ. Kristín átti Pètur son Árna Loptssonar; börn:
a. Sigríður.
b. Halldóra.
c. Rannveig; giptust.
2. Síra Guðmundur Jónsson á Stað á Reykjanesi 42

---

1) Þórður átti Steinvöru dóttur síra Ögmundar Torfasonar í Otrardal.

2) Þorleifur átti Herdísi dóttur síra Gísla Einarssonar á Stað á Reykjanesi, barnlaus.

3) Einar átti Höllu Erasmusdóttur.

4) Þórunn átti Bjarna á Látrum Jónsson Þórðarsonar.

5) Guðríður var tvígipt.

6) Sigríður var barnlaus.

7) Hallbjörg og Odda giptust ekki.

ár; dó 1619; átti Halldóru Guðmundsdóttur frá Hvoli í Saurbæ; börn:

α. Síra Einar á Stað á Reykjanesi (sigldur) átti fyr Þóru Finnsdóttur; börn:
   a. Síra Guðmundur í Flatey átti Katrínu Halldórsdóttur; börn:
      a. Jón.
      b. Ragnheiður.
      c. Þóra, etc.
   Síðan átti síra Einar Sigríði Erlendsdóttur sýslumanns Magnússonar; börn:
   b. Síra Erlendur í Hjarðarholti[1].
   c. Guðmundur[2].
   d. Hannes[3].
   e. Þorleifur[4].

β. Tyrfingur Guðmundsson; stúderaði utanlands; var með Commissariis Friðrik Fris og Jörgen Vind; dó áður en hann fèkk embætti; barnlaus.

γ. Jón Guðmundsson, dó ógiptur, barnlaus.

δ. Bjarni Guðmundsson átti Helgu[5] dóttur Halldórs Jónssonar á Svarfhóli í Laxárdal; átti að vísu 5 börn.

ε. Þórdís Guðmundsdóttir giptist síra Arnfinni, Sigurðssyni Arnfinnssonar frá Staðarfelli, og áttu nokkur börn.

ζ. Guðrún Guðmundsdóttir átti síra Halldór Jónsson frá Ferjubakka og nokkur börn.

---

1) Síra Erlendur dó barnlaus.

2) Guðmundur var í Króksfirði, átti Halldóru, dóttur Jóns Þorlákssonar lögrèttumanns.

3) Hannes á Kleifum í Gilsfirði átti Vigdísi, systur Halldóru, er Guðmundur bróðir hans átti.

4) Þorleifur var á Tindum, svo í Garpsdal, átti Guðrúnu Halldórsdóttur Helgasonar.

5) Helga var dóttir Ólafs Jónssonar á Svarfhóli.

η. Svanborg Guðmundsdóttir átti Bjarna yngra Guðmundsson á Dunk og börn.

Síra Guðmundur átti og 3 launbörn.

3. Inga[1] Jónsdóttir þorleifssonar átti barn með Hannesi sveini síra Jóns í Gufudal, var síðar seinni kona síra Halldórs Einarssonar í Selárdal; börn:
   α. Síra Teitur í Gufudal átti þóru dóttur Torfa sýslumanns Jónssonar á Kirkjubóli (sjá fyr); síðar átti hann Hildi Þorgrímsdóttir frá Lögmannshlíð; börn:
      a. Ólöf.
      b. þorgrímur; barnlaus.
   β. Ingibjörg Halldórsdóttir átti síra Ásmund þormóðsson frá Hvammi í Norðurárdal; þeirra börn:
      a. Guðmundur á Stóraholti í Saurbæ giptist 1633 Guðrúnu dóttur Jóns Dans; þeirra dóttir Ólöf, átti Magnús sýslumann á Eyri í Seyðisfirði Magnússon; börn:
         𝔞. Jón.
         𝔟. Jón.
         𝔠. Ingibjörg.
      b. Þóra Ásmundsdóttir; tvígipt; barnlaus.
   γ. Margrèt Halldórsdóttir fyrri kona Guðmundar Árnasonar, Oddssonar, í Drápuhlíð (sjá Dalasýslu).
   δ. Halldóra Halldórsdóttir átti fyr síra Guðmund Einarsson á Gilsbakka, er dó 1587; börn:
      a. Úlfur.
      b. Guðmundur.
      c. þorgerður.
      
      Seinni maður Halldóru síra Jón þormóðsson; börn:
      a. Guðmundur.
      b. Páll í Stapadal.

---

1) Sumir nefna hana Ingveldi; seinni maður hennar Árni Oddson í Syðri-Görðum; barnlaus.

Seinna átti Halldóra síra Jón Styrkársson á Álptamýri.

(Hennar börn urðu bændafólk.)

4. Ingibjörg Jónsdóttir átti Ólaf, son Jóns Ólafssonar í Hjarðardal sýslumanns (sjá hann við Dalasýslu).

5. Karítas Jónsdóttir giptist Árna Narfassyni[1] á Narfeyri; þeirra börn:

α. Jón á Narfeyri silfursmiður, átti fyrr Þuríði Finnsdóttur; þau barnlaus; svo Þórunni Pètursdóttur, ekkju; þeirra börn:

a. Jón, átti Solveigu dóttur síra Arngríms lærða; börn:

a. Síra Jón á Breiðabólstað átti Þuríði Ásmundsdóttur[2] prests; þeirra son síra Ásmundur, sama staðar, og dóttir Solveig.

b. Kristín[3].

c. Málmfríður[4].

d. Ólafur[5].

e. Guðrún[6].

b. Árni í Vífilsdal átti Guðrúnu Símonardóttur.

c. Halldóra átti Sigurð Runólfsson[7] og börn.

β. Þórður Árnason á Narfeyri, þriðji maður Valgerðar, dóttur síra Ólafs Einarssonar (Þórður lærði og sigldi). Þeirra börn:

a. Ólafur á Kjörseyri (hann bjó og í Höfn í

---

1) Narfi faðir Árna var sonur Sigurðar Daðasonar í Bjarnarhöfn.

2) Síra Ásmundur, faðir Þuríðar, var síra Ásmundur Eyjólfsson á Breiðabólstað.

3) Kristín átti Hannes Ásmundsson Árnasonar.

4) Málmfríður átti Þorbjörn Árnason í Tjaldanesi.

5) Ólafur átti Guðrúnu Aradóttur Bjarnasonar á Þorkelshóli.

6) Guðrún var hálfviti.

7) frá Brennistöðum.

Hvammssveit); átti Sigríði Daðadóttur, barnlaus; svo Ástríði dóttur Sigmundar í Fagradal, Gíslasonar frá Staðarfelli, Jónssonar í Galtardalstungu, Ólafssonar prests í Hjarðarholti, Guðmundssonar; þeirra börn:

a. Þórður á Kjörseyri[1].
b. Sigurður[2] á Leirá.
c. Guðrún.
d. Margrèt.

b. Halldór átti Höllu Þórðardóttur; þeirra börn:

a. Þórður í Villingadal.
b. Sigurður á Harastöðum.
c. Þórunn.

c. Gísli Þórðarson í Vífilsdal, hans börn:

a. Páll.
b. Steinunn.

Og tveir piltar, er drukknuðu.

γ. Halldór Indíafari dó utanlands.

δ. Kristín Árnadóttir átti Guðmund á Jörfa í Kolbeinsstaðarhreppi, son síra Þorvaldar Einarssonar á Ferjubakka; þeirra börn:

a. Þorleifur[3].
b. Árni[4].
c. Guðrún; bændafólk.

ε. Rósa, átti síra Lopt Skaptason; barnlaus.

ζ. Ingveldur Árnadóttir átti Jón, son síra Ólafs Einarssonar; þeirra börn:

a. Árni á Dunk.
b. Þuríður. Bændafólk.

---

1) Kona Þórðar var Guðrún Hallkellsdóttir. — Eitt af börnum þeirra var Þórður á Sámsstöðum, faðir Guðmundar föður Helga biskups.

2) Á að vera Sigríður; hún átti nokkur launbörn.

3) Þorleifur átti Steinunni, dóttur síra Ólafs Einarssonar á Helgafelli.

4) Árni sigldi; kom eigi aptur.

*Kona hin fyrri* Orms áðurnefnds Jónssonar var Ragnhildur dóttir Steindórs sýslumanns á Ökrum á Mýrum Finnssonar. Þeirra börn :

1. Steindór átti Margrèti Þorláksdóttur frá Núpi í Dýrafirði og Vigdísar Þórólfsdóttur, barn:
   Ragnhildur átti Eggert á Sæbóli Sæmundsson Árnasonar, Gíslasonar á Hlíðarenda, börn:
   - α, Sæmundur, dó 1666, átti Þuríði Árnadóttur frá Bíldudal, þeirra börn:
     - a, Eggert á Sæbóli lögrèttumaður dó 1719, átti Þorkötlu Jónsdóttur Torfasonar frá Flatey, barnlaus.
     - b, Þuríður átti fyrst Eggert Jónsson. Barn þeirra dó.
       Svo síra Halldór Torfason í Gaulverjabæ; þeirra barn, Eggert, dó eptir föðurinn; erfði hún svo báða menn sína og testamenteraði Ormi sýslumanni Daðasyni allt fèð.
     - c, Sesselja átti Þorgrím í Svínanesi Halldórsson prófasts Teitssonar í Gufudal. Börn:
       - a, Hallbjörg, miðkona Finns Nikulássonar. Börn :
         - α, Nikulás.
         - β, Olafur.
         - γ, Sesselja.
       - b, Guðrún
       - c, Þóra.
       - d, Ástríður Sæmundardóttir.
   - β, Sigríður Eggertsdóttir átti Þorleif stúdent Magnússon í Haga, þeirra einbirni:
     Ástríður kona Ara sýslumanns Þorkelssonar.
   - γ, Helga Eggertsdóttir átti Snæbjörn Torfason prests frá Kirkjubóli Snæbjörnssonar. Þau giptust 1658, og bjuggu í Bæ í Króksfirði, Snæbjörn var lögrèttumaður og dó 1666. Þeirra börn:
     - a, Þóra átti Þorlák Þorleifsson[1], börn:

---

1) frá Kirkjubóli á Bæjarnesi.

a, Síra Þorleifur á Laugabóli faðir Ingibjargar konu síra Þorbergs[1].
b, Jón eldri, hans laundóttir Guðrún átti Magnús Ólafsson í Súðavík.
c, Sigfús giptist og átti börn.
d, Jón yngri giptist og átti börn.
e, Snæbjörn átti Guðnýu og börn.
f, Sæmundur átti Helgu Bjarnadóttur, þeirra son Bjarni.

b, Eggert Snæbjörnsson á Kirkjubóli átti fyr Guðrúnu Þorkelsdóttur (aðrir Þorsteinsdóttur) þeirra börn:

α, Margrèt átti Teit sýslumann Arason (sjá hèr síðar).
β, Jón á Kirkjubóli í Langadal átti Margrèti og börn:

a, Steindór.
b, Brynhildur.
c, Þorsteinn.
d, Sigfús.
e, Ólafur.
f, Jón.

Seinni kona Jóns, Ingibjörg Guðmundsdóttir, þeirra son Jón á Broddanesi.

c, Elín Snæbjörnsdóttir, ógipt, barnlaus.

δ, Margrèt Eggertsdóttir átti síra Teit Halldórsson,
ε, Þóra Eggertsdóttir, barnlaus.

*Seinni kona* Orms Jónssonar var Ragnhildur Oddsdóttir frá Borg í Borgarfirði, þeirra börn:

2. síra Jón á Kvennabrekku átti Jórunni Gísladóttur Jónssonar og Þuríðar Vigfúsdóttur frá Galtardalstungu, þeirra börn:

α, Magnús prestur á Kvennabrekku, varð sýslumaður í Dalasýslu.

---

1) Einarssonar frá Eyri; sonur síra Þorbergs var síra Hjalti, faðir síra Ólafs, föður Bergs landshöfðingja.

β, Karítas átti Þórð son Hannesar í Snóksdal, Eggertssonar sama staðar, Hannessonar Björnssonar, þeirra börn:

a, Hannes í Arnarbæli átti Þorbjörgu Pálsdóttur, barnlaus, svo Guðlaugu Bjarnadóttur Bjarnasonar, þeirra barn:

Þorbjörg átti Ara Teitson, börn: Teitur og Þórunn, dóu bæði barnlaus; síðan Guðmund Pálsson í Snóksdal, börn:

a, Hannes.

b, Helga.

c, Páll, öll barnlaus.

d, Ari, átti Rannveigu Magnúsdóttur, börn:

α, Þórunn.

β, Guðríður.

γ, Elín.

e, Ólafur Snogdalín[1] átti Steinvöru Þorbergsdóttur, börn

α, Magnús Ólafur.

β, Guðmundur

γ, Þorbergur.

f, Páll Guðmundsson, átti ekkju, dó barnlaus.

b, Halldóra Þórðardóttir, átti fyr síra Vigfús Eiríksson, þeirra börn:

α, Síra Eiríkur átti Margrèti Þórðardóttur, börn:

α, Vigfús.

---

1) Ólafur Snogdalín, bjó á Borg á Mýrum, átti þá jörð og fleiri, fæddur í Snóksdal 1761, 27. desember, dó 1843; hann var hinn mesti ættfræðingur og ágætlega vel að sèr í sögu landsins; hann samdi stóra ættartölubók, er hann einlægt var að auka; sýslumaður Espólín lagði þá ættartölubók til grundvallar fyrir ættartölum sínum. Ólafur var og vel að sèr í stjörnufræði, og samdi bók um það efni, en hún er nú því miður líklega eyðilögð.

β, Ragnheiðnr.

Seinni maður Halldóru var síra Einar Oddsson[1].

c, Guðrún Þórðardóttir, seinni kona Jóns Arnórssonar (sjá Dalasýslu).

γ, Jóhanna Jónsdóttur átti síra Daða Steindórsson, barn:

Ormur Daðason sýslumaður (sjá Dalasýslu)

δ, Vigfús á Leirulæk, dó barnlaus.

3. Sigríður Ormsdóttir átti síra Gunnlaug Bjarnason, barnlaus.
4. Halldóra, af sumum talin laundóttir Orms, átti Kolbein Eyjólfsson Kolbeinssonar, börn:

α, Herdís átti Snorra Þormóðsson.

β, Herdís yngri, átti Einar Eyjólfsson og börn.

5. Ragnhildur, dó í stórubólu barnlaus.

*Launbörn* Orms voru hèr að auki

6. og 7. Grímur og Steindór, drukknuðu barnlausir.
8. Þorsteinn dó í bólu barnlaus.
9. Steindór annar, sem Ormur, nær áttræður, gat með Halldóru Þorsteinsdóttur, þessi Steindór varð aldraður og giptist.

Ath. Nokkrir segja, að Ragnhildur, Orms seinni kona, hafi verið dóttir Þórðar lögmanns Guðmundssonar[2]; en tèð Ragnheiður átti Vigfús á Kalastöðum; hefði hún því átt að hafa verið tvígipt, ef þetta væri rètt, en það er víst skakkt.

Af því sýslumaður Magnús Ketilsson setur Orm sýslumann í Barðastrandarsýslu frá Kleyfum í Gilsfirði til Auðna í Kjálkafirði árið 1589, hefi eg eigi viljað undanfella hann hér, jafnvel þótt eg eigi finni þess getið í bók þeirri, er hann með pagínutali 229 og nr. c vitnar til; mun það hafa verið bókstafavilla, þar eð hann vitnar til bóka, merktra a. b c. d. e. f., en allar þær bækur hafa eigi komið í mínar hendur, og vissu-

1) á Lundi, barnlaus.

2) Það er með öllu rangt.

lega hefir hann haft eitthvað áríðandi fyrir sèr, þar sem hann tiltekur árið.

Ormur bjó í fremra Gufudal, og hygg eg að hann hafi nefnt ár 1589 og, ef til vill optar, verið umboðsmaður Magnúsar sýslumanns Jónssonar, eptir að Torfi á Kirkjubóli sleppti umboði Magnúsar. Magnús átti þá og langt að sækja í suðursýsluna, var orðinn gamall og bjó á Bæ á Rauðasandi, og var stórauðigur maður. Eigi hefir Ormur haft lengur nefnt umboð en til 1591, hafi það verið svo lengi.

Ormur varð mjög gamall maður og í betra lagi ættsæll; eru af honum fjölmennar ættir. Hann var og mikilmenni af sjálfum sèr, þó í bændatölu væri.

### Ari Magnússon.

*Faðir:* Magnús sýslumaður fyrnefndur.
*Móðir:* Ragnheiður Eggertsdóttir fyrnefnd.
*Kona:* Kristín dóttir Guðbrandar Hólabiskups.
*Börn:*

1. Magnús sýslumaður á Reykhólum.
2. Þorlákur, bjó fyrst í Súðavík, svo á Staðarfelli (hann átti þær jarðir og margar fleiri), þaðan flutti hann austur á Rangárvöllu og dó þar 1667. Hann giptist á Reykhólum 1636 (undir eins og síra Jón bróðir hans giptist) Málmfríði dóttur Gísla á Hrafnabjörgum í Hǫrðudal, Björnssonar prófasts og officialis Gíslasonar á Hafgrímsstöðum Hákonarsonar. (Gísli á Hrafnabjörgum hèlt 12 vinnumenn, hafði 3 sel og heyskap í Langavatnsdal). Þorlákur dó 1667 austur á Rangárvöllum, þeirra dóttir:
   α, Helga átti Jón sýslnmann eldra Vigfússon.
3. síra Jón í Vatnsfirði, fæddur 1607, fór í skóla 1619 þá 12 ára; þegar hann útskrifaðist, fór hann á háskólann, og varð maður hálærður, kom út og gjörðist skólameistari í Skálholti haustið 1632; hann þótti stoltur og var lítt harmaður af skólans lærisveinum; hann yfirgaf það embætti 1636 og giptist sama ár á Reykhólum Hólmfríði Sigurðardóttur Oddssonar biskups; voru honum þá talin *fimm hundruð hundraða*, en henni *þrjú hundruð hundraða*;hafði síra Jón fengið sèr veittan Stað á Reykja-

nesi 1635, eptir það skipti hann því brauði við síra Gísla 1636 og hèlt Vatnsfirði síðan, meðan hann lifði. Hann varð mótlættur og guðhræddur maður á sínum elliárum; hann var lengi prófastur, skrifaði og útlagði bækur. Síra Jón dó 1674, fór þá Hólmfríður ekkja hans norður að Hólum til Gísla biskups með dóttur sinni og þeim börnum sínum, er óráðstöfuð voru. Börn:

α, Magnús, borinn 1637 17. september, giptist 1662 (aðrir 1663) í Holti í Önundarfirði Ástríði dóttur Jóns prófasts samastaðar[1]; flutti frá Holti fyrst til Ögurs 1666, og síðan til Vigurs, og bjó þar síðan alla æfi, og gjörðist auðigur; hann þótti maður stirðlyndur og kona hans eins; kom þar að, að þau skildu vegna sundurlyndis, Magnús tók fram hjá henni og voru þau með dómi dæmd sundur 1675. 1688 fèkk Magnús kóngsbrèf upp á að mega aptur giptast. Þá var svo mikill afli í Vigur, að fiskistakkur sá, er Magnús átti og eigi gat selt Ísafjarðarkaupmanni, var metinn 400 vættir, og var honum dæmt frjálst að selja hann hverjum öðrum kaupmanni, sem hann gæti. Börn þeirra Ástríðar voru:

a, Þorbjörg, fædd 1667, átti lögmann Pál Vídalín, hún dó 1737.

b, Kristín dó 1712 átti Snæbjörn Pálsson[2].

Síðan giptist Magnús Sesselju, dóttur Sæmundar Magnússonar Sæmundssonar Árnasonar Gíslasonar, barnlaus. Magnús dó 1702, 66 ára, og var kallaður hinn digri.

β, Helga, borin 1638, átti fyr 1668 Teit Torfason, barnlaus; svo síra Þorstein Geirsson, barnlaus, hún dó 1718.

γ, Ari í Sökku í Svarfaðardal, dó 1698 af vosi og

---

1) Þau höfðu kóngsbrèf, því þau voru þrímenningar.

2) Snæbjörn var kallaður Mála-Snæbjörn, af því að hann var opt í málum.

kulda, átti Kristínu dóttur síra Þorsteins Illugasonar, þeirra börn:

a, Jón[1].

b, Hólmfríður[2].

c, Björg[3].

d, Guðrún[4].

e, Steinvör[5].

δ, Oddur, kallaður hinn digri, var um tíma Reynistaðar klausturhaldari, dó snögglega hjá systur sinni Ragnheiði í Gröf 1712; hann átti Guðlaugu Guðmundsdóttur frá Keldum; þeirra börn:

a, Ingibjörg[6].

b, Guðrún[7].

c, Þórunn[8].

ε, Síra Guðbrandur fæddur 1641, útskrifaðist úr skóla 1661, sigldi til háskólans 1663, kom aptur 1665 og vígðist sama ár 15. október til kapelláns hjá föður sínum, fèkk veitingu fyrir staðnum 1673, dó undir jól 1690. Síra Guð-

---

1) Jón var fyrst djákni á Reynistað, sigldi svo og varð dáti í Kaupmannahöfn.

2) Hólmfríður átti launbarn með Ásgrími syni Einars á Hraunum, átti svo Þorlák Markússon á Sjávarborg. Nefnd laundóttir Hólmfríðar var:

Guðný, hún átti síra Þorvald Gottskálksson á Miklabæ, þeirra son

Gottskálk, settist að í Kaupmannahöfn, hans son

Albert Thorvaldsen, hinn nafnfrægi myndasmiður.

3) Björg átti 1710 Eyjólf Einarsson Eyjólfssonar prests á Lundi. Eyjólfur hèlt um tíma Reynistaðarklaustur.

4) Guðrún átti Vigfús Ólafsson; hann var kallaður Svartifúsi; þau bjuggu á Finnstöðum í Kinn.

5) Steinvör átti síra Jón Einarsson á Skinnastöðum.

6) Ingibjörg átti síra Þorstein Ketilsson á Hrafnagili, barnlaus.

7) Guðrún átti síra Magnús Markússon á Grenjaðarstöðum.

8) Þórunn átti síra Arnbjörn á Undirfelli.

brandur giptist í Bræðratungu 12. sunnudag eptir trínitatis Elinni dóttir Hákonar sýslumanns Gíslasonar lögmanns 1672; að því sama brúðkaupi giptist og Oddur bróðir hans. Elín dó á Leirá hjá dótturmanni sínum Vigfúsi. Börn síra Guðbrands og Elínar voru:

a, Síra Vigfús á Helgafelli, dó 1707 barnlaus.

b, Hákon giptist Ólöfu Jónsdóttur frá Eyri í Seyðisfirði, voru saman fáa daga, dó 1707; hún giptist síðan Sigurði sýslumanni á Hvítárvöllum.

c, Kristín átti Vigfús Jónsson, dó 1733 barnlaus.

d, Helga átti Jón í Vatnshorni Hákonarson, dó 1707 barnlaus.

ζ, Síra Sigurður í Holti í Önundarfirði, fæddur 1743, útskrifaðist úr skóla 1661, sigldi 1665, kom út 1668, var tvo vetur síðan í Selárdal hjá síra Páli til enn meiri iðkunar í grísku og hebresku, vígðist svo 1669 til kapelláns hjá síra Jóni í Holti í Önundarfirði, giptist 1671 Helgu dóttur síra Páls í Selárdal, fèkk vonarbrèf fyrir Holti 1669, og þjónaði því til þess að hann dó 1730, 88 ára. Þeirra börn:

a, síra Sigurður í Holti.

b, Guðbrandur á Gerðhömrum.

c, Ragnheiður kona síra Teits Pálssonar á Eyri.

η, Ragnheiður eldri átti Torfa sýslumann Jónsson í Flatey, sjá hèr síðar.

ϑ, Ragnheiður yngri giptist fyr 1674 Gísla Þorlákssyni, Hólabiskupi, svo Einari biskupi Þorsteinssyni 1696, 13. september, voru henni þá talin 3 hundruð hundraða og 90 hndr. í föstu og lausu, en honum (Einari biskupi) 6 hundruð hundraða, voru þau saman mánuð, til þess biskup dó; sjálf dó hún 1719, 69 (Markúsarannáll 66) ára barnlaus.

ι, Anna, kölluð hin digra, átti síra Ólaf Þorvarðarson á Breiðabólstað í Vesturhópi, hún dó 1722.

Börn:
a, Gísli[1].
b, Helga.
c, Valgerður.
d, Sigríður.
e, Solveig.
Af þeim er komið margt manna.

4. Halldóra Aradóttir giptist 1622 (Jón sýslumaður Jakobsson segir 1621[2]) Guðmundi sýslumanni Hákonarsyni, sjá Húnaþing.
5. Helga, fædd 1604, dó í Ögri 1632, 28 ára, barnlaus.

Ari er borinn 1571, var snemma bráðgjör og umsvifamikill og mannaðist vel eptir þeirrar tíðar hætti; er meining manna, að hann hafi haft hálfa Strandasýslu, sem þó er óvíst, móts við Staðarhóls-Pál um 1590, en Barðastrandarsýslu tók hann eptir föður sinn 1592. 1594 reið Ari norður að Hólum (að sagt er með 18 sveina, alla 18 vetra) og gjörði boð fyrir Guðbrand biskup; hann kom út og bauð Ara inn. Ari afþakkaði það að svo stöddu, en hóf upp bónorð sitt, og bað sèr til ekta dóttur hans Kristínar; biskup tók seinlega undir það, þótti maðurinn drembilátur, og þá er eigi gengu kvonbænirnar, kvaddi Ari biskup og steig á bak með sína fylgjara, en vildi eigi þiggja að ganga til stofu. Kristín dóttir Guðbrands biskups hafði staðið við glugga, virt Ara fyrir sèr, meðan þeir biskup töluðust við, leizt henni vel og höfðinglega á manninn; er sögn, að þegar biskup hafi gengið inn frá samtali við Ara, hafi Kristín mætt föður sínum og spurt hann að erindi Ara; biskup sagði henni það, og þar með, að hann heldur hefði gefið honum afsvar; þá hefði Kristín sagt, að eigi hefði

1) Gísli átti Guðrúnu Grímsdóttur frá Guðrúnarstöðum. Þau voru barnlaus. Auk Gísla áttu þau síra Ólafur og Anna Þorvarð, er dó ungur, og Kristínu, er dó ógipt og barnlaus um tvítugt; þegar hún dó, dreymdi Pál lögmann Vídalín vísu þessa: Kristín liggur í kistu lík, kallaði vífið dauði, presturinn grætur gullhlaðsbrík, en Gísli fagnar auði.

2) sjá A. bls. 550.

hann það vel gjört, eða hvar hann mundi fá sèr til handa Ara jafnoka. Biskup, sem var bráðlyndur, sansaði sig, og þá er hann varð var við, að hún vildi eiga hann, skaut hann hesti undir þènara sinn, sem ríða skyldi eptir þeim Ara hið bráðasta, með þeim biskups orðum, að Ari gerði svo vel og ríða aptur heim að Hólum; erindi hans skyldi fá góðan framgang. Þeir Ari höfðu riðið tómlega, og er honum komu þessi orð biskups, sneri hann heim að Hólum; var honum þá vel fagnað af biskupi, sem gekk móti honum og leiddi hann inn; gengu þá og greiðlega saman kaupin, var þá Ari 23 ára, en Kristín 18 vetra. (Sú sögn, að Ari hafi verið í þessum kvonbænum með 18 sveinum öllum 18 vetra, og að hann þá sjálfur hafi verið 18 vetra, er lítt sönn; því þá hefði það átt að vera 5 árum fyr en hèr segir og Kristín 13 vetra, nema hafi hann fyrir svo löngu trúlofazt henni). Ari giptist, sem áður er sagt, 1594 og reið vestur með konu sína[1].

1) Þessi saga um kvonfangsreið Ara norður að Hólum er víst sönn; eg man, að móðir mín, er margar sögur kunni um forfeður sína og frændur þeirra, sagði mèr hana eitt sinn, en hún gat ekkert um, hve margir eða hve gamlir fylgdarmenn Ara hefðu verið, eða hve gamall Ari sjálfur hefði þá verið, eins og sá viðbætir er auðsèn seinni tilbúningur; þar á móti sagði hún, að Ari hefði verið kominn vestur á Vatnskarð, er sendimaður biskups náði honum. Það virðist annars hafa verið venja höfðingja um þessar mundir, er þeir fóru að biðja sèr kvonfangs, að vilja ekki koma inn, fyr enn þeir fengju að vita, að þeim gengi erindi sitt. Svo var það og um Odd biskup Einarsson, að þegar hann reið heiman að frá sèr úr Skálholti norður að Holtastöðum til að biðja Helgu, dóttur Jóns sýslumanns Björnssonar og hann var kominn heim að Holtastöðum, gjörði hann boð fyrir bónda og bað hann finna sig út; þegar Jón kom út, sagði biskup honum þegar erindi sitt, að hann væri kominn til að biðja Helgu dóttur hans; Jón bauð þá biskupi inn, en biskup afþakkaði að gjöra það fyr en hann fengi að vita, að sèr gengi erindið; fór þá Jón inn aptur, og inn í hús þar sem Helga dóttir hans var að sauma, og ávarpaði

Staðarhóls-Páll hafði um þann tíma norðurpart Ísafjarðarsýslu, en þeir Þorlákur og Gissur vesturpartinn. Þorlákur dó 1596 og Gissur 1597, en Staðarhóls-Páll 1598, svo öll Ísafjarðarsýsla losnaði þá; var Ara þá veitt tèð sýsla. Þar að auki hafði hann að láni 50 kóngsjarðir; gjörðist hann þá hinn mesti höfðingi, bjó í Ögri, hafði og Ögursþing, í hverjum hann hèlt prest, er hann launaði eptir eigin vild; þótti hann hèraðsríkur og fjárgæzlumaður mikill. 1607 hafði hann umboð Guðrúnar, ekkju Jóns lögmanns, og tók þar fyrir 1 hndr. hndr. í jörðum. Ari keypti og fjölda jarða, meðal þeirra voru Reykhólar, keyptir af sýslumanni í Vaðlaþingi fyrir 1 hndr. hndr. í öðrum jörðum, og 1608 Prestbakki, Fell á Fellsströnd og Túngarður, og svo fyrir 1 hndr. hndr. í jörðum. Börn sín mannaði Ari vel; Halldóru kom hann til fósturs að Hólum. Hann varð oddviti fyrir drápi Gaskóna á Vestfjörðum 1615, og er mælt að hann hafi haft sinn fullan hlut af fè þeirra, sem annarstaðar, þar sem hann kom því við. 1620 10. desember að Ögri við Ísafjörð samdi Ari fjárskilmála millum sonar síns Magnúsar og ríku Þórunnar, sem hann útvegaði honum til ekta. Var Gísli lögmaður Hákonarson fyrir hönd Þórunnar, sem þá var ekkja Sigurðar Oddssonar biskups. Taldi Ari Magnúsi syni sínum til kvonarmundar í fasteign 1 hndr. hndr. og LLX hndr. (110 hndr.), en í lausafè ii hndr. hndr., en lögmaður taldi Þórunni V hndr. hndr. í fasteign, X hndr. fátt í 1 hndr. hndr. í málnytu kúgildum, 1 hndr. hndr. í silfri og 1 hndr. hndr. í þarflegum peningum, til samans VIII hndr. hndr. Gísli lögmaður tilskildi við Ara sýslumann, að allur kostnaður utan lands og innan, sem Ari hefði haft fyrir syni sínum Magnúsi, samt það, sem hann þurfti að borga fyrir þeirra giptingarleyfi, skyldi niður falla. Einnig var Ari 1636 fyrir hönd síra Jóns sonar síns, þá er hann fèkk Hólmfríðar dóttur Sigurðar og áðurnefndrar Þórunnar ríku; taldi hann þá

---

hana með þeim orðum: »biskupinn í Skálholti er kominn að biðja þín, dóttir góð; hvað á eg að segja honum?« Hún svaraði: »ekki er í kot vísað; segðu honum, að eg mun taka honum«.

syni sínum til kvonarmundar V hndr. hndr. í föstu og lausu, en Þórunn taldi dóttur sinni III hndr. handr. í föstu og lausu, því þá var Magnús, seinni maður Þórunnar, dáinn, en Þórunn flutti þar eptir að Galtalæk, og dó þar 1674.

Oddur biskup og Ari voru hèr á landi í þeirra tíð hæstir menn, og er mælt, að þeir hafi borið höfuð yfir allan þingheim. Ari varð á sínum elliárum mjög þungfær og hèlt lögsagnara í Ísafjarðarsýslu; til síns dauða hafði hann þá sýslu, en afstóð Barðastrandarsýslu við Björn bróður sinn 1598.

Ara mikillæti, þá er Guðmundur Hákonarson, sem síðar varð Þingeyra klausturhaldari og sýslumaður Húnvetninga, vildi fá Halldóru dóttur hans til ekta, er vikið á í lífsöguágripi Guðmundar, og er mælt, að svo hafi verið stórmennska hans við sýslubúa og undirmenn sína, að enginn hafi þorað að leggja í aðra skál, en hann vildi.

Þau Ari og Kristín voru saman í hjónabandi 58 ár; hann kallaðist að hafa verið konungs umboðsmaður í 62 ár, hefir hann þá fengið hálfa Strandasýslu 1590, Barðastrandarsýslu 1592, Ísafjarðarsýslu 1598, er hann hèlt í 55 ár. Ari dó í Ögri 1652 á 81. aldursári og Kristín kona hans hálfri annari viku síðar 11. október 1652, 76 ára gömul; þóttu þau hjón hafa verið messu merkismenn í sinni tíð. Ari var og vel lögkænn maður, en ekki skeytti Halldóra Guðbrandsdóttir um forsjá hans fyrir Hólastól, þá er Ari frambauð hana. Í sögu Jóns, Indíafara 3. parti, segir við árið 1644, eða nálægt því, að Ari sýslumaður hafi haldið Ísafjarðar og Strandasýslu, einnig Stranda- Isafjarðar- og Aðalvíkurjarðir; þar eptir hèlt Jón Ólafsson, sem áður hafði Stapasýslu og -umboð, tèðar jarðir um hríð, svo síra Torfi 5 Álptafjarðarjarðir 2 ár, þær tók Ari aptur. Nokkru seinna byggði Ari eina þeirra jarða, sem var Eyrardalur við Alptafjörð, Jóni Ólafssyni 1640. Hèraf sèst, að Ari hefir haldið Strandasýslu um og eptir 1640.

Í annari bók stendur: Ari og Kristín deyðu 1652, hún 3., hann 12. október; þá var Kristín 78 ára, hafði hún verið 9 vetra, þá er Halldóra móðir hennar andaðist, 1586 hefir hún gipzt 18 vetra, en Ari hefir þá verið 23 ára.

### Björn Magnússon.

*Faðir:* Magnús sýslumaður Jónsson í Ögri og Saurbæ.

*Móðir:* Ragnheiður Eggertsdóttir lögmanns Hannessonar.

*Kona fyrri:* Sigríður dóttir Daða Bjarnasonar á Skarði og Arnfríðar (hún dó 1644), dóttur Benidikts ríka á Möðruvöllum Halldórssonar prests Benidiktssonar Grímssonar; Bjarni á Skarði, faðir Daða, átti Sigríði dóttur þorleifs lögmanns Pálssonar. Bjarni á Skarði var sonur Odds í Öskjuholti, er átti Sesselju[1] dóttur Orms Einarssonar; en faðir Odds var Tómas á Borg, sem átti Guðrúnu dóttur ríka Fúsa á Borg, þórðarsonar; faðir Tómasar var Oddur Sigurðarson, sem átti Oddnýju Finnsdóttur frá Ökrum Pèturssonar. Faðir Sigurðar á Hvoli í Saurbæ var Geirmundur Herjólfsson, sem átti Guðrúnu, dóttur Ólafs fyrra Tóna, þorleifssonar, Svartssonar á Reykhólum (þessi Sigurður á Hvoli var bróðir Ólafs seinna Tóna, Geirmundssonar á Rauðamel)[2].

*Son* Björns og Sigríðar var Eggert ríki á Skarði, sýslumaður á Barðaströnd; sjá hèr síðar.

*Kona seinni:* Helga dóttir síra Arngríms lærða prófasts á Melstað og Solveigar kvennablóma Gunnarsdóttur á Víðivöllum í Skagafirði, Gíslasonar. Helga var fædd 1599, giptist 1617, dó 25. des. 1646.

*Börn:* 1. Síra Páll lærði, prófastur í Selárdal, fæddur 1620, fèkk Selárdal 1645, dó 1706, giptist Helgu Halldórsdóttur lögmanns Ólafssonar. (Síra Páll í Selárdal var haldinn hinn lærðasti klerkur hèr á landi í sinni tíð[3], annar en biskup Brynjólfur; það er orðfleygt, að þá er biskup og Páll fundust eitt sinn, og voru í djúpustu samræðu í austurlanda tungum, hafi biskup þórður, er þar var nærstaddur, lagt orð til; hafi þá biskup Brynjólfur sagt: þegi þú, barn, meðan lærðir menn tala). Börn síra Páls og Helgu:
α. Síra Halldór fèkk Selárdal 1706, dó 1733, 80

1) Aðrir: Katrínu.

2) Björn taldi sèr til giptingar við Sigríði V hundruð hundraða, en Daði gaf henni III hundruð hundraða.

3) Hann var baccalaureus artium.

ára, átti 1684 Ingibjörgu dóttur Magnúsar sýslumanns Magnússonar á Eyri í Seyðisfirði[1]; barn: Björn á Sveinseyri, átti Ólöfu Jónsdóttur, barnlaus.

β. Helga, átti 1672 síra Sigurð Jónsson frá Vatnsfirði; börn[2]:

a. Síra Sigurður.

b. Guðbrandur.

c. Ragnheiður.

γ. Þóra, átti Árna í Bíldudal Guðmundsson; börn:

a. Helga, átti fyrst launbarn með Magnúsi kapteini Arasyni, það dó, síðan átti hún Einar yngra Arason[3]; þau barnlaus.

b. Steinunn, hennar launson með Þorláki Jón, átti Brynhildi Jónsdóttur.

δ. Ingibjörg, átti Jón son Magnúsar sýslumanns á Eyri í Seyðisfirði. Börn:

a. Magnús á Eyri, fyrri maður Guðrúnar í Hjarðardal.

b. Ólöf, átti Sigurð sýslumann á Hvítárvöllum Jónsson[4].

2. Sigríður giptist 1651 síra Þorleifi prófasti í Odda Jónssyni; hann dó 1690 (aðrir 1688) 71 árs; þeirra son

Björn, biskup á Hólum, átti Þrúðu dóttur Þorsteins sýslumanns Þorleifssonar sýslumanns Magnússonar sýslumanns; barnlaus.

Helga seinni kona Björns sýslumanns giptist aptur Rauðasandsþinga presti, síra Þorbirni Einarssyni í Kvígindisdal; þótti óyndisgipting; þau áttu eigi börn saman.

Um uppvöxt og mentun Björns sýslumanns vitum vèr ekkert markvert að ritfæra fyrri enn hann tók Barðastrandar-

---

1) Síra Halldór var dæmdur frá embætti fyrir slark og tráss.

2) Sjá um börn Helgu og síra Sigurðar hèr að framan.

3) Einar maður Helgu var Einar son síra Einars á Stað á Reykjanesi Torfasonar.

4) Fyrr átti Ólöf Hákon, son síra Guðbrandar í Vatnsfirði, þau voru saman 3 nætur (sjá hèr að framan).

sýslu 1598 eptir Ara bróður sinn; fór að búa í Bæ, er honum var gefinn í tannfè af Eggerti lögmanni (þar Björn hèt eptir Birni, sem druknaði, bróður Eggerts), en Ragnheiður móðir Björns mun um það leyti hafa flutt að Dal. Björn tók tèða sýslu, sem áður er sagt, 1598, og giptist Sigríði Daðadóttur, er eigi varð langlíf.

1604 var Birni vikið frá sýslumannsembætti fyrir það, að hann var orðaður af Sesselju systur sinni, þar fyrir sór Björn tylftareið fyrir prófasti í hèraði 1604, var sá eiður dæmdur fullgildur á alþingi 1605. — Þingapresturinn, síra Sigurður Einarsson, sem börnin átti 2 með Sesselju, misti prestinn, sigldi, og ílengdist ekki hér á landi.—Meðan Björn var í þessum útistöðvum, var sýslan fengin Pètri Strandasýslumanni 1604–5, en 1605 tók Björn aptur sýsluna og hèlt hana síðan lengi í sífellu. Kvittering á þýzku er útgefin á Bessastöðum af fullmektugum Jóhanns Buchholts, Joachim Sólke, kgl. Majestæts fógeta 1600, hvar í Björn er kvittaður um afgjald sýslunnar 1600, 60 rd., fyrir Álptafjarðarjarðir 14 rd., fyrir sakafall 9 rd., fyrir hríshest og fleira 6 rd.; þá fylgdi og sýslunni Geitagilsparturinn með þeim jörðum, er síra Jörundur átti.—Meðal margra Björns embættisverka, hefir hann útnefnt dóm á Berufirði millum Ara Magnússonar sýslumanns og Pèturs sýslumanns Pálssonar 1604 um Seljanessströnd og var hún dæmd að vera og hafa verið Reykhólaeign, þó Pètur sýslumaður fráskildi hana Reykhólum í skiptum eptir föður sinn, Staðarhóls-Pál.

1620 sór Björn fyrst sinn eið á alþingi; hann hèlt sýslunni fram um 1632, þó hann slepti henni við bróðurson sinn Magnús sýslumann Arason; eigi er samt víst, hvort Magnús varð þá umboðsmaður Björns, eða hann hefir fengið veitingu fyrir henni og Björn aldeilis slept henni.

Sótt mikil gekk yfir landið 1635, og í þeirri sótt andaðist Björn, og hefir hann verið sýslumaður yfir 30 ár.—Björn var haldinn vænn maður, stöðuglyndur og óásælinn, stóð vel í embætti sínu, og bjó í Bæ; auðmaður var hann í góðu lagi; sumir hèldu hann kvennamann.

## Magnús Sæmundarson.

*Faðir:* Sæmundur Árnason á Hóli í Bolungarvík, sýslumaður í Snæfellssýslu; sjá þar um hann.

*Móðir:* Elín Magnúsdóttir sýslumanns Jónssonar.
*Kona:* Sigríður dóttir Þorleifs í Búðardal sonar Bjarna á Skarði, Oddssonar í Öskjuholti, Tómassonar á Borg, Oddssonar á Hvoli í Saurbæ (dó 1516), Sigurðssonar sama staðar, Geirmundarsonar (Sigurður á Hvoli var bróðir Ólafs yngra Tóna á Rauðamel).
*Börn:* 1. Árni, átti Þórunni (aðrir Ólöfu) dóttur síra Þorleifs Bjarnasonar á Söndum; barnlaus. Laundætur Árna með Guðrúnu Gissursdóttur[1]:
α. Guðrún eldri átti Jón Þorkelsson; börn:
a. Halla.
b. Þorkell.
c. Torfi.
d. Guðrún.
β. Guðrún yngri, átti Hálfdán; börn:
a. Kristín.
b. Margrèt.
γ. Jón.
Þessi Árni var um hríð lögsagnari í Ísafjarðarsýslu.
2. Sæmundur Magnússon var og lögsagnari í Ísafjarðarsýslu; sjá þar um hann.
3. Björn.
4. Helga[2].
5. Sigmundur.

Sýslumaður Magnús Ketilsson setur Magnús sýslumann í Barðastrandarsýslu, en nefnir eigi ártalið, og í annari athugasemd nefnir hann þenna Magnús sýslumann í Ísafjarðarsýslu, en ekkert ártal við í hvorugum staðnum, og eigi veit eg, hvað hann hefir þar fyrir sèr haft; verið getur, að þeir bræður Björn og Ari hafi haft hann fyrir umboðsmann sinn, máske eigi utan í stöku tilfellum; en fyrir hvorugri sýslunni meina eg að hann hafi haft veitingu, og eigi haft lengi hvorugs þessara

---

1) Árni vildi eiga Guðrúnu, en móðir hennar Margrèt Sigfúsdóttir Torfasonar setti sig móti því.

2) Helga drukknaði á ferð í Ísafirði, ógipt, barnlaus, er hún sögð að hafa verið kvennval.

sýslumanna umboð; hann lèt dóm ganga í Barðastrandarsýslu 1625 yfir Gísla Gottskálkssyni fyrir barneign með systurdóttur sinni; dæmdist Gísli í fèsektir; málið kom til alþingis, og var þar dæmt, að Gísli skyldi sækja til konungs náðar.—Magnús var á yngri árum til menta settur, fór svo utan ásamt Árna bróður sínum, kom út og mun hafa gjörzt umboðsmaður Björns í Bæ. — Hann og Árni máttu í arfaskiptum í sakna til Eggerts 30 hndr. jarða fyrir siglingarkostnað. Magnús fèkk Hól í Bolungarvík 80 hndr., en borgaði Árna, hinum elzta bræðranna, jarðir til að halda honum. Magnús dó 1635 eða 1636, og þótti höfðingmenni.

### Magnús Arason.

*Faðir:* Ari Magnússon í Ögri sýslumaður; sjá um hann hèr fyrr.

*Móðir:* Kristín Guðbrandsdóttir biskups.

*Kona:* Þórunn ríka, dóttir Jóns sýslumanns Vigfússonar, er síðast bjó á Galtalæk; Þórunn giptist fyrst Sigurði yngra, syni Odds biskups Einarssonar; hann drukknaði með annan mann í Hvítá hjá Oddgeirshólum í Flóa 1617; þeirra dóttir, Hólmfríður, átti 1636 síra Jón Arason í Vatnsfirði.—1620 giptist Þórunn aptur Magnúsi Arasyni á Reykhólum. Þórunn erfði síðast ein systur sínar og foreldri og kallaðist því *hin ríka.* Sínum fyrra manni giptist hún um 1613 eða 1614, bjuggu þau 2 eða 3 ár í Hróarsholti í Flóa, áður Sigurður drukknaði.

*Börn:*
1. Sigurður sýslumaður á Skútustöðum; sjá Þingeyjarþing.
2. Ragnhildur, fædd 1631, giptist 1656 Birni sýslumanni á Espihóli Pálssyni; sjá Vaðlaþing; hún dó 1680, 49 ára gömul.
3. Jón Strandasýslumaður; sjá Strandasýslu.
4. Guðbrandur á Stóru-Laugum; barnlaus; dó 1700.
5. Helga átti Jón sýslumann Vigfússon í Lögmannshlíð; sjá Þingeyjarsýslu.

Um uppvöxt og menningu Magnúsar Arasonar er mèr ókunnugt; eins hvenær hann tók hálfa (að eg meina) Strandasýslu móts við Pètur Pálsson, en víst var það fyrir 1620, og þar eptir hèlt hann alla sýsluna, og óvíst, hvenær eða hvort

hann slepti henni fyrir sinn dauða. Í Barðastandarsýslu finn eg dómsmenn af Magnúsi útnefnda í Svefneyjum 1633, og aptur á Felli í Tálknafirði nefndi hann menn í dóm á tveim þingum 1635. Er líkast að Björn Magnússon hafi slept við hann sýslunni um eða eptir 1630, heldur en Magnús hafi verið Björns umboðsmaður. En af tèðum dómum má sjá, að Magnús hefir verið valdsmaður í allri sýslunni.—Í Strandasýslu hefi eg engan dóm sèð eptir Magnús, þó bæði fræðibækur og síra Þórarinn í kvæði sínu kalli hann Strandasýslumann, sem gefur þá vissu, að hann hafi haldið tèða sýslu.— Fyrir utan sína ríku giptingu með Þórunni, sem skrifað er að hafi átt 38 jarðir, fyrir utan alt lausagóðs, fèkk Ari sýslumaður honum Reykhóla til eignar og ábýlis, og aðra fjármuni nærfelt 4 hundruð hundraða, en Þórunn átti þó helmingi meira fè (8 hundruð hundraða, þar af 5 hundruð hundraða í föstu). Sjálfur var Magnús gróðamaður og höfðingi; var saman við Þórunni á 15. ár í hjónabandi, en dó í yfirgeysandi sótt 1635, fertugur að aldri; þar eptir var Þórunn á Reykhólum í 7 ár; flutti síðan norður að Skútustöðum og dó þar 1674. Ól hún upp þar nyrðra Ragnheiði dóttur sína til þess hún gipti hana 1656 Birni sýslumanni Pálssyni; sjá um Björn sýslumann við Vaðlaþing.—Skráð er að Magnús Arason hafi verið í seinni tíð mikill höfðingi, hèraðsríkur og fjárgæzlumaður. Ari faðir hans keypti honum til bújarðar Reykhóla af Birni sýslumanni Benidiktssyni fyrir 1 hundrað hundraða í öðrum jörðum norðanlands; það kaup framfór 1601; en 1618 keypti Ari sýslumaður af Jón prófasti Guðmundssyni svo kallaða Oddsnauta, er seinna nefndust Skarðseyjar, þá reiknaðar 15 hndr. að dýrleika, fyrir 15 hndr. í Efri-Brunná, og lagði tèðar eyjar sem bóndaeign undir Reykhóla, þegar hann afhenti Reykhólaeignir Magnúsi syni sínum 1620 til kvonarmundar.

Eptir Magnús Arason skiptist Barðastrandarsýsla í suður- og vesturpartinn; get eg fyrr sýslumanna í suðurpartinum.

## A. Í suðurpartinum.

### Magnús Jónsson.

*Faðir:* Jón eldri Dalasýslumaður, Magnússon sýslumanns.

*Móðir:* Ástríður Gísladóttir lögmanns Þórðarsonar lögmanns.
*Kona:* Þórunn, dóttir Þorleifs í Búðardal, Bjarnasonar frá Skarði, Oddssonar (sjá Dalasýslu)
*Börn:* 1. Þorleifur í Haga á Barðaströnd, giptist 1650 Sigríði Eggertsdóttur á Sæbóli, Sæmundarsonar sýslumanns frá Hóli í Bolungarvík, Árnasonar sýslumanns á Hlíðarenda, Gíslasonar. Þeirra dóttir: Ástríður, átti Ara sýslumann Þorkelsson; sjá síðar.
2. Magnús sýslumaður í Ísafjarðarsýslu; sjá þar um hann.
3. Guðríður átti Jón bónda í Flatey, dó 1661, son síra Torfa í Hvammi í Hvammssveit, Finnssonar; börn:
a. Torfi, tvígiptur, sýslumaður á Barðaströnd.
b. Páll dó ógiptur, barnlaus, á Skarði á Skarðsströnd 1681.
c. Eggert, átti Þuríði Sæmundsdóttur Eggertssonar; barnlaus. — Hún átti síðar síra Halldór í Gaulverjabæ; testamenteraði síðast eignir sínar Ormi sýslumanni Daðasyni.
d. Ingibjörg, átti barn með Jóni syni Þorleifs lögmanns Kortssonar, hèt
α. Kristín; giptist síra Arnbirni á Undirfelli í Vatnsdal. Þeirra börn:
a. Þórdís átti síra Eirík[1].
b. Valgerður[2].
c. Jón á Gilj[3].
Ingibjörg þessi giptist 1684 síra Sæmundi Hrólfssyni; börn:
β. Síra Eggert.
γ. Þórunn.
δ. Einar.

---

1) Það er síra Eirík Hallsson í Grímstungu.
2) Launson Valgerðar með Tómasi Tómassyni síra Árni á Bægisá.
3) Síra Jón á Undirfelli.

ε. Jón[1].
e. Ástríður átti síra Snorra Jónsson á Eyri í Skutulsfirði; barnlaus[2].
f. Arnfríður giptist eigi; hennar laundóttir hèt Margrèt.
g. Rannveig átti Einar Gunnlaugsson, bjuggu á eignarjörðu sinni Heggstöðum; börn:
α. Jón hrekkur í Æðey.
β. Guðrún.
γ. Kristín.

4. Elín Magnúsdóttir giptist 1651 Sigurði (hann dó 1690) á Leirárgörðum, syni Árna lögmanns Oddssonar; börn:
a. Bjarni á Heynesi, átti Helgu Gísladóttur; börn:
α. Síra Gísli á Melum í Melasveit.
β. Síra Jón á Holtastöðum.
b. Þorbjörg, átti Sæmund á Innra-Hólmi, son Árna Gíslasonar, er þar var og barnlaus.
c. Margrèt, átti Þórð Pètursson, Þórðarsonar sýslumanns, Henrikssonar; barnlaus.
d. Ljótunn, átti Þorkel Jónsson í Njarðvík; barn: Jón rektor í Skálholti; barnlaus.
e. Árni á Grund í Skorradal, átti Þóru dóttur síra Einars Gíslasonar á Helgafelli; börn:
α. Árni[3].
β. Elín[4].
γ. Magnús[5].

---

1) Sjá um börn Ingibjargar og síra Sæmundar A, bls. 98.

2) Ástríður átti laundóttur, sem hèt Margrèt.

3) Árni bjó á Grund í Skorradal; er sagt, að hann hafi úrkynjast.

4) Elín átti Þorleif Pálmason á Breiðabólstað í Sökkólfsdal. Eitt af þeirra börnum var
síra Einar Þorleifsson í Guttormshaga.

5) Magnús bjó á Indriðastöðum; hans dóttir átti Torfa stúdent á Indriðastöðum; þeirra son
Þórður í Vigfúsarkoti í Reykjavík, á Ragnheiði dótt-

δ. Jón.
ε. Sigríður.
f. Hákon á Leirárgörðum átti laundætur með Jórunni Guðmundsdóttur; hèt
α. Guðný, arfleidd 1704; með Oddnýju Hjaltadóttur:
β. Ásvör, átti Jón á Reyni.
g. Helga Sigmundsdóttir, átti Jón Þórðarson; barn-
h. Guðlaug, átti Pètur Daðason Gam; barnlaus.

Magnús mannaðist vel, giptist síðan og bjó í Miðhlíð á Barðaströnd; en þá er þeir voru dauðir Björn sýslumaður Magnússon og Magnús sýslumaður Arason, fèkk Magnús veitingu fyrir suðurparti Barðastrandarsýslu. Eptir dauða föður síns, 1636, flutti Magnús að Haga á Barðaströnd. Þeir Magnús sýslumaður og Eggert sýslumaður Björnsson á Skarði voru að eignarskipti í Flatey 9. og 13. maí 1644 og settu þar niður þráttanir. Opt voru þeir og saman í dómum og fèll vel á með þeim. — Magnús var maður vel að sèr, auðmaður sæmilegur, og spakur að viti. Hann lèt flytja frá Hagasandi líksteininn yfir Ragnheiði Eggertsdóttur út Bæjarós, hvar flutningsmenn mistu hann og voru sjálfir nær drukknaðir, þar skipinu kastaði um af hörðum straumi; var hans síðan lengi leitað með hverri fjöru, því sand hafði borið yfir hann; loks fannst hann og náðist með miklum erfiðismunum, og var þá færður yfir gröf Ragnheiðar. — Magnús bjó í Haga eptir að hann þangað flutti, og þar dó hann hniginn að aldri 1675 (aðrar fræðibækur segja, að Magnús hafi lifað lengur og í elli sinni farið utan og dáið þar 1683), vitum vér eigi, hvort sannar sé; en ef það er rètt, hefir Björn Gíslason

---

ur Þorgríms á Korpólfsstöðum, Jónssonar, er þar bjó og, Björnssonar justitsráðs á Esjubergi Stephensens; eitt af börnum Þórðar og Ragnheiðar er Þorgrímur læknir í Austur-Skaptafellssýslu, á Jóhönnu dóttur Ludvigs Knudsens í Reykjavík og fyrri konu hans Önnu Steindórsdóttur. Jóhanna átti fyr síra Björn á Sandfelli, son Stefáns alþingismanns Eiríkssonar.

ekki haldið utan vesturpart sýslunnar, en þórður Björnsson gjörzt lögsagnari Magnúsar 1682 við hans utanför, og haldið sýslunni til 1684, þó eigi utan suðurpartinum. - [Blandað mun málum um Magnús Jónsson á Sauðafelli, sýslumann, sem dó 1683, og Magnús sýslumann í Haga, og það því sannara, að Magnús hafi dáið 1675.]

## Björn Gíslason.

*Faðir:* Gísli Magnússon, sýslumaður í Rangárþingi ; sjá þar um hann.

*Móðir:* þrúður, dóttir þorleifs sýslumanns á Hlíðarenda, Magnússonar.

*Kona:* Guðrún eldri, dóttir Eggerts ríka á Skarði.

Hver tekið hafi suðurpart sýslunnar eptir Magnús sýslumann í Haga, er mèr óljóst; þó hygg eg að Björn þá hafi tekið hann. — Björn var fæddur 1650 ; lærði innan og utanlands, kom inn 1671, að vera föður sínum til aðstoðar í Rangárþingi, með von um sýsluna eptir hann ; var Björn svo þar um hríð, gerðist hann vinur mikill Eggerts ríka, þá er saman bar fundum þeirra á alþingi ; kom svo að talað var um giptumál Björns og Guðrúnar eldri Eggertsdóttur, vildi Eggert leggja ósmáll til við, svo ráðahagurinn samandrægist, Bæ á Rauðasandi og miklu meiri fjármuni, einnig umboð sitt yfir Barðastrandarsýslu vesturparti með beztu skilmálum og jafnvel sleppa honum við hann Gísli faðir hans var tregur til jáyrðis þessarar giptingar, þó fór hún fram 1675 og voru rífleg fjárútlát Eggerts; fóru þau síðan að búa á Bæ, og tók Björn Gíslason vesturhluta sýslunnar af Eggerti, og (eg meina) suðurpartinn að veitingu ; vóru þau hjón sögð fèföst, einkum Guðrún harðbýl. Björn þótti að mörgu lagi vel til höfðingja fallinn; hann tók sýsluna, sem áður er sagt, 1675, fèkk síðan meinsemd í kríkann, og dó þar af 1679 ; Guðrún bjó þar ekkja síðan og dó þar barnlaus 1724, 88 ára gömul, hún hafði lengi verið blind og karlæg. — Björn hafði framast við lærdóm í Danmörku, Hollandi og Englandi.—Ritað er, að Guðrún hafi orðið blind í veikindum Björns. 1689, þegar hún bjó í Bæ, ströndudu þar franskir hvalfangarar. þá, er þeir fóru, gáfu þeir Guðrúnu skipbrotin og það, sem þeir ekki gátu

tekið með sèr, þar á meðal 3 tunnur lýsis, fyrir þann greiða, er hún veitti þeim.

### Andrès Andrèsson.

[Sjá um hann við Dalasýslu.]

Eptir lát Björns sýslumanns Gíslasonar, meina eg að Eggert ríki á Skarði hafi tekið alla Barðastrandarsýslu og haft þar fyrir umboðsmann Andrès, 1680 og 1679, en þar Eggert dó 1680, hafi Andrès haldið lögsögunni 1681 í allri sýslunni, en fengið veitingu fyrir vesturpartinum 1682. 1684 fèkk hann veitingu fyrir Snæfellsnessýslu og Stapaumboð, sem þó var aptur kölluð; 1688 var honum veitt Dalasýslu, 1695 fèkk hann sèr veitta Snæfellssýslu og Stapaumboð; 1696 dó hann á heimreið af alþingi.

### Þórður Björnsson.

*Faðir:* Björn, son síra Þórðar í Hjarðarholti í Dölum, Molda-Brandssonar.

*Móðir:* Oddhildur Sigurðardóttir, hún var seinni kona Björns, en fyrri kona hans var Anna Arnórsdóttir frá Ljáskógum.

*Kona:* Sigríður Pètursdóttir Árnasonar[1] í Hvammsdal Loptssonar prests Pèturssonar í Sælingsdals(Víðidals)tungu.

*Börn:*
1. Magnús sýslumaður í vesturparti Barðastrandarsýslu (sjá hèr síðar).
2. Ragnhildur átti síra Egil Helgason á Skarðsströnd, Pèturssonar á Ballará[2], Einarssonar, Teitssonar, Eiríkssonar; börn:
   a. Sigurður í Ásgarði, seinni maður Solveigar[3] Bjarnadóttur Guðmundssonar; börn:

---

1) Árni bjó í Sælingsdalstungu, en faðir hans síra Loptur Pètursson í Víðidalstungu.

2) »Teitur á Ballará« á að falla burtu, því Helgi var bróðir Pèturs en ekki son hans, þeir voru synir Einars Teitssonar Eiríkssonar í Ásgarði.

3) Faðir Solveigar var síra Bjarni á Höskuldsstöðum, son síra Arngríms lærða.

α. Sigurður[1].
β. Bjarni; giptust, áttu börn.
b. Þuríður, átti Magnús Bjarnason; börn:
α. Ragnhildur, átti Arngrím Jónsson[2].
β. Sigríður, dó barnlaus.
γ. Gyríður, átti Teit Guðmundsson; dó barnlaus.
3. Kristín átti Hákon son Árna á Staðarfelli, Gíslasonar (þess, er átti Þórunni Hannesdóttur frá Snóksdal) frá Hrafnabjörgum, Björnssonar prests í Saurbæ í Eyjafirði Gíslasonar; þeirra börn:
a. Þóra, seinni kona Bjarna smiðs á Hrafnabjörgum Þorsteinssonar; börn:
α. Þorsteinn á Hrafnabjörgum[3].
β. Kristín[4].
γ. Guðrún[5].
b. Halldóra, átti síra Þorberg Illugason; barn: Illugi á Laugum, átti Þorbjörgu Magnúsdóttur og börn.
c. Margrèt, átti Einar Helgason Einarssonar; börn:
α. Hákon í Sælingsdalstungu.
β. Pètur á Hóli, átti mörg börn.

Þórður bjó á Laugum í Hvammssveit, síðan í Garpsdal; hann var settur sýslumaður í suðurparti Barðastrandarsýslu 1682–84 (M. K.). Þórður var efnabóndi og meistarasmiður á marga hluti.

## Torfi Jónsson.

*Faðir:* Jón í Flatey á Breiðafirði, dó 1661, son síra Torfa Finnssonar í Hvammi í Hvammssveit.

---

1) Á að vera Sigríður, hún átti Ketil Þorgrímsson.

2) Arngrímur Jónsson var í Hvammssveit.

3) Þorteinn átti Önnu Magnúsdóttur Jónssonar prests í Snóksdal Hannessonar.

4) Kristín giptist, en dó barnlaus.

5) Guðrún var tvígipt, átti fyrst Benidikt Teitsson, síðan Björn Markússon á Seljalandi.

*Móðir:* Guðrún dóttir Magnúsar sýslumanns Jónssonar í Haga.
*Kona fyrri:* Ragnheiður dóttir síra Jóns Arasonar í Vatnsfirði, giptust 1688. Þeirra
*Börn:* 1. Jón, átti danska konu, er Bente hèt, og með henni börn; dó utanlands 1711.
2. Guðríður, átti síra Gunnar Pálsson í Stafholti; dó 1707. Þeirra börn:
a. Páll í Fagurey, skólagenginn, átti Guðríði dóttur Þorleifs Böðvarssonar á Straumi; börn:
α. Einar í Fagurey.
β. Ragnheiður í Purkey.
γ. Guðríður, var tvígipt; áttu öll börn[1].
b. Gunnar, átti Guðrúnu Þormóðsdóttur skálds; þeirra börn:
α. Torfi.
β. Eiríkur.
γ. Ástríður.
δ. Guðrún.
c. Jón, átti fyr Marsibilu; börn:
α. Guðríður.
β. Guðbjörg.
γ. Jón.
Svo átti Jón Sigríði, þau barnlaus.
*Kona seinni:* Ingibjörg Brandsdóttir; þeirra dóttir:
3. Arnfríður, átti Jakob son Hallgríms á Svalbarði, lögrèttumanns; þeirra börn:
a. Hólmfríður, átti Jón smið í Miðhlíð Pálsson; börn:
α. Jakob.
β. Guðrún.
γ. Guðríður.
b. Guðbjörg, átti Jón Jónsson á Langadalsströnd; barnlaus. Hún átti launbarn með Þórði, sem hèt
Guðrún, hún giptist og átti börn.

---

1) δ. Þorsteinn var og son Páls.

c. Hallgrímur, norður á Svalbarðsströnd, lögrèttumaður, átti Guðríði Jónsdóttur ; börn :
α. Guðbjörg.
β. Guðrún.
γ. Kristín.
4. Brandur í Firði og Flatey átti Guðrúnu dóttur Einars á Svínanesi Brandssonar ; börn :
a. Halldóra, átti Þorstein Einarsson í Sviðnum ; börn :
α. Bjarni, hans launson með Ragnheiði Magnúsdóttur
Jón.
β. Brandur í Bjarneyjum átti Ingibjörgu Pètursdóttur ; börn :
a. Brandur.
b. Torfi.
c. Ólafur.
d. Ingibjörg.
e. Halldóra.
f. Kristín.
b. Kristín, átti Guðmund Jónsson í Múla ; barnlaus.
c. Ingibjörg, giptist ekki, barnlaus.

Torfi bjó í Flatey og þótti maður óeirinn ; hann mun hafa verið settur sýslumaður í suðurpartinum 1684, en var orðinn virkilegur 1688 ; það ár bar hann undir lögrèttu úrskurð um ábyrgð á pestdauðum kúgildum. 1690 dæmdi hann um hestabeit á Reykjanesi. Torfi sagði af sèr sýslunni 1700.

### Sörin Mattíasson sýslumanns Guðmundssonar.

Hann þjónaði um hríð á Bessastöðum, fèkk vonarbréf fyrir landþingisskrifaraembætti 1691, tók við því embætti 1695 ; var settur fyrir suðurpart Barðastrandarsýslu þegar Torfi sagði af sèr, 1700 ; flutti til Barðastrandarsýslu sama ár, og dó þar fátækur á sama ári, var því af konungsfè gefið dánarbúi hans 32 rd. spec. 1700.—Sjá Gullbringu og Snæfellssýslur.

### Einar Einarsson eldri.

*Faðir:* Síra Einar á Stað á Reykjanesi, son síra Torfa á Kirkjubóli, Snæbjörnssonar prófasts Torfasonar.

*Móðir:* Ragnheiður dóttir Jóns sýslumanns í Miðhúsum, Magnússonar sýslumanns Arasonar sýslumanns.

Einar giptist ekki, bjó sem gildur bóndi á Miðhúsum hjá Reykhólum; hann fèkk veitingu fyrir sýslupartinum, þegar Torfi frásagði sèr hann 1700. Flæktur við skuldir sagði hann af sèr tèðum sýsluparti 1705, en óvíst er, hvort hann skildist algjörlega við hann fyrri enn hann dó, sem var 1707 í stórubólu.

*Launsonur* Einars við Guðrúnu Þorsteinsdóttur var Einar lögrèttumaður á Svínanesi, fæddur 1705, átti Sesselju dóttur Finns lögrèttumanns undir Múla, sonar síra Nikulásar Guðmundssonar; þeirra börn:

1. Hólmfríður[1].
2. Einar[2].
3. Halldór.
4. Hallbjörg[3].
5. Guðrún[4].
6. Björg[5].
7. Ólöf.[6]

Aðrar ættartölur tjá þó Einar launson Einars yngra á Hóli í Bíldudal, bróður Einars sýslumanns[7].

## Einar Tyrfingsson.

*Faðir:* Tyrfingur son síra Einars Guðmundssonar á Reykjanesi og Þóru dóttur Finns í Flatey.

*Móðir:* Ingibjörg Tómasdóttir á Skarðströnd Jónssonar Þórðarsonar Jónssonar, allt bændafólk.

*Kona:* Ingibjörg Steinsdóttir, bónda frá Látrum.

*Son:* Tómas, í Bæ í Króksfirði, drukknaði á Breiðasundi

---

1) Hólmfríður átti Brynjúlf stúdent Eiríksson prests í Miðdal.

2) Einar á Svínanesi átti Karítas Þórólfsdóttur.

3) Hallbjörg átti Jón Jónsson frá Laugalandi Hallssonar frá Ármóti.

4) Guðrún átti Jón Þórðarson frá Litlanesi.

5) Björg átti Bjarna Bjarnason frá Hrísshóli Rögnvaldssonar.

6) Ólöf var tvígipt og átti börn.

7) Það er víst rèttara.

með skipverjum sínum 1773; átti Guðrúnu dóttir Arnfinns á Hallsteinsnesi Jónssonar á Kollabúðum, allt bændafólk.

*Dóttir:* Guðrún[1], átti síra Eirík á Núpi Ólafsson, börn:
1. Tómas[2].
2. Eiríkur[3].
3. Ingibjörg.
4. Þóra og fleiri.

Einar bjó í Bæ í Króksfirði, efnabóndi góður; hann var hèr settur fyrir suðurpart sýslunnar 1707—8, og máske 1705; en eg efa að hann hefði veitingu. Svenskur verzlunarmaður, Valter, er sagt að hafi gert sýslureikningana,og verið aðstoðarmaður Einars, sem eigi hafði verið vel að sèr í skript og reikningi, þótt góður búhöldur væri.

## Bjarni Pétursson.

*Faðir:* Pètur í Tjaldanesi son Bjarna sýslumanns á Staðarhóli Pèturssonar sýslumanns, sonar Staðarhóls-Páls.

*Móðir:* Þorbjörg, dóttir Jóns sýslumanns í Lögmannshlíð, sjá Norðursýslu.

*Kona:* Elín, dóttir Þorsteins á Skarði Þórðarsonar prests í Hítardal Jónssonar prófasts sama staðar Guðmundssonar lögrèttumanns Jónssonar sýslumanns á Hvoli Þórðarsonar. Elín dó 1746, 14. marz, 68 ára.

*Börn:* 1. Valgerður, átti Þorstein sýslumann Magnússon á Móeiðarhvoli, þeirra einkadóttir Sigríður, gipt Jóni sýslumanni sama staðar. Þeirra börn[4] :
- a, Guðbrandur sýslumaður á Barðaströnd, sjá um hann hèr síðar.
- b, Ragnheiður, átti Helga, um tíma conrector í Skálholti, Sigurðsson. Börn:

---

1) Guðrún var dóttir Tómasar, en ekki systir hans.

2) Tómás á Núpi í Miðfirði átti Þorbjörgu Gísladóttur.

3) Eiríkur á Fremranúpi átti 1808 Agnesi Guðmundsdóttur frá Húki.

4) Sjá um afkomendur Sigríðar og Jóns sýslumanns Rangárþing.

α, Sigríður átti Skúla chirurgus Thorarensen á Móeiðarhvoli.

β, Þorsteinn prestur í Reykholti, drukknaði um 1840, átti Sigríði Pálsdóttur sýslumanns og börn.

γ, Helga átti síra Sigurð Brynjólfsson.

c, Jón lögsagnari á Ármóti átti Höllu Magnúsdóttur Jónssonar bónda, börn:

α, Helga.

β, Jón.

γ, Magnús.

δ, Þorsteinn.

d, Valgerður, átti fyr Hannes biskup Finnsson, börn:

α, Jón.

β, Ólafur.

γ, Þórunn.

δ, Sigríður;

en seinna Steingrím biskup Jónsson, barn:

ε, Hannes.

e, Margrèt, giptist ekki, barnlaus.

2. Eggert átti Ragnheiði dóttur Þórðar prests á Völlum í Svarfaðardal Oddssonar, börn;

a, Síra Jón í Holti, átti Gunnhildi Hákonardóttur[1], börn;

α, Síra Eggert í Skarðsþingum, á Guðrúnu dóttur Magnúsar sýslumanns Ketilssonar, börn[2]:

a, Jón.

b, Friðrik.

c, Stefán

d, Torfi.

β, Ragnheiður, átti kaupmann Jón stúdent Kolbeinsson, þeirra son:

---

1) Síra Hákon var son Málasnæbjarnar, er var svili Páls lögmanns Vídalíns, sjá Ísafjarðarsýslu.

2) Sjá Dalasýslu um börn Magnúsar sýslumanns Ketilssonar.

Pètur stúdent[1].

γ, Valgerður, átti Sigmund, son Magnúsar sýslumanns Ketilssonar, sjá hèr síðar.

δ, Guðrún, ógipt, barnlaus.

ε, Hákon, dó 14 vetra.

b, Ragnhildur átti Magnús sýslumann Ketilsson, börn[2]:

α, Skúli sýslumaður átti Kristínu Bogadóttur, börn:

a, Ragnhildur.

b, Kristján.

c, Kristín.

β, Sigmundur átti Valgerði Jónsdóttur, börn:

a, Valgerður.

b, Sigmundur, dóu.

c, Þorbjörg.

d, Helga.

e, Ragnheiður.

f, Sigríður.

g, Rögnvaldur.

h, Jón.

i, Guðrún.

k, Kristjana.

γ, Karítas giptist fyr Vigfúsi Fjeldsted, börn:

a, Andrès.

b, Eggert.

Síðan giptist hún Páli Benidiktssyni, börn:

c, Þorsteinn.

d, Ingibjörg.

e, Guðrún.

δ, Ragnheiður gipt Birni Einarssyni, börn:

a, Benjamín.

b, Stefán.

---

1) Hann var í Bjarnarhöfn, átti Guðrúnu Jóhannesdóttur, hálfbróður Ara læknis á Flugumýri.

2) Sjá Dalasýslu; þar eru greinilega talin börn Magnúsar Ketilssonar.

𝔠, Jakob.
𝔡, Karólína.
𝔢, Ragnhildur.
𝔣, Ragnheiður.
ε, Jón prestur í Norðurárdal, á Guðrúnu Guðmundsdóttur[1], börn:
𝔞, Magnús.
𝔟, Ragnheiður.
ζ, Guðrún á síra Eggert í Skarðsþingum.
η, Sigríður sigldi, giptist ekki, barnlaus.
ϑ, Helga átti Eggert gullsmið Guðmundsson, börn:
𝔞, Guðmundur.
𝔟, Jón.
𝔠, Pètur.
𝔡, Halldóra.
𝔢, Hólmfríður.
e, Elín Eggertsdóttir, vitskert, giptist ekki, barnlaus.
3. Síra Torfi í Ingjaldshólsþingum, dó ógiptur, barnlaus.
4. Karítas Bjarnadóttir[2] átti Þorstein Pálsson, hún giptist 1741 án foreldra samþykkis; var vænzt konungsleyfis. 1752 gjörðu þau testamenti sín á milli, fengu konunglega staðfestingu þar á. Snemma vetrar 1754 dó Þorsteinn; testamenteraði þá Karítas sýslumanni Magnúsi Ketilssyni Búðardal og Akureyjar; staðfesti konungur það 1765.
5. Þorbjörg átti síra Eggert Ormsson[3] í Selárdal, börn:
α, Eggert í Saurbæ á Rauðasandi, átti Arnfríði dóttur Brynjólfs í Fagradal; börn:
a, Þorvarður dó ógiptur, barnlaus.
b, Þuríður átti Eggert bónda á Heggstöðum

1) Guðmundur sýslumaður í Mýrasýslu, sjá þar um hann.
2) Sumir segja, að Karítas hafi fyrst viljað eiga annan mann, en ekki fengið.
3) Ormur Daðason var sýslumaður í Dalasýslu, sjá þar um afkvæmi hans.

Pálsson, barn:
Eggert.
c, Jóhanna, átti fyr Þórarinn bónda, barn:
α, Eggert.
Síðan Eggert son síra Jóns Ormssonar í Dal, barn:
b, Brynjólfur.
Svo Jón Ísleifsson bónda, barnlaus.
β, Ragnheiður Eggertsdóttir átti síra Jón Ormsson í Sauðlauksdal, börn:
a, Síra Dað á Söndum á Sigríði Þóroddsdóttur, barnlaus.
b, Eggert, átti Jóhönnu Eggertsdóttur, sjá hèr á undan.
γ, síra Bjarni, kapellán föður síns í Selárdal, átti Guðrúnu dóttur Brynjólfs í Fagradal, barnlaus.
δ, síra Torfi kapellán í Flateyjarþingum átti Ragnhildi, dóttur Jóhönnu dóttur Orms sýslumanns, barnlaus. Síra Torfi drukknaði ofan um ís 1785.
6. Brynjólfur Bjarnason í Fagradal[1] átti Ingibjörgu dóttur síra Páls Jónssonar á Melstað, börn þeirra:
α, Elín átti fyr síra Markús Pálsson, barnlaus; svo Magnús sýslumann Ketilsson, barnlaus.
β, Guðrún átti síra Bjarna nýnefndan, barnlaus.
γ, Jórunn giptist ekki, en átti 2 launbörn (sem bæði dóu ung) með skáldinu síra Jóni Þorlákssyni.
δ, Arnfríður fyrnefnd átti Eggert í Saurbæ[2].
7. Þrúður, átti Boga í Hrappsey Benidiktsson, börn:
α, Torfi, dó ungbarn.
β, Benidikt, átti Hildi Magnúsdóttur, börn:

---

1) Um afkomendur Brynjólfs, sjá Dalasýslu.
2) Eggert bjó á Bæ á Rauðasandi, hann var sonur síra Eggerts í Selárdal Ormssonar.

a, Bogi, átti Jarðþrúði dóttur síra Jóns í Holti Sigurðssonar[1].
b, Halldóra, átti Guðmund Scheving.
c, Þrúður, dó á 4. ári.
γ, Margrèt átti laundóttur með Magnúsi, hèt
a, Þrúður, hún átti laundóttur, er hèt Hólmfríður;
svo giptist Margrèt síra Jóni Þorlákssyni[2], dóttir:
b, Guðrún, átti síra Eyjólf í Saurbæjarþingum Gíslason[3], börn:
α, Gísli[4].
b, Jón[5].
c, Þorkell[6].

---

1) Bogi hefir hèr talið upp börn sín og Halldóru systur sinnar, en þeim er hèr sleppt, þar þau eru hèr síðar talin.

2) Þau skildu og fór þá síra Jón norður fèlaus.

3) Síra Gísli var son Ólafs biskups Gíslasonar.

4) Gísli átti Rósu dóttur Björns hreppstjóra í Hjarðarholti Guðmundssonar; þau skildu.

5) Síra Jón var lengi prestur í Aðalvík, átti Guðrúnu Oddsdóttur úr Aðalvík, þeirra börn:
a, Veronika,
b, Hjálmtýr.
c, Þorbjörg, kona Ólafs Sveinssonar gullsmiðs í Reykjavík og fleiri.
Laundóttir síra Jóns með Guðrúnu Guðmundsdóttur úr Vigri:
d, Jensína.

6) Síra Þorkell á Staðarstað á Ragnheiði, dóttur síra Páls í Hörgsdal. Börn:
a, Jón cand. mag. í Kaupmannahöfn, giptur.
b, Páll gullsmiður í Reykjavík, á Helgu, dóttur Árna sýslumanns Gíslasonar.
c, Eyjólfur úrsmiður í Reykjavík á Pálínu, dóttur Páls gullsmiðs Eyjólfssonar.
d, Jón, annar, á Isafirði.

d, Bogi[7].
e, Kristjana[8].
f, Augústína.
Laundóttir Guðrúnar:
g, Kristín[9].
δ, Bjarni átti Jóhönnu Vigfúsdóttur, þeirra börn:
a, Ingibjörg átti fyr Eirík bónda Sigurðsson, börn:
a, Jóhanna.
b, Guðrún.
c, Stefán.
d, Sigríður.
Síðan átti Ingibjörg Jón Ásgrímsson, barnlaus.
b, síra Jóhann, á Sesselju.
c, Þrúður átti Einar assistent Guðmundsson, barnlaus, síðan Jón Þórðarson, barnlaus.
Með Svanhildi Ólafsdóttur átti Bjarni son:
d, Ólaf, giptist Ingveldi Grímólfsdóttur.

Bjarni er fæddur 1681 og var á yngri árum við lærdóm, en þá er Bjarni sýslumaður á Staðarhóli var dáinn, og Staðarhóll var að miklu leyti öðrum byggður, reisti Bjarni þar bú eptir 1700, þá er hann var á tvítugsaldri. Hann giptist undir eins og Brynjólfur Þórðarson Thorlacius árið 1704 Elínu Þorsteinsdóttur og taldi sèr þá til giptingar 13 hndr. hndr., en Brynjólfur 9 hndr. hndr. Í arfaskiptum millum þeirra Þorsteins dætra hlotnaðist Elinni konu Bjarna Skarð, og fór

---

e, Guðbrandur á Isafirði.
f, Bjarni í Ólafsvík.
g, Kjartan á Fossi.
h, Einar í Stykkishólmi.
i, Guðrún kona Holgers Clausens kaupmanns í Stykkishólmi.
k, Matthildur átti Bjarna nokkurn Þórðarson, þau skildu.

7) Bogi hrapaði til dauðs.
8) Kristjana, hennar maður Magnús Nikulásson.
9) Kristín átti Jóhannes Guðmundsson frá Fagurey.

Bjarni þá þangað frá Staðarhóli, og var þar síðan alla æfi, en Brynjólfur fór með þrúði konu sína fyrst að Bæ á Rauðasandi og flutti síðan austur að Hlíðarenda. Bjarni var í sinni tíð haldinn auðugasti maður á Vesturlandi. 1708 tók hann Barðastrandarsýslu suðurpart, og hèlt þar lögsagnara Sigurð Sigurðsson, en frásagði sèr tèðan part 1718; hann sókti mjög eptir 1717 að fá Dalasýslu og bauð til hennar festu 200 rd., en Páll lögmaður Vídalín hafði áður á sama þingi boðið til hennar 96 rd. 3 mörk og hafði hún verið honum tilslegin; því var Bjarna synjað, með því Vídalín mótmælti harðlega hennar uppboði á ný. þá er beinamál föður Bjarna, Pèturs, upp kom, stóð Bjarni fyrir því, og lauk það með því móti, að Bjarni setti til konungs, en fèkk það svar, að Pètur skyldi njóta einfeldni sinnar, en þó lúka 80 rd. þá er móðurfaðir Bjarna, Jón Vigfússon í Lögmannshlíð, dó, fór Bjarni norður til dánarbúsins, en Sölfi Tómasson, er Jón Vigfússon hafði uppfóstrað, en þá var fyrir búinu í Lögmannshlíð, hafði farið eitthvað óvarlega með það, og bað Sölfi Bjarna fyrirgefningar á því 27. maí 1715, en Jón sýslumaður dó í september 1714. 1714 á alþingi sótti þorsteinn Pálsson Bjarna sýslumann um skuldaviðskipti þeirra, og var því vísað til annars þings. Á sama þingi kærði Guðmundur nokkur úr Barðastrandarsýslu, hvar Bjarni hafði lögsögn, það til Bjarna, að þá er hann var í barnsmálum sínum, hefði Bjarni ekki sett sèr talsmann, en togað hár sitt í drykkjuskap, og klipið í nef sèr; var því vísað til rannsóknar í hèraði; kom það síðan fram, að Bjarni bætti manninum 8 rd. Í þesskáttar mörgum smámálum var Bjarni, en engum stórmálum. þá er Bjarni sýslumaður eltist, lagði hann af búskap og fèkk hann Eggerti syni sínum. Bjarni varð karlægur sín síðustu ár; hann dó á Skarði 15. apríl 1768 á 87. aldursári. Bjarni var fríður og höfðinglegur maður ásýndum, gildur en í lægra lagi meðalmaður að vexti, mikill höfðingi að örlæti, og það opt um of, og eyddist honum því fè. Skrifari var hann góður eptir sinnar tíðar máta, einkum á breytta stafi; einnig sæmilega lærður. Drykkjumaður var hann, og sagður kvennamaður; þó átti hann eigi börn utan hjá konu sinni; við öl þótti hann stórgerður. Hann kallaðist yfir höfuð vel viti borinn höfðingi. Erfiljóð ortu eptir hann: prófastur síra Gunnar Pálsson og síra Jón Ólafsson. 1704, 14.

ágúst, að Staðarhóli, afhentu foreldrar Bjarna, Pètur bóndi í Tjaldanesi og þorbjörg kona hans, Bjarna syni sínum til eignar alla jörðina Staðarhól, utan afgipt af Búðey með allri kirkjueign, Sælingdalstungu með jörðinni Saurum, Garpsdal með kirkjueigninni, 30 hndr. í Tjaldanesi, Saurhól, hvaraf þau áskildu sèr afgipt og af jörðum í þingeyjarsýslu, svo hann fái til 3 hndr. hndr. í föstu þá strax.

### Sigurður Sigurðarson.

*Faðir:* Sigurður á Svalbarði sonur Jóns, er var sonur Jóns lögmanns á Reynistað Sigurðssonar.

*Móðir:* Katrín, dóttir síra Jóns skálds í Laufási Magnússonar.

*Kona:* Guðrún dóttir síra Nikulásar í Flateyjarþingum Guðmundssonar.

*Börn:* 1. þorgrímur Mýrasýslumaður, sjá þar um hann.

2. Guðmundur Snæfellssýslumaður, sjá þar um hann.

3. Síra Sigurður í Flatey átti Guðrúnu Tómasdóttur Jónssonar Torfasonar prests í Hvammi í Hvammssveit[1] Finnssonar, börn:

α, Sigurður Vestmanneyjasýslumaður, sjá þar um hann.

β, Ingibjörg, seinni kona síra Sigurðar í Hítarnesi og á Ökrum, Jónssonar Högnasonar, börn:

a, Guðrún, kona síra Tómasar í Garpsdal, eiga börn.

b, þórey kona Gísla stúdents Vigfússonar á Ökrum, börn[2]:

𝔞, Árni.

𝔟, Vigfús.

𝔠, Guðríður.

𝔡, Ingibjörg, dó.

γ, Guðrún, giptist ekki.

4. Ragnhildur, kona merkisbóndans Ólafs Gunnlaugs-

---

1) »Torfasonar prests í Hvammi í Hvammssveit« á að falla burt, því Jón faðir Tómasar var sonur Finns og bróðir síra Torfa.

2) Börn þóreyjar og Gísla eru áður nefnd, A. bls. 125—26.

sonar í Svefneyjum; Gunnlaugur bjó þar og, og var Ólafsson, sá Ólafur bjó í hjáleigu hjá Skarði, Villingadal. Ólafur Gunnlaugsson í Svefneyjum var 95 ára 1783, las hann þá og skrifaði gleraugnalaust. Börn:

α, Eggert vísilögmaður, átti Ingibjörgu Guðmundsdóttur, þau drukknuðu bæði 1768 á Breiðafirði, barnlaus.

β, Jón Ólafsson lærði, lengi í Kaupmannahöfn við lærdómsverk, dó þar ógiptur og barnlaus 1811.

γ, Magnús[1] lögmaður átti Ragnheiði Finnsdóttur biskups, hann dó árið 1800, en hún 1831; börn:

a, Finnur[2].

b, Ragnheiður[3].

c, Guðríður[4], og 9 önnur.

δ, Jón yngri dó utanlands, barnlaus.

ε, Rannveig átti síra Björn á Setbergi Halldórsson, þeirra barn dó.

ζ, Guðrún átti síra Vigfús í Miklaholti Jónsson, barnlaus.

5. Þóra Sigurðardóttir, dó gömul, barnlaus.

Launbörn Sigurðar tjást:

---

1) Magnús var seinasti lögmaður á Íslandi.

2) Finnur Magnússon prófessor, nafnfrægur lærdómsmaður, dó barnlaus í Kaupmannahöfn.

3) Ragnheiðnr átti síra Einar Pálsson á Meðalfelli, þeirra börn:

a, Páll seinast í Sogni, átti Guðrúnu dóttur Magnúsar Waage.

b, Finnur á Meðalfelli, á Kristínu dóttur síra Stefáns á Reynivöllum, sonar Stefáns amtmanns Stephensens.

c, Brynjólfur, á Þórdísi Ólafsdóttur í Flekkudal Bjarnasonar.

d, Ragnheiður, átti Þorvald Stephensen, bróður Kristínar, konu Finns, þau fóru til Vesturheims.

4) Guðríður átti Stefán Pálsson á Oddgeirshólum, bróður síra Einars Pálssonar.

6. Guðrún, dó barnlaus.
7. Helgi, hans dóttir:
   Marin.

Sigurður var skýr lögrèttumaður og bjó í Firði á Skálmarnesi og um hríð á Brjámslæk. Hann gjörðist lögsagnari Bjarna Pèturssonar 1712—14, dó 1744.

Þegar Bjarni Pètursson sleppti þessum parti, sameinuðust þeir báðir undir Teiti Arasyni, og hafa eigi síðan verið aðskildir.

## B. Í vesturpartinum.

### Eggert Björnsson.

*Faðir:* Björn sýslumaður Magnússon sýslumanns í Ögri og Bæ Jónssonar.

*Móðir:* Sigríður Daðadóttir á Skarði Bjarnasonar.

*Kona:* Valgerður, dóttir Gísla lögmanns Hákonarsonar, giptust 1633. Valgerður dó 1702.

*Börn:*
1. Guðrún eldri, fædd 1636, giptist 1675 Birni sýslumanni Gíslasyni, dó 1724, aðrir 1725, 88 ára.
2. Arnfríður giptist 1675 Þorsteini syni síra Þórðar í Hítardal, bjuggu þau fyrst í Hjörsey, svo á Hrafnabjörgum, en síðast á Skarði á Skarðsströnd. Þorsteinn dó 1700, en Arnfríður 1736; börn:
   - α, Þrúður átti Brynjólf sýslumann Thorlacíus 1704, dó 1707, barnlaus.
   - β, Elín átt Bjarna sýslumann Pètursson 1704, sjá fyr.
   - γ, Ragnheiður, átti Orm sýslumann Daðason, sjá Dalasýslu.
   - δ, Sigríður, bjó lengi á Gröfum, barnlaus.
3. Helga eldri giptist ekki, .dó barnlaus 1729, 27. október, að Ballará, 88 ára.
4. Elín, dó um tvítugt, 1658, barnlaus.
5. Gísli, dó í skóla, barnlaus.
6. Daði og
7. Ragnheiður, dóu 1664, ógipt og barnlaus.

8. Helga yngri giptist Guðmundi syni Þorleifs lögmanns Kortssonar, þau bjuggu á Narfeyri og í Brokey, þau giptust 1687; hann dó 1720, en hún 1729, 77 ára; börn þeirra dóu í stórubólu 1707.—Helga lá, áður en hún dó, nærri ár, öll máttlaus; hún gaf mikið lausafè frændum sínum, en Fuhrmann fastagóz sitt.
9. Guðrún yngri, giptist 1689 Guðmundi syni Sigurðar lögmanns í Einarsnesi Jónssonar sýslumanns sama staðar. Guðmundur dó 1716, hún 1746; þeirra börn:
   α. Þórunn, átti Magnús amtmann Gíslason; þeirra einbirni
      Sigríður, er átti Ólaf stiptamtmann Stefánsson.
   β. Eggert á Álptanesi, átti Ragnheiði Jónsdóttur sýslumanns í Einarsnesi; hún dó 1750, 64 ára, en hann 1718. Börn:
      a. Jón sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu; sjá þar um hann.
      b. Kristín[1], dó 1785, átti síra Jón Sigurðsson og börn.
      c. Þóra, átti Davíð sýslumann Scheving.
   γ. Sigríður, átti barn með Nikulási, hèt
      a. Jón.
      Svo átti hún Erlend Gunnarsson, klausturhaldara Þykkvabæjar 1729, hann dó 1730, og sein-

---

1) Kristín Eggertsdóttir átti síra Jón Sigurðsson í Hvammi í Norðurárdal; hann var mesta hraustmenni; þeirra börn:
a. Sigurður á Hvítárvöllum, var tvígiptur, barnlaus.
b. Ragnheiður, átti síra Jón Jónsson á Gilsbakka; börn:
   α. Halla, átti Jón Árnason í Kalmannstungu, svo á Leirá; sjá Borgarfjarðarsýslu.
   β. Kristín, kona Jóns Friðrikssonar Thorarensens í Víðidalstungu.
   γ. Síra Jón á Bergsstöðum; hans kona Dýrfinna Jónsdóttir.

ast, 1732, Vigfús frá Hjörsey Sigurðsson; þeirra barn:

b. Guðmundur ökonomus[1].

δ. Kristín, dó 1717; átti 1709 síra Jón Jónsson í Stafholti; þeirra börn:

a. Margrèt, átti síra Gísla í Odda.

b. Torfi.

c. Ragnheiður, barnlaus.

ε. Margrét, fædd 1695, dó 1764; var seinni kona Magnúsar á Brennistöðum Jónssonar, börn:

a. Ragnheiður[2].

b. Guðrún[3].

c. Ragnhildur.

Um uppvöxt og menntun Eggerts er mèr lítið kunnugt; hann var fæddur um 1610, og var í uppvexti sínum í Bræðra-

---

1) Guðmundur ökonomus (tugthússráðsmaður) átti Guðrúnu Þorbjörnsdóttur frá Skildinganesi Bjarnasonar; þeirra börn:

a. Síra Eggert í Stafholti, dó 1832, átti Guðrúnu Bogadóttur í Hrappsey; börn:

α. Síra Benidikt í Vatnsfirði, átti Agnesi Þorsteinsdóttur frá Núpakoti.

β. Guðrún átti Magnús Jónsson Waage.

γ. Halldóra átti fyrst síra Guðmund Bjarnason á Hólmum, síðan Rögnvald son Jóns á Gullberastöðum.

δ. Ragnheiður átti Björn gullsmið á Fitjum Jakobssons, sonar síra Snorra á Húsafelli Björnssonar.

b. Síra Gísli í Hítarnesi átti Ragnhildi Gottskálksdóttur.

c. Síra Páll í Borgarþingum átti Helgu Guðmundsdóttur prests Eiríkssonar prests á Stað í Hrútafirði.

d. Vigfús átti Guðrúnu Jónsdóttur prests Hjaltalíns.

e. Jón á Höll átti Halldóru Auðunnsdóttur, systur Björns sýslumanns Blöndals.

f. Sigríður, barnlaus.

g. Eyjólfur, handlæknir í Kaupmannahöfn, giptist ekki, barnlaus.

2) Ragnheiður átti síra Magnús Sæmundsson.

3) Guðrún átti Guðmund Teitsson í Sólheimatungu.

tungu, lærði hann þar utan að Jóns lagabók; 1629 leitaði Björn faðir hans honum kvonfangs til Kristínar eldri dóttur Gísla lögmanns Hákonarsonar í Bræðratungu, og skyldi brúðkaup þeirra vera á öðrum misserum; en svo bar til, að biskup Þorlákur á Hólum bað tèðrar Kristínar; þótti Gísla lögmanni ilt að frávísa honum; voru þeir þá feðgar Björn sýslumaður og Eggert komnir suður um land að vitja giptumálanna. Tók lögmaður þá það ráð, að hann reið á móti þeim feðgum, sagði þeim, hvernig komið var; samdist þá svo með þeim, að biskupi skyldi eigi frá vísað, en lögmaður hèt Eggerti sinni yngri dóttur Valgerði; gekk svo biskup að eiga Kristínu 1630, og voru þeir feðgar brúðkaupsgestir að þeirri veizlu haustið 1630 í Bræðratungu. — Gísli lögmaður andaðist 12. febrúar 1631; en 1633 var haldið brúðkaup Eggerts og Valgerðar á Bræðratungu að Vigfúsar Gíslasonar, bróður Valgerðar, og eptir það fór Eggert vestur með konu sína að Skarði á Skarðsströnd, var hún þá 16 vetra að sagt er; settist hann að á Bæ á Rauðasandi og gjörði þar bú, tók til eignar Bæ, er faðir hans dó, og er sýslumaður Magnús Arason dó, tók Eggert vesturpart Barðastrandarsýslu 1636. Eptir 1640 flutti Eggert að Skarði og bjó þar síðan alla æfi; um 1650 hèlt hann Pètur Einarsson fyrir lögsagnara. Eið sinn sór Eggert 1649. Þegar Björn faðir Eggerts dó, 1635, erfði Eggert Bæ á Rauðasandi og hafði þar bú, til þess hann gaf Birni dótturmanni sínum Bæ. Fyrir búi Eggerts í Bæ stóðu ýmsir; meðal þeirra var Ólafur Ásbjarnarson og Halla Jónsdóttir 2 eða 3 ár. Hvort Björn, dótturmaður hans, var Eggerts fullmektugur, eða hafði veitingu fyrir vesturpartinum, er óljóst; eptir dauða Björns tók Eggert Barðastrandarsýslu og setti þar fyrir umboðsmann sinn Andrès Andrèsson, sem þar eptir hafði um hríð sýsluna. Meining manna er, að Eggert hafi haft alla sýsluna eptir dauða Björns. Eggert hafði og Skógarstrandarumboð, og, eptir því sem sumir segja, hafði hann um tíma Strandasýslu. —Arnfríður móðurmóðir Eggerts dó 1647, erfði Eggert þá enn fjármuni. Sjálfur gekk Eggert dóma í sýslu sinni framan af ásamt Magnúsi sýslumanni Jónssyni, og voru þeir opt báðir við dóma, svo sem 1639 í orðamálinu á Vaðli.— Þann tíma þótti óhæfa, að gipta burtu dætur sínar, utan mannsefnið væri helmingi ríkari enn

konuefnið; giptust því dætur Eggerts seint, og Helga giptist aldrei; Guðrúnu eldri og Arnfríði gipti Eggert 1675; sjálfur hafði hann testamentisbrèf upp á auð þorsteins ríka á Narfeyri. Á áttræðisaldri (71 árs) dó Eggert Björnsson á Skarði, 1681. Hann var mjög eptirgangssamur um galdramanna hegningu í sýslu sinni, og meina menn stundum hafi verið um of og órèttvíst; þá var sá aldarmóður, að menn voru brendir, sem galdramenn, ef myndir eða þess háttar stafir, sem voru óvenjulegir, fundust hjá þeim; jafnvel hjá lærðustu mönnum, svo sem síra Páli í Selárdal, var sá galdraþanki ríkur, og eignað draugum og uppvakningum sèrhvað óvenjulegt.—Eggert sýslumaður Björnsson var hinn mesti auðmaður; hann erfði miklar eignir, fyrst eptir Daða móðurföður sinn, svo eptir Björn föður sinn, þá eptir Arnfríði móðurmóður sína, og loksins eptir þorstein á Narfeyri, sem dó sama ár og Eggert. Fjárgæzlumaður mikill var Eggert sjálfur og kallaður sinkur; er sögn, að hann hafi mælt við konu sína: Gef þú, Valgerður, en láttu mig ekki sjá það. Auk þess að Eggert, sem áður er sagt, bæði hèlt bú á Skarði og Bæ, hèlt hann þriðja búið á Ballará; þar hafði hann 12 kýr, og hið fjórða á Kvennahóli; þar hafði hann 8 kýr.—Hann átti allar jarðir á Skarðsströnd og víðar, en Arnarbæli, sem þá heyrði til Skarðsströnd, fèkk hann eigi keypt; skyldi hann þá hafa átt að segja, er hann reið þar nærri: »Opt vekur þú mig, Arnarbæli.« Eggert tjáist að hafa eptirlátið sínum þá lifandi 5 dætrum, er þá lifðu, í föðurarf 12 hundruð hundraða og 112 hndr. í fasteign og í lausafè þar að auki 5 hundruð hundraða, en þar að auki var málafè og tilgjöf Valgerðar konu hans.

Valgerður bjó á Skarði eptir mann sinn, og var meiri rausnarmaður með örlæti en bóndi hennar, en stórgerð í skapi var hún, sem hún átti kyn til. Hún gipti Helgu dóttur sína 1687 Guðmundi syni þorleifs lögmanns Kortssonar; hann var bóndi og bjó á Narfeyri, og seinna í Brokey; vegna auðs síns fèkk hann Helgu. Mælt er að Helga hafi átt hundrað eirkatla og Guðmundur 40, alla með göflum.

það hafði verið gömul venja, að auðmenn og höfðingjar leigðu alþýðu og landsetum sínum öll búsgögn með ábýlinu, og hvert fjórðungsrúm í þeim að mæli fyrir 5 fiska; því áttu auðmenn svo mikið af eirkötlum.

Guðmundur, son Sigurðar lögmanns í Einarsnesi Jónssonar, fór 1689 bónorðsför að Skarði, og, eptir þáverandi höfðingja sið, bar fram erindið við Valgerði, að mælt er, úti á hlaði. Valgerður tók eigi undir það, þar hann skorti fè til móts við dóttur hennar, og gaf honum afsvar. Guðmundur bjóst þá til burtferðar, en Guðrún yngri, er Guðmundur bað, hafði staðið við dyraloptsgluggann, og virti fyrir sèr manninn, leizt henni vel á hann; þá er Valgerður gekk inn, kom Guðrún móti móður sinni og sagði: Mikil er fátæktin, móðir mín. Þá svaraði Valgerður: Viltu eiga hann? Hún kvað já við. Var þá sent eptir Guðmundi, og gengu kaupin þá auðveldlega saman; var brúðkaup þeirra haldið sama ár á Skarði með mikilli rausn, eptir skaplyndi Valgerðar. Fór Guðmundur með konu sína suður og bjó mjög lengi á Álptanesi á Mýrum. Guðrún var 33 ára þegar hún giptist; hún dó 1746, níræð að aldri. Guðmundur dó 1716 og þótti mætur maður.

Eptir dauða Eggerts flutti Þorsteinn Þórðarson, sem átti Arnfríði Eggertsdóttur, að Skarði; var hann góður, vel stiltur og örlátur maður, vildi engu embætti bindast, og dó á Skarði 1760. — Valgerður Gísladóttir var og á Skarði til þess hún dó 1702.

Þar eptir bjuggu dætur Þorsteins á Skarði, til þess Bjarni Pètursson hafði gipzt Elíni 1704; tók hann þar eptir Skarð, og var þar síðan.

Þorsteinn Jónsson á Narfeyri var sonur Sigríðar Kráksdóttur, systur Helga Krákssonar (sjá Strandasýslu); hann var vel við efni eptir foreldri sín, gróðamaður og kallaður sinkur; hann tók til ekta Þóru dóttur síra Ásmundar frá Hvammi í Norðurárdal; hún var þar þá ekkja eptir Pétur Strandasýslumann Pálsson; auðgaðist hann vel, keypti jarðagóðs, svo mælt er, að hann hafi átt 4 hundruð hundraða þá er hann dó 1681. Með Þóru konu sinni átti hann eigi börn, en barn átti Þorsteinn fram hjá henni, sem ekki náði til arfs. Þóra dó fyr en Þorsteinn, og erfði Þorsteinn fjármuni hennar eptir testamenti, sem þeirra á milli var gjört, að tilhlutan Eggerts á Skarði, er var mikill vin Þorsteins. — Ómagi, sem var ættingi Þorsteins, hafði verið á hann dæmdur til framfæris; Þorsteinn vildi eigi taka hann, og leitaði ráða til Eggerts Björnssonar á Skarði;

tiltalaðist þá svo fyrir þeim Eggerti, að Þorsteinn testamenteraði Eggerti alla sína fjármuni, en Eggert sá um ómagann.

### Pètur Einarsson.

*Faðir:* Einar son Ásgarðs-Teits (sem átti Katrínu dóttur Gleraugna-Pèturs Einarssonar), en Ásgarðs-Teitur var sonur Eiríks Guðmundssonar í Ásgarði, og Guðrúnar Gunnlaugsdóttur (Gunnlaugur var launsonur Teits ríka í Bjarnarnesi, og hálfbróðir Kristínar, móður Teits ríka Þorleifssonar).

*Móðir:* Halla Sigurðardóttir frá Einarsnesi.

*Kona:* Sigríður dóttir Gísla prests Guðbrandssonar.

*Börn:* 1. Gísli, giptist 1661 Guðrúnu Brandsdóttur Einarssonar[1]; börn;

α. Sigríður, átti fyr Guðmund Arngrímsson; barnlaus.
Svo Jón Helgason frá Leirárgörðum; barnlaus.

β. Guðrún, átti Jón á Vatnsholti í Staðarsveit Eysteinsson Jónssonar; börn:

a. Gísli[2].
b. Málmfríður[3].
c. Guðlaug[4].
d. Eysteinn[5].

γ. Pètur.

2. Steinunn, átti Daða í Galtardalstungu Þorvaldsson; börn:

α. Kristín[6], átti Benidikt í Hrappsey Jónsson Pètursssonar; börn:

a. Steinunn.

---

1) Brandur þessi, faðir Guðrúnar, var kallaður Galdra-Brandur, og bjó í Stóraskógi.

2) Gísli átti Arndísi dóttur síra Gissurar Bjarnasonar.

3) Málmfríður átti fyrst Steindór Björnsson, síðan Guðmund í Vatnsholti í Staðarsveit.

4) Guðlaug átti Þorkel á Bláfeldi.

5) Eysteinn bjó í Einholtum, átti Oddfríði Sigurðardóttur.

6) Kristín var fyrri kona Benidikts.

b. Elín.
c. Þorsteinn.
β. Sigríður eldri, átti Snorra Hallsson; barnlaus.
γ. Sigríður yngri, átti fyrst með síra Lýð launbörn, giptist síðan Þórhalla á Á Einarssyni, góðum smið; börn:
a. Steinunn, átti Eirík á Rifgirðingum Magnússon; börn:
a. Sigurður, samastaðar.
b. Guðrún, barnlaus.
c. Halldóra, barnlaus.
b. Kristín, átti Jón Bergsson á Dröngum; börn:
a. Jón.
b. Þórhalli.
c. Ragnhildur.
d. Andrès.
δ. Halldóra Daðadóttir, átti Orm á Goddastöðum; börn:
a. Ormur, hans launson Daði.
b. Steinunn.
c. Þorkell.
[NB. Halldóra átti launbarn með síra Eiríki Vigfússyni; nokkrar ættir telja þessa Halldóru dóttur Pèturs.]
ε. Halldóra[1] Daðadóttir átti Svein lögrèttumann Guðnason á Þóreyjarnúpi; börn:
a. Þuríður átti síra Halldór á Breiðabólstað, Hallsson Ólafssonar.
b. Björn Sveinsson á Valdarási átti Steinunni Jónsdóttur og börn.
c. Jón Sveinsson á Sveigisstöðum átti Ingibjörgu Pálsdóttur og börn.

*Kona* Péturs *hin seinni* var Guðrún Guðmundsdóttir.

Pètur var efnamaður og vel að sèr, skáld gott, og gjörðist lögrèttumaður; hann var og haldinn bæði vitur og fróður.

---

1) Kona Sveins Guðnasonar hèt Hildur, dóttir Daða Þorvaldssonar.

Hann var fyrst í Ásgarði, en flutti þaðan til Ballarár og bjó þar lengi. Daða syni Þorvalds í Auðbrekku (bróður Halldórs lögmanns) gipti hann dóttur sína. Sá Daði átti Galtardalstungu, Galtardal, Svínaskóg og fleiri jarðir; hann bjó á eign sinni Galtardalstungu.

Fyrst finn eg getið dómaraverka Péturs í Strandasýslu 1636; þá lèt hann dóm ganga á Bæ við Hrútafjörð um fjármuni þeirra, er tortína sèr sjálfum. Og aptur sama ár 28. nóvember nefndi hann 12 menn í dóm í Strandasýslu um barn, sem úti varð. Það sýnist því, sem Pètur hafi haldið Strandasýslu næst eptir Magnús Arason; en hvað lengi, er óvíst. Nálægt 1650 hefir hann um tíma gjörzt umboðsmaður Eggerts Björnssonar í Barðastrandarsýslu, og 1654 útnefndi Pètur þar menn í dóm í umboði Eggerts. 1654, þá er hann bjó á Ballará, tilfèll honum undarlegur sjúkdómur með miklum verkjum, var síðan mörg dægur sem í dái; hann var borinn í rúminu ofan að Melum, inn í skemmu þar, en af því vissi hann ekkert, eða öðru sem fram fór; með tímalengdinni batnaði Pètri smátt og smátt, svo hann varð alheill. Eptir þeirrar aldar máta var þetta kennt göldrum. — Pétur hefir ort Eintalssálma, prentaða á Hólum 1661, og Tárapressusálma byrjaði hann að yrkja, en Guðmundur Bergþórsson bætti við þá (18 sálmar); einnig sálmarit af píslunum; hann bætti og við rímur af Pontusi, þar sem Magnús sýslumaður Jónsson hætti; hann orti og rímur af Hrólfi Gautrekssyni. Hann ritaði og annála yfir sína tíð frá 1597 til 1665. Hann gjörði og nokkur kvæði, til dæmis:

»Það er neyð að bágur er byr,
en báturinn lítill er,
heldur vildi hýra kyr
en hætta svo mèr.«

### Guðmundur Jónsson.

*Faðir:* Jón sýslumaður eldri, son Magnúsar sýslumanns í Ögri.

*Móðir:* Ástríður, dóttir Gísla lögmanns Þórðarsonar lögmanns.

*Kona:* Málmfríður Árnadóttir Teitssonar. 1654.

*Börn:* 1. Árni á Hóli í Bíldudal, átti þóru dóttur síra Páls í Selárdal Björnssonar; börn:
α. Helga, átti Einar yngra í Bíldudal; barnlaus.— Áður hafði hún átt launbarn með Magnúsi kapteini Arasyni.
β. Steinunn, átti launbarn með þorláki, er hèt Jón, hann átti Brynhildi Jónsdóttur.

Guðmundur var lögrèttumaður og í heldri bænda röð; hann bjó í Hvammi á Barðaströnd og kallast í Markúsarannál sýslumaður, og því get eg hans hèr. Ekki er ólíklegt, að hann um tíma hafi verið umboðsmaður Eggerts Björnssonar. Guðmundur dó 1658, eða 1657, sem aðrir skrifa.

## Björn Gíslason.

Sjá um hann hèr að framan. Hann gjörðist í þessum parti umboðsmaður Eggerts 1675, og í suðurpartinum sama ár sýslumaður til þess hann dó 1679.

## Andrès Andrèsson.

Sjá um hann hèr að framan og við Snæfellsness- og Dalasýslu. Í þessari sýslu var hann fyrst lögsagnari Eggerts, fèkk svo veittan partinn 1681, við dauða Eggerts. Fèkk Dalasýslu 1688, Snæfellssýslu 1695; dó 1696.

## Magnús þórðarson.

*Faðir:* þórður á Laugum og í Garpsdal (sjá hèr að framan), góður smiður, son Björns (sem átti Önnu Arnórsdóttur) þórðarsonar prests í Hjarðarholti Molda-Brandssonar.

*Móðir:* Sigríður, dóttir Pèturs bónda á Laugum, Árnasonar bónda.

*Kona:* Sigríður Pálsdóttir, systir Jóns og Markúsar á Völlum, barnlaus.

Magnús tjáist að hafa verið fyrst lögsagnari Eggerts á Skarði, og getur það hafa verið í suðurparti sýslunnar, eptir dauða Björns Gíslasonar, um eitt ár. En 1691 fékk hann sèr veittan af konungi vesturpart Barðastrandarsýslu, frásagði sèr þann sama part 1695, þá er Ara var hann veittur. Magnús

bjó í Sauðlauksdal, kom sèr misjafnt, var haldinn kunnáttumaður.

## Ari þorkelsson.

*Faðir:* þorkell sýslumaður í Borgarfirði og Húnavatnsþingi, Guðmundsson sýslumanns í Húnavatnsþingi Hákonarsonar sýslumanns á Nesi við Seltjörn, Björnssonar.

*Móðir:* Solveig dóttir Magnúsar lögmanns á Múkaþverá Björnssonar sýslumanns Benidiktssonar. þau giptust 1647; bjuggu fyrst á Stóruborg í Vesturhópi, til þess þorkell fékk þingeyraklaustur 1660, en eptir 1662, þegar þorkell dó, flutti Solveig í Eyjafjörð og bjó að Hólum. Hún dó 1705. (Í árbókunum er sagt, að hún hafi dáið í Haga hjá Ara syni sínum 1710, 79 ára).

*Kona:* Ástríður dóttir Þorleifs í Haga á Barðaströnd, Magnússonar sýslumanns sama staðar, Jónssonar Dalasýslumanns, Magnússonar sýslumanns í Ögri og Bæ á Rauðasandi. — þorleifur var skólagenginn og mikill maður. Ástríður dó 1734, 82 ára.

*Börn:*
1. Síra þorleifur á Breiðabólstað í Fljótshlíð, drukknaði í Markarfljóti 12. janúar 1727; barnlaus.
2. Magnús ingenieur-kapteinn, átti launson hér á landi, sem dó barn, og börn utanlands, sem ekki komu hingað; hann var í herförum með Tordenskjöld, varð bæklaður, og sendur hingað heim sem landmælari 1721; drukknaði við Hrappsey 19. janúar 1728.

   [NB. Hann var fæddur 1683; 13 vetra lærði hann latínu í heimaskóla, 2 vetur hjá síra Lýð Magnússyni, svo 3 vetur hjá síra Jóni Jónssyni á Tindum (síðar á Staðarstað), svo 3 vetur í Skálholtsskóla, og útskrifaðist þaðan 1704; þar eptir var hann 3 vetur hjá síra Páli í Selárdal við lærdóm, fór svo utan til háskólans, fèkk Borchs collegium, æfðist í mathematik hjá doctor Óla Romer, var ingenieurlautinant, og þjónaði undir Tordenskjölds kommando, varð svo ingenieurkapitain og oberconducteur við norska fortificationsetaten og sendur til Ís-

lands landmælingar 1721; hann nefndi sig Thorkellín.

3. Teitur sýslumaður; sjá um hann hèr síðar.
4. Halldóra yngri, átti Þorleif Cláus Brynjólfsson; þau voru skilin með dómi; barnlaus.
5. Halldóra eldri, átti launbarn:
   α. Sigurður, giptist og átti Þuríði Hieronýmusdóttur og bjó á Kalastöðum.

   Síðan giptist hún Hákoni syni Magnúsar Benidiktssonar; börn:

   β. Guðrún, átti síra Magnús Þórhallason í Villingaholti; börn:
      a. Þorkell, factor og kaupmaður í Reykjavík; barnlaus.
      b. Síra Þórhalli á Breiðabólsstað, átti Ingibjörgu dóttur magisters síra Bjarna í Gaulverjabæ og börn.
      c. Margrèt, átti Árna Eiríksson og börn.
      d. Ragnhildur seinni kona síra Halldórs Þórðarsonar á Torfastöðum.
      e. Ari.
      f. Björn.
6. Þórunn, átti síra Björn Thorlacius í Görðum; barnlaus. (Seinna átti síra Björn Þóru Pálsdóttur, þeirra dóttir Þóra, er átti Halldór biskup; laundóttir síra Björns Steinunn, kona Skúla fógeta.)
7. Þorkell, dó fulltíða, barnlaus.

Þess er getið, að Björn sýslumaður í Vaðlaþingi Magnússon stefndi Ara Þorkelssyni 1676 til alþingis fyrir galdur, og var lítt heyrður, þar málið ekki var prófað í hèraði. Óvíst er, að Ari hafi haft á hendi sýsluvöld fyrri enn 1688 eða 87, að hann var settur sýslumaður eptir Andrés í vesturparti Barðastrandarsýslu, og hèlt hann honum til 1691, er Magnús tók við þeim parti. Aptur, þá er Magnús sleppti honum 1695, hefir Ari fengið veitingu Möllers amtmanns fyrir þeim parti og haldið honum til þess hann afstóð honum við son sinn Teit 1707, en hélt sjálfur jörðum á Ingjaldssandi, sem hann hafði að láni. — Þá er Þorkatla Jónsdóttir bjó á Sæbóli, og átti þá jörðu með kirkjujörðum, Hellu, 4 hndr. í Hvammi og Fjalla-

skaga 12 hndr., og hafði lögfest á Mýraþingi téðar jarðir 1724, hefir Magnús vegna Ara föður síns 7. maí 1727 sent Þorkötlu skriflega kröfu með tveimur mönnum, að sýna þau skilríki, sem hún hefði fyrir téðum jörðum. Hún svaraði: *Ef guð og konungurinn á þær, þá er það guð velkomið* (ɔ: að hún sleppi þeim); *eg held því eg get og læt yrkja, þar til guð og konungurinn tekur það af mèr.* Þá var Snæbjörn Pálsson kominn til hennar og sýndi nokkur brèfin.—Skrykkjótt gekk fyrir Ara, meðan hann var sýslumaður, og eigi var hann vel þokkaður. Eptir tengdaföður sinn, Þorleif, bjó hann í Haga; Solveig móðir Ara dó þar hjá honum 1710, 79 ára gömul. — Ari bjó í Haga sem embættislaus, eptir að hann hafði sleppt suðurpartinum við Teit son sinn 1707, til þess hann dó 1730, og var maður auðugur haldinn, en eigi þótti hann allsendis jafnaðarmaður, var hann og kallaður stórgerður í skapi. Hann var 80 ára, er hann lètst. Ástríður kona hans dó 1734, 82 ára gömul, hefir hún þá fæðzt 1652, en hann 1650. Ari var bendlaður að hafa haldið við gipta konu áður en hann giptist Ástríði; úr því máli varð lítið, þó hátt væri reist í fyrstu. Vel var Ari viti borinn, en sagður drykkjumaður og óeirinn.

### Teitur Arason.

*Faðir:* Ari sýslumaður í Haga, nýnefndur.
*Móðir:* Ástríður Þorleifsdóttir, nýnefnd.
*Kona:* Margrèt dóttir Eggerts á Kirkjubóli, Snæbjarnarsonar Torfasonar prests Snæbjarnarsonar prests Torfasonar.—Kona Eggerts var Guðrún Þorkelsdóttir (aðrir Þorsteinsdóttir). Kona Snæbjarnar, er giptist 1658, dó 1666, var Helga dóttir Eggerts Sæmundssonar Árnasonar á Hlíðarenda. Snæbjörn var lögrèttumaður og bjó á Bæ í Króksfirði.—Kona síra Torfa á Kirkjubóli var Helga Guðmundsdóttir.—Kona síra Snæbjarnar var Þóra Jónsdóttir[1].
*Börn:* 1. Ari Teitsson á Reykhólum, fyrri maður Þorbjargar

---

1) Sonar síra Bjarns á Melstað, Jónssonar biskups Arasonar.

Hannesdóttur frá Snóksdal (Ari drukknaði á Gilsfirði 1749); börn:
α. Teitur.
β. Þórunn, bæði barnlaus.
γ. Elín átti Jón Jónsson í Skoravík; börn:
a. Vigfús.
b. Jón; þeir giptust og áttu börn.
c. Hannes.
d. Eleasar.
e. Daníel.
f. Hannes annar.
g. Tómas.
h. Jón.
i. Steinunn, barnlaus.
2. Sigríður átti síra Jón í Tröllatungu son síra Ólafs Eiríkssonar; börn:
α. Margrèt, átti síra Hjálmar Þorsteinsson; börn:
a. Síra Björn[1].
b. Jón.
c. Guðbrandur.
d. Jórunn.
β, Ari á Reykhólum átti Helgu Arnadóttur[2], þeirra börn:
a, Árni.
b, Sigríður.
c, Kristín.
d, Jón.
e, Árni yngri.
f, Guðmundur.
g, Þorbjörg.
h, Helga.
Giptust öll og áttu börn.
Launbörn Ara með Guðrúnu Hákonardóttur frá Mýrartungu:

---

1) Síra Björn í Tröllatungu átti Valgerði Björnsdóttur Runólfssonar.
2) Faðir Helgu varsíra Árni Ólafsson í Gufudal.

i, Guðrún.

Með Kristínu Erlendsdóttur:

j, Magnús.

γ, Ólafur Breiðfjörð, beykir.

δ, Juchum, timburmaður, báðir utanlands.

3. Helga Teitsdóttir, átti fyrst launbarn með Árna Sveinbjarnarsyni:
Oddfríði, átti Eirík Gíslason á Felli í Kollafirði og börn.
Síðan giptist Helga Torfa á Kinnarstöðum.
4. Eggert Teitsson, blóðtökumaður, átti Sesselju Jónsdóttur, þeirra börn:
α, Guðrún.
β, Jón.
5. Guðrún Teitsdóttir, átti Jón Magnússon, þeirra börn:
α, Jón, verzlunarstjóri á Ísafirði, átti fyr Kristínu, barnlaus, svo Guðbjörgu dóttur síra Jóns Hjaltalíns, þeirra börn:
a, Albert[1].
b, Hermann[2].
β, Ingibjörg, átti Samúel Egilsson.
γ, Jón eldri, giptist.
δ, Magnús, átti launson.
ε, Ingibjörg, önnur.
6. Jón Teitsson, átti launson með Elinni dóttur Einars Strandasýslumanns, það var
Grímur Thorkelín.
Jón sigldi síðan og varð garðari í Kaupmannahöfn og dó þar úr mislingum 1758.
7. Guðmundur Teitsson, laungetinn með Álfheiði, átti Guðrúnu Magnúsdóttur, börn:
α, Síra Guðmundur í Reykjadal, misti prestskap.
β, Grímur á Steðja í Reykjadal, barnlaus.

---

1) Lærði gullsmíði, dó ógiptur, barnlaus.
2) Sýslumaður í Rangárþingi.

γ, Jón á Vestfjörðum, giptist og átti börn.

Eptir afstaðið lærdómspróf, afstóð faðir hans við hann vesturpart Barðastrandarsýslu 1707; giptist Teitur þareptir og keypti Reykhóla af Magnúsi amtmanni Gíslasyni fyrir aðrar jarðir og fór þangað búferlum. Þá er Bjarni Pètursson frásagði sèr suðurparti Barðastrandarsýslu, fèkk Teitur sèr veittan og svo þennan part 1718, og síðan hefir Barðastrandarsýslu eigi verið tvískipt. 1727 fèkk Teitur veitingarbrèf konungs fyrir allri sýslunni. Í málum Teits 1723 og 1724 var Ormur sýslumaður Daðason hèr settur sýslumaður, en 1724 tók Teitur aptur við sýslu sinni og hèlt henni til síns dauða 1735. Teitur tjáist að hafa verið svaðamenni og óaðgætinn, einkum við öl, hvar af hann gerði heldur mikið. Fè gekk af höndum honum, svo að við hans dauða var ekkert eptir af jarðagóssi hans, utan Reykhólar, sem varla hrukku fyrir skuldum; mælt var það, að það mest hefði verið af búskaparóreglu Teits og drykkjuskap. Með tilstyrk Orms sýslumanns Daðasonar leysti Margrèt til sín Reykhóla, hverja hún mestalla seldi síðan Ólafi stiptamtmanni Stephensen. Teitur byggði á Reykhólum rambyggilega, og þar bjó ekkja hans Margrèt, meðan hún lifði, og síðan nokkrir þeirra afkomendur.

## Ólafur Jónsson.

*Faðir*: Jón Sigurðsson, bóndi á Skarði í Ögurssveit, og síðan í Vigur; hans faðir Jón Einarsson í Stóruhvestu Gíslasonar; kona Einars var Sigríður dóttir Jóns Einarssonsonar á Melgraseyri og Margrètar Björnsdóttur á Reykhólum Þorleifssonar hirðstjóra.

*Móðir*: Guðbjörg Jónsdóttur, bónda í Gufudalssveit.

*Kona*: Guðrún dóttir síra Árna í Hvítadal, Jónssonar prófasts í Belgsdal, Loptssonar Árnasonar, Loptssonar í Sælingsdalstungu (aðrir: í Víðidalstungu) Pèturssonar.

*Börn*: 1. Magnús í Súðavík, átti fyr Guðrúnu dóttur Jóns eldra, Þorlákssonar Þorleifssonar, þeirra börn:

α, Einar á Hvítanesi, átti fyr Guðnýu, dóttur Torfa í Æðey; börn:

a, Guðný átti Halldór Þórðarson frá Vigur, börn:

1. Halldór.
2. Mattías og fleiri.

b, Jón, átti Elínu dóttur síra Markúsar Eyjólfssonar, börn;
1. Markús.
2. Einar.

Síðar Guðrúnu Jónsdóttur, barnlaus.

Seinni kona Magnúsar, Guðrún dóttir síra Ásgeirs Þórðarsonar; börn:

β, Guðbjörg átti síra Þórð Þorsteinsson, börn:
a, Síra Þorsteinn, giptur Rannveigu Sveinsdóttur.
b, Þórdís, átti síra Jón Sigurðsson.
c, Kristín.
d, Guðrún.
e, Magnús, kapellán föður síns, átti Matthildi Ásgeirsdóttur.

γ, Árni, datt og dó barnlaus.

δ, Guðrún átti fyrst Jón Bjarnason í Súðavík; börn:
a, Bjarni.
b, Guðrún.
c, Magnús.
d, Karvel.

Síðan Bjarna son Eiríks prests á Stað í Súgandafirði.

2. Ólafur, lærði í Skálholtsskóla, fór um tíma þareptir í Læknisnes að læra læknisfræði, yfirgaf það og sigldi, tók examen philologicum og philosophicum; gaf sig þar eptir við auðfræði og náttúrufræði, var sendur að skoða og mæla norðvesturstrandir Íslands, gjörðist kammersecriteri, kom inn með prentverk í Hrappsey; skrifaði ferðabók sína og ýmislegt annað. Meðan hann dvaldi hèr á landi átti hann með Ingibjörgu Jóhannsdóttur launson, er hèt Jóhannes, hann sigldi, varð dreiermeistari, og varð tvígiptur; annað launbarn átti hann með Guðnýju Halldórsdóttur, hèt Kristín, átti Jónas Halldórsson og börn. Síðan giptist Ólafur utanlands prófastsdóttur

og átti með henni nokkur börn; hann varð tollinspekteur á Jótlandi og dó 1789.

3. Jón, lærði innan- og utanlands, tók embættispróf romano-juridicum, varð vísilögmaður s. og a. Björns Markússonar 1758, 10. marz, en síðan n. og v. Sveins Sölvasonar 1762 og giptist sama ár á Þingeyrum 23. júlí Þorbjörgu, dóttur Bjarna sýslumanns Halldórssonar. Gunnar prófastur Pálsson orkti þá til þeirra fornyrt snillikvæði. Hann bjó fyrst á Miðhúsum vestra, svo í Víðidalstungu. Hann var við að semja lög fyrir Ísland; dó 1777. Börn hans og Þorbjargar:
   α, Hólmfríður, átti síra Friðrik Thorarensen á Breiðabólstað; börn:
      a, Bjarni stúdent í Bæ, síðar Stóraósi, átti fyr Önnu, dóttur Jóns sýslumanns í Bæ Jónssonar, börn :
         1. Friðrik[1].
         2. Jón.
         3. Jórunn.
         4. Hólmfríður.
         Svo átti Bjarni dóttur Arnbjörns stúdents á Stórósi og börn.
      b, Jón stúdent í Víðidalstungu átti Kristínu dóttur síra Jóns á Gilsbakka, börn:
         1. Páll Vídalín.
         2. Ragnheiður.
      c, Elín, dó barnlaus.
      d, Sigríður.
      e, Þorbjörg.

4. Þórður stúdent í Vigur átti fyr Margrèti Eiríksdóttur, sem dó 1769; börn:
   α, Matthías átti Rannveigu Guðlaugsdóttur prófasts í Vatnsfirði; börn:
      a, Ólafur giptist Helgu, dóttur síra Jóns Ásgeirs-

---

1) Sjá um afkomendur síra Friðriks A. bls. 275, 615, 616 og víðar.

sonar, þau áttu börn.

b, Síra Jón í Arnarbæli, giptur, á börn.

β, Elísabeth átti síra Markús Eyjólfsson, börn:

a, Elín átti Jón Einarsson á Hvítanesi og börn.

b, Margrèt, átti síra Torfa á Snæfjöllum; bl.

γ, Hólmfríður átti Finn Þorsteinsson bl., síðan síra Jón í Mýraþingum, Sigurðsson, bl.

δ, Solveig átti fyr Guðmund Þórðarson, börn:

a, Marín átti Gísla Oddsson og börn.

b, Sigríður átti Helga Jónsson, bl.; hennar launbarn með Þorláki:

Ástríður.

Seinni kona Þórðar Valgerður dóttir síra Markúsar í Flatey; börn.

ε, Síra Markús á Álptamýri átti Þorbjörgu Þorvaldsdóttur og börn.

ζ, Halldór átti Guðnýju Halldórsdóttur á Hvítanesi. Þeirra börn talin hèr að framan.

η, Síra Engilbert átti Guðnýju Jónsdóttur.

ϑ, Benidikt átti Solveigu, dóttur Halldórs á Látrum.

ι, Ragnheiður átti Magnús Þórðarson.

κ, Karítas dó barnlaus.

λ, Sesselja átti Bjarna Torfason á Brekku, sjá Ísafjarðarsýslu.

5. Sigurður stúdent í Ögri átti fyr Sigríði, dóttur síra Ásgeirs Bjarnasonar prests, börn:

α, Síra Jón í Mýraþingum átti Hólmfríði Þórðardóttur, bl.

β, Sæmundur stúdent átti J. Jael Bjarnadóttur, barnlaus.

γ, Þórdís átti Þórarinn á Látrum Halldórsson og börn.

Seinni kona Sigurðar Margrèt dóttir síra Þorsteins Þórðarsonar í Hvammi í Hvammssveit og börn:

δ, Þorsteinn bóndi í Ögri átti Þuríði Þiðriksdóttur, börn:

**a, Sigurður.**

b, Margrèt.
c, Þuríður.
6. Ingibjörg, átti síra Jón á Rafnseyri Sigurðsson, börn;
α, Síra Sigurður á Rafnseyri átti Þórdísi dóttur Jóns prófasts Ásgeirssonar í Holti í Önundarfirði börn:
a, Jón fæddur 1811, stúdent[1].
b, Jens, fæddur 1813, stúdent[2].
c, Margrèt, fædd 1816[3].
β, Ólafur, drukknaði þá er hann fór til vígslu, barnlaus.
γ, Einar stúdent, faktor og kaupmaður í Reykjavík átti Ingveldi Jafetsdóttur, börn:
a, Jafet gullsmiður[4].

---

1) Lengi alþingisforseti, átti Ingibjörgu dóttur Einars stúdents, þau bræðrabörn, barnlaus.
2) Jens skólameistari í Reykjavík, átti Ólöfu dóttur Björns yfirkennara Gunnlaugssonar og Ragnheiðar Jónsdóttur frá Sviðholti, þeirra börn:
a, Sigurður prófastur í Flatey, á Guðrúnu dóttur Sigurðar kaupmanns í Flatey Jónssonar.
b, Jón landritari á Sigríði Hjaltadóttur, bróður Bergs landshöfðingja.
c, Björn skólakennari, á Lovísu dóttur Henkels kaupmanns, sonar agents Friðriks Svendsens, sjá Múlasýslu; móðir Lovísu er Ágústa, dóttir síra Snorra Sæmundssonar.
d, Bjarni læknir á Seyðisfirði.
e, Þórður, stúdent við háskólann í Kaupmannahöfn.
f, Þórdís kona Þorvaldar prófasts Jónssonar á Ísafirði.
g, Guðlaug kona Sigurðar sýslumanns Jónssonar á Stykkishólmi.
h, Ragnheiður.
i, Ingibjörg.
3) Margrèt átti Jón Jónsson á Steinanesi vestra, þeirra son: Sigurður sýslumaður fyrnefndur, sjá Snæfellssýslu.
4) Jafet átti Þorbjörgu Nikulásdóttur, börn:

b, Ólafur prestur á Breiðabólstað á Skógarströnd[1].
c, Guðmundur[2].
d, Ingibjörg[3].
8, Helga átti Benidikt Gabriel, bónda, börn:
a, Jón, dó barnlaus.

---

a, Einar var við verzlun í Reykjavík, giptist ekki, átti nokkur launbörn.
b, Nikulás veitingamaður í Reykjavík, giptist og átti börn.
c, Jens var í siglingum erlendis.
d, Ingibjörg kona síra Tómasar á Barði Björnssonar.
e, Ingveldur kona Ásbjarnar Ólafssonar í Njarðvík.
f, Sigríður, gift.
g, Guðrún.

1) Síra Ólafur prófastur á Stað á Reykjanesi, átti Sigríði, dóttur síra Þorláks í Móum, börn:
a, Jóhannes sýslumaður á Gili í Skagafirði á Margrèti Guðmundsdóttur frá Arnarbæli.
b, Þorlákur kaupmaður í Reykjavík á Ingibjörgu dóttur Bjarna á Esjubergi og Kristínar Bjarnadóttur frá Vatnshorni.
c, Guðrún átti síra Steingrím Jónsson í Otrardal bl.
d, Ingveldur miðkona síra Mattíasar Jokkumssonar bl.

2) Síra Guðmundur í Arnarbæli átti Guðríði Pètursdóttur Hjaltesteðs, börn:
a, Ólafur fór til Vesturheims.
b, Einar gullsmiður.
c, Anna kona síra Oddgeirs í Kálfholti, sonar Þórðar sýslumanns Guðmundssonar.
d, Ingibjörg gipt í Vesturheimi.
e, Guðríður kona síra Ólafs Ólafssonar í Guttormshaga.
f, Margrèt fyrnefnd, kona Jóhannesar sýslumanns.
g, Sigríður, ógipt.
h, Ingveldur á Grím Jónsson skólakennara á Ísafirði.

3) Ingibjörg, kona Jóns Sigurðssonar alþingismanns, bl.

b, Síra Jón á Svalbarði átti Guðrúnu Kortsdóttur og börn[1].
c, Sigríður átti Magnús assistent Hjaltason.
d, Sakkarías dó barnlaus 1837.

7. Sólveig átti síra Jón í Holti í Önundarfirði, son síra Sigurðar prófasts í Holti undir Eyjafjöllum: þau áttu 4 börn, þar af dóu 3 ung, hið fjórða Jarðþrúður, átti Boga stúdent Benidiktsson á Staðarfelli Bogasonar í Hrappsey, börn:
α, Benidikt stúdent, sigldi og giptist utanlands Jóhönnu Vinding, hann er rúðumeistari, lautinant og commissioner[2], börn:
1. Benidikt.
2. María.
3. Sörin.
4. Bogi.
β, Hildur, giptist 1819 jústizráði Bjarna Thorarensen, landsyfirrèttarassessori, hann varð 1833 amtmaður fyrir norðan[3], börn:
1. Vigfús.
2. Bogi.
3. Steinunn.

---

1) Síra Jón seinast á Rafnseyri; eitt af börnum hans og Guðrúnar Kortsdóttur:
Sigurður á Haukagili í Hvítársíðu, á Ingibjörgu Árnadóttur Geirssonar biskups Vídalíns.

2) Benidikt var stúdent úr Bessastaðaskóla, sigldi svo til Kaupmannahafnar, settist þar að og giptist danskri stúlku Jóhönnu Vinding, en hafði framan af verzlun í Stykkishólmi. Hann varð officeri við borgaraliðið í Kaupmannahöfn, og um tíma rúðumeistari þar. Seinast hætti hann verzlun, og flutti þá aptur til Íslands, var hann þá orðinn fèvani, en kona hans og börn voru kyr í Kaupmannahöfn. Benidikt var gefinn fyrir fróðleik og einkum vel að sèr í gömlu málunum.

3) Hildur átti Bjarna amtmann Vigfússon Thorarensen, sjá Árnesssýslu.

4. Jón.
5. Hildur.

γ, Solveig átti 1821 Odd Thorarensen, apothekara í Læknisnesi[1], börn:
1. Stefán.
2. Jakob.
3. Jarðprúður.

δ, Jens Jakob[2], giptur danskri kapteinsdóttur 1831, heitir Anna María. Jens er kaupmaður og reiðari á Ísafirði, börn:
1. Bogi Jóhannes.
2. Jens Jakob.

ε, Brynjólfur, stúdent, factor hjá bróður sínum Jens, svo kaupmaður í Stykkishólmi[3].

---

1) Solveig átti Odd lyfsala Stefánsson Thorarensen; þeirra börn:

α, Stefán sýslumaður í Vaðlaþingi, sjá A., bls. 294, hans börn, er lifa:
a, Solveig.
b, Oddur, lyfsali á Akureyri.
c, Jóhann.

β, Jóhann, lyfsali í Eyjaálfunni í borginni Melbourne.

γ, Jarðprúður, dó um tvítugt, barnlaus.

δ, Ragnheiður, átti Magnús Björnsson Blöndal, settan sýslumann, bl.

2) Jens, sigldi, staðnæmdist í Kaupmannahöfn og átti þar danska konu, hafði samt verzlun á Ísafirði og þilskipaveiðar, og eins í Vestmannaeyjum; afkomendur hans eru erlendis, nokkrir í Kaupmannahöfn og nokkrir í Siam, og allir efnagóðir.

3) Brynjólfur, skólagenginn, kaupmaður í Flatey, átti mikið jarðagóðs, þar á meðal mestan hluta Reykhóla, Haga og Flateyjar, og var sterkríkur; kona hans var Herdís, dóttir Guðmundar kaupmanns Schevings; börn þeirra dóu öll á unga aldri, eitt þeirra hèt Ingileif, náði hún tvítugs aldri og var mjög efnileg, en dó ógipt, barnlaus. Áður en Brynjólfur giptist, átti hann barn með Halldóru nokkurri, er hèt.

Sigríður, hún átti Sigurð kaupmann í Flatey Jónsson, var sá Jón bróðir Gísla í Bæ á Selströnd, börn:

ζ, Ragnheiður[1].
η, Sigríður[2].
ϑ, Jóhanna[3].
Launson Ólafs með Elísabetu dóttur Þórðar smiðs, sonar[4] síra Guðmundar í Ögursþingum Halldórssonar:

8. Síra Árni í Gufudal, átti Guðrúnu Jónsdóttur[5], börn:

α, Elísabet átti Jón beyki á Hóli í Bíldudal fyr, bl. síðan síra Jón á Rafnseyri, bl.
β, Jón, sigldi, varð beykir, dó utanlands, átti börn.
γ, Ólafur, átti launbörn með Ingibjörgu dóttur

---

α, Jón, læknir í Þingeyjarsýslu, átti Guðrúnu Gísladóttur frá Lokinhömrum, voru stutta stund saman, dó barnlaus.
β, Jófríður kona Jóns kaupmanns í Flatey Guðmundssonar frá Mýrum Brynjólfssonar; Jón er móðurbróðir fyrnefndrar Guðrúnar, ekkju Jóns læknis Sigurðssonar.
γ, Guðrún, kona Sigurðar prófasts í Flatey, Jenssonar.
δ, Bryndís, kona Geirs Zoëga skólakennara í Reykjavík Tómassonar.
ε, Ragnheiður, ógipt.

Sigríður, kona Sigurðar kaupmanns, var fyrst kennd öðrum en Brynjólfi, en í testamenti sínu viðurkenndi hann hana dóttur sína, og gaf henni fjórðungsgjöf úr eigum sínum.

1) Ragnheiður átti konsúl Martein Smith, kaupmann í Reykjavík, börn þeirra dóu ógipt, barnlaus, utan Bogi í Arnarbæli, sem átti Oddnýu, systur síra Jóhanns í Stafholti.

2) Sigríður, seinni kona Pèturs biskups Pèturssonar, börn;
α, Elinborg, átti Berg landshöfðingja Thorberg.
β, Bogi, læknir á Kirkjubæ, á Kristínu dóttur Skúla læknis á Móeiðarhvoli.
γ, Þóra, kona Þorvaldar skólakennara Thoroddsens.

3) Jóhanna, fyrri kona Jóns háyfirdómara Pèturssonar, sjá Strandasýslu.

4) Þórður smiður var bróðir, en ekki sonur síra Guðmundar.

5) Skæringssonar.

Jóns, sonar Magnúsar í Snóksdal, hètu:
a, Gísli.
b, Ingibjörg.
Ólafur giptist svo Guðrúnu Jónsdóttur frá Kollabúðum, börn:
c, Kristín.
d, Hallbera.
e, Björn.
δ, Guðrún, átti síra Helga á Skutulsfjarðareyri Einarsson og mörg börn, meðal þeirra.
a, Árni stiptprófastur í Görðum, giptur, barnlaus.
b, Helgi, stúdent[1].
ε, Þóra átti Árna Magnússon á Hóli í Bolungarvík, bróður Þorláks Ísfjörðs, og börn.
ζ, Helga, átti Ara á Reykhólum Jónsson, sjá hèr að framan.

Afkomendur Ólafs eru fjölmennir og er of langt að telja þá hèr upp; hann var fæddur á Skarði í Ogurssveit 1687. Ólafur var þegar á unga aldri skarpleikamaður, fjörugur, framkvæmdasamur og framsýnn, hafði lítið úr föðurgarði fèmætt; hann giptist sem áður er sagt og fór að búa á Eyri í Seyðisfirði og bjó þar meðan hann lifði. 1724 varð hann lögrèttumaður. Þegar Teitur sýslumaður dó, var Ólafur settur sýslumaður í Barðastrandarsýslu 1735 og var þar við öll sýsluverk 1735—37, því Ólafur Árnason tók eigi við fyrri enn 1738, þó hann fengi veitingu árinu fyrir. Þegar Markús sýslumaður Bergsson hætti, var Ólafur settur sýslumaður í Ísafjarðarsýslu 1742—1743, til þess Erlendur sýslumaður Ólafsson viðtók. Óvild mikil kom á milli Erlends sýslumanns og Ólafs eptir 1750, sem varaði fram til 1760 með málaferlum mjög óvinsamlegum. Ólafi fórust vel úr hendi öll sýslumannsverk, meðan hann var við þau, því hann var lögvitur, þó ólatínulærður væri. Sínum 5 sonum kom hann til skólalærdóms, og studdi mikið Jón og Ólaf með peningastyrk utanlands; eru færri dæmi til að bóndi hafi af efnum sínum komið svo mörgum sonum sínum til lærdómsmenntunar. Ólafur var einhver hinn

1) Enn var son síra Helga og Guðrúnar:
c, Einar snikkari í Reykjavík faðir Helga barnaskólastjóra og Guðnýjar konu síra Sveins Skúla-sonar í Kirkjubæ.

mesti bústandsmaður og Guðrún kona hans var í því jafntöm. Olafur var fjárgæzlu- og útsjónarmaður, þótt hann hefði mikinn kostnað uppá sonu sína; hann var lengi lögrèttumaður, þótti hann einhver hinn mesti og vitrasti bóndi í Ísafjarðarsýslu á sinni tíð; auk þess var hann mesti búhöldur, en ekki þótti hann allsendis jafnaðarmaður; harðgjör var hann og lèt ekki allt fyrir brjósti brenna. Ólafur dó á Eyri í Seyðisfirði árið 1761, þá hann var 74 ára, hafði hann jafnan verið heilsugóður, og karlmenni að burðum, var hann lengi síðan kallaður mikilmenni. Auk þess sem hann kom börnum sínum til góðrar menningar, eptirlèt hann þeim töluverð efni; hafði hann sjálfur hafizt af fátækum bóndasyni til góðrar menningar með atorku, framkvæmdum, hagsýni, og stundaði þar að auki lærdómsmentir, þótt ekki væri hann latínulærður. Ólafur stundaði mikið hvalaveiðar og skutlaði marga hvali; hafði hann þar af mikinn ábata. Ólafur var opt settur í málssóknir, þar á meðal móti Mála-Snæbirni, sem dróttaði að Ólafi óráðvendni, hvað Snæbjörn gat ekki sannað, hófst þar af mál og var Snæbjörn dæmdur í fèbætur til Ólafs af Markúsi sýslumanni Bergssyni. Hann var og settur sóknari móti Erlendi sýslumanni, og var um of beiskur í málum við hann 1757 og 58, svo auðsèð var, að sókn framfór meira af óvild, en rèttvísi, sem Ólafi varð heldur til hnjóðs; var það meðfram af ertingum Erlendar sýslumanns·

## Ólafur Árnason.

*Faðir:* Síra Árni í Hvítadal Jónsson prófasts í Belgsdal, Loptssonar, Pèturssonar, Loptssonar, Ormssonar, Loptssonar ríka.

*Móðir:* Ingibjörg, laundóttir Magnúsar lögmanns Jónssonar. Ólafur sýslumaður var albróðir Guðrúnar, konu fyrnefnds Ólafs Jónssonar á Eyri á Seyðisfirði.

*Kona:* Halldóra, dóttir síra Teits á Eyri í Skutulsfirði Pálssonar sýslumanns, Torfasonar.

*Börn:* 1. Teitur, lærði hèr, fór svo utan, en lagði þar litla stund á lærdóm og gaf sig við ölföngum; eptir langa þarveru kom hann inn, varð djákni í Hítardal, allvel gáfaður og fróður í mörgu, þótti hrakorðasamur drykkjumaður; giptist ekki, dó barnlaus.

2. Þórunn, mesta og hagasta saumakona, hvar fyrir

hún fèkk gullkross frá drottningu Danakonungs, átti síra Benidikt Hannesson í Miðdalaþingum; þeirra börn:

α. Síra Björn í Hítardal átti Solveigu Asgeirsdóttur; börn:

a. Síra Snæbjörn í Vestmannaeyjum giptist og átti börn.

b. Þórunn, átti síra Björn á Þingvöllum og börn.

c. Hannes á Hamraendum, giptist, átti börn.

d. Benidikt í Krossholti, giptist, átti og börn[1].

e. Ólafur, bóndi í Ferjukoti.

β. Ólafur, stúdent, átti Guðrúnu Sigurðardóttir; barnlaus.

3. Síra Magnús í Bjarnanesi, átti fyr Guðrúnu Bergsdóttur; þeirra börn:

α. Síra Bergur átti Guðrúnu dóttur Jóns sýslumanns Helgasonar og börn.

β. Ingibjörg, átti síra Hálfdán Oddsson; barn: Þorbjörg, átti síra Þorleif.

γ. Ólafur, hvarf undarlega, fannst eigi aptur.

Seinni kona síra Magnúsar Rannveig—aðrir Þóra—Jónsdóttir; börn:

α. Jón.
β. Þóra.
γ. Guðrún.
δ. Herdís.
ε. Páll.
ζ. Mensalder.
η. Bergur yngri.
Giptust öll.
ϑ. Þorleifur.
ι. Sigurður.
κ. Mattías.

Launbörn Ólafs sýslumanns áður en hann giptist.

4. Sigurður (með Guðrúnu, giptri dóttur síra Hjalta í Vatnsfirði Þorsteinssonar). Sigurður varð Kirkjubæjarklausturhaldari og opt í sýslumanns stað; hann

1) Benidikt varð síðar prestur.

átti Ingibjörgu dóttur síra Bergs Guðmundssonar; börn:
α. Guðrún.
β. Bergur.
γ. Þorbjörg.
δ. Þóra.
5. Ólöf (með Sigríði Pálsdóttur); Ólöf átti Þórð bónda Gíslason; þeirra börn:
α. Ólafur.
β. Guðrún.
γ. Rannveig.
6. Kort.

Ólafur lærði innan og utanlands, var svo settur í Þingeyjarþingi eptir Benidikt Þorsteinsson látinn 1733 og 1734, en gjörðist skrifari hjá amtmanni Lafrenz 1734 og fullmektugur í hans fráveru 1736 og 1737. Veitingu fèkk hann fyrir Barðastrandarsýslu með konunglegri resolution 18. marts 1737, en sagði henni af sèr 1752. Var settur sýslumaður í Ísafjarðarsýslu í máli Erlendar sýslumanns Ólafssonar í hans útistöðum 1754, en dó sama ár fljótlega á ferð frá Vatneyrarkaupstað, eptir sögn ölvaður mjög. — Ólafur sýslumaður tjáist að hafa verið nettmenni og fríður ásýndum; sæmilega vel að sèr eptir þeirrar tíðar máta, einkum í lagavísindum, og allvel gáfaður, góður þeim, er flúðu undir hans skjól og meðaumkvunarsamur við marga. Hann bjó í Haga á Barðaströnd, og gjörðist vel fjáður.

Í tekjum við sýslubúa sína þótti hann opt harður, þar sem hann vissi, að fè nokkurt var fyrir; var það mest eignað Halldóru konu hans, að hún hefði mjög hvatt hann þar til, svo stundum hefði ágangur hans og fjárfýkn verið um of, því hún hefði verið sèrlega ágangssöm, þar sem hún kom því við og spillt honum stórum. Eptir andlát Ólafs flutti Halldóra kona hans að Kvigindisfelli í Tálknafirði; vildi þá svo til, er hún fór yfir heiðina til Patreksfjarðar með flutning sinn á mörgum hestum, sem reknir voru, að svartri þoku sló yfir, týndist þá hestur sá, sem bar töskur þær, er Halldóra hafði látið í allt silfur sitt og peninga; kom hesturinn til bygða síðan, en töskurnar fundust ekki, þó eptir þeim væri leitað, og sögðu sumir: »Male parta male dilabuntur«. Halldóra bjó þar eptir á

Felli, og varð seinast snauð og vesæl.—Mælt er að Ólafur sýslumaður hafi tekið upp bú eða fé fyrir sumum sýslubúum sínum, sem ranga tíund gjörðu, og varð hann af því óþokkaður mjög; ótíundað fè var þá metið kóngseign. — Ólafur sýslumaður varð á seinni árum sínum mikill drykkjumaður, og það dró hann til dauða, þá er hann ætlaði að ferðast frá Vatneyri, en dó drukkinn fljótlega þar í skemmunni.

## Davíð Skeving.

*Faðir:* Hans, klausturhaldari á Möðruvöllum í Hörgárdal 1722, son Lárusar sýslumanns í Vaðlaþingi, Hanssonar sórenskrifara í Björgvin, Lárussonar prófasts í Skeving í Sælundi (er þaðan tekið ættarnafnið *Skeving*). Hann dó á Möðruvöllum 1786, 82 ára.

*Móðir:* Guðrún, dóttir Vigfúsar á Hofi á Höfðaströnd Gíslasonar, Vigfússonar sýslumanns, Gíslasonar lögmanns, Hákonarsonar sýslumanns, Árnasonar. Guðrún var mesta ágætiskona, og dó 1767.

*Kona:* Þóra, dóttir Eggerts á Álptanesi, Guðmundarsonar, þar og, Sigurðarsonar lögmanns í Einarsnesi, Jónssonar sýslumanns þar. Þóra dó 1784.—Þau Þóra giptust á Álptanesi 15. ágúst 1757; orti Gunnar prófastur Pálsson þá til þeirra fornyrta snotra kviðu.

*Barn:* Ragnheiður, fædd 15. janúar 1759, dó á Bíldudalseyrar kaupstað 2. ágúst 1823, átti fyr Bjarna Einarsson sýslumann, síðar Þorkel Gunnlaugsson.

Davíð Skeving er borinn 1731 á Möðruvöllum, var til bóknáms og menta settur hèr í landi, sigldi síðan til meiri lærdómsframa, kom svo inn og var settur bókhaldari við nýju innrèttingarnar í Reykjavík 1 ár, en var svo settur sýslumaður í Barðastrandarsýslu, þá er Ólafur sýslumaður missti hana 1752, vegna þess, að hann átti barn fram hjá konu sinni, og fèkk svo veitingu fyrir sýslunni 1753; hann gipti sig þar eptir og bjó um hríð í Bæ á Rauðasandi, en fèkk síðan til eignar hálfan Haga á Barðaströnd, og flutti þangað búferlum, lèt þar byggja mjög stóra, vandaða og prýðilega stofu, hún brann ásamt miklum öðrum fjármunum 1777. 1776 tók hann sèr fyrir lögsagnara Bjarna Einarsson og gipti honum dóttur sína (sjá hèr síðar). - Davíð lèt aptur byggja upp Hagabæ snoturlega;

hann var hinn mesti búmaður og mjög hagsýnn í öllum byggingum, sjálfur var hann hinn mesti iðjumaður og framkvæmdasamur, auðgaðist hann og vel, bæði að löndum og lausum aurum; hann öðlaðist og að testamentisgjöf Einars Ögmundssonar töluverða fjármuni, hvar af sumt orsakaði misklíð löngu seinna (þær jarðir voru Kross, Hamrar, Hvammur og 10 hndr. í Læk í Moshlíð).—Þóru konu hans fèll til limafallssýki á sínum síðustu árum ; hún var þvílíkur handiðnakvennmaður, að eptir það, að hún hafði mist fingurna, saumaði hún snildarlega krosssaumsábreiðu, sem mèr var sýnd, og Davíð sýslumaður hafði yfir sæng sinni, og sagði mèr það sjálfur, sem mèr þótti ótrúlegt. Annars var hún ágætiskona af öllum sögð, er til hennar þekktu; hún andaðist 1784.—Eptir það, að Davíð gipti dóttur sína, bjó hann ekki utan á hálfum Haga, en dóttir hans með manni sínum á hálflendunni, til þess kona hans dó; þar eptir var hann í húsmensku hjá dóttur sinni. — Þess er áður getið, að hann tók sèr til styrktar í sýslumannsembætti Bjarna Einarsson, en sagði af sèr sýslunni 1781 ; fèkk algjörlega lausn frá embættinu 1784, þar eptir var hann í Haga til 1809, þá hann með dóttur sinni flutti að Hamri á Barðaströnd, hvar hann hafði látið snoturlega byggja, og þar dó Davíð sýslumaður 1815, þá 84 ára, 24. ágúst ; hann var grafinn í Haga og settur eptir hann minnisvarði. — Davíð var í hærra lagi meðalmaður á vöxt, grannvaxinn, eigi fríður, en sómdi sèr allvel; þó var hann augnaófríður.—Hann var prúðmenni í allri hegðun ; óásælinn og kom sèr vel við sýslubúa sína yfir höfuð, þótti þó kaldur og ónotalegur þeim, er voru honum óvinveittir, en vinum sínum notalegur og heilráður. Allvel var hann lærður og fóru honum kringt öll embættisverk ; yfir höfuð var hann mikill maður í sinni tíð, og hinn mesti reglu- og hófsmaður um alt.

## Bjarni Einarsson.

*Faðir:* Einar bóndi á Vatneyri, son Bjarna bónda í Kollsvík, Jónssonar bónda á Sellátrum, Tómassonar ; voru þeir allir gildir bændur í Barðastrandarsýslu.

*Móðir:* Kristín, dóttir síra Þorvarðar í Sauðlauksdal, Magnússonar prófasts á Stað í Steingrímsfirði, Einarssonar prests sama staðar, Sigurðssonar prófasts á Breiðaból-

stað í Fljótshlíð, Einarssonar officialis í Eydölum Sigurðssonar prests.

*Kona:* Ragnheiður, dóttir Davíðs sýslumanns Skevings (sjá að framan).

*Son:* Guðmundur Skeving, sjá hèr síðar.

Bjarni Einarsson útskrifaðist úr Skálholtsskóla 1770, sigldi til Kaupmannahafnar og tók þar öll reynslupróf, og hið síðasta í lögvísi með meðalheppni, kom svo út og gjörðist lögsagnari Davíðs Skevings 1776 (eður 1775), giptist Ragnheiði dóttur hans og bjó á hálfum Haga. Þá er Davíð frásagði sèr sýsluna, fèkk Bjarni sèr hana veitta 1781. Bjarni var ekki heppinn í dómaraverkum, þó hann væri allvel að sèr, þótti sýslan og mögur, og sagði henni því af sér 1788. Óástúðleg gjörðist sambúð þeirra Bjarna sýslumanns og Ragnheiðar, sem meira var kennt henni en honum, kom það svo, að hann skildi við hana og flutti sig 1790 á eignarjörð sína Breiðuvík, og bjó þar sem bóndi embættislaus, til þess hann dó 1799. — Bjarni fór utan 1788, kom út og bjó sèr til stofu í Flatey, hvar hann dvaldi 2 ár áður enn hann fór í Breiðuvík.

Bjarni tjáist að hafa verið í margan máta ágætur maður og góðmenni, en enginn skörungur. Hann hefir skrifað um dygð þjónustufólks og um saltfisk, og var vel viti borinn um margt.—Ragnheiður bjó eptir í Haga, og giptist 1809 Þorkeli syni síra Gunnlaugs Magnússonar, og flutti sig þá frá Haga að Hamri. En þá er bóndi hennar varð faktor í Bíldudal, fluttist hún þangað með honum og dó þar 2. ágúst 1823.

## Oddur Halldórsson Vídalín.

*Faðir:* Halldór klausturhaldari á Reynistað, sonur Bjarna sýslumanns og Þingeyraklausturhaldara Halldórssonar; sjá Húnaþing.

*Móðir:* Málmfríður Sigurðardóttir. Oddur var laungetinn.

Oddur hafði allgóðar lærdómsgáfur, lærði hèr, sigldi síðan og var ástundunarsamur, lifði þar spart og reglulega, tók hið latínska lærdómspróf í lögvísi með góðri heppni og fèkk veitingu fyrir Barðastrandarsýslu 1788, þegar Bjarni frásagði sèr hana. Hann lèt gjöra sèr litla stofu í Haga og var þar aleinn. Fyrst var hann sæmilega reglusamur, en þó með mikla mælgi, svo tók hann að verða drykkjumaður og öllum leiðin-

legur út af sífeldu orðamasi og sumu illu, þá honum sýndist, til annara; komst hann þar fyrir í málaferli. — Svo kom, að menn skiptu sèr ekkert um, hvaða orðbragð sem hann brúkaði, og tapaði hann allri sinni virðingu ; um embættisverk sín skipti hann sèr mjög lítið, svo að hann var frá þeim settur 1801; hafði hann þá ekkert af að lifa, en var ætíð drukkinn, er hann gat brennivín fengið, tærðist hann svo upp í vanþrifum og drykkjuskap, svo hann dó þar af 1803. — Hvorki giptist hann eða átti barn ; hann var gott latínuskáld, og vel að sèr í latínu og mörgum öðrum vísindagreinum.

### Guðmundur Bjarnason Skeving.

*Faðir:* Bjarni sýslumaður Einarsson, nýnefndur.
*Móðir:* Ragnheiður, dóttir Davíðs sýslumanns Skevings.
*Kona:* Halldóra Benidiktsdóttir frá Staðarfelli, Bogasonar í Hrappsey, Benidiktssonar.
*Börn:* a. Davíð, fæddur í Haga 1802, útskrifaður úr Bessastaðaskóla fór hann utan til lærdómsframa, var þar hirðulaus við lærdóm, en hafði þó allgóðar gáfur ; kom svo út aptur, og var um hríð hjá foreldrum sínum ; fór þá enn utan, en kom út árið eptir, og giptist því næst Ragnheiði, dóttur Jóns á Felli í Tálknafirði, áttu þau eitt barn, er dó ; þau skildu þar eptir.— Síðan fór hann að búa í Haga á Barðaströnd og giptist bústýru sinni Katrínu Sigurðardóttur, þau áttu eitt barn, er dó ungt; 1830 fluttu þau að Rauðsdal á Barðaströnd, og búa þar enn, 1839.

b. Þóra, fædd 1810, giptist 1830 timburmanni Magnúsi, syni síra Gunnlaugs Magnússonar, klausturprests á Reynistað; áttu eitt barn, skildu svo.

c. Benidikt, fæddur 1807, lærði í Bessastaðaskóla, fór svo utan og tók öll venjuleg reynslupróf, og hið síðasta í guðfræði með heppni ; gjörðist svo skrifari hjá biskup Möller, fékk 1837 prestakall á Rómey í Danmörku, og giptist þá dóttur póstmeistara í Danmörku.

d. Ólafur, fæddur 1816, varð urtakramarasveinn í Kaup-

mannahöfn, kom svo út 1838 til verzlunar föður síns í Flatey; ógiptur[1].

e. Hildur, fædd 1818, fór utan 1836 til frama, en kom út aptur 1838, giptist svo faktori Þorsteini Þorsteinssyni; hann keypti Patreksfjörð 1846 og gjörðist þar kaupmaður[2].

f. Herdís fædd 1820, giptist 1838 stúdent og kaupmanni Brynjólfi Bogasyni í Stykkishólmi. — 1840 gjörðist hann á eigin reikning kaupmaður í Flatey, og byggði þar verzlunar- og íveruhús úr timbri[3].

Guðmundur Skeving er borinn í Haga á Barðaströnd árið 1776, ólst hann upp í foreldrahúsum til síns 12. árs, þá honum var til læringar komið að Selárdal til Gísla prests Einarssonar og dvaldi þar 4 vetur; að þeim liðnum vèk hann til Geirs biskups Vídalíns, sem eptir eins vetrar dvöl útskrifaði hann, þá 16 vetra. Þar eptir var hann 3 ár skrifari hjá stiptamtmanni Ólafi Stefánssyni. Haustið 1796 fór hann utan til Kaupmannahafnar, varð þar háskólaborgari og tók examen með lofi, og nokkru seinna hið svo kallaða annað examen, og tók þá að leggja sig eptir lögfræði, en þótti of hvílrækur við það, og vitjaði Íslands aptur vorið 1800, og dvaldi þá eins árs tíma hjá þáveranda lögmanni Magnúsi Ólafssyni Stephensen.

1801, þegar Oddur sýslumaður Vídalín var settur frá Barðastrandarsýslu, en Davíð sýslumaður settur til að gegna þar sýslumannsverkum, sem þar frá afsakaði sig vegna aldurdóms, var Guðmundur Skeving sama ár settur honum til styrktar, og gegndi þar eptir öllum sýslumannsverkum þar; nefnt ár, 1801, giptist hann jungfrú Halldóru Benidiktsdóttur, sem

---

1) Ólafur sigldi aptur og ílengdist í Kaupmannahöfn; hann var um tíma í Grænlandi.

2) Þorsteinn bjó seinast í Æðey; börn hans og Hildar voru:
a. Guðmundur Scheving, við verzlun vestra.
b. Davíð Scheving, læknir á Patriksfirði, á Þórunni dóttur síra Stefáns í Vatnsfirði.
c. Þorsteinn, við verzlun í Reykjavík.
d. Soffía, kona Richters kaupmanns í Stykkishólmi.

3) Sjá hèr að framan.

áður er sagt; bjuggu þau þar eptir á hálfum Haga á Barðaströnd um hríð.—6. júní 1806 var Guðmundur Skeving algjörlega settur fyrir sýsluna upp á eigið tilsvar, þá er afi hans afsagði þar í alla hlutdeild, og hèlt því sýslustarfi til 26. júlí 1812.

1806 keypti Guðmundur frá suðurlandi af skipherra Guðmundi Ingimundarsyni slupskipið Delphin, er með það sótti sjó frá Felli í Tálknafirði, hverja jörð Guðmundur útvegaði skipherranum til ábýlis. Þetta skip fórst með mönnum og allri áhöfn í ofsaveðri 1813.

1809, þegar Jörgensen hafði neytt Guðmund Skeving til að taka á móti skjölum norðuramtsins og fengið honum fullmektugan, ferðaðist hann að Möðruvöllum og var þar viku hjá amtmanni Stefáni, meira í kynnisför hjá þessum frænda sínum og að firra sig vítum við Jörgensen, er þá var haldinn Englands stjórnarerindisreki til að taka Ísland, sem önnur Danakonungs lönd, en hann vildi því embætti gegna fyrir Jörgensens tilhlutun. Hann hagaði sèr svo skynsamlega vel við amtmann Stefán Þórarinsson, að hann var mjög vel ánægður með hans aðgjörðir, sem sýnir vitnisburðarskrá sú, er Stefán amtmaður gaf Guðmundi, hvar í meðal annars stendur: »under bemeldte slibrige Omstændigheder har Sysselmand Hr. Gudmund Scheving opfört sig som en retskaffen Mand egner og anstaaer«.— Samt af því Guðmundur sá villu sína að nokkru, sleppti hann Barðastrandarsýslu.

1814 fór hann ásamt kaupmanni Ólafi Thorlacíusi utan og keypti hálfan Flateyjarkaupstað af kaupmanni Ólafi Christensen í Kaupmannahöfn 1815; var nefndur kaupmaður, Christensen, beggja þeirra commissioneri utanlands, en Guðmundur Skeving aptur fyrir beggja þeirra hönd hèr á landi kaupmaður, svo lengi sem Christensen lifði; en eptir hann látinn hafði hann sameign við Holger P. Clausen á vörum og verzlunarskipi til þess árið 1825, þá þeir skildu fèlag sitt og Guðmundur keypti sjálfur í Kaupmannahöfn vörur og verzlunina og hèlt fram verzluninni á eigin reikning þar eptir til síns dánardægurs. — Fiskijagtir keypti hann smám saman til verzlunar sinnar, og lèt sjálfur smíða tvö þilskip til fiskiveiða í Flatey, og byrjaði fyrstur Íslendinga vestanlands með smíði á haffærum þilskipum 1822.

Til vetrarlegu lèt hann afgirða svonefndan Grýluvog með sterkum grjótgarði, 270 fóta löngum, 14 fóta þykkum og 10 fóta háum; er það verk svo rammbyggilegt og mikið, að ólíkindi eru, að þessarar aldar menn hafi á eiginn kostnað svoddan þrekvirki gjöra látið á Íslandi. — Hèr að auki lèt hann byggja mikil geymsluhús fyrir fiskiafla, lifur og bræðslu í mjög stórum pottum, einnig íveruhús fyrir fiskimenn sína, föng og fleira, þar hin gömlu Flateyjarkaupstaðarhús voru smá og 2 að tölu, og ónóg fyrir vörur hans.

Hann menntaði fiskimenn sína og launaði þeim vel; hafði verzlunarskip sitt til fiskiveiða, og lèt það liggja hèr vetrarlegu eitt sinn, til að geta snemma byrjað fiskiveiðar, en fannst það ekki svarandi óhagræðum, er þar af leiddu.

Til að koma öllu þessu í verk, kostaði hann ærna peninga, svo að hann með allri sinni framsýni og dugnaði hélzt ekki við á seinni árum, þá er vörur, sendar frá Íslandi, seldust fyrir lítið erlendis, og voru litlar. — Hann átti, áður enn hann byrjaði að verzla, mikið jarðagóðs, og seldi þar af mikinn part; hafði og það óhapp að missa tvö fiskiskip sín allsendis, annað þeirra með farmi frá Kaupmannahöfn, sem hann matti 5000 rd. skaða, áður nefndan Delphin; var hann þó maður stórauðugur (eptir því, sem á Íslandi þykir) til síns dánardægurs.

Árið 1836 fór hann utan til verzlunarsýslunar, og lofaði þá dóttur sinni Hildi og syni sínum Ólafi með sèr; hann kom út með skipi sínu 1837, en fór utan aptur um haustið, þó með veikum burðum, því það sama sumar lá hann opt sjúkur og var þrotinn heilsu af höfuðverk og öðrum þar meðfylgjandi þyngslum, svo hann hafði mist mikið af sinni framkvæmd, fjöri og dugnaði. Á utanferð sinni og eptir það, að hann kom til Kaupmannahafnar, þyngdi honum enn meir, svo að í október, er hann var að afljúka bréfaskriptum til Íslands með póstskipi, varð hann mjög krankur af ein slags hálfvisnunarslagi; læknir Jón Hjaltalín tók honum þá blóð, svo honum lètti mikið; daginn eptir klæddist hann og virtist vera í apturbata, en tveim dögum síðar þyngdi honum svo, að hann varð að flytjast inn á Friðriks-spítala. Ólafur sonur hans vitjaði hans daglega, og þá, er síra Benidikt á Rómsey frètti krankleika föður síns, tókst hann á hendur örðuga ferð heiman frá sèr til Kaupmannahafnar; var þá agent Guðmundur Skeving svo þungt

haldinn, að, jafnvel þótt hann gleddist við komu þessa sonar síns, gat hann vart heyrt til hans eða talað við hann eða aðra vini sína; var prófessor Finnur Magnússon meðal hinna helztu þeirra; sjúkdómurinn þyngdi meir og meir, til þess rænan loks var farin, áður enn líf hans, 26. nóvember 1837, útsloknaði sem ljós úr þessum heimi. Með heiðarlegri útför var lík hans frá spítalanum fært til hvíldar á assistents-kirkjugarð 2. desember. Spítalapresturinn, Buschmann, hèlt ræðu yfir moldum hans.

Konungi vorum, Friðrik VI., duldust ekki að öllu þessa staka dugnaðarmanns miklu framkvæmdir og viðburðir í ýmsu til föðurlands heilla, fyrst sem sýslumanns, hvar um amtmaður Stefán Stephensen hefir skriflega gefið honum þann vitnisburð: »að hann sem sýslumaður á 12 ár hafi með sèrlegri reglusemi, nákvæmni og stöðugri framkvæmd gætt síns sýslumannsembættis, eins og hann annars hefði lagt mikið í sölurnar af sjálfs síns formegun til að styrkja marga af sýslubúum til nytsamra fyrirtækja, og líka leiðbeint þeim með margt slag í því tilliti«; þar næst hans manndómsfyrirtæki með byggingar og rækt á bújörðu sinni Haga, og síðan framantalin framaverk hans sem kaupmanns, — gaf honum því heiðursnafnbót með agents-titli árið 1833.

Agent Guðmundur Skeving hafði vel skarpar gáfur, en nokkuð óstöðugar; hann var maður vel að sèr í ýmsum lærdómsgreinum, einkum búnaðar- og verzlunarfræðum, guðfræði og lögfræði; á efri árum las hann mest bækur þær, er hljóðuðu um heimspeki og guðfræði.—Hann var fjárgæzlumaður, en þar hjá örlátur höfðingi, góðgjörða- og veitingasamur; góður og stjórnsamur húsfaðir; náttúrugóður og notasamur við hjú sín, og óspar á veitingum við vini sína. Forstands- og framkvæmdarmaður hinn mesti, og sparaði ekki fjármuni til manndómsfyrirtækja. Hann mátti kallast snillingur í mörgu.

Að líkamsskapnaði var hann nettmenni í vexti, að andlitslagi laglegur; með gulhvítt hár, nokkuð rjóður í kinnum, nefið nokkuð hátt, ennið mikið, munnur og haka laglegt; augun blá og nokkuð stór, en skarpleg; allur hans andlitskapnaður fór vel; hann var meðalmaður á vöxt; þykkhendur, en eigi voru hendurnar stórar; fætur í minna lagi. Hann var yfir

höfuð maður ásjálegur og lengi unglegur í andliti og framgöngu. Hans er nú mjög saknað, ekki einungis af vinum hans, heldur líka af þeim, er voru honum sem kaupmanni mjög örðugir, því með þolinmæði yfirvann hann margt ógeðfelt, og var tíðum svikinn, sem og er landfarsótt fyrir kaupmannsstèttina.

Agent Guðmundur Skeving var á æskuárum fjörmikill og mjög fyrir leikfang; þá er hann með aldrinum varð settari, var hann ætíð gamansamur, skemmtinn og ræðinn, einkum þá er hann var á vinasamkomum, og fékk ætíð nóg og skemmtilegt umtalsefni.—Vonum betur yfirvann hann margan örðugleika og andstreymi, sem mætti honum, eptir það að hann gjörðist kaupmaður. Opt fèkk hann óverðskuldað last, sem hann leiddi fram hjá sèr, þó vissi. Með aldrinum varð hann maður trúrækinn og guðhræddur, eptir því, sem menn frekast vissu. — Hann var hagorður og bar gott skyn á skáldskap, var og gefinn fyrir sönglist og var raddmaður sæmilegur; orðfæri og talanda hafði hann góðan, og færði allgóða rithönd. — Á fyrri árum búskapar síns varð hann vegna sjávarafla auðugur, því hann hafði fiski- og hákarlaskipaútveg ásamt jagtinni; þá keypti hann hálft höfuðbólið Haga á Barðaströnd, en hálft fèkk hann að erfðum ásamt fleiri jörðum.

### Guðbrandur Jónsson.

*Faðir:* Jón sýslumaður í Rangársýslu, sonur síra Jóns í Stafholti, Jónssonar sýslumanns í Einarsnesi, Sigurðssonar lögmanns þar, Jónssonar sýslumanns, þar og, Sigurðssonar.

*Móðir:* Sigríður, dóttir Þorsteins sýslumanns á Móeiðarhvoli, Magnússonar lögsagnara á Espihóli.

*Kona fyrri:* Kristín eldri, dóttir síra Gísla Einarssonar í Selárdal og Ragnheiðar eldri, dóttur Boga í Hrappsey Benidiktssonar.—Þau giptust í Selárdal 1814; Kristín dó 1826.

*Börn:*
1. Ragnheiður.
2. Sigríður.
3. Valgerður.
4. Sigríður.
5. Einn piltur; þau dóu bæði strax.

*Kona seinni:* Kristín yngri, alsystir hans fyrri konu.
*Börn:* 6. Kristín.
7. Jóhanna.

Guðbrandur sýslumaður er fæddur á Móeiðarhvoli. Hann óx upp í foreldrahúsum, til þess honum var komið til læringar. Þá er hann hafði numið skólalærdóm sinn og var útskrifaður, fór hann utan og tók tvö fyrstu reynslupróf; síðan tók hann að leggja sig eptir lögfræði, en tók ekki reynslupróf í henni.—1812 26. júlí var Guðbrandur settur sýslumaður í Barðastrandarsýslu; fór hann samsumars vestur til sýslu sinnar og fèkk aðsetur í Selárdal, hjá Gísla presti og Ragnheiði. Þar eptir setti hann bú sitt á kóngsjörðinni Feigsdal, hvar hann hefir búið til þessa, 1838. Hann giptist, sem áður er sagt, og átti börn.—1846 frásagði Guðbrandur sýslumaður sèr Barðastrandarsýslu, og fèkk lausn í náð frá embættinu 1847, og kammerráðsnafnbót. Býr í Feigsdal, 1847, ekkjumaður[1].

## Brynjólfur Sveinsen.

*Faðir:* Síra Benidikt í Hraungerði, son Sveins prófasts samastaðar, Halldórssonar.
*Móðir:* Oddný Helgadóttir (Jónssonar) bónda á Hliði á Álpanesi, og Ragnheiðar Ólafsdóttur bryta.

---

1) Guðbrandur sýslumaður dó 1857.

2) Brynjólfur var fæddur 1799, útskrifaðist úr Bessastaðaskóla 1823, var svo nokkur ár ritari hjá Bonnesen sýslumanni í Rangárvallasýslu, sigldi þaðan og tók 1831 próf í dönskum lögum með heppni. Hann var um tíma ritari landfógeta og hjá amtmanni Grími, og fèkk Barðastrandarsýslu 1847 og Borgarfjarðarsýslu 1850. — Hann giptist ekki, en átti 2 eður 3 launbörn, þar af eitt með Önnu dóttur Eiríks í Ási; voru þau bræðrabörn; það barn hèt Steinunn, og varð kona Gríms á Hólmi í Mosfellssveit.

# Viðbætir.

## Jón Thoroddsen.

*Faðir:* Þórður beykir á Reykhólum Þóroddsson.
*Móðir:* Þórey, dóttir síra Gunnlaugs, prests til Reynistaðar, Magnússonar.
*Kona:* Kristín, dóttir Þorvaldar í Hrappsey (Sivertsens) Sigurðssonar frá Fjarðarhorni við Hrútafjörð.
*Börn:* 1. Þorvaldur, skólakennari í Reykjavík; kona hans Þóra, dóttir Pèturs biskups Pèturssonar.
2. Skúli, sýslumaður og bæjarfógeti á Ísafirði, sjá Ísafjarðarsýslu.
3. Þórður læknir á Suðurnesjum, á Önnu, dóttur Pèturs Guðjónssonar.
4. Sigurður, við háskólann í Kaupmannahöfn.
5. Elín, laungetin, kona Páls læknis Blöndals í Stafholtsey. Móðir Elínar var Ólöf, dóttir síra Hallgríms á Hrafnagili.

Jón var fæddur 1819, útskrifaður úr Bessastaðaskóla 1840, sigldi til háskólans árið eptir. Veturinn 1848 gaf hann sig í herþjónustu móti Þjóðverjum, en við vopnahlèð um haustið fèkk hann lausn frá henni. Um vorið 1850 kom hann aptur út til Íslands og var þá settur til að þjóna Barðastrandarsýslua er Brynjólfur sýslumaður fèkk Borgarfjarðarsýslu. 1853 sigldi Jón aptur og tók árið eptir próf í dönskum lögum með heppni; var honum þá veitt Barðastrandarsýsla. Vorið eptir reisti hann bú í Haga og bjó þar, unz honum, 1861, var veitt Borgarfjarðarsýsla. Jón sýslumaður var ágætt skáld.

## Brynjólfur Bogason.

Um hann hefir verið talað hèr að framan. Hann þjónaði Barðastrandarsýslu frá 1853, er Jón Thoroddsen sigldi, og til 1854, að Jón Thoroddsen kom inn með veitingu fyrir sýslunni; og seinna aptur þjónaði hann Barðastrandarsýslu frá því 1861, er Jón Thoroddsen sleppti sýslunni, og þangað til 1865, að Gunnlaugur sýslumaður Blöndal tók við henni, og í þriðja sinn 1869—70, í veikindum Blöndals.

## Gunnlaugur Björnsson Blöndal.

*Faðir:* Björn Auðunsson Blöndal, sýslumaður í Húnavatnssýslu.
*Móðir:* Guðrún, dóttir þórðar kaupmanns á Akureyri Helgasonar.
*Kona:* Sigríður, dóttir dr. Sveinbjarnar Egilssonar.
*Börn:* 1. Magnús, hefir lært á Möðruvallaskólanum.
2. Björn, er á læknaskólanum.
3. Hannes, hefir lært á Möðruvallaskólanum.
4. þórunn, ógipt.

Gunnlaugur var fæddur 1834, útskrifaðist úr Reykjavíkurskóla 1854, tók fullkomið embættispróf í lögum með 2. einkunn 1863, fèkk Barðastrandarsýslu 1865, en sökum veikinda fèkk hann lausn frá henni 1870, var þó aptur settur yfir hana árið 1871 og veitt hún á ný 1874, en 1879 var hann aptur leystur frá henni. Gunnlaugur sýslumaður var mjög geðveikur á seinni árum sínum og dó á Vordingborg-spítala í Danmörku 1884.

## Ásmundur Sveinsson.

*Faðir:* Sveinn, son Sæbjarnar í Hlaupandagerði í Hjaltastaðaþinghá, þorsteinssonar Sigurðssonar Eyjólfssonar frá Dal í Skaptafellssýslu.
*Móðir:* Helga Sigurðardóttir Eyjólfssonar.
*Kona:* Guðrún Hallsdóttir; faðir hennar var danskur, og um tíma við verzlun í Reykjavík.

Ásmundur er fæddur 21. marz 1846, og útskrifaður úr Reykjavíkurskóla 1874. Síðan sigldi hann til háskólans í Kaupmannahöfn og lagði sig þar eptir lögum, en kom aptur út án þess að hafa tekið próf í lögfræði. Árið 1879 var hann settur sýslumaður í Barðastrandarsýslu, þegar Gunnlaugur Blöndal sleppti henni, og til 1881, að Fischer fèkk hana.

## Adam Ludvig Emil Fischer.

Fischer sýslumaður og kona hans eru bæði dönsk; hann er fæddur 4. október 1842, tók fullkomið embættispróf í lögum með 2. einkunn 1868, var síðan við ýmislegt í Danmörku, einkum við málfærslu; fèkk Skaptafellssýslu 1880, og Barðastrandarsýslu 1881.

### Gunnlaugur Björnsson Blöndal.

*Faðir:* Björn Auðunsson Blöndal, sýslumaður í Húnavatnssýslu.
*Móðir:* Guðrún, dóttir Þórðar kaupmanns á Akureyri Helgasonar.
*Kona:* Sigríður, dóttir dr. Sveinbjarnar Egilssonar.
*Börn:* 1. Magnús, hefir lært á Möðruvallaskólanum.
2. Björn, er á læknaskólanum.
3. Hannes, hefir lært á Möðruvallaskólanum.
4. Þórunn, ógipt.

Gunnlaugur var fæddur 1834, útskrifaðist úr Reykjavíkurskóla 1854, tók fullkomið embættispróf í lögum með 2. einkunn 1863, fékk Barðastrandarsýslu 1865, en sökum veikinda fékk hann lausn frá henni 1870, var þó aptur settur yfir hana árið 1871 og veitt hún á ný 1874, en 1879 var hann aptur leystur frá henni. Gunnlaugur sýslumaður var mjög geðveikur á seinni árum sínum og dó á Vordingborg-spítala í Danmörku 1884.

### Ásmundur Sveinsson.

*Faðir:* Sveinn, son Sæbjarnar í Hlaupandagerði í Hjaltastaðaþinghá, Þorsteinssonar Sigurðssonar Eyjólfssonar frá Dal í Skaptafellssýslu.
*Móðir:* Helga Sigurðardóttir Eyjólfssonar.
*Kona:* Guðrún Hallsdóttir; faðir hennar var danskur, og um tíma við verzlun í Reykjavík.

Ásmundur er fæddur 21. marz 1846, og útskrifaðist úr Reykjavíkurskóla 1874. Síðan sigldi hann til háskólans í Kaupmannahöfn og lagði sig þar eptir lögum, en kom aptur út án þess að hafa tekið próf í lögfræði. Árið 1879 var hann settur sýslumaður í Barðastrandarsýslu, þegar Gunnlaugur Blöndal sleppti henni, og til 1881, að Fischer fékk hana.

### Adam Ludvig Emil Fischer.

Fischer sýslumaður og kona hans eru bæði dönsk; hann er fæddur 4. október 1842, tók fullkomið embættispróf í lögum með 2. einkunn 1868, var síðan við ýmislegt í Danmörku, einkum við málfærslu; fékk Skaptafellssýslu 1880, og Barðastrandarsýslu 1881.

## II. Ísafjarðarsýsla.

Annar hluti þorskafjarðarþings nefnist Ísafjarðarsýsla og aðgreinist frá Barðastrandarsýslu við Langanes í Arnarfirði og nær til Geirhólms eða Geirólfsgnúps, sem aðgreinir hana frá Strandasýslu; er þessi sýsla mjög vogskorin.

Hinir gömlu þingstaðir í Ísafjarðarsýslu voru:

Í vesturpartinum:

1. Hrafnseyri við Arnarfjörð.
2. Meðaldalur við Dýrafjörð.
3. Mýrar við Dýrafjörð.
4. Mosvellir við Önundarfjörð.
5. Suðureyri við Súgandafjörð.
6. Hóll í Bolungavík.

Í Norðurpartinum:

7. Tunga við Skutulsfjörð.
8. Súðavík við Álptafjörð.
9. Ögur við Ísafjörð.
10. Reykjarfjörður við Vatnsfjörð.
11. Nauteyri á Langadalsströnd.
12. Vargsdalur á Snæfjallaströnd.
13. Hesteyri við Jökulfjörð.
14. Dynjandi í Jökulfjörðum.

---

### A.
### Höfðingjar,
(er eg held að hafi þar haft völd).

Á fyrri tíðum voru þar margir höfðingjar, sem fornsögur og Sturlunga um geta; þó voru jafnan Vatnsfirðingar hinir helztu, sem höfðu goðorð um Ísafjörð; önnur smærri goðorð höfðu stundum Mýra-, Sanda- og Rafnseyrarmenn. Get eg hér einasta lítið eitt hinna helztu, eptir að Ísland kom undir Norvegs konung.

#### Einar þorvaldsson.

*Faðir:* þorvaldur í Vatnsfirði, Snorrason, þórðarsonar, þorvaldssonar, Kjartanssonar, Ásgeirssonar, Knattarsonar; þeir voru allir goðar í Vatnsfirði.

*Móðir:* Þórdís Snorradóttir (lögmanns fróða) Sturlusonar í Hvammi, Þórðarsonar á Staðarfelli, Gilssonar.
*Dóttir:* Vilborg, átti Eirík riddara Sveinbjarnarson (sjá hér síðar).

Einar var borinn 1226; upp ólst hann í Vatnsfirði, Æðey og víðar í Ísafirði til fullkomins aldurs; þá var hann kvaddur til herferðar á Norðurland, og var viðbrugðið, hversu léttur maður í göngu hann væri, að hann stakk aldrei niður spjót- eða axarskapti sínu í göngu norður og norðan.

Hann tók við goðorði sínu og Vatnsfirði samt öðrum eignum föður síns, þegar hann var um eða yfir tvítugsaldur.

Hann var ásamt mörgum öðrum höfðingjum boðaður á fund Hákonar konungs gamla og gaf honum á vald goðorð sitt, þótt konungur setti hann þar fyrir.

Þegar staðamál tóku til, var Einar bannfærður af biskupi fyrir það, að hann vildi eigi gefa Vatnsfjarðarstað í vald Árna biskups, og í þeim málum var Einar utan stefndur undir dóm erkibiskups, sem dæmdi af honum Vatnsfjörð 1273, undir eins og Oddastað af Sighvati Hálfdánarsyni; en er Einar eigi vildi sæta þeim dómi, og hélt Vatnsfjörð sem áður, bannfærði Árni biskup hann 1286.

Óljóst er, hvort Einar var kvæntur eða nær hann dó, en seinna tóku erfingjar Einars undir sig Vatnsfjörð, sem sitt erfðagóðs.

## Eiríkur Sveinbjarnarson.

*Faðir:* Sveinbjörn Súðvíkingur, dó 1290, son Herdísar, dóttur Rafns á Hrafnseyri og Sigmundar í Súðavík, er var mikill kappi, hafði opt fylgt Sturlungum.[1] Seinni mað-

---

1) Sjá A bls. 141, neðanmálsgreinina; þar er móðurætt herra Sveinbjarnar rakin rétt, þannig: að móðir hans, Herdís, var dóttir Rafns Sveinbjarnarsonar; var hún tvígipt og fyrri maður hennar Eyjólfur Kársson, en seinni maður Sigmundur Gunnarsson, og þeirra son var herra Sveinbjörn; en Herdís, kona Svarthöfða Dugfússonar var Oddsdóttir, og systir herra Rafns Oddssonar; var móðir þeirra Steinunn, dóttir Rafns Sveinbjarnarsonar. Synir Svarthöfða og Herdísar Oddsdóttur voru þeir Björn, faðir Gissurar galla í Víðidalstungu, og Óli, faðir Steinunnar konu Hauks

ur Herdísar var Svarthöfði Dugfússon, þeirra son Oli, er átti Salgerði Jónsdóttur, þeirra dóttir Steinunn, er átti Haukur Erlendsson.

*Sonur:* Einar Vatnsfirðingur (sjá hér síðar).

Eiríkur var ungur í förum og var einn í tölu þeirra 25, er Hákon konungur háleggur sló til riddara árið 1316, og fékk af konungi ásamt herranafnbót, en 1323 fékk hann hirðstjórn fyrir norðan og vestan; hyggja menn að hann hafi þá tekið Vatnsfjörð í arf-skyni konu sinnar og optast haft þar aðsetur á seinni árum, en 1324 leigir Lárentíus biskup honum í 4 ár Flugumýri fyrir 12 v. árlega; lauk hann því í húsabót og öðru staðnum þarflegu. 1330 var herra Eiríkur ásamt öðrum landshöfðingjum í brúðkaupinu mikla í Haga á Barðaströnd, er Gísli Filippusson gipti Katrínu systur sína. — 1332 fór Eiríkur utan, en hann kom út 1333 með krosstíðir; held eg að Eiríkur hafi haldið hirðstjórn n. og v. til síns dauða, er að bar 1340 (aðrir 1342); mun hann þá hafa haldið bú í Vatnsfirði.

Jón bóndi Þorvaldsson á Kirkjubóli í Skutulsfirði meina eg að um það leyti hafi haft sýsluumboð.

## Einar Eiríksson.

*Faðir:* Eiríkur riddari og hirðstjóri Sveinbjarnarson, nýnefndur.

*Móðir:* Frú Vilborg Einarsdóttir, nýnefnd.

---

lögmanns Erlendssonar; það er því auðsjáanlegur misgáningur, þegar sagt er (bls. 141), að þeir Gissur galli og Haukur lögmaður hafi verið bræðra synir, í stað þess, að þau Gissur og Steinunn kona Hauks hafa verið bræðra börn; þetta er líka leiðrétt (A bls. 637). Þetta, sem nú er sagt, er samkvæmt því, sem stendur í sögu Rafns Sveinbjarnarsonar, og sem í alla staði hlýtur að vera áreiðanlegt; en það hefir gjört nokkurn rugling, að í Landnámu, sem prentuð var í Kaupmannahöfn 1843, stendur á nokkrum stöðum: *„Dóttir Rafns* (ɔ: Sveinbjarnarsonar) *var Steinunn, móðir herra Rafns og Höllu og Herdís“;* en hér er auðsjáanlega skakkt lesið »Herdís« í staðinn fyrir »Herdísar«; með því að lesa svo, verður þetta sem sagt er í Landnámu, samkvæmt því, er stendur í Rafnssögu.

*Kona:* Helga,[1] kennd við Grund í Eyjafirði, hvar hún bjó, meinast afkomandi Sighvats Hálfdánarsonar, sem átti Grund eptir móður sína.

---

1) Það getur víst enginn vafi verið á því, að Helga hafi verið systir Árna hirðstjóra Þórðarsonar; þau hafa bæði átt Grund í sameiningu, sinn helminginn hvort; Árna hluti hefir gengið til dóttur hans Ingileifar, konu Jóns Hákonarsonar í Víðidalstungu, þann hluta seldi Jón síra Halldóri Loptssyni og kvittaði hann fyrir andvirðinu 1398, en hinn hlutann, er Helga hafði átt, seldi Björn Jórsalafari, sonur Helgu, síra Halldóri Loptssyni. — Að þessu virðist það og fyllilega lúta, að þegar Smiðnr hafði látið höggva Árna Þórðarson, er var skömmu fyrir alþing 1362, reið hann eptir þing norður að Grund í Eyjafirði, með Jóni lögmanni Guttormssyni og miklum flokk vopnaðra manna, sjálfsagt til að láta dæma eða gjöra upptækar eigur Árna, er mestar hafa verið þar. Eins er það, að af því Smiður hafði svo hörð orð um Norðlendinga þá, er fremstir voru af bændum og kallaði þá útlaga, og með því það orð lék á, að hann ætlaði að taka gildustu bændur fyrir norðan undir sverð, þá tóku Eyfirðingar sig til og réðust á hann á Grund, undir eins og hann kom þangað að sunnan, en þangað vissu þeir að hann mundi fyrst halda til að taka eigur Árna. Eg skal leyfa mér að geta þess, þó það eigi heyri beinlínis hér til, að það, að Smiður hataðist svo við Norðlendinga, hefir komið til af því, að þeir vildu ekki taka Jón skalla fyrir biskup sinn. Var fundur haldinn á Hólum í þessu máli, og kom Smiður þangað, er þá var hirðstjóri yfir öllu landinu, en engum sættum varð á komið; svo hefir Jón skráveifa eigi bætt fyrir Norðlendingum við Smið, því þegar hann var hirðstjóri nyrðra, höfðu þeir gjört samblástur móti honum og vildu ekki hafa yfirferð hans og mættu honum við Þverá í Vesturhópi nær því þrjú hundruð manna, en hann stökk undan suður á land. Jón var bezti vin Smiðs, en fjandmaður Árna.

Eptir Vatnshyrnu var Árni sonur Þórðar Kolbeinssonar, Þórðarsonar kakala; Þórður kakali hefir þannig verið langafi Helgu og Árna; að vísu finnst þess eigi getið í Sturlungu, að Þórður hafi átt þann son, er Kolbeinn hét, en það er þar fyrir engin ástæða til að efast um, að ættin sé rétt rakin í Vatns-

*Börn:* 1. Björn, sjá um hann hér næst eptir.
2. Einar.[2]
3. Helga.[2]
4. Ragnheiður.

Af testamenti Einars og Björns er að ráða, sem margir hafi verið ættingjar þeirra feðga, þó eigi verði nú frá þeim talið.

Einar Eiríksson mannaðist vel og gjörðist höfðingi, tók og Vatnsfjörð eptir föður sinn, og sat þar stundum, en stundum á Grund í Eyjafirði, eptir að hann giptist Helgu, var þó opt í förum; hygg eg, að hann um hríð hafi haft sýsluvöld við Ísafjörð, en haldið umboðsmenn, sem þá var títt. 1360 klagaði Einar bóndi Eiríksson, að Vatnsfjarðarkirkja ætti árlega skylda á úr Æðey, sem lengi hefði ekki lúkt verið; dæmdi Snorri prestur Þorleifsson Vermund í Æðey Guðmundsson

---

hyrnu, með því það og hvergi sést í Sturlungu, að þar séu talin öll börn Þórðar kakala. Þó Steinvör, systir Þórðar, við dauða hans fyrst eignaði sér Grund, af því að hún var skilgetin systir hans, en börn hans óskilgetin, hefir hún síðar fengið þeim hana.

2) Eg get eigi séð, hvaðan Bogi hefir haft það, að Einar hafi auk Björns átt þessi börn: Einar og Helgu, og hafi hann átt þau, hafa þau verið laungetin og Helga ekki móðir þeirra. Þegar Gottskálk biskup vildi gjöra hjónaband Jóns lögmanns Sigmundssonar og seinni konu hans Bjargar ómerkt, þar eð þau hefðu verið fjórmenningar, þá vitnaðist, að þau Einar og Helga hefðu eigi átt önnur börn saman en Björn, sneri þá Gottskálk biskup því svo, að Helga hefði átt Ingigerði, formóður Bjargar, með presti nokkrum í Saurbæ í Eyjafirði, er Þorsteinn hét; var ættin þá þannig talin frá Helgu Jóns meginn: 1. Björn, son Helgu og Einars. 2. Kristín, dóttir Björns. 3. Solveig, dóttir Kristínar. 4. Jón, sonur Solveigar; en Bjargar meginn: 1. Ingigerður, dóttir Helgu og síra Þorsteins. 2. Jón Búland, son Ingigerðar. 3. Þorvaldur, son Jóns Búlands, 4. Björg Þorvaldsdóttir.

Af testamenti Björns Jórsalafara sést samt, að Björn hefir átt dóttur, er Ragnheiður hét, en hún hefir að eins verið hálfsystir hans og hvorki gifzt né eptirlátið sér börn.

skyldan til að lúka hvert ár téða á til Vatnsfjarðar. — 1377 kærði Einar bóndi í Vatnsfirði, að kyrkjan þar hefði ekki fengið sinn hluta af hvölum á almenningi. Jón ábóti í Viðey dæmdi í umboði Oddgeirs biskups kirkjunni í Vatnsfirði 40 vættir af óskiptum hval, sem kæmi á almenning. — Hér af sést, að Einar bóndi hefir haldið Vatnsfjörð í náðum sem aðra föðurleifð sína. Árið 1366 dæmdi Snorri prestur Þorleifsson klyngir í umboði biskups Ögurs bændur Þórð og Sigurð son hans skylduga að greiða lambseldi til Vatnsfjarðarkirkju, sem Einar bóndi Eiríksson upp á klagaði. 1383 tjáist Einar bóndi að hafa andazt í Vatnsfirði og eptirlátið sitt testament skrifað, en annaðhvort er ekki rétt ártal testamentis Einars, hvar hann umtalast sem dáinn 1382, eða það er skakkt, að hann hafi dáið 1383, enda segja og nokkrir annálar, að hann hafi drukknað ásamt fleirum mönnum á Ísafirði 4. cal. apr. 1381 og aðrir 1383. — Helga lifði lengi þar eptir og tjáist hún að hafa lifað í plágunni 1402 og verið þá á fjöllum uppi við tjald, hefir hún þá mátt hafa verið mjög gömul, ef þetta er satt; hún tjáist að hafa farið 1378 með Birni syni sínum til Róm.

Það virðist sem Einar hafi verið erlendis eða í förum eða í Vatnsfirði 1362, þegar Smiður hirðstjóri Andrésson með Jóni skráveifu og nokkrum fleiri fylgjurum var ráðinn af dögum á Grund í Eyjafirði með tilstyrk Grundar-Helgu, konu Einars bónda.

## Testamenti Einars.

In nomine domini, amen! gjörum vér Skeggi Eldjárnsson, Helgi Einarsson, prestar, Þorvaldur Snorrason[1], Þorvarður Guðmundsson, leikmenn, kunnigt, að sub anno gratiæ 1382 í Vatnsfirði fimtudaginn næsta eptir páskaviku sáum vér testamentum Einars bónda Eiríkssonar góðrar minningar með hans secreto insigli og síðan yfirlásum svo vottandi orð fyrir orð, sem hér segir: Eg Einar Eiríksson gjörir svofelt testamentum, sem hér segir, kjósandi líkam mínum legstað að kirkju heilags Ólafs í Vatnsfirði, gefandi þar til jörð á Hálshúsum og í Vogum, Miðhúsum og Eyri, hálfa í Mjóvafirði og þvílík hvalgæði, sem prófast, að eg og faðir minn hafa átt í Fljóti og hértil

1) aðrir: Snartarson,

kalck gyldan, er vegur 2 merkur; skal sá maður, er kirkjunnar góts heldur, láta gefa hér fyrir árlega á minn árstíðardag fátækum mönnum hundrað í kosti og láta segja sálumessu fyrir minni sál. Kirkju heilags Lárentii á Grund gefur eg fim hundruð, Hrafnagilskirkju tvö hundruð, til Múkaþverár tvö hundruð, til Hólastaðar fim hundruð, til Reynisnesstaðar hundrað, til Þingeyra tvö hundruð, til Kirkjubæjar klausturs þrjú hundruð, til Helgafells hundrað, til Skálholtskirkju tíu hundruð, til Gufudalskirkju hundrað, til Staðarkirkju í Steingrímsfirði hundrað, til Árness kirkju tvö hundruð, Aðalvíkur kirkju sextung í hvalreka í Höfn, til Grunnavíkur kirkju fjórðung hvalreka í Hlöðuvík, kirkjunni að Snæfjöllum þrjú hundruð, Kirkjubóls kirkju í Langadal hundrað, kirkju í Ögri hundrað, kirkju á Eyri í Skutulsfirði hundrað, kirkju á Hóli hundrað, kirkju á Stað í Súgandafirði hundrað, kirkju í Holti í Önundundarfirði tólftung í reka í Sigluvík; land á Dröngum og tvo hluti í reka skal taka Björn son minn til eignar, og skal hann þar fyrir fæða einn ölmusumann mér skyldan æfinlega, og á því götsi öðru, sem eg hefi honum gefið. Presti þeim, er mig syngur til moldar, gef eg tvö hundruð, prestum til sálumessu tíu hundruð; skal síra Einar kópi[1] taka þar af tvö hundruð; fátækum mönnum fim hundruð í kosti, og sé gefið sjö nóttum frá andláti mínu; fátækum frændum gef eg tuttugu hundruð, skal Valgerður Nikulásdóttir eiga þar af fim hundruð, Sesselja systir hennar þrjú hundruð, Ingigerður tvö hundruð, ef Bríget móðir þeirra erfir mig eigi, ella taki þeir, er meira þurfa af mínum frændum. Og til sanninda hér um setjum vér fyrsagðir menn vor innsigli fyrir þetta útskriptum, er gjört var sunnudaginn næsta post festum sancti Ambrosii confessoris í sögðum stað og ári. (Þetta er ritað eptir ekki góðu manuskripti).

Bríet[2] fyrnefnd má hafa verið dóttir Einars með annari konu en Grundar-Helgu, og með Nikulási hafa átt téðar 3 dætur eða fleiri, því Þóra nefnist og Nikulásdóttir (sjá hér síðar).

---

1) aðrir: Eindriði Kópi.

2) Það er auðsætt, að Bríet þessi hefir staðið næst arfi eptir Einar, ef Björn hefði dáið barnlaus, og því annaðhvort verið systir Einars eða laundóttir hans. Það er auðsætt, að

### Björn Einarsson.

*Faðir:* Einar Eiríksson, nýnefndur.
*Móðir:* Grundar-Helga, fyrnefnd.
*Kona:* Solveig, dóttir Þorsteins lögmanns og hirðstjóra Eyjólfssonar, sjá Hegranesþing.
*Börn:* A. Þorleifur (sjá hér síðar).
B. Kristín, átti Þorleif Árnason (sjá hér síðar).

Björn Einarsson er borinn nálægt 1350, mannaðist hann vel og hygg eg að hann hafi haft sýsluvöld um Ísafjörð, ef til vill í umboði föður síns, en seinna algjörlega, meina eg og að hann hafi og seinna haft umboðsmenn (þó er engin fullvissa fyrir hans sýsluvöldum).

1378 fór Björn utan og móðir hans, fóru þau þá bæði til Róm sér til syndalausnar. (Finnur biskup setur hans fyrstu utanför 1379 með Oddgeir biskupi og segir, að hann þá hafi farið til Róms).

1385 fór Björn Jórsalafari, Sigurður hvítkollur og fleiri alls á 4 skipum frá Íslandi og ætluðu til Noregs, fengu mikil veður, rak skipin norður í haf langt fyrir útnorðan Ísland, komust þar í ísa, og skildust skipin að, en seint um haustið náðu þó öll þessi 4 skip til Grænlands á ýmsum stöðum, sum til óbyggða, þar á meðal skip Björns, — er sögn, að honum og konu hans hafi af villimönnum verið bjargað til byggða —. Björn með konu sinni var um vetur þann í Eiríksfirði; gáfu innbúarnir honum tíund af Eiríksfirði, og þar fékk hann af hval, er rak með skutli bóndans í Æðey, skotmanns hlut til framfæris skipverjum sínum. — 1386 komust þeir eigi burt vegna ísa, en komu aptur 1387 til Íslands. 1388 fór Björn til Noregs með Solveigu konu sinni og 3 öðrum frægum mönn-

---

sumir afkomendur Bríetar og Nikulásar hafa þótzt eiga eignir inni hjá þeim feðgum, Einari og Birni, er þeir eigi næðu; þannig lýsti Jón nokkur Nikulásson í breiðustofunni í Vatnsfirði 1458, þegar fjárskipti var gjört eptir Kristínu Björnsdóttur, eign sinni yfir þessum jörðum, Heydal, Botn, Hörslíð (Hörgshlíð ?), Kelda, Bjarnarstaðir, Svansvík, er liggur í Vatnsfjarðar kirkjusókn, og Mýr (Mýri), er liggur í Snæfjallakirkjusókn, og fyrirbauð hverjum manni hald og meðferð á greindum jörðum eður nokkur skipti á þær láta ganga.

um; voru átaldir fyrir kaup við Grænlendinga, en þó dæmdir sýknir; konungur hafði áskilið sér einum Grænlands verzlun. (Þetta er eptir áreiðanlegum skjölum). Solveig kona hans var þá með honum; í þeirri ferð ferðaðist hann til Róm og Jórsala, og heimsótti marga helga staði, kom út með konu sinni 1391.

1405 fór Björn utan í Hvalfirði, og með honum Vilchin biskup, Narfi Sveinsson lögmaður sunnan og austan og bróðir Jón Hallfreðarson. Þetta var Björns fjórða utanferð. Þeir urðu vel reiðfara og tóku Noreg um haustið; öndverðan vetur tók Vilchin biskup sótt þá, er hann leiddi til bana. Björn riddari Jórsalafari gjörði útför biskups með miklum tilkostnaði og höfðingsskap í Björgvin; voru þar saman komnir Áskell erkibiskup, sjö lýðbiskupar og margt annað stórmenni. Stóð útfararveizlan marga daga með hinum beztu föngum. Björn hafði heit á hendi, að heimsækja helga staði og einkum hinn helga Jakobum í Compostella; hóf hann suðurgöngu sína árið 1406 frá Noregi. Það er sumstaðar ritað, að frú Solveig kona hans hafi andazt í Noregi 1405, en önnur rit segja, að hún hafi farið með manni sínum suður í lönd til Jórsalaferðar og að hún hafi látizt þar um 1408. 1406 kom Björn til Róm og dvaldi þar um hríð, þaðan fór hann til Feneyja 1407, og þaðan til Jórsalalands og grafar Drottins; tjá nokkrir að hann hafi þá orðið sjúkur, en sumir segja, að það hafi verið á Spáni. — Frá Jórsölum ferðaðist Björn til Spánar, til að heimsækja hinn heilaga Jacobum í Compostella; frá Spáni ferðaðist hann gegn um Valland og Flæmingjaland til Englands að heimsækja hinn helga Tómas. Þaðan fór hann til Norvegs og sigldi þaðan árið 1410, ætlaði þá til Íslands, en bar til Hjaltlands, hvar hann dvaldi um veturinn; en á næsta sumri 1411 kom hann út og fór heim í Vatnsfjörð. — Björn samansetti bók þá um utanferðir sínar og margt annað úr útlöndum og nefndi bókina: »Flos peregrinationis«, og er hún undir lok liðin[1]; má

---

1) Þegar eg var ungur, man eg að móðir mín sagði mér nokkrar sögur af utanferðum Björns Jórsalafara, og hafa þær líklega verið úr þessari bók hans; eg man nú að eins eina af þeim, og set eg hana hér til gamans. Björn átti tamið bjarndýr, sem elti hann eins og trúasti hundur, hvert sem hann fór; bjarndýrið kunni ýmsar íþróttir. Þegar Björn á Jórsala-

ætla, að Björn hafi kunnað margar tungur; eigi fór hann þar eptir utan.

Björn var hið mesta stórmenni í öllu og hélt hirð um sig að útlendra höfðingja sið; voru og hjá honum máldrykkjur og skyldi skáld hans skemta hvern sunnudag, þriðjudag og fimtudag. Eitt sunnudagskvöld skemti skáld hans Sigurður fóstri Þórðarson með Skíðarímu, er tjáist hin fyrsta á Íslandi undir þeim bragarhætti. — 1392 fór Björn í Skálholt og til ýmsra höfðingja á austur- og norðurlandi að heimboðum; er mælt að hann á þeirri ferð hafi leitað Þorleifi syni sínum kvonfangs og gjört honum orð að vitja norður giptumálanna, en í þeirri ferð drukknaði Þorleifur, sem síðar segir.

1392 gipti Björn Kristínu dóttur sína Jóni Guttormssyni, er þótti um það leyti einhver hinn efnilegasti ungra manna á Íslandi, var brúðkaup þeirra um veturnætur heima í Vatnsfirði, var þar Vigfús hirðstjóri og margt stórmanna.

Þá kom þar eptir sundurlyndi með Birni og Þórði undir Núpi í Dýrafirði Sigmundssyni; var Björn við fáa menn, en

---

ferð sinni ætlaði frá Feneyjum yfir Jórsalahaf, aftók skipstjórinn að taka bjarndýrið með, og kom Björn því þá einhversstaðar þar fyrir, meðan hann var burtu; en er bjarndýrið missti Björns, ætlaði það að verða vitlaust, en sá sem átti að gæta þess, sleppti því. Þegar Björn var kominn nokkuð frá landi, sá hann hvar bjarndýrið kom syndandi; hann lagði þá enn á ný að skipstjóranum, að taka dýrið upp í skipið, en það tjáði eigi. Bjarndýrið synti fleiri dægur eptir skipinu, uns það seinast hvarf. Björn hafði sagt, að það hefði verið eitthvað hið raunalegasta, sem fyrir sig hefði komið, að horfa á bjarndýrið og mega ekki bjarga því, eða taka það upp í skipið.

Ein sagan var um höggorm, er Björn á Jórsalaferð sinni hjó til bana með sverði sínu, en þá sögu man eg ekki glöggt.

Það er enn til stór gullhringur, með stórri gullbryggju ofan á, og er í hana inngreiptur stór steinn; á steininn er grafið bjarndýr, standandi á apturfótunum, með hjálm á höfði, og er að dansa; utan um efra part steinsins hafa verið grafin þessi orð með latínskum upphafsstöfum: »DANSAR OK BITR«. Það má teljast víst, að Björn Jórsalafari hafi átt hringinn.

Þórður hafði mannmargt; börðust þeir á Játmundarmessu undir Núpi; fèllu tveir menn af Birni, en hann komst í kirkju og síðan heim í Vatnsfjörð, sat hann þar þann vetur og lét sem ekkert hefði ískorizt, en sumarið 1394 leitaði hann liðveizlu hjá höfðingjum og vinum sínum, urðu þeir vel við og fóru með 90 manna vestur yfir Glámu í Dýrafjörð; var Þorsteinn Eyjólfsson mágur hans þar í flokki með Birni, fremstur virðingarmanna. Þórður hafði fengið njósn um liðsdrátt Björns og safnaði sér liði, fékk hann 50 kostamenn. Þá er þeir Björn komu að Núpi með lið sitt, sá Þórður þann kost sinn beztan, að láta síga til sátta (sjá Barðastrandarsýslu).

1393 kom Vilchin biskup út til stóls síns í Skálholti og gjörðist vinur Björns Jórsalafara.

1399 var Björn á Íslandi og hafði þá jarðakaup mikil við Árna Einarsson (sjá Vaðlaþing), fékk hann honum allmargar jarðir í Hvolhreppi, Fljótshlíð og Áverja hreppi fyrir aðrar jarðir í Húnavatnsþingi; lítur svo út, sem Árni hafi þá flutt suður, og ef til vill tekið þar völd nokkur eða eystra.

1401 var algjört hafskip það, sem Björn lét smíða að helmingi við Skálholtsstað, — fór frú Solveig kona hans utan á því og varð vel reiðfara. Það ár dæmdu 12 menn Birni bónda Einarssyni[1] hálfan Dalskóg af Magnúsi Hafliðasyni að Djúpadal í Eyjafirði; var Björn þá hér á landi.

1402 dó Jón Guttormsson í Hvammi í Hvammssveit úr pestinni er þá gekk yfir landið; var hann fyrri maður Kristínar Björnsdóttur Jórsalafara, og dó barnlaus (sjá um hann við Dalasýslu).

1405 gipti Björn dóttur sína Kristínu í annað sinn Þorleifi bónda Árnasyni í Auðbrekku, var boð inni í Viðey, stóð fyrir því Vigfús Ívarsson Holm, hirðstjóri. Sama ár gjörði Björn testamenti sitt í Hvalfirði.

1413, þá er Árni biskup, er kallaður var hinn mildi, tók hirðstjórn yfir Íslandi, en dvaldi þá í Norvegi, kom um sumarið frá Norvegi kaupskip lítið, það braut fyrir Austurlandi, týndist fé mikið, en menn komust af; á því kom út brjef Árna biskups til Björns bónda Einarssonar, að hann skyldi hafa

---

1) Þetta er skakkt og á burt að falla, sjá tímarit mitt 1. ár, bls. 53.

hirðstjórnar-umboð biskups um land allt; tókst Björn það á hendur og hafði um hríð.

1415, þá er Björn var á ferð við Hvalfjörð, tók hann sótt þá, er leiddi hann til bana; var lík hans flutt til Skálholts og þar virðulega jarðað; þótti hann hinn mesti höfðingi á Íslandi í sinni tíð.

Þótt Björn ungur hafi haft sýsluvöld, hefir hann verið frá þeim, er hann var í sínum mestu utanferðum eptir 1380, og ef til vill fyr; þó getur verið að hann hafi haft umboðsmenn, svo sem Ólaf í Æðey, Bolungavíkurmenn og son sinn Þorleif, er upp ólst í Vatnsfirði ásamt systur sinni Kristínu; voru bæði frumvaxta, en þá tók hún sjúkleik, lá lengi í rekkju og hafði drauminn mikla, spáði hún bróður sínum Þorleifi skamma æfi; Þorleifur vildi kvongast norður í Eyjafirði 1392, ætlaði um veturinn að ríða norður og hafði hesta á Melgraseyri og Hamri, en ætlaði að fara þangað sjóleiðis með sveina sína. Þann dag er hann skyldi af stað fara, gekk hann að hvílu systur sinnar að kveðja hana, var hún mjög þunglega haldin; hann mælti þá: »Viltu nú trúa draum þínum systir, að þú munir lifa mig?« Hún mælti: »Ætlað hef eg það bróðir minn, allt til þessa, en nú má guð ráða, hvort við sjáumst aptur«. Hann varð glaður við, bauð henni góðar nætur og gekk til skips með förunauta sína, en þeir týndust allir þann dag. Hinu megin fjarðarins bar svo við, að förukona nokkur fór með sjónum frá Hamri út að Melgraseyri, sá hún nýbreytni nokkra á steini skammt frá landi, en þagði yfir því til kvölds, þá kom þetta upp fyrir henni: »Hvað mun skrímslið fagra hafa gjört af sér, sem eg sá á steininum í dag? Það var fagurrautt, með vænu manns áliti og gullhring á hverjum fingri; það benti mér með hendinni, en eg sikldi ekki hvað það sagði fyrir hræðslu sakir«. En er heimamenn heyrðu þetta, brá þeim mjög við, grunaði þá um jungkerann, fóru til og fundu hann dauðan, var lík hans flutt í Vatnsfjörð. Við þennan atburð brá Kristínu á þann hátt, að hún reis jafnskjótt úr rekkju og varð heil, og gipti faðir hennar hana skömmu þar eptir Jóni Guttormssyni.

Það er sögn, en eigi vitum vér sann á því, að Björn hafi verið riddari að nafnbót og svo kallast hann í mörgum göml-

um ritum; getur vel verið, að Margrét drottning hafi gefið honum riddara-nafnbót, í einhverri utanferð hans.

### Testamenti Björns Jórsalafara.

In nomini, Domine amen! gjöri eg Björn Einarsson, heill að samvitsku og líkama, svofallið mitt testamentum guði allsvaldanda til lofs og dýrðar og hans blessaðri móður og mey, jómfrú sanctæ Maríu og svo einnig Ólafi konungi og öllum guðs helgum mönnum til virðingar, en mér syndugum til syndalausnar og sáluhjálpar, og öllum þeim, sem guð lofar, að sín ölmusa þiggist fyrir. In primis játa eg mig guði skyldugan; gef eg mig og mína sál í vald og vernd skapara og lausnara míns herrans Jesú Krists og skjól og miskunar faðm kristilegrar kirkju, og undir árnaðarorð allra guðs manna, einkanlega vorrar frúr, guðs móður, hins heilaga Péturs postula og hins blessaða Ólafs konungs. Hérmeð kýs eg mínum líkama legstað í forkirkjunni í Vatnsfirði, gefandi þar til kirkjunnar hálfan allan skreiðartoll í Bolungarvík og þriðjung í Drangareka öllum og sjöttung í öllum reka í Rekavík (aðrir Reykjavík) á bak Látrum. Item gef eg kirkjunni skógarhögg í Ísafjarðarbotni, svo sem henni þarfnast. Item skal sá, er í Vatnsfirði býr, láta syngja árlega upp á hvern minn ártíðardag mína sálumessu með sálutíðum og commendationibus, og gefa fátækum mönnum hundrað í kosti eða vaðmálum, hvort sem nægra er til; gef eg hér til kirkjunni jörðina hálfa Svansvík og þar með þrjú kúgilldi með þeim peningum, sem eg hefi áður gefið, en hálfa þá lýk eg kirkjunni í kirkjuspjöll eða porcionem, ef mín missir við, og þar með þrjú kúgilldi. Item gef eg kirkjunni brík þá, er eg útflutti og þar til tabulam, er eg skipaði Solveigu minni að kaupa í Noregi, en ef hún kemur eigi til kirkjunnar, þá kaupi erfingjar mínir aðra sæmilega eða lúki verð fyrir. Item gef eg kirkjunni í Skálholti fim hundruð og kirkju á Grund í Eyjafirði fim hundruð, svo framt sem eg fæ ekki við til að þekja á henni kórinn og fá til vindskeiðarnar, áður en eg dey. Item gef eg kirkjunni í Súðavík raptviðarhögg og kolagjörðar í Svarfhóls (aðrir: fells) skógi í Álptafirði, svo mikið, sem Súðavík þarfnast árlega til búss. Item Ragnheiði systur minni æfinlegt borð. Item erfingjum Ingiríðar Nikulásdóttur þrjú hundruð. Item erfingjum Þóru Nik-

ulásdóttur tvö hundruð. Item óskyldum mönnum fátækum fim hundruð. Item gef eg eitt hundrað presti þeim, er mig syngur til moldar, skal það eiga minn heimaprestur. Item gef eg kirkjunni í Vatnsfirði 12 stikur með bleikt lérept til messuklæða og þar til hökuls efni, ef guð gefur mig eða Solveigu lifandi. Item gef eg kirkjunni eina koparkúlu sexhyrnda, og eina kertastiku með kopar. Gjöri eg eigi framar þetta testamentum, en það sé í mínu valdi af að taka og við að leggja, sem eg vil gjört hafa; en ef eg breyti því eigi, þá býður eg erfingjum mínum að lúka og halda þessa mína skipun, eptir skyldu heilagra laga, svo sem þeir vilja forðast háska sinnar sálar eða sinna sálna og þær ógurlegu pínur, sem þeir hafa, er halda offri dauðra manna. Item er eg skyldugur að ganga til St. Jacobum. Býður eg örfum mínum, að þeir leysi þessa skuld með biskups ráði, eða formanns heilagrar kirkju, ef eg hefi eigi leyst, áður en guð kallar mig frá. Item hefi eg gefið einni ölmusukerlingu borð. Bið eg alla og sérhvern, ríka og óríka (fátæka menn guðs), vini og óvini, að þeir fyrirgefi mér alla hluti, er eg hefi móti þeim brotið, fyrir guðs sakir; vil eg og gjarnan fyrirgefa öllum mönnum þeim, er við mig brotið hafa. Þakka eg öllum mínum vinum fyrir allt við mig vel gjört, og biðjið til guðs fyrir mér með einni paternoster og og vessi Ave Maria og finnumst allir saman með gleði í paradís fyrir miskunardómi vors herra Jesú Kristí. Bið eg almáttkan guð, að hann borgi fyrst og síðast fyrir mig öllum þeim, sem mér sinna og gjöra til góða og minni syndugu sálu til friðar og náðar, svo aldrei þrotni það, sem oss afrekað er til syndalausnar og gleði af lifanda guðs syni Jesú Kristo, er með föður og helgum anda lifir og ríkir um aldir amen. — Þetta bréf gjört í Hvalfirði Jakobsmessu aptan, þá er liðið var frá hingaðburði vors herra Jesú Krists MCCCCV.

NB. 1. Þetta er eptir 2 manuskriftum ritað og þau samananborin, samt tekið það úr hvoru sem fremur sagði, og eg hélt réttast; annað var dagerað MCCCCXII, sem er auðsjáanlega rangt (því þá var hann kominn úr utanferð sinni og kona hans Solveig dauð fyrir nokkrum árum); hvorigt manuskriptanna var rétt gott.

NB. 2. Frumrit þessa testamentis á skinni komst í hendur Vatnsfjarðar klerkum, er heimtuðu alla fiskitolla

í Bolungarvík; Víkur eigendur stóðu þar á móti, og gjörðist þrætumál. Bauð þá hirðstjórinn Pros Mundt umboðsmanni sínum Jens Söffrinssyni, að rannsaka þetta, hvað hann gjörði 1639. Var þá af frumritinu skafið út orðið hálfan, og stóð: . . . *allan* skreiðartoll (sjá að framan). Bréfið, samanborið við sönnuð eptirrit forn, var þá dæmt ógilt. (Ekki er í Vatnsfirði nú á dögum gjört það, er Björn upp á setti mót gjöfinni til kirkjunnar. Hvað mættu lögarfar Björns þar til segja?)

## Oddur leppur Þórðarson.[1]

Eigi er full vissa fyrir, hvort Oddur var sonur Þórðar Sigmundssonar undir Núpi, eða sonur Þórðar, sem var son Katrínar í Haga, og nefnist sá Þórður Jörundarson í sumum ritum.

*Kona* Odds var Þórdís Sigurðardóttir Þórðarsonar, Ögur var hennar heimanmundur.

*Börn:* A. Guðni, átti Þorbjörgu Guðmundsdóttur, systur Rafns lögmanns, Ara á Reykhólum og Orms. Þorbjörg dó voveiflega 1431. Börn:

1. Sæunn, dulið er, hver hennar fyrri maður var, eða hvort hún átti barn meðhonum, en hennar seinni maður var Bessi Einarsson, er um tíma hélt Húnavatnsþing, sjá þar um þau og þeirra börn. — Arfur Sæunnar var 1 ⚹ ⚹ í jörðum í Bolungarvík, og seldi Bessi þær jarðir Vatnsfirðingum fyrir Stóruborg í Vesturhópi og fleiri jarðir þar nyrðra að sagt er.
2. Kristín átti Jón sýslumann Ásgeirsson. Fyrri maður hennar virðist hafa verið Halldór Hákonarson, þeirra dóttir Vigdís, giptist ung og átti eina dóttur, svo dó Vigdís og síðan dóttirin, sem þá var barn, erfði svo Kristín hana, var Kristín þá fyrir löngu gipt Jóni Ásgeirssyni, og hennar fyrri maður löngu dáinn.
3. Snjálaug átti Eyjólf riddara Arnfinnsson Þorsteins-

---

1) Um Odd lepp, sjá það, sem áður er sagt; faðir hans var Þórður Flosason.

lögmanns og hirðstjóra Eyjólfssonar (sjá um Þorstein við Hegranesþing). Eyjólfur riddari hafði fálka í merki sínu og mun hafa haft hér völd um hríð.

Börn:

a. Kristín átti Magnús sýslumann Þorkelsson (sjá Vaðlaþing).

b. Þorbjörg átti Árna Þorsteinsson, er var höfðingi og maktarmaður. Kristín dó barnlaus.

c. Guðni átti Guðrúnu Gunnlaugsdóttur frá Marðarnúpi, þeirra dóttir Ólöf, dó ógipt, brarnlaus; hún fékk í föðurarf Urðir, Grýtubakka og fleiri eignir, erfði þá Guðrún móðir hennar hana. Guðni var skammlífur, giptist Guðrún þar eptir 1482 Jóni lögmanni Sigmundssyni, þeirra son Einar[1] (sjá Húnavatnsþing); hann erfði móður sína, en Jón Sigmundsson gjörðist fjárhaldsmaður sonar síns, þá er Jón hafði ektað Björgu, og var bannfærður af biskup Gottskálk, því féfletti biskup Einar og tók allan hans auð.

d. Margrét átti Rafn eldra Brandsson frá Barði Halldórssonar, Rafn var lögmaður, sjá Húnavatnsþing.

4. Guðný Guðnadóttir nefnist af sumum og á hún að hafa átt Laza nokkurn Ívarsson.

B. Sigurður hét og sonur Odds lepps.

Engar sagnir hefi eg um uppvöxt og menningu Odds. — Fyrst er hans getið 1394 þá er hann veitti lið Þórði undir Núpi Sigmundssyni og bjó þá að Ósi í Bolungarvík. Oddur tjáist að hafa verið bróðir Sigurðar, skálds Björns Jórsalafara, er kallaðist fóstri. Oddur bjó á Ósi, sem fyr er sagt, og kallaðist leppur, af hvítum lokk í höfuðhári sínu. Eg meina að Oddur hafi tekið sýsluvöld um Ísafjörð, máske fyrst í umboði Björns Jórsalafara nálægt 1380, en eptir 1390 verið sveinn hirðstjóra, og lögmaður gjörðist hann 1405 fyrir s. og a. og hélt því til 1420, þá Þorsteinn Ólafsson tók þar lögsögu. Oddur þótti um of harður í lögsögu sinni, og tjáist að 28 menn hafi

1) Einar var son Guðrúnar, fyrri konu Jóns, en eigi Bjargar (sjá A bls. 506, 507 og víðar).

eptir dómum hans verið afteknir sem óbótamenn undir lögsögu hans. — 1414 gaf Oddur prófentu sína Árna biskupi milda, því 1449 var upp lesið bréf um það, að Oddur leppur hefði gefið Árna biskupi þá fyrir 34 árum alla sína peninga í prófentu, og þær jarðir, sem hann hafði erft eptir Skúla bróður sinn, en konungur hafði gefið þær Skúla.[1]

1433 handlagði Oddur Jóni Ásgeirssyni að afhenda þá peninga, sem Kristínu sonardóttur hans höfðu til erfða fallið eptir Guðna bónda föður sinn.

Guðni son Odds, sem bjó á Hóli í Bolungarvík, missti Þorbjörgu konu sína sem fyr er sagt, 1431, og gjörði þá heit mikil til syndalausnar og sálubótar henni, en á næstu misserum dó Guðni, og hygg eg, að hann hafi haft sýsluumboð föður síns, þegar Oddur hafði lögsögu, því bóndi kallast Guðni í gömlum ritum, og lifði Oddur leppur son sinn, sem sjá má af áðurrituðu.

1434 samþykktu þau Jón Ásgeirsson og Kristín kona hans löggjafir Odds bónda lepps við Skúla, dótturson sinn (ekki er ljóst um þann Skúla, eða hvort hann átti afkomendur og eigi getur í ættartölum dóttur Odds).

Oddur var fjárgæzlumaður mikill og höfðingi á sinni tíð, en ekki allsendis jafnaðarmaður; hann varð gamall mjög, og þá er hann létst, var hann grafinn í forkirkjunni í Bolungarvík. Óviss eru hans sýsluvaldaár. 1434 tjáist hann að hafa dáið.

## Þorleifur Árnason.

*Faðir:* Árni (sjá Vaðlasýslu), sonur Einars prests á Breiðabólstað í Vesturhópi, sem var officialis og lagði niður það starf 1393 og dó sama ár 21. desember, 89 ára. Lét Árni son hans flytja hann til Hóla, og var hann þar heiðarlega grafinn; stóð Pétur biskup og margir aðrir yfirmenn yfir greptri hans. Faðir Einars prests var Hafliði prestur á Breiðabólsstað í Vesturhópi 1270, sem tók Illhuga prest (þann, er uppgaf föðurleifð sína til biskupssetars), þegar Illhugi var orðinn févani og

1) Þegar Árni biskup fór alfarinn til Norvegs, hefir Oddur fengið peninga sína aptur.

gamall. 1292 var Hafliði prestur ráðsmaður Hólastóls; 1319 dó hann og hafði verið mikilmenni, hann hafði verið kapelluprestur Eiríks konungs, áður en hann tók Breiðabólsstað; Steinn faðir hans hefir og verið mikilmenni.

*Móðir* Þorleifs var Guðný[1], dóttir Jóns Hákonarsonar í Víðidalstungu Gissurarsonar galla Björnssonar drumbs í Hjarðarholti; aðrir telja Guðnýju konu Þorleifs dóttur Hákonar systur Jóns. Helgi og Guðný voru börn Jóns Hákonarsonar, sem sjá má af dómi[2] Rafns lögmanns Guðmundssonar, er hann lét ganga 1416 á Torfustöðum í Miðfirði um arf eptir Helga Jónsson og konu hans Margréti Þorleifsdóttur. Dæmdist hálf Víðidalstunga Þorsteini Marteinssyni eptir Margréti dóttur sína, konu Helga, en hálf Þorleifi Árnasyni, eptir Guðnýju systur Helga (þó er eigi það móðerni Þorleifs fullvíst).

*Kona* Þorleifs var Vatnsfjarðar-Kristín, sem 1392 fyrst giptist Jóni Guttormssyni, hann dó 1402, hún giptist aptur Þorleifi 1405, sjá hér að framan.

*Börn:* A. Árni í Fagradal átti Sophíu dóttir Lopts ríka 1434, dó 1458. Nokkur rit segja, að Sofía hafi fyrst átt Ívar Vigfússon Hólm, bróður Margrétar, svo Árna í Fagradal, síðast Bjarna bónda Svartsson (aðrir Ívarsson[3]). — Börn:

1. Eiríkur í Fagradal, faðir Árna, sem var erfingi að eignum Teits ríka í Glaumbæ, þessi Árni átti afkomendur.
2. Þorleifur átti Kristínu dóttur Teits ríka Gunnlaugssonar í Bjarnanesi. — Börn:

---

1) Að Guðný dóttir Jóns Hákonarsonar hafi verið móðir Þorleifs er skakkt (sjá A. bls. 27, og víðar).

2) Þessi dómur Rafns lögmanns er hér eigi fyllilega rétt sagður, sjá A, bls. 439.

3) Sophía var tvígipt, annar maður hennar Bjarni Ívarsson, þeirra son Ormur, hefir líklega dáið barnlaus; hinn maður Sophíu Árni, þeirra börn eru hér talin.

a. Teitur ríki í Glaumbæ átti Ingu, barnlaus, sjá Húnavatnsþing.
b. Sigurður, barnlaus.
c. Árni barnlaus.
1488 mánudaginn næstan eptir vor-krossmessu fram fóru skipti í Glaumbæ millum Teits og bræðra hans á þeirra erfðagótsi.

B. Einar hirðstjóri 1430—40 og 1442—47, hans laundóttir Þuríður átti Sigvalda langalíf, sjá Dalasýslu.

C. Björn ríki á Skarði, sjá Dalasýslu.

D. Solveig átti Orm Loptsson, sjá Snæfellsnessýslu, síðan hèlt hún við síra Sigmund Steindórsson; þeirra börn:

1. Jón lögmaður, sjá Húnavatnsþing.
2. Bergljót átti Ólaf Hannesson.
3. Guðrún átti Snorra, barn Þorkell, faðir Þóru á Sæfarlandi.
4. Ástríður átti Pétur Trúels Tómasson[1], börn:
   a. Anna,[2]
   b. Jakob[3],
   c. Melkjör,
   d. Hannes,
   e. Guðrún,
   f. Marín.

---

1) Pétur var kallaður Pétur skytta; hann var frá Hamborg, var hér við kaupskap og hélt hér bú, og eitt sinn hirðstjóri eða hirðstjóra umboðsmaður. Einhverju sinni, er hann kom úr boði, var hann veginn af þjónum sínum, er þar til voru keyptir af hérlendum mönnum fyrir einhverjar haturs sakir. Synir hans voru 2, Hannes og Melkjör, þeir fóru til Hamborgar með ógrynni fjár; og dætur tvær, Guðrún og Marín, er hér urðu eptir. María átti síra Helga, son síra Jóns svenska, en Guðrún var langamma Margrétar Halldórsdóttur í Súðavík.

2) Anna er víst oftalin.

3) Jakob, það á að vera Jakob Pétursson, umboðsmaður á Vestmannaeyjum, er átti Álfhildi vænu, en líklega er þetta ekki rétt.

5. Ásgrímur, sem veginn var í Víðidalstungu í brúðkaupi Jóns, hans son
   Ásgrímur.

E. Helga átti Guðmund ríka á Reykhólum Arason; barn: Solveig átti góða manninn Bjarna Þórarinsson á Brjánslæk, er veginn var 1482, barnlaus. Seinni maður Helgu var Skúli, launson Lopts ríka, sjá Húnavatnsþing.

F. Guðný Þorleifsdóttir átti Eirík Loptsson á Grund, sjá Vaðlaþing.

G. Guðrún Þorleifsdóttir í Auðbrekku.

Um ungdóm Þorleifs hefi eg engar sagnir, hefir hann máske verið í förum ungur. — 1405 getur hans fyrst, þegar Björn Jórsalafari gipti honum dóttur sína Kristínu, var það veglegt brúðkaup og stóð fyrir því Vigfús hirðstjóri Ívarsson, þá nýkominn út til embættis síns, þar eptir hefir Þorleifur ýmist verið í Vatnsfirði eða Auðbrekku. 1409 voru þau hjón í Auðbrekku, þegar þau gjörðu Jóni Skálholtsbiskupi virðulega veizlu, er hann ferðaðist yfir norðurland, en Björn á Skarðsá tjáir, að 1413 hafi þau Þorleifur og Kristín setið í Vatnsfirði; hefir hann þá líklega verið umboðsmaður Björns Jórsalafara og máske haft þar sýsluvöld. — 1415 hefir hann haft Hegranesþing, því þar nefndi hann 12 menn í dóm að Ökrum millum Ásgeirs Árnasonar, föður Jóns, er seinna hélt Ísafjarðarsýslu, og Sveins Hallvarðssonar, um þeirra skuldaviðskipti og kúgildamál; er það líkast, að Björn Jórsalafari hafi þar sett hann umboðsmann, því Björn hafði þá hirðstjóraumboð. — 1419 fór Þorleifur utan að boði konungs, er þá líkast, að hann hafi haft konungsvald á hendi, en eigi verður með vissu sagt, hvar helzt á landinu, þó eru líkindi til, að það hafi verið annaðhvort í norðurlandi eða um Ísafjörð. Á téðri utanferð komu enskir sjóvíkingar að Þorleifi og ræntu hann miklum fjárhlutum. Þorleifur komst á konungsfund og seinna til Íslands með skip sitt, er hann hafði í förum.

1420 hefur Þorleifur verið kominn til Íslands, því þá lætur Rafn lögmaður Guðmundsson dóm ganga að Hrafnagili um hálfa Grund í Eyjafirði millum Þorleifs bónda Árnasonar og Magnúsar bónda Jónssonar á Munkaþverá, sem keypt hafði Grund af Ingibjörgu Loptsdóttur; voru helztu dómsmenn Lopt-

ur bóndi Guttormsson, Gamli Marteinsson og Ólafur Eyjólfsson; virðist sem téður Magnús[1] hafi verið bæði auðugur og maktarmaður og máske haft þá sýsluvöld í Eyjafirði, því hann nefnist með bónda nafni, er þá var yfirmanna nafnbót.

Þorleifur hafði mikil jarðakaup og jarðaskipti. 1412 keypti hann hálfan Hleiðargarð af Sigurði Jónssyni, en 1421 seldi hann Ásgeiri Árnasyni[2], áðurnefndum, með samþykki Kristínar Björnsdóttur, konu sinnar, er þá sat í Vatnsfirði, Hvamm í Hvammssveit, Kyrinastaði, Glerárskóga og Leysingjastaði, fyrir hálfa Auðkúlu í Svínadal og fleiri jarðir, fór það fram í Glaumbæ í Skagafirði, og mörg önnur jarðakaup og sölur gjörði Þorleifur. Svo lítur út, sem höfðingjar á þeim dögum hafi verið í sífeldum ferðalögum um landið; bar það til þess, að þeir áttu hér og hvar eignir miklar og höfðu sýsluvöld á ýmsum stöðum. — Þannig var fyrir Þorleifi. Hann sat mjög opt í Auðbrekku nyrðra, þó Kristín kona hans sæti í Vatnsfirði; líka var hann mjög opt á ferðum um landið, helzt nyrðra og vestra. Meining er, að Þorleifur hafi látizt í Vatnsfirði 1432, því ekki getur hans, er Árni son hans giptist Sophíu Loptsdóttur 1433, eður þegar Ormur Loptsson fékk Solveigar dóttur hans 1434. Þorleifur hefir verið mesti auðmaður og höfðingi áður en hann giptist Kristínu, hafa og efni hans síðan mjög aukizt við fé konu hans, er var einasti erfingi Björns Jórsalafara. — Þá má álíta, að Þorleifur hafi verið mikill fjárgæzlumaður, sem þá var höfðingjum títt, og að hann eigi hafi sleppt góðum tækifærum til að auðga sig. — Dr. Hannes biskup nefnir Þorstein lénsherra í ættartölu Sigurðar gullsmiðs Þorsteinssonar, en eigi veit eg, hvað hann hefir haft fyrir sér.

---

1) Sjá um Magnús þenna, A, bls. 23 og 24 og víðar. — Ingibjörg Loptsdóttir hefir erft hálfa Grund eptir síra Halldór Loptsson bróður sinn, er hafði keypt hana af Birni Jórsalafara, en Ingibjörg hafði fengið hana með öðrum jörðum Magnúsi og konu hans Ingunni Árnadóttur. Dómurinn dæmdi Þorleifi hálfa Grund, þar helmingafélag var með þeim Birni og konu hans Solveigu Þorsteinsdóttur, en Björn hafði selt jörðina án samþykkis konu sinnar.

2) Um jarðaskipti þeirra Þorleifs og Ásgeirs, sjá A. bls. 442.

Vatnsfjarðar-Kristín gjörðist hin mesta rausnarkona; hún hafði og sjálf að miklu leyti fjárforræði sitt, eins á meðan bóndi hennar Þorleifur lifði; 1428 seldi Þórólfur bóndi Þrándarson Kristínu Björnsdóttur Flatatungu í Skagafirði fyrir Syðri-Bæg-isá. 1428 tókst og Kristín á hendur að láta byggja kirkju í Víðidalstungu fyrir Stein[1] Björnsson og Guðmund Þorláksson, sem voru þar til skyldugir vegna kvenna sinna téða kirkju að byggja og tilleggja ornamenta, þar kirkjan hafði brunnið; nefndir menn handlögðu Kristínu Vatnshorn og Gauksmýri fyrir kirkjubygginguna (þá hefir Þorleifur verið búinn að selja Víðidalstungu hálfa, er hann náði 1416). Mörg fleiri jarðakaup hafði Kristín. Eptir dauða Þorleifs bjó Kristín í Vatnsfirði, meðan hún lifði og gipti burtu börn sín, hafði og hina mestu rausn á öllu. Af sögn Jóns biskups Arasonar: »Kristín hefir byggt bezt, búið vel þar frú«, er að ráða, að Kristín hafi mjög veglega látið hýsa Vatnsfjörð, er þó að líkindum hefir áður verið ágætlega húsaður af Birni Jórsalafara og öðrum höfðingjum, sem hver eptir annan höfðu mjög lengi búið í Vatnsfirði. Vatnsfjarðar-Kristín lifði mjög lengi eptir lát Þorleifs og varð háöldruð; sumir rita, að hún hafi dáið 1459 eða 1458.

Þó Vatnsfjörður væri að tilhlutun Staða-Árna dæmdur undir biskupsvald af Einari goða Þorvaldssyni, undir eins og Oddi, með erkibiskupsdómi í Noregi 1273, tók samt Eiríkur riddari og hirðstjóri Vatnsfjörð sem erfðafé konu sinnar, og svo hver eptir annan af Vestfirðingum, til þess að þrætan varð millum þeirra Björns Þorleifssonar og Björns Guðnasonar, að biskup Stefán nýtti sér hana, og dæmdi Vatnsfjörð á ný undir Skálholtskirkju 1508.

### Framætt Þorleifs Árnasonar.

A. Ólafur Pá í Hjarðarholti, son Höskuldar Dalakollssonar og Melkorku dóttur Mýrkjartans Írakonungs, átti Þorgerði, dóttur Egils Skallagrímssonar, þeirra dóttir

B. Þorbjörg digra átti fyr Ásgeir goða Knattarson í Vatnsfirði, þeirra son

C. Kjartan í Vatnsfirði, átti Guðrúnu dóttur Halldórs Snorrasonar goða, þeirra son

---

1) Á að vera Svein.

D. Þorvaldur goði í Vatnsfirði átti Þórdísi Hámundardóttur, þeirra dóttir
E. Ingigerður átti Guðlaug, þeirra dóttir
F. Vigdís átti Úliða Oddsson, þeirra son
G. Áli Úliðason Oddssonar Þorvarðarsonar á Söndum, hans son
H. Oddur Álason (sjá Sturlungu), hans dóttir
I. Herdís átti Svarthöfða Dugfússon Þorleifssonar, þeirra son
K. Björn, hans son
L. Gissur galli í Víðidalstungu, hans son
M. Hákon í Víðidalstungu, hans son
N. Jón í Víðidalstungu, hans dóttir
O. Guðný átti Árna í Auðbrekku son Einars officialis á Breiðabólsstað, Hafliðasonar prests sama staðar Steinssonar, þeirra synir :
P. a. Þorleifur[1] í Vatnsfirði átti Kristínu, og
b. Ásgeir, faðir Jóns sýslumanns.

## Jón Ásgeirsson.

*Faðir:* Ásgeir Árnason tjáist bróðir Þorleifs, sem átti Vatnsfjarðar-Kristínu.[2] Ásgeir var auðugur maður og hafði mörg jarðakaup, sjá Húnavatnssýslu.

*Móðir:* Guðný Jónsdóttir Hákonarsonar,[3] sjá Vaðlasýslu. Aðrir segja móður Jóns
Guðfinnu, dóttur Þorgríms, auðugs manns í Øgri.

*Kona:* Kristín, dóttir Guðna Oddssonar lepps Þórðarsonar, sjá hér að framan.

*Börn:* A. Guðni sýslumaður, sjá hér síðar.

---

1) Það hefur hér að framan verið sýnt, að Þorleifur eigi hefur getað verið sonur Guðnýjar, dóttur Jóns Hákonarsonar; hét og maður hennar Sveinn Bergþórsson; hitt getur heldur verið satt, að móðir Þorleifs hafi verið Guðný Hákonardóttir, systir Jóns Hákonarsonar, og þó mun það líka vera skakkt.

2) Að Ásgeir hafi verið bróðir Þorleifs er með öllu skakkt, sem fyr hefur verið sagt.

3) Um konu Ásgeirs og móður Jóns sjá A, bls. 151.

B. Páll, seinast á Skarði á Skarðsströnd, átti Solveigu, dóttur Björns ríka, sjá Dalasýslu.

C. Guðfinna, móðir Sturlu sýslumanns á Staðarfelli Þórðarsonar Helgasonar, sjá Snæfellsnessýslu.

D. Ormur Jónsson, hans börn:

1. Kristín átti Erling sýslumann Gíslason, sjá Barðastrandarsýslu.
2. Halldór ábóti á Helgafelli 1480, meinast son þessa Orms[1]; hans börn:
   a. Eiríkur á Álptanesi, sem var að vígi Páls Jónssonar 1498, og varð því útlægur, fór hann til Róm og tók þar aflausn, en dó litlu eptir og var heiðarlega grafinn í Róm; kona hans var Kristín, dóttir Þorleifs hirðstjóra Björnssonar, börn:
      1. Síra Þorleifur á Melum
      2. Guðrún.
      3. Einar.
   b. Katrín[2] átti Einar á Hofsstöðum, er var hirðstjóra umboðsmaður og launson Þorleifs hirðstjóra Björnssonar, sjá Gullbringusýslu.[3]

E. Síra Sigurður beigaldi, sem tók Hítardal 1463, orðlagður auðmaður af sauðfé; er mælt, að hann hafi á haustum átt meira en fulla Geitabergsrétt, sem tjáist hafa tekið meira en 20 hundruð. Eigi er getið barna hans, eða hvort honum fylgdi nokkur kona að lagi.

F. Þuríður Jónsdóttir átti Narfa Ketilsson frá Kol-

---

1) Eg held það mjög vafasamt, að Halldór ábóti hafi verið son þessa Orms; Páll Jónsson, sem Eiríkur son Halldórs ábóta sló í hel, hefði þá átt að vera afabróðir Eiríks.

2) Einar maður Katrínar var Þórólfsson, en ekki son Þorleifs hirðstjóra Björnssonar.

3) Sigurður hèt enn sonur Orms, hann var sveinn Øgmundar biskups; biskup gaf honum Bæ á Rauðasandi, er hann hafði fengið hjá Ara Andréssyni; Sigurður fékk aptur Bæ mági sínum Erlingi Gíslasyni. Sigurður var barnlaus.

beinsstöðum, en það getur eigi verið rétt tímans vegna.

G. Sigríður átti Magnús Magnússon 1467 (sjá Árbækurnar, 2 þ., bls. 68).

Jón má vera fæddur nálægt eða nokkru fyrir 1390, hefir hann líklega ungur kvongazt Kristínu, þá ungri. Eg held, að Jón hafi snemma orðið valdsmaður öðru hverju, í umboði Björns Jórsalafara og Odds lepps; hitt er víst, að þá er Björn ríki tók hirðstjórn, var Jón sýslumaður í Ísafirði og þar eptir lengi; hygg eg að hann hafi tekið algjörlega sýsluvöld eptir Odd lepp um 1436, og haldið þeim optast fram yfir 1490, eða til þess Guðni son hans tók við; getur samt verið, að hann ekki í sífellu hafi haldið alla sýsluna.

1467 var hann fyrirliði skipta eptir Björn ríka, útvalinn af Ólöfu og Þorleifi hirðstjóra. — Jón sýslumaður bjó lengi í Ögri, en flutti seinna að Kirkjubóli í Langadal. Hann var mikill vinur Björns ríka og Ólafar, kom hann Guðna syni sínum í sveinsstétt hjá þeim, og var hann ungur hjá þeim um hríð. Er meining mín, að Jón hafi á elliárum sínum tekið Guðna fyrir umboðsmann sinn. Svo eru óljósar þeirra tíma sagnir, að fátt finnst um Jón ritað, var hann þó merkilegur maður. Nokkrir rita, að Jón hafi látizt 1478, en aðrir, að hann hafi verið við skipti á Staðarfelli 1493 eptir Þórð Helgason, er eg held miður trúanlegt. — Jón tjáist að hafa verið mjög auðugur maður og hafa orðið háaldraður maður. Af því gömlum sagnariturum ber saman um, að þeir bræður Guðni og Páll hafi samið um skipti eptir föður sinn Jón 1478, meina eg víst, að Jón hafi það ár dáið.

---

## B.

## Sýslumenn.

### Guðni Jónsson.

(Sjá um hann við Dalasýslu). Hann er orðinn sýslumaður í Ísafjarðarsýslu 1468, því þá lætur hann þar dóm ganga; þó er líkast, að hann eigi hafi verið yfir allri sýslunni í sífellu, og er eigi ólíklegt, að Jón Dan hafi þar eptir haft sýsluvöld um tíma, en þessa dóma Guðna hefi eg fundið í Ísafjarð-

arsýslu: 1489 á Nauteyri með 6 dómsmönnum um misgrun hjúa. — 1495 dæmt Sigmundi syni Brands lögmanns gjafir föður síns, Bær og hálfur Vatnadalur. — 1500, dæmt á Mýrum um ákæru Jóns Dans Björnssonar til peninga þeirra, er Guðmundur Arason á Reykhólum hafði forðum að sér tekið með ofríki. — 1501 með 6 mönnum dæmdur skattur af Jóni Nikulássyni. — Í þessum dómum nefnist hann sýslumaður konungs í Ísafjarðarsýslu. Þá tók Björn son Guðna við sýsluvöldum, en Guðni hafði tekið við af Jóni föður sínum, sem 1467 kallaðist þar valdsmaður. — Þegar Guðni sleppti Ísafjarðarsýslu, tók hann 1502 Strandasýslu og hélt henni til þess að hann dó 1508. — 1477 leyfði Magnús biskup Guðna að leysa til sín 10 c í Hjörtsey, er seld höfðu þar verið í pant fyrir kirkjufjám. — Helga dóttir Guðna fékk Hjörtsey í heimanmund, síðan erfði hana Þorsteinn son hennar, svo hans dóttir Guðrún; hún seldi hana dótturmanni sínum Tyrfingi Ásgeirssyni. 1474 sömdu þeir bræður, Guðni og Páll, um skipti eptir föður sinn, Jón Ásgeirsson. — Guðni hóf tilkall á fjám eptir Þorleif hirðstjóra Björnsson, sem Björn son hans hélt fram.

## Jón Björnsson Dan.

Hann var frillusonur Björns ríka Þorleifssonar og átti Kristínu dóttur Sumarliða frillusonar Lopts ríka; þau áttu eigi börn er lifðu, en mikil auðæfi og bjuggu á Hrafnseyri, er þau gáfu fyrir beneficium. — Ekki er ólíklegt, að Jón hafi um tíma haldið Ísafjarðarsýslu eða part af henni, þó hefi eg eigi rök þar fyrir önnur, en að á þeim tímum héldu flestir auðmenn sýslur lengur eða skemur, og þótti í því ríki nokkuð. — Jón sótti eptir auð föður síns ásamt Birni Guðnasyni og fleirum (sjá um það við Björn Guðnason í Dalasýslu). Jón Dan dó 1507 eða 8, og gjörðu þau Björn Guðnason og Kristín Sumarliðadóttir helmingafélag eptir hann, þar Grímur systurson hennar gaf það eptir, sjá Hegranesþing.

## Björn Guðnason.

(Sjá um ætt hans, afkvæmi, málaferli og athafnir við Dalasýslu). Kai von Ahlefeld veitti Birni þessa sýslu 1501 (aðrir: 1503, og Björn á Skarðsá 1501). Hans getur þó við dóm á Mýrum 1500; staðfestingu upp á sýsluveitinguna er sagt að

hann tæki 1503. — Þegar harðna tók mál millum Stefáns biskups og hans, tók hann enn veitingu fyrir sýslunni 1509. — Marga dóma lét Björn ganga í sýslu sinni, eru flestir eigi ritfærðir.

Guðmundur Íslendingur nefnist maður, sem síra Björn Halldórsson segir, að um þessar mundir hafi haldið Ísafjarðarsýslu, en annaðhvort hefir hann verið Björns umboðsmaður, eða haldið sýslupart móti Birni hans fyrstu ár, þó er líkast, að hann hafi fengið sýsluna næst eptir Björn.

Hitt er víst, að Landbjartur Bárðarson hefir verið lögsagnari Björns fyrir norðan Bjargsnúp 1514, þegar Björn var í málum sínum.

Þó Björn væri bannfærður af Stefáni biskupi, hélt hann engu að síður Ísafjarðarsýslu, til þess að hann dó 1518.

Jón lögmaður Sigmundsson, sem var í sökum við báða biskupa, hafði styrkt Björn með dómum sínum, en Björn hann aptur með valdi sínu.

Dýrkeypt var Ragnhildi legkaup Björns bónda síns.

Meðal Björns mörgu dóma voru: 1504 um húsrof, 1508 að Mosvöllum með 6 mönnum um gjafir, 1514 með 6 mönnum um tíundarhald, þar eptir mun hann optast hafa haldið umboðsmenn, þó finnst hans sjálfs dómur 1517 um arf Gríms Jónssonar. — 1508 lét Björn að Mosvöllum í Önundarfirði dóm ganga um gjafir Guðna heitins Jónssonar úr fé sínu, er reiknaðist alls að vera 5 c† c†, og þar í aflagótsi 1 c† c† og 36 c†, dæmdist, að hann hefði mátt gefa tíundargjöf úr erfðagótsi, og þær að lögum haldast, sem fyrst voru gefnar, svo sem húsfrú Ragnhildi kvinnu hans, reiknaðist, að úr erfðagótsi hefði hann mátt gefa 39 c†, en af aflagótsi 44 c†, til samans 77½ c† (ætti að vera 83 c†), en hefði hann meira gefið, leitst dómsmönnum ekki ætti að haldast.

1515 fór Björn sýslumaður utan á konungsfund, fékk hann þá 3 bréf. Eitt þeirra var, að konungur staðfesti dóm Jóns lögmanns Sigmundssonar um Vatnsfjörð og aðrar eignir, er lögmaður hafði dæmt Birni Guðnasyni, dagsett 1514. Annað verndarbréf Björns. Þriðja til Stefáns biskups og Vigfúsar lögmanns, að rannsaka um Stað í Aðalvík, sem Björn Þorleifsson hafði selt í utanferð sinni; dæmdist seljanda það frjálst, því það hafði verið hans föðurleifð. Fjórða bréf til Jóns Sigmunds-

sonar, að dæma rétt milli Björns Guðnasonar og Björns Þorleifssonar.

### Guðmundur Íslendingur.

Hvaða manna þessi Guðmundur, er kallaður var Íslendingur, hafi verið, er mér óljóst, en Björn prófastur Halldórsson vitnar til hans sögu — hana hefi eg ekki séð — að hann hafi verið sýslumaður í Ísafirði, og meinar það hafi verið um 1500. En hafi hann verið annað en umboðsmaður Björns eða þó heldur umboðsmaður Guðna, er líkast að hann hafi tekið sýsluna eptir Björn, nálægt 1518, því þá finn eg eigi getið sýslumanns fyrri en Ólafs í Þernuvík. Þessi Guðmundur tjáist að hafa verið Jónsson og hafi verið á 15. öld sýslumaður, máske hann hafi haft um tíma hálfa sýsluna móti Guðna nálægt 1490. (Það hefir mátt vera annar en Guðmundur Íslendingur Jónsson, sem gjörður var riddari 1316).

### Torfi, son Björns Guðnasonar.

Það er líklegt, að hann hafi haft Ísafjarðarsýslu eða part hennar eptir 1520, til þess að hann dó á hingaðsiglingu 1527 (þó er það óvíst); aðrir setja 1530.

### Ólafur Guðmundsson.

Sjá um hann við Dalasýslu (hafi það eigi verið Ólafur í Hjarðarholti, áður en hann gjörðist þar prestur, sem hélt Dalasýslu 1513—14—15). Ólafur Guðmundsson í Þernuvík meinast að hafa þar næst tekið Ísafjarðarsýslu, en dóm hans þar finn eg eigi fyr enn 1530, með 6 mönnum, genginn í Önundarfirði um ótekna jörð, er taldist arfafé barna Jóns, sonar Björns Guðnasonar. — 1536 lét hann 6 manna dóm ganga að Øgri um barns framfæri. — 1540 um ákœru Guðrúnar Björnsdóttur Guðnasonar til Fúsa Brúmanns; sama ár var hann á alþingi og undirskrifaði supplicatíu með öðrum. — 1542 um ákæru til Fúsa Brúmanns fyrir það, að hann tók hval fyrir landi Guðrúnar eldri Björnsdóttur Guðnasonar.— 1543 lét Jón sonur Ólafs dóm ganga í umboði föður síns. Fleiri hans dóma hefi eg enn eigi fundið, eða heyrt hans þar eptir getið sem sýslumanns. Eg hygg að hann hafi tekið Ísafjarðarsýslu nálægt 1520, því

1522 lætur hann dóm ganga í Meðaldal um rangtekinn hval, og nefnist þá sýslumaður millum Geirhólms og Langaness[1].

### Jón Ólafsson í Hjarðardal.

(Sjá um hann við Dalasýslu). Hann lét dóm ganga í umboði föður síns með 12 mönnum um ómegð; hygg eg þá feðga hafa haldið alla Ísafjarðarsýslu til 1547, og að minnsta kosti vesturhluta sýslunnar til þess Eggert Hannesson viðtók 1548. Jón lifði samt þar eptir, því 1553 keypti hann að Guðmundi og Sigríði tilkall þeirra í báðum Hjarðardölum. Hvort Jón hefir haft veitingu fyrir sýslunni eða verið umboðsmaður föður síns, er óljóst. Eins hvort hann hafi haft veitingu fyrir Dalasýslu fyrri eða var umboðsmaður. — Dóma hans í Dalasýslu hefi eg eigi séð. Hann nefnist þar sýslumaður í ættartölum. — 1533 hið sama ár giptist hann Þóru konu sinni, og taldi sér til giptingar í Ögri 1 c c, en móðir hennar Ragnhildur taldi dóttur sinni LL c; með samþykki Ólafs föður síns gaf Jón í tilgjöf Þóru konu sinni LX c.

### Magnús Jónsson.

Í einni dómabók hefi eg fundið 6 manna dóm útnefndan að Nauteyri af Magnúsi Jónssyni 12. apríl um marköngla og stúfafiska, hvar þeir eru með skynsemi afdæmdir, eins og seinna af Magnúsi í Ögri, Ara syni hans og fleirum, optast með líkum orðatiltækjum. Þetta hygg eg að hafi verið Magnús frá Svalbarði og hefir hann þá verið vestra og allungur. Þess getur ekki í dóminum, hvort Magnús hafi verið konungs umboðsmaður eða í annars umboði.

Ef gátur skyldi við hafa, sýnist eigi ólíklegt, að hann hafi þá haft norðurhluta sýslunnar, en Jón í Hjarðardal vestur-

---

1) 1528 á Mýrum í Dýrafirði nefndi Ólafur Guðmundsson, er þá hafði konungsins sýslu og umboð millum Geirhólms og Langaness, 6 menn í dóm, til að dæma um gildi brjefs nokkurs, er hljóðaði um, að Örnúlfur Einarsson hafði gefið með samþykki mágs síns Ólafs Jónssonar og Rannveigar Örnúlfsdóttur, konu Ólafs Jónssonar, Þorsteini (Þorgauti?) Örnúlfssyni, launsyni sínum, Breiðdal fremra í Holtsókn og nokkurt lausafé. Jón og Ólafur, synir Þorgauts, beiddu um dóminn.

hlutann (sjá fremur um Magnús Barðastrandarsýslu og hér síðar, samanb. Þingeyjarþing), þó getur og skeð, að Magnús hafi útnefnt téðan dóm í umboði Eggerts Hannessonar, væri það víst að Eggert hafi tekið Ísafjarðarsýslu fyr en 1548.

### Eggert Hannesson.

Sjá um hann við Gullbringusýslu, Barðastrandarsýslu og Snæfellssýslu. Eggert hafði veitingu fyrir Þorskafjarðarþingi 1548, og lét dóm ganga að Mosvöllum í Önundarfirði um fóthögg Brynjólfs Sigurðssonar og urðu þeir, sem það unnu, Gísli Guðmundsson, útlægur og friðlaus, en Sigurður bróðir hans til kóngs náðar; var sá dómur staðfestur af konungi 1550. — Til 1556 hélt Eggert þessari sýslu, en þá þrengdi sér þar inn Árni Gíslason, að vísu í norðurpartinn, og hélt sýsluna 1556 - 57, til þess að hann fékk Þingeyraklaustur. — 1558 tók Eggert enn sýsluna og þar með Snæfellssýslu eptir veitingu Knúts Steinssonar höfuðsmanns, ásamt Helgafellsklaustri. — 1559 að Súðavík nefndi Eggert 12 menn í dóm um hylming á þjófstolnu. — 1569 endurnýjaði Valkendorph veitingu fyrir Ísafjarðarsýslu. Eigi er ljóst, hvert ár Eggert sleppti til fulls Ísafjarðarsýslu, þó er líkast til, að það hafi eigi verið fyrri en nálægt 1578; en norðurpartinn afstóð hann við tengdason sinn Magnús eptir 1570; en umboðsmenn hafði hann og í vestpartinum, Bjarna Jónsson 1573, og síðan Þorlák Einarsson, sem og fékk þann part sýslunnar eptir Eggert, sem þó er óvíst að hafi fyrr verið en nálægt 1580, sjá síðar.

### Árni Gíslason.

(Sjá um hann við Skaptafellssýslu). Hér gat hann fengið Ísafjarðarsýslu undan Eggerti 1556—57, en sleppti henni þegar hann fékk Húnavatnssýslu 1558 eða 1559 og Þingeyraklaustur. Eigi er víst, að Árni hafi náð utan norðurpartinum með konungsjörðum, er í sýslunni voru.

### Magnús Jónsson.

(Sjá um hann hér að framan, samanb. við Barðastrandarsýslu og við Þingeyjarþing). Eptir að Magnús kom að norðan og giptist Ragnheiði, gjörðist hann umboðsmaður Eggerts í lénum hans, en bjó í Ögri og hélt Strandasýslu um hríð.— Fyrir

1570 bjó hann í Ögri, en hvenær hann fékk veitingu fyrir norðurparti Ísafjarðarsýslu, er óljóst. — 1572, 5. febr. nefndi hann 6 menn í dóm um fátæka, sem af órækslu deyja. 1574, 13. maí, nefndi hann að Ögri 6 menn í dóm um þá, sem ganga á móti dómum. — 1581 nefndi hann 6 menn í dóm að Nauteyri, um lögmála og byggingu á Nauteyri. Þó Magnús tæki Barðastrandarsýslu eptir Eggert, hélt hann að flestra meiningu og norðurparti Ísafjarðarsýslu, og hafði þar sína umboðsmenn, af hverjum helztir voru: Torfi Jónsson á Kirkjubóli í Langadal og Hákon Árnason, sem þá bjó í Bolungarvík; báðir þeir kallast í ættartölum sýslumenn, og einkum Hákon, sem kallast sýslumaður í Ísafjarðarsýslu. Eptir eða um 1580 flutti Magnús að Bæ á Rauðasandi, þegar Eggert var sigldur til Hamborgar. — 1574 ítrekaði Magnús marköngladóm, og fékk hann staðfestan af hirðstjóra Bucholt — 1581 lét hann ganga að Ögri hinn orðlagða vopnadóm, hefir hann þá enn haldið Ísafjarðarsýslu; þar eptir reið fylgdarlið hans til alþingis með vopnum og þar af auðþekkt frá öðrum, er á þingvöll kom. — Eptir 1563 hefir Magnús orðið umboðsmaður Eggert í norðurhluta Ísafjarðarsýslu, og nálægt sama tíma hélt hann Strandasýslu fram yfir 1570, en óljóst er, hvort hann hafði norðurhluta sýslunnar að veitingu fyr en nálægt 1570, en Strandasýslu mun hann fyr hafa tekið að veitingu og sleppt henni til Páls bróður síns um eða eptir 1570.

## Torfi Jónsson á Kirkjubóli.

(Sjá um hann við Barðastrandarsýslu). Hann var þar stöku sinnum lögsagnari Magnúsar og eins í Ísafjarðarsýslu norðurhluta, þó óljóst sé hver ár eptir 1580. Sumra meining er, að Torfi hafi um hríð haldið Strandasýslu næst eptir Magnús sýslumann Jónsson og síðan norðurpart Ísafjarðarsýslu, en eg efa, að hann hafi haft veitingu fyrir þeim parti. — 1563 kallast hann í ættartölum sýslumaður, og síra Jón Ólafsson nefnir hann sýslumann í Ísafjarðarsýslu; hafi hann þar haft veitingu, er líkast að það hafi verið fyrir norðurpartinum eptir 1584.

## Hákon Árnason.

(Sjá um hann við Rangár-, Árness-, Múla- og Skaptár-

þing. Eptir 1585 hélt hann hálfa Ísafjarðarsýslu, og nefndist þar sýslumaður, en óljóst er, hvort hann altíð var Magnúsar lögsagnari, eða hafði veitingu seinast, áður en hann flutti suður 1593; þó mun hann hafa verið þar annað en umboðsmaður til 1592, því þá fékk Staðarhóls-Páll norðurpart sýslunnar. Hákon bjó á Hóli í Bolungarvík, og síðan á Hlíðarenda.

## Bjarni Jónsson.

*Faðir:* Jón sýslumaður Ólafsson í Hjarðardal.
*Móðir:* Ingunn dóttir síra Brynjólfs í Odda Halldórssonar.
*Kona:* Guðrún, laundóttir Jóns Björnssonar í Flatey.
*Börn:* A. Síra Brynjólfur í Hjarðarholti.
B. Síra Þorleifur á Söndum í Dýrafirði.
C. Síra Torfi á Rauðasandi og í Grunnavík.
D. Guðrún átti Fúsa Fúsason Brúmannssonar.
E. Þorkatla átti síra Snorra í Tröllatungu.
F. Guðlaug átti Þorleif son síra Sveins Símonarsonar.
G. Vigdís á Suðureyri.

(Les fremur um börn þessi og þeirra afspring við Dalasýslu). Bjarni bjó á Kirkjubóli í Önundarfirði, hann kallast sýslumaður millum Langaness og Skálavíkur 1573, þá er hann nefndi menn í dóm um Kirkjuból, sem dæmdu Ólaf Pétursson frá haldi á því, hvern dóm hann samþykti. — Hvort nefndur sýslumaður hafi haft veitingu fyrir vesturparti Ísafjarðarsýslu eða verið sem umboðsmaður Eggerts Hannessonar, er mér dulið; eins, hvert ár hann tók þenna sýslupart, eða hvenær hann af höndum lét hann til Þorláks á Núpi. Þó er líkast, að hann hafi verið umboðsmaður Eggerts Hannessonar.

## Þorlákur Einarsson.

*Faðir:* Einar bóndi son Sigvalda langalífs, er var svo kallaður af hæð sinni; hann var son Illhuga svarta og Ólafar Loptsdóttur á Skarði; hann var smiður mikill og smíðaði Vatnsfjarðarkirkju; síðan tók hann Þuríði laundóttur Einars hirðstjóra Þorleifssonar (hún var uppalin hjá Ólöfu) og fór með hana austur á Síðu, giptist henni þar, og áttu þau 7 börn saman, sem til aldurs

komust; eitt þeirra var áðurnefndur Einar (sjá þá ætt við Dalasýslu).

*Móðir* Þorláks var Gunnhildur Jónsdóttir, fátækra manna og komin af lágum stigum; þeirra börn voru:

1. Gissur biskup í Skálholti.
2. Þorlákur fyrnefndur.
3. Síra Halldór í Selárdal, prestur 21 ár, dó 1583; — fyrri kona hans Margrét Hannesdóttir hirðstjóra, þeirra börn:

a., síra Bjarni í Selárdal, prestur 58 ár, dó 1636, átti Helgu[1] Einarsdóttur, börn:

α. síra Halldór[2] í Selárdal.

β. Egill.

γ. Þorlákur.

δ. Anna.

ε. Dís[3].

ζ. Margrét[4].

η. Sigríður.

Seinni kona síra Halldórs var Inga, dóttir síra Jóns Þorleifssonar, þeirra börn:

b. síra Teitur í Gufudal, átti fyrst Þóru Torfadóttur frá Kirkjubóli, þeirra börn:

α. síra Halldór í Gufudal.

β. Kristín.[5]

γ. Ólöf.

δ. Þorgrímur.

---

1) Helga var dóttir Einars Gíslasonar á Hvestu og Sigríðar Jónsdóttur.

2) Síra Halldór giptist ekki, en átti laundóttur, sem hét Margrét; hún giptist og átti börn. Síra Halldór dó 1648, eptir honum hét síra Halldór Pálsson í Selárdal.

3) Dís átti fyrst síra Guðmund Skúlason á Hrafnseyri, síðan síra Sigurð Snorrason á Hrafnseyri.

4) Margrét átti fyrst síra Torfa Bjarnason í Grunnavík, svo síra Sigurð Gíslason samastaðar.

5) Kristín var tvígipt, seinni maður hennar síra Jón Sigurðsson á Breiðabólstað í Fljótshlíð.

c. Ingibjörg Halldórsdóttir átti síra Ásmund Þormóðsson, þeirra börn:
α. Guðmundur.
β. Þóra.[1]
d. Margrét Halldórsdóttir, fyrri kona Guðmundar Árnasonar Oddssonar (sjá Dalasýslu).
e. Halldóra Halldórsdóttir átti fyr síra Guðmund[2] í Selárdal, þeirra börn:
α. Úlfur.
β. Guðmundur,
γ. Þorgerður.
δ. Guðmundur annar.
ε. Páll.

4. Jón yngri Einarsson, prófastur í Reykholti í Borgarfirði, dó 1592, átti Guðríði Sigurðardóttur bónda, þeirra börn:
a. síra Böðvar í Reykholti, átti fyrst Ástu Pantaleónsdóttur, þeirra börn:
α. síra Jón.
β. Þórður.
γ. Vigfús.
δ. Steinvör.
ε. Sigríður.
Önnur kona síra Böðvars var Guðrún Þorleifsdóttir, þeirra börn:
ζ. Ásta.
η. Finnur.
θ. síra Jón yngri.[3]
b. Halldóra átti Styr á Varmalæk, þeirra börn:
α. Einar.
β. Oddný.
γ. Sigríður.

---

1) Þóra var seinni kona Péturs Pálssonar á Staðarhóli.

2) Fyrsti maður Halldóru var síra Guðmundur á Gilsbakka Einarsson, hann missti máldaga kirkjunnar ofan í Hvítá, síðan síra Jón Þormóðsson, og seinast Jón Styrkársson.

3) Þriðja kona síra Böðvars var Steinunn dóttir Jóns rebba í Búðardal.

ζ. Guðríður.
ε. Guðrún.
c. Guðrún Jónsdóttir átti síra Rafn í Saurbæ, þeirra börn:
α. síra Halldór .
β. Þorvaldur.
γ. Arnfríður[2].
δ. Guðríður[3].
d. Margrét átti Jón Pantaleónsson, börn:
α. Þorleifur.
β. Snorri.
γ. Pétur.
δ. Margrét.
5. Árni Einarsson, klausturhaldari á Kirkjubæ, hans dóttir var:
Álfheiður væna[4] átti Jakob Pétursson, umboðsmann í Vestmannaeyjum, þeirra son:
Árni[5] bóndi, faðir
α. Stefáns á Hörgslandi, þaðan ættir;
β. Guðríðar
γ. Jóns og
δ. Guðrúnar.
Launsonur Einars Sigvaldasonar var,
6. síra Jón eldri á Kirkjubæ og Stafafelli, hans son síra Gissur á Stafafelli, átti Helgu[6] Bjarnadóttur, hans dóttir Vilborg[7] tvígipt, átti börn.
7. Oddný var enn laundóttir Einars.

1) Prestur á Skarðsströnd, dó barnlaus.

2) Hún átti Teit Helgason í Höfn.

3) Seinni maður Guðríðar var síra Ólafur í Saurbæ Böðvarsson.

4) Án efa réttara Álfhildur.

5) Árni var á Hólmi í Garði.

6) Helga var systir Bergljótar, konu síra Orms á Kálfatjörn.

7) Vilborg var fyrst kunnug Jóhanni Bucholt, og sænguðu þau opinberlega saman, þar um var kveðið: «Konan ung fékk klunk af junk», o. s. frv.

*Kona* Þorláks hin *fyrri* var Guðrún dóttir Hannesar hirðstjóra Eggertssonar og Guðrúnar eldri Björnsdóttur Guðnasonar í Ögri; átti Gissur biskup Katrínu Hannesdóttur, og síra Halldór bróðir hans Margréti Hannesdóttur; lagði Gissur biskup til með Þorláki, að hann fengi Guðrúnar, tillét móðir hennar það með þeim skilmála, að biskup fengi Þorláki gott beneficium, eða annað léni lífvænlegt. — Framfór gipting þeirra í Skálholti 1544; þeirra son Gissur, sjá um hann hér síðar. — Guðrún Hannesdóttir varð eigi langlíf; giptist þá Þorlákur sinni seinni konu, sem hét Vigdís.

*Kona seinni* Þorláks, Vigdís, var dóttir Þórólfs, sonar Eyjólfs og Ásdísar á Hjalla, systur Ögmundar biskups, en kona Þórólfs og móðir Vigdísar var Margrét, dóttir Erlendar lögmanns Þorvarðarsonar. Börn Þorláks og Vigdísar voru:

A. Jón lögréttumaður, 1649, bjó í Firði undir Skálmarnesi, átti Þóru Eyjólfsdóttur á Ballará, Einarssonar Gíslasonar í Hvestu, en kona Eyjólfs var Ingibjörg, laundóttir Staðarhóls-Páls; þeirra börn:
   1. Eyjólfur átti Gróu dóttur síra Ögmundar Torfasonar, Eyjólfur bjó í Hrísdal vestra; barn: Eyjólfur.
   2. Vigdís, fyrri kona Hannesar á Kleifum, sonar síra Einars[1] á Stað á Reykjanesi Halldórssonar, (síra Einar missti prestinn, og bjó þar eptir á Kleifum); þeirra börn:
      a. Þorleifur á Brekku.
      b. Einar.
      c. Halldóra.
      d. Þórður.
      e. Valgerður.
   3. Halldóra átti Guðmund son síra Einars á Stað Halldórssonar[2], börn:

---

1) Síra Einar var sonur síra Guðmundar Jónssonar á Stað á Reykjanesi.

2) Guðmundssonar fyrir Halldórssonar; þeir Guðmundur og Hannes á Kleifum voru bræður.

a. Einar.
b. Jón.
c. Sigurður.
d. Guðný.
4. Ingibjörg átti Ara Pálsson, sem brenndur var á alþingi fyrir galdra 1680.
5. Pétur giptist ekki.

B. Guðrún Þorláksdóttir átti Einar Þorleifsson undir Múla á Skálmarnesi, börn:
1. Þórólfur, átti Þorkötlu Finnsdóttur freá Flatey, börn:
a. Ragnhildur átti síra Erlend Einarsson, svo Þórð[1] Erlendsson.
b. Ingibjörg, átti síra Nikulás Guðmundsson og börn.
c. og d. Tveir bræður dóu barnlausir.

C. Guðrún yngri átti Bjarna Einarsson, börn:
1. Kristrún; átti Halldór Andrésson á Melgraseyri, þeirra dóttir:
Guðrún, átti síra Magnús Einarsson.
2. Jón átti Arnfríði Hannesdóttur, börn:
a. Bjarni.
b. Pètur.
c. Valgerður.
3. Guðrún laungetin með Eiríki, er strauk, giptist Össuri Jónssyni, þeirra börn:
a. Jón átti Ólöfu Andrésdóttur.
b. Pétur.
c. Valgerður.

D. Sigríður Þorláksdóttir átti Bjarna Pantaleonsson í Arnardal, þeirra börn:
1. Páll átti Þorkötlu Pálsdóttur, barn:
Herdís.

E. Ingveldur átti Ólaf á Suðureyri, launson Björns Eggertssonar lögmanns; þau bjuggu í Tálknafirði, var Ingveldur kvenna fríðust, krenktist síðan og varð sjónlaus um hríð, áður en hún dó, þeirra börn:

---

1) Þórður var Steindórsson frá Ingjaldshóli.

1. Ólafur á Suðureyri átti Vigdísi[1] dóttur Bjarna sýslumanns, Jónssonar sýslumanns Ólafssonar sýslumanns, sjá hér að framan, þeirra börn:
   a. Ólöf.
   b. Þórólfur.
2. Gunnhildur átti Jón á Vatneyri Gottskálksson Sturlusonar, börn:
   a. Þórólfur.
   b. Ingveldur.
   c. Gottskálk.
3. Jarðþrúður átti Þorvald Björnsson söngmann Þorvaldssonar Björnssonar[2] Árnasonar (sjá Dalasýslu; börn:
   a. Jón í Hvammi í Dýrafirði átti Ingibjörgu Magnúsdóttur.
   b. Jón yngri á Ketilseyri átti Halldóru Sigurðardóttur.
   c. Guðríður (aðrir: Guðrún) átti Sæmund Magnússon.
   d. Ingveldur seinni kona Jóns Pálssonar.

F. Margrét Þorláksdóttir átti Steindór son Orms Jónssonar frá Múla í Kollafirði, þeirra dóttir:
Ragnhildur átti Eggert Sæmundsson Árnasonar á Hlíðarenda Gíslasonar (sjá Barðastrandarsýslu), þeirra börn:
   a. Sæmundur.
   b. Helga.
   c. Sigríður.
   d. Margrét.
   e. Þóra.

G. Gunnhildur Þorláksdóttir átti Þórð Þorláksson á Marðarnúpi, bróður Guðbrandar biskups, og var hans miðkona, þeirra dóttir:
Guðrún átti síra Ólaf á Miklabæ Jónsson, börn:
1. Hallgrímur kapelán á Munkaþverá.

---

1) Vigdís, kona Ólafs, var Bjarnadóttir, sonar Þorleifs á Mýrum í Dýrafirði Bjarnasonar, Narfasonar ábóta Ivarssonar.

2) Á að vera Björnssonar Þorvaldssonar Árnasonar.

2. síra Þorlákur á Miklabæ.
3. Ásgrímur.
4. Hákon.
5. Vigdís.
6. Gunnhildur:
7. Guðrún.

Þorlákur mannaðist vel og giptist 1544 í Skálholti, sem áður er sagt; fékk Gissur biskup bróðir hans honum þá Hrafnseyri til forráða; hélt Þorlákur þar prest Bárð Pétursson. — Hrafnseyri hélt Þorlákur, þangað til bróðir hans síra Halldór tók við staðnum 1560. Þorlákur bjó sjálfur lengst á Núpi í Dýrafirði. Með aldrinum tók hann að stunda lögvísi, og þótti vitur og lögkænn maður. Hann var einn af Stóradóms meðdómsmönnum 1564; í lögmannskjörum var hann ogsvo 1570, þegar Þórði Guðmundssyni hlotnaðist lögsögnin; hann hefur þá kannske verið orðinn umboðsmaður Eggerts öðru hvoru, en ekki veit eg að hann hafi haft sýsluvöld fyrri en eptir 1573, þá hann tók vesturpart Ísafjarðarsýslu. Óvíst er, hvort hann í fyrstu hafði sýslupartinn í umboði Eggerts Hannessonar eða eptir veitingu, en 1580 mun hann hafa haldið vesturpartinn sem umboðsmaður konungs; en hvort hann hefur afstaðið honum við Gissur son sinn nálægt 1590, eða haldið honum til síns dauða, er aðbar 1596, er óvíst. — Þorlákur var mikilmenni að hraustleika, kallaður spekingur að viti, og þótti með helztu mönnum landsins á þeim árum. — Hann dó á heimili sínu, og var jarðaður að Núpi fram undan kirkjudyrum.

## Gissur Þorláksson.

*Faðir:* Þorlákur sýslumaður nýnefndur.
*Móðir:* Guðrún Hannesdóttir, nýnefnd.
*Kona:* Ragnheiður dóttir Staðarhóls- Páls, og giptist Gissur henni 1584.
*Börn:* A. Jón, sjá um hann hér síðar.
B. Magnús, fæddur 1591, mannaðist vel, sigldi og lærði bartskeralist, kom út og giptist 1620 Þorkötlu dóttur Snæbjarnar frá Kirkjubóli Torfasonar sýslumanns, Jónssonar sýslumanns í Hjarðardal, Ólafssonar sýslumanns Guðmundssonar. Tók hann sér bústað í Lokinhömrum og gjörðist þar eptir

lögréttumaður. Magnús var vitur maður, skáld gott, bókaritari mikill, málsnjallur og einhver hinn mesti fræðimaður á sinni tíð; var til hans að leita um flestar fornaldarsögur, og þótti ágætismaður; hann dó 1663, þá er hann hafði tvo vetur hins áttunda tugar, og ljet eigi börn eptir sig.

Önnur börn Gissurar dóu ung. Gissur mannaðist vel og fór utan á æskuárum, var og í tiginna manna þjónustu. Hann giptist, sem áður er sagt, 1584, og tók þar eptir að búa á Núpi og tók valdsmannsembætti hjá föður sínum, en óljóst er oss, hvenær hann fékk veitingu fyrir sýslupartinum. — Svo bar til seint á þorra, veturinn 1597, að hann með tveimur fylgdarmönnum ferðaðist yfir Hrafnseyrarheiði um morguninn árla heim á leið, en þá er þeir komu að heiðarbrúninni, hljóp á þá snjóskriða furðulega mikil; týndist þar Gissur sýslumaður með fylgjurum sínum; fundust líkin nokkru síðar; var lík Gissurar flutt að Núpi og jarðað hjá föður hans fram undan kirkjudyrunum; þótti Gissur hafa verið mætur maður og vel að sér gjör um marga hluti.

Það er gáta, að þegar Gissur fékk Ragnheiðar, hafi Þorlákur sleppt við hann sýslunni til ríſkunar ráði hans og konumundi. Báðir þeir feðgar Þorlákur og Gissur voru vel auðugir og í höfðingja tölu um þeirra daga.

Ragnheiður dóttir Staðarhóls-Páls giptist, sem fyr sagt, Gissuri sýslumanni; voru þeirra börn Jón og Magnús, áðurnefndir; hún varð ekkja 1597, þá er hún hafði í 13 ár búið með Gissuri; var hún þá um hríð á Núpi; þá var Sveinn Símonarson prestur í Holti í Önundarfirði og hafði átt Þórunni Björnsdóttur, voru þeirra börn þá á lífi: 1, Jón, er seinna fékk Holtsstað eptir föður sinn og varð prófastur. 2. Björn, 3. Þorleifur. 4. Páll. 5. Þórunn. En er hér var komið, var síra Sveinn orðinn ekkjumaður og á sínu 41. aldursári; fékk hann Ragnheiðar árið 1600; flutti Ragnheiður þá að Holti; voru börn þeirra, er á legg komust: Gissur er seinna varð prestur á Álptamýri, og Brynjólfur, síðar biskup í Skálholti. Gissur fæddist 1600, varð prestur á Alptamýri nálægt 1624, var tvígiptur, en eptirlét engin börn; hann var mikill lærdómsmaður og vandaður en lítt nýtur til búsýslunar; hans fyrri kona var Guðrún Finnsdóttir frá Flatey, en seinni kona Margrét dóttir Þorleifs

á Kirkjubóli á Bæjarnesi. Síra Gissur dó 1677. — Brynjólfur fór utan til lærdómsframa og gjörðist maður hálærður, var í 6 ár konrektor við Hróarskelduskóla. 1638 var hann kosinn fyrir biskup og fór samsumars til biskupsvígslu, tók móti Skálholtsstól 1639; giptist 1640 Margréti dóttur Halldórs lögmanns Ólafssonar; áttu þau saman tvö börn, er dóu fyr en faðirinn. — Biskup Brynjólfur dó í Skálholti 1675 á 71. ári síns aldurs; þótti hann einhver hinn mesti biskup að lærdómi, hússtjórn, framkvæmd og dugnaði, ásamt höfðingsskap, en um of var hann bráðlyndur og stórgeðja, sem varð að ógagni. Hann hafði mikið ástríki á minningu Páls móðurföður síns og á Ragnheiði móður sinni; hann sæmdi ættmenn sína, sem honum þóttu nokkurs verðir, og marga aðra, stórgjöfum. Þá er Ragnheiður Pálsdóttir hafði lifað 34 ár í hjónabandi með síra Sveini, sínum seinna manni, tók hún sótt, er sumir nefna heimakonu, þjáðist hún þar af í 2 ár, en 1636 á sunnudag tók hún taksótt, lá 13 daga og andaðist á frjádagskvöld eptir dagsetur 10. nóvember. Hún tjáist að hafa verið vegskona mikil, skörungur, örlát, og flestir hlutir hafi henni verið vel gefnir.

## Páll Jónsson.

*Faðir:* Jón á Svalbarði Magnússon Þorkelssonar, sjá Vaðlaþing.

*Móðir:* Ragnheiður Pétursdóttir Loptssonar Ormssonar.

*Kona:* Helga dóttir Ara lögmanns Jónssonar biskups, sjá Vaðlaþing.

*Börn:* A., Ragnheiður átti Gissur sýslumann, sjá um hana hér að framan.

B. Pétur sýslumaður í Strandasýslu, sjá um hann þar.[1]

C. Ingibjörg laungetin, átti Eyjólf á Ballará son Einars á Stóruhvestu Gíslasonar, bænda manna, sjá Dalasýslu. Þeirra börn:

1. Þóra átti Jón lögréttumann son Þorláks sýslumanns á Núpi Einarssonar, sjá hér síðar.

---

1) Enn var dóttir Páls og Helgu:

D. Elín, hún átti Björn sýslumann son Benedikts ríka Halldórssonar, sjá A. bls. 228.

2. Guðný átti Jón son Halldórs á Fróðá, Jónssonar,[1] samastaðar, Halldórssonar. Börn:
   a. Gísli átti Ingibjörgu Arngrímsdóttur.[2] Börn:
      α. síra Jón.[3]
      β. Halldór.
      γ. Tómas.
      δ. Arngrímur.
   b. Gísli yngri átti Halldóru Einarsdóttur; börn:
      α. Þorvaldur.
      β. Björg.
      γ. Jón.
      δ. Björn.
3. Ívar á Kletti í Kollafirði, góður búþegn, átti Ingibjörgu[4] Bjarnadóttur; börn:
   a. Helga.
   b. Bjarni.
   c. Jón á Kletti.
4. Snorri átti Guðrúnu Þorleifsdóttur, þeirra dóttir Valgerður.
5. Pétur, kallaður hrútur, átti fyrst Guðrúnu Helgadóttur; börn.
   a. Þórdís.
   b. Snorri;
   svo Guðrúnu Loptsdóttur, barn:
   c. Salomon[5];
   síðan Solveigu Aradóttur lukkusmiðs.
6. Steinunn átti Guðmund Eyvindarson; börn:
   a. Solveig,
   b. Magnús,
   c. Þorleifur,

---

1) Jón Halldórsson var stjúpsonur Daða í Snóksdal.

2) Arngrímur faðir Ingibjargar var síra Arngrímur lærði á Melstað.

3) síra Jón prestur á Torfastöðum.

4) Ingibjörg var systir síra Guðmundar Bjarnasonar í Árnesi.

5) Salómon átti fyrst Vigdísi Bjarnadóttur frá Arney og síðan Solveigu Aradóttur.

d. Þórður,
e. Guðrún,
f. Jón

Óljóst er mér um nöfn, ætt eða afsprengi annara launbarna Páls.

Páll Jónsson er borinn á Svalbarði við Eyjafjörð 1535, var hann bráðþroska og snemma gjörfulegur, en skarpvitur og brotamaður mikill, framkvæmdamaður, nýnæmur og námgjarn; stundaði hann strax á unga aldri vísindi þau, er mönnum þá var títt að nema. Páll setti mjög hug sinn til að ná Staðarhóli, er hafði af hinum fyrri biskupum verið dæmdur beneficium. Keypti Páll af samörfum móður sinnar rétt þann, er þeir kynnu að hafa til Staðarhóls, fór svo utan þá 17 vetra og klagaði fyrir konungi 1552 hald á Staðarhóli af ofríki hinna fyrri biskupa, og þáverandi biskups Marteins, sem hafði fengið Staðarhól Daða sýslumanni í Snóksdal sem léni. Af þessari Páls klögun bauð konungur Ormi lögmanni Sturlusyni að gjöra Páli þar í lög og rétt, en Ormur dæmdi málið 1553 undir konungs dóm, af því lögmanns (ɔ: Odds Gottskálkssonar) dómur áður var fallinn í því öðruvísi. Páll sigldi um haustið til að framfylgja málinu erlendis. 1554 kom Páll út með þann dóm konungs í málinu — dagsettan mánudaginn eptir reminiscere — er dæmdi erfingjum Lopts Ormssonar Staðarhól. Eigi lá að heldur Staðarhóll laus fyrir, og hélt Daði honum svo lengi, sem hann gat; voru þar um mál og stefnur milli Páls og Daða, og gjörðist þar af fullur fjandskapur millum þeirra. Í þriðja sinn fór Páll (að sögn) utan og klagaði, að hann næði eigi Staðarhóli og honum fylgjandi fyrir ríki Daða; gaf þá Kristján konungur 3. Páli Jónssyni brjef 17. marz 1557, að hann fái rètt af Daða Guðmundssyni, og bauð Knúti Steinssyni höfuðsmanni, að skakka millum þeirra, hvað hann og gjörði, svo Páll náði jörðinni. En nú klagaði Páll um afgjald Staðarhóls, frá því konungsdómur féll. Knútur höfuðsmaður bauð þá Eggerti lögmanni Hannessyni að skilja þá með dómi. Eggert tilsetti sýslumanninn í Strandasýslu að dæma í sinn stað millum þeirra. Framfór þá Snóksdalsdómur af sýslumanni í Strandasýslu Steindóri Finnssyni 1560; þóttist Páll enn verða halloka, og því stundaði hann síðar, að koma fé Daða undir konung; fann hann til saka 1., barneignir Daða, en Eggert

lögmaður bratt þeirri ákæru með kvittunum þeim er, konungur, höfuðsmaður og biskupar höfðu gefið Daða. 2., fann Páll það til saka, að Daði hefði haft konungs umboð í mörg ár fyrir svo litla sem enga afgipt, og þar með dregið svik að konungi; þar á móti bar Eggert konungsfógeta bréf, að svo hefði verið áskilið, en þó svo væri, orsakaði það dóm Orms lögmanns 7. júlí 1569, hvar í erfingjar Daða voru dæmdir til konungs í 500 rd. bætur; hafði Páll fyrir eða um 1560 upp komið með þessar sakir á Daða; varð það og eitt óvildarefni við Pétur Einarsson, er þá hafði verið fógeti og hirðstjóraumboðsmaður. (Undirrót þrætunnar um Staðarhól og hans margfaldlegu breytinga fylgja hér eptir).

Eptir aftöku Ara lögmanns og fyrr, ólst Helga Aradóttir upp á Grund hjá Þórunni, föðursystur sinni; var hún 12 eða 13 vetra, er þeir feðgar voru af teknir. Helga þótti í ungdæmi sínu uppivöðslumikil og blandin mjög; það er eitt til merkis talið, að einhverju sinni, þá er Þorleifur móðurfaðir hennar var í kaupstað ásamt konu sinni, lét Helga fylgja sjer upp að Möðruvöllum, steig af baki við túnfót og fyrir lagði að sækja sig um kvöldið, gekk hún þá heim og fann Hallottu móðursystur sína, bað hana að koma með sér út í kirkju, hvað Hallotta gjörði; gat Helga fundið lykla að kistum þeim, er Þorleifur geymdi í skjöl fyrir jörðum sínum, tók hún sum til sín, en reif sum í sundur og tróð þeim niður um rifurnar í kirkjugólfinu. Hallotta gekk aptur og fram um gólfið, og bað hana fyrir guðs skuld að taka ekki skjölin, eða skemma þau; hún svaraði: «guð láti það ekki vera systir mín».

Þegar Þorleifur kom heim og kannaði í kistum sínum einhverju sinni, saknaði hann skjalanna og þótti mjög illa farið. Solveig kona Þorleifs komst eptir hjá Hallottu, hvað valda mundi, og gat síðar með lempni náð aptur frá Helgu skjölunum og komið þeim í kistu Þorleifs, svo þegar hann eitt sinn lauk upp kistu sinni og hitti skjölin, mælti hann: «Guð sé lofaður og hinn heilagi Martínus, hann gefur oss nógu gott»; þetta var hans máltæki.

Allt heimafólk á Grund fagnaði yfir því, er Helga fór þaðan burt.

Nú víkur sögunni aptur til Páls; hann var 15 vetra, er

þeir feðgar voru af teknir og setti um það leyti fyrst huga sinn til Helgu; ritaði henni einnig þessar vísur:

Víst hefir vorðið næsta,
vandinn hér á landi
fyrðum heldur harðan
hygg eg þeim, er byggja;
öll ódæmi að kalla
unnu þeir fyrir sunnan,
minnist þegnar þanninn,
þetta trúi eg guð rétti.

Gaman er sagt, að fyrðar fremji
falslega með nógu kalsi,
angur er það ljótast löngum
leiðist mér slíkt, fyrir þornareiði,
karl mun vera gott að gylla,
glotta margir að honum skotta,
misst hefir sveinninn fingur flesta,
fær hann aldrei slíka æru.
Hæla jafnan mest (minnst) í málum
manni þeim, er heitir þannin.

Þegar Páll kom út og hafði unnið Staðarhól sér til handa, án þess að hafa lagt fé á móti, tók hann að gjöra sèr kátt við Helgu, sem ekki var honum afundin, þó hún sýndi á sér ríkilætis-yfirbragð. Þórunn föðursystir hennar hélt henni mjög fram til metnaðar. Þar kom að, að Páll bað Helgu, og kvaðst hún vilja ganga með honum, ef það álitist jafnræði sitt. Kvaddi Páll þá Þorberg sýslumann Bessason til dómsaðgjörða, nefndi hann því 1556 menn í dóm að Skriðu í Hörgárdal; var atkvæði þeirra, að með þeim Páli og Helgu væri jafnræði, og þann úrskurð samþykkti Þorbergur sýslumaður, því Páll þótti hafa vaxið af þá unnum Staðarhólsmálum. Ekki var Þorleifi móðurföður Helgu um þessa giptingu hennar, en síra Sigurður á Grenjaðarstað var því heldur fylgjandi; lét hann góðra manna ráð til koma á Grund og skrásetja álit sitt 1558, og sama stað, ár og dag ítreka sama skriflega og gjöra fjárskilmála. Fór svo fram brúðkaup þeirra á Grund sunnudaginn næstan eptir nýjár 1558; gekk síra Sigurður mest fyrir því. Þetta vor 1558 tóku þau sér bústað á Eyrarlandi, og bjuggu

þar 1 ár; þaðan fluttu þau að Einarsstöðum í Reykjadal, heldur en Helgastöðum og var þá dálæti þeirra á millum eigi alllítið, (því síður er sannlegt, að Jón á Svalbarði eða Páll hafi beitt konstrum sínum til þessa ráðahags, sem munnmæli voru, að bæði þau vildu af alefli saman ná).

Það er í rit fært, að þegar Páll bjó í Reykjadal, hafi hann látið ala 12, aðrir segja 19, kálfa, og látið láta þá út til leiks einn dag um vorið, en sat sjálfur upp á húsmæni til að horfa á leik þeirra, hafi kálfarnir þá allir hlaupið í á eina og drepizt; þá átti Páll að hafa sagt; «rú þig, spú þig, Reykjadalur, rotin hunda hnúta».

1560 bar það til meðal annars, að Þorleifur sýslumaður Grímsson á Möðruvöllum og son hans Grímur dóu; Ormur lögmaður og Páll kölluðu þar til arfs vegna kvenna sinna; kváðu seinni konu börn Þorgríms ekki arfgeng, því þau væru getin í fjórmennings meinum, sóktu þeir á staðinn, en Guðbjörg kona Gríms hafði 30 manns til varnar (aðrir segja: 100), gat hún með þessum mönnum varið staðinn 3 vikur fram yfir þing, þá flutti hún að Hólum í Eyjafirði, með það fémætt, er hún gat náð, þeir stökktu og á braut Solveigu konu Þorleifs, og settust þangað báðir, eyddu og spentu öllu lausafè, en Jón Marteinsson setti sig á móti þeim, og hélt með Guðbjörgu; var þá á alþingi dæmt af þremur tylftum, að öll börn Þorleifs væru arfgeng. Jón keypti af höfuðsmanni fyrir 70 jóakímsdali, að fá þann dóm staðfestan af konungi; þeir Páll sinntu því lítið, og þröngdu mjög kosti Solveigar og sátu í fjánum, og stóð svo 2 missiri; kom þeim þó eigi ásamt, því Ormur var hversdaglega prúðlyndur og þótti illt að eiga við fjöllyndi Páls.

Það er mælt, að Páll hafi haldið, að hann myndi eigi ná völdum eða mannvirðingum nyrðra fyrir uppgangi Jóns Marteinssonar, hafi það því afráðið, að flytja vestur að Staðarhóli, á eignarjörð sína, lýtur svo út, sem það hafi framfarið 1562, og, ef sannleiki er, að hann hafi túlkað mál Magnúsar bróður síns að fá Ragnheiðar Eggertsdóttur, hefir það verið um þessa tíma. Jón sýslumaður Marteinsson sat þá yfir hlut þeirra Orms og Páls, svo að hvorki náðu þeir jörðum eptir Þorleif né afgjaldi þeirra, líka varð Ormur snauður og án lögsagnar um hríð. Páll var nú fluttur að Staðarhóli um 1564 og þótti þar eigi alls kostar gott, felldi hann mikinn hug til Reykhóla

og falaði þá af Þorleifi presti Björnssyni, en þar var fast fyrir, þó komst svoddan miðlun þeirra á millum, að Páll skyldi útvega Greipi syni síra Þorleifs vígslu og beneficium og þá skyldi hann fá fyrstur manna kaupahlutann á Reykhólum; þessu kom Páll í verk við biskup Gísla, svo Greipur vígðist og fékk Snæfjöll, þó lítt væri fær til prestskapar vegna lærdómsleysis. Páli hugkvæmdist árið 1566 á föstudagskvöldið fyrir Ólafsmessu hina fyrri, að hann lét taka hesta og 5 menn, og kvaðst ætla að ferðast til síra Þorleifs á Reykhólum og kaupa þá af honum; þeir kváðu þá eigi mundu fala; Páll sagði þá fala mundu, ef þeir kæmu þangað nógu snemma. Ríða þeir svo alla nóttina kringum Gilsfjörð út á Reykjanes og komu að Reykhólum snemma dags; var þá prestur á túnvelli við heyþurk, en kirkjan opin; þá fór Páll af baki, gekk strax til kirkju, lauk upp altarinu, tók þar út bók, og stakk henni í barm sinn, síðan gekk hann til síra Þorleifs, heilsuðust þeir og spurðust almæltra frétta; þar eptir falaði Páll Reykhóla, en prestur synjaði; þá tók Páll bókina úr barmi sínum og mælti: »þessi mun gjöra fala Reykhóla»; þegar prestur sá bókina, varð hann frá sér numinn, og eptir að þeir höfðu talað lítið eitt saman, gjörði prestur Reykhóla bóndaeign 60 hdr. fala fyrir önnur 60 hdr. í jörðum og 20 hdr. í lausafé, fylgdi og kaupinu fullkomið afsalsbréf síra Þorleifs fyrir Reykhólum, dagsett 3. ágúst 1566. Páll reið heim þar eptir og lét sömu votta vitna um kaupgjörninginn og beggja þeirra aðferð, skriflega. Margt talað var þar eptir um kaup þetta; því lét Páll Orm lögmann Sturluson, sem 1568 kom út með lögmannsdæmi norðan og vestan, útnefna 12 menn í dóm á Helgastöðum í Reykjadal 17. ágúst 1568, um löggildi Reykhóla kaups, hvað þeir dæmdu í allan máta löglegt; samþykkti Ormur lögmaður þann dóm. (Öll þessi 3 Reykhólaskjöl á skinni hef eg séð og afskrifað eptir upprunaskjölunum, ɔ: orígínölunum).

Ormur Sturluson kom út með lögsögu 1568; tóku þeir Páll þá að hreifa Möðruvalla erfðamálum, en Jón sýslumaður Marteinsson stóð á móti þeim, varð enn sem fyr þar um mikið þras, málinu var það ár loks stefnt til konungs. Tóku þeir sig saman, Ormur og Páll, var þá dæmdur áðurnefndur dómur um Reykhóla kaup. Fóru þeir utan á Hjalteyri og túlkuðu erfðamál sitt fyrir konungi; var þá sá samningur gjörð-

ur um arfinn af konungi og ríkisráði hans, að fyrri konu börn Þorleifs skyldu hafa hann hálfan en seinni konu börn hans með Solveigu hálfan, en Möðruvelli skyldi Páll hafa auk skipta, því hann fram bar bréf undir innsigli Þorleifs heitins Grímssonar, hvar í hann gaf dóttur sinni Helgu Möðruvelli (aldrei hafði Þorleifur fyr meðgengið það; var meining manna, að Jón biskup eða Ari hefðu látið gjöra bréfið og náð innsigli Þorleifs í biskupsveizlu að Núpufelli). Komu þeir Ormur og Páll út 1569, og voru gjörð skipti á jarðagózinu á Bessastöðum 4. júlí 1569 af Kristófer Valkendorph hirðstjóra, Gísla biskupi Jónssyni, Eggert Hannessyni, Erasmus Villaðssyni, Níels Ólafssyni skrifara, Magnúsi Jónssyni í Ögri, Gísla Sveinssyni frá Miðfelli og Jóni Jónssyni (bróður Magnúsar); var skipt í tvo jafna parta að hundraðatölu og gæðum; komu í hvern hlut fimm hundruð hundraða, sex tigir og sex hundruð; hefir þá Páll hlotið tvö hundruð hundraða, níutíu og ½ hundrað og þar að auki Möðruvelli eitt hundrað hundraða af óskiptu. Þeir Ormur og Páll vildu ásaka Jón sýslumann Marteinsson fyrir þá afgipt, er hann hafði í 9 ár uppborið af Möðruvalla arfi, en höfuðsmaðurinn niður þaggaði það, svo þeir fengu ekkert.

Næst talinn vetur, er þeir Ormur og Páll voru í Kaupmannahöfn, hafði Páll látið mjög stórmennskulega og heitið Valkendorph miklum gæðum, ef hann kæmi á sinn garð. Svo bar til um vorið 1569, er Valkendorph sigldi til Íslands, að skip bar hans að landi við Bæ á Rauðasandi, þar bjó þá Eggert lögmaður Hannesson, mikill óvildarmaður Orms og Páls; Valkendorph fór af skipsfjöl að Bæ til Eggerts, og fékk hjá honum allan fararbeina og fylgd Eggerts suður að Bessastöðum; en þegar þeir riðu um Saurbæjarsveit, vildi Valkendorph heimsækja Pál. Eggert fékk þeim til fylgdar kunnugan mann og lagði undir við hann, að fylgja þeim þar yfir mýrarnar að Staðarhóli, er hann vissi að blautast væri; lágu nú hestarnir drjúgum í, svo opt varð að draga þá upp úr; þá er þeir loks komust heim á garðinn, var Páll ekki heima. Höfuðsmaður spurði þá, hvar stofa Páls væri? Eggert lézt það ekki vita, utan ef verða kynni, að Páll byggði stofu af tópt þeirri, er þar var. Þótti höfuðsmanni óhöfðinglegt fyrir á garði Páls, og mat hans fyrri heitorð skrum.

Um 1570 hygg eg að Páll flytti að Reykhólum búferlum; hafði hann þá loks borgað Reykhóla, sem kvittun síra Þorleifs sýnir.

Síra Þorleifur hafði afhent Jóni Tindssyni, sem átti Herdísi dóttur hans, jörðina Miðhús; varð ágreiningur þar á millum og Reykhóla; kvaddi því Páll Orm lögmann Sturluson, að skera með dómi úr þessari þrætu, hvað hann og gjörði 1572.

Þar eptir bjó Páll á Reykhólum, meðan hann lifði. Nálægt 1573 tók Páll Strandasýslu, að vísu hálfa móti Henrik Gerken, og mun hafa sleppt henni til Péturs sonar síns eptir 1592.

1584 gipti Páll Ragnheiði dóttur sína Gissuri Þorlákssyni undir Múla.

1586 giptu þau Páll og Helga dóttur sína Elínu, og ánöfnuðu henni að gjöf Reykhóla; hennar maður var Björn sýslumaður Benidiktsson (sjá Vaðlaþing).

Um 1592 tók Páll norðurhluta Ísafjarðarsýslu, sem hann hélt til síns dauða.

1596 var Páll klagaður af Ísfirðingum fyrir lögleysu fyrir höfuðsmanni Bostrup Gedde, sem þá sendi umboðsmann sinn Rasmus Nielsen vestur í Vatnsfjörð til að skera úr þeim málum; Oddur biskup var þar þá staddur og gekk á millum, en Páll lofaði leiðréttingu, og féll þetta svo niður. Sættin framfór í Vatnsfirði 6. ágúst 1596.

Það dálæti, sem í fyrstu var með þeim Páli og Helgu kólnaði, er fram liðu nokkur ár, því bæði voru stórlynd, ráðrík og drambsöm, þóttist og Helga seinna vera ofgefin Páli; einnig vildi hún hafa bæði frjálst forráð yfir fé sínu, því er hún hafði erft eptir foreldra sína, og var miklungi meir en helmingur við það, sem Páll átti, þá er hann gekk til félags við Helgu, jók því og miklu á, er Páll náði nærfellt 4 hdr. hundraða í jörðum í arfsskyni Helgu; yfir því fé vildi Helga vera einráð og eigi þar um hlíta forsjá Páls. En Páll kvað þar á móti, að Helgu hefði aldrei hlotnazt það fé, nema hann með ráðum, harðfylgi og framkvæmd hefði því til vegar komið. Þetta og hjóllyndi Páls, ásamt stórmennsku beggja þeirra, varð að fullum fjandskap með tíðinni, og þar kom um síðir, að þau fóru í mál saman. Fann Páll það helzt til foráttu við Helgu, að hún hefði lógað jörðum án síns vilja og vitundar; að hún vildi

eigi sjá um bú þeirra; að hún hefði í fráveru sinni og útsiglingu burthlaupið af heimili sínu og sett það í auðn, og margt annað fann hann til saka; gekk mjög lengi í þrasi þessu millum þeirra, svo mörgum árum skipti.

Það hafði við borið, þegar Magnús hélt Barðastrandarsýslu, en Páll bjó á Reykhólum, eptir 1584, að í komu margar greinir með þeim bræðrum til ósátta, svo þeir gjörðust óvinir miklir; lá við málasóknum þeirra á millum, en fyrir tilstilli og hóflyndi Magnúsar varð þó eigi þar af málsókn þeirra á millum, enda voru eigi markverð deiluefni þeirra í fyrstu, og datt svo niður.

Þegar Magnús dó um 1591, tók Páll norðurhluta Ísafjarðarsýslu, sem áður er sagt; var hann þá opt breytinn í valdstjórn sinni, og sinnti stundum lítið landslögum, hvaraf orsakaðist óvild sýslubúa til hans, sem áður er sagt.

Nálægt 1590 varð svoddan óvild millum þeirra Helgu og Páls, að þau skildu að samvistum, og menn segja, að þá hafi orðið svo að kalla skilnaður þeirra, en þó var eigi þræta þeirra þá enduð. 1592 stefndi Páll enn Helgu fyrir ýmsar sakir, og þá lék honum hugur á, að fá Halldóru dóttur Guðbrandar biskups, og skrifaði biskupi þar um, þó ekki eiginlegt bónorðsbrèf, skaut hann þar inn vísum, þar á meðal þessari:

Þó harður einn hafi orðið,
útaf leysi eg hnútinn
meiri hættu hverri
hnútinn leysi eg útaf
vill guð unna elli
útaf leysi eg hnútinn
bundinn hart að hendi
hnútinn leysi eg útaf.

Samt þessa vísu í sama bréfi:

Má eg hvorki mas né raup
mæla ungum svanna,
þó mun loðið lifrar kaup
leggja fátt til manna.

Þar eptir, þegar Páll fann biskup og mælti til ráðahags við biskup til Halldóru, dóttur hans, svaraði biskup: «Þú ert giptur Páll!» Er þá sagt að Páll hafi svarað:

Giptur ertu, gáðu að því,
galapín nokkurt sagði,
hvorki sess né sænginni í
sézt mín kona að bragði.

(Sjá bréf Páls í Árb. 5. deild, bls. 70).

Það er sögn, að eitthvert sinn áttust.þau við tal, Helga og Páll, og þótti Páli Helga mæla vitleysu; hafi þá Páll sagt:

«Lítið er lunga í lóuþræls unga,
þó er enn minna mannvitið kvenna».

Páll rak nú Helgu konu sína á burt með ofstopa, og þá er mælt, að hann hafi þetta kveðið:

Eigi skal greyið ganga
gefa skal henni hest
segja upp sambúð langa,
svo mun það fara bezt;
hafir þú fornt á fótum,
fá skaltu skæðin ný,
gakktu hart á grjótum,
og ganaðu hátt í ský,
með bandvetlinga og staf,
farðu norður í Gíafoss,
og söktu þèr þar á kaf,
sökktu til botns sem blý,
og komdu aldrei upp frá því.

Áður hafði hann mælt fram þessar vísur, er hann var hryggur yfir Helgu:

Jlla konu eg eiga hlaut o. s. frv.
Allsjaldan verður á angri bót, o. s. frv.
Verra dýr eg veit ei snart,
en vonda konu af illri art,
þó maðurinn deyi, er mannorð eptir mikinn part.

1595 vóru lögð undir dóm Guðbrandar og Odds biskups, samt Þórðar og Jóns lögmanna, hjónabands- mál Staðarhóls-Páls og Helgu Aradóttur; vitum vjer eigi, hver þeirra dómsúrskurður var, eða hverjar helzt sakir Páll hafði þá móti Helgu. Páll hafði stefnt henni fyrir 4 árum áður og til fundið ýmsar sakir. — Það er mælt, að Páll hafi stefnt Helgu fyrir 12 sakir, sumir segja 18, og stóð þeirra þras mjög lengi yfir. Helga dó 1597.

Opt hafði Pall farið utan í ýmsum málum, og er ritað, að það hafi verið 9 sinnum, en sagna fátt er að vita, í hverju tilliti hann gjörði hverja ferð.

Viku fyrir páska 1598 dó Páll á Reykhólum, á 63. aldursári.

Páll var haldinn maður lögkænn og í mörgum hlutum mikilmenni, en mjög blandinn og hjóllyndur, undarlegur og mikillátur. Það var eitt sinn, er hann var á Reykhólum, að hann var á ferð undan Jökli á skipi því, er hann flutti á föng sín til Reykhóla, var og á ferð óvinur hans með föng sín, og fóru þeir samskipa, kom með þeim Páli til kappsiglingar. Á vegi þeirra var sker sem þurfti fyrir að beita, þótti Páli það krókur. Sigurður háseti Páls, aðvaraði, að þeir stefndu á skerið, er þá sagt, að Páll hafi gjört vísu þessa:

Ítar sigla austur um sjó
öldu- jórnum káta,
skipið er nýtt, en skerið hró,
skal því undan láta.

Litlu síðar bar þá á skerið og brutu skipið, týndust og nokkrir menn Páls, en þá kom að sá, sem var í samsiglingunni og spurði: «Viltu þiggja lið, Páll bóndi?» Hann svaraði: «Þú gjörir, hvort þér sóma þykir». Maðurinn bjargaði Páli, mönnum hans og varnaði eptir föngum, og flutti til lands. Páll settist aptur á skipið, snéri bakinu fram, en lét fætur hanga í sjó; þegar Páll var kominn á land, gengur hann að formanni þeim, er honum bjargaði, og laust hann drjúgan kinnhest og gaf honum um leið 20 hdr., með þeim orðum, að hið fyrra skyldi hann hafa fyrir spursmálið, en jörðina fyrir björgunina á sér og sínum. Skerið heitir enn Pálsflaga og er norðast af Gassaskerjum.

Eptir Pál er enn nú rit í lögum; því svaraði Guðbrandur biskup með skrifi sínu, og urðu þeir eigi á eitt sáttir.

Páll var mikill fjárgæzlumaður og vel auðigur, skartsmaður var hann og mikill. Hann hafði orð fyrir að vera fjölkunnigur; svo var sagt um flesta fróða menn á þeim tímum. Eitt sinn áttu þeir Páll og Daði að hafa fundizt á förnum vegi; og Páll þá hafa sagt: «Stattu við, meðan eg tala við þig» og síðan tautað eitthvað, og þar af átti Daði að hafa fengið

veikleik sinn (álík sögn og bannfæring Jóns biskups, er hin hjátrúarfulla öld gjörði mikið af).

### A. *Dómur um giptingu Páls Jónssonar og Helgu Aradóttur.*

Það gjörum vér Ásgrímur Jónsson, Guðmundur Nikulásson, Halldór Þorláksson, Pètur Þorsteinsson, Finnbogi Þorsteinsson, Ívar Jónsson, Arngrímur Einarsson, Jón Björnsson, Gunnar Þorsteinsson, Þórólfur Björnsson, Jón Jónsson, Helgi Jónsson góðum mönnum kunnigt með þessu voru opnu bréfi, að árum eptir guðsburð 1556, fimtudaginn næstan fyrir hvítasunnu um vorið í Skriðu í Hörgárdal, á þingstað réttum, vorum vér til fullnaðarskoðunar, samþykktar og löglegra álita nefndir af heiðarlegum manni, Þorbergi Bessasyni, er þá hafði kgl. majest. sýslu og umboð í Vaðlaþingi, vegna heiðarlegs dándis sveins Páls Jónssonar, hvort Helga Aradóttir skyldi eigi löglega og réttilega giptast mega fyrnefndum Páli Jónssyni með ráði, samþykt og vilja síns föðurbróður síra Sigurðar Jónssonar og sinnar föður móður Helgu Sigurðardóttur, og sinnar föðursystur, Þórunnar Jónsdóttur, og annara hennar nánustu frænda, þeir hennar ráði og vilja fylgja, eptir því Þorleifur bóndi Grímsson, hennar giptingarmaður vill ekki fullnaðarsvar til gefa, þá þessa máls var við hann leitað af Jóni bónda Magnússyni og Páli Jónssyni. Í fyrstu leizt oss Jón bóndi Magnússon fulla og alla málaleitun haft hafa til Þorleifs bónda Grímssonar vegna sonar síns Páls, þá hann hafði ekki fullnaðarsvar neitt af honum fengið uppá fyrsagðan ráðahag; því leizt oss Sigurður, Jón og Þórunn Jónsdóttir skyldug að leita þess máls við Þorleif bónda Grímsson, sinnar frændkonu vegna, ef þau vilja hennar ráði fylgja, og þessa sína frændkomu Helgu Aradóttur gipta fyrgreindum manni, Páli Jónssyni, með píkunnar ráði og beggja þeirra samþykki; en ef þau kunna ekki fullnaðar svar eður samþykki fá af Þorleifi, og vildi hann svo firra hana sínu jafnræði, þá leizt oss hún mega með beztu manna ráði og yfirsýn gipta þessa sína frændkonu Helgu Aradóttur fyrgreindum Páli Jónssyni eptir því, sem vor landslög útvísa og innihalda o. s. frv.

*B. Annað samtal um giptingu Páls og Helgu.*

Það gjörum vér Illugi Guðmundsson, Teitur Magnússon, Jón Loptsson, Jón Jónsson prestar, Þorsteinn Guðmundsson, Magnús Arason, Þorgrímur Þorleifsson, Hallsteinn Eiríksson og Steingrímur Jónsson, með þessu voru opnu brjefi góðum mönnum kunnigt, að þá er liðið var frá holdgun vors herra Jesú Kristí 1558, sunnudagsmorguninn næsta eptir átta dag jóla á Grund í Eyjafirði, að bróðursamlegur mann, síra Sigurður Jónsson, beiddi oss fyrgreinda menn hollra ráða og lostugra álita, hversu oss þætti löglegast aðfarandi, heiman að gefa sína bróðurdóttur, Helgu Aradóttur, að óbrákuðum guðs lögum og manna, þá hann lýsti fyrir oss, að hann vildi engum manni órétt gjöra. En í annari grein vildi hann heil og holl ráð gefa þessari sinni frændstúlku; tjáði hann og fyrir oss, að honum þætti hennar ráð með spjöllum fara, og því nauðsyn vera, að hún eigi væri firrð sínu jafnræði og sæmd, sagði hann oss, að hennar vildi fá til ektaskapar einn velborinn, fríður og forsóktur heiðurlegur dándissveinn, Páll Jónsson, og hefði hann og hans faðir, Jón bóndi Magnússon þessa marga tíma með sæmd leitað við hana og hennar frændur, sérdeilis við Þorleif bónda Grímsson, hennar móðurföður, sem hennar réttilegur giptingarmaður væri eptir lands lögum, og af honum hefðu þeir svoddan svar fengið, sem hér skrifast upp á sagða málaleitun. Í fyrstu sýndi hann oss bréf með innsiglum þriggja skilvísra manna, svo hljóðandi, að þeir hefðu við verið og tilkallaðir á Möðruvöllum í Eyjafirði, að heyra orð og sjá handsöl þeirra Þorleifs og Páls, að Þorleifur hefði þá lofað með handsölum, að samþykkjast þessum giptingum, svo framt sem það væri vilji áðurgreindrar Helgu. Í annan máta kom fyrir oss bréf Þorleifs með innsigli, hljóðandi að hann vildi þessum ráðahag og ektaskap greindra manna Páls og Helgu samþykkur vera og að hann vildi sjálfur á því sama ári hafa skilmála fyrir sögðum giptingum (þá þessi lofun Þorleifs fram fór skrifaðist datum 1557). Í þriðja máta kom fyrir oss, að fyrnefndur Páll hefði skrifað tilgreindum Þorleifi þá á sama sumri með 6 dándismanna innsiglum, svo og skrifaði Þórunn Þorleifi til, að koma í ásettan tíma, stað og dag lagasvar að hafa fyrir greindum giptingum eptir skyldu og sinni trúlofun; voru tveir ráðvandir menn sendir til Þorleifs með þessi bréf

og fengu þau Þorleifi í hönd, en hann væri enn nú eigi í dag tilkominn; og enginn hans vegna, eður umboðsmaður og ekkert það svar, sem nokkur manndómur í væri, þó nefnd Helga nær væri. — Og nú með guðs hjálp og forsjá þá viljum vér svar gefa sérhverri grein, sem fram fyrir oss hefir komið. Í fyrstu, þar Þorleifur lofaði með vottum og handsölum að sampykkjast þessum giptingum Páls og Helgu, svo framt það væri hennar vilji, þá vitum vér eigi betur en slík trúlofun og handsöluð mál eigi að haldast eptir lögum, fyrst að vilji píkunnar er samþykkur gjörður giptingarmannsins, og með rjettu megi hún eigi öðrum manni giptast en greindum Páli. — Að svo prófuðu, til styrkingar upp á vora grein höfum vér sèð bréf og innsigli herra Ólafs Hjaltasonar, hver oss þykir eiga að sjá eptir guðslögum og tilgangi giptingar í hans stipti, og virðist honum með öðrum heiðursmönnum sem og þeirra innsiglaða gjörningsbrjefi, sem Þorleifur megi þetta í engan máta brigða, fyrst hann, sveinninn, er jafnræði píkunnar, og að öllu meinalausu. — Í annari grein, þar Þorleifur lofar að hafa skilmála fyrir sömu giptingum það sama ár, vitum vér eigi betur, en þá hafi hann sér eindaga ásett til skilmála og brúðkaupsgjörðar eptir því sem lögmálið upp á hljóðar, þó hann setji þar eigi sérdeilis stað og dag til, þá varð það þó að vera innan sama árs, sem innsiglað trúlofunar bréf uppá hljóðar, er þau Páll og Þórunn vegna skilmála þá beiddu Þorleif að koma í sínu bréfi fyrir sína dóttur dóttur, svo henni mætti sæmd og heiður að verða. Þá í nafni drottins vitum vér eigi betur fyrst Þorleifur nú eigi er tilkominn og enginn hans löglegur umboðsmaður, en optnefnd Helga megi nú að saklausu giptast nefndum Páli, og nú megi sá hennar frændi, sem hennar ráði fylgir og bezt hefir vit og dánumennsku til að saklausu við hvern mann mæla fyrir hennar giptingum, segja fram heimanfylgju og áskilja tilgjöf, fyrst giptingamaðurinn afrækir og vill fresta jafnræðis- giptingum, því það bannar lögmálið; vitum vér engan betur tilfallinn, en síra Sigurð Jónsson, hennar föður bróður og hann þar varla á móti mega mæla ef hún hann þar til kýs með samþykki sinnar föðursystur Þórunnar, því oss virðist það fram komið við greinda Helgu, síðan faðir og móðir frá féllu, að þau hafa henni bezt viljað, því sá var hans náungi, sem miskunnarverkið gjörði (Lúk. 10); svo vitum

vér, að það er guðs góðgjarn vilji, að föðurleysingi og móðurleysingi, séu eigi öllum frændaráðum sviptir. Viljum vér fyrnefndir menn þessara ráða bekendir verða fyrir guði og mönnum eptir vorri samvizku. Og til sanninda hér um setjum vér vor innsigli fyrir þetta bréf, skrifað í Múla í Aðalreykjadal sunnudaginn næstan eptir purificatio Mariæ á sama ári, sem fyr segir.

C. Öllum mönnum, sem þetta bréf sjá eður heyra, sendum vér Illugi Guðmundsson, Teitur Magnússon, Jón Loptsson, Jón Jónsson prestar, Þorsteinn Guðmundsson, Magnús Árnason, Þorgrímur Þorleifsson, Hallsteinn Eiríksson, Jón Þorlákssön, Steingrímur Jónsson, Þorsteinn Bjarnason, Ásgrímur Magnússon kveðju guðs og vora, kunnigt gjörandi, að þá liðið var frá holdgan Jesú Kristi 1558 sunnudaginn næstan eptir átta dag jóla, á Grund í Eyjafirði vorum vér hjá, sáum og heyrðum á orð og handsöl og yfirlýsing, sem fram fór á fyrgreindum stað og dag, eptir því sem hér eptir skrifast, in nomine domini amen! yfirlýsti síra Sigurður Jónsson, að einn heiðarlegur velborinn mann, Páll Jónsson, vildi fá sér til löglegrar eiginkvinnu sína heiðarlega velborna jungfrú, Helgu Aradóttur, svo framt það meinuðu eigi guðslög, og með því Þorleifur Grímsson, móðurfaðir Helgu Aradóttur, hafði með innsigluðu bréfi og með vottum og handsölum samþykkt, að þessi ráðahagur skyldi takast, sem þau innsigluðu bréf, þar um gjörð, út vísa, þá lýsti síra Sigurður, að dándismönnum virtist, að áðurnefnd Helga Aradóttir mætti sinn hjúskap binda eptir samþykki Þorleifs að saklausu við alla, þó Þorleifur vilji nú eigi við vera, þá leizt dánumönnum sem Helga Aradóttir, þó með ráði og samþykki Þorleifs giptist, með því hún hefði annara sinna hollra frænda samþykki hértil með sínum ljúfum vilja, því hefði Helga nú umboðið sína föðurmóður Helgu Sigurðardóttur og sína föðursystur Þórunni Jónsdóttur, og svo sinn föðurbróður síra Sigurð Jónsson, að samþykkjast sínum vilja, og að opt nefnd Helga Aradóttir væri það til fullkomins vilja, að eiga Pál Jónsson; þá sagðist greindur síra Sigurður þeim hennar vilja samþykkur vera um allt það, er hann mætti með lögum og ætti að gjöra, bæði fyrir guði og mönnum; og slíkt hið sama hefði hennar föðurmóðir og föðursystir gjört, sem þá var nærverandi.

Og með því fyrnefnd Helga Aradóttir kjöri sinn föðurbróður síra Sigurð Jónsson þar þá, að hafa formála fyrir sér og framtelja sína peninga, þá eptir dándismanna ráði og hennar bón, sagðist hann það gjöra vilja, eptir því sem hún áður hefði sér sagt. — Í fyrstu reiknaðist móðurarfur þeirra systra, Helgu Aradóttur og Þóru Aradóttur IIII hdr. hdr. (aðrir VI hdr. hdr.) eður meir með því silfri, sem móðir þeirra átti, þó eigi hefði Helga Aradóttir alla þá peninga þeirra systra þá fengið, þá stæðu þeir þar þeir stæðu og Helga vel vissi; og eigi taldi Helga sér þá meiri peninga, sem Þóra hennar systir á út af þeim peningum, hvorki jarðir né lausafé, þó hún haldi þá til umboðs, og enga aðra eign taldi hún sér þá til giptingar. Hértil hafði Helgu Aradóttur verið dæmd fjórðungsgjöf af peningum síns föður Ara heitins, en hans peningar reiknuðust góð XX hdr. hdr., sem bevísa mætti hans reikningsbók og eigin handskript; þá reiknast þar af Helgu fjórðungsgjöf eptir dóminum, þó hún hefði þá eigi fengið af þessu meir en Einarstaði 90 hdr., Glaumbæ 30 hdr., Ingjaldsstaði 20 hdr, og þar með 30 hdr., málnytjukúgildi, en þeir peningar, sem þar eru með meiru reiknast að standa fyrir kirkjugozum og sjálf kirkjunnar eign þar á Einarsstöðum; og af öllum áðursögðum peningum Helgu telur hún sér til kaups við Pál Jónsson svo mikið, sem Páll á tvo peninga í móti; en það sem Páll kann meira að fá eður meðtaka af hennar peningum, þá reiknast það í hans garð svo mikið, sem það vill verða, er hann móttekur, smátt og stórt, og verði það svo með seinasta samanreiknað í eina summu, svo hún leggi ekki meira til lags við hann, en hann á tvo peninga á móti.

Í annari grein hér á móti taldi fyrnefndur Páll Jónsson sér til kaups við Helgu Aradóttur IIII hdr. hdr. af reiknuðum öllum skuldum, og af þeim peningum gaf fyrnefndur Páll Jónsson greindri Helgu Aradóttur í sína tilgjöf strax með handsölum fjórðung af fyrnefndum IIII hdr. hdr., að tilskildum LX hdr. í jörðunni Svalbarða á Eyjafjarðarströnd, og þar til aðra peninga, sem tilreiknast að fjórðungur sé, og þessa gjöf og gjörning samþykkti Jón bóndi Magnússon, faðir Páls, svo og Magnús bróðir hans.

Og með þessum skilmála og handsölum keypti Páll Jónsson Helgu Aradóttur sèr til löglegrar eiginkvinnu eptir guðs-

lögum, og þessi allur áðursagður peningaskilmáli var fram sagður fyrir handsölum, meðan þau fyrnefndu Páll Jónsson og Helga Aradórtir höfðu handaband sín á millum, og þar eptir festi Páll Jónsson ofannefnda Helgu Aradóttur til löglegrar eiginkvinnu eptir bókarinnar orðum og þar eptir framfór eptir guðlegum setningum og kristilegri ceremoníu, lögleg samvígsla í kirkjunni og svo annað sæmilegt siðferði eptir sið landsins, og til sterks vitnisburðar og sanninda hér um setjum vér fyrskrifaðir kaupvottar og festingarvottar vor innsigli fyrir þetta bréf, sem skrifað var á Grenjaðarstað á sama ári sem fyr segir.

*D. Reykhóla kaupbrèf.*

Í nafni heilagrar þrenningar og þrefaldrar einingar almáttugs, eilífs guðs þess, er alla hluti, fjarlæga sem nálæga, og nálæga eins og fjarlæga, óorðna líkt sem umliðna, prófar, reynir, veit, þekkir, kannar og dæmir, skikkar og forsér hverju efni sitt upphaf, tíma, tilgang, aldur, æfi og enda, svo að á móti förlögum skaparans engin skepna, hversu hún vildi, kann eitt strá briðt standa, því sá hefir sem guð gefur, þeim hinum sama sé lof og dýrð um aldir alda. Amen!

Það játa og kennumst eg, Þorleifur Björnsson, prestur, fyrir öllum og fyrir hverjum þeim, er þetta nærverandi bréf sjá, lesa eða heyra lesið, að eg frjálsviljugur, véla- og undirhyggjulaust við ráðið ráð, undirtal og samþykki konu minnar, Ragnhildar Jónsdóttur, hefi selt og afhent með vottum og handsölum, og nú í krapti þess míns opna bréfs sel og afhendi heiðarlegum dándismanni Páli Jónssyni undir hann og hans erfingja til einnar stöðugrar, staðfastrar, æfinlegrar, óbrigðanlegrar eignar og frjáls forræðis mína föðurleifð, jörðina alla Reykhóla á Reykjanesi, kaupahlutann fyrir LX hdr., undan mér og mínum erfingjum með öllum þeim gögnum og gæðum, rentu og réttugheitum, eyjum, ítökum, útskerjum, vötnum, veiðistöðum, skógum, afréttum og öllum landsnytjum, er greindri jörðu fylgir og fylgt hafa að fornu og nýju í jörðu og á, og enginn finnst eigandi að, eptir þeim lögmála, sem gjörður var fyrir nokkrum árum, með samþykki Greips, okkar á millum. Hér á móti hefir Páll Jónsson skuldbundið sig og sína erfingja, að gjalda mér og mínum erfingjum LX hdr. í

jörðum og þartil XX hdr. í fríðum peningum; allt fyrir LXXX hdr.; var þar fyrst tileinkaður Saurhóll í Saurbæ 24 hdr. með því skilyrði, að Páll Jónsson eða hans erfingjar skyldu lausn eiga á honum af mínum erfingjum, þartil jörðina Laugar, er liggja í Hvamms sveit í Sælingsdals-tungu kirkjusókn fyrir XVI hdr., eða önnur XVI hdr. jörð og þartil 20 hdr. jörð hér í sveitinni (var hún eigi á nafn nefnd) og skal eg taka árlega afgjald af Króksfjarðarnesi, á meðan hún greiðist eigi og X málnytju kúgildi að næstum fardögum og X nú strax í haust með þessum fríðleik: III hdr. í góðum peningum, II hdr. í öllum peningum, og 3 vættir smjörs fyrir II hdr. og III hdr. í köplum, allt fyrir LXXX hdr. Á kirkjan á Reykhólum jörðina Barma með þessum landamerkjum: úr Vokugröf og sjónhending upp í Skálarhöfuð fyrir utan og í læk þann, sem gengur fyrir innan Hraun; á garðurinn Reykhólar alla Seljalands strönd milli Hraunslækjar og Þúfnalækjar, er kenndur er við Þúfnarjóður, sem er fyrir innan lækinn, og Hvannahlíð alla, er liggur fyrir vestan fram í Þorskafirði millum Grjótár og Ísfirðingagils. Eru þetta landamerki millum Reykhóla og Miðhúsa: Ofan úr Rét tabergi og í Illakeldu og réttsýni í voginn fyrir innan Geldingsey fyrir austan. En réttsýni ræður ofan úr gjá þeirri, er gengur í fjallið fyrir innan Höllustaði mitt ofan um mýrarnar í botninn utanverðan á Grundarvog fyrir vestan. Þetta lýsti eg og ámálga eg, sem sá, er eignarmaður hefir verið að öllum áðurgreindum jörðum, vera og verið hafa landamerki ámillum sagðra jarða, eptir míns föðurs minni og hinna elztu manna sögu. Skal hvor okkar Páll Jónsson og eg svara lagariptingum á þeim jörðum, er seldi. Voru þessir nefndir, tilbeðnir að sanna gjörningskaup, vottorðum og viðlögum: Sigurður Arnfinnsson, Einar Steinsson, Ormur Pétursson og Bjarni Björnsson hverir menn að hengdu sín innsigli með okkar innsiglum og undirskript fyrir neðan þetta bréf, hvert skrifað var á Reykhólum á Reykjanesi, laugardaginn næstan eptir Ólafsmessu fyrri, hver dagur var hinn þriðji útí augústmánuði, þá er þessi gjörningur framfór, árum eptir guðsburð 1566. Þorleifur Björnsson, Páll Jónsson.

*E. Votta vitnisburður.*

Það gjörum vér Sigurður Arnfinnsson, Einar Steinsson,

Ormur Pètursson, Magnús Sveinsson og Bjarni Björnsson góðum mönnum kunnigt með þessu voru opnu bréfi, að þá er liðið var frá hingaðburð vors herra Jesú Kristí 1566, á laugardaginn næsta eptir Ólafsmessu hina fyrri, hver dagur var hinn þriðji dagur út í ágústmánuði, um hádegis skeið, úti fyrir sálarhliðinu á Reykhólum á Reykjanesi, vorum vér tilnefndir vottar að heyra og sjá handsöl heiðarlegra manna síra Þorleifs Björnssonar af einni, en Páls Jónssonar af annari álfu, og að svo fyrirskildu seldi síra Þorleifur Björnsson með handsölum og samþykki konu sinnar Ragnhildar Jónsdóttur, jörðina alla Reykhóla, kaupahlutann, 60 hdr., með öllum þeim gögnum og gæðum, rentu og réttugheitum, eyjum, ítökum, útskerjum, vötnum, veiðistöðum, skógum, afréttum og landsnytjum þeim, er greindri jörðu fylgja, og fylgt hefir að fornu og nýju og Þorleifur varð framast eigandi að, undan sér og sínum erfingjum; en Páll Jónsson keypti undir sig og sína erfingja, sem hann mátti frekast og réttilegast að formæli og krapti lands laganna, eptir þeim lögmála, sem gjörður hafði verið fyrir nokkrum árum með handseldu samþykki Greips Þorleifssonar, að öllu tilskildu undir fyrra skilyrði, en engu fráskildu í jörðu og á, sem enginn finnst annar eigandi að.

Hér í móti skuldbatt Páll Jónsson sig og sína erfingja, að gjalda síra Þorleifi og hans erfingum LX hdr. í jörðum og þar til XX hdr. í fríðum peningum, allt fyrir LXXX hdr.; var Þorleifi nú fyrst tileinkaður Saurhóll í Saurbæ XXIV hdr. með þeim skildaga, að Páll Jónsson eða hans erfingjar skyldu lausn eiga á honum af síra Þorleifi eður hans erfingjum. Þar til jörðin Laugar, er liggja í Hvammssveit og Sælingsdalstungukirkjusókn fyrir XVI hdr., eða önnur XVI hdr. jörð (hér í sveitinni) og þar til XX hdr. jörð hér í sveitinni, var hún eigi á nafn nefnd, og skyldi síra Þorleifur taka árlega afgjald af Króksfjarðarnesi, meðan hún gyldist eigi, og X málnytu kúgildi í næstu fardögum, og X hdr. nú strax í haust með þessum færleik: III hdr. í geldum peningum, II hdr. í þarflegum peningum, 3 vættir smjörs fyrir II hdr. og 3 hdr. í köplum, allt saman reiknað LXXX hdr. Skyldi hvor um sig, Þorleifur Björnsson og Páll Jónsson og þeirra erfingjar svara lagariptingum á þeim jörðum, er seldi, en sá halda til laga kaupi sínu, er keypti, og á skammri stund eptir þennan handseldan gjörning, gengu fyr-

skrifaðir menn, síra þorleifur Björnsson og Páll Jónsson og vér áður skrifaðir heim eptir stéttinni að karldyrunum á Reykhólum, tók þá síra þorleifur Björnsson annari hendi um dyrastafinn til hægri handar, þá hann inngengi í dyrnar, en annari hendi í hægri hönd Páli Jónssyni, svo mælandi: hér afhendi eg þér nú kaup þitt til hefðar og heimildar fyrir hverjum manni, en afsala mér; en Páll Jónsson viðtók og lagði lög og dóm fyrir. Síðan gengu þeir aptur fyrir kirkjudyr, Páll og Þorleifur, lögfesti þá Páll Jónsson kaup sitt með fylgjandi orðum: Eg Páll Jónsson lögfesti hér í dag eign mína Reykhóla með húsum, hýbýlum, engjum, úthögum, afréttum, holtum, skógum, eyjum, hólmum, skerjum, rekum, vötnum, veiðistöðum, og öllum landsnytjum til hinna yztu hálfra landamerkja, er aðrir menn eiga á móts við mig, fyrirbýð eg hverjum manni héðan í frá greinda jörð að yrkja eða af nýta utan mitt sé lof eða leyfi til. Síðan heimilaði Páll Jónsson síra þorleifi Björnssyni greindan stað með handsölum til næstu fardaga og það lengur, sem báðum vel semdi. Sagði síra þorleifur Björnsson Páli Jónssyni til eigna staðarins á Reykhólum, sem er: öll Barmahlíð að hinum innra læknum nær Hyrningsstöðum og kallast þúfnalækur, og alla Hvannahlíð millum Grjótár og Ísfirðingagils fyrir vestan fram í þorskafirði. Enn fremur skyldi síra þorleifur að vori komandi ríða á landamerki, nær Páll vildi, eptir því sem lög votta, og til sanninda hér um undirskrifa sig áðurnefndir menn, þorleifur Björnsson og Páll Jónsson, og hengdu sín innsigli með vorum fyrnefndum votta innsiglum fyrir þetta jarðakaupabrjef, skrifað á Staðarhóli þrem nóttum síðar en fyr segir.

*F. Dómur um löggildi Reykhóla kaups.*

þeim góðum mönnum, sem þetta bréf sjá eða heyra, senda Oddur Ásmundsson, Jón Oddsson, Benidikt Halldórsson, Sigurður þorbergsson, Fúsi þorsteinsson, Magnús Kolbeinsson, Erlendur Þorláksson, Jón Sölfason, Bergur Jónsson, Starkaður Valtírsson kveðju guðs og sína, kunnigt gjörandi, að árum eptir guðs burð MDLXVIII á þriðjudaginn næstan eptir Maríumessu hina fyrri, hver dagur var hinn 17. út í augústmánuði á Helgastöðum í Reykjadal vorum vjer í dóm nefndir af Ormi Sturlusyni, lögmanni N. og V. á Íslandi, til að skoða og

álíta, hversu lögleg oss sýndist þau bréf og kaup, er Páll Jónsson bar þar fram fyrir oss um garðinn Reykhóla á Reykjanesi. Í fyrstu kom þar fram fyrir oss landsmálabrjef undir tveggja manna innsiglum, hljóðandi, að síra Þorleifur Bjarnarson með samþykki Greips Þorleifssonar og Jóns Björnssonar handseldi Páli Jónssyni fyrstum kaup á Reykhólum á Reykjanesi. Item eitt granna lýsingarbréf; ítem eitt garðs lýsingarbrèf; ítem eitt alþingis lýsingarbréf undir lögmanns innsigli; eitt kaupbréf með vottum, handsölum og afhending. Item hans prestsins barna, Þorleifs sjálfs meðkenningarbréf undir vottanna innsiglum, sama kaups handsöl og afhending í sér innihaldandi, allt eptir því gjört sem vor landslagabók útvísar og inniheldur í landabrigða bálki; sérdeilis útvísar lögmálið í landa brigðum segjandi: svo er mælt, þá er maður selur öðrum manni land sitt og vill hann leggja á landið mála, þá skulu þeir handsalast við þann mála, sem þeir verða á sáttir, og þeim mála skal hann lýsa fyrir 6 grönnum sínum og næsta sumar eptir á alþingi, svo að lögmaður heyri; hann skal lýsa þeim mála um sinn á tíu vetrum á héraðsþingi, meðan hann lifir. Item ef maður vill selja land sitt við verði og . . hvervetna þar sem menn kaupa jarðir, og skiptast að húsum, skipum og gripum, þá skal kaupa við handsölum, vottum tveim eða fleirum og með heimildartöku. Item öll þau skilyrði, er menn gjöra í kvennagiptingum, svo og ef menn kaupa jarðir og fyrir hvert 5 hdr. kaup og meira, þá skal hvorutveggi gjöra brèf eptir kaupi sínu og skildaga og nefna votta sína, er við voru, stund, stað, dag, og hafa fyrir innsigli lögmanns eða sýslumanns eða nokkurra skilríkra manna, þeirra, er vissu kaup þeirra.

Því eptir áðurskrifuðum lögum og þeim fleirum hér að lúta og í lögmálinu standa, dæmdum vér áður greindir dómsmenn með fullu dóms atkvæði, áðurskrifað bréf og kaup, nýtt, skjallegt og myndugt, og eptir réttum texta landslaga bókarinnar gjörð vera, að svo prófuðu máli. Samþykkti þenna vorn dóm áðurnefndur lögmann, Ormur Sturluson, og hengdi sitt innsigli með vorum fyrgreindra manna innsiglum fyrir þetta dómsbréf, hvert dæmt og skrifað var út í áðursögðum stað, ári og degi.

*G. Kvittun síra Þorleifs fyrir verð Reykhóla.*

Eg Þorleifur Bjarnarson kennist og gjöri góðum mönnum kunnigt, með þessu mínu opnu bréfi og eiginlegri handskript, að eg hefi fulla og alla peninga inntekið og uppborið, sem mér vel ánægir og líkar, fyrir mína föðurleifð, garðinn Reykhóla á Reykjanesi, sem er LXXX hdr. í málnytju, smjöri, jörðum og dauðum peningum, af Páli bónda Jónssyni, sem hann var mér skyldugur, eptir því sem okkar kaupbréf útvísar um áðursagðan garð, Reykhóla, fyr meir gjört og gengið, og þar til sá reikningsskapur hjá honum liggur, útvísar, og þar fyrir gef eg og gjöri eg greindur Þorleifur Bjarnarson, þráttnefndan Pál Jónsson og hans erfingja með vottum og handsölum, og nú í krapti þessa míns opna bréfs gef, gjöri og tilsegi eg kvittan, liðugan og lausan og alþingis viðskildan sömu LXXX hdr. skuld og jarðar verð æfinlega fyrir mér, mínum erfingjum og eptirkomendum, svo hvorki eg né þeir skulu neina magt né myndugleika til hafa eða nokkur í þeirra eða mínu nafni optnefndum Páli Jónssyni eða hans erfingum ýfu eða ómaka orsaka um sama garð Reykhóla og verð, sem áður sögð LXXX hdr., til þinga, fyrir dóma, á stefnum eður mannfundum um aldur og æfi, svo að þar til skulu mér eða þeim hvorki hjálpa lög, privilegíur, réttarbækur, fríseldt eða nokkur útdráttur veraldlegur eða andlegur, þess er eg vil mig hérmeð öldungis afneitað hafa upp á trú og æru útí eiðstaf, hefir fyrskrifaður garður Reykhólar eptir kaupi og kvittun þess stórmegtugasta, hábornasta, víðfrægasta herra, herra Kristjáns hins fyrsta þess nafns, háloflegrar minningar, fyr meir konungs til Danmerkur og Norvegs, eign og óðal minna og langafa, fyrst Einars Þorleifssonar og Þorleifs Bjarnarsonar og Bjarnar Þorleifssonar annars og nú mín Þorleifs Bjarnarsonar og annars meir enn í 100 ár og aldrei í aðra ætt gengið. Er eg hinn elzti son míns föðurs, borinn til höfuðsbóls eptir lögum og landsrétti. Og til sanninda hér um festi eg mitt innsigli fyrir þetta opið bréf og mína eiginlegu handskript. Skrifað á Reykhólum Pétursmessu og Páls, anno 1572.

Þorleifur Bjarnarson.

*H. Dómur um landamerki Reykhóla.*

Eg Ormur Sturluson, lögmann N. og V. á Íslandi, gjöri

góðum mönnum kunnigt með þessu mínu opnu bréfi, að þá liðið var frá hingaðburði vors herra Jesú Kristí 1572 ár á miðvikudaginn næstan fyrir krossmessu um vorið kom fyrir mig Páll Jónsson, beiddi mig og krafði, að ríða á þau landamerki, sem fylgdu garðinum Reykhólum á Reykjanesi og síra Þorleifur Björnsson hafði honum selt og ánefnt í þeirra kaupbréfi. Í fyrstu reið eg með fleirum góðum mönnum öðrum á landamerki millum Reykhóla og Höllustaða, og fundum vér þann grjótgarð, sem gengur að réttri sjónhending neðan úr utanverðum Grundarvogi, upp eptir Krókalæk, og svo upp um mýrarnar fyrir innan Höllustaði réttsýni í þann ytra læk, sem sprettur upp úr urðunum hjá þeim stóru steinum, sem standa í garðsendanum, og gengur garðurinn upp eptir hlíðinni; en fyrir ofan garðinn fundum vér tvo marksteina og setta, og þrjá lýrittar steina upp yfir lagða, sjónhending ofan úr gjánni, sem gengur í fjallið, allt eptir því gjört, sem sjálfur textinn landslagabókarinnar, landabrigða þriðji kapítuli útvísar. Lýsti síra Þorleifur fyrir oss, að hann hefði Páli Jónssyni selt að þessum hálfum landamerkjum, svo upp úr gjánni óskekkta sjónhending yfir um þveran dalinn, sem lög mæla norður á fjöll sem vötnum hallar.

Item, svo og riðum vér á þau landamerki, millum Miðhúsa og Reykhóla; fundum vér einn garð, sem gengur fyrir innan sjálfan vogsbotninn, sem kenndur er Miðhúsavogur, og garðinn nokkuð upp eptir bakkanum; ræður þaðan sjónhending þvert upp yfir, fyrir innan þann innari enda, sem gengur nær austur undir holtin af Illukeldu og svo í klett þann, sem stendur að réttri sjónhending í bringunum ofan úr gjánni miðri þeirri, er gengur í gegnum Sléttaberg. Þaðan meinti Jón Tindsson vegna konu sinnar Herdísar Þorleifsdóttur, að Miðhús eptir nokkrum heyrsagnar vitnisburðum átti sjónhending ofan yfir voginn og Grundará, er gengur vestan úr mýri og austur eptir Miðhúsavogi og í Lómatjörn. Meðkenndust þeir Páll Jónsson og Jón Tindsson, að þeir hefðu með vottum og handsölum undir lagt og skyldu hafa og halda, hvað eg hér um gerði þeirra á millum. Lét Páll Jónsson lesa þar upp kaupbréf fyrir Reykhólum, kenndist síra Þorleifur Björnsson, að hann hefði svo selt og afhent Páli Jónssyni, sem bréfin út-

vísa. Þó sökum þess, að forgamall stekkur frá Reykhólum stendur strax fyrir utan voginn, og hins annars, að lögmálið sjálft úrskurðar, að þar er eigi skylt að ganga á merki, sem firðir deila eða ár þær, er netnæmir fiskar ganga í (landabr. 6. 31. k.), og nú er garður granna sættir (landslb. 31. k). Í Guðs nafni amen. Eptir áðurgreindum bréfum, lögum og góðra manna samþykki, er hjá mér voru, úrskurða eg, Ormur Sturluson, lögmann, með ljósum laganna úrskurði Reykhóla eiga allt land fyrir utan Miðhúsavog og Grundará, en garðinn og áðurskrifaða sjónhending upp í Sléttaberg vera rétt og óbrigðul landamerki milli Reykhóla og Miðhúsa, og Pál Jónsson skyldugan að grafa og niðursetja tvo marksteina og leggja í þrjá lýrittar steina í garðsendann og tvo marksteina aðra og þrjá lyrittar steina fyrir ofan klettana í réttri sjónhending upp undir Sléttaberg, nú fyrst hann kann til komast, en þau vitnisbréf ónýt og að engu hæf, sem Jón Tindsson hefir hér í móti gjöra látið. Og til sanninda hérum hengi eg áðurskrifaður lögmann mitt innsigli fyrir neðan þenna minn úrskurð, uppsagðan á sama stað, degi og ári, sem fyr segir, en skrifaðan í Garpsdal fjórum nóttum síðar.

## Ari Magnússon.

(Sjá um hann við Barðastrandarsýslu).

Eptir Pál, föðurbróður sinn, og Gissur Þorláksson á Núpi, tók Ari alla Ísafjarðarsýslu og flutti sig búferlum í Ögur 1598, en þá tók Björn bróðir hans Barðastrandarsýslu og bjó í Saurbæ á Rauðasandi. Ari hafði og 50 konungsjarðir til umboðs og hélt þessa sýslu til þess hann dó 1652. Hann var í sinni tíð stórhöfðingi, starfsamur, héraðsríkur, lagamaður góður og var í lögmanns kjörum. Hann hélt heimilisprest í Ögurþingum og urðu þeir flestir fegnir þaðan að komast; mikinn fjölda dóma útnefndi hann, og á elliárum hélt hann lögsagnara, að vísu í vestur parti sýslunnar. 1614 voru spanskir hvalfangarar eða frá Gascon á Vestfjörðum og tóku að ræna nautum og sauðum frá innbúunum og hræða af þeim peninga, en eigi drápu þeir menn eður rændu burt kvennfólki; helzt fóru þeir um Strandir og Ísafjörð; hófust engir handa móti þeim, hafði brotnað skip þeirra, en þeir komizt af. — 1615 komu sjóvíkingar á Vatneyri og ætluðu að ræna Vestfjörðu, höfðu þeir

tekið nokkra enska menn nauðiga; en er þeir komu á land og ætluðu að ræna Dani á Vatneyri, réðust hinir ensku menn á þá, urpu þeim í sjóinn og drápu nokkra, en tóku tvo fyrirliða og fóru síðan burt. Á áliðnu sumri lágu spanskir menn á þremur skipum fyrir Vestfjörðum, þeir særðu nokkra menn og, ræntu suma, konum ræntu þeir eigi samt; í útsynnings- veðri brotnuðu skip þeirra, voru þá eptir 80 menn á 7 bátum og einni skútu, fóru þeir um firðina og ræntu í Jökulfjörðum, tóku skútu á Dynjanda, stefndu til Ögurs, en bæði var þar nokkur vörn fyrir, enda lét Ara færa á völl út tunnur og þesskáttar, að þeim sýndist það lið og hurfu frá. Konungs og höfuðsmanns bréf höfðu út komið, að þeir skyldu vera dræpir, og þar eptir dæmdi Ari með 12 mönnum. Jón er kallaður var lærði, hafði mikil mök við ránsmenn þessa; var eigi frítt að hann vísaði þeim á hafnir eða til féfanga. Ari sýslumaður safnaði þá mönnum og fór að þeim; komu þeir Ari að einum flokk sofandi, og drápu þá; 18 menn voru í Æðey drepnir; 31 í Ísafirði, 13 á Dýrafirði; en er Ari ætlaði að þeim í þriðja sinni, gjörði óveður mikið, svo menn héldu heim; þeir, sem eptir voru, rændu enska duggu með mönnum og áhöfn, drápu einn mann og komust svo burt. Var Ari í þessu, sem mörgu öðru, oddviti; er mælt, að Ari hafi til sín tekið herfang allt og metið það konungs fè, en liðsmenn hafi hlotið það, sem lítt nýtt var af klæða slitrum þeirra; voru þeir dysjaðir nálægt þar, sem þeir féllu.

Þar hér er nefndur Jón lærði, virðist tilhlýðilegt, að gjöra lítið ágrip af lífssögu hans:

*Faðir* hans var Guðmundur Arason, Guðmundssonar, Hallssonar í Hjörsey.

*Móðir:* Þuríður Bergþórsdóttir, Bjarnasonar, Vigfússonar, Jónssonar Grímssonar.

*Kona:* Þuríður Þorleifsdóttir.

*Synir:* 1. Síra Guðmundur á Hjaltastað.
2. Daði, launson með Gunnu.
3. Jón, laungetinn.

Jón var almúga manna, var hnýsinn og hafði lærdómsgáfur, var uppalinn á Ströndum og hafði kvænst þar og fengið þeirrar konu, er haldin var mjög fjölkunnug. — Jón fór með mörg hindurvitni, kunni rúnir og lést hafa til galdra, var og

ekki ófróður í sumum hlutum. Hann þóttist hafa kynni mikil af álfum og leitaði við að kenna mönnum að vekja upp drauga. Hafði hann og átrúnað mikinn á grösum og steinum, en hélt þá alla fjölkunnuga, er í móti honum lögðust að nokkru; var hann kallaður Jón lærði; Jón hafði mikil mök við áðurnefnda ránsmenn; en þá er þeir voru drepnir, komst Jón undan suður yfir heiðar, ritfærði hann aftöku téðra ránsmanna og kvað þá saklausa hafa verið drepna, og Ara sýslumann mesta illmenni og fjölkunnugan, samt fleira. Flæktist nú Jón víða um land, unz hann kom norður að Hólum, gat hann svo skrumað fyrir Guðbrandi biskupi, að hann tók Guðmund son hans í skóla, því biskup fann hann vel gáfaðan ungling; hældi þess vegna Guðbrandi biskupi mjög og dvaldi um hríð í norðurlandi, til þess að hann var rekinn þaðan, þá er menn urðu þess varir, að hann kenndi fjölkyngi og hjátrú; fór hann þá vestur á Snæfellsnes, og skaut Steindór, son Gísla lögmanns Þórðarsonar, skjóli yfir hann og hafði í virðingum nokkra stund; bjó Jón þar í ýmsum stöðum og síðast á Hjallasandi, þar sem hann kallaði að Uppsölum, tók hann að halda þar nokkurs konar skóla, og komu til hans margir ungir menn, er þangað fóru til sjóróðra og fræddi hann þá í hjátrú og töfrum; hann ritaði og um þau efni rit nokkur, og margt um grös og steina, og gengu þau alþýðu í augu. Síra Jón Böðvarsson frá Reykholti var þá prestur til Ingjaldshóls, hann mótmælti Jóni, og bar á hann sakir um villudóm og fjölkynngi, sló með þeim í illdeilur og tóku menn það fyrir kunnáttu Jóns, að prestur missti nokkru síðar prestskap. Jón orti kvæði, er hann kallaði Fjandafælu, því tók almúginn mjög vel í móti, en Jón prófastur Guðmundsson hratt með röksemdum villusögnum Jóns. Litlu síðar lá við, að Jón yrði tekinn, en hann flæktist þá burt þaðan og var í ýmsum stöðum til 1633, að Guðmundur son hans fekk Hvalsnesþing, fór Jón þá til hans um tíma. Jón hélt fram iðju sinni, að telja menn á fjölkynngi og hindurvitni. — Síra Guðmundur Jónsson á Hvalsnesi hafði fengið þjónustustúlku Ólafs Péturssonar umboðsmanns; kærði síra Guðmundur, að Ólafur hefði viljað komast yfir hana eptir trúlofun við sig, en þá er það eigi hefði dugað, hefði hann veikt hana með fjölkynngi. Lét þá Ólafur stefna Jóni, föður síra Guðmundar, um fjölkynngi eða hjátrú; því Jón hafði játað

sig að hafa brúkað stafi nokkra til lækninga og kennt það öðrum. Jón strauk þá, náðist þó aptur og var settur í fangelsi, hans fjármunir teknir (er mest var náttúrusteinasafn hans og þess háttar), en hann dæmdur útlægur, og fluttur til Danmerkur; kom hann sér þar í kunningsskap við Óla Vorm, sem þá lagði sig eptir rúnaþekkingu, átrúnaðarlaust; Jón kunni rúnir og kom sér því fram við Óla, sem kom því til leiðar, að Kristján Friis cancelleri útvegaði konungsbréf, að prófa skyldi að nýju mál Jóns; var hér á landi á alþingi 1635 lýst útlegð hans. 1637 á alþingi kom enn fyrir mál Jóns lærða eptir konungs boði, og eins um Guðmund son Jóns, sem Ólafur Pétursson hafði látið dæma frá prestskap, þar hann eigi gat sannað sakargiptir sínar á Ólaf, var Guðmundi aptur til dæmdur prestskapur á alþingi 1637, þar léttvæg sýndist sök hans, en ályktað var, að höfuðsmaður og biskupar báðir og lögmenn skyldu með 12 mönnum hverjir prófa mál Jóns; játaði hann sem fyr, að hann hefði ritað bók þá, er á voru lækningar, rúnir og guðfræði; var bókin þá lögð fram, og voru í XXX kapítular og stafur nokkur ókennilegur yfir hverjum, ritningargrein og bæn stutt, en þetta var helzta innihaldið: vörn á móti bruna, blóðláti, lauslæti, æði, vopnum, illum öndum, röngum dómum, freistingum satans, vígi á móti óvinum og hatri annara, vörn á móti veiði, að skelfa óvini sína, lausn þungaðra kvenna, vers á móti falli, móti skipbroti, eldsvoða, þjófnaði, vatnagangi og flóðum, flogum á mönnum og dýrum, ofsjónum og þrumum, til sigursældar í orustu, að deyfa eggjar, nöfn fingra Krists, refastefna, vörn á móti eldi, vatni og vopnum, ef trúin dugar, sigursældarblessan að morgni dags; móti veðrum á sjó, móti 7 draugum, stafir í móti mæðrissýki, lífsýki, hósta og fleiru, og svo nokkuð ýmislegt. En þó þar stæði eigi um draugavakningar, er menn trúðu, eða annað, er til áreitingar horfði, meinast að hann hafi um slíkt rætt við lærisveina sína; er líkast að það hafi hlíft honum, að þess háttar varð eigi á hann borið. Var nú Jón dæmdur útlægur á ný, en með því Danir vildu eigi flytja hann, hvorki höfuðsmaðurinn né aðrir, en Enskir máttu eigi að landi koma, og Íslendingar áttu engin skip sjálfir, þá varð hann í landinu og rakst um kring og austur í Papey; síðan fór hann víðar um Austfjörðu, og þá er hann skrifaði um grös

og steina og tileinkaði Brynjólfi biskupi, hefir hann sig undirskrifað svoleiðis: «Jón karl Guðmundsson í Gagnstaðarhjáleigu á Útmannasveit í Fljótsdalshéraði». 1647 var hann í Dalkoti, 73 ára, ritaði hann þá heimssögu- ágrip nokkurt, en fyr hafði hann samið kvæði um álfa, og sína eigin æfi, lítt merkilegt. Björn á Skarðsá segir, að hann hafi skrifað móti Lúters lærdómi, en eigi vitum vér sanna á því Jón dó loks 1650, 76 ára gamall. Hann var að því merkilegur, að hann kom inn hjá alþýðu galdra, drauga og álfa trú í landi voru, hvað lengi síðan hefir viðhaldizt miklu meir en í heiðni og orðið mörgum að illu. — Skömmu fyrir sinn dauða átti Jón son og gaf honum nafn sitt; líktist hann og föður sínum og var kallaður «Litli-Lærði». — Síra Guðmundur son hans, sem áður er nefndur, var föðurbetrungur og fèkk Hjaltastað 1654 og var þar nálægt 29 ár. Hans son var Guðmundur, sem komst eptir mikil æfintýri í þénustu hjá ekkjudrottningunni, fékk veiting fyrir Þverárþingi, en nýtti hana eigi, gjörðist síðan fógeti drottningar, en komst seinna í óvild og lifði síðan sem prívatmaður.

## Jón Gissurarson.

*Faðir:* Gissur sýslumaður á Núpi Þorláksson, sjá um hann hér að framan.

*Móðir:* Ragnheiður, dóttir Staðarhóls-Páls.

*Kona:* Þóra, dóttir Ólafs í Hjarðardal í Dýrafirði, Jónssonar sýslumanns, samastaðar, Ólafssonar sýslumanns Guðmundssonar (Þóra hafði fyr átt Björn Þorvaldsson, sjá Dalasýslu).

*Son:* Síra Torfi í Gaulverjabæ prófastur, varð kirkjuprestur í Skálholti 1647, fékk Rafnseyri 1648, aptur kirkjuprestur 1649, fékk Gaulverjabæ 1650, og líka kirkjuprestur 1662 til 1667, dó í Gaulverjabæ 1689. Kona hans var Sigríður, dóttir Halldórs lögmanns Ólafssonar, giptist 1650. — Þeirra börn:

A. Síra Jón á Breiðabólstað í Fljótshlíð, átti Sigríði dóttur Björns sýslumanns á Espihóli, þeirra börn:
   1. Björn[1],

---

1) Björn undir Múla í Dýrafirði átti Guðrúnu Magnús-

2. Rannveig[2] (aðrir: Ragnheiður).
3. Ólafur[3].

B. Síra Halldór í Gaulverjabæ átti Þuríði Sæmundsdóttur, barnlaus.

C. Sveinn Torfason, klausturhaldari á Munkaþverá, fékk klaustrið 1688, dó 1725, giptist 1688 Margréti dóttur síra Magnúsar á Kvíabekk, þeirra börn:
1. Páll djákni.
2. Eggert lögréttumaður.
3. Valgerður[4].
4. Þórunn átti síra Hannes, föður síra Benidikts og Sveins.

D. Ragnheiður, gipt 1676 Jóni sýslumanni í Einarsnesi (sjá Mýrasýslu).

E. Þórunn Torfadóttir átti síra Högna Ámundason, börn:
1. Síra Páll á Valþjófsstað.
2. Benidikt og
3. Einar, bændur.

F. Þóra Torfadóttir, gipt 1680 síra Einari[5] Einarssyni, dóu bæði 1690, börn:
1. Margrét átti fyrst Benidikt sýslumann Bech, bl. svo Guðmund Steinsson; síðast síra Björn Magnússon, bl.

---

dóttur. Magnús bjó í Haukadal vestan fram Dýrafjarðar, var mikill gáfumaður og listasmiður, foreldrar hans hétu Níels og Guðrún Jónsdóttir, en Níels var son Jóns Jónssonar í Hvammi í Sandvík, er vegna smíða sinna var nefndur Dýrafjarðarsmiður, og Herdísar Halldórsdóttur frá Breiðadal í Önundarfirði.

2) Rannveig, s. k. síra Filippusar Gunnarssonar, barnlaus.

3) Ólafur bjó í Ölversholti, hans kona Sólrún Magnúsdóttir, þau áttu 15 börn.

4) Hún átti síra Eirík í Miðdal.

5) Síra Einar var prestur í Görðum á Álptanesi.

2. Málmfríður[1].
3. Ingibjörg[2].
4. Brynjólfur.

G. Rannveig, dó 1688, fyrri kona Vigfúsar sýslumanns Hannessonar, barnlaus.

H. Katrín átti síra Árna Þorleifsson, barnlaus.

I. Þorsteinn.

Jón Gissurarson var fæddur á Núpi í Dýrafirði 1589; hann lærði í ungdæmi sínu og mannaðist allvel, giptist svo Þóru Ólafsdóttur, sem áður er sagt og bjó að Núpi í Dýrafirði. Jón gjörðist (að eg meina) umboðsmaður Ara sýslumanns í Ögri Magnússonar, í vesturparti Ísafjarðarsýslu, því þar finn eg hans dóma 1636—7—8, en hvað lengi Jón hefir haft það umboð á hendi, eða hvort það hefir verið í sífellu, er mér dulið, þykir og líklegt, að Ari eigi hafi afstaðið sýslupartinum við Jón. Jón er nefndur í ritum ágætismaður; hann lærði silfursmíði, var kostgæfinn ritari, og margt var honum vel hent; hann var og auðmaður og dó 1648.

Eptir fráfall Ara sýslumanns í Ögri skiptist Ísafjarðarsýsla ennnú í tvo parta, og hélzt það um hríð, því þó Páll sýslumaður Torfason væri nokkur ár fyrir báðum pörtunum, sameinuðust þeir eigi fullkomlega fyrri en Markús Bergsson við tók. Eigi er eg fullviss um alla eptirskrifaða, hvern partinn þeir héldu.

---

## Í vesturpartinum.

### Magnús Magnússon.

*Faðir:* Magnús sýslumaður í Haga, son Jóns sýslumanns eldra, samastaðar, Magnússonar sýslumanns Jónssonar.

*Móðir:* Þórunn dóttir Þorleifs í Búðardal Bjarnasonar á Skarði Oddssonar, sjá Dalasýslu.

---

1) Málmfríður var seinni kona Sigurðar sýslumanns eldra sonar Sigurðar lögmanns Bjarnasonar.

2) Ingibjörg var kona Sigurðar yngra sýslumanns, Sigurðssonar lögmanns Björnssonar.

*Kona:* Ólöf dóttir Guðmundar í Stórholti i Saurbæ, Ásmundssonar prests, Þormóðssonar í Bræðratungu, Þorsteinssonar, Torfasonar sýslumanns í Haga, en móðir Ólafar var Guðrún, er dó 1660, dóttir Jóns Dans Magnússonar, sjá Barðastrandarsýslu. Þau Magnús og Ólöf giptust á Stórholti 4. október 1653.

*Börn:* A. Jón[1], átti Ingibjörgu, dóttur síra Páls í Selárdal Björnssonar sýslumanns, börn:

1. Magnús á Eyri, fyrri maður Guðrúnar Hjaltadóttur, barnlaus.
2. Olöf[2] átti fyr Hákon son síra Guðbrandar í Vatnsfirði, voru saman mánuð, bl., seinna átti Ólöf Sigurð sýslumann á Hvítárvöllum Jónsson sýslumanns í Einarsnesi, Sigurðssonar lögmanns samastaðar. Ólöf var fædd 1686, en dó á Setbergi 92 ára gömul 1778, sjá Borgarfjarðarsýslu.

B. Ingibjörg átti síra Halldór Pálsson í Selárdal, þeirra son:
sira Björn[3] á Sveinseyri átti Ingibjörgu dóttir Jóns á Laugalandi Guðmundssonar, þeirra dóttir:
Ólöf nýnefnd átti sinn föðursystursson Björn á Sveinseyri nýnefndan Halldórsson, barnlaus.

Magnús Magnússon er borinn 1631 í Miðhlíð á Barðaströnd um haustið; hann var snemma settur til mennta og sigldi 17 vetra með Keflavíkurskipi 1648 til Kaupmannahafnar til meiri lærdómsframfara, gjörðist hann þess efsta borgmeistara Hans Nantssonar sveinn nær því í 3 ár. — 1650 kom

---

1) Jón eldri.

2) Ólöf dóttir Jóns eldra var að eins eingipt, og maður hennar Sigurður sýslumaður.

3) Björn var ekki prestur, hann var seinni maður Ólafar dóttur Jóns yngra Magnússonar.

C. Jón yngri Magnússon á Sveinseyri átti Ingibjörgu Jónsdóttur Guðmundssonar á Laugalandi þeirra dóttir:

Ólöf átti fyrst Hákon Guðbrandsson, voru saman mjög stutta stund, sumir segja jafnvel 3 daga, síðan átti hún fyrnefndan Björn Halldórsson.

Magnús út, að finna frændur sína, og fór þó samsumars utan með Vatneyrar skipi til Glychstaðar, þaðan ferðaðist hann til Hamborgar, þá til Lybecks, svo til Krosseyrar og þaðan til Kaupmannahafnar. En 1651 kom hann út alfarinn með góðum vitnisburðum. Eptir dauða Ara sýslumanns tók hann vesturpart Ísafjarðarsýslu 1652. Hann giptist í Holti í Saurbæ 1653 Ólöfu konu sinni sem áður er sagt; bjuggu þau á Eyri við Seyðisfjörð. 1655 lætur hann dóm ganga á Mosvöllum í Önundarfirði. 1656 lét hann og dóm ganga yfir galdramanni. 1659 sór hann sinn sýslumannseið á alþingi. 1663 hefir Magnús misst sýslupartinn, líklega af því að fanginn Þórarinn slapp frá honum. — 1663 til 1664 var Gísli Jónsson þar settur sýslumaður. 1664 er Magnús orðinn aptur sýslumaður í hálfri sýslunni. 1671 komu þeir Magnús og Páll Torfasynir sýslumenn til alþingis með galdramann úr Ísafjarðarsýslu. Nálægt eða eptir 1680 hefir Magnús sleppt sýslupartinum, þó hefir Magnús verið við skipti í Vigur 1702 eptir Magnús bónda Jónsson og fyrstur undirskrifað það skiptabréf. Magnús dó 1704. Hann hefir verið iðjumaður í lærdómssökum, og samantekið furðu langan annál frá sköpun heimsins til 1661, þó eru þeir eigi margfróðir um Ísland og viðburði, er þar hafa skeð, en því meira um útlenzka viðburði, ýmsar cronikur um keisara, konunga, páfa og furstaregistur, o. s. frv. — 1653 fékk Magnús konungsleyfi að ekta Ólöfu þrímenning sinn og gaf þar fyrir 30 rdsp. — 1662 dæmdi Magnús með 6 dómsmönnum kaupmann Hermann Vest frá æru fyrir illyrði. Tómas fógeti Nikulásson tók 5 sýslumenn og 7 lögréttumenn á alþingi og lét þá í hirðstjórabúðinni 1663 dæma dóminn ómerkan og Magnús frá embætti og æru. Magnús skaut málinu til konungs, sem 7. maí 1664 ályktaði, að dómur þessi genginn yfir Magnúsi skyldi hvorki honum né meðdómsmönnum hans koma til nokkurs hnekkis og hann og þeir skyldu halda sínu embætti. 1653 fékk Magnús að léni Álptafjarðar og Aðalvíkur konungsjarðir, er hann mun hafa haldið til síns dauða.

## Gísli Jónsson.

*Faðir:* Jón sýslumaður eldri Magnússon frá Ögri.
*Móðir:* Ástríður dóttir, Gísla lögmanns (sjá Dalasýslu).
*Kona:* Guðný Jónsdóttir frá Reykjarfirði, barnlaus.

Gísli giptist konu sinni Guðnýju 1642; hann varð lögréttumaður, og 1663 settur sýslumaður í norðurhluta Ísafjarðarsýslu, og varð umboðsmaður yfir konungsjörðum, er Þorleifur hafði haft. Veturinn 1663—64, þegar Tómas umboðsmaður sigldi, gjörðist Gísli umboðsmaður hans og 1663 var hann settur sýslumaður, sem fyr segir, í vesturparti Ísafjarðarsýslu, þegar Magnús missti hann, en partinum sleppti hann 1664. Gísli bjó í Reykjarfirði. Espólín fróði meinar að Gísli þessi sé sá, er bjó í Melrakkadal, og þótti fjölbreytinn. Þá er Bjarni Árnason úr Barðastrandarsýslu stal frá Árna 1677, var Gísla dæmt í fullrétti fimm og hálf mörk sökum ættar og burða og að hann hafði verið valdsmaður í Ísafjarðarsýslu. Gísli Jónsson og Guðný kona hans dóu í Reykjarfirði 1679 bæði barnlaus. — Guðný var dóttir Jóns á Þverá í Vesturhópi, sonar Jóns á Geitaskarði eldra Egilssonar. — 1665 afsagði Gísli norðurpart sýslunnar launalaust, en fyrir bón lögmanna var hann við til þess Páli var 1668 veittur parturinn; meinast því að Þorleifur lögmaður hafi sleppt sýslupartinum 1663, eða þá 1664.

## Magnús Magnússon

(sjá um hann að framan) tók aptur hálfa sýsluna, þegar Gísli sleppti partinum 1664, en sleppti aptur téðum parti 1681, þegar Bjarni Þorleifsson var þar settur sýslumaður.

## Bjarni Þorleifsson.

*Faðir*: Þorleifur á Söndum, son Bjarna á Kirkjubóli Jónssonar sýslumanns í Hjarðardal Ólafssonar sýslumanns í Þernuvík Guðmundssonar.

*Móðir*: Herdís, dóttir Bjarna á Brjámslæk Björnssonar officialis á Melstað Jónssonar biskups Arasonar, en móðir Herdísar var Sesselja, laundóttir Eggerts lögmanns Hannessonar, með Herdísi dóttur síra Þorleifs á Reykhólum Björnssonar.

*Dóttir* laungetin, Bjarna Þorleifssonar var Guðrún, er átti Jón á Hvítanesi Þorkelsson, þeirra son:

Bjarni átti Katrínu Pétursdóttur, þeirra börn:

1. Jón.
2. Ragnhildur.

3. Valgerður.
4. Valdís.
5. Tómas.
6. Halldór.
7. Sesselja.
8. Guðrún.

Þá er Magnús hafði sleppt vesturpartinum og Páll var frá dæmdur, létu Danir aðminístrera sýsluna upp á reikning líkt og Snæfellssýslu, undir umsjón Magnúsar lögmanns Jónssonar. Var þá Bjarni Þorleifsson settur fyrir vesturpartinn 1681. Hann lét dóm ganga á Hóli í Bolungarvík 28. apríl 1682 um bygðarrykti og annan dóm á Mosvöllum í Önundarfirði sama ár um þjóf.

### Sæmundur Magnússon.

*Faðir:* Magnús á Hóli í Bolungarvík, sem dó 1635, son Sæmundar samastaðar Árnasonar á Hlíðarenda.

*Móðir*: Sigríður dóttir Þorleifs í Búðardal Bjarnasonar.

*Kona fyrri:* Guðrún (aðrir Guðríður) dóttir Þorvaldar einsýna söngmanns. Guðrún dó 1665, og börn þeirra.

*Kona seinni:* Solveig, dóttir síra Jóns í Arnarbæli Daðasonar, þau giptust 1667.

*Börn:* A. Guðrún átti Magnús Magnússon, Jónssonar á Þóroddstöðum.

B. Sigmundur, skólagenginn átti Helgu Þorkelsdóttur Einarssonar, þá ekkju Magnúsar Bergssonar, börn:

1. Bergur átti 1749 Halldóru Bjarnadóttur, (hún átti laundóttur með Benedikt Hannessyni, er hét Guðrún), börn Bergs og hennar:
   a. Evlalía átti Jón Bergsveinsson, bl.
   b. Solveig átti Jóhannes Guðmundsson á Hanahóli, börn:
      α. Ingveldur.
      β. Halldóra.[1]
2. Magnús auðgi í Meirihlíð, varð holdsveikur, átti Elínu Jónsdóttur, börn:
   a. Þorlákur sýslumaður Ísfjörð, sjá Múlaþing.

---

1) γ. Silpha, hét laundóttir Jóhannesar.

b. Árni á Hóli átti þóru, dóttur síra Árna í Gufudal.
c. Elín átti Jón þorláksson í Minnihlíð.
d. Halldóra átti Sigurð Jónsson lögréttumann í Hnífsdal.
e. Guðrún átti fyr Jón Torfason, svo Jón Jónsson.
f. Steinunn átti Finnbjörn Ólafsson.

3. Margrét átti Pál Björnsson, þeirra börn:
a. Jón[1] í Skálavík átti þorkötlu Magnúsdóttur.
b. Sigmundur átti Ástríði Magnúsdóttur systur þorkötlu.
c. Páll átti Sigríði Sumarliðadóttur.
d. Margrét.
e. Ásdís.

4. Jón.
5. Solveig.
6. Sigríður, laungetin.

það virðist sem Sigmundur hafi fyr átt Ingibjörgu Jónsdóttur, fengu þau konungsleyfi til giptingarinnar 1709.

C. Guðrún yngri átti Björn Ketilsson á Gili, börn:
1. Sesselja átti Bjarna Magnússon, börn:
a. Kolbeinn á Seljalandi átti Guðrúnu Jónsdóttur.
b. Bjarni á Geirastöðum átti Ingibjörgu Ísleifsdóttur.

2. Guðný átti Svein á Ósi Jónsson, þeirra dóttir: Guðrún átti Odd í Önundarfirði Gíslason. Guðný átti seinna Magnús Oddsson, barnlaus.
3. þorsteinn átti þórunni Pálsdóttur, dóttir: Guðrún.

D. Katrín átti Bjarna Ketilsson, bróður Björns á Gili, þeirra börn:
1. Hákon á Gili átti Steinunni Tómasdóttur, börn:
a. Sigfús á Gili átti Guðrúnu þorvaldsdóttur.
b. Guðný átti Jón Gunnlaugsson.

---

1) Jón var tvígiptur, hét fyrri kona hans Ingibjörg Bjarnadóttir.

2. Margrét átti Kolbein Magnússon, börn:
   a. Sigurður átti Unnfríði Örnúlfsdóttur.
   b. Guðrún dó barnlaus.
3. Halldóra átti Berg Sigmundsson, sjá hér að framan.
4. Magnús átti Kristínu, þeirra son:
   Gísli átti Kristínu dóttur Jóns Gíslasonar.
5. Þórunn 3. kona Guðmundar Þórðarsonar í Mýdal, börn:
   a. Ketill.
   b. Jóhannes í Mýdal.
   c. Jón á Hanhól.

E. Sesselja, seinni kona Magnúsar Jónssonar,[1] barnlaus.
F. Halldóra átti Jón Jónsson, hennar laundóttir með Fúsa:
   Guðrún átti Bjarna Einarsson í Bolungarvík.
G. Sigríður átti launbarn, en fékk 1712 konunglegt leyfi að giptast Birni Þorsteinssyni, þá á Minnibakka (síðar í Skálholtsvík), er var þrímenningur við barnsföður hennar, þeirra börn:
   1. Páll er átti fyrnefnda Margréti[2] Sæmundsdóttur
   2. Hákon á Gelti átti Kristínu Jónsdóttur.

*Kona seinasta* Sæmundar var Valgerður Jósepsdóttir, hún var ekkja og áttu þau ekki börn, þó nefna sumir Árna son þeirra.

Sæmundur varð 1667 lögréttumaður, og bjó að Hóli í Bolungarvík; hann var settur lögsagnari í vesturparti Ísafjarðarsýslu næst eptir Bjarna Þorleifsson 1685; er eigi ólíklegt að hann hafi verið við lögsögn um hríð, til þess Páll Torfason við tók 1686; var hann og lögsagnari í Kjósarsýslu eptir boði Bessastaða valdsmanna í forföllum Henriks lögsagnara og Sigurðar lögmanns. Sæmundur lifði enn 1702, því þá var hann við skipti eptir Magnús í Vigur og fyrir hönd Sesselju dóttur sinnar. Hann var haldinn í stórbænda tölu og lét endurdæma marköngla dóm.

---

1) í Ögri.

2) Á að vera Sigmundsdóttur Sæmundssonar.

### Jón Magnússon.

(Sjá um hann við Strandasýslu). Af lögþingisbók 1688 er að ráða, sem Jón hafi haft meðgjörð með hálfa Ísafjarðarsýslu, en hvort hann hefir haft lögsögu í vestur- eður norðurparti sýslunnar eða hvað lengi er mér dulið.

---

## Í norðurpartinum.

### Þorleifur Kortsson.

*Faðir:* Kort bróðir Ámunda í Skógum og Nikulásar klausturhaldara, þeir voru synir Þormóðar Kortssonar kaupmanns frá Hamborg Lýðssonar.

*Móðir:* Þórunn dóttir Hákonar sýslumanns í Nesi Björnssonar (sjá Gullbr.sýslu).

*Kona:* Ingibjörg, dóttir Jóns sýslumanns eldra í Haga Magnússonar sýslumanns í Ögri og Bæ Jónssonar (Ingibjörg átti fyr Gunnar Arngrímsson, hann dó barnlaus; svo átti hún 1644 Jón son Halldórs lögmanns, hann drukknaði 1645 í Ölvesá barnlaus, var staðarráðsmaður í Skálholti; en 1652 giptist hún á Þingeyrum hjá Guðmundi sýslumanni Hákonarsyni nefndum Þorleifi; Ingibjörg dó 1703).

*Börn:* 1. Jón, hann var til mennta settur og mannaðist sæmilega, fór og utan til lærdómsframa, en slæddi Þingeyraklaustur undan föður sínum 1678, og dó 26 ára 1683. Launbörn:

Jóns með Ingibjörgu, dóttur Jóns í Flatey Torfasonar:

a. Kristín átti síra Arnbjörn á Undirfelli Jónsson, hún dó 1731. Þeirra börn:

α. Þórdís átti síra Eirík í Grímstungum.

β. Jón eldri prestur, dó 1742.

γ. Jón yngri á Giljá, barnlaus.

δ. Valgerður móðir síra Árna Tómassonar á Bægisá, var hann launson hennar, hún giptist aldrei.

Annað launbarn Jóns með Arndísi Ásmundsdóttur var:

b. Guðrún átti fyrst launson með Magnúsi Guðmundssyni á Núpi í Fljótshlíð.

α. Þorkell átti Elísabetu Þorláksdóttur Guðbrandssonar.

Svo átti Guðrún Ísleif Bjarnason, börn:

β. Gróa.

γ. Þórunn.

δ. Kristín.

ε. Ingibjörg.

2. Hannes, vel lærður, sigldi með Daða sýslumanni í Kjósarsýslu í málum Jóns Eggertssonar 1682, og drukknaði ásamt honum barnlaus.
3. Þórunn, heitstúlka Lárusar Gottrúps, og fór í því skyni að Þingeyrum, en tók kynni og vinskap við þáverandi svein hans Lárus Hansson Skeving, er seinna varð sýslumaður í Vaðlaþingi, sjá Vaðlaþing.
4. Guðmundur ólærður og eigi til mennta settur í ungdæmi, en búmaður mikill og erfði að lokum báða foreldra sína, þar systkini hans voru áður dáin en hans foreldrar; hann giptist 1687 Helgu dóttur Eggerts ríka Björnssonar á Skarði; þau áttu saman 4 dætur, er allar dóu í stórubólu 1707 ógiptar, barnlausar. Guðmundur bjó á Narfeyri, þangað til Oddur lögmaður Sigurðsson tók við henni; þar eptir bjó Guðmundur í Brokey til þess að hann dó 1730, þegar afstaðinn voru mál hans við Odd lögmann. Allt sitt góz testamenteraði hann amtmanni Fuhrmanni, sama gjörði og Helga kona hans.

Þorleifur sigldi ungur og lærði í Hamborg klæðaskurð, var þó og við ýmislegt annað brugðinn. Hann kom út og gjörðist umboðsmaður Ara sýslumanns Magnússonar í hálfri Strandasýslu fyrir eða nálægt 1650 og tók sér bústað í Bæ í Hrútafirði. 1652 fékk hann sér veittan norðurpart Ísafjarðarsýslu ásamt hálfum konungsjörðum, er Ari sýslumaður hafði haldið. Sama ár (1652), giptist hann á Þingeyrum, sem áður er sagt, Ingibjörgu Jónsdóttur. 1654 fékk Þorleifur Þingeyraklaustur og flutti þangað. 1654 eða fyrir 1651 fékk hann ½ Stranda-

sýslu, ásamt hálfum Strandajörðum. En Jón sýslumaður Magnússon á Reykhólum hafði þá að helmingi við hann Strandasýslu og konungsjarðir þar, og Magnús sýslumaður Magnússon hélt að helmingi við hann Ísafjarðarsýslu, Álptafjarðar- og Aðalvíkurjarðir, og er mín meining, að báðir þeir hafi haft hans umboð seinna. Stóð nú vegur hans með mesta blóma, og sat sjálfur á Þingeyrum. Eptir hlutfalli varð hann lögmaður 1662, konungs samþykki þar um kom 1664. Gísli Jónsson gjörðist hans umboðsmaður í Ísafjarðarsýslu 1663, en er hann sleppti norðurpartinum, gjörðist Páll Torfason þar sýslumaður 1668. Ísafjarðarsýslupartinum sagði Þorleifur af sér 1670, en Strandasýslupartinum 1669 og lögmannsdæminu 1679, þó mun hann hafa haldið konungsjarðaumboðinu. 1678 slæddi Jón son hans frá honum Þingeyraklaustur að óvilja Þorleifs. Flutti hann sig þá þar eptir aptur að Bæ í Hrútafirði um 1683, og gjörðist þrotinn að heilsu; hann lifði þar optast mjög krankur til 1698, þá hann að sögn dó af hungri, þar hann gat á engu nærzt; önnur sögn er, að hann hafi dáið snögglega um þingtíma. Í hans lögsagnartíð gekk mikið á af hjátrú um drauga, fordæður og galdramenn, sem þá voru mjög margir brenndir; þótti það mjög röggsamlegt af honum og hlaut hann þar fyrir alþýðu hrós; annars er eigi trútt um, að eigi færi orð af, að Þorleifur hefði vel auðgazt af því, sem hann gjörði upptæk mörg bú sakamanna, og þar að lýtur sögn Páls Vídalíns: «Þar komst ekki í þriðja lið, Þorleifs lögmanns auður». Hann var góður búböldur, auðmaður mikill, spaklyndur, lítill vexti, óhöfðinglegur, einsýnn, fátalaður á þingum; hafði gott náttúruvit, minni lærdóm.

### Páll Torfason.

*Faðir*: síra Torfi á Kirkjubóli í Langadal, sonur síra Snæbjarnar, samastaðar, Torfasonar sýslumanns, samastaðar, Jónssonar sýslumanns í Hjarðardal, Ólafssonar sýslumanns.

*Móðir*: Helga dóttir síra Guðmundar á Staðastað, sonar síra Einars á Útskálum, Hallgrímssonar á Egilsstöðum í

Vopnafirði, Sveinbjarnarsonar prests í Múla, Þórðarsonar.

*Kona:* Gróa, dóttir Markúsar sýslumanns í Vestmannaeyjum, Snæbjarnarsonar prófasts í Odda, Stefánssonar prófasts samastaðar Gíslasonar biskups Jónssonar.

*Börn:* A. síra Teitur á Eyri í Skutulsfirði, giptist 1709 Ragnheiði, dóttur síra Sigurðar í Holti í Önundarfirði, Jónssonar prófasts í Vatnsfirði Arasonar sýslumanns. Síra Teitur drukknaði með 9 manns í viðarferð af Ströndum 1728.

Börn síra Teits og Ragnheiðar:

1. síra Magnús í Vatnsfirði, átti Ingibjörgu Markúsdóttur sýslumanns, sjá síðar.
2. Jón biskup á Hólum, átti fyr Halldóru, dóttur síra Sigurðar í Holti Sigurðssonar prófasts, samastaðar Jónssonar; börn:
   a. síra Teitur í Ögur-þingum og á Kvennabrekku, barnlaus;
   svo Margréti, dóttur Finns biskups, börn:
   b. Finnur sýslumaður í Snæfellsness- og Mýrasýslu.
   c. Sigríður átti síra Eirík í Reykholti Vigfússon.
   d. síra Gísli í Stærraárskógi.
   e. síra Jón prófastur á Auðkúlu.
   f. Katrín, átti Benidikt stúdent á Víðimýri Halldórsson.
   g. Sigurður dó barnlaus.
3. Halldóra, átti Ólaf Árnason sýslumann í Barðastrandasýslu.

B. Snæbjörn Pálsson á Sæbóli, nafnkenndur af málum sínum, dó 1767, 97 ára, átti Kristínu frá Vigur, dóttur Magnúsar digra, þeirra börn:

1. Magnús prófastur á Söndum, átti Helgu, dóttur síra Jóns á Söndum, Tómassonar Bjarnasonar; dóttir;
   Þorkatla, átti Jón prófast á Söndum Ásgeirssonar.

2. síra Markús í Flatey, átti Sesselju Jónsdóttur, börn:
   a. Kristín, átti síra Eggert Hákonarson.
   b. Valgerður, átti Þórð stúdent í Vigur.
   c. Hólmfríður, giptist ekki, barnlaus.
3. Halldóra átti síra Bergsvein Hafliðason, börn:
   a. Kristín, seinni kona síra Ásgeirs á Stað í Steingrímsfirði Jónssonar.
   b. síra Jóhann, síðast í Garpsdal, þrígiptur.
   c. Jón á Dynjanda í Grunnavík, giptist, barnlaus.
4. síra Hákon á Álptamýri, átti Guðrúnu Jónsdóttur, börn:
   a. síra Eggert í Flatey, átti Kristínu Markúsdóttur.
   b. Páll bóndi í Dufansdal, átti Halldóru Gísladóttur.
   c. Gunnhildur, átti Jón[1] Eggertsson í Holti.
5. Torfi á Brekku í Dýrafirði átti Kristínu Pétursdóttur; þeirra son:
   Bjarni á Brekku, átti Sesselju Þórðardóttur.

C. Þorsteinn Pálsson í Búðardal átti Karítas, dóttur Bjarna ríka Péturssonar á Skarði, bl.

D. Ásta, fyrsta kona síra Sigurðar Sigurðssonar í Holti, börn:
1. Þorkatla, átti síra Jón Bjarnason á Hrafnseyri, börn:
   a. Ólafur átti Þorbjörgu Jónsdóttur, barnlaus.
   b. Sigríður átti Jón Pétursson á Kúlu.
   c. Jósabet átti Magnús Magnússon á Núpi.
   d. Sigurður átti Guðrúnu Einarsdóttur.
   e. Jóhanna Jael átti Sæmund Sigurðsson, barnlaus.
2. Halldóra fyrri kona Jóns biskups Teitssonar, sjá hér að framan.

---

1) Maður Gunnhildar var síra Jón Eggertsson á Holti í Önundarfirði.

3. Gróa átti síra Hjalta Markússon, þeirra dóttir: Elín átti Pál bónda í Breiðadal[1].
4. Ragnheiður átt 2 launbörn; þau dóu.

Páll var stórfengur og mannaðist vel; Jóhann Pétursson Klein setti hann fyrir sýslumann, þegar Gísli Jónsson sleppti, í norðurparti Ísafjarðarsýslu 1668, en veiting fékk Páll fyrir sýslupartinum 1670, og aflagði eið sinn 1671. Hann giptist Gróu 1672, taldi hann sér til giptingar 1 hdr. hdr. í jörðum og 1 hdr. hdr. í lausafé, en Gróu voru talin tíutíu hundruð í föstu, og tíutíu hundruð í lausafé; gaf Páll henni 30 hdr. í föstu og 30 hdr. í lausafé. Fyrir verzlun við Hollendinga var Páll dæmdur frá embætti og búslóð 1680. Konungur linaði hegninguna og bauð 1681, að Páll skyldi eptir amtmanns ályktun borga til Bessastaðakirkju, og þá halda embætti og búslóð; gekk þó þetta í nokkur ár, svo Páll hélt eigi sama sýsluparti, en þar voru settir lögsagnarar; þó mun Páll hafa fengið vesturpart sýslunnar 1689, en seinna verið settur í norðurpartinum líka, bæði áður en Þorlákur við tók, og líka þá er hann dó, 1707. Svo bar til, að frakkneskt skip strandaði á Vestfjörðum 1702; út af misjöfnum skilum á þessu gózi, komst Páll og fleiri í basl og fjártjón; 1708 sagði Páll af sér sýslunni, var og dæmdur frá henni fyrir meðhöndlun skipsins og í 200 rd. útlát. 1710 losaðist Páll algjörlega við sýsluna, en Markús Bergsson við tók. Þar eptir lifði Páll valdalaus; hann bjó lengst af á Núpi í Dýrafirði. Síra Árni prestur í Mýraþingum átti í þrasi við Pál og hrökk því þaðan, en þá er hann eigi fékk annað prestbrauð, flutti hann að Sælingsdalstungu, og svo að Gerði í Hvammssveit. Páll dó 1720, og fram fóru skipti eptir bæði þau hjón á Mýrum 28. ágúst 1720 á þeirra eptirlátna fastagózi; fékk þá Snæbjörn upp á áttatíu, níu og hálft hundrað í jörðum í sinn hlut, auk lausafjár; mun hann þó hafa áður verið búinn að taka við nokkru.

Páll var fjárgæzlumaður mikill, og auðmaður, óeirinn, stórfengur í skapi og höfðinglyndur.

## Árni Magnússon.

*Faðir:* Magnús Sæmundsson, sjá hér að framan.

---

1) Þórðarson.

*Móðir:* Sigríður Þorleifsdóttir, sjá hér að framan.
*Kona:* Þórunn, dóttir síra Þorleifs á Söndum, barnlaus.
*Launbörn* með Guðrúnu Gissurardóttur:

A. Guðrún átti Jón Þorkelsson, bóndamann, börn:
 1. Halla fyrri kona Eggerts Jónssonar, börn:
  a. Finnur á Hrauni, átti Marsibil Illugadóttur.
 2. Torfi átti Guðrúnu Jónsdóttur, barn:
  Jón.
 3. Þorkell.
 4. Gyða, aðrir: Guðrún.

B. Guðrún yngri átti Hálfdán, börn:
 1. Kristín, átti Nikulás.
 2. Margrét, átti Jón Bjarnason, börn:
  a. Signý.
  b. Jón.
  c. Sigríður.

C. Jón,
 allir afkomendur er almúgafólk.

Árni gjörðist lögréttumaður 1668; hann hefir verið lögsagnari í norðurparti sýslunnar, en nær hann hefir verið settur eða hvað lengi, er mér óljóst. Af lögþingisbók 1688 er augljóst, að hann þá hefir haft lögsagnaraembætti, og 1689 dæmdi Árni að Súðavík um aftekningu marköngla; dómurinn var staðfestur á alþingi sama ár. Í þessum dómi kallast Árni lögsagnari; er þá ekki ólíklegt, að Páll hafi þá verið aðalsýslumaður í báðum sýslupörtunum, og Árni þjónað honum til þess Þorlákur fékk veitingu.

## Þorlákur Guðbrandsson.

Sjá um hann við Dalasýslu. Hann varð lögsagnari Páls Vídalíns í Dalasýslu 1698–99. Fékk sér veittan norðurpart Ísafjarðarsýslu 1701, dó ásamt konu sinni í stórubólu 1707, frá 4 ungum börnum, sem þá lifðu og komust til menningar síðar fyrir góðra manna tilstyrk.

## Markús Bergsson.

*Faðir:* Bergur lögréttumaður á Hjalla, dó 1705, sonur Benidikts lögréttumanns á Háeyri og í 3 ár Skálholtsstað-

ar ráðsmanns, Þorleifssonar í Búðardal, Bjarnasonar frá Skarði, Oddssonar.

*Móðir:* Guðrún dóttir Markúsar Bjarnasonar á Stokkseyri (aðrir segja þessa Guðrúnu dóttur Guðmundar Jasonssonar Vests og Stokkseyrar-Dísu). Guðrún átti Hákon son síra Jóns Daðasonar í Arnarbæli; hún tók fram hjá Hákoni með Bergi, sem átti systur Hákonar, Ingveldi, dóttur síra Jóns, og var því gjörður skilnaðardómur Bergs og Ingveldar 1689.

*Kona:* Elín dóttir síra Hjalta prófasts í Vatnsfirði Þorsteinssonar prests í Möðrudal á Fjöllum Gunnlaugssonar prests í Saurbæ, Sigurðssonar Einarssonar. Þau Markús og Elín giptust 1710.

*Börn:* A. Björn lögmaður, dó 1791, sjá Hegranessþing, átti Önnu Doroteu Glan, barnlaus.

B. Sigurður, komst yfir nírætt, dó 1810, átti Þóru Gísladóttur Hannessonar, börn:

1. Bergur timburmaður, átti Sigríði dóttur Guðlaugs prófasts í Görðum, börn:
   a. Guðlaugur, verzlunarstjóri í Reykjavík, dó 1834.
   b. Björn.
   c. Ingibjörg.
   d. Guðfinna, átti síra Ólaf, son síra Hjalta á Kirkjubóli í Langadal; síra Ólafur vígðist 1825 til Hvanneyrar í Siglufirði.
2. Steinunn átti Pétur Herning kaupmann á Vatneyri, barnlaus.
3. Steinvör, barnlaus.
4. Elín, barnlaus.
5. Bjarni, barnlaus.

C. Síra Hjalti kapellán í Holti, átti Gróu Sigurðardóttur, þeirra dóttir:
Elín, átti Pál bónda í Breiðadal Þórðarson, þeirra son: Hjalti.

D. Elín, seinni kona síra Sigurðar í Holti, börn:

1. Halla, seinni kona síra Erlendar Vigfússonar í Nesþingum, þeirra dóttir:

Elín Kristín, átti Jón Jónsson prentara[1].
2. Ásta, átti Sigurð sýslumann Sigurðsson, sjá Vestmannaeyjar.
E. Ingibjörg, átti síra Magnús Teitsson prófast í Vatnsfirði, börn:
1. Síra Markús í Görðum, þrígiptur, barnlaus.
2. Sigríður, dó 1830 átti síra Illuga Jónsson á Kirkjubóli, prestur 28 ár, drukknaði 1782; þeirra börn:
a. Þorgerður átti Snorra Hallgrímsson, börn:
α. Illugi, sigldi,
svo átti hún verzlunarþjón Vandel; börn:
β. Pétur.
γ. Kristján.
δ. Kristófer.
ε. Kristjana.
b. Elín átti Bjarna Pétursson, börn:
α. Þóra.
β. Elías.
γ. Friðrik.
δ. Hjalti.
c. Hjalti.
d. Kristín.
e. Karítas, átti Jón lector Jónsson, börn:
α. Asmundur[2].

---

1) Maður Elínar Kristínar var Jón Jónsson vefari á Gufuskálum, dó 1814.

2) Síra Ásmundur seinast prestur í Odda, átti Guðrúnu dóttur Þorgríms gullsmiðs á Bessastöðum Tómassonar, börn:
d. Jón sýslumaður í Suðurmúlasýslu, á Þuríði dóttur síra Hallgríms á Hólmum.
b. Þorgrímur læknir á Akureyri, á Sophíu, dóttur Johans kaupmanns Hafsteins, systur Júlíusar amtmanns Hafsteins.
c. Markús, lyfsali fyrir austan, dó ógiptur, bl.
d. Ingibjörg, ógipt.
e. Þuríður, ógipt.
f. Þóra, gipt síra Guðmundi í Reykholti Helgasyni, Magnússonar alþingismanns Andréssonar.

β. Markús[1].

f. Abigael, átti beyki Níels Ólafsson, börn:

α. Ingibjörg.

β. Sigríður.

g. Ingibjörg Illugadóttir, átti launbarn, giptist eigi, var lengi áhangandi Bjarna riddara í Hafnarfirði, dó 1834.

3. Ástríður Magnúsdóttir, átti Ólaf sýslumann Erlendsson, sjá hèr síðar.

F. Bjarni kapellán á Álptamýri.

G. Bergur.

H. Eggert.

*Laundóttir* Markúsar sýslumanns var:

I. Herdís, átti Jón Guðmundsson undir Eyjafjöllum.

Markús var borinn 1659, hann var vel viti borinn, lærði og mannaðist vel, en var snemma kvennhollur. Hann var settur sýslumaður í allri Ísafjarðarsýslu 1710, og giptist sama ár, og bjó í Ögri þar eptir; fyrir sýslunni fékk hann festubréf hjá þeim fullmegtuga 1711, en konunglega staðfestingu fékk hann upp á embætti sitt 1720. Duglegur embættismaður og séður í mörgu þótti hann, fjölda dóma lét hann og ganga, var þá tíðum róstusamt í sýslu hans. Hann sagði af sér sýslunni 1742, en dó 65 ára, og þótti hafa verið merkilegur sýslumaður, en þó breytinn í mörgu. Mest var hans þras við Snæbjörn Pálsson, er kallaður var Mála- Snæbjörn og sonur var Páls sýslumanns Torfasonar.

## Ólafur Jónsson.

Sjá um hann við Barðastrandarsýslu, hvar hann hèlt sýslu 1735 - 38, en þegar Markús sagði af sér, var Ólafur settur sýslumaður í Ísafjarðarsýslu 1742 til þess Erlendur sýslumaður við tók; urðu þeir Erlendur mestu óvildarmenn, gekk fyrir þeim í illum málasóknum. — Ólafur dó á Eyri við Seyðisfjörð 1761, 75 ára.

---

1) Síra Markús í Odda, átti Kristínu Þorgrímsdóttur, systur Guðrúnar konu síra Ásmundar, bróður hans, barn: Karitas, kona síra Ísleifs í Arnarbæli Gíslasonar.

### Erlendur Ólafsson.

*Faðir:* Síra Ólafur á Stað í Grunnavík, son síra Jóns Torfasonar bónda á Gerðhömrum.

*Móðir:* Þórunn, dóttir síra Páls á Melstað, Jónssonar sýslumanns á Reykhólum, Magnússonar sýslumanns samastaðar Arasonar sýslumanns, Magnússonar sýslumanns. (Þórunn var fædd 1684, giptist 1704).

*Kona:* Birgitta María Andresen Kvist, dönsk.

*Börn:* A. Ólafur í Hjarðardal, sjá síðar.

B. Lárentíus á Lynghóli, átti Steinunni dóttur síra Hallgríms á Rafnseyri, sonar síra Jóns í Hjarðarholt, sonar síra Þórarins Jónssonar, börn:

1. Hallgrímur átti Þórdísi Pálmadóttur[1] Guðnasonar, börn:
   a. Pálmi.
   e. Lárentíus.
   c. Steinunn.
   d. Ólöf.
   e. Sakkarías.
   f. Ívar.
2. Esaías[2] átti Barbáru Ólafsdóttur, svo Ingibjörgu.

   Launbörn Lárentíus með Ástríði, dóttur Jóns Egilssonar á Hóli í Bolungarvík:
3. Birgitta, átti Sigmund Ísleifsson, börn:
   a. Ísleifur.
   b. Jón.
4. Guðrún, átti Jón Einarsson, börn:
   a. Sveinn
   b. Sophía.

C. Andrés átti Elínu, dóttur Jóns í Tjaldanesi Sveinssonar, son:

1. Eleasar barnlaus, bjó í Álfatröðum.

D. Sophía, kona Þorláks Ísfjörðs sýslumanns, sjá Múlasýslu.

---

1) Pálmi bjó á Ósi í Bolungarvík, er af sumum nefndur Guðmundsson.

2) Aðrir nefna hann Elías, sem víst mun réttara.

E. Þórunn fyrri kona síra Guðmundar Þorvaldssonar, barnlaus.

F. Kristín átti slèttan bóndamann, Guðmund Jónsson, börn:

1. Jóhannes, átti Guðrúnu dóttur Jóns í Arnardal, Þorkelssonar Jónssonar (aðrir Guðrúnu Einarsdóttur Jónssonar frá Kirkjubóli, það mun réttara)[1].
2. Jónas.
3. Jóhanna, átti Torfa Ásgrímsson.

Erlendur fæddist 1706, lærði á Íslandi og sigldi síðan til lærdóms frama; varð stipendiaríus Arna-Magnæanus; hann fékk sér veitta Ísafjarðarsýslu 1742, er mælt að hann fyrst hafi búið í Ögri, og flutt þaðan að Hóli í Bolungarvík; í basli gengu honum embættisverk, var hann 1754 á alþingi dæmdur frá embætti, en við yfirréttardóm í málinu náði hann embættinu 1755, en á sama lögþingi var hann dæmdur frá embættinu í annari sök, en yfirrétturinn dæmdi honum embættið 1756. Í þessum málum Erlendar var Ólafur sýslumaður Árnason settur lögsagnari í Ísafjarðarsýslu 1754, en hann dó sama ár, sjá Barðastrandarsýslu, þá var aptur settur Þorlákur exprestur 1754—56, sjá Vestmannaeyjasýslu. En þá komst Erlendur í mál 1760, var þá Sigurður Sigurðsson sýslumaður í Vestmannaeyjum settur sýslumaður í Ísafjarðarsýslu, var þá Erlendur í þriðja sinn dæmdur frá embætti á lögþingi 1762 og eins í yfirrétti 1763. Í þeim málum sigldi Erlendur og fékk embættið með hæstaréttardómi 1765. Aptur komst Erlendur í mál 1767, var þá Jón á Gróustöðum í því máli settur dómari í héraði. Hann dæmdi Erlend frá embætti og frá virðingu, og eins Ólaf son hans; sá dómur var bæði fyrir lögþingisrétti og yfirrétti dæmdur marklaus og ónýtur og Erlendi aptur dæmt embættið og báðum þeim feðgum Erlendi og Ólafi virðing sín. — Jón bóndi á Gróustöðum var og dæmdur framvegis óhæfilegur til dómaraverka. Erlendur sýslumaður endaði baráttufullt líf með völdum sínum 1772. — Bæði þras hans og óheppni í lögsögn olli hans sífellda málaþrasi, líka tjáist maðurinn eigi að hafa verið góðmenni. Svo margbreytt voru mál hans, að hér er eigi staður að rita um þau; má og lesa um þau í hinum prentuðu þingbókum.

---

1) Þetta seinna mun réttara.

### Ólafur Árnason.

Sjá um hann Barðastrandarsýslu. Þegar Erlendur sýslumaður var afsettur 1754, var Ólafur þar settur, sem fyr segir, en dó fljótlega litlu eptir og gjörði þar engin embættisverk.

### Þorlákur Guðmundsson prestlausi.

Sjá um hann við Vestmannaeyjasýslu. Þegar Ólafur Árnason dó, og Erlendur sama ár var frá settur var Þorlákur prestlausi settur þar 1754 og þjónaði Ísafjarðarsýslu 1755—56, þar til Erlendur hafði unnið mál sín og tók aptur við sýslunni 1756.

### Ólafur Erlendsson.

*Faðir:* Erlendur sýslumaður nýnefndur.
*Móðir:* Birgitta María nýnefnd.
*Kona:* Ástríður, dóttir Magnúsar prófasts í Vatnsfirði, sjá að framan, hún dó 1803 eða 2.
*Börn:* A. Ólafur sigldi, varð stríðsmaður.

B. Kristján, ólst upp hjá kaupmann Herning á Patreksfirði, tók svo verzlun og félag með kaupmanni Clausen í Kaupmannahöfn, giptist þar, en átti ekki barn, ferðaðist árlega millum Kaupmannahafnar og Íslands; lagði frá Kaupmannahöfn 1819, spurðist aldrei til þess skips. Tók þá kaupmaður Herning Vatneyrar kaupstað og seldi hann Svendsen & Stenback.

C. Páll var um tíma assistent í Ólafsvík, en eptir dauða bróður síns giptist hann og fór að búa í Fróðárhverfi. Hans kona Hólmfríður, dóttir Ólafs bónda Sveinssonar í Purkey; börn:

1. Hólmfríður.
2. Klásína.

D. Jón, var um tíma assistent hjá Kristjáni bróður sínum, en bjó seinna nálægt Ólafsvík, giptist Solveigu dóttur Jespers beykis, börn:

1. Jesper.
2. Rakel lg., hennar móðir Katrín.

E. Friðrik átti launbarn, drukknaði með skútu, er hvarf, það barn dó.

F. Kristjana, átti bóndamann Árna Ketilsson, börn:
1. Magnús.
2. Ketill og fleiri.

G. Ingibjörg átti Árna Helgason, bróður Steinunnar, móður síra Helga[1] í Odda, börn:
1. Guðrún.
2. Jórunn.
3. Jóhanna[2].

H. Elín barnlaus.

Níu börn þeirra dóu á unga aldri. Ólafur bjó í Hjarðardal í Önundarfirði og var settur lögsagnari í Ísafjarðarsýslu 1772 til 1774, þegar Jón sýslumaður við tók. Ólafur dó 1790, var skýr og góður maður, en sagt er, að hann hafi verið nokkuð gefinn fyrir vínföng.

**Jón Arnórsson yngri.**

*Faðir:* Arnór sýslumaður Jónsson, sjá Borgarfjarðarsýslu.
*Móðir:* Steinunn Jónsdóttir, sjá samastaðar.
*Kona:* Kristín, laundóttir Jóns á Múla, Steingrímssonar fálkafangara Jónssonar. Kristín var fædd 1752, dó 1828.
*Börn:* A. Sigríður átti fyrst 1800 Bárð frá Arnardal Guðmundsson, börn:
1. Guðmundur.
2. Kristín, átti Jón Bjarnason frá Dynjanda í Stapadal.

Miðmaður Sigríðar var Jón Þorvaldsson, þeirra börn:
3. Bárður, hreppstjóri í Kálfavík.
4. Bryngerður, átti Odd son Helga beykis Dyrendals.
5. Guðrún, gipt í Dýrafirði.

Síðasti maður Sigríðar var Jón Halldórsson á Sellátrum í Tálknafirði, þau áttu eigi lífserfingja. Jón átti samt einn son og 2 dætur; hann var

---

1) Sem sé Helga biskups.
2) 4. Elín Árnadóttir, kona síra Sveinbjarnar Guðmunds- í Holti undir Eyjafjöllum.

merkisbóndi, en er Sigríður kona hans dó, hófst málsókn, út af arfaskiptum á Sellátrum; vildu erfingjar Sigríðar fá hálft á móts við ekkjumanninn, en hann synjaði. Gekk málið til hæstaréttar.

B. Síra Jón á Prestbakka átti fyr Margréti, dóttur síra Benidikts í Hjarðarholti Árnasonar, börn:
1. Kristín.
2. Guðmundur, dó barnlaus.
3. Benidikt.
Síðan Valgerði Jónsdóttur, barnlaus.

C. Árni í Æðey, konungsjarðaumboðsmaður, átti Elísabetu Guðmundsdóttur í Arnardal Bárðarsonar, börn:
1. Sveinbjörn.
2. Arnór.
3. Jón[1].

D. Jens átti Guðrúnu frá Núpi í Dýrafirði, dóttur Magnúsar Magnússonar samastaðar, börn:
1. Magnús.
2. Ragnheiður,

E. Rannveig (aðrir Ragnheiður), giptist 1806 Friðriki syni Halldórs á Látrum við Ísafjörð Eiríkssonar, börn:
1. Sigríður.
2. Jens.

F. Kristín, giptist 1809 Jóhannesi, bróður Friðriks.

G. Steinunn átti 1817 Helga Einarsson á Laugabóli í Ögursveit.

Jón Arnórsson lærði sem bróðir hans innanlands og utan-

---

1) Börn Árna og Elísabetar, auk hinna fyrnefndu, sem eg ekki þekki, utan Jón á Laugabóli.
4. Kristín, kona Kristjáns Helgasonar á Sandeyri, dóttir Elísabet, átti Arnór Hannesson Arnórssonar prófasts í Vatnsfirði;
5. Rósinkar í Æðey, átti Ragnhildi Jakobsdóttur í Unaðsdal.
6. Sigríður, á Þorleif Benidiktsson í Unaðsdal.
7. Steinunn, á Jóhann Grundtvig, trésmið á Ísafirði.

lands, tók þó eigi embættispróf, fékk veitingu fyrir Ísafjarðarsýslu 1774, giptist þar eptir og bjó í Reykjarfirði á Reykjanesi í Ísafjarðarsýslu, þar komst þá saltverk í gang, og fékk Jón sýslumaður umsjón yfir því, gekk það vel í 13 ár, en úr því var það síður stundað, og síðan var allt því tilheyrandi selt við uppboð um 1798. — Jón sýslumaður hafði verið handskrifari stiptamtmanns Thodals og siglt frá honum, og kom inn aptur 1773, sem umsjónarmaður nefnds saltverks, og fékk síðan sýsluna, sem fyr segir. — Jón var ófríður ásýndum og eigi fyrirmannlegur, en allvel fórust honum embættisverk sín, og þótti í mörgu fínn maður; hann dó öndverðlega ársins 1796.

### Jón Björnsson.

*Faðir:* Björn á Núpi í Dýrafirði Jónsson.
*Móðir:* Guðrún Magnúsdóttir Níelssonar.
*Kona:* Guðbjörg Þormóðsdóttir Magnússonar.
*Börn:* A. Torfi í Hjarðardal.
B. Kristín.
C. Guðrún.
D. Sigríður.

Þegar Jón sýslumaður dó, var téður Jón Björnsson ásamt Auðunni Jónssyni, er seinna varð prestur, látinn reka sýsluna. Jón þótti búrabóndi, en skýr og auðigur.

### Jón Jónsson.

Strandasýslumaður (sjá þar um hann), var settur lögsagnari í Ísafjarðarsýslu 1797 til þess Jónsoníus tók við.

### Jón Jónsoníus.

*Faðir:* Jón[1] af Sléttu.

---

1) Jón, faðir Jóns Jónsoníusar, var Sigurðsson, góður bóndi og smiður, og bjó á Urðum í Svarfaðardal, var Jónssoníus launson hans. Sigurður bjó á Karlsá og var gagnmerkur maður, kona hans hét Anna Halldórsdóttir; faðir Sigurðar hét Jón, bjó á Hólum á Upsaströnd, var góður smiður, kona hans Guðrún Pálsdóttir; faðir Jóns, Jón Ormsson, bjó á Bakka í Yxnadal, hans kona Hildur, dóttir Jóns á Hellu, nafnkennds manns, Guðmundssonar.

*Móðir:* Elín dóttir Halldórs Jónssonar á Ytragarðshorni í Svarfaðardal.

*Kona* hans var dönsk, þau barnlaus.

Jón var fæddur 1749, ólst upp á Urðum í Svarfaðardal, útskrifaðist úr Hólaskóla 1769, og sigldi til háskólans 1770, varð baccaláreus philosophiæ 1773, fékk hið minna stipendium arna-magneanum 1779. — Hann lagði sig mjög eptir fornfræðum í Kaupmannahöfn, hann sneri Njálu á latínu prýðilega, og margt fleira ritaði hann í fornfræðum, sem lýsir lærdómi hans þar í, og hélt sér mjög lengi uppi á því í Kaupmannahöfn. 1797 giptist hann þar og fekk sama ár (10. apríl) veitingu fyrir Ísafjarðarsýslu; kom inn um sumarið og tók við sýslunni og settist að í Bolungarvík, tók sér þó seinna bústað á Eyri í Seyðisfirði og bjó þar um hríð. Þar eptir missti hann konu sína og flutti sig þá til Vigurs, og var þar hjá merkisbóndanum Kristjáni Guðmundssyni til veru, meðan lifði. Hann sótti um lausn frá sýslunni 1810 og fékk hana 1812. Konu sína missti hann 1820, og dó 1826, 19. júlí á 77. aldursári. Áður en hann fékk sýsluna, var hann kenndur við Urðir. — Jón sýslumaður var svipmikill maður, á vöxt í meðallagi; á yngri árum var hann þykkleitur og þreklegur, og ekki ófyrirmannlegur. — Hann var hálærður maður, sem áður er sagt, í fornritafræðum, og fleirum tungumálum en norrænu, og hafði góðar gáfur, en gruflandi og þótti því nokkuð undarlegur, svo fáir gátu fræðzt mikið af samtali við hann. Í lagavísindum var hann haldinn ekki sterkur. Hann var ágætt skáld, en kvað myrkt; hann hefir ort Íslandsvöku og fleira; eigi var hann álitinn mikill bústandsmaður.

## Ebenezer Þorsteinsson.

*Faðir:* Síra Þorsteinn á Eyjadalsá og seinna á Skinnastöðum, son Jóns lögréttumanns á Einarsstöðum í Reykjadal, Jónssonar við Mývatn Ingjaldssonar[1] Hallgrímssonar skálds.

*Móðir:* Ingibjörg, dóttir Gunnars stúdents Þorlákssonar í Ás-

1) Ingjaldur var Jónsson og sá Jón Hallgrímsson.

geirsbrekku, Jónssonar sama staðar[1], Jónssonar á Hofi.

*Kona:* Guðrún fædd 1789, dóttir síra þórðar, kapelláns í Skarðsþingum hjá föður sínum, Ólafi prófasti Einarssyni á Vatneyri; en móðir Guðrúnar var Kristín, er seinna átti Skúla sýslumann Magnússon. Kristín var dóttir Boga gamla í Hrappsey.

*Börn:* A. Anna, gipt 1832 Kristjáni hreppstjóra í Vigur.
B. Ingibjörg átti 1830 Kristján sýslumann Skúlason, Magnússonar sýslumanns Ketilssonar.

Ebenezer er borinn á Eyjadalsá 1769, fór í Hólaskóla 1788, útskrifaðist þaðan 1795, var hann um sína skólaverutíð á sumrum á Víðivöllum hjá Vigfúsi sýslumanni Skeving. Útskrifaður fór hann að þingeyrum og gjörðist þar djákni 1797, en 1799 sigldi hann til Kaupmannahafnar til meiri lærdómsframa og tók þar reynslupróf í danskri lögfræði með öðrum vitnisburði 1801, og gjörðist sama ár aðstoðarmaður Jóns sýslumanns Jakobssonar í sýsluverkum innan Eyjafjarðarsýslu. þar féll honum eigi, og gaf sig því 1802 til amtmanns Lúðvíks Eiríksens á Bessastöðum, fyrir þénara hans og um tíma sem fullmegtugur, þangað til Eiríksen dó 1804; þegar mál Finns sýslumanns og Stefáns Skevings hófust og Finnur var frásettur, var Ebenezer settur sýslumaður, og dæmdi 1805 í máli Finns. 1806 yfirgaf hann Snæfellssýslu og fór að Skarði til Skúla sýslumanns Magnússonar, fékk og um haustið stjúpdóttur hans, Guðrúnu, er þá var 17 vetra, til ekta; 1807 fór hann að búa í Fremri- Langey á Skarðströnd. — 1810, þegar Jónsoníus frá sagði sèr Ísafjarðarsýslu, var Ebenezer settur þar sýslumaður, tók hann sér þá bústað í Ytri- Hjarðardal í Önundarfirði (hvar hann enn býr 1832); þar gjörði hann reisugar byggingar, og hefir þó vel auðgazt; um sýsluna hefir hann aldrei sótt, en verið við hana nú upp í 22 ár, sem settur sýslumaður. Hann og bæði þau hjón eru sögð mestu forstandsmenn og búhöldar. Yngri dóttur sína Ingibjörgu giptu þau 1830, sem fyr sagt, sýslumanni Kristjáni, fram fór brúðkaup þeirra í Hjarðardal með mikilli virðingu; þau Ebenezer sýslu-

---

1) Jón faðir þorláks í Ásgeirsbrekku var son Sigurðar á Efranesi, Halldórssonar, Benidiktssonar á Selnesi, Ísleifs (aðrir Einarssonar).

maður og kona hans eru sögð mestu rausnar- og góðgjörðahjón. Ebenezer er maður grannvaxinn, í lægra meðallagi, hvítleitur, grannleitur og eigi andlitsfríður; snotur og nettur á fæti og í vexti; var ungur mjúkur glímumaður og nettur í mörgu; vel talandi, bráðlyndur, en ekki langrækinn; hann hafði gott næmi. Ebenezer frásagði sér Ísafjarðarsýslu 1833 og fékk lausn frá henni 1834 og var þá sýslan veitt Árna Þorsteinssyni. — Þar eptir varð Ebenezer mjög heilsulasinn, er árlega fór í vöxt, því meir, sem hann eltist; loksins lagðist hann og dó 1843, þá var hann 74 ára; hafði haldið Ísafjarðarsýslu 24 ár, og áður Snæfellsnessýslu í 11½ ár, og lifað í hjónabandi 37 ár. Hann keypti ábýlisjörð sína Hjarðardal 1841 fyrir 1200 rd. og fleiri jarðir keypti hann, og var á yngri árum mikill fjárgæzlumaður og séður í fjárskiptum. Ekki var hann kallaður mjög lærður, en fórust þó embættisverk ekki illa. — Föðurföður konu sinnar, Ólaf prófast Einarsson, tók hann til framfæris, frá því, að hann sleppti Álptamýrarprestakalli, til þess er hann dó háaldraður, einnig dóttur hans Ástríði. Fjöllyndan héldu sumir Ebenezer, en eigi var full vissa fyrir því. Nokkrir tjáðu, að hann um tíma hefði gjört ofmikið af ölföngum, sem hefðu skaðað heilsu hans, þar hann var brjóstveikur.

## Páll Benidiktsson.

Sjá um hann við Snæfellsnessýslu. Þegar umboðsmanni Árna Þorsteinssyni var veitt Ísafjarðarsýsla 1834, setti hann þar lögsagnara sinn með amtmanns leyfi Pál Benidiktsson, til þess Þorkell sýslumaður við tók 1835.

## Árni Þorsteinsson.

*Faðir:* Þorsteinn Runólfsson. bjó fyrst á Vaðstakksheiði, svo í Keflavík undir Jökli og seinast í Krossnesi í Eyrarsveit, hverja jörð hann keypti undir bú sitt, og þar dó hann 1810. Hans faðir, Runólfur Oddsson, bjó á Vaðstakksheiði, en fór síðast til sonar síns Þorsteins; hans faðir, Oddur, bjó í Straumshlíð og Fjarðarhorni í Helgafellssveit, og var son Runólfs Oddssonar lótsmanns í Kumbaravogi; þessa Runólfs kona var Kristín, dóttir síra Jóns í Hjarðarholti, er þar var prestur í 10 ár,

en missti svo kjól og kall fyrir barneign fram hjá, gjörðist svo sýslumaður í Stranda- og Dalasýslum (sjá Dalasýslu). Kona Odds Runólfssonar í Fjarðarhorni var Guðrún Tjörfadóttir, Bárðarsonar að norðan. Kona Runólfs á Vaðstakksheiði var Dagbjört, dóttir Guðmundar Ásgeirssonar, Jónssonar, Brynjólfssonar prests í Hjarðholti, Bjarnasonar; var Runólfur hennar seinni maður.

*Móðir* Árna og kona Þorsteins Runólfssonar var Solveig, dóttir Bjarna í Tröð hjá Máfahlíð, Snorrasonar í Gröf, Jónssonar, Snorrasonar í Gröf í Miklholtshreppi. Móðir Solveigar var Þórdís Brandsdóttir (upp eptir að telja í báðar ættir var þetta flestallt bændafólk, en margt af því duglegt).

*Kona:* Kristense Benedikte, dóttir Andresar Steinbacks, kaupmanns á Dýrafirði, hún hafði áður átt Ólaf Steinback verzlunarstjóra í Stykkishólmi, og með honum einn son, er hét Óli Andreas Daníel Steinback.

*Börn:* A. Andrea.[1]
B. Jón.[2]
C. Karólína.
D. Jacobína.[3]

Árni Þorsteinsson var fæddur 1801, missti föður sinn 1810, komst þá í Stykkishólm til Jóns Kolbeinssonar, sem upp ól hann eins og sinn eiginn son og kenndi honum sjálfur undir dímission, lét hann svo fara utan á sinn kostnað. Þar dvaldi Árni í 2 ár og tók reynslupróf í danskri lögfræði með góðri heppni 1828. Árni kom út og tók að veitingu Stapaumboð 1829; setti og með tilstyrk fóstra síns bú á Krossnesi og bjó þar um hríð. Kristense áðurnefnd varð þá ekkja, og fékk Árni hennar 1832; með henni fékk hann og góð efni, og var sjálfur dugnaðarmaður í mörgu; gjörðist hann góður búhöldur, hafði og góðan styrk af umboðslaununum. 1833, þegar sýslu-

---

1) Andrea var fyrri kona Guðbrandar ljósmyndasmiðs Guðbrandssonar.

2) Jón bóndi á Grímstöðum hjá Reykjavík.

3) Jakobína kona Stefáns Daníelssonar á Grundarfirði.

E. Georg, var við verzlun.

maður Ebenezer frá sagði sér Ísafjarðarsýslu, sótti Árni umboðshaldari um hana og fékk fyrir henni veitingu 1834.

Hafliði Helgason, sem lengi hafði verið assistent, verzlunarstjóri og kaupmaður í Grundarfirði og þá var um áttrætt, maður barnlaus og haldinn auðugur, samdi 1833 við umboðshaldara Árna, að fara til hans með konu sína, sem og var yfir áttrætt, móti því að Árni skyldi eignast allt þeirra fé; reif Hafliði því timburhús sitt í Grundarfirði og flutti í Krossnes. 1834, þegar Árna var veitt Ísafjarðarsýsla, vildi Hafliði eigi fara vestur þangað, og vildi þá heldur upphefja sitt gjörða testamenti; til að koma í veg þar fyrir, sótti Árni um að mega hafa fullmektugan í Ísafjarðarsýslu og þurfa eigi að flytja þangað, en ef það eigi veittist sér, frásagði hann sér sýsluna. Veitti þá konungur Ísafjarðarsýslu 1835 Þorkeli Gunnlaugssyni, er tekið hafði próf í dönskum lögum. Vorið 1835 dó Hafliði Helgason í Krossnesi hjá umboðshaldara Árna Þorsteinssyni, en Kristín kona hans, þótt eldri væri, lifði mann sinn og dó 1843. Árni setti með amtmanns leyfi Pál Benidiktsson fyrir lögsagnara sinn í Ísafjarðarsýslu, til þess Þorkell sýslumaður Gunnlaugsson við tók 1835. Árni sýslumaður er smámenni að vexti, en snotur á velli, nokkuð stórnefjaður, en lýtalaust andlitsfall, með jarpt hár, ljóslitaður og nokkuð samleitur í andliti.[1]

## Þorkell Gunnlaugsson.

*Faðir:* Síra Gunnlaugur á Ríp 1787, á Reynistað 1802, dó 1804. Faðir hans síra Magnús, fæddur 1710, fékk Upsa 1733, Miklagarð 1743, svo Höskuldsstaði á Skagaströnd 1748, dó 1784; hans faðir Pétur á Karlsá, son Þorsteins á Stórubrekku í Fljótum, Eiríkssonar, Kárssonar. Fyrri kona Péturs var Ásgerður Ólafsdóttir, Halldórssonar á Ljótsstöðum, börn: 1. Ólafur. 2. Þóra. Péturs seinni kona Ingibjörg, dóttir Halls Tómassonar á Stórureykjum, þeirra einbirni Magnús. Kona síra

1) Sjá um Árna sýslumann ennfremur við Snæfellsnesssýslu.

Magnúsar Ásgerður Pálsdóttir, systir landlæknis Bjarna Pálssonar (áttu 9 börn).

*Móðir* Þorkels og kona síra Gunnlaugs var: Arnfríður Þorláksdóttir lögréttumanns í Núpufelli, Sigfússonar samastaðar, lögréttumanns, Þorlákssonar prests, Sigfússonar.

*Kona fyrri:* Ragnheiður, dóttir Davíðs Skevings, bl.

*Kona seinni:* Hildur, dóttir Þórðar beykis á Reykhólum, Þóroddssonar beykis, Þóroddssonar, locators á Hólum; móðir Þórðar Þórey, dóttir síra Gunnlaugs, en systir Þorkels sýslumanns.

*Börn:* A. Gunnlaugur.
B. Arnfríður.
C. Ragnheiður.

Þorkell var fæddur á Ríp í Hegranesi; fór ungur að Staðarfelli í frændsemis skyni og upp ólst þar um hríð, var þá frábitinn lærdómi, en lagði fyrir sig bændastörf. Á Staðarfelli var hann um tíma, en fór þaðan að Haga á Barðaströnd 1808, giptist ungur Ragnheiði, dóttur Davíðs sýslumanns Skevings. Hann fluttist með Davíð Skeving 1809 og var fyrir búi hans og Ragnheiðar á Kambi á Barðaströnd, þar til hann giptist, henni og tók þar alsendis við búráðum. Um 1820 gjörðist hann verzlunarstjóri á Bíldudal; þar missti hann 1823 konu sína, brá hann þá 1824 til utanferðar, og lagði sig eptir lögfræði og tók 1826 reynslupróf í dönskum lögum með góðri heppni, kom svo út til bús síns, fyrir hverju systir hans og ráðsmaður Bjarni Pétursson höfðu meðan staðið vel; þar eptir keypti hann undir bú sitt jörðina Bæ í Króksfirði, eptir að hann var giptur sinni seinni konu Hildi Þórðardóttur, og flutti þangað frá Hamri; bjó hann síðan um hríð sem bóndi í Bæ, og húsaði þar vel. En 1835 fékk hann veitingu fyrir Ísafjarðarsýslu, og flutti þangað í Reykjafjörð í Ísafjarðarsýslu 1836, og húsaði þar einnig vel. Svo bar við, að Þorkell sýslumaður hneigðist um of til ölfanga, átti og í erfiðu samkomulagi við seinni konu sína, kom sér og misjafnt við suma sýslubúa sína, þar hann þótti þverlyndur um of og opt of drukkinn; gengu því klaganir yfir hann, sem hann þó komst sæmilega frá, þar eigi kom til málssóknar. Fé gekk af höndum honum, svo hann seldi nokkuð af fasteign; þegar kóngsgóz var selt í Ísa-

fjarðarsýslu, varð hann hæstbjóðandi að ábýlisjörðu sinni, Reykjarfirði, en annar bóndi gjörði eptirboð, og hlaut svo sá jörðina; þegar hann var í þessum kringumstæðum, frásagði hann sér Ísafjarðarsýslu, að mælt var eptir ráðleggingu amtmanns, og fékk lausn frá sýslunni 1844, og hefir komið í fóstur flestum börnum sínum, en býr samt 1845 á litlum parti af Reykjarfirði. Þorkell sýslumaður og kona hans komu sér ekki vel ásamt; flutti því Hildur til foreldra sinna að Reykhólum ásamt tveim börnum sínum vorið 1846, en nokkru seinna um sumarið dó Þorkell sýslumaður, og sama haust Þórður, faðir Hildar. Þorkell sýslumaður var að náttúru vel gáfaður, og þótt ólatínulærður væri, bar hann gott skyn á margt, en heilsu sína og gáfur skemmdi hann með ofmiklum drykkjuskap og þá þverlyndi; af auðmanni gjörðist hann snauður.

## Eggert Ólafur Briem.

*Faðir:* Gunnlaugur sýslumaður Briem, sjá Vaðlaþing.
*Móðir:* Valgerður Árnadóttir.
*Kona:* Ingibjörg, dóttir Eiríks sýslumanns Sverrissonar og seinni konu hans, þau giptust 1845.

Eggert er borinn á Kjarna í Eyjafirði 1811 15. október, fór í Bessastaðaskóla, útskrifaðist 1831, var settur 1 ár fyrir sýslu, fór svo utan, og gekk þar undir öll venjuleg próf við háskólann og tók þar seinast examen romano-juridicum með meðal-lofi, kom svo út og gjörðist um hríð málfærslumaður við yfirdóminn. Þegar sýslumaður Eiríkur Sverrisson dó, var hann settur fyrir Rangárþing 1843, en 1844, þegar Þorkell sýslumaður frásagði sér Ísafjarðarsýslu, var hann þar settur sýslumaður og fékk veitingu fyrir téðri sýslu 1845. Hann hélt fyrst til í Ísafjarðarkaupstað, en 1846 tók hann sér bústað á Melgraseyri á Langadalsströnd. 1846 var hann ásamt öðrum í Reykjavík settur til að aðgæta, hvað hentugast væri með breytingu í löggjöfinni fyrir Ísland. 1848 veitti konungur honum Eyjafjarðarsýslu, og fór hann þá þangað, er sýslumaður Borgen fór með konu og börnum utan; sjá um hann framar við Vaðlasýslu.

## Magnús stúdent Gíslason.

Sjá um hann við Mýrasýslu. Þegar sýslumaður Eggert

Briem fékk 1848 Eyjafjarðarsýslu og fór til sýslu sinnar, setti amtmaður Magnús Gíslason fyrir Ísafjarðarsýslu 1848, flutti Magnús sig þangað einhleypur til sýslunnar sama sumar.

---

## Viðbætir.

19. maí 1849 setti stjórnin Magnús stúdent Gíslason til að þjóna Ísafjarðarsýslu; haustið áður hafði hann, sem fyr sagt, verið settur til þess af amtmanni; þjónaði hann svo sýslunni til þess Erlendur sýslumaður tók við henni 1854, þó þjónaði henni fardagaárið 1851—52 Magnús bóndi Pétursson.

### Erlendur Þórarinsson.

*Faðir*: Þórarinn prófastur Erlendsson, seinast prestur á Hofi í Álptafirði.

*Móðir:* Guðný, dóttir síra Benedikts á Skorrastað Þorsteinssonar.

Erlendur sýslumaður var fæddur 1828; útskrifaður af Árna biskupi Helgasyni, sigldi svo og tók próf í dönskum lögum 1854, með 1. einkunn í báðum prófum; sama ár var honum veitt Ísafjarðarsýsla. Hann drukknaði á Ísafjarðardjúpi 29. des. 1857, ókvæntur og barnlaus.

### Stefán Bjarnarson.

*Faðir:* Björn Sigurðarson frá Ketilstöðum í Jökulsárhlíð.

*Móðir:* Þorbjörg, dóttir síra Stefáns á Presthólum, Lárussonar Skevings.

*Kona:* Karen, dönsk.

*Börn*:
1. Björn, cand. júris.
2. Sigfús, norskur vísikonsúll, á Ísafirði.
3. Benedikt, fór til Vesturheims.
4. Pétur.
5. Þórarinn.

6. Dagmar.
7. Kamilla stundar læknisfræði við háskólann.
8. Þorbjörg á Klemens Jónsson (Borgfjörð) assistent í íslenzku stjórnardeildinni í Kaupmannahöfn.

Stefán sýslumaður er fæddur 1826, gekk fyrst í Reykjavíkurskóla, en sigldi og var útskrifaður af kandídat Magnúsi Eiríkssyni 1851, tók 1858 embættispróf í lögum með 2. einkunn í báðum prófum, og var sama ár settur sýslumaður í Ísafjarðarsýslu og fékk veitingu fyrir henni árið eptir; 1866 varð hann einnig bæjarfógeti á Ísafirði. Sjá meira um Stefán sýslumann við Árnessýslu, er honum var veitt 1878.

### Carl Ernst Alexander Fensmark.

Hann og kona hans eru bæði dönsk. Fensmark er fæddur 1835, tók fullkomið embættispróf í lögum 1864 með 2. einkunn, var svo við málafærslu í Kaupmannahöfn. 1879 var honum veitt Ísafjarðarsýsla og bæjarfógetaembættið í Ísafjarðarkaupstað. Árið 1884 var honum vikið frá þessum embættum af landshöfðingja, og af konungi 1885 fyrir fullt og allt; var þá og höfðað sakamál móti honum að boði ráðherrans fyrir fjárvanskil við landssjóð, og bæði af undir- og yfirdómi dæmdur í 8 mánaða betrunarhúsvinnu, en konungur náðaði hann og breytti hegningunni í 3 mánaða einfalt fangelsi.

### Skúli Jónsson Thoroddsen.

*Faðir:* Jón sýslumaður Þórðarson Thoroddsen, sjá Barðastr.s.
*Móðir:* Kristín dóttir Þorvaldar Sivertsen í Hrappsey.
*Kona:* Teodóra, dóttir síra Guðmundar Einarssonar á Breiðabólstað á Skógarströnd.

Skúli er fæddur 1859, útskrifaður úr Reykjavíkurskóla 1879, tók fullkomið embættispróf í lögum með 1. einkunn 1884, var svo skömmu eptir settur málaflutningsmaður við yfirdóminn í Reykjavík, en seinna á árinu, þegar Fensmark var vikið frá embætti, var Skúli settur sýslumaður í Ísafjarðarsýslu og bæjarfógeti á Ísafirði, og árið eptir veitt þetta embætti, er Fensmark algjörlega var af settur.

6. Dagmar.
7. Kamilla stundar læknisfræði við háskólann.
8. Þorbjörg á Klemens Jónsson (Borgfjörð) assistent í íslenzku stjórnardeildinni í Kaupmannahöfn.

Stefán sýslumaður er fæddur 1826, gekk fyrst í Reykjavíkurskóla, en sigldi og var útskrifaður af kandídat Magnúsi Eiríkssyni 1851, tók 1858 embættispróf í lögum með 2 einkunn í báðum prófum, og var sama ár settur sýslumaður í Ísafjarðarsýslu og fékk veitingu fyrir henni árið eptir; 1866 varð hann einnig bæjarfógeti á Ísafirði. Sjá meira um Stefán sýslumann við Árnessýslu, er honum var veitt 1878.

**Carl Ernst Alexander Fensmark.**

Hann og kona hans eru bæði dönsk. Fensmark er fæddur 1835, tók fullkomið embættispróf í lögum 1864 með 2. einkunn, var svo við málafærslu í Kaupmannahöfn. 1879 var honum veitt Ísafjarðarsýsla og bæjarfógetaembættið í Ísafjarðarkaupstað. Árið 1884 var honum vikið frá þessum embættum af landshöfðingja, og af konungi 1885 fyrir fullt og allt; var þá og höfðað sakamál móti honum að boði ráðherrans fyrir fjárvanskil við landssjóð, og bæði af undir- og yfirdómi dæmdur í 8 mánaða betrunarhúsvinnu, en konungur náðaði hann og breytti hegningunni í 3 mánaða einfalt fangelsi.

**Skúli Jónsson Thoroddsen.**

*Faðir:* Jón sýslumaður Þórðarson Thoroddsen, sjá Barðastr.s.
*Móðir:* Kristín dóttir Þorvaldar Sivertsen í Hrappsey.
*Kona:* Teodóra, dóttir séra Guðmundar Einarssonar á Breiðabólstað á Skógarströnd.

Skúli er fæddur 1859, útskrifaður úr Reykjavíkurskóla 1879, tók fullkomið embættispróf í lögum með 1. einkunn 1884, var svo skömmu eptir settur málaflutningsmaður við yfirdóminn í Reykjavík, en seinna á árinu, þegar Fensmark var vikið frá embætti, var Skúli settur sýslumaður í Ísafjarðarsýslu og bæjarfógeti á Ísafirði, og árið eptir veitt þetta embætti, er Fensmark algjörlega var af settur.

# III. Strandasýsla.

Hinir gömlu þingstaðir í Strandasýslu voru:

1. Árnes í Trékyllisvík.
2. Kaldaðarnes við Bjarnarfjörð.
3. Hrófberg við Steingrímsfjörð.
4. Kirkjuból við Steingrímsfjörð.
5. Broddanes í Bitru.
6. Bær við Hrútafjörð.

Hinn þriðji hluti Þorskafjarðarþings, er nær frá Geirhólmi á Ströndum til Hrútafjarðarár, kallast Strandasýsla, var stundum sameinuð við annan hvorn hinna partanna, eða við báða, en þó mjög sjaldan; optast voru þar settir sýslumenn (þegar hirðstjórar eigi höfðu Þorskafjarðarþing) og stundum á seinni tímum var þessari sýslu skipt á millum tveggja sýslumanna, þegar flestir fóru að keppast eptir sýslumanns nafnbót, og þótti þar í ríki nokkurt, þar vandinn var lítill annað, en útnefna dómsmenn og taka tekjur, er þá var mjög freklega gengið eptir, opt með ójöfnuði og ofríki, en í fornöld, áður en landið gekk undir konung, voru hér sem annarstaðar goðorð, er eigi voru takmörkuð í fyrstu við annað en sjálfsvild bænda, er sögðust í þing með höfðingja þeim, er þeir til völdu. —

Í þessu ágripi rita eg það, sem eg hef orðið var við um sýslumenn eða aðra maktarmenn, sem líkur eru til, að verið hafi sýslumenn, og get þess, hver líkindi eg hef um hvern einn, þó eigi hafi þeir, ef til vill, verið sýslumenn.

---

## [Viðauki.

### A.

### Höfðingjar

(er hér kunna að hafa haft völd).

Þegar Vestfirðingar sóru konungi skatt (1262) er ekki sérstaklega tekið fram, hver hafi verið fyrir Strandamönnum, en mestar líkur eru til þess, að Hrafn Oddsson, Ólasonar, hafi þá haft völd þar um slóðir, og er hans getið við eiðana (Hákonarsaga gamla 271. k. Flateyjarbók III, 215). Er Hrafn líkastur til þessa, af þeim höfðingjum, er voru að skattaeiðunum af hálfu Vestfirðinga, en búendur þeir þrír, er sóru skattaeiðana með hverjum höfðinga, eru ekki

nefndir, og vitum vér því ekki með vissu, hverjir þeir voru, er eiðana sóru með Hrafni, en að líkindum hefir þar verið Guðlaugur bróðir hans og einhver afkomenda Ásgríms Bergþórssonar í Kaldaðarnesi († 1256). Kynni Bárður Einarsson, Ásgrímssonar, að hafa verið að eiðunum, því hann hefir þá verið fulltíða. Bárður andaðist vorið 1272 (Sturl[2]. II, 273); hefur hann án efa verið einn af betri bændum á Vestfjörðum, í þann tíma er Íslendingar gengu konungi til handa. Þeir frændur bjuggu ýmist að Breiðabólsstað í Steingrímsfirði eða í Kaldaðarnesi, en hvar Bárður hefur búið, vitum vér ekki með vissu.

Þriðji göfugastur bóndi á Ströndum um það leyti, hefur verið Þorgrímur Einarsson á Breiðabólstað í Steingrímsfirði, frændi Sturlunga og Bárðar Einarssonar. Hafði sá ættleggur ráðið mestu þar á Ströndunum, síðan um 1200, að þeir frændur tengdust Sturlungum. 1270 gerði Magnús konungur þá Hrafn Oddsson og Orm Ormsson Svínfellings handgengna menn sína og skipaði þeim allt Ísland, segir Oddverjaannáll. Hrafn hefur þá í fyrsta skipti tekið völd af konungi um Vestfjörðu, og hefur hann jafnan síðan haft þar sýslu, til þess hann andaðist 22. nóv. 1289 (sbr. Annála, Biskupasögur I, 695, 753 og víðar). Þessir menn munu hafa haldið sýslu á Ströndum í umboði Hrafns:

**Bárður Einarsson,** Ásgrímssonar, Bergþórssonar; hann andaðist, sem fyr er sagt, um vorið 1272, og hefur ekki orðið gamall maður. Ekki mun nú verða með vissu sagt, hvað afkomenda hann hefur átt.

**Guðlaugur Oddsson,** bróðir Hrafns Oddssonar, hefur án efa haft sýslu þar á Ströndunum í umboði Hrafns. Guðlaugur var opt í herförum með Hrafni bróður sínum; 1254 er hann í för suður um land, er þeir höfðingjarnir ætluðu að Gissuri Þorvaldssyni (Sturl[2]. II, 180); það ár (um haustið) er Guðlaugur enn í för með Hrafni norður um land (sst. II, 186); óvíst er um bústað Guðlaugs, en hann hefur átt eignir allmiklar á Ströndum, og hefur gefið Skálholtsstað reka þar um slóðir (Íslenzkt Fornbréfasafn II, 622—623 bls.). Guðlaugur mun því helzt hafa búið í Strandasýslu, og er líklegt að hann hafi fengið þar eignir með kvonfangi, og hafi verið kvæntur í ætt Staðarmanna í Steingrímsfirði.

**Þorgrímur Einarsson** sonur Einars auðmanns, er bjó í Vík út frá Stað í Skagafirði, og var til þess settur af Þórði kakala, að hann flýði fyrstur úr Haugsnessbardaga (1246), en Einar var þá í liði Brands Kolbeinssonar, og þeir Brandur son hans, sem þá hefur því verið fulltíða (Sturl.[2] II, 72). Móðir Þorgríms hefur verið Ingibjörg Bergþórsdóttir prests á Stað (Breiðabólsstað) í Steingrímsfirði († 1232), Jóns-

sonar prests á Stað († 1211), Brandssonar, Bergþórssonar. — Móðir Bergþórs prests Jónssonar var Steinunn dóttir Sturlu úr Hvammi († 1183), og Ingibjargar Þorgeirsdóttur, Hallasonar. — Þeir Staðarmenn voru auðmenn miklir og höfðingjar, og fer einkum að bera á þeim í sögunni, eptir að þeir tengdust Sturlungum. Þorgrímur bjó á Breiðabólsstað, og mun hafa tekið við staðnum eptir Bárð Einarsson, Ásgrímssonar, er fyr var getið. Hefur Þorgrímur verið mestur bóndi á Ströndum, um 1270—c. 1300.

1284 getur þess í Árnabiskupssögu (Bps. I, 734), að Þorgrímur tók Stað í Steingrímsfirði, er aðrir leikmenn tóku aptur staði þá, er Árni biskup Þorláksson hafði kallað kirknaeignir. Sumarið 1286 gerir Árni biskup Þorgrími áminningar út af ýmsum sökum, fyrst þeirri, að Þorgrímur hafði tekið Staðarkirkju af Þorláki presti, er Árni biskup skipaði hana áður, með öllu góssi hennar. Önnur sökin, sú er biskup bar á Þorgrím var, að hann hefði fénýtt sér hval af rekum staðarins; vildi Þorgrímur eigi sættast á mál þessi, og bannsetti biskup hann, ásamt Einari í Vatnsfirði; voru þeir þó litlu síðar í för með Hrafni Oddssyni, til móts við Árna biskup, til Saurbæjar í Dölum (Bps. I, 760). 1289 sættist Þorgrímur við Jörund biskup um Staðamál, því að Árni biskup þar þá erlendis (Bps. I, 779). Sumarið 1290 fékk Runólfur ábóti sætta þá Árna biskup og Þorgrím á Stað (Bps. I, 785), og mun Þorgrímur að því sinni hafa goldið Skálholtsstað reka þá á Ströndum, sem taldir eru í rekaskrá staðarins frá 22. ágúst 1327 (Ísl. Fornbréfasafn II, nr. 381). Að Þorgrímur hafi verið auðmaður og haft völd þar vestra, er naumast efamál; hefur það helzt verið á árunum 1280—1290. Sonur hans hefur Einar Þorgrímsson verið, er hér síðar getur.

### Erlendur hinn sterki Ólafsson

kom út með sýslu um Vestfjörðu 1290, og hefur því tekið Vestfirði næstur eptir Hrafn Oddsson (sbr. Gottskálksannál ár 1290). Erlendur andaðist 1312, en hvort hann hefur allt til þess tíma haldið sýslu þar vestra, er ei kunnugt, en ekki er það ólíklegt.

Í umboði Erlends er líklegt, að þessir menn hafi farið með sýsluvöld á Ströndum:

**Þórður „bóndi“ í Tungu** (Trölla-Tungu) í Steingrímsfirði; hans er getið í máldaga Trölla-Tungukirkju, er Árni biskup Helgason gerði 1317 (Ísl. Fornbrs. II, nr. 230); er Þórður á lífi, þegar máldaginn er gerður, og Vilborg kona hans. Ekki finnst þeirra hjóna getið á öðrum stað, svo kunnugt sé, og er því óvíst um þau að öðru leyti, en af því að Þórður nefnist »bóndi« í máldaganum, má ráða, að hann hefur verið auðugur, og að líkindum hefur hann haft

einhver völd um hríð. Verið getur, að Vilborg kona hans hafi verið af kyni Vatnsfirðinga, því að Vilborgar nafnið er einkum ættgengt hjá þeim, og komið frá Vilborgu konu Filippusar Kolbeinssonar († 1235), en hún var (að sögn Sturlungu) systir Órækju Snorrasonar, og mun því hafa verið laundóttir Snorra Sturlusonar í Reykholti.

**Einar Þorgrímsson**, Einarssonar, fyr nefndur, bjó á Eyri (Óspakseyri) í Bitru, og lagði, með samþykki Árna biskups Helgasonar, til kirkjunnar á Eyri, fjórðung í hvalreka öllum á Rúteyjarströnd 6. ágúst 1317 (Ísl. Fornbrs. II, nr. 231). Einar er kallaður »bóndi« í máldaganum, og hefur án efa verið auðmaður og valdamaður í Strandasýslu. Um niðja hans er fátt kunnugt, en Tumi Bergþórsson, er bjó í Ásgarði í Hvammsveit eptir 1400, gæti verið afkomandi Einars, því að bæði benda ættnöfnin á þetta, og svo hitt, að synir Tuma áttu Eyri í Bitru, og hafa erft hana eptir föður sinn.

### Ketill Þorláksson

hirðstjóri, kom út í Dýrafirði 1314, með nýmælabréfum, er Hákon konungur hafði sett (Annálar); mun Ketill þá og hafa haft sýsluvöld um Vestfjörðu, er hann hefur tekið eptir Erlend sterka. 1323 kom Sigmundur fótur Eyjólfsson út með sýslubréf þeirra herra Eiríks Sveinbjarnarsonar og herra Ketils (Gottskálksannáll); hefur Ketill þá haft sýslu á Vestfjörðum, því að Eiríkur hafði sýslu um Norðlendingafjórðung. Ketill hefur síðan haft sýslu um Vestfirðingafjórðung, til þess hann andaðist 1342, en með því að hann var opt í utanferðum, svo sem títt var um höfðingja á þeim dögum, hefur hann að sjálfsögðu haft ýmsa umboðsmenn, og hafa þessir að líkindum haft Strandasýslu í umboði Ketils:

**Guðmundur skáld,** sem sýnist vera hinn sami og sá er annálar nefna (Guðmund) skáldstikil, og segja að honum væri skipuð sýsla um Norðlendingafjórðung 1296. Annars vitum vér nú fátt um hann, en í Árnesi í Trékyllisvík mun hann hafa búið; galt hann kirkjunni í Árnesi reka allan milli Sporðs og Áróss á Ströndum (Ísl. Fornbréfasafn II, nr. 378, IV, 132. bls.). Rekaskrá Skálholtsstaðar (22. ágúst 1323), getur þess, að Guðmundur skáld hafi goldið staðnum allan hvalreka, er hann átti í Árnesi á Ströndum, fjórðung í Trékyllisey, og áttung úr helmingi þeim, er Reykhyltingar hafa átt (Ísl. Fornbrs. II, nr. 381). Í rekaskrá Helgafellsklausturs 1397 og 1398, er þess getið, að klaustrið eigi reka á Ströndum, »er Guðmundur hefur átt«, og er hér án efa átt við Guðmund skáld (Ísl. Fornbrs. III, 633 og IV, 168. bls.); af þessu má ráða, að Guðmundur skáld hefur átt eignir miklar á Ströndum, og er ei ólíklegt, að hann hafi haft þar sýslu í umboði Ketils Þorlákssonar, um hríð. Guðmundur andaðist 1330 (Gottskálksannáll).

**Hrafn Guðmundsson,** sá er Skálholtsannáll telur veginn 1338, hefur verið göfugur maður, og ef til vill haft sýslu á Ströndum í umboði herra Ketils Þorlákssonar. Í máldaga Kaldaðarnesskirkju í Steingrímsfirði 27. júlí 1317, er þess getið, að Hrafn hafi gefið kirkjunni jörðina Bjarnanes (í Kaldaðarnesshreppi), ásamt öðru fé (Ísl. Fornbrs. II, nr. 229 sbr. Ísl. Fornbrs. III, nr. 53, IV, bls. 132); mun þetta án efa vera Hrafn Guðmundarson, sá er fyr getur, og hefur hann verið sonur Guðmundar Krákssonar, er Skálholtsannáll telur, að andazt hafi 1310, og var það 17. apríl, samkvæmt ártíðaskrá Vestfirðinga (Ísl. Ártíðaskrár bls. 116, 122).

### Grímur Þorsteinsson

riddari og lögmaður, kom út með lén um Vestfjörðu 1343 (Skálholtsannáll); hefur hann tekið völd þar næstur eptir herra Ketil, og haft þau til 1345. 1346 kemur hann út með lögsögu. Grímur bjó í Stafholti; hann andaðist 1350 (Annálar).

**Vermundur Guðlaugsson** á Felli í Kollafirði hefur verið góður bóndi og átt eignir miklar á Ströndum; þess er getið í Gyrðsmáldaga fyrir Kaldaðarneskirkju í Bjarnarfirði (1354), að Vermundur hafi gefið kirkjunni kú, og »lagt til hennar hálfan viðreka millum Hólmslækjar og Hafnarness« o. s. frv. (Ísl. Fornbrs. III. nr. 53). sýnist því Vermundur hafa haldið kirkjuna í Kaldaðarnesi um hríð og mun hann hafa búið þar, áður hann fór að Felli í Kollafirði, en í máldaga Fellskirkju (18. júlí 1354), er þess getið, að Vermundur átti þá jörðina undir Felli (Fornbrs. III, nr. 54). Um ætt Vermundar verður fátt sagt með vissu, en hann hefur að líkindum verið í ætt við Guðlaug Oddsson, bróður herra Hrafns, sem getið er hér að framan, og gæti Vermundur vel hafa verið sonur þess Guðlaugs, og hefur hann þá verið heldur gamall 1354. Vermundur þessi mun vera faðir Herdísar konu Örnólfs Jónssonar á Staðarfelli og mun Vermundur sonur þeirra Örnólfs — sá er síðar var ábóti á Helgafelli, — hafa heitið eptir Vermundi Guðlaugssyni. Frá Guttormi Örnólfssyni bróður Vermundar var Ormur lögmaður Sturluson kominn að langfeðgakyni. Líklegt sýnist, að Vermundur Guðlaugsson hafi um tíma haft sýsluvöld á Ströndum, ef til vill í umboði Gríms riddara Þorsteinssonar, eða Guðmundar Snorrasonar.

### Guðmundur Snorrason

lögmanns († 1332), Narfasonar prests á Kolbeinsstöðum († 1284), Snorrasonar prests á Skarði, á dögum Sturlunga († 1260), Narfasonar prests s. st. († 1202), Snorrasonar prests s. st., lögsögumanns († 1170), Húnbogasonar, Þorgilssonar. — Móðir Guðmundar hét Þóra og var hún ættuð úr Sunnlendingafjórðungi. Guðmundur er orð-

inn fulltíða 1344, og fer þá utan ásamt Ormi bróður sínum og Teiti Pálssyni). Árið eptir (1345), kemur Guðmundur út með Ormi bróður sínum (Gottskálksannáll), og hafði Guðmundur þá sýslu, mun hann hafa tekið sýslu um Vestfirðingafjórðung, þegar Grímur Þorsteinsson, er áður hafði hana, fór utan, sem var árið 1345. 1348 er enn getið útkomu Guðmundar Snorrasonar (Gottskálksannáll); 1351 dæmir hann (á Helgafelli) með Flosa prófasti Jónssyni, um veiði Helgafellsklausturs í Straumfjarðará; er Guðmundur í þeim dómi kallaður »sýslumaður« (Fornbrs. III, nr. 18); hefur hann þá og haft Snæfellsnessýslu 1352 fer Guðmundur utan, og mun hafa sleppt völdum að því sinni, nema ef til vill í Strandasýslu. Skálholtsannáll segir, að Guðmundur hafi andazt þetta ár (1352), en það er rangt, og svo það sem Flateyjarannáll segir um andlátsár hans, að það hafi verið 1353, því að Guðmundur kom þá enn út til Íslands, og 18. júlí 1354, er Guðmundur Snorrason, ásamt fjórum mönnum öðrum, vottur að máldaga Fellskirkju í Kollafirði, þeim er Gyrður biskup Ívarsson setti með samþykki Vermundar Guðlaugssonar (Fornbrs. III, nr. 54). Þetta ár (1354), fór Guðmundur utan, og kom í Noreg og fóru þeir Ólafur (hirðstjóri) Bjarnarson þaðan og ætluðu »út til Sancte Jacobum«, en skip það er þeir voru á, týndist og fórust menn allir; spurðist það síðan, að líkamir þeirra Guðmundar og Ólafs hefði komið á land í Þýzkalandi og verið jarðaðir þar (Gottskálksannáll 1354). Kona Guðmundar hét Þórdís, en Ólafur hét sonur þeirra, er tekur við Skarði af Ormi Snorrasyni föðurbróður sínum 1401 (Fornbréfas. III, nr. 550—551).

### Ívar Hólmur Vigfússon

kom út með Gyrð biskupi Ívarssyni 1352, og var Ívari »þá skipuð sýsla frá Þjórsá austan og um alla Vestfjörðu« segir Gottskálksannáll. Þetta ár getur sami annáll um utanför Guðmundar sýslumanns Snorrasonar, og er því auðséð, að Ívar hefur tekið sýslu á Vestfjörðum, þegar Guðmundur sleppti henni, eins og áður er sagt. 1354 segir Gottskálksannáll, að Ívar Hólmur kæmi út »með kongsvalld um allt Ísland (ɔ: hirðstjórn) og hafði keypt skattinn og öll kongs mál um iij ár« (til 1357). Ívar hefur um þessar mundir búið á Strönd í Selvogi, en lengst mun hann hafa búið á Bessastöðum á Álptanesi og þar bjó Vigfús Hólmur sonur hans. Eptir því sem hér er sagt, mun óhætt að telja sýsluár Ívars vestra 1352—1357, en hið síðartalda ár, eða ef til vill fremur 1358, hefur Ívar sleppt sýsluvöldum og 1359 fer hann utan á skipi því, er hann hafði sjálfur látið gera (Gottskálksannáll).

## Jón skráveifa Guttormsson

kom út um sumarið 1358, með þeim Árna Þórðarsyni, Andrési Gíslasyni úr Mörk og Þorsteini Eyjólfssyni frá Urðum; höfðu þeir fjórir leigt allt Ísland af konungi, með sköttum og skyldum, um þrjú ár (til 1360) og hafði Jón skráveifa völd um Vestfirðingafjórðung, sem hirðstjóri, og allir voru þeir félagar kallaðir hirðstjórar, hver í sínum fjórðungi (Lögmannsannáll ár 1358); hefur þá Ívar Hólmur orðið að sleppa hirðstjórnarvöldum þeim, er hann hafði áður haft, enda fór hann utan árið eptir, eins og fyr er ritað; sjá um Jón við Húnavatnssýslu (I. B. bls. 449—452) og lögmannatal Jóns Sigurðssonar.

**Einar Þorbjarnarson,** er átti jarðirnar Hróberg og Víðivelli í Steingrímsfirði, um miðja 14. öld (bréf frá 1398, Fornbrs. III, nr. 524), mun hafa verið auðugur bóndi í Strandasýslu en hverra manna hann hefur verið, eða hvort hann hefur haft sýsluvöld, verður ekki með vissu sagt.

## Ólafur Pétursson

kom út 1364 með hirðstjórn og sýslu um hálft land, norðan og vestan, en Þorsteinn lögmaður Eyjólfsson kom þá út með hirðstjórn og sýslu um Suður- og Austurland (annálsbrot frá Skálholti, Ísl. Ann. 1888, 227. bls.; sbr. Gottskálksannál við ár 1364). Ólafur hélt eigi lengi völdum að þessu sinni, því að hann fór utan þegar árið eptir (1365), eptir því sem Gottskálksannáll segir, og hefur þá með öllu sleppt sýslu um Vestfirðingafjórðung. Þess má geta, að utanför Ólafs hefur eigi orðið fyr en eptir alþing 1365, því að Ólafur er við gerning 1. júlí það ár á alþingi, og er hann þá talinn að hafa »hirðstjórn og sýslu norðanlands« (Fornbrs. III, nr. 177). Ólafur hefur verið auðugur maður og höfðingi mikill; hann bjó í Gnúpufelli í Eyjafirði (Fornbréfas. III, 663. bls.). Fyrst er Ólafs getið, að hann fer utan með öðrum höfðingjum 1362; voru þeir teknir í Hálogalandi, af Hreiðari darra, og færðir til konungs í haldi (Annálar). Er eigi greint, hverjar sakir þeim félögum voru gefnar, en líklegt sýnist, að þeim hafi verið gefin að sök hluttaka í Smiðsmálum, því að Þorsteinn Eyjólfsson á Urðum, er utan fór með Ólafi, mun hafa verið í Grundarbardaga, að drápi Smiðs hirðstjóra, um sumarið (8. júlí), áður þeir félagar færi utan. Hafa þeir þó verið teknir í sátt af konungi, því að þeir komu út aptur með völd 1364, eins og fyr er sagt. 1374 og 1375 er Ólafur Pétursson, ásamt Jóni bróður sínum, vottur að gerningi þeirra Gunnars Péturssonar og Jóns Ólafssonar, um jarðirnar Hóla i Eyjafirði og Auðbrekku í Hörgárdal (Fornbrs. III, nr. 239); hefur Gunnar verið bróðir Ólafs

og Jóns Péturssona, en Pétur lögmaður Halldórsson (1340—1350) hefur líklega verið faðir þeirra. Ólafur Pétursson andaðist 1410 (Nýi annáll); þykir líklegt, að ættir megi telja frá honum, til núlifandi manna þannig, að sonur hans hafi verið Þorsteinn lögmaður Ólafsson á Ökrum, faðir Akra-Kristínar († 1490), er fyrst átti Helga lögmann Guðnason, en síðar Torfa hirðstjóra Arason; er þaðan fjölmenn ætt. Annars hafa nokkrir ætlað Þorstein lögmann son Ólafs Þorsteinssonar lögmanns, Eyjólfssonar, en sé það rétt, sem almennt er talið, að Þorsteinn lögmaður Eyjólfsson hafi átt Arnþrúði Magnúsdóttur frá Svalbarði, systur Eiríks, föður Málfríðar, móður Sigríðar, konu Þorsteins lögmanns Ólafssonar, þá er auðsætt, að Ólafur faðir Þorsteins lögmanns, gat eigi verið sonur þeirra Þorsteins Eyjólfssonar og Arnþrúðar, því að þau Þorsteinn lögmaður Ólafsson og Sigríður Björnsdóttir kona hans, hefðu þá verið þrímenningar að frændsemi, en í þann tíma máttu hjón eigi vera svo skyld.

## Teitur Pálsson

kemur út 1365 með konungsbréf, er hann les upp á alþingi, og var það um utanstefnur nokkurra höfðingja íslenzkra á fund Magnúsar konungs Eiríkssonar; var þar á meðal þeirra nefndur til utanfarar Ólafur Pétursson, sá er fyr var getið (Fornbrs. III, nr. 177). Hefur Teitur þá að líkindum tekið hirðstjórn af Ólafi, og sýslu þá, er hann hafði farið með, um Norður- og Vesturland, og haft sýsluna til þess er Skúli Þórðarson tók hana. Um ætt Teits er það að segja, að hann er án efa sonur Pretta-Páls Eyjólfssonar, þess er veginn var í Dölum vestur 1344 (Annálar), hefur Teitur verið annar þeirra sona Páls, er hefndu föður síns sama ár, og hefur hann fyrir það farið utan á konungsfund. Utanfarar Teits er einmitt getið í Gottskálksannál við ár 1344, með þeim Guðmundi og Ormi Snorrasonum frá Skarði. Þorgils Pálsson, sá er Gottskálksannáll telur, að höggvinn væri 1351, mun vera bróðir Teits Pálssonar. Erlingur Teitsson, er kemur við bréf á Staðarfelli og í Hjarðarholti í Dölum 3. marz 1383 og 30. okt. 1385 (Fornbrs. III, 365. bls.) hefur án efa verið sonur Teits Pálssonar, og má nú rekja nokkuð framar ættir frá þeim feðgum, en hér er rúm til.

**Haukur Eilífsson,** bóndi á Felli í Kollafirði, sem nefndur er í Vilkinsmáldaga (Fornbréfas. IV, 128. bls.), og hafði haldið kirkjuna á Felli 1380—1382, hefur verið í betri búenda röð þar vestra, en ókunnugt er nú um hann að öðru leyti, þótt hann sé nefndur hér, sem einn af nafnkunnum mönnum á sínum tíma.

## Skúli Þórðarson

frá Görðum á Akranesi, Flosasonar prests á Staðastað, prófasts

og officialis, Jónssonar á Ferjubakka, Erlendssonar hins sterka, Ólafssonar totts, — kom út með sýslu 1368, eptir sögn Gottskálksannáls, er eigi getur þess, hvar Skúli hafi haft sýslu, en líklegt sýnist, að það hafi verið um Vesturland, og að hann hafi tekið þar sýslu eptir Teit Pálsson. Skúli var hirðmaður Magnúsar konungs Eiríkssonar, er hefur fyrir vináttusakir veitt honum sýsluna. Skúli fór utan aptur 1373, og var þá enn með Magnúsi konungi, sem gaf Skúla jarðirnar Langadal, Klungurbrekku, Ós, Vörðufell og Bílduhvol, og eyjar þær, er konungur átti fyrir Skógarströnd; ennfremur gaf konungur Skúla reka í Skjaldabjarnarvík á Ströndum. Bréf um þetta er gert í Björgvin 21. ágúst 1374, en Hákon konungur, sonur Magnúsar konungs, staðfestir gjöfina 13. marz 1375 (Fornbréfas. III, nr. 234 og 238). Skúli hefur ætlað út til Íslands 1375, og þá farið úr Noregi á skipi Bútasona, ásamt Jóni Teitssyni (líkl. Pálssonar); skip það hvarf í hafi og hafa þeir Jón og Skúli farizt þar, með öðrum skipverjum. Flateyjarannáll getur skiptjóns þessa við ár 1377, en Gottskálksannáll við ár 1375, sem án efa er hið rétta; hefur líklega eigi komið áreiðanleg frétt af skiptapanum til Íslands, fyr en 1377, og má það vera ástæðan til þess, að Flateyjarannáll getur þessa eigi fyr. Skúli mun eigi hafa átt afkomendur, því að Þórður faðir hans erfði hann, en síðan fékk Oddur leppur bróðir Skúla jarðir þær, er Skúli hafði áttar.

### Andrés Sveinsson

(frá Brautarholti á Kjalarnesi, Grímssonar í Stafholti, lögmanns, Þorsteinssonar, bróðir Narfa lögmanns), kom út með hirðstjórn um allt land 1372 (Annálar), og mun þá hafa tekið við sýslu vestra, er Skúli fór utan, og haft hana til þess er **Eiríkur Guðmundarson** kom út 1386. Eiríkur var veginn 1387, og voru þá sýsludeilur miklar á Íslandi (Lögmannsannáll). Andrés fór utan og lét af hirðstjórn 1388 (Annálar).

Auk þeirra höfðingja sem nú var getið, nefna fornskjöl og máldagar ýmsa merka bændur í Strandasýslu, sem eigi er ólíklegt, að hafi verið valdamenn þar. Skal hér að eins getið hinna helztu, er þar finnast, fyrir og um 1400:

**Hjalti sonur Guðmundar** prests á Bakka í Hrútafirði, var þar kirkjubóndi um hríð, eptir því sem ráða má af Vilchinsmáldaga (Fornbréfas. IV, 127. bls); hann mun vera sá, er Flateyjarannáll telur andaðan 1392.

**Benedikt,** sá er getur í máldaga Bakkakirkju, og virðist hafa búið þar 1384—1387, hefur verið bróðir Hjalta, og mun vera faðir Hjalta Benediktssonar, sem andaðist 1392 (Fornbrs. IV, 127. bls., Flateyjarannáll 1392).

**Ólafur Oddsson** býr á Bakka í Hrútafirði um 1387—1397 Fornbréfas. IV, 127 bls.), og hefur verið góður bóndi.

**Jón Jónsson** á Hróbergi í Steingrímsfirði, deildi við Bjarna prest Þórðarson á Stað 1398, um land á milli Kúgildislækjar og Rauðaskriðu, og var Jóni dæmt land það af Þorsteini lögmanni Eyjólfssyni (Fornbrs. III, nr. 524). Sýnist Jón hafa verið eigi all-lítill fyrir sér, þar sem hann þannig hélt fram máli sínu, þó að klerkur og kirkja ætti hlut að annarsvegar. Er þó eigi kunnugt um Jón þennan, að öðru en því er nú var sagt.

**Marteinn Pétursson** er nefndur í máldaga Árnesskirkju í Trékyllisvík (Fornbrs. IV, 132. bls.); hann hafði, þegar máldaginn var gerður, búið í Árnesi 14 ár (1383—1397), og er hann án efa sá Marteinn Pétursson, sem átti í skærum við Björn Jórsalafara 1399, út af hval þeim, er rak á Almenninga, sem kirkjan í Vatnsfirði taldist eiga, en þeir Marteinn og Illugi Guðmundarson (Illugasonar), höfðu tekið hvalinn að sér. Úrskurðar Óli officialis Svarthöfðason 10. sept. 1399, þá Illuga og Martein skylduga að lúka kirkjunni í Vatnsfirði aptur verð hvalsins, nema próf málsins gangi öðruvísi (Fornbréfasafn III, nr. 543). Það er auðséð, að Marteinn hefur verið auðugur maður, og eigi ólíklegt, að hann hafi verið valdamaður um hríð; hann mun vera sonur Péturs prests Marteinssonar á Gilsbakka, sem tekur vitnisburð að Helgafelli 23. ágúst 1349, um veiði klaustursins í Straumfjarðará (Fornbrs. II, nr. 525); hann andaðist 1379 (Annálar). Eru þeir frændur líklega af ætt Seldæla, því að nöfnin Pétur og Marteinn skiptast varla á í öðrum ættum á Vesturlandi í þann tíma, enda eru þau bæði fremur fágæt. — Marteinn í Árnesi mun hafa lifað fram yfir 1400].

---

## Ari Guðmundsson.

Hvaða manna Guðmundur sá var, eða hver móðir, er dulið[1]).

---

1) Um forfeður Ara á Reykhólum hefur Bogi ritað við Barðastrandarsýslu (bls. 6—8 hér að framan), og svo um sjálfan hann. Hér skal þess eins getið, til athugunar, að það getur eigi verið rétt, sem ættfræðingar hafa almennt álitið, að Þorbjörg kona Guðna Oddssonar á Hóli í Bolungarvík, hafi verið systir þeirra Ara og Hrafns lögmanns, Guðmundarsona, því að þá hefði þau hjónin Hrafn lögmaður Brandsson og Margrét Eyjólfsdóttir, Arnfinnssonar, verið þrímenningar að frændsemi, og því eigi mátt eigast. Er einkum ástæða til að ætla, að Ólafur biskup Rögnvaldsson mundi eigi hafa

*Kona fyrri:* Ólöf dóttir Þórðar undir Núpi í Dýrafirði, Sig-

---

látið þessa frændsemi þeirra hjóna afskiptalausa, hefði hann vitað hana, þegar þeir Hrafn og biskup deildu útaf Hvassafellsmálum 1480, en þess er hvergi getið, að biskup minntist meinbuga á hjónabandi þeirra Hrafns og Margrétar. Er þó á engan veg sennilegt, að öllum prestum og vinum Ólafs biskups, og svo honum sjálfum, hefði verið ókunnugt um frændsemi þeirra Hrafns og Margrétar, ef hún hefði verið svo náin, sem yrði eptir því sem ætt Þorbjargar er almennt talin. En af þessu leiðir, að ætt Þorbjargar getur eigi verið rétt rakin í ættatölum, að því er snertir hina eldri ættmenn hennar, heldur hefur hún án efa verið af Skarðsætt vestra, og dóttir Guðmundar Ormssonar, eins og Jón Pétursson hefur bent á (bls. 7. hér að framan n.m.gr.); en Guðmundur var sonur Orms lögmanns Snorrasonar á Skarði. Guðni Oddsson átti Þykkvaskóg, og fleiri jarðir í Dölum, er þeir Skarðverjar höfðu áður átt; en þær jarðir hefur hann fengið með kvonfangi. Hins vegar er auðsætt af vitnisburði frá 24. apríl 1424 (Fornbréfasafn IV, nr. 372) að þeir Ari, Hrafn og Snjólfur, Guðmundarsynir, hafa verið kynjaðir frá Skriðu í Reykjadal (Rauðuskriðu), sem er þar talin »þeirra föðurleyfð«; mun faðir þeirra að líkindum vera Guðmundur Stígsson (frá Ljósavatni, Jónssonar, og Solveigar Guðmundardóttur bónda á Felli í Kinn, Hjaltasonar), er Skinnastaðaártíðaskrá nefnir, og væri þeir Hrafn lögmaður þá bróðursynir Loga officialis Stígssonar, þess er veitir Hrafni Grenjaðarstað, eptir Þorleif bónda Árnason, 1406. Þess skal getið, að á þennan hátt mun mega rekja ætt þeirra Guðmundarsona til Halls kvists, sem getið er í Þingeyjarþingi, sem goðorðsmanns árið 1262; hann sýnist vera sá Hallur Gunnarsson, sem getur í rekaskrá Munkaþverárklausturs (Fornbréfas. II, nr. 35, sbr. V, 306—307. bls. og athugasemd þar á bls. 822—824), og hans son Guðmundur prestur Hallsson, sem Árna biskups saga og annálar geta um við ár 1286—1289; fékk hann Breiðabólstað í Fljótshlíð hið síðarnefnda ár (1289; Árna bisk. s. k. 75, Bps. I, 782—783). Guðmundur prestur er talinn »sonur Halls úr Skriðu« og er því líklegt, að jörð sú hafi verið langfeðgaeign í ætt þeirri. Er eigi ólíklegt, að Hjalti faðir Guðmundar bónda á Felli í Kinn, móðurföður þeirra Stígssona, hafi einmitt verið sonur Guðmundar prests, Hallssonar úr Skriðu, en þeir feðgar hafa, að því er sýnist, verið af kyni hinna fornu Ljósvetninga og að líkindum hafa þeir átt Ljósvetninga goðorð að fornu (Hallur kvistur), og jörðina Ljósavatn, áður Stígur Jónsson komst að Ljósavatni með tengdum við Guðmund Hjaltason (sbr. ennfremur um ætt þessa, Ísl. Fornbrs. V, 818—820. bls.).

mundssonar[1]), er í þrætumálum átti við Björn Jórsalafara 1393—94; þau Ari giptust 1394.

*Sonur:* Guðmundur, sjá um hann hér síðar. —

*Kona seinni:* Þorgerður Ólafsdóttir; þeirra

*Dóttir* Ólöf[2]), sjá um hana síðar[3]).

*Systkini Ara:* Ormur, Hrafn og Þorbjörg[4]), er átti Guðna Oddsson.

---

1) Í athugagrein (á bls. 3) hér að framan, hefur Jón Pétursson leitazt við að greina forfeður Þórðar bónda Sigmundarsonar undir Gnúpi, og er tilgáta hans þar, um ætterni Þórðar, að ýmsu leyti senniieg, en við nánari athuganir sézt, að faðir Þórðar undir Gnúpi hefur verið Sigmundur á Eyri í Arnarfirði, sá er þar bjó ásamt Thomasi bróður sínum, 5 ár, eptir Vilchinsmáldaga (1368—1372). Thomas þessi er án efa sá Thomas Hrafnsson, er drukknaði með Jóni bróður sínum 1372 (Gottskálksannáll); en þeir bræður hafa verið synir Hrafns Thomassonar, þess er bjó á Eyri í Arnarfirði næstur fyrir þá (1338 † 1368). Faðir Hrafns hefur verið Thomas bóndi Snartarson í Selárdal, síðar á Eyri í Arnarfirði († 1338); — Gottskálksannáll kallar hann »Suartsson«, sem er ritvilla fyrir Snartarson; því að Thomas var sonur Snartar (ekki »Svartar« eða »Svarts«) Seldæls, er Höyersannáll telur, að andazt hafi 1278, Thomassonar prests í Selárdal († 1253), Þórarinssonar. Thomas prestur átti Höllu dóttur Þórðar Sturlusonar. Þórður Sigmundarson var þannig kominn í beinan legg af ætt hins fræga landnámsmanns, Önundar tréfótar; er hér með fundinn lykill að nýjum ættlegg upp til Sturlunga, er áður var ókunnur með öllu. Kona Sigmundar á Eyri Hrafnssonar, móðir Þórðar undir Gnúpi, hefur verið, eptir því, sem líklegast sýnist, dóttir eða systir Þórðar Sturlusonar, þess er bjó að Gnúpi við Dýrafjörð um miðja 14. öld; hefur Þórður sá án efa verið í ætt við Sturlunga, þótt ekki verði það að svo stöddu með vissu sýnt, hvernig ættkvíslir þær voru skyldar.

Af því sem hér er sagt um ætt Þórðar undir Gnúpi, er ljóst, að Eyri í Arnarfirði (Hrafnseyri) hefur verið höfuðból Seldælaættarinnar, frá því um 1150 (eða fyr), allt til þess, að Guðmundur ríki (er fengið hefur Eyri í móðurarf) seldi hana í hendur Þorgerði stjúpmóður sinni 1428 (Fornbrs. VI, nr. 44; sbr. IV, nr. 326).

2) Ólöf var, svo sem hér síðar segir, hálfsystir Guðmundar ríka, og var Þorgerður Ólafsdóttir, móðir hennar, seinni kona Ara.

3) Enn var laundóttir Ara Oddfríður (sbr. bls. 9—10 í Barðastrandasýslu).

4) Það er víst að Hrafn lögmaður Guðmundsson († 1432) var

Ari var og kallaður hinn ríki, hann bjó á Reykhólum og má ætla, að hann hafi um tíma sýslur haft, nálægt 1400. Er líkast, að það hafi verið Strandasýsla, eða ef til vill, Barðastrandasýslu eða hvorutveggja um hríð; þó hef eg þar fyrir enga vissu[1]), en mikilmenni hefur Ari verið. 1416 fékk Ari Árna biskupi 20 hndr.[2]). Hann drukknaði 1418[3]).

## Guðmundur Arason.

*Faðir:* Ari Guðmundsson nýnefndur.
*Móðir:* Ólöf nýnefnd Þórðardóttir.
*Kona:* Helga dóttir Þorleifs Árnasonar og Vatnsfjarðar-Kristínar[4]).

---

bróðir Ara föður Guðmundar ríka, eins og hér segir, en eins og hér að framan hefur verið tekið fram, getur það ekki verið rétt, að Þorbjörg kona Guðna Oddssonar hafi verið systir Ara. Ormur sá, sem hér er talinn bróðir Hrafns og Ara, mun og vera oftalinn; reyndar kemur Ormur Guðmundarson við tvö bréf á Hólum 1431 (Fornbrs. IV, nr. 496 og 497), en enga sönnun finn eg fyrir því, að hann hafi verið bróðir Ara og Hrafns, og hafi svo verið, hefur hann naumast verið skilgetinn bróðir þeirra, því ekki er hans getið í vitnisburði þeim frá 1424, sem hér að framan er getið, um arfskipti þeirra Ara og Hrafns eptir Snjólf bróður sinn.

1) Ari var »konungsumboðsmaður (sýslumaður) um Vestfjörðu að Gilsfirði og Hrútafjarðará« 1411—1412 og er á þeim árum getið dóma hans og annara gerninga þar vestra (Fornbrs. III, nr. 612, 613, 619—621).

2) Sbr. Fornbréfasafn IV, nr. 349 (vitnisburður frá 8. febr. 1421).

3) Ari er enn á lífi 1. júlí 1420 (Fornbrs. IV, nr. 341), en hann hefur drukknað 1423.

4) Þegar Guðmundur bað Helgu flutti það mál fyrir hann föðurbróðir hans, Rafn lögmaður Guðmundsson. Hafði þá Guðmundur til kaups við hana 12 hndr. hndr. og gaf henni þar af fjórðungsgjöf, en Helga hafði til kaups við Guðmund 3 hndr. hndr., Bæ á Rauðasandi 1 hndr. hndr. og 1 hndr. hndr. í jörðum, er þar fylgdu með og 1 hndr. hndr. í lausum peningum. Kristín móðir Helgu kjöri Helgu dóttur sína helmingakonu við Guðmund og í hans garð á þeirra brúðkaupsdegi, fengins fjár og ófengins með samþykki Rafns Guðmundssonar, föðurbróður Guðmundar, er honum var þá skyldastur. Brúðkaup þeirra Guðmundar og Helgu hélt Kristín í Vatnsfirði með

*Börn:* Solveig[1]) hún átti góða manninn Bjarna Þórarinsson á Brjánslæk; hann var veginn af sveinum Einars hirðstjóra Þorleifssonar 1487[2]). 1465 gaf hún Lopti Ormssyni hálfan erfðahluta sinn sér til framfæris, en hálfar eignirnar til umboðs, en þessu öllu afstóð Loptur 1470 til Þorleifs Björnssonar. Í elli sinni seldist hún arfsali Guðmundi og Ara, sonum Andrésar bróður síns. Solveig hefur dáið barnlaus.

Uppvöxtur og menning Guðmundar er oss dulin, en það hyggjum vér, að hann hafi verið einberni að móðurinni, en faðir hans hafi í elli sinni giptzt eða haldið við[3]) Þorgerði móður Ólafar. — Þó tengdir væru á með þeim Þorleifsbörnum og Guðmundi, hafa margar greinir í komið þeirra á millum, þó hvorutveggi væri mjög auðugir. — Guðmundur var kallaður hinn ríki og hefur búið á Reykhólum og eignazt þá eptir Ara föður sinn[4]). Guðmundur hefur verið óeirðar- og yfirgangsmað-

---

mikilli rausn 1423. Þetta virðist lýsa því, að Þorleifur Árnason, maður Kristínar og faðir Helgu, hafi þá verið erlendis (J. P.).

1) Solveig Guðmundardóttir, sú er hér ræðir um, var yngst hinna skilgetnu barna Guðmundar, fædd 1431 (Fornbrs. V. nr. 556 og víðar). Þau Guðmundur og Helga áttu fleiri börn, er hétu svo:
2. Ari (hinn eldri) fæddur fyrir 1427, hefur andazt ungur.
3. Bergljót, fædd 1428, hefur andazt ung.
4. Guðbjörg, sýnist hafa verið tvíburi við Bergljótu (fædd 1428), hefur og andazt ung.
5. Solveig (eldri) Guðmundardóttir, fædd 1429, og
6. Ari (yngri) Guðmundarson, fæddur 1430; hafa bæði andazt ung. Um Ara þennan, er lifað hefur lengst systkina sinna, þeirra er ei komust til aldurs, er getið í gerningi einum frá 15. apríl 1465, og er hann þá andaður (Fornbréfas. V, nr. 389). Þau börn Guðmundar, sem hér getur, eru talin í vitnisburði frá 14. júní 1471 (Fornbrs, V, nr. 556); hefur Bogi eigi þekkt þann vitnisburð, og því telur hann eigi önnur börn Guðmundar en Solveigu yngri, sem víða kemur við gerninga.

2) Á að vera 1482.

3) Það er víst, að Þorgerður Ólafsdóttir var síðari kona Ara á Reykhólum, en eigi frilla hans (Fornbréfas. IV, nr. 326, sbr. VI, nr. 44, og víðar).

4) Ari hefur fengið Reykhólaeignir með Ólöfu konu sinni, en

ur, sem meðal annars má sjá af vitnisburði, er framfór 1479, að Ólöf Aradóttir á Kvennabrekku, systir Guðmundar, hafi (þá fyrir 37 árum) gefið Birni ríka Þorleifssyni, umboð sitt, að krefja af Guðmundi bróður sínum erfðafé hennar eptir Ara föður sinn 5 hndr. hndr. og eptir Þorgerði Ólafsdóttur móður sína 5 hndr. hndr., er Guðmundur Arason hélt í óleyfi, og skeði þetta vorið næsta áður en Björn ríki reið á Reykhóla (1442)[1]. Það er dulið, hvernig varið var ágangi Guðmundar við þá Björn og Einar Þorleifssyni, einasta er þess getið, að Guðmundur hafi farið með harðræði, yfirgangi og jafnvel víkingsskap á einni norðurferð sinni, en þá var Einar hirðstjóra umboðsmaður[2]), og sýnist sem þeir bræður hafi veitzt að honum

---

þær voru móðurarfur Ólafar; hún var dóttir Solveigar Svartsdóttur, systur (ekki dóttur) Gísla á Reykhólum. Svartur faðir Solveigar andaðist 1392 (Annálar) og var faðir hans Þorleifur Svartsson hinn ríki á Reykhólum (fæddur 1307, † 1379); hans faðir hefur verið Svartur Þorleifsson, er út kom í Dýrafirði 1300 (enn á lífi 1307) og gæti hann verið sonur Þorleifs haga († 1315), Eyvindarsonar prests, Þórarinssonar. Verður þá ættin hin sama og föðurætt Þórðar Sigmundarsonar (sbr. hér að framan), því að Eyvindur var bróðir Thomasar prests, föður Snartar. Fyrir þessari rakningu eru svo margar líkur, að naumast sýnist efamál, að hún sé rétt. Eru þannig fundnar tvær leiðir til Seldælaættarinnar, þegar rekja skal saman fornættir við ættir núlifandi manna; hefur sú ætt einna lengst vestfirzkra landnámsætta haldið virðingu sinni og höfuðbólum um hinar fornu ættstöðvar sínar þar vestra, enda er ætt þessi einhver göfugasta ætt á Vestfjörðum að fornu, þeirra ætta sem kunnar eru.

1) Ætti að vera 1446, því Björn mun þá hafa tekið Reykhóla, en ekki 1442. Vitnisburður þessi um fé Ólafar Aradóttur, er prentaður í Fornbréfasafni (VI, nr. 214).

2) Þetta er eigi fyllilega rétt, því að ránið við Húnvetninga af hendi Guðmundar Arasonar, fór fram 1427 (Nýi annáll), og var þá Loptur ríki Guttormsson hirðstjóri norðan og vestan á Íslandi (Fornbréfasafn IV, nr. 724), en Einar Þorleifsson varð eigi hirðstjóri fyr en 1446, og lét þá leiða vitni um Guðmundarmál, sem sýnist hafa legið í dái, órannsakað að mestu, allan tímann frá 1427 til 1446, og verður naumast séð, hverjar orsakir hafi valdið því, að svo var, nema að hirðstjórar þeir, er næstir komu eptir Lopt, hafi eigi treyst sér til að rannsaka málið fyrir ofríki Guðmundar, sem allan þennan tíma sýnist hafa setið óáreittur að búum sínum, eptir ránið, allt þar

og látið dæma hann útlægan og fengið staðfestingu konungs upp á þann dóm, og hefur Björn Þorleifsson og Einar bróðir hans keypt það af fé Guðmundar, sem féll undir konung, sem sjá má af kvittun séra Þorleifs Björnssonar; telur hann þar eignarmenn Reykhóla næst eptir Kristján konung: 1. Einar Þorleifsson, þá Þorleif Björnsson, þá Björn Þorleifsson annan, og svo sig. En að Björn ríki hafi og svo keypt eignir Guðmundar sést þar af, að 1463 meðkennist Henrik Kerker[1]), að Björn hirðstjóri Þorleifsson hafi goldið konungi fimm tíu lestir skreiðar og 163 nobel fyrir Guðmundar fé, og 1464 afhenti Ólöf Loptsdóttir Gerrek gullsmið 13 gull nobel og 23 í góðu silfri fyrir Guðmundar eignir[2]). — Það er ritfært, að Guðn undur hafi misst eigur sínar 1443[3]), og að þær hafi verið að upphæð verðaura tuttugu og sjö hundruð hundraða, og ellefu tigir og þrjú hundruð og sex tigir álna, en kúgildi sex hundruð hundraða, tuttugu og átta, hefur því áður verið aftekinn máli konu hans, einnig þau IV hundruð hundraða og V hundruð hundraða betur, sem Ólöf systir hans átti hjá honum innistandandi[4]). Getur þá maske komið heim, það ritað er, að Guðmundar fé allt hafi verið L hundruð hundraða (að með reiknuðu því, er aðrir áttu þar). — Hvað um Guðmund þar eptir hefur liðið, er óljóst, en líklegt er, að hann hafi farið utan, eins og það, að Einar Þorleifsson hafi veitt honum sýslu, líkast Stranda- eða Barðastrandarsýslu, meðan Einar hafði hirðstjórn og vel féll

til hann komst í ónáð við Þorleifssonu, mága sína, sem eigi vildu láta eignir Guðmundar ganga úr greipum sér, en hafa lítt hirt að halda arfinum til handa börnum Guðmundar, enda lifðu þau fá skilgetin, og þá lítt á legg komin, er hann varð að flýja eignir sínar.

1) Réttara Kepken sbr. Ísl. Fbr.s. V, nr. 337.

2) Fornbréfas. V, nr. 377.

3) Ætti að vera 1446 (sbr. síðar) en 1448 sýnist Guðmundur hafa farið utan alfarinn, að prófuðu máli hans, sem útlagi; var þá Helga kona hans önduð fyrir 10 árum († 1438). Um Guðmund vita menn ekki, eptir að hann fór utan, en líklegt er, að þeir Þorleifssynir hafi séð svo ráð fyrir, að hann yrði þeim eigi til hnekkis eptir það, enda mun Guðmundur aldrei hafa aptur komið til Íslands (sbr. vitnisburðina um Guðmund 1470: Ísl. Fornbréfasafn V, nr. 498—500).

4) Hvaðan Bogi hefur haft þennan reiking veit eg eigi (J. P.).

með þeim mágum, millum 1430 og 1440, áður en óvildin kom þeirra á millum[1]).

---

1) Eins og sést af I. B. bls. 444 hefur Guðmundur haldið Húnavatnssýslu 1422, og hefur líklega verið þar sýslumaður 1427, er annálar geta um norðurreið hans til Húnvetninga, því að hann hefur þá verið að reka þar sýsluna; jarðeignir átti hann þar ekki. Það lítur einnig svo út sem hann hafi haft þar sýslu, þangað til hann var gerður útlægur af Einari Þorleifssyni hirðstjóra norðan og vestan. Höfðu Húnvetningar kært Guðmund fyrir rán og ofbeldi við þá í norðurreiðum sínum. En það var árið 1446, er Guðmundur var útlægur dæmdur, en ekki 1442 eða 1443, eins og sumir hafa talið, og verður því að leiðrétta það, sem fyr er sagt í þessu riti um það efni. Útlegðardómur þessi finnst ekki í Fornbréfasafninu, en eg hef fundið á lausum blöðum eptir Jón Pétursson afskript af honum með hans hendi; getur J. P. þess út á spássíunni, að dómurinn hafi verið ritaður á kálfskinni og eitt innsigli fyrir, er dottið hafi verið af, en þvengurinn að eins eptir. Þessa athugasemd hefur hann að vísu strykað út aptur, af því að hann hefur ekki ætlazt til, að hún væri prentuð með dóminum, en það er enginn efi á, að hún er rétt og að þetta hefur verið frumbréfið, sem hann hefur haft fyrir sér, en nú er líklega glatað. Er því ekki öðru að tjalda en afskriptinni og má þykja gott um svo fágætt fornskjal. En bréfið er svo látandi:

»Öllum mönnum, sem þetta bréf sjá eður heyra, sendi eg Einar Þorleifsson, hirðstjóri fyrir norðan og vestan á Íslandi, kveðju guðs og sína kunnugt gjörandi, þá er liðið var frá hingað burð vors herra Jesú Christí þúshundruð fjögur hundruð fjöru tigir og sex ár, þriðjudaginn næsta eptir Jónsmessu postula ante portam latinam á Sveinstöðum í Vatnsdal á almennu þingi kom fyrir mig Þorsteinn Þorgrímsson og Björn Kárason og Þórður Ólafsson og Einar Hallfreðarson, beiddu mig og kröfðust allir og sérhver styrks og atfarar við Guðmund Arason fyrir það rán og heimsóknir, er hann hafði þeim veitt í sinni norðurreið, eptir því, sem þeir létu þar sýna og sverja. — Nú sakir þess, að mér lýst þetta fullt útlegðarverk og lýsta eg Guðmund Arason útlægan og óheilagan, hvar hann kann takast utan griðastaða og því fyrirbíð eg hverjum manni héðan í frá hann að hýsa eður heima halda eður hafa, styðja eður styrkja, eður nokkra björg veita í móti kongsins rétti og landsins lögum, undir slíka sekt, sem lögbók vottar, ef það dyrfist nokkur gjöra. — Svo beiðir eg og krefur eg og skyldar eg til kongsdómins vegna hvern mann, er mitt bréf heyrir, mig til að styrkja og fullt lið að veita, hann að fanga og undir rétt lög að koma. Item í annari grein fyr-

## Andrés Guðmundsson.

*Faðir:* Guðmundur Arason, nýnefndur.

---

irbíð eg hverjum manni í þeim góssum sitja eður nokkurn kostnað hafa, sem fyrnefndur Guðmundur hefur áður haft og haldið og sér eignað eptir því, sem eg má fremst með lögum, og til sanninda hér um setti eg mitt innsigli fyrir þetta bréf, skrifað í sama stað og ári, degi síðar en fyr segir«.

Guðmundur hefur verið mjög ágengur og ofríkisfullur, það sýnir meðal annars, að hann vildi ekki svara út mundi stjúpu sinnar, eða arfi Ólafar systur sinnar, reiknaði Ólöf móðurarf sinn 5 hundruð hundraða og föðurarf sinn 4 hundruð hundraða. Líka gaf Einar Þórðarson, skrifari Guðmundar, Brandur Sigurðsson og Stefán Þórarinsson vitnisburð um það á Skarði 1460, að Guðmundur hefði haldið nokkrum jörðum, er þar eru nefndar, er hann ekkert hefði átt með.

En þessi vitnisburður er eigi svo áreiðanlegur, því það er auðséð, að Björn ríki hefur útvegað hann, hann hafði þá keypt eða var að kaupa af konungi sektahlutann af eigum Guðmundar fyrir lítið verð. — Guðmundi er og lagt það til ámælis, að þegar hann fór að reka sýslu sína nyrðra, hafi hann riðið með stóran flokk, er mönnum hafi þótt hart að búa undir; hafa og menn hans á þessum ferðum eflaust gert af sér margan óskunda, er Guðmundur hefur ekki ráðið við.

Guðmundur hefur verið hinn mesti höfðingi og kunnað að stjórna vel eignum sínum. 1434 hélt hann brúðkaup Orms Loptssonar og Solveigar Þorleifsdóttur, systur konu sinnar. — Það hefur verið til uppskript yfir eigur Guðmundar, þegar hann missti þær og byrjar hún þannig:

»Þessi var reikningur o. s. frv.« Þessi skrá um eignir Guðmundar, er þær voru teknar undir konung, er prentuð í Ísl. Fornbr.-safni IV. nr. 725.

Af því að Guðmundur var dæmdur útlægur áttu eigur hans að falla hálfar undir konung, en hálfar undir nánustu erfingja hans. Af því Solveig dóttir hans var getin, eptir að faðir hennar var fallinn í útlegðina, sölsuðu þeir Þorleifssynir, Einar og Björn, móðurbræður Solveigar, hennar part eignanna undir sig, því þeir sögðu, að það barn, sem getið væri í útlegð, ætti hvorki að erfa föður eða móður. Þetta hefur nú víst þótt mörgum mjög hart og líka séð ofsjónum yfir öllu því fé, er þeir bræður þannig sölsuðu undir sig, og lét því Loptur Ormsson, er var náfrændi Solveigar, hana gefa sér alla þá peninga hálfa til fósturs og æfinlegs framfæris, sem henni

*Móðir:* [um hana ókunnugt].

---

hefði til erfða fallið eptir föður sinn og móður og bróður sinn Ara Guðmundsson, jarðir og kúgildi, fríða peninga og ófríða, að öllum tilteknum og engum frá teknum. Skyldi optnefndur Loptur mega kjósa sér til eignar, hverja peninga hann vildi af þessum peningum í sinn hluta, en hann kjöri Reykhóla og þær eignir, er þar til lágu milli Skálaness og Gilsfjarðar. Skyldi Loptur mega að frjálsu taka að sér þessa peninga alla, og vera löglegur sóknari til að sekta og sækja og sakir á gefa á þessum peningum öllum, sem fullur og löglegur eignarmaður, hvar sem þeir væru niðurkomnir. Skyldu þeir kvittir vera, sem hann kvitta gerði hennar vegna. Fékk þráttnefnd Solveig títtnefndum Lopti sitt löglegt umboð um næstu þrenna tólf mánuði og það lengur, sem hún eigi aðra skipun á gerði. Fór þessi gerningur fram á Staðarhóli í Saurbæ 1465 (Fornbréfasafn V. nr. 389). Þetta vottorð er gefið sama ár á Staðarhóli af Þorleifi Árnasyni, Gunnari Jónssyni, Jóni Þorleifssyni og Magnúsi Oddssyni. — En Lopti varð ekki neitt gagn né sæmd að þessu, því eptir að hafa rifizt við Þorleif Björnsson í nokkur ár um eignir Solveigar, sættust þeir á Öxarárþingi 1470 á þetta mál þannig: að Loptur gaf og galt Þorleifi í það hugmót og peningareikning, er Loptur var fyrnefndum Þorleifi skyldugur, alla þá tiltölu og eign, er fyrnefndur Loptur þóttist eiga í peningum þeim, er Guðmundur Arason átti og Solveig Guðmundsdóttir þóttist erft hafa eptir föður sinn og móður, eptir því sem þeirra gerningsbréf Lopts og Solveigar þar um gert útvísaði. Meðkenndist Loptur að hann hefði kjörið í sinn part Reykhólaeignir, fasta peninga og lausa, fríða og ófríða, sem þar til heyrðu að fornu og nýju, Vottar að þessum gerningi voru: Egill Grímsson, Oddur Pétursson, Grímur Grímsson og Ingimundur Jónsson.— Um þessar mundir hefur Solveig trúlofazt »góða manninum« Bjarna Þórarinssyni og það hefur víst verið hvöt fyrir Lopt, að gera áminnstan samning við Þorleif, og draga sig þar með út úr þessu þrasi. Bjarni hefur nú og, er hann var kvæntur Solveigu, farið að ganga eptir arfi hennar; virðist þá sem Þorleifur hafi látið hann fá nokkuð, líklega Brjánslækinn með tilheyrandi jörðum, er var eitt af 6 höfuðbólum Guðmundar; en Bjarni hefur auðsjáanlega verið óánægður með þetta, og sigldi hann því; er sagt að kona hans hafi farið með honum og að þau hafi verið nokkur ár erlendis, en 1480 kom Bjarni aptur út með bréf Kristjáns konungs fyrsta, hvar í hann segir, að sér hafi óréttilega flutt verið um Guðmundar peninga, og að þeir hafi verið meira verðir. Skipar hann því Magnúsi biskupi í Skálholti og Diðrik Pining hirðstjóra, með tólf öðrum, er þeir skyldu

*Kona:* Þorbjörg, dóttir Ólafs yngra Tóna, Geirmundarsonar, þau giptust 1461; hafði Andrés til kaups við hana

---

taka með sér, að reikna alla Guðmundar peninga og skipta þeim í 3 parta. Á þessum skiptum, er þá voru gerð á alþinginu, eptir nefndu konungsbréfi, hlotnaðist Solveigu í móðurarf 25 hundruð hundraða, og þarnæst eptir föður sinn Guðmund 12½ hundrað hundraða, og konungi jafnmikið, en þessu, sem konungur fékk, var aptur skipt í 3 flokka, hvar af konungur fékk 4 hundruð hundraða og 20 hundruð, erfingjar Björns bónda Þorleifssonar og húsfrú Ólafar jafnmikið, og Solveig Guðmundsdóttir 4 hundruð hundraða og 20 hundruð. — Þessi dómur, uppkveðinn á Öxarárþingi 1. júlí 1480, er prentaður í Ísl. Fornbréfasafni VI. bls. 273—274 og vísast því til hans hér.

Þorleifur reyndi nú á allan hátt að fyrirbyggja, að þessu konungsbréfi yrði framgengt, og krafðist þess vegna af Rafni lögmanni, að hann þar á þinginu útnefndi dóm til að yfirskoða og rannsaka bréf sín um Guðmundar peninga, og er Rafn ekki vildi gera það, tók Þorleifur á Lundi í Lundareykjadal vitnisburð nokkurra manna um þessa neitan Rafns lögmanns, og útnefndi um leið marga menn í dóm til að dæma um erfðarétt barns þess, er í útlegð föðursins væri getið. Þessi tvö bréf hljóða þannig:

»1. Dómurinn: Það gerum vér Egill Grímsson, Jón Björnsson, Gísli Filippusson, Sigurður Daðason, Finnbogi Jónsson, Þorlákur Þorkelsson, Finnur Pétursson, Þorsteinn Jónsson, Ingimundur Finnsson, Þórður Auðunnarson, Arnfinnur Jónsson, Arnór Finnsson og Narfi Þorvaldsson góðum mönnum kunnugt með þessu voru opnu bréfi, að þá, er liðið var frá hingað burð vors herra Jesú Christi MCCCCLXXX ára á mánudaginn næstan eptir Pétursmessu um sumarið vorum vér í dóm nefndir af ærlegum manni, Þorleifi Björnssyni, að skoða og rannsaka um það, ef maður á barn með eiginkonu sinni í útlegð, og deyr móðirin síðan, fyrri enn maðurinn fær nokkra kvittun af konunginum. Nú sakir þess, að réttarbót virðulegs herra Magnúsar konungs Eiríkssonar svo útvísar, að það sama barn, sem í útlegð er getið, skal hvorki taka arf eptir föður né móður, nema hann verði innlendur síðan, og því kunnum vér eigi betur skilja eða vita, en þeir sömu peningar, sem móðir fyrskrifaðs barns átti, falli til erfðar hinum nánustu frændum hennar eptir réttu erfðatali og fyrgreindur arfur féll undan þeim, áður nokkur kvittun fengist af konungdóminum. Og til sanninda hér um, settum vér fyrgreindir menn vor insigli fyrir þetta bréf, er gjört var á Lundi í Lundareykjadal á sama ári, degi síðar en fyr segir«. — Dómur þessi er

3 hundruð hundraða, en Þorleifur junkeri Björnsson gaf honum 2 hundruð hundraða og hélt brúðkaup

---

prentaður í Ísl. Fornbréfasafni VI. nr. 262 en af því að vitnisburðurinn, sem hér fer á eptir finnst þar ekki eru bæði bréfin hér prentuð eptir afskript Jóns Péturssonar.

2. Vitnisburðurinn: »Það gjörum vér Egill Grímsson, Arnfinnur Jónsson, Þorlákur Þorkelsson og Þorleikur Gunnsteinsson góðum mönnum viturligt með þessu voru opnu bréfi, að þá er liðið var frá hingað burð vors herra Jesú Christí þúsund fjögur hundruð og átta tigir ára á almennilegu Öxarárþingi vorum vér í hjá að Þorleifur Björnsson beiddi og krafði Hrafn lögmann norðan og vestan á Íslandi að nefna dóm, yfir að skoða og rannsaka sín bréf þau, er hann hafði af sínum náðuga herra kong Kristjern um það, hvort hann skyldi eigi njótandi verða hans bréfa til síns herra kongsins náða um þá peninga, er Guðmundur heitinn Arason og hans kvinna höfðu átt, og öll önnur þau bréf og skilríki þau, er áður greindur Þorleifur hafði, svo hann eigi misti sína peninga fyrir lög fram, eptir því, sem þeir áður greindur Þorleifur og Bjarni Þórarinsson höfðu þar gjörning um gjört. En áðurgreindur Hrafn lögmann vildi þar ekki svar til gefa. Og til sanninda hér um settum vær vor insigli fyrir þetta bréf, er gjört var á Lundi í Lundareykjadal, á sama ári, degi síðar en fyr segir«. — Það er auðséð, að þetta bréf hefur verið fest aptan við dóminn.

Þetta hefur nú Þorleifur séð, að var ónógt fyrir sig, og því siglt sama ár; fékk hann þá dóm ríkisráðsins í Noregi, er dæmdi — því Kristján 1., var þá dauður — Þorleifi Björnssyni aptur alla hans peninga, góss og garða, sem honum væri með ólögum frá komið, er Bjarni Þórarinsson og aðrir klöguðu upp á, þar Rafn Brandsson lögmann norðan og vestan á Íslandi hefði tilkrafður verið og Þorleifi á Öxarárþingi enga lagaskipun hér ágjört. Dómurinn er gerður laugardaginn næstan eptir Bartholomæímessu 1481 (sbr. Ísl. Fornbréfasafn VI. nr. 360). Þorleifur kom út aptur 1481 með áðurgreindan dóm, en svo sýnist sem honum hafi eigi orðið svo mikill styrkur að honum, sem hann hefur hugsað, og þeir bræður Þorleifur og Einar því tekið það úrræði, að drepa Bjarna vestur á Brjánslæk 1482 (sbr. bréf um það víg Ísl. Fornbr.safn VI. nr. 412); er sagt að Einar hafi sent þangað flokk manna til þess, og að Þorsteinn launsonur Þorleifs hafi verið fyrirliði flokksins. Á þetta víg sættist Einar við Magnús biskup í Skálholti, og bætti biskupi Bæ í Borgarfirði, Langholt og Hvítárbakka m. fl. fé. Sú sættargerð fór fram á Skarði 27. ágúst 1487 (Ísl. Fornbr.s. VI. nr. 533). Með þessu móti hafa

hans[1]) fyrir 60 hundruð, en Ólafur Tóni og Sigríður Þorsteinsdóttir kona hans gáfu dóttur sinni Þorbjörgu 2 hundruð hundraða.

*Börn:* A. Guðmundur á Hesti í Önundarfirði og á Felli í Kollafirði, sjá hér síðar.

B. Ari, laungetinn í Bæ á Rauðasandi, sjá Barðastrandarsýslu.

C. Bjarni, fyrri maður Guðrúnar eldri dóttur Björns sýslumanns Guðnasonar 1507, þeirra dóttir

1. Solveig, sjá um hana við Dalasýslu.

D. Sigríður átti Helga, son Gísla Filippussonar, Sigurðssonar Þórðarsonar (sjá Barðastrandarsýslu) en þessi Sigurður Þórðarson mun bróðir Odds lögmanns Lepps Þórðarsonar[2]), þeirra börn:

1. Vigfús átti Margréti, dóttur séra[3]) Ólafs Eiríkssonar og Brígetar, laundóttur Solveigar, dóttur Björns ríka með Jóni skrifara. — Þeirra börn:

a. Guðrún Vigfúsdóttir átti Svart á Látrum, föður Þórðar, föður Svarts[4]); allt bændafólk.

---

þeir bræður Björn og Einar ætlað sér að svæla undir sig arf Solveigar Guðmundsdóttur, og hafa álitið sér allskostar við hana, þegar Bjarni væri úr vegi tekinn, en hún ein eptir, munaðarlaus ekkja. En þetta fór öðruvísi, en þeir höfðu ætlað, því Solveig seldist þeim bróðursonum sínum Guðmundi og Ara Andréssonum löglegu arfsali, því hún hefur eigi unnt þeim Bjarnarsonum eignanna, sem von var. Solveig dó barnlaus. (J. P.)

1) Andrés kvæntist 1462 og er kaupmálabréfið gert á Reykhólum 1. ágúst það ár (Fbr.s. V. nr. 325). Björn ríki, en eigi Þorleifur, hélt brullaup þeirra Andrésar, eða lofaði að kosta það, eptir sem kaupmálabréfið segir.

2) Sigurður og Oddur voru ekki bræður, sem fyr hefur verið sagt.

3) Ólafur var ekki prestur. Hann var bróðir Sæmundar í Ási í Holtum.

4) Svartur þessi átti Guðrúnu Steinsdóttur Þorvaldssonar Torfasonar á Hrauni í Dýrafirði Sigfússonar Brúnmanns; þeirra dóttir Margrét móðir Svarts Jónssonar föður Ólafs á Sléttu í Aðalvík.

b. Steinunn[1]) átti Þorkel Jónsson, þeirra dóttir
α. Margrét átti Stein[2]) (bænda fólk).
2. Oddur.
3. Guðrún.
E. Jón Andrésson[3]).

Andrés bjó á Felli í Kollafirði, og hélt Þorleifur Björnsson í hönd með honum fyrst, meðan Andrés bryddi eigi á stórmennsku sinni við þá feðga[4]) og meinum vér, að Andrés hafi

---

1) Auk Steinunnar og Guðrúnar konu Svarts á Látrum telur Steingrímur biskup tvær aðrar Guðrúnar dætur Vigfúsar Helgasonar og Margrétar:

1. Guðrún bjó í Geirþjófsfjarðarbotni (einnig talin hjá Snókdalín) átti Ara þeirra börn:
   a. Guðrún kona Tómasar.
   b. Guðrún kona Gríms, þeirra börn:
      aa. Björn.
      bb. Skúli.
2. Guðrún var hjá Ormi Erlingssyni bræðrungi sínum, átti mörg börn, síðan átti hún Runólf, þeirra börn:
   a. Jón; hans synir:
      aa. Snæbjörn.
      bb. Þorvarður; hans son:
         aaa. Snjólfur á Strönd.

2) Dóttir Steins og Margrétar var Járngerður átti Jón Bjarnason, þeirra son Þorkell á Hvítanesi, hans dóttir Guðfinna átti Kára Þórðarson, þeirra son Þórður í Eyrardal, faðir Kára á Borg í Skötufirði og Guðmundar, er var fyrri maður Solveigar Þórðardóttur stúdents í Vigri Ólafssonar, þeirra dóttir Marín átti Gísla á Vífilsmýrum Oddsson úr Önundarfirði Gíslasonar, þeirra son Oddur bóndi á Lokinhömrum, faðir Gísla, er þar bjó lengi, föður Odds málaflutningsmanns í Reykjavík.

Aths. Ó. Snókdalín telur Guðmund mann Solveigar son Þórðar á Borg Kárasonar á Borg Þórðarsonar í Eyrardal Kárasonar, en tímans vegna virðist hér tveim liðum ofaukið, enda telur Espólín Guðmund son Þórðar Kárasonar eldra.

3) Að Andrés hafi átt nokkurn son, er Jón hafi heitið, er víst ekki rétt.

4) Andrés hefur verið sveinn Þorleifs 1462 (sbr. hér fyr), því hans er þá getið í Skálholti við bréf, er snerta Þorleif (Fornbrs. V. nr. 321 og 322). Það fé, er Þorleifur fékk Andrési til giptingar, sýnist

af tilhlutun Þorleifs fengið Strandasýslu, nálægt 1460[1]), en þó er það óvíst; eptir fall Björns ríka og nálægt 1470, kom sund-

og án efa hafa verið þjónustulaun Andrésar, þótt það sé kallað gjöf í kaupmálabréfi Andrésar.

1) Fyrir Andrés Guðmundarson, er líklegt, að þessir menn hafa haft völd nokkur í Strandasýslu:

**Sumarliði Loptsson,** er átti Ólöfu Aradóttur, hálfsystur Guðmundar ríka; um Sumarliða er fátt kunnugt, og mun hann eigi hafa orðið gamall. Sumarliði var launsonur Lopts ríka og Kristínar dóttur Odds lepps, og gaf Loptur honum jarðir í Dölum vestur (Fornbréfasafn IV. nr. 446 og 552); hefur hann verið auðugur maður, þótt hann komi mjög óvíða við gerninga. Það eitt er kunnugt, að hann var enn á lífi 1. okt. 1432 (Fornbr.s. IV. nr. 552), kynni því að mega ætla, að hann hefði tekið við sýslunni eptir að rán Guðmundar varð 1427, eða þar um bil, því að Loptur faðir Sumarliða hafði þá hirðstjórn norðan og vestan á Íslandi, en hirðstjórar réðu optast sýsluveitingum í þann tíma, og er eigi ólíklegt, að Loptur hafi haldið völdum nokkrum í hendur sonum sínum, sem þá voru frumvaxta.

Í ættatölum er eigi getið annara barna Sumarliða og Ólafar, en Kristínar konu Jóns Dans (sbr. I. B. 312. bls. og hér að framan, bls. 175), en samkvæmt bréfum, sem nú eru komin í ljós, sýnist ekki efamál, að þau Sumarliði hafi átt fleiri börn, og munu þeir Halldór og Ari Sumarliðasynir, er koma við bréf vestra um 1460, hafa verið bræður Kristínar, og má rekja ættir frá þeim til núlifandi manna.

### Ormur Loptsson

albróðir Sumarliða, fékk og jarðir í Dalasýslu, og bjó á Staðarhóli í Saurbæ; hann átti Solveigu Þorleifsdóttur, systur Bjarnar ríka og Helgu konu Guðmundar Arasonar. Ormur var hirðstjóri norðan og vestan á Íslandi 1436 (Fornbrs. IV. nr. 599) og þykir sennilegt, að hann hafi þá og haft sýsluvöld um Vestfjörðu.

**Tumi Bergþórsson,** bóndi í Ásgarði í Hvammssveit, átti eignir nokkrar í Strandasýslu og þar á meðal Eyri (Óspakseyri) í Bitru, er Ólafur prestur sonur hans erfði eptir hann og seldi hana Jóni Sveinssyni 1461 (Fornbrs. V. nr. 228). Tumi kemur við bréf 1418—1449, og hefur hann verið auðugur bóndi, og lögréttumaður vestra, að því er sýnist. Kona Tuma var Guðrún Hallsdóttir úr Ásgarði og voru þeirra synir: Egill, Guðmundur og Ólafur prestur, er fyr var getið, og mun hann vera faðir Tuma prests á Stað á Reykjanesi (sbr. Fornbr.s. V. nr. 508 og 530). Um ætt Tuma Bergþórs-

urþykki mikið á millum Þorleifs hirðstjóra Björnssonar og Andrésar; reis það af fé Guðmundar Arasonar, er þá var í eigu

---

sonar hefur verið getið í athugagrein hér að framan (bls. 255), og mun mega rekja hana nánar en hér er gert.

**Einar Þorleifsson**

bróðir Björns ríka, hafði hirðstjórn norðan og vestan 1446—1449 eptir Orm Loptsson, en andaðist 1453; hefur hann að líkindum haft völd yfir Vestfjörðu msem sýslumaður, nokkur ár, en allóvíst er, hverja sýslu hann hafi haldið.

**Torfi Arason,**

er verið hefur bróðir Daða Arasonar, en þeir synir Ara Daðasonar, er sumir nefna Dalaskalla. Móðir þeirra var Guðríður Bjarnar eða Bjarnadóttir. — Torfi átti Akra-Kristínu, eptir Helga Guðnason lögmann, og bjuggu þau á Meiri-Ökrum í Skagafirði. Torfi átti eignir miklar á Vesturlandi; hann gerðist handgenginn Kristjáni konungi fyrsta og fékk af honum aðalskaparbréf 1450, og fylgdi því riddaranafnbót og hirðstjórn norðan og vestan á Íslandi (Fornbrs. V. nr. 57); hélt Torfi virðingu þeirri og nafnbótum til dauðadags og andaðist hann í Björgvin síð sumars 1459.

**Stranda-Kolur** var lengi með Torfa hirðstjóra Arasyni (Fornbrs. III. 771. bls.) og er ekki ólíklegt, að hann hafi um hríð verið valdamaður á Ströndum, meðan Torfi hafði hirðstjórn (ɔ: 1450). Ekki er mér kunnugt um ætt Kols, eða hvenær hann dó, en hann sýnist hafa lifað enn nokkra hríð, eptir andlát Torfa Arasonar, og orðið gamall maður.

**Brandur Jónsson** lögmaður var umboðsmaður Torfa hirðstjóra 1459 (Fornbréfasafn V. nr. 167 og 171).

**Skúli Loptsson** hins ríka, albróðir Orms og Sumarliða, átti eignir miklar á Vestfjörðum, og kynni að hafa verið umboðsmaður Bjarnar ríka yfir Strandasýslu, fyrst eptir andlát Torfa Arasonar, til c. 1463. Skúli átti Helgu hina yngri, systur Bjarnar, og lifðu þau lengi eptir að Björn var veginn (1467); með þeim Birni og Skúla var vináttа mikil jafnan og er líklegt, að Skúli hafi því notið tengda við Björn og þegið völd af honum.

**Loptur Ormsson,** Loptssonar hins ríka, mun hafa verið umboðsmaður Björns ríka yfir Strandasýslu, eptir að Björn tók við hirðstjórn yfir öllu Íslandi 1463, því að Skúli mun þá hafa tekið völd yfir Húnavatnssýslu um hríð af Birni, en Andrés Guðmundarson

Þorleifs og hans ættingja; kom svo, að Andrés tók að gera heimreiðir og fjárupptektir hjá Þorleifi og Einari Björnssonum; loks fangaði Þorleifur hirðstjóri Björnsson Andrés 1483, átti Andrés þá að dæmast eptir lögum, en fyrir auðmjúka bón Þorbjargar konu hans og annara góðra manna, varð sú sætt, að Andrés skyldi lúka 1 hundrað hundraða, en Þorleifur gaf hon-

---

mun naumast hafa tekið við sýslunni, fyr en eptir andlát Björns ríka. Andrés var fyrst sveinn Þorleifs junkæra Björnssonar 1462, og er svo að sjá sem Þorleifur hafi gefið Andrési jarðir til kvonarmundar, en síðar hafið hann til valda, þótt sundurþykki yrði nokkurt þeirra á milli síðan. Loptur Ormsson kemur fyrst við bréf 1459; hann afhendir Hítardal Sigurði (beigalda) Jónssyni, í umboði Jóns biskups krabba, í fardögum 1463. Í bréfi sínu til Brands lögmanns Jónssonar 1467, kvartar Björn ríki um gripdeildir Lopts frænda síns, og segir hann Lopt þá setztan á Gnúp (í Dýrafirði) í óleyfi sínu, og getur þess, að Loptur og félagar hans hafi gengið á eignir Helgafellsklausturs (Fornbrs. V. nr. 432). 1470 er Loptur orðinn riddari (Fornbrs. V. nr. 519), en eigi þekkist nú aðalskaparbréf hans, og mun það vera glatað með öllu. Loptur bjó á Staðarhóli eptir föður sinn og gerðist auðugur maður, 1471 fær Solveig Þorleifsdóttir Lopti syni sínum í hendur alla peninga sína og jarðir á Vestfjörðum (Fornbrs. V. nr. 563—564). 11. apríl 1474 ættleiðir Loptur Stefán son sinn að Staðarhóli í Saurbæ, og arfleiðir hann að ýmsum jörðum, sem nafngreindar eru í bréfinu (Fornbrs. V. nr. 662). 1. júlí sama ár kaupir Loptur 15 hundruð í Hamraendum í Dölum, af Katli Ormssyni (Fornbrs. V. nr. 671); átti Loptur áður 15 hundruð í Hamraendum, en síðar, 1475, fékk hann þessa þrjá tigi hundraða til eignar Sigurði Daðasyni í Bjarnarhöfn (Fornbrs. V. nr. 707). 1475 stefnir Loptur Solveigu móður sinni um hald á jörðinni Víðidalstungu, er hann kallaði sér til arfs hafa fallið eptir Einar bróður sinn († 1470) (Fornbrs. V. nr. 719). Þetta sumar hefur Loptur farið utan, því að hann kemur við bréf nokkurt í Hereyjum á Sunnmæri 11. okt. 1475 (Fornbrs. V. nr. 713); er varla efi á að stefnubréf Lopts til Solveigar sé gert fyrir þá utanför Lopts og mundi það því eiga að standa nokkru framar, en það er sett í tilv.bindi Fornbréfasafnsins. Loptur andaðist um 1476, að líkindum í Noregi; hann var tvíkvæntur og var fyrri kona hans Steinunn Gunnarsdóttir frá Sælingsdalstungu, Jónssonar; þeirra synir Stefán og Pétur. Loptur og Steinunn skildu, og kvæntist Loptur þá litlu síðar úti á Hálogalandi (1470) Gunnhildi Pétursdóttur (Fornbrs. V. nr. 501); þau munu ekki hafa átt börn.

um upp 60 hundruð þar af, og lofaði Andrés að vera aldrei móti Þorleifi þar eptir[1]). — 1473 seldi Andrés með samþykki konu sinnar, Þorbjargar, hálfan Arnarstapa Guðmundi Stefánssyni. Eptir dauða þeirra Björns sona, Þorleifs og Einars, þegar Björn yngri Þorleifsson hafði tekið við hinu mesta af fé Guðmundar, sættist Björn við Andrés og sonu hans 1498 með því móti, að Björn yfirlét þeim allar jarðir í Ísafjarðar- og Strandasýslu, sem Guðmundur ríki hafði átt, en þeir bræður Birni allar jarðir í Barðastrandarsýslu og syðra, sem Guðmundur átt hafði. Þetta framfór í Bæ á Rauðasandi (1498). Andrés lifði enn 1507[2]).

---

1) Sundurþykki þeirra Andrésar og Björnssona mun ekki hafa orðið að neinum mun, fyr en eptir 1480, eptir því sem nú má ráða af bréfum frá þeim tíma. Heimreið Andrésar á Reykhóla og viðureign hans við Björnssonu gerðist 8. jan. 1483.(Fornbrs. VI. nr. 416), en dómur um Reykhólaför er háður af tylft manna, að skipan Þorleifs, í Berufirði 20. jan. s. á. (Fornbrs. VI. nr. 417). Af því að Andrés hafði tekið virki það, er þeir Þorleifur höfðu á Reykhólum, og sézt þar með fylgdarlið sitt og gert ýmsar óspektir, sem þóttu minnilegar þeim er fyrir urðu, kölluðu menn vetur þennan virkisvetur (1483).

2) Eins og hér er sagt, hafa þeir Björn ríki og synir hans fyrst viljað vera í vináttu við Andrés, og því gefið honum til giptingar 2 hundruð hundraða og haldið brúðkaup hans á Reykhólum 1461 fyrir 60 hundruð, en þegar Solveig Guðmundsdóttir seldist artsali þeim Guðmundi og Ara, sonum Andrésar, og Þorleifur ekki vildi svara þeim neinu af arfi hennar með góðu, hefur Andrés einsett sér að ná því með ofbeldi, er sonum sínum bæri og fór þess vegna um veturinn 1483 heim til Reykhóla, þar sem Þorleifur hafði aðsetur sitt, en var þá ekki heima, og kastaði eign sinni á allt, er þar var og lét leiða burt húsfrú Ingveldi Helgadóttur, konu Þorleifs og reka burt allt fólkið; áður hafði Andrés tekið nokkurn lifandi pening í Bæ á Rauðasandi, er eignaður var Einari Björnssyni, bróður Þorleifs. Peningur sá var 5 kýr, 40 fjár, 2 hestar og 1 hross. Þegar Andrés hafði tekið Reykhóla, lét hann hlaða þar virki eður nokkurs konar girðingu, þó eigi öðruvísi, en að hann lét hlaða háfan garð í húsasundum, svo hægra væri að verja bæinn. En þegar Þorleifur frétti þetta, safnaði hann mönnum og tók aptur Reykhóla, lét taka Andrés fanginn og útnefndi dóm yfir honum, og er sagt að Þorleifur hafi viljað láta drepa Andrés. Andrés vildi ekki biðja

# Guðmundur Andrésson.

*Faðir:* Andrés Guðmundsson, nýnefndur.

friðar og á að hafa sagt, að það væri víkingasiður að deyja fyrir vopnum, en fyrir góðra manna milligöngu og tillögur gaf Þorleifur honum líf. Er sættargerð þeirra gerð á Reykhólum 16. apríl 1483 (Ísl. Fornbréfas. VI. nr. 424). — Um Reykhólareið og viðskipti þeirra Andrésar og Þorleifs er allmerk frásögn í ritgerð Jóns lærða »Um ættir og slekti«, er innan skamms mun birtast í Safni til sögu Íslands og sleppi eg því að minnast frekara á það hér, sbr. bréf um viðureign þeirra Þorleifs: Ísl. Fornbréfasafn VI. nr. 416—417.

Á Öxarárþingi 1501 kröfðu þeir Andrés og synir hans Finnboga lögmann, að útnefna dóm um það, hvort Solveig Guðmundardóttir skyldi vera löglegur erfingi móður sinnar. Dómsmennirnir voru: Einar Oddsson, Ingimundur Finnsson, Gísli Philippusson, Vigfús Þórðarson, Salómon Þórðarson, Halldór Þorgeirsson, Sigurður Daðason, Jón Hrafnsson, Helgi Þorvaldsson, Bjarni Andrésson, Oddur Sigurðsson og Arnór Finnsson. Í fyrstu sýndist það þar, að greind Solveig hefði selst löglegu arfsali við þá bræður Guðmund og Ara og þeim til fullrar eignar og allrar sóknar gefið alla þá peninga, sem hún ætti eður mætti eigandi að verða eður orðið hefði með erfðum eður öðrum hlutum. Síðan hafa dómendur reiknað móðurarf Solveigar 6 hundruð hundraða eptir kaupmálabréfi þeirra Guðmundar og Helgu, því Guðmundur hafði talið sér til kaups við konu sína 12 hundruð hundraða á giptingardegi, en Kristín Björnsdóttir kjöri Helgu dóttur sína helminga konu í garð Guðmundar. Síðan heldur dómurinn þannig áfram: »Í annari grein kom þar fram fyrir oss, að Björn bóndi Þorleifsson og Einar bróðir hans hefðu reiknað sig og haldið erfingja greindrar Solveigar systur sinnar og þeim þætti hún hvorki eiga að taka arf eptir föður sinn né móður fyrir þann skuld hún skyldi í útlegð getin vera og þóttust hafa þar upp á réttarbót, að það barn skyldi hvorki taka arf eptir föður sinn né móður, sem svo getið væri. Nú af því oss leist það ekki skynsamlegt, að kvinnan gjaldi þess eða hennar börn, sem bóndinn brýtur, það annað, vér vitum þessa réttarbót aldrei fyrir lög gengið hafa hér í landi, eður eptir henni dæmt hafa verið, það þriðja þar kom fram útskript af kongs Christjans bréfi, að hann fullkomlega skipaði með þessari bréflegri skript Solveigu Guðmundsdóttur allan þann sinn móður arf, því leitst oss vor herra konungurinn sjálfur ónýta hafa gjört fyr skrifaða réttarbót. Því fyrir þessar greinir dæmdum vér með fullu dómsatkvæði, áður greinda Solveigu Guð-

*Móðir:* Þorbjörg Ólafsdóttir, áðurnefnd.
*Kona:* Þrúður eður Jarþrúður dóttir Þorleifs hirðstjóra Björnssonar (sbr. Barðastr.sýslu).
*Börn:* A. Þorleifur í Stóraskógi í Dölum, hans kona Ingibjörg Jónsdóttir, Erlingssonar; þeirra börn:

1. Séra Jón (sjá um hann og hans niðja Barðastrandarsýslu).
2. Guðmundur í Stóraskógi átti Sigríði dóttur séra Ólafs Magnússonar á Stað á Reykjanesi[1]); þeirra börn:
   a. Björn í Skógi[2]) átti Margréti dóttur Bjarna á Fellsenda Sumarliðasonar, þeirra börn:

---

mundsdóttur löglegan erfingja Helgu Þorleifsdóttur móður sinnar til alls síns móðurarfs, sem sagt kaupmálabréf útvísar. En sakir þess, að nú héldu þessa peninga ýmsir menn þeir, sem tilkölluðu sagðra peninga til eignar eða umboðs, en þeir voru engum löglega dæmdir, þá vissum vér ei, hvern sækja ætti. Því dæmdum vér greindri Solveigu Guðmundsdóttur til fullrar eignar, en áðurgreindum Andrési og sonum hans Guðmundi og Ara til halds og aðtöku hennar vegna réttilega jörðina Saurbæ á Rauðasandi og allar þær jarðir, er þar með fylgja og Helga hafði heiman, og svo allar þær jarðir, er Guðmundur átti þar innan þing(h)ár og Andrés hefur nú að haldi. Skal Andrés og hans opt nefndir synir, Guðmundur og Ari, þessa áðurgreinda peninga frjálslega halda mega, en Solveig á án nokkrar afhendingar af þeim öðrum, sem tilkalla greindra peninga, svo mikið, sem þeir halda nú áður. En það meira er og ábrestur við það, sem kaupmálabréf Guðmundar og Helgu útvísar, sem áður er dæmt, þá skulu þeir sækja með lögum af þeim, sem hald hafa á áðurgreindum peningum. Samþykkti þennan dóm o. s. frv.«

Það er fróðlegt að sjá, hversu bú Þorleifs Björnssonar á Reykhólum, hefur verið minna en Guðmundar Arasonar, er hann bjó þar. Þetta má nokkuð sjá af skrá þeirri yfir peninga og fjármuni Þorleifs, er Andrés Guðmundsson tók á Reykhólum og prentuð er í Ísl. Fornbr.safni VI. nr. 418.

1) Guðmundur keypti Stóraskóg af bræðum sínum fyrir Fremra-Gufudal og Fremra-Hundadal. Seinni kona Guðmundar hét Kristín, ættuð að norðan og uppalin á Reynistað hjá abbadís Solveigu. Guðmundur veiktist, og skildu þau viljandi. Hann dó 1565, og átti ekki barn með Kristínu.

2) Björn bjó í Stóraskógi, átti þá jörð og fleiri.

aa. Jón á Rauðamel[1])
bb. Gyríður[2]).
cc. Guðmundur[3]).
dd. Guðrún[4]).
ee. Ingibjörg[5]).
ff. Þórunn[6]).

b. Ingibjörg átti Séra Ólaf Brandsson á Kvennabrekku[7]), börn:

---

1) Jón á Rauðamel átti hálfan Stóraskóg og seldi hann Magnúsi lögmanni fyrir Syðra-Rauðamel.

2) Gyríður átti Árna Gíslason á Staðarfelli.

3) Guðmundur erfði hálfan Stóraskóg og seldi hann Magnúsi lögmanni Björnssyni fyrir Háfafell.

4) Guðrún átti Magnús Einarsson, Teitssonar í Ásgarði.

5) Ingibjörg átti Helga Einarsson bróður Magnúsar, er átti Guðrúnu systur hennar, þeirra börn:

1. Sigurður prestur við Hellna († 1688); börn hans komust ekki upp.
2. Egill prestur í Skarðsþingum († 1695) átti Ragnhildi Þórðardóttur; þeirra börn:
   a. Sigurður í Ásgarði. Hans son:
      aa. Bjarni stúdent í Bjarnarhöfn, dó 1742, faðir Ragnhildar konu séra Arngríms Jónssonar á Melum.
3. Þorsteinn átti Ólöfu Bárðardóttur.
4. Ragnhildur átti Helga Vigfússon prests í Hellnaþingum Helgasonar, þeirra börn:
   a. Helgi. Hans son
      aa. Vigfús spítalahaldari á Hallbjarnareyri faðir Ásgríms Hellnaprests.
   b. Ingibjörg f. k. Steindórs sýslumanns Helgasonar (sjá Hnappadalssýslu).
5. Halla átti Ólaf Jónsson í Króksfirði.
6. Sigríður átti Jón son Galdra-Brands Einarssonar í Stóraskógi. Ein dóttir þeirra Þóra átti Jón yngra Jónsson bróður Jóns á Munaðarhóli. Meðal barna þeirra var Anna móðir Ólafs dannebrogsmanns á Lundum og Péturs í Ólafsvík, föður Ólafs smiðs á Kalastöðum.

6) Réttara Þóra. Hún var seinasta kona séra Gunnars Pálssonar á Gilsbakka.

7) Séra Ólafur var þríkvæntur og átti 26 börn. Ingibjörg var fyrsta kona hans.

aa. Guðmundur[1]).
bb. Jón[2]).
cc. Sigríður[3]).

---

1) Guðmundur átti Oddfríði dóttur séra Nikulásar Narfasonar á Hítarnesi; þeirra börn:

a. Nikulás prestur í Flatey átti Ingibjörgu Þórólfsdóttur, er átti hálfan Skálmarnesmúla og bjuggu þau þar, þeirra börn:
  aa. Finnur átti fyrst Ingibjörgu Arngrímsdóttur: þeirra barn: Þórólfur, svo Hallbjörgu Þorgrímsdóttur Halldórssonar prests í Gufudal Teitssonar og mörg börn, síðast Guðrúnu Finnsdóttur frá Leikskálum Þorvarðssonar — Þórólfur Finnsson lærði í Skálholtsskóla, en bjó síðan búi sínu í Skálmarnesmúla. Sonur hans var Finnur Muhle stúdent, er dó við háskólann í Göttingen á Þýzkalandi 1776.
  bb. Þórólfur dó 1707 átti Þórunni Jóhannsdóttur prests í Otrardal Jónssonar Styrssonar; þeirra börn:
    a. Jóhann prestur í Gufudal († 1771) faðir Lopts skálds, Þórólfs á Óspakseyri í Bitru o. fl.
  cc. Guðrún átti Sigurð Sigurðsson lögréttumann; þeirra börn: séra Sigurður í Flatey, Guðmundur sýslumaður á Ingjaldshóli, Þorgrímur sýslumaður í Hjarðarholti, Þóra og Ragnhildur móðir Eggerts lögmanns Ólafssonar.
  dd. Þorkatla átti Rafn Jóhannsson prests í Otrardal Jónssonar.
  ee. Vigdís átti Bjarna Egilsson.
  ff. Hallbjörg átti Ívar Sturluson; þeirra börn:
    a. Sturla.
    b. Guðrún átti Ólaf Arngrímsson bróður Ingibjargar 1. konu Finns Nikulássonar.
  gg. Ingigerður átti Grím Jónsson Gíslasonar prests að Stað á Reykjanesi Einarssonar og börn, þar á meðal var Páll á Klett í Kollafirði, faðir Magnúsar, föður Ara, föður Finns hreppstj. á Eyri. Það er kölluð Eyraræatt.
  hh. Halla átti séra Bjarna Jóhannsson í Otrardal.
  ii. Kristín átti Brand Brandsson í Skáleyjum og mörg börn þar á meðal var Bjarni faðir séra Guðmundar í Árnesi († 1824).

b. Ólafur lögréttumaður í Ytra-Skógarnesi átti Þóru Ólafsdóttur frá Borgarholti Tómassonar, þeirra börn: Jón, Oddbjörg, Kristín og Halla.

2) Jón var 4. og síðasti maður Valgerðar Ólafsdóttur prests á Helgafelli Einarssonar, bl.

3) Sigríður átti Bergþór son Bjarna Sveinssonar og Þuríðar Jóns-

c. Þóra átti séra Þórð í Hjarðarholti Moldar-Brandsson, börn:
aa. Pétur[1]).
bb. Guðmundur[2]).
cc. Brandur[3]).
dd. Björn[4]).
ee. Sigríður[5]).
ff. Ingibjörg[6]).

---

dóttur frá Jörfa í Haukadal; þeirra börn: Vermundur, Bjarni, Hallur, Ingibjörg og Þorgils faðir Sigurðar á Jörfa, föður Þorsteins sýslumanns í Múlaþingi afa Guðmuudar sýslumanns Péturssonar í Krossavík.

Enn var dóttir séra Ólafs Brandssonar og Ingibjargar: Halla átti Eirík son Þormóðs Eiríkssonar úr Hrútafirði bl.

1) Pétur bjó á Fellsenda í Dölum, var skynsemdarmaður og skáld, átti fyr Evfemíu Þorleifsdóttur, svo Sigríði Böðvarsdóttur prófasts í Reykholti Jónssonar.

2) Guðmundur átti Helgu dóttur séra Magnúsar Péturssonar í Miðdölum og Oddnýjar Guðmundsdóttur, hálfsystur séra Jóns í Hítardal, áttu 10 börn.

3) Brandur átti Helgu dóttur séra Jóns Grímssonar á Prestbakka, bl. Hún gaf próventu sína Bjarna sýslumanni Péturssyni á Staðarhóli, og þar eyddi Brandur fé sínu.

4) Björn átti fyrst Önnu dóttur Arnórs Loptssonar í Ljáskógum (sjá hér síðar) svo Oddhildi Eyjólfsdóttur, þeirra börn:
a. Sigurður faðir Helgu móður Sigurðar Vigfússonar sterka sýslumanns í Stóraskógi (sjá Dalasýslu).
b. Þórður í Garpsdal faðir Magnúsar sýslumanns í Barðastrandarsýslu (sjá hér bls. 119—120).
c. Anna átti Magnús Pálsson.
d. Gyríður átti Guðmund Oddsson látúnssmið. 3. kona Björns Þórðarsonar var Guðríður dóttir séra Rafns Þorvaldssonar í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd, áttu einn son, Björn, er dó ungur.

5) Sigríður, 2. kona séra Brynjólfs Bjarnasonar í Hjarðarholti, þeirra börn: Snæbjörn og Bergljót, dóu bæði ógipt. Sigríður dó 1646.

6) Ingibjörg átti Svein Ólafsson frá Bæjum á Snæfjallaströnd, þeirra son:

Þórður prestur í Ögurþingum, »hafði miklar hugvits og hagleiksgáfur og sumar heimuglegar, en var ekki upp á veraldarsýslan« segir séra Jón Halldórsson í ættatölum sínum. Var um hríð í Skálholti á framfæri Brynjólfs biskups, varð þar sturlaður á geðsmunum og

d. Guðrún átti Bjarna Brandsson[1]), hann dó 1610 af munnbita, börn:
aa. Páll, barnlaus[2]).
bb. Guðmundur, barnlaus[3]).
e. Gróa átti Þorvarð Moldar-Brandsson[4]), börn:
aa. Björn[5])
bb. Sigríður[6]).
cc. Halla[7]).
dd. Karítas[8]).

---

þunglega haldinn, var fluttur úr Skálholti á kviktrjám vestur að Bæjum 1666 til Ólafs bróður síns og dó þar ári síðar (1667) (sjá meira um hann Landfræðissögu Þ. Thoroddssen II. 67—68).

1) Hann var bróðir þeirra séra Ólafs á Kvennabrekku, séra Þórðar í Hjarðarholti og Þorvarðs og hafa þeir 4 bræður átt sína systurina hver, dætur Guðmundar Þorleifssonar í Stóraskógi. Bjarni var lögréttumaður. Hann dó í alþingisreið á Lundi í Lundareykjadal af munnbita á Þingmaríumessu (8. júlí) 1610.

2) Páll átti son, er Bjarni hét, hann lærði í skóla, fór til Hollands, dó þar bl.

3) Hann drukknaði fulltíða bl.

4) Bróður hinna fyrnefndu bræðra Brandssona. Eptir dauða hans giptist Gróa séra Erlendi Pálssyni á Breiðabólstað og var s.k. hans.

5) Björn var tvíkvæntur, átti 1 barn með fyrri konunni Guðrúnu Ólafsdóttur, en 7 með hinni síðari Kristínu Ásmundsdóttur prests í Miklaholti Nikulássonar.

6) Sigríður átti séra Ólaf Erlendsson á Breiðabólstað í Vesturhópi. Þeirra synir voru séra Erlendur á Melstað og séra Þorvarður á Breiðabólstað. Frá þeim miklar ættir.

7) Halla átti Ólaf Þórðarson frá Oddsstöðum í Miðdölum, þ. b.

a. Ingiríður átti Sighvat Jónsson í Sellóni.
b. Guðrún átti Þorkel Tómasson.
c. Karítas átti Jón Hrómundsson. Ein dóttir þeirra Guðrún (yngri) átti Jón Auðunarson á Melum í Hrútafirði. Hans niðjar hafa jafnan síðan búið á Melum, sonur eptir föður, til þessa dags. Frá Jóni Auðunarsyni er Jón prófastur á Stafafelli kominn í beinan karllegg.
d. Gróa átti fyrst Sigurð Hallvarðsson frá Vík í Eyrarsveit bl., svo Egil Ólafsson prests á Helgafelli Einarssonar.

8) Karítas átti séra Sumarliða Einarsson í Blöndudalshólum († 28. apríl 1658 84 ára). Hún varð holdsveik.

3. Bjarni Þorleifsson átti Sigríði dóttur Jóns ríka á Hvanneyri Þórðarsonar frá Borg, börn:
   a. Þorleifur átti Elínu dóttur Moldar-Brands, börn:
      aa. Þórður[1]).
      bb. Sigurður[2]).
      cc. Þorvarður[3]).
      dd. Jón[4]).
      ee. Gróa[5]).
      ff. Sigríður[6]).
      gg. Guðrún[7]).
   b. Þorvarður, dó barnlaus.
4. Bjarni yngri átti Þórdísi Guðmundsdóttur[8]), börn:

---

1) Þórður átti Ingibjörgu Gísladóttur eldra Jónssonar og Guðrúnar Narfadóttur prests í Hítarnesi, þ. b. meðal annara: Þorleifur, mikill formaður á Hjallasandi, kallaður af sumum »Drífu Leifi«, bjó í Loptsbúð, drukknaði um 1672 með Bjarna syni sínum fyrir Keflavíkurbjargi, er hann fór drukkinn úr Rifskaupstað um vorið. Bróðir Þorleifs var Gísli faðir Þórðar á Höfða í Eyrarsveit.

2) Mun vera réttara Sigríður, því að þær voru tvær dætur Þorleifs, er svo hétu. Átti Sigríður eldri Jón Ketilsson þeirra börn:
a. Ketill faðir Þorsteins á Einifelli og Hlöðutúni. Þaðan ættir.
b. Gísli. Hans son:
   aa. Jón, drukknaði í Norðurá hjá Stafholti á jóladaginn á heimleið frá kirkju. Börn hans voru: Magnús á Vatnabúðum faðir Erlendar skólameistara í Skálholti og síðar prests í Odda og Þóra móðir Arnbjarnar Runólfssonar stúdents í Syðri-Görðum í Staðarsveit, er dó 1759 (útskrifaður úr skóla 1721).

3) Þorvarður var tvíkvæntur. Ætt frá honum ekki kunn.

4) Jón átti Dýrfinnu Þorleifsdóttur. Þeirra son Tómas faðir Þórðar föður Halls á Moldbrekku.

5) Gróa átti Torfa á Mel í Hraunhrepp og Fíflholtum son Ólafs Brandssonar á Leirá og 3 börn.

6) Sigríður yngri átti Gísla Guðmundsson, þeirra dóttir Sesselja átti Jón á Hróðnýjarstöðum Guðmundsson frá Dunki Bjarnasonar.

7) Guðný var ein dóttir Þorleifs og Elínar Brandsdóttur, hún átti Snorra son Jóns Ingimundarsonar á Hnausum undir Kirkjufelli.

8) Faðir Þórdísar var Guðmundur Guttormsson í Gröf í Sökkólfsdal.

a. Bjarni átti Guðrúnu Ormsdóttur bl.
b. Guðrún átti Ólaf Sigurðsson á Keisbakka.
B. Séra Ólafur í Hjarðarholti, sjá hér síðar.
C. Eiríkur í Ásgarði, sjá Dalasýslu.
D. Þorsteinn, frilla hans var Guðrún Ásmundsdóttir, er hann átti flest börn sín með; börn:
1. Séra Oddur í Tröllatungu, átti fyr Geirdísi Torfadóttur; systir hennar var Arnfríður, og átti séra Oddur barn með henni, er hét
a. Guðmundur.
Páll Stígsson náðaði séra Odd, svo að hann fékk aptur prestskap, því 7 heimilismenn sóru, að eigi hefðu séð líkindi til, að séra Oddur hefði nauðgað Arnfríði. Síðar átti séra Oddur Sigþrúði Magnúsdóttur, börn:
b. Séra Þorsteinn í Skarðsþingum átti fyr Steinunni Halldórsdóttur frá Fróðá, Jónssonar, Halldórssonar, börn:
aa. Guðrún[1]).
bb. Gísli.
cc. Böðvar[2]).
dd Þorsteinn.
ee. Oddný.
ff. Helga.
gg. Eiríkur[3]).
hh. Tómas.
Svo átti hann Engilráð Eiríksdóttur og með henni 6 börn, sem eigi urðu að mönnum.

---

1) Guðrún, Gísli og Tómas eru rétt talin fyrri konu börn séra Þorsteins. Ólafur, Bergur og Ráðhildur alsystkini þeirra dóu ung, en Böðvar, Þorsteinn, Oddný, Helga og Eiríkur voru börn séra Þorsteins og s. k. hans Engilráðar. Flest voru börn séra Þorsteins óráðvönd eða afmenni.

2) Böðvar var um hríð í Hólaskóla, en rekinn þaðan fyrir óknytti, fór ljúgandi og stelandi, og lenti á Brimarhólmi; var söngmaður góður.

3) Eiríkur var svipaður Böðvari bróður sínum, og kom sér illa, kvæntist þó Margrétu nokkurri.

c. Nikulás lögréttumaður á Kjarlaksstöðum og Brekkubæ átti Guðnýju laundóttur Bjarna Oddssonar á Skarði, börn:

aa. Guðrún[1]).

bb. Halldóra[2]).

cc. Barbara[3]).

dd. Guðmundur, laungetinn[4]).

d. Jón Oddsson á Tjaldanesi og Fagurey átti Steinunni Halldórsdóttur, komst í dulsmál með systur konu sinnar, en strauk sjálfur til Hollands[5]), börn:

aa. Brandur.

bb. Hildur.

cc. Oddur[6]).

e. Guðrún átti Halldór, börn:

aa. Margrét[7]).

bb. Arnfríður[8]).

cc. Hallvarður[9]).

dd. Magnús[10]).

---

1) Guðrún átti fyr Árna Sæmundsson í Syðri-Görðum í Staðsveit, svo Pál son séra Erlendar Pálssonar.

2) Halldóra átti séra Vigfús Helgason Hellnaprest.

3) Barbara var laungetin, átti Hrómund Bjarnason, þeirra son var Magnús sýslumaður í Hnappadalssýslu. Önnur laundóttir Nikulásar var Margrét, átti fyr Snorra Hallsson, svo Jón Gottskálksson.

4) Dótturson Guðmundar þessa var Jón bóndi Einarsson á Signýjarstöðum í Hálsasveit, faðir Jóns í Skáneyjarkoti, föður Ísaks á Gufunesi og Sturlu bónda á Þórustöðum í Grímsnesi. Annar launson Nikulásar Oddssonar hét Einar.

5) Sjá um Jón Oddsson og þetta dulsmál hans Árb. Esp. V. 124—125.

6) Guðrún var dóttir Jóns Oddssonar. Hún var þrígipt. Fyrsti maður hennar var Hnausa-Björn son Jóns Ingimundssonar á Kirkjufelli.

7) Margrét átti Þorstein; þeirra son Atli faðir Ólafs á Gautshamri.

8) Arnfríður átti Valgarð Sigmundsson.

9) Hallvarður bjó í Kvíum í Grunnavík. Frá honum ættir í Grunnavík og á Ströndum.

10) Magnús bjó á Kambi í Trékyllisvík. Hans son Jón á Kambi.

ee. Guðrún[1]).

2. Ásmundur Þorsteinsson átti Þuríði dóttur Þorbergs sýslumanns Bessasonar, börn:

a. Séra Þorsteinn í Vesturhópshólum átti 1617 Margréti dóttur Bjarna í Skriðu Pálssonar, Grímssonar, börn:

aa. Séra Bjarni samastaðar[2]).

bb. Ásmundur[3]).

cc. Guðrún[4]).

dd. Halldóra[5]).

b. Þorbergur prófastur á Möðruvöllum[6]), dó 1656, átti Guðrúnu, dóttur Þorkels Hóla ráðsmanns, Gamlasonar, þeirra dóttir: Helga[7]).

---

Hans synir Ásbjörn faðir Jörundar í Krossnesi og Alexíus faðir Gríms skipasmiðs á Dröngum og fleiri bræðra, sem fjölmenn ætt er frá komin í Trékyllisvík og þar á Ströndum.

1) Guðrún átti Guðmund Helgason.

2) Sonur séra Bjarna var séra Páll faðir séra Gunnars Pálssonar og Bjarna landlæknis Pálssonar.

3) Ásmundur bjó í Skjaldarvík.

4) Guðrún átti Illhuga Þórðarson fálkafangara á Sólheimum í Svínadal; þeirra son

1. Þorbergur prófastur á Prestsbakka í Hrútafirði. Hans son Illhugi smiður á Laugum í Hvammssveit.

5) Halldóra var síðari kona séra Þórarins Jónssonar á Hrafnagili; þeirra son Jón prófastur í Hjarðarholti, föðurfaðir Árna biskups Þórarinssonar.

6) Séra Þorbergur var ekki prestur á Möðruvöllum. Hann var síðast dómkirkjuprestur á Hólum og dó 27. nóv. 1659 (ekki 1658 eins og segir í prestatali Sveins Níelssonar).

7) Helga var fyrsta kona séra Gunnlaugs Sigurðssonar í Saurbæ, þeirra börn:

1. Þorsteinn prestur í Möðrudal og Þingeyraklaustri faðir Hjalta prófasts í Vatnsfirði og bræðra hans.
2. Jón stúdent, innritaður við háskólann 7. júní 1655, dó í Khöfn.
3. Þorlákur, var á Suðurlandi, átti Önnu Árnadóttur frá Heylæk, þ. b.

a. Erlendur. Hans son var

aa. Helgi bóndi í Vindási á Landi og síðar Hæringsstöð-

c. Ingibjörg átti fyr Magnús Jónsson, börn:
aa. Sigríður[1]).
bb. Hildur.
cc. Helga.
dd. Ísleifur.
Ingibjörg átti seinna Gottskálk.
3. Ólöf Þorsteinsdóttir átti séra Björn á Völlum Tómasson.
4. Ingibjörg átti Jörund Jónsson.
5. Guðmundur.
6. Sigurður[2]).

E. Ormur Guðmundsson átti Guðlaugu Brandsdóttur (honum gaf Ari í Bæ jarðir), sjá Dalasýslu, börn:
1. Árni (eða Ari[3])) átti Sigríði frá Hjörtsey Þorsteinsdóttur bl.
2. Sigríður átti Guðmund Halldórsson systurson Daða[4]), börn:
a. Ingveldur átti Sigurð son séra Þorsteins á Breiðabólstað á Skógarströnd[5]), áttu börn, svo dó móðirin, svo barnið (þar af varð arfaþræta). —
b. Ragnhildur (aðrir Ráðhildur), fyrri kona séra Gísla Guðbrandssonar í Hvammi í Hvammssveit, börn:
aa. Sigurður[6]).
bb. Kristín[7]).

---

um í Flóa faðir Erlendar bónda á Hæringsstöðum, sem fjölmenn ætt er frá komin í Árnessýslu. Framætt Erlendar hefur ekki áður kunn verið, en þetta er áreiðanlega rétt.

1) Réttara: Sigurður, Hann bjó í Hafnardal.

2) Réttara: Sigríður.

3) Ari er víst réttara.

4) Guðmundur var bróðurson Daða. Hann bjó í Hlíð í Hörðudal.

5) Séra Þorsteinn var Oddsson, dó 1602.

6) Sigurður var ágætur húsasmiður, átti Skarðshamra í Norðurárdal. Hans kona Jórunn dóttir séra Jóns Þormóðssonar.

7) Kristín átti Einar Pétursson.

cc. Sigríður[1]).
dd. Gísli[2])

3. Guðmundur Ormsson átti hálft Svignaskarð, hans fyrri kona Ástríður Oddsdóttir, en seinni kona Kristín, börn:
a. Ormur átti Guðrúnu Jónsdóttur frá Miðskógi, börn:
aa. Einar[3]).
bb. Ástríður[4]).
cc. Ólafur.
b. Oddur átti Arndísi Bjarnadóttur, börn:
aa. Jón[5]).
bb. Þorvarður[6]).
cc. Bjarni.
dd. Snorri.
ee. Guðrún.
ff. Ástríður.
gg. Jórunn.
hh. Guðrún (sbr. Dalasýslu)
c. Ingveldur átti Pétur, börn:
aa. Erlendur.
bb. Jón.
d. Hallfríður átti Jón í Lóni Sigurðsson, börn:
aa. Guðrún átti fyr Jón Sigurðsson í Hlíð, svo Hall.
e. Sigríður, laungetin, átti Ara Hallsson, börn:
aa. Oddný.
bb. Guðlaug.
f. Narfi Guðmundsson, laungetinn, sigldi til

---

1) Sigríður dó 1658, átti Pétur Einarsson á Ballará.

2) Gísli dó fullorðinn bl.

3) Einar bjó á Leysingjastöðum og í Ásgarði, átti Guðrúnu laundóttur Einars Teitssonar.

4) Ásríður átti Þórð Bergsson.

5) Jón átti Elínu Óttarsdóttur frá Hellu Guðmundssonar.

6) Þorvarður bjó í Villingadal, átti Brynhildi Erlendsdóttur.

Hollands; hans dóttir laungetin Ingibjörg[1]).

F. Ólöf[2]) Guðmundsdóttir átti Ívar son Narfa ábóta á Helgafelli, börn:

1. Ingveldur átti Helga Brandsson, börn:

a. Guðmundur á Eyri í Seyðisfirði, átti Arndísi dóttur Fúsa Brúmanns, börn:

aa. Ragnhildur[3]).

bb. Ingveldur átti Jón Dan[4]).

b. Margrét átti Fúsa, son Jóns Grímssonar, er veginn var í Síðumúla 1571, og Kristínar Fúsadóttur, börn:

aa. Helgi[5]).

bb. Margrét[6]).

cc. Bjarni[7]).

---

1) Launson hennar með Birni Össurarsyni var Ögmundur á Sauðhúsum í Laxárdal.

2) Sumir sleppa Ólöfu og setja Ingveldi í staðinn og telja mann hennar Brand Helgason, telja svo son þeirra Helga og konu hans Ingveldi Ívarsdóttur, Narfasonar ábóta, þeirra son Guðmundur á Eyri o. s. frv. En þetta sem hér er talið (Ólöf kona Ívars Narfasonar o. s. frv.) mun réttara. Svo telur séra Jón á Lambavatni, er ritaði ættatölubók sína 1681.

3) Ragnhildur átti Gísla Árnason frá Hlíðarenda, þeirra dóttir Guðrún átti séra Jón Sigurðsson á Breiðabólstað.

4) Þ. e. Jón yngra Dan Magnússon. Dóttir Guðmundar getin í meinum var Oddný, átti Jón Sigurðsson. Guðmundur dó af hugarvíli 1602.

5) Helgi var lögréttumaður og bjó á Hvítárvöllum, átti Þuríði Ásgeirsdóttur prests á Lundi Hákonarsonar.

6) Margrét átti Sigurð Guðnason frá Sámsstöðum Þormóðssonar (sbr. I. B. bls. 502).

7) Bjarni var laungetinn son Vigfúsar.

Enn voru dætur Vigfúsar og Margrétar:

dd. Sesselja átti Hálfdan Þiðriksson, Hálfdanarsonar.

ee. Sigríður átti Helga Ólafsson, Sveinssonar. Hann mun hafa búið í Geitlandinu, þeirra son:

a. Ólafur átti Ingibjörgu Einarsdóttur, Styrssonar frá Varmalæk, þeirra son:

G. Guðrún laungetin, fyrri kona Bjarna á Fellsenda Sumarliðasonar, börn:

1. Þorleifur á Fellsenda átti fyr Evfemíu, frillu Daða sýslumanns í Snóksdal, þau barnlaus (aðrar ættartölur segja, að Evfemía hafi verið fyrri kona Bjarna Sumarliðasonar. föður Þorleifs). — Þorleifur átti svo Kristínu Árnadóttur Björnssonar[1]).
2. Jón átti Brígetu dóttur séra Ólafs fyrra á Kvennabrekku, börn:
   a. Bjarni berhöfðaði, átti Signýju Jónsdóttur Eldjárnssonar, son
      Sigurður fátæklingur í Laxárdal.
   b. Anna átti Halldór Ólafsson, þeirra börn fátæklingar.
   c. Ingibjörg átti Erlend Pétursson, börn:
      aa. Jón.
      bb. Brynjólfur.
   d. Sigmundur fór um í Laxárdal.
   e. Sigurður, eins.
3. Jarþrúður átti fyrst Magnús[2]), börn:

---

aa. Ásmundur á Bjarnastöðum í Hvítársíðu, er fjölmenn ætt er frá komin þar um slóðir. Föðurætt hans hefur ekki áður verið þannig rakin, en þetta mun rétt.

1) Jónssonar biskups Arasonar. Þorleifur og Kristín áttu tvær dætur Steinunni og Evfemíu (sbr. Bisks. II. 377).

2) Í ættatölum er jafnan talið svo sem hér er gert, að 1. maður Jarþrúðár hafi verið Magnús, 2. maður Hinrik Gerken og 3. maður Nikulás á Seljalandi. Frá þessari röð er því hæpið að breyta, enda er hún líklega rétt. Hvergi er þess getið í ættatölum, hverra manna Magnús 1. maður Jarþrúðar hafi verið, eða hvar þau hafi búið. En eg hygg, að Magnús þessi hafi verið Magnús á Núpi í Eystrihrepp, son Jóns Magnússonar, er þar bjó áður á dögum Stefáns biskups og þótti spekingur að viti. Hefur Jarþrúður verið síðari kona Magnúsar, en fyrri kona hans var Guðrún Erlendsdóttir bónda á Stóruvöllum Jónssonar og Guðnýjar Torfadóttur frá Klofa. Börn þeirra voru (sbr. Safn til sögu Íslands I, 54): Jón, er bjó á Núpi, faðir Torfa lögréttumanns í Hlíð, Erlendur sýslumaður (sjá Múlaþing) föðurfaðir Þormóðar Torfasonar, Magnús, Guðni, Ari,

a. Guðmundur[1]) átti fyr Auðbjörgu Nikulásdóttur, börn:
aa. Magnús[2]).
bb. Ívar, af þeim engir komnir[3]).

---

Úlfhildur og Ingveldur. En börn Magnúsar og Jarþrúðar voru Guðmundur, Jón og Ingibjörg (sjá hér að ofan). Í dómabók Jóns sýslumanns Vigfússonar í Árnessýslu, sem geymd er í Landskjalasafninu, en orðin mjög rotin, er framfærsludómur einn frá 1667, þar sem talað er um Jón Magnússon á Núpi sammæddan bróður Þórdísar Hinriksdóttur Gerkens og Guðmund Magnússon bróður hans. En sonur Guðmundar er talinn Erlendur, og kemur það heim, því að Guðmundur Magnússon í Háfi son Jarþrúðar átti son, er Erlendur hét, líklega heitinn eptir Erlendi sýslumanni hálfbróður Guðmundar. Í dóm þessum er nefnd Ursula (eða Ursila) dóttir Jóns Magnússonar, hennar son Þorgeir átti Þuríði Hróbjartsdóttur úr Landmannahrepp, þeirra börn mörg. Að Magnús á Núpi hafi verið kvæntur Jarþrúði styðst ennfremur við það, að síðari kona Erlendar sýslumanns Magnússonar var Þórdís Hinriksdóttir, dóttir Jarþrúðar stjúpu hans og hefur hann leitað þar til mægða á líkan hátt og Jón Magnússon sonur Jarþrúðar kvæntist Ásu dóttur Hinriks Gerkens af fyrra hjónabandi eða laundóttur hans, og Guðmundur bróðir hans kvæntist Auðbjörgu dóttur Nikulásar á Seljalandi og fyrri konu hans, líklega eptir að Nikulás var kvæntur Jarþrúði móður hans.

1) Guðmundur bjó í Háfi.

2) Magnús bjó á Kotferju og í Háfi eptir föður sinn, átti Kristínu Einarsdóttur frá Sólheimum (sumir telja hana Sigurðardóttur), þ. b.
a. Guðrún átti séra Magnús Pálsson í Kálfholti.
b. Guðrún önnur átti séra Erasmus Pálsson í Hrepphólum.
c. Einar lögréttumaður í Haga faðir Magnúsar prests í Fljótshlíðarþingum.
d. Sigurður á Sandhólaferju átti Hólmfríði Hallgrímsdóttur; þeirra son Einar prestur á Hofi á Skagaströnd († 1748).

Í ættatölum er Magnúsi Guðmundssyni í Háfi blandað saman við Magnús son Guðmundar í Ossabæ í Landeyjum Gíslasonar prests í Vatnsfirði Einarssonar, og sá Magnús talinn af sumum faðir Einars í Haga, svo að illt er að greiða úr þeim missögnum, en það sem hér er sagt mun sönnu næst.

3) Ívar bjó á Brúnastöðum í Flóa, var tvíkvæntur. Síðari kona hans Vigdís Jónsdóttir, systir séra Álfs í Kaldaðarnesi. Um börn þeirra er ekki getið nema Steinunni. Þess skal getið, að um og eptir 1700 býr Álfur Ívarsson á Bjarnastöðum í Ölfusi, og gæti hann

b. Jón átti Ásu laundóttur Hinriks Gerkens, börn:
aa. Magnús[1]).
bb. Hinrik[2]).
cc. Kristín[3]).
dd. Agnes[4]).
c. Ingibjörg.
Seinni maður Jarþrúðar Hinrik Gerken Hannesson klausturhaldari og síðar sýslumaður, börn:
d. Hannes drukknaði[5]), hans launson Hans.

---

verið son Ívars og Vigdísar. Son Álfs þessa hefur verið Ívar Álfsson, er bjó á Bakka í Ölfusi snemma á 18. öld og Jón son hans þar eptir hann.

1) Magnús bjó í Tannhamraseli (Tandraseli) átti Ástu Gunnlaugsdóttur.

2) Hinrik átti Kristínu Vigfúsdóttur frá Gröf Gunnlaugssonar.

3) Kristín átti Helga Jónsson.

4) Agnes átti Sigurð Jónsson, hún komst í sauðamál og fannst þýfið undir rúmi hennar; maður hennar var sjónlaus, féll honum þetta þungt og skildi við hana.

Ursula, sem áður er getið, er ekki talin hér meðal barna Jóns Magnússonar. En hún hefur verið eystra (í Árnessýslu), og að líkindum ekki sammæðra við hin börn Jóns, er verið hafa vestur í Mýrasýslu.

5) Hann drukknaði í Jökulsá á Breiðamerkursandi 1576, að því er segir í ættatölum, en ártalið mun að minnsta kosti skakkt, því að enginn vafi getur verið á því, að þessi Hannes er sá Hannes Henriksson Gerken, sem talinn er umboðsmaður í Mýrasýslu og samþykkir dóm í Eskiholti með Þórði lögmanni Guðmundssyni 7. maí 1603 og á Heggsstöðum 20. maí s. á. (sbr. héraðsdómabók Þórðar lögmanns). Að Hannes hafi verið orðinn nokkuð þroskaður, er hann lézt, sést á því, er segir í ættatölum, að Þórdís systir hans erfði eptir hann yfir 100 hundraða í jörðum, en »varð þó að borga skuldir miklar eptir hann«. Það má því telja víst, að hann hafi lifað ekki allskammt fram yfir 1600. Að hann hafi átt launson Hans að nafni er mjög vafasamt, og skakkt er það, sem hér síðar segir, að sá Hans hafi verið lögsagnari Þórðar lögm. Guðmundssonar um 1603, því að það hefur verið Hannes Gerken bróðir Þórdísar.

e. Þórdís[1]) átti Erlend sýslumann Magnússon, sjá Múlasýslu, — svo átti hún Jón Oddsson í Reykjavík, þeirra börn:
aa. Úlfhildur[2]).
bb. Jarþrúður[3]).
cc. Guðrún[4]).
dd. Guðrún önnur[5]).
Seinasti maður Jarþrúðar Bjarnadóttur var Nikulás Björnsson á Seljalandi[6]), þau áttu eigi börn saman.

4. Guðrún Bjarnadóttir átti Arnór Helgason, en móðir Arnórs Guðrún var systir Daða í Snóksdal, börn:
a. Daði átti Sesselju Skúladóttur, börn:
aa. Arnór[7]).

---

1) Þórdís hefur gipzt Erlendi um eða litlu eptir 1590.

2) Úlfhildur, dó 1694, 84 ára, átti séra Stefán Hallkelsson á Seltjarnarnesi, þeirra son meðal fleiri: séra Björn á Snæfoksstöðum, faðir Högna lögréttumanns á Laugarvatni og Sigríðar móður Finns biskups.

3) Jarþrúður átti Þórð Ólafsson í Sólheimatungu, þeirra son Jón, faðir Helga prests á Stað í Grindavík, föður Guðmundar Ísfold stúdents í Kaupmannahöfn († um 1782).

4) Guðrún eldri átti Salómon Björgólfsson í Geirshlíð í Flókadal.

5) Guðrún yngri átti Magnús Eiríksson í Njarðvík, kominn í beinan karllegg frá Jóni biskupi Arasyni, þeirra börn:
a. Séra Eiríkur á Vogsósum.
b. Jón í Marteinstungu átti Þorbjörgu Oddsdóttur lögréttumanns í Haga Magnússonar; þeirra son
 aa. Hannes í Marteinstungu faðir séra Jóns á Mosfelli í Mosfellssveit.
c. Halldóra átti séra Pál Árnason á Kolfreyjustað.

Aths. Það er gersamlega rangt að telja Odd ráðsmann á Hólum föður Jóns Hjaltalíns sýslumanns, son Jóns í Marteinstungu og Þorbjargar Oddsdóttur, eins og gert hefur verið. Hjaltalínsættin er því ekki komin í beinan karllegg frá Jóni Arasyni og verður nánar ritað um það við Gullbringusýslu,

6) Nikulás á Seljalandi dó 1600 (sbr. Ísl. Ártíðaskrár bls. 185—186). Auðbjörg dóttur hans og fyrri konunnar átti Guðmund Magnússon í Háfi, son Jarþrúðar (sjá hér áður).

7) Arnór átti Vilborgu Þorsteinsdóttur, og börn.

bb. Steindór[1]).
cc. Ingveldur[2]).
dd. Eiríkur.
ee. Jón[3]).
b. Guðrún, dó 1583, átti Eirík Ólafsson, börn:
aa. Eiríkur.
bb. Þuríður[4]).
c. Ragnhildur átti Geirmund Ólafsson, börn:
aa. Jón[5]).
bb. Ólafur[6]).
cc. Ingveldur[7]).
dd. Margrét[8]).
ee. Helga.
ff. Guðrún.
5. Solveig Bjarnadóttir átti Hallvarð Þórðarson[9]), þeirra börn:

---

1) Steindór bjó á Vatnabúðum, hans son:
a. séra Daði í Otrardal.

2) Ingveldur átti fyr Jón Greipsson Högnasonar og börn, síðar Stein Jónsson, Sveinssonar.

3) Jón dó 1634, bl.

4) Þuríður átti Þorgrím skyttu á Bessastöðum, þeirra son Eiríkur, lærði fyrst í Skálholtsskóla, kvæntist í Englandi. Launson hans var Gunnlaugur faðir Sveins bónda á Breiðavaði í Langadal. Vilhjálmur son Eiríks lærði í Hólaskóla.

5) Jón átti Guðrúnu Jónsdóttur, þeirra barn:
a. Pétur átti Helgu Magnúsdóttur.

6) Ólafur átti »Dalaskrípið« Magála-Finnu dóttur Bréfa-Jóns.

7) Ingveldur átti Arnbjörn Eyjólfsson, þeirra barn:
a. Eyjólfur sterki átti Kristínu Árnadóttur, þeirra son Arnbjörn faðir Jóns á Hamraendum í Stafholtstungum.
b. Guðmundur átti Guðrúnu Ólafsdóttur, þeirra son Ólafur faðir Jóns lögréttumanns á Jörfa.
c. Geirmundur. Hans dóttir Ingveldur átti Auðunn Eysteinsson, þaðan miklar ættir í Borgarfirði.
d. Ragnhildur síðari kona Kjartans Ólafssonar á Hamraendum.
e. Margrét átti Illhuga Jónsson.

8) Margrét átti Illhuga son Guðmundar Jónssonar látúnssmiðs.

9) Hallvarður bjó á Svarfhóli í Miðdölum.

a. Sigmundur átti Svanhildi Kolbeinsdóttur, börn:
   aa. Hannes.
   bb. Sigríður.
   cc. Solveig.
b. Margrét átti Magnús Halldórsson, börn:
   aa. Magnús.
   bb. Solveig.
   Margrét giptist síðan aptur[1]).
c. Sigríður átti Jón.
d. Guðrún átti Halldór Þorvaldsson[2]), Einarssonar, börn:
   aa. Hallvarður[3]).
   bb. Guðrún.
   cc. Sturla.
   dd. Solveig.
e. Guðrún yngri átti fyr Guðmund Sæmundsson, Sighvatssonar, son:
   aa. Hallvarður[4]).
   Svo átti hún Magnús Magnússon; dóttir:
   bb. Solveig, hún átti Jón á Elliða.

---

1) Síðari maður Margrétar var Svarthöfði launson Guðmundar Hallssonar Ólafssonar prests í Saurbæ Kolbeinssonar.

2) Þorvaldur var prestur á Ferjubakka. Snókdalín kallar mann Guðrúnar Ólaf, en það er skakkt.

3) Talið er, að Hallvarður þessi hafi búið á Svartanúpi.

4) Hallvarður átti Ingibjörgu Stefánsdóttur Sveinssonar. Son hans gæti verið:

a. Stefán faðir Hallvarðs á Meðalfelli, er átti Jórunni Hallvarðsdóttur frá Valdastöðum Gissurssonar og Guðrúnar Oddsdóttur prests á Reynivöllum Oddssonar. En Hallvarður á Valdastöðum gæti tímans vegna verið son Gissurar Sighvatssonar, er býr í Botni um og eptir 1600, og verið mun hafa bróðir Þorsteins (föður séra Jóns píslarvotts) og Sæmundar föður Guðmundar (sbr. hér að ofan). En auðvitað er þetta ágizkun ein. Af þessari ætt (Guðmundar Sæmundssonar) mun kominn Gissur Guðmundsson lögréttumaður á Valdastöðum faðir Sæmundar lögréttumanns á Ölfusvatni. Þaðan fjölmennar ættir.

H. Ingveldur[1]) telst kona Brands Helgasonar, börn:

1. Helgi átti Ingveldi Ívarsdóttur, Narfasonar ábóta, börn:
   a. Guðmundur á Eyri við Seyðisfjörð átti Arndísi Vigfúsdóttur.
   b. Margrét átti Vigfús Jónsson (sjá Mýrasýslu).
   c. Þóra, lg: átti Einar Jónsson, þeirra son:
      aa. Helgi átti Þuríði og margt afkvæmi.
2. Agnes átti Guðmund Salómonsson[2]), barn: séra Salómon í Hvammi[3]).
3. Halldór átti Agnesi Grímsdóttur, barn: Vigdís átti Þorvald á Æsustöðum (sjá Húnavatnsþing og Dalasýslu).

Mjög mikið fjölmenni er komið frá Guðmundi Andréssyni, sem hér er oflangt að telja. Guðmundur bjó á Hafurshesti við Önundarfjörð og á Felli í Kollafirði; hann var nokkuð stórfengur, þó ekki eins og Andrés faðir hans. — Guðmundur var um hríð valdsmaður í Strandasýslu, en eigi vitum vér, hver ár; það er ekki ólíklegt, að hann hafi haldið þá sýslu lítinn tíma, áður en Guðni sýslumaður við henni tók, nálægt 1500, en síðan eptir að Sturla Þórðarson sleppti sýslunni, um eða eptir 1524, en engin vissa er það, og eigi hef eg séð dóm eptir Guðmund Andrésson. Það er víst, að Guðmundur var í mörgu mikilmenni; þeir Pétur bóndi Loptsson og Guðmundur Andrésson áttu í þrætumáli um nokkra fjármuni, kom eigi til lögsóknar, því þeir sættust á það mál 1517. — 1498 gaf Hans konungur Guðmundi landsvist fyrir það, að hann hafði vegið Einar Hallsson, galt Guðmundur Þorbirni Jónssyni Kaldbak og Kleifar, en Andrés faðir hans og Ari bróðir hans samþykktu. — Það lítur svo út, sem þeir bræður Guðmundur og Ari Andréssynir hafi fast fylgt, að Solveigu, dóttur Guðmundar ríka á Reykhólum og Helgu Þorleifsdóttur frá Vatnsfirði,

1) Sbr. það sem hér að framan er sagt um Ingveldi þessa (bls. 291).

2) Guðmundur bjó á Laxfossi. Salómon faðir hans var Einarsson.

3) Son séra Salómons var séra Jón á Hesti faðir séra Auðunnar samastaðar og séra Salómons á Mosfelli í Grímsnesi. — Bróðir séra Salómons í Hvammi hét Brandur. Jón lærði telur þetta ættfólk sitt, enda er Salómons nafnið í ætt hans.

væri tildæmdur arfur eptir Helgu móður sína, af því þeir tóku Solveigu að arfsali; hefur hún verið getin 1442[1]), þegar Guðmundur faðir hennar var dæmdur útlægur, en hún giptist eptir 1460 Bjarna Þórarinssyni. „góða manni“ á Brjánslæk; eigi áttu þau börn, er erfðu. Bjarni var veginn 1487[2]) af sveinum Einars hirðstjóra Björnssonar; varð Solveig þá ekkja og gaf sig með fé sínu til Guðmundar og Ara Andréssona, útverkuðu þeir því dóm Finnboga lögmanns, sem dæmdi Solveigu allan arf eptir móður sína á alþingi 1501 (aðrir 1498[3])) sex hundruð hundraða; hefur Solveig þá verið um sextugs aldur. Sjá fremur hér um við Dalasýslu.

B.

## Sýslumenn.

### Guðlaugur Loptsson.

*Faðir:* Loptur Ormsson, Loptssonar ríka[4]).

*Móðir:* (nefnist í sumum ættartölum Steinunn dóttir Guðna sýslumanns Jónssonar)[5]), en sé það satt, hefur Guðlaugur verið launson Lopts, því eigi getur hans við skipti eptir Lopt, og er þá óvíst um móðerni hans.

*Kona:* Anna dóttir Narfa á Narfeyri Þorvaldssonar, Þorkelssonar; hún var systir Helgu, sem Grímur sýslumaður Pálsson átti, og Valgerðar, er Sigurður sýslumaður Daðason átti.

*Börn:* A. Loptur í Ljáskógum, hans fyrsta kona Guðrún,

1) Réttara: 1446.

2) Réttara: 1482.

3) 1501 er réttara.

4) Loptur faðir Guðlaugs mun ekki hafa verið Loptur Ormsson; bróðir Guðlaugs hét Böðvar; hann var veginn af Páli Jónssyni á Skarði.

5) Hafi Guðlaugur Loptsson verið skilgetinn sonur Lopts Ormssonar, hefur Steinunn Gunnarsdóttir (frá Sælingsdalstungu, Jónssonar) verið móðir hans, en hitt getur með engu móti verið rétt, að Steinunn dóttir Guðna Jónssonar úr Ögri, Ásgeirssonar, hafi verið móðir barna Lopts Ormssonar, því að börn Guðna voru í æsku, þegar Loptur andaðist. Verið getur, að Guðlaugur hafi verið launson Lopts Ormssonar, hafi hann annars verið sonur hans og verður þá ekkert með vissu sagt um móðurætt Guðlaugs.

dóttir séra Finns á Ökrum, sem gaf dóttur sinni Ljáskóga í heimanmund, þau hafa giptzt nálægt 1544, er ráða má af skiptabréfi eptir Lopt, sem er dagsett 1564 (20 árum eptir að séra Finnur átti Ljáskóga). 1539 keypti Loptur 5 hundruð í Þyrilsvöllum og hefur hann þá verið orðinn fullorðinn. Loptur tók og arf eptir Gunnstein bróður sinn: 20 hundruð í Narfeyri, Heiðarbæ og Tind í Steingrímsfirði, þeirra son:

1. Arnór sýslumaður, sjá hér síðar.
2. Finnur dó ungur, erfði faðir hans eptir hann 13 hundruð í Ljáskógum og þau 13 hundruð gaf Loptur Arnóri syni sínum.
3. Ögmundur.
4. Jón.
5. Guðrún.
6. Anna.

Síðari kona Lopts var Sigríður Þórarinsdóttir; þ. b. Þuríður, Guðný, hún átti séra Einar Gíslason.

B. Gunnsteinn átti tvær laundætur, er voru:

1. Guðrún kona Páls Ormssonar, börn:
   a. Guðrún átti Sigmund Gíslason í Fagradal, börn:
      aa. Páll sigldi í England.
      bb. Rögnvaldur sýslumaður[1]).
      cc. Guðrún[2]).
      dd. Ástríður[3]).

---

1) Sjá um hann hér síðar.

2) Guðrún átti Sveinbjörn son Árna prests í Látrum Jónssonar, þeirra son Gísli, hans son Sveinbjörn faðir Einars yngra í Svefneyjum föður Eyjólfs dannebrogsmanns samastaðar.

3) Ástríður átti Ólaf Þórðarson á Kjörseyri; þeirra son:

a. Þórður á Kjörseyri faðir Ólafs samastaðar föður séra Eiríks á Staðarbakka. Þórður á Sámsstöðum föðurfaðir Helga biskups Thordersen var son Þórðar Ólafssonar á Kjörseyri. Dóttir Ólafs á Kjörseyri og Ástríðar var Guðrún fyrri kona Gunnlaugs Arasonar, þeirra dóttir Guðrún móðir Gunnlaugs Magnússonar á Bergsstöðum á Vatnsnesi, föður Björns yfirkennara Gunnlaugssonar.

ee. Margrét[1]).
ff. Álfhildur[2]).
gg. Gunnfríður[3]).
b. Guðný átti séra Björn[4]) Sveinsson, börn:
aa. Þórunn[5]).
bb. Jón[6]).
cc. Páll.
dd. Einar.
ee. Þóra.
ff. Þórður.
c. Ormur í Miðjanesi[7]).

---

1) Margrét átti Sigurð á Kollsá, son Arnfinns prests Sigurðssonar á Stað í Hrútafirði, þeirra son:
1. Páll á Kollsá, var um tírætt, er hann dó; hans son:
a. Sumarliði á Víðidalsá átti Ljótunni Jónsdóttur frá Melum Jónssonar Auðunnarsonar þ. b.
aa. Guðrún átti séra Svein Jónsson á Prestbakka bróður séra Hjalta á Stað í Steingrímsfirði, þ. b.:
aaa. Guðríður átti Jón Þórðarson á Hvanneyri.
bbb. Ljótunn átti Jón Þorvaldsson í Vallnakoti í Andakíl.
ccc. Jón garðyrkjumaður á Horni í Arnarfirði, kallaði sig Vídalín.
ddd. Sumarliði.
eee. Margrét.

2) Réttara: Álfheiður, átti séra Árna Loptsson í Aðalvík, þeirra son meistari Jón biskup í Skálholti. Launson Álfheiðar með Bjarna Narfasyni var Jón, átti Guðbjörgu Þorbjarnardóttur, þeirra son Þórður á Haukabergi faðir Sigríðar, er átti Gunnlaug Gíslason; þeirra börn Þórður á Hnjóti og Kristín fyrri kona séra Jóns Vestmanns í Móum Jónssonar í Dufansdal Úlfssonar.

3) Gunnfríður, launson hennar með Jóni Vigfússyni frá Syðra-Fjalli í Aðaldal Ólafssonar:
a. Vigfús átti Steinunni Ásmundsdóttur prests Eyjólfssonar.

4) Björn var ekki prestur, en góður járnsmiður. Hann var bróðir Brynjólfs biskups.

5) Þórunn átti Jón Jónsson Ívarssonar frá Hvammi í Dýrafirði.

6) Jón í Reykjarfirði. Hans son Einar í Reykjarfirði.

7) Son Orms í Miðjanesi var Loptur á Miðjanesi, átti Vigdísi Bjarnadóttur, þ. b. Þórdís átti Hákon Jónsson frá Skerðingsstöðum

d. Grímur, börn:
   aa. Guðrún.
   bb. Einar.

2. Katrín átti Jón Ormsson[1]) í Hraunskarði, börn:
   a. Erlingur eða Erlendur[2]) í Hraunhöfn átti Margréti Helgadóttur, börn:
      aa. Guðmundur[3]).
      bb. Jón[4]).
      cc. Brynjólfur.
      dd. Þorlaug[5]).
      ee. Katrín[6]).
   b. Guðrún átti Einar[7]) á Kongsbakka Tómasson Einarssonar, barnlaus.

C. Benedikt hét bróðir Lopts í Ljáskógum.

D. Guðrún, son
   Bessi.

Guðlaugur meina eg, að hafi verið fyrsta barn Lopts og borinn nálægt 1460, en fyrst settan umboðsmann í Stranda-

---

Hákonarsonar, Bjarni á Hyrningsstöðum og Berufirði, faðir Einars í Klukkufelli, Sigmundur og Ámundi, er átti Guðrúnu Bjarnadóttur, systur séra Jóns á Rafnseyri; þeirra son Loptur í Nikuláshúsum í Fljótshlíð, hans son Ólafur, er fór til Englands faðir Guðrúnar konu Einars Sæmundssonar í Brekkubæ í Reykjavík; þeirra börn: Einar, María og Soffía kona Sigurðar prófasts Gunnarssonar í Stykkishólmi, og Sigríður kona Eiríks Magnússonar meistara í Cambridge.

1) Jón Ormsson var bróðir Páls Ormssonar, er átti Guðrúnu systur Katrínar.

2) Réttara: Erlingur. Hann bjó í Hraunhöfn.

3) Guðmundur átti Svanborgu Þórðardóttur frá Galtarholti Ólafssonar; þeirra son Guðmundur í Einifelli.

4) Jón átti Steinunni Daðadóttur frá Hrafnabjörgum Gíslasonar, þ. d. Margrét átti Sigurð lögréttumann Pálmason á Breiðabólsstað í Sökkólfsdal.

5) Þorláug átti séra Jón Sigurðsson í Miklaholti og börn.

6) Katrín átti Grím Tómasson frá Borgarholti Bjarnasonar, þeirra dóttir Margrét móðir Jóns Halldórssonar í Höll, föður séra Björns í Hrepphólum.

7) Það er án efa réttara, að maður Guðrúnar hafi verið Jón á Kongsbakka Einarsson Tómassonar Einarssonar.

sýslu af Þorleifi hirðstjóra Björnssyni nálægt 1482, þegar Andrés Guðmundsson missti sýsluna vegna óeirða sinna, en hvað lengi hann hefur sýslunni haldið, er óvíst, hafi hann eptir dauða Þorleifs orðið þar virkilegur sýslumaður, sem líklegast er, og máske til þess er Guðni sýslumaður tók við. Þar Guðlaugur tjáist hafa lifað fram yfir 1530, getur hann eins vel hafa haldið Strandasýslu í umboði Sturlu sýslumanns eða Guðna.

## Pétur Loptsson.

*Faðir:* Loptur Ormsson Loptssonar ríka.
*Móðir:* Steinunn, dóttir Gunnars bónda í Ásgarði[1]), Jónssonar.

---

1) Gunnar bjó í Sælingsdalstungu, og er kominn þangað 1439; varð hann gamall maður, og hefur lifað langt fram á síðara helming 15. aldar. Um foreldri hans þykir óvíst, en í ættatölum er þess víða getið, að hann hafi verið norðlenzkur. Þykir mér líklegt, að ætt Gunnars mætti rekja til fornmanna, en því verður að sleppa að svo komnu, því að nægar heimildir eru naumast komnar í ljós til þessa. Gunnar var ríkur bóndi, og lögréttumaður alllengi; hann hefur því sjálfsagt verið af góðum ættum. Kona Gunnars hefur verið Halldóra Helgadóttir bónda á Staðarfelli, Guttormssonar, Örnólfssonar, Jónssonar, en móðir Halldóru var án efa Úlfrún Þorsteinsdóttir, er bjó í Sælingsdalstungu næst fyrir Gunnar bónda, og hefur hún verið ekkja eptir Helga Guttormsson († 1427) (sbr. Fornbrs. V. 821. bls.). Bróðir Halldóru var Þórður bóndi á Staðarfelli, faðir Sturlu sýslumanns föður Orms lögmanns. Vantar nú að eins fulla vissu fyrir einum ættlið, til þess að nú sé unnt að telja móðurætt Helga Guttormssonar beinlínis til Sturlu lögmanns Þórðarsonar († 1284), því að Ásgrímur Snorrason, er býr í Sælingsdalstungu 1337, en áður á Staðarfelli, um 1327 (Fornbrs. II. 637. og 717. bls.) mun vera sonarsonur Sturlu, og sonur Snorra Sturlusonar, þess er annálar segja að dæi 1306. Ásgrímur þessi mun þannig vera heitinn eptir Ásgrími Bergþórssyni í Kaldaðarnesi († 1256), frænda þeirra Sturlunga. Þeir frændur eignuðust Sælingsdalstungu með tengdum Sturlu við Skarðverja, á 13. öld, og átti Ásgrímur þá jörð 1337. Bræður Ásgríms hafa þeir verið: Sturla og Þorsteinn Snorrasynir, er drukknuðu 1332 (Annálar, sbr. Íslenzkar Ártíðaskrár, ættaskrá III.). Ásgrímur Snorrason hefur verið fjórmenningur að frændsemi við Ketil hirðstjóra Þorláksson († 1344). Synir Ásgríms hafa víst verið tveir. Annar þeirra er andaður fyrir 1327 (Fornbrs. II. 637. bls.); hefur hann því andazt barn að aldri. Ketill, annar sonur Ásgríms

*Kona:* Sigríður dóttir Þorsteins á Reyni eystra Helgasonar lögmanns Ólafssonar[1]) og Akra-Kristínar. Þorsteinn þessi var bróðir Ingveldar á Reykhólum, kvinnu Þorleifs hirðstjóra Björnssonar.

*Börn:* A. Árni átti Þuríði, dóttur Þorleifs á Möðruvöllum Grímssonar 1542; taldi Þorleifur faðir hennar henni þá 1 hundrað hundraða, en Árni taldi sér 2 hundruð hundraða. Þuríður giptist aptur 1559 Eiríki Snjólfssyni. Fyrri kona Árna var Guðrún Bessadóttir[2]); var son Árna og Guðrúnar:

1. Magnús í Stóradal átti Þuríði, dóttur séra Sigurðar á Grenjaðarstað Jónssonar biskups Arasonar; þessi Þuríður var laundóttir séra Sigurðar, og var ættleidd af séra Sigurði fyrir kirkjudyrum á Grenjaðarstað. Þegar á því stóð var Halldóra dóttir séra Sigurðar í kirkjunni, gekk snúðuglega út og hreif tii arfleiðingarbréfsins og mælti: „Sonur ambáttarinnar skal eigi erfa með syni hinnar frjálsu“. Prestur mælti: „Láttu hægt dóttir mín, þú fær nóg samt“; þá mælti Þuríður: „Guð eigi hana móður mína, því hún valdi mér svo gott faðerni“. Halldóra dó fám árum þar eptir ógipt, barnlaus, en Pétur bróðir hennar var áður dáinn, voru þau börn Sesselju Pétursdóttur, sjá hér síðar, sem talin var ektakona séra Sigurðar. Guðmundur hét og launson séra Sigurðar. Erfði Þuríður mest allt fé séra Sigurðar vegna arfleiðslunnar. Börn Magnúsar og Þuríðar:

---

Snorrasonar, hefur búið í Sælingsdalstungu eptir föður sinn, og verið auðugur »bóndi« (Fornbrs. III. nr. 606 og 607); hann mun án efa vera móðurfaðir Helga »bónda« Guttormssonar, sem fengið hefur Sælingsdalstungu eptir Ketil bónda Ásgrímsson (sbr. Fornbrs. V. 821. bls.).

1) Á að vera Guðnasonar.

2) Guðrún var systir Þorbergs Bessasonar sýslumanns. Árni bjó í Stóradal í Eyjafirði. Er ætt sú, sem frá honum er komin, kölluð Stóradalsætt. —

a. Þorsteinn, sýslumaður í Skaptárþingi og Þykkvabæjarklausturhaldari (sjá Skaptafellssýslu).

b. Björn[1]) á Laxamýri átti Guðríði, dóttur Þorsteins prófasts í Múla, Illhugasonar samastaðar, Guðmundssonar. Börn:

aa. Sigurður[2]) djákni á Múnkaþverá, faðir Magnúsar föður Benedikts sýslumanns Becks (sjá Skagafj.sýslu).

bb. Sesselja, seinni kona Þorleifs sýslumanns í Skaptárþingi Magnússonar, bjó á Hlíðarenda.

cc. Málmfríður átti séra Guðmund Guðmundsson[3]) og börn, svo séra Magn-

---

1) Björn var nafnkunnugt mikilmenni; ætt sú, sem frá honum er komin, nefnist Laxamýraræ tt.

2) Dóttir Sigurðar var Guðrún móðir séra Sigurðar Þórðarsonar á Brjánslæk, föður séra Guðbrandar, föður Gunnlaugs Briems kammerráðs.

3) Séra Guðmundur var prestur í Fljótshlíðarþingum, dó 1648. Börn hans og Málmfríðar eru talin:

a. Gísli lögréttum. á Rauðalæk í Holtum, hans dóttir Guðrún átti Nikulás Magnússon prests í Kálfholti Pálssonar, þ. b. mörg, þar á meðal Ingibjörg kona Guðmundar Bjarnasonar á Rauðalæk, Þorgerður kona Jóns Guðmundssonar í Köldukinn, Guðrún kona Eiríks Bjarnasonar í Kvíarholti, Ingunn kona Þorsteins Helgasonar í Ostvatnsholti (móðir Kristínar konu Eiríks Jónssonar í Bolholti) o. fl., sem miklar ættir eru komnar frá, er hér yrði oflangt að rekja.

b. Guðmundur á Hvassafelli í Eyjafirði átti Halldóru Hallsdóttur (sbr. I. B. bls. 237).

c. Jón lögréttumaður á Rauðalæk átti Guðrúnu Björnsdóttur frá Teigi Pálssonar, þeirra son:

aa. Grímur lögréttumaður á Reyðarvatni, dó 1750, er Árni Sigurðsson í Haga í Holtum orti eptir:

„Ennþá fækka æztu menn
öld trúi' eg ei batni
genginn er maður úr garði enn
Grímur á Reyðarvatni.
Sá bar æru sóma og hrós

ús[1]) Björnsson [af ætt Vigfúsar Erlendssonar á Hlíðarenda].
dd. Steinunn seinni kona Olafs[2]) sonar Hannesar hirðstjóra, þau áttu börn:
ee. Séra Magnús í Miðdalaþingum 5 ár, dó barnlaus.

---

sannkallað af öllum
þar slokknaði á lampa ljós,
er lýsti á Rangárvöllum".

Dætur Gríms voru Solveig kona séra Daða Guðmundssonar á Reyni og Elín, er fyr átti Þorstein Kortsson í Árbæ, þ. b. Grímur í Ostvatnsholti o. fl., svo Þórð Jónsson, bróður séra Odds á Felli í Mýrdal, barnlaus.

d. Guðrún átti Ólaf Árnason á Heylæk, þeirra dóttir:
aa. Sigrún átti séra Arngrím Pétursson í Fljótshlíð, þeirra börn: a) Ólafur á Heylæk. Hans börn: Jón, er átti Þorbjörgu Þorláksdóttur, systur séra Jóns skálds á Bægisá, Eyjólfur í Önundarholti faðir Magnúsar, er átti Sigurveigu Sverrisdóttur, systur séra Odds á Stóranúpi og Þorbjörg er átti Árna Jónsson í Múlakoti. b) Ingibjörg átti Teit í Moldartungu Gottskálksson prests á Keldum Þórðarsonar og börn. c) Ólöf f. k. Bjarna í Öndverðarnesi Þorlákssonar, Bergssonar á Hjalla Benediktssonar, þeirra synir Arngrímur í Bakkarholti, Kláus á Ormsstöðum o. fl. d) Vilborg átti Snorra Böðvarsson lögréttumann á Ægissíðu og börn.
e. Sigríður átti fyr Halldór Hallsson í Núpufelli (sbr. I. B. bls. 236) svo Jón Jónsson bryta á Hólum, þeirra son Halldór í Hrísey faðir Þorgerðar, er átti Skeggja Jónsson prests í Stærraárskógi Einarssonar, þeirra son Halldór, alkunnur um allt Norðurland á sinni tíð.
f. Solveig átti fyr Jón Björnsson, Pálssonar í Teigi, svo séra Sigurð Högnason í Einholti.
g. Magnús lögréttumaður átti Ingibjörgu Björnsdóttur frá Teigi, Pálssonar, þeirra son Björn, hans son Grímur á Lindarhamri (nú eyðijörð) í Ytrihrepp (Ullar-Grímur), hans dóttir Guðlaug átti Bjarna Pétursson Jónssonar Kolbeinssonar, ættaðan úr Skagafirði, þeirra son Grímur Melbye í Þingholti í Reykjavík, hans dóttir Guðlaug átti Árna Gíslason leturgrafara í Reykjavík.

1) Magnús þessi Björnsson var ekki prestur. Björn var Eiríksson, Erlendssonar, Magnússonar í Teigi, en móðir Magnúsar var Anna dóttir Vigfúsar hirðstjóra Erlendssonar.

2) Ólafur maður Steinunnar var sonur Hannesar gamla í Snóksdal, sonar Björns Hannessonar hirðstjóra, sjá um hann hér síðar.

ff. Árni[1]) í Haga, dó 1702, átti Þóru Bergþórsdóttur og börn.

gg. Þorlákur átti Herdísi Þorkelsdóttur og börn.

hh. Halldór átti Þórdísi Nikulásdóttur[2])og börn.

ii. Guðrún, dó 1666, átti Guðmund[3]) lögréttumann Arason og börn.

kk. Jón[4]) dó ógiptur barnlaus.

ll. Séra Illhugi í Húsavík átti Ólöfu Bjarnadóttur og börn[5]).

---

1) Árni í Haga í Reykjadal var mikið hraustmenni og komst yfir tírætt, hann átti Þóru úr Skagafirði, Bergþórsdóttur Sæmundssonar prests Kárssonar (Bisks. II. 396). Meðal barna Árna voru Ólafur klaki sýslumaður í Vestmannaeyjum og Jón í Keldunesi faðir Oddnýjar móður Skúla landfógeta Magnússonar. Það er ekki rétt, að Árni hafi dáið 1702, því að hann var á lífi 1703 og var þá 100 ára, sló þá hey og sást ekki í höfði hans hæra.

2) Einarssonar.

3) Guðmundur Arason í Flatatungu var mesti merkismaður, sjá um börn hans og Guðrúnar I. B. bls. 512.

4) Jónarnir voru þrír synir Björns, bjó Jón elzti á Þverá í Laxárdal, átti Sigríði Grímólfsdóttur; eitt barna þeirra Margrét átti Guðbrand Jónsson í Hörgárdal, þeirra dætur Sigríður móðir séra Friðriks Guðmundssonar á Borg († á Ólafsvöllum 6. júlí 1812) og Ólöf móðir séra Bergs Magnússonar í Nesi í Aðalreykjadal. — Jón yngri Björnsson bjó í Tungu á Tjörnesi, kvæntist aldrei, átti tvo launsonu, er dóu barnlausir. — Jón þriðji Björnsson dó af nasablóði, bl. (sbr. Bisks. II. 396).

5) Séra Illhugi átti mörg börn:

1. Bjarni lærði í Hólaskóla, átti 4 launbörn, áður en hann kvæntist.
2. Magnús prestur í Húsavík. Hans son Þorvaldur skáld, lagði lítið annað fyrir sig en skáldskap, vildi eins og hann sagði vera »si sona« og dvaldist hér og þar hjá heldri mönnum, var aldrei við kvennmann kenndur.
3. Þorsteinn lærði í Hólaskóla, skrifaður í stúdentatölu við háskólann 20. okt. 1655, dó í Kaupm.höfn, bl.
4. Jón á Bakka á Tjörnesi átti Ólöfu laundóttur Nikulásar Einarssonar á Héðinshöfða, þ. b.
   a. Sveinn heimski eða ríki á Bakka, hans son:

mm. Jón yngri á Hallbjarnarstöðum átti börn[1]).
nn. Guðrún átti séra Jón í Austfjörðum[2]) og börn.

---

aa. Jón á Bakka átti Guðrúnu Sveinungadóttur frá Skógum í Axarfirði Magnússonar, þ. b.
aaa. Jón í Ási í Kelduhverfi, lærði í heimaskóla, var bezti skrifari, kallaður af mörgum Jón »lærði« átti Ingibjörgu Grímsdóttur frá Giljá, þeirra son Mála-Davíð á Brattlandi á Síðu og víðar, nafnkunnur maður á sinni tíð.
bbb. Gróa átti Guðlaug Eiríksson á Máná, þeirra dætur: Guðrun átti Einar Vigfússon í Vindbelg og Guðrún önnur átti Jón Þorvarðsson, bróður Illhuga »svarta«, er var á Suðurlandi.
b. Ólöf móðir Sigmundar Þorlákssonar í Saltvík, er fóstraði Magnús sýslumann Ketilsson.
c. Björn átti Helgu Helgadóttur.
d. Jón átti Halldóru Eiríksdóttur bl.
e. Þorsteinn átti Ingiríði Eyjólfsdóttur.
f. Einar átti Þuríði Bessadóttur frá Þeistareykjum, þeirra son Bessi faðir Kolbeins og Elínar, er átti Jón á Gautlöndum Þorgrímsson frá Baldursheimi Marteinssonar á Hofsstöðum Sigmundssonar, Kolbeinssonar, þeirra synir Jón á Helluvaði, Ingjaldur á Halldórsstöðum, Guðmundur á Litluströnd, Þorgrímur á Brettingsstöðum og Bessi í Fótaskinni.
g. Þuríður átti Teit Bessason frá Þeistareykjum.
5. Ingunn Illhugadóttir átti Jón Þorvaldsson prests á Hrafnagili Ólafssonar.
6. Ingibjörg átti Þorkel Önundarson á Tjörnesi, þeirra son Önundur o.fl.
7. Sigríður eldri.
8. Sigríður yngri, átti 2 launbörn.
9. Guðrún átti Þorstein Ólafsson undan Fjöllum.
10. Ólöf átti Sigmund Kolbeinsson frá Kálfaströnd, þeirra son Kolbeinn faðir Jóns föður Björns dbrm. í Lundi og Kristjáns dbr. á Illhugastöðum.

1) Jón þessi son Björns bjó á Þverá í Laxárdal og var elztur Jónanna, eins og áður er getið. Getur verið, að hann hafi einnig búið á Hallbjarnarstöðum um tíma.

2) Þ. e. séra Jón Ögmundsson á Hofi í Vopnafirði († 1638), þeirra börn: Oddur í Sunnudal, Sigríður og Ingibjörg s. k. Stígs

oo. Svanhildur átti Benedikt[1]) og börn.

c. Árni Magnússon á Grýtubakka átti Sigríði, dóttur Árna Gíslasonar á Hlíðarenda (Árni kallast í ættatölum sýslumaður, en bjó um hríð á Grýtubakka)[2]). Þeirra börn:

aa. Þorleifur í Mýdal átti Þuríði Stefánsdóttur[3]) og börn.

bb. Sigurður í Læknisnesi átti Þórdísi Bergsveinsdóttur[4]) og börn.

cc. Þorsteinn átti Guðrúnu, dóttur séra Orms á Kálfatjörn og börn.

dd. Halldóra átti séra Pál Erasmusson[5]) og börn.

---

Þórarinssonar á Arneiðarstöðum. Espólín nefnir konu séra Jóns Málmfríði Björnsdóttur, og telur þær systur tvær með því nafni. Má vera, að það sé réttara, sbr. Bisks. II. 395 n. m., þar sem nefnd er Málmfríður önnur dóttir Björns, en Guðrúnar að eins tvær. Er talið í ættatölum, að önnur þeirra hafi átt séra Ólaf Magnússon á Refstað, en sumir kalla hana Sigríði. En henni sleppir Bogi.

1) Svanhildur var laundóttir Björns. Önnur laundóttir hans hét Ásný; Benedikt maður Svanhildar var bróðir séra Bjarna Ormssonar á Grænavatni. Börn hans og Svanhildar:

a. Magnús í Villingadal faðir Benedikts skipasmiðs í Þórunnarseli.
b. Bessi, hans dóttir Sesselja í Litladal.
c. Jón á Jökli átti Vilborgu.
d. Kristín átti eitt launbarn.
e. Borga, hennar launsynir Jón Grímsson og Runólfur Nikulásson.

2) Ætt, sú sem komin er frá Árna, kallast Grýtubakkaætt.

3) Faðir Þuríðar var séra Stefán Gíslason í Odda. Um börn Þorleifs sbr. Bisks. II. 390.

4) Faðir Þórdísar var séra Bergsveinn Einarsson á Útskálum.

5) Séra Páll var prestur í Hrepphólum. Börn hans og Halldóru:

1. Erasmus prestur í Hrepphólum átti Guðrúnu Magnúsdóttur frá Háfi Guðmundssonar og börn. Ein dóttir hans Guðlaug átti Guðmund Jónsson lögréttumann í Miðfelli í Ytrihrepp, þeirra börn Snorri á Gýgjarhóli faðir Hinriks í Einholti, Páls í Úthlíð o. fl., Einar í Stærribæ, Helga kona séra Magnúsar Einarssonar í Fljótshlíð, Járngerður kona Gísla Sighvatssonar á Hæli og Guðrún kona Hannesar Jónssonar á Sýrlæk.

ee. Halldóra eldri átti Ólaf Jónsson á Núpufelli og börn.

---

2. Magnús prestur í Kálfholti átti Guðrúnu aðra Magnúsdóttur, systur Guðrúnar, er séra Erasmus bróðir hans átti, þeirra börn:
   a. Vigfús bóndi á Haugi átti Vigdísi Pálsdóttur prests á Kolfreyjustað Árnasonar Pálssonar prests í Klausturhólum Jónssonar prests Egilssonar og börn.
   b. Nikulás átti Guðrúnu Gísladóttur frá Rauðalæk Guðmundssonar (sjá hér á undan bls. 305).
   c. Magnús.
   d. Kristín átti fyr séra Bjarna Erlendsson í Kálfholti, svo Erlend Jónsson silfursmið.
   e. Halldóra átti Odd Magnússon lögréttumann í Haga, son séra Magnúsar Jónssonar á Mælifelli, þeirra börn: séra Magnús á Heiði í Mýrdal, Guðrún kona Einars Magnússonar lögréttumanns í Haga, Kristín átti Bjarna Bjarnason á Ketilsstöðum og Þorbjörg, er fyr átti Jón Magnússon í Marteinstungu og var s. k. hans, en síðar Þórð Franzson prests í Hruna, Íbasonar, bl. og bjuggu þau um hríð í Oddgeirshólum. Son þessa Þórðar var Þorlákur prestur í Grímsey, en dóttir Brynhildur, er átti Símon Jónsson í Stapakoti í Njarðvíkum.
   f. Páll átti Ólöfu Guðmundsdóttur.
   g. Guðrún fyrri kona séra Þórðar Þorsteinssonar í Villingaholti, þeirra dóttir:
      aa. Guðný átti fyr Þorlák Bergsson, Benediktssonar, svo Brynjólf lögréttumann, fyr aðstoðarprest á Breiðabólsstað í Fljótshlíð, son Þórðar Brynjólfssonar á Steindórsstöðum í Reykholtsdal, og Helgu Þorbjarnardóttur frá Kolsholti Jónssonar, en móðir Helgu var Eydís Halldórsdóttir lögréttumanns frá Auðsholti (Bisks. II. 676).
3. Helga átti fyr Torfa Eiríksson á Keldum, svo séra Gunnlaug Sigurðsson í Saurbæ í Eyjafirði.
4. Guðlaug átti séra Ketil Jörundsson í Hvammi.
5. Guðný átti séra Þórð Guðmundsson á Kálfafelli.
6. Katrín átti Gunnlaug á Sandhólaferju Filippusson, Teitssonar, Björnssonar prests á Melstað. Son þessa Gunnlaugs mun Teitur faðir Hallvarðs á Steinkrossi, föður Guðmundar samastaðar, föður Odds á Fossi, föður Hannesar á Gufunesi. Dóttir Teits Gunnlaugssonar var Guðrún fyrri kona Jóns Þórarinssonar í Bolholti, þeirra son Teitur í Gunnarsholti. — Gunnlaugur Filippusson, sem bjó í Efri-Gegnishólum 1729 57 ára, gæti verið sonar-

ff. Þuríður átti Jónas[1]) Jónsson í Krossavík.

gg. Kristín átti séra Guðmund Bjarnason á Grenjaðarstað og börn.

hh. Sesselja átti Guðmund á Laugum Jónsson og börn.

ii. Þórunn[2]) átti Jón Þorsteinsson og börn.

kk. Guðríður[3]) átti Þorleif Jónsson.

ll. Guðrún átti séra Jón Einarsson[4]) og börn.

mm. Árni bartskeri giptist í Hamborg, átti 3 börn.

Afkomendur Árna á Grýtubakka eru enn mjög fjölmennir, og margt barnafólk[5]).

d. Pétur í Vík á Svalbarðsströnd átti Elínu Björnsdóttur prófasts í Saurbæ Gíslasonar, börn:

aa. Einar í Mýdal átti Kristínu[6]) Gísladóttur og börn.

bb. Agnes átti Jón Teitsson, Björnssonar og börn.

cc. Sesselja átti Árna[7]) Teitsson á Holtastöðum og börn.

---

son Gunnlaugs Filippussonar á Sandhólaferju, eða að minnsta kosti einhvernveginn af þessari ætt.

1) Á að vera Tómas eða Tuma.

2) Maður Þórunnar var Þorleifur launson Jóns lögmanns á Reynistað Sigurðssonar. Eitt þeirra barna Árni á Móbergi faðir Þórðar ríka á Arneiðarstöðum. Allt það ættfólk eystra.

3) Guðríður átti Jón son séra Þorsteins í Múla Illugasonar. Hér hafa skipzt á hjá Boga nöfn systranna.

4) Hálfbróður Odds biskups.

5) Um afkomendur Árna á Grýtubakka hina næstu sbr. Bisks. II. 389—392.

6) Kristín var dóttir séra Gísla Guðbrandssonar í Hvammi.

7) Árni var bróðir Jóns, er átti Agnesi systur Sesselju konu Árna. Teitur faðir þeirra var son séra Björns á Melstað Jónssonar biskups Arasonar.

dd. Halldóra átti Hallgrím[1]) Guðmundsson og börn.

ee. Elín átti Árna Daðason Árnasonar sýslumanns Oddssonar og börn[2]).

ff. Þórunn átti fyr séra Jón Guðmundsson[3]), svo Jón Árnason og börn.

e. Þuríður (aðrir Þrúður) átti fyr Einar Grímsson frá Möðruvöllum[4]), börn:

aa. Grímur í Teigi átti Guðrúnu Torfadóttur og börn.

bb. Þórunn átti Pál Magnússon og börn. Seinna átti Þuríður Magnús Hjaltason og börn, sjá Vaðlaþing.

Seinni kona Árna Péturssonar var Þuríður, dóttir Þorleifs Grímssonar á Möðruvöllum, sjá Vaðlaþing. Þeirra dóttir:

2. Guðrún átti Eirík sýslumann í Múlaþingi, sjá þar um hann[5]).

B. Séra Loptur Pétursson í Víðidalstungu, var sem rænulaus með köflum, hans barnamóðir Þuríður Arngrímsdóttir, börn:

1. Séra Jón á Skinnastöðum, barn:

a. Kristrún átti Einar son Nikulásar klausturhaldara, Þorsteinssonar sýslumanns Finnbogasonar lögmanns, þau bjuggu í Hafrafellstungu[6]), börn:

---

1) Hallgrímur í Gröf var merkismaður.

2) Meðal þeirra voru Þorleifur prófastur á Kálfafelli og Oddur snikkari á Ásgeirsá (sbr. Bisks. II. 371 n.m.), sem margt manna er frá komið nyrðra.

3) Í Laufási. Seinni maður Þórunnar var Jón silfursmiður á Narfeyri Árnason.

4) Þorleifssonar. Sjá nákvæmar um afkvæmi Einars Grímssonar I. B. bls. 214—217.

5) Enn var sonur Árna Péturssonar
3 séra Ólafur Árnason, hans son séra Hallur digri í Höfða.

6) Sbr. I. B. bls. 191.

aa. Jón í Hafrafellstungu, faðir séra Þórarins etc.
bb. Nikulás í Reykjahlíð var tvígiptur og átti mörg börn.

2. Árni í Sælingsdalstungu átti Helgu dóttur Guðmundar á Hvoli[1]), börn:
a. Loptur í Sælingsdalstungu átti Þórunni Bjarnadóttur frá Læk; börn:
aa. Séra Jón í Belgsdal átti Sigþrúði[2]) og börn.
bb. Séra Árni á Mýrum, tvígiptur[3]) átti börn.
cc. Sigríður átti Jón Finnsson frá Flatey og börn.
dd. Guðrún átti Pétur hrút Jónsson.
Seinni kona Lopts Árnasonar var Helga Gísladóttir, þau barnlaus.
b. Pétur Árnason átti fyr Margréti Halldórsdóttur, börn:
aa. Guðrún átti Jón Þorvaldsson frá Auðbrekku, þeirra börn:
aaa. Jón sýslumaður í Hnappadal og fleiri.
Svo átti Pétur Kristínu Þorleifsdóttur frá Laugabóli, þeirra börn:
bb. Sigríður átti Þórð í Garpsdal Björnsson og börn.
cc. Halldóra fyrri kona Bjarna Árnasonar, áttu börn.
dd. Ragnheiður eða Ragnhildur.
c. Guðmundur Árnason, átti fyr Margréti Sigmundsdóttur, barn:

---

1) Sjá um afkomendur Árna Loptssonar og Helgu Bisks. II. 286—287.

2) Sigþrúður var dóttir séra Einars Sigurðssonar á Stað í Steingrímsfirði.

3) Hans son var meistari Jón biskup í Skálholti.

aa. Sigmundur í Hvítadal átti Valgerði Nikulásdóttur og börn[1]):

d. Þuríður Árnadóttir átti Ólaf Jónsson Óttarssonar; þeirra börn:

aa. Guðmundur átti Þóru Guðmundsdóttur og börn.

bb. Þorsteinn átti Þórdísi Kolbeinsdóttur og börn:

cc. Árni átti Katrínu Árnadóttur og eina dóttur.

dd. Guðríður átti Tómas á Eyri í Bitru.

ee. Kristín átti Sigurð í Búðardal[2]) og börn.

C. Sesselja Pétursdóttir átti séra Sigurð á Grenjaðarstað, son Jóns biskups Arasonar, þeirra börn:

1. Pétur, dó ungur, barnlaus.
2. Halldóra, dó ógipt, barnlaus.

D. Ragnheiður Pétursdóttir *í rauðum sokkum*, fyrri kona Jóns Magnússonar á Svalbarði; þeirra börn:

1. Magnús sýslumaður í Bæ (sjá Barðastr.sýslu).
2. Sigurður sýslumaður á Reynistað (sjá Hegranessþing).
3. Jón lögmaður (sjá Snæfellsnessýslu).
4. Staðarhóls Páll (sjá Ísafjarðarsýslu).
5. Steinunn meðhjálp séra Björns á Melstað Jónssonar biskups Arasonar; þeirra börn[3]):

a. Jón sýslumaður á Holtastöðum (sjá Húnavatnsþing).

b. Árni á Sauðafelli átti Önnu Björnsdóttur Hannessonar hirðstjóra; þeirra börn:

---

1) Ein dóttir þeirra var Elizabet, átti Halldór Sighvatsson í Gilsfjarðarmúla, þeirra son Sigmundur faðir Andrésar ríka á Skriðnesenni og Guðrúnar, er átti Jón Jónsson »litla bónda«, þeirra son Jón í Sælingsdal faðir Páls prests í Viðvík.

2) Sigurður var Ögmundsson Bjarnasonar Jónssonar á Hvoli, Þórðarsonar.

3) Sjá nánar um þessi börn og afkvæmi þeirra I. B. bls. 323—326 og Bisks. II, 365—385, og vísast því til þess hér.

aa. Daði sveinn Odds biskups, drukknaði 1609 í Hvítá eystra, barnlaus.
bb. Þóra átti Sigurð Þorbergsson.
cc. Kristín átti Þorleif Bjarnason[1]) og börn.
dd. Guðrún átti Árna Skúlason[2]) og börn.
ee. Þuríður átti Einar í Stóruhvestu Ormsson og börn.
ff. Ingiríður átti Narfa Jónsson, þeirra börn dóu.
Svo Ívar og með honum 4 börn, sem lifðu.
gg. Steinunn átti Jón á Þverá Jónsson. (Allra þessara afkomendur urðu almúgamenn.
Seinna átti Anna séra Jón Vigfússon, þeirra son:
Vigfús átti Ragnhildi Gottskálksdóttur). Árni átti launbarn með Valgerði Þorkelsdóttur, er hét:
hh. Halldóra, hún átti Magnús og börn.

c. Bjarni á Læk[3]) átti Sesselju laundóttur Eggerts lögmanns Hannessonar, þ. b.:
aa. Herdís átti séra Þorleif á Söndum Bjarnason og börn.
bb. Steinunn átti Þórð Eyjólfsson, bl.
cc. Þórunn átti Lopt Árnason (sjá hér að framan).
dd. Björn átti Halldísi Hallsdóttur frá Kambi og börn.
ee. Einar átti launson með Þorgerði Greipsdóttur.
ff. Þorleifur átti Kristínu Teitsdóttur.

---

1) Sumarliðasonar.

2) Skúli var lögréttumaður, bjó á Hamraendum og Síðumúla, hans faðir var Jón son Hálfdanar hálfbróður Daða í Snóksdal.

3) Þ. e. Brjánslæk.

d. Halldóra átti Bjarna sýslumann Pálsson börn:
  aa. Bergljót átti séra Sigurð Jónsson og börn.
  bb. Hallur á Möðruvöllum lögsagnari, átti Herdísi og börn.
  cc. Margrét átti séra Þorstein Ásmundsson og börn.
  dd. Jón átti Ólöfu Jónsdóttur.
  ee. Ljótunn átti Ólaf Árnason.
  ff. Magnús.
  gg. Páll.
  hh. Helga.
  ii. Þorbjörg.
  kk. Þuríður.
  ll. Þórunn.
e. Teitur á Holtastöðum átti Þuríði dóttur séra Erlends Pálssonar á Breiðabólstað; börn:
  aa. Árni á Holtastöðum átti Sesselju Pétursdóttur og börn.
  bb. Jón átti Agnesi Pétursdóttur og börn.
  cc. Helga átti Jón Grímsson.
  dd. Björg átti séra Gísla Brynjólfsson, bl.
  ee. Gunnlaugur í Bæ í Borgarfirði, bl.
  ff. Guðrún átti Magnús Þorsteinsson og börn.
  gg. Filippus, lg. átti Kristínu Guðmundsdóttur og börn.
f. Magnús bjó um hríð á Grund átti Halldóru Eiríksdóttur, börn:
  aa. Björn í Bólstaðahlíð átti Oddnýu Jónsdóttur og börn; hann átti fyrst barn með Kristínu dóttur Jóns sýslumanns föðurbróður síns, var náðaður.
  bb. Séra Jón á Ljósavatni átti Kristínu Jónsdóttur og börn.
  cc. Eiríkur í Djúpadal átti Guðfinnu Ísleifsdóttur og börn.

dd. Þórdís átti Þorvald á Reykjum Jónsson og börn.

g. Ragnheiður átti fyrst Sigurð Bjarnason, Torfasonar; þeirra barn:

aa. Bjarni á Stokkseyri, dó 86 ára 1653, atti Salvöru Guðmundsdóttur.

Síðar átti Ragnheiður Markús sýslumann í Héraðsdal, er dó 1590 Ólafsson og börn[1]):

bb. Ólafur í Gilhaga átti Guðrúnu Pétursdóttur og börn.

cc. Sigurður í Héraðsdal átti Guðbjörgu Torfadóttur sýslumanns og börn.

dd. Rannveig átti Egil Jónsson á Reykjum og börn.

ee. Margrét, seinni kona séra Snæbjarnar Stefánssonar.

Eptir aftöku séra Björns giptist Steinunn Ólafi á Geitaskarði; þeirra dóttir:

h. Guðrún[2]) átti Hannes í Snóksdal Björnsson, börn:

aa. Ólafur á Sauðafelli[3]) átti Halldóru Gísladóttur lögmanns og börn.

---

1) Um þessi börn og afkomendur þeirra sjá nánar I. B. bls. 367—370.

2) Guðrún dó í Snóksdal 95 ára gömul, gerði fátækum jafnan mikið gott.

3) Ólafur átti Sauðafell, Bár og fleiri en 20 jarðir smáar og stórar með eignum konu sinnar, var smiður góður og skytta, en búnaðist lítt, seldi jarðeignir sínar og varð fátækur. Börn hans og Halldóru fyrri konu hans voru:

1. Gísli átti hálft Sauðafell, seldi það fyrir Bæ í Miðdölum og bjó þar síðan, var þríkvæntur, átti börn.
2. Þórður átti Dýrfinnu vestan úr Tálknafirði.
3. Jón var góð skytta en lánlítill átti Valgerði Þorvaldsdóttur. Ein dóttir þeirra Oddný átti Hinrik Filippusson Grímssonar prests í Görðum Bergsveinssonar.
4. Hannes átti Margréti Hafliðadóttur og börn.
5. Guðríður átti Ögmund í Akureyjum Sigurðsson frá Bjarnarhöfn

bb. Eggert í Snóksdal[1]), lögréttumaður, átti Halldóru Hákonardóttur og börn.

---

Ögmundssonar Hallssonar og Solveigar Skaptadóttur prests á Setbergi Loptssonar, þeirra son:

a. Helgi átti Guðrúnu Steindórsdóttir, systur séra Daða í Otrardal, þeirra son:

aa. Steindór sýslumaður í Hnappadalssýslu (sjá um hann þar).

6. Guðrún seinni kona séra Ögmundar Torfasonar í Otrardal, þ. b.:

a. Steinvör átti Þórð á Látrum Snæbjarnarson, Árnasonar prests í Flatey Jónssonar, þeirra son Ögmundur faðir Gunnlaugs í Flatey.

b. Gróa átti Eyjólf Jónsson í Hrísdal.

7. Þórunn átti Ívar Jónsson frá Neðrabæ Ívarssonar og Sigríðar Bjarnadóttur prests í Selárdal Halldórssonar.

Síðari kona Ólafs Hannessonar var Steinunn dóttir Björns Magnússonar á Laxamýri (sjá hér áður), áttu börn lítt kunn.

Aths. Einkennileg villa er það hjá séra Jóni lærða Halldórssyni í ættatölum hans, að hann telur séra Jón Ólafsson á Lambavatni (Rauðasandsþingum) son Ólafs Hannessonar og Steinunnar, því að hann var af allt annari ætt (sbr. Bisks. I. 397 eptir ættatölubók séra Jóns Ólafssonar sjálfs). Annars eru ættatölur séra Jóns Halldórssonar mjög nákvæmar og áreiðanlegar. Eiginhandarrit höf. er í minni eigu, en mjög rotið og vantar allmikið í. Það handrit fékk eg fra Keldum á Rangárvöllum 1897. En afskript af allri bókinni meðan hún var heil (í Hítardal hjá séra Halldóri Finnssyni) hefur séra Ásgrímur Vigfússon Hellnaprestur tekið 1795 og er það handrit í minni eigu (í 2 bindum). Önnur afskript af frumriti þessu er hvergi til, að því er menn vita.

1) Halldóra kona Eggerts var dóttir Hákonar Björnssonar í Nesi við Seltjörn, þau giptust 1609. Börn þeirra:

1. Jón eldri, fáskiptinn maður, gaf próventu sína Pálma Hinrikssyni systurmanni sínum, dó bl.
2. Jón yngri, var lánlítill og líkþrár, eyddi eigum sínum, bjó um tíma á Hofsstöðum í Miklaholtshrepp, átti Margréti Steindórsdóttur Finnssonar frá Ökrum Steindórssonar. Hún dó á Hofsstöðum 1644, tæplega þrítug, þeirra börn: Guðmundur kallaður »meinlaus«, kvæntist, drukknaði niður um ís á Álptafirði, Hákon varð lögréttumaður í Húnavatnssýslu og kvæntist þar, Steinunn og Þórunn dóu bl.
3. Hannes erfði Snóksdal og bjó þar, dó 1655, átti Jórunni dóttur Jóns eldra Magnússonar í Haga (sjá Dalasýslu).
4. Ragnheiður átti fyrst séra Sigurð Ólafsson í Miðdalaþingum, er hrapaði ofan af Hamraendaklettum 1643, svo giptist Ragnheiður

cc. Steinunn átti Árna á Innrahólmi son Gísla lögmanns Þórðarsonar, og börn[1]).

---

Pálma Hinrikssyni Gíslasonar lögmanns Þórðarsonar, og bjuggu þau síðast á Breiðabólsstað í Sökkólfsdal; þeirra börn:

a. Guðlaug seinni kona Sigurðar Þorsteinssonar í Hlíð í Hörðudal, áttu börn.

b. Sigurður lögréttumaður á Breiðabólsstað, skynsamur maður, var hálfvisinn kararmaður (af slagi) 20 ár, dó 1729, kominn undir áttrætt, átti Margréti Jónsdóttur Erlingssonar, þ. b.

aa. Þorgils lærði í skóla, var fá ár ráðsmaður í Skálholti, svo spítalahaldari á Hallbjarnareyri, átti Guðrúnu Árnadóttur prests á Þingvöllum Þorvarðssonar, þeirra börn Jón prestur í Hellnaþingum († 1794), Oddur faðir Jóseps á Stapa, Ólafur, Þorsteinn, Ragnheiður, Margrét, Guðrún.

bb. Þorsteinn lærði í skóla, drukknaði niður um ís á Álptafirði af óvarlegri reið 7. apríl 1718 með Ásgeiri Jónssyni (prests á Breiðabólsstað á Skógarströnd) og Markúsi Jónssyni.

cc. Pálmi á Breiðabólsstað, dó 1730, átti Sigþrúði († 1724) Þorleifsdóttur prests á Kvennabrekku Jónssonar, þeirra son var Þorleifur lögréttumaður á Breiðabólstað faðir séra Einars í Guttormshaga.

5. Þórunn átti fyr Finn Steindórsson Finnssonar, hann varð líkþrár, þeirra einkadóttir Margrét, dó bl., síðar átti hún Þorvarð Runólfsson frá Brennistöðum (I. B. bls. 350), þeirra börn:

a. Runólfur átti Bergljótu Þorgilsdóttur, þeirra son Þorvarður faðir Bergþórs, föður Þorvarðar á Leikskálum föður Bergþórs samastaðar.

b. Finnur á Leikskálum, var tvíkvæntur.

c. Herdís átti Sigurð Þorgilsson á Jörfa, þeirra son Þorsteinn sýslumaður á Víðivöllum í Fljótsdal.

d. Halldóra átti Pál Bjarnason.

1) Árni bjó á Ytra-Hólmi. Hann var manna fræknastur og fimastur, en heldur óbilgjarn drukkinn. Hann dó 4. okt. 1654, en Steinunn 1658 65 ára gömul. Þá er Árni fór til kvonbæna að Snóksdal, orti hann gamanhending þessa eða gátu:

Reið eg frá eldsenda og aurdyngju (1), áða eg hesti mínum að teningsauga (2), stóð eg við á hlið svanna og (3) mun manna, fékk

dd. Þórunn giptist 18 vetra Gísla, syni séra Björns í Saurbæ Gíslasonar og börn[1]).

ee. Ragnheiður fyrri kona Jóns sýslumanns í Einarsnesi Sigurðssonar átti göfugt afsprengi[2]).

Í þriðja sinn giptist Steinunn Eggerti lögmanni Hannessyni, áttu eigi börn saman.

6. Þórdís átti Þorgrím í Lögmannshlíð, Þorleifsson, Þorgrímssonar á Núpum, Þórðarsonar börn:

a. Sigríður átti Jón[3]) Jónsson á Svalbarði; hann var sonur Jóns á Ökrum, Grímssonar lögmanns Jónssonar, börn:

aa. Magnús á Sjáfarborg átti Steinunni Sigurðardóttur og börn.

bb. Þórdís, dó 1670, seinni kona Árna lögmanns Oddssonar, þau áttu börn.

b. Hildur, seinni kona séra Teits í Gufudal Halldórssonar; börn:

aa. Ólöf átti Hákon Þorsteinsson[4]) bl.

bb. Arngrímur[5]) aðrir Þorgrímur, bl.

c. Sesselja átti Halldór[6]), börn:

---

eg mér mat á fjallsskoru við hnífsströnd (4), ætlaði eg mér í Snæringsdal (5) til hennar Grjótunnar (6) Greifansdóttur (7).

Þ. e. (1) Reykholt; (2) Ási; (3) Síðumúla; (4) Hvassafelli; (5) Snóksdal; (6) Steinunnar; (7) Hannesdóttur.

[Eptir ættatölubók séra Jóns Halldórssonar].

Um börn Árna og Steinunnar sjá Gullbr.sýslu.

1) Þórunn dó á Prestsbakka hjá Málmfríði dóttur sinni 1646. Um börn hennar og Gísla sbr. I. B. bls. 42—43.

2) Sjá Mýrasýslu.

3) Jón bjó á Sjáfarborg.

4) Son Þorsteins Magnússonar sýslumanns í Þykkvabæ.

5) Réttara: Þorgrímur; hann dó bl.

6) Halldór var Sigurðsson og bjó á Eyrarlandi í Eyjafirði.

aa. Bergljót átti Tómas Böðvarsson í Sólheimum[1]) og börn.
bb. Ljótunn átti Árna Björnsson[2]) og börn.
cc. Þórdís, tekin af á alþingi fyrir barngetnað.
dd. Sigurður.
ee. Ólafur[3]).

---

1) Þ. e. Sólheimum í Sæmundarhlíð. Tómas átti barn með systur konu sinnar Þórdísi og strauk af alþingi 1612, komst til Englands (sbr. Árb. Esp. V. 128) en Þórdísi var drekkt. Börn Tómasar og Bergljótar voru:

1. Benedikt faðir Hannesar prests á Stað á Snæfjallaströnd föður Gísla prests á Stað í Grunnavík.
2. Böðvar átti Marínu, enska að ætt, munu hafa siglt bæði; þeirra son
   a. Nathanael, ólst upp hér á landi, og lærði í Skálholtsskóla, fór því næst til Englands og dvaldi þar nokkra hríð, kom aptur hingað, varð geðveikur og gat ekki haldið lengi kyrru fyrir á sama stað, en flakkaði hingað og þangað, nam loks staðar á Leirulæk á Mýrum, var á lífi 1702, en dó litlu síðar hníginn að aldri (Eptir nafnaritgerð (Onomasticon) séra Eyjólfs lærða á Völlum í Lbs. 390 4to.).
3. Helga átti Sturlu á Kirkjubóli í Korpudal Bjarnason Sveinssonar, þeirra dóttir Steinunn átti Böðvar í Bolungarvík á Ströndum, þeirra son Teitur, hans son Böðvar átti Þorkötlu Hallsdóttur úr Flatey Ólafssonar á Þambárvöllum Hallssonar á Hríshóli Ólafssonar á Enni (Skriðnesenni) í Bitru Hallssonar.

2) Árni var sonur séra Björns Gíslasonar í Saurbæ í Eyjafirði, þeirra dóttir:

Steinunn fyrri kona Jóns á Gunnsteinsstöðum Jónssonar á Geitaskarði Egilssonar sbr. I. B. bls. 367 og 576. Aths. J. P. á bls. 324 og 576 um, að Árni faðir Steinunnar konu Jóns á Gunnsteinsstöðum, hafi verið son séra Björns Jónssonar á Melstað er ekki rétt. Sama villa er hjá Boga á bls. 478 og 532, en á bls. 576 er Steinunn talin rétt til ættar hjá Boga.

3) Ólafur var prestur á Stað í Steingrímsfirði. Börn hans (sbr. I. B. bls. 531) Þorleifur smiður í Köldukinn á Ásum, Guðrún, sem átti Hermann Pálsson skyttu, er drukknaði í torfgröf, og Sesselja, er átti séra Gottskálk Jónsson í Fagranesi.

d. Guðrún átti Jón Illhugason bóndamann[1]) þeirra dóttir:

aa. Þórdís fyrri kona Nikulásar í Héðinshöfða og Reykjahlíð, Einarssonar, Nikulássonar klausturhaldara, Þorsteinssonar sýslumanns Finnbogasonar lögmanns, þau áttu 15 börn. Þar af urðu mörg prestar eða prestakonur.

7. Solveig átti Filippus Þórarinsson á Svínavatni. — Nokkrar ættir telja þessa Solveigu dóttur Péturs Loptssonar og systur Ragnheiður[2]) — börn:

a. Rannveig[3]) átti Guðmund á Dunki Bjarnason, Guðmundssonar, Finnssonar á Ökrum, börn:

aa. Ari á Dunki átti Guðrúnu Grímsdóttur og mörg börn.

bb. Bjarni í Bæ í Króksfirði átti Svanborgu Guðmundsdóttur og börn[4]).

cc. Jón á Hróðnýjarstöðum átti Sesselju Gísladóttur og börn; Jón átti og laun-

---

1) Um Jón Illhugason lögsagnara og afkomendur hans sjá I. B. bls. 75—79.

2) Að telja Solveigu þannig til ættar er víst eigi rétt.

3) Réttara mun: Ragnheiður.

4) Foreldrar Svanborgar voru séra Guðmundur Jónsson á Stað á Reykjanesi og Halldóra Guðmundsdóttir frá Hvoli, systir séra Jóns í Hítardal. Börn Bjarna og Svanborgar:

1. Séra Guðmundur í Laugardælum. Hans dætur:
   a. Svanborg fyrri kona Jóhanns prófasts Þórðarsonar.
   b. Þórunn átti séra Björn Jónsson í Hrepphólum († 1696) son Jóns Jónssonar í Laugardalshólum og Arnleifar Björnsdóttfrá Skildinganesi Tómássonar; eitt þeirra barna, Svanborg, átti Þórð Gíslason á Írafelli í Kjós, þeirra son Guðmundur hreppstjóri á Hálsi, faðir Þorsteins stúdents í Laxanesi, Lopts hreppstjóra á Hálsi, Odds í Þúfu, Gísla á Írafelli, Gunnars á Þverfelli og þeirra fl. systkina.
2. Guðmundur annar átti Ragnhildi Ásbjarnardóttur, þeirra son

dóttur[1]), sem hét Guðrún, hennar maður Bjarni; þeirra börn:
aaa. Ragnheiður.
bbb. Anna.
dd. Hallgerður, eyðsluhönd, átti séra Þórð í Garpsdal Tómasson og börn[2]).

---

Jón (f. um 1657) bjó í Hlíð í Grafningi, átti Halldóru Erasmmusdóttur prests í Hrepphólum Pálssonar, þeirra börn Eyjólfur, Kristín, Guðrún.

3. Þórunn átti fyr Einar son Guðmundar Ásbjarnarsonar í Ólafsvík, bróður Ásbjarnar, er gaf konginum Ólafsvík, og Guðrúnar, er átti Ara Þórðarson, þeirra son var Vigfús stúdent, sigldi, skrifaður í stúdentatölu við háskólann 20. des. 1652, kom út aptur, reið úr Skálholti 1655 vestur í Þingvallasveit, og þaðan vestur yfir fjöll til Lundareykjadals, fannst dauður fyrir framan Efstabæ í Skorradal, en til hestsins, sem hann reið og reiðtygjanna hefur ekkert sést síðan. [Eptir ættatölubók séra Jóns á Lambavatni, eiginhandrit í minni eigu »endað Vitusmessumyrgin 1681«]. Síðari maður Þórunnar Bjarnadóttur Einar Marteinsson »söngur« á Hvassafelli í Norðurárdal af ætt Marteins biskups.
4. Ragnheiður átti Jón á Hafrafelli í Króksfirði Oddsson Tómassonar.
5. Ólafur átti Guðrúnu Bjarnadóttur.

1) Að Jón hafi átt nokkra laundóttur, er vafasamt, þess er að minnsta kosti ekki getið í áreiðanlegustu ættartölum.

2) Son séra Þórðar og Hallgerðar var:

1. Tómas prestur að Stað á Snæfjallaströnd, mikill skipasmiður, tvíkvæntur. Síðari kona hans Margrét Þórðardóttir (Galdra-Manga). Hann missti prestsskap vegna barneignar með henni áður og dó 1670. Af honum er komið margt manna. Einn son hans og fyrri konunnar, Margrétar Gísladóttur, bróðurdóttur Odds biskups var:
   a. Þormóður í Æðey, hans son Páll á Lónseyri, hans dóttir Helga átti Sigurð Pálsson í Fremri-Hnífsdal, þeirra son Hinrik á Seljalandi, faðir Sigurðar samastaðar, föður Hinriks kaupmanns á Ísafirði og Guðrúnar konu séra Hannesar Arnórssonar á Stað í Grunnavík. Bróðir Sigurðar á Seljalandi Tyrfingur Hinriksson, hans son Oddur, faðir Guðmundar, sem nú býr á Hafrafelli, og Péturs borgara í Bolungarvík. Frá séra Tómasi Þórðarsyni eru komnar mjög fjölmennar bændaættir í Ísafjarðarsýslu.

b. Pétur átti Katrínu Árnadóttur, börn:
aa. Einar átti Kristínu Ólafsdóttur og börn[1]).
bb. Steinvör átti séra Magnús Eiríksson[2]), börn:
aaa. Séra Jón í Laufási.
bbb. Séra Jón á Eyri.
ccc. Séra Sigurður á Kúlu, o. fl.[3]).

Vegna þess, að fjölmenn og mikil ætt er komin af Pétri hef eg sett hann hér í sýslumannatölu, en enga fullvissu hef

---

Annar son séra Þórðar í Garpsdal og Hallgerðar en bróðir séra Tómásar var:

2. Ari Þórðarson, en ekki er getið afkvæmis hans í ættartölum. Ef til vill er hann sami maður og sá Ari Þórðarson, er átti Guðrúnu Guðmundsdóttur Ásbjarnarsonar (sbr. hér á undan, þar sem getið er um Vigfús stúdent Arason); tímans vegna kemur það einmitt vel heim. Þetta er því sennilegra, sem Þórunn Bjarnadóttir systkinabarn við Ara var gipt Einari mági hans (bróður Guðrúnar konu hans). Bjarni hét og son Ara og Guðrúnar, bróðir Vigfúsar stúdents.

1) Son Einars og Kristínar.

1. Pétur á Eyri í Skutulsfirði átti Guðlaugu Gunnlaugsdóttur Skeggjasonar Gunnlaugssonar og börn.

2) Séra Magnús Eiríksson var prestur á Auðkúlu († 1652).

3) Enn voru börn séra Magnúsar og Steinvarar:

ddd. Bjarni prestur á Eyjadalsá, faðir séra Magnúsar samastaðar, er drukknaði í Skjálfandafljóti 1711.
eee. Hallgrímur gullsmiður í Danmörku, dó bl.
fff. Gunnar dó í Hollandi, átti launson, er Loptur hét.
ggg. Helga átti Pétur á Grund í Svínadal, son Jóns Geirmundssonar, þeirra börn Þorlákur og Steinvör.
hhh. Katrín átti Þorstein Gíslason, bróður séra Bjarna í Garði í Kelduhverfi.

Frá séra Magnúsi á Auðkúlu og Steinvöru er komin fjölmenn ætt, er nefnist Kúluætt.

Enn voru börn Péturs Filippussonar og Katrínar, en systkini Einars og Steinvarar:

cc. Árni átti Hallberu (aðrir Halldóru) Benediktsdóttur, þeirra synir Árni í Lækjarskógi faðir Þorkels á Draflastöðum, Guðmundur, Helgi og Benedikt.

eg fyrir því, að hann hafi hér verið sýslumaður, eður annarsstaðar, einasta eru líkindi fyrir því, að hann einhvern tíma

---

dd. Ragnheiður átti Ísleik Guðmundsson.
ee. Solveig átti Jón á Draflastöðum Jónsson s. st. Ormssonar, Jónssonar kolls Oddssonar á Hvoli Péturssonar, þeirra börn:
 a. Bjarni á Lundi og Fornastöðum átti Guðlaugu dóttur séra Odds Þorkelssonar á Hofi í Vopnafirði (aðrir telja hana dóttur séra Sigurðar Ólafssonar á Refstað og Sesselju Magnúsdóttur á Eiðum, en það mun tæpast rétt), þ. b.
  aa. Oddur prestur í Arnarnesi (Möðruvallaklaustri). Hans dóttir Guðlaug móðir Gríms Björnssonar á Stórulaugum föður séra Einars á Knappsstöðum og þeirra systkina.
  bb. Einar bjó í Lundi. Hans dóttir Sigríður átti Árna í Lundi Bjarnason frá Vöglum Árnasonar, þeirra synir Bjarnar tveir og Einar sterki í Yztafelli, hans son Jónas faðir Einars í Saltvík.
  cc. Helga átti Indriða Flóventsson á Draflastöðum, þeirra son Bjarni á Draflastöðum faðir Árna í Krókum fóstra Geirs biskups Vídalíns. Frá Indriða og Helgu eru komnar miklar ættir í Þingeyjarsýslu.
  dd. Steinvör átti fyr Jón Guðmundsson frá Grýtubakka, svo Þorlák Sigurðsson á Stokkahlöðum.
  ee. Ólöf átti Halldór á Hróarsstöðum (svo telur Gísli Ásm. í Nesi).
 b. Grímur í Lundi og Veisu. Hans son Illhugi lögréttumaður í Veisu faðir séra Grímólfs í Glaumbæ (sjá I. B. bls. 57).
 c. Katrín átti séra Jón Bessason á Sauðanesi, þeirra son séra Bessi á Sauðanesi, faðir séra Kristjáns s. st. föður séra Jóhanns á Mælifelli.
 d. Þórunn átti séra Sigurð Jónsson í Presthólum.
 e. Randíður átti Guðmund, þeirra son
  aa. Ásmundur á Melum faðir Randíðar, er átti Sigurð Jónsson á Gautastöðum; þeirra son Gísli átti Herdísi Guðmundsdóttur Sölvasonar; þeirra son Ásmundur eldri í Nesi föðurfaðir

hafi haft sýsluvöld, af því að hann kallast *bóndi*, sem eiginlega var valdsmanna titill til þess á ofanverðri 16 öld. — Vel getur verið, að hann hafi á yngri árum verið umboðsmaður Guðna eða Sturlu sýslumanna, eða verið millibils sýslumaður í Strandasýslu, og eins, að hann nálægt giptingu sinni hafi haldið part af Skaptárþingi.

Pétur er borinn nálægt 1475, af Steinunni dóttur Gunnars bónda í Ásgarði, er Loptur þá hélt við; en áður var borinn Stefán, sonur þeirra; hafði Loptur 1474, þegar hann var kominn haustið áður út, arfleitt mánudaginn í páskaviku son sinn Stefán til 2 hundraða hundraða, var þar í tilgreind jörðin Bjarnarhöfn 60 hundruð, Eyrardalur, Svarthamar, Hattardalur í Álptafirði, Heydalur, Kelda og Reykjarfjörður fyrir 60 hundruð og 78 hundruð í lausafé, kúgildum og öðrum þarf-

---

Ásmundar Gíslasonar á Þverá föður Einars dbrm. í Nesi.

f. Jón á Draflastöðum átti Sigríði.

Aths. Þessi Draflastaðaætt er allmjög rugluð í ættartölum, svo að erfitt er að finna hið rétta. Gísli Ásmundsson í Nesi (afi Einars), ættfróður maður, telur foreldra Bjarna á Fornastöðum og Gríms í Lundi og þeirra systkina, Jón Ormsson (glókoll) á Draflastöðum og Solveigu Pétursdóttur, en venjulegra er að telja mann Solveigar Jón son Jóns Ormssonar og Þórunnar Gísladóttur, og mun það réttara. Snókdalín o. fl. telja Jón Jónsson tvíkvæntan og Solveigu síðari konu hans, en hina fyrri Guðlaugu Grímsdóttur og þeirra son Grím í Lundi, en það mun miður rétt. Gísli í Nesi talar um Grím í Lundi, er hann virðist þó telja annan mann, en Grím föður Illhuga, hafi sá Grímur átt Guðlaugu nokkra ekkju Árna í Lundi og hafi hún átt 10 börn með hvorum manni. Son hennar og Árna telur hann Eirík á Skuggabjörgum föður Þorsteins í Sigluvík, er fyr átti Þuríði Sölvadóttur, systur Guðmundar, er áður er getið, en síðar Þorbjörgu Benediktsdóttur, og var þeirra son Jón á Bakka í Svarfaðardal föðurfaðir Einars Guðmundssonar dbrm. á Hraunum (eldra). Systir Þorsteins í Sigluvík Guðlaug Eiríksdóttir, átti Snorra í Haga, þeirra dóttir Þuríður móðir Hallgríms Einarssonar á Ósi (föður séra Þorláks á Skinnastöðum) Snorra á Reistará og Ólafar móður Einars dbrm. á Hraunum. Þannig rekur Guðmundur í Melgerði þessa ætt. Jón faðir Gríms á Veisu og Bjarna á Fornastöðum mun vera sá Jón Jónsson á Draflastöðum, sem kallaður er hinn gamli eða »barnakarl« í ættatölum.

legum aurum. Héldu þessir menn allir á einni bók: Loptur, Stefán son hans og húsfrú Solveig Þorleifsdóttir móðir Lopts, er játaði og samþykkti fyrir sig arfleiðinguna. Þar eptir fór Loptur utan og giptist þar og dó 1477 í Noregi. Þá tók Solveig, móðir Lopts fé hans undir sig, það sem eigi var tilnefnt í ættleiðingunni. 1479 dó Solveig; lét þá Þorleifur hirðstjóri Björnsson dóm ganga að Staðarhóli, og dæmdist þeim Stefáni og Pétri arfurinn; dóm þann staðfesti Brandur lögmaður 1480. Steinunn Gunnarsdóttir arfleiddi og Pétur þar eptir. Þar næst dó Stefán og erfði þá Pétur bróður sinn, sem þá var barnl. Ritað er, að Stefán Loptsson hafi á æskualdri farið utan, og dáið í þeirri ferð barnlaus. Að sönnu urðu margar afklípur af fé Solveigar, svo sem Staðarhólseignin, er biskupar hremmdu til sín, og gjafir, sem hún hafði öðrum gefið; einnig minnkaði fé Lopts af þeirri morgungjöf, sem hann hafði heitið konu sinni frú Gunnhildi 20 merkur gulls; þó var enn nokkuð, sem Pétur hlaut, svo hann gerðist vel auðugur. Hann mun á ungdómsárum hafa verið að miklu leyti uppalinn í Ásgarði af móður sinni. Fjárheimtumál var á milli Guðmundar Andréssonar og Péturs bónda, en þar um sættust þeir 1517 heilum sáttum. 1536 hafði Pétur jarðakaup við Björn á Reykhólum Þorleifsson. 1539 lúkti Pétur Árna syni sínum í Stóradal í Eyjafirði, Akureyjar vestra fyrir 40 hundruð, og skyldi hann lúka Djúpadalskirkju (svo hét þá Stóridalur). Pétur bjó í Stóradal 1517. Eptir riti Guðbrandar biskups hefur Pétur verið kominn í Norðurland nálægt 1510, því Gottskálk Hólabiskups hafði fengið Pétur til, ásamt öðrum fleirum, að veitast að Jóni Sigmundssyni, og að Pétur hafi þá tekið Víðidalstungu af eignum Jóns. 1525 er Pétur kaupvottur, þegar Erlendur lögmaður Þorvarðarson giptist á Staðarfelli Þórunni Sturludóttur og telst næstur eptir Þorleif Pálsson til undirskriptar.

## Guðni Jónsson.

Sjá Dalasýslu og Ísafjarðarsýslu. Þegar Guðni var orðinn gamall tók hann Strandasýslu, og þar var hann sýslumaður 1502, og getur verið, að hann fyr hafi haldið Strandasýslu ásamt Ísafjarðarsýslu. Líkast er, að Guðni hafi haldið Strandasýslu annaðhvort hálfa eða alla til síns dauða 1508, getur og

verið, að hann í elli sinni hafi haldið umboðsmenn, svo sem Pétur Loptsson eða Guðlaug[1]).

## Sturla Þórðarson.

Sjá um hann við Snæfellsnessýslu og Dalasýslu. Eg meina, að hann hafi tekið Strandasýslu, annaðhvort alla eða hálfa, eptir Guðna 1508; og þar var hann sýslumaður 1511, því það ár nefndi hann 6 menn í dóm að Árnesi, um ótekna jörð, en dulið er, hve lengi hann hélt þá sýslu.

## Pétur Loptsson.

Sjá um hann hér að framan. Hafi hann haft veitingu fyrir Strandasýslu, er líkast, að það hafi verið ásamt Sturlu eða næst eptir hann. Eg meina, að hann hafi ekki verið annað en umboðsmaður í sýslunni, áður en hann fór norður, en sýsluna hafi þá haft að veitingu Sturla eða Guðni.

## Guðmundur Andrésson.

Sjá um hann hér að framan. Hann mun hafa tekið Strandasýslu um eða eptir 1524 eða 1520 og haldið hana til þess sonur hans, séra Ólafur í Hjarðarholti, tók hana nálægt 1533. Þó lifði Guðmundur nokkuð þar eptir. Enga dóma hef eg séð eptir Guðmund, svo það er eigi utan gáta mín, að hann hafi hér sýslu haldið, dregin af því, að hann var maktarmaður í Strandasýslu, og séra Ólafur í Hjarðarholti, sonur hans, tók sýsluna 1533. Guðmundur bjó undir Felli í Kollafirði, seinni hluta æfi sinnar og varð gamall maður.

---

1) 1504 nefndi Guðni Jónsson, er þá hafði konungsins sýslu og umboð í millum Geirhólms og Hrútafjarðarár, 6 menn í dóm á Kirkjubóli í Steingrímsfirði, út at kæru Jóns murta Einarssonar til Jóns Hallvarðssonar, er ólöglega hafði setzt á þriðjunginn í téðri jörðu Kirkjubóli, er konu Jóns murta Sigríði Guðmundsdóttur hafði fallið í arf til móts við systur sínar, Guðfinnu og Guðrúnu eptir föður sinn, séra Guðmund Skúlason. Þessi séra Guðmundur Skúlason hefur sjálfsagt verið séra Guðmundur Skúlason á Melstað, sonur Skúla sonar Lopts ríka Guttormssonar.

## Ólafur Guðmundsson.

*Faðir:* Guðmundur Andrésson Guðmundarsonar ríka.
*Móðir:* Jarþrúður dóttir Þorleifs hirðstjóra Björnssonar.
*Kona:* Ólafur hélt við Ingiríði dóttur Guðmundar Finnssonar á Ökrum.
*Börn:* A. Jón, bjó lengi á Svarfhóli í Laxárdal, síðan í Galtardalstungu. Ingiríður ættleiddi hann 1529. Daði í Snóksdal, móðurbróðir Jóns, gaf honum í testamenti sínu Sólheima í Laxárdal með 6 kúgildum. Löngu seinna giptist Jón Þóru, dóttur Þorsteins Torfasonar; þau áttu eigi börn. Síðan giptist Jón eptir 1560 Guðrúnu frilludóttur Árna sýslumanns Gíslasonar, þá veranda á Þingeyrum, en seinast á Hlíðarenda. Jón var hið mesta afarmenni og vel auðugur. Hann var við aldur, er hann giptist í seinna sinn, en Guðrún var þá ung. Jón dó löngu undan henni. Þeirra börn voru:

1. Gísli á Staðarfelli heljarmenni að kröptum, bjó seinna í Galtardalstungu; átti Þuríði dóttur Vigfúsar, sýslumanns á Kalastöðum, Jónssonar[1]); börn:
   a. Árni átti Ragnhildi Eiríksdóttur[2]), börn:
      aa. Þorkell varð úti á Hallruna 1632, bl.
      bb. Ragnhildur.
      cc. Halldóra.
      dd. Inga, laundóttir Árna með Þjóðhildi Jónsdóttur, átti Bjarna Steindórsson á Kálfárvöllum.
   b. Jón bartskeri[3]) átti Ólöfu Tómasdóttur Brandssonar, frá Bægisá; börn:
      aa. Árni á Gullsmiðsreykjum átti Kristínu Ásgeirsdóttur[4]) og börn

---

1) Gísli ólst upp á Hlíðarenda hjá Árna sýslumanni afa sínum átti þar, 14 eða 15 vetra, tvíbura með Halldóru Eyjólfsdóttur, systur Guðmundar á Hofi, hét annað þeirra Ólöf, sjá síðar.

2) Steindórssonar.

3) Jón bjó á Bægisá.

4) Björgólfssonar.

bb. Jón[1]) átti Oddnýju norðlenzku og börn.
cc. Guðrún átti Markús Ólafsson á Breið[2]) og börn.

c. Sigmundur í Fagradal átti Guðrúnu Pálsdóttur, Ormssonar, Sigurðssonar, börn[3]):
aa. Páll sigldi til Englands; kom eigi aptur.
bb. Rögnvaldur í Fagradal, sýslumaður, sjá síðar.
cc. Guðrún átti Sveinbjörn Árnason og börn.
dd. Ástríður átti Ólaf í Höfn Þórðarson og börn.
ee. Margrét átti Sigurð á Kollsá Arnfinnsson og börn.
ff. Álfheiður átti séra Árna á Mýrum Loptsson og börn.
gg. Gunnfríður, átti launson með Jóni eldra Vigfússyni.

d. Jórunn[4]) átti séra Jón Ormsson á Kvennabrekku, börn:
aa. Séra Magnús á Kvennabrekku átti Guðrúnu Ketilsdóttur og börn[5]).

---

1) Jón bjó á Hafgrímsstöðum. Hans dóttir Þuríður móðir Ingjalds Hinrikssonar í Digranesi, föður Otta í Hrólfsskála, föður Ingjalds s.st., föður Sigurðar, er þar bjó lengi.

2) Hann var son Ólafs Markússonar í Gilhaga og Guðrúnar Gunnarsdóttur frá Víðivöllum (sbr. I. B. bls. 356). Einn son þeirra Markúsar var Ólafur eldri átti Ingibjörgu Salómonsdóttur frá Geirshlíð Björgólfssonar, svo Ragnhildi Ólafsdóttur.

3) Um þessi börn er ritað nánar í athugasemdum hér að framan (bls 300—301).

4) Séra Jón í Hítardal segir svo um Jórunni í ættatölum sínum: »Hún var ein hin álitlegasta persóna á sínum æskualdri, ólst upp nokkra stund norður á Hólum, féllu þar inn kunningsskapur og kærleiki með herra Þorláki Skúlasyni og henni, áður en hann varð biskup, en að sundur dróst hafa sumir kennt fólki hans, að ei þótti jafnræði, sumir hennar stoltu geði«.

5) Eitt þeirra var Árni assessor Magnússon, sjá Dalasýslu.

bb. Karítas átti Þórð Hannesson í Snóksdal og börn[1])
cc. Jóhanna átti séra Daða Steindórsson, þeirra son:
aaa. Ormur sýslumaður[2]).
dd. Vigfús á Leirulæk, ruglaðist, barnlaus[3]).
e. Ólöf, lg., átti Þorstein Magnússon bróður Árna sýslumanns.
f. Páll, lg.
g. Þórður[4]) varð úti með Þorkeli 1632.
2. Daði silfursmiður Jónsson, bjó á Staðarfelli átti Ragnhildi, hún dó 1607, dóttur Torfa á Hrauni í Dýrafirði Vigfússonar[5]) Brúmanns sama staðar, Sigurðarsonar, Brúmannssonar á Eyri í Seyðisfirði; börn:
a. Séra Halldór í Hruna, prestur 55 ár, próf-

---

1) Börn Þórðar og Karítasar:
1. Hannes átti fyr Þorbjörgu Pálsdóttur prests á Gilsbakka Gunnarssonar, svo Guðlaugu Bjarnadóttur.
2. Halldóra átti fyr séra Vigfús Eiríksson í Miðdalaþingum, þ. son:
a. Eiríkur stúdent í Ási í Melasveit, faðir Vigfúsar stúdents í Galtarholti († 1788). — Síðar átti Halldóra séra Einar Oddsson eldra á Lundi.
3. Guðrún átti fyr Hallgrím son Sigurðar Magnússonar á Sandhólaferju, svo Jón Arnórsson lögsagnara í Ljáskógum og börn.

2) Sjá um hann Dalasýslu.

3) Þ. e. Leirulækjar-Fúsi, nafnkenndur á sinni tíð fyrir ýmiskonar glettni og klúran kveðskap.

4) Enn voru börn Gísla í Galtardalstungu:
h. Vigfús eldri, drukknaði bl.
i. Vigfús yngri, veiktist og dó bl.
k. Hannes, var hégómamaður, dó bl.
Í ættatölum séra J. Halldórssonar, er Páll son Gísla talinn skilgetinn. Hann sigldi og hrapaði ofan úr turni erlendis. Þórður son Gísla sigldi til Frakklands með Bjarna »domingo« upp á hvalatekju, kom svo aptur og varð úti á Hallruna í krossmessufjúkum haustið 1632.

5) Líkl. réttara Sigfússonar, þótt það sé nokkuð óvíst, því að Torfi er alstaðar nefndur »Fúsason« og faðir hans Fúsi Brúnmann (eða Brúmann). Er ekki ósennilegt, að það sé útlent ættarnafn.

astur 20 ár, dó 1678, átti Halldóru Einarsdóttur, börn:

aa. Séra Árni samastaðar, prestur 30 ár, dó 1687, átti Salvöru Einarsdóttur og börn[1]).

---

1) Börn séra Árna og Salvarar:

1. Grímur djákn á Möðruvallaklaustri, dó 1704 á 30. aldursári, ókvæntur, barnlaus.
2. Guðrún var þjónustustúlka á Hólum hjá Birni biskupi Þorleifssyni, dó óg. bl. á Hlíðarenda.
3. Solveig átti séra Franz Íbason í Hruna merkiskler, þ. b.
   a. Árni prestur í Hruna († 1757) ókv. bl.
   b. Þórður, var hingað og þangað, bjó um tíma í Oddgeirshólum, dó 78 ára gamall um 1774, átti Þorbjörgu Oddsdóttur (sbr. bls. 310). Launbörn hans: Þorlákur prestur í Grímsey, ræfilmenni, drukknaði við Hrísey 1756 og Brynhildur.
   c. Sigríður átti Illhuga prófast Jónsson í Hruna, þeirra börn:
      aa. Hilaríus prestur á Mosfelli.
      bb. Franz á Læk í Leirársveit átti Ingunni Hróbjartsdóttur frá Króki í Biskupstungum Helgasonar á Brú Sveinssonar.
      cc. Ingibjörg s. k. Gísla Jónssonar á Mýrum í Flóa, þeirra son Finnur stúdent.
      dd. Jafet við klæðaverksmiðjuna í Reykjavík. Hans dóttir Ingveldur átti Einar stúdent Jónsson frá Rafnseyri, föðurbróður Jóns Sigurðssonar, þeirra börn: séra Ólafur Johnsen á Stað, séra Guðm. Johnsen í Arnarbæli, Ingibjörg kona Jóns Sigurðssonar o. fl.
      ee. Vigfús var á Kjalarnesi. Hans son Ásmundur í Vatnsholti í Grímsnesi.
      ff. Gísli var á Kjalarnesi.
      gg. Grímur.
   d. Íbi student, útskrifaður úr skóla 1727, bjó á Grafarbakka í Ytrihrepp og Brjámsstöðum á Skeiðum, dó þar 1766, tvíkvæntur; síðari kona hans Gróa Einarsdóttir frá Húsatóptum Þorgilssonar, þeirra dóttir Guðríður; þær mæðgur fóru austur í Holt.
   e. Marín dó ógipt bl. í Auðsholti 16. des. 1753.
4. Hólmfríður átti Jón Sigurðsson frá Unnarholti Jónssonar.
5. Ragnheiður 3. kona Þórðar Péturssonar á Innrahólmi, þ. b.:
   a. Margrét móðir Vigfúsar stúdents Eiríkssonar (bls. 331).

bb. Séra Daði[1]) í Steinsholti vígðist 1661 til kapelláns hjá föður sínum; hafði þá gert þungaða Ragnheiði, dóttur Brynjólfs biskups og fengið 1661 Reykjadalsbrauð, en missti það þá og sigldi, var svo í útistöðum frá 1667 til 1671, þá hann fèkk Steinsholt; þar þjónaði hann til 1717, og dó 83 ára 1721. Hans kona Ingibjörg Finnsdóttir, þau áttu börn.

cc. Ragnhildur átti séra Magnús Jónsson[2]) og börn.

---

1) Séra Daði var í mörgu atgervismaður, en ekki lánsamur, heldur kýminn, segir séra Jón Halldórsson. Börn hans og Ingibjargar Finnsdóttur frá Snjallsteinshöfða voru:

1. Ingibjörg átti séra Guðmund (aðstoðarprest í Steinsholti) son Jóns Fabíanssonar frá Flögu í Skaptártungu. Bjó Fabían þessi í koti hjá Hvaleyri við Hafnarfjörð, en Jón son hans fór á unga aldri til Hafnar að læra ölgerð (»Havniam delatus artem cerevisiæ conficiendæ ibi didicit«, segir séra Eyjólfur á Völlum). Hann var og í sænska stríðinu með Oddi Eyjólfssyni, Teiti Torfasyni o. fl.: hann var ekki sterkur, hafði því að eins byssu, en hinir byssur, korða og kylfur. Síðan varð hann umboðsmaður Flögujarða. Son séra Guðmundar og Ingibjargar var:
   a. Daði prestur í Reynisþingum tvíkvæntur. Sonur hans Guðni, átti launbörn hingað og þangað.

   Síðari maður Ingibjargar Daðadóttur Kort Magnússon í Árbæ bl.
2. Guðrún síðari kona séra Eiríks Oddssonar í Hrepphólum, þeirra börn mörg, þar á meðal Þórður prestur í Selvogi átti Ragnhildi Jónsdóttur frá Eymu Hróbjartssonar og Oddur stúdent, er var lengi erlendis, bjó á Stað í Grindavík og víðar, óreglumaður, dó í Stóra-Botni á Hvalfjarðarströnd.
3. Margrét átti Jón son Árna Pálssonar á Skúmstöðum á Eyrarbakka, hálfbróður (hórgetinn) séra Odds á Kálfatjörn, þ. b.
   a. Hákon í Kirkjuvogi, faðir Vilhjálms, föður Hákonar, föður Vilhjálms dbrm.
   b. Ingibjörg átti Ísleif Ólafsson í Litlabotni, þeirra son Jón í Botni faðir Odds á Reykjum í Lundarreykjadal og þeirra systkina. Allt mjög fjölmennar ættir.

2) Séra Magnús var prestur á Breiðabólstað í Fljótshlíð, bróð-

dd. Sigríður fyrri kona séra Þorleifs Kláussonar, barnlaus.

ee. Margrét, tvígipt; átti börn[1]).

ff. Guðrún[2]).

b. Jón Daðason, tvígiptur; hans seinni kona Auðbjörg Einarsdóttir; þeirra börn:

aa. Daði sigldi, kom eigi aptur.

bb. Ragnhildur.

cc. Árni.

dd. Jón, þeir voru báðir barnlausir.

c. Ólöf dó 1616; átti Teit, son séra Teits á Lundi; barnlaus.

d. Guðrún átti séra Jón Gunnlaugsson[3]); börn:

aa. Séra Gísli kapellán í Arnarbæli, dó 1670[4]) barnlaus.

bb. Daði átti Þórdísi Magnúsdóttur og mörg börn[5]).

---

ursonarson Odds biskups Einarssonar, dó fjörgamall. Ein dóttir hans og Ragnhildar: Ragnhildur átti séra Gunnar Einarsson í Kálfholti, þeirra dóttir Ragnhildur átti Högna Björnsson lögréttumann á Laugarvatni móðurbróður Finns biskups, þeirra synir auk fleiri: Jón faðir Jóns sýslumanns í Bæ (sjá hér síðar) og Björn í Vorsabæ á Skeiðum faðir Knúts á Drumboddsstöðum, föður Sigríðar, móður Sigrúnar móður minnar (H. Þ.).

1) Margrét var þrígipt, fyrst Grími Einarssyni, bróður Salvarar konu séra Árna bróður hennar, svo Einari Eyjólfssyni sýslumanni í Árnesþingi, þeirra son Haldór sýslumaður í Þingeyjarsýslu, síðast séra Oddi Eyjólfssyni í Holti, bl.

2) Guðrún dó ógipt, bl.

3) Hann var prestur í Steinsholti, dó 1671. Faðir hans séra Gunnlaugur í Hruna var son séra Jóns Loptssonar í Vatnsfirði.

4) Snókdalín telur hann dáinn 1654. Hann drukknaði.

5) Daði eldri bjó á Stóruvöllum. Meðal barna hans var:

1. Gísli hreppstjóri í Miðdal í Mosfellssveit. Hans son mun hafa verið Páll, er eptir hann bjó í Miðdal, hans son Magnús í Miðdal, hans launson Magnús, er lengi var á Lambastöðum og Seli á Seltjarnarnesi og átti fyrir seinni konu Margréti Illhugadóttur prests í Villingaholti Hannessonar, þeirra son Lýður, er enn mun vera á lífi í Reykjavík. Systir hans Soffía átti Hermann Fischer kaupmann í Rvík.

cc. Daði yngri[1]).
dd. Jórunn,
ee. Ásta, þær giptust og áttu börn.
e. Valgerður átti séra Jón í Selvogi[2]); börn:
aa. Ingibjörg, seinni kona Gísla Gíslasonar, barnlaus.
bb. Ingibjörg önnur átti Pál Jónsson[3]).
cc. Guðrún átti Guðmund Gíslason[4]) og börn.
dd. Ragnhildur átti Jón í Selvogi og börn.
ee. Daði.
ff. Jón.
gg. Guðrún yngri.

Seinni kona Daða var Sesselja Ásmundsdóttir, börn:

f. Séra Jón[5]) í Arnarbæli átti Katrínu Kortsdóttur, börn:
aa. Hákon átti Guðrúnu Markúsdóttur, bl.
bb. Ingveldur átti Berg Benediktsson, tóku bæði framhjá.
cc. Solveig seinni kona Sæmundar Magnússonar[6]).

---

1) Séra Jón Halldórsson og Espólín telja, að Daði yngri hafi átt Þórdísi Magnúsdóttur, en Espólín segir, að Daði eldri faðir Gísla hafi átt Þórdísi Gunnarsdóttur frá Hvammi á Landi Jónssonar, og má vera að það sé réttara. Þetta hefur ruglazt þannig saman, af því að konur þessara tveggja bræðra með sama nafni hafa hvorttveggja heitið Þórdís. Séra J. H. nefnir ekki konu Daða eldra. En það má telja áreiðanlegt, að Gísli í Miðdal er son hans. Hann bjó fyrst austur á Landi (á Stóruvöllum). Frá börnum Daða yngra verður nú ekki talið.

2) Séra Jón Pálsson var bróðir séra Gunnars á Gilsbakka, son Páls á Hólmi og Hallóttu.

3) Prests frá Skrauthólum Oddssonar

4) Guðmundssonar prests í Gaulverjabæ, Gíslasonar. Börn þeirra Gísli, Ormur, Björn, Halldór, Guðrún.

5) Séra Jón átti Katrínu Kortsdóttur Þormóðssonar. Hann keypti mikið jarðagóss.

6) Frá Hóli í Bolungarvík.

dd. Katrín átti séra Odd á Kálfatjörn og börn[1]).
ee. Guðrún átti Þorstein í Krísuvík og börn.
g. Ragnhildur átti Hannes lögsagnara í Árnessýslu, hún fæddist 1610, dó 1699. Hannes dó 1659 (réttara 1653), hann var son Helga Eyjólfssonar prests Grímssonar á Melum, börn:
aa. Vigfús sýslumaður í Árnessýslu.
bb. Hólmfríður prófastamóðir, átti séra Halldór Jónsson[2]) 1664, hún dó 1731, 90 ára.
3. Ólafur (Illi Láfi[3])) á Svarfhóli í Laxárdal átti Ingibjörgu dóttur Vigfúsar á Kalastöðum; Ólafur var auðugur, átti Svarfhól í Laxárdal, Gröf, Sólheima, Lambastaði hálfa, Goddastaði og Fjarðarhorn. Börn Ólafs og Ingibjargar:
a. Séra Jón í Hvammi í Norðurárdal, 50 ár, dó 1696. 89 ára, átti fyr Sigríði Loptsdóttur, börn:
aa. Kristín, dó 1711, 78 ára, átti Finn frá Ökrum Sigurðsson og börn.
Seinni kona séra Jóns Þóra Þorvaldsdóttir, börn:
bb Séra Brynjólfur í Görðum á Álptanesi 4 ár, dó 1694, 29 ára, var 4 álnir á hæð; átti Steinunni Erlendsdóttur og börn.

---

1) Þeirra dóttir Þorbjörg átti Jón Ísleifsson sýslumann í Skaptafellssýslu.

2) Í Reykholti. Synir hans voru séra Jón prófastur í Hítardal, séra Hannes prófastur í Reykholti og séra Torfi prófastur á Reynivöllum (Vindási).

3) Jón Magnússon í Haga, er hélt Dalasýslu, sagði, að sá mætti hafa hana fyrir sér sem vildi, ef þeir bræður, Gísli, Ólafur og Daði, væru allir í henni: Gísli hefði snarræði og harðfengi fyrir þá alla, Ólafur illsku og áræði fyrir þá alla, en Daði vitið fyrir þá alla (Eptir séra Jóni Halldórssyni).

cc. Sigríður, dó 1707, átti séra Jón Eyjólfsson og börn.

b. Þórður í Sólheimatungu og Galtarholti átti Jarþrúði Jónsdóttur, börn:

aa. Þórður í Galtarholti átti Ragnheiði Jónsdóttur og börn:

bb. Jón í Sólheimatungu, tvígiptur, átt-börn.

cc. Kristín átti Björn Ásgeirsson frá Tröllatungu og börn.

dd. Svanborg átti Guðmund Erlendsson[1]) og börn.

c. Helga átti Bjarna Guðmundsson á Klett; börn:

aa. Séra Guðmundur í Árnesi, kvæntist og átti börn.

bb. Ástríður átti séra Jón Torfason[2]) 1663 og börn.

cc. Halldóra átti Erasmus Arngrímsson og börn.

dd. Ingibjörg átti Ívar Jónsson og börn.

ee. Sigríður.

ff. Helgi.

d. Jórunn Ólafsdóttir átti Egil Bjarnason, börn:

aa. Bjarni átti Vigdísi Nikulásdóttur prests[3]) og börn.

bb. Helga átti Gunnlaug Pálsson og börn.

cc. Einar á Geirseyri átti Gyríði Sturludóttur og börn.

dd. Sigurður átti Þuríði Gunnarsdóttur og börn.

ee. Ólöf átti með séra Guðmundi Bjarnasyni[4]) laundóttur, Valgerði.

---

1) Réttara: Erlingsson (sjá hér á undan bls. 302).

2) Á Stað í Súgandafirði, þeirra son Ólafur prestur á Stað í Grunnavík, faðir Jóns Grunnvíkings.

3) Í Flatey Guðmundssonar.

4) Þ. e. séra Guðm. Bjarnasyni í Laugardælum. Valgerður átti Þórólf Árnason á Eyri í Bitru.

ff. Anna átti Jón í Ólafsdal Egilsson.
gg. Finnbogi dó 1665 barnlaus.
e. Magnús á Kjarlakstöðum[1]) átti Guðrúnu Bjarnadóttur Árnasonar, Gíslasonar á Staðarfelli; þeirra börn:
aa. Valgerður seinni kona Þorleifs Böðvarssonar á Straumi, átti börn.
bb. Þóra átti Jón, börn:
aaa. Magnús í Galtardal.
bbb. Jórunn.
cc. Karítas átti Jón Jónsson, þeirra dóttir:
aaa. Gróa á Hofstöðum.
dd. Solveig átti Sigurð Pálsson, börn:
aaa. Páll á Hnúki.
bbb. Árni.
ccc. Þórey.
ddd. Magnús.
4. Ingibjörg Jónsdóttir átti séra Eyjólf Arnþórsson, börn[2]):
a. Anna átti Bjarna fýsikamp Jónsson[3]) börn:
aa. Guðmundur[4]).
bb. Kristín
cc. Helga.
dd. Valgerður.
Allt bændafólk, giptust og áttu börn sum þeirra.
b. Gróa, var sögð áður kunnug Gísla biskupi Oddssyni, átti Björn á Heynesi Ásgrímsson; börn:

---

1) Frá Magnúsi er komin fjölmenn bændaætt í Dalasýslu, er hér yrði oflangt að telja.

2) Um börn séra Eyjólfs og Ingibjargar sjá ítarlegar Bisks. II. 632—633.

3) Bjarni dó snögglega á ferð frá Hítardal hjá Ytri-Hraundal, drukkinn 1677.

4) Laundóttir Guðmundar með Guðrúnu Eiríksdóttur á Fitjum Oddssonar:
a. Guðrún átti Björn Halldórsson lögréttumanns í Þrándarholti Einarssonar, bl.

aa. Ásgrímur.
bb. Guðmundur.
cc. Vilborg.
dd. Bryngerður.
ee. Helga.
ff. Ragnhildur.
gg. Valgarður (þjónaði höfðingjum) allt bændafólk.

c. Álfhildur tvígipt.
d. Hallbera, tvígipt, barnlaus.

5. Elín, dó 1609, átti Sigvalda á Búlandi, son Halldórs sýslumanns Skúlasonar[1]) börn:

a. Eiríkur lögréttumaður á Búlandi, dó í lögréttu 1661, átti fyrir Þórunni Sigurðardóttur prests, börn:

aa. Séra Þórarinn í Eydölum, missti kjól og kall, sigldi svo og varð sagnaritari, dó 1660
bb. Séra Halldór í Eydölum, giptist, átti mennileg börn.
cc. Bjarni sýslumaður á Búlandi, sjá Skaptárþing.
dd. Elín átti Hjalta Pálsson, þeirra börn vel mönnuð.
ee. Þórunn átti Ólaf lögréttumann á Steinsvaði, barnlaus.
ff. Þórunn yngri átti Gísla á Sandfelli Eiríksson.
gg. Járngerður giptist ekki, barnlaus.

Seinni kona Eiríks var Valgerður Ólafsdóttir, ekkja séra Sigurðar Einarssonar, hvers dóttur með fyrri konu Eiríkur átti áður, þeirra börn:

hh. Sigvaldi halti átti Ólöfu Jónsdóttur og börn.
ii. Jórunn átti Eirík Magnússon.
kk. Steinunn átti séra Högna í Einholti Guðmundsson og börn.

---

1) Sjá seinna um afkomendur Halldórs sýslumanns Skúlasonar.

b. Halldóra átti Árna[1]) Árnason, börn:
aa. Arni[2]).
bb. Jón[3]).
cc. Halldóra[4]).
dd. Guðrún[5]).

c. Þórunn átti Jón Jónsson á Brekku í Mýrdal; börn:
aa. Halldór.
bb. Daði.
cc. Ingveldur.
dd. Þorbjörg.
ee. Finnur.
ff. Guðmundur[6]).

d. Guðrún átti Einar Þormóðsson[7]), börn:
aa. Halldór lögréttumaður[8]) og yfirbryti átti konu og börn.

---

1) Árni var son Árna Stefánssonar, bróður Einars á Hörgslandi.

2) Árni átti Gróu Pálsdóttur, þ. b. Skúli, Ólöf, Solveig.

3) Jón var yfirbryti í Skálholti á dögum Brynjólfs biskups, bjó í Haukadal, átti Helgu Þorkelsdóttur, þeirra dóttir:
1. Guðrún átti Þorstein lögréttumann í Vorsabæ í Ölfusi Sigvaldason Ísólfssonar, þeirra son:
   a. Sigvaldi. Hans son Oddur á Þorkötlustöðum, faðir Guðrúnar móður Sveinbjarnar rektors Egilssonar. Þessi ættleggur hefur ekki fyr verið kunnur.

4) Réttara Halldór; hann bjó á Gýgjarhóli í Biskupstungum. Hans son Þorsteinn á Gýgjarhóli. Afkomendur hans komust suður í Reykjavík.

5) Guðrún átti Jón Pálsson, áttu 5 syni, einn þeirra:
a. Sigvaldi, bjó í Fjalli á Skeiðum átti Margréti Bjarnadóttur frá Svarfhóli Sighvatssonar, móðursystur meistara Bjarna Jónssonar prests í Gaulverjabæ. Frá Sigvalda er kominn fjöldi manna í Árnessýslu.

6) Finnur og Guðmundur eru ekki almennt taldir meðal barna Jóns á Brekku og Þórunnar, en Finnur og Sigurður hétu synir hennar og síðara manns hennar Jóns Sigurðssonar.

7) Faðir Einars var Þormóður Ásmundsson í Bræðratungu.

8) Halldór bjó í Þrándarholti, átti Hallberu Magnúsdóttur frá

bb. Þormóður í Súluholti í Flóa[1]) átti konu og börn.
cc. Sigurður átti börn.
ee. Guðrún[2]) átti börn.

---

Skriðufelli Eiríkssonar og Guðríðar Ögmundsdóttur (Hallbera var systir Þorsteins skálds á Hæli) þeirra börn:

1. Björn lögréttumaður.
2. Magnús í Þrándarholti, átti fyr Kolfinnu Sigurðardóttur, svo Kristínu Þorsteinsdóttur frá Hömrum, Snorrasonar, Þorsteinssonar, Snorrasonar á Þverá í Öxnadal. Synir hans og Kolfinnu:
   a. Páll í Vola í Hraungerðishrepp átti Ingveldi Bergsteinsdóttur frá Minna-Ármóti, Jónssonar systur Jóns í Sölvholti, þeirra son Magnús faðir Magnúsar, er bjó á Minna-Ármóti, og átti Ingibjörgu Runólfsdóttur frá Bitru Þorsteinssonar.
   b. Einar á Iðu átti Svanhildi Jónsdóttur frá Votumýri, Ívarssonar, systur Hallvarðs í Skálmholti, föður Ásmundar, er bjó vestur í Kjós; þeirra son Magnús á Þórisstöðum.
   c. Ingimundur í Saurbæ á Kjalarnesi.
   d. Jón. e. Margrét. f. Halldóra.
3. Guðrún f. k. Eyjólfs Helgasonar frá Leirárgörðum.
4. Kristín átti Gunnlaug, þeirra dóttir:
   a. Guðrún átti fyr Pétur Pétursson, svo Svein á Grafarbakka Þóroddsson frá Móakoti hjá Galtafelli, Sveinssonar á Kotlaugum, Þóroddssonar, fóru vestur í Leirársveit, þeirra dóttir: Þuríður átti Erlend Narfason í Leirárgörðum, þeirra son Ásbjörn í Bræðraparti á Akranesi.

1) Þormóður átti Þorbjörgu Ögmundsdóttur og 4 dætur, ein þeirra:

1. Guðrún yngri, var blind, launson hennar með Gísla Þorsteinssyni á Hurðarbaki:
   a. Guðmundur á Bollastöðum átti Oddnýju Snæbjörnsdóttur, þeirra börn meðal fleiri, Oddur í Langholti og Guðlaug kona Helga Sigmundssonar í Vola, bróður Ófeigs í Fjalli og Jóns í Vorsabæ, föðurföður Guðmundar Eiríkssonar »ríka«, er lengi bjó í Haukadal í Biskupstungum.

2) Guðrún átti Magnús Einarsson í Múla í Biskupstungum, þ. b.:

1. Guðrun fyrri kona Einars í Efstadal Narfasonar þar, Einarssonar í Gröf í Grímsnesi, Jónssonar á Kringlu, Narfasonar í Reykjavík, Ormssonar, þ. b.:
   a. Narfi í Efstadal, tvíkvæntur, átti mörg börn, með síðari konunni Margréti Gunnlaugsdóttur frá Þúfu, Andréssonar lögréttumanns á Kröggólfsstöðum, Finnbogasonar:

e. Guðrún yngri átti Jón Jónsson á Hólmum í Meðallandi, börn:
aa. Elín.
bb. Jón.
cc. Sigríður, barnlaus.
6. Guðrún átti Árna sýslumann Magnússon, sjá Múlasýslu. Launbörn Jóns á Svarfhóli:
7. Jón páski á Hörðubóli, mikið hraustmenni, börn:
a. Jón, kallaður Garða-Jón, átti Guðríði Magnúsdóttur, börn:
aa. Jón á Ytrigörðum, átti Þórunni Ormsdóttur, börn:
aaa. Jón í Yztugörðum átti Sigríði, börn:
*a.* Halldór á Saurum, dó 1751, átti Halldóru Sveinsdóttur og börn.
*b.* Björn átti Halldóru Sveinsdóttur og mörg börn.
b. Eiríkur formaður og hraustmenni, drukknaði í Keflavík, börn:
aa. Guðný.
bb. Guðrún.
cc. Jón.
c. Séra Steingrímur á Rauðamel[1]).

---

aa. Andrés á Berghyl faðir Magnúsar alþingismanns í Syðra-Langholti.
bb. Elizabet átti Ásbjörn í Fellskoti Stefánsson, Jónssonar, Gissurarsonar í Tungufelli, Oddssonar í Jötu, Jónssonar, (prests í Fellsmúla † 1682 Jónssonar), þeirra synir: Narfi bóndi á Brú, Jónar tveir, Felix og Stefán faðir Ásbjarnar »sterka« föður Stefáns á Bóndastöðum í Hjaltastaðaþinghá.
b. Halldór í Efstadal. Hans son Einar á Vatnsleysu, faðir Halldórs, er þar bjó lengi.

1) Séra Steingrímur er hér ekki rétt talinn til ættar. Sjá um hann hér síðar.

8. Ingveldur, laungetin, átti Össur í Bjarnarhöfn, börn:
   a. Kolbeinn á Seljum í Helgafellssveit.
   b. Ingiríður átti Bjarna Magnússon, bl.
   c. Pétur prófentumaður á Helgafelli, átti Ingu, barnlaus.
   d. Guðbjörg átti Svein á Saurum í Laxárdal og börn.
   e. Björn.
   f. Guðríður.
   g. Ingibjörg, áttu börn.
9. Ólöf fyrri kona Arnórs Loptssonar, bl.

B. Ólafur Ólafsson átti Fagradal vestra og bjó þar, hann giptist Sigríði annari dóttur Þorsteins Torfasonar frá Hjörsey, alsystur Þóru, fyrri konu Jóns á Svarfhóli, þeirra börn:
1. Torfi giptist í elli sinni kerlingu, barnlaus.
2. Björn sigldi í England, kom eigi aptur.
3. Þorsteinn átti Hólmfríði[1]) Sigurðardóttur, Arnfinnssonar.
4. Þorsteinn annar átti Ingibjörgu Sigurðardóttur, systur Hólmfríðar.
5. Halldóra átti Ólaf á Ketilsstöðum Bjarnason, börn:
   a. Bjarni Domingo, var lengi í siglingum með Frökkum til Austur- og Vesturálfu, giptist loks hingað kominn, átti ekki barn, drukknaði í Keflavík 1658.
   b. Sigríður átti Jón Jónsson á Kambi í Breiðuvík.
6. Guðlaug átti Guðmund, þeirra börn:
   a. Vigfús.
   b. Guðmundur.
   c. Þorgerður.
   d. Sigríður.
   e. Guðrún.
   f. Guðrún önnur.

---

1) Móðir Hólmfríðar var Helga Bjarnadóttir systir Hrólfs sterka.

7. Ingiríður, hennar synir:
   a. Þórður.
   b. Eiríkur.

C. Þórunn dó 1610, átti séra Einar Marteinsson[1]), börn:
   1. Páll sýslumaður, sjá Snæfellsnessýslu, dó bl.
   2. Þórður málari dó utanlands. Laundóttir hans með Ólöfu frá Yxnakeldu Bjarnadóttur var:
      a. Guðlaug, er átti Steindór sýslumann Finnsson, sjá Snæfellsnessýslu.
   3. Guðrún átti fyr Jón lögmann, svo Steindór sýslumann Gíslason, sjá Snæfellsnessýslu.

D. Guðlaug fyrri kona Þórðar Þórðarsonar á Kirkjufelli Ásmundssonar, þeirra börn:
   1. Ólafur átti Guðrúnu Brynjólfsdóttur, börn:
      a. Þórður[2]).
      b. Brynjólfur[3]).
      c. Jón[4]).
      d. Guðlaug[5]).
      e. Guðrún[6]), áttu öll börn.
      f. Guðrún önnur[7]).
   2. Þórður átti Elínu Pálsdóttur, börn:
      a. Jón.
      b. Þórður.
      c. Ingibjörg.
      d. Guðlaug.
      e. Páll.
      f. Hildur.

---

1) Son Marteins biskups.

2) Þórður í Keflavík átti Jórunni Jónsdóttur.

3) Brynjólfur drukknaði, átti Margréti dóttur Tyrfings Ámundasonar á Bláfeldi, er fyrirfór sér sjálfur 1621 og er grafinn við veginn á eyrinni fyrir vestan Vatnsholtsá.

4) Sjá um hann Snæfellsnessýslu.

5) Guðlaug átti Guðna Hjaltason, Guðnasonar.

6) Guðrún átti Ingimund Jónsson, Helgasonar.

7) Guðrún önnur átti Jón son Kristófers frá Hólahólum Björnssonar.

3. Hólmfríður[1]). átti Guðmund Þórðarson, börn:
   a. Þórður.
   b. Helga.
   c. Þorbjörg.
4. Málmfríður.

E. Jón sterki á Hörðubóli, sem aptur sneri úr Sauðafellsför Daða, telst enn frilluson séra Ólafs[2]).

Ólafur Guðmundsson mannaðist vel, gerðist prestur og fékk Hjarðarholti í Dölum, óljóst hvert ár, því eigi finnst hans fyr getið þar en 1528, þegar hann að Bæ í Borgarfirði á prestastefnu samþykkti sölu Ögmundar biskups á jörðunni Hamraendum XXIV hundruð með selför í Hlíðartúns jörðu undan Hjarðarholtskirkju í Laxárdal fyrir Sauðhús í Hjarðarholtssókn. Var kaupbréfið síðan gert á allraheilagra messu í Hjarðarholti. 1530 var séra Ólafur prófastur millum Skraumu og Skoravíkurár og gaf þá Daða í Snóksdal kvittunarbréf fyrir hans fyrstu barneign með Ingveldi Árnadóttur í frændsemis spellum í annan og þriðja lið. Strandasýslu meina eg að Ólafur hafi tekið hér um 1533[3]), því þá finnst séra Jón Þorleifsson prestur í Hjarðarholti, en óvíst er, hvort téður séra Jón hefur haft veitingu fyrir Hjarðarholts kirkju, eða verið heimilisprestur Ólafs syslumanns, sem þá var títt hjá ríkismönnum. Hafi Ólafur haldið Strandasýslu fram yfir 1540, hefur hann úr því eigi haft utan hálfa sýsluna og máske aldrei meira og haldið sýsluna ásamt föður sínum. Eins er óvíst hvenær Ólafur hefur sleppt sýslunni eða dáið, en eg hygg að það hafi verið nálægt 1550, eða nokkru áður en Pétur giptist hans barnamóður Ingiríði. Það gæti verið, að Ólafur hafi eigi hafi verið utan umboðsmaður föður síns um tíma, og verið því kallaður sýslumaður.

## Jón Jónsson.

Hvaða manna hann hefur verið, eða hvort hann hefur verið lögsagnari eða haft veitingu fyrir sýslunni, líklega hálfri,

1) Sumir nefna hana Hallfríði.

2) Sonur Jóns þessa var séra Steingrímur fyrnefndur.

3) 1534 er séra Ólafur kallaður »prófastur og almennilegur dómari milli Geirhólms og Hrútafjarðarár« og leysir hann þá Þorstein Guðmundsson. En þetta sannar ekki beinlínis sýsluvöld hans heldur prófastsvöld.

er óljóst. En þess er getið, að 1540 og 1541 lét Jón Strandasýslumaður ganga dóma, 1540 um arf eða gjöf þá, er Ari Andrésson í Bæ og Þórdís Gísladóttir hefðu gefið Ormi Guðmundssyni, Andréssonar, jarðir nokkrar, sem Ormi dæmdust; kallast Jón þar konungssýslumaður. Þetta var dæmt undir Felli í Kollafirði[1]).

Þessi Jón mun hafa verið sonur Jóns skrifara[2]) og Solveigar, dóttur Björns ríka (sjá Dalasýslu). 1512 var Jón dæmdur hart af Jóni lögmanni Sigmundssyni að Marðarnúpi í Vatnsdal fyrir mótgerðir við Björn sýslumann Guðnason (sjá Húnavatnsþing); eigi mun þó hafa orðið af útlegð hans eða aleigumissi, heldur munu frændur hans hafa skotið yfir hann skjóli, því árið 1530 var hann í Sauðlauksdal (sjá Barðastr.-sýslu). — Getur vel verið, að hann hafi haft Strandasýslu 1540 og 1541 og lengur, líka að hann hafi verið umboðsmaður, annaðhvort Ólafs sýslumanns eða Daða, hefði hann haldið Strandasýslu, þó líklegast Björns Þorleifssonar umboðsmaður[3]). Börn Jóns Jónssonar, Þorlákssonar voru:

1. Magnús, sem seldi Ögmundi biskupi Hól í Bolungarvík, en átti hann þó eigi.
2. Árni faðir Tómasar, föður Soffíu og Sesselju.
3. Guðrún.
4. Jón.

Þau börn urðu eigi ættsæl.

## Daði Guðmundsson.

Sjá um hann við Snæfellsnes- og Mýra-sýslur. Ágizkan er af átyllu í Hist. Eccl. T. III. pag. 216 etc., að Daði hafi haft hér sýsluvöld (hafi það verið annað en prófastsdæmi, sem hann hafði) eptir 1543, en þó er þetta óvíst, eins og hvort hann muni þá hafa haldið heila eða hálfa sýsluna, eða hvað

1) Sbr. Árb. Esp. III. 129.

2) Þetta er að eins getgáta hjá Boga og mun tæpast rétt.

3) 8. janúar 1544 gefur Gissur biskup Jóni bónda Jónssyni umboð yfir Skálholtsstaðareka í Hrútafirði og Bitru um eitt ár. (J. S. handr.safn á landsbókasafninu 370 4to). Er ekki ósennilegt, að þetta sé sami maður og sá Jón, er konungsumboðsmaður er talinn milli Geirhólms og Hrútafjarðarár 1540.

lengi. Dr. Finnur meinar hann þar sýslumann 1545, og getur það vel verið rétt. —

## Arnór Loptsson.

*Faðir:* Loptur son Guðlaugs sýslumanns Loptssonar, sjá hér að framan.

*Móðir:* Guðrún, dóttir Finns á Ökrum Arnórssonar.

*Kona fyrsta:* Ólöf laundóttir Jóns á Svarfhóli Ólafsonar, bl.

*Kona önnur:* Halldóra[1]), vinnukona Arnórs.

*Barn:* A. Anna átti Björn, son séra Þórðar í Hjarðarholti Moldar-Brandssonar. Börn:

1. Magnús átti Sigríði Höskuldsdóttur, son:
   a. Björn.
2. Halldóra átti Jón[2]) í Stóralangadal, son séra Brynjólfs í Hjarðarholti Bjarnasonar, börn:
   a. Björn eldri í Vogi átti Valgerði dóttur Brokeyjar Jóns, börn:
      aa. Brynjólfur.
      bb. Magnhildur.
      cc. Ásgeir.
      dd. Guðmundur, barnlaus.
      ee. Halldóra.
   b. Björn yngri á Staðarfelli, sjá Dalasýslu.
   c. Ásgeir átti Sigríði dóttur séra Ásmundar á Breiðabólstað Eyjólfssonar, börn.
      aa. Guðmundur.
      bb. Guðmundur annar.
      cc. Magnús.
      dd. Magnús annar.
      ee. Halldóra.
      ff. Jón dó í stórubólu.
      gg. Jón annar dó og í stórubólu.
   d. Bergljót átti Eirík í Langadal[3]), börn:
      aa. Þormóður[4]).

---

1) Halldóra var Sigurðardóttir.

2) Móðir Jóns var Bergljót laundóttir Odds biskups Einarssonar.

3) Hann var son Sigurðar prests Jónssonar í Miklaholti.

4) Þormóður var skáld, bjó í Gvendareyjum, átti Brynhildi dóttur Jóns Guðbrandssonar í Sellóni.

bb. Jón.
cc. Þorvarður.
dd. Þóra.
ee. Teitur.

3. Einar telja og sumir son Björns og Önnu. Hann veiktist og dó bl.

*Kona þriðja:* Herdís, dóttir séra Ásgeirs á Lundi Hákonarsonar sýslumanns, Björgólfssonar.

*Barn:* B. Ásgeir í Ljáskógum, dó 1753, átti Halldóru dóttur Sigurðar Eyjólfssonar frá Vatnsenda í Skorradal, börn:

1. Arnór í Ljáskógum átti Ingibjörgu dóttur Jóns á Vatnshorni Péturssonar sýslumanns á Staðarhóli, Pálssonar, börn:

a. Jón í Ljáskógum, lögsagnari, sjá Dalasýslu.
b. Halldóra átti Gísla son séra Ásgeirs í Tröllatungu, Einarssonar prests Sigurðssonar, börn:
aa. Ingibjörg.
bb. Málmfríður.
c. Sigríður átti Þórð, son séra Björns á Staðarbakka og Tjörn, Þórður var lögsagnari Gottrups, barnlaus.
d. Halldóra yngri átti launbarn með Jóni Hákonarsyni á Vatnshorni, hét Helga á Jörfa (sjá Dalasýslu)[1].

Ingibjörg ekkja Arnórs giptist þar eptir Sigurði Ásgeirssyni, þeirra börn Oddur og Ólafur dóu báðir 1707, en þriðji sonurinn Sigurður giptist og átti börn[2].

þriðji maður Ingibjargar var Þórður í Bæ[3].

---

1) Enn er talin dóttir Arnórs og Ingibjargar:
e. Ingibjörg átti Þorstein Jónsson. Sigurður síðari maður Ingibjargar ekkju Arnórs var son séra Ásgeirs Einarssonar í Tröllatungu bróðir Gísla, er átti Halldóru Arnórsdóttur.

2) Sigurður bjó í Holti í Neshrepp átti Þuríði Jónsdóttur, þeirra synir: Sigurður skáld í Skagafirði og Oddur átti Oddhildi Magnúsdóttur, Önundarsonar, þeirra son Magnús á Mjóabóli.

3) Þorkelsson. Launson þess Þórðar var Ásgeir prestur á Álptamýri.

e. Bergljót, lg., átti fyr Tómas Jónsson í Glerárskógum, þeirra börn:
aa. Kristín[1].
bb. Guðrún[2]) giptist, átti börn.
Seinni maður Bergljótar Jón Þorsteinsson[3]).
cc. Sesselja[4]), giptist, átti börn:
dd. Þorgerður[5]), giptist líka og átti börn.
2. Herdís átti Sigurð í Rauðsdal, son Jóns sýslumanns eldra Magnússonar sýslumanns, sjá Dalasýslu.

*Kona fjórða:* Karítas Jónsdóttir, móðir Halldóru, sem Ásgeir sonur Arnórs átti, barnlaus

Arnór bjó í Sælingsdalstungu og Ljáskógum, þótti fróður og mikill lagamaður[6]), það er í ættartölum og öðrum sögnum, að hann hafi verið sýslumaður í Strandasýslu nokkur ár, en eigi eru til tekin árin, þá hann hélt þá sýslu; eru líkindi, að það hafi verið nálægt 1550; eins er dulið, hvort hann hef-

---

1) Kristín átti Þórð ráðsmann í Skálholti, síðar bónda í Háfi, Þórðarson sýslumanns, Steindórssonar (sjá Snæfellsnessýslu).

2) Guðrún átti Pál Jónsson í Blönduhlíð, þeirra börn:
a. Finnbogi í Magnússkógum, átti laundóttur með Halldóru Illhugadóttur, er Ingibjörg hét.
b. Jón í Magnússkógum átti Ingibjörgu Kolbeinsdóttur, Kolbeinssonar og Þorgerðar Jónsdóttur, þeirra synir Árni í Magnússkógum og Páll.
c. Sigríður atti Pétur Einarsson, Helgasonar og Margrétar Hákonkonardóttur, Árnasonar á Staðarfelli.
d. Vigdís átti Þórð í Ásgarði Steinsson, Brandssonar.

3) Þorsteinn faðir Jóns var Oddsson, Jónssonar í Tjaldanesi, Oddssonar prests í Tröllatungu, Þorsteinssonar.

4) Fyrri maður Sesselju var Teitur Jónsson, síðari Ólafur Þorgilsson spítalahaldara, Sigurðssonar, bróðir séra Jóns í Hellnaþingum (sjá hér áður).

5) Þorgerður dó 1803 96 ára, var síðari kona Kolbeins í Glerárskógum, Kolbeinssonar í Sælingsdal, Sigurðssonar í Hólum í Hvammssveit, Þórðarsonar. Ein dóttir þeirra Ingibjörg, er átti Jón Pálsson í Magnússkógum (sjá hér á undan).

6) Var kallaður af sumum »Laga-Nóri« og haldinn fjölkunnugur, segir séra Jón Halldórsson.

ur haldið alla eða hálfa sýsluna, eða hvort hann hafði veitingu, eða var annara umboðsmaður, svo sem Daða eða Steindórs sýslumanns.

## Steindór Finnsson.

*Faðir:* Finnur Arnórsson á Ökrum.
*Móðir:* Jófríður.
*Kona:* Sesselja, dóttir séra Eiríks í Reykholti Jónssonar ríka á Hvanneyri Þórðarsonar.
*Börn:* A. Finnur, bjó fyrst í Vogi, meðan faðir hans lifði, síðan á Ökrum; hans kona var Steinunn dóttir Jóns rebba í Búðardal, Sigurðssonar, og var Finnur hennar fyrri maður (Steinunn varð þar eptir seinasta kona séra Böðvars í Reykholti); börn Finns og Steinunnar voru:

1. Séra Sigurður var 2 ár prestur í Húsafelli, svo í Hellnaþingum síðar í Miklholti, átti Ingibjörgu dóttur Sigurðar Jónssonar og Ragnhildar Ásgeirsdóttur frá Einarsnesi, börn:
   a. Finnur giptist 1649 Kristínu dóttur séra Jóns í Hvammi[1]), börn:
      aa. Þórður lögréttumaður á Ökrum dó 1729 giptist, átti börn[2]).

---

1) Þ. e. séra Jóns Ólafssonar og Sigríðar Loptsdóttur (sjá hér á undan í ætt Ólafs Guðmundssonar). Sigurður hét bróðir Finns, þeir bræður lærðu ekki í skóla, en voru þó miklir gáfumenn, héldu saman og höfðu mikinn kaupskap við útlenda menn og innlenda, er þeir voru báðir lausamenn á Hjallasandi, og græddu mikið fé. Sigurður varð holdsveikur, kvæntist ekki, dó bl. 1648 og erfði Finnur þá allt féð. — Finnur var 44 ára, er hann kvæntist Kristínu, en hún 16 vetra. Hann eignaðist alla Akra og bjó þar til dauðadags 20. febr. 1687 82 ára gamall. Hann var hagmæltur, gamansamur og hafði góða þekkingu á lækningum.

2) Kona Þórðar var Guðbjörg Jónsdóttir Björnssonar, og Ragnhildar Árnadóttur frá Syðri-Rauðamel. Hún dó 1727, þ. b.:
a. Gísli lögréttumaður († 1713), bjó nokkur ár í Vogi. Hans dætur: Ingveldur seinni kona Árna skálds Böðvarssonar á Ökrum og Helga kona Þorsteins Þorgilssonar, bróður séra Jóns við Hellna.

bb. Steindór í Krossnesi[1]) giptist átti 2 launbörn.
cc. Sigurður giptist og átti börn.
dd. Kári[2]) átti Guðrúnu Jónsdóttur og börn.

---

b. Jósep á Munaðarhóli, kvæntist, varð holdsveikur, átti 2 börn, er dóu ung.
c. Þórður prófastur í Hvammi í Hvammssveit († 1739, ekki 1738, eins og segir í prestatali Sv. Níelssonar); hefur ritað ættatölubók, sem er í minni eigu. Hann átti Þorbjörgu dóttur séra Eiríks Eyjólfssonar á Lundi, áttu mörg börn, þar á meðal voru séra Þorsteinn í Hvammi, séra Einar í Hvammi, séra Eiríkur í Nesi í Aðalreykjadal, Guðmundur háskólakandídat í guðfræði, dó bl., Eyjólfur faðir Markúsar prests á Söndum o. fl.
d. Finnur átti Guðrúnu Högnadóttur frá Straumfirði Halldórssonar, þeirra son Tyrfingur prestur á Stað í Súgandafirði.
e. Jón átti Ástríði dóttur Egils Finnssonar á Kálfalæk (sjá hér síðar).
f. Bárður, kallaður b r o t i n n e f u r, bjó á Stakkhamri, brellinn karl, var um tíma þjónustusveinn Odds lögmanns Sigurðssonar, dó 1773 96 ára gamall, átti Guðrúnu Sigmundsdóttur úr Helgafellssveit, Loptssonar, þeirra son Högni skáld o. fl.
g. Ragnheiður átti fyr Þorstein Ketilsson Hildibrandssonar, svo Sigurð Jónsson, er drukknaði í Hvítá á Lengjuvaði 1724 í sendiferð fyrir Odd lögmann.
h. Elín fyrri kona Jóns Ólafssonar á Yxnakeldu, þeirra son Böðvar sýslumaður í Vestmannaeyjum. — Son Jóns og Elínar þótt þess sé ekki getið í ættatölum hefur og verið Arnljótur á Guðlaugsstöðum faðir Elínar, er átti Árna á Gunnsteinsstöðum Sigurðsson, Þorlákssonar, þeirra son Arnljótur hreppstjóri á Gunnsteinsstöðum, hans dóttir Elín átti frænda sinn Guðmund Arnljótsson, Illhugasonar á Guðlaugsstöðum, Þórðarsonar, Illhugasonar, þeirra synir Arnljótur á Syðri-Löngumýri, Jón á Guðlaugsstöðum og Hannes á Eiðstöðum faðir Guðmundar læknis á Akureyri.

1) Kona Steindórs var Guðrún Guðlaugsdóttir frá Gröf í Eyrarsveit.

2) Kári dó í stórubólu 1707. Börn hans og Guðrúnar:
a. Sigurður stúdent, útskrifaður úr Skálholtsskóla 1724, skrifaður í stúdentatölu við háskólann 15. jan. 1726, varð brjóstveikur, kom út aptur og dó í Krossnesi hjá Steindóri föðurbróður sínum 1727 rúmlega tvítugur.
b. Eirný.

ee. Sigríður átti séra Jón í Hítarnesi Jónsson[1]) og börn.
ff. Sigríður yngri átti Gísla Jónsson og börn.
gg. Ingibjörg átti Björn Jónsson[2]) og börn.

b. Þorlaug Sigurðardóttir átti Pál Bjarnason[3]), börn:
aa. Svartur í Yztugörðum, tvígiptur, átti börn.
bb. Sigurður í Skógarnesi, lögsagnari í Dalasýslu 1689[4]).
cc. Þorleifur giptist og átti börn.
dd. Bjarni giptist líka og átti börn[5]).

c. Sigríður átti fyrst Jón í Vatnshorni[6]), börn:
aa. Ingibjörg átti Arnór Ásgeirsson og börn[7]), svo átti Sigríður Gísla Ólafsson, barn:

---

1) Séra Jón missti prestskap vegna Kríumála. Börn hans og Sigríðar:
a. Indriði bjó í Hítarnesi. Hans börn: Kári, Elín, Margrét.
b. Guðrún fyrsta kona Sigurðar sýslumanns Högnasonar (sjá Mýras.).

2) Björn var bróðir Gísla (manns Sigríðar yngri) og Guðbjargar konu Þórðar Finnssonar (sjá hér á undan). Björn og Ingibjörg bjuggu á Jörfa í Kolbeinsstaðahrepp, þeirra dætur:
a. Margrét eldri átti fyr Sigurð Jónsson frá Hamraendum í Stafholtstungum, svo Þorvarð í Krossholti Sigurðsson frá Jörfa í Haukadal, Þorgilssonar.
b. Margrét yngri fyrri kona Jóns Jónssonar á Hamraendum í Miðdölum.
c. Sigríður átti Jón Ólafsson lögréttumann á Jörfa (í Flysjuhverfi).

3) Foreldrar Páls voru Bjarni Egilsson og Guðrún Brandsdóttir bróðurdóttir Marteins biskups. Páll og Þorlaug bjuggu í Syðra-Skógarnesi og dóu bæði 1648.

4) Sjá um hann þar.

5) Enn var barn Páls Bjarnasonar og Þorlaugar:
ee. Marsibil átti Jón Jónsson á Borg í Miklholtshrepp, Ásmundssonar prests í Miklaholti, Nikulássonar, þ. b. mörg dóu öll í bólunni 1707.

6) Jón var launson Péturs Pálssonar sýslumanns á Staðarhóli.

7) Sjá hér að framan (bls. 348).

bb. Sigurður Dalaskáld[1]), faðir Jóns sýslumanns[2]).

2. Steindór Finnsson sýslumaður sjá Snæfellss.

3. Séra Jón átti Halldóru Einarsdóttur prests[3]), börn:

a. Finnur[4]) átti fyr Elísabet, dóttur séra Jóns gamla á Staðarhrauni, börn:

aa. Steinunn[5]).

bb. Húnbjörg[6]).

Svo átti Finnur Guðríði Torfadóttur[7]), börn:

cc. Jón[8]).

---

1) Sjá Dalasýslu.

2) Enn var dóttir séra Sigurðar Finnssonar í Miklaholti:

d. Guðrún, veiktist, dó ógipt bl. var »hæglát í skapi og guðhrædd, forspá og frá veraldarhætti«, segir séra Þórður í Hvammi frændi hennar. Ennfremur var son séra Sigurðar:

e. Sigurður, er fyr var getið († 1648).

3) Séra Jón Finnsson var prestur á Melum, dó 1622. Hann var yngstur bræðra sinna. »Þú ert yngstur, þó verður þú mér ekki þyngstur«, sagði séra Böðvar Jónsson stjúpfaðir hans um hann (J. Halldórss. ættatölur). — Halldóra kona séra Jóns var dóttir séra Einars á Melum, Þórðarsonar lögmanns, Guðmundssonar.

4) Finnur eldri var nokkur ár spítalahaldari í Klausturhólum, framkvæmdarlítill maður, bjó víða, en farnaðist lítt búskapur.

5) Steinunn ólst nokkra stund upp í Skálholti, var kát og skáldmælt, giptist Þorbirni Eiríkssyni í Birtingaholti, þeirra einbirni:

a. Guðrún († 1726) átti Björn í Höfn í Melasveit Þorsteinsson, Þorgeirssonar, Ingimundssonar, þeirra börn mörg, þar á meðal Snorri prestur hinn gamli á Húsafelli.

6) Giptist ekki, var skepnukorn segir J. H., dó bl.

7) Hún var dóttir Torfa Helgasonar í Höfn í Melasveit og Sigríðar Styrsdóttur (spélna-Styrs), Þorvaldssonar. Bróðir Guðrúnar var Þorvaldur, er átti Þórdísi Gamalíelsdóttur frá Gýgjarhóli í Biskupstungum, Gestssonar, þeirra son Styr á Syðri-Reykjum í Biskupstungum, enn á lífi 1729, áttræður, var prentari í Skálholti.

8) Jón bjó á Brúarfossi í Hraunhrepp átti Guðlaugu Sigmundsdóttur á Brúarfossi, Oddssonar, þeirra einn son:

dd. Sigríður[1]).

b. Finnur yngri lögréttumaður átti Bóthildi Nikulásdóttur[2]), börn:

aa. Nikulás[3]).

bb. Egill[4]).

cc. Jón[5]).

---

a. Guðmundur; hans dóttir Sigríður átti Bjarna Eiríksson á Langárfossi, þeirra son Guðmundur borgari í Reykjavík faðir Þórðar borgara föður Guðmundar bæjarfulltrúa á »Hólnum« og þeirra bræðra.

1) Sigríður átti Þorleif Sigmundsson bróður Guðlaugar konu Jóns bróður hennar.

2) Hún var dóttir séra Nikulásar Narfasonar í Hítarnesi. Finnur bjó á Stóra-Kálfalæk.

3) Nikulás átti fyr Kristínu Arngrímsdóttur frá Langárfossi og börn, svo Kristínu Sveinsdóttur, bl.

4) Bjó á Kálfalæk, átti fyr Þorbjörgu Guðmundsdóttur, Björnssonar í Stóraskógi, Guðmundssonar, þeirra börn:

a. Snæbjörn drukknaði í fiskiróðri í Hítarnesi.

b. Guðmundur dó ókv. í stórubólu 1707.

c. Finnur drukknaði á Hjallasandi milli Brimnes og Háatanga 1746 með öllum hásetum sínum (8) af kappróðri og ósamlyndi í góðu veðri. Finnur átti fyr Sigríði Auðunnardóttur, svo Rannveigu Sigurðardóttur; þeirra son Þorsteinn í Bár faðir Finns skipasmiðs og Þorvarðar er átti Ingunni Níelsdóttur Hjaltalíns frá Hlíðarhúsum, Jónssonar sýslumanns Hjaltalíns, Oddssonar.

d. Ástríður átti Jón Þórðarson, Finnssonar (sjá hér á undan).

e. Bóthildur síðari kona séra Þórhalla Magnússonar í Borgarþingum, þeirra son

aa. Egill prófastur í Bogense á Fjóni († 1789), áður trúboði á Grænlandi, kvæntur Elisabetu Sigurðardóttur gullsmiðs í Kaupm.höfn, Þorsteinssonar sýslumanns, Sigurðssonar (sjá Múlasýslu), bl.

Ólafur Snókdalín telur enn dóttur Egils Finnssonar: Guðrúnu, er átt hafi Magnús Sigurðsson á Kothrauni, bróður Rannveigar síðari konu Finns Egilssonar bróður Guðrúnar.

Síðari kona Egils Finnssonar Helga Erasmusdóttir prests í Hrepphólum, Pálssonar, bl.

5) Jón átti Sesselju Jónsdóttur eldra frá Álptanesi, Marteinssonar, af ætt Marteins biskups, og tvær dætur.

c. Sigríður, dó 1698, 88 ára, átti Árna Olafssoni[1]), börn:
aa. Ólafur.
bb. Jón.
cc. Sigurður.
dd. Valgerður.
ee. Arnfríður[2]).
d. Herdís[3]) átti Gísla Asmundsson börn:
aa. Ásmundur.
bb. Valgerður.

4. Eiríkur Finnsson átti fyr Sigríði[4]), barnlaus. Svo Herdísi, dóttur Björgólfs í Ási, Snorrasonar á Varmalæk[5]), börn:
a. Jón á Kálfalæk, átti Guðlaugu Arngrímsdóttur, börn:
aa. Andrés[6]).
bb. Ragnheiður[7]).
cc. Magnús[8]).

---

1) Hann var son séra Ólafs Brandssonar á Kvennabrekku og Valgerðar Stefánsdóttur prests á Undirfelli Guðmundssonar. Árni bjó lengi á Kolbeinsstöðum. Frá börnum hans og Sigríðar er komið allmargt bændafólk.

2) Enn voru synir Árna og Sigríðar Sighvatur og Guðmundur, er dóu ókv., bl.

3) Son séra Jóns Finnssonar á Melum og Halldóru var ennfremur:
e. Jón, kallaður Finnabróðir, sigldi til Englands, var lengi lausamaður undir Jökli og græddi fé, átti eina laundóttur, er Guðrún hét, hún dó bl.

4) Sigríður var dóttir Þorleifs Jónssonar frá Múla á Skálmarnesi og Hallbjargar Björnsdóttur.

5) Þessi ættfærsla er röng hjá Boga. Björgólfur faðir Herdísar var bróðir Snorra á Varmalæk, en ekki sonur hans. Voru þeir synir Ásgeirs prests Hákonarsonar á Lundi.

6) Andrés átti Guðrúnu Skaptadóttur frá Laugarbrekku, Torfasonar, Gíslasonar á Hrafnabjörgum, Björnssonar.

7) Ragnheiður átti Pantaleon Ormsson frá Hindarstapa, Jónssonar, og börn.

8) Magnús átti Úlfhildi Jónsdóttur, þeirra son
a. Jón á Þórólfsstöðum; hans son Andrés á Þórólfsstöðum faðir Jóns smiðs hins nafnkunna undir Jökli.

dd. Herdís[1]).
b. Finnur átti Hallfríði Jónsdóttur, barn
aa. Hallfríður.
c. Guðlaug átti Halldór Bárðarson, börn:
aa. Kort[2]).
bb. Eiríkur[3]).
cc. Guðrún[4]).
dd. Steinunn[5]).
d. Guðrún átti Hafliða Þorvaldsson[6]), börn:
aa. Þorvaldur.
bb. Þorsteinn.
cc. Sesselja[7]).
dd. Herdís.
e. Sigríður átti Gissur Ásgrímsson, barnl.
f. Kári lg.[8]) átti Ragnheiði Bjarnadóttur, bl.

B. Eiríkur á Langárfossi[9]) átti Helgu dóttur Guðmundar á Hvoli, börn:

---

1) Herdís átti Jón yngsta Bjarnason frá Kaðalsstöðum, Erlendssonar.

2) Kort var tvíkvæntur, dó bl. í stórubólu 1707.

3) Eiríkur bjó í Knararnesi, var tvíkvæntur. Son hans og seinni konunnar Guðrúnar Þorsteinsdóttur var
a. Kort prestur á Staðarhrauni, dó ókv. bl. 1745.

4) Guðrún átti Brynjólf í Laxanesi í Kjós, Jónsson eldra frá Álptanesi, Marteinssonar, þeirra börn: Bárður, er dó bl,, Ingigerður, tvígipt, og Guðlaug.

5) Steinunn átti fyr Hinrik son Þorbjarnar Marteinssonar frá Álptanesi og börn, svo Runólf Grímsson.

6) Hafliði bjó á Ánastöðum. Þorvaldur faðir hans var son Nikulásar prests Narfasonar í Hítarnesi. Frá börnum Hafliða og Guðrúnar eru komnar fjölmennar bændaættir á Mýrum.

7) Sesselja átti Einar Bjarnason í Laxholti. Einn þeirra son Eiríkur faðir Bjarna á Langárfossi föður Guðmundar borgara í R.vík (sjá hér áður).

8) Kári var lögréttumaður, bjó lengi í Vogi, vel látinn, talinn helztur barna Eiríks Finnssonar. Ragnheiður kona hans var dóttir Bjarna Tyrfingssonar frá Hjörtsey, Ásgeirssonar.

9) Eiríkur dó á Hvítárvöllum úr »græðslu« 1593 og var grafinn á Hvanneyri. Afkomendur hans hinir næstu eru taldir í Biskupasögum II. B. bls. 287—288.

1. Steindór fyrri maður Hallbjargar Jónsdóttur[1]), börn:
   a. Eiríkur átti Guðrúnu Einarsdóttur, bl.
   b. Helga átti Pétur Guðmundsson í Dagvarðarnesi, börn:
      aa. Þórður.
      bb. Magnús.
      cc. Helga.
   c. Jón lg. átti Guðrúnu Þórðardóttur, börn:
      aa. Steindór.
      bb. Árni.
      cc. Jón.
      dd. Þórunn.
      ee. Odda.
      ff. Halla.
      gg. Ranka.
      hh. Jón.
2. Jón ólst upp í Hítardal hjá móðurbróður sínum séra Jóni, átti Langárfoss, giptist Guðlaugu Halldórsdóttur, Marteinssonar biskups, börn:
   a. Séra Halldór á Staðarhrauni átti Guðrúnu dóttur Tyrfings Ásgeirssonar og Þórdísar frá Hjörtsey. Séra Halldór flutti á eign sína Miðhús í elli sinni, börn:
      aa. Steindór[2]).
      bb. Helga[3]).
      cc. Randalín[4]).

---

1) Jón faðir Hallbjargar var son Þorleifs Jónssonar prests í Gufudal, Þorleifssonar og Hallbjargar Björnsdóttur.

2) Steindór bjó í Miðhúsum, átti Halldóru Jónsdóttur frá Moldbrekku, Jónssonar og börn, þar á meðal Guðmundur, dó 100 ára 1767.

3) Helga átti Böðvar son Jóns Vigfússonar frá Kalastöðum og Solveigar Böðvarsdóttur prófasts í Reykholti, Jónssonar, þeirra börn: Finnur og Einar dóu ókv. bl.,Jón og Guðrúnar tvær. Laundóttir annarar með Guðmundi á Einifelli Guðmundssyni, Erlingssonar, var Helga fyrri kona Guðmundar Runólfssonar sýslumanns á Setbergi við Hafnarfjörð.

4) Randalín átti Högna son Halldórs prests Marteinssonar frá Álptanesi, þeirra börn:

dd. Þórdís[1]).
ee. Sigurður aðrir Sigríður[2]).
b. Helga átti Snorra Guðmundsson, bjuggu undir Jökli[3]), börn.
aa. Guðmundur[4]).
bb. Jón[5]).
cc. Ásta[6]).
dd. Ingveldur[7]).
ee. Guðrún[8]).
ff. Sigrún, hún átti launbarn með Jakob sýslumanni, sjá Snæfellsnessýslu[9]).

---

a. Sigurður sýslumaður á Ánastöðum (sjá Mýrasýslu).
b. Guðrún átti Finn Þórðarson frá Ökrum, Finnssonar (sjá hér áður).

1) Þórdís átti Bjarna Bjarnason lítilsháttar mann, barnlaus.

2) Þetta á að falla burtu.

3) Snorri var son Guðmundar Ásbjarnarsonar í Ólafsvík.

4) Guðmundur átti Sesselju Þórarinsdóttur frá Hvítárvöllum, Illhugasonar á Kalastöðum, Vigfússonar.

5) Jón bjó á Grímsstöðum í Álptaneshrepp átti Sigríði Hildibrandsdottur frá Einholtum, Þórhallasonar og börn.

6) Ásta átti Árna Þórarinsson bróður Sesselju konu Guðmundar.

7) Ingveldur átti Jón á Lýsuhóli Jónsson frá Hraunskarði, Jónssonar.

8) Guðrún átti Markús Jónsson á Læk í Leirársveit, þeirra synir:
a. Snorri átti Guðnýju Torfadóttur, Þorvarðarsonar.
b. Tómas (eða Tumi); hans son Gunnar faðir Gísla á Hömrum í Reykholtsdal.
c. Hannes í Leirárgörðum; hans son Jón í Skorholti átti Kristínu Jónsdóttur á Bekansstöðum, Sveinssonar; þeirra son Jón á Arkarlæk.

9) Launbarn Jakobs og Sigrúnar dó ungt. Var Jakob þá umboðsmaður á Bessastöðum. Jón Halldórsson segir, að Jöklamenn hafi gert »kýmilegt kvæði« um ferð Sigrúnar vestan frá Kjalveg (undir Jökli) til Bessastaða. Sigrún veiktist og giptist ekki.

Ennfremur voru börn Helgu og Snorra:
gg. Kristín átti Indriða Jónsson prests í Hítarnesi, Brandssonar.
hh. Ingunn átti Einar Halldórsson í Ólafsvík, þeirra son: Pétur prestur í Miklaholti, faðir Péturs lögsagnara í Görðum í Staðarsveit.

c. Eiríkur átti hálfan Langárfoss og bjó þar; hans kona Steinunn Sigurðardóttir, Ásgeirssonar, börn:

aa. Sigurður[1]).

bb. Ari[2]).

cc. Jón[3]).

dd. Ásgeir.

3. Vigfús átti hálfan Langárfoss, seldi hann bróður sínum, keypti Stóra-Ás og bjó þar, hann hafði verið sveinn Ara sýslumanns Magnússonar og Péturs sýslumanns Pálssonar, átti Guðlaugu Björgólfsdóttur, börn:

a. Séra Eiríkur í Hjarðarholti[4]), dó 1692, 68 ára; átti Guðrúnu yngri Steindórsdóttur sýslumanns, Finnssonar, börn:

aa. Séra Vigfús í Miðdalaþingum[5]).

bb. Guðlaug[6]).

---

1) Sigurður var gott skáld, dó ókv. bl. 1669, reið drukkinn seint um kveld frá Ölvaldsstöðum og fannst látinn í læk einum litlum (Fitjaskurði) skammt frá heimili hans Langárfossi.

2) Ari kvæntist ekki, átti 3 launbörn, eitt þeirra: Matthildur átti Hallstein í Rauðanesi Þórðarson, Gissurarsonar, Þorkelssonar, þeirra börn Ari, Jón, Þórður, Andrés.

3) Jón var kallaður »freðinn«, »þunglífur og foreldrum óþekkur«, segir séra J. H., átti Ingibjörgu Björnsdóttur úr Staðarsveit, þeirra synir: Sigurður sigldi með Pétri Raben admírál, Eiríkur og Jón var lengstum á flakki.

4) Séra Eiríkur var síðast prestur á Húsafelli og dó þar. Þá er hann var í Hjarðarholti missti hann prestsskap, því að eptir lát Guðrúnar konu sinnar átti hann launbarn með Halldóru Daðadóttur, Þorvaldssonar. Var hann þá prófastur í Dalasýslu, bjó síðan nokkur ár embættislaus á eignarjörð sinni Stóra-Ási, unz hann fékk Húsafell eptir séra Helga Grímsson, en lifði þar ekki nema árið.

5) Kona séra Vigfúsar var Halldóra Þórðardóttir Hannessonar frá Snóksdal (sjá hér á undan bls. 331).

6) Hún var fyrri kona Hannesar prófasts Halldórssonar í Reykholti, dó af barnsförum 1703, barnlaus.

b. Ólafur fyrri maður Guðlaugur Þorsteinsdóttur[1]), börn:
aa. Kristín, dó 1733, 71 árs, átti séra Jón Jónsson á Staðastað[2]).
c. Jón í Ási, seinni maður Ingiríðar Jónsdóttur[3]), börn;
aa. Jón eldri[4]).
bb. Jón yngri[5]).
cc. Guðrún[6]).

---

1) Þorsteinn faðir Guðlaugar var son Torfa prests Þorsteinssonar á Gilsbakka. Síðari maður Guðlaugar var séra Björn Þórðarson, er lengi bjó embættislaus á Signýjarstöðum í Hálsasveit, gáfumaður mikill og ungmennafræðari góður.

2) Börn séra Jóns og Kristínar:
a. Helga var blind, átti séra Svein Guðlaugsson, þeirra synir: Guðlaugur prófastur í Vatnsfirði og Jón prófastur á Stað í Steingrímsfirði.
b. Ólafur prestur að Stað á Snæfjallaströnd, barnlaus.
c. Ólafur annar var blindur.
d. Sigþrúður einnig blind, var móðir séra Bjarna á Mælifelli, er talinn var son Jóns nokkurs Gíslasonar í Staðarsveit, en ætlun manna var, að Bjarni væri getinn í meinum og son annarshvors bræðranna séra Ólafs eða Ólafs blinda og Sigþrúðar. Segir Jón Ólafsson frá Grunnavík sögu um þetta (Safn Árna Magn. 995 4to við ár 1732).
e. Guðrún átti Jakob stúdent Eiríksson við Búðir (sjá I. B. bls. 280).

3) Ingiríður hafði fyr átt Jón Grímsson í Kalmannstungu, bróður séra Helga á Húsafelli. Síðari kona Jóns Vigfússonar í Ási var Guðrún Eyleifsdóttir frá Kalmannstungu, Sveinssonar, og voru þau barnlaus, að því er séra J. H. o. fl. segja.

4) Jón átti Þuríði Sigurðardóttur systur séra Gísla á Kvennabrekku, þeirra dóttir Ingiríður fyrri kona Páls Sigurðssonar í Deildartungu; þaðan ættir í Borgarfirði.

5) Jón yngri átti fyr Guðrúnu dóttur séra Magnúsar Einarssonar á Stað í Steingrímsfirði, svo Þuríði Finnbogadóttur, systur Ara í Svignaskarði, bl.; Jón dó 1727.

6) Guðrún átti Ólaf á Vilmundarstöðum Þiðriksson frá Fljótstungu, Arasonar (Ó. Snókdalín: Hallssonar); þeirra son Ólafur á Snældubeinsstöðum, faðir Ólafs í Geirshlíð, föður Þiðriks í Geirshlíð, föður Þorsteins, föður Þórðar á Leirá, Þiðriks á Háafelli, Ólafs á

dd. Steinunn[1]).
ee. Ragnheiður[2]).

---

Læk, Þorsteins í Geirshlíð, Jóns á Grímastöðum, Ásmundar á Haukagili og Bjarna á Hurðarbaki.

1) Steinunn átti Bjarna á Ásbjarnarstöðum Sveinsson, Steindórssonar. (Í afskript af ættatölum séra J. H. er Bjarni talinn Steindórsson, en frumritið á þeim stað er glatað), þeirra börn: Jón á Ásbjarnarstöðum, Einar í Síðumúla, Þorbjörg og Halldóra.

2) Ragnheiður var seinni kona Andrésar Magnússonar á Grænanesi, bróður Guðrúnar f. k. Jóns yngra bróður Ragnheiðar, þ. b.
α. Ingibjörg átti Magnús Jónsson yngra frá Veiðileysu, Sigmundssonar, þeirra dóttir:
Ragnheiður átti Arnfinn Jónsson á Hafnarhóli á Selströnd, þeirra son Sveinn í Ferjukoti á Mýrum († 1828), heppinn við lækningar, faðir Sveins í Álptártungu og Arnfinns á Litlafljóti í Biskupstungum.
β. Guðrún átti Jón Jónsson í Grænanesi.
γ. Guðmundur átti Guðrúnu Árnadóttur.
ς. Jón prestur í Arnarbæli († 1780) átti Sigríði Hannesdóttur prests í Arnarbæli, Erlingssonar, þeirra börn: Vigfús prestur í Miðdal, Einar á Stóra-Hálsi í Grafningi, Hannes dó ókv., bl., Andrés, Ragnheiður móðir Einars Tómassonar í Mjóanesi í Þingvallasveit, Guðlaug eldri s. k. Þórðar Einarssonar í Mýrarhúsum og Guðlaug yngri átti Jón nokkurn Helgason.
Enn er talinn son Jóns Vigfússonar í Ási:
ff. Vigfús bjó í Eyvindarmúla, að því er Espólín segir, átti Guðrúnu Eyjólfsdóttur, Eyleifssonar frá Kalmannstungu, Sveinssonar, þeirra börn:
α. Jón eldri á Háafelli í Hvítársíðu, faðir séra Vigfúsar í Miklaholti, séra Arngríms á Melum, Eyjólfs Johnsoníusar stjörnufræðings o. fl.
β. Jón yngri silfursmiður í Árkvörn, sigldur stúdent og um tíma konrektor í Skálholti, dó 1767, tvíkvæntur. Dóttir hans með fyrri konunni Katrínu Jónsdóttur prests í Eyvindarhólum, Oddssonar var Guðrún, er átti Jón Ísleiksson fálkafangara, þeirra son Þórður í Eyvindarmúla, faðir Jóns, er þar bjó lengi og enn er á lífi. Son Jóns Vigfússonar í Árkvörn og síðari konu hans Gróu Eyjólfsdóttur hins spaka í Eyvindarmúla Guðmundssonar var Eyjólfur Moh stúdent, er varð skólahaldari í Sórey og kvæntist þar.

d. Steinríður átti Vigfús son Þórðar Böðvarssonar[1]), börn:
aa. Þórður[2]).

γ. Kolbeinn bjó í Áskoti í Melasveit. Hans dóttir Guðrún móðir Egils Egilssonar á Þorgautsstöðum.

Bæði Espólín og Snókdalín telja, að Vigfús faðir Jóns á Háafelli og Jóns í Árkvörn hafi verið son Jóns Vigfússonar í Ási og telur Espólín hann son Jóns og fyrri konu hans Ingiríðar, en Snókdalín son Jóns og síðari konu hans Guðrúnar Eyleifsdóttur, en það mun skakkt, því að þau Jón og Guðrún áttu ekki börn saman, að því er séra Jón Halldórsson segir. Hann telur heldur ekki Vigfús meðal barna Jóns og Ingiríðar, og hefði honum þó átt að vera það kunnugt. Er því líkiegast, að Vigfús hafi ekki verið skilgetinn son Jóns. Þess ber þó að gæta, að frumritið af ættatölubók séra J. H. er einmitt glatað, þar sem getið er um þessa ætt, og gæti því hugsazt, að nafn Vigfúsar hafi fallið burtu hjá afritaranum, en þó er það fremur ósennilegt, því að afskriptin er fremur nákvæm. Guðrún Eyjólfsdóttir kona Vigfúsar var bróðurdóttir Guðrúnar Eyleifsdóttur s. k. Jóns í Ási. Steingrímur biskup segir í ættatölum sínum, að þau Jón Vigfússon í Árkvörn og síðari kona hans Gróa Eyjólfsdóttir hafi fengið hjúskaparleyfi 1743 vegna þremenningsfrændsemi þeirra á millum, en hvernig sá skyldleiki hefur verið, verður ekki séð. Ó. Snókdalín blandar auðsjáanlega saman Eyjólfi Eyleifssyni í Kalmannstungu, móðurföður Jóns í Árkvörn og Eyjólfi Jónssyni, er bjó í Ási í Melasveit, föður Kaprasíusar á Súlunesi. Getur vel verið, að Vigfús faðir Jóns í Árkvörn og þeirra bræðra hafi verið í ætt við þennan Eyjólf í Ási (ef til vill bróðir hans) en að þeir hafi verið synir Jóns Eyjólfssonar bróður séra Ásmundar á Breiðabólstað, eins og sumir virðast hafa ætlað, mun þó hæpið. Sannleikurinn er, að framætt Vigfúsar er harla óviss, og líklega mjög erfitt að fá nokkra fullyggjandi vissu um hana. Steingrímur biskup rekur ekkert ætt hans fram og telur hann, eins og séra J. H., ekki meðal barna Jóns Vigfússonar í Stóra-Ási.

1) Þórður var son Böðvars prófasts Jónssonar í Reykholti og fyrstu konu hans Ástu Pantaleonsdóttur. Þeir Þórður og Vigfús son hans bjuggu á Hurðarbaki í Reykholtsdal.

2) Þórður bjó á Helgavatni, († 1739, 88 ára), átti Þóru Nikulásdóttur frá Þingnesi Einarssooar, þeirra einbirni:

1. Vigfús á Hurðarbaki og Helgavatni átti Elínu Jónsdóttur Kolbeinssonar koparsmiðs Bjarnasonar þ. b.:

bb. Þorsteinn[1]).
cc. Guðlaug[2]).
dd. Sesselja[3]).

---

a. Sveinn aðstoðarprestur í Landþingum († 1766), átti Ragnheiði Bjarnadóttur prests í Fellsmúla Helgasonar, þ. b.:
aa. Ingibjörg átti séra Eirík Guðmundsson á Útskálum og börn.
bb. Ragnheiður átti Sturlaug Sigurðsson í Lúnansholti.
cc. Guðrún átti Ólaf Ólafsson í Húsum í Holtum, þeirra synir: Ólafur í Húsum, faðir Jóns á Þverlæk, og Þórður í Húsum, faðir Ólafs í Sumarliðabæ og bræðra hans.
dd. Margrét átti Erling á Jörfa á Kjalarnesi Árnason, Gestssonar prests á Kjalarnesi, er drukknaði á Kollafirði 1752, Árnasonar í Effersey Símonarsonar, þeirra synir: Árni í Fitjakoti, Sveinn á Vindási í Kjós, Helgi í Stóra-Botni, Erlingur á Geitabergi faðir Gests á Ferstiklu, Þórður á Jörfa og Halldór, en dætur Ragnheiður og Elín. Er sú Erlingsætt orðin allfjölmenn.
b. Þórður á Minna-Hofi í Eystrihrepp († 1800) átti Guðrúnu Ingvarsdóttur frá Stóruvöllum, Magnússonar, föðursystur Ingvars í Skarði, þ. b.:
aa. Elín átti Þórodd Jónsson frá Helludal Gissurarsonar og börn.
bb. Hallbera átti Markús í Asi hjá Hruna († 1850 80 ára) Jónsson, Markússonar í Hörgsholti Árnasonar í Dalbæ Markússonar, þeirra son Jón.
cc. Vigfús í Núpstúni, átti Þuríði Ámundadóttur smiðs Jónssonar, systur séra Halldórs á Melstað. Ein þeirra dóttir var Elizabet kona Kristjáns dbrm. Jónssonar Matthiesen á Hliði á Álptanesi.
c. Guðlaug átti Sigmund Ingvarsson, bróður Guðrúnar konu Þórðar á Minna-Hofi, þeirra son Vigfús faðir Sigmundar í Gerðum og Hinriks í Ölvaðsholti.

1) Þorsteinn átti Halldóru Jónsdóttur, systur Steins biskups, bl. Launson hans hét Þorbjörn.

2) Guðlaug giptist ekki; launson hennar með Þorsteini Eyjólfssyni prests á Lundi, Jónssonar var:
Sveinn prestur í Stóradal († 1728).

3) Sesselja átti Jón yngra Bjarnason, bróður Kolbeins koparsmiðs, þeirra einbirni: Guðrún átti Bjarna Guðmundsson á Litla-Hrauni.

ee. Sigríður[1]).
e. Halldóra átti Hannes Daðason[2]), börn:
aa. Sigurður[3]).
bb. Snæbjörn[4]).
cc. Daði[5]).
dd. Ragnheiður[6]).
ee. Sigríður[7]).
ff. Sesselja[8]).

4. Ragnhildur átti Einar Þorleifsson frá Skálmarnesmúla, hann átti Skáleyjar 40 hndr. Einar varð eigi gamall, drukknaði á Breiðafirði, þeirra einbirni:
a. Einar varð úti á Hallruna á haustkrossmessu í fjúki 20 ára[9]) barnlaus, erfði svo

---

1) Sigríður átti Gísla Þorbjarnarson á Hóli í Lundareykjadal og börn.

Enn voru börn Vigfúsar og Steinríðar:
ff. Vigfús, dó ókv. bl.
gg. Sigurður, dó ókvæntur.

2) Son Daða Gíslasonar frá Hrafnabjörgum.

3) Sigurður átti Sigríði Þorkelsdóttur frá Rauðanesi, Erlendsson og eina dóttur.

4) Snæbjörn átti Ólöfu Bárðardóttur, þeirra son Bárður faðir Þuríðar fyrri konu Þorsteins Illhugasonar á Valshamri, þeirra son Bárður smiður á Fáskrúðarbakka. Þessi ætthringur mjög fjölmennur.

5) Daði átti Gunnvöru dóttur séra Ásmundar Eyjólfssonar á Breiðabólstað, þeirra son Hannes á Narfeyri, faðir Daða á Leiti á Skógarströnd, og eru þaðan komnar fjölmennar ættir.

6) Réttara: Ragnhildur; hún var síðari kona séra Ásmundar Eyjólfssonar á Breiðabólsstað, þau barnlaus.

7) Sigríður átti Pétur Jónsson úr Brokey, Péturssonar, bl.

8) Sesselja síðari kona Jóns Jónssonar eldra á Miðhrauni, bl.

Enn eru taldir synir Vigfúsar Eiríkssonar í Ási og Guðlaugar Björgólfsdóttur:
f. Steindór (talinn hjá séra J. H.).
g. Ögmundur (einnig talinn hjá séra J. H.). Hans son Jón. Hans son Ásmundur á Bláfeldi. Hans son Illhugi á Borg (í Miklholtshrepp) »fátækur, frómur maður« segir J. H.

9) Það var árið 1632.

móðir hans hann og giptist aptur Árna syni Gísla í Galtardalstungu Jónssonar Ólafssonar, börn :

b. Ragnhildur átti Jón á Rauðamel Björnsson, börn,
   aa. Gísli í Krossholti[1]).
   bb. Björn lögréttumaður á Rauðamel[2]).
   cc. Guðbjörg, kvinna Þórðar lögréttumanns Finnssonar[3]).
   dd. Ragnhildur[4]).

c. Halldóra dó 1648, barnlaus.

C. Ragnhildur átti Orm bónda Jónsson, sjá Barðastrandarsýslu[5]).

Í sagnaritum og ættartölum kallast Steindór sýslumaður í Strandasýslu, en eigi er getið, hvenær hann tók þá sýslu eða sleppti henni, en af Snóksdalsdómi 1560, er hann lét ganga í umboði Eggerts lögmanns Hannessonar, og kallast þá sýslumaður í Strandasýslu, má sjá, að Steindór hefur verið þar valdsmaður 1560, en fyrir og eptir það ár mun hann hafa haldið þá sýslu. Steindór bjó á Ökrum á Mýrum; er því líkast, að hann hafi haldið umboðsmann í sýslunni[6]). Steindór tjáist að hafa verið mikilmenni og lögkænn á sínum dögum.

1) Gísli átti Sigríði yngri Finnsdóttur frá Ökrum Sigurðssonar (sjá hér á undan bls. 352).

2) Björn átti Ingibjörgu Finnsdóttur, systur Sigríðar.

3) Sbr. hér áður bls. 350.

4) Ragnhildur var fyrri kona Böðvars Jónssonar sýslumanns í Vestmannaeyjum, bl.

5) Enn var dóttir Steindórs Finnssonar og Sesselju:

D. Þórunn giptist haustið 1580 Marteini Erasmussyni umboðsmanni á Arnarstapa, þ. b.:
   1. Guðrún átti Sigvalda á Kjalveg.
   2. Ingveldur.

Launson Steindórs hyggur séra Jón Halldórsson, að hafi verið

E. Jón þingaprestur í Breiðuvík (1568); hans son Steindór og dætur, bjargþrota í Breiðuvík 1607.

6) Í J. S. 64 fol. á Lbs., er Steindór talinn sýslumaður í Strandasýslu milli 1556 og 1564, en það getur verið sett af handahófi og sama sem »fyrir og eptir 1560«. Steindór er látinn 10. október 1579, líklega þá fyrir skömmu.

## Magnús Jónsson.

Sjá um hann við Barðastrandarsýslu og við Ísafjarðarsýslu. Í ættatölum nefnist Magnús Strandasýslumaður, og er líkast, að hann hafi verið það á þeim árum millum 1564 og 1574, og Magnús kannske viðtekið af Steindóri, en sleppt sýslunni 1574 eða fyr, þá Staðarhóls Páll fékk hana. Hvort Magnús hefur haldið alla sýsluna eða hálfa, er oss dulið.

## Staðarhóls-Páll.

Sjá Ísafjarðarsýslu Pall var orðinn sýslumaður í Strandasýslu 1574, því það ár telst hann sýslumaður milli Geirhólms og Hrútafjarðarár, þá er hann átaldi séra Indriða Ásmundsson[1]) á Kaldaðarnesi fyrir ábúð hans, spilling á húsum, töðum og engjum á téðri jörðu Kaldaðarnesi, er séra Indriði um mörg fyrirfarandi ár hafði búið á. Þessi séra Indriði átti Guðlaugu, dóttur Jóns Þorbjarnarsonar, hún var systir Ragnhildar Jónsdóttur, barnamóður séra Þorleifs Björnssonar á Reykhólum og Sesselju[2]), er Eggert lögmaður hélt við. — Líklegt þykir mér, að Páll hafi sleppt sýslunni um 1580, þegar Hinrik Gerken tók við. —

## Jón Egilsson (eða Eyjólfsson).

Um ætt hans og afsprengi er mér ókunnugt[3]), en Bjarni Oddsson á Skarði hefur skrifað, að téður Jón hafi gerzt sýslumaður í Strandasýslu 1576, en varla hefur þessi Jón verið þar

---

1) Séra Indriði var Ámundason smiðs í Straumfirði, af ætt Auðunnar Salómonssonar á Hvanneyri. Hann bjó í Kálfanesi, (ekki Kaldaðarnesi), er hann seldi Staðarhóls-Páli (sbr. Árb. Esp. V. 23). Dóttir hans var Sæunn móðir Jóns Guðmundssonar lærða, og getur hann nánar séra Indriða afa síns í ritgerð sinni »Um ættir og slekti«, er fyr hefur verið minnst á (bls. 279 n.m.).

2) Það er ekki rétt, að Sesselja hafi verið systir Guðlaugar og Ragnhildar. Um ætterni Jóns Þorbjarnarsonar og æfilok hans er getið í hinni fyrnefndu ritgerð Jóns lærða, og er það allt áður ókunnugt.

3) Þessi Jón mun vera Jón Egilsson á Geitaskarði, son Egils sýslumanns Jónssonar (sbr. I. B. bls. 532), en um sýsluvöld hans í Strandasýslu mun allóvíst.

í sífellu sýslumaður og allra sízt í allri sýslunni til 1600, því Hinrik Gerken, Staðarhóls-Páll og Pétur son hans, héldu á því tímabili Strandasýslu.

Það er til vitnis, að þessi Jón þó hefur haldið hálfa Strandasýslu 1599, að Pétur Pálsson sýslumaður stefndi undir hans dóm Jóni Hákonarsyni í Kálfanesi[1]).

## Hinrik Gerken (aðrir Kerken).

Sumar ættatölur telja Hinrik son Hannesar hirðstjóra Eggertssonar, en aðrar fræðibækur telja Hinrik Hamborgara, er satt mun vera[2]).

*Kona:* Jarþrúður dóttir Bjarna á Fellsenda Sumarliðasonar, Jónssonar, Ásbjörnssonar, Snjólfssonar í Ási, Brandssonar, bróður Rafns lögmanns[3]). Áður átti Jarþrúður Magnús, og voru þeirra börn: Guðmundur, Jón og Ingibjörg[4]), en með Hinrik voru hennar

*Börn:* A. Hannes, hann drukknaði í Jökulsá á Breiðársandi 1576, erfði Þórdís systir Hannesar eptir hann yfir 1 hundrað hundraða í jörðum, en varð þó að gegna stórum skuldum eptir hann; son Hannesar

1. Hans, lg., gerðist lögsagnari í Þverárþingi lögmannanna Þórðar Guðmundssonar og Gísla sonar hans, því hans er við getið 1603 og 1608, að hann nefndi þar þá menn í dóm[5]).

---

1) Þessi Jón Hákonarson mun hafa verið föðurbróðir Jóns Guðmundssonar lærða, son Hákonar Þormóðssonar, Salómonssonar prests í Árnesi Magnússonar, Auðunnarsonar á Hvanneyri Salómonssonar.

2) Hinrik Gerken hefur alls ekki verið son Hannesar Eggertssonar (sjá ennfremur um hann: Húnavatnssýslu I. B. bls. 527).

3) Framætt Bjarna Sumarliðasonar mun hér öldungis rangt rakin (eins og hjá Snókdalín). Það má telja hér um bil víst, að Jón faðir Sumarliða hefur verið Arnbjarnarson, en hvort hann hefur verið bræðrungur við Sæmund ríka Eiríksson í Ási, eins og margir telja, mun allvafasamt.

4) Sjá um þessi börn Jarþrúðar og börn hennar og Hinriks Gerkens hér að framan bls. 292—95.

5) Það er blandað málum hér hjá Boga, að Hans Hannesson, sonarson Hinriks Gerkens, hafi verið lögsagnari í Þverárþingi um og

B. Guðrún andaðist fullvaxta, en giptist eigi og átti eigi börn.
C. Ása, laungetin, sjá um hana hér að framan[1]).
D. Þórdís átti Erlend sýslumann í Múlaþingi Magnússon.

Hvenær Hinrik Gerken Hannesson kom til Íslands vitum vér ekki, þó er líklegt, að hann fyrst hafi verið á Bessastöðum og fengið sér veitt Þingeyraklaustur næst eptir Árna sýslumann Gíslason um 1571; hafði hann löngu áður giptzt og búið í Svignaskarði, er hann hafði keypt; af þeim kaupum varð þræta við Ara Ormsson; lét því Ormur lögmaður Sturluson 1568, miðvikudaginn næstan eptir Bartholomeimessu, útganga þann lagaúrskurð, dagsettan á Stórhóli í Eyjafirði, er hann á Vallnalaugarþingi í Skagafirði sama ár, þriðjudaginn næstan fyrir Maríumessu, af sagt hafði, ahrærandi að hálft Svignaskarð og hálft Sigmundarnes skyldi vera lögleg eign Hinriks Gerkens Hannessonar, eptir kaupi hans við Jón Guðmundsson, en bréf Ara Ormssonar skyldu vera ónýt og að engu aktast. — Hann kallast og sýslumaður í bréfi Guðbrandar biskups 1574, þegar biskup skrifaði Hinrik Gerken á Þingeyrum áhrærandi frænda biskups séra Gamla. Í þeim dómi, sem Guðbrandur biskup og Jón lögmaður með Erlendi Pálssyni, Þorsteini Gunnarssyni, Stígi Björnssyni, Brynjólfi Árnasyni, Styrkári Hallssyni, Gamla Hallgrímssyni prestum, Ólafi Tómassyni, Gottskálk Magnússyni, Einari Magnússyni, Bjarna Sturlusyni, Jóni Grímssyni og Einari Þórarinssyni lögréttumönnum, lètu ganga að Bólstaðarhlíð þriðjudaginn næstan fyrir krossmessu um vorið 1574 um lausnir þeirra stórbrotamanna, er sjálfir eigi hefðu fé að greiða í sínar sektir konungsvaldsmanni og verða þar fyrir af valdsmanninum frá sakramenti haldnir og fyrirboðið að gefa þeim sakramenti og einkum um Jón Þorsteinsson, sem í hórdóm fallið hafði, og mætti á því þingi fram berandi, að hann eigi hefði fé til í sína sekt að gjalda, þá samt góðir menn höfðu lofað fyrir hann í borgun ganga, og Jón hafði sömuleiðis boðið sig til hlýðnis og undir slíka refsing, sem þeirri sekt svaraði.

Í þessum dómi stendur alleina, að umboðsmaðurinn Hin-

---

eptir 1600, því að það var einmitt Hannes son Hinriks, er þar hafði lögsögn um það skeið (sbr. athugasemd um þetta á bls. 294).

1) Sbr. bls. 294.

rik Gerken hefði hvorigt tilboðið Jóns þiggja viljað, heldur því afslegið og fyrirboðið honum sakramentið. Dæmdu dómendur hér yfir, að fátækir stórbrotamenn skyldu fá borgunarmenn fyrir sína sekt, ef þeir geta, en fái þeir ekki, þá skyldu þeir auðmýkja sig, og lofa að gjalda, þá gætu; en láti valdsmaður sér það eigi nægja, þá bjóði þeir sig undir slíka refsing, sem góðum mönnum lízt.

Í þessum dómi er Hinrik kallaður umboðsmaður, mun hann þá hafa haft það fyrir Jón sýslumann Björnsson (eða Árna sýslumann Gíslason, hafi Árni þá haldið sýslunni, þó hann væri fluttur að Hlíðarenda). Til 1577 hefur Hinrik haldið Þingeyraklaustur, þegar Jón lögmaður slæddi það frá honum. Þar eptir hefur hann tekið alla eða hálfa Strandasýslu, líklega að tillögum Jóns lögmanns 1580, og látið dóm ganga um Fellskirkju 1581. Hann hefur þá og haft Strandajarðir, en búið í Svignaskarði. 1582, 25. ágúst gerði hann í sinni banasótt á Svignaskarði testamenti sitt og dó skömmu þar eptir.

Þó Giessing skrifi, að Hinrik hafi verið sýslumaður í Árnesþingi og dáið 1565, þá er það ósatt, sem sjá má af því, sem hér er sagt.

## Torfi Jónsson.

Sjá um hann við Barðastrandasýslu. Torfi á Kirkjubóli nefnist víða í ættatölum sýslumaður, er líkast að hann hafi haft hálfa Strandasýslu um og eptir 1583; þó hef eg enga fullvissu þar um og enga hans dóma í þessari sýslu hef eg séð; hann mun og hafa verið umboðsmaður í Ísafjarðarsýslu nálægt 1580, eða máske um tíma haft að veiting part hennar. Í gömlum ættatölum kallast hann sýslumaður í Ísafjarðarsýslu.

## Narfi Ormsson[1]).

Fyrir 1593 meina eg hann umboðsmann í Strandasýslu, því 1593 lét hann ganga vitnisburð um presttíundir í Strandasýslu.

---

1) Narfi þessi getur naumast verið annar en Narfi Ormsson í Vík (Reykjavík), þótt mér sé ekki kunnugt um, að hann hafi nokkru sinni haft sýslumannsumboð í Strandasýslu.

## Pétur Pálsson.

*Faðir:* Staðarhóls-Páll Jónsson.
*Móðir:* Helga, dóttir Ara lögmanns Jónssonar.
*Kona fyrri:* Þorbjörg, dóttir séra Bjarna Finnbogasonar (aðrir Högnasonar), en móðir Þorbjargar var Ingibjörg, dóttir Vigfúsar sýslumanns, Þorsteinssonar sýslumanns, Finnbogasonar lögmanns. Þegar Þorbjörg var gipt Pétri, var hún orðuð af öðrum; þegar hún heyrði það, sór hún 1607 fyrir alla menn utan Pétur mann sinn.
*Börn:* A. Bjarni á Staðarhóli sýslumaður, sjá Dalasýslu.
B. Helga átti Sigurð á Hóli í Kinn, son séra Jóns á Ljósavatni Magnússonar Björnssonar officialis á Melstað Jónssonar biskups Arasonar. — Þ. b.:
1. Jón eldri[1]), dó barnlaus.
2. Jón yngri[2]), dó og barnlaus.
3. Eiríkur á Víðivöllum; hans laundóttir með Þórunni, dóttur séra Jóns Þorvaldssonar[3]), var:
a. Þorbjörg, hennar laundóttir:
aa. Kristín.
4. Þorbjörg var kvennskörungur[4]), átti tvær laundætur með Þórði Jakobssyni, dóu báðar bl.
C. Jón á Vatnshorni, launson Péturs með Sunnefu

---

1) Hann var kallaður brennir »þóttist sjálfbyrgingur í sáluhjálparefnum og þurfa ei klerka né kenninga, var hýddur fyrir guðsorða vanrækt etc.« segir Espólín (Ættat. bls. 1518).

2) Hann var kallaður pipar, var öllum óþekkur, dó á eignarjörð sinni Garði við Flateyjardal, ókv. bl.

3) Þetta mun skakkt. Að vísu er barnsmóðir Eiríks nefnd í sumum ættartölum Þórunn (eða Kristín) dóttir séra Jóns Þorvaldssonar á Miklabæ, en það er tæpast rétt, og mun hitt sannara, er Espólín segir, að hún hafi heitið Þórarna Jónsdóttir (af ókunnri ætt). Þorbjörg laundóttir þeirra átti einmitt laundóttur (Kristínu) með séra Jóni Þorvaldssyni á Hálsi í Fnjóskadal, og hafði hann heitið Þorbjörgu eiginorði.

4) Hún bjó í Garði við Flateyjardal. Espólín telur launbarn hennar með Þórði »ótíndum dreng« að eins eitt.
Enn var son Sigurðar og Helgu:
5. Pétur dó bl. í Skálholtsskóla.

Ögmundsdóttur, átti Sigríði dóttur séra Sigurðar í Miklholti Finnssonar frá Ökrum, barn:

1. Ingibjörg átti Arnór í Ljáskógum Ásgeirsson (sjá um börn þeirra, og hina menn Ingibjargar hér að framan).

*Kona seinni:* Þóra dóttir séra Ásmundar Þormóðssonar í Hvammi í Norðurárdal, þau áttu ekki börn og voru þau saman í 4 ár, til þess Pétur dó 1621. Þóru gaf Pétur Stóraholt í Saurbæ í tilgjöf. Eptir dauða Péturs seldi Þóra Stóraholt fyrir smájarðir Guðmundi bróður sínum, föður Ólafar, konu Magnúsar sýslumanns (sjá Ísafjarðarsýslu). Margir vænir menn báðu þar eptir Þóru, og neitaði hún þeim; loks giptist hún bóndamanni Þorsteini Jónssyni úr Hrútafirði; móðir Þorsteins var Sigríður Kráksdóttir, systir Helgu Kráksdóttur. Þóra og Þorsteinn áttu eigi börn saman, en hann tók fram hjá henni. —

Pétur Pálsson var á æskuárum í siglingum og framaðist vel, en síðan staðfestist hann hér á landi, og bjó fyrst ógiptur, þá átti hann áðurtéðan launson. 1596 hefur hann fengið hálfar Strandajarðir og hálfa Strandasýslu, en óvíst er, hvað lengi hann hefur haldið þetta, eða hvort hann hefur haldið það til síns dauða.

Pétur var og settur sýslumaður í Barðastrandarsýslu, þegar Björn sýslumaður Magnússon var þar frá settur 1604—1605. Þegar Staðarhóls-Páll, faðir Péturs dó 1598, hlaut Pétur í arfaskiptum eptir hann Staðarhól með þeim jörðum, er honum fylgdu og öðrum fleirum og þóttist hann þó verða afskipta við Elínu systur sína, þar hún fékk bæði Möðruvelli og Reykhóla, leitaðist því að skilja frá Reykhólum Seljadalsströnd, en það gekk seinna til baka. Hann vildi og ná til arfs eptir Þórunni á Grund, en var frádæmdur þeim arfi. Pétur bjó á Staðarhóli þar til hann dó 1621, var þá Bjarni sonur hans lítt á legg kominn; stórfengur og héraðsríkur þótti Pétur verða, átti hann marga óvildarmenn, og var sjálfur mikill fjárgæzlumaður og auðugur. Við ýmsa átti hann lagaþrætur, til dæmis við Jón Hákonarson 1599, og varð lítið úr því; hann deildi og um Sælingsdalstungu við Jón eldra Magnússon sýslumann. Pétur sýslumaður gaf Jóni syni sínum Eyri í Bitru. Jón varð ekki

gamall og giptist Sigríður ekkja hans aptur Gísla syni Ólafs Hannessonar, þeirra börn: 1. Sigurður Dalaskáld, faðir Jóns sýslumanns í Dölum. 2. Jón dó barnlaus. Pétur var fyrst umboðsmaður Jóns lögmanns föðurbróður síns um 1593 og fyr, og mun Jón þar eptir hafa útvegað honum hálfa Strandasýslu. Pétur hafði lítið ástríki af föður sínum.

## Jón Egilsson.

Sjá um hann hér að framan. Það er ljóst af stefnu Péturs sýslumanns Pálssonar, að Jón þessi hefur haldið hálfa Strandasýslu árið 1599 og líklega fram yfir 1600, en hvenær hann hefur sleppt þessari sýslu eða dáið, er mér dulið, eins hvort Ari sýslumaður eða Pétur hafi eptir hann tekið sýslupartinn. Jón bóndi Egilsson, konungsumboðsmaður millum Geirhólms og Hrútafjarðarár útnefndi 6 manna dóm á Bæ í Hrútafirði 1595 um afrétt (þá hefur hann haldið alla sýsluna).

## Ari Magnússon.

Sjá um hann við Barðastrandasýslu og Ísafjarðarsýslu, Ari finnst í stöku stað í ritum nefndur sýslumaður í Strandasýslu og það er sögn, en eigi hef eg þar fyrir fullvissu; ef satt er, mundu helzt líkindi, að hann hafi tekið við, er Jón Egilsson sleppti, nálægt eða fyrir 1610 og ætlað þá sýslu Magnúsi syni sínum; þó er þetta getgáta, en engin víssa[1]).

## Þorlákur Arason.

Ari faðir hans gaf honum og Guðmundi Ásmundssyni umboð sitt yfir Strandasýslu 1637, þegar Pétur Einarsson sleppti

---

1) Í samtíningi um sýslumenn J. S. hdr.safn 64 fol. á Landsbókasafninu er Ari talinn sýslumaður í Strandasýslu 1581, en það getur ekki verið rétt. En 1614, 1618 og 1625 finnst getið um dóma hans í Strandasýslu. Munu þeir Ari og Magnús sonur hans hafa haldið sýsluna til skiptis eða sinn helminginn hvor frá hér um bil 1612 til dauða Magnúsar 1635, en Ari síðan haft umboðsmann í hluta Magnúsar (t. d. Pétur Einarsson, Þorlák son sinn, Guðmund Ásmundsson o. fl.) þangað til Jón Magnússon sonarson hans tók við honum nokkru eptir 1640, en sjálfur mun Ari hafa haldið sinn hluta af sýslunni til dauðadags († 1652).

því umboði. Guðmundur Ásmundsson bjó í Stórholti í Saurbæ, og átti Guðrúnu dóttur Jóns Dan, þeirra dóttir Ólöf átti Magnús sýslumann Magnússon (sjá Ísafjarðarsýslu[1])), en Þorlákur Arason átti Málmfríði dóttur Gísla á Hrafnabjörgum, þeirra dóttir Helga átti Jón eldra sýslumann Vigfússon (sjá Barðastrandasýslu[2])). Eg meina, að þeir hefðu Ara umboð til þess að hann fékk hálfa sýsluna Jóni sonarsyni sínum 1641.

## Magnús Arason.

Sjá um hann við Barðastrandarsýslu[3]), Magnús var ungur að aldri, þegar hann tók Strandasýslu (hálfa að eg meina) nálægt 1616, en að vísu alla eptir 1621, og mun hann síðan hafa haldið hana að veitingu til dauða síns 1635, jafnvel þótt hann líka héldi Barðarstrandarsýslu, annaðhvort með fullkominni veitingu eða sem umboðsmaður Björns föðurbróður síns frá nálægt 1630 til þess Magnús dó. Engan dóm hef eg séð eptir Magnús í þessari sýslu; er þó fullvíst, að hann var hér sýslumaður, bæði af kvæði séra Þórarins og fleirum rökum.

## Pétur Einarsson.

Sjá um hann við Barðastrandarsýslu[4]). Eptir dauða Magnúsar sýslumanns Arasonar, hefur Pétur verið settur sýslumaður í allri Strandasýslu 1635, og 1636 finn eg hans valdsmanns gerðir þar, því nefnt ár lét hann ganga dóm við Hrútafjörð um fjármuni þess, sem sér tortímir, og enn sama ár 28. nóv. nefndi hann 12 menn í dóm í Strandasýslu um barn, sem úti varð. Hygg eg Pétur eigi hafa haft sýsluveitingu, heldur verið þar millumbils sýslumaður um 2 eða 3 ár[5]), og orðið að

1) Bls. 221. Er þar framætt Guðmundar rakin.

2) Bls. 77, þar sem meira er sagt frá Þorláki Arasyni.

3) Bls. 89—90.

4) Bls. 116—118.

5) Mun hafa verið umboðsmaður þess hluta, er Magnús Arason hafði, og þeir Þorlákur Arason og Guðmundur Ásmundsson eptir hann, þangað til Jón Magnússon tók við. Að Ari hafi að nafninu haft öll forráð sýslunnar allrar eptir dauða Magnúsar sonar síns og þangað til Jón varð fullveðja þykir mér sennilegast.

sleppa henni, þegar Ari setti þar Þorlák og Guðmund umboðsmenn 1637.

## Jón Magnússon.

*Faðir:* Magnús sýslumaður Arason.
*Móðir:* Þórunn ríka dóttir Jóns sýslumanns Vigfússonar.
*Kona:* Jórunn dóttir Magnúsar lögmanns Björnssonar sýslumanns, Benediktssonar sýslumanns, Halldórssonar prests. — Jórunn var fædd 1622; kaupöl Jóns og Jórunnar var á Eyrarlandi 1640, en festarölið á Möðruvöllum 1641, hún dó 1679[1]).
*Börn:* A. Magnús, sjá hér síðar og Snæfellssýslu[2]).
B. Elín, fædd 1643, átti séra Halldór Jónsson, bl.[3]).
C. Ragnheiður fædd 1646, átti 1672 Einar prest á Stað á Reykjanesi, son séra Torfa á Kirkjubóli. Séra Einar dó 1698, 66 ára gamall, börn:
1. Einar eldri sýslumaður í Miðhúsum (sjá Barðastrandarsýslu[4]).
2. Einar yngri átti Helgu Arnadóttur frá Bíldudal[5]), bl.

---

1) Þetta ártal mun ekki rétt. Jórunn mun hafa dáið áttræð 1702. Hún var sögð mesta smákvendi (ɔ: lítil vexti) höfðinglega lynd, leyndi sakakonu hálfan mánuð, svo að enginn vissi. (Aths. Boga Benediktssonar í handriti hans).

2) Þ. e. Magnús lögmaður í Máfahlíð († 1694).

3) Séra Halldór yngri var lengi prestur á Stað í Grunnavík († 13. apríl 1727). Hann var bróðir Halldórs prófasts eldra Jónssonar í Reykholti, föður séra Jóns lærða í Hítardal.

4) Bls. 98—99.

5) Launson Einars yngra með Guðrúnu Þorsteinsdóttur var:
a. Einar lögréttumaður í Svínanesi († 1784) átti Sesselju Finnsdóttur, Nikulássonar prests í Flatey, Guðmundssonar (bls. 282); þeirra börn:
aa. Hólmfríður átti Brynjólf stúdent († 1778) Eiríksson prests í Miðdal, Brynjólfssonar, þeirra son Brynjólfur stúdent, útskrifaður úr Reykjavíkurskóla hinum fyrri 1796, dó ungur.
bb. Hallbjörg átti Jón Jónsson, Hallssonar.
cc. Guðrún átti Jón Þórðarson í Litlanesi.

3. Þórunn átti Magnús sýslumann Björnsson, sjá Snæfellsnessýslu.
4. Guðrún.
5. Jarþrúður, barnlaus.

D. Séra Páll á Melstað fæddur 1647, fékk Melstað 1697, dó 1722[1]). Kona hans Guðrún dó sjötug 1736; hún var dóttir séra Erlendar á Melstað Ólafssonar prests. Börn:
1. Þórunn, fædd 1684, giptist 1704 séra Ólafi Jónssyni á Stað í Grunnavík. Þeirra börn:
   a. Erlendur sýslumaður, sjá Ísafjarðarsýslu[2]).
   b. Jón fæddur 1705, dó 1779[3]), hans dóttir með Guðrúnu, Ragnhildur.
2. Valgerður átti séra Jón Björnsson[4]), bl.
3. Ragnheiður dó 1707, átti Nikulás sýslumann Einarsson[5]), börn:
   a. Einar á Söndum í Miðfirði átti Guðrúnu Jónsdóttur, börn:
      aa. Ragnheiður á Reynistað[6]).
      bb. Erlendur.
   b. Erlendur[7]) átti Ingiríði Ólafsdóttur, þeirra dóttir Guðrún.

---

dd. Björg átti Bjarna Bjarnason frá Hrísbóli, Rögnvaldssonar.
ee. Ólöf átti fyr Einar Einarsson á Auðnum, svo Ólaf Magnússon frá Heydal, Ólafssonar, bróður séra Torfa í Kirkjubólsþingum, barnlaus.

1) Séra Páll dó 4. sept. 1721.

2) Bls. 237—238.

3) Þ. e. Jón Grunnvíkingur, lærður maður og fornfróður, ritaði margt en nokkuð í molum.

4) Séra Jón var prestur á Setbergi († 1726).

5) Sjá um Nikulás sýslumann og börn hans I. B. bls. 399—400.

6) Börn hennar eru talin I. B. bls. 399—400, 613—615.

7) Sbr. I. B. bls. 400. Erlendur var útskrifaður úr Skálholtsskóla 1726, bjó á Ásum í Húnavatnssýslu. Ólafur faðir Ingiríðar konu hans var Ólafsson frá Lækjamóti, Þorvaldssonar í Auðbrekku, Ólafssonar, en móðir Ingiríðar var Guðrún Hákonardóttir lögréttumanns, Jónssonar, Hákonarsonar og Ólafar Klemenzdóttur, en kona

c. Pétur, laungetinn.

4. Ingiríður átti séra Orm Bjarnason á Melstað, barnlaus.

5. Ingibjörg átti Brynjólf í Fagradal, sjá Dalasýslu.

6. Halldóra átti Pál lögréttumann á Broddanesi Markússon, börn:

a. Séra Markús á Kúlu átti Elínu Brynjólfsdóttur, barnlaus.

b. Ingiríður átti Þórarinn Bergsson, Magnússonar í Kirkjuhvammi, þeirra börn:

aa. Þórarinn[1].

bb. Sólrún[2].

cc. Halldóra[3].

---

Jóns Hákonarsonar var Ingunn Þorleifsdóttur frá Býjaskerjum. Þannig rekur Erlendur sjálfur ætt konu sinnar (á lausu blaði ódagsettu). Börn hans og Ingiríðar:

a. Benedikt dó fárra vikna.

b. Guðrún átti Tómas Hafsteinsson á Márstöðum í Vatnsdal; þ. b. aa. Helga átti Guðmund Loptsson á Litlu-Þverá.

1) Þórarinn í Bæ á Rauðasandi átti Jóhönnu Eggertsdóttur Eggertssonar prests, Ormssonar. Laundóttir Þórarins Guðbjörg átti Vigfús Ormsson í Fagradalstungu, bróður Jóns á Kleifum og þeirra bræðra; þeirra börn: Ormur átti Ingibjörgu Jónsdóttur, Þórarinn átti Guðrúnu Steinólfsdóttur, Jón og Þuríður, er átti Gest Steinsson.

2) Sólrún átti Magnús Þorleifsson á Rauðamel og börn.

3) Halldóra átti fyr Eirík Jónsson frá Harastöðum, Jónssonar, svo Grímólf á Jörfa í Kolbeinsstaðahrepp Snorrason frá Ytri-Hraundal, Þorkelssonar í Álptártungu, Brandssonar í Rauðanesi, Þorkelssonar, þeirra börn:

a. Páll í Fornaseli, átti fyr Ingibjörgu Jónsdóttur frá Fögruskógum, þau systkinabörn, svo Þuríði Guðmundsdóttur frá Fagurey Einarssonar s.st., Pálssonar s. st., Gunnarssonar, þeirra son: aa. Guðmundur líkansmiður (Guðmundur »bíldur«).

b. Ingveldur átti Ólaf í Máfahlíð Bjarnason frá Brimilsvöllum Bogasonar í Hrappsey, Benediktssonar, þeirra son Grímólfur í Máfahlíð, fór til Ameríku. Son hans er Andrés bóndi í Dagverðarnesi.

dd. Sigríður[1]).
ee. Jón[2]).
c. Guðrún[3]) átti Arngrím lögsagnara og börn, sjá Húnavatnssýslu[4]).
d. Ingibjörg giptist ekki[5]).
7. Brynjólfur dó barnlaus[6]).

Þar eð Magnús sýslumaður Árason giptist á Reykhólum 1620, hefur Jón eigi verið utan 14 vetra, þegar faðir hans dó 1635; sýnist líklegt, að honum hafi verið komið fyrir til menningar hjá Magnúsi lögmanni Björnssyni á Munkaþverá og þar hafi dregizt saman í eitt ástir þeirra Jóns og Jórunnar. Þeirra elzti sonur Magnús, er seinna varð lögmaður, tjáist borinn 1640, en það er eigi rétt, því hann var fæddur 1642, ári eptir að þau Jórunn giptust. Þau fluttust fyrst að Reykhólum, en bjuggu seinna í Miðhúsum, næsta bæ við Reykhóla; þá jörð hafði

1) Sigríður var fyrri kona Hallbjarnar í Skutulsey Einarssonar á Litlahrauni, Eiríkssonar, Einarssonar í Laxholti, Bjarnasonar, áttu 4 dætur, er allar giptust.

2) Jón bjó í Fögruskógum, var þríkvæntur. Dóttir hans með 1. konunni Guðrúnu Bjarnadóttur var Ingibjörg fyrri kona Páls Grímólfssonar (sjá hér á undan).

3) Arngrímur var síðari maður Guðrúnar, en fyrri maður hennar Grímur Guðmundsson, ættaður norðan frá Mývatni, en var á Melstað hjá séra Ormi Bjarnasyni, þeirra dóttir:
a. Guðrún 1. kona séra Árna Illhugasonar á Hofi á Skagaströnd.

4) I. B. bls. 620.

5) Enn voru börn Páls Markússonar og Halldóru Pálsdóttur:
e. Páll á Ytri-Völlum á Vatnsnesi átti Halldóru Árnadóttur frá Vatnshlíð Egilssonar, bl. Launson hans með Kristínu Bjarnadóttur:
aa. Eggert á Heggstöðum átti Þuríði Eggertsdóttur, Eggertssonar prests, Ormssonar. Laundóttir hans með Sesselju Einarsdóttur, Auðunnarsonar hét Anna.

6) Enn eru taldar dætur séra Páls á Melstað og Guðrúnar Erlendsdóttur:
8. Guðrún átti Snæbjörn Hallsson prests í Grímstungum, Ólafssonar, barnlaus.
9. Sigríður, laundóttir hennar Anna Teitsdóttir, þrígipt. Frá börnum hennar taldar ættir.

Jón tekið í arf ásamt Reykhólum. Jón elskaði mest son sinn Magnús og kom honum í skóla, en Jórunn Páli, því af einu öfugyrði, sem Jórunn svaraði til við Jón, þá er hann vildi láta vel að henni, er hún lá í jóðsótt að Páli, hafði hann Pál son sinn alltaf útundan, en Jórunn móðir hans hélt upp á hann. Þegar Jón tók að eldast, lét hann gera sér bæ fram í einni af Miðhúsaeyjum, er nefnist Hrísey, sótti og um að mega þar jarðast, þá er hann dæi, en þetta var honum eigi eptirlátið. Í téðri eyju þótti Jóni skemmtilegast að sjá yfir kringumliggjandi eyjar og fastaland; bjó svo þar í kyrðum eptir að hann hafði sleppt sýsluvöldum við Magnús son sinn. — Þó eg hafi eigi fullvissu um, hvenær Jón tók sýsluvöld, meina eg það vera svoleiðis tilkomið, þegar Magnús Arason dó, tók Pétur Einarsson alla Strandasýslu, sem áður er sagt, en eg hygg að Ari í Ögri sýslumaður hafi þar yfir fengið umráð nálægt 1637 og útvegað sonarsyni sínum, Jóni, þar sýsluvöld, þegar hann kom vestur, annaðhvort í sínu umboði eða að veitingu eptir 1640, og víst er að Jón hafði veitingu ásamt Þorleifi Kortssyni fyrir Strandasýslu 1654, þegar galdramálin voru þar upptekin af þeim Þorleifi og Jóni. En sínum sýsluparti sleppti Jón við Magnús son sinn 1662. Jón varð ekkjumaður 1679[1]) og bjó þar eptir á áður umgetnu nýbýli sínu til þess að hann dó 1705, hafði hann löngu áður afhent Reykhóla Magnúsi syni sínum, um það leyti, er Magnús kvæntist (sem sé 1668). Ekki fór mikið orð af lærdómi eða lagavizku Jóns sýslumanns, en búmaður tjáist hann að hafa verið góður og fjárgæzlumaður, nokkuð undarlegur að lunderni og langrækinn, en þó ágætur maður í margan máta.

## Þorleifur Kortsson.

Sjá um hann við Ísafjarðarsýslu. Þegar Þorleifur kom út, meina eg að hann yrði fyrst umboðsmaður í Strandasýslu, annaðhvort Ara í Ögri eða Jóns sýslumanns í Miðhúsum, fyrir 1650, og bjó í Bæ í Hrútafirði, til þess að hann flutti að Þingeyrum; þó meina eg, að hann hafi áður fengið veitingu fyrir hálfri Strandasýslu[2]), og í helmingadómi þeim, sem Þorlákur

1) Þetta mun ekki rétt (sbr. hér áður).

2) Mun hafa tekið hálfa Strandasýslu eptir lát Ara 1652 móts við Jón Magnússon, en verið áður umboðsmaður Ara í hans hluta.

biskup og Guðmundur sýslumaður Hákonarson létu ganga á Gilją 26. september 1651, nefnist Þorleifur sýslumaður, en eptir Ara tók hann hálfa Ísafjarðarsýslu 1652, samt hálfar Stranda, Aðalvíkur og Álptafjarðar jarðir. Hann varð lögmaður 1662, sagði af sér lögmannsdæmi 1679 og Strandasýslu 1660, missti Þingeyraklaustur 1678, lifði þar eptir embættislaus og dó í Bæ við Hrútafjörð 1698. Þorleifur vann konungi eið sem lögmaður 1662, en 1663 tók hann Þingeyraklaustur.

## Magnús Jónsson.

Sjá um hann við Snæfellsnessýslu. Magnús tjáist fæddur 1642. Hann var maður skarpur að gáfum og mannaðist, hann fór ungur utan til Hollands. 1662 sleppti faðir hans við hann hálfri Strandasýslu, og fékk hann veitingu fyrir henni sama ár. Magnús giptist 1668 Guðrúnu Þorgilsdóttur og bjó á Reykhólum. 1679 var Magnús kosinn lögmaður, þegar Þorleifur sagði af sér, hann hafði og áður 1675 fengið þann hluta Strandasýslu, er Vilhjálmur sýslumaður dó frá, svo Magnús hafði alla sýsluna. 1680 var Magnús settur umsjónarmaður Stapaumboðs og sýslu, flutti hann því frá Reykhólum, fyrst að Brimilsvöllum, svo að Máfahlíð, keypti hann þá jörðu af konungi fyrir aðrar jarðir. 1688 tók Magnús Snæfellsnessýslu og Stapaumboð. 1689 flutti hann að Ingjaldshóli og dó þar 1694. Hann hafði frásagt sér Strandasýslu 1681 (séra J. H. segir, að hann hafi algerlega sleppt henni 1684). Magnús fékk og konungsbréf 1662 fyrir hálfum Strandajörðum, að hann mætti þeim halda upp á lífstíð, og annað 1681, sem staðfesti lögmannsembætti hans.

## Vilhjálmur Arnfinnsson.

*Faðir:* Séra Arnfinnur á Stað í Hrútafirði sonur Sigurðar á Staðarfelli, Arnfinnssonar, Guðmundssonar.
*Móðir:* Þórdís dóttir séra Guðmundar á Stað á Reykjanesi, Jónssonar prests í Gufudal, Þorleifssonar.
*Kona:* Þorkatla Bjarnadóttir, Þórissonar.
*Börn:* A. Bjarni dó 1709[1]), átti 2 launbörn með Elínu, dótt-

1) Bjarni drukknaði í Miðfjarðará.

ur Eiríks á Núpi í Miðfirði[1]) Egilssonar frá Geitisskarði, Jónssonar; var 1690 dæmd sekt á hendur Bjarna fyrir það, að hann hefði tælt Elínu og átt barn með henni[2]). Bjarni fékk hennar þó síðar, og bjó í Miðfirði, hann var smiður góður; börn:

1. Jón í Núpufelli.
2. Agnes átti Halldór, þeirra barn:
   a. Elín[3]).
3. Vilhjálmur[4]), börn:
   a. Ólafur[5]).
   b. Benedikt[6]).
   c. Kristín[7]).

B. Guðmundur á Dröngum í Trékyllisvík, var kallaður mjög göldróttur og honum kenndi prestur hans séra Magnús Halldórsson fótbrot sitt. Guðmundur átti tvær laundætur:

1. Guðrún, sem átti Jón Kolbeinsson á Hrófbergi[8]).
2. Hólmfríður átti launbarn og dó þar af með barninu.

---

1) Eiríkur á Núpi faðir Elínar var son Jóns á Núpi Eiríkssonar, Egilssonar frá Geitaskarði (sbr. I. B. bls. 497 og víðar).

2) Sbr. I. B. bls. 589.

3) Elín átti Jón Dalabónda á Fremri-Fitjum Jónsson á Útibleiksstöðum, Snorrasonar, þeirra börn: Bjarni á Neðri-Torfustöðum, tvíkvæntur, Hólmfríður kona Björns Guðmundssonar á Skarfshóli, Ingiríður kona Sveins Jónssonar á Urriðaá og Agnes kona Árna Guðmundssonar á Rófu.

4) Vilhjálmur bjó á Bjargi, átti Margréti Þorsteinsdóttur.

5) Ólafur átti fyr Málfríði Teitsdóttur frá Núpi Eiríkssonar, svo Helgu Jónsdóttur.

6) Benedikt kvæntist, átti dóttur, er Guðrún hét, hún dó ógipt, bl.

7) Kristín átti Bjarna Gíslason á Brekkulæk í Miðfirði, þeirra son Vilhjálmur á Rófu.

Enn var dóttir Bjarna Vilhjálmssonar og Elínar:

4. Málfríður átti Ólaf Jónsson í Hlíð í Miðfirði, þaðan ættir.

8) Jón var son Kolbeins Jónssonar og Guðrúnar Árnadóttur prests í Skarðsþingum, Einarssonar.

C. Guðrún var lengi í Bjarneyjum og átti þar launbarn með Þorkeli Ólafssyni, giptist síðan eptir að hún var úr barneign; barnið hét:
Hólmfríður.

D. Einar giptist eigi, fór á vergang, bl.

E. Hólmfríður, barnlaus.

F. Vilborg var vesalingur[1]).

G. Ingibjörg átti launbarn með Stígi Þorvarðarsyni[2]) og annað með Teiti Eiríkssyni[3]), giptist svo Guðmundi Ólafssyni, þeirra dóttir
Rósa.

(Flestir afkomendur Vilhjálms urðu aumingjar og ólánsmenn).

Vilhjálmur gerðist fyrst umboðsmaður Þorleifs lögmanns Kortssonar og bjó á Þóroddstöðum, en þegar Þorleifur frásagði sér Strandasýslupartinn, fékk Vilhjálmur sér hann veittan[4]) og hélt honum þaðan í frá, til þess hann dó 1675. Vilhjálmur var haldinn mjög fjölkunnugur, og því kallaður *Galdra Vilki*, annars sagður vel skýr maður.

## Pétur Pálsson.

*Faðir:* Páll landþingisskrifari, son Gísla lögmanns, Þórðarsonar lögmanns, Guðmundssonar.

*Móðir:* Ingibjörg, dóttir Bjarna á Stokkseyri Sigurðarsonar, Bjarnasonar, Torfasonar.

---

1) Launson Vilborgar með Jóni Gunnlaugssyni á Neðri-Torfustöðum var:

a. Jón átti Steinunni Brandsdóttur, þeirra börn: Jón á Reykjum í Miðfirði og Ingibjörg, er átti Bjarna Ívarsson á Litlaósi.

2) Stígur bjó á Þóroddstöðum í Hrútafirði. Hann var son Þorvarðar Stígssonar í Núpdalstungu og móðurbróðir séra Þorvarðar Bárðarsonar í Felli.

3) Teitur Eiríksson lögréttumaður var bróðir Elínar konu Bjarna Vilhjálmssonar (sjá hér á undan).

4) Vilhjálmur er orðinn sýslumaður í hálfri sýslunni 1669, því að 24. maí það ár lætur hann ásamt Magnúsi sýslumanni Jónssyni dóm ganga að Árnesi um galdraákæru Sigmundar Valgarðssonar gegn Eyjólfi Jónssyni (sbr. Lögþ.bók 1669 nr. 5).

*Kona:* Sesselja, dóttir Guðmundar Árnasonar frá Deildartungu og Margrétar, dóttur séra Jóns yngra Böðvarssonar.

*Börn:* A. Einar í Steingrímsfirði átti Ólöfu Jónsdóttur Þórðarsonar (bændafólk); börn:

1. Pétur átti Katrínu Jónsdóttur Torfasonar, börn:
   a. Jón expóstur, dó 1812 í Reykjavík, vesæll.
2. Guðmundur.
3. Sesselja

B. Bjarni laungetinn með Guðrúnu Árnadóttur, Halldórssonar á Álptanesi, Marteinssonar biskups. Bjarni átti Margréti Þórðardóttur, Péturssonar, börn:

1. Bjarni.
2. Pétur, þeir dóu báðir barnlausir.

Þegar Magnús lögmaður Jónsson flutti frá Strandasýslu 1680, tók hann Pétur fyrir lögsagnara þar, er fékk veitingu fyrir henni sama ár og aflagði þá sinn eið fyrir umboðsmannsins á Bessastöðum umboðsmanni Lárusi Gottrúp, undir eins og Bjarni Eiríksson, er gerðist sýslumaður í hálfu Skaptárþingi, og Þorsteinn Benediktsson, er tók hálft Húnaþing (séra J. H. segir, að Magnús hafi eigi algerlega sleppt Strandasýslu fyrri en 1684). 12. febrúar 1681 í Bæ við Hrútafjörð lét Pétur dóm ganga um þjófnað Þorgríms Ólafssonar frá Jóni Auðunssyni á Melum. Pétur hefur haldið alla sýsluna um hríð, en frá völdum í henni hefur hann verið kominn 1687, þá Rögnvaldur lét þar dóm ganga; ekki þótti heppilega ganga fyrir Pétri völd hans í sýslunni eða bústand, og eigi var hann haldinn mikilmenni.

## Rögnvaldur Sigmundsson.

*Faðir:* Sigmundur í Fagradal, son Gísla á Staðarfelli og Galtardalstungu, Jónssonar á Svarfhóli, Ólafssonar prests í Hjarðarholti, Guðmundssonar.

*Móðir:* Guðrún Pálsdóttir, Ormssonar, Sigurðssonar.

*Kona:* Ragnheiður Torfadóttir, systir Páls sýslumanns í Ísafjarðarsýslu. Þau giptust 1669, og áttu ekki börn saman.

Rögnvaldur var skólagenginn og heldur stórbóndi í sinni tíð, en ókunnugt er oss um uppvöxt hans. Eptir Pétur Páls-

son var hann orðinn sýslumaður í Strandasýslu 1687[1]), því þá lét hann dóm ganga að Hrófbergi; hann afstóð sýslunni til Jóns Magnússonar 1700 og gaf honum eptir sig alla fjármuni sína[2]); hann dó 1712.

Systur Rögnvalds, Álfheiði, átti séra Árni Loptsson, er fyrst var prestur að Þykkvabæjarklaustri 1651, svo að Stað í Grunnavík 1653, þá til Mýraþinga 1657, átti hann þar í þrasi við heldri menn, einkum Pál Torfason sýslumann, vék því sjálfviljugur frá Mýraþingum 1675 og flutti að eignarjörð sinni Gerði í Hvammsveit. Millum séra Árna og Rögnvaldar uppkom 1678 misklíð; skuldaði Rögnvaldur sýslumaður Árna prest fyrir, að hann hefði gert sér og konu sinni orsakaða meinsemd með fjölkyngi; hélt Þórður biskup þar um fjölmenna prestastefnu í Hvammi 1679 eða árinu fyrir. Þóttu ástæður Rögnvaldar veikar og var séra Árna dæmd undanfærsla með 12 fangavottum; vann Árni prestur eiðinn með 5 prestum fyrir Eiríki prófasti Vigfússyni, en Borgarfjarðarprestar nokkru seinna. Þar eptir sættust þeir Rögnvaldur, og álitu flestir það skárst, féll svo niður mál þeirra, þótt hátt væri reist í fyrstu. 1692 bjó Rögnvaldur utan sýslu, kom þá bréf til Möllers amtmanns og Jóhanns Kleins, að tilhalda Rögnvaldi að flytja í Strandasýslu eða setja hann frá sýslunni.

Seinast bjó Rögnvaldur í Innri-Fagradal og dó þar 1712. Þorsteinn Pálsson hafði keypt Fagradal af eignum Rögnvaldar, varð þar um mál, og gekk kaupið til baka 1721 eptir dómi, en Ormur sýslumaður keypti þá jörð seinna.

## Jón Magnússon.

Sjá um hann við Dalasýslu. Jón átti barn í skóla, en fékk uppreisn, varð svo prestur til Hjarðarholts í Dölum 1689, kvæntist Kristínu systur Pals Vídalíns, tók fram hjá henni og missti kjól og kall 1698, en 1699 gerðist hann lögsagnari Rögnvaldar sýslumanns, afstóð þá Rögnvaldur sýslunni, og fékk Jón veitingu fyrir henni 1700, og sama ár varð hann og lög-

1) Í J. S. 64 fol. er Rögnvaldur talinn sýslumaður í Strandasýslu 1679.

2) Gjafabref Rögnvalds er dagsett 29. ágúst 1701, staðfest af konungi 13. maí 1702.

sagnari í Dalasýslu og bjó í Búðardal. 1708 samdi Páll Vídalín við Jón að sleppa við sig Strandasýslu, en taka Dalasýslu, það var og samþykkt af þeim fullmektugu. Sama ár komst upp, að Jón tók fram hjá í annað sinn; var hann þá 1709 dæmdur frá sýslunni, og flutti hann þá norður 1710. Hálft Reynistaðarklaustur var honum til slegið 1717, en missti það 1718. Í þriðja sinn tók hann fram hjá, þegar hann var um sjötugt, flutti seinast til séra Snorra á Helgafelli, launsonar síns og dó hjá honum 1738. Rögnvaldur sýslumaður testamenteraði Jóni allt sitt góss, bæði fast og laust.

## Páll Vídalín.

Sjá um hann við Dalasýslu. Í skiptum við Jón Magnússon tók Páll þessa sýslu 1708, setti þar lögsagnara sinn Þórð Björnsson 1710 og 1711, og sleppti þessari sýslu 1712, en tók hana aptur 1717, afstóð henni svo til Orms Daðasonar 1718.

## Þórður Björnsson.

*Faðir:* Séra Björn Þorsteinsson á Staðarbakka og Tjörn.
*Móðir:* Guðrún[1]) dóttir séra Jóns í Fagranesi og systir séra Rafns.
*Kona:* Sigríður dóttir Arnórs í Ljáskógum Ásgeirssonar.
*Börn* áttu þau engin saman, sem lifðu.

Þórður gerðist lögsagnari Páls Vídalíns í Strandasýslu 1710 og 1711; hann gerðist og lögsagnari Lárusar Gottrups í Húnavatnsþingi 1715[2]).

## Jón Sigurðsson.

Sjá um hann við Snæfellsnessýslu, hvar hann gerðist lögsagnari 1709—1712. Jón fèkk veitingu fyrir Strandasýslu 1712, en frásagði sér hana 1713, en var lögsagnari í Dalasýslu 1712—1718, eptir það embættislaus, þangað til hann dó 1720.

---

1) Guðrún var dóttir séra Jóns Þórðarsonar »siðamanns« í Hvammi í Laxárdal († 1689), en séra Rafn (á Hjaltabakka) var ekki bróðir hennar, því að hann var miklu síðar uppi († 1807).

2) Sbr. I. B. bls. 608.

## Sumarliði Klementsson

var settur fyrir þessa sýslu 1713 að tillögum Lárusar Gottrúps hvers lögsagnari Sumarliði var 1712 í Húnavatnsþingi[1]). Nefnt ár 1712 lögsækir hann Guðbrand Arngrímsson, er áður hafði haldið hálft Húnavatnsþing og Þorlák Ólafsson fyrir ýmsar sakir; þegar þetta mál kom fyrir lögréttu, var það að litlu haft. 1713 að Kirkjuhvammi dæmir Sumarliði Odd Eyjólfsson til að missa lífið fyrir þriðja hórdómsbrot. Kallast Sumarliði þá sýslumaður. Hann var og sama ár af þeim fullmektugu settur fyrir Strandasýslu, en fékk fullkomna veitingu fyrir henni 1714. Það ár var Sumarliði á alþingi dæmdur til að borga hálft annað hundrað til næsta hospítals fyrir óreglulega málsfærslu í barnsfaðernislýsingarmáli Guðrúnar Pétursdóttur. — 1716 14. nóvember sótti Jóhann Gottrúp á Torfalækjarþingi sýslumanninn í Strandasýslu Sumarliða Klementsson fyrir rétti tilskikkaðs dómara Jóns Eiríkssonar. Varð þá Sumarliði illyrtur við Gottrúp og óskikkanlegur fyrir réttinum, hvar um Jóhann tók vitni og stefndi síðan Sumarliða til alþingis 1717. Lögmönnum sýndist sitt hvorum. Oddur dæmdi tvöfallt fullrétti til sýslumanns Gottrúps, 14 merkur til konungs, 3 lóð silfurs eptir NL. 1—12—2,3 og M. H. 9. og í málskostnað til sýslumanns Gottrúps 12 hndr. En Vídalín dæmdi Sumarliða sekan 4 merkum við konung fyrir hans orð og óskikk, til Gottrups 16 hndr. í sinn rétt og málskostnað 4 hndr. Þá missti og Sumarliði Strandasýslu. 1735 testamenteraði Sumarliði Jóhanni Gottrúp allar sínar skuldlausar eignir, hvar í var jörðin Marðarnúpur, sem Bjarni sýslumaður Halldórsson tók síðar. Sumarliði var drykkjumaður og reið eitt sinn drukkinn frá Þingeyrakirkju, datt hann þá af baki og hálsbrotnaði 1740.

Ætt Sumarliða er mér ókunn. Kona hans var Margrét Markúsdóttir, við hana skildi Sumarliði eptir prestastefnudómi á Flugumýri 1729 fyrir hórdóm hennar. Markús á Völlum, faðir Margrétar, var son Páls Jónssonar, Oddssonar, en kona Markúsar var Sigríður dóttir séra Erlendar á Melstað; kvinna Páls og móðir Markúsar var Guðrún Þorleifsdóttir undan Múla á Skálmarnesi.

---

1) Sbr. I. B. bls. 607.

## Ormur Daðason.

Sjá um hann við Dalasýslu. Þó lögmaður Páll Vídalín tæki Strandasýslu eptir Sumarliða sýslumann 1717, sleppti hann henni til Orms Daðasonar 1718 af tillögum Odds lögmanns Sigurðssonar, en Ormur tók sér þar lögsagnara 1726 Einar Magnússon og sleppti algerlega téðri sýslu 1728, þá er hann fékk sér veitta Dalasýslu.

## Einar Magnùsson.

*Faðir:* Magnús Björnsson, sýslumaður í Snæfellsnessýslu, sjá þar um hann.

*Móðir:* Þórunn, dóttir séra Einars á Stað á Reykjanesi[1]).

*Kona:* Elín, dó 1752[2]), dóttir Hamraenda-Jóns, sýslumanns í Hnappadalssýslu, sjá þar um hann.

*Börn:* A. Séra Magnús, fyrst í Árnesi, síðan í Gufudal, svo á Kvennabrekku, missti prestskap fyrir barneign og kom sér misjafnt. Hans fyrri kona Helga, dóttir séra Odds[3]) Þórðarsonar prests í Villingaholti, Þorsteinssonar, börn:

1. Einar, bóndamaður við Hellna, átti Agnesi, dóttur Tómasar, er bjó á Sólheimum í Laxárdal, Guðmundssonar, börn:
   a. Daníel[4]).
   b. Sigríður[5]).
2. Magnús, bóndamaður[6]), átti Þórdísi dóttur

---

1) Þ. e. séra Einars Torfasonar († 1698).

2) Þetta dánarár er óvíst. Í prestsþjónustubók Tröllatunguprestakalls (á landskjalasafninu) er ekki getið dauða Elínar á þessum árum. Mun hún því hafa látizt nokkru fyrir 1750.

3) Séra Oddur var skamma hríð prestur í Keldnaþingum, missti prestskap fyrir barneign, bjó lengi í Hlíðarendakoti, varð brjálaður á geðsmunum og fyrirfór sér í Bleiksárgljúfri 1764.

4) Daníel bjó í Þrengslabúð, átti Málfríði Guðmundsdóttur frá Gíslabæ, Jónssonar og börn.

5) Sigríður átti Þórð Jónsson í Knarartungu og mörg börn, þar á meðal var Agnes, er átti Vermund Sigurðsson á Sandi og Þórður, er var í Reykjavík og átti Hólmfríði Pétursdóttur frá Knútsborg.

6) Magnús bjó síðast á Stórafjalli í Borgarhrepp.

Sveins Ólafssonar, Sveinssonar (allt bændafólk), börn:

a. Magnús[1]).
b. Hallgerður[2]).
c. Unnur.

3. Jón beykir í Reyðarfirði[3]), giptist.
4. Hallgerður átti launbarn[4]), giptist svo Jóni prófasti Gíslasyni í Hvammi í Hvammssveit, þeirra börn:

a. Séra Þorleifur sama staðar, átti Þorbjörgu dóttur séra Hálfdanar[5]), Oddssonar prests á Reynivöllum, börn:

aa. Jón[6]).
bb. Ingibjörg[7]).

---

1) Magnús bjó einnig á Stórafjalli, átti Guðnýju Magnúsdóttur, þeirra dætur, Unnur og Guðrún.

2) Hallgerður var mállaus, átti tvö launbörn.

3) Jón beykir átti Sigríði Árnadóttur frá Þorvaldsstöðum í Skriðdal, Jónssonar, þeirra börn:

a. Jón dó bl. 1830.
b. Daníel beykir í Kaupm.höfn, kvæntist þar.
c. Magnús Norðfjörð beykir í Reykjavík, átti Helgu Ingimundardóttur frá Völlum á Kjalarnesi, Bjarnasonar, Ingimundssonar í Hrunakrók, Bjarnasonar, þeirra börn: Sigríður kona Kristjáns Möllers verzlunarmanns, Jón Norðfjörð verzlunarmaður í Reykjavík, Helga kona séra Jóns Jakobssonar í Glæsibæ, Ólafur Norðfjörð verzlunarstjóri í Keflavík og Henrietta, er átti Þórð skóara Þórðarson frá Hellum á Landi, Stefánssonar, Filippussonar prests í Kálfholti Gunnarssonar.

4) Barnsfaðir Hallgerðar hét Jón Jónsson, kallaður »spaki«. Vildi hann eiga hana, en fékk það ekki. Segir Daði Níelsson í prestaæfum, að menn hafi trúað því, að hann hefði fengið fjölkyngismann til að gera henni gerninga með kukli, og hefði því illa farsælast hjónaband hennar með séra Jóni. Hallgerður dó 11. júlí 1798. Hún var 1. kona séra Jóns.

5) Séra Hálfdan var prestur á Mosfelli í Grímsnesi, missti þar prestsskap fyrir barneign, drukknaði við Vatnsleysuströnd með Þorvarði bróður sínum 1808. Séra Hálfdán var orðlagður glímumaður.

6) Hann var síðast prestur á Ólafsvöllum († 1860).

7) Ingibjörg var fyrri kona Jens á Hóli í Hvammssveit Jóns-

cc. Sigurður.
dd. Páll[1]).

b. Þórunn átti séra Hannes kapellán í Vatnsfirði[2]), son Arnórs prófasts samastaðar, Jónssonar, börn:
aa. Sæunn[3]).
bb. Arnór[4]).
cc. Sigríður[5]).

c. Guðrún átti Jón bónda á Straumi, son séra Þórðar í Hvammi í Norðurárdal, Þorsteinssonar prests, börn:
aa. Guðbjörg.

---

sonar í Sælingsdalstungu Magnússonar skálds á Laugum, er kallaður var Jónsson, en haldinn son Magnúsar á Efra-Núpi í Miðfirði Pálssonar lögmanns Vídalíns. Þau Jens og Ingibjörg voru barnlaus. (Meðal barna Jens með síðari konu hans eru Bjarni bóndi í Ásgarði og Friðjón læknir á Eskifirði).

1) Páll var heyrnarlaus og mállaus.
Enn voru börn séra Þorleifs og Þorbjargar:
ee. Jóhanna átti Hákon Bjarnason kaupmann á Bíldudal, er úti varð á Mýrdalssandi 1877, þeirra börn: Þorleifur kennari við lærða skólann, Lárus sýslumaður í Stykkishólmi, Brynjólfur kaupmaður í Reykjavík, Ágúst heimspekingur og Ingibjörg ógipt.
ff. Hallgerður dó bl.
gg. Sæunn átti Sigurð Magnússon á Ytrafelli. Síðari kona séra Þorleifs var Margrét Magnúsdóttir frá Fjarðarhorni í Helgafellssveit, systir Matthildar konu Þorsteins læknis Jónssonar í Vestmannaeyjum, þau bl.

2) Séra Hannes Arnórsson var prestur á Stað í Grunnavík, drukknaði 18. des. 1851. Þórunn var fyrri kona hans.

3) Sæunn átti Halldór á Sútarabúðum í Grunnavík Jónsson Sturlusonar.

4) Arnór bjó á Sandeyri, átti Elizabetu Kristjánsdóttur Helgasonar og Kristínar Árnadóttur frá Æðey, Jónssonar sýslumanns Arnórssonar.

5) Sigríður átti Bæring Jónsson á Marðareyri. (Son séra Hannesar með síðari konunni var Jóhannes hreppstjóri í Botni í Súgandafirði).

bb. Guðrún.
cc. Helga.
d. Helga átti Sigurð bónda í Belgsdal Þorbjörnsson[1]), börn:
aa. Hallgerður.
bb. Sigríður.

5. Kristín átti fyrst launbarn með Guðmundi Snorrasyni, hét
a. Jón, gildur bóndi í Lækjarskógi í Dölum, síðan átti hún Guðmund hreppstjóra á Þorbergsstöðum Jónsson, Ólafssonar, barn:
b. Ólafur átti Kristínu Hallgrímsdóttur, sjá hèr síðar, barn
Jón[2]).

6. Sigríður átti Hallgrím í Gilsfjarðarmúla Sigurðsson samastaðar, Jónssonar prests í Saurbæjarþingum, börn:
a. Kristín átti Ólaf Guðmundsson, sjá hér að framan.
b. Ingunn áttti Bjarna Gíslason[3]).
c. Þrúður átti Magnús Jónsson og börn.
d. Hallgrímur kvæntist.
e. Jón kvæntist[4]).

7. Margrét átti fyr Jón Bjarnason í Gufudalssveit, börn:
a. Eggert[5]).
b. Sakarías.

---

1) Sigurður var son Þorbjarnar gullsmiðs Ólafssonar á Lundum og Þorkötlu Sigurðardóttur sýslumanns hins sterka Vigfússonar.

2) Jón bjó á Hornsstöðum, heppinn við lækningar, átti Kristbjörgu Bergþórsdóttur frá Leikskálum Þorvarðssonar og börn.

3) Bjarni var son Gísla skálds Sigurðssonar á Klungurbrekku, bróður Vigfúsar Fjeldsteds og Sigurðar stúdents í Geitareyjum.

4) Jón bjó á Sauðafelli, átti Jóhönnu Snæbjörnsdóttur, þ. b. Grímur, Jónas, Jóhanna, Jón.

5) Eggert bjó í Magnússkógum, átti Helgu Magnúsdóttur ríka á Kolbítsá Bjarnasonar.

c. Bjarni á Látrum.

Svo átti hún Brynjólf í Geitastekk[1]), barnlaus. Seinni kona séra Magnúsar hét Gróa Sigurðardóttir, systir áður nefnds Hallgríms í Múla, barn:

8. Guðbjörg átti Jón Andrésson, eiga mörg börn[2]); hann var frægur smiður í Dölum.

B. Þórunn átti Brynjólf í Ljáskógum, barnlaus.

C. Elín átti fyrst launson með Jóni, syni Teits sýslumanns Arasonar sýslumanns í Barðastrandarsýslu, var:

1. Grímur Thorkelín. Eptir afstaðinn lærdóm hér á landi með tilhjálp Þórunnar í Ljáskógum, sigldi hann og tók með bezta hrósi reynslupróf í rómverskri lögfræði 1776; hann var fæddur 1750[3]), fór fyrst í Skálholtsskóla, sigldi

---

1) Brynjólfur var Bjarnason, bróðir Ingmundar á Völlum á Kjalarnesi (sjá hér á undan bls. 387).

2) Frá Jóni smið Andréssyni er allmikil ætt komin. Börn hans og Guðbjargar voru: a) Jón á Eiði í Eyrarsveit († 1870). Son hans einn er Sigurður á Hrísum í Helgafellssveit, greindur maður og ættfróður. b) Andrés († 1892) smiður góður og reikningsmaður mikill. c) Magnús í Syðri-Knarartungu. d) Elín giptist. e) Þórdís. f) Guðrún átti Magnús Árnason á Rauðamel. g) Þórunn giptist ekki, átti launbarn. h) Gróa átti Þórarinn Árnason á Úlfarsfelli. Einn son þeirra er Jón smiður í Reykjavík. i) Guðbjörg átti Hannes Hannesson í Hundadal. j) Ragnhildur átti Þorstein Jónsson frá Hlíð í Hörðudal.

3) Grímur Thorkelín var fæddur 8. okt. 1752, dó 4. marz 1829. Hann var kværtur danskri konu Gunhild Cecilie Dybe († 6. ág. 1824), og var sonur hennar af fyrra hjónabandi Lars Kristján Hvidsteen, er var settur læknir á Vestfjörðum 1817—1819, en með Grími Thorkelín átti hún 6 börn, og var eitt þeirra:

1. Frederik Stephanus Thorkelín kammerjunker, yfirauditör í Helsingjaeyri († 27. febr. 1840). Son hans með f. k.:
   a. Grim Cecil Thorkelín dó í Texas 9. marz 1875. En með síðari konunni:
   b. Benedictus Frederik Július Thorkelín f. 20. ágúst 1827, ofursti, yfirliðsforingi í Kaupm.höfn, kvæntur, á 2 syni og 2 dætur.

þaðan í Slagelseskóla, útskrifaðist svo þar 1773, tók svo annað examen 1774, en 1776 — sem fyr er sagt — examen rómano-juridicum með hrósi. Þar eptir var hann við ýmsan lærdóm og varð meðlimur ýmsra lærðra félaga, varð prófessor extr.ord. 1783; steig síðan hærra, varð etazráð, doctor júris, riddari af dannebrogen og danneborgsmaður, geheimearkivaríus o. s. frv.

Elín giptist seinna Jóni í Tjaldanesi Sveinssyni, barnsföður Jóhönnu Ormsdóttur, börn:

2. Ebenezer[1]) átti Ingibjörgu Guðmundsdóttur þeirra son
   a. Ebenezer.
   Svo átti hann Elísu Einarsdóttur, börn:
   b. Vagn[2]).
   c. Jón.
   d. Elín[3]).
3. Elín átti Andrés, son Erlendar sýslumanns, börn:

---

c. Cceilie Margrethe Pauline Elizabet f. 4. júlí 1829 † 1855, átti C. L. Lendrop borgmeistara í Horsens, bl.
d. Carl Georg Viggo Thorkelín f. 24. okt. 1833, † 9. sept. 1890, kvæntur, bl.

1) Ebenezer var smiður góður og haldinn fjölkunnugur. Hann bjó fyrst á Hóli í Bolungarvík, síðan í Miðvík í Aðalvík, þá í Barðsvík, en flutti þaðan 1810 að Dynjanda í Grunnavík.

2) Vagn bjó á Dynjanda eptir föður sinn. Synir hans voru:
a. Híram drukknaði ókv. 1866.
b. Jón á Höfða í Jökulfjörðum.
c. Alexander á Höfða.
d. Otúel á Skarði á Snæfjallaströnd og víðar var launson Vagns á Dynjanda.

3) Enn voru börn Ebenezers og Elísu s. k. hans:
e. Elías bjó á Rauðamýri, átti Solveigu Bjarnadóttur Ásgeirssonar, bróðurdóttur Ásgeirs kaupmanns eldra á Ísafirði.
f. Áki.
g. Vigfús.

a. Eleasar[1]).
Seinna átti Elín Jón bóndamann[2]), börn:
b. Bjarni.
c. Grímur.
d. Ari.
e. Anna.
f. Guðrún.
g. Þórunn.
h. Ólöf.

4. Jóhanna átti Jón Snæbjörnsson í Ögri.
5. Vigfús beykir á Stapa átti Þórdísi Jónsdóttur og börn[3]).
6. Guðrún átti Einar Einarsson í Rúgeyjum og börn.
7. Sigríður átti Magnús Guðmundsson[4]), börn:
a. Elízabet[5]).
b. Björn[6]).
c. Magnús[7]).
d. Sigurður[8]).

---

1) Eleasar bjó í Álfatröðum, var bl. (sbr. bls. 237).

2) Jón bjó á Ingunnarstöðum í Geiradal. Hann var son Jóns Loptssonar og Ólafar Þórólfsdóttur frá Skálmarnesmúla Finnssonar, og bróðir Þórólfs í Hergilsey.

3) Börn Vigfúsar beykis og Þórdísar:
a. Jóakim smiður.
b. Valgerður átti Bjarna Guðmundsson frá Skjálg, þ. b. Guðmundur í Breiðuvík undir Jökli, Bjarni, Kristján, Vigfús þilskipaformaður á Stapa, Þórdís kona Helga Sölvasonar í Tungu í Skutulsfirði og Solveig kona Jóns Þorgeirssonar.

4) Magnús bjó í Hlíð í Hörðudal.

5) Elizabet átti Eirík Eiríksson frá Botni Þorvarðssonar Pálssonar í Fagurey Narfasonar.

6) Björn var lengi í siglingum, komst til Góðrarvonarhöfða, kvæntist þar stórauðugri ekkju og erfði hana, dó litlu síðar. Grímur Thorkelín móðurbróðir hans gekkst í því fyrir erfingjana, að arfurinn næðist, en erfingjarnir seldu hann Jóni kaupmanni Kolbeinssyni í Stykkishólmi, og galt hann þeim mikið fé fyrir, en hafði þó ærinn ábata að sögn.

7) Magnús bjó í Skálholtsvík.

8) Sigurður bjó í Staðarsveit.

e. Bjarni[1]).
f. Hallgrímur[2]).
g. Jón[3]).
h. Þóra[4]).
i. Ingibjörg.
j. Ragnhildur.

Einar ólst upp með frændum sínum, lærði og fór síðan utan til frekari mennta[5]), hegðaði sér þar vel í lifnaði og lærdómi, kom út 1726 og varð lögsagnari hjá Ormi sýslumanni Daðasyni, en þegar Ormur frásagði sér Strandasýslu 1728, fékk Einar veitingu fyrir téðri sýslu, og hélt henni til þess að hann sagði henni af sér 1757, þá flæktur í vandræðamál. Hann kværntist Elínu 1728 og fékk með henni Stóraskóg 60 hundruð og mikið lausafé og bjó á Felli í Kollafirði, svo missti hann Elínu 1752, en kværntist Sigurlaugu frá Höfnum á Skaga, flutti þar eptir að Broddanesi[6]). — Hann dó 1779 á Skutulsfjarðareyri, var hann þá þar á ferð, og lagðist drukkinn til svefns um kveldið, en veltist fram úr rúminu og var dauður, þegar til var komið, flóði þá af honum afarmikið vatn. Einar var lítill vexti, þótti grályndur sem móðurfaðir hans, kappsamur í þrætum, óeirinn og stórbrotinn drykkjumaður, margfróður í ýmsu; á seinni árum eyddist honum fé, og embættisverk hans fóru í basli; er mælt, að Halldór Jakobsson hafi verið honum óhægur ljár í málavastri hans og vandræðum.

---

1) Bjarni átti Halldóru Sturlaugsdóttur frá Kolsstöðum, Atlasonar í Stóraskógi, Sturlaugssonar í Bæ Atlasonar.

2) Hallgrímur bjó á Dunkárbakka, átti Þóru Bjarnadóttur og börn.

3) Jón átti Vigdísi Andrésdóttur frá Þórólfssöðum Jónssonar, systur Jóns smiðs, og börn.

4) Launsynir Þóru með Jósúa Jónssyni í Bæ í Miðdölum, voru Sigurður, er fór til Vesturheims, og Björn.

5) Hann er skrifaður í stúdentatölu við háskólann 24. sept. 1725, og er þá talinn 21 árs að aldri.

6) Sigurlaug var Sigurðardóttir. Í sálnaregistri Tröllatunguprestakalls er hún talin bústýra Einars sýslumanns 1759, og búa þau þá á Broddanesi, en 1760 eru þau farin þaðan, og hafa þá líklega flutzt vestur (að Ísafjarðardjúpi) og gipzt þar.

## Halldór Jakobsson.

Sjá um hann við Vestmannaeyjasýslu. Halldór[1]) var settur sýslumaður í Strandasýslu, þegar Einar frásagði sér hana 1757, en fékk sama ár veitingu fyrir Vestmannaeyjasýslu, er hann þó ekki fór til. 1758 fékk hann veitingu fyrir Strandasýslu og tók sér þá bústað á Felli í Kollafirði. Honum var vikið frá sýslumannsverkum 1764, þegar Eyvindur þjófur með hyski sínu slapp frá honum, en komst til embættisverka aptur 1766. — Fyrir illa meðferð á góssi af ströndaðu skipi var hann frá settur 1788, og frá dæmdur 1790; hann sigldi, en ávann ekkert. Lifði því embættislaus hjá Birni sekretera Stephensen og frú Þorbjörgu í Víðidalstungu til þess að hann dó 1810[2]). — Fróður var hann í mörgu, hefur samið rit um jarðelda a Íslandi, og er það prentað, einnig kronologíu, prentaða í Hrappsey og Göngu-Hrólfssögu prentaða.

1797, 18. september og aptur 1801, 25. maí testamenteraði hann Kolbeinstaðaeignir sínar frú Margréti Stephensen, bróðurdóttur sinni, og hennar þremur sonum, Ólafi, Jóni og Jakobi; það fékk konungsstaðfestingu 5. maí 1815.

## Jón Jónsson

var gildur bóndi og bjó á Broddanesi; hann var settur sýslumaður í Strandasýslu í fyrri útistöðum Halldórs Jakobssonar frá 1764 til 1766. Jón þessi flutti seinna að Gróustöðum og var þar, er hann var settur dómari í máli Erlendar sýslumanns — sjá Ísafjarðarsýslu[3]).

*Faðir* Jóns á Broddanesi og seinna Gróustöðum, var séra Jón í Tröllatungu og Saurbæ, sonur Jóns lögréttumanns Illhugasonar. —

*Móðir*: Margrét dóttir Jóns á Kambi í Króksfirði Erlendssonar.

---

1) Halldór var fæddur 1734, útskrifaður úr Skálholtsskóla 21. maí 1753, og skrifaður í stúdentatölu við háskólann 18. des. s. á., tók próf í lögum 1756. Þá er hann tók við Strandasýslu, bjó hann fyrst í Broddanesi 1760, en var kominn að Felli 1762.

2) Hann andaðist 9. september.

3) Bls. 238.

*Kona* fyrri: Karítas (aðrir Herdís)[1]) dóttir Bjarna í Barmi[2]) Bjarnasonar Jónssonar, bændamanna, þau barnlaus.

*Kona* seinni: Þórunn dóttir séra Jóhanns í Gufudal, Þórólfssonar, þau barnlaus.

## Jòn Jónsson.

*Faðir*: Jón bóndi, fæddur 1713, sonur Högna lögréttumanns (dó 1730) á Laugarvatni, Björnssonar prests á Snæfuglsstöðum, Stefánssonar prests Hallkelssonar. —

*Móðir*: Guðrún, dóttir séra Einars á Lundi Oddssonar á Fitjum, Eiríkssonar samastaðar Oddssonar biskups. —

*Kona*: Hólmfríður, dóttir Ólafs bónda á Frostastöðum Jónssonar bónda á Framnesi Ólafssonar, Kárssonar, Sæmundssonar lögsagnara í Þingeyjarþingi Símonarsonar.

*Börn*: A. Anna[3]) átti Bjarna stúdent í Bæ við Hrútafjörð, son séra Friðriks á Breiðabólstað í Vesturhópi, Þórarinssonar sýslumanns í Vaðlaþingi, börn:

1. Jón.
2. Hólmfríður.
3. Jórunn.
4. Friðrik.
5. Anna Sigríður.

B. Guðrún átti fyrst launbörn[4]):

1. Guðrúnu[5]).

---

1) Réttara: Herdís. Þau Jón og Herdís giptust 1761, en voru skamma stund saman, því að 1765 kvæntist Jón síðari konunni Þórunni.

2) Bjarni í Barmi faðir Herdísar var Jónsson, ekki Bjarnason.

3) Anna var fyri kona Bjarna stúdents, en hin síðari var Helga Arnbjarnardóttir stúdents á Akri, Árnasonar prests á Bægisá Tómassonar, þeirra son Arnbjörn hreppstjóri, sem nú býr á Stóra-Ósi. Sjá um börn Bjarna stúdents og Önnu I. B. bls. 275. Þar er þó ekki nefnd Anna Sigríður, en hún átti Einar Gíslason frá Þambárvöllum.

4) Laundóttir Guðrúnar með Samson Jónssyni á Rauðsgili, er drukknaði í Hvítá, bróður Eggerts skálds á Mýri var:

5) Guðrún átti Brynjólf Konráðsson frá Bjarnarhöfn, bróðurson Gísla Konráðssonar, þeirra son Konráð. Áður en Guðrún giptist átti hún laundóttur með Jóni Sigurðssyni Sturlusonar, er hét Júlíana.

2. Helgu[1]).
Giptist síðan Pétri[2]) syni Jóns prófasts á Höskuldsstöðum, Péturssonar. Börn:
a. Jón.
b. Hólmfríður, dóu bæði.
C. Jón, dó ungur og 5 önnur dóu ung[3]).

Jón var fæddur 1754[4]), sigldi eptir afstaðinn skólalærdóm til meiri lærdómsframa og stundaði þar nokkur ár lögfræði; hann var fátækur að kosta sig þar, gaf sig því til að snúa Orkneyingasögu á latínu fyrir kammerherra Suhm og fékk þar fyrir borgun sér til viðurlífis, en þetta tafði hann svo í lagavísindaiðkun hans, að hann tók ekki reynslupróf í þeirri vísindagrein. Eptir 10 ára dvöl í Kaupmannahöfn, kom hann út og gerðist ritari hjá stiptamtmanni Lewetzow; en þegar Halldóri Jakobssyni var vikið frá embætti 1788, var Jón settur sýslumaður í Strandasýslu og fékk veitingu konungs fyrir þeirri sýslu 1794, bjó hann í Bæ við Hrútafjörð. 1796—67 var hann og settur sýslumaður í Ísafjarðarsýslu. 1815 fékk hann veitingu konungs fyrir Húnavatnssýslu, og flutti að Víðidalstungu,

---

1) Helga var laundóttir Guðrunar og Jakobs Samsonssonar í Villingadal, bróður Samsonar, er var með Jörgensen.

2) Pétur bjó lengi í Bæ í Hrútafirði eptir Jón sýslumann tengdaföður sinn. Var hann þríkvæntur, og Guðrún 1. kona hans. Voru þau skamma stund saman. Ól Pétur upp dætur hennar Guðrúnu og Helgu.

3) Þar á meðal 2 synir, Guðmundur og Ólafur.

4) Þetta ártal er skakkt. Jón mun fæddur 1747. Hann var útskrifaður úr Skálholtsskóla 20. maí 1769, og er þá talinn 22 ára gamall. Svo varð hann ritari hjá Finni biskupi, en var skrifaður í stúdentatölu við háskólann 28. des. 1773. Bogi skýrir rétt frá því, að hann hafi ekki tekið próf í lögum, því að það er skakkt, er segir í lögfræðingatali M. Stephensen (Tímar. Bókm.fél. 3. árg. bls. 231) að hann hafi tekið lögfræðispróf 18. apríl 1772, enda var Jón sýslumaður þá ekki kominn til háskólans. En villa þessi mun stafa frá V. Richter: Juridisk Stat, K.havn. 1881 bls. 158. Sá Jón Jónsson, er lögfræðispróf tók 1772 (sé ártalið annars rétt) mun vera Jón Johnsonius, síðar sýslumaður í Ísafjarðarsýslu, en hann var fæddur 1749, eins og stendur hjá Richter, en heimfært er upp á Jón sýslum. í Bæ.

bjó þar 2 ár, flutti svo að Reykjum í Miðfirði og missti þar konu sína 1825. Hann sagði af sér Húnavatnssýslu 1820, og flutti aptur að Bæ 1828, hvar hann bjó síðan, ellimóður, til dánardægurs: hann dó 1831 úr svefni[1]), eigi venju hrumari, 77 ára gamall, og var jarðaður 10. marz.

Jón sýslumaður var góðmenni, spaklyndur og réttvís, en ekki var hann haldinn mikill lagamaður eða skörungur; búsýslumaður þótti hann í lakara meðallagi. Hann var að vexti hár meðalmaður og þrekinn að því skapi, í andlitsfalli varð hann hvorki kallaður fríður né ófríður. Ekki var hann auðmaður, en bjargaðist vel og var góðgerðasamur, lét gott af sér leiða við sem flesta. Hann kom til menningar Jóni sýslumanni á Melum, og studdi að því eptir mætti, að hann fengi Strandasýslu. Mörgum fleirum var hann mikill bjargvættur. Frómlyndi hans, ráðvendni og góðmennska setja heiðurskrónu á hans framliðnu moldir.

## Ísak Jakob Bonnesen.

Sjá um hann við Rangárvallasýslu; hann hafði þá nafnbót að vera kallaður stríðscancellisekreteri; hann var danskur í báðar ættir; hann kom út með veitingu fyrir Strandasýslu, dagsetta 17. maí ·1817, var þó optast í Skagastrandarkaupstað. 1818 sagði hann af sér Strandasýslu og fékk þá Snæfellsnessýslu, hverri hann sleppti 1822, þá er honum var veitt Rangárvallasýsla. Meðan Bonnesen hélt Snæfellsnessýslu hafði hann heimili sitt í Ólafsvík.

## Jón Jónsson.

*Faðir*: Jón bóndi á Melum við Hrútafjörð, mikill ágætismaður, sonur Jóns bónda samastaðar, Jónssonar bónda samastaðar, Jónssonar samastaðar, Auðunssonar (bjuggu allir þessir feðgar á Melum, áttu mann af manni þá jörð, færðu túnið og bæinn úr brekkunni, hvar hvorttveggja áður var og upp á melinn, hvar það nú er, og ræktuðu þar út túnið).

*Móðir*: Guðlaug[2]) dóttir séra Eiríks á Stað við Hrútafjörð,

---

1) Hann andaðist 1. marz, og var þá 84 (ekki 77) ára gamall.

2) Guðlaug var fædd 30. maí 1758, dó 1802.

Guðmundssonar prests í Miðdölum, Eiríkssonar prests í Fagranesi, Guðmundssonar, Kolbeinssonar.

*Kona*: Ingunn, dóttir séra Gunnlaugs á Hálsi í Fnjóskadal, Gunnlaugssonar lögréttumanns, Ólafssonar.

*Börn*: A. Guðlaug giptist Ásgeiri Einarssyni á Kollafjarðarnesi[1]).

B. Ingunn átti Magnús umboðsmann Þingeyraklausturs[2]), son Björns á Þingeyrum, er var umboðsmaður nefnds klausturs, Ólafssonar[3]).

Jón var fæddur 11. nóvember 1787, fór 1802 til kennslu til Magnúsar sýslumanns Ketilssonar, var þar einn vetur, svo

---

1) Ásgeir bjó síðar á Þingeyrum, var lengi alþingismaður. Son hans og Guðlaugar var Jón á Þingeyrum, er átti Ingunni Magnúsdóttur Ólsen, þau systrabörn, þeirra synir Guðjón bóndi á Leysingjastöðum og Magnús á Sellátrum í Reyðarfirði.

2) Börn R. M. Ólsens umboðsmanns og Ingunnar eru talin í I. B. bls. 633. Eru nú að eins 2 þeirra á lífi: Björn Ólsen rektor við lærða skólann og Margrét kona Ólafs héraðslæknis Guðmundssonar á Stórólfshvoli. — Síðari maður Ingunnar Jónsdóttur kammeráðs, var Pétur Kristófersson á Stóruborg, þau bl.

3) Launson Jóns sýslumanns (sjá hér síðar) með Sigríði Sigurðardóttur frá Vindási, Bjarnasonar var

C. Jón, bjó á Melum, átti Sigurlaugu Jónsdóttur frá Helgavatni í Vatnsdal Ólafssonar og Sigríðar Finnsdóttur; þ. b.:

1. Jón prófastur á Stafafelli, átti fyr Margréti Sigurðardóttur prófasts á Hallormsstað Gunnarssonar, þeirra son Sigurður, síðar Guðrúnu Vigfúsdóttur frá Arnheiðarstöðum Guttormssonar stúdents, Vigfússonar prests Ormssonar.
2. Runólfur dó uppkominn.
3. Finnur.
4. Jósep bóndi á Melum.
5. Ingunn á Björn á Kornsá Sigfússon prests á Undirfelli Jónssonar.
6. Sigríður átti Þórð á Laugabóli Jónsson Halldórssonar, dó af barnsförum.
7. Guðlaug á Guðmund Ólafsson á Lundum í Stafholtstungum.

Sigríður barnsmóðir Jóns kammeráðs átti síðan Jón Þorsteinsson á Fossi í Hrútafirði, þ. b. Jón í Hrútatungu, Guðrún s. k. Gunnlaugs Björnssonar á Óspaksstöðum og Sigurlaug kona Jóns Árnasonar frá Fögrubrekku.

til séra Bjarna Arngrímssonar á Melum og var hjá honum 3 vetur, var svo útskrifaður 1806 af Geir biskupi Vídalín. Jón var ungur, þá er hann missti föður sin, tók hann þá Jón sýslumaður í Bæ og kom honum til menningar; eptir að hann var orðinn stúdent var hann um hríð ritari hjá nefndum sýslumanni. Eptir foreldra sína erfði Jón og bróðir hans Eggert töluverða fjármuni, bæði í löndum og lausum aurum. Jóni, sem var eldri, hlotnuðust Melar, og reisti hann þar bú, nokkru eptir að hann hafði verið útskrifaður, og giptist 1813[1]). Sjálfur var hann mjög vel lagaður fyrir búskap, og efnaður af arfi eptir foreldra sína, sem fyr er sagt, blómgaðist hann því sérdeilis vel, græddi mikið fé og keypti mikið jarðagóss; hann var og af náttúru vel skýr maður, settur, aðgætinn og umsjónarsamur, hafði og vanizt hjá Jóni sýslumanni í Bæ við allt það, er sýslumannsembætti snerti. Var hann því settur sýslumaður í Strandasýslu 1817, þegar Jón gamli tók Húnavatnsþing, og þangað til sýslumaður Bonnesen tók við Strandasýslu, en þegar téður sýslumaður fékk Snæfellsnessýslu 1819, var Jón þar aptur settur sýslumaður, og fékk veitingu konungs fyrir sýslunni 1820.

Launson átti Jón sýslumaður framhjá konu sinni, er Jón heitir, hefur hann gefið honum væna jörð og vel upp alið hann til bóndaefnis, gerði og vel við barnsmóður sína.

1844 fékk Jón sýslumaður umbeðna lausn og var þá sæmdur með kammerráðs nafnbót[2]).

## Jòn Pétursson.

*Faðir*: Pétur prófastur á Miklabæ og Víðivöllum dó 1842, sonur séra Péturs á Tjörn á Vatnsnesi, Björnssonar.

*Móðir*: Þóra dóttir Brynjólfs Halldórssonar biskups, Brynjólfssonar, hún dó 1843.

Jón er fæddur á Víðivöllum 16. janúar 1812 og ólst upp hjá foreldrum sínum, fór í skóla 1830 og útskrifaðist 1834.

---

1) 2. desember.

2) Lausnarbréf hans er ds. 1. nóv. 1843, og fékk hann þá um leið kammeráðs-nafnbótina. En sýslunni þjónaði hann til vorsins 1844, er Jón Pétursson kom. Jón kammeráð andaðist á Melum 12. júlí 1860, 73 ára gamall, og þótti merkismaður verið hafa.

1836 fór hann utan til meiri lærdómsframa; hann tók þar öll venjuleg reynslupróf og eins hið síðasta romano-juridicum með heppni (laudabilis). Kom út 1842, varð áhangandi sýslumanni Blöndal 1 ár. En þegar syslumaður Borgen fór utan 1843 gerðist Jón umboðsmaður hans í Vaðlaþingi til þess sýslumaður Borgen kom út 1844, þá fékk Jón veitingu konungs fyrir Strandasýslu, og varð hjá Jóni kammerráði á Melum vetrartöku- og húsmaður 1845. 1846 fluttist hann að Prestbakka til Búa prófasts Jónssonar. 1847 var Jóni sýslumanni veitt Borgarfjarðarsýsla, en sama ár tókst hann á hendur að þjóna amtmannsembættinu í vesturamtinu, þegar Bjarni conferentsráð fór utan og flutti til Arnarstapa, en fékk stúdent Jón Árnason á Leirá, að gegna um veturinn sýslumannsverkum að nokkru í Borgarfjarðarsýslu[1]).

## Kristján Skúlason Magnusen.

Sjá um hann við Snæfellsnes- og Dalasýslur. Þar amtmaður Bjarni Thorsteinsson hafði eigi annan en Kristján sýslumann, sem hann þekkti að var mikill framkvæmdarmaður og á léttasta skeiði, valdi hann hann 1847 til að gegna sýslumannsembættinu í Strandasýslu, því hægast er þangað að sækja úr Dalasýslu[2]).

# Viðbætir.

## P. J. Bröchner.

Hann var danskur examinatus juris, og var settur sýslumaður í Strandasýslu 3. júní 1848, en kom aldrei hingað til lands, og er ekki frekar frá honum sagt.

## Vigfús Sigurðsson Thorarensen.

*Faðir*: Sigurður Gíslason Thorarensen, síðast prestur í Hraun-

---

1) Sjá meira um Jón Pétursson háyfirdómara í Lögfræðingatali M. Stephensen, Sunnanfara 1. árg. 1892 nr. 7A, Þjóðólfi 48. árg. 1896 nr. 4, Andvara 1901 og víðar. Hann andaðist á 84. afmælisdegi sínum 16. janúar 1896.

2) Kristján sýslumaður þjónaði Strandasýslu til fardaga 1849.

gerði († 1865) bróðurson Stefáns amtmanns Þórarinssonar og þeirra bræðra.

*Móðir*: Guðrún Vigfúsdóttir sýslumanns á Hlíðarenda Þórarinssonar.

*Kona*: Ragnheiður Pálsdóttir amtmanns Melsteðs Þórðarsonar.

*Börn*: A. Guðrún (fædd 1842) átti tvíbura með Nikulási Illhugasyni, er dóu ungir, giptist svo Guðna á Forsæti í Landeyjum Magnússyni prests í Eyvindarhólum Torfasonar. Hann drukknaði við Vestmanneyjar; þ. b.:

1. Sigríður á Hjörleif í Drangshlíð, son Jóns hreppstjóra Hjörleifssonar í Eystri-Skógum.
2. Torfhildur gipt.
3. Guðný gipt.

Síðari maður Guðrúnar Kristján launson Þorsteins Kúlds kaupmanns í Reykjavík, bjuggu þau fyrst á Forsæti, en eru nú flutt til Reykjavíkur; þ. b.:

4. Ingibjörg Þóra á Þorgrím söðlasmið í Reykjavík, son Jóns Ingimundssonar í Skipholti, (nú í Feigsdal í Barðastrandarsýslu).
5. Þorsteinn dó uppkominn.
6. Sigfús dó ungur, o. fl. börn Kristjáns og Guðrúnar hafa dáið ung.

B. Bjarni Páll (f. 1844) skipstjóri í Stykkishólmi, var lengi í siglingum, nú ekkjumaður.

C. Anna Sigríður, fædd 1845, giptist 1871 Pétri Péturssyni, núverandi bæjargjaldkera í Reykjavík; þ. b.:

1. Helgi cand. mag. jarðfræðingur.
2. Sigurður býr í Argyle í Ameríku, kvæntur.
3. Ásta giptist 1899 dr. jur. Hans Krticzka fríherra von Jaden, dómara í Korneuburg hjá Vín og búa þau þar, bl.
4. Kristín ógipt heima.

D. Ingibjörg á Guðna bónda Þorsteinsson á Hóli í Útlandeyjum og börn.

E. Steinunn á Einar bónda á Hæli í Eystrihrepp Gestsson s. st. Gíslasonar í Hlíðargerði Gamal-

íelssonar Gestssonar á Stóra-Hofi, Gamalíelssonar s. st. Gestssonar; þ. b.:

1. Ingveldur átti 1902 Ingimund í Vestri-Garðsauka í Hvolhrepp Benediktsson, Diðrikssonar Benediktssonar prests í Hraungerði Sveinssonar.
2. Ragnhildur átti 1902 Pál bónda í Hlíð í Eystrihrepp Lýðsson hreppstjóra þar Guðmundssonar.
3. Gestur heima hjá foreldrum sínum
4. Eiríkur gekk í 1. bekk lærða skólans næstl. vor (1902).
5. Sigríður.

F. Stefanía ógipt í Ísafjarðarsýslu.

G. Sigríður ógipt í Rvík.

H. Oddgeir Stephensen, lærði trésmíði, drukknaði rúmlega fertugur.

I. Vigfúsína á Marís Marísson Gilsfjörð söðlasmið á Ísafirði.

Fimm börn Vigfúsar sýslumanns og Ragnheiðar dóu ung: elzta barn þeirra Bjarni og tvennir tvíburar.

Vigfús Thorarensen var fæddur á Mýrum í Álptaveri 4. maí 1815, var eitt ár í Bessastaðaskóla, en tók ekki stúdentspróf, varð svo skrifari hjá Jóhanni sýslumanni Árnasyni í Rangárvallasýslu, sigldi 1836 og tók undirbúningspróf við háskólann, tók próf í dönskum lögum 13. maí 1839 með 2. einkunn í öðru prófinu (hinu teoretiska), en gekk upp aptur í því 14. maí 1840 með betra árangri, og hafði því 1. einkunn í báðum prófum, varð svo skrifari hjá Páli Melsteð sýslumanni í Hjálmholti, og kvæntist Ragnheiði dóttur hans 7. janúar 1841, varð umboðsmaður Þykkvabæjarklaustursjarða 1842 og bjó góðu búi á Ketilsstöðum í Mýrdal, sleppti umboðinu 1847 og var settur sýslumaður í Strandasýslu 19. maí 1849, fékk veitingu fyrir henni 30. apríl 1854, en andaðist 16. júlí s. á. Hann bjó á Borðeyri. Ragnheiður ekkja hans lifir enn hjá tengdasyni sínum Einari bónda Gestssyni á Hæli, komin hátt á níræðisaldur.

## Þorvaldur Sigurðsson Sivertsen,

umboðsmaður í Hrappsey, var settur sýslumaður í Stranda-

sýslu eptir lát Vigfúsar sýslumanns 1854, og þjónaði henni þangað til Jóhannes sýslumaður Guðmundsson tók við henni árið eptir. Um Þorvald Sivertsen verður getið nánar í sýslumannatali í Dalasýslu.

## Jóhannes Guðmundsson.

Sjá um hann við Mýrasýslu. Hann fékk veitingu fyrir Strandasýslu 11. maí 1855, og fór að búa á Litlu-Hvalsá í Hrútafirði, en 18. febrúar 1861 var honum veitt Mýra- og Hnappadalssýsla. Hann varð úti í kafaldsbyl 11. febrúar 1869 nálægt heimili sínu Hjarðarholti í Stafholtstungum.

## Sigurður Eiríksson Sverrisson.

*Faðir*: Eiríkur Sverrisson, síðast sýslumaður í Rangárvallasýslu († 1843).
*Móðir*: Kristín Ingvarsdóttir bónda í Skarði á Landi Magnússonar, Ingvarssonar á Stóruvöllum, Magnússonar.
*Kona*: Ragnhildur Jónsdóttir prests á Felli í Mýrdal († 1848) Torfasonar prests á Breiðabólsstað í Fljótshlíð Jónssonar prests í Hruna, Finnssonar biskups. Þau hjón voru systrabörn.
*Börn*: A. Eiríkur stúdent, sjá hér á eptir.
B. Oddný gipt Vilhjálm bónda Ingvarssyni í Bæ í Hrútafirði.

Sigurður sýslumaður var fæddur á Hamri í Borgarhrepp 13. marz 1831, var útskrifaður úr Reykjavíkurskóla 1853 með 2. einkunn, sigldi til háskólans og tók þar heimspekipróf í júní 1855, en embættispróf í lögum 16. júní 1862 með 2. einkunn í báðum prófum, var s. á. settur sýslumaður í Suður-Múlasýslu, en fékk veitingu fyrir Strandasýslu 25. júlí 1863 og þjónaði henni til dauðadags. Hann var stundum settur sýslumaður jafnframt í Dalasýslu við og við, þá er þar var sýslumannslaust, t. d. 1867, 1877—78, 1881 og síðar. Hann var fyrst á Hlaðhamri í Hrútafirði, en flutti síðar að Bæ og húsaði þar prýðilega með allmiklum kostnaði. Hann andaðist í Bæ 27. janúar 1899 á 68. aldursári, elskaður og virtur af sýslubúum sínum fyrir ljúfmennsku og lipurð í embættisfærslu og höfðingsskap heima fyrir. Var friður í héraðinu um hans daga og málaferli ótíð.

## Eiríkur Sigurðsson Sverrisson.

*Faðir*: Sigurður Sverrisson sýslumaður fyrnefndur.
*Móðir*: Ragnhildur Jónsdóttir.
*Kona*: Hildur Jónsdóttir prests Thorarensen í Saurbæjarþingum († 25. ágúst 1895), Bjarnasonar amtmanns Thorarensen.

Eiríkur er fæddur á Hlaðhamri í Hrútafirði 23. desember 1867, gekk í 5. bekk lærða skólans haustið 1886 og var útskrífaður 1888 með 2. einkunn, sigldi þá samsumars til Kaupmannahafnar og tók þar heimspekispróf vorið 1889, las lögfræði um stund, en hætti við nám, var svo heima hjá foreldrum sínum í Bæ, og kvæntist þar. Eptir lát föður síns var hann settur sýslumaður í Strandasýslu 10. febrúar 1899 og þjónaði henni þangað til Maríno Havsteen tók við henni um haustið s. á. Eptir það var Eiríkur um hríð í Bæ, en flutti haustið 1900 suður til Keflavíkur, og er þar bókhaldari við verzlun P. Duus.

## Maríno Jakob Havsteen.

*Faðir*: Jörgen Pétur Havsteen amtmaður nyrðra († 1875).
*Móðir*: Kristjana Gunnarsdóttir prests í Laufási, Gunnarssonar, systir Tryggva bankastjóra.
*Kona*: Þórunn Eyjólfsdóttir prests í Árnesi, Jónssonar silfursmiðs á Kirkjubóli í Skutulsfirði, Þórðarsonar á Kjarna, Pálssonar.

Maríno Havsteen er fæddur á Möðruvöllum í Hörgárdal 9. ágúst 1867, kom í skóla 1881 og var útskrifaður 1887 með 1. einkunn, sigldi þá til háskólans og tók þar heimspekispróf 1888 með 1. einkunn, en embættispróf í lögfræði 23. júní 1897 einnig með 1. einkunn, var svo um hríð í Reykjavík, en veturinn 1898—99 á Ísafirði og þjónaði þar Ísafjarðarsýslu síðari hluta vetrar 1899 fyrir Hannes Hafstein sýslumann, bróður sinn, er sigldi þá til útlanda. En 11. ágúst 1899 fékk Maríno veitingu fyrir Strandasýslu og tók við henni þá um haustið, var fyrst í húsmennsku í Bæ, en reisti síðar bú að Óspakseyri í Bitru, og býr þar nú.

# V. Dalasýsla.

Hinir gömlu þingstaðir í Dalasýslu:
1. Blönduhlíð í Hörðudal.
2. Sauðafell í Miðdölum.
3. Jörvi í Haukadal,
4. Hjarðarholt í Laxárdal.
5. Hvammur í Hvammssveit.
6. Staðarfell á Meðalfellsströnd.
7. Ballará á Skarðsströnd.
8. Staðarhóll í Saurbæjarsveit.

Sá þriðjungur Þórnessþings, sem liggur milli Þverár[1]) og Gilsfjarðar, var kallaður Dalasýsla, þegar á 14. öld (að sönnu voru nokkru þar eptir gerð takmörk Dalasýslu í Krosssteina, sem eru Snæfellssýslu meginn við téða Þverá milli Gunnarsstaða og Hólmláturs, hver merki nú haldast). Á fyrri öldum bjuggu margir höfðingjar í Dalasýslu, svo sem Þorgils Oddason á Staðarhóli[2]); Sturla son Þórðar á Staðarfelli, er var goð-

---

1) Þverá er sjaldnefnd í dómum, sem takmark á meðal Dalasýslu og Snæfellsness, heldur er svo talið í dómum frá 1492 og og síðar, að þeir er völd höfðu í Dalasýslu, hefði »konungsumboð á milli Gilsfjarðar og Gljúfurár«. Mun Gljúfurá vera hin sama á, sem hér er nefnd Þverá og rennur hún á milli Gunnarsstaða og Hólmláturs. Í hinum eldri dómum er Dalasýsla jafnan talin »á milli Gilsfjarðar og Skraumu« (sbr. Íslenzkt Fornbréfasafn V, nr. 230, 556 og víðar). Skrauma eða Skraumuhlaupsá réð landnámi Unnar hinnar djúpúðgu annan veg, og mun á þessi því hafa verið hið elzta takmark milli Dala- og Snæfellsnessýslu. Hefur það og haldizt framyfir miðja 15. öld, að því er nú finnst í dómum og skjölum frá þeim tímum.

2) Þorgils Oddason á Staðarhóli hafði Reyknesingagoðorð, er átt hafði Ingimundur prestur Einarsson, Arasonar, frændi hans. Hafði Ingimundur prestur gefið Þorgilsi goðorð sitt, en það goðorð höfðu þeir átt, langfeðgar Ingimundar prests, Reyknesingar. Þorgils hefur og átt mannaforráð um Saurbæ; hann var sonur Odda Snerissonar, Þóroddssonar, en Þóroddur sá sýnist vera sonur Víga-Sturlu, er bjó á Staðarhóli um og eptir 1000, Þjóðrekssonar, Sléttubjarnarsonar landnámsmanns á Þverfelli i Saurbæ, Hróarssonar. Voru þeir langfeðgar allir goðorðsmenn og höfðingjar miklir. Þorgils Oddason dó 1151. Tók þá við goðorði hans Einar Þorgils-

orðsmaður og goði, og bjó lengst í Hvammi; hans son Þórður og sonarsynir: Sturla Sighvatsson á Sauðafelli; Sturla Þórðarson á Staðarhóli, er deyði 1284, og Snorri, son Sturlu, er deyði 1306; samt þeir Snorri lögmaður á Skarði á Skarðsströnd, og sumir niðjar hans, sem hér er oflangt að telja. Vil eg þó lítið víkja á um nokkra höfðingja og valdamenn í téðri sýslu, sem eg hefi sagnir af. Snorri son Sturlu lögmanns Þórðarsonar mun eptir lát föður síns 1284 hafa orðið valdsmaður í Dalasýslu; hann bjó á Staðarhóli og deyði 31. maí 1306.

---

son, og bjó að Staðarhóli eptir föður sinn; hann andaðist 1185; það var tveim vetrum eptir andlát Hvamms-Sturlu (d. 1183). Þess er getið, að Einar Þorgilsson átti dóttur laungetna, þá er Kolfinna hét; hennar fékk Þorvaldur Vatnsfirðingur. Hafði Einar gefið Kolfinnu Staðarhól, en Þorvaldur Gizurarson í Hruna, er þá átti Jóru dóttur Klængs biskups og Ingveldar systur Einars Þorgilssonar, rauf gjöfina, vegna Ingveldar og systra hennar, því að þær áttu að taka arf eptir Einar (Sturl.[2] I. 196, 389, ov.). Þá tók Þorgils son Gunnsteins Þórissonar og Hallberu Þorgilsdóttur, við Staðarhóli (1186), en hélt hann skamma hríð, því að hann fór litlu síðar til Staðar á Reykjanesi; þar bjó hann árið 1200. Hvort Þorgils Gunnsteinsson hefur tekið við mannaforræði því, er Einar Þorgilsson hafði, verður ekki með vissu sagt, en líkast er að það hafi um þetta leyti horfið undir Sighvat Sturluson, er gerði bú á Staðarhóli 1191 (Sturl.[2] I, 197). Sighvatur bjó eigi lengi á Staðarhóli. Mun Hallur prestur Gunnsteinsson, bróðir Þorgils hafa tekið við Staðarhóli eptir brottför Sighvats þaðan, og hefur Hallur haldið Staðarhól til þess er hann dó 1228.

Synir Halls voru þeir Páll prestur og Gunnsteinn, en systir þeirra var Jóreiður, móðir Helgu, er átti Sturla lögmaður Þórðarson. Þeir Páll prestur og Gunnsteinn bróðir hans höfðu mannaforræði nokkurt þar vestra, því að þeir teljast opt með höfðingjum á Sturlungaöldinni. Voru þeir vilhallir Sturlungum í deilum þeirra við aðra héraðshöfðingja. Hjá Páli presti fékk Sturla lögmaður landið á Staðarhóli, og hélzt það í ætt Sturlu lengi síðan. Börn Páls prests voru þau Sámur, Hallur, Snorri og Ingibjörg. Sonur Sáms hefur verið Páll Sámsson, er átti Helgu dóttur Böðvars á Stað, systur Þorgils skarða. Synir Gunnsteins voru þeir Hallur, og Vigfús, er bjó að Sauðafelli. Vigfús hafði án efa völd í Dalasýslu um og eptir 1260, en um Hall bróður hans er fátt kunnugt.

# Viðauki.

[Eptir Jósafat Jónasson].

## I. Um Skarðverjaætt.

Það mun óhætt að segja, að fá héruð á Íslandi hafa verið svo auðug að mannvali, sem Dalasýsla var, á Sturlungaöld og um það leyti sem Ísland gekk undir Noregskonung. Og lengi fram eptir öldum voru hinir auðugustu og beztu höfðingjar landsins kynjaðir úr Dalasýslu. Einkum voru það ættir Sturlunga og Skarðverja, sem mest bar á þar vestra, um það leyti sem Ísland gekk undir konung. Þessar tvær ættir höfðu þegar á tólftu öld náð mestum völdum í Dalasýslu, enda voru þær þá göfugastar og auðugastar ættir um þær slóðir. Saga þessara tveggja ætta er mjög merkileg, því að hún myndar allmikinn þátt í meginsögu íslenzku þjóðarinnar um langan aldur. Á söguöldinni ber lítið á langfeðgum Sturlunga, sem voru Djúpfirðingar hinir fornu, en um 1100 fer fyrst að bera á þessari ætt. Þá var það að Þórður Gilsson, faðir Hvamms-Sturlu, hlaut Snorrungagoðorð, eptir Mána-Ljót, son Mána, Snorrasonar goða, og hélzt það goðorð síðan í ætt þeirra niðja Þórðar, til þess er Ísland gekk undir konung. Goðorð þetta varð upphaf að virðingu Sturlunga og var Þórður Gilsson hinn fyrsti þeirra langfeðga, er mannaforráð átti í Dalasýslu; hefst með honum saga Sturlungaættarinnar og endar að kalla má með Sturlu lögmanni, syni Þórðar Hvamms-Sturlusonar. Svo sýnist þó sem nokkrir niðjar Sturlu lögmanns hafi komizt til virðinga og haft völd nokkur í Dölum á 14. og 15. öld, sem síðar skal sýnt. En svo lítið ber á niðjum Sturlunga, eptir að Ísland laut konungi, að þeir koma nær ekki við sagnarit, svo að menn viti með vissu, nema niðjar Þórdísar dóttur Snorra Sturlusonar, en þeir höfðu mest völd um Ísafjarðarsýslu á 14. öld og síðar, þar til er Björn ríki Þorleifsson komst að Skarði, með tengdum við hina fornu Skarðverja, á fyrra hluta 15. aldar, og hafði hann um hríð mest völd á Íslandi.

**Skarðverjaættin** er eigi síður merkileg, en ættkvísl Sturlunga, jafnvel þótt menn hafi eigi veitt þeirri ætt mikla eptirtekt hér til, sem mest kemur af því, að á Sturlungaöldinni ber eigi jafnmikið á Skarðverjum, sem á Sturlungum og það má heita, að saga Skarðverja hefist þar er saga Sturlunga líður að lokum. Einkunnir þessara tveggja ætta eru mjög ólíkar, og svo öll saga þeirra. Sturlungar voru framgjarnir mjög, ofsamenn miklir og ágjarnir bæði um auð og önnur völd, en Skarðverjar voru hóglátir, búhöldar góðir, friðsamir við nágranna sína og því vinsælir í héraði, þeir héldu sér lítt fram, en voru þó vitrir, og harðir í horn að taka, ef á þá var

leitað og létu lítt hlut sinn fyrir óvinum. Þessi mismunur á lyndiseinkunnum Sturlunga og Skarðverja kemur mjög opt í ljós á Sturlungaöldinni. Það sézt af Sturlungu, að Skarðverjar héldu jafnan virðingum sínum, þrátt fyrir ofsa Sturlunga, og Sturlungar leituðu lítt á þá. Áttu og flestir höfðingjar Sturlunga allmikið traust undir vináttu Skarðverja, enda var vinátta þessara ætta forn og föst, svo að fá dæmi finnast þess í sögu Íslands, að tvær ættir héldi svo vel saman, sem þessar, um jafnlangt tímabil. Var því ekki undarlegt, þótt hérað það stæði með blóma miklum á 12. og 13. öld, á meðan þessar ágætu ættir réðu þar mestu, og unnu saman að því, að auka veg og virðingu héraðs síns, með viturleik sínum og höfðingsskap. Af því að Skarðverjar eiga meiri þátt í sögu Dalsýslu um langan aldur, en nokkur önnur ætt í því héraði, þykir hlýða að segja hér nokkuð frá forfeðri þeirra, þar sem ritað er um héraðshöfðingja í Dalasýslu.

Um sama leyti og Þórður Gilsson faðir Hvamms-Sturlu bjó undir Staðarfelli, eða fyrir um og eptir aldamótin 1100, bjó sá maður að Skarði á Skarðströnd, er Húnbogi hét; hann er fæddur nálægt 1070, eða ef til vill litlu fyrr, en fyrst kemur hann til sögunnar um 1117 og er þess þá getið, að hann búi á Skarði; hann er þá talinn með virðingamönnum (Sturl.[2] I, 8). Sumarið 1120 getur þess, að þeir Þórður Gilsson og Húnbogi Þorgilsson frá Skarði, gerðust fyrirmenn að því að sætta þá Þorgils Oddason og Hafliða Másson, þá er Hafliði ætlaði að heyja féránsdóm á Staðarhóli, bæ Þorgils, eptir það er Þorgils hafði veitt Hafliða áverka á alþingi (Sturl.[2] I, 27). Er það auðséð, að þeir Þórður og Húnbogi höfðu þá mannaforráð nokkur vestur þar og hefur vinátta verið með þeim, því að þess er einkum getið, að þeir tveir gerðust fyrirmenn að því að sætta var leitað, en þeir Guðmundur Brandsson prestur í Hjarðarholti og Örnólfur Þorgilsson frá Kvennabrekku fylgdu þeim að því. Höfðu þeir Þórður og Húnbogi tvö hundruð manna til meðalgöngu. Húnbogi er að líkindum enn á lífi 1143, því að þá virðist Snorri son hans eigi enn vera farinn að búa á Skarði, nema Snorri hafi ekki verið vígður til prests fyr en hann hafði setið að búi á Skarði nokkra hríð, — því að Snorra Húnbogasonar getur ekki í prestatali Ara fróða 1143. Ætt Húnboga sýnist vera rakin nokkuð í Sturlungu[2] I, 6, og væri það rétt, sem þar segir um ætt Húnboga, ætti hann að vera sonur Þorgils Oddasonar — móðir Þorgils Oddasonar var Hallbera Aradóttir af Reykjanesi og Guðrúnar Ljótsdóttur, Hallssonar af Síðu (Sturl.[2] I, 8, 40; Íslendingasögur (1843) I, 361; sbr. Viðauka Þórðarsögu hreðu), — en það nær engri átt, því að þeir Þorgils Oddason og Húnbogi eru nær jafngamlir, þó mun Þorgils Oddason varla vera fæddur fyr en

um 1075—1080; er hann því að líkindum hér um bil 5—10 árum yngri en Húnbogi, sem eg ætla að muni fæddur um 1070.

Sumir hafa skilið ættfærslu Húnboga í Sturlungu á þá leið, að Hallbera, sem þar er talin »móðir Þorgils, föður Húnboga«, hafi verið dóttir Ljóts Hallssonar af Síðu og systir Guðrúnar, er fyrr var getið; væri þeir þá þrímenningar, Húnbogi og Þorgils Oddason:

Ljótur { Hallbera — Þorgils — Húnbogi.
Ljótur { Guðrún — Hallbera — Þorgils Oddason.

Þó að þetta gæti staðizt tímans vegna, þá er eigi líklegt að þessi tilgáta sé rétt, því að ættartalan í Sturlungu, á fyrnefndum stað, frá Ljóti Hallssyni, ber þess ljós merki, að þar er verið að rekja ætt Þorgils Oddasonar, og frænda hans frá Ljóti, enda er þess ekki getið í Þórðarsögu hreðu, — þar sem ættin er rakin á sama hátt og í Sturlungu frá Ljóti til Þorgils Oddasonar, — að Ljótur ætti aðra dóttur en Guðrúnu konu Ara Þorgilssonar (Þórðarsaga (1900) 78. bls.; sbr. Sturl.[2] II, 501). Hér mun því án efa eitthvað vera fallið úr ættartölunni í Sturlungu, þar sem söguritarinn hefur verið að rekja ætt Húnboga. Hefur Eggert Briem bent á að svo muni vera (Safn III, 516—517; Arkiv för nordisk filologi VIII, 326), og ætlar hann helzt, að faðir Húnboga sé sá Þorgils Hafliðason, sem talinn er faðir Bersa föður Dálks prests (d. 1228), föður Halldórs prests, þess er var í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd 1257 (Sturl.[2] I, 6, II, 241—242; Annálar[2] IV, IX). En þegar tímatalið er athugað, og aldur þeirra Saurbæinga, sézt að Halldór prestur Dálksson mun varla fæddur fyrir 1200[1]), Dálkur prestur faðir hans er því í fyrsta lagi fæddur um 1160, Bersi faðir Dálks um 1120, en Dálkur Hafliðason (faðir Bersa),—sem eptir tilgátu Eggerts Briems, ætti að vera föðurbróðir Húnboga Þorgilssonar, — er þá naumast fæddur fyr en um 1080, í fyrsta lagi. Verður Dálkur eptir því aðminnsta kosti 10 árum yngri en Húnbogi. Er því varla líklegt aðHúnbogi geti verið bróðursonur Dálks[2]), en hins vegar er eigi ólíklegt, að ættir þeirra Húnboga og Þorgils Hafliðasonar, hafi verið taldar saman á einhvern hátt, í fyrgreindri ættartölu (Sturl.[2] I, 6), og væri þá helzt ætlanda, að Þorgils Hafliðason hefði verið talinn

---

1) Halldór prestur giptir Eirnýju dóttur sína 1257, Ásbirni Illugasyni; hún er því varla fædd fyrir 1230 (Sturl.[2] II, 241—242). — Þorsteinn son Halldórs er þá hjá föður sínum, og virðist þá enn vera ókvæntur.

2) Þennan mikla aldursmun þeirra Dálks og Húnboga, sýnist Eggert Briem eigi hafa athugað nógu nákvæmlega, né heldur Dr. Björn M. Ólsen, þar sem hann fellst á skoðun E. um þetta (Safn III, 206, athgr. 1).

bróðursonur Húnboga á Skarði, en slíkt er aðeins óviss gáta. Annars gæti manni komið í hug, að þeir Húnbogi og Örnólfur Þorgilsson á Kvennabrekku, sem fyr var getið, hefði verið bræður, en þegar betur er að gætt, er eigi líklegt, að Sturlunga léti þess ógetið, þar sem þeir Húnbogi og Örnólfur eru báðir nefndir nær á sama stað, þegar þeir fyrst koma til sögunnar (Sturl.[2] I, 8; sbr. Sturl.[2] I 27).

Það er mjög merkilegt, sem Sturlunga skýrir frá, viðvíkjandi mannaforræði Skarðverja, þar sem það er tekið fram, að »Þorgils prestur son Snorra lög[sögu]manns [Húnbogasonar], fékk Þórði Sturlusyni *Þórsnesingagoðorð* hálft, en hálft hafði átt Ari hinn sterki« (Sturl.[2] I. 200). Þetta sýnist benda tvímælalaust til þess, að þeir Skarðverjar hafi verið nákomnir í ætt Ara fróða og þeim Þórsnesingum, því að ekkert er sennilegra, en að þetta *helmingaskipti Þórsnesingagoðorðs* hafi einmitt fyrst átt sér stað á meðal bræðra tveggja í ætt Þórsnesinga. Það er kunnugt, að þeir Þorkell Eyjólfsson og Gellir son hans áttu Þórsnesingagoðorð allt, á 11. öld. og bjuggu að Helgafelli. Gellir dó 1073; hann átti tvo sonu, Þorkel prest á Helgafelli, og Þorgils, sem Laxdælasaga segir, að drukknað hafi ungur á Breiðafirði. Mun Þorgils þessi hafa drukknað um 1070—c. 1072, litlu áður en Gellir faðir hans andaðist. Þó getur hann hafa drukknað nokkru síðar. Sonur Þorgils var Ari prestur hinn fróði (f. 1067, d. 1148). Það er enginn vafi á, að Ari fróði hefur fengið hálft Þórsnesingagoðorð að arfi eptir föður sinn, og mun Þorkell prestur föðurbróðir hans hafa farið með goðorðið, á meðan Ari var ungur. Þessi hluti goðorðsins er einmitt sá, er Ari sterki átti síðar og Þórður Sturluson eptir hann. Um hinn helming goðorðsins er allt óvissara, hvernig sá hluti þess hefur komizt í Skarðverja ætt. *En sennilegast þykir mér að Húnbogi Þorgilsson á Skarði hafi verið bróðir Ara fróða og sonur Þorgils Gellissonar, og að Húnbogi hafi þannig eignazt hálft Þórsnesingagoðorð til móts við Ara, að erfð eptir Þorgils Gellisson föður þeirra*[1]). Þess má geta, að Ari fróði var einmitt kominn af Síðumönnum í móðurætt sína og var Jóreiður móðir hans dóttur-dóttir Þorsteins Síðu-Hallssonar (Landn.[4] 262; [6]98, 211; sbr. Hauksbók 98; Fornmannasögur II, 191). Þetta bendir á,

---

1) Þorkell Gellisson mun hafa sleppt sínum helmingi Þórsnesingagoðorðs við bróður sinn og síðan hefur hann fengið goðorðið allt í hendur bróðursonum sínum, því að Þorkell var prestur að vígslu, og þótt þess finnist mörg dæmi, að höfðingjar héldi goðorðum sínum eptir að þeir tóku prestsvígslu, þá munu þeir optast hafa sleppt þeim, ef frændur þeirra jafnbornir voru til viðtöku.

að Sturlunga ([2] I, 6) kynni upphaflega að hafa rakið ætt Húnboga saman við Síðumenn, á þennan hátt, þótt það sé nú úr fallið, enda finnst nú eigi getið ætternis Ara fróða frá Þorsteini Hallssyni á meðal ætta þeirra, sem Sturlunga rekur frá Síðu-Halli á tilvitnuðum stað. Var þó eigi síður ástæða til að geta þeirrar ættkvíslar Halls, en sumra annara, sem þar er getið, jafnvel þótt þær komi eigi við Skarðverjum eða Reyknesingum nema að því er snertir frændsemi þeirra frá Síðu-Halli. Má einkum benda á ættkvísl Jóns biskups helga, Sæmundar fróða, Halls prests í Haukadal og Magnúsar biskups Einarssonar, sem allar eru taldar frá Halli, á greindum stað í Sturlungu, eins og í Landnámabók og Fornmannasögum, sem líka telja ætt Ara frá Halli. Þó að ekki sé nú unnt að fullyrða neitt um það, hvað fallið hefur úr ættartölu Húnboga á Skarði, í Sturlungasögu ([2] I, 6[8]), mætti geta til að þar hefði verið rakin ætt Húnboga og Ara fróða, frá Síðu-Halli, á þessa leið: . . . . »Ok Hallberu, móður Þorgils föður« [H a l l b e r u, m ó ð u r H a l l s, f ö ð u r J ó r e i ð a r, m ó ð u r H e l g u, e r á t t i S t u r l a Þ ó r ð a r s o n l ö g m a ð u r. Þ o r s t e i n n H a l l s s o n (Síðu-Halls) v a r f a ð i r G u ð r í ð a r, m ó ð u r J ó r e i ð a r, m ó ð u r A r a p r e s t s, i n s f r ó ð a ok] »Húnboga, föður Snorra, föður Narfa, föður Skarðs-Snorra«. En hvernig sem þetta er, sýnist efalaust, að Húnbogi sé af ætt Þórsnesinga, sem hér hefur verið bent á, og að það sé rangt, sem nokkrir ættfræðingar á fyrri hluta 19. aldar hafa getið til um faðerni Húnboga, að hann hafi verið sonarson Húnboga Álfssonar í Dölum (Íslenzkar Ártíðaskrár, ættskrá II; sbr. ættatölur Jóns Espólíns, Ólafs Snókdalins, o. fl.). Álfur í Dölum lifir um miðja 10. öld (d. um 970—c. 980). Synir hans, Húnbogi hinn sterki og Sveinn, koma við Laxdælasögu um 1010, og hljóta þá að vera heldur rosknir að aldri, varla yngri en um fimmtugs aldur. Það fær því varla með neinu móti staðizt, að Þorgils faðir Húnboga á Skarði, sem er fæddur um 1070, hafi verið sonur Húnboga sterka. En hafi þeir verið albræður, Ari fróði og Húnbogi á Skarði, gat Jóreiður móðir þeirra verið komin af Húnboga sterka eða Þorgilsi Höllusyni, i föðurætt sína. En um giptingu Guðríðar móður Jóreiðar er ekkert kunnugt. Aðeins er það víst, að Jóreiður átti systur, er Rannveig hét (Landn. [4] 243); dóttir Rannveigar hét Salgerður og hefur hún verið kona Snorra Halldórssonar, Snorrasonar goða. Þannig sýnist líklegt, að Guðríður Þorsteinsdóttir, Síðu-Hallssonar, móðir þeirra Jóreiðar og Rannveigar, hafi gipzt vestra, er báðar dætur hennar urðu þar íendar. Mætti geta til, að Skarð á Skarðsströnd hafi verið eign föður þeirra systra og að Húnbogi hafi þannig fengið jörð þessa að erfðum frá móðurfrændum sínum. Þó er það hér við athuganda, að Ingveldur Hauksdóttir, kona Húnboga á

Skarði, var kynjuð úr Dalasýslu, og komin af Hjarðhyltingum (Sturl.[2] I, 6, 41), — þannig, að Þorgerður móðir Ingveldar Hauksdóttur, var dóttir Ingveldar, dóttur Vermundar hins mjóva og Þorbjargar dóttur Ólafs páa úr Hjarðarholti. En um föður Þorgerðar móður Ingveldar Hauksdóttur er ekkert kunnugt af Sturlungu, og gæti hann verið af ætt Geirmundar heljarskinns, er fyrstur bjó að Skarði á Skarðsströnd (Landn.[4] 123—125; Sturl.[2] I, 5). Eptir andlát Geirmundar vitum vér ekkert um eigendur Skarðs, eða búendur þar, fyr en um 1100, að Húnbogi Þorgilsson býr þar. En líklegt er, að einhver af niðjum Geirmundar heljarskinns hafi búið á Skarði eptir dauða Geirmundar, þó að sagnarit geti þess ekki.

Börn Geirmundar eru talin: Ýr, Arndís, Geirríður og Gunnhildur. Um giptingu þeirra Geirríðar og Gunnhildar vitum vér ekki, og engar ættir eru taldar frá þeim, svo að kunnugt sé.

Arndís Geirmundardóttir er talin kona Hyrnings Ólafssonar, dóttursonar Steinúlfs hins lága í Fagradal (Sturl.[2] I. 5). Dóttir þeirra Hyrnings er talin Friðgerður, móðir Sneris Þóroddssonar, föður Odda, föður Þorgils Oddasonar (d. 1151). Þorgils Oddason er því fimmti knérunnur í ætt frá Geirmundi heljarskinni (Sturl.[2] I, 5, 7—8).

Ýr Geirmundardóttir var gipt Katli gufu Örlygssyni; þeirra synir voru þeir Oddi, Þórhallur og Váli.

Oddi Ýrarson (Ketilsson) átti Þorlaugu gyðju, dóttur Hrólfs Kjallakssonar á Ballará (Landn.[4] 64, 135;[6] 17, 43, 142, 167); hefur Oddi fengið Ballará með Þorlaugu og er eigi ólíklegt, að hann hafi búið þar, eptir dauða Hrólfs Kjallakssonar, sem sagt er að lengi hafi búið að Ballará, — nema Oddi hafi búið að Skarði. Börn þeirra Odda og Þorlaugar eru talin: Þórhallur, Þorbjörn, Hallveig.

Þórhallur goði Oddason átti Bergþóru dóttur Ólafs páa (Egilss.[3] 283, Laxdælasaga[3] 105. bls., sbr. athugagr. 12). Kjartan hét son þeirra, faðir Smið-Sturlu, fóstra Þórðar Gilssonar.

Þorbjörn Oddason (Landn.[4] 125, 348: [6] 239), — hann telst ranglega son Þórhalls Ketilssonar, bróður Odda, hjá Eggert Briem, í Safni III, 514—515. sbr. sst. 560. — Þorbjörn Oddason er í Melabók hinni eldri (Landn. á tilv. stað) talinn »faðir Þorgerðar, móður Odda, föður Þorgils« o. s. frv. — Þessi ættfærsla getur eigi staðizt, því að hún kemur í bága við Sturlungu, sem telur móður Odda (Snerissonar), föður Þorgils, Álöfu dóttur Bitru-Odda, Þorbjarnarsonar (Sturl.[2] I, 8). Sturlunga hefur hér án efa réttara fyrir sér en Melabók. Er því ættartalan frá Þorbirni Oddasyni til Þorgils Oddasonar, eitthvað úr lagi færð í Melabók. Hlýt-

ur að vanta þar liði í ættina á milli þeirra Odda Snerissonar og Þorbjarnar, sem Melabók telur »föður Þorgerðar móður Odda«. Eggert Briem hefur tekið báðar ættfærslurnar, Melabókar og Sturlungu, upp í **„Ættir í Sturlungu“** (Safn III, 514—515 og 523—524; sbr. sst. 560, 562), án þess að greiða úr þeirri missögn, sem á sér stað um ætt þessa í Melabók, — sem þó var nær óhjákvæmilegt til þess að móðurætt Odda Snerissonar yrði fullljós. Eg skal nú í fám orðum reyna að sýna fram á, hvernig á þessari missögn Melabókar stendur, að því er snertir móðurætt Odda Snerissonar. Eins og fyr er sagt, telur Sturlunga þannig frá Geirmundi niður til Odda Snerissonar: (Geirmundur) — Arndís — Friðgerður — Snerir — Oddi. Hér verða þrír ættliðir á milli þeirra Geirmundar og Odda (Sturl. [2] I, 5). Eg skal þegar taka það fram, að ættliðir þessir sýnast heldur fáir, í samanburði við tímann.

Þorgils Oddason er naumast fæddur fyr en um 1075. — Oddi faðir hans er því varla fæddur löngu fyrir 1040. Snerir faðir Odda ætti því að vera fæddur um 1000—c.1010. Friðgerður móðir hans fædd um 970—80. Arndís móðir Friðgerðar er því eigi fædd fyr en um 930. Reyndar getur þetta staðizt, því að Geirmundur heljarskinn var tvíkvæntur, og Arndís hlýtur að hafa verið síðari konu barn hans; og gamall hefur Geirmundur verið, er hann kvæntist Þorkötlu Ófeigsdóttur. Ýr Geirmundardóttir hefur verið miklu eldri en Arndís, enda var hún dóttir Herríðar fyrri konu Geirmundar. Ýr hefur þó varla gipzt Katli gufu fyr en hann hafði tekið sér bólstað á Íslandi, en það verður um 953 (Egilssaga [3] 280—282; Landn. [4] 132—134). Sýnist Geirmundur þá vera enn á lífi, eptir því sem orð Landnámu skýra frá, að hann »vísaði Katli til landa«. En slíkt er varla sennilegt, vegna aldurs Geirmundar, nema Ketill hafi komið út um 930, sem er »síð landnámstíðar« og það er líklegra (Landn. [4] 133), því að Geirmundur var svo gamall, er hann kom til Íslands (um 900) að varla er líklegt að hann hafi lifað lengi fram yfir 930. — Synir Ketils gufu og Ýrar, munu þannig vera fæddir á árunum c. 930—c.940; eru þeir þá litlu yngri en Arndís Geirmundardóttir móðursystir þeirra. Þorbjörn Oddason, Ketilssonar (og Ýrar) verður því hérumbil jafnhliða börnum Arndísar (f. c. 970), enda er Þórhallur goði bróðir hans kvæntur dótur Ólafs páa í Hjarðarholti, systur Kjartans Ólafssonar (d. 1003). En Hallveigu systur þeirra, Oddadóttur, átti Jörundur son Þorgils Kollssonar og var þeirra son Snorri föðurfaðir Þórðar Gilssonar á Staðarfelli. Þeir Þorgils Oddason og Þórður Gilsson hafa því verið að 5. og 6. frá Geirmundi:

Geirmundur { Ýr — Oddi — Hallveig — Snorri — Gils — Þórður.
Geirmundur { Arndís — Friðgerður — Snerir — Oddi — Þorgils,

Bæði Hauksbók og Sturlubók Landnámu telja Bitru-Odda son Þorvalds örgoða (Landn.[4] 159; [6]52, 176), en Sturlunga telur hann Þorbjarnarson, og segir móður hans Ingveldi dóttur Álfs í Dölum, er Þorvaldur örgoði hafði (áður) átta, og er það án efa hið rétta (Sturl.[2] I, 8; sbr. Safn III, 523—524, 562; Arkiv för nord. filologi VIII, 327). Ætt Þorbjarnar föður Bitru-Odda, hefur hér til verið ókunn, og eg veit ekki til, að neinn hafi reynt til að grennslast eptir henni. — Mér sýnist auðsætt, að hann sé hinn sami og Þorbjörn Oddason, Ketilssonar gufu sem Melabók telur forföður Þorgils Oddasonar, en telur ættir þeirra rangt saman, eins og hér hefur verið sýnt. Þorbjörn Oddason hefur því átt Ingveldi dóttur Álfs úr Dölum, síðar en Þorvaldur örgoði, og mun Bitru-Oddi sonur þeirra heitinn eptir Odda (»Ýrarsyni«) Ketilssyni, föðurföður sínum. Þetta kemur mjög vel heim við aldur Bitru-Odda (Þorbjörn Oddason f. c. 970 — Bitru-Oddi f. c. 995—1000). Ættartalan í Melabók frá Odda Ýrarsyni til Þorgils Oddasonar (Landn.[6] 239), ætti því að leiðréttast á þessa leið:

»Ýrr móðir Odda, föður Þorbjarnar, föður [Bitru-Odda, föður Álöfar] móður Odda, föður Þorgils«, o. s. frv. — Þannig verða þau að 3. og 5. frá Geirmundi heljarskinni, Snerir Þóroddsson og Álöf kona hans:

Geirmundur { Arndís — Friðgerður — Snerir.<br>Ýr — Oddi — Þorbjörn — Oddi — Álöf.

Konu Bitru-Odda er hvergi getið, svo að kunnugt sé, en eigi er ólíklegt, að hann hafi átt Ingveldi dóttur Vermundar hins mjóva og Þorbjargar Ólafsdóttur páa úr Hjarðarholti. Mætti þannig ætla, að Þorgerður, sú er Melabók telur dóttur Þorbjarnar Oddasonar og móður Odda Snerissonar, hafi verið dóttir Bitru-Odda Þorbjarnarsonar (og Ingveldar), og að hún sé sama kona og Þorgerður dóttir Ingveldar Vermundardóttur, en móðir Ingveldar Hauksdóttur, Ketilssonar, konu Húnboga Þorgilssonar (Sturl.[2] I, 6, 41). Væri þá Ingveldur Hauksdóttir kona Húnboga þannig komin í 6. ættlið frá Geirmundi heljarskinni: (Geirmundur) — 1. Ýr. — 2. Oddi. — 3. Þorbjörn. — 4. Bitru-Oddi. — 5. Þorgerður. — 6. Ingveldur kona Húnboga Þorgilssonar. Þannig eru einmitt mestar líkur til, að Skarð á Skarðsströnd hafi gengið að erfðum í ætt Geirmundar, til þess er Húnbogi hefur fengið þá jörð með tengd við ættmenn þeirra Odda Ýrarsonar og Bitru-Odda. Margt bendir á, að frændsemi og vinátta mikil hafi átt sér stað að fornu með Skarðverjum og Staðarhólsmönnum. — Má til dæmis geta þess, að Oddi Þorgilssón settist í búið á Skarði 1148, og mun hann hafa gert það með samþykki Snorra Húnbogasonar (Sturl.[2] I. 42). — Enda hafa þeir Þorgils Oddason og Snorri Hún-

bogason verið þrímenningar, eptir því sem hér hefur verið talið, frá Bitru-Odda:

Bitru-Oddi { Álöf — Oddi — Þorgils.
Þorgerður — Ingveldur — Snorri.

Ástæðan til þess, að eg hefi farið svo ítarlega út í þetta mál, er sú, að Skarðverjaættin er einhver hin merkasta og fjölmennasta ætt á Íslandi frá því um 1100, allt til 1600. Og hún er ein af þeim fáu ættum, sem telja má í karlkvísl frá landnámstíð, allt til núlifandi manna. Af ætt þessari voru og allir helztu valdamenn í Dalasýslu um langan tíma, svo að öldum skipti, eptir að Ísland kom undir konung. Mér þótti því hlýða að skýra hér frá upphafi ættar þessarar, einkum þegar þess er gætt, að hún var áður mjög lítt kunn, og þó rangt rakin — svo að menn töldu karlkvísl Húnboga á Skarði ranglega í beinni línu til Dala-Álfs, en þekktu eigi skyldleika hans og Ara fróða, sem nú reynist óyggjandi, og er það mjög merkilegt söguatriði, að því er snertir ætt Skarðverja, einkum þegar þess er gætt, að niðjar Skarðs-Snorra virðast hafa átt allmikinn þátt í söguritun Íslands á 13. öld.

Eptir Húnboga Þorgilsson, bjó á Skarði Snorri Húnbogason; hans getur fyrst 1148 (Sturl. [2] I, 43). Snorri var lögsögumaður 1156—1170 (Safn II, 3, 25). Hann var prestur að vígslu, og andaðist 1170 (Annálar). Snorri var einmitt uppi á því tímabili, er mestar deilur voru milli þeirra Einars Þorgilssonar og Sturlu í Hvammi, en hvergi finnst þess getið, að Snorri komi við málaferli þeirra. Sýnir þetta, að Snorri hefur verið spakur maður og óhlutdeilinn, svo sem niðjar hans voru. Snorri átti Ingveldi dóttur Atla Tannasonar. Synir þeirra voru þeir Þorgils og Narfi, prestar. Ennfremur sýnist vera sonur Snorra Húnbogasonar — Álfur Snorrason, er bjó að Ballárá sumarið 1171. Til hans fór þá Snorri son Þórðar Gilssonar, bróðir Hvamms-Sturlu, er missætti þeirra Einars Þorgilssonar og Sturlu var sem mest (Sturl. [2] I, 63). Þorgils prestur Snorrason, Húnbogasonar, bjó að Skarði eptir föður sinn, ásamt Narfa bróður sínum; hann er fulltíða 1170 (Sturl. [2] I, 56). 1185 er þess getið, að þeir Narfi og Þorgils Snorrasynir búi að Skarði, og veita þeir þá lið vegöndum Einars Þorgilssonar, til þess að þeir kæmist í Hvamm til Ara sterka og Guðnýjar eptir víg Einars, (Sturl. [2] I, 196). Þetta bendir á frændsemi þeirra við Ara og vináttu við Hvammverja, en hins vegar sýnir það, að þeir bræður hafa verið litlir vinir Einars Þorgilssonar. Enda var Einar lítt vinsæll, og eigi svo sem verið hafði Þorgils Oddason faðir hans. Um 1197 var það, að Þorgils prestur Snorrason fékk Þórði Sturlusyni hálft Þórsnesingagoðorð (Sturl. [2] I, 200). Þorgils prestur andaðist 1201 (Konungsannáll). — Sonur Þorgils prests Snorrasonar

mun vera Haukur Þorgilsson prestur í Haga á Barðaströnd, er kvæntist þar 1212, Oddnýju dóttur Steinólfs prests Ljótssonar (Hrafnssaga 17. k., Bisk.s. I, 669; Sturl.[2] II, 304). Sumarið 1234 sendir Haukur prestur njósn Þórði Sturlusyni á Eyri í Álptafjörð, af ferðum Órækju Snorrasonar og fóru þeir með njósnina, Ólafur og Páll, synir Hauks prests (Sturl.[2] I, 329). Vorið eptir, 1235, tók Órækja Hagaland af Hauki presti. Fór þá Haukur prestur á Eyri í Álptafjörð, til Þórðar Sturlusonar, með börn sín, Ólaf, Pál, Odd og Halldóru. En þeir Þorgils og Steinólfur synir Hauks, fóru þá í Tjaldanes og Búðardal (Sturl.[2] I, 337). Haukur prestur andaðist 1245 (Annálar). Um niðja hans vitum vér lítið. Þorgils son hans bjó á Setbergi 1284 (Bisk.s. I, 734). Er ekki ólíklegt, að Gunnar Hauksson, er bjó að Ingjaldshóli 1317, kynni að vera af þessari ætt (ÍF. II, 410). Narfi Snorrason, Húnbogasonar, bjó á Skarði eptir föður sinn, og var prestur; hans er getið í Sturlungu 1170 og þar eptir (Sturl.[2] I, 56, 196). Þeir bræður voru vinir miklir Sturlu í Hvammi og veittu honum framar að málum en Einari Þorgilssyni; en þó koma þeir heldur sjaldan við deilur þeirra Einars og Sturlu. Narfi prestur Snorrason dó 1202 (Konungsannáll, Bisk.s. 481). Hann átti Guðrúnu dóttur Þórðar Oddleifssonar, Þórðarsonar krákunefs. Móðir Guðrúnar var Halldóra, dóttir Jóns eldra á Svínafelli, Sigmundarsonar, Þorgilssonar (Sturl.[2] I, 6, 192). Börn þeirra Narfa prests og Guðrúnar, voru: Skarðs-Snorri, Þórður, Ingveldur, Guðríður, Hallgerður. En launbörn Narfa prests voru þau Þorbjörn og Halldís (Sturl.[2] I, 6).

**Snorri Narfason** prestur, — kallaður Skarðs-Snorri, eða Snorri Skarðsprestur, — Mun fæddur nálægt 1180, en fyrst kemur hann við sögur sumarið 1223 (Sturl.[2] I, 263); var hann þá vottur að vináttuheitum þeirra Sturlu Sighvatssonar og Þorvalds Vatnsfirðings. — 1234 sættir Snorri prestur þá Búðdæli og sonu Þórðar Sturlusonar (Sturl.[2] I, 329). — Vorið 1235 er Snorra prests enn getið við málaferli Búðdæla, og Þórðarsona Ólafs og Sturlu (Sturl.[2] I, 334), sama vor fór Snorri prestur til móts við Þórð Sturluson í Fagurey, er Þórður ætlaði til liðs við Sighvat bróður sinn (Sturl.[2] I, 335). Þess er getið, að Skíði Þorkelsson á Kvennahóli væri mikill vin Skarðs-Snorra, og hefði það af eigu hans, er hann vildi til mæla (Sturl.[2] I, 336). — Sumarið 1235 er þess enn getið, að Snorri prestur Narfason var einn af þeim, er fóru norður til Sighvats Sturlusonar með sættaboð Órækju Snorrasonar (Sturl.[2] I, 338). — Um þessar mundir voru þeir orðnir fulltíða, synir Skarðs-Snorra, Bárður og Sigmundur, og er þeirra getið í för með Sturlu Sighvatssyni norður um land, haustið 1238 og voru þeir bræður með Sturlu í Örlygsstaðabardaga, fyrir Meðalfellsstrendingum (Sturl.[2]

I, 368, 374, 380). Þetta bendir á, að faðir þeirra hefur haft þar mannaforráð nokkur. — 1241 fær Snorri prestur Narfason Sturlu Þórðarsyni mági sínum landið á Reykjahólum til umráða, en Sturla fékk það Órækju Snorrasyni (Sturl.[2] I, 391). — 1242 fer Sturla Þórðarson út til Skarðs, með sendimönnum Kolbeins unga, að treysta vináttu Snorra prests á Skarði og vina hans, Strenda- og Saurbæinga til handa Kolbeini (Sturl.[2] I, 409). — 1243 fékk Snorri prestur Tuma Sighvatssyni bú það, er hann átti á Reykjahólum, og höfðu áður varðveitt það synir Snorra, Bárður og Sigmundur. Segir Sturlunga, að Snorri prestur væri »manna auðugastur á Vestfjörðum og göfugur að ætt« (Sturl.[2] II, 36); »hann hafði verið alla æfi mesti ástvin Sighvats og Sturlu«.

Skarðs-Snorra er síðast getið, að hann er einn af gerðarmönnum af hendi þeirra Sturlu Þórðarsonar og Þorgils skarða, er þeir sættust við Hrafn Oddsson; var fundur þeirra í Bjarnardal haustið 1257; er Skarðs-Snorri þar talinn fyrstur gerðarmanna, og sýnir það að hann hefur þótt þeirra göfugastur (Sturl.[2] II, 240). — Snorri prestur andaðist 13. september 1260 (Helgafellsártíðaskrá, Ísl. Ártíðaskr. 87, 91, 107—108; Ísl. annálar). Kona Skarðs-Snorra prests hét Sæunn; hennar móðir hét Tófa, dóttir Snorra, Bárðarsonar hins svarta úr Selárdal, Atlasonar (Sturl.[2] I, 162. Þessir voru synir þeirra:

Narfi prestur, Bárður, Sigmundur, Bjarni, Guðmundur, Bergþór.

1. Narfi Snorrason var vígður krúnuvígslu ungur af Guðmundi biskupi, er síðan vígði hann til prests fyrir 1237 (Bisk.s. I, 596). Narfi prestur fékk Valgerðar dóttur Ketils prests á Kolbeinsstöðum í Hnappadal, lögsögumanns (d. 1273), Þorlákssonar, hún var systir Þorleifs hreims, Ketils, og Helgu móður Þorsteins ábóta á Helgafelli (d. 1351) Snorrasonar. Móðir Ketils barna var Halldóra Þorvaldsdóttir frá Hruna, alsystir Gizurar jarls. — Narfi prestur hlaut staðfestu á Kolbeinsstöðum, þá er tengdamenn hans höfðu haft og er hans getið þar 1253 (Sturl.[2] II, 145, 151). 1261 kom sá maður á Kolbeinsstaði, er Sveinn hét og kvaðst fara með bréfum Gizurar jarls, mágs Narfa prests, og skyldi Narfi prestur færa þau Sighvati Böðvarssyni, bróður Þorgils skarða, til Staðar á Snæfellsnes, en það kom upp síðar, að Hrafn Oddsson hafði sent bréf þessi, til höfuðs Sighvati, og heitaðist Sighvatur þá að ræna Narfa prest, en þó fórst það fyrir (Sturl.[2] II, 253). Narfi hefur verið mikilsháttar prestur; hann fékk til þess lof af erkibiskupi, að hann héldi vígslum sínum, þótt hann væri kvongaður, en þá hafði prestum öllum verið bannað að kvongast, en þeim er kvæntir voru boðið að skilja við konur sínar (Bisk.s. I, 597). Narfi prestur andaðist 1284 (Gottskálksann-

áll). Synir Narfa prests Snorrasonar og Valgerðar eru taldir: Þorlákur, Þórður og Snorri (Bisk.s. I, 596, 725 Landn.[4] 75; [6]22, Hauksbók). Auk þessara sýnist Narfi prestur hafa átt hinn fjórða, er Marteinn hét; hann hefur búið í Bjarnarhöfn í Helgafellssveit, og mun mega telja ættir frá honum (sjá Snæfellsnesssýslu). Frá öllum sonum Narfa prests eru fjölmennar ættir komnar, og má telja þær til núlifandi manna, jafnvel í beinan karllegg, sjá hér síðar. Flestar og fjölmennastar ættir eru þó frá Snorra Narfasyni, er komst síðar að Skarði, og bjó þar og niðjar hans (Skarðverjar) eptir hann.

2. Bárður Skarðs-Snorrason; honum er í registri við Biskupasögur, I. bindi, ruglað saman við Bárð frænda Guðmundar biskups, er bjó í Súðavík 1200 (Bisk.s. I, 462—463, 917). Bárður var vígður ungur, krúnuvígslu, af Guðmundi biskupi, en biskup kvað eigi mundi stoða að vígja hann lengra fram, »fyrir sakir óspektar sinnar«. Bárður prestur var mjög í herförum með Sturlungum, í Örlygstaðabardaga 1238 og víðar, en loks féll hann með Tuma yngra Sighvatssyni, á Reykjahólum 19. apríl 1244 (Ísl. Árt. 99; sbr. Sturlungu [2] II. 43—45; Bisk.s. I, 596).

Guðrún Bárðardóttir, sem nefnd er í Guðmundarsögu (Bisk.s. I, 597), mun án efa vera dóttir Bárðar prests Snorrasonar; hún sýnist hafa átt heima norður á Ströndum, og mætti geta til að hún hafi verið kona Einars Ásgrímssonar (sbr. Sýslum.æfir II, 253, hér að framan) og hefði þá Bárður sonur Einars heitið eptir Bárði Snorrasyni. Bárður Einarsson, Ásgrímssonar, andaðist 1272, og mun þá hafa verið eigi eldri en um 20 ára; hann gat því vel verið dóttursonur Bárðar Snorrasonar (f. c. 1205—10, d. 1244), enda mun svo vera, því að Sturla Þórðarson lögmaður kallar Bárð frænda Þórðar Narfasonar (Sturl.[2] II, 273), og verður það auðsætt á þennan hátt, hvernig frændsemi þeirra hefur verið háttað.

3. Sigmundur Snorrason frá Skarði, er orðinn fulltíða 1235 (Sturl.[2] I, 336). 1236 er Sigmundur í liði Sturlu Sighvatssonar (Sturl.[2] I, 343). 1238 fóru þeir Bárður og Sigmundur synir Skarðs-Snorra norður með Sturlu og voru fyrir Meðalfellsstrendingum í Örlygsstaðabardaga; voru þeir báðir særðir til örkumla og lágu um veturinn eptir á Silfrastöðum (Sturl.[2] I, 368, 380). 1243 er þess getið, að þeir bræður, Bárður og Sigmundur Snorrasynir voru fyrir búi því, er Skarðs-Snorri faðir þeirra átti á Reykjahólum, en síðan voru þeir heimamenn Tuma Sighvatssonar, er hann tók við búinu (Sturl.[2] II, 36), en síðar finnst Sigmundar ekki getið. — Það er ekki ósennilegt, að

Sæunn Sigmundardóttir, er Gottskálksannáll telur andaða 1337, hafi verið dóttir Sigmundar Snorrasonar frá Skarði, því að móðir Sigmundar, kona Skarðs-Snorra, hét Sæunn og var hún af ætt Seldæla og sjálfsagt Reykjahólamanna (Brands Bergþórssonar, eða Helga prests Skeljungssonar?) því að með henni hefur Skarðs-Snorri að líkindum fengið Reykjahóla. — Sæunnarnafnið er fágætt í öðrum ættum um þetta leyti.

4. Bjarni Snorrason, bjó á Skarði eptir föður sinn, og er hans getið þar 1263 (Sturl.[2] II, 268). Bjarna er og getið í landamerkjaskrá Dögurðarness (Ísl. Fornbr.s. VI. 3. bls.).
5. Guðmundur Snorrason; hans getur í fyrnefndri landamerkjaskrá, (Í. F. VI, 3.) og er hann án efa sonur Skarðs-Snorra, þótt Sturlunga nefni hann eigi.
6. Bergþórr Snorrason, er var á Reykjahólum með Tuma Sighvatssyni veturinn 1243—1244 (Sturl.[2] II, 37), mun og hafa verið sonur Skarðs-Snorra.

Frá systkinum Skarðs-Snorra munu nú naumast verða raktar ættir, nema frá Þórði Narfasyni (sjá hér síðar).

## II. Snorrungagoðorð.

Þess var áður getið, að Þórður Gilsson fékk Snorrungagoðorð eptir Ljót, son Mána Snorrasonar goða, er kallaður var Mána-Ljótur (Sturl.[2] I, 41). Eptir Þórð, tók Sturla son hans við goðorðinu og hélt það til dauðadags (d. 1183). Eptir andlát Sturlu tók fyrst við Snorrungagoðorði Sighvatur Sturluson (Sturl.[2] I, 200.) Síðar tók Sturla Sighvatsson goðorð þetta til kvonarmundar af föður sínum og urðu um það deilur allmiklar með Sturlungum, því að Snorri Sturluson hóf tilkall til goðorðsins 1224, en náði eigi. Þá tók Þórður Sturluson goðorðið til meðferðar 1227, á Þórsnessþingi, og þeir Jón murti Snorrason, að óleyfi Sturlu Sighvatssonar; því gerði Sturla Þórði föðurbróðum sínum heimsókn í Hvamm, um Jónsmessuskeið, sumarið 1227, og gerði þar óspektir nokkrar. Sumarið 1228 varð enn deila nokkur um Snorrungagoðorð, á alþingi, en eptir það fóru ýmsir Sturlungar með goðorðið, til þess er Sturla son Þórðar Sturlusonar fékk það af þeim Snorra Sturlusyni föðurbróður sínum, og Böðvari Þórðarsyni bróður sínum 1240 (Sturl.[2] I, 387). Eptir þetta hefur Sturla Þórðarson farið með Snorrungagoðorð, til þess er Ísland gekk undir konung, 1262, en með þeim atburði endar saga allra goðorða á Íslandi, þó að það væri eitt af aðalatriðum gamla sáttmála, að lögmenn og sýslumenn á Íslandi skyldi vera af ættum þeirra manna, er að fornu höfðu goðorðin upp gefið.

## III. Valdamenn í Dalasýslu

eptir að Ísland laut Noregskonungi, 1262, hafa eptir því sem næst verður komizt af annálum, bréfum, máldögum kirkna og öðrum skrám, verið þessir:

### Sturla Þórðarson

lögmaður, sem hér að framan hefur verið nefndur, sonur Þórðar bónda í Hvammi í Dölum (d. 1237), Hvamms-Sturlusonar (d. 1183), Þórðarsonar á Staðarfelli (d. um 1149), Gilssonar, af ætt Djúpfirðinga hinna fornu, að langfeðgum, en móðir Sturlu lögmanns hét Þóra og vita menn ekki ætt hennar; hún var frilla Þórðar Sturlusonar. — Sturla er fæddur á Ólafsmessudag 1214; hann kemur ungur við deilur frænda sinna á móti öðrum höfðingjum. 1238 var Sturla í Apavatnsför með Sturlu Sighvatssyni (Sturl. [2] I, 360—361); þá var hann og í Örlygsstaðabardaga með þeim feðgum Sighvati og Sturlu (Sturl. [2] I, 368, 372, 378), þág hann grið að Gizuri og Klængi Bjarnarsyni.

Haustið 1239 var Sturla Þórðarson mest fyrir liðveizlu við Solveigu Sæmundardóttur, ekkju Sturlu Sighvatssonar, þá er Snorri Sturluson deildi við hana um það er Sturla Sighvatsson hafði farið að Þorleifi Þórðarsyni og barizt við hann í Bæ í Borgarfirði 1237. Í þetta sinn var Sturla Þórðarson fyrir Saurbæingum og Strendum (Sturl. [2] I, 386). 1240 fær Solveig Sæmundsdóttir Sturlu Þórðarsyni í hendur búið á Sauðafelli, er hún fór utan; því fylgdu Bjarneyjar, Skáleyjar og Drangarekar. Þá fékk Sturla þriðjung Snorrungagoðorðs hjá Snorra Sturlusyni föðurbróður sínum, en Böðvar bróðir Sturlu hafði áður fengið honum sinn hluta, sem var fjórðungur goðorðsins (Sturl. [2] I, 387). Áður hafði Sturla búið á Eyri í Álptafirði eptir föður sinn (d. 1237). — Vorið 1241 fer Sturla að Staðarhóli (Sturl. [2] I, 387) og sama ár dæmir Órækja Snorrason Staðarhólsland af Sturlu, en þeir sættust litlu síðar á það, að Órækja handsalaði Sturlu Staðarhólsland aptur (Sturl. [2] I, 389, 391). Sturla hefur fengið Sælingsdalstungu með konu sinni, og fleiri stóreignir þar vestra. Hann hafði mest mannaforráð um Dali, á meðan Þórður kakali réð mestu á Íslandi. Sturla var og vinur mikill Þorgils skarða, en eptir andlát Þorgils, gerist Sturla maður Gizurar jarls, á alþingi 1259, ásamt Sighvati Böðvarssyni, og heitir Gizur þeim frændum liðveizlu til hefnda eptir Þorgils. Litlar efndir urðu á heiti þessu af hendi Gizurar, en þó komst Sturla í vinfengi við hann eptir, að Kálfur Brandsson frændi Gizurar hafði fengið Guðnýjar Sturludóttur, veturinn 1259; hét þá Gizur Sturlu Borgarfirði (Sturl. [2] II, 253, 258—259). Þessi skipan Gizurar jarls stóð þó ekki lengi, því að Hallvarður gullskór kom út með bréfum Hákonar

konungs, um sumarið 1261, og varð þá ljóst, að konungur hafði með bréfum þeim, skipað Hrafni Oddssyni völd um Borgarfjörð og tók þau þannig af Gizuri, er áður hafði fengið völd þau Sturlu Þórðarsyni.

Hrafn hafði áður búið um hríð að Sauðafelli, eptir brottför Sturlu Þórðarsonar þaðan, og hafði þá án efa nokkur mannaforráð um suðurdali og Miðdali, en þegar hér var komið bjó Hrafn í Stafaholti, og lengi síðan, en Vigfús Gunnsteinsson sat þá að Sauðafelli. — Sturlu Þórðarsyni fannst fátt um efndir Gizurar jarls á heitum við sig og má það einkum skilja af vísu þeirri, er Sturla kvað, eptir að hann frétti skipan konungs, þá er fyr var greind. Í vísu þessari talar Sturla um slægð jarls og kveður hann hafa vélað sig og rofið við sig fögur heit (Sturl. [2] II, 259). Vorið 1263 gerðist svo mikið sundurþykki með þeim Hrafni og Sturlu, að þeir Sturla, Snorri son hans og Eyrar-Snorri Pálsson, ætluðu að Hrafni í Stafaholt, því að þeim feðgum þótti Hrafn sitja yfir sæmdum sínum. Atför þessi varð þeim að engu gagni, því að Hrafni kom áður njósn af förinni og varð það þá sætt þeirra, að Sturla skyldi utan fara. Fór Sturla utan þegar um sumarið (1263) til Noregs, því að Gizur jarl, er Sturla hafði fundið á Eyrum suður, veitti þá Sturlu enga uppreisn gegn Hrafni. — Var Sturla nú lítt staddur, því að þeir Hrafn og Gizur höfðu eigi vel flutt mál hans við konung, í bréfum sínum. Þó kennir Sturla Hrafni það mest, að hann hafi afflutt sig í Noregi (Sturl. [2] II, 263—270).

Sturla var nú utan um hríð, og fékk virðingar miklar af Magnúsi konungi lagabæti, syni Hákonar gamla er þá var andaður. — Sturla var vitur maður, sagnamaður og lögfróður vel, hann var lögsögumaður 1251 (Annálar, Safn II, 31), — að líkindum í umboði Ólafs hvítaskálds bróður síns, sem bæði á undan og á eptir hafði lögsögu, en hann mun hafa verið í utanför sumarið 1251, og hefur þá fengið Sturlu lögsöguna í fjarveru sinni. Þetta lögsagnarumboð hefur meðal annars stutt að því, að Magnús konungur valdi Sturlu til þess að fara til Íslands með lögbók þá, er síðan er kölluð Járnsíða, sumarið 1271, og skipaði hann þá Sturlu lögmann yfir allt Ísland. Tók Sturla lögsöguna að sér á alþingi sumarið 1272 og sýnast þeir Hrafn Oddsson þá hafa verið sáttir að fullu, því að þeir fylgdu báðir fram máli konungs á alþingi 1273, að Járnsíða væri í lög tekin (sbr. Konungsannál, o. fl.). Þegar Sturla kom aptur til Íslands, tók hann við búi Skeggja bónda í Fagradal, haustið 1271; en vorið eptir (1272), fór hann búi til Staðarhóls. Síðar fór hann í Fagurey og bjó þar hin efstu ár æfi sinnar. Hann hafði lögsögu um allt land til 1276. — 1277 fór hann utan og var þá gerður riddari (herraður) af Magnúsi konungi, — og kom út apt-

ur til Íslands 1278; þá hafði hann lögsögu um hálft land, til 1282. Frá 1271 hefur Sturla án efa haft mest völd í Dalasýslu, þótt goðorð þeirra frænda væri nú fallið undir vald Noregskonungs, — því að enginn var þá slíkur höfðingi í því héraði, sem Sturla var. Má því heita, að með fráfalli hans lúki nær með öllu hinu forna ríki og virðingu Sturlungaættarinnar, því að Sturla er hinn síðasti þeirra langfeðga, er hefur goðorð til umráða og hinn síðasti af Sturlungum í karllegg, sem hefur umboð yfir löggjöf alls Íslands, svo að vér vitum, eptir að landið laut erlendu konungsvaldi. Sturla andaðist í Fagurey á Ólafsmessu (30. júlí) 1284 (sbr. Sturl.[2] II, 273—274; Safn til sögu Íslands I, 503—639; II, 31, 39—42, og víðar). Sturla var kværtur Helgu, dóttur Þórðar er búið hafði í Sælingsdalstungu, en Þórður var bróðir Skarðs-Snorra prests, Narfasonar (sjá hér að framan). — Móðir Helgu var Jóreiður Hallsdóttir prests (d. 1228), Gunnsteinssonar af Einarsstöðum í Reykjadal (1160), Þórissonar; þá ætt hefi eg rakið í Fornbréfasafni V, 822—823. bls., og sýnt þar samband Einarsstaðaættarinnar á 12. öld, við Ljósvetninga hina fornu, eptir því sem ýms söguleg atvik benda til. — Börn þeirra Sturlu lögmanns og Helgu voru þessi:

1. Snorri á Staðarhóli, sjá hér síðar.
2. Þórður, er gerðist hirðprestur Magnúsar konungs lagabætis. Þórður andaðist 1283 og mun ekki hafa kvænzt eða átt börn.
3. Ingibjörg Sturludóttir, giftist fyrst Halli syni Gizurar jarls; hann dó á Flugumýri 1253, og hafa þau eigi átt afkomendur. — Síðar 9. nóv. 1259, giptist Ingibjörg Þórði syni Þorvarðar í Saurbæ í Eyjafirði, Þórðarsonar. Frá þeim mun mega rekja ættir til núlifandi manna, þótt nokkur óvissa sé á því[1]).
4. Guðný Sturludóttir; hún giptist veturinn 1259, Kálfi bónda á Hafsteinsstöðum, syni Brands Kolbeinssonar, frænda Gizurar jarls. Ekki þekkjum vér nú með vissu ættir frá þeim, en líklegt er, að Pétur lögmaður Halldórsson og Kálfur bróðir hans (um 1350), hafi verið niðjar Kálfs Brandssonar. Barðverjar í Skagafirði (um 1400) munu og vera af þessari ætt, þótt það verði ekki rakið að svo stöddu.

## Vigfús Gunnsteinsson,

sonur Gunnsteins bónda Hallssonar í Garpsdal (af ætt Ljósvetninga

---

1) Eg skal, í sambandi við þetta, benda á, að sonur Þórðar og Ingibjargar mun hafa verið Ólafur, faðir Sturlu Ólafssonar er drukknaði 13. apríl 1329 (Gottskálksannáll). Þar drukknaði og Ingibjörg Sturludóttir, sem án efa hefur verið dóttir Sturlu Ólafssonar. — Ólafur prestur Sturluson (d. 1370) mun vera sonur Sturlu Ólafssonar, en faðir Jóns illa, er bjó á Hólum í Eyjafirði á 14. öld.

og Þorgils Oddasonar) — og Ingveldar Narfadóttur systur Skarðs-Snorra (Sturl. [2] I, 6), bjó að Sauðafelli í Dölum, eptir Hrafn Oddsson og er eigi ólíklegt, að hann hafi um hríð haft nokkur völd í Dalasýslu, eptir að Ísland gekk undir konung, því að margt bendir til þess, að Vigfús hefur verið höfðingi og mikils ráðandi í héraði. Vigfúss er fyrst getið, svo eg finni, 1241, er hann þá í för með Órækju Snorrasyni, og sýnist þá hafa verið einn af helztu mönnum í liði Órækju; þar er hann þegar talinn einn af betri bóndum úr Fjörðum (= Vestfjörðum) (Sturl. [2] I. 394). 1242 sóru þeir Gunnsteinn bóndi Hallsson, Páll prestur bróðir hans og synir þeirra Vigfús (Gunnsteinsson) og Sámur (Pálsson) eiða Kolbeini unga Arnórssyni, ásamt fleiri Vestfirðingum (Sturl. [2] I, 408, II, 1). Vorið 1244 búa þeir feðgar Gunnsteinn og Vigfús í Garpsdal, og létu þeir Kolbeinn ungi þar allt í friði, er þeir fóru með ránum um Vestfjörðu; en hvergi annarsstaðar. Þetta sýnist benda til þess, að þeir feðgar hafi verið trúnaðarmenn Kolbeins, eptir að þeir sóru honum eiðana (1242) og að þeir hafi jafnvel sent honum leyndar njósnir af athöfnum Þórðar kakala þar vestra, þótt Sturlunga geti þess ekki beinlínis (Sturl. [2] II, 42). Litlu fyrir Flóabardaga, 1244, riðu þeir Sturla Þórðarson, Þorgils skarði Böðvarsson og Vigfús Gunnsteinsson, með nær tvö hundruð manna norður Haukadalsskarð og ætluðu að Brandi Kolbeinssyni, er þá sat í Miðfirði með flokk manna, en þegar til atfarar kom, kvaðst Vigfús aðeins vilja veita Sturlu til héraðsgæzlu, en eigi leita á sveitir annara manna með ófriði, og við þetta reið Vigfús á brott með sína menn og dreifðist þá allur safnaðurinn þeirra Sturlu (Sturl. [2] II, 52). Sumarið 1252 býr Vigfús enn í Garpsdal og er þess þá getið, að hann átti Guðnýju Sturludóttur, (Sighvatssonar); er Vigfús talinn einn þeirra, er verið höfðu vinir Þórðar kakala. Sýnist því líklegt, að Þórður hafi gipt Vigfúsi Guðnýju frændkonu sína. Þetta sumar ráða þeir atför að Gizuri jarli, Sturla Þórðarson, Hrafn Oddsson og Vigfús (Sturl. [2] II, 102). — Á þessu ári, fyrir jól um veturinn 1252, fór Vigfús með þeim Hrafni í Stafaholt, að Þorgilsi skarða (Sturl. [2] II, 131). — Sumarið 1253 bjó Vigfús á Breiðabólsstað á Reykjanesi, og fór þá að honum Einar Ásgrímsson, við 18. mann. Var Gunnsteinn Hallsson þá enn á lífi, og leitaði hann griða með þeim, svo að þeir sættust (Sturl. [2] II, 152—153). Haustið næsta eptir var Vigfús að boði Gizurar jarls í brullaupinu á Flugumýri (Sturl. [2] II, 157). Sumarið 1254 er Vigfús í atför að Gizuri með Eyjólfi Þorsteinssyni (Sturl. [2] II, 180), og litlu síðar (árið 1254) fer Vigfús norður, að Oddi Þórarinssyni, með þeim Eyjólfi og Hrafni, og er þá fyrir Króksfirðingum (Sturl. [2] II, 184—

186. — 1258 rænti Vigfús Gunnsteinsson Ólaf að Ánabrekku)[1]) um sumarið (Sturl.[2] II, 249; Ann.[2] IX). — Veturinn 1259 lætur Vigfús drepa þá Rögnvald Illugason og sonu hans tvo, Eyjólf og Vagn, með svikum, í fjöllunum upp frá Árnesi (Sturl.[2] II, 252), mun það hafa verið orsök til vígs þessa, að Eyjólfur var í atför að Vigfúsi, á Stað á Reykjanesi 1253, með Einari Ásgrímssyni (sbr. hér að framan). — 1261 er þess getið, að Vigfús býr á Sauðafelli og hafði hann þá sæzt við Sighvat Böðvarsson bróður Þorgils skarða, en Sighvatur mun hafa gefið Vigfúsi að sök atförina í Stafaholt, að Þorgilsi (1252). Þennan vetur fóru vináttumál á meðal þeirra Þorvarðar Þórarinssonar og Vigfúss, og því var Vigfús lengi um veturinn að Keldum með Þorvarði, en bar síðan sættaboð á milli Þorvarðar og þeirra Sturlu Þórðarsonar og Sighvats Böðvarssonar, og flutti Vigfús það »með mikilli kunnáttu«, enda var þá gert um mál þeirra, og víg Þorgils skarða, á alþingi næsta eptir (1262), og var Vigfús í gerð þeirri af hendi Þorvarðar (Sturl.[2] II, 253—255). Þetta sumar var Vigfús að skattaeiðum Íslendinga, við Hákon konung, og telzt hann þá meðal stórbænda á Vestfjörðum (Sturl.[2] II, 260; Fornm.s. X, 114; Flateyjarbók III, 215). það er því enginn efi á, að hann hefur haft mannaforráð í þennan tíma, hvort sem það hefur verið í Dala- eða Barðastrandarsýslu. — Vorið 1263 gerðu þeir ráð sín móti Hrafni Oddssyni, — Snorri son Sturlu Þórðarsonar, Eyrar-Snorri Pálsson og Vigfús Gunnsteinsson, og var fundur þeirra í Ljárskógum, og skyldi hver þeirra veita öðrum til atfarar við Hrafn, en þó dró Vigfús sig úr atför, er að því kom (Sturl.[2] II, 266), og litlu síðar sendi hann Hrafni njósn um för þeirra nafna. Þetta sýnir, að Vigfús hefur verið meiri vinur Hrafns en Sturlu Þórðarsonar, enda mun Hrafn mest hafa hafið Vigfús til valda þar vestra, og fengið honum Sauðafell, þar sem Hrafn bjó áður. Vigfúsar finnst eigi getið eptir þetta, og ekki þekkjum vér nú með vissu neina niðja Vigfúsar. Þó hafa án efa ættir frá honum komið, því að til þess benda nöfn nokkur, þau er finnast í Dalasýslu, samkvæmt bréfum og annálum, á 14. öld.

## Steinar Svertingsson

var sonur Svertings, er lengi bjó í Hvammi í Dölum, Þorleifssonar skeifu. Móðir Svertings, kona Þorleifs, var Þórríður Sturludóttir, hálfsystir þeirra Snorra í Reykjaholti (d. 1241), Sighvats og Þórðar. — Steinar var fulltíða að aldri 1241, því að þá sendir Svertingur hann með njósn af ferðum þeirra Lopts biskupssonar og félaga

---

1) „a Tannabrekku", stendur í Flateyjarannál, sem er rangt, fyrir: at Ánabrekku (þ. e. Ánabrekku á Mýrum).

hans, vestur á Staðarhól, til Sturlu Þórðarsonar (Sturl.[2] I, 393—394). Líklegt er að Steinar hafi tekið við búinu í Hvammi eptir andlát föður síns, og ef til vill hefur hann haft einhver völd í Dölum í umboði Sturlu lögmanns frænda síns, en bæði er óvíst um völd hans, og afkomendur. Er þó ekki ólíklegt, að Jón hvammur Sveinsson, er bjó í Hvammi (1308—d. 1355), hafi verið af þessari ætt, og þá helzt dóttursonur Steinars Svertingssonar.

**Þorbjörn Ingimundarson** í Búðardal (c. 1240—c. 1270) og bræður hans, Bárður og Steinólfur, voru frændur Skarðs-Snorra og er þeirra nokkrum sinnum getið í Sturlungu (sbr. og ÍF. II. 117. bls.; VI, 2. bls.). En þótt eg nefni þá hér, er mér ekki kunnugt um völd þeirra. Hitt er víst, að þeir voru auðugir og miklir fyrir sér, því að þeir koma allmikið við deilur höfðingja á Sturlungaöldinni.

## Hrafn Oddsson

bjó að Sauðafelli í Dölum um hríð, eptir 1241; hann var kvæntur Þuríði dóttur Sturlu Sighvatssonar (d. 1238), og mun hafa fengið þannig hlut í mannaforráðum þeim, er Sturla hafði átt um Dali. Hrafn var höfðingi, auðugur og mikils ráðandi, sjá um hann við Borgarfjarðarsýslu.

**Bjarni Snorrason,** bóndi á Skarði á Skarðsströnd, sonur Skarðs-Snorra prests, Narfasonar, og Sæunnar (sjá hér að framan), hefur verið auðmaður, sem faðir hans. Bjarni var vinur beggja þeirra, Hrafns Oddssonar og Sturlu Þórðarsonar, og bar griðaboð til Sturlu af hendi Hrafns 1263 (Sturl.[2] II, 268). Er líklegt, að Bjarni hafi haft sýslu-umboð Sturlu, þá er Sturla var í utanförum, um 1263—1270, en ekki höfum vér fulla vissu fyrir því.

**Björn Dufgusson** í Hjarðarholti, er kallaður var drumbur, eða Drumb-Björn, frændi Sturlunga, var sonur Dufguss Þorleifssonar skeifu. Móðir Bjarnar var Halla Bjarnardóttir, án efa kynjuð af Suðurnesjum, því að þeir Dufgussynir áttu þar frændur. Björn var eigi mjög í herferðum með Sturlungum, frændum sínum; hann mun vera fæddur fyrir 1225 (Sturl.[2] I, 273). 1242 er Björn ráðinn til utanfarar með bræðrum sínum, en þeir urðu apturreka í Hrútafirði, um haustið og fóru þá heim í Hjarðarholt til búss síns. Litlu síðar fór Björn drumbur norður, og ætlaði að leita sætta við Kolbein unga fyrir bræður sína, því að hann var minnst í sökum við Kolbein. Í þeirri för frétti Björn, að Þórður kakali Sighvatsson var út kominn að Gásum. Brá þá Björn förinni og fór þegar til bræðra sinna og vildi veita Þórði lið, ef hann þyrfti. En þeir bræður sátu þá heima að búi sínu um hríð (Sturl.[2] II, 3—4). Svo sýnist, sem Björn drumbur hafi verið friðsamastur þeirra bræðra,

því að hans er eigi getið svo opt sem þeirra Kægil-Bjarnar, Kolbeins og Svarthöfða, í ferðum með Sturlungum. Mun hann því optast hafa setið heima að búi því, er hann átti í Hjarðarholti í Dölum. — 1284, þegar leikmenn tóku staði, er þess getið, að Björn Dufgusson tók Hjarðarholt (Bisk.s. I, 734); en síðan sat Björn þar í óleyfi Árna biskups Þorlákssonar, til þess er Björn dó, og var það fyrir 1289. Hafði Björn á efstu stundum leitað sættar við biskup, en þó lézt hann í forboði, áður hann næði sættinni, og var hann grafinn í kirkjugarði að ráði herra Hrafns, en síðan upp grafinn að ráði biskups og leystur dauður úr forboði af (Runólfi) ábóta, 1289 (Bisk.s. I, 779). — Það er hér hefur sagt verið, sýnir að Björn hefur verið höfðingi. Er ekki ósennilegt, að hann hafi haft syðra hlut Dalasýslu um hríð, í umboði Hrafns Oddssonar.

## Snorri (hinn yngri) Sturluson,

sonur Sturlu lögmanns Þórðarsonar, og Helgu dóttur Þórðar Narfasonar (af Sturlungaætt og Skarðverja; sjá hér að framan), — er fæddur í Sælingsdalstungu í Dölum 23. marz 1244 (Sturl.[2] II, 47); hann var þá fjögurra vikna, er þeir Brandur Kolbeinsson og félagar hans ráku hernað um Dali, og var þá Helga móðir Snorra í Tungu; komst hún nauðulega í kirkju með Snorra. 1262 er Snorri kominn á legg, og Þórður bróðir hans. Er þess getið um Snorra, að hann gerðist uppivözlumaður mikill og hélt nokkura sveit manna; hann fór um haustið (1262), suður á Mýrar og tók við búi Hauks á Álptanesi. Þótti Snorri eigi spakur í héraði og gerðist hann hinn mesti óvin Hrafns Oddssonar, er þá hafði sýslu um Borgarfjörð, og svo héraðsmanna. Varð Snorri þá að stökkva brott af Álptanesi, og fór þá til föður síns. Veturinn 1263 gerir Snorri félag við þá Eyrar-Snorra Pálsson og Vigfús Gunnsteinsson, á móti Hrafni Oddssyni. Eptir það, um vorið, fóru þeir Snorrarnir og Sturla Þórðarson, að Hrafni, en Vigfús sat heima og gerði njósn Hrafni, enda varð Hrafni ekki mein að förinni. En eptir þetta hittust þeir Hrafn og Snorri Sturluson í Öxney, og fékk Snorri grið af Hrafni. Þegar Sturla fór utan, fyrir ofríki Hrafns, gerði Snorri son hans og Helga húsfreyja Sturlu bú á Staðarhóli (1263), en nokkru síðar (c. 1265) fóru þau utan, og er þess getið, að Þórður Sturluson gerðist þá hirðprestur Magnúsar konungs lagabætis, en þess er eigi getið, hverjar virðingar Snorri fékk af konungi. — Eptir heimför þeirra feðga, fékk Snorri landið á Staðarhóli til ábúðar (um 1280) og mun Snorri hafa búið þar meðan hann lifði (Sturl,[2] II, 265—268, 272, 273). Snorri Sturluson hefur án efa haft sýsluvöld eða mannaforráð nokkur í Dölum, eptir föður sinn; hann hefur að líkindum verið vinur Árna biskups, því að Snorra

er ekkert getið við Staðamál.[1]) — Snorri Sturluson andaðist 31. maí 1306 (Annálar; Ísl. Ártíðaskrár 85, 89, 102 [Helgafells-ártíðaskrá]).

Synir Snorra hafa verið:

Ásgrímur, Sturla og Þorsteinn.

a. Ásgrimur Snorrason, bóndi í Sælingsdalstungu, sjá hér síðar.

b. Sturla Snorrason, sjá Snæfellsnessýslu.

c. Þorsteinn Snorrason, fór utan með bróður sínum (Sturlu), á skipi því er Glóðin hét 1332, og létu þeir út úr Dýrafirði. Bar þá að Suðureyjum og voru þar ræntir fé öllu, en sumir þrælkaðir. Þeir Snorrasynir tveir, og prestur sá, er Gunnlaugur hét, komust til Noregs á Glóðinni, bátlausir, með skipverjum sínum, og hétu þeir allir suðurgöngu; í þeirri för drukknuðu þeir bræður Sturla og Þorsteinn, og Gunnlaugur prestur (Gottskálksannáll). Þetta hefur allt gerzt árið 1332.

## Þórður Narfason,

var sonur Narfa prests á Kolbeinsstöðum, Skarðs-Snorrasonar prests, Narfasonar prests á Skarði, Snorrasonar lögsögumanns (d. 1170), Húnbogasonar (sjá hér að framan). Móðir Þórðar hét Valgerður, dóttir Ketils prests á Kolbeinsstöðum, lögsögumanns (d. 1273), Þorlákssonar. — Þórður er orðinn fulltíða 1263 og sýnist hafa komið úr utanför, frá Noregi, það sumar, því að þess er getið, að Sturla Þórðarson fann Þórð »mág sinn« á Þíngvelli, er hann fór til skips á Eyrum. Sagði Þórður honum för Hákonar konungs úr Noregi, og að Magnús son Hákonar væri þá fyrir landstjórn (Sturl.[2] II. 269). — Veturinn 1271—1272 var Þórður Narfason í Fagradal, með Sturlu Þórðarsyni er þá var nýkominn til Íslands úr utanför (Sturl.[2] II, 273). 1282 er Þórður farinn að búa á Skarði á Skarðsströnd, sem var afaleifð hans. Eru þeir bræður taldir »vitrir menn ok vel mannaðir«, (Bisk.s. I, 725). Þórður var lögmaður norðan og vestan 1296—1297 og í annað sinn 1300 (Annálar; sbr. Safn II, 48); ennfremur var hann umboðsmaður Bárðar hins norræna 1302. Þórður dó 12. marz 1308 (Safn II, 48—49; Ísl. annálar;

---

1) Sveinn Skúlason (Safn I, 587), ætlar að herra Snorri digri sé sami maður og Snorri Sturluson, og telur hann Snorra Sturluson hafa verið herraðan af Magnúsi konungi, en það mun vera rangt, því að Snorri digri er án efa herra Snorri Ingimundarson (d. 1301), er opt getur í Árna biskupssögu. En engi rök eru fyrir því, að Snorri Sturluson hafi verið herraður, þótt eigi sé það með öllu ólíklegt.

Ártíðaskrár, 117. 123, 161). — Þórður Narfason hefur gefið reka á Ströndum til Helgafellsklausturs, á milli Áróss í Drangavík, og Knarrarness í Trékyllisvík (Fornbr.s. III, 105, 327, 633. bls. og IV, 168. bls). Hann hefur verið auðugur maður, og án efa haft völd nokkur í Dalasýslu.

Niðja Þórðar er ekki getið, svo að kunnugt sé, og er líklegast að hann hafi eigi átt skilgetin börn, því að Snorri bróðir Þórðar tók Skarð eptir hann látinn. Þó ætlar Dr. Jón Þorkelsson yngri, að Narfi Þórðarson, er samkvæmt annálum, dó 1392, hafi verið sonur Þórðar lögmanns,[1]) en það fær naumast komið heim við tímatal, nema Narfi hafi verið yfir nírætt, þegar hann dó. En líklega eru börn Þórðar Narfasonar — hafi þau nokkur verið, — fædd um 1280 eða fyrr, þar sem hann er fulltíða um 1260.

**Guðmundur á Gníp** á Skarðsströnd, fyrir 1327, að því er sýnist, hefur átt reka við Breiðafjörð, og gefið Skarðskirkju hlut í reka þeim (Fornbr.s. II, 635. bls.; IV, 157. og VII, 74.[2]) bls.). Kona Guðmundar hét Hallveig. Hverra manna þau hjón hafa verið, er naumast unnt að segja með vissu. En ekki ætla eg ólíklegt að þau sé skyld Skarðverjum. Ætla eg þá helzt, að Guðmundur sé sonur Skarðs-Snorra, sá er getur í Dögurðarness-skjölum (Fornbr.s. VI, 3. bls.), sjá hér að framan. — Mætti ætla að Narfi Guðmundarson prestur að Hjarðarholti (d. 1343), hafi verið sonur Guðmundar Skarðs-Snorrasonar. Á það bendir nafn hans og föðurnafn, að hann sé af kyni Skarðverja.

## Ísleifur „bóndi“ í Ásgarði

í Hvammssveit, um 1300 og síðar, mun hafa verið valdamaður; hann er enn á lífi 27. sept. 1327, þegar Jón biskup Halldórsson vígir kirkju í Sælingsdalstungu (Fornbr.s. II, 634. bls.). Fyrir gjöf nokkra til Sælingsdalstungukirkju, hefur Ísleifur bóndi áskilið, að þar væri sungin sálumessa ártíðardag foreldra sinna, »og svo hans, þegar hann andast« (Fornbréfasafn II, 634; III, 103—104 bls.; V, 101. bls.).

## Ásgrímur Snorrason

er nefndur hér að framan, og hefur án efa verið sonur Snorra (d. 1306), Sturlusonar lögmanns, Þórðarsonar (af ætt Sturlunga). Ásgrímur mun vera fæddur um 1280; hann hefur fengið að föðurarfi

1) Íslenzkar Ártíðaskrár, ættskrá XIII.

2) Hér er nefnd „Halldís“ á Gnýp, og er það annaðhvort ritvilla, fyrir „Hallveig“ — svo hét kona Guðmundar, — eða Halldís þessi hefur verið dóttir Guðmundar og Hallveigar á Gnýp.

jarðirnar Sælingsdalstungu og Staðarfell, er þeir feðgar höfðu átt um langa æfi; — bjó Ásgrímur fyrst á Staðarfelli, líklega fyrir 1327 (Ísl. Fornbréfasafn II, 637. bls.). — 1337 er Ásgrímur farinn að búa í Sælingsdalstungu, og deilir þá um beit á milli Sælingsdalstungu og Leysingjastaða, við Markús bónda á Leysingjastöðum. En Grímur lögmaður Þorsteinsson úrskurðar Ásgrími beitina, að Holti í Saurbæ 10. júlí 1337 (Fornbréfasafn II, nr. 456). Ásgrímur mun hafa andazt um 1350. Hann hefur átt nokkur börn.

Einn sonur Ásgríms hefur andazt ungur á Staðarfelli (Fornbr.s. II, 637. bls.). Önnur börn Ásgríms munu hafa verið:

Brandur, Ketill og Herdís, og ef til vill fleiri, sem vér þekkjum eigi.

a. Brandur Ásgrímsson, »bóndi« nyrðra, hefur kvænzt norðlenzkri konu, Guðnýju Sölmundardóttur (líklega prests, Egilssonar[1]) prests í Grímstungum í Vatnsdal, Finnbjarnarsonar. Þau Brandur og Guðný keyptu Holtastaði af Jóni biskupi skalla, fyrir Flugumýri, 2. jan. 1360 (Fornbr.s. III, nr. 109). Synir þeirra munu vera: Sölvi Brandsson prestur nyrðra (1374—1402) og Snorri Brandsson; hann kemur við bréf í Víðidalstungu og á Ásgeirsá í Víðidal, 19. jan. og 11. febr. 1385 (Fornbr.s. III, 383. bls., nr. 326). — 1393 selur Snorri Brandsson, Hallsteini presti Jónssyni, Hrafnabjörg og Laugar í Hörðudal, fyrir lausafé (Fornbréfasafn III, nr. 406).[2])

b. Ketill Ásgrímsson, »bóndi« í Sælingsdalstungu, eptir föður sinn, um 1350—c. 1380, eða lengur (sbr. Fornbréfasafn III, nr. 606—607). — Ketill hefur líklega andazt barnlaus, því að Sælingsdalstunga, er hann átti, komst, að honum liðnum, í eigu Staðfellinga.

c. Herdís, kona Örnólfss Jónssonar bónda á Staðarfelli, hefur án efa verið dóttir Ásgríms Snorrasonar í Sælingsdalstungu[3],) og hefur Örnólfur fengið með henni Staðarfell, er hún

---

1) Sölmundur prestur Egilsson (líkl. Finnbjarnarsonar (Ísl.s.[2] I, 359; Sturl.[2] II, 499; Bps. I, 696), kemur við bréf vestra c 1365 (Fornbr.s. VI, 22. bls.).

2) Frá þeim Sölva presti og Snorra eru ættir komnar, og má rekja þær, eptir bréfum og annálum, all-langt niður.

3) Við Strandasýslu, bls. 303—304 hér að framan, hefi eg getið þess, að Ketill „bóndi" Ásgrímsson, muni hafa verið móðurfaðir Helga „bónda", Guttormssonar, Örnólfsonar „bónda" á Staðarfelli, Jónssonar. En þegar betur er athugað, sézt, að Örnólfur Jónsson bjó einmitt á Staðarfelli næstur eptir Ásgrím föður Ketils. Er því ekkert sennilegra, en að Ketill hafi fengið Sælingsdalstungu eptir föður sinn, og að Örnólfur

hefur erft eptir föður sinn. Herdís er enn á lífi 3. marz 1383, því að þá samþykkir hún það, er Örnólfur gefur Guttormi syni sínum hálfa jörðina Staðarfell, en selur honum hálfa (Fornbr.s. III, nr. 313). — Ásgrímur Snorrason hefur verið auðugur bóndi og hefur að líkindum haft völd eða umboð í Dalasýslu um 1330.

## Snorri Narfason lögmaður.

Faðir Snorra var Narfi prestur á Kolbeinsstöðum (d. 1284), Snorrason prests á Skarði (d. 1260), Narfasonar prests sst. (d. 1202), Snorrasonar lögsögumanns og prests á Skarði (d. 1170), Húnbogasonar á Skarði, Þorgilssonar (sjá hér að framan). Móðir Snorra var Valgerður Ketilsdóttir, systurdóttir Gizurar jarls Þorvaldssonar. Snorri mun hafa verið yngstur þeirra Narfasona, fæddur um 1255—c. 1260. Hann kvongaðist suður um heiði og fékk þeirrar konu, er Þóra hét, og tók með henni landið í Hjálmaholti og í Mörk (á Landi) (Bisk.s. I, 725; sbr. Árt. 166; Safn til sögu Ísl. II, 58—59; Fornbr.s. II, 635, 637. bls.) 1282 keypti Snorri Hlíð hina meiri af Árna biskupi Þorlákssyni og Lopti frænda hans, Helgasyni og fékk þeim í mót Lauga-lönd, Hjálmaholt, Mörk og Þjótanda, og fór þá um vorið (1282) byggðum úr Hjálmaholti í Hlíð. Snorri og bræður hans voru vinir miklir Árna biskups Þorlákssonar (Bisk.s. I, 725). — Vorið 1283 hófust deildir með Þeim Snorra og Ásgrími riddara Þorsteinssyni, út af því, að Ásgrímur kallaði Snorra sitja á konungseign, er Loptur Helgason hefði selt Snorra, að ólofi Ásgríms sem þá hafði konungssýslu fyrir utan Þjórsá; varð svo mikið sundurþykki þeirra, að Ásgrímur hristi fjötur að Snorra í Skaptaholtsrétt um haustið eptir; líkaði biskupi lítt þær tiltekjur Ásgríms og forboðaði hann (Bisk.s. I, 727, 730). 1284 getur Árni biskup enn um mál Ásgríms við Snorra í Hlíð, og þykir honum það ranglega hafið (Bisk.s. I, 738). — Eptir þetta er Snorra ekkert getið um langt tímabil. Hann hefur búið í Hlíð, þar til er Þórður bróðir hans dó (1308); hefur þá Snorri tekið við Skarði á Skarðsströnd. Eptir Þórð 1308 var Snorri Narfason lögmaður norðan og vestan á Íslandi, sem ráða má af alþingissamþykkt 3. júlí það ár, um landvist útlaga (Fornbréfasafn IV, nr. 6; sbr. Safn til sögu Íslands II, 6. bls., athgr. 2); en Jón Sigurðsson heldur, að annaðhvort ártalið eða lögmannsnafnið í samþykktargrein þessari sé misritað, sem sýnist þó ekki líklegt. Hitt sýnist líklegra, að nafnið sé hér rétt, og að Guðmundur Sigurðarson — sem víst er að var lögmað-

---

hafi fengið Staðarfell í heimanmund konu sinnar Herdísar, er því hefur verið systir Ketils, og dóttir Ásgríms Snorrasonar.

ur norðan og vestan, á árunum 1302—1306 (sbr. Annála), — hafi farið utan vorið 1308, og hafi hann þá afhent Snorra Narfasyni lögsögna, til þess að hann (ɔ: Guðmundur) kom aptur úr utanför, sem hefur verið annaðhvort um haustið 1308, eða um vorið 1309, því að Guðmundur er nefndur lögmaður í vitnisburði frá 23. júní 1309 (Fornbr.s. III, nr. 7), og enn er Guðmundur lögmaður norðan og vestan 1311, og að því er sýnist 1312 (Fornbréfasafn II, nr. 204 og 207; VI, nr. 5.). — Eptir alþing 1315, er líklegt að þeir hafi báðir farið utan, Guðmundur lögmaður og Snorri Narfason, því að við árið 1316 getur Gottskálks annáll um »útkomu Snorra lögmanns«; ennfremur getur annállinn þess, að Guðmundur Sigurðarson hafi, þetta ár, verið gerður að riddara konungs og sama segir Flateyjarannáll, um leið og hann getur »útkomu herra Guðmundar úr Hlíð«. En hvorugur annállinn getur þess, að Guðmundur væri lögmaður í þetta sinn. Þetta sýnir ljóslega, að Snorri hefur verið lögmaður norðan og vestan 1316, eptir að Guðmundur gerðist riddari, og haft lögsöguna til vorsins 1319, að Snorri fór utan með Árna biskupi Helgasyni, Katli riddara Þorlákssyni bróðursyni sínum, og fleiri höfðingjum, því að þrír helztu annálar, er skýra frá utanstefnu og utanför þeirra höfðingjanna, nefna Snorra lögmann og verður það ekki véfengt. Hefur Snorri þá um vorið fengið Erlendi Haukssyni lögsöguna, og því fór Erlendur með hana á alþingi 1319 (sbr. Safn II, 57—58), en annaðhvort hefur Erlendur þá sleppt lögsögunni, þegar er Snorri kom út aptur, eða hann hefur andazt um það leyti. 1320 geta annálar útkomu þeirra herra Ketils Þorlákssonar og Snorra »lögmanns« Narfasonar (Ísl. Ann.; sbr. Safn II, 58—59; Fornbréfasafn II, nr. 342, 495. bls.[1]).— Þetta er í þriðja sinn, sem Snorri tekur við lögsögu norðan og vestan, þegar lögmannsár hans eru rétt talin. En Jón Sigurðsson, hefur hér ruglazt í ára-röðinni, að því er snertir lögmennsku þeirra Guðmundar úr Hlíð og Snorra, því að hann álítur, að Guðmundur hafi verið lögmaður öll árin 1302—1318 en Snorri aðeins 1320—1329, og sleppir hinum fyrri lögmannsárum Snorra, enda kemur reikningur hans ekki heim við annála, sem sjálfsagt er að fylgja, þar sem þeim ber svo vel saman sem hér, nema samtíða frumrituð skjöl sýni, að annað hljóti að vera réttara; en hér er þess eigi að vænta. — 1321 getur Gottskálksannáll Snorra lögmanns og telur þá Guðmund einnig lögmann, og er það rétt, því að þá hefur Guðmundur tekið lögsögu fyrir sunnan og austan (sbr. Safn II, 59). 1329 er Snorri enn lögmaður og lætur þá skera í sundur vébönd í lögréttu á alþingi (Gottsk. ann. og Flateyjarann.). Árið eptir (1330)

1) Þessi tala hefur fallið úr registri tilv. bindis, við nafn Snorra.

var hann í brullaupinu mikla í Haga með öðrum mestu höfðingjum landsins, og það vor var lögsögn tekin af Snorra og fengin Grími riddara Þorsteinssyni í Stafholti (Annálar) og má ætla víst, að sökin til þessa hafi verið breytni Snorra í lögréttu sumarið áður, sem fyr var getið. — Snorri bjó að Skarði eptir andlát Þórðar bróður síns, sem fyr er sagt, og er hans getið og Þóru húsfreyju hans, í hinum fornu máldögum, Skarðs- og Staðarfellskirkna (Fornbréfasafn II, 635—637)[1]. — Snorri lögmaður andaðist 9. marz 1332 (Annálar; Ísl. Árt, 155, 157; Safn II, 59).

Snorri lögmaður hefur án efa haft sýsluvöld í Dölum, þótt vér þekkjum ekki valdaár hans. Börn hans voru:

1. Hrólfur Snorrason, er sýnist hafa búið á Suðurlandi. Mun hann fæddur um 1280, en dáið hefur hann 31. júlí c. 1330, eða síðar (Ísl. Ártíðaskrár 166. bls.). Kona Hrólfs mun hafa verið frú Vilborg Sigurðardóttir, er samkvæmt annálum andaðist 1343. Hún mun vera systir Halls Sigurðarsonar í Dal undir Eyjafjöllum (Ísl. Árt. 243. bls.). Synir þeirra Hrólfs og Vilborgar hafa verið: Andrés, Snorri og Þórarinn.
   a. Andrés Hrólfsson, er nefndur í Dalsmáldaga, frá c. 1353 (Fornbréfasafn II, 683. og III, 263. bls.). Mun mega rekja ættir frá Andrési.
   b. Snorri dalur (Hrólfsson): sbr. Ísl. Árt. 166. bls., hefur verið kendur við Dal undir Eyjafjöllum; hann andaðist 1343 (Gottskálksannáll og Flateyjarannáll). Hefur hann ekki orðið gamall, og ekki þekkjum vér niðja hans.
   c. Þórarinn Hrólfsson, er átti Hörgsholt í Hrunamannahreppi í Árnessýslu um 1350, eða fyrri, og sýnist hafa haldið Hrunastað og verið ríkur maður (Fornbr.s. II, 666. og IV, 44. bls.), mun og hafa verið sonur Hrólfs Snorrasonar, því að Snorri lögmaður fékk með konu sinni ýmsar eignir um þær slóðir og víðar í Árnessýslu, og er líklegt að hann hafi eigi selt þær úrættis.
2. Guðmundur Snorrason, sýslumaður (sjá Strandasýslu, bls. 256—257, hér að framan).
3. Ormur Snorrason, sjá hér síðar.
4. Jón Snorrason, er vottur að kaupi þeirra Örnólfs Jóns-

---

1) Snorri Narfason, sem nefndur er í Reykjahólamáladaga (Fornbréfasafn II, 120. og IV, 154. bls.) er án efa Skarðs-Snorri, því að hann átti Reykjahóla fyrir 1260, en á dögum Snorra lögmanns Narfasonar, voru Reykjahólar eign Svartsættarinnar (c. 1280— c. 1400), en síðar eign Guðmundar ríka Arasonar.

sonar og Guttorms sonar hans, að Staðarfelli 3. marz 1383, og er bréf um kaup það gert í Hjarðarholti 30. okt. 1385; þar er Jón Snorrason einn af gjörningsvottunum (Fornbréfasafn III, nr. 313). Mér þykir ekki ólíklegt, að Jón sá, er getur í Sauðafellsmáldaga Vilchins, og átt hefur Sauðafell[1]) í Miðdölum (Fornbréfasafn IV, 164. bls.), c. 1380 eða fyrr, sé þessi Jón Snorrason, sem án efa hefur verið son Snorra Narfasonar. — Flateyjarannáll getur þess, að árið 1385 hafi þeir Guðmundur Ormsson (Snorrasonar) og Eiríkur Guðmundsson riðið heim að Þórði Jónssyni, á jólum, og fangað hann, en síðan var Þórður höggvinn, eptir dómnefnu Orms Snorrasonar, »ok aa sama ari hogginn Jonn Snorrason« (Ann.[2] 414. bls.). Það er auðséð, að víg Jóns Snorrasonar hefur leitt af vígi Þórðar og hafa frændur Þórðar eða vinir helzt talizt hefna Þórðar með því að vega Jón, bróður Orms lögmanns er dæmt hafði Þórð til dauða fyrir litlar sakir, — þar sem þeir hvorki náðu Ormi eða Guðmundi syni hans. Þetta kemur og heim við gjörning, þann er vér gátum fyr, sem sýnir að Jón hefur verið enn á lífi 30. okt. 1385, en víg Þórðar varð eigi fyr en á jólum það ár, og hefur víg Jóns orðið fám dögum síðar, svo að það gat talizt til ársins 1385. — Um niðja Jóns er nú ekkert kunnugt. Hann hefur að líkindum verið yngstur þeirra Snorrasona, og er eigi líklegt, að þeir Hrólfur hafi verið sammæðra, því að Jón mun varla fæddur fyr en um 1320.

**Sigmundur fótur Eyjólfsson,** kynni að hafa haldið Dalasýslu um hríð, sem umboðsmaður, og þá helzt í umboði Snorra. Sigmundur hefur verið mjög í förum og er hans fyrst getið 1323, að hann kom út til Íslands með sýslubréf þeirra riddaranna, herra Eiríks Sveinbjarnarsonar og herra Ketils Þorlákssonar (Gottskálksannáll). Getur jafnvel verið, að Sigmundur — sem um þessar mundir hefur verið handgenginn konungi, — hafi sjálfur gerzt konungsumboðsmaður, ef til vill í Dalasýslu, (því að hann hefur án efa verið af kyni Skarðverja[2]). En ekki fáum vér með vissu rakið ætt Sigmundar. — Hann hefur orðið gamall, og andazt 1381 (Gottskálksannáll). — Bróðir Sigmundar mun vera: Snorri fótur, er lagði út af Hvaleyri við Hafnarfjörð á skipi því er Katrínarsúðin hét, og braut þar skipið. Drukkn-

---

1) Í registri IV. bindis hins Ísl. Fornbréfasafns, hefur missagzt: Jón í Snóksdal, fyrir Jón á Sauðafelli.

2) Sigmundur fótur mun hafa borið nafn Sigmundar Skarðs-Snorrasonar (sjá hér að framan.

aði Snorri þar með 24 mönnum 7. sept. 1343 (Gottskálksannáll; sem einn getur dagsins, og mun því réttast að fylgja honum hér, þótt aðrir annálar sé honum eigi samkvæmir um dánarár Snorra fótar, eða tölu þeirra manna, er með honum drukknuðu).

## Pretta-Páll Eyjólfsson.

Hverrar ættar hann hefur verið, mun varla unnt að segja með neinni vissu, en þess eins er getið um ætt hans, að hann átti bróður þann, er Valtýr hét; er Valtýr orðinn fulltíða 1310 og er þá í Noregi. Þess er getið, að Hákon konungur háleggur sendi þá Gizur galla Bjarnarson og Valtý Pretta-Páls-bróður eptir skatti þeim á Finnmörk, er ekki hafði fengizt um mörg ár (Flateyjarannáll, 1310). Nafnið Valtýr er svo sjaldséð á Íslandi í þennan tíma, að það kemur hvergi fyrir áður í íslenzkum sagnaritum, svo að eg viti. En um 1500 og síðar, finnst þess aptur getið í gjörningum. 1514 gefur Valtýr Sigurðarson klaustrinu á Skriðu (Skriðu-klaustri) jörðina Hvanná í Jökulsárhlíð, og 7. sept. 1543 er nefndur Gunnar Valtýsson, í dómi Erlends (lögmanns) Þorvarðarsonar, er hann dæmir að Egilsstöðum á Völlum. Starkaður Valtýsson kemur og við bréf 1550 og síðar, í Þingeyjarþingi, og sýnist vera austfirzkur að ætt. Þetta bendir á, að Valtýsnafnið sé austfirzkt að upphafi á Íslandi. Mætti því hugsa sér, að þeir Valtýr og Pretta-Páll Eyjólfssynir, sé austfirzkir að ætt, og þótt valt sé að leiða gildar sannanir í ætta-rannsóknum af nöfnum einum, þá sýnist ekki fjarri líkindum, að þeir hafi verið synir Eyjólfs riddara, Ásgrímssonar frá Hvammi í Vatnsdal, Þorsteinssonar. Eyjólfur var kvæntur Guðrúnu Garðsdóttur úr Austfjörðum (Bisk.s. I, 715, 735) og bjuggu þau í Árnessþingi. Eyjólfur andaðist 1302 (annálar); það kæmi því mjög vel heim við tímatal, að þeir Valtýr og Pretta-Páll, sem eru orðnir fulltíða 1310, væri synir Eyjólfs Ásgrímssonar, sem er kvæntur fyrir 1284. Auk þess er varla efamál, að þeir Páll og Valtýr hafa verið vel ættaðir, því að þeir einir menn eru feðraðir í annálum, sem eiga göfugt ætterni, er á þeim tíma hefur kunnugt verið. En vér þekkjum eigi annan göfugan mann með Eyjólfs nafni um þetta skeið, er geti átt skylt við þá bræður, en Eyjólf riddara Ásgrímsson, sem fyr var getið. Páll hefur ef til vill kvænzt vestur í Dali og búið þar, hefur hann þótt brögðóttur og mikill fyrir sér, sem kenni-nafn hans bendir til. Er ekki ólíklegt, að hann hafi haft nokkur völd í Dalasýslu. — Páll var veginn í Dölum vestur 1344, af Þórarni Jónssyni, en síðan um vorið (1344) vágu synir Páls tvo menn í hefnd eptir Pál, og hét Halldór hvorutveggi hinna vegnu, og var annar þeirra son Þórarins, en hinn var Jónsson, líklega bróðir Þórarins (Gottskálksannáll og

Flateyjarannáll). Synir Páls, er hefndu hans, og voru því fulltíða er hann var veginn, munu vera: Teitur Pálsson, er utan fór með þeim Snorrasonum (frá Skarði) 1344, líklega fyrir víg föðurbana sinna (Gottskálksannáll), — og Þorgils Pálsson, er Gottskálksannáll segir, að væri höggvinn 1351, en fyrir hverjar sakir það var, greinir annállinn ekki.[1]) Hvort Pretta-Páll hefur verið tvíkvæntur eða eigi, verður ekki fullyrt, en hafi þeir verið synir Pretta-Páls, Þorvarður Pálsson á Eiðum, faðir Eiða-Páls, er dó 1403, og Eyjólfur Pálsson (ráðsmaður) í Skálaholti en síðar ábóti í Veri (d. 1377), er munu án efa vera bræður, — þá er líklegt, að þeir hafi verið yngri en þeir Teitur og Þorgils Pálssynir og eigi sam-mæðra þeim.

### Grímur Þorsteinsson

bóndi í Stafaholti, og um hríð lögmaður; hann kom út 1316 og var þá ger riddari. 1319—1320 er Grímur lögmaður sunnan og austan, en eptir þing 1320 fer Grímur utan. 1330 tekur Grímur við lögsögu norðan og vestan, af Snorra Narfasyni, og í það sinn hefur Grímur haft lögsögu til haustsins 1340, því að þá hefur hann afhent lögsöguna Pétri Halldórssyni sem er orðinn lögmaður 30. apríl 1341 (Fornbr.s. II, nr. 484; Safn II, 6, 61[2]). Á þessu tímabili, 1330—1340, hefur Grímur að líkindum haft sýslu vestra og helzt Dalasýslu, því að hann gefur út úrskurð um landamerki Sælingsdalstungu og Leysingjastaða, að Holti í Saurbæ, 10. júlí 1337 (Fornbr.s. II, nr. 456), sem reyndar er lögmannsúrskurður, en þetta virðist þó benda til þess, að Grímur hafi haft völd í Dalasýslu um þetta skeið. 1343 kom Grímur riddari út aptur og var honum þá, af konungi, skipað lén um Vestfjörðu og Sunnlendingafjórðung, og allt til Helkunduheiðar, og hirðstjórn. Hann skyldi og skipa lögmann fyrir norðan land og sunnan (Skálholtsannáll; sbr. Gottskálksannál). Léni þessu hélt Grímur riddari til 1345; en það ár fer

---

1) Um Teit Pálsson, sjá Strandasýslu, bls. 259 hér að framan. Það er líklegt að Teitur hafi haft sýslu um Vestfjörðu, eins og eg hefi tekið fram við Strandasýslu, og ef til vill hefur hann sérstaklega haft völd í Dalasýslu um hríð, þar sem bústaður föður hans virðist hafa verið.

2) Í „Safni til sögu Íslands“ á tilv. stað, er svo talið, að Grímur hafi í þetta sinn látið af lögsögu 1334, og hafi Pétur þá tekið lögsögu, en þetta er rangt, því að Grímur var enn lögmaður norðan og vestan 1337 (Fornbr.s. II. nr. 456); —. þess er og getið í Konungsannál við árið 1341, að Grímur færi utan það ár, og mun það rétt. Hefur hann þá afhent Pétri lögsöguna um vorið, áður hann fór utan, eða ef til vill þegar eptir alþing 1340, sökum þess að hann ætlaði utan fyrir alþingi 1341.

hann utan. — 1346 kemur Grímur enn út með lögsögu fyrir norðan (Annálar). — Grímur hefur gefið Viðeyjarklaustri reka allan fyrir hálfu Hraunslandi í Grindavík, til móts við Þorkötlustaði (Fornbréfasafn II, nr. 514; III, nr. 581; IV, nr. 311). — Þess er og getið í Strandarmáldaga, að Grímur riddari hafi ætlað bænhúsinu í Herdísarvík að gjöf líkneski það, er geymt sé á Strönd í Selvogi í tíð Vilchins biskups (Fornbr.s. IV, 101 bls.); — á þessu sézt, að Grímur hefur átt jarðir á Suðurnesjum, og mun hann því að líkindum þaðan kynjaður. — Sýnist mega ráða af ýmsu, sem kunnugt er um bústaði niðja Gríms, að faðir hans hafi verið Þorsteinn Hafurbjarnarson, hins auðga úr Seltjarnarnesi, Styrkárssonar, Sveinbjarnarsonar. Þeir feðgar áttu eignir miklar um Rosmhvalanes, einmitt á þeim stöðvum, þar sem Grímur lögmaður og niðjar hans áttu síðar eignir, sem nú skal verða sýnt. Þorsteinn Hafurbjarnarson var lögmaður, að því er sýnist, ár 1300, en hann andaðist 1325, og kæmi því mjög vel heim, tímans vegna, að Þorsteinn þessi væri faðir Gríms, sem er fulltíða um 1300, en herraður 1316. Auk þess er auðséð, að Grímur hefur verið mjög göfugrar ættar, þar sem hann varð lögmaður, því að þeir skyldi vera »af ættum þeirra, er að fornu höfðu goðorðin uppgefið«, segir gamli sáttmáli og hélzt það án efa mjög lengi. En það vitum vér, að þeir langfeðgar Þorsteins Hafurbjarnarsonar höfðu goðorð um Suðurnes og voru virðingamenn miklir og göfugir. — Þorsteinn bjó í Mörk hinni efstu undir Eyjafjöllum (Fornbréfasafn II, 684. bls.) og er Guðfinna kona hans nefnd í Merkur-máldaga; hún var dóttir Magnúsar, Þorlákssonar (d. 1281), Guðmundarsonar gríss (d. 1210), Ámundasonar (Bisk.s. I, 716). Með Guðfinnu hefur Þorsteinn fengið eignir, bæði í Rangár- og Árnesþingi. — Grímur Þorsteinsson mun fæddur á árunum c. 1275—c. 1280; hann andaðist 1350, segir Skálholtsannáll, og er það líklegast að rétt sé, því að 2. júní það ár er Pétur Halldórsson orðinn lögmaður norðan og vestan (Fornbréfasafn II, nr. 529). Mér þykir líklegt, að kona Gríms lögmanns hafi verið af ætt Hrafns Oddssonar, er bjó í Stafaholti á síðara hluta 13. aldar, en hvorki þekki eg nafn hennar eða kann að rekja ætt hennar með vissu. Börn Gríms riddara, þau sem nú þekkjast, voru þessi, að því er næst verður komizt: Ólafur, Sigmundur krákur, Gísli og Sveinn.

a. Ólafur kláði Grímsson, var höggvinn 1348, og þeir Sigurður strútur, fyrir það, að þeir hafa vegið Eirík Þorsteinsson (Gottskálksannáll). Ólafur Grímsson á Leirá, sem getið er í Vilchins máldaga (Fornbréfasafn IV, 194. bls.) gæti verið hinn sami og Ólafur kláði, en það er þó líkara, að hér sé um tvo menn að ræða, Ólaf kláða og Ólaf á Leirá, er verið hafi synir

herra Gríms, þótt verið geti, að Ólafur kláði hafi átt bú á Leirá, því að hann hefur án efa verið fulltíða, þegar hann vo víg það, sem hér getur. Ólafur á Leirá virðist hafa átt son, er Teitur hét, er hefur búið á Leirá (Fornbr.s. IV, 194. bls.)

b. Sigmundur krákur Grímsson, er Gottskálksannáll telur andaðan 10. júlí 1348, mun og án efa vera sonur herra Gríms Þorsteinssonar.

c. Gísli Grímsson djákni, er Gottskálksannáll segir, að drukknað hafi með félögum sínum 1367, er og að líkindum sonur Gríms riddara. Gísli mun hafa tekið við eignum þeim, er faðir hans átti undir Eyjafjöllum og munu þeir vera synir þessa Gísla: Andrés og Oddur.

1. Andres Gíslason hirðstjóri, mun vera fæddur um 1330, en fyrst getur hans í utanför 1355 (Gottskálksannáll). Andrés bjó í Mörk, sem hefur verið eign þeirra langfeðga, frá því er Þorsteinn Hafurbjarnarson eignaðist hana með Guðfinnu konu sinni. — Gottskálksannáll segir, að Andrés hafi farizt með Sunnifusúðinni 1374, en það er ekki rétt ártal, því að Andrés er enn á lífi 28. apríl 1375, og kemur þá við bréf í Túnsbergshúsi í Noregi (Fornbr.s. Ísl. III, nr. 241; Dipl. Norv. II, 435). Andrés hefur því farið utan 1374, en drukknað um sumarið 1375, er hann ætlaði til Íslands aptur (sbr. Flateyjarannál). Andrés hefur verið hér um bil hálf-fimtugur að aldri, er hann lézt. Einn af sonum hans hefur verið Gísli ríki í Mörk (d. 1428), og fleiri sonu hefur Andrés átta, þótt vér þekkjum þá nú eigi með vissu.

2. Oddur Gíslason; sjá um hann við Rángárvallasýslu.

d. Sveinn Grímsson, er bjó í Brautarholti á Kjalarnesi — faðir Narfa lögmanns (á Melum), og Andrésar hirðstjóra Sveinssonar, var og án efa sonur herra Gríms, sjá Kjalarnesþing.

### Jón hvammur Sveinsson,

»bóndi« í Hvammi í Hvamssveit, mun að líkindum vera af ættgrein Sturlunga, er áttu Hvamm og bjuggu þar á fyrra helmingi 13. aldar, og 1242 búa þeir þar, Svertingur Þorleifsson (skeifu, og Þórríðar dóttur Hvamms-Sturlu),— og Steinar son hans; sbr. hér að framan. Um föðurætt Jóns Sveinssonar mætti geta þess, að **Jón Ívarsson,** er var með Þorgilsi skarða 1252, í Stafaholti, hafi verið föðurfaðir Jóns bónda Sveinssonar í Hvammi. — Bróðir Jóns sýnist vera **Sveinn Ívarsson,** sem var einnig með Þorgilsi 1252 (Sturl. [2] II, 126, 127). Sveinn drukknaði í Haukadalsá, 22. jan. 1257 (Sturl. [2] II, 236). Var hann þá í för með Þorgilsi vestur um land.

Bróðir þeirra Jóns og Sveins mun vera **Þórður Ívarsson**; hann var með Vigfúsi og Halli Gunnsteinssonum, á Breiðabólsstað á Reykjanesi 1253 (Sturl.[2] II, 153); — munu þeir bræður vera synir **Ívars, Jónssonar** prests frá Reykjahólum, **Brandssonar, Bergþórssonar.** — Móðir Ívars var Steinunn Sturludóttir frá Hvammi, Þórðarsonar. Þó að ættfærsla þessi sé að nokkru leyti óviss, þá eru ýmsar líkur, sem með því mæla, að hún muni nærri sanni, einkum ættanöfnin Sveinn og Jón, og eignin Hvammur. Enda sýna máldagar fornir, að Jón bóndi Sveinsson átti jarðir og reka í Strandasýslu, um ættstöðvar Jóns Brandssonar, sem síðast bjó að Breiðabólsstað í Steingrímsfirði,[1]) 3. okt. 1308 vígði Árni biskup Helgason kirkjuna í Hvammi Hvammssveit. Þá er Jón »bóndi« Sveinsson orðinn fulltíða og farinn að búa í Hvammi. Gaf Jón osttoll til kirkjunnar, upp í land sitt, Glerárskóga í Hvammssveit (Fornbr.s. III, nr. 6; s.st. 227. bls.; IV, 160, V, 594. bls.). Eptir því hve snemma Jón kemur við gjörninga, sýnist hann vera fæddur um 1270—1275. — Í máldaga Árneskirkju í Trékyllisvík er þess getið, að Jón hafi gefið staðnum í Árnesi hálfan viðreka á Drangaurð, milli Skúmuhellis og Drangatanga, og sýnist það hafa verið um 1325 (Fornbréfasafn II, nr. 378; IV, 132. bls.). — Ennfremur geta þess rekaskrár Helgafellsklausturs, að Jón bóndi hvammur gaf klaustrinu áttung úr hvalreka og viðreka öllum, með ágóða, óskerðan, frá Rauf til Knararness í Trékyllisvík (Fornbréfasafn III, nr. 70 og 526; IV, 168. bls.). — 1327, 27. sept. þegar Jón biskup Halldórsson vígði kirkju í Sælingsdalstungu, lagði Jón bóndi í Hvammi þar til kirkju »eyristoll æfinlega af hvoru sínu landi er

---

1) Sveinn son Hvamms-Sturlu bjó í Reykjarfirði á Ströndum (c. 1180— d. c. 1203) (Þorlákss. helga, Bisk.s. 1, 288). Hann átti þessi börn: Halldór, Helga, Sturlu, Þórarinn og Þórdísi. Maður Þórdísar hét Jón og hét son þeirra Guðmundur sorti; er hann fulltíða í för með Þórði kakala 1242 (Sturl.[2] II, 7). Er ekki óhugsanda, að Jón hvammur gæti verið af þeirri ætt, á þann hátt, að Sveinn faðir hans hafi verið bróðir Guðmundar sorta, en þó nokkru yngri (f. c. 1225— c. 1230), og að Þórdís Sveinsdóttir hafi verið kona Jóns Ívarssonar. — Hitt væri þó ef til vill sennilegra, að Þórdís Sveinsdóttir Sturlusonar hefði verið fylgikona eða frilla Ívars Jónssonar (Brandssonar), og átt með honum þessa sonu: Jón, Svein og Þórð, er fyr var getið; en síðar hefði hún gipzt Jóni föður Guðmundar sorta. Þetta virðist koma bezt heim við tímatalið. Þess skal getið, að þau Ívar Jónsson og Þórdís Sveinsdóttir voru systkinabörn og máttu því ekki eigast. Það er því allmikið vandhæfi á ættfærslu þessari, enda naumast unt að sanna hvað er réttast, að því er snertir ættfeðri Jóns Sveinssonar.

Skógar[1]) heita, á þann hátt, að í Tungu skulu skrifast ártíðir föður hans og móður, sjálfs hans og húsfreyja hans tveggja, æfinlega og segjast sálumessa ártíðardag hvers þeirra (Fornbr.s. II, 634; III, 103; V, 101. bls.). Jón bóndi hvammur andaðist 1355 (Gottskálksannáll). Til Hvammskirkju í Hvammssveit gafst, meðal annars, eptir hann andaðan, áttungur í hvalreka og viðreka, með öllum gögnum og gæðum, í Ávíkurreka í Trékyllisvík (Fornbr.s. III, nr. 66, IV, 160). Jón hefur verið stórauðugur maður og höfðingi; hefur hann átt jarðir bæði í Dala- og Strandasýslum og má telja víst, að hann hafi haft sýsluvöld í Dalasýslu nokkra hríð. — Nafn fyrri konu hans þekkist ekki en Ólöf Þorláksdóttir, er bjó í Hvammi eptir Jón (1355), hefur verið síðari kona hans (Fornbr.s. III, nr. 66; IV, 160. bls.). — Börn Jóns munu vera þessi:

a. **Sveinn (Jónsson)**, er hefur búið í Hvammi eptir föður sinn. Hann virðist vera enn á lífi 1363, og hefur hann líklega andazt barnlaus (Fornbr.s. IV, 160—161. bls.).

b. **Örnólfur Jónsson** á Staðarfelli, sýnist og hafa verið sonur Jóns bónda í Hvammi, sjá hér síðar.

c. **Ólöf (Jónsdóttir)** kona Orms bónda á Skarði, Snorrasonar (líkl. enn á lífi 1403, Fornbréfas. III, 659. bls.), hefur án efa verið dóttir Jóns bónda í Hvammi og hefur Hvammur þannig komizt í eigu Jóns Guttormssonar, Ormssonar. Munu þeir hafa verið systkinasynir, Guttormur Ormsson og Guttormur Örnólfsson á Staðarfelli.

### Guðmundur Snorrason

sonur Snorra lögmanns Narfasonar, (sjá hér að framan) kom út með sýslu 1345 (Gottskálksannáll). Hygg eg að hann hafi þá haft sýslu í Dölum og um Vestfjörðu til 1352 (sbr. Strandasýslu, bls. 256—257, hér að framan).

### Ívar Hólmur Vigfússon

hinn eldri, hafði sýslu um Vestfirðingafjórðung 1352—1358 og mun þá einnig hafa haft konungsumboð yfir Dalasýslu (sjá Strandasýslu, bls. 257, hér að framan). Í umboði þeirra Guðmundar og Ívars, munu þessir menn hafa haft sýslu í Döllum:

**Sveinn Jónsson**, Sveinssonar, bóndi í Hvammi 1358—1363, sjá hér fyr.

**Ketill Ásgrímsson**, Snorrasonar, »bóndi« í Sælingsdalstungu. Hann hefur verið göfugur maður, (sjá um hann hér að framan).

---

1) ɔ: Skógar í Hvammssveit í Dalasýslu.

**Jón skráveifa Guttormsson**

hafði hirðstjórnarvöld um Vestfirðingafjórðung 1358—1360 (sjá Strandasýslu, bls. 258, hér að framan). Jón mun hafa verið nátengdur Skarðverjum, og ef til vill hefur fyrri kona Jóns bónda í Hvammi Sveinssonar, verið systir Jóns skráveifu. Mun Guttorms nafnið þannig komið í ætt Skarðverja og Staðfellinga].

## Ormur Snorrason

meina eg hafi verið af ætt Skarðs-Snorra[1]). Hann ásamt

1) Þetta er rétt, sjá hér að framan. Bogi bætir hér við þessari athugagrein: »Bræður Orms voru Sturla, faðir Orms, er var í Grundarbardaga, og Guðmundur«. En athugagrein þessi er röng, því að Ormur Snorrason átti engan bróður, er Sturla hét. Hins vegar var Ormur Snorrason sjálfur í Grundarbardaga (1362); sbr. annála. Um æfi Orms er þess að geta, að hann fór utan, ásamt Guðmundi bróður sínum og Teiti Pálssyni 1344, og komu þeir bræður út aptur 1345 og hafði Guðmundur þá sýslu, en valda Orms er þá ekki getið. 1359 segir Gottskálksannáll, að Ormur Snorrason hafi tekið lögsögu (sbr. Safn II, 63—64). — Ormur var í Grundarbardaga, á Grund í Eyjafirði, 8. júlí 1362, og þág hann grið að banamönnum Smiðs hirðstjóra Andréssonar, er Ormur hafði fylgt norður, og þeir Þorgeir Egilsson. Hafði Ormur á brott með sér flezt öll hertýgi, er þeir félagar höfðu átt. Snjólfur skáld ber þó Ormi lítt söguna, þar sem hann kveður um bardagann,

»Frá ek stála storm
mjök sturla Orm«,

o. s. frv. (Flateyjarann.). 1363 var Ormur enn lögmaður (Flateyjarannáll). 1365 fer Ormur Snorrason utan með öðrum höfðingjum (Ann. [2] 224, ath. 1; 361, Gottskálksann.); — þetta sumar hefur Ormur komið út fyrir alþingi, því að 1. júlí 1365, á Þingvelli, les hann upp utanstefnubréf Magnúss konungs til nokkurra höfðingja á Íslandi (Fornhr.s. III, nr. 177), Sama haust mun Ormur hafa farið utan, og 1366 kom hann út með hirðstjórn um hálft land (Gottskálksannáll). — 1368 hefur Ormur látið af lögsögu, því að árið 1369 kom Þorsteinn á Urðum út með lögsögu um allt land (Gottskálksannáll, o. fl.). — 28. des. 1369, á Skarði, lýkur Ormur Sigríði Torfadóttur, Koðránssonar, móðurarf hennar »þann er hann hafði haldið og selt«, en hún gefur Ormi umboð til að heimta arfinn, hvar sem hann kynni að hittast, o. s. frv. (Fornbr.s. III, nr. 205). — 1374 hefur Ormur aptur tekið lögsögu sunnan og austan

Andrési Gíslasyni, kom út með hirðstjórn 1366[1]) og hafði

---

(Fornbr.s. III, nr. 243; sbr. Safn II, 69—70). — 7. ágúst 1375, kærir Ormur »bóndi« Snorrason á Skarði fyrir Oddgeiri biskupi, að tíundir hafi eigi lokizt til Skarðskirkju um nokkur ár af Svíneyju á Breiðafirði (Fornbr.s. III, nr. 246). Í bréfinu er Ormur ekki nefndur lögmaður, enda hefur hann án efa sleppt lögsögunni þegar eptir alþingi 1375 (sbr. Safn II, 69—70). — 1385 riðu þeir Guðmundur Ormsson og Eiríkur Guðmundarson heim að Þórði Jónssyni, á jólum, og fönguðu hann. Var hann síðan höggvinn, eptir dómnefnu Orms Snorrasonar (Flateyjarannáll). Þetta sýnir ótvírætt, að Ormur hefur haft sýsluvöld í Dölum 1385. — Þetta ár segir fyrnefndur annáll, að þröng mikil hafi verið ger á þingi, að þeim Ormi og Guðmundi syni hans. Hefur orsökin til þessa án efa verið víg Þórðar. — 25. apríl 1388, að Hvammi í Miðfirði, selur Ormur Ólafi Skeggjasyni allt land á Syðri-Völlum i Miðfirði, fyrir lausafé (Fornbr.s. III, nr. 361). — 17. apríl 1395, á Helgafelli, vitnar Ormur Snorrason um kaup sín og sölu, á jörðunum Kolbeinsstöðum og Hrossholti, o. fl. (Fornbr.s. III, nr. 500). — 9. nóv. 1398, að Skarði, vitnar Ormur um kaup sitt á jörðunum Hrísum í Helgafellssveit, Svelgsá, og Kárstöðum í Álptafirði (Fornbr.s. III, nr. 530), — 9. apríl 1401, að Skarði, handleggur Óttar Bjarnarson Ormi til fullrar eignar þau tuttugu hundruð, er Ormur hafði átt að heimta fyrir hönd Óttars, að Staðnum í Reynisnesi, og 13. apríl 1401, að Skarði, vottar Ormur að hann hafi gefið þessi tuttugu hundruð »guði allsvaldanda og hans signuðu móður og öllum helgum mönnum« (Fornbr.s. III, nr. 554—555). — Ormur var auðmaður mikill, sem sézt á gjöfum þeim til kirkna, er máldagar eigna honum. Í þessum máldögum er getið gjafa Orms: Mels í Miðfirði (c. 1360; Fornbr.s. III, 166. bls.), — Staðar á Reykjanesi (Fornbr.s. IV, 157. bls.), — Hvamms í Hvammssveit (Fornbr.s. IV, 161. bls.), — Sælingsdalstungu (Fornbr.s. V, 101. bls.); — en mestar gjafir hefur hann gefið Skarðskirkju á Skarðsströnd (sbr. Fornbr,s III, 658—659, og IV, 158. bls.). 1401 afhendir Ormur fjárhaldsumboð sitt Ólafi Guðmundarsyni bróðursyni sínum og Þórdísi móður hans (Fornbr.s. III, 659—660. bls.), mun Ormur hafa andazt litlu síðar, þá um vorið, því að hann kemur síðast við gjörning 13. apríl 1401 og gefur þá fé mikið fyrir sál sinni (Fornbr.s. III, nr. 555).

1) 1367 segir Flateyjarannáll, að Andrés Gíslason kæmi út með hirðstjórn, en nefnir þá ekki Orm. — Gottskálksannáll setur útkomu þeirra Andrésar og Orms við árið 1366 og er það því

hana 3 ár[1]). Aður, 1359, var Ormur lögmaður sunnan og austan, og eptir, þá hann sleppti hirðstjórn, var hann enn lögmaður 1370 eða þar eptir[2]), hann hefur búið á Skarði á Skarðsströnd og túlkað mál Skarðskirkju 1375. Eg hygg hann hafi haft um tíma í elli sinni Þórsnessþing, en einkum Snæfellssýslu, til 1396 eða lengur. En Dalasýslu mun hann hafa tekið, þá hann var lögmaður, fyrir 1360. Ei er víst að hann hafi henni lengi haldið, þó að líkindum til 1370, eða á meðan að hann hafði hirðstjórn. Faðir Orms var Snorri lögmaður um 1316 til 1330, er deyði 1332. Snorri var valdamaður stundum, og optast í Dalasýslu, en stundum í Snæfellssýslu[3]). — Faðir Snorra var Narfi á Kolbeinsstöðum, sem átti Valgerði dóttur Ketils prests Þorlákssonar; þeirra börn voru:

a. Þórður, valdamaðnr og lögmaður um 1296, norðan og vestan; dó 1308[4]).
b. Þorlákur lögsögumaður[5]) norðan og vestan um 1290; valdamaður, dó 1303[6]).
c. Snorri Narfason, áður nefndur.

---

réttara, að Gottskálksannáll lýsir hér meiri kunnleika, þar sem hann skýrir nánar frá þessu atriði, en hinn fyr taldi.

1) Um hirðstjórnarár Orms er nokkuð vafasamt, þó skal þess getið, að Teitur Pálsson, er kom út 1365 með konungserindi, hefur að líkindum farið utan aptur samsumars, eða um vorið 1366. — Hefur þá Ormur tekið við hirðstjórn norðan og vestan eptir Teit, samkvæmt konungsskipan. — Þetta hef eg eigi athugað, þá er eg reit um hirðstjórn þeirra Teits og Skúla Þórðarsonar, við Strandasýslu (bls. 259—260, hér að framan). — Ormur mun því hafa haldið hirðstjórninni til þess er Skúli Þórðarson tók hana, 1368 (sbr. Gottskálksannál, 1368).

2) Ormur var lögmaður í annað sinn 1374—1375; sbr. athugagrein hér að framan.

3) Um lögmannsár og valdaár Snorra Narfasonar, hefi eg sagt hér að framan; og vísast hér til þess.

4) Sjá hér að framan, í viðaukanum.

5) Á að vera lögmaður.

6) Sjá um Þorlák lögmann hér að framan, og við Hnappadalssýslu.

d. Guttormur[1]), faðir Jóns skráveifu, sem hafði hirðstjórn yfir 1/4 Íslands 1357[2]), varð lögmaður norðan og vestan 1360, féll í Grundarbardaga 1362.

Ormur Snorrason varð og valdamaður, helzt í Dala-

---

1) Þetta er tilgáta Boga, því að þess finnst hvergi getið í fornum heimildum, að Guttormur faðir Jóns skráveifu væri Narfason, enda fær þessi ættfærsla ekki staðizt, því að Ketill, sonur Þorláks lögmanns Narfasonar, átti Unu Guttormsdóttur, systur Jóns lögmanns, og yrði þau Ketill og Una þannig bræðrabörn, en slíkt nær engri átt, vegna banns þess, er lög kirkjunnar lögðu fyrir svo náinn skyldleika hjóna á þeim tímum. — Enda mun mega fullyrða að engin af sonum Narfa prests hafi heitið Guttormur og ætti því nafn þetta að falla hér brottu. Um sonu Narfa prests Snorrasonar hefi eg getið í grein minni um Skarðsættina, hér að framan, en þar hef eg gleymt að geta þess, að Narfi hefur auk þeirra átt tvær dætur, sem nú þekkjast af fornum heimildum: Halldóru og Margrétu.

**Halldóra Narfadóttir,** er nefnd í máldaga Skarðskirkju og þess getið, að hún gæfi kirkjunni ítak í Tjaldaness-land, þá er hún átti Tjaldanes (Í. F. III, 657. bls.). Hún andaðist 1324 (Skálholtsannáll og Gottskálksannáll).

**Margrét Narfadóttir,** er, samkvæmt Eyrar-ártíðaskrá,-andaðist 11. Apríl [c. 1330?] (»Árt.« 161, 165), er og án efa dóttir Narfa prests Snorrasonar frá Skarði, enda er ártíðar Þórðar Narfasonar einnig getið þar í skránni.

Önnurhvor þeirra systra, líkl. fremur Halldóra, mun hafa verið (fyrri?) kona Svarts á Reykjahólum, föður Þorleifs, föður Ólafs tóna. Hefur eignin Reykjahólar þannig komizt úr Skarðsættinni, yfir í Svartsættina, um 1300. En naumast getur þó Halldóra Narfadóttir verið móðir Þorleifs Svartssonar, — því að þá hefði þau Ólafur tóni Þorleifsson (Svartssonar) og Þorbjörg kona hans (dóttir Orms á Skarði, Snorrasonar) verið þrímenningar, og máttu þá eigi eigast vegna frændsemi þeirrar*.

2) Réttara: 1358.

---

*) Ættin væri þá svo:

Narfi Snorrason prestur (d. 1284).

| | | |
|---|---|---|
| 1. | [Halldóra Narfad. (d. 1324](!) | Snorri Narfason lögm. |
| 2. | Þorleifur Svartsson. | Ormur lögm. (d. 1401). |
| 3. | Ólafur tóni eldri (d. 1393). ∽ | Þorbjörg Ormsd. |

Snæfells- Hnappadals- og Mýrasýslum. 1359 varð hann lögmaður sunnan og austan og 1363 yfir allt land[1]), 1365 fór hann utan, — 1366 kom hann út með hirðstjórn yfir hálfu Íslandi í þrjú ár (1366—1368). Eptir 1375 hygg eg hann ei lögmann, en þó getur hans dóms 1385, sem eg meina héraðsdóm, yfir Þórði Jónssyni, sem höggvinn var. Og óvíst hvort hann (ɔ: Ormur) var lögmaður 1380—1381.

## Örnólfur Jónsson

er maður nefndur; hvort hann hefur verið Sturlungaættar[2]),

---

1) Þetta er rangt, Ormur hafði lögsögu aðeins sunnan og austan á Íslandi 1359—1368 og 1374—1375, en hafði aldrei lögsögu um allt Ísland, svo að það sé kunnugt. — Ormur átti Ólöfu, er verið hefur dóttir Jóns bónda hvamms, Sveinssonar (sjá hér að framan). Börn þeirra hafa verið þessi:

a. **Jón Ormsson langur,** prestur í Hjarðarholti í Dölum (d. 1410).

b. **Guðmundur Ormsson,** sjá hér síðar.

c. **Guttormur Ormsson,** bjó í Þykkvaskógi í Dölum, að því er fornar ættartölur segja; hann var veginn í Snóksdal af Þorsteini Jónssyni, á sunnudaginn í fardögum 1381 (Annálar). Guttormur hefur átt Soffíu Eiríksdóttur hins ríka á Möðruvöllum í Eyjafirði; börn þeirra voru:

aa. **Jón Guttormsson** bóndi í Hvammi (d. 1403).

bb. **Loptur ríki Guttormsson,** sjá hér síðar.

d. **Þorbjörg Ormsdóttir,** hún giptist Ólafi tóna, Þorleifssyni frá Reykjahólum, Svartssonar og bjuggu þau að Staðarhóli í Saurbæ. Þorbjörg er enn á lífi 1394 (Ann.)

Í ættatölum er þeim mjög ruglað saman, Guttormi Ormssyni og Guttormi Örnólfssyni, en það er nú sannað, að faðir Lopts ríka hefur verið Guttormur Ormsson, svo sem hér er talið.

2) Sjá um ætt hans hér að framan, við Jón Sveinsson. Hygg eg að Örnólfur hafi verið sonur Jóns Sveinssonar í Hvammi, með fyrri konu Jóns, því Örnólfur hefur verið elztur af börnum Jóns hvamms; ef hann er þeirrar ættar, sem varla sýnist efamál. Og það er auðséð, að þeir Örnólfur og Guttormur hafa verið af göfugum ættum. Hér setur Bogi þessa athugagrein neðan á blaðsíðu: »Espólín fróði meinar, að Jón faðir Örnólfs hafi verið sonur Guttorms Þórðarsonar, Hvamms-Sturlusonar. — Guttormur fór vestur með Sturlu lögmanni bróður sínum. — Eða Herdís kvinna Örnólfs

er óvíst; kvinna hans hét Herdís. Þau bjuggu í Stóra-

hafi verið afkomandi Guttorms«. En hvorki Bogi eða Espólín hafa álitið þessa skýringu um ætt Örnólfs vissa eða fullnægjandi, því að nokkru síðar, í handriti sínu af Sýslumannaæfum, við Dalasýslu, hefur Bogi ritað þannig um forfeðri Örnólfs, eptir tilgátu Espólíns: — „**Ætt Örnólfs í Stóraskógi*** (eptir ágizkun Espólíns):

1. **Örnólfur** nokkur var í Eyjafirði (fæddur circa 1150), máske kominn frá Þorvarði Örnólfssyni, sem um getur í Glúmssögu (og þeim landnámsmönnum sem hann er frá talinn); synir þessa Örnólfs voru:
 a), Jón á Möðruvöllum, nefndur í Sturlungu, og
2. b), **Þorvarður í Miklagarði** (fæddur circa 1190); hann fékk heimsókn og högg af Sturlu Sighvatssyni, þá hann, 19 vetra, flaugst á í Miklagarði um sverðið og vildi kúga bændur til að lúta föður sínum; hans son:
3. **Örnólfur Þorvarðarson** í Miklagarði (fæddur circa 1230), fór, ásamt föður sínum í Flugumýrarveizlu, þá brennan varð, 1253, en bjó í Miklagarði (líklega að dauðum föður sínum), 1255; þá Eyjólfur ofsi var fallinn á Þveráreyrum, og Þorvarður Þórarinsson bað Eyfirðinga viðtöku; — þessa Örnólfs son meinast:
4. **Jón,** fæddur circa 1268, líklega vestur farinn með Sturlu Þórðarsyni, eða undir hans hönd, þá hann gjörðist valdamaður, fyrir 1280 eða því nær. Hans son:
5. **Örnólfur Jónsson á Staðarfelli** og Stóraskógi*, fæddur circa 1320, átti Herdísi; þeirra son:
6. **Guttormur í Stóraskógi,** eptir föður sinn, fæddur circa 1349**, átti Sophíu Eiríksdóttur ríka; þeirra synir:
7. a. **Loptur ríki,** fæddur nálægt 1370 (sjá síðar).
 b. **Jón** (í **Hvammi**) **Guttormsson.** Guttormur faðir Lopts kann að hafa borið nafn Guttorms bróður Sturlu Þórðarsonar, eða máske það (nafn) hafi verið úr ætt Herdísar móður Guttorms«. — Ættfærsla þessi er getgáta Espólíns, og eigi með öllu ólík því, er séra Eggert Briem telur ætt Lopts í Tímariti bókm. félagsins (IV, 113—138) og Jón Pétursson (Tímarit J. Pét. I, 19, o.v.); er sú ættfærsla hrakin af Jóni Péturssyni sjálfum í Fjallkonunni (VI, 1889, bls. 38; sbr. og Ísl. Árt. 108, ættskrá I, III, VIII) og

*) Örnólfur bjó ekki í Stóraskógi, heldur Staðarfelli.

**) Guttormur maður Soffíu Eiríksdóttur var Ormsson frá Skarði, Snorrasonar. Þeirra synir Loptur ríki og Jón í Hvammi, sem fyr segir.

skógi[1]) í Dölum, sem fyrri nefndist Þykkviskógur. — Son þeirra hét Guttormur. Örnólfur þótti mikilmenni, og auðugur að löndum og lausafé; hann var giptur og orðinn höfðingi 1330[2]).

reynist sú skoðun J. P. óyggjandi og rétt með öllu. En Guttormur Örnólfsson, sem ættartölur telja ranglega föður Lopts ríka, var faðir Helga bónda, föður Þórðar, föður Sturlu sýslumanns, föður Orms lögmanns. Guttormur Örnólfsson mun og jafnan hafa búið að Staðarfelli, þar sem forfeður hans og niðjar bjuggu, en ekki í Þykkvaskógi, þó að ættbækur telji svo, þar sem þær rugla Guttormi Örnólfssyni saman við Guttorm Ormsson frá Skarði, föður Lopts ríka. — „**Jón Örnólfsson**“, sem hér er talinn faðir Örnólfs á Staðarfelli, er (bæði hér og hjá þeim E, Briem og Jóni Péturssyni) settur eptir getgátu, er upphaflega sýnist vera runnin frá Espólín, og þarf eigi að taka það fram, að sú tilgáta, eins og flestar aðrar tilgátur, er eg þekki, um forfeðri Örnólfs á Staðarfelli, — er með öllu óviss. — En sennilegust þykir mér sú tilgáta, að Örnólfur hafi verið sonur Jóns hvamms, eins og eg hefi bent á hér að framan.

1) Örnólfur bjó á Staðarfelli, en eigi í Stóraskógi.

2) Örnólfs er fyrst getið 1354, þegar Gyrður biskup, með samþykki Örnólfs, staðfestir máldaga kirkjunnar undir Staðarfelli (Í. F. III, nr. 40). -- 1378, á Stað í Reynisnesi, samþykkir Oddbjörg abbadís, að Narfi Sveinsson lúki klaustrinu á Reynistað þrjá tígi hundraða, er eftir stóðu af þeim fjórum tigum hundraða, er Örnólfur bóndi gaf með Ingibjörgu dóttur sinni til Reynistaðarklausturs (Í. F. III, nr. 277); af bréfi þessu sézt, að Örnólfur hefur átt Breiðabólsstað á Fellsströnd. — 3. marz 1383 að Staðarfelli, selur Örnólfur, með samþykki konu sinnar Herdísar, Guttormi syni sínum hálfa jörðina Staðarfell á Meðalfellsströnd (Í. F. III. nr. 313). — 23. apríl 1385, á Ásgeirsá í Víðidal kvittar Örnólfur Guttorm son sinn fyrir andvirði hálfs Staðarfells og hálfrar selveiðar fyrir Hellu (Í. F. III. nr. 327). Örnólfs er síðast getið, svo að vér vitum, á lífi 30. okt. 1385 (Í. F. III, 313); hann er enn nefndur í eignaskrá Staðarfellskirkju 1394 (Í. F. III, nr. 417), en eigi verður með vissu séð, hvort hann er þá enn á lífi. Börn Örnólfs hafa verið: Guttormur, Vermundur, Magnús og Ingibjörg.

A. **Guttormur Örnólfsson,** sjá hér síðar.

B. **Vermundur Örnólfsson;** hann er einn af þeim, er vitna um kaup þeirra Ásgríms ábóta á Helgafelli og Kolbeins Bene-

Um þær mundir var orðið fólk færra á Íslandi, en fyr, mest af harðærum og ófriði, svo byggðir sumar lögðust í eyði, þar á meðal dalur sá á Meðalfellsströnd, er heitir Flekkudal-

---

diktssonar, er Kolbeinn seldi ábóta Grunnasundsnes í Helgafellssveit, um 1370 (Í. F. VI, 26. bls.). Vermundur er þá orðinn prestur, en sýnist þá vera ungur. — Vermundur hefur tekið við staðnum í Hjarðarholti í Dölum, fyrir 1375 (Í. F. VI, nr. 26). — 28. apríl 1389 kemur hann við bréf á Helgafelli og sýnist þá vera klausturprestur þar (Í. F. III, nr. 366). — 1393 fær Vermundur prestur veitingu fyrir staðnum í Selárdal (Flateyjarannáll). — 1403 andaðist Þorsteinn ábóti á Helgafelli, og hefur þá Vermundur orðið ábóti eptir hann. 1405 er Vermundur ábóti skipaður officialis yfir Vestfirðingafjórðung, til Botnsár (Nýi annáll); — sama ár, 1. apríl, að Skálholti skipar Vilchin biskup Þorstein prest Svarthöfðason til þess að dæma á milli þeirra Vermundar ábóta og Guðmundar Einarssonar á Hrafnabjörgum, um það er Guðmundur hafði tekið hest undan söðli ábóta (Í. F. III, nr. 577). 28. marz 1406, á Helgafelli, staðfestir Vermundur Örnólfsson ábóti á Helgafelli og officialis Skálholtskirkju, þá skipan Gyrðs biskups, séra Snorra Þorleifssonar og séra Óla Svarthöfðasonar, um líkfærslu af níu bæjum fyrir sunnan Hitá, til Akra (Í. F. III, nr. 585). — 23. maí 1407 tekur Vermundur ábóti Jón Önsson (Auðunarson) og Járeiði Þórðardóttur konu hans í prófentu á staðinn (Í. F. VI, nr. 41; sbr. s.st. III, nr. 605). — 10. marz 1419, samþykkir og staðfestir Jón biskup í Skálholti bréf Vermundar ábóta, er fyr var getið, um líkfærslu til Akra og sóknaskipti milli Akra og Krossholts (Í. F. III, nr. 608). 21. júlí 1413 er Vermundur ábóti við bréf í Skálholti (Í. F. III, nr. 626). — 13. ágúst 1416, gerist Árni Helgason prófentumaður á Helgafelli hjá Vermundi ábóta (I. F. IV, nr. 307). — Vermundur ábóti hefur því eigi andazt fyr en um haustið, eða snemma vetrar 1416 (sbr. Nýjaannál). Sonur Vermundar ábóta mun vera:

**Óttar Vermundarson,** sem nefndur er í dómi Guðna Jónssonar, að Hjarðarholti í Dölum 3. okt. 1461 (Í. F. V, nr. 230). Frá honum mun mega rekja ættir nokkuð niður, ef til vill til núlifandi manna.

C. **Magnús Örnólfsson,** er kemur við bréf í Hjarðarholti í Dölum 12. maí 1434 (Í. F. IV, nr. 580), mun og vera sonur Örnólfs Jónssonar, en yngri mun hann hafa verið, en þeir Guttormur og Vermundur Örnólfssynir.

ur, hvar Hallur son Þórðar gufu bjó, og fæddi þar upp Hvamm-Sturlu. Téðan dal fékk Örnólfur undir jörð sína Staðarfell og eignaði kirkju þar hálfan dalinn, X hundruð. 1354 getur Örnólfs og sonar hans Guttorms[1]), er þeir gáfu gjafir Staðarfellskirkju við visitatiu Gyrðs biskups, og aptur 1377[2]), þá Örnólfur seldi Guttormi syni sínum hálfa jörðina Staðarfell, hvert kaup var bréfað og umvitnað fjórum árum síðar, að Hjarðarholti í Dölum 1381[3]); hefur Örnólfur þá verið orðinn mjög aldraður, og líklegast dáið ekki löngu þar eptir[4]).

## Guttormur Örnólfsson.

*Faðir*: Örnólfur Jónsson, áður nefndur.

*Móðir:* Herdís[5]), er kallast hústrú.

*Kvinna*:[6]) Sophía, dóttir Eiríks ríka á Möðruvöllum, Magnússonar, Brandssonar.

---

D. **Ingibjörg Örnólfsdóttir** gerist nunna á Reynistað 1378, og gefur Örnólfur faðir hennar með henni fjóra tigu hundraða til klaustursins (Í. F. III, nr. 277). — 1390 er Ingibjörg vígð til abbadísar á Reynistað (Lögmannsannáll). — Ingibjörg er síðan opt við gjörninga, og enn 10. janúar 1399 (Í. F. III, nr. 533); hún er talin að hafa andazt í Svartadauða 1403, og var síðan abbadísarlaust á Reynistaðaklaustri, til þess er Goðsvin Skálholtsbiskup skipaði þangað Þóru abbadísi 1437 (Í. F. IV, nr. 609).

1) Guttormur hefur verið ungur að aldri 1354, hafi hann þá verið fæddur, enda getur hans ekki í Staðarfellsmáldaga Gyrðs biskups (Í. F. III, nr. 40).

2) Ætti að vera 1383 (Í. F. III, nr. 313).

3) Ártalið á að vera 1385, þ. e. tveim árum síðar en gjörningurinn fór fram (Í. F. III, nr. 313).

4) Örnólfur lifir enn 30. okt. 1385 (Í. F. III, nr. 313), en líklega hefur hann andazt skömmu síðar, því að ekki vitum vér til að hann komi við gjörninga eptir það, svo að af þeim verði ráðið, að hann hafi lifað eptir 1385.

5) Það er hvergi tekið fram í gjörningum, að Herdís hafi verið móðir Guttorms, en ekki er þó ólíklegt, að svo geti verið.

6) Um konu Guttorms Örnólfssonar, er án efa með öllu ókunnugt, því að það er rangt, sem hér stendur og víða annars-

*Börn:*[1]) A. Jón (sjá hér síðar).
B. Loptur (sjá hér síðar, og Vaðlaþing),

Guttormur hefur gipzt nálægt 1364, eða nokkru fyr. Sýnist sem hann hafi búið á Staðarfelli. Hann fór utan til að framast, og þótti höfðingi, en ei allshendis jafnaðarmaður. Sýnist sem hann hafi seinast flutt að Stóra-Skógi, eptir lát föður síns Örnólfs[2]). Þorsteinn hét maður, Jónsson, og var kallaður Kirkju-Þorsteinn; hann var auðugur vel og bjó að eignarjörð sinni, Snóksdal. Þeim Guttormi og Þorsteini bar á milli út af veiði í Miðá. Börðust þeir, og fékk Guttormur sár það, er hann leiddi til bana[3]). Meina eg það til félli nálægt 1380,

---

staðar, að hann hafi átt Soffíu Eiríksdóttur. Soffía var kona Guttorms Ormssonar og voru þeir Loptur og Jón synir þeirra, en eigi Guttorms Örnólfssonar (sbr. athgr. hér að framan).

1) Börn Guttorms Örnólfssonar þekkjum vér ekki, önnur en **Helga Guttormsson,** er bjó á Staðarfelli eptir föður sinn og síðar í Sælingsdalstungu (sjá hér síðar). Af Helga eru fjölmennar ættir komnar; hann var faðir Þórðar, föður Sturlu, föður Orms lögmanns.

2) Að Guttormur Örnólfsson hafi nokkru sinni búið í Stóra-Skógi, held eg að geti eigi verið rétt. Enda mun hér án efa blandað málum um bústað Guttorms, eins og um kvonfang hans og börn, því að Bogi eignar Guttormi Örnólfssyni þá konu, er Guttormur Ormsson hefur átta, og telur hann föður Lopts ríka og Jóns í Hvammi. Hann þekkir ekki Guttorm Ormsson, en segir að sá Guttormur, er veginn var »um 1380« sé í annálum »ranglega talinn Ormsson«. — Af öllum þessum misskilningi, leiðir það, að Bogi lætur Guttorm Örnólfsson fyrst eiga bústað á Staðarfelli, en hyggur að hann hafi síðar komizt að Stóra-Skógi; en þar mun Guttormur Ormsson einmitt hafa búið, því að það er kunnugt að Stóri-Skógur (Þykkvi-Skógur) var eign Skarðverja um þessar mundir. Bróðir Guttorms Ormssonar hét Guðmundur og hefi eg áður sýnt, að dóttir hans hefur verið Þorbjörg, kona Guðna bónda Oddssonar lepps (Fornbréfasafn V, 820. bls.). Hefur jörðin Þykkvi-Skógur þannig komizt í eigu Guðna, er seldi Þykkva-Skóg Böðvari Hrafnssyni, ásamt Mið-Skógi og Harrastöðum 1427 (Í. F. IV, nr. 394). — Guttormur Örnólfsson hefur án efa búið á Staðarfelli frá því faðir hans sleppti jörð þeirri, til þess er hann dó, sem líklega hefur verið um 1400 eða litlu þar eptir.

3) Saga þessi, um deild þeirra Guttorms og Þorsteins Jónssonar, á eigi við Guttorm Örnólfsson, heldur við Guttorm Orms-

eða að vísu seinna, um 1381. Guttormur og Örnólfur faðir hans voru menn mikilhæfir.

## Jón Guttormsson.

*Faðir:* Guttormur Örnólfsson fyr nefndur[1]).
*Móðir:* Sophía Eiríksdóttir, fyrnefnd; sjá Vaðlasýslu.
*Kvinna:* Kristín Björnsdóttir Jórsalafara, Einarssonar.
*Börn,* áttu þau engin[2]).

Jón fór á unga aldri utan (um 1388[3]), og framaðist vel. En hvort hann var hér á landi, þá faðir hans féll, er óvíst. En hitt er víst, að hann var með Lopti bróður sínum, að eptirmáli föður síns[4]). Er mælt að Þorsteinn hafi verið sektaður, nærfellt um allt fé sitt, sem hafi fallið til þeirra bræðra Guttormssona. — 1392 giptist Jón Kristínu[5]) og bjó í Hvammi í Hvammssveit, til þess hann deyði í miklu plágunni 1403[6]). Er eigi ólíklegt (að) hann hafi haft völd í Dalasýslu.

---

son föður Lopts ríka (sbr. hér að framan). Hver orsök þeirrar deilu hefur verið, er nú ekki full-ljóst, en verið getur að saga þessi sé frá sönnum heimildum runnin, þótt þær heimildir sé nú glataðar.

1) Faðir Jóns var Guttormur Ormsson, sem fyr er sagt, en móðir Jóns var, sem hér segir, Soffía Eiríksdóttir.

2) Þau Jón og Kristín áttu einn son, er Jón hét, og hefur hann andazt ungur, og líklega barnlaus, fyrir 1421 (Í. F. IV, nr. 352). — Ættir verða því eigi raktar frá Jóni Guttormssyni. Kristín giptist eptir lát Jóns, Þorleifi ríka Árnasyni, og var þeirra son Björn ríki, er fjölmenn ætt er frá komin, sjá hér síðar.

3) Um þessa utanför Jóns Guttormssonar er hvergi getið, og mun þetta vera tilgáta Boga. Er þó eigi ólíklegt, að Jón hafi verið í utanferðum, meðan hann var ókvæntur, eins og títt var um sonu höfðingja og ríkra manna í þennan tíma.

4) Um hefndir þeirra bræðra, eptir föður sinn, höfum vér enga vissu, og mun þetta, eins og sögnin um sekt Þorsteins, vera skráð hér eptir munnmælum, sem eigi verða gild rök að leidd, því að góðar heimildir vanta fyrir sögu þessari.

5) Sbr. Flateyjarannál. Brullaup þeirra Jóns og Kristínar var um haustið 1392, í Vatnsfirði; þar bjó Björn Jórsalafari, faðir Kristínar.

6) sbr. Nýjaannál. Í útgáfu Dr. Gustavs Storms, af Íslenzkum

## Loptur Guttormsson.

Sjá um hans gipting og afkvæmi við Vaðlaþing[1]). Loptur fór utan á unga aldri og var á hendi tignum mönnum, svo (sem) Ólafi konungi Hákonarsyni og Margrétu drottningu, sem lét dubba hann til riddara; var hans skjaldarmerki hvítur fálki í bláum feldi[2]). Engar sagnir hefi eg af athöfnum Lopts utan lands. En þá hann spurði fall föður síns, kom hann út og hélt fram vígsmálinu á hendur Þorsteini. Er sagt hann hafi náð því mesta af fé hans, Snóksdal[3]), Skarði á Skarðsströnd[4]) og fleirum jörðum, en þó er líklegt hann

---

Annálum, Kristiania 1888, 286. bls. stendur: »Obitus . . . Nonus Guttormssonar í Hvammi«, sem er prentvilla, í staðinn fyrir: Obitus **Jóns Guttormssonar** í Hvammi«, því að hér er án efa átt við Jón son Guttorms Ormssonar, mann Kristínar Björnsdóttur úr Vatnsfirði.

1) Sjá I. bindi, bls. 157—162.

2) Hér hefur Bogi ritað á blaðrönd, þess athugagrein: »Loptur var borinn um 1360, fór utan um 1378 og bazt á hendur Margrétu drottningu; kom út um 1385, eða seinna«. — Það þarf eigi að taka fram, að ártöl þessi eru eptir tilgátu Boga, því að það er óvíst hvorttveggja, hvenær Loptur er fæddur og svo hvenær hann fór utan, en svo sýnist, sem Loptur hafi utan verið 1403, þegar Halldór prestur Loptsson gerir testamenti sitt, því að Halldór prestur kveður svo á í bréfi því, að hann gefur »bræðrum Lopts arfinn allan, ef mér (ɔ: séra Halldóri) hefur fallið eptir hann (ɔ: Lopt), en ellegar tíu hundruð hverjum þeirra« Í. F. III, 686. bls.). — Hafa menn því haldið Lopt andaðan 1403, sem bendir til þess, að Loptur hafi þá verið búinn að dvelja erlendis all-langa hríð, án þess að af honum hafi frézt til Íslands. 1406 er Loptur aptur kominn til Íslands, því að það ár kemur hann við bréf á Þingeyrum og á Ósi í Miðfirði (Í. F. III, nr. 584).

3) Að Loptur ríki hafi átt Snóksdal, held eg að sé með öllu óvíst, en hitt er víst, að Guðni son Odds lepps lögmanns átti Snóksdal, eins og hér síðar segir, og seldi Guðni jörð þá Árna biskupi Ólafssyni, fyrir Hamraenda (Í. F. IV, nr. 322). — Er það kaup bréfað á Þingvelli 1. júlí 1418.

4) Þar sem Bogi ætlar, að Loptur hafi fengið Skarð á Skarðsströnd af Þorsteini Jónssyni, í vígsbætur eptir föður sinn, þá er það án efa eigi rétt, því að Skarð hefur verið erfðaeign Lopts, og

hafi fengið Úlfrúnu dóttur Þorsteins[1]) Staðarfell, líklegast í jarðaskiptum, því Úlfrún hefur átt þá jörð eptir 1390, þá hún lúkti Staðarfellskirkju í portionsreikning, þar undirliggjandi hólma og annað fé, sem Vilkinsmáldagi um getur, og hér er óþarft að telja.

Að þessu máli útkljáðu, giptist Loptur Ingibjörgu, þá frá Eiðum, Pálsdóttur[2]). Þó meina eg að það væri ei fyr en

---

hefur hann að réttum arfi tekið það, eptir Orm föðurföður sinn látinn, og mun Ólafur bróðurson Orms, er fyrst tók við fé Orms og hélt það (sjá hér að framan), hafa andazt í Svartadauða (1403), og hefur hann því eigi haldið Skarð nema litla hríð eptir dauða Orms (d. 1401), Loptur hefur þá tekið við Skarði, svo sem öðrum erfðaeignum sínum, eptir að hann kom úr utanför, um 1404—1405.

1) Það er líklegt, að Úlfrún Þorsteinsdóttir á Staðarfelli — er verið hefur kona Helga Guttormssonar, Örnólfssonar, — hafi verið dóttir Þorsteins í Snóksdal, eins og Bogi ritar hér, sem þó mun vera eptir getgátu. Hverrar ættar Þorsteinn í Snóksdal hefur verið verður ekki með vissu sagt. En eigi er ólíklegt, að hann hafi verið af kyni Seldæla, því að Úlfrúnarnafnið, er finnst í þeirri ætt, er fágætt í öðrum ættum á Íslandi.

2) Hér ritar Bogi neðanmáls þessa athugagrein: »Bæði áður en Loptur giptist og eptir það, hélt hann við Kristínu Oddsdóttur, sem meinast dótturdóttir Sumarliða sonar Þorsteins lögmanns og hirðstjóra Eyjólfssonar. Oddur nokkur hefur átt dóttur Sumarliða; þeirra börn: 1. **Sæmundur,** sem var frændi (og giptingamaður í Grænlandi 1408) Sigríðar Björnsdóttur, er þá átti Þorsteinn Ólafsson. Og 2. **Kristín** frilla Lopts; þeirra son Sumarliði, bar nafn Sumarliða Þorsteinssonar, Eyjólfssonar«. — Að Kristín Oddsdóttir frilla Lopts ríka hafi verið dótturdóttir Sumarliða Þorsteinssonar, er án efa aðeins tilgáta Boga. Hitt er víst, að það fólk hefur eitthvað verið skilt, því að bæði benda ættnöfnin og ýms önnur atvik á það. — Dr. Jón Þorkelsson yngri hefur fyrstur manna sýnt, að Kristín frilla Lopts hefur verið dóttir Odds lepps lögmanns, en systir Guðna; má það ráða af bréfum, sem enn eru til (Í. F. IV, nr. 581; V, nr. 131). — Kona Odds lepps var Þórdís Sigurðardóttir úr Ögri (af Kollsætt). En verið getur, að Oddur hafi verið tvíkvæntur, og tímans vegna gæti hann hafa átt systur Sumarliða Þorsteinssonar, en varla dóttur hans. Hefði hún þá líklega verið fyrri kona Odds og móðir Kristínar Oddsdóttur, en slíkt er allt óvíst. Vera kann, að Sæmundur Oddsson, er kemur opt við bréf um og eptir 1408, hafi verið sonur Odds lepps. Þess skal getið, að í hyllingarbréfi Ís-

eptir 1400, því meðan plágan gekk, mun hann hafa verið í fjárútvegum sínum, sem ei gjörðu alllítið til hans mikla auðs. Að sönnu lét hann afhenda til ýmsra mikið jarðagóz (en hafði áður eignazt sumt, fyrir lítið verð). Staðarhól fékk hann Árna biskupi Ólafssyni, og Árni aptur Þorleifi Árnasyni[1]. Snóksdal seldi hann Oddi lepp lögmanni, sem fékk hann sonum sínum, Guðna og Sigurði[2]), þeir seldu hann Árna biskupi milda Ólafssyni, en hann Ara bónda Daðasyni, og var Snóksdalur síðan í þeirri ætt um 300 ár. Loptur meina eg hefði völd í ýmsum sýslum: Í Dalasýslu eptir 1400, en Vaðlaþing eptir 1415. Hann sat löngum að stórbúum sínum; framan af mun hann lengst hafa setið að Skarði og þá var það eitt sinn, er ungir drengir höfðu prikaleik á gólfi, þar Loptur

---

lendinga til Eiríks konungs af Pommern, sem gjört er á Þingvelli 1. júlí 1419, eru meðal annara nefndir: Oddur (leppur) lögmaður, Þorvaldur Oddsson, Guðni Oddsson, Sæmundur Oddsson og Sigmundur Oddsson. Gæti þeir Oddssynir allir, aldursins vegna, verið synir Odds lepps lögmanns, og er það ef til vill eigi ósennilegt. En fyrir því er þó eigi unt að færa næg rök, svo að á því verði byggt sem vissri ættfærslu.

1) Staðarhól hálfan átti Ólafur tóni Þorleifsson (d. 1393). Hann var kvæntur Þorbjörgu dóttur Orms frá Skarði, föðursystur Lopts ríka, og mun Ólafur þannig hafa fengið ½ Staðarhól í heimanmund Þorbjargar. Sonur þeirra Ólafs tóna og Þorbjargar hefur verið Árni biskup hinn mildi, er hefur erft ½ Staðarhól eptir foreldri sín. Eptir það lúkti Árni biskup Lopti Guttormssyni ½ Staðarhól, fyrir hönd Halls Ólafssonar, er verið hafði fjárhaldsmaður Ingibjargar Pálsdóttur konu Lopts ríka (Í. F. IV, nr. 312; sbr. »Dagskrá« III, nr. 49—50). — Það er því rangt sem hér segir, að Árni biskup hafi lúkt Þorleifi Árnasyni jörðina Staðarhól. Hitt er víst, að Ormur son Lopts ríka fékk Staðarhól að gjöf hjá föður sínum 1430 (Í. F. IV, nr. 446); en síðan erfði Orm Solveig dóttir Þorleifs Árnasonar, er Ormur hafði átta. En eptir Solveigu fékk Staðarhól Loptur son þeirra Orms (d. 1476). Síðan hélzt Staðarhóll lengi í ættgrein þeirra.

2) Um Snóksdal, sjá hér að framan. Sigurður, sem hér er nefndur sonur Odds lepps, finnst að eins nefndur í ættatölubók séra Jóns á Lambavatni (frumrit í folío, 65. bls.). Sigurður son Daða bónda, Arasonar Daðasonar, átti Snóksdal seint á 15. öld og bjó ýmist þar, eða í Bjarnarhöfn í Helgafellssveit.

gekk um, og sló þá einn þeirra af óvilja á fót Lopts, svo honum varð dátt við. — Hét sá Illugi. Þá sagði Loptur: »Þú slær ógætilega piltur«. Faðir piltsins afsakaði son sinn, sem bezt hann gat, með forlátsbón. Loptur mælti: »Það er ei búið með það; þú munt einhvern tíma, ef þú lifir, gera mér til móðs«. Sá piltur komst seinna í kærleik við Ólöfu dóttur Lopts[1]).

Þá Loptur eldist meir, hélt hann til á Möðruvöllum í Eyjafirði, þá hann var ei að útreiðum millum búa sinna; fylgdu honum þá jafnast 18 sveinar, því þá þótti stórmennska að ríða margmennur. Eptir 1420 afhenti hann Ólöfu dóttur sinni Skarð og aðrar eignir, er hann átti vestra, en var sjálfur fyrir norðan land og mun optast þá hafa haft þar léni.

## Ari Daðason.

*Faðir:* Daði, er kallaðist Dalaskalli[2]).

---

1) Hér er átt við Illuga svarta, sem munnmæli telja föður Sigvalda langalífs, en bæði saga þessi, og svo það, að Illugi hafi verið faðir Sigvalda, er mjög vafasöm, og eins og tekið hefur verið fram í athugagrein Dr. Jóns Þorkelssonar yngra við nafn Sigvalda langalífs, í registrinu við V. bindi hins íslenzka fornbréfasafns (sbr. og athugagrein mína við Biskupasögur J. H. (1903) 69. bls.), — finnast óyggjandi rök fyrir því, að Sigvaldi langalíf hefur sjálfur talið sig Gunnarsson, en eigi Illugason (Í. F. V, 503 og 506. bls.).

2) Kenninafnið Dalaskalli er optast í ættatölum, svo sem hér, haft um Daða föður Ara í Snóksdal, en faðernis hans er hvergi getið í ættbókum, svo að eg viti og ættbálkur Snóksdæla endar jafnan á honum. Í nokkrum ættbókum hefi eg séð kenninafn þetta eignað Daða (yngra) Arasyni Daðasonar, og er það að ýmsu leyti sennilegra, því að Daði Arason bjó lengi í Dölum og var mjög kunnur maður á sínum tíma. Hefur hann orðið gamall mjög og lifað fram yfir 1500. En um Daða föður Ara er hvergi neitt ritað, svo að kunnugt sé, í yngri sagnaritum, og hafa menn fljótt gleymt honum. Er þó varla efamál, að ætt hans hefur verið göfug, þótt nú sé hún ókunn, því að niðjar hans hinir næstu urðu hirðstjórar sumir, en aðrir sýslumenn og lögréttumenn. Um ætterni Daða, skal hér geta þess, að líklegt er að **Helgi Daðason** — sem Flateyjarannáll segir að andazt hafi 1371, — eigi skylt við þetta mál, og tímans vegna gæti hann verið faðir Daða föður Ara, — en Daði Helgason finnst hvergi nefndur um þetta leyti, enda ætla

*Kvinna:* Þórunn (al. Oddný Ásbjarnardóttir) tvígipt, náskyld

---

eg líklegra, [að Helgi Daðason (d. 1371) hafi verið móðurbróðir Daða föður Ara í Snóksdal, eða náskyldur honum á annan hátt. Það er víst, að þeir Daði Arason og Sigurður son hans áttu jarðeignir í Húnavatnsþingi, og að Sigurður Daðason hafði þar alllengi sýslu. Gæti það bent til þess, að þeir feðgar væri norðlenzkir að ætt, jafnvel þótt þeir síðar fengi óðul í Dölum og um Snæfellsnes, því að kona Ara Daðasonar var kynjuð af Snæfellsnesi og úr Dölum, sem síðar skal sýnt. — **Daði Loðinsson** kemur við bréf um landamerki Marðargnúps í Vatnsdal, gert að Seltóptum fyrir Öxlum (í Vatnsdal) 11. sept. 1369 (Í. F. III, nr. 204); hann er þar síðastur gjörningsvotta, og mun því hafa verið þeirra yngstur. Þó mun hann naumast fæddur síðar en um 1340. Faðir Daða mun vera **Loðinn Skeggjason,** (f. c. 1320); hann hefur orðið gamall maður. Loðinn gerist prófentumaður á Reynistað 1394 (Í. F. III, nr. 408—409); gefur hann þangað með sér jörðina Heiði í Göngu-skörðum. Þessi munu vera börn Loðins:

A. **Daði Loðinsson** (fyr nefndur), [f. c. 1340, d. c. 1400?].

B. **Helga Loðinsdóttir,** kona Jóns Eyjólfssonar bónda í Húnavatnsþingi; þau gerðust prófentumenn á Þingeyrum 1394, og gáfu með sér til klaustursins jarðirnar Sauðadalsá og Þremur á Vatnsnesi (Í. F. III, nr. 410, 415).

C. **Ólafur Loðinsson** á Torfalæk í Húnavatnsþingi; hann lifir enn 16. des. 1411 (Í. F. III, nr. 617).

Sonur Daða Loðinssonar mun vera:

**Einar Daðason** bóndi í Hvammi í Miðfirði 1384—1409, sýnist hafa flutt þaðan vestur í Dalasýslu um 1410 (Í. F. III). Einar mun vera fæddur um 1360.

Hafi Daði Loðinsson orðið gamall og verið tvíkvæntur, mætti vel standast tímans vegna, að þeir hefði einnig verið synir hans:

**Ari Daðason** (fyr nefndur; fæddur c. 1380 eða fyr, enn á lífi 1442) — og

**Páll Daðason,** er kemur við bréf á Þingvelli og á Munkaþverá 30. júní 1431 og 1. maí 1432 (Í. F. IV, nr. 504).

Þó að tilgáta þessi, um ætt Daða föður Ara í Snóksdal, sé allvafasöm, er það ýmislegt, sem sýnist benda á að þetta muni sanni næst, en að líkindum verður það þó aldrei fullsannað, að Daði Loðinsson sé sami maður og Daði faðir Ara. Ósennilegra þykir mér, að **Daði Brynjólfsson,** er uppi var í Skagafirði litlu fyrir

Árna biskupi Ólafssyni (er kallaðist að viðurnefni [hinn] mildi[1]).

1400*, hafi verið faðir Ara í Snóksdal, því að ekkert bendir í þá átt, að Ari hafi verið kynjaður úr Skagafirði. Hins vegar sýnist líklegt, að flutningur Einars Daðasonar vestur í Dalasýslu um 1410, standi að einhverju leyti í sambandi við það, að Ari Daðason hefur þá verið farinn vestur þangað og kvænst um sama leyti** eða litlu eptir 1400, eptir því sem aldur barna hans bendir til.

1) Þetta stendur í mörgum ættbókum, að kona Ara héti Þórunn, og væri náskyld Árna biskupi Ólafssyni hinum milda. Nokkrar ættbækur telja hana Þórarinsdóttur, sem gefur grun um, að hér sé málum blandað, því að síðari kona Daða Arasonar hét Þóra Þórarinsdóttir, eins og hér síðar segir. Mér er því grunur á, að hér sé farið feðga vilt, og að kona Ara Daðasonar sé hér rangnefnd, enda er Bogi í efa um þetta, því að hann bætir þeirri athugagrein við, neðanmáls, — sem hér er lokuð í svigum, — að kona Ara sé af sumum talin »Oddný Ásbjarnardóttir«. En þetta nafn er einnig rangt, eptir því sem finnst í dómi Guðna sýslumanns Jónssonar, dæmdum að Hjarðarholti í Dölum 3. nóv. 1461; þar sem Loptur Ormsson kærir til Kálfs Pálssonar, vegna umboðs þess, er Loptur hafði, fyrir hönd Sesselju Aradóttur, — að Kálfur héldi peninga, er Gunnar Bjarnason*** taldi sér fallið

*) Daði Brynjólfsson kemur við bréf á Reykjum í Tungusveit í Skagafirði 4. júní 1377 (Í. F. III, 319. bls.), og á Ökrum í Blönduhlíð 13. des. 1392; þar sem Björn Brynjólfsson gerir eignaskipti á milli barna sinna (Í. F. III, nr. 398); — hefir Daði verið bróðir Bjarnar Brynjólfssonar, — sonur Brynjólfs hins ríka á Ökrum (d. 1381); Bjarnarsonar prests, Brynjólfssonar.

**) Daði son Ara mun fæddur um 1410—c.1415; hann er fulltíða 1442. Torfi Arason hefur verið nokkru eldri, líkl. fæddur um 1400; hann er án efa bróðir Daða Arasonar.

***) Afskriptunum af dómi þeim, frá 1461, sem hér er vitnað til, ber eigi saman um föðurnafn Gunnars, og systkina hans, Páls og Guðríðar. Dómabókin *a* (Vatnshornsbók), sem rituð er fyrir 1608) nefnir föður þeirra systkina ýmist **Bjarna** eða **Björn** (sbr. **Bjarna-** eða **Bjarnar-**son og -dóttir), en aldrei **Ásbjörn**, svo sem hann nefnist optast í hinni yngri afskript dómsins, frá c. 1700 (AM. 211 c. 4to). Frumrit dóms þessa er nú glatað, og verðum vér því aðeins að hlíta hinum mismunandi afskriptum hans. Eg hefi áður látið þá ætlun mína í ljósi, að faðir Gunnars, og þeirra Páls og Guðríðar, hafi verið „**Bjarni**" **Óttarsson**, er kemur við bréf á Hólum í Hjaltadal 31. maí 1417, og sýnist hafa verið sveinn Árna biskups milda, og þá í ferð með honum

*Son*: Daði, kallast sýslumaður, í sumum ættartöl-

---

hafa eptir Pál prest Bjarnason, bróður sinn skilgetinn; en Guðríði Bjarnadóttur hafði fallið arfur sá eptir Gunnar látinn. Hafði Guðríður Bjarnadóttir síðan gefið arf þennan allan Sesselju Aradóttur, dóttur sinni, með samþykki Daða sonar síns; en Sesselja hafði fengið Lopti Ormssyni umboð til þess, að kalla til arfsins í hendur Kálfi syni Páls prests, er taldi arfinn eign Ara sonar síns. En Ari Kálfsson dæmdist frá arfinum, vegna meinbuga þeirra, er töldust á hjónabandi foreldra hans, Kálfs og Steinunnar Steinþórsdóttur (Í. F. V, nr. 230). Daði sá er dómurinn kallar son Guðríðar Bjarnadóttur, hlýtur að vera **Daði Arason,** því að Sesselja dóttir Guðríðar (og því systir Daða) er talinn Aradóttir og hafa þau Daði og Sesselja verið skilgetin systkini, bæði að föður og móður. Guðríður Bjarnadóttir móðir þeirra hefur því, án alls efa, verið kona Ara Daðasonar í Snóksdal. Ari hefur því andazt fyrir 3. nóv. 1461, því að hann er látinn, þegar Guðni dæmir dóm þennan, en á lífi er Ari 1442 (Í. F. IV, nr. 667), og er þá Daði son hans orðinn fulltíða (f. c. 1415?).

---

norður um land ásamt Gunnari Bjarnarsyni, sem þar er næsti gjörningsvottur á eptir Bjarna, og því líklega sonur hans, þótt rithátturinn **Bjarnarson** komi eigi að öllu leyti heim við það, að hið rétta nafn föður Gunnars hafi verið **Bjarni**; en mér virðist þetta mjög líklegt. Eg hygg að missögn handritanna um föðurnafn þeirra Gunnars, geti verið runnin af því, að hið rétta nafn föður þeirra hafi verið **Ásbjörn,** er síðar hafi orðið úr því tæpinafnið **Björn,** og loksins **Bjarni,** er hann hefur optast verið nefndur (sbr. athugagrein mína við nafn Gunnars Bjarnasonar, í registri hins íslenzka Fornbréfasafns (V. bindi, 898. bls., athgr. 1)). — Þessu til sönnunar, skal eg geta þess, að í frumrituðu bréfi, frá 8. jan. 1446, sem er kaupmálabréf Ólafs (tóna) Geirmundarsonar og Sigríðar Þorsteinsdóttur, eru nefndir meðal festingar-vottanna „séra Páll Bjarnason, ... Gunnar Bjarnason (og) Þórarinn Bjarnason“ (Í. F. IV, 674. bl.), og eru þeir Páll prestur og Gunnar án efa hinir sömu, sem nefndir eru í dóminum frá 1461, er eg hefi áður getið. Þórarinn Bjarnason hefur verið bróðir þeirra, faðir þeirra Bjarna, Þorsteins prests, Stefáns og Þorgríms, er koma við bréf á seinna helmingi 15. aldar. Bjarni Þórarinsson hefur án efa heitið eptir afa sínum, og má af því ráða, að **Bjarni** sé hið rétta föðurnafn þeirra Gunnars, Páls prests, Guðríðar konu Ara Daðasonar, og Þórarins, föður Bjarna á Brjánslæk, er átti Solveigu dóttur Guðmundar ríka Arasonar. Eg hefi því hér allsstaðar ritað þá **Bjarna-sonu,** Gunnar og Pál prest, en hvorki **Bjarnar-** eða **Ásbjarnarsonu,** því að sá ritháttur á föðurnafni þeirra mun aðeins vera afbökun frá hinu rétta og upphaflega.

um[1]), átti fyr Þorbjörgu dóttur Bessa sýslumanns Einarssonar (sjá Húnavatnsþing). Börn:

A. Þórunn átti (um 1500) Guðmund Finnsson frá Ökrum. Börn:
  a. Daði sýslumaður, átti Guðrúnu (sjá Snæfellsnessýslu.
  b. Halldór í Hlíð í Möðrudal, átti Valgerði. Börn:
    aa. Þórður í Tungu.
    bb. Guðmundur.
    cc. Sigríður.
    dd. Ingibjörg (sjá Snæfellsnessýslu).
  c. Ingiríður, átti fyr séra Ólaf Guðmundsson í Hjarðarholti (sjá Strandasýslu).
    Seinna (c. 1550) átti hún Pétur sýslumann Einarsson[2]), sjá þar um Gullbringusýslu.
  d. Þorbjörg Guðmundardóttir, átti Ólaf Guðmundarson í Bolungarvík. Börn:
    aa. Finnur.
    bb. Ólafur.
  e. Bjarni, átti Òlöfu Björnsdóttur. Börn:
    aa. Guðmundur á Dunki, faðir Ara s.st., Bjarna í Bæ, Jóns á Hróðnýjarstöðum, Hallgerðar í Garpsdal og Þjóðhildar.
    bb. Auðunn, átti Hróðnýju Bjarnadóttur. Börn:
      aaa. Guðný.
      bbb. Jón.
    cc. Auðunn annar, átti Katrínu Bjarnadóttur.
  f. Guðrún Guðmundardóttir, átti Helga Helgason. Börn:
    aa. Arnór.
    bb. Ólafur.
    cc. Þórunn.
  g. Hálfdán Guðmundarson (laungetinn). Börn:

---

1) Daði var sýslumaður í Snæfellsness- og Hnappadalssýslu »á milli Hítarár og Skraumu«) 1459 (Í. F. V, nr. 169).

2) Pétur var bróðir Marteins biskups.

aa. Finnur á Eyri í Bitru.
bb. Jón.

B. Sigurður sýslumaður í Húnavatnsþingi (sjá þar um hann).

C. Elín, átti Orm Illugason á Dunki; bl.

D. Matthildur; hennar son: Bessi á Auðólfsstöðum.

E. Sæunn, átti Sæmund; þeirra son Jón[1]).

Daða seinni kona var Þóra Þórarinsdóttir, sem þar af sézt, að 1502, mánadag næstan fyrir Pétursmessu og Páls, á prestastefnu í Miðdal í Laugardal, lét Stephan biskup ganga dóm, um hjónaband Daða Arasonar og Þóru Þórarinsdóttur; voru þau að þriðja og fjórða, og höfðu átt börn. Hafði Daði fest Þóru, en ekki látið lýsa við kirkju. Voru börn þeirra dæmd óarfgeng, máske einhver af þeim áðurtöldu.

Ari Daðason gerðist sveinn Árna biskups milda og fékk Snóksdal hjá honum, og bjó þar síðan. Ari meinast og hafa haft umboð Árna biskups í Dalasýslu 1418, og máske í fleirum sýslum. En hvað lengi hann hefur haft sýsluumboð, eptir það Árni biskup fór utan 1419, er dulið, eins nær Ari deyði, eða hvað merkilegt er um hann að vita[2]).

1) Sbr. Sýslm.æf. I, 447—449, þar sem niðjar Bessa sýslumanns Einarssonar eru taldir.

2) Ari Daðason hefur búið í Snóksdal, eins og hér er sagt, og hefur hann verið auðugur bóndi; fyrst finn eg hann nefndan í tólf manna dómi, er Ormur Loptsson »hirðstjóri norðan og vestan á Íslandi«, nefndi á alþingi 30. júní 1436, um mál þeirra Helga lögmanns Guðinasonar og Nikuláss Snæbjarnarsonar, út af jörðunni Hvalsnesi á Rosmhvalanesi. Er Ari nefndur næstur fyrsta dómsmanni, og er af því auðráðið, að hann hefur verið með fremstu og göfugustu lögréttumönnum, er þar sátu í dómi, og eru þó flestir þeirra merkir menn, og kunnir af öðrum gjörningum (Í. P. IV, nr. 599). — 1442, á Helgafelli, votta þeir Ólafur prestur Eyjólfsson, Ormur Loptsson, Ari Daðason, Daði Arason og Þorsteinn Jónsson, að þeir hafi séð og yfirlesið samning þann, er Kristín Björnsdóttir úr Vatnsfirði gerði við lögarfa Þorleifs Marteinssonar, 4. jan. 1428, um jörðina Víðidalstungu (Í. F. IV, nr. 667). Ari hefur andazt litlu fyrir 1461, að því er sýnist, sjá athugagrein hér að framan. Börn Ara og Guðríðar Bjarnadóttur (sjá hér að framan) hafa verið:
A. **Torfi Arason** hinn ríki, hirðstjóri norðan og vestan á Íslandi 1450—dó 1459; hann gerðist og riddari og aðalsmaður 1450, en

Margir fleiri hafa máske haft sýslur, hvar um eg hefi engar sagnir.

Það getur verið, að téður Ari hafi ei verið utan umboðsmaður Lopts ríka í Dalasýslu nokkra hríð, eins og Daði sonur Ara[1]).

## Einar Þorleifsson[2]).

*Faðir*: Þorleifur sýslumaður Árnason (sjá Ísafjarðarsýslu).

---

kemur fyrst við gjörninga 1445. Torfi bjó að Ökrum, eptir Helga lögmann Guðinason, og átti Akra-Kristínu, dóttur Þorsteins lögmanns Ólafssonar. Hún var þá ekkja eptir Helga, er Torfi átti hana. Dætur þeirra voru þær Guðrún og Málfríður, sem fjölmennar ættir eru frá komnar.

B. **Daði Arason** sýslumaður Snæfellinga, kallaður optast Dalaskalli (sjá og hér að framan).

D. **Sesselja Aradóttir;** hún er nefnd í dómi Guðna sýslumanns Jónssonar 3. nóv. 1461 (sjá hér að framan, og Fornbréfasafn V, nr. 230; hún er þá enn á lífi. Ekki er mér kunnugt um giptingu hennar eða niðja.

1) Eg hygg að Ari hafi haft umboð Orms Loptssonar hirðstjóra, sem sýslumaður í Dölum um 1436 og þar eptir; sjá hér að framan. — Að Daði Arason hafi haft umboð Lopts ríka, getur eigi verið rétt, vegna aldurs hans, en hafi Daði haft sýsluumboð í Dölum, þá hefur það verið um 1456, þegar Torfi bróðir hans hafði hirðstjórn.

2) Um Einar Þorleifsson, sjá Húnaþing (I. bindi 442—446. bls.), og Strandasýslu (276. bls. hér að framan); sbr. Safn I, 670, II, 649—650. Einars er fyrst getið 1445, að hann er í jarðakaupum við Eirík son Lopts ríka. Selur Einar Eiríki jörðina Auðbrekku í Hörgárdal og Steinstaði í Öxnadal, fyrir Skarð í Langadal, Yzta-Gil, Mýrar, Harrastaði og Bakka (Í. F. IV, nr. 710). 1446 tók Einar junkæri Þorleifsson við hirðstjórn norðan og vestan á Íslandi, eptir Orm hirðstjóra Loptsson mág sinn, er hefur andazt þá um veturinn. 10. maí 1446, á Sveinsstöðum, dæmir Einar Þorleifsson, »hirðstjóri norðan og vestan á Íslandi«, Guðmund Arason útlægan, fyrir rán og heimsóknir, er hann veitti bóndum í Húnavatnssýslu í norðurreiðinni (1427) (Í. F. VII, nr. 6; Sýsl.æfir II, 268—269. bls.; sbr. Í. F. IV, nr. 724). Gottskálksannáll segir og að Einar hafi tekið við hirðstjórn 1446, og hið sama segir Björn á Skarðsá (Ann. Björns I, 36). 2. des. 1446 tekur Einar

*Móðir*: Vatnsfjarðar Kristín Björnsdóttir).

---

Þorleifsson eið af þrem mönnum, um landamerki Reykja, Bergsstaða og Torfustaða í Miðfirði, og fer eiðtakan fram á Þingeyrum (Í. F. IV, nr. 730). — 9. sept. 1447, í Viðey, skipta þeir jörðum, Einar Þorleifsson og Steinmóður ábóti Bárðarson í Viðey. Selur ábóti Einari þessar jarðir: Böðvarshóla og Hörghól í Vesturhópi, Vatnshorn og Vatnshornshóla í Línakradal, — fyrir Voga, Hlöðunes, Ásláksstaði, Hnarrarnes tvenn, Breiðagerði, og 10 hundruð í Ottastöðum á Suðurnesjum (Í. F. IV, nr. 739). 17. jan. 1447, í Bólstaðarhlíð, dæmir Einar »hirðstjóri« Þorleifsson Jóni Styrssyni jörðina Bólstaðarhlíð til arfs eptir foreldra sína (I. F. V, nr. 24). 25. marz 1448 selur Einar Þorleifsson Bessa Einarssyni jörðina Héraðsdal í Tungusveit, fyrir Silfrastaði í Blönduhlíð (Í. F. V, nr. 26). 8. maí 1448 fær Kristín Björnsdóttir, með samþykki Einars sonar síns, Þorleifssonar, séra Ólafi Ísleikssyni, jörðina Kjaransvík í Aðalvík (Í. F. IV, nr. 745). 16. febr. 1449 fær Einar Hól í Bolungarvík, Mýdal, Tungu, Hlíðir tvær, Hraun tvö, Bakka tvo, Breiðaból, Keflavík og Botn í Súgandafirði, hjá Bessa bónda Einarssyni, fyrir Reyki í Tungusveit, Steinstaði, Merkigarð og Ánastaði, Ýrarfell, Harrastaði, Bakka og Mýrar. Bréf um kaup þetta er gert á Hóli í Bolungarvík (Í. F. IV, nr. 779). 10. marz 1451 nefnir Kristín Björnsdóttir þá Björn og Einar sonu sína, í gjafabréfi sínu til Ólafs Jónssonar í Æðey, er hún gefur honum í þjónustulaun jörðina Reykjarfjörð í Arnarfirði (Í. F. V. nr. 71). 25. sept. 1453 getur Einars enn við tvo gjörninga viðvíkjandi kaupi á jörðunum Eyvindarstöðum og Guðlaugsstöðum í Blöndudal (Í. F. V, nr. 101 og 102); sýnist Einar þá vera enn á lífi; en það haust hefur hann án efa andazt, fyrir 11. október að því er sýnist, — því að þá selur Björn Þorleifsson, bróðir Einars, Agli Grímssyni Eyvindarstaði í Blöndudal og 1/2 Reyki í Hrútafirði (Í. F. V, nr. 105); þetta sýnir, að Björn hefur þá verið búinn að taka arfinn eptir Einar, því að Einar hafði átt Eyvindarstaði. Það er því rangt, sem stendur í Gottskálksannál. um dánarár Einars, þar sem andlát hans er sett við árið 1473 (Ann.[2] 372). Einnig er atburður þessi rangt árfærður í Hirðstjóraannál (Safn II, 649—650) og í Árbókum (II, 61); þar sem andlát Einars er fært til ársins 1463, því að þá hefur Einar verið andaður fyrir 10 árum. Þetta hefi eg áður bent á í registri við hið Íslenzka Fornbréfasafn, við nafn Einars Þorleifssonar (Í. F. 868. bls.) Einar hefur verið höfðingi mikill og valdamaður, en að hann hafi nokkurn tíma haft sýslu í Dölum, tel eg vafasamt, og mun það aðeins tilgáta Boga, nema að því leyti, að Einar hafði hirðstjórn um Norðlend-

*Launbörn*, er ritað að Einar hafi átt, og er annað þeirra

---

inga og Vestfirðingafjórðung. Hitt er víst, að Einar hefur haft sýslu í Húnavatnsþingi á árunum 1445—1447, en eptir það sýnist svo, sem Einar hafi optast dvalið á Vesturlandi, og mun hann því án efa hafa haldið Ísafjarðarsýslu á árunum 1448—1451, eða ef til vill allt til þess er hann dó (1453). Hefur hann á þeim árum optast setið í Vatnsfirði, eða á Hóli í Bolungarvík, eptir því sem ráða má af bréfum frá þeim tímum.

Sýslumannaröðin í Dalasýslu er hér mjög rugluð og á reiki, hjá Boga og vantar víða í röðina menn, sem ljóst er af Annálum og skjölum að hafa haft sýslu í Dölum, fyrir, um og eptir 1400, og skal eg hér í stuttu máli geta hinna helztu, í þeirri röð er eg ætla réttasta.

### Smiður Andrésson

var skipaður hirðstjóri um allt Ísland, af Magnúsi konungi, 1360. og kom út 1361 (Ann); hann hefur því tekið við hirðstjórn yfir Vestfirðingafjórðungi eptir Jón Guttormsson (sjá hér að framan bls. 258 og 440), er hafði hirðstjórn um Norðlendinga og Vestfirðingafjórðung 1358—1360. Smiður naut eigi lengi valda þeirra, því að hann var veginn á Grund í Eyjafirði 8. júlí 1362. Eptir Smið tók við hirðstjórn um Norður- og Vesturland.

### Ólafur Pétursson

»bóndi« í Gnúpufelli, kom út með hirðstjórn og sýslu um Vestfirðinga- og Norðlendingafjórðung 1364, en fór utan eptir alþing 1365 (sjá um Ólaf við Strandasýslu, bls. 258, hér að framan).

### Teitur Pálsson

(sjá hér að framan, og við Strandasýslu, bls. 259 hér að fr.), hafði hirðstjórn norðan og vestan 1365, eptir brottför Ólafs.

### Ormur Snorrason

»bóndi« á Skarði, hefur tekið við hirðstjórn norðan og vestan, eptir Teit, 1366, og haft þau völd til 1368 (sbr. hér að framan bls. 442, athgr. 1, og Gottskálksannál).

### Skúli Þórðarson

Flosasonar, tók sýslu um Vestfirðingafjórðung 1368 (Gottskálksannáll). Skúli hefur sleppt sýsluvöldum og hirðstjórn 1370 (sjá Strandasýslu, bls. 259—260).

nefnt **Þuríður**, er upp hafi alizt hjá Ólöfu ríku á Skarði og

---

**Þorgautur Jónsson**

kom út með hirðstjórn um allt land, árið 1370*. 1373 fer Þorgautur hirðstjóri utan, með Skúla Þórðarsyni (Gottskálksannáll). — 1374 hefur Þorgautur komið út, og haft sýslu í Húnavatnsþingi að minsta kosti, því að það ár fangaði Þorgautur þann mann út af Þingeyraklaustri, er Einar dyntur hét (Flateyjarannáll). Þorgautur bóndi andaðist 1375 (Gottskálksannáll). — Það er enginn efi á, að Þorgautur hefur á þessum árum haft völd, eða skipað umboðsmenn í Dalasýslu, eins og annarsstaðar á Íslandi. Er eigi ólíklegt, að **Ormur** bóndi **Snorrason** hafi einkum haft Dalasýslu, sem umboðsmaður, í þennan tíma, og svo **Guttormur sonur Orms** (d. 1381) og **Guðmundur Ormsson** (sjá um hann Í. F. V, 820. bls.) [um 1386—1388]. Guðmundur var yfirgangsmaður mikill. Dóttir hans hefur verið **Þorbjörg**, kona Guðna bónda Oddssonar lepps.

**Ólafur tóni Þorleifsson** (hins auðga, frá Reykjahólum, Svartssonar, Þorleifssonar), bjó á Staðarhóli í Saurbæ. Hann átti Þorbjörgu dóttur Orms frá Skarði, Snorrasonar lögmanns, Narfasonar. Ólafur hefur verið auðugur bóndi, og hefur án efa haft völd nokkur í Dalasýslu. Ólafur gaf kirkjunni á Staðarhóli hálfar Bjarneyjar á Breiðafirði (Í. F. IV, 156). Hann drukknaði í Steinólfsdalsá á Dýradag 1393 (Gottskálksannáll og Flateyjarannáll). Börn þeirra Ólafs og Þorbjargar hafa verið þessi:

1. **Árni Ólafsson** hinn mildi, síðar biskup í Skálholti; hann erfði $^{1}/_{2}$ Staðarhól eptir föður sinn og fékk hann síðan Lopti ríka frænda sínum, syni Guttorms bónda í Þykkvaskógi, Ormssonar frá Skarði**. Árni var mikilmenni hið mesta. Hann fór utan

---

*) Gottskálksannáll og annálsbrot frá Skálholti. Flateyjarannáll segir að útkoma Þorgauts yrði árið 1371, en hitt mun réttara.

**) Eg hefi getið þess hér að framan, að Jón háyfirdómari Pétursson hefur sýnt, að Guttormur faðir Lopts ríka hefur verið Ormsson, en eigi Örnólfsson, — og þó að eg álíti sannanir hans í því atriði órækar, — skal eg bæta því við, að séra Jón Ólafsson á Lambavatni segir beinlínis, að Guttormur faðir Lopts ríka hafi verið Ormsson, og ritar þannig um ætt Lopts í ættartölubók sinni:

„**Möðruvallaætt**

. . . , **Eiríkur ríki** (hvers andlát daterað er í múkanna annálum 1382) var sonur Magnúsar á Svalbarða, Brandssonar. Kvinna Eiríks var Ingiríður Loptsdóttir, Þórðarsonar. Móðir Lopts [Þórðarsonar] var Málfríður dóttir Árna og Ásu. Systir Ingríðar var Bergljót Lopts-

verið þaðan numin af launsyni Ólafar, *Sigvalda langalífi*, sem

1419, og kom eigi út síðan til Íslands. Er mælt að honum væri borið eitur í drykk og að hann hafi andazt með þeim hætti erlendis.

2. **Guðrún Ólafsdóttir;** hennar maður er í ættartölum talinn Geirmundur Herjólfsson, bróðir Hvala-Einars, þess er kom út með Svarta-dauða. Geirmundur kemur við bréf 1417—1449. Synir þeirra Guðrúnar hafa verið: — Árni (bréf 1444), — Einar (bréf 1458), — Ólafur tóni hinn yngri, — og Sigurður, faðir Odds á Hvoli í Saurbæ.

3. **N. N. Ólafsdóttir;** hefur verið móðir Helga lögmanns Guðnasonar, því að hann var, samkvæmt vitnisburði Jóns prests Kárasonar, systursonur Árna biskups hins milda (Í. F. IV, nr. 592). — Nafn þessarar dóttur Ólafs tóna, er óvíst, og svo það, hver maður Guðni faðir Helga lögmanns hefur verið. **Guðni Sigurðarson,** lögmanns Guðmundarsonar, — og Solveigar Magnúsdóttur frá Svalbarði (Bisk.s. II, 416), gæti verið faðir Helga, og þykir mér það líklegast, eða **Guðni Sæmundarson,** er kemur við bréf á Flugumýri í Skagafirði 19. jan. 1399 (Í. F. III, nr. 533, bls. 641); — sýnist mér hinn síðarnefndi líklegri til að geta verið

dóttir.[a] Börn Eiríks ríka Magnússonar á Möðruvöllum og Ingiríðar Loptsdóttur, voru:

**Sophía Eiríksdóttir,** kvinna Guttorms Ormssonar (hver eð meinast sá sami hvers vígs að getur í þeim gömlu annálum 1381). Þeirra synir voru þeir Jón og Loptur. Þessi er kallaður Loptur ríki á Möðruvöllum, — þó sumir nefni Guttorm Örnólfsson og Herdísi hans foreldra, — því að þetta styðja bæði ættarnöfnin, og svo samkvæmi tímans (**Eiríkur** — **Sophía**). — Á millum Guttorms andláts og Lopts ríka, hafa liðið nær 55 ár, því Loptur ríki dó, og hans kvinna Ingibjörg, 1436.[b] .... Hans fylgju kona Kristín Oddsdóttir, við hvörri hann átti sína IV launsyni: Orm, Ólaf, Sumarliða og Skúla...... Börn Lopts Guttormssonar og Ingibjargar: Þorvarður, Eiríkur, Ólöf, Sophía". [Ættatölubók Jóns prests Ólafssonar, í frumriti, eign Hannesar ritstjóra Þorsteinssonar, bls. 285]. — Bók þessi er enduð „Vítusmessumorgun 1681". Þetta er hin elzta heimild, sem nú þekkist, fyrir því, að Guttormur Ormsson hafi verið faðir Lopts ríka, og hefi eg því hér látið prenta klausu þessa orðrétta eptir nefndri bók.

a) Nefnd í Vestfirðinga-ártíðaskrá (Ísl. Árt. 117).

b) Á að vera 1432, en ártalið 1436 stendur ranglega í flestum eða öllum hinum yngri ættatölum og annálum; — en bréfin sýna, að Loptur dó 1432, en ekki 1436.

hafi farið með hana austur á Síðu og þar gipzt henni og

faðir Helga lögmanns, sem mun fæddur litlu fyrir 1400. Enda bjuggu þeir í Skagafirði, Helgi lögmaður og Jón bróðir hans. **Sæmundur** faðir Guðna, gæti verið Sæmundur bóndi á Svalbarði (d. 1422), Þorsteinsson, Steinmóðarsonar, ef Guðni er eigi of gamall til þess að slíkt geti staðizt. En svo sýnist, sem Guðni sé fremur ungur 1399, því að í nefndum gjörningi er hann ritaður síðastur vottanna, er allir hafa verið virðingamenn.

4. **Þorkell Ólafsson,** prestur í Reykjaholti 1415—1444, prófastur í Húnavatnsþingi 1415—1419, og officialis Skálholtsbiskupsdæmis 1419—1430, eða lengur. Börn hans: Þorvaldur, Helgi, Gunnlaugur Páll og Þórunn; eru ættir frá þeim komnar.

### Andrés „bóndi" Sveinsson,

sonur Sveins bónda í Brautarholti, Grímssonar (líkl. lögmanns, Þorsteinssonar; sjá hér að framan), bróðir Narfa lögmanns Sveinssonar, — kemur fyrst við bréf, sem gert er á Strönd í Selvogi 13. maí 1367 (Í. F. III, nr. 180). 1372 tekur Andrés við hirðstjórn um allt land, samkvæmt Skálholtsannál og Gottskálksannál. Sýnist svo, sem þeim Þorgauti Jónssyni og Skúla Þórðarsyni hafi þá verið utan stefnt, og hafi konungur fengið Andrési hirðstjórnina í fjarveru Þorgauts. Þorgautur og Skúli fóru þó eigi utan, fyr en 1373, og mun því Andrés hafa komið seint út um sumarið áður. En þar sem Lögmannsannáll setur útkomu Andrésar við árið 1373, mun það vera rangt. Í þetta sinn hefur Andrés eigi haft hirðstjórn nema til 1374, því að þá kom Þorgautur út aptur, og mun þá hafa tekið við hirðstjórninni í annað sinn, að konungsskipan, því að þegar Þorgautur andaðist, árið 1375, segir Gottskálksannáll, að Andrés hafi utan farið, en komið út aptur árið eptir, 1376, hefur Andrés þá aptur verið gerður að hirðstjóra af Magnúsi konungi og mun Andrés í þetta sinn hafa farið utan einmitt til þess, að verða fyrstur til að ná í hirðstjórnina eptir Þorgaut, enda segir Flateyjarannáll, að Andrés væri þegar skipaður hirðstjóri yfir allt land 1375, og má vera, að Magnús konungur hafi þá frétt lát Þorgauts þegar samsumars, og því skipað Andrési hirðstjórnina. 1376 getur Lögmannsannáll um útkomu Andrésar hirðstjóra, í Straumsfirði, um haustið fyrir veturnætur, og hafði hann þá enn hirðstjórn um allt land, samkvæmt Flateyjarannál, er setur þessa útkomu Andrésar við árið 1377. 1378 fer Andrés utan. 1381 kom Andrés enn út með hirðstjórn, er honum var skipuð af Ólafi konungi Hákonarsyni. 1387 fór Andrés hirðstjóri utan og fékk þá hirðstjórn-

aflað með henni barna. Það er sögn, að Einar hafi ánafnað

---

ina Þorsteini Eyjólfssyni frá Urðum. — Andrésar er ekki getið eptir þetta, og vita menn eigi, hvenær hann dó. Meðan Andrés var hirðstjóri kom út

**Eiríkur Guðmundarson,**

settur hirðstjóri af Ögmundi dróttseta Finnssyni, 1387. Hefur hann að líkindum átt að taka við hirðstjórninni af Andrési Sveinssyni, en þó getur Flateyjarannáll þess, að Þorsteinn lögmaður Eyjólfsson hafi tekið hirðstjórn af Andrési. Þetta mun vera svo að skilja, að Andrés hafi utan farið snemma sumars 1387, og að Þorsteinn hafi þá tekið við hirðstjórninni af honum og haldið hana, til þess er Eiríkur kom út, sem hefur verið nokkru eptir brottför Andrésar. Þetta ár voru sýsludeilur miklar á Íslandi, segir Lögmannsannáll, — sem bendir til þess, að þeir Eiríkur og Þorsteinn hafi þá deilt um hirðstjórnina, því að Þorsteinn mun hafa þótzt rétt til valdanna kominn, ef til vill sem umboðsmaður Andrésar. Eiríkur var veginn þetta ár, eða — sem sumir annálar segja — árið eptir (1388), sem mun vera hið rétta. Má víg hans hafa verið af ráðum Þorsteins, enda var Eiríkur hinn mesti uppivöðslumaður, Hvort Eiríkur hefur haft sýsluvöld í Dölum, verður eigi með vissu sagt. Mér þykir eigi ólíklegt, að hann hafi verið bróðursonur Orms Snorrasonar á Skarði, því að hann sýnist hafa verið að vígi Þórðar Jónssonar með Guðmundi syni Orms, 1385 (Flateyjarannáll).

Eptir Eirík hefur að líkindum

**Þorsteinn Eyjólfsson**

frá Urðum haft hirðstjórn (1388—1390), til þess er

**Vigfús Ívarsson Hólmur**

kom út með hirðstjórnarvöld yfir öllu Íslandi 1390, og hélt hirðstjórninni til 1415. Vigfus Hólmur dó 1419 í utanför (sjá um hann við Gullbringusýslu).

Í umboði þeirra Andrésar, Þorsteins og Vigfúss, er líklegt að þessir hafi haldið sýslu í Dölum:

**Örnólfur Jónsson,** bóndi á Staðarfelli (sjá hér að framan bls. 444—448).

**Guttormur Örnólfsson,** Jónssonar, bóndi sama staðar (sjá hér að framan, bls. 448—450).

**Jón Guttormsson,** Ormssonar, bóndi í Hvammi, dótturmaður Bjarnar Jórsalafara (sjá bls. 450, hér að framan).

**Ólafur Guðmundarson,** Snorrasonar, frá Skarði, er tók við

launbörnum sínum 10 hundruð hundraða (ólíklegt svo mikið);

---

Skarðseignum, eptir Orm föðurbróður sinn 1401, mun án efa hafa haft sýsluumboð í Dölum. Ólafur hefur að líkindum andazt í Svartadauða 1403.

**Guðmundur Einarsson,** bjó á Hrafnabjörgum í Hörðadal, og hefur verið höfðingi og óeirðamaður. 1405 skipar Vilkin Skálholtsbiskup Þorsteini presti Svarthöfðasyni, er þá var officialis, að dæma á milli þeirra Guðmundar á Hrafnabjörgum og Vermundar ábóta á Helgafelli, um það, er Guðmundur hafði tekið hest undan söðli ábóta (Í. F. III, nr. 577). Það er auðséð af dómi þessum, að Guðmundur hefur notið trausts biskups í þessu máli, því að biskup biður Þorstein prest að sætta þá Guðmund og ábóta, svo að Guðmundur »verði eigi ofsóttur, en ábótinn fá sæmd sína«. Hvort Guðmundur þessi hefur haft konungsumboð í Dalasýslu um þetta skeið, verður eigi með vissu sagt.

**Loptur hinn ríki Guttormsson,** Ormssonar frá Skarði, Snorrasonar, hefur — eins og hér að framan hefur verið sýnt — tekið við Skarðseignum, eptir lát Ólafs Guðmundarsonar frænda síns, er andazt hefur um 1403. Loptur hefur komið úr utanför um 1405, og hefur þá þegar tekið við arfi sínum, sem var Skarð á Skarðsströnd, og ýmsar aðrar stóreignir þar vestra. Loptur hefur og um þetta skeið tekið við fjárhaldsumboði Jóns Jónssonar, bróðursonar síns, er þá var ungur, og andaðist eigi miklu síðar en Loptur kom út. — Þó að Loptur sæti optast á Möðruvöllum um þetta skeið, er það eigi efamál, að hann átti þá annað bú á Skarði. Þykir mér því sennilegast, að hann hafi einmitt um þetta tímabil (c. 1405—c. 1417, eða lengur) haft völd í Dalasýslu.

## Árni biskup Ólafsson

hinn mildi, sonur Ólafs tóna, Þorleifssonar, Svartssonar, Þorleifssonar. Móðir Árna biskups hefur verið Þorbjörg Ormsdóttir frá Skarði, Snorrasonar. Ætt Árna biskups hefi eg rakið hér að framan, en fyrst hefi eg rakið hana í grein minni um Íslenzkt Fornbréfasafn, sem prentuð er í »Dagskrá« III, nr. 49—50. Hefi eg þar sýnt, á hverjum rökum eg byggi það, að Árni biskup hafi verið sonur Ólafs tóna og Þorbjargar Ormsdóttur. Ólafur tóni andaðist vorið 1393, og hefur Þorbjörg farið utan þá þegar um sumarið og komið Árna syni þeirra í fóstur í Noregi, og hefur hann orðið þar eptir, þegar Þorbjörg (1394) fór til Íslands aptur. 1403 er Árna getið á Hálogalandi og kallar Nýiannáll hann »herra«. 1404 var bróðir Árni með Hákoni Sigurðarsyni í Noregi (Nýiannáll). 1405 var Árni með Sigríði Erlendsdóttur ekkju

en Björn bróðir Einars hafi því fé haldið, í því skyni, að

---

Hákonar, og var enn með henni 1410, þegar hún giptist Magnúsi sænska. Gerðist þá Árni kapellán Magnúsar í Gizka (Nýjannáll). 1412 sóttu þeir bróðir Árni og Magnús sænski Magnússon á fund Eiríks konungs af Pommern. Úr þeirri ferð fór Árni biskup á páfafund, suður í Flórenz, og síðan að páfaboði til Lybiku og var þar vígður til biskups af Jóhannesi biskupi, sem gefur út vígslubréf Árna biskups 10. okt. 1413 (Í. F. III, nr. 626; sbr. Nýjaannál). 1414, 30. janúar, kemur Árni Skálholtsbiskup við gjörning í Helsingjaborg (Í. F. III, nr. 629), og 28. sept. 1414, í Björgvin, transkríberar Jón Hólabiskup vígslubréf Árna biskups (Í. F. III, nr. 633). — 1415 getur Nýjannáll útkomu »herra Árna biskups Ólafssonar« — á því skipi er hann hafði sjálfur látið gera — »hafandi svo stórt vald, sem enginn hafði fyrir honum haft áður, hvorki lærður né leikur. Var það fyrst hirðstjórn yfir allt Ísland, er kong Eiríkur hafði veitt honum með sköttum og skyldum og öllum kongligum rétt. Hér með hafði hann biskupligt umboð yfir heilagri Hólakirkju fyrir norðan land og þar með öllu því biskupsdæmi, er þar liggur til. Fékk honum það umboð Jón biskup, er vígður hafði verið til Hóla og þá var með konginum. Hérmeð var hann settur visitator af herra Áskeli erkibiskupi yfir allt Ísland. Hann hafði og umboð klaustursins af Munklífi um tíund í Vestmann[a]-eyjum og margra kaupmanna í Björgvin, um skuldir. Kom hann við land austur að Þvottá og gekk þar af skipi við nokkra menn, en skipið gekk til Hafnarfjarðar með heilu. Reið biskupinn vestur eptir landi og kom heim í Skálholt upp á Pétursmessu. Svo reið hann upp á þing og lét lesa upp bréf sín í lögréttu. Játuðu allir menn honum hlýðni, lærðir og leikir, fyrir norðan og sunnan« ... (Nýjannáll, ár 1415). Þegar, er Árni biskup var útkominn, tóku ýmsir menn að selja honum umboð yfir eignum sínum. Þannig fékk hann umboð yfir Hvalsnesi á Rosmhvalanesi og öllum eignum Ingunnar dóttur Gunnars Eyjólfssonar, 19. júlí 1415; og 22. ágúst sama ár, fær hann umboð yfir gózi því, er Margrét Eiríksdóttir, Magnússonar frá Svalbarði, kona Benedikts Brynjólfssonar, erfði eptir systursonu sína, og þeir höfðu með ættleiðingu erft eptir séra Steinmóð Þorsteinsson föður sinn; ennfremur gefur Oddur lögmaður leppur (Þórðarson) Árna biskupi í prófentu sína allar eignir sínar, og svo þær eignir, er Oddur hafði erft eptir Skúla bróður sinn, og fór það fram 5. nóv. 1415 (Í. F. III, nr. 637, 638 og 641). Um þetta skeið hefur og Árni biskup fengið jarðirnar Hof og Efri-Tungu í Vatnsdal, hjá Styr Snorrasyni og Þuríði Jónsdóttur konu hans, og 16. ágúst 1416, í Reykjaholti, fær Árni biskup

Þuríður hefði verið burt numin og gipzt án frænda ráðs. Ei

jarðir þessar Halli Þorgrímssyni*) til eignar (Í. F. IV, nr. 308). 1417 deildu þeir Loptur ríki og Hallur Ólafsson um fé Ingibjargar konu Lopts. Hafði Hallur haft umboð Ingibjargar. Lauk þá Árni biskup fyrir Hall hundrað hundraða Lopti, upp í arf Ingibjargar, er Hallur hafði haldið í umboði. Var þar í $^1/_2$ jörðin Staðarhóll í Saurbæ (Í. F. IV, nr. 312). Þetta sýnir, að Árni hefur átt $^1/_2$ Staðarhól, en Ólafur tóni átti áður þá jörð, og hefur hún verið arfur Árna biskups. Um þetta skeið hygg eg, að Árni biskup hafi haldið Dalasýslu, og til þess er hann fór af landi brottu 1419. Hann var jafnan í jarðakaupum á meðan hann var hér á landi, og fékk þannig til eignar fjölda jarða, er ýmsir menn handlögðu honum, ýmist í prófentur sínar eða á annan hátt. 1. júlí 1418, á Þingvelli, selur Árni »biskup í Skálholti, umboðsmaður Hólakirkju, vísitator og hirðstjóri yfir allt Ísland«, Guðna bónda Oddssyni jörð sína Hamraenda í Dölum, fyrir jörðina Snóksdal í Dölum (Í. F. IV, nr. 322). Veturinn 1418 fór Árni biskup með konungsbón á Íslandi; sá vetur var af því nefndur »bónavetur«. 23. júlí 1418, kvittar Árni biskup Ólafsson visitator og hirðstjóri yfir allt Ísland, Pál Runólfsson fyrir vísaeyri og landskuldum, sem hann hafði sýslu haft á milli Jökulsár og Norðfjarðargnípu (Í. F. IV, nr. 324); — þetta sýnir, að Árni biskup veitti þá sýslur á Íslandi, eins og hirðstjórum var títt. Sumarið 1419 fór Árni biskup af Íslandi; hann lét út í Vestmannaeyjum, og kom fram í Björgvin í Noregi (Nýiannáll). 22. júní og 10. sept. 1420 kemur Árni biskup við bréf í Noregi (Í. F. IV, nr. 340 og 345); segir Gottskálksannáll, að hann hafi andazt þetta ár.

Í umboði Árna biskups hefur að líkindum haldið Dalasýslu:

**Guðni** »bóndi« **Oddsson,** sonur Odds lepps lögmanns; hann átti jarðir í Dölum, Snóksdal, Þykkvaskóg, Harrastaði og fleiri. Hafði hann fengið þær með konu sinni, er þaðan var kynjuð. Guðni kemur við bréf 1418 og þar eptir; hann var lögréttumaður og höfðingi mikill. Hann er almennt nefndur »bóndi« í gjörningum. Guðni bjó lengst á Hóli í Bolungarvík, en stundum bjó hann í Ögri. 1418 selur Árni biskup Guðna Hamraenda fyrir Snóksdal í Breiðafjarðardölum. — 1427, í Þykkvaskógi, selur Guðni bóndi Böðvari Hrafnssyni jarðirnar Þykkvaskóg, Harrastaði og Miðskóg. 14. júní 1428 er Guðni nefndur í dómi Þorsteins lögmanns Ólafssonar, »hirðstjóra norðan og vestan á Íslandi«, í Hvammi í Hvamms-

*) Mun vera sonur Þorgríms Sölvasonar.

veit eg, hvað hitt launbarn Einars hefur heitið, eða hvort frá

---

sveit. Er Guðni þar einn dómenda. Um þessar mundir hélt Guðni bóndi staðinn á Breiðabólsstað í Vesturhópi og tók við honum Ásbjörn ábóti á Þingeyrum, samkvæmt umboði Jóns Hólabiskups Vilhjálmssonar, 1430. 8. des. 1431, í Ögri, gerir Guðni bóndi Oddsson testamenti sitt, og gefur þá ýmsar gjafir fyrir sál Þorbjargar konu sinnar, sem þá var önduð fyrir fám dögum (d. 3. des. 1431); þetta haust hefur og Guðni andazt, í bólunni, er þá gekk á Íslandi. Hann er talinn andaður 11. desember (Vestfirðingaártíðaskrá).

Kona Guðna var Þorbjörg Guðmundardóttir, Ormssonar frá Skarði, (d. 1401), (sjá hér að framan). Dætur þeirra voru:

A. **Kristín Guðnadóttir,** síðari kona Jóns bónda í Ögri, Ásgeirssonar sýslumanns, Árnasonar, Geirssonar,* frá Seylu, Þorsteinssonar í Auðbrekku (d. 1320), Geirssonar hins auðga á Silfrastöðum (á lífi 1288), Þorvaldssonar hins auðga (fulltíða 1199), Guðmundarsonar hins dýra á Bakka, síðast munks á Þingeyrum (d. 1212), Þorvaldssonar hins auðga (d. 1161), Guðmundarsonar, Guðmundarsonar Agla, Eyjólfssonar hins halta (d. c. 1060), Guðmundarsonar hins ríka á Möðruvöllum (d. 1025), Eyjólfssonar. Þau Jón og Kristín áttu mörg börn, og er fjölmenn ætt frá þeim komin.

B. **Sæunn Guðnadóttir,** kona Bersa sýslumanns í Húnavatnsþingi, Einarssonar á Gunnsteinsstöðum (d. c. 1428), Bersasonar, Sighvatssonar (sjá hér að framan, og við Húnaþing).

C. **Snælaug** (Snjólaug) **Guðnadóttir**, hana átti Eyjólfur bóndi á Urðum í Svarfaðardal (d. 1476), sonur Arnfinns hirðstjóra (1419; d. 1433), Þorsteinssonar lögmanns og hirðstjóra, Eyjólfssonar frá Urðum. Þessi voru börn þeirra: Arnfinnur, Guðmundur, Guðni, Kristín, Margrét, Þorbjörg. Frá þeim er fjöldi manna kominn, þeirra er nú lifa á Íslandi.

---

*) Í ættatölum er Árni faðir Ásgeirs sýslumanns alment talinn Einarsson, en af skjali einu frá 25/8. 1391, má sjá, að hann hefur verið Geirsson (Í. F. III, 462. bls.), og er þá ætt Ásgeirs sýslumanns auðrakin, svo sem hér er gert. Er þetta hinn eini ættleggur, sem nú á tímum verður með vissu talinn óslitinn að langfeðri upp til Guðmundar ríka á Möðruvöllum og Gríms kamban, svo að vér vitum. Ættbálkur þessi er því merkilegur, en hann hefur um langan aldur verið með öllu ókunnur.

því er ætt[1]). Einar fór utan þá hann var ungur, og framaðist; gerðist seinna umboðsmaður, eða sveinn hirðstjóra, og eg meina umboðsmaður þeirra yfir Dalasýslu og fleiri sýslum, eg veit ei víst hverjum helzt, — fyrir eða nálægt 1430. En Björn bróðir hans mun þá skömmu þar eptir hafa haldið Dalasýslu. 1435 sýnist sem Einar hafi verið utanlands, og 1436 telja fræðibækur hann hirðstjóra; einnig 1437—1438. Aptur sýnist Einar að hafa orðið hirðstjóri eða hirðstjóra umboðsmaður eptir Karl Stagenberg, um 1441 (máske Ólafs Nikulássonar), hefur honum verið því auðveldara að ná fé Guðmundar Arasonar ríka 1442[2]), og reka hann af eignum sínum. Ekki finn eg hirðstjóra annan nefndan millum 1440—1450, en Einar, og sum hirðstjóraregistur nefna hann árin 1446 og 1448; því er eigi ólíklegt (að) hann hafi annaðhvort haft á þeim tímum hirðstjórn, eða verið hirðstjóraumboðsmaður[3]). En þá voru hirðstjórar yfirmenn í öllum sýslum, og

---

1) Séra Jón Halldórsson nefnir **Sölva son Einars** Þorleifssonar, í Hirðstjóraannál (Safn II, 650. bls.), og fer þessum orðum um hann: .... »Sölva syni sínum gaf hann (ɔ: Einar) jörðina fyrir norðan Lx hundruð að dýrleika, hún hét áður Finnstunga, en tók síðan nafn af þessum Sölva. Þegar hestur Einars junkera dasaðist og lamaðist, en Einar gerðist vanfær að ríða, bar þessi Sölvi hann og kom honum svo með stórum hörkumunum og atburðum heim til Staðar, fyrir hvert hreystiverk og dyggð sína, þá gaf Einar Sölva áðurnefnda jörð«. Hér er líklega misritað í Hirðstjóraannál: Sölva **syni** sínum, fyrir: Sölva **sveini** sínum. Þó gat Sölvi vel hafa verið sonur Einars, tímans vegna. Ef til vill er Sölvi þessi faðir **Steinþórs Sölvasonar,** er kemur við Bólstaðarhlíðarbréf nyrðra 1475—1506; **Steinþór sá hefur án efa verið faðir Þórarins í Bólstaðarhlíð** (d. 1544), **föður Einars, föður Skúla** (d. 1621), **föður Þorláks biskups á Hólum.** Ætt Þorláks biskups hefur hér til verið skakkt rakin að langfeðgum (sjá Tímarit J. Pét. I, 17; Sýsl.-æfir I, 507).

2) Á að vera 1446, því að það ár var Guðmundur Arason dæmdur útlægur.

3) Um hirðstjórnarár Einars, (sjá hér að framan). Hann hafði hirðstjórn norðan og vestan 1446—1450. Sumir telja Einar hirðstjóra 1428 (Annálar Björns á Skarðsá I, 18), sem er rangt, því að Einar var þá svo ungur, að slíkt getur naumast staðizt, enda var þá Þorsteinn Ólafsson hirðstjóri norðan og vestan, en Ólafur

var því kallað, að þeir hefði kongssýslur eða léni. Fóru þeir stundum yfir land allt og tóku tolla, skipuðu dóma og settu umboðsmenn í sýslur, er þeir nefndu sveina sína. Hvort Einar hefur haft völd, meðan Torfi hafði hirðstjórn, eða Björn bróðir hans, er óljóst; þó er það ei ólíklegt. Einar hafði stórbú sitt á Kúlu í Svínadal, einkum á seinni árum sínum. Hans dauða bar til með því móti, (að) hann ætlaði að ríða norðan um veturinn, frá heimili sínu Auðkúlu, við þrettánda mann, en þá hann var kominn upp á *Sölvamannagötur*, brast á forráðsveður með feikna frosti og snjókomu megnri. Var ófærð mikil, svo menn og hestar dösuðust. Villtust þeir Einar, en héldu þó áfram. Gáfust upp menn og hestar, og dóu margir þar á fjallinu; en fáeinir komust til byggða. Riðu tveir norður til Staðar, frosnir við söðlana. — Hestur Einars þraut og um síðir; var Einar þá svo máttdreginn að (hann) ekki gat gengið. Sölvi hét einn af sveinum hans, sem fylgdi Einari fastast, — var og hans hestur þrotinn; — svo mikill manndómsmaður var Sölvi þessi, að hann tók Einar á bak sitt og bar hann mjög langan veg, til Staðar í Hrútafirði. Er mælt að Einar hafi gefið honum þar fyrir 60 hundraða í jörð. — Einar var svo kalinn, að hann leysti sundur í liðum, og deyði þar af. Hann gaf Staðarkirkju *Fögrubrekku* fyrir leg sitt. Þessi bilur tilféll á Andréasmessu[1]). — Annálaritarar setja

---

Nikulásson sýnist þá hafa verið hirðstjóri sunnan og austan, og mun Ólafur hafa haft hirðstjórnarvöld yfir hálfu Íslandi 1424—1439, að minnsta kosti. En í umboði Ólafs höfðu þeir hirðstjórn sunnan og austan: Bertel Burhamer (fyrir 1439) og eptir hann Karl Stegenberg (1439) því að Ólafur var (konungs) féhirðir í Björgvin og mun lengstum hafa setið þar, þótt hann að nafninu hefði hirðstjórn á Íslandi. 1438 segir Skarðárannáll (I, 34), að Einar Þorleifsson væri hirðstjóri, sem er tæplega rétt, því að Ormur Loptsson, sem var hirðstjóri norðan og vestan 1436, mun hafa haldið hirðstjórninni til þess hann andaðist 1446, enda ber bæði annálum og bréfum saman um það, að Einar yrði hirðstjóri norðan og vestan 1446 (sjá og hér að framan).

1) Þ. e. 30. nóv., en þetta er tæplega rétt, því að Einar, sem sýnist enn á lífi 25. sept. 1453, er andaður fyrir 11. okt. það haust (Í. F. V, nr. 101—102 og 105), nema Einar hafi andazt um haustið 1452, og getur þá dagsetning þessi staðizt (ɔ: 30. nóv.). En það

þennan viðburð 1473, en það fær eigi staðizt, því að Björn

---

er víst, að andlát Einars, og atburður sá sem hér segir frá hefur eigi getað orðið síðar en um haustið 1453, fyrir 11. október, eins og eg hefi þegar bent á hér að framan.

Eg hefi hér að framan getið nokkurra helztu manna, er eg ætla að umboð hafi haft í Dalasýslu um þetta leyti, og getur Bogi um fáa af þeim. Þeir, sem hér eptir eru taldir, hafa og haft þar sýsluvöld á fyrra helmingi 15. aldar:

## **Helgi** „bóndi“ **Guttormsson**

frá Staðarfelli, Örnólfssonar, Jónssonar (sjá hér að framan), bjó fyrst á Staðarfelli eptir föður sinn, en síðar bjó Helgi í Sælingsdalstungu, og átti hann þær jarðir báðar. Um 1410 mun Helgi hafa kvænzt Úlfrúnu Þorsteinsdóttur (frá Snóksdal, Jónssonar), og um sama leyti tekur hann vitnisburði um landamerki Sælingsdalstungu (Í. F. III, nr. 606—607). Helgi sýnist hafa verið sveinn Árna biskups milda eða Lopts ríka, um 1415, því að 22. ágúst 1415, kemur hann við gjörning viðvíkjandi Árna biskupi, norður á Munkaþverá í Eyjafirði, ásamt Lopti ríka og fleiri höfðingjum (Í. F. III, nr. 638); sýnist Helgi þá hafa verið í för með biskupi norður um land. 17. maí 1417 kemur Helgi við bréf á Gilsbakka í Hvítársíðu, er snertir Árna biskup (Í. F. IV, nr. 313). — 1423, 7. okt. í Vatnsfirði, er Helgi 7. vottur að kaupmála þeirra Guðmundar ríka Arasonar og Helgu Þorleifsdóttur, »á þeirra brullaupsdegi« (Í. F. IV, nr. 370). — 19. júní 1427, í Þykkvaskógi, er Helgi »bóndi« Guttormsson vottur að kaupi þeirra Guðna Oddssonar og Böðvars Hrafnssonar (Í. F. IV, 346. bls.). — Helgi andaðist 1427 (Nýjannáll). Börn Helga og Úlfrúnar Þorsteinsdóttur hafa verið:

Sigurður, Þórður, Halldóra.

a. **Sigurður Helgason,** kemur við bréf vestra 1469 og þar eptir; hann var lögréttumaður, og ef til vill umboðsmaður í Barðastrandarsýslu um hríð.

b. **Þórður Helgason,** »bóndi« á Staðarfelli 1451 — d. 1493; hans getur fyrst við gjörninga 1449. Þórður var lögréttumaður, og hefur að líkindum haft völd í Dalasýslu um hríð. Kona Þórðar var Guðfinna Jónsdóttir sýslumanns í Ögri (d. 1478), Ásgeirssonar, Árnasonar, Geirssonar (sjá hér að framan). Þeirra son var Sturla sýslumaður, faðir Orms lögmanns. Frá Þórði er komið **Staðfellingakyn.**

c. **Halldóra Helgadóttir,** hefur verið kona Gunnars »bónda« í Sælingsdalstungu, Jónssonar (sbr. Í. F. V, 820—821. bls.); þeirra

ríki, sem féll í Rifi 1467, hafði áður erft Einar bróður sinn,—

dóttir var **Steinunn,** kona Lopts Íslendings, Ormssonar hirðstjóra, Loptssonar hins ríka (sjá hér síðar).

**Böðvar Hrafnsson,** kemur fyrst við bréf á Vaðli á Barðaströnd 10. nóv. 1411, sem er dómur Ara sýslumanns Guðmundssonar um mál þeirra Sigurðar Þórðarsonar og Jörundar Þórðarsonar. Böðvar er þar fyrstur dómsmaður. Sama dag sannar Böðvar vitnisburð þeirra Þrúðar Árnadóttur og Guðrúnar Þórðardóttur um Haga á Barðaströnd. 18. nóv. 1411 kemur Böðvar við gjörning á Reykajhólum, er Ari Guðmundarson hafði þar héraðsþing um mál þeirra Sigurðar og Jörundar, og 22. júní 1412, er Böðvar enn í dómi Ara, á Reykjahólum, um sama mál. 1. júlí 1419 ritar Böðvar, meðal annara sýslumanna og lögréttumanna, undir hyllingarbréf Íslendinga til Eiríks konungs af Pommern, gert á Þingvelli; þá var Hrafn Guðmundarson lögmaður, og ritar hann einnig undir hyllingareiðinn. Hefur Böðvar án efa verið sonur hans, og líklega hefur Böðvar alizt upp hjá Ara á Reykjahólum bróður Hrafns lögmanns, en ef til vill var Böðvar laungetinn son Hrafns, því að hann er eldri en dætur Hrafns, Guðrún, Ragna og Sigríður, að því er sýnist. 19. júní 1427, í Þykkvaskógi, selur Guðni Oddsson Böðvari Hrafnssyni jarðirnar Þykkvaskóg, Harrastaði og Miðskóg, fyrir lausafé, er Böðvar skyldi lúka Guðna á þrem árum, nema Böðvar vildi fyrri. Sýnir þetta, að Böðvar hefur verið auðugur maður, og mun hann hafa haft umboð í Dalasýslu um 1415—20. (Í. F. III—IV). Um niðja Böðvars Hrafnssonar vitum vér ekki, og ei heldur um konu hans.

**Ásgeir Árnason,** Geirssonar frá Seylu (1340—1350), Þorsteinssonar úr Auðbrekku, Geirssonar hins auðga á Silfrastöðum og í Lönguhlíð (á lífi 1288), Þorvaldssonar hins auðga (fulltíða 1199, d. c. 1245—50), Guðmundarsonar hins dýra (sjá hér að framan). Bróðir Ásgeirs var **Geir Árnason,** hann veitti áverka Brandi ríka Halldórssyni, á alþingi, og var fyrir það höggvinn 1421 (Nýiannáll). Geir Árnason kemur fyrst við bréf á Völlum í Svarfaðardal 23. okt. 1395. — 26. apríl 1408 er Geir við afhendingu Reynistaðarklausturs, þegar Björgólfur prestur Illugason lét af klausturráðsmennsku, en þær Þórunn Ormsdóttir og systir Þuríður Halldórsdóttir tóku við klaustrinu. Geir er þá talinn fyrstur leikmanna í þeim gjörningi. — 1. júlí 1412 á Öxarárþingi eru þeir Ásgeir Árnason og Geir bróðir hans í alþingisdómi Hrafns lögmanns Guðmundarsonar, um Hagamál; hefur þá Geir verið lögréttumaður. — Í gjörningi frá 22. ágúst 1415 nefnir Benedikt

sem meðal annars má sjá þar af, að þær sömu jarðir, sem

Brynjólfsson Geir Árnason »frænda sinn«, er haft hafði umboð yfir peningum þeim, er féllu eptir Steinmóð prest Þorsteinsson, launsonum Steinmóðar, er hann hafði ættleidda. Kvittar Benedikt Geir frænda sinn um meðför nefndra peninga. Geir hefur verið lögréttumaður og ef til vill valdamaður í Skagafirði um hríð. Hann kemur við hyllingarbréf Íslendinga til Eiríks konungs af Pommern 1. júlí 1419, (á Þingvelli) Geir hefur búið á Sjávarborg í Skagafirði, er Benedikt Brynjólfsson frændi hans afhenti honum (Í. F. III—IV)*. Sjávarborg var eign þeirra Benedikts Kolbeinssonar Auðkýlings og niðja hans á 14. öld, og er því eigi efamál, að þeir Auðkýlingar og Akramenn hafa verið náskyldir. Er helzt ætlanda, að þeir Geir Þorsteinsson á Seylu og Brynjólfur ríki á Ökrum hafi átt tvær dætur Benedikts Kolbeinssonar, þó að vér vitum nú ekki nöfn þeirra kvenna**. Hafa þeir þá verið að öðrum og þriðja, að frændsemi, Geir Árnason og Benedikt Brynjólfsson.

Ásgeirs Árnasonar getur fyrst 24. ágúst 1391, í Geldingaholti í Skagafirði, að hann kaupir að Birni bónda Brynjólfssyni jörðina Sólheima í Sæmundarhlíð, með tilgreindum ítökum og ummerkjum, fyrir lausafé. Getur Björn þess, að ómagaeyrir þriggja sona Árna Geirssonar standi upp á jörðina, »slíkur sem þeim féll eptir föður sinn«. Þessir synir Árna eru auðsjáanlega þeir Ásgeir og Geir, er fyr var getið, en hinn þriðji mun vera **Árni Árnason**, lögréttumaður (og líklega sýslumaður), sem getið er á alþingi, 3. júlí 1409, í úrskurði Odds lepps lögmanns um flutning á konungsgózi frá Íslandi til Noregs (Í. F. III, nr. 599). Hafa þeir Árnasynir verið ungir, er faðir þeirra andaðist, og hefur Björn Brynjólfsson, eða þeir Akramenn frændur þeirra veitt þeim forsjá, þar til þeir þroskuðust. — 19. jan. 1399 kemur Ásgeir við bréf á Flugumýri í Skagafirði. — 1. júlí 1412 er Ásgeir nefndur í alþingisdómi Hrafns lögmanns, og svo Geir bróðir Ásgeirs. 1. júní 1415 í Vallholti, nefnir Þorleifur Árnason sýslumaður í Hegranesþingi, tólf manna dóm um skuldamál þeirra Ásgeirs Árnasonar og Sveins Hallvarðssonar. Reis mál það útaf arfi kvenna þeirra, Guðfinnu konu Ásgeirs og Ástríðar konu Sveins, er sýnast hafa verið skyldar nokkuð. — 1. júlí 1419 eru þeir bræður Ásgeir og Geir við hyllingareið Íslend-

*) Synir Geirs Árnasonar, Árni, Jón og Magnús, eru nefndir í bréfum á 15. öld. Mun mega rekja ættir frá þeim.

**) Geir á Seylu mun hafa verið tvíkvæntur, og hefur hann fyr átt dóttur Sturlu Ólafssonar, er dó 1329, en síðar dóttur Benedikts Kolbeinssonar.

menn vita að Einar átti, eru taldar í dánarbúi Björns, svo

---

inga við Eirík konung af Pommern, á alþingi. — 5. maí 1421, í Glaumbæ í Skagafirði, gera þeir jarðakaup sín, Þorleifur Árnason, með samþykki Kristínar Björnsdóttur konu sinnar, — og Ásgeir Árnason, með samþykki Guðfinnu Þorgeirsdóttur konu sinnar, — að Þorleifur selur Ásgeiri Hvamm í Hvammssveit, Kyrinastaði, Skarfsstaði, Glerárskóga, og Leysingjastaði, ásamt Akri og Efra-Hvammi, er kirkjan í Hvammi átti, fyrir þessar jarðir hálfar: Auðkúlu í Svínadal, Mosfell, Geithamra, Grund, Ljótshóla, Snæringsstaði, Hrafnabjörg og Holt, og alla jörðina í Tungunesi. — 22. júní 1422, á Torfastöðum, nefnir Ásgeir Árnason »konungsumboðsmaður í Húnavatnsþingi« tólf menn í dóm, um fjármál þeirra Jóns Arnbjarnarsonar og Hrafns Sveinbjarnarsonar, við Þorvarð Ólafsson; en litlu síðar sleppti Ásgeir Húnavatnssýslu, og flutti um þetta skeið vestur að Hvammi í Hvammssveit, líklega um vorið 1422, því að Guðmundur Arason hinn ríki hefur tekið við Húnavatnssýslu af Ásgeiri það sumar (á alþingi?) (sbr. Í. F. IV, nr. 363). Ásgeir býr enn í Hvammi 14. júní 1428, og er þá Jón son hans fulltíða. Voru þeir feðgar kærðir um það, að hafa valdið vígi Sigmundar Illugasonar, og nefnir Þorsteinn hirðstjóri Ólafsson tólf menn í dóm um það, að Hvammi, 14. júní 1428. Voru þeim dæmdir tylftareiðar um mál þetta, en hvort þeir hafa svarið eiðinn, vitum vér eigi. (Sjá um Ásgeir, Í. F. III—IV; Sýsl.æfir I, 441—444, neðanmáls). — Ásgeir mun hafa haft sýslu í Dölum á árunum 1425—c. 1428.

Eptir Árna biskup höfðu þessir menn hirðstjórnarvöld á Íslandi, á 15. öld:

### **Arnfinnur** „bóndi“ **Þorsteinsson,**

bónda á Urðum í Svarfaðardal, Eyjólfssonar. Arnfinnur bjó á Urðum eptir föður sinn látinn. Hann hafði hirðstjórn yfir öllu Íslandi, eptir brottför Árna biskups 1419 (Í. F. IV, nr. 330—331).— Arnfinnur andaðist 1433, því að það ár tók Eyjólfur son hans við búi á Urðum, samkvæmt máldagabók Ólafs biskups Rögnvaldssonar.

### Hannes Pálsson

kom út með hirðstjórn um allt land 1419 (um sumarið), og tók þá við hirðstjórninni af Arnfinni. Hannes var riddari, og er hann í gjörningum kallaður kapelán og sendiboði konungs. Hann fór utan 1420 og lét þá af hirðstjórn í þetta sinn. Aðstoðarmenn Hannesar voru þeir:

**Þorleifur Árnason,** Einarssonar, (um vesturland), 1420, og

sem Reykjahólar, Auðkúla, etc. Er miklu líklegra, að þessi tilburður hafi viðborið 1463, eins og sýslumaður Jón Espólín

---

**Stephan Schellendorp,** konungssendiboði, mun helzt hafa haft völd um Norðlendingafjórðung (1420).

## Þorsteinn Helmingsson

var hér hirðstjóri, líklega um Norður- og Vesturland, í umboði Hannesar riddara Pálssonar 1420. 1. júlí 1420, á alþingi, senda Íslendingar Eiríki konungi af Pommern bréf, um gerðir þeirra Hannesar Pálssonar og Þorleifs Árnasonar, er rekið höfðu konungserindi á Íslandi; eru þeir þá nefndir hirðstjórar: Þorsteinn Helmingsson og Helgi Styrsson. Helgi hafði sýslu í Vestmannaeyjum 1420, en hirðstjóri var hann um Suður- og Austurland 1420—1422: hann bjó á Krossi í Landeyjum. — Þorsteins Helmingssonar er getið í Grænlandsför 1406—1410, með þeim Þorgrími Sölvasyni og Snorra Torfasyni (Nýiannáll). Hann er enn á lífi 1423 (Í. F. IV, nr. 341; 307. bls.). Þorsteinn mun hafa verið skagfirzkur að ætt. Hirðstjórasnnáll getur hans eigi og eigi Arnfinns Þorsteinssonar.

## Þorsteinn Ólafsson

hefur verið sendur til Íslands um haustið 1420, með hirðstjórn um Norðlendinga- og Vestfirðingafjórðung. Hann nefnist »hirðstjóri norðan og vestan á Íslandi« í skjölum frá 30. marz til 4. júní, 1421 (Í. F. IV, nr, 352, 355) og hefur hann haldið þeim völdum þar til er Baltazar af Damme og Hannes Pálsson komu út, 1422. (Sjá um Þorstein hér síðar).

## Hannes Pålsson

fyr nefndur, kom enn út, með Baltazar af Damme, 1422, og hafði þá hirðstjórn norðan og vestan, til 1425. Hann var rekinn utan 1425, fyrir það, að hann hafði með sveinum sínum rænt klaustrið á Helgafelli og gert ýmsar aðrar óspektir. Um þessar mundir var og

## Ebjörn (Björn) Eyjólfsson

fógeti konungs nyrðra (1424—1425), ef til vill sem aðstoðarmaður Hannesar.

## Baltazar af Damme

hafði hirðstjórn um allt land 1426 (Nýiannáll); hann hafði haft hirðstjórn sunnan og austan 1422—1425. Þegar Baltazar sigldi af Íslandi, hefur

hinn fróði meinar, og sýslumaður Magnús Ketilsson. — Enga

---

**Loptur hinn ríki Guttormsson**

tekið við hirðstjórn norðan og vestan, sumarið 1426. Loptur hafði og hirðstjórn norðan og vestan 1427, þegar Guðmundur Arason rak hernað í Húnavatnsþingi (Í. F. IV, nr. 724). Beiddust Húnvetningar bóta fyrir ránið af Guðmundi, en fengu engar. Mun þeim hafa þótt lítið kveða að framkvæmdum Lopts í því máli, og hafa þeir að líkindum kært það fyrir konungi; enda var þá

**Þorsteinn Ólafsson**

sendur út með hirðstjórn norðan og vestan, annaðhvort strax um haustið 1427, eða um vorið 1428, því að 14. júní 1428, að Hvammi í Hvammssveit, nefnir Þorsteinn Ólafsson »hirðstjóri norðan og vestan á Íslandi« tólf menn í dóm, um ráðasök þá, er þeim Ásgeiri Árnasyni og Jóni syni hans, var kend, að vígi Sigmundar Illugasonar (Í. F. IV, nr. 408). Um Þorstein Ólafsson, sjá hér síðar. Hve lengi hann hefur haft hirðstjórn í þetta sinn, verður ekki með vissu séð.

**Tumi Bergþórsson** í Ásgarði í Hvammssveit, kemur fyrst við bréf á Gunnsteinsstöðum í Langadal 1418. 14. júní 1428 er Tumi í dómi Þorsteins hirðstjóra Ólafssonar, í Hvammi í Hvammssveit. 1439 er þess getið, að Tumi búi í Ásgarði, þegar Goðsvin biskup ríður vestur þangað. 29. júní 1449 kemur Tumi við bréf á Helgafelli. Tumi hefur verið auðmaður og líklega haft völd í Dalasýslu um hríð. Kona hans var Guðrún Hallsdóttir. Þeirra synir.

a. **Ólafur,** prestur á Eyri í Bitru.

b. **Guðmundur.**

c. **Egill,** (sjá bréf 2. júní 1470). (Sjá um Tuma við Strandasýslu, og Í. F. IV.—V).

**Jón Ásgeirsson** Árnasonar (sjá hér að framan). Móðir Jóns var Guðfinna Þorgeirsdóttir, en Þorgeir faðir hennar var sonur Sigurðar lögmanns, Guðmundarsonar úr Hlíð (Lögmannshlíð), er lengi var lögmaður, Sigurðarsonar bónda, lögmanns, í Hlíð, Guðmundarsonar. Þorgeir bjó á Silfrastöðum og svo Sigurður lögmaður faðir hans. Jón Ásgeirsson bjó í Hvammi Hvammssveit, eptir andlát föður síns, og gerðist höfðingi og auðmaður. Saga Jóns hefst árið 1428, er hann deilir við Einar Hallsson, sem átt hafði Guðrúnu dóttur Jóns Þorgeirssonar á Silfrastöðum og Ingibjargar Sæmundardóttur (frá Svalbarði?), út af því, að Einar taldi börnum sínum hafa fallið til erfða eptir móður þeirra 40 hundruð í Silfrastöðum, og sýndi það bréf, er sagði, að máli Ingibjargar Sæmundar-

dóma hefi eg séð eptir framannefnda höfðingja; en víst er að

---

dóttur hefði verið lagður upp í Silfrastaði. En Jón Ásgeirsson hélt Silfrastöðum og taldi eign sína eða konu sinnar. Móðir Jóns var Guðfinna Þorgeirsdóttir, sem fyrr sagði. En kona Jóns Ásgeirssonar, sú er hann átti þá, hét Ingibjörg. Sýnist hún vera sama kona og Ingibjörg Sæmundardóttir, er Jón Þorgeirsson hafði átta. Hefur hún því gipst Jóni Ásgeirssyni eptir lát Jóns Þorgeirssonar móðurbróður hans. Því gerði Jón Ásgeirsson tilkall til Silfrastaða, og taldist eiga að halda þá vegna konu sinnar; en það var dæmt ónýtt og jörðin dæmd börnum Einars Hallssonar (Í. F. IV, nr. 404—405). 14. júní sama ár (1428) gengur dómur að Hvammi í Hvammssveit um mál þeirra Ásgeirs Árnasonar og Jóns sonar hans, út af vígi Sigmundar Illugasonar, því að þeim voru kend völd vígsins. — Um 1433 hefur Jón kvænzt Kristínu dóttur Guðna Oddssonar, því að 17. marz 1433, á Hóli í Bolungarvík, handleggur Oddur bóndi Þórðarson (leppur) að afhenda Jóni Ásgeirssyni alla þá peninga, er Kristín sonardóttir hans hafði erfða eptir Guðna föður sinn og Þorbjörgu móður sína. 30. maí 1434 á Mýrum í Dýrafirði, samþykkja þau Jón Ásgeirsson og Kristín kona hans, löggjafir Odds bónda Þórðarsonar, til Skúla Loptssonar dóttursonar síns. — 8. ágúst 1451 í Höfn í Hvammssveit kvittar Jón Ásgeirsson Gunnar Bjarnason um andvirði eyja fyrir Skógarströnd, er svo heita: Stafey, Gjarðeyjar tvær, Hrútey, Húseyjar þrjár, Hryggur og Snæfoglsey, ásamt öllum hólmum, er þeim fylgja. Jón »bóndi« Ásgeirsson kemur við bréf í Gufudal 10. nóv. 1458, og annað í Vatnsfirði 29. marz 1459 og snertir hið síðara Ólöfu Loptsdóttur. 22. júní 1459 lýkur Loptur Ormsson, í umboði Jóns Ásgeirssonar, Jóni Magnússyni vígsbætur eptir Guðmund Magnússon bróður Jóns, er Guðni Jónsson hafði í hel slegið ófyrirsynju. Sama ár (30. júní) á alþingi biður Loptur Ormsson, í umboði Jóns Ásgeirssonar, Brand lögmann Jónsson úrskurðar um það, hvort Guðni Jónsson skyldi ferjandi til Noregs á konungsfund vegna vígs Guðmundar. — Og sama ár (2. júlí) er Jón Ásgeirsson í tólf manna dómi Björns Þorleifssonar »hirðstjóra sunnan og austan« um það, að Teitur Gunnlaugsson skuli skyldur að hylla Kristján konung hinn fyrsta, en sé laus við Eirík konung af Pommern. 21. nóvember 1459, vitna það þrír menn, að Jón Ásgeirsson hafi fengið Lopti Ormssyni umboð til þess að bjóða vígsbætur fyrir Guðna son Jóns, er vegið hafði Guðmund Magnússon. Jón hefur þá búið í Ögri og flutt þangað frá Hvammi 1456, en afhent Guðna syni sínum Hvamm. 1. apríl 1467, í Vatnsfirði, kvittar Björn bóndi Þorleifsson Jón Ásgeirsson um andvirði jarðarinnar í Efstadal í

Loptur ríki og Einar hafa haft sýslur, og þar á meðal Dala-

---

Ögurþingum, er Björn hafði selt Jóni. 14. sept. 1467, kemur Jón við bréf á Kirkjubóli í Valþjófsdal í Önundarfirði. 22. sept. 1467, virðir Sveinn biskup í Skálholti í vísitazíu sinni það er Jón bóndi Ásgeirsson hafði gert að kirkjunni í Ögri, og kvittar Jón um »porcio« kirkjunnar. 23. okt. 1467, í Vatnsfirði, er Jón Ársgeirsson fyrstur vottur að skiptunum eptir Björn ríka Þorleifsson. 19. nóv. 1460, í Ögri, giptir Jón Ásgeirsson Sigríði dóttur sína Magnúsi Magnússyni (frá Draflastöðum, Benediktssonar frá Ökrum, Brynjólfssonar). 27. des. 1474, er Jón enn við gjörning í Ögri, um kaup á Arnardal. Jón hefur andazt um vorið 1478, því að 5. maí 1478 gera þeir samning um arf eptir foreldra sína, (Jón »heitinn« Ásgeirsson og Krístínu Guðnadóttur) Guðni, Ormur og Páll, Jónssynir. (Sjá um Jón Ásgeirsson Í. F. IV—VI; Sýsl.æfir II, 172—174).

Með fyrri konu sinni, Ingibjörgu hefur Jón eigi átt börn. En þessi börn átti Jón með Kristínu dóttur Guðna Oddssonar, sem var síðari kona Jóns, og lifði lengi eptir andlát hans: **Guðna, Orm, Pál** og **Sigurð** prest **beigalda, Guðfinnu, Vigdísi** og **Sigríði.** Fleiri börn kynni Jón að hafa átt, þótt vér kunnum eigi að nefna þau.

**Gunnar Jónsson** bóndi í Sælingsdalstungu átti Halldóru Helgadóttur, Guttormssonar, systur Þórðar, föður Sturlu sýslumanns. Gunnar tók við Sælingsdalstungu af Úlfrúnu ekkju Helga bónda, 1439 eða fyr. Hann gerðist lögréttumaður um 1460 eða fyr, og hefur lifað fram yfir 1480. Gunnar kemur mjög við gjörninga á 15. öld, og hefur verið göfugur maður. Um foreldri hans er ókunnugt að svo stöddu, en göfugra manna hefur hann verið. Er eigi ólíklegt að **Jón Gunnarsson** á Álfgeirsvöllum í Skagafirði (bréf 1433—1444), hafi verið faðir Gunnars, því að Gunnar er í ættbókum sagður norðlenzkur að ætt. Móðir Jóns Gunnarssonar hét **Halla Jónsdóttir.** Bróðir hennar var Þórður Jónsson í Saurbæ á Rauðasandi (1431—d. 1433). Munu þau systkin vera af Hagaætt á Barðaströnd, og hinna fornu Saurbæinga. Faðir Höllu og Þórðar mun vera **Jón Loptsson** bóndi undir Hrauni í Dýrafirði (um 1396—1397; Í. F. IV, 145). Faðir Jóns þessa var án efa **Loptur Filippusson**—(**Loptssonar, Gíslasonar, Markússonar, Gíslasonar***), bróðir Gísla Filippussonar í Haga (d. 1370) og Magnúss

---

*) Gísli faðir Markúss í Bæ, var Þórðarson, Úlfssonar (Safn I, 118; Hrafnsaga 5. k.). Jón Sigurðsson rekur Hagaættina eigi lengra en til Úlfs föður Þórðar, svo sem rakið er í Hrafnssögu, því að hann hefur eigi tekið eptir því, að í viðauka Þórðarsögu hreðu, í Vatnshyrnu, er ætt Þórðar Úlfssonar rakin í beina línu frá Eiði hinum gamla

sýslu. En óviss eru áratöl. Má hver halda þar um sem vill, þó eg hafi sagt mína meiningu.

Filippussonar) — »bóndi í Saurbæ á Rauðasandi (1326 — d. 1377; Í. F. III, 193 og IV, 149. bls.; Gottskálksannáll). Þessa Lopts er eigi getið, þar sem Hagaættin er rakin af Jóni Sigurðssyni í Safni til sögu Íslands (I, 118—126) og ei heldur sona hans, — sem voru, auk Jóns; — **Ketill, Þorlákur, Svartur** og **Guðmundur**, — er drukknuðu allir 1377, — og **Filippus** í Saurbæ, er þar bjó eptir Lopt föður sinn. — Hverrar ættar Gunnar faðir Jóns á Álfgeirsvöllum hefur verið, verður eigi sagt með vissu, en líklegt er að hann hafi verið skagfirzkur að upphafi.

Börn Gunnars Jónssonar eru eigi kunn, önnur en **Steinunn Gunnarsdóttir,** er giptist Lopti bónda Ormssyni, Loptssonar hins ríka (sjá hér síðar); þeirra synir voru þeir **Stefán** og **Pétur,** er fjölmennar ættir eru frá komnar. Gunnar Jónsson hafði án efa sýsluvöld í Dölum um hríð, líklega sem umboðsmaður Torfa hirðstjóra Arasonar eða Björns ríka.

**Pétur Finnsson,** líklega **sonur Finns Jónssonar,** þess er kemur við bréf á Svínavatni á Ásum í Húnavatnsþingi 17. des. 1398. Bróðir Finns hefur verið Sveinn Jónsson, er kemur við sama bréf (Í. F. III, nr. 532). Hverrar ættar þeir bræður hafa verið, verður eigi með vissu sagt. Þó skal þess getið að **Jón** smiður **Pétursson,** er drukknaði með tveim dætrum sínum, 23. des. 1355 (Gottskálksannáll), gæti tímans vegna verið faðir Finns og Sveins. En faðir Jóns smiðs, er hefur verið merkur maður, þar sem annállinn getur hans sérstaklega, — gæti verið **Pétur sonur Jóns** prests **Péturssonar,** og Hallkötlu Hrafnsdóttur, Oddssonar, Álasonar hins auðga,

í Ási (laga-Eiði) syni Miðfjarðar-Skeggja á þessa leið: **Miðfjarðar-Skeggi** — **Eiður** — **Þórhallur** — **Skeggi Þórhallsson** — **Úlfur Skeggjason** — **Þórður Úlfsson,** án efa sá, er Hrafnssaga telur ættföður Saurbæinga. Ætt Miðfjarðar-Skeggja er því ein af þeim fáu ættum, sem raktar verða frá landnámsmönnum í beinan karllegg til núlifandi manna. Þeir menn sem nú lifa, og eru að langfeðgum komnir af Miðfjarðar-Skeggja, þannig, að þeir eiga kyn sitt að rekja í gegnum Rauðsendi (Saurbæinga og Hagamenn), **Gísla Markússon, Eyjólf Mókoll** (d. 1522), **séra Ólaf skáld** á Söndnm í Dýrafirði, o. s. frv. — eru þeir Jóhannes alþingismaður Ólafsson á Þingeyri og bræður hans, synir Ólafs bónda Jónssonar, er bjó í Haukadal í Dýrafirði. Ættleggur þessi hefur áður verið með öllu ókunnur, að því er snertir samband Eiðunga við núlifandi menn í beinan karlleg; hefi eg því hér getið þessa sérstaklega, þótt það kunni að álítast óviðkomandi aðalefni bókar þessarar.

## Þorsteinn Ólafsson.

*Faðir*: Ólafur á Ökrum í Skagafirði, sonur Björns, Brynjólfs-

---

Oddssonar, Þorvarðarsonar. — Pétur Finnsson bjó fyrst á Auðunarstöðum í Víðidal og var lögréttumaður og góður bóndi; hann kemur opt við gjöninga. Frá Auðunarstöðum mun hann hafa flutt búferlum vestur að Holti í Saurbæ, um 1430, eða litlu síðar, og gæti hann hafa verið umboðsmaður Orms hirðstjóra Loptssonar, eða Sumarliða bróður hans, er þá höfðu mest völd um Vesturland. — Pétur er enn á lífi 3. nóv. 1461, og mun þá hafa búið í Ljáskógum, eða dvalið þar með Finni syni sínum, er þá var orðinn lögréttumaður vestra. Kona Péturs hét Ingibjörg Klemenzdóttir og Margrétar. Synir þeirra voru:

A. **Finnur** (**Laga-Finnur***) »bóndi« í Ljáskógum í Dalasýslu, átti dóttur Þorsteins Pálssonar. Þeirra börn:

**Arnór,** Ingimundur, **Helgi, Guðmundur, Þorsteinn, Oddný.**
**Arnór** bjó á Ökrum á Mýrum og átti Helenu Jónsdóttur. Þaðan eru **Akramenn** komnir. Það er fjölmennur ætthringur. **Guðmundur Finnsson var faðir Daða í Snóksdal.**

B. **Oddur Pétursson,** bóndi í Holti í Saurbæ, átti Sigríði Steinþórsdóttur. Börn:

a. **Vermundur** prestur.

b. **Einar Oddsson** sýslumaður í Húnavatnsþingi.

c. **Jón kollur Oddsson,** bóndi á Draflastöðum í Þingeyjarþingi, lögréttumaður, **faðir Orms, föður Jóns glókolls.** Ættbálkur þessi kallast **Finnsætt,** eða **Auðunarstaðaætt.**

**Sumarliði Loptsson** hins ríka, Guttormssonar; sjá um hann við Strandasýslu (bls. 275 hér að framan). Sumarliði fékk að gjöf, hjá Lopti föður sínum, Vatnshorn í Haukadal, Vatn, Hrafnabjörg, Tungu, Laugar, Laugardal hálfan, Þorsteinsstaði, Köldukinn, og á Finnmörk: Holt, Hól, Köldukinn, og Hafstaði (Í. F. IV, nr. 446 og 552). Þessar jarðir gaf Loptur Sumarliða 20. apríl 1430, en 1. okt. 1432 samþykkja gjöfina erfingjar Lopts, því að Sumarliði var launsonur Lopts (með Kristínu dóttur Odds lepps), og því eigi réttur erfingi hans. Um Sumarliða er fátt kunnugt að öðru leyti, og eigi veit eg, hve lengi hann hefur lifað eptir 1. okt. 1432, því að engin bréf geta hans síðar. Eg ætla að hann hafi um hríð verið umboðsmaður yfir Dalasýslu. Kona hans var Ólöf Ara-

---

*) Í ættartölum er hann kallaður "**Akra-Finnur**", og er honum þá ranglega ruglað saman við „**Akra**"-**Finn Arnórsson** sonarson sinn, er bjó á Ökrum á Mýrum. Finnur Pétursson bjó í Ljáskógum.

sonar ríka, Björnssonar (Björn faðir Ólafs átti Málfríði dóttur Eiríks Magnússonar á Svalbarði[1]).

*Móðir:* Kristín[2]), dóttir Þorsteins lögmanns og hirðstjóra á Víðimýri, Eyjólfssonar (sjá Hegranesþing).

---

dóttir sýslumanns á Reykjahólum, Guðmundarsonar, og Þorgerðar Ólafsdóttur. Börn þeirra hafa verið þessi: **Ari, Halldór, Kristín.** Um niðja Ara og Halldórs vita menn ekki með vissu. En **Kristín Sumarliðadóttir** var kona Jóns Dans, launsonar Björns ríka, og er þeirra getið í bréfum frá 15. öld.

Laundóttir Sumarliða með Karítas Grímsdóttur hét: **Sesselía;** hennar maður Jón Guðmundarson; þeirra son: **Grímur Jónsson, faðir Jóns** í Síðumúla (sjá Sýslum.æfir I, 312—314).

1) Um föður Þorsteins lögmanns Ólafssonar er það að segja, að hann mun vera sami maður og Ólafur Pétursson lögmanns, Halldórssonar, er bjó í Gnúpafelli í Eyjafirði og dó 1410 (sjá hér að framan og við Strandasýslu). Ólafur faðir Þorsteins getur eigi verið sonur Björns Brynjólfssonar á Ökrum, því að Sigríður kona Þorsteins var dóttir Björns Brynjólfssonar og hefðu þau þá verið systkinabörn, Þorsteinn Ólafsson og Sigríður, sem engan veginn getur verið rétt. — Hins vegar gæti faðir Þorsteins á Ökrum verið Ólafur »bóndi« sonur Þorsteins lögmanns Eyjólfssonar, en eg held það síður, ef það er rétt, sem ættartölur segja, að Arnþrúður Magnúsdóttir frá Svalbarði hafi verið kona Þorsteins lögmanns Eyjólfssonar, því að Málfríður kona Bjarnar Brynjólfssonar, móðir Sigríðar, var einmitt dóttir Eiríks (ríka) sonar Magnúsar á Svalbarði, svo að þau Þorsteinn Ólafsson og Sigríður yrðu eptir því þrímenningar frá Magnúsi á Svalbarði:




2) Svo stendur og hjá Boga í Sýslumannaæfum I, 10, við Þingeyjarþing, og eins við Hegranesþing (I, bls. 300 og 305), en Jón Pétursson hefur þar látið það álit sitt í ljósi, að það muni getgáta ein, er ekki geti haft við rök að styðjast, að Þorsteinn lögmaður Ólafsson hafi verið dóttursonur Þorsteins lögmanns Eyjólfssonar.

*Kona:* Sigríður Björnsdóttir; henni kvæntist Þorsteinn á einni utanför sinni, í Hvalseyjarkirkju á Grænlandi 1408, og tók þar upp á prestavitnisburð, áður hann fór frá Grænlandi (1409). — Brullaup þeirra Þorsteins fór fram að afgengnum þrem lýsingum, að áheyrandi bæði innlendum og útlendum, sem enga meinbugi þar á vissu. Þetta vitna í Görðum (á Grænlandi, frjádaginn næstan eptir Magnússmessu (16. (Apríl) 1409[1]), Eindriði Andrésson officialis á Grænlandi, séra Páll Hallvarðsson. Eptir að þau hjón voru komin til Íslands, varð efi og ágreiningur um giptingu þessa, af biskupi og ættmönnum Þorsteins, sem þá tók vitnisburð Brands bónda Halldórssonar á Barði og þriggja annara, er viðstaddir voru á Grænlandi, þá Þorsteinn giptist. Vitnisburður sá er dagsettur (á Ökrum) frjádaginn fyrir Hallvarðsmessu 1414[2]). Sæmundur Oddsson tjáir sig hafa verið nær í Hvalsey á Grænlandi, þá Sigríður Björnsdóttir frændkona sín hafi með sínu ráði og samþykki gipt sig og fastnað til eiginkonu, Þorsteini Ólafssyni; — dagsett (á Ökrum) næsta mánadag fyrir Maríumessu síðari 1424. Setti Sæmundur og þrír aðrir sín innsigli fyrir þetta bréf[3]).

*Barn:* Kristín (Akra-Kristín), sýnist hafa verið einberni Þorsteins Ólafssonar og Sigríðar Björnsdóttur; hefur hún því orðið rík. Þessi Akra-Kristín giptist fyrst um 1430 eða fyrri, Akra-Helga, sem eg held son Ólafs[4]), Péturssonar lögmanns, Halldórssonar,

---

Kristín dóttir Þorsteins Eyjólfssonar lögmanns er og hvergi nefnd í fornum ritum, svo að eg finni. Um Þorstein Ólafsson og ætt hans, sjá Hegranesþing (I, bls. 305—311; sbr. Safn til sögu Íslands II, 80.—81. bls.)

1) Bréfið er gert 19. apríl 1409 (Í. F. III. nr. 597).

2) Bréfið er prentað í Fornbréfasafninu III, nr. 632.

3) Bréfið er prentað í Íslenzku Fornbréfasafni IV. nr. 376,

4) Akra-Helgi var Guðnason, en ekki Ólafsson. Hann var systursonur Árna biskups hins milda, Ólafssonar tóna, Þorleifssonar (sjá hér að framan).

Ólafur var góður vinur Þorsteins lögmanns og hirðstjóra, Eyjólfssonar; með honum var hann fanginn 1463[1]), og af því fangelsi frí látinn af Hákoni konungi og Ólafi konungi syni hans 1463[2]), var af konungi gerður lögmaður sunnan og austan, og kom út með Þorsteini Eyjólfssyni 1464[2]), hirðstjóri einnig norðan og vestan. En Þorsteinn Eyjólfsson hafði þá hirðstjórn sunnan og austan, en lögsögu norðan og vestan. Hvenær Akra-Helgi Ólafsson[3]) varð lögmaður, er eigi víst; en hann dó 1452[4]). 1453 giptist Akra-Kristín aptur Torfa riddara og hirðstjóra Arasyni[5]), hann dó 1458[6]). Torfi var auðugur valdamaður.

Börn Helga lögmanns og Akra-Kristínar:

1. Þorsteinn á Reyni í Mýrdal, átti Ragnheiði dóttur Eiríks Sumarliðasonar[7]) Eiríkssonar, Loptssonar ríka. Þeirra börn:

---

1) Réttara er: 1363.

2) A að vera: 1364.

3) Á að vera: Guðnason.

4) Helgi er fulltíða 1419, og fær þá Hvalsnesseignir af Árna biskupi milda móðurbróður sínum. Helgi Guðnason var lögmaður norðan og vestan 1436—1439, eða lengur. Hann hefur andast annaðhvort 1442 eða 1443 (Í. F. IV; Safn II, 84—85).

5) Hvenær Akra-Kristín giptist Torfa hirðstjóra Arasyni verður eigi með vissu sagt, en víst hefur það orðið fyrir 7. maí 1445, því að þá er Torfi búinn að taka við eignum þeim, er Helgi lögmaður Guðnason, fyrri maður Kristínar hafði átt, og selur þá Skúla bónda Loptssyni Hvalsnes á Rosmhvalanesi og Gegnishól í Skagafirði, fyrir jarðir í Dalasýslu (Í. F. IV, nr. 711).

6) Torfi dó í Björgvin síð sumars 1459.

7) Þetta er rangt. Eiríkur faðir Ragnheiðar á Krossi var ekki Sumarliðason, heldur sonur Kráks hins gamla í Klofa á Landi, Jónssonar. Eiríkur Kráksson faðir Ragnheiðar, bjó í Skarði á Landi, og er þeirra feðga, Kráks og Eiríks, getið í skjölum frá fyrra hluta 15. aldar (Í. F. III—IV; Safn I, 115; Sýslumannaæfir I, 306—307. bls. neðanmáls). Hafa þeir verið göfugir menn og var Krákur lögréttumaður (sjá Rangárþing). Að Ragnheiður kona Þorsteins á Reyni hafi verið dóttir Eiríks Sumarliðasonar, Eiríks-

a, Sigríður, sem átti Pétur Loptsson, Ormssonar, Loptssonar ríka (sjá Strandasýslu).

b, Eiríkur á Keldum átti Ragnheiði Eiríksdóttur, Erlingssonar[1]) auðugs höfðingja.

2. Ingveldur, húsfrú Þorleifs hirðstjóra á Reykjahólum, Björnssonar ríka (sjá hér síðar).

Börn Torfa og og Akra-Kristínar:

3. Málfríður, húsfrú Finnboga lögmanns Jónssonar; sjá um hann við Þingeyjarþing.

4. Guðrún, meðhjálp Einars ábóta, Ísleifssonar beltislausa. Þeirra son var Finnbogi ábóti, faðir Guðrúnar.

[2])Þorsteinn (Ólafsson) var orðinn lögmaður 1423; varð hirðstjóri 1427—1429; þar eptir lögmaður lengi. Hann út-

---

sonar Loptssonar, eins og hér er talið, getur með engu móti verið rétt, því að Ragnheiður er gipt Þorsteini Helgasyni um eða fyrir 1460 (hann dó um 1466), — en Eiríkur Sumarliðason, sem síðar varð ábóti á Þingeyrum, er tæplega fulltíða, þegar faðir hans deyr (1491), og mun því víst eigi fæddur fyrir 1470.

1) Erlendssonar, Sýsl.æf. I, 310, svo sem stendur í flestum ættatölum.

2) Um Þorstein lögmann Ólafsson, sjá lögmannatal Jóns Sigurðssonar (Safn II, 80—81. bls.; Sýslumannaæfir I, 305—311) og hér að framan. Hann mun vera sá Þorsteinn Ólafsson, er kemur við tvö bréf í Skagafirði 1371; er annað þeirra gert á Víðivöllum 1. og 2. okt., en hitt á Reykjum í Tungusveit 6. des. (1371), og er Þorsteinn í fyrra bréfinu talinn næstur á eptir Brynjólfi (ríka) Bjarnarsyni á Ökrum, en næstur á undan Benedikt syni Gizurar galla; en í síðara bréfinu er hann talinn næstur á undan Brandi Pálssyni, sem er annar leikmanna þeirra, er koma við það bréf. Þetta sýnir, að sá Þorsteinn Ólafsson hefur verið merkur maður og göfugur, því að þeir Benedikt og Brandur, sem báðir voru gildir bændur og koma mjög víða við gjörninga, eru taldir síðar en Þorsteinn. En röð gerningsvotta fer jafnan í þann tíma eptir því hve mikils þeir þóttu verðir, nema litið sé til aldurs þeirra; en hér mun það eigi vera, því að Þorsteinn Ólafsson hefur verið ungur þegar þessir gerningar eru gerðir, og víst eigi eldri en tvítugur, ef þetta er Þorsteinn lögmaður, sem líklegt er, því að hann hefur verið kynjaður úr Skagafirði, eins og fyr hefur verið bent á. En enginn efi getur leikið á því, að Þorsteinn Ólafsson, sá er kemur við gerning á

nefndi dóm að Hvammi í Hvammssveit 1428 um drápsrikti

---

Hrafnagili í Eyjafirði, 23. ágúst 1390, ásamt fleiri merkum mönnum, sé hinn sami og Þorsteinn lögmaður (Í. F. III, nr. 226—227 og 380), því að Þorsteinn mun einmitt hafa fæðst upp með Akramönnum í Skagafirði, og því hefur hann síðar fengið Sigríðar dóttur Bjarnar hins auðga á Ökrum, að kunnleikar fornir hafa verið á með þeim. En Ólafur hirðstjóri Pétursson hefur verið kunnur Akramönnum, og átt frændur í Skagafirði, enda var hann án efa sonur Péturs lögmanns Halldórssonar, er bjó í Skagafirði um 1350. En Ólafur bóndi bjó sjálfur í Gnúpafelli í Eyjafirði, og hefur því Þorsteinn — sem án efa var sonur Ólafs Péturssonar — ýmist dvalið í Skagafirði, eða nyrðra í Eyjafirði, með föður sínum. Hann virðist, samkvæmt því sem hér er sagt, eigi vera fæddur miklu síðar en um 1350, enda var þá Ólafur Pétursson orðinn fulltíða. Þorsteinn hefur þá verið nær sextugur að aldri, er hann kvæntist Sigríði frá Ökrum, 16. sept. 1408, á Grænlandi, enda var hann síðari maður hennar, því að hún átti fyr Gunnlaug sýslumann Magnússon (sjá Borgarfjarðarsýslu). — 18. maí 1417 kemur Þorsteinn Ólafsson við bréf á Gilsbakka í Borgarfirði, er snertir Árna biskup Ólafsson, og munu menn hafa dregið af því þá ætlun, að Þorsteinn væri bróðir Árna biskups, svo sem sumir rita. En það er án efa skökk tilgáta. 31. des. 1419 kemur Þorsteinn við bréf á Hólum í Hjaltadal. 30. marz og 5. apríl 1421 nefnist Þorsteinn »hirðstjóri norðan og vestan á Íslandi«, og enn 3. og 4. júní sama ár. 1. júlí 1423 nefnist Þorsteinn »lögmaður sunnan og austan á Íslandi«, en 14. júní 1428 er Þorsteinn orðinn hirðstjóri norðan og vestan, í annað sinn. 25. maí 1431 er Þorsteinn enn nefndur lögmaður, og enn er hann lögmaður sunnan og austan 30. júní 1431, og kemur þá við hyllingarbréf Íslendinga til Eiríks konungs af Pommern, á alþingi. Eptir það finn eg Þorstein eigi nefndan, og hygg því, að hann hafi andast litlu síðar, enda hefur hann þá verið um 80 ára að aldri (Í. F. III—IV; sbr. Gottskálksannál 1431). Eptir Þorstein Ólafsson vitum vér ekki með vissu um það, hver hirðstjórnarvöld tók á Íslandi norðan og vestan, og getur verið að hér vanti í hirðstjóraröðina einn eða fleiri.

## Ormur Loptsson

hins ríka, Guttormssonar, og sonur Kristínar Oddsdóttur lepps, Þórðarsonar, frillu Lopts ríka, er hann kvað til Háttalykil. Ormur var bróðir Sumarliða nýnefnds. Hann bjó á Staðarhóli í Saurbæ — er faðir hans gaf honum, — á árunum 1430—1436, en síðar í Víðidalstungu (1436 og þar eptir). Ormur kvæntist 17. okt. 1434

(sést þar af, að hirðstjórar fóru sjálfir um landið, útnefndu dóma og tóku tolla). Óljóst er mér um, hver Þorsteins umboðsmaður hefur verið, en eigi er ólíklegt, að Vatnsfirðingar hafi tekið hér vestra sýsluvöld eptir Þorstein, einkum Einar Þorleifsson frá Vatnsfirði.

Þorsteins getur ekki eptir 1432. Eg meina hann hafi verið bróðir Árna biskups milda. 1417 undirskrifar hann sem vitni, kaupbréf Árna biskups. 1420 var hann dómsmaður í eigindómssök Jóns biskups Tófasonar, þá meina eg hann hafi haldið Hegranessþing, og um það leyti orðið lögmaður eptir Odd lepp. 1421 er víst að hann var orðinn lögmaður, en 1427 hirðstjóri yfir 1/2 Íslandi, í 3 ár. 1430 varð hann aptur (hirðstjóri) sunnan og austan.

## Björn Þorleifsson.

*Faðir*: Þorleifur sýslumaður Árnason frá Vatnsfirði (sjá Ísafjarðarsýslu).

*Móðir*: Vatnsfjarðar-Kristín, Björnsdóttir Jórsalafara[1]).

---

Solveigu Þorleifsdóttur bónda Árnasonar, og Vatnstjarðar-Kristínar Björnsdóttur Jórsalafara. Ormur var »hirðstjóri norðan og vestan á Íslandi« 1436, en síðast kemur hann við bréf á Helgafelli 1442. Hann andaðist 1446, líklega í Víðidalstungu (sjá Víðidalstungumáldaga Ólafs biskups Rögnvaldssonar, Í. F. V, 349. bls.). Ormur mun hafa tekið við hirðstjórn norðan og vestan um 1432, og hefur líklega haft hana til þess hann dó, og tók þá hirðstjórn Einar Þorleifsson mágur Orms (sjá hér að framan). Synir Orms og Solveigar voru:

A. **Einar** (sjá hér síðar).

B. **Loptur** Íslendingur á Staðarhóli (sjá hér síðar).

1) Um forfeður Kristínar, sjá Ísafjarðarsýslu, (bls. 150—157, hér að framan). Eg skal hér geta þess, að það mun algerlega skakkt, sem þeir hafa getið til um framkyn Grundar-Helgu, föður-móður Vatnsfjarðar-Kristínar, séra Eggert Briem og Jón Pétursson háyfirdómari (Tímarit Bm.fél. IV (1883) 121—124, athgr. neðanmáls; Sýsl.æf. II, 153—154, bls.) að hún hafi verið systir Árna hirðstjóra Þórðarsonar, dóttir Þórðar Kolbeinssonar, Þórðarsonar kakala (sbr. Vatnshyrnu), — jafnvel þótt þeir hafi fært álitleg rök fyrir þeirri skoðun sinni, og hefur dr. Jón Þorkelsson yngri einnig hallast að þessari tilgátu, án nánari rannsókna (Ísl. Árt. 163, 226; ættskrá III), og ýmsir fleiri hafa síðan talið þessa ættfærslu með öllu vissa. Hér er ekki rúm til að fara

*Kona*: Ólöf hin ríka, Loptsdóttir hins ríka (sjá Vaðlaþing).

---

langt út í þetta mál, og verð eg því að láta nægja, að benda í stuttri athugagrein á það, hvernig eg álít réttast að rekja framætt Grundar-Helgu konu Einars Eiríkssonar og móður Bjarnar Jórsalafara, föður Vatnsfjarðar-Kristínar.

Í ættartölu Mála-Davíðs og Halldórs sonar hans, sem rituð er 1833, hefur Davíð ritað, að Grundar-Helga væri »Bjarnardóttir, Þorvaldssonar úr Auðbrekku, Geirssonar frá Silfrastöðum, hins auðga« (sjá ætt Ásgeirs sýslumanns Árnasonar, hér að framan), en móður Helgu telur Davíð Steinvöru dóttur Lopts frá Grund Hálfdanarsonar, Sæmundarsonar, og Steinvarar Sighvatsdóttur, Sturlusonar frá Hvammi. Þótt eg álíti ættfærslu þessa alls ekki óyggjandi, — heldur miklu fremur athugaverða og óvissa að ýmsu, þar sem hún er svo ung, og í eldri heimildum finnst hvergi getið Bjarnar Þorvaldssonar eða Steinvarar Loptsdóttur, — er eigi ólíklegt að Davíð, sem hafði margt fornt undir höndum og var fræðimaður mikill, og reynist víða mjög áreiðanlegur, þar sem um ættfærslur er að ræða, — hafi hér haft eitthvað eldra fyrir sér, — og það er jafnvel efalaust, því að í ættartölu nokkurri sem komin er vestan af landi (frá Sighvati Borgfirðingi) og sem naumast getur verið runnin frá Mála-Davíð), — hef eg einmitt fundið þessa sömu ættfærslu, og svo hjá Bjarna ættfræðingi Guðmundarsyni. — Þetta sýnir ótvírætt, að á 18. öld hafa menn álitið að Helga á Grund hafi verið Bjarnardóttir, ekki Þórðardóttir, og þar sem vér vitum, að sonur Helgu hét Björn (ɔ: Björn Jórsalafari), — sýnist auðsætt, að þetta muni sanni nær, en tilgáta þeirra E. B. og J. P., því að Þórðarnafnið kemur hvergi fram meðal hinna næstu niðja Helgu, svo að kunnugt sé. Mér virðist því auðsætt, að Björn Jórsalafari hafi heitið eptir Birni móðurföður sínum. Hér höfum vér og aðra ágæta heimild til sönnunar þessu atriði, og er merkilegt, að ættfræðingarnir og aðrir, sem þá heimild hafa haft með höndum síðan um 1800, hafa eigi veitt því eptirtekt, að í Oddaverja-ártíðaskrá (Ísl. árt. 30), er nefnd **Helga Bjarnardóttir,** og telst hún þar önduð 16. júní. Útgefandi ártíðaskránna, dr. Jón Þorkelsson skjalavörður, hefur þar álitið, að ártíðaskráin ætti við Helgu (Auð-Helgu) Bjarnardóttur, konu Brands biskups Sæmundarsonar, (Árt. 54, 57. bls.), — en hann hefur sagt mér, að hann hafi síðan veitt því eptirtekt, að nafn þetta og ártíðin í skránni, væri ritað seint á 14. öld, jafnvel eigi fyr en um 1400. Þetta kemur því ágætlega heim við Grundar-Helgu; hún mun hafa andast um 1380—c. 1390, og varð hún gömul. Nú vitum vér, að **Loptur son Hálfdanar Sæmundarsonar** frá Keldum

*Börn*: A. Þorleifur hirðstjóri (sjá hér síðar).

---

(af Oddaverjakyni) og Steinvarar Sighvatsdóttur, Sturlusonar, bjó á Grund í Eyjafirði á síðara helmingi 13. aldar (1258 — d. 19. júní 1312); hann er hinn síðasti búandi á Grund, sem vér þekkjum með vissu, þangað til þau hjón, Einar Eiríksson og Grundar-Helga, koma til sögunnar, eptir miðja 14. öld. — Ekkert er því sennilegra, en að Helga kona Einars hafi verið afkomandi Lopts Hálfdanarsonar, eins og menn hafa almennt talið, allt fram á miðja 19. öld. Steinvör Lptsdóttir, — sem eptir sögn ættfræðinga á 18. öld ætti að að vera móðir Grundar-Helgu, — finnst þó alls eigi nefnd í annálum eða öðrum fornritum, og hygg eg þá ættfærslu því málum blandaða. Hins vegar nefnir Gottskálksannáll **herra Björn Loptsson,** er þar telst andaður 1312, sama árið sem Loptur riddari (herra Loptur) Hálfdanarson andaðist: Ann.[2] 342 [VIII, 1312]. Þessi Björn Loptsson mun án efa vera sonur Lopts riddara Hálfdanarsonar frá Grund, og er hann að líkindum heitinn eptir Birni Sæmundarsyni, afabróður sínum, er bjó í Gunnarsholti á Rangárvöllum (d. 1285). Björn Loptsson frá Grund mun fæddur um 1270. Börn hans geta því verið fædd á árunum 1300—c. 1310, því að þá hefur hann verið orðinn fulltíða að aldri, og ef til vill hefur hann tekið við búi á Grund áður en faðir hans dó, því að Loptur hefur þá verið gamall. Það er engum vafa bundið, að **Grundar-Helga** hefur verið **dóttir Bjarnar** þessa **Loptssonar;** hún mun hafa alizt upp hjá þeim Jóni kárín og Þórði, sonum Þórðar kakala, sem virðast hafa tekið við Grundareignum, eptir andlát þeirra feðga, Lopts og Bjarnar. Þegar vér höfum þannig fengið að vita um ætterni Helgu, verður fyrst skiljanlegt, hvernig á því stendur, að nafn hennar finnst einmitt í Oddaverjaártíðaskrá, — þar sem hún hefur beinlínis verið afkomandi hinna fornu Oddaverja. Við þessa rannsókn verður það og ljóst, að rekja má merka ættgrein frá Oddaverjum, Sturlungum og Haukdælum, — sem áður hefur lengi verið ókunn með öllu, — niður til núlifandi manna, og að hinn göfugasti höfðingi á Íslandi á 15. öld — Björn hinn ríki, — hefur einmitt verið kominn af Oddaverjum og öðrum hinum göfugustu söguættum Íslendinga, er uppi voru á Sturlungaöldinni. Það var því ekki að undra, þó að ártíðaskrá Oddverja geymdist hjá Skarðverjum um langan tíma, þar sem þeir (Skarðverjar) voru niðjar þeirra, er nöfn sín og ártíðir létu rita á skrá þessa. Það virðist varla efamál, að heimild þeirra, er þannig hafa ættfært Grundar-Helgu á 18. og 19. öld, hafi verið Oddaverjaártíðaskrá, sem er hin eina forn heimild, er nú þekkist, sem nefnir föður Helgu. En til

B. Solveig; henni hlotnaðist í arfskiptum eptir föður sinn (1467), Bolungarvík með fleiri jörðum. Tók hún sér því bústað á Hóli í Bolungarvík; var þar hennar ráðsmaður, Jón Þorláksson, orðlagður skrifari og vel að sér, en óríkur. Vildi hann fá hennar, en fékk ekki vegna fátæktar. Komst þó í kærleika við hana og átti með henni börn þessi:

1. Brigith, átti Ólaf prest[1]) Eiríksson, Sumarliðasonar[2]) Eiríkssonar, Loptssonar ríka. Ólafur hélt Eyri í Skutilsfirði. Þeirra börn:

a. Pantaleo[n], prestur á Stað í Grunnavík 30

---

ættfræðinga á 18. öld mun sögnin um þetta vera komin frá Guðbrandi biskupi Þorlákssyni, sem án efa hefur þekkt þessa heimild, og vitað að sú Helga Bjarnardóttir, sem nefnd er í Oddaverjaártíðaskrá, var Grundar-Helga ættmóðir hans, sem hann talar svo opt um í Morðbréfabæklingum sínum, — og þótt hann ekki nefni þar föðurnafn hennar, þá er það engin sönnun gegn því, að hann hafi þekkt það. Ættgrein Guðbrands biskups frá Oddaverjum er á þessa leið: — 1. **Sæmundur** prestur **hinn fróði** (d. 1133). — 2. **Loptur** prestur í Odda (á lífi 1158). — 3. **Jón Loptsson** (f. 1124, d. 1197). — 4. **Sæmundur Jónsson** í Odda (f. 1154, d. 1222). — 5. **Hálfdan Sæmundarson** á Keldum (d. 1265). — 6. **Loptur Hálfdanarson** (riddari) á Grund (d. 1312). — 7. **Björn Loptsson** riddari (d. 1312). — 8. Grundar-**Helga Bjarnardóttir** (d. 16. júní [c. 1385]). — 9. **Björn** (Einarsson) **Jórsalafari** (d. 1415). — 10. Vatnsfjarðar-**Kristín Bjarnardóttir** (d. 1458). — 11. a. **Björn hinn ríki** (Þorleifsson) (d. 1467), — b. **Solveig Þorleifsdóttir** (d. 1479). — 12. **Jón** (Sólveigarson) **Sigmundarson** lögmaður (d. 1518). — 13. **Helga Jónsdóttir.** — 14. **Guðbrandur** biskup **Þorláksson** (f. 1542).

1) Ólafur var ekki prestur; hann bjó á Hóli í Bolungarvík. Bróðir hans var Sæmundur í Ási í Holtum austur.

2) Að þeir Sæmundur í Ási og Ólafur bóndi hafi verið synir Eiríks (ábóta) Sumarliðasonar, getur ekki verið rétt. Er því ættartala Ólafs röng á þennan hátt til Lopts ríka, enda greinir ættbækur mjög á um þessa liði.

ár, dó 1574, átti Ástríði, og börn: Ástu[1]) Bjarna[2]) og Brigith[3]).

b. Jón prestur á Stað í Grunnavík 1528, fyrr en bróðir hans, til 1544. Jón prestur hélt við Gróu, móður Ólafs í Engidal.

c. Steinvör Ólafsdóttir, hélt við Ólaf, prest í Holti í Önundarfirði 12 ár, dó 1550. börn Òlafs prests:

aa. Helga.

bb. Jón.

cc. Pétur.

d. Pétur Ólafsson á Ósi í Bolungarvík. Börn:

aa. Ólafur.

bb. Valgerður.

cc. Guðrún.

e. Guðrún Ólafsdóttir, átti Skáneyjar-Lassa[4]) Börn:

aa. Eiríkur.[5])

---

1) Ásta var fyrsta kona séra Böðvars í Reykjaholti (sjá um börn þeirra Bisk. s. II, 600).

2) Bjarni bjó í Arnardal og átti Sigríði Þorláksdóttur. Börn:

a. Páll, átti Þorkötlu Pálsdóttur.

b. Pantaleon, drukknaði.

c. Guðrún, átti Halldór Þorvaldsson. Börn þeirra: Páll, Herdís.

3) Brigith Pantaleonsdóttir, var fyrri kona Jóns Styrkársonar, prests á Álptamýri, er síðar átti Halldóru Halldórsdóttur. Brigith hafði áður átta Brynjólfur Jónsson.

4) Lassi var þýzkur maður, læknir og stjörnufróður.

5) Eiríkur átti hálfa Skáney; hans kona Ingveldur, dóttir Magnúsar Halldórssonar og Ragnheiðar; þau áttu eigi börn. Seinni kona Eiríks hét Herdís (og tók Eiríkur fram hjá henni), dóttir þeirra Herdísar:

a. Kristín, átti Pétur Gíslason Styrssonar (bróður Þorvalds) og Helgu Sigmundardóttur. Börn:

aa. Jón, húsmaður í Keflavík, átti Vigdísi Jónsdóttur og Þóru Bárðardóttur, systur Jóns Bárðarsonar í Keflavík.

1. Gísli.

2. Pétur.

bb. Sesselja[1]).
cc. Matthías[2]).
f. Margrét Ólafsdóttir, átti Vigfús Helgason. Börn:
aa-bb. Guðrúnar tvær.
cc. Steinunn.
g. Guðrún yngri Òlafsdóttir, átti Svein Jóns-

---

bb. Guðrún, giptist Halldóri Jónssyni Halldórssonar, og Lúcíu Ámundadóttur í Reykjaholtsdal. Börn:
1. Stefán.
2. Guttormur.

cc. Guttormur, drukknaði um vetur í suður-siglingu.
dd. Snorri, dó í bólu.
ee. Herdís.

Kristín Eiríksdóttir átti fyrst barn með giptum manni, Jóni Péturssyni, er átti Margrétu, dóttur Jóns prests yngra Einarssonar, systur séra Böðvars í Reykjaholti. Barn það hét Gnðríður, og dó hún 13 vetra.

1) Sesselja Lassadóttir átti Sumarliða Stefánsson. Börn:
a. Konráður; hans son Konráður.
b. Jón.
c. Gísli.
d. Oddný.
e. Ragnhildur.

2) Mattheus Lassason átti hálfa Skáney og seldi fyrir lausafé séra Ásgeiri á Lundi. Kona Mattheusar var Guðrún Erlendsdóttir Guðmundarsonar, og Æsu Styrsdóttur. Börn:
a. Lassi, átti Margrétu Valgarðsdóttur; þau bjuggu á Rauðsgili í Reykjaholtsdal. Börn:
aa. Mattheus, átti Guðrúnu Jónsdóttur, Bjarnasonar í Reykjaholtsdal, — og Guðrúnar Magnúsdóttur.
bb. Einar, átti Sesselju, Jónsdóttir, Þórðarsonar, og Helgu Oddgeirsdóttur. Börn:
1. Ásta.
2. Jón.
3. Halldóra.

cc. Guðrún Lassadóttir.
dd. Barti (mállausi-Barti).
ee. Stefán.
ff. Arngrímur, var lengi vinnumaður í Einarsnesi. Átti eitt

son frá Sæbóli á Ingjaldssandi [1]). Börn:
aa. Sigríður.
bb. Páll.
cc. Halldóra.
dd. Guðmundur.
h. Sigmundur Ólafsson.
í. Sigurður Ólafsson.
k. Sólveig Ólafsdóttir.
l. Páll Ólafsson.
m. Illugi Ólafsson.
n. Jón Ólafsson [2]).

2. Jón Jónsson, annað launbarn Solveigar Björnsdóttur, fór að heimreiðum á jarðir Björns sýslumanns Guðnasonar; var dæmdur útlægur af Jóni lögmanni Sigmundarsyni 1512. Var þó (1530) í Sauðlauksdal, og seinast í elli sinni valdsmaður í Strandasýslu. Hann átti Kristínu Gísladóttur Filippussonar. Börn:
a. Magnús, sem seldi Ögmundi biskupi Hól í Bolungarvík, en átti hann þó aldrei.
b. Árni, faðir Tómasar, Jóns og Guðrúnar.
c. Guðrún Jónsdóttir.
d. Jón Jónsson.

3. Kristín Jónsdóttir, Þorlákssonar og Sólveigar,

---

launbarn við Valgerði Þorbjarnardóttur, Ólafssonar í Hvítársíðu.
1. Páll Arngrímsson, átti Sigríði laundóttur Árna Guðmundarsonar í Hjarðarholti.
gg. Margrét Lassadóttir, átti eitt launbarn við Hallvarði syni Guðmundar Sæmundarsonar og Guðrúnar Hallvarðsdóttur:
1. Ingveldur Hallvarðsdóttir.
b. Herdís Mattheusdóttir, giptist austur, og hét maður hennar hennar Þórir.
c. Brigith, giptist ekki, dó barnlaus.

1) Systur Sveins voru þær: Sesselja Jónsdóttir, kona Eggerts lögmanns Hannessonar og Jórunn Jónsdóttir, móðir Herdísar, móður Sesselju á Læk.

2) Jón yngri Ólafsson, átti ekki barn; hann drukknaði fyrir Óshlíð, er hann fór frá engelskum.

hélt við Þórarinn Sigurðarson á Ósi, kirkjuprest til Hóls í Bolungarvík (auðugan prest). Þeirra einbirni:

a. Ólöf, átti Þorgeir í Ögri, [Ólafsson, Loptssonar ríka [1]) (sjá Árnessþing). Þeirra börn:

aa. Erlingur[2]) faðir Jóns undir Skálmarnessmúla[3]).

---

1) Séra Jón Ólafsson á Lambavatni, getur þess ekki í ættatölubók sinni (bls. 187), þar sem hann getur Þorgeirs manns Ólafar, hvers son hann var. Orð Jóns eru þannig: »Kristín Jónsdóttir, laundóttir Solveigar [Björnsdóttur], hélt við séra Þórarinn og sátu að Ósi; þeirra dóttir Ólöf; hún eignaðist Þorgeir . . . .* og sat að Ósi eptir töður sinn, séra Þórarinn. Dóttir Þorgeirs var . . . .** kvinna Þórðar Fúsasonar«. — Jón prestur nefnir eigi önnur börn þeirra Þorgeirs og Ólafar, og er hér því eitthvað blandað málum hjá Boga. Enda mun Ólafur Loptsson eigi hafa átt neinn son, er Þorgeir hét, því að hvergi finnst hans getið í bréfum. Hitt getur eigi heldur staðizt tímans vegna, að Þorgeir maður Ólafar Þórarinsdóttur — er uppi hefur verið eptir 1500 — hafi verið sonur Ólafs Loptssonar, því að Ólafur er orðinn fulltíða 1424; en hann dó 1458, og er því líklega fæddur c. 1400. — Þorgeir Ólafsson, er kemur við bréf í Skagafirði 1430—1456, hefur ekki verið sonur Ólafs Loptssonar, heldur sonur Ólafs frá Silfrastöðum, Sigurðarsonar lögmanns Guðmundaronar. — Móðir Þorgeirs þess hefur verið Jórunn Brynjólfsdóttir hins ríka á Ökrum, Bjarnarsonar, Brynjólfssonar. Ólafur Loptsson gat eigi átt son, er fullíða var um 1430, en Ólafur Sigurðarson kvæntist um 1385 eða fyrr, og kemur því vel heim að Þorgeir þessi, sem er fulltíða um 1430 (f. c. 1400), væri sonur Ólafs Sigurðarsonar. Hitt er víst, að hann getur eigi verið maður Ólafar Þórarinsdóttur frá Ósi (sjá Sýsl.æfir I, 158, ath. 3; 481, ath. 1).

2) Víða er svo talið, sem hér, að Erlingur faðir Jóns undir Skálmarnessmúla, væri sonur Þorgeirs Ólafssonar, Loptssonar hins ríka. En það mun víst, að **Erlingur faðir Jóns var** ekki Þorgeirsson, heldur **Þórðarson,** frá Haga á Barðaströnd, Gíslasonar, Filippussonar. Erlingur hefur búið undir Múla á Skalmarnesi, og kemur hann við bréf á árunum 1439—1460 (Í. F. IV—V).

3) Jón Erlingsson kemur við bréf vestra 1460—1491; hann var lengi sveinn Ólafar Loptsdóttur á Skarði.

---

* Eyða í handritinu, fyrir föðurnafni Þorgeirs.

** Eyða fyrir nafninu í handr. séra Jóns.

bb. Halldór[1]).

4. Vigdís Jónsdóttir, Þorlákssonar (og Sólveigar), átti Ólaf Filippusson, bróður Gísla í Haga á Barðaströnd, þau giptust í Ögri 1495. Ólafur taldi sér til giptingar 80 hundraða. 1497 tildæmdi Einar Oddsson syni Ólafs arf eptir Sólveigu Björnsdóttur. 1498 staðfesti Finnbogi lögmaður þann dóm. 1500 staðfesti Andrés erkibiskup téða dóma. 1518 staðfesti þá enn Eiríkur erkibiskup. Barn:

a. Einar Ólafsson. Hans börn:

aa. Filippus Einarsson prestur á Látrum, sem smíðaði annan lúðurinn fyrir Ögmund biskup. Hann nam burtu Sólveigu dóttur Bjarna á Læk og Guðrúnar eldri Björnsdóttur sýslumanns, Guðnasonar. Þau áttu börn (sjá hér síðar).

bb. Koðrán Einarsson, fyrri maður Dýr-

1) Um Halldór bróður Erlings veit eg ekkert; en þar sem hann er hér talinn Þorgeirsson, þá gæti það verið málum blandað, á þann hátt, að þeir hefði verið sammæðra, Erlingur Þórðarson og Halldór, son Þorgeirs Halldórssonar, er bjó í Hítárdal 1473 og þar eptir, og var um hríð sýslumaður í Hnappadalssýslu. Þetta getur þó tæplega staðizt tímans vegna, en hitt er eigi ólíklegt, að Erlingur, sá er átti dóttur Styrs Snorrasonar á Ökrum á Mýrum, kynni að hafa verið föðurbróðir Halldórs sýslumanns Þorgeirssonar. En sé hann sami maður og Erlingur Þórðarson, sem líklegt er, þá geta þeir eigi hafa verið samfeðra, Erlingur og Þorgeir faðir Halldórs. Þess má geta, að bræður Halldórs sýslumanns, sammæðra, voru þeir Helgi og Þórður Magnússynir, prestar í Hnappadalssýslu seint á 15. öld. En dóttursynir Styrs á Ökrum voru þeir Þórður og Geirmundur Erlingssynir, er koma við bréf eptir miðja 15. öld. Þórður er fæddur um 1445, og kemur því vel heim, að hann væri sonur Erlings Þórðarsonar frá Haga, og hafi verið heitinn eptir Þórði (Gíslasyni) föður hans. En hvort þeir Þórður og Geirmundur Erlingssynir hafa verið albræður Jóns Erlingssonar undir Múla, verður ekki með vissu sagt. Guðrún systir Jóns Erlingssonar er nefnd í bréfum frá 15. öld.

finnu Gísladóttur úr Haga, Filippussonar. Börn:

aaa. Jón Koðránsson. Hans börn:

1. Koðrán, sem fór utan með Eggert Hannessyni.
2. Þorgerður; hennar son Jón Einarsson á Sellátrum.
3. Einar Jónsson.

bbb. Björn Koðránsson. Hans börn:

1. Andrés.
2. Guðrún, fylgdi Jóni murta, hvers föður ræningjar tóku. Þeirra börn:

≠ Jón stóri í Tungu átti Guðrúnu Pálsdóttur, Gunnarssonar, Borgarssonar og Guðrúnar Gottskálksdóttur, Sturlusonar í Laugardal, Eyjólfssonar. Börn:

= Eyjólfur.
= Andrés.
= Þórdís.
= Guðrúnar þrjár.
= Hólmfríður.
= Elín.

3. Sigríður Björnsdóttir, talin síðari kona Sturlu Eyjólfssonar í Laugardal, eða réttara: Sturlu Gottskálkssonar, sonarsonar Sturlu Eyjólfssonar (Þetta er ritað eptir ritum Espólíns).

5. Einar Jónsson, Þorlákssonar og Solveigar Björnsdóttur, átti Helgu dóttur Gísla Filippussonar í Haga. Börn:

a. Bjarni, dó 1555, 33 ára; hans dóttir var:

aa. Þórdís, átti Jón prest Egilsson í Hrepphólum, þann er reit annálinn.

6. Björn Jónsson, Þorlákssonar, og Sólveigar, dó barnlaus.

7.—8. Tvö börn Jóns og Solveigar, dóu ung.

Þorleifur bróðir Sólveigar tók hana frá Hóli í Bolungarvík, heim að Skarði, um 1483, og gipti hana Páli Jónssyni, Ásgeirssonar. Þeirra börn:

9. Jón[1]).

10. Þorleifur lögmaður (sjá hér síðar)[2]).

---

1) Jón Pálsson var prestur; hann andaðist undir eins og móðir hans, ókvæntur og barnlaus.

2) Þorleifur lögmaður Pálsson var merkur maður; hann bjó á Skarði á Skarðsströnd; af honum teljast ættir Skarðsmanna, og svo ættir í Langadal norður, í Húnavatnssýslu. Hans son (laungetinn) var Björn, faðir þeirra Ólafs í Marteinstungu og Guttorms í Hreiðri í Holtum. Guttormur var faðir Bjarna, föður Bergsteins í Skildinganesi, föður Bjarna, er Skildinganessætt er frá komin. Eru margir menn er nú lifa á Íslandi komnir í beinan legg frá Þorleifi Pálssyni lögmanni, og mun þetta vera hinn eini ættleggur, sem með vissu verður talinn að langfeðgum frá Guðmundi ríka á Möðruvöllum til þeirra manna, er nú lifa, — því að Hrólfsættin, sem þangað hefur verið talin, er án efa rangt rakin, þar sem langfeðgar Bjarna Skúlasonar föður Hrólfs sterka finnast hvergi nefndir í fornum heimildum, með þeim nöfnum sem ættatölurnar nefna þá, enda getur sú ættfærsla alls eigi staðizt tímans vegna. — Eg skal hér geta þess, að faðir Bjarna föður Hrólfs sterka mun víst vera **Skúli Guðmundarson;** hann var lögréttumaður og sýslumaður Húnvetninga um hríð. Faðir Skúla þessa hefur verið **Guðmundur Skúlason** prestur á Meli í Miðfirði, en faðir Guðmundar prests var **Skúli** »bóndi« **Loptsson,** launsonur Lopts ríka og Kristínar dóttur Odds lepps. Skúli bóndi Loptsson keypti Álfgeirsvöllu í Skagafirði 1453 af Sigmundi Einarssyni (bróður Bersa) Í. F. V, nr. 95). — Eptir það hafa niðjar Skúla Loptssonar átt Álfgeirsvöllu hver eptir annan, allt til þess er Hrólfur sterki eignaðist þá jörð, er því hefur verið erfðaeign hans og þeirra langfeðga eins eptir annan. Þetta sýnist fyllilega sanna það, að ætt Hrólfs sterka sé rétt rakin til Lopts ríka í beinan legg. Bjarni son Hrólfs sterka fékk Álfgeirsvöllu eptis föður sinn og bjó þar. Þeir feðgar voru allir lögréttumenn og höfðingjar miklir, og er auðséð að þeir voru vel ættaðir. En af því að enginn hefir fyrri um langan tíma kunnað að telja rétt hina næstu forfeður Hrólfs sterka, þá hef eg hér sérstaklega getið þessarar ættar, þótt það hefði fremur átt heima í æfum sýslumanna nyrðra; en þegar þær voru prentaðar, hafði Jón Pétursson eigi veitt þessu

Enn var sonur Björns ríka og Ólafar:

C. Einar Björnsson; hann kvæntist ekki, en sögn er (að) hann hafi átt launbarn. Hann var á Auðkúlu ásamt Solveigu föðursystur sinni, og fylgdi að ráninu á Miklabæ 1476. Þá er Solveig Björnsdóttir var dáin 1496, og Páll veginn 1498, tók Einar Björnsson undir sig fé Solveigar sem erfingi, og fór utan. Tjáist hann þá að hafa fengið loforð fyrir hirðstjórn, og verið hálfgiptur borgmeistaradóttur, en tók þá sótt og andaðist, um 1499 eða 1500. Kölluðu þá ýmsir til arfsins.

D. Árni sonur Björns ríka og Ólafar var með Kristjáni konungi öðrum í herferðum til Svíaríkis og féll á Brunkabergi ásamt mörgum stórherrum og miklu liði 1471. Launbörn Björns ríka með öðrum konum:

E. Jón danur, dó 1508; bjó á Hrafnseyri og átti Kristínu dóttur Sumarliða, launsonar Lopts ríka. Þau barnlaus.

F. Þóra Björnsdóttir átti Guðna sýslumann Jónsson (sjá síðar).

G. Þuríður Björnsdóttir ríka, átti Narfa á Narfaeyri, Þorvaldsson, Þorkelssonar[1]). Börn:

AA. Helga, kona Gríms sýslumanns Pálssonar,

---

eptirtekt. En þegar eg gerði registrið yfir fimmta bindi hins íslenzka fornbréfasafns, tók eg fyrst eptir því, að Skúli Loptssou hefur fyrstur þessara langfeðga orðið eigandi Álfgeirsvalla, og áleit þá þegar auðsætt samband Hrólfsættarinnar við Skarðverja, og síðan hefur einnig ættfræðingurinn Hannes ritstjóri Þorsteinsson fallizt á það, að þessi ætlan mín um langfeðga Hrólfs sterka sé með öllu rétt. — Melsteds-ættin má því þannig teljast í beinni karlkvísl til Lopts ríka og Skarðverja og síðan upp til Ólafs feilans og Ynglinga (sbr. ritgerð mína **um Skarðverjaættina** hér aðframan, bls. 407—419).

1) Þorvaldur var lögréttumaður, og bjó á Geirrauðareyri í Álptafirði (Narfaeyri); faðir hans var Þorkell prestur Ólafsson, bróðir Árna biskups hins milda.

á Möðruvöllum í Eyjafirði (sjá Þingeyjarþing).

BB. Anna, kona Guðlaugs Loptssonar, sýslumanns í Strandasýslu.

CC. Valgerður, kona Sigurðar sýslumanns Daðasonar (sjá Húnavatnsþing).

DD. Ólafur Narfason[1]) silfursmiður, átti Solveigu Bjarnadóttur, Andréssonar, þá er Filippus prestur áður brott nam. Þau Ólafur bjuggu á Eyri í Kjós. Börn:

a. Hannes í Hvammi í Kjós, átti Sesselju Ólafsdóttur.

b. Þórey, átti Arngrím. Þeirra son:

aa. Björn, faðir Þóreyjar, sem átti Þorleif Jónsson, Skúlasonar.

c. Kristín, átti Jón Erlingsson. Barn:

aa. Jón sauður í Miðskógi.

bb. Ólafur skáld, prestur á Söndum 1596, dó 1627.

d. Guðleif, átti Eyjólf[2]). Barn:

aa. Ívar á Neðrabæ í Selárdal.

EE. Sigurður Narfason, átti Valgerði dóttur Þórðar [á Staðarfelli] Helgasonar, og Guðfinnu dóttur Jóns sýslumanns Ásgeirssonar, systur Guðna sýslumanns í Ísafirði. Barn:

a. Ormur. Hans börn:

aa. Þorsteinn.

---

1) Ólafur silfursmiður var ekki sonur Narfa á Narfaeyri, svo sem hér er talið, heldur sonur Narfa ábóta Ívarssonar, á Helgafelli, enda gæti það naumast staðizt tímans vegna, að Ólafur, sem er varla fæddur fyr en um 1500, væri bróðir þeirra Helgu á Möðruvöllum, konu Gríms, og Valgerðar konu Sigurðar Daðasonar, því að það fólk er heldur gamalt um 1500.

2) Eyjólfur maður Guðleifar Ólafsdóttur var sonur Magnúsar í Haga, Eyjólfssonar mókolls hins yngra (d. 1522), Gíslasonar, Filippussonar, Sigurðaronar, Þórðarsonar, Gíslasonar eldra (d. 1370), Filippussonar, Loptssonar, af hinni fornu Hagaætt, sjá hér að framan og Safn til sögu Íslands I, 126. Eyjólfur bjó á Hóli í Bíldudal.

bb. Páll.
cc. Jón.
dd. Þórður.

FF. Árni Narfason.

GG. Soffía Narfadóttir[1]) átti Ólaf sýslumann í í Þernuvík, Guðmundarson (sjá hér síðar).

HH. Ingibjörg Narfadóttir[2]) átti Orm Einarsson[3]) á Seltjarnarnesi, bróður Guðrúnar

---

1) Soffía var án efa dóttir Narfa ábóta Ívarssonar. Hefur hún heitið eptir Soffíu dóttur Lopts ríka, sem hefur verið kynmóðir Narfa ábóta. Soffía Loptsdóttir átti fyrr Árna son Þorleifs Árnasonar, bróður Björns ríka. Síðar átti hún Bjarna son junkæra Ívars hólms yngra (d. 1433), Vigfússonar Hólms (d. 1420), Ívarssonar Hólms hirðstjóra (d. 1371), Vigfússonar hirðstjóra (1371; d. 1371), Jónssonar á Ferjubakka, Erlendssonar sterka (Ísl. Fornbrs. V, 948. bls. II, ath. 1). Bjarni bjó að Glaumbæ, og síðar að Meðalfelli í Kjós. Sonur Bjarna og Soffíu hét **Ormur**, en annar sonur þeirra mun hafa verið **Ívar**, faðir Narfa ábóta á Helgafelli (1512 — d. 1554). Bróðir Narfa ábóta hefur verið **Bjarni Ívarsson** bróðir (munkur) á Helgafelli 1493 (Í. F. VII, 157. bls.). Bjarni sonur Narfa ábóta átti Meðalfell í Kjós og seldi það 1538 Ögmundi biskupi; þeir feðgar hafa því átt Meðalfell hver eptir annan, allt frá því Bjarni (eldri) Ívarsson átti það (c. 1460), til þess er Bjarni Narfason (ábóta) seldi það, sem fyrr var getið.

2) Ingibjörg var dóttir Narfa ábóta, systir Ólafs og Soffíu og Bjarna.

3) Ormur maður Ingibjargar var Jónsson; hann var sýslumaður og bjó í Vík (Reykjavík) á Seltjarnarnesi, (sjá um hann við Kjalarnessþing; sbr. Safn til sögu Íslands I, 114). Ormur dó 1564. Að Ormur þessi hafi verið bróðir Guðrúnar konu Sæmundar Símonarsonar lögsagnara (um og eptir 1500), getur ekki verið rétt. Ormur bróðir Guðrúnar gæti vel hafa verið móðurfaðir Orms Jónssonar, er átti Ingibjörgu Narfadóttur. Annars er ætt Orms í Vík allmjög ókunnug að svo komnu, og svo flestar ættir þeirra Seltirninganna og Reykvíkinga á 14. og 15. öld; og lengi fram eptir er lítt kunnugt um það, hverjir búið hafa í Reykjavík og á Seltjarnarnesi, þótt líklegt þyki, að niðjar Hafurbjarnar Styrkárssonar (hins auðga) hafi búið í Nesi fram yfir 1400. Margrét Özurardóttir, kona Ívars Hólms eldra Vigfússonar, þess er dó 1371, var án efa af ætt Hafurbjarnar. Það sýna meðal annars eignir Hólmanna um Suður-

konu Sæmundar Símonarsonar lögsagnara í Þingeyjarþingi. Börn:

a. Ögmundur Ormsson.

b. Narfi Ormsson í Reykjavík, átti Guðrúnu Magnúsdóttur, systur Halls skálds. Börn:

aa. Ormur prestur á Breiðabólstað á Skógarströnd, alls 50 ár, dó 1651, átti Steinunni Hallkelsdóttur prests á Seltjarnarnesi og í Borgarþingum, dó 1630 (prests 40 ár). Börn:

aaa. Jón litli Ormsson, prestur í Miðdalaþingum 42 ár, dó 1685, átti fyrr Ástríði Thómasdóttur, og börn. Svo [átti Jón] Sigríði Ólafsdóttur frá Skörðum og börn.

bbb. Erlendur Ormsson, gerði sig að spámanni á Vestfjörðum; átti Kristínu Höskuldsdóttur.

ccc. Sigríður Ormsdóttir, fyrri kona Harrisar enska fálkafangara, í Hraunskarði [undir Jökli].

bb. Þórey Narfadóttir, átti Gísla prest í Vatnsfirði 40 ár, svo á Stað á Reykjanesi 24 ár, dó 1660. Börn:

aaa. Þórarinn, átti Svanborgu Andrésdóttur, Bjarnasonar, og börn.

---

nes, að þeir hafa verið af ætt Nesverja, eða tengdir þeim. **Özur** faðir Margrétar mun einmitt hafa verið **sonur Styrkárs** í Nesi (d. 1341), **Gizurarsonar** (d. 1305), **Hafur-Bjarnarsonar** hins auðga, **Styrkárssonar.** Margrét átti Engey, Laugarnes og fleiri jarðir um Suðurnes, sem hinir fornu Seltirningar höfðu áttar. Ívar bjó á Bessastöðum, maður Margrétar; og þar bjó Vigfús sonur þeirra um hríð, þótt þeir feðgar ætti bú á Strönd í Selvogi, sem var erfðaleifð þeirra langfeðga, frá Erlendi sterka (sjá um þessar ættir við Kjalarnessþing).

bbb. Guðmundur í Ossabæ í Landeyjum, varð fyrr síðari maður Sesselju yngri Erasmusdóttur. Síðar átti hann Guðrúnu Einarsdóttur og börn.

ccc. Eiríkur, á Langadalsströnd, átti fyrr Arnfríði Hannesdóttur í Hvammi, Jónssonar, og börn.

Seinni kona Eiríks [var] Þuríður Ísleifsdóttir.

ddd. Sigurður Gíslason, prestur í Grunnavík, 59 ár, dó 1702, 85 ára, átti fyrr Margrétu Bjarnadóttur, svo Ingveldi Jónsdóttur og börn.

eee. Jón Gíslason á Kollafjarðarnesi og Múla, átti Unni Grímsdóttur úr Súgandafirði og börn.

fff. Margrét, átti Jón Magnússon; barnlaus.

ggg. Jóhanna, átti Oddleif Gunnarsson; barnlaus.

hhh. Helga, seinni kona Lopts Árnasonar; þeirra börn dóu.

ííí. Herdís, átti Þorleif Snæbjarnarson. Barnlaus.

kkk. Margrét yngri, átti Thomas prest á Snæfjöllum 36 ár; hann dó 1670; áttu börn:

lll. Guðríður Gísladóttir, átti Ólaf; þeirra son Guðmundur í Hleiðrargarði.

mmm. Ormur Gíslason.<br>
nnn. Ingibjörg.<br>
óóó. Páll.<br>
ppp. Guðný.<br>
} Öll barnlaus.

Alls átti Gísli prestur 20 börn.

cc. Jón Narfason [Ormssonar], átti Þuríði dóttur Oddleifs Klemenssonar á Kleifum í Gilsfirði.

ÍÍ. Bjarni Narfason frá Narfaeyri[1]), átti Sigríði dóttur Björns sýslumanns Guðnasonar (sjá Ísafjarðarsýslu; réttara mun að Bjarni hafi verið sonur Narfa ábóta Ívarssonar).

KK. Ívar Narfason[2]) og

LL. Þorleifur Narfason[3]) (munu synir Narfa ábóta Ívarssonar).

Launbörn Björns ríka teljast enn í sumum bókum:

H. Helga[4]); hennar börn.

AA. Björn,

BB. Guðrún, móðir Nikulásar.

Í. Herdís[4]), sem sagt er að hann hafi ekki meðgengið.

Björn ríki meinast borinn í Vatnsfirði, nálægt eða nokkru eptir 1408; uppólst hann lengst í Vatnsfirði. Nokkur launbörn sín átti hann áður hann kvongaðist, sem mun hafa verið nálægt 1428. Fékk þá Loptur ríki algerlega dóttur sinni *Ólöfu* til eignar *Skarð* á Skarðsströnd, með fleiri eignum, og bjuggu þau þar síðan. Brátt gerðust þau Björn og Ólöf fram-

---

1) Bjarni Narfason var ekki sonur Narfa Þorvaldssonar á Eyri, heldur sonur Narfa ábóta Ívarssonar, bróðir þeirra Ólafs, Ívars, Soffíu og Ingibjargar; sjá hér að framan.

2) Var og sonur Narfa ábóta Ívarssonar.

3) Eg hef ekki séð Þorleif Narfason nefndan í gerningum, en eg hygg þó að þetta nafn sé rétt. En líklega hefur hann ekki verið sonur Narfa á Eyri, heldur sonur Narfa ábóta. Narfi Þorvaldsson mun eigi hafa átt son með Þorleifs nafni; en Þorvaldur hét einn af sonum Narfa á Eyri er kemur við bréf um 1500.

4) Eg hef hvergi annarsstaðar séð þessara laundætra Björns ríka getið. En í skuldaskrá Björns (Í. F. V, nr. 442) er tvisvar getið um **Steinunni Björnsdóttur,** sem sýnist vera laundóttir Björns ríka. Gaf Björn henni »hálft fimmtánda hundrað« sem reiknað er í skuldaskránni eptir hann, og auk þess átti Solveig Björnsdóttir að gjalda Steinunni fjögur hundruð.

kvæmdarsöm, héraðsrík og hinir mestu fjárgæzlumenn. Varð þeim förult um landið, þá fjárvon var.

Þótt eg hafi ekki fundið dóma Björns, er líkast hann hafi snemma haft veizlur hirðstjóra mest um Vestfjörðu og Dalasýslu, einkum þá Einar bróðir hans hafði hirðstjórn, eða var hirðstjóra-umboðsmaður. Þess er getið, að *Ólöf Aradóttir* systir Guðmundar ríka á Reykjahólum hafi gefið Birni fullmakt að heimta af Guðmundi bróður sínum hennar erfðafé, eptir föður sinn, fjögur hundruð hundraða, og eptir móður sína *Þorgerði Ólafsdóttur*, fimm hundruð. Guðmundur hafði haft frammi ránskap við mága sína, en Einar Þorleifsson var þá orðinn valdamaður. Veittust þeir því að Guðmundi 1442[1]) og gerðu hann loks útlægan, og tóku fé hans hálft undir sig sem valdamenn, en hálft undir kong. Keypti svo Björn af kongi hans hluta, og Einar bróðir hans Reykjahóla og fleiri eignir, sem þar af má sjá, að Þorleifur prestur telur Einar Reykjahólaeiganda, næst[an] eptir kong (sjá Ísafjarðarsýslu). 1445 tjáðist Björn ríki hafa liðið skipbrot við Grænland, og þar hafi Ólöf kona hans og hann verið um hríð, og haft aðsetur sitt að Görðum, og [hafi Björn þá haft] Eiríksfjarðarsýslu. Henrik Refken[2]) meðkenndi 1463, að Björn hirðstjóri Þorleifsson hefði goldið konungi 50 lestir skreiðar og hálft annað hundrað og 13 nóbel, fyrir fé Guðmundar Arasonar. Kvitteringin er gefin út að Arnarholti í Borgarfirði, sunnudag næstan fyrir Marírmessu 1463. — 1464 afhenti Ólöf húsfreyja Gerreki gullsmið 13 gullnóbel og 23 í góðu silfri, fyrir Guðmundar eignir.

Þá biskupslaust var í Skálholti, tók Björn það undir sig nálægt 1450 eða fyr, og hélt það til þess Heinrik Kaldeison ritaði biskupi Gottskálk 1453, að reka Björn þaðan. Um 1455 fór Björn utan, með konu sína Ólöfu; fékk hann veður stór og hraktist undir Orkneyjar. Þar komu að þeim víkingar skozkir, rændu þau og fönguðu og fluttu til Skotlands. En er það spurði Kristjan Danakonungur, lét hann leysa þau út.[3]) Fóru þau þá til Danmerkur (1456), og fengu þar góðar viðtökur

1) Réttara: 1446.

2) Svo, handritið; réttara: Kepkin.

3) Sbr. Í. F. V, nr. 136.

af konungi. Björn var mikill íþróttamaður og hirðprúður. Gerði konungur hann að riddara (1457). Skjaldarmerki Björns var hvítabjörn í blám feldi, og annar upp af hjálminum. Konungur fékk þá Birni hirðstjóraembættið á Íslandi.[1]) Enskir menn gerðu þá mikinn yfirgang á landi hér, drápu stundum menn og rændu, guldu eigi konungi ákveðinn toll fyrir kauphöndlan sína. Vildi konungur, að Björn með valdi sínu niðursetti ofsa þeirra. Björn kom út 1457; stjórnaði mikilmannlega og settist á móti yfirgangi enskra. Gerði og stundum fé þeirra upptækt, þá hann henti sakir á þeim. Fór hann yfir land með marga sveina; þótti ríklundaður og fjárplógsmaður. Leið svo fram til þess árið 1467, að hann með flokk manna reið út í Rif [undir Snæfellsjökli], hvar enskir höfðu verzlun. Bar þeim þá til, og sló í bardaga. Féll þar Björn og 7 menn aðrir. En Þorleif Björnsson fönguðu enskir, og höfðu í haldi, til þess hann var útleystur með miklu fé. Ólöf komst nauðuglega undan, því að enskir veittu henni eptirför. Þeir hjuggu Björn dauðan í stykki, létu hann í poka og sendu hann svo Ólöfu. Var, Björn að sögn, grafinn á Skarði á Skarðsströnd, en önnur laus sögn er, að hann hafi verið grafinn í Flatey, og vitum vér eigi, hvort sannara er. Björn hefur verið bæði að fornu og nýju hinn auðugasti maður á Íslandi. Er ritað, að þá hafi fjármunir þeirra hjóna verið tíu tigir hundraða í jörðum, tólf hundruð kúgildi og átta tigir hundruð hundraða í virðingarfé. Er þó ekki að sjá á skiptabréfi eptir Björn, sem gert er í Vatnsfirði 1467, að svo mikið hafi verið. — Finnur biskup setur fall Björns 1468.[2]) —

---

1) Aðalskaparbréf Björns ríka er gefið út í Kaupmannahöfn, af Kristjáni konungi fyrsta, 16. maí 1457 (Í. F. V, nr. 138). Björn kemur við bréf og gerninga 1433 og þar eptir; hann gerðist hirðstjóri sunnan og austan fyrir 1457 og hélt þeim hluta lands til 1463; gerðist hann þá hirðstjóri yfir öllu Íslandi (1464). Björn sýnist jafnvel hafa verið »lögmaður sunnan og austan« 1459, þá er sundurþykki þeirra Teits ríka var sem mest, út af því, að Teitur vildi ekki hylla Kristján konung fyrsta (Í. F. V., nr. 172—174). Björn hefur haldið hirðstjórninni »um allt Ísland«, frá 1464, til þess er hann var veginn, eptir alþing, sumarið 1467.

2) Það er rétt, að Björn var veginn sumarið 1467, en ekki 1468. Skiptabréf hans er prentað í Íslenzku fornbréfasafni V, nr. 441.

1459 nefndi Erlendur Brandsson menn í dóm í Árnessýslu, í löglegu umboði Björns bónda Þorleifssonar. Þar af má sjá, að hirðstjórar sjálfir hafa opt haft sýslurnar á þeim dögum, en haldið sína umboðsmenn í þeim, þar mjög örðugt var hirðstjórum að vera til staðar við sérhvern dóm í langt frá liggjandi sýslum. En optast tóku þeir sjálfir, eða létu taka tolla sem gjaldast skyldi, og það stundum með mikilli frekju, álíkt sem biskupar og klerkar. Mikinn fjölda umboðsmanna hélt Björn, er hann setti yfir lénin og sitt mikla jarðagóz. Sjálfur var hann mesti framkvæmdarmaður.

## Ólöf dóttir Lopts ríka

er borin á Skarði á Skarðsströnd, eptir 1400.[1]) Svo bar til, þá Loptur faðir hennar var á Skarði, nálægt 1410, að drengir höfðu prikaleik á gólfi, hvar Loptur gekk um. Einn þeirra pilta hét **Illugi**, og sló hann óviljandi priki sínu á fót Lopti, svo honum varð dátt við og mælti: „Þú slær ógætilega, piltur. Það er eigi úti með það, þú munt gera mér fleira til mótþróa áður lýkur“. Faðir piltsins afsakaði óviljaverk sonar síns eptir megni, en Loptur strauk fót sinn og varð þrámálugur á sama. Þótti það rætast, því að síðar varð þessi Illugi efnilegur maður, lagðist á hugi við Ólöfu, og átti með henni stúlku, sem hét **Ástríður**. Lét Ólöf hana frá sér; þar eptir átti Ólöf með Illuga son, er nefndist **Sigvaldi** *langalíf*; lét Ólöf hann fara vestur. Ekki máttu þessi börn kalla hana móður sína; eignaði hún börnin einni þernu sinni. *Sigvaldi* gerðist smiður mikill, og smíðaði kirkju í Vatnsfirði, með spónþaki, mjög vandaða. Ólst hann svo upp fram yfir tvítugsaldur. Svo bar til eitt sinn, þá Ólöf gekk til skripta, og hafði eptir venju lagt af sér silfur sitt á kistu í framkirkjunni, — fóru karlmenn, er þar hjá voru, að skoða silfrið; meðal

---

1) Það mun efasamt, hvort Ólöf er fædd á Skarði. Líklegra þykir mér, að hún sé fædd á Möðruvöllum í Eyjafirði, þar sem Loptur faðir hennar bjó og dvaldi lengst, eptir 1400. — Mér sýnist auðráðið af skiptabréfi Lopts ríka ( Í. F. IV, nr. 555), að hin skilgetnu börn Lopts: Þorvarður, Eiríkur, Ólöf og Soffía, hafi öll verið ógipt, þegar Loptur andaðist og hafi þau þá flest verið heldur ung. Ólöf kemur fyrst við gerning, sem »húsfreyja« 1459 (Í. F V., nr. 162).

þeirra var *Illugi* þessi, er kallaður var hinn *svarti*. Hann mælti: „Haldið þið piltar, hann sé ei mikilsháttar, sem hefur þessa fyrir fylgikonu?" Þetta frétti Ólöf og reiddist. En þá Illugi varð þess var, flýði hann. Sveinar Ólafar spurðu, hvort hún vildi láta elta hann. Hún kvað „*nei*", því lítilmannlegt væri að elta einstæðingspilt. Dró hann svo undan.

Einar Þorleifsson, bróðir Björns ríka, átti laundóttur; hún hét **Þuríður**, og ólst upp hjá Birni föðurbróður sínum um hríð. Björn Þorleifsson fékk Ólafar [Loptsdóttur] eptir 1420,[1]) með miklu fé, og flutti þá að Skarði. Þar eptir kom *Sigvaldi* að vestan, *son Ólafar*, og staðnæmdist litla hríð á Skarði. Nam hann þá á burt téða Þuríði, sumir segja að ráði Ólafar, og flýðu austur á Síðu. Er það samandregið, að því hafi Þuríður ekki fengið það, er Einar [faðir hennar] hafði testamenterað óektabörnum sínum, að hún var á burtu numin. Þessi teljast börn Sigvalda með Þuríði:

A. Einar, átti Gunnhildi [Jónsdóttur], fátækra og frómra manna. Börn:

AA. Gizur, fyrsti Skálholtsbiskup eptir siðaskiptin. Barnlaus.

BB. Þorlákur á Núpi sýslumaður (sjá Ísafjarðarsýslu).

CC. Séra Halldór í Selárdal, dó 1583, átti fyr Margrétu Hannesdóttur. Börn:

a. Bjarni prestur í Selárdal, dó 1636.

Síðari kona séra Halldórs Inga Jónsdóttir. Börn:

b. Séra Teitur í Gufudal, dó 1633.

c. Ingibjörg, átti séra Ásmund Þormóðsson.

d. Margrét.

e. Halldóra.

EE. Jón yngri prófastur í Reykjaholti, átt Guðríði Sigurðardóttur [frá Slítandastöðum], Þorbjarnarsonar. Börn:

a. Séra Böðvar í Reykjaholti.

b. Halldóra.[2]) } giptust og áttu börn.
c. Guðrún. }
d. Margrét. }

---

1) Brullaup þeirra mun víst eigi hafa orðið fyrr en eptir 1432 (sjá næstu athugagrein hér á undan).

2) Halldóra átti Spélna-Styr, son Þorvalds Styrssonar; þeir

FF. Árni Einarsson klausturhaldari á Kirkjubæ. Hans dóttir:

a. Álfhildur hin væna, átti Jakob.

GG. Jón eldri, launsonur Einars var fyrst prestur á Kirkjubæ, svo á Stafafelli í Lóni; hans son:

a. Séra Gizur.

HH. Oddný Einarsdóttir.

B. Guðmundur Sigvaldason, bjó austur á Síðu. Börn:

AA. Halldór í Ásgarði í Landbroti. Hans dóttir:

a. Þuríður átti Jón.

BB. Skúli, [átti Þórunni dóttur Marteins biskups[1])]. Börn:

a. Halldór sýslumaður og klausturhaldari á Þykkvabæ (sjá um hann, börn hans og niðja, við Skaptárþing).

b. Jón Skúlason.

c. Guðmundur.

d. Helga.

C. Gunnar Sigvaldason. Hans börn:

AA. Sigvaldi, faðir Vilborgar, sem átti séra Þorlák Einarsson í Sólheima- og Dyrhólaþingum.

---

feðgar koma við bréf um og fyrir 1600. **Sonur Styrs var Einar** bóndi á Uppsölum í Hálsasveit (f. 1600, d. á Uppsölum í janúarmánuði 1681, 80 ára gamall), **faðir Ingibjargar,** er átti Ólafur á Bjarnastöðum, sonur Jökla-Helga, Ólafssonar, Sveinssonar. — **Sonur þeirra Ingibjargar** Einarsdóttur **var Ásmundur** á Bjarnastöðum (á lífi 1708), **faðir Gísla** á Fróðastöðum (1708; d. 1746), **föður Guðrúnar** (f. 1707), **móður Guðmundar** hreppstjóra Hjálmssonar (d. 1822), **föður Helga á Lundi** (d. 1843), **föður Jónasar** (d. 1902), **föður Jósafats** ættfræðings. Fjölmennar ættir eru komnar frá þeim Styr og Halldóru.

1) Þórunn mun ekki hafa verið kona þessa Skúla, heldur kona Skúla Guðmundarsonar, Skúlasonar, Loptssonar hins ríka. Skúli sá var sýslumaður í Húnavatnsþingi (sjá Húnavatnsþing). Synir þeirra Þórunnar og Skúla sýslumanns hafa verið:

A. **Bjarni Skúlason** lögréttumaður, alinn upp á Skeiði í Fljótum, **faðir Hrólfs sterka** á Álfgeirsvöllum.

B. **Guðmundur Skúlason,** er kvæntist 1542, í Engihlíð í Langadal, Guðnýju Brandsdóttur (Sýsl.æfir I, 495. bls.; sbr. hér að framan).

BB. Guðrún, átti Ásmund[1]) og með honum:
a. Guðrúnu í Stafaholti.

D. Geirþrúður Sigvaldadóttir; hennar fyrri maður Hrólfur Þorsteinsson; þeirra son:

AA. Bersi[2]), faðir Þorbergs [sýslumanns].

Seinni maður Geirþrúðar var Bjarni. Þeirra son:

BB. Hrólfur sterki, átti Ingibjörgu Bjarnadóttur, Torfasonar sýslumanns í Klofa; sjá Þingeyjar- og Hegranesþing.

E. Halldóra, kvenna hæst, varð abbadís á Kirkjubæjarklaustri. Hún kom flestum bróðursonum sínum til menningar.

F. Helga Sigvaldadóttir.

Eptir það Ólöf var gipt Birni, var hún opt í yfirreiðum með bónda sínum, og stundum sér til féfanga. Hún var og í Skálholti með bónda sínum stundum, og var mjög aðdráttarsöm. Hún var einnig í Rifi, þá Björn bóndi hennar féll, og flýði landveg suður Fróðárheiði og inn Staðarsveit. Maður

Þórunn kona Skúla sýslumanns var eigi heldur dóttir Marteins biskups, heldur var faðir hennar ættaður úr Húnavatnssýslu (sbr. Sýsl.æf. I., 496. bls. ath., 1).

1) Réttara mun, að maður Guðrúnar Gunnarsdóttur héti Ámundi (sbr. Bps. II., 599).

2) Bersi faðir Þorbergs sýslumanns mun hafa verið Þorláksson, því að Þorbergur er talinn bróðir Árna, er veginn var á Sveinsstöðum 1523 (Bisk.s. II., 243, ritgerð frá 1593, sem mun hin elzta heimild fyrir ætterni Þorbergs sýslumanns, er nú þekkist), en af bréfum og dómum frá fyrra helmingi 16. aldar vitum vér, að Bersi faðir Árna var Þorláksson, en ekki Hrólfsson. Það mun því vafasamt, hvort maður Geirþrúðar Sigvaldadóttur var Hrólfur Þorsteinsson, eða hver maður hennar var, því að þess finnst eigi getið í bréfum eða öðrum fornum heimildum, svo að eg viti. Hitt fær enn síður staðizt, að Hrólfur sterki hafi verið föðurbróðir (sammæðri) Þorbergs sýslumanns, því að Þorbergur mun fæddur eigi síðar en um 1500, en Hrólfur mun eigi fæddur fyr en um 1530 í fyrsta lagi. Það er þó ekki efamál, að þeir hafa verið náfrændur, Þorbergur sýslumaður og Hrólfur hinn sterki, eptir því sem ættnöfnin benda til. En að svo komnu fáum vér ekki brugðið því ljósi yfir skyldleika þeirra, að hann verði að fullu skilinn, því að þar vanta nægar heimildir til aðstoðar.

er nefndur *Ólafur* og var *Geirmundarson.* Ólafur þessi var kallaður *tóni* eptir móðurföður sínum[1]). Hann var í æsku uppfóstraður af Straumfjarðar-Höllu, er var haldin mjög fjölkunnug, og var almæli, að Ólafur hefði numið af henni þau vísindi. Þar eptir fór Ólafur að Skarði til Björns ríka og Ólafar, og gerðist sveinn þeirra og verkaforstjóri; hann lét þá ryðja *Tóna-vör* á Skarði. Þar eptir, með tilstyrk þeirra Björns og Ólafar, kvongaðist Ólafur Sigríði Þorsteinsdóttur; var þeirra kaupmáli gerður á Hróðnýjarstöðum í Laxárdal 1446, og hafði þá Sigríður til kaups við Ólaf tvö hundruð hundraða og Ólafur jafnmikið, með því sem þau Björn og Ólöf gáfu honum. Dætur þeirra Ólafs og Sigríðar voru þær *Þorbjörg*, sem átti Andrés son Guðmundar ríka (sjá Strandasýslu), og *Guðrún*[2]). Ólafur bjó á Ytra-Rauðamel 1467; þangað fór Ólöf í nauð sinni. Tók Ólafur við henni ágæta vel og gerði henni allan fararbeina. Og þá þau höfðu gert ráð sín *undir Háahjalli*, reið Ólöf inn Rauðamelsheiði og komst undan. En Ólafur fór á móti þeim ensku, fyllti flokk þeirra og tók þeim vel; gerðist og þeirra leiðsögumaður. Sló þá yfir þoku. Ólafur aðvaraði enska, að fyrirsát mundi vera, er þeir sáu í þokunni stróka marga, sem voru raunar hraunstrípar; snéru því enskir aptur við Hlífarvörðu og launuðu Ólafi vel góða viðtekt, fylgd og aðvörun. En Ólöf ríka gaf Ólafi Snorrastaði fyrir liðsinni við sig.

Þá er Ólöf móttók frá enskum Björn bónda sinn, stykkjaðan í poka, mælti hún: „Ekki skal gráta Björn bónda, heldur hefna“. Fyrir milligöngumenn fékk hún frá þeim ensku útleystan Þorleif son sinn, með ærnu fé. Þar eptir fór hún utan á fund Danakonungs, og klagaði fyrir honum víg Björns bónda síns. Er mælt, að konungi litist allvel og stórmannlega á Ólöfu; en að orsakast hafi 5 ára stríð milli Dana og enskra mun ofaukið, þótt viðsjár væri með undirsátum konunga þeirra, bæði áður og eptir.

---

1) Móðir Ólafs tóna Geirmundarsonar, var Guðrún dóttir Ólafs tóna hins eldra (d. 1393), Þorleifssonar, Svartssonar, Þorleifssonar. Þessi ættleggur nefnist Tónaætt.

2) Eg man ekki til, að eg hafi séð Guðrúnar dóttur Ólafs tóna yngra getið annarsstaðar en hér. En Guðrún hét móðir Ólafs þessa, og var dóttir Ólafs tóna eldra, sem fyr segir.

Þegar Ólöf kom út, lét hún sitja um enska. Voru synir hennar, einkum Þorleifur, fyrir því liði og gátu tekið á Ísafirði 3 enskar duggur með áhöfn; voru þar sumir drepnir, en 50 — sumir rita 80 — enska lét hún fara heim að Skarði í höptum, byggði þeim þar skála, sem síðan kallast Mannheimar og gerðist hjáleiga. Jafnmarga íslenzka menn hélt hún þessum til notkunar; lét hún þá ensku draga heim að staðnum grjót til garðlags, húsa og strætis, er hún lét þá leggja frá staðnum til kirkjunnar. Þar eptir sleppti Ólöf þessum ensku og fóru þeir utan.

Ólöf og Þorleifur son hennar stóðu fyrir hirðstjórn, til þess Henrik Kerken[1]) tók við henni 1470. Ólöf var og í Krossreiðamáli 1471 (al. 1474)[2]), og var þá enn fengsöm, lét hún sig sjaldan vanta, þar sem févon var, Hún var hin mesta framkvæmdarkona, lét byggja Skarðskirkju mjög vandaða; voru eiri brydd öll bitahöfuð, og stólparnir nær feðmings-

---

1) Kepkin, er hið rétta ættnafn Heinreks. Heinrekur Kepkin hafði áður verið erindreki Kristjáns konungs fyrsta, á Íslandi, á árunum 1463—1467. Daníel Kepkin kanoki í Niðarósi (um 1450 og síðar) mun vera bróðir Heinreks.

2) Krossreið varð 1471, en ekki 1474 (sbr. Í. F. V, nr. 573; Safn I, 116). Varð það snemma í september, að þeir Þorvarður son Eiríks Loptssonar og Narfi son Teits Helgasonar (hirðstjóra, Styrssonar), gerðu heimreið um nótt (líkl. aðfaranótt hins 9. september), að Krossi í Landeyjum, að Magnúsi Jónssyni. Þeir leiddu Magnús út og drápu hann, en særðu konu hans, Ragnheiði Eiríksdóttur, Krákssonar frá Skarði á Landi, — sex sárum. Voru þeir félagar síðan dæmdir réttdræpir, hvar sem þeir fyndust, en fé þeirra undir konung. Orsök vígs þessa sýnist upphaflega hafa verið deila um jörðina Kross, er Narfi Teitsson þóttist eiga; en Magnús Jónsson hafði keypt jörðina af Ólöfu Loptsdóttur hins ríka og Þorleifi syni hennar, er þóttust eiga mestan hlut jarðar þeirrar; en Þorvarður son Eiríks Loptssonar hefur viljað ná jörðunni, eða hefur þótzt eiga tilkall til einhvers hluta hennar vegna skyldleika við Ólöfu, sem var föðursystir hans. Hefur Þorvarður því veitt Narfa að málum þessum. Þó segir Jón Egilsson annálaritari, að aðalorsök Krossreiðar hafi verið orðadeilur þeirra Þorvarðar og Magnússar; en þær deilur munu upphaflega hafa komið af ágreiningnum út af fyrnefndu jarðakaupi; á það bendir Krossreiðardómur (Í. F. V, nr. 573).

digrir. Spónþak var á kirkjunni. Stóð sú kirkja til 1780, þá Magnús sýslumaður Ketilsson lét taka hana, og aptur uppbyggja torfkirkju vandaða. Hafði þá Ólafar kirkja staðið yfir 300 ár. Ólöf lét og til kirkjunnar mjög mikla klukku, sem þá (um 1780) var klofin, send utan og steypt í aðra miklu minni klukku. Margt annað lét Ólöf gera mjög rausnarlega. En ætla má, að Loptur faðir Ólafar og Björn bóndi hennar hafi byggt stórmannlega á Skarði, þá þeir sátu þar í velmakt sinni. Margt misjafnt er sagt um Ólöfu, einkum lausung hennar og barnamorð, er eg meina róg, upplostinn af klerkavaldinu, sem vildi gapa yfir hennar mikla auði, þótt ekki tækist það. En til er ritaður hennar svo kallaður *skriptagangur*[1]), ófagur, ef satt væri, upplostinn af klerkum, sem áður er sagt, því hefði satt verið, mundu biskupar hafa nýtt

---

1) Hér er átt við skriptamál Ólafar Loptsdóttur, sem eru prentuð í Íslenzku fornbréfasafni, VI. bindi, nr. 233, og færð til ársins 1479. Skriptamál þessi eru merkileg að því leyti, að efni þeirra er sérstakt og ólíkt flestum öðrum skjölum, sem nú eru til frá þeim tímum, enda finnast svo fá skjöl af því tagi, að vert er að geyma þau er finnast, því að þau sýna betur en flest annað ofstæki og strangleik klerkanna, er hafa ritað skriptamál þessi, að líkindum að mestu leyti eptir eigin geðþótta, án tillits til orða þess, er skriptamálin eru tileinkuð. Ætlun klerkavaldsins með skjölum þessum var sú, að afla kirkjunni fjár hjá þeim, er hlut átti að málum. Þessvegna gerðu klerkar og biskupar sér mest far um, að fá auðuga menn til þess að játa sem flestar yfirsjónir, og setja þeim svo harðar skriptir, sem þeir sáu sér framast fært, því fjárlát þeirra manna urðu að því skapi hærri til kirkjunnar og klerkanna.

Það er skaði stór, sem bókmenntafélagið hefur gert með því, að fella burtu kafla úr skriptamálum Ólafar ríku, í útgáfunni; því að þeir menn einir lesa fornbréfasafnið, er vel mega njóta til fulls fróðleiks þess alls, er skjöl safnsins hafa að geyma. Og yrði fleiri slík skjöl gefin út í fornbréfasafninu, ættu þau að prentast með öllu heilu og óhögguðu, eins og þau fyllst fást, því að þá fyrst nær útgáfa fornbréfasafnsins tilgangi sínum; og sama er að segja um Hvassafellsbréfin, að slíkir útdrættir eiga ekki að sjást í vísindalegu riti, heldur á að gefa skjölin út í hinni upphaflegu mynd þeirra, og vér fáum ekki betur séð, en að hver maður sé skaðlaus af lestri þeirra skjala, þótt heil væri, — ef hann annars vill kynna sér þau söguatriði, er skjöl-

sér það, ef ekki hefði verið rógur einn, því sakir gáfu þeir á minna. Hitt mun satt, að Olöf var hin siðavandasta við tíðahald, svo að ef nokkur hennar þénari, eða þeirra, fór út úr kirkjunni um tíðir, fékk hann ekki mat þann dag. Þau Björn og Ólöf áttu mikinn fjölda af eirkötlum, sem þau burtleigðu, hvert tíupottarúm fyrir fimm fiska. Er það að orði gert, að þau hafi átt flestöll eldsgögn í nálægum sveitum á leigustöðum. Var þá og langtum meira landskyld og kúgildafjöldi á jörðum, en nú er. Var því ekki að undra, þótt þau græddu árlega stórfé, þar þau áttu svo feiknamikið af jarðagózi, sem áður er sagt. Ekki gátu þá kotungar eða smábændur lifað á eignarjörðum sínum, þá þessir höfðingjar vildu ná þeim til eignar, því annars hentu höfðingjar sakir á bændum, líkt og klerkavaldið, svo að bændur urðu opt fegnir að selja þær stórhöfðingjum, til að ná hylli þeirra.

Það er sögn, að Ólöf hafi þess opt beðið guð, að láta nokkuð minnilegt falla við dauða sinn, enda hafi nafntogað veður ábrostið við lát hennar, sem kallað var *Ólöfarbylur*; braut þá víða kirkjur og önnur hús, og báta, hér á landi og gerði stórskemmdir margar. Við England er mælt, að þá hafi brotnað 50 hafskipa, og í Noregi mörg hús ofantekið. Björn ríki og Ólöf héldu heimilispresta, svo sem þá var stórhöfðingjasiður, og hélzt við lengi eptir þeirra daga. Ólöf dó 1484[1]) og þykir ekki stórmannlegri rausnarkona hafa verið á Íslandi, að fornu eða nýju, en Ólöf, þótt henni kunni að hafa verið margs þess vant, er bezt þótti henta[2]).

## Um arf Solveigar Guðmundardóttur.

Þeir bræður, Einar og Björn ríki, tóku eins undir sig móðurarf Solveigar, sem hennar föðurarf, þá þeir gerðu Guðmund ríka föður hennar útlægan, um 1444[3]), í því skyni að

---

in snerta. Enda eigum vér heimtingu á, að svo sé framvegis breytt í útgáfum hinna sögulegu heimildarrita vorra, eigi þau að koma að fullum notum þeim, er þau vilja rannsaka.

1) Ólöf dó 1479 (sbr. Í. F. VI., 238. bls. og víðar), og er því þetta ártal 1484 rangt hjá Boga.

2) Um Ólöfu ríku, sjá Íslenzkt Fornbréfasafn, IV—VI. bindi

3) Réttara 1446.

Solveig hefði verið getin í útlegð. Þar eptir, þá Solveig var orðin vaxin, giptist hún góða manninum Bjarna á Brjánslæk, Þórarinssyni, sem 1487[1]) var veginn af sveinum Einars bróður Björns ríka á Skarði. En áður, þá Solveig var yfir tvítugt, og fékk ekki hjá þeim Birni ríka og bræðrum hans uppgreiddan móðurarf sinn, féll hún upp á það, árið 1465, að hún fékk *Lopti Ormssyni*, sér til framfæris og eignar, alla hálfa peninga, sem henni hefðu í arf fallið eptir föður sinn *Guðmund Arason* og móður sína *Helgu Þorleifsdóttur*, og bróður sinn *Ara Guðmundarson*. Skyldi Loptur Ormsson kjósa það af eignunum, sem hann vildi; en hann kjöri Reykjahóla, og allar eignir, sem þar til liggja, millum Skálmarness og Gilsfjarðar. Skyldi Loptur hafa umboð Solveigar Guðmundardóttur þrenna tólf mánuði, eða lengur. Fram fór þetta á Staðarhóli í Saurbæ, á annan dag páska 1465. Voru þar að vottar: Þorleifur Árnason, Gunnar Jónsson, Jón Þorleifsson, Magnús Oddsson[2]). Hér á móti risu Björn ríki og bræður hans, og Þorleifur Björnsson, svo Loptur náði ekki arfinum; fór hann þá utan, en fékk enga uppreisn á þessu máli Sólveigar vegna; hann kom út aptur, og gerði þá samning við Þorleif Björnsson. 1470, á Öxarárþingi, næsta dag eptir Pétursmessu, vottar Egill Grímsson, Oddur Pétursson, Grímur Grímsson og Ingimundur Jónsson, að Loptur Ormsson handlagði Þorleifi Björnssyni, fyrir hugmóð og peningareikning, er Loptur var téðum Þorleifi um skyldugur, alla þá tiltölu og eign, sem Loptur þóttist eiga í þeim peningum, sem Guðmundur Arason átti og Solveig Guðmundardóttir þóttist erft hafa eptir föður sinn og móður, eptir því sem Lopts og Solveigar gerningsbréf útvísar, og Loptur hafði keypt af Solveigu (Reykjahóla og Reykjahólaeignir) fasta og lausa, fríða og ófríða peninga etc. etc.3)

Eptir að Loptur sleppti, og Solveig hafði misst mann sinn, tók hálfbróðir Solveigar, **Andrés Guðmundarson**, fyrir sig að átelja þessa Solveigarpeninga og að gera heimreiðir á Reykjahóla, og inntaka þá og fleiri af Guðmundareignum, en

---

1) Bjarai Þórarinsson var veginn 1482.

2) Í. F. V, nr. 389.

3) Sbr. Í. F. V, nr. 514.

burtreka þá bræður af þeim með hernaði. Varð þá, 1483, á Reykjahólum bardagi, þá Andrés hafði tekið virkið. Þar um var vitnað:

1483 tók Einar Brandsson, í umboði Þorleifs Björnssonar, bókareið af Pétri Svartssyni og Hrómundi Guðmundarsyni, sem sóru: „Að miðvikudaginn næstan eptir þrettánda, þá bræðurnir Þorleifur og Einar Björnssynir og þeirra menn komu heim undir virkið, og áður þeir gátu sett stiga eða gerðu nokkurn gerning, lét Andrés Guðmundarson og hans fylgjarar grjót og skot drífa á þá bræður og menn þeirra, úr virkinu. Hörfuðu þeir þá í kirkjugarðinn og létu hann hlífa sér; þar buldi á þeim grjót og skot; var þar einn maður skotinn. Þá hrukku þeir undir kirkjuna á kórbaki, var þar annar maður skotinn í lærið og enn hinn þriðji, með illyrðum. Fór þá Þorleifur og hans menn inn í kirkjuna. En um morguninn skutu þeir úr virkinu tveim lóðbyssum, inn í kirkjuna og gegnum kirkjuhurðina, áður Þorleifur og hans menn veittu nokkra aðsókn[1]).

Framanskrifuð vitnaleiðsla var til að fría Þorleif og hans menn frá kirkjusaurgan og kirkjugarðs.

Síðar, þá þeir bræður inntóku Reykjahóla fönguðu Andrés, en stökktu herliði hans víðsvegar og vógu tvo menn útlenda, sem með byssum höfðu orðið þeirra mönnum að tjóni, tók Þorleifur kvittun, því 1483 á Blasíusmessu, gaf Þorsteinn Þórarinsson prófastur millum Gilsfjarðar og Langaness, séra Hrafni Oddssyni umboð að leysa Þorleif Björnsson og hans fylgjara, ef þeir hefðu verið eitthvað brotlegir um kirkjusaurgan eða kirkjugarðs á Reykjahólum, þá þeir þar heim riðu[2]).

Sama ár lét Þorleifur hirðstjóri tólf manna dóm ganga um þá útlendu menn, sem slegnir voru af liði Andrésar, að þeir hefðu sem óbótamenn verið réttilega felldir[3]). Þorleifur hafði fangað Andrés sem fyr segir, og stefndi þar eptir helztu mönnum til sín. 1483, in festo Magni Ducis et Martyris, á Reykjahólum, í viðurvist Guðna Jónssonar, Gísla Filippussonar,

---

1) Í. F. VI, nr. 416.

2) Í. F. VI, nr. 420.

3) Í. F. VI, nr. 641. Bréf þetta er gert undir Hallbjarnarvörðum 1. júlí 1481.

Vigfúsar Bjarnasonar Þorláks Þorkelssonar, Sigurðar Jónssonar, Þórólfs Ögmundarsonar, Páls Jónssonar, Einars Brandssonar og Þorkells[1]) Gunnsteinssonar gerði Þorleifur Björnsson sáttmála við Andrés Guðmundarson og Þorbjörgu Ólafsdóttur konu hans, að fyrir hugmóð, fjárupptektir og skaða, er Þorleifur hafði áður fengið af nefndum Andrési, þá hann tók Reykjahóla etc. etc., skyldi Andrés gjalda Þorleifi hundrað hundraða í sakferli. En fyrir dáindismanna bænastað og heiðurs skyld sló Þorleifur þar af 60 hundruðum; önnur 60 hndr. áttu að gjaldast fyrir næstu fardaga, með jörðinni Gautsdal í Garpsdalskirkjusókn, 30 hndr., hér til Græney og Skarfeyjar tvær, með öllum þeim hólmum og skerjum sem þar til liggja, fyrir 16 hndr.; liggja þessar eyjar í Staðarhólskirkjusókn; hér til hálft tólfta málnytukúgildi, 1½ kúgildi í geldum sauðum og kúgildishest. Hér með lofaði Andrés Guðmundarson með svörnum eiði, leynt og ljóst, að vera Þorleifi hér eptir trúr og hollur, og honum aldrei mótstöðu veita; og það umboð, sem títtnefndur Andrés hafði til Reykjahóla og annara Guðmundar peninga, vegna Solveigar Guðmundardóttur, systur sinnar, lagði hann í vald Þorleifs Björnssonar. svo lengi sem hann hafði það af henni tiltekið áður, og eigi leynt né ljóst styrkja aðra, eða mótþróa veita Þorleifi né hans börnum um téðar eignir[2]).

Bauð Þorleifur Andrési, áður en þeir gerðu þessa sátt, að þeir skyldu rétt lög við eigast, en Andrés vildi það ekki. Svo og lýsti Þorleifur, að hann dræpi hvorki niður kirkjurétt né kongs. Hér undir setti Andrés sitt innsigli ásamt öðrum. (Transkript var af framanskrifuðu sáttabréfi gert á Jónsbiskupsmessu 1538). Af þessu sést, að Andrés sótti eptir fénu í umboði Solveigar systur sinnar.

Árið eptir, 1484, dó Þorleifur hirðstjóri[3]). Var þá Björn

1) Réttara Þorleiks.

2) Í. F. VI, nr. 424.

3) Þorleifur dó 1486, að því er sýnist; hann kemur síðast við bréf í Björgvin 25. febr. 1486 (Í. F. VI, nr, 500), en á lífi virðist hann enn vera 24. maí 1486, eptir transkripti þeirra Eiríks lögmanns og Andrésar riddara Ámundssona, gerðu í Björgvin nefndan dag, þar sem þeir geta þess, að þeir hafi séð gerning Þorleifs

sonur hans ungur, og erlendis. Nú tók Páll á Skarði undir sig fé Þorleifs, því börn hans og Ingveldar þóttu eigi arfgeng, þar eð þau væru kölluð í meinum getin vegna fjórmennings skyldugleika. Solveig á Skarði, systir Þorleifs dó 1495 eða 1496; því sótti Björn í fylgi með Eiríki á Álftanesi eftir Páli, og vógu þeir hann á Hallbjarnareyri 1498.

Synir Andrésar Guðmundarsonar, Bjarni, Ari og Guðmundur, voru orðnir vaxnir (og Bjarni giptist Guðrúnu eldri, dóttur Björns sýslumanns Guðnasonar, 1507). Andréssynir súppliseruðu til konungs, að Solveig næði móðurarfi sínum, og tillét konungur það. Þeir stefndu málinu undir dóm Finnboga lögmanns Jónssonar, þar sem Solveig Guðmundardóttir seldist arfsali Andréssonum, og þóttust þeir því hafa rétt til arfs hennar. Af þessum undirbúningi var það, að 1498 útnefndi Finnbogi lögmaður tólf menn í dóm um það, hvort Solveig Guðmundardóttir skyldi vera löglegur erfingi Helgu heitinnar Þorleifsdóttur, móður sinnar, eða eigi. Hafði þessi Solveig selzt löglegu arfsali þeim bræðrum, Guðmundi og Ara. Í annari grein kom fram fasteignarbréf Guðmundar Arasonar og Helgu Þorleifsdóttur, á þeirra brúðkaupsdegi; hefur Guðmundur móts við hana tólf hundruð hundraða, og gaf henni þar úr fjórðungsgjöf, þrjú hundruð hundraða. En Helga hafði til kaups við Guðmund þrjú hundruð hundraða, sem var Bær á Rauðasandi, eitt hundrað hundraða og tvö hundruð hundraða í öðrum jörðum; hér með kjöri Kristín Björnsdóttir Helgu dóttur sína helmingakonu í Garð Guðmundar, til fengins fjár og ófengins, með handsöluðu samþykki sjálfs Guðmundar og Hrafns Guðmundarsonar föðurbróður Guðmundar, er honum var þá skyldastur. Reiknast þessi arfur, sem í bréfinu stendur, sex hundruð hundraða og fjörutíu hundraða betur. En þennan arf höfðu tekið og sig til haldið, Björn bóndi Þorleifsson og Einar bróðir hans eptir Helgu Þorleifsdóttur systur sína, af því þeim þótti Solveig engan arf taka eiga eptir föður né móður, og fundu það til, að hún hefði í útlegð föður síns, Guðmundar, getin verið, og Guðmundur hefði verið dæmdur útlægur fyrir verk sín; — en það var hvorki sýnt né svarið, að Guðmundur hefði útlægur dæmdur verið, — og

Björnssonar (Í. F. VI, nr. 511). En víst er, að Þorleifur var andaður fyrir 27. ágúst 1487 (Í. F. VI, nr. 533).

þóttust þeir hafa fyrir sér réttarbót: *að það barn skyldi hvorki taka arf eptir föður sinn né móður, sem svo var getið.* Segir dómari og dómsmenn: 1. það ónáttúrlegt, að kvinnan eða hennar börn gjaldi þess, er bóndinn brýtur, — 2. að þessi réttarbót hafi aldrei fyrir lög gengið, né eptir henni dæmt verið, svo að þeir viti, — 3. kongs Kristjáns bréf kom fram, *að hann fyllilega skipar Solveigu Guðmundardóttur allan þann móðurarf;* því leizt þeim kongur sjálfur ónýtt að hafa þessa réttarbót. Fyrir þessar greinir dæmdu þeir Sólveigu Guðmundardóttur allan sinn móðurarf, eftir þeim kaupmála, er gerður var, og kaupmálabréfið útvísar, og hana löglegan erfingja móður sinnar, og jörðina *Bæ* eign Solveigar, og allar þær jarðir, sem þar með fylgja og Helga hafði heiman, og aðrar þær jarðir, er Guðmundur hafði þar innan þinghár; en það sem á kaupmálabréfið brestur, skuli þeir með lögum sækja, af þeim sem löglegt hald hafi. Framanskrifaður dómur gefur til kynna: 1. að Hrafn Guðmundarson lögmaður var föðurbróðir Guðmundar ríka Arasonar[1]), — 2. að Ari og Guðmundur Andréssynir hafa sótt til konungs, um að Solveig skyldi erfa Helgu móður sína, og að þar upp á hefur komið konungsbréf, hvar eptir Finnbogi lögmaður hefur dæmt, — 3. Þessi dómur og kongsbréfið hafa loks skorið úr allri þrætu um féð eptir Guðmund Arason.

Vegna téðs konungsbréfs og lögmannsdóms sá ekki Björn Þorleifsson sér færi á að halda þessum hluta af Guðmundar eignum; — gerði hann því sátt og samninga við Andréssonu, með því að Björn var þá og í stórmælum, af því hann hafði verið í aðför við Pál, sem féll á Öndverðareyri (sjá hér síðar). En Guðni Jónsson og Björn sýslumaður Guðnason, eptir hann, sóktu eptir eignum Skarðsfólks, hvar af þó Björn gat um sína daga haldið mestum hlut, fyrir tilstyrk Ögmundar biskups.

1) Það er og auðsætt af kaupmálabréfi þeirra Guðmundar og Helgu Þorleifsdóttur (Í. F. IV, nr. 370). Eg hef áður bent á það, að þeir bræður Hrafn og Ari muni hafa verið norðlenzkir að ætterni, synir Guðmundar Stígssonar frá Ljósavatni. Mun Guðmundur sjálfur hafa búið í Skriðu í Reykjadal og átt þá jörð (sbr. Í. F. V, 818.—820. bls,, og hér að framan 261.—262. bls. neðanmáls). Guðmundur Stígsson hefur að líkindum átt systur Hrafns lögmanns Bótólfssonar í Lönguhlíð í Hörgárdal (d. 1390), og mun Hrafns-

Vildi Björn þá og vingast við Andréssonu, að þeir ekki gerðu samtök við Guðna sýslumann gegn Birni. Afhenti [Björn] því þeim bræðrum arf Solveigar, sem verið hefur um sex hundruð hundraða. Hlaut þá Ari Saurbæ á Rauðasandi með eignum þar til liggjandi, og bjó þar síðan í Bæ. Guðmundur [Andrésson] hlaut Fell í Kollafirði, Hest í Önundarfirði og fleira. 1498 var sáttarfundur og samkoma haldin í Bæ á Rauðasandi, og Guðmundar eignum skipt næstum til jafnaðar. Sleppti Björn við Andréssonu, fyrir utan Bæ á Rauðasandi, flestöllum þeim jörðum, sem Guðmundur Arason hafði átt í Ísafjarðar- og Strandasýslum, en hélt þeim jörðum, sem hans eign

---

nafnið þannig komið í ætt Ljósvetninga og Fellverja. Samkvæmt tilvitnuðum athugunum verður þá ætt þeirra Hrafns lögmanns gamla, Ara og Guðmundar ríka þannig:

*Ljósvetningar og Einarsstaðamenn*:
[sbr. Í. F. V, 819, 822—824].

Símon [Oddbjarnarson?]
|
Þórir prestr, (veginn 1128).
|
Gunnsteinn, (á lífi 1160).
|
Ögmundur prestr, (veginn 1221).
|
Oddi skeiðkollur. — Gunnsteinn (veginn 1221).
|
N. N. ∾ Hallr [Kvistur] Gunnarsson [á lífi 1262; hefur búið í Skriðu]. (*Skriðumenn og Fellverjar*).
|
Guðmundur prestur (á lífi 1289).
|
[Hjalti Guðmundsson].
|
Guðmundur Hjaltason á Felli í Kinn.
|
a. Solveig, b. Hjalti, c. Ketill, d. Halldóra.

*Ljósvetningar* (á 14. öld)
[sbr. ísl. Árt. ættskrá XX; Í. F. V, 818—820]

*Jón* (c. 1300)
|
*Stígur Jónsson* ∾ a. Solveig
(bóndi á Ljósavatni, á lífi 1350).
|
Logi officialis. (á lífi 1411). — *Guðmundur Stígsson* í Skriðu (d. 28. maí c. 1402). ∾ N. N. Bótólfsdóttir. — Steinunn Stígsdóttir. (Ísl. Árt.).
|
Snjólfur. (d. 1401). — Hrafn lögmaður. (d. 1432.). — *Ari sýslumaður.* (d. 1423).
|
*Guðmundur ríki Arason* (d. c. 1450).

höfðu verið, bæði i Barðastrandarsýslu og víðar annarsstaðar. Til frekari vinskaparstaðfestu gipti Björn, ekki löngu þar eptir, Guðmundi Andréssyni systur sína Jarþrúði Þorleifsdóttur, og hélzt síðan vinátta Björns og Andréssona (Sjá framar um Andrés og sonu hans, við Stranda- og Barðastrandarsýslu).

## Guðni Jónsson[1].

*Faðir:* Jón sýslumaður í Ísafjarðarsýslu (er sagt er að dáið hafi 1478). Jón var sonur Ásgeirs bónda, sem átti Guðfinnu dóttur Þorgeirs (al. Þorgríms)[2] í Ögri, Ólafssonar, Lopssonar ríka á Möðruvöllum.

---

1) **Torfi Arason,**

Daðasonar (sjá hér að framan), mun hafa haft sýslu í Dölum um hríð; hann hafði hirðstjórn næstur eptir Einar Þorleifsson, norðan og vestan og hélt henni til þess er Björn ríki tók við henni. Torfi dó í Björgvin 1459. Umboðsmaður Torfa var **Brandur Jónsson** lögmaður; hann var norðlenzkur að ætterni, sonur Jóns Ketilssonar, Pálssonar (sbr. Í. F. V, 824—827); Brandur var höfðingi mikill, svo að hann lét eigi hlut sinn fyrir Birni ríka, er mestur höfðingi var á Íslandi um 1457—1467. Björn vildi halda lögmannskaupi Brands, og deildu þeir um það nokkra hríð, en svo fór, að Björn varð að greiða Brandi peninga þá alla, er Brandur kallaði til (Í. F. V, nr. 432). Sýnir það meðal annars, hver höfðingi Brandur lögmaður hefur verið; var hann þó spakur maður, og átti sjaldan í deilum, meðan hann var lögmaður. **Einar Ormsson** Loptssonar, mun hafa haft sýsluumboð í Dölum. Hann var staðarhaldari í Reykjaholti 1459—1463. Í Víðidalstungu bjó hann 1463—1467, en síðan á Hvoli í Hvolhrepp í Rangárvallasýslu; hann dó 1470. Einar var auðmaður og höfðingi mikill; hann átti Sesselju dóttur Þorsteins Hallssonar, Ólafssonar, Þorsteinssonar lögmanns, Eyjólfssonar frá Urðum. Þau áttu fjölda barna, og eru ættir frá þeim komnar.

2) Guðfinna kona Ásgeirs var dóttir Þorgeirs frá Silfrastöðum í Skagafirði, Sigurðarsonar lögmanns, er bjó á Silfrastöðum, Guðmundarsonar lögmanns og riddara í Hlíð (Lögmannshlíð) Sigurðarsonar lögmanns í Hlíð, Guðmundarsonar (sjá hér að framan). Faðir Sigurðar lögmanns í Hlíð — er þar bjó á dögum Jörundar biskups, og átti Möðruvöllu í Hörgárdal, er hann þóttist erft hafa — mun hafa verið Guðmundur bóndi á Hrafnagili (á lífi 1262) »mágur Þorgils skarða«. Faðir Guðmundar á Hrafnagili

*Móðir:* Kristín Guðnadóttir, Oddssonar lepps, lögmanns, Þórðarsonar.

*Kona:* Þóra, laundóttir Björns ríka (sjá hér að framan).

*Börn:* A. Björn sýslumaður; sjá hér síðar og við Ísafjarðarsýslu.

B. Helga, átti Torfa í Klofa, sýslumann; sjá Rangárþing og Árnesþing, og hér síðar.

C. Þorbjörg Guðnadóttir, bjó um hríð í Holti í Saurbæ, um 1490, átti Jón Oddsson, sem kallaður var *kollur* (al. Kollsson[1]). Oddur faðir Jóns var og Jónsson[2]). Jón kollur bjó á Draflastöðum norður; þeirra helzti sonur var:

---

hefur verið Kleppjárn bóndi á Hrafnagili, er féll á Haugsnesi 1246, sonur Halls, er dó 1212, Kleppjárnssonar prests á Hrafnagili (d. 1194), Klængssonar (d. 1149), Hallssonar. Móðir Halls Kleppjárnssonar var Ingigerður dóttir Styrkárs bónda í Fellsmúla (d. 1181, lögsögumanns, — Oddasonar (líkl. Stjörnu-Odda Helgasonar); þann ættlegg mun mega rekja til Ljósvetninga*). — Móðir Kleppjárns yngra, kona Halls á Hrafnagili, var Ingibjörg dóftir Guðmundar hins dýra á Bakka í Öxnadal (d. 1212) Þorvaldssonar auðga (d. 1161), Guðmundarsonar, Guðmundarsonar, Eyjólfssonar halta, Guðmundarsonar hins ríka á Möðruvöllum. — Ætt Guðfinnu konu Ásgeirs Árnasonar er hér því rangt rakin hjá Boga, eins og fyr hefur verið sýnt (sbr. hér að framan, bls. 478 (neðanmáls); 495, aths. 1—2, og 496, aths. 1).

1) Jón Oddsson var kallaður Kollur; hann bjó á Draflastöðum í Fnjóskadal. Frá honum er Draflastaðaætt hin síðari.

2) Oddur faðir Jóns kolls, var Pétursson, Finnssonar, bróðir Laga-Finns í Ljáskógum. Oddur bjó í Holti í Saurbæ; hann var lögréttumaður. Kona Odds, móðir Jóns kolls, hét Sigríður Steinþórsdóttir. Bróðir Jóns kolls var Einar Oddsson, sem Geitaskarðsætt er frá komin (sjá Húnavatnsþing). Oddur Pétursson dó um 1496. Hinn þriðji son Odds hét Vermundur, og var prestur.

---

*) Oddi að Mývatni, sonur Þorgeirs öxarstafs Grenjaðarsonar, átti Vigdísi Höskuldsdóttur, Þorgeirssonar goða Þorkelssonar (Ljósv. s.) (1880), Ísl. Fornsögur I, 218—219). Sonur þeirra sýnist vera Helgi, faðir Stjörnu-Odda (er var í Múla (Fellsmúla) í Reykjadal, c. 1070—c. 1120); en Stjörnu-Oddi mun án efa vera faðir Styrk-

AA. Ormur á Draflastöðum, sem var við dómaraverk 1551, og 1560, eptir Þorleif Grímsson á Möðruvöllum; hans son:

a. Jón [Ormsson] á Einarsstöðum[1]), sem átti Þórunni Gísladóttur; þeirra börn:

aa. Ingunn, kona séra Sigurðar, á Breiðabólstað austur.

bb. Sigríður, kona Alberts þýzka, Albertssonar.

cc. Séra Bjarni á Helgastöðum, sem átti Hildi dóttur séra Illuga.

dd. Jón á Sjávarborg og Draflastöðum.

ee. Björn prentari.

ff. Ormur.

gg. Þorbjörg, kona séra Jóns Stefánssonar á Mosfelli.

D. Ari Guðnason, laungetinn, sýslumaður í Húnavatnssýslu.

E. Steinunn, er sumar ættatölubækur telja enn barn Guðna Jónssonar, og segja að átt hafi Lopt Ormsson, Loptssonar hins ríka. En sé það satt, hafa þau ekki afkvæmi átt. Hitt er þólíkara, að villzt hafi verið á *Guðnadóttur* og *Gunnarsdóttur*, því Steinunn dóttir Gunnars bónda í Ásgarði var frilla Lopts Ormssonar, og móðir Stefáns og Péturs[2]).

Um uppvöxt og menningu Guðna er mér dulið, til þess

---

1) Jón Ormsson var auknefndur glókollur; hann var lögréttumaður. Frá honum er Glókollsætt.

2) Þetta er rangt. Steinunn, frilla Lopts Ormssonar, var dóttir Gunnars Jónssonar í Sælingssdalstungu, en ekki Guðna Jónssonar, þótt sumar ættbækur telji svo. Þau Steinunn Gunnarsdóttir og Loptur skildu samvistir, og kvæntist þá Loptur Gunnhildi Pétursdóttur, norður á Hálogalandi; þau áttu engin börn. Um Steinunni dóttur Guðna Jónssonar er allt óvíst. Hún finnst hvergi nefnd í fornum skjölum; ég held því óvíst, að hún hafi til verið.

---

árs lögsögumanns. Styrkár bjó í Múla, og Sigurður son hans býr þar eptir Styrkár 1187 (Sturl. [2] I, 126). Þessar ættir hafa menn eigi þekkt fyrr um langan aldur, og hef eg því bent á þetta hér, því að ættbálkar þessir eru merkilegir.

hann var orðinn um tvítugt; á þeim aldri réðst hann til Björns ríka, er þá var hirðstjóri, og gerðist sveinn hans. Þykir líklegt, að Björn hafi þá gipt Guðna Þóru dóttur sína, og gert hann að umboðsmanni sínum. Sýslu konungs í Dalasýslu tjáist Guðni hafa haft 1461 (eða sýslu konungs millum Skraumu og Gilsfjarðar, sem er hið samar, sjá Jörfabók, nr. 41), því þá nefnir hann menn í dóm. Er líkast það hafi verið í umboði Björns hirðstjóra hins ríka, tengdaföður Guðna[1]). Óljóst er hvað lengi hann hefur þá haldið Dalasýslu; en frá henni hefur hann verið 1468, því það ár tjáist hann að hafa haldið sýslu kongs í Ísafirði. Hvort hann hefur þá sýslu haldið þá sem umboðsmaður föður síns, eða að veitingu Þorleifs Björnssonar, er þá stóð fyrir hirðstjórn, er óljóst. Ísafjarðarsýslu mun Guðni hafa haldið við og við, að minnsta kosti hálfa, til þess hann sleppti henni allsendis við Björn son sinn 1502. Hann gerðist ráðs- og umboðsmaður Sólveigar systur Björns ríka, sem þá sat að Hóli í Bolungarvík; það má sjá af kvittunarbréfi, en hún gaf Guðna 1477. Eptir að Solveig missti Orm Loptsson ektamann sinn, hverjum hún giptist 1434, var hún á ymsum höfuðbólum sínum, en hélt þó optast til á Auðkúlustað, þá hún hélt við Sigmund prest Steinþórsson; þó hefur hún stundum verið á Staðarhóli, því áðurnefnd kvittering er dagsett á Staðarhóli 1477, var þá Guðni fyrir nokkru kvæntur Þóru, Bjuggu þau fyrst á Hóli í Bolungarvík, síðar á Kirkjubóli í Langadal.

Um 1460, eptir dauða Orms Loptssonar ríka, var mikill uppgangur sonar hans, Lopts, er þá hélt sýslur. Fékk Solveig

---

1) Þess er beinlínis getið í dóminum frá 3. nóv. 1461, sem Bogi byggir hér á, að Guðni hafi »þá« haft »sýslu- og kongs umboð« á milum Skraumu og Gilsfjarðar (Í. F. V, nr. 230). Það er því víst, að Guðni var þá eigi umboðsmaður Bjarnar ríka, heldur var honum beinlínis skipuð sýslan af konungi, en þó er líklegt, að tengdir þeirra Bjarnar og Guðna hafi stutt að því, að konungur veitti Guðna sýslu þessa, og að Guðni fékk svo auðveldlega uppreisn eptir víg Guðmundar Magnússonar, er Guðni hafði »ófyrirsynju í hel slegið« 1459. Var Guðni dæmdur á konungsnáðir fyrir víg það, og skyldi hann þangað sækja landsvist sína (Í. F. V, nr. 171); hafði Guðni þá og að fullu bætt Jóni Magnússyni víg Guðmundar bróður hans.

Guðmundardóttir ríka honum fjárumboð 1465, að ná Reykjahólum og Guðmundareignum, frá Birni ríka og Þorleifi syni hans; en fast var þar fyrir. Sviptu þeir feðgar þá Lopt sýsluvöldum nálægt 1467. Og þó að Björn ríki félli sama ár, hélt Þorleifur eignunum. Loptur hélt þá við Steinunni dóttur Gunnars bónda Jónssonar í Ásgarði, og fæddist Stefán sonur þeirra 1468. Sama ár fór Loptur utan, að fá uppreisn í Solveigar arfamálum, en vann þar ekki á. Kom hann þó út 1470 og gerði á alþingi sátt við Þorleif Björnsson, og sleppti öllu tilkalli til Solveigar arfs. Loptur hafði, áður hann kom út, gipzt um veturinn (1470) á Hálogalandi, Gunnhildi Pétursdóttur, og heitið henni 8 mörkum gulls. 1474 kom Loptur enn út, og var hér um veturinn; hélt hann þá við Steinunni og arfleiddi Stefán son sinn að 4 hundruðum hundraða, en 1475 samdi Loptur (að Helgafelli) við Guðna sýslumann að hafa hér umboð sitt. Skyldi Guðni hafa í umboðslaun 10 hundruð á ári. Þá Guðni hafði tekið við umboðinu, fór Loptur utan 1475, til bús síns og dó Noregi 1477[1]).

1475 fæddist Pétur son Lopts og Steinunnar, og óx upp með móðurfrændum sínum. Nokkrum árum seinna dó Stefán Loptsson; dæmdist þá Pétri bróður hans allur arfur eptir Stefán.

1479 lézt Sloveig Þorleifsdóttir móðir Lopts; hafði Loptur heitið fyrr að gefa Staðarhól fyrir beneficium, ef hann ætti eigi skírborinn eða ættleiddan son. En Solveig móðir hans hélt Staðarhóli, og litlu fyrir sinn dauða seldi hún syni sínum, Jóni Sigmundarsyni, Staðarhól. 1479 lét Þorleifur Björnsson ganga dóm á Staðarhóli um arf eptir Solveigu, og dæmdist hann erfingjum Solveigar hinum skírbornu, en nokkru síðar kallaði Magnús biskup til Staðarhóls og tók hann fyrir beneficum. 1479 kom krafa Gunnhildar, sem þá var aftur gipt Andrési Ámundssyni, um 20 merkur gulls og dæmdi Hrafn lögmaður Gunnhildi þær 1480. Afhenti Gunnar bóndi í Ásgarði[2]) þar upp í 1481, Munaðarnes í Trékyllisvík, 1/2 Þverfell og hálfa Saurbæjartjöru, en Sigurður sýslumaður Daðason, umboðsmaður Gunnhildar, víxlaði því í lausa aura, sem fluttust til Noregs.

---

1) Loptur Ormsson dó 1476 en ekki 1477.

2) Gunnar bjó í Sælingsdalstungu.

Þegar þessar arfadeilur byrjuðu, sleppti Guðni umboðinu Lopts og hans barna vegna. 1478 sömdu þeir bræður, Guðni, Páll og Ormur, um arf eptir föður sinn, Jón sýslumann Ásgeirsson. Gerðist Guðni þá höfðingi og hélt Ísafjarðarsýslu. 1498, þá Páll á Skarði bróðir Guðna, var veginn, gerðist Guðni strangur talsmaður þess vígs, svo að Eiríkur á Álptanesi, oddviti vígsins, var gerður útlægur og fleiri. — Skorti vígsbætur þar að auki lítið á tvenna tíu tigi hundraða. [Meðan á þessum málum stóð, og eptir dauða Solveigar [Björnsdóttur], eignaði Einar Björnsson bróðir Solveigar sér allt féð eptir systur sína, en Páll hélt því til þess hann dó; þá tók Einar Solveigar fé, fór utan 1498, fékk fyrirheit fyrir hirðstjórn, og var hálfgiptur borgmeistaradóttur, en dó þá 1499][1]. Tók Guðni þá að sér eptir dómi, umboð bróðurbarna sinna, en setti Orm bróður sinn að Skarði til umsjónar. Er mælt að, Guðni hafi þá hagnýtt sér það hann gat, af Skarðsauð, eptir það Einar Björnsson bróðir Solveigar, var dáinn utanlands 1499. Kallaði þá Guðni til fjárins, fyrir hönd skilgetinna barna sinna, sem erfinga konu sinnar, Þóru dóttur Björns ríka, og urðu þar um málaferli mikil með niðjum þeirra. 1502 sleppti Guðni algerlega Ísafjarðarsýslu við Björn son sinn, en hélt þar eptir Strandasýslu og bjó á Kirkjubóli í Langadal, til þess hann dó háaldraður, 1508. Þótt nokkrir viti að Guðni hafi haft Ísafjarðarsýslu 1510, hygg eg það misskrifað ártal. Guðni þótti maður héraðsríkur hinn seinni hluta æfi sinnar; hann gerðist auðugur af löndum og lausum aurum, og mikill fjárgæzlumaður. 1508, laugardaginn fyrir kyndilmessu gekk dómur í Önundarfirði um gjafir Guðna, en erfingjar skiptu með sér fé hans.

[Ögur við Ísafjörð átti Þórður; svo hans son Sigurður, svo hans son Þórður[2]), svo hans dóttir Þórdís, sem átti Odd lepp, svo þeirra son Guðni [Oddsson], svo hans dóttir Kristín,

---

1) Þessi klausa, á milli [ ] er neðanmáls hjá Boga.

2) Þórður þessi var bróðir Þórdísar, en ekki faðir hennar, eins og hér er missagt. Þórdís var dóttir Sigurðar bónda í Ögri (síðar á Mýrum í Dýrafirði), Þórðarsonar kolls í Ögri. Bróðir Þórdísar var Þórður kollur Sigurðarson, er bjó í Ögri 1393—1397 eða lengur (sjá Vilkins-máldaga, Í. F. IV, 137. bls.); hann er í registri IV. bindis hins íslenzka Fornbréfasafns talinn sonur Sig-

sem átti Jón sýslumann Ásgeirsson, svo þeirra synir, Guðni

---

urðar hvítkolls í Ögri, en það er rangt, og hef eg leiðrétt það í registrinu við V. bindi sama safns (bls. 1081, II,), Ætt þessi nefnist

*Kollsætt*

og er rétt að rekja hana þannig:

*Þórður kall* eða *kollur*, bóndi í Ögri, enn á lífi 31. ágúst 1366 (Í. F. III, nr. 179, bls. 211). Er ekki ólíklegt, að hann sé af ætt *Jóns í Bolungarvík*, er veginn var 1319 (Annálar [2] VIII, IX). En án efa hefur hann verið af ætt Vatnsfirðinga hinna fornu eða Ragnheiðarsona, er bjuggu í Ögri fyrir og um miðja 13. öld og áttu Hól í Bolungarvík (sbr. Sturlungu).

Sonur Þórðar kolls var:

*Sigurður Kollsson* (*Þórðarson*) »bóndi« í Ögri ásamt föður sínum 1366 (sbr. tilvitnað bréf). 12. ágúst 1378 er Sigurður farinn að búa á Mýrum í Dýrafirði, þegar Oddgeir biskup ríður um Vestfjörðu, og kvittar biskup Sigurð fyrir kirkjugjöldum »síðan hann tók þar að búa og hann varð eigandi að jörðinni (ɔ: á Mýrum) (Í. F. III, nr. 272). Í Ögursmáldaga Vilkins (1397) er þess getið, að Sigurður bóndi hafi lagt til kirkjunnar í Ögri »tólf mánaða tíðabækur« (Í. F. IV, 136. bls.). — 1391, 9. okt., á Ásgeirsá syðri í Víðidal, handleggur Sigurður Þórðarson Birni Einarssyni (Jórsalafara) til fullrar eignar þann þriðjung í fiskatollinum í Bolungarvík, sem Sigurður átti og hann hafði fengið af erfingjum Einars heitins Eiríkssonar (Í. F. III, nr. 389); þetta vitna þeir prestarnir Halldór Loptsson og Steinmóður Þorsteinsson, og leikmaðurinn Þorlákur Sigurðsson, er að líkindum hefur verið sonur Sigurðar Þórðarsonar. 1393 fer »*Sigurður bóndi Kollsson*« með sættaboð milli þeirra Bjarnar Jórsalafara og Þórðar Sigmundarsonar undir Gnúpi í Dýrafirði, og bauð þá Birni »*inn til Mýra*« og mönnum hans (Flateyjarannáll 1393); þessi staður sýnir ljóslega, að Sigurður »Kollsson« á Mýrum er hinn sami og Sigurður *Þórðarson* í Ögri, sem forn bréf geta um, þau sem fyrr er til vitnað, því að *Kollur* er kenninafn Þórðar föður Sigurðar, og finnst það í bréfinu frá 1366, sem fyrr var getið. Það er því enginn efi á, að þeir feðgar Þórður *kollur* (eldri) og Sigurður, hafa bæði átt Ögur í Ísafirði og Mýrar í Dýrafirði. Þannig hefur Sigurður, sonur Þórðar Kolls bæði haldið Ögur og Mýrar, og því er hans getið í máldögum beggja kirknanna. En að *Sigurður Kollsson* og *Sigurður hvítkollur** eru tveir menn, sést bezt á því, að þegar þeir Björn Jórsala-

---

* Þeim nöfnum hefur verið ruglað saman í ættbókum, og svo í

og Ormur. Páll [Jónsson] keypti af Ormi hálft Ögur, en

---

fari og Þórður Sigmundarson undir Gnúpi áttust illt við 1394, þá er Sigurður hvítkollur í liði Bjarnar, en Sigurður bóndi Kollsson er þá með Þórði Sigmundarsyni, og svo Þórður Kollur Sigurðarson, er hefur verið sonur Sigurðar Kollssonar á Mýrum. Ennfremur eru þeir Sigurðarnir, Kollsson og Hvítkollur, báðir nefndir sinn í hvoru lagi við sætt þeirra Bjarnar og Gnúps-Þórðar (Flateyjarannáll 1394, Ann.[2] IX; bls. 424 og 425). Eptir það finn eg Sigurðar Kollssonar ekki getið, og mun hann hafa andazt litlu síðar. Hann hefur verið mikilmenni og höfðingi, og hefur líklega haft sýslu um Ísafjörð um hríð, því að annálar nefna hann jafnan »bónda«, sem þá var títt um valdamenn á Íslandi. — Þegar vér athugum það, að í fornum máldögum Mýrakirkju er getið Þórðar Sturlusonar, sem auðsjáanlega hefur búið á Mýrum eða átt þær næstur á undan Sigurði Þórðarsyni, þá sýnist ekki efamál, að Þórður kollur í Ögri og Þórður Sturluson sé einn og sami maður, og hefur þá Þórður (kollur) Sturluson átt bæði Ögur og Mýrar, sem sonur hans Sigurður líka átti síðar. — Móðir Þórðar Sturlusonar á Mýrum er nefnd Brigiða Böðvarsdóttir í fornum máldögum Mýra- og Gnúpskirkna í Dýrafirði. Hún hefur lifað Sturlu mann sinn, og búið á Mýrum eptir lát hans.

Eg er ekki sömu skoðunar og Jón háyfirdómari Pétursson (í Sýsl.æfum II, 3. bls.), að faðir Þórðar Sturlusonar hafi verið Sturla Jónsson og Hallkötlu Hrafnsdóttur Oddssonar, því að Sturla Jónsson dó ungur 1305, og hann mun tæplega hafa átt afkomendur. Þórðarnafnið finnst og óvíða í þeirri ætt, og svo fær þetta tæplega staðizt tímans vegna. Þórður kollur yngri kvæntist 1391 (Flateyjarannáll); hann er því naumast fæddur fyr en c. 1365, enda er þá Sigurður faðir hans nýlega orðinn fulltíða, fæddur um 1335 í fyrsta lagi. Þórður kollur faðir Sigurðar er því tæplega fæddur fyr en um 1310, en í fyrsta lagi um það leyti, sem Sturla Jónsson deyr (1305). En mér sýnist varla efamál, að faðir Þórðar sé

Sturla Snorrason, sá er lét út í Dýrafirði á skipi því, er »Glóðin« hét 1332, og drukknaði sama ár í suðurgöngu, ásamt Þorsteini bróður sínum (Gottskálksannáll og fleiri annálar). Sýnist þessi frásögn annálanna benda til þess, að Sturla Snorrason hafi búið í Dýrafirði, og virðist því vafalaust, að hann sé faðir Þórðar (kolls) Sturlusonar, er hefur átt jarðirnar Gnúp og Mýrar í Dýrafirði og Ögur í Ísafirði um miðja 14. öld.

---

registri við III. og IV. bindi fornbréfasafnsins, en úr þeim ruglingi hef eg reynt að greiða í registri við V. bindi fornbréfasafnsins.

Guðni keypti það af honum og fékk það syni sínum, Birni sýslumanni] [1]).

Dóttir Sturlu Snorrasonar hefur verið móðir Þórðar undir Gnúpi (d. 1403), Sigmundarsonar á Eyri í Arnarfirði, Hrafnssonar á Eyri, Thomassonar, Snartarsonar (sbr. Strandasýslu, Sýsl.æfir II, 262. bls. ath. 1, þar sem eg hef rakið föðurætt Þórðar á Gnúpi til Seldæla). Þeir hafa þannig verið systkinasynir Sigurður Kollsson og Þórður Sigmundarson undir Gnúpi. Þeir frændur hafa og verið náskyldir Vatnsfirðingum. Um ætt Sturlu Snorrasonar hef eg ritað hér að framan (bls. 427). Brigiða Böðvarsdóttir mun vera dóttir Böðvars Bárðarsonar, er drukknaði með félögum sínum 1346 (Gottskálksannáll og Flateyjarannáll). Bróðir hans er að líkindum Magnús prestur Bárðarson, sem Gottskálksannáll segir, að andazt hafi 1328. En faðir þeirra bræðra hefur verið Bárður »bóndi« í Alviðru í Dýrafirði, sem býr þar enn 5. sept 1344, þegar Jón biskup Sigurðarson vígir þar kirkjuna (Í. F. II, nr. 510). Hvort Bárður þessi hefur verið af ætt Clements bónda á Gnúpi (um 1290), verður eigi sagt með neinni vissu, en ólíklegt er það ekki. Brigiða Koðránsdóttir, sem Gottskálksannáll segir, að andazt hafi 1389, og verið hefur kona Jóns murta (eldra) Nikulássonar í Vatnsfirði (d. 1389), en hálfsystir Einars Eiríkssonar (sammæðra) (sbr. Í. F. V, 938) — hefur og verið skyld Gnúpverjum, þó að óvíst sé, hvernig þeirri frændsemi hefur verið háttað. — Börn Sigurðar Kollssonar í Ögri hafa verið þessi:

a. Þórður kollur (hinn yngri) Sigurðarson, hefur búið í Ögri 1393—1397, eða lengur (Vilkinsmáldagi). Þórður kollur kvæntist 1391 Valgerði Jónsdóttur; hann kemur við deilur þeirra Bjarnar Jórsalafara og Þórðar undir Gnúpi 1394, og var þar sættir manna, ásamt föður sínum og Oddi lepp og fleiri höfðingjum (Flateyjarannáll 1394).

b. Þorlákur Sigurðarson, kemur við bréf á Ásgeirsá 1391, er snertir föður hans (Í. F. III, nr. 389).

c. Þórdís Sigurðardóttir, Kollssonar, er í ættbókum talin kona Odds lepps lögmanns, Þórðarsonar, Flosasonar (sbr. Sýsl.æf. II, 164); þau áttu fjölda barna, og eru miklar ættir frá þeim komnar. Sagt er, að Ögur væri heimanmundur Þórdísar, og er það þannig komið í ætt Odds lepps, og svo Mýrar í Dýrafirði, er Guðni Oddsson átti síðar, en fyr Sigurður bóndi Kollsson.

1) Klausa þessi frá [ er neðanmáls hjá Boga.

## Þorleifur Björnsson.

*Faðir*: Björn riddari hinn ríki á Skarði (sjá hér að framan).

*Móðir*: Ólöf dóttir Lopts ríka, riddara, Guttormssonar.

*Kona*: Ingveldur dóttir Helga lögmanns Ólafssonar[1]), er fyr bjó á Keldum syðra, en flutti að Ökrum í Skagafirði; hann kvæntist Akra-Kristínu dóttur Þorsteins hirðstjóra Ólafssonar (1427—1430). Kristín mun fyr hafa átt Helga lögmann; er það til merkis, að Ingveldur Helgadóttir tók saman við Þorleif Björnsson um eða fyrir 1460, því 1471 afleysir Sveinn biskup Þorleif og Ingveldi af 7 barneignarbrotum. En 1467 giptist Finnbogi lögmaður Málfríði Torfadóttur. Torfi dó 1459, og gat því Ingveldur eigi verið fædd þar eptir. Helgi varð lögmaður um 1436, dó um 1452[2]). Gat því Málfríður fæðst 1453, og verið mannvaxin 1464. Kristín átti seinna Torfa riddara og hirðstjóra Arason, en dó í Noregi 1459. Voru þeirra dætur:

1. Málfríður, sem átti Finnbogi lögmaður Jónsson.
2. Guðrún, sem fylgdi að lagi Einari ábóta Ísleifssyni.

En börn Helga lögmanns og Akra-Kristínar voru:

1. Þorsteinn á Reyni [í Mýrdal], sem átti Ragnheiði Eiríksdóttur, og
2. Ingveldur, sem áður var nefnd. Voru fjórmenningsmeinbugir með þeim Þorleifi [Björnssyni] og Ingveldi. Varð því ekki eptirtalnalaust um þeirra hjúskap; þau Þorleifur og Ingveldur áttu þessi börn, sem til aldurs komust:

   A. Björn sýslumann á Reykjahólum, sem 1501

---

1) Bogi hefur hér fyrst ritað Eyjólfssonar, en síðan strykað yfir það, en hvorttveggja: Ólafsson og Eyjólfsson, er rangt, því að Helgi lögmaður faðir Ingveldar var Guðnason, og bjó að Ökrum í Skagafirði, en ekki að Keldum í Rangárþingi, svo menn viti, þótt sumir telji svo, eptir einhverjum óljósum sögnum, eða af því, að þeir rugla Helga Guðnasyni saman við Helga lögmann Oddsson, er bjó í Rangárþingi (á Stóruvöllum á Landi og ef til vill á Keldum um hríð).

2) Helgi lögmaður Guðnason dó miklu fyr (sjá hér að framan).

giptist Ingibjörgu dóttur Páls Jónssonar og Margrétar Eyjólfsdóttur mókolls[1]), systur Magnúsar biskups, (sjá hér síðar um börn þeirra).

B. Helgu Þorleifsdóttur, er átti Eyjólf mókoll yngra, Gíslason; þeirra börn:

AA. Kristín, húsfrú Gísla biskups í Skálholti, Jónssonar; þeirra börn:

a. Séra Stefán í Odda, giptist og átti börn.

b. Séra Árni Gíslason í Holti, giptist og átti börn.

c. Helga, fyrri kona séra Erasmusar á Breiðabólstað; áttu börn.

d. Vilborg, átti Þorvarð Þórólfsson og börn.

e. Guðrún, átti fyr Gísla sýslumann Sveinsson á Miðfelli (sjá Árnesþing), svo Stefán í Oddgeirshólum, son Gunnars Gíslasonar á Víðivöllum, og börn með báðum.

f. Guðrún, átti Guðbrand Bjarnason og börn.

BB. Þórdís Eyjólfsdóttir, átti með Gísla bróður sínum son, er hét Jón, og varð seinna prestur í Holti undir Eyjafjöllum 30 ár; hans son Guðlaugur, giptist og átti börn. Annað barn séra Jóns í Holti var Guðný, sem átti Pál lögmann á Hlíðarenda, Vigfússon; þau voru barnlaus. Þórdís Eyjólfsdóttir giptist síðar Halldóri syni Orms í Saurbæ á Kjalarnesi, sem féll í Viðey fyrir Erlendi; þeirra börn:

a. Eyjólfur sýslumaður, (sjá Rangárþing), sem átti Solveigu Árnadóttur og börn.

b. Valgerður, er átti séra Jón í Stafholti, Egilsson, og börn:

---

1) Þ. e. Eyjólfs mókolls eldra, Magnússonar.

c. Eiríkur Halldórsson.

CC. Séra Magnús [Eyjólfsson] í Selárdal og Haga, átti Kristínu Nikulásdóttur; börn:

a. Bjarni á Hofi í Eystrahrepp, faðir Þórðar.

b. Helga, fyrri kona Helga Héðinssonar í Grindavík.

c. Guðný, átti Þorstein Ormsson, Erlingssonar.

d. Þormóður.

e. Eyjólfur.

f. Þórður.

g. Narfi.

h. Eyjólfur annar.

DD. Þorleifur Eyjólfsson, átti tvo launsonu, Magnús og Þorkel, sem aftekinn var í Kópavogi fyrir dulsmál; þeir bræður áttu börn.

EE. Oddur Eyjólfsson, yfirbryti í Skálholti í tíð Ögmundar biskups. Hans dóttir:

a. Hlaupa-Anna.

FF. Herdís Eyjólfsdóttir, átti séra Jörund; börn:

a. Guðrún.

b. Jón.

c. Þórður.

GG. Ingveldur Eyjólfsdóttir, átti Þorlák Egillsson, bróður Hólmgerðar á Breiðubólsstað, bjuggu í Hundadal; börn:

a. Gyríður, þriðja kona Bjarna á Fellsenda, Sumarliðasonar.

b. Gyríður önnur, átti Þórð Jónsson frá Einarsnesi.

c. Árni silfursmiður, drukknaði í Miðá við veiðiskap; barn:

aa. Ragnheiður.

d. Þorleifur Þorláksson; hans laundóttir:

aa. Guðrún. átti Bárð:

HH. Gísli Eyjólfsson, féll með tveim systrum sínum; dóttir hans og Kristínar var *Guðrún*; en son Gísla og Þórdísar var séra *Jón*. Börn séra Jóns voru:

1. Guðlaugur, faðir Jóns í Kollabæ, sem átti Ingibjörgu Ásgeirsdóttur, — og
2. Guðný Jónsdóttir, kona Páls lögmanns.

Eyjólfi mókolli og Ögmundi biskupi var mjög vel til vina; flýðu því þau systkini til biskups, og á hans náðir. Kom biskup Gísla utan og getur hans ekki framar. En systurnar voru í Skálholti, til þess þær giptust. Hjálpaði Gísli biskup því fólki til frama. Flest *Mókollsfólk* var ásjálegt og gjörfulegt, vel efnað og vel að sér í mörgu, en margt af því heimsfólk.

C. Jarþrúður (al. Þrúður) Þorleifsdóttir, átti Guðmund, son Andrésar sem var launsonur Guðmundar ríka á Reykjahólum, Arasonar. Andrés Guðmundarson átti Þorbjörgu dóttur Ólafs tóna yngra; þeirra börn:

1. Bjarni [Andrésson] á Brjánslæk, fyrir maður Guðrúnar eldri, dóttur Björns sýslumanns Guðnasonar (sjá síðar).
2. Ari Andrésson í Bæ á Rauðasandi, átti Þórdísi Gísladóttur, Filipussonar í Haga (sjá Barðastrandarsýslu).
3. Sigríður Andrésdóttir, átti Helga Gíslason, Filippussonar, frá Haga á Barðaströnd, og börn.
4. Guðmundur [Andrésson], áður nefndur, átti Jarþrúði [Þorleifsdóttur] fyrnefnda; börn þeirra:

AA. Þorleifur í Þykkvaskógi, átti Ingibjörgu Jónsdóttur, Erlingssonar, (Þorleifur drukknaði í Rifi 1536); þeirra börn:

a. Jón prestur í Gufudal.
b. Guðmundur.
c. Bjarni.
d. Bjarni yngri.

BB. Séra Ólafur Guðmundarson í Hjarðarholti (sjá Strandasýslu).

CC. Eiríkur Guðmundarson í Ásgarði (sjá hér síðar).

DD. Þorsteinn [leikari] Guðmundarson, síðasti maður Þórunnar [dóttur Jóns biskups Arasonar] á Grund; þau barnlaus. Launbörn Þorsteins með Guðrúnu Ásmundardóttur:

a. Séra Oddur í Tröllatungu, átti konu og börn.

b. Ásmundur Þorsteinsson, átti Þuríði Þorbergsdóttur, og börn.

c. Ólöf, átti séra Björn Thómasson og börn.

d. Ingibjörg Þorsteinsdóttir, átti Jörund Jónsson.

e. Guðmundur Þorsteinsson.

f. Sigríður Þorsteinsdóttir.

EE. Ormur Guðmundarson, átti Guðlaugu Brandsdóttur. Börn:

a. Árni Ormsson, átti Sigríði Þorsteinsdóttur; barnlaus..

b. Sigríður átti Guðmund Halldórsson og börn.

c. Guðmundur [Ormsson], átti fyr Ástríði Oddsdóttur, síðar Kristínu, og börn.

FF. Ingveldur Guðmundardóttir, Andréssonar, átti Brand Helgason. Börn:

a. Helgi, átti Ingveldi Ívarsdóttur, Narfasonar. Börn:

aa. Guðmundur á Eyri í Seyðisfirði, átti Arndísi.

bb. Margrét.

b. Agnes Brandsdóttir, átti Guðmund Salómonsson; þeirra son:

aa. Séra Salómon í Hvammi í Norðurárdal.

c. Halldór Brandsson, átti Agnesi Grímsdóttur, Jónssonar; þeirra dóttir:

aa. Vigdís, átti fyr Þorvald Björnsson á Æsustöðum, og börn.

(Önnur ættartala telur svo: Ólöf hét dóttir Guðmundar Andréssonar og Jarþrúðar; hún fylgdi [Ívari ábóta á Helgafelli, Narfasyni[1]); þeirra dóttir:

a. Ingveldur átti Helga Brandsson; þeirra börn:
   aa. Guðmundur á Fyri.
   bb. Margrét).

Laundóttir Guðmundar Andréssonar var:

GG. Guðrún; hún var fyrsta kona Bjarna Sumarliðasonar á Fellsenda; þeirra börn:

a. Þorleifur á Fellsenda átti fyr Eyphemíu, sem Daði í Snóksdal hélt við áður; þau Þorleifur voru barnlaus. Síðar kvæntist Þorleifur og átti börn.
b. Jón Bjarnason átti Birgidu og mörg börn.
c. Jarþrúður, átti fyrst Magnús og börn, svo Heinrik Gerken; þeirra börn:
   aa. Hannes.
   bb. Þórdís.
   Síðast [átti Þórdís] Nikulás Björnsson á Seljalandi; þau barnlaus.
d. Guðrún Bjarnadóttir, átti Arnór Helgason.

---

1) [Ætti að vera Ívari syni Narfa ábóta á Helgafelli, en það getur þó ekki staðist tímans vegna, að Ólöf dóttir Guðmundar Andréssonar hafi verið kona Ívars sonar Narfa ábóta, því að börn Narfa ábóta, eru að eins fulltíða um 1530, en börn Guðmundar Andréssonar eru öll fulltíða fyrir 1500 og þar um bil. En Ívar Narfason í Fagradal vestur, kemur við bréf um og eptir 1500 (d. 1524.) og var sýslumaður vestra og lögréttumaður, og sýnist hann hafa átt dóttur Guðmundar Andréssonar á Felli. Bróðir Ívars þess hét Sigurður, en faðir þeirra var Narfi Sigurðarson sýslumaður, er kemur við bréf vestra um og eptir 1500. Um forfeður Ívars í Fagradal er að öðru leyti ókunnugt að svo stöddu, en það verður síðar ljóst, þegar bréfin frá 1500 eru kunnug orðin. Dóttir Ívars Narfasonar í Fagradal hét Ingveldur, samkvæmt bréfum frá fyrra hluta 16. aldar, sem kemur heim við það, að hann sé sá Ívar, sem hér ræðir um.

e. Solveig Bjarnadóttir, átti Hallvarð Þórðarson og börn.

D. Guðný, dóttir Þorleifs Björnssonar og Ingveldar, átti Grím lögmann Jónsson, á Ökrum norður. Börn:

AA. Jón á Ökrum, átti Þóru Thómasdóttur; þeirra börn:

a. Guðný kona Sigurðar sýslumanns á Reynistað, Jónssonar (sjá Hegranesþing).

b. Kristín, átti séra Erlend Pálsson á Breiðabólstað.

c. Grímur á Ökrum, átti Þorbjörgu dóttur Þorbergs sýslumanns Bessasonar, og mörg börn. Grímur féll 1598 í útlegðarmál, fyrir barneign; hann var náðaður af konungi.

d. Jón á Svalbarði, átti Sigríði dóttur Þorgríms Þorleifssonar og börn.

BB. Guðrún Grímsdóttir, átti Thómas Brandsson á Þorleifstöðum í Skagafirði; þeirra börn:

a. Séra Björn á Völlum í Svarfaðardal 1552, dó um 1598, átti Ólöfu Þorsteinsdóttur.

b. Guðrún, átti Ólaf á Hallgrímsstöðum[1]) Thómasson; börn þeirra:

aa. Ari á Vindheimum.

bb. Grímur á Hömrum.

cc. Bjarni.

dd. Séra Magnús á Möðruvöllum.

ee. Þórdís.

c. Séra Þorleifur Thómasson á Hnappsstöðum, átti Guðrúnu Gunnarsdóttur og börn[2]).

---

1) Réttara: Hafgrímsstöðum.

2) Eitt af börnum séra Þorleifs var Pétur, faðir Þóru, er átti Þorsteinn á Stórubrekku í Fljótum, Eiríksson úr Siglufirði; þeirra börn voru:

CC. Sigríður Grímsdóttir, átti Magnús bónda á Reykjum í Skagafirði, Jónsson[1]) (al. Björnsson). Börn:

a. Séra Einar á Valþjófsstað, átti Arndísi Hávarðsdóttur og börn.

b. Gottskálk á Reykjum, lögsagnari (Skagafjarðarsýsla), átti Guðrúnu dóttur séra Gottskálks í Glaumbæ, og börn:

c. Jón í Möðrufelli, átti Kristínu Halldórsdóttur og börn.

d. Sigríður, átti Thómas[2]) lögsagnara Þor-

---

1. Pétur bóndi á Kálfsá í Ólafsfirði.
2. Eiríkur bóndi á Stórubrekku í Fljótum, faðir:
   a. Guðmundar bónda á Þorgautsstöðum í Stíflu, föður Jóns prests á Melsstað, föður Ingibjargar móður Páls amtmanns Melsteðs, föður Páls Melsteðs sagnfræðings.
   b. Ingiríðar, er átti Jón bónda Jónsson í Tungu í Stíflu; þeirra börn:
      aa. Sveinn prestur á Knappsstöðnm.
      bb. Helga, móðir Þorláks prests í Húsavík.
      cc. Guðrún, móðir Péturs prófasts á Víðivöllum.
      dd. Guðrun, móðir Þorsteins bónda á Höfða, Arasonar.
3. Eiríkur yngri, bóndi í Vík í Héðinsfirði.
4. Þorsteinn bóndi á Hrappsstöðum í Svarfaðadal, faðir Jóns bónda á Grund í Svarfaðardal.
5. Sæmundur, faðir Jóns prests í Reykjahlíð.
6. Finnbogi bóndi á Reykjarhóli, faðir Þorsteins smiðs, Finnboga, Valgerðar og Guðnýjar.
7. Arnór, faðir Guðmundar brita á Hólum, Jóns bónda í Brimnesi og Kráks bónda á Móafelli.
8. Pétur bóndi á Stórubrekku, átti Ásgerði Ólafsdóttur; þeirra son var séra Magnús á Höskuldsstöðum.
9. Jón bóndi á Kálfsá í Ólafsfirði, faðir Ásmundar á Kálfsá, föður Rögnvalds á Másstöðum, föður Rögnvalds á Hofsá í Svarfaðardal, föður Halldórs bónda á Brekku í Svarfaðardal. föður Zófóníasar prófasts í Viðvík.
10. Sesselja, átti Brand bónda á Skeiði, og eru ættir frá þeim.
11. Guðrún, átti Sigurð skáld á Minnibrekku, Gíslason; þeirra son: Benedikt bóndi á Stóru-Þverá í Fljótum.

1) Magnús var Björnsson og kemur opt við bréf nyrðra, um miðja 16. öld.

2) Réttara: Tuma.

grímsson á Skíðastöðum og börn (sjá Skagafjarðarsýslu).

e. Hallur Magnússon[1]), átti Arnfríði Torfadóttur og börn.

Séra Sölvi í Möðrdal á Fjalli, var sonur sonur Gottskálks Magnússonar á Reykjum, sjá hér að framan.

E. Kristín Þorleifsdóttir, hirðstjóra, átti Eirík á Álptanesi, sem var að vígi Páls, á Öndverðareyri. Eiríkur var son Halldórs ábóta á Helgafelli, Ormssonar. Börn:

AA. Séra Þorleifur á Melum í Borgarfirði frá 1538—1570; börn:

a. Sigurður, átti Guðríði dóttur ríka Teits, Oddssonar[2]), og börn.

b. Eiríkur Þorleifsson, afi Eiríks í Hraundal.

c. Þórður.

d. Kristín.

e. Sigríður.

BB. Guðrún Eiríksdóttir átti Þorgils Jónsson. Barn:

a. Jón, átti Helgu Skaptadóttur frá Setbergi.

CC. Einar Eiríkssson; óvíst um hans afkomendur. Sumar ættatölubækur telja enn launson Þorleifs:

F. Þorstein; en hans syni: Jón og Eyvind.

Snóksdalín telur og launson Þorleifs hirðstjóra:

G. Einar Þorleifsson[3]) á Hofstöðum, hirðstjóraum-

---

1) Þ. e. Hallur skáld, en ætt hans er hér ekki rétt rakin, því að hann var ekki sonur Magnúsar bónda Björnssonar, heldur var faðir hans ættaður frá Espihóli. Móðir Halls var Helga Brandsdóttir, systir séra Jóns á Barði í Fljótum og Páls prests.

2) Teitur ríki Oddsson bjó að Hólmi á Akranesi; hans getur opt í bréfum frá 16. öld.

3) Einar á Höfsstöðum í Miklaholtshreppi var ekki Þorleifsson, heldur Þórólfsson og Ástríðar Sæmundardóttur frá Brimils-

boðsmanns, sem átti Katrínu dóttur Halldórs ábóta (sjá um hann við Gullbringusýslu); en flestar ættatölur segja þann Einar *Þórólfsson*.

Þorleifur meinast að vera borinn nálægt 1430[1]; hann hefur líklega fengið sýsluvöld hjá föður sínum, þá hann hafði þar til aldur, en óljóst hvar. 1461 fékk hann og hjá Andrési Grænlendingabiskupi, sem var og umboðsmaður Marcelli Skálholtsbiskups, sér veittan Hruna, hvern Þorleifur þó lét lausan eptir 1462. Áður meina menn, að Þorleifur hafi sér til frama utan farið, svo sem þá var títt. Nálægt 1464 meina eg hann tæki Ingveldi til sín, og hafði hann þá sýsluvöld á ýmsum stöðum, var þó opt með foreldrum sínum í yfirreiðum víða um landið, en hafði bú á Reykjahólum næstur eptir Einar föðurbróður sinn.

1467 var Þorleifur fangaður af enskum í Rifi, þá faðir hans féll og 7 menn aðrir, en Ólöf móðir hans leysti hann út með miklu fé; var hann þar eptir til aðstoðar móður sinni, með föngun enskra á Ísafirði árin 1467—1470; stóð hann þá og fyrir hirðstjóraembætti hér á landi[2].

Þess er áður getið, að þeir bræður Einar og Björn Þorleifssynir veittust að mági sínum Guðmundi Arasyni á Reykjahólum, sem átti Helgu systur þeirra, svo að Guðmundur varð útlægur 1442[3]. Þá var Helga kona hans ekki einsömul, og

---

völlum. Þorleifur Björnsson mun alls eigi hafa átt son með Einarsnafni. Einar Þórólfsson átti Katrínu dóttur Halldórs Ormssonar ábóta á Helgafelli.

1) Þorleifur kemur fyrst við skiptagerning Vatnsfjarðar-Kristínar, frá 1458 (Í. F. V, 163. bls.), hefur hann þá verið ungur, og varla eldri en svo sem 15—18 ára; hann mun því eigi fæddur fyr en um 1440.

2) Að Þorleifur Björnsson hafi haft hirðstjórn á Íslandi á árunum 1467 til 1470, verður ekki ráðið af skjölum, sem nú eru til, og eg hygg það óvíst. Eg hygg að Heinrekur Kepkin hafi haft konungsumboð á Íslandi þau ár. Heinrekur fór með konungserindi á Íslandi 1463—1467, og »hirðstjóri« er hann nefndur »yfir allt Ísland« 1470—1474. Þorleifur mun þá hafa þótt ofungur til þess að takast á hendur hirðstjórnarvöld á Íslandi, þótt hann yrði hirðstjóri síðar.

3) Guðmundur var dæmdur útlægur 1446.

ól hún dóttur, sem hét Solveig[1]), er þeir bræður álitu getna í útlegð, og þessvegna ekki arfgenga eptir föður sinn eða móður; en þeir giptu Helgu[2]) systur sína Skúla launsyni Lopts ríka með hennar fé. En Solveig Guðmundardóttir fékk ekkert af sínu föður- eða móðurfé; þessvegna leitaði hún aðstoðar hjá maktarmönnum, — og 1465 fékk hún Lopti Ormssyni, Loptssonar hins ríka, sér til framfæris, en honum til eignar alla hálfa þá peninga, sem henni höfðu í arf fallið eptir föður sinn Guðmund Arason. Skyldi Loptur kjósa það af téðum eignum, sem hann vildi, en hann kjöri Reykjahóla og allar þær eignir, sem þar til liggja, millum Skálmarness og Gilsfjarðar. Skildi Loptur hafa umboð Solveigar Guðmundardóttur þrenna tólf mánuði; fram fór þessi gerningur á Staðarhóli í Saurbæ á annan dag páska 1465, vottar: Þorleifur Árnason, Gunnar Jónsson (í Ásgarði), Jón Þorleifsson og Magnús Oddsson[3]).

Millum Lopts, sem kallaði upp á arfinn Svlveigar, og feðganna, Björns ríka og Þorleifs, sem héldu eignunum, hófst því óvild mikil. Báru þeir feðgar fram, að Solveig hefði verið getin í útlegð, að Einar hirðstjóri Þorleifsson hefði af kongi keypt Reykjahóla með fleiru. Vann Loptur ekki á um fjártilkallið, — en Björn ríki hirðstjóri svipti Lopt sýsluvöldum. Um þessar mundir (1467) féll Björn, en Þorleifur tók að sér hirðstjórn, og fékk í arfaskiptum eptir föður sinn Reykjahóla. Óx því enn af nýju þræta um arfamálið, og þá er Loptur sá, að hann vann ekki á, fór hann utan, en fékk ekkert viðhald þar hjá ríkisráðinu í Noregi um arfamálið; kom hann út 1470, og var á alþingi. Gengu þá margir á milli, að sættir færi fram; kom þar og loks 1470, næsta dag eptir Pétursmessu á Öxarárþingi, að Loptur handsalaði Þorleifi Björnssyni, fyrir hugmóð og peningareikning, er Loptur var téðum Þorleifi um skildugur, alla þá tiltölu og eign, sem Loptur þóttist

---

1) Solveig yngri Guðmundardóttir, Arasonar, sú er hér ræðir um, var fædd 1431.

2) Helga kona Guðmundar Arasonar var önduð áður en hann féll í útlegð. En Helgu yngri Þorleifsdóttur, systur hinnar fyrnefndu, átti Skúli launsonur Lopts ríka á Möðruvöllum (sbr. Í. F. V, 558—559).

3) Þessa gernings hefur Bogi getið hér fyr í bókinni.

eiga í þeim peningum, er Guðmundur Arason átti og Solveig Guðmundardóttir þóttist erft hafa eptir föður sinn, sem Loptur hafði keypt af Solveigu (ɔ: Reykjahóla með þar til liggjandi eignum), sem það gerningsbréf ávísar, fasta og lausa, — fríða og ófríða — peninga. — Sættina undirskrifuðu þessir höfðingjar: Egill Grímsson, Oddur Pétursson, Grímur Grímsson og Ingimundur Jónsson[1]). 1470 þá Þorleifur sleppti hirðstjóraembætti, en Henrick Kerken[2]) tók við, hafði Þorleifur þó sýsluvöld í nokkrum sýslum, einkum um Borgarfjörð og víðar.

1471 afleysti Sveinn biskup hinn spaki Þorleif og Ingveldi af sjö barneignum þeirra, og bjuggu þau þá á Reykjahólum.

1474[3]) gerði Þorleifur heimsókn að Oddgeirshólum; þar fyrir afleysti séra Ólafur í Stafaholti hann að boði Sveins biskups. Hélt Þorleifur þá allt Þverárþing, með Barðastrandarsýslu og fleiri lénum. Hann meinast og um það leyti að hafa orðið hirðstjóri yfir nokkru af landinu, eða hirðstjóraumboðsmaður.

1472 gaf Akra-Kristín Þorsteinsdóttir, Ingveldi dóttur sinni tíundargjöf, og var það hálft fimmta hundrað hundraða.

Þau Þorleifur og Ingveldur þóttust vita að af nákomnum skyldugleika mundu verða arfaþrætur eptir þau; meinast því, að þau, að ráðum Magnúsar biskups Eyjólfssonar hafi sótt um giptingarleyfi til erkibiskups, konungs og páfa, og að Magnús biskup skildi þar um dispencera, og eptir skrifi Hannesar lögmanns Eggertssonar hafi þeim verið gefið téð leyfi og biskups dispencion.

1478 vísiteraði Magnús biskup Vestfjörðu, og út gaf á

---

1) Gernings þessa er getið áður hjá Boga; en prentaður er hann í Íslenzku Fornbréfasafni V. bindi (nr. 514).

2) Réttara: Kepkin.

3) Oddgeirshólareið gerðist 3. okt. 1473 (Í. F. V, 734. bls.). Fyrir þeirri för var Þorleifur Björnsson, en í för með honum var Árni Guðmundarson við nokkra menn og Steinunn Sigurðardóttir kona Árna. Þar var og Eyjólfur lázari Gunnarsson, sem alkunnur er fyrir óeirðir og vígaferli, er hann jafnan tók þátt í með ýmsum höfðingjum á seinna hluta 15. aldar. Meðal annars var hann með Þorvarði syni Eiríks Loptssonar í hinni nafnfrægu Krossreið 1471. Eyjólfur varð síðar sýslumaður í Skaptafellsþingi (sjá um hann í Sýslumannaæfum þeirrar sýslu).

Reykjahólum, sunnudaginn næstan fyrir haustkrossmessu, Þorleifi Björnssyni fullkomið kvittunarbréf, um allar sakir og fésektir, er hann hafði brotlegur orðið við guð, heilaga kirkju og biskupinn, fyrir barneignir í fjórmenningsmeinum með Ingveldi Helgadóttur; þar með fyrir allar biskupstíundir um næstkomandi tíu ár. Meinast þá, að biskup hafi og gert fullgilt hjónaband Þorleifs og Ingveldar, og að börn þeirra yrði arfgeng. Var þá Þorleifur, ásamt Diðriki píning, hirðstjóri. 1479 útnefndi Þorleifur dómsmenn að Staðarhóli, um arf eptir Solveigu Þorleifsdóttur, föðursystur sína; dæmdist arfurinn hennar ekta bornum erfingjum. Hélt Þorleifur þá Dalasýslu, ásamt mörgum öðrum [sýslum] norðan og vestan. 1479 kvittaði Þorleifur hirðstjóri, kongsins vegna, Gísla Filippusson frá Haga, um víg Björns Vilhjálmssonar. Annað sumar [eptir] fór Þorleifur utan til Noregs. 1480 gerðist Þorleifur *bróðir* í Munklífi í Noregi, og var þar mikils metinn. Hann hafði þetta ár, áður hann fór utan, tekið vitnisburði sína af Egli Grímssyni, Oddi Péturssyni og hinum öðrum helztu mönnum, um hollustu sína við konunginn.

1481, laugardaginn næstan fyrir Berthólómeusmessu, út gaf Gauti erkibiskup Þorlefi Björnssyni veitingarbréf um þrjú ár fyrir hirðstjórn á Íslandi, einnig fyrir Vestmannaeyjum, — því að Kristján konungur fyrsti var þá dáinn.

1482 gaf Jón smjör, riddari og höfuðsmaður í Björgvin, Þorleifi hirðstjóraumboð sitt, að fá bætur, kongsins vegna, af Eyjólfi lögmanni, fyrir misferli við séra Jón Snorrason. Lýsir hann Eyjólf lögmann óbótamann, ef hann sættist ekki við Þorleif hirðstjóra Björnsson; lét Þorleifur lesa þetta bréf fyrir Eyjólfi lögmanni, og gengu saman sættir.

Þess er fyr getið, að Loptur Ormsson handsalaði Þorleifi hirðstjóra allt það tilkall, sem hann hafði til fjár Guðmundar Arasonar, vegna Solveigar Guðmundardóttur. Giptist Solveig þar eptir Bjarna Þórarinssyni á Brjánslæk, og bjuggu þau þar um hríð. Eirði þeim illa, að ekki náðu [þau] fénu; komu því Andrési, launsyni Guðmundar Arasonar í málið, með fyrirheiti að [hann skyldi] eignast helftina af því Guðmundar fé, er hann gæti náð; fór því Andrés, ásamt þrem útlenzkum mönnum og mörgum öðrum, á Bæ á Rauðasandi, þar sem Einar bróðir Þorleifs hirðstjóra átti bú. Ræntu þar því er þeir vildu,

og fóru með ránsféð til Reykjahóla, veittu þar um nótt harða aðsókn, svo að allt heimafólk flýði af garðinum. Þeir börðu og á bændum þar um kriug, tóku það fémætt, sem þeir gátu hendur á fest, gerðu sér virki og settust þar að; þetta var um haustið 1482. Einar Björnsson bróðir Þorleifs, var þá á Auðkúlustað; þeir bræður, Þorleifur og Einar, heimtust saman, stefndu að sér mönnum og fóru til Reykjahóla, námu þar staðar í kirkjugarðinum, miðvikudaginn næstan eptir þrettánda [1483]. Létu þeir [Andrés] úr virkinu drífa á þá bræður grjót og skot. Var þar einn maður skotinn; þá hrukku þeir [Einar] undir kirkjuna að kórbaki. Var þá enn einn maður skotinn, og enn hinn þriði. Fór þá Þorleifur og hans menn inn í kirkjuna, en um morguninn skutu þeir [Andrés] úr virkinu inn í kirkjuna gegnum kirkjuhurðina, áður Þorleifur og hans menn veittu nokkra aðsókn. Hrukku þeir bræður frá að sinni. En um vorið söfnuðu þeir að sér mönnum, komust í virkið og stökktu mönnum Andrésar burt, en fönguðu hann sjálfan og höfðu í haldi; gerðu menn út, að fanga eða vega þá útlenzku menn, ef [þeir] næðist. Gátu þeir bræður fellt þá, og voru þeir lagðir ógildir, eptir dómi, þar þeir höfðu áður gert mannspell.

1483, þá Andrés var fangaður, kom Þorbjörg Ólafsdóttir kona hans, að biðja honum friðar; lét þá Þorleifur hirðstjóri stefna þeim helztu mönnum, sem kostur var á, til Reykjahóla að ráðslaga um þessi mál. Komu þangað: Guðni Jónsson, Gísli Filippusson, Vigfús Bjarnason, Þorlákur Þorkelsson, Sigurður Jónsson, Þórólfur Ögmundarson, Páll Jónsson, Einar Brandsson, (er þá var umboðsmaður Þorleifs hirðstjóra) og Þorleikur Gunnsteinsson, samt fleiri góðir menn. Réðst það af, að málin skyldi ei til dóms fara, heldu skyldi menn sættast fyrir góðra manna tillögur. Gerði Þorleifur Björnsson þann sáttmála við Andrés Guðmundarson og Þorbjörgu Ólafsdóttur konu hans, að fyrir hugmóð, fjárupptektir og skaða, er Þorleifur hafði áður fengið af nefndum Andrési, þá hann tók Reykjahóla, skyldi Andrés gjalda Þorleifi eitt hundrað hundraða í sakferli. En fyrir dándismanna bænastað og heiðurs skyld, sló Þorleifur af 60 hundruð. Önnur 60 hundruð áttu að gjaldast fyrir næstu fardaga, með jörðinni Gautsdal í Garpsdalskirkjusókn, 30 hundruð; hér til Græney og Skarfeyjar tvær,

með öllum þeim hólmum og skerjum sem þar til liggja, fyrir 16 hundruð. Liggja þessar eyjar í Staðarhólskirkjusókn. Hér með 11½ málnytukúgildi, 1½ hundrað í geldum sauðum og kúgildishest. Hér með lofaði Andrés, með svörnum eiði, leynt og ljóst, að vera Þorleifi hér eptir trúr og hollur, og honum aldrei mótstöðu veita. Og það umboð, sem títtnefndur Andrés hafði til Reykjahóla og annara Guðmundar eigna, vegna Solveigar Guðmundardóttur, lagði hann í vald Þorleifs Björnssonar, svo sem hann hafði það áður af Solveigu tekið, — og hvorki leynt né ljóst styrkja aðra, eða mótþróa veita Þorleifi né hans börnum, um téðar eignir. Bauð Þorleifur Andrési, áður en þeir gerðu þessa sátt, að þeir skyldu eigast rétt lög við, en Andrés vildi það ekki. Svo og lýsti Þorleifur, að hann dræpi hvorki niður kirkjurétti né konungs. Hér undir setti Andrés sitt innsigli, ásamt öðrum.

1483 lét Þorleifur sinn umboðsmann, Einar Brandsson, taka vitni með bókareiði, hvernig til hefði gengið, og hverir hefði ráðist á aðra fyr á Reykjahólum um veturinn. Sama ár gaf Þorsteinn prófastur Þórarinsson í Barðastrandarsýslu séra Hrafni Oddssyni umboð, að leysa Þorleif Björnsson og hans menn, hefði þeir nokkuð brotlegir orðið um kirkjusaurgan, þá þeir riðu á garðinn Reykjahóla. 1480 hafði Ingveldur [Helgadóttir] jarðaskipti við Gunnar bónda Jónsson, föður Steinunnar barnamóður Lopts Ormssonar. 1484, mánudaginn næstan fyrir Berthólómeusmessu, að Flatey á Breiðafirði, galt Þorleifur hirðstjóri Ingveldi konu sinni Svefneyjar, 40 hundraða og Miðjanes 50 hundraða, fyrir arð þann, er af peningum Ingveldar, sem málakonu, hafði í hans garð fallið, síðan þau saman komu; einnig fyrir silfur hennar, er hún hafði heiman haft, en Þorleifur eytt í utanferðum sínum. Átti Ingveldur þá mála sinn hjá Þorleifi, 4 hundruð hundraða. Vitnuðu það Guðni sýslumaður og 5 aðrir[1]).

1484 meina flestir að Þorleifur hirðstjóri hafi dáið, því að eigi getur hans seinna[2]).

---

1) Gerninga þá sem hér er getið, er að finna í Íslenzku fornbréfasafni V.—VI. bindi, og flestra þeirra er getið áður hjá Boga, þykir því eigi þörf á að taka þær tilvitnanir upp hér, sem áður eru settar við bréfin, þar sem þeirra er getið hér að framan.

2) Þorleifur dó 1486 eða snemma ársins 1487 (sjá hér fyr).

Af fyrtöldu er ljóst, að Þorleifur hefur haldið ýmsar sýslur, af þeim er vissa fyrir um Þverárþing, Dala- og Barðastrandarsýslur, en umboðsmenn hefur hann ýmsa haldið í lénum sínum.

Einar bróðir Þorleifs tók undir sig eignir Þorleifs, eptir hann látinn, því að börn hans voru þá forstöðulaus. Solveig og Bjarni bóndi hennar klöguðu þá enn upp á Guðmundareignir; þessvegna var Bjarni veginn af sveinum Einars 1487[1]).

1483 nefndi Þorleifur menn í dóm, að Berufirði, í Reykjahólaránsmálinu.

1490 meðkenndist Akra-Kristín, að hafa fengið Ingveldi dóttur sinni Minni-Akra og Syðra-Djúpadal. Þá arfleiddi Ingveldur, á Reykjahólum, dætur sínar: Kristínu, Helgu og Guðnýju.

Meðal Þorleifs mörgu umboðsmanna var í Dalasýslu:

## Ingimundur Jónsson[2]),

er 1472 lét dóm ganga um landamerki millum Snóksdals og Hamraenda; nefnist hann þá sýslumaður, og tjáir sig um-

---

1) Af vitnisburðum um víg Bjarna Þórarinssonar, má sjá, að hann var veginn 4. desember 1481 og var hann því löngu dauður 1487.

2) Ingimundur Jónsson kemur fyrst við bréf á Öxarárþingi 30 Júní 1470, um viðskipti þeirra Þorleifs Björnssonar og Lopts Ormssonar, Loptssonar hins ríka (Í. F. V, nr. 514), er Ingimundur þá orðinn lögréttumaður. 14. júní 1471 í Galardalstungu tekur Ingimundur Jónsson »kongsumboðsmann í millum Gilsfjarðar og Skraumu« vitnisburð af Guðríði Þorkelsdóttur, um fæðingarár Solveigar, dóttur Guðmundar ríka Arasonar, eptir því sem Finnur Pétursson beiddi Ingimund, vegna umboðs þess, er Finnur hafði af Ólöfu Loptsdóttur (Í. F. V, nr. 556). 27. maí 1473, í Hitárdal, vitna þeir Sigurður Jónsson (beigaldi), Sveinn Sigurðarson prestar, Þorlákur Þorkelsson, Sigurður Daðason, Ingimundur Jónsson og Guðmundur Jónsson, leikmenn, um kaup þeirra Halldórs Þorgeirssonar og Helgu Gilsdóttur á jörðunni Snorrastöðum í Kolbeinsstaðahreppi (Í. F. V. nr. 622). Guðmundur Jónsson sem hér er nefndur, hefur líklega verið bróðir Ingimundar. — 1. maí 1474, á Bessastöðum á Álptanesi, vitna þeir Arnfinnur Jónsson (Finnbogasonar hins gamla), Ingimundur Jónsson og Tumas Þorbjarnarson um það, að þeir hafi séð og yfirlesið tvö bréf Sveins biskups (Í. F. V, nr. 656). — 2. júlí 1476, á Þingvelli, vitna þeir Arnfinnur Jónsson og Ingimundur Jónsson, að þeir hafi séð og yfirlesið Kolla-

boðsmann Ólafar ríku á Skarði, áhrærandi eign hennar Hamraenda[1]). Getur þó verið, að Òlöf sjálf hafi haldið Dalasýslu, eða þau Þorleifur í sameiningu. Ætt Ingimundar er mér dulin[2]).

---

bæjarbréf frá 20 júní 1480 (Í. F. VI, nr. 79). — 2. júní 1478, í Hitárdal, vitna þeir um jarðakaup Gríms Aronssonar og Guðna Jónssonar: Sigurður prestur Jónsson, Oddur djákni Bergsson, Ingimundur Jónsson, Þórður Jónsson og Þorgils Jónsson, leikmenn, er fram fór að Ökrum í Hraunhrepp 28. maí sama ár (Í. F. VI, nr. 133). 30. júní 1480, á alþingi, nefnir Hrafn lögmaður tólf menn í dóm um mál Þorsteins Finnssonar (Péturssonar), er í hel hafði slegið að »ófyrirsynju« Ingimund Jónsson. Hafði Þorsteinn lýst víginu löglega á hendur sér og skyldi hann greiða 20 hundruð í vígsbætur eptir Ingimund, til Péturs Jónssonar (bróður Ingimundar) er bjó þá í Bæ í Borgarfirði. Hafði Pétur selt Þorsteini grið eptir vígið, en Finnur Pétursson í Ljárskógum, faðir Þorsteins, gekk í borgan fyrir son sinn, og því var Þorsteinn dæmdur ferjandi á konungsnáðir. 1. júlí 1480 samþykkir Hrafn lögmaður dóm þennan (Í. F. VI, nr. 256—257). Það getur ekki verið efamál, að þessi Ingimundur Jónsson, er Þorsteinn Finnsson vá, sé hinn sami og Ingimundur sýslumaður, jafnvel þótt Vatnshornsbók nefni hann á einum stað Önund (Í. F. VI, 271. bls., ath. 8), sem er auðsjáanlega rangt. — Um orzakir til deilu þeirra Ingimundar og Þorsteins er ókunnugt, en ekki þykir mér ólíklegt, að deilan hafi risið út af því, að Þorsteinn hafi viljað ná sýsluvöldum í Dölum, er Ingimundur hafði þá, og ef til vill hefur Þorsteinn haft loforð fyrir sýslunni af konungi, þegar Ingimundur sleppti henni, þó að það verði nú ekki með vissu séð.

1) Þetta er skakkt, eða að minnsta kosti finnst nú ekki þessi dómur Ingimundar, í umboði Ólafar, en **Þórarinn Aronsson** (prests, Helgasonar) tók vitnisburð Guttorms Krákssonar, 5. okt 1472, um landamerki Hamraenda og Snóksdals í Dölum. Gerði Þórarinn þetta »í umboði hustru Ólafar Loptsdóttur« (I. F. V, nr. 606—607). Hvort Þórarinn hefur þá haldið sýslu í Dölum, vitum vér ekki, en líklegast er, að hann hafi þá að eins haft umboð Ólafar, að því er snerti eignir hennar þar vestra.

2) Eins og fyr er sagt, átti Ingimundur bróður, er Pétur hét, og bjó í Bæ í Borgarfirði; þeir bræður voru skyldir nokkuð Ljárskógamönnum. Á það benda nöfnin í þeim ættum. Finnur í Ljárskógum var Pétursson og átti son, er hét Ingimundur. Þar hafa því orðið frændvíg, er Þorsteinn Finnsson vá Ingimund Jónsson (um 1480). Þó að líkast sé, að orzökin til vígs þess hafi verið ágrein-

## Arnór Finnsson.

(Sjá um hann við Mýrasýslu).

Árið 1485 nefndi Arnór, er hafði löglegt umboð kongdómsins vegna, þing að setja og dómsmenn útnefna, — menn

---

ingur um sýsluvöld, gæti verið að vígið hefði risið út af arfaþrætum á milli þeirra frænda. Ekkert verður þó fullyrt um þetta að svo stöddu, og naumast er nú unnt að segja, hve náin frændsemi var með þeim Ingimundi og Þorsteini. Í registri V. bindis hins íslenzka fornbréfasafns hef ég talið Ingimund þennan son Jóns Styrssonar frá Ökrum á Mýrum, en haldið þá vera bræður Ingimundar, auk Péturs: Guðmund, Þosgils og Þórð, sem koma við bréf vestra með Ingimundi. Það hlýtur að vera skyldleiki mikill með Akramönnum hinum eldri, og Arnóri Finnssyni og bræðrum hans, en nú er ekki auðið að segja, hvernig þeirri frændsemi hefur verið farið, nema með tilgátum og þeim að nokkru leyti óvissum. Þorsteinn Pálsson hét maður í Þórsnesþingi um miðja 15. öld (á lífi 2. janúar 1454; Í. F. V, nr. 107); hann sýnist hafa verið faðir: *a.* N. N., móður Arnórs Finnssonar á Ökrum (sbr. dóm frá 1504) og bræðra hans: Guðmundar, Helga, Ingimundar og Þorsteins, Finnssona. Sonur Þorsteins Pálssonar var *b.* Páll Þorsteinsson (nefndur 3. nóv. 1491). Bróðir Þorsteins Pálssonar mun vera Jón Pálsson (ef til vill ábóti á Helgafelli), faðir Páls föður Ögmundar biskups. Ögmundur biskup kallar, í bréfi nokkru, Daða í Snóksdal frænda sinn, og er þá skyldleiki þeirra svo:

Páll

Jón Pálsson — Þorsteinn Pálsson (á lífi 1454).

Jón Pálsson: Páll (d. fyrir 1504) ∞ Margrét Ögmundardóttir. — Tyrfingur Jónsson (á lífi 1497).

Páll: *Ögmundur biskup Pálsson.*

Tyrfingur: Halldór ábóti á Helgafeli. — Ögmundur Tyrfingsson.

Þorsteinn Pálsson: a. Páll. b. Ingigerður. c. N. N. Þorsteinsdóttir ∞ Finnur Pétursson í Ljárskógum.

N. N. og Finnur: Guðmundur Finnsson. Ingimundur. Arnór. Helgi. Þorsteinn. Oddný.

Guðmundur Finnsson: *Daði í Snóksdal* (d. 1563).

Af dómi einum frá 1504 má sjá, að Páll faðir Ögmundar biskups var Jónsson, en ekki Guðmundarson, þótt svo sé almennt talið. Tyrfingur, faðir Halldórs ábóta og Ögmundar var og Jónsson: hafa þeir Halldór ábóti og Ögmundur biskup verið bræðrasynir, en það

í dóm, að Hvammi í Hvammssveit, etc. (sjá Jörfabók, nr. 47).

---

var áður með öllu ókunnugt. Hvernig Ögmundur biskup hafi verið af Akraætt, fæ eg ekki séð. **Akraætt** hin eldri er þannig:

**Koðrán** hét maður, er lifði á 14. öld, hann virðist hafa átt börn við Vilborgu móður Einars í Vatnsfirði, eða að minnsta kosti eina dóttur:

a. Brigidu (sjá hér að framan, bls. 529); hana átti Jón murti Nikulásson, og önduðust þau bæði 1389. Synir Koðráns voru:

b. Þórarinn Koðránsson, er (samkvæmt Flateyjarannál) dó 1392.

c. **Torfi Koðránsson** »bóndi« á Ökrum á Mýrum 1356 — dó 1394 (Í F. III. 112, 210; IV, 186. bls.; Ann.[2] IX (1394). Torfi átti dóttur Hauks bónda á Ingjaldshóli, Gunnarssonar, Haukssonar; börn þeirra:

aa. Sigríður, hefur verið kona Óttars Bjarnarsonar frá Hraundal, Jónssonar; þeirra son var

Bjarni (Óttarsson), faðir þeirra Gunnars, Páls prests, Þórarins, og Guðríðar móður Torfa hirðstjóra og Daða, Arasona.

bb. **Snorri Torfason**, bóndi á Ökrum á Mýrum; Snorri er orðinn fulltíða 1369, því að 1. febr. það ár, á Ökrum á Mýrum, selur hann Jóni Jónssyni Hof í Vatnsdal fyrir Vatnsenda og Hálsa í Skorradal, með samþykki Guðrúnar Styrsdóttur konu sinnar (Í. F. III, nr. nr, 201). Snorra er getið í Vilkinsmáldaga 1397 (Í. F. IV, 186. bls), að hann býr þá á Ökrum. 1406—1410 er Snorri í Grænlandsför með þeim Þorsteini Helmingssyni og Þorgrími Sölfasyni, og 1413 kemur Snorri út aptur til Íslands og var þá Guðrún kona hans gipt Gísla Andréssyni (Lögmannsannáll). Snorri kemur enn við gjörning á Gilsbakka 18. maí 1417 (Í. F. IV, nr. 313). — Börn Snorra og Guðrúnar voru:

1. **Styr Snorrason** djákni, »bóndi« á Reykjum í Tungusveit, en síðar á Ökrum á Mýrum, kemur við bréf 1416—1465; hann hefur verið merkilegur maður og auðugur, svo sem verið höfðu langfeðgar hans. Kona Styrs var Þuríður Jónsdóttir frá Bólstaðarhlíð í Svartárdal; þeirra börn voru:

aaa. **N. N.** átti Erling; þeirra synir:

I. Þórður.

II. Geirmundur.

En hvenær Arnór hefur hér tekið sýsluvöld, eða hvenær þeim

---

bbb. Jón Styrsson bjó í Bólstaðarhlíð, er honum var dæmd að arfi eptir foreldra sína 1447 (Í. F. V, nr. 24); hann kynni að hafa kvænzt frændkonu Finns Péturssonar í Ljárskógum, en þó ætla eg hitt líklegra, að kona Finns hafi verið skyld Akramönnum, þeim er hér eru taldir. Synir Jóns Styrssonar munu þeir vera:

I. **Ingimundur** sýslumaður (sjá hér að ofan).

II. Pétur Jónsson í Bæ í Borgarfirði, á lífi 1480.

[III. Guðmundur Jónsson.

IV. Þorgils Jónsson.

V. Þórður Jónsson; um þá er allt óvissara].

2. Ingimundur Snorrason á Ökrum, kemur við bréf þar vestra 1431—1443; hans sonur hefur verið:

aaa. Snorri Ingimundarson, prestur á Ökrum á Mýrum 1436—1464 (eða lengur); af honum munu ættir komnar.

bbb. N. N. dóttir Ingimundar Snorrasonar, mun hafa verið kona Þorsteins Pálssonar, móðurmóðir þeirra Finnssona: Arnórs, Ingimundar, Helga, Guðmundar og Þorsteins; þannig mun Ingimundarnafnið og Akrar á Mýrum komið í ætt Finns Péturssonar og þeirra Ljárskógamanna.

3. Halldór Snorrason (Torfasonar frá Ökrum) kemur við bréf vestra og nyrðra 1450 og þar eptir; hann var handgenginn Skarðverjum. Halldór var veginn norður í Húnavatnsþingi, ásamt Arviði Mattheusi, í janúar 1456 (sbr. Í. F. V). Synir Halldórs hafa verið:

aaa. Gizur Halldórsson, er í dómi Daða Arasonar á Helgafelli 26. júní 1459 (Í. F. V, nr. 169).

bbb. Snorri Halldórsson kemur og við dóm Daða Arasonar, sem fyr var getið, 26. júní 1459.

ccc. Þorgeir Halldórsson kemur við bréf á Kolbeinsstöðum í Hnappadal 2. okt 1440, ásamt Ingimundi Snorrasyni, þar sem Ketill prestur Narfason ættleiðir börn sín (Í. F. IV, nr. 655); hans son:

I. Halldór Þorgeirsson í Hitárdal, kem-

sleppt, veit ég ekki,[1]) því að þar fyrirfinnast eigi bréf.

ur við bréf 1473 og síðar; hann var síðan sýslumaður Hnappdæla (sjá Hnappadalssýslu).

II. Þorgeir Þorgeirssson, sem nefndur er í Hjarðarholtsdómi Guðna Jónssonar 3. nóv. 1461, og sýnist þá hafa verið ungur, mun og vera bróðir Halldórs sýslumanns.

4. Þorgils Snorrason, sem nefndur er í dómi Þorsteins prófasts Svarthöfðasonar, að Stakkhamri í Miklaholtshreppi og að Helgafelli 29. ág. og 16. okt. 1438, um hval þann, er séra Páll Bjarnason í Miklaholti tók á Keflavíkurreka (Í. F. IV, nr. 620), — mun og vera sonur Snorra Torfasonar frá Ökrum.

1) Arnór Finnsson var sonur Finns Péturssonar á Ökrum, eins og hér fyr segir, en dóttursonur Þorsteins Pálssonar, göfugs manns vestra, er lifði um 1450. Arnór gerðist sveinn Ólafar Loptsdóttur fyrir 1466, og var þá sendur utan á fund Kristjáns konungs fyrsta, með peninga þá, er þau Björn og Ólöf greiddu konungi fyrir Guðmundareignir. Skyldi Arnór í umboði Ólafar taka kvittun konungs fyrir því, að peningar þessir hefði greiddir verið, og er kvittunarbréfið gefið út í Kaupmannahöfn 28. des. 1466 (Í. F. V, nr. 416); er þess þar getið, að Arnór Finnsson hafi sótt bréfið í umboði Ólafar. Má vera, að Arnór hafi og um það leyti haft sýsluvöld nokkur í umboði þeirra Skarðverja. 23. ágúst 1476, á Reynivöllum í Kjós, vitnar Arnór Finnsson, ásamt þrem mönnum öðrum, að hann hafi séð dauðadóm Arnbjarnar Sæbjarnarsonar frá 1467 (Í. F. VI, nr. 85). 24. maí 1479 er Arnór í dómi Þorleifs Björnssonar — á Staðarhóli — um ættleiðing Stefáns Loptssonar (Í. F. VI, nr. 196), — og 26. maí sama ár að Staðarhóli, er Arnór enn í dómi Þorleifs um gjafir og skuldir Solveigar Björnsdóttur, er þá var látin (Í. F. VI, nr. 198). — 1479 kvæntist Arnór (Helenu Jónsdóttur), því að hinn 9. júní 1479, á Grund í Grundarfirði, gefur Ólöf Loptsdóttir Arnóri til kvánarmundar í þjónustulaun hans fjóra tigi hundraða, og þar í jörðina Snorrastaði í Kolbeinsstaðaþingum (Í. F. VI, nr. 203). 1480, 4. júlí á Lundi í Lundarreykjadal eru tveir gerningar bréfaðir, er sýna, að Arnór hefur þá verið einn af lögréttumönnum á alþingi um sumarið (Í. F. VI, nr. 262 og 264). 30. júní 1481 á alþingi, er Arnór Finnsson í dómi Hrafns lögmanns Brandssonar um Hvassafellsmál (Í. F. VI, nr. 346). — 30. ágúst 1482, að Staðarhóli, selur Arnfinnur Jónsson (Finnbogasonar) Arnóri Finnssyni jörðina Höskuldsstaði í Laxárdal, fyrir Mýrar í Miðfirði. Samþykkti kaupið Helena Jónsdóttir kona Arnórs

## Guðmundur Finnsson.

*Faðir*: Finnur Pétursson á Ökrum á Mýrum.
*Móðir*: Um hana er ókunnugt.

---

(Í. F. VI, nr. 410). 29. janúar 1485, að Hvammi í Hvammssveit, nefnir Arnór Finnsson »konungs umboðsmaður« sex menn í dóm um framfæri Guðlaugar Sveinsdóttur (Í. F. VI, nr. 476). Er þetta dómur sá, er Bogi getur um hér að framan, og eignar með réttu Arnóri Finnssyni, er þá hefur verið sýslumaður á milli Skraumu og Gilsfjarðar (sjá að öðru leyti um Arnór við Mýrasýslu).

3. október 1487 er Arnór orðinn sýslumaður í Strandasýslu (Í. F. VI, nr. 536).

Eptir Arnór verður sýslumannaröðin í Dalasýslu þannig:

**Guðni Jónsson**

bónda í Ögri, Ásgeirssonar, og sonur Kristínar Guðnadóttur (Oddssonar lepps; sjá hér að framan), var konungs umboðsmaður á milli Gilsfjarðar og Gljúfurár (ɔ: í Dalasýslu) 1488, og nefnir þá tólf menn í dóm, að Hvammi í Hvammssveit (5. sept.), — um mál þeirra Odds Sigurðarsonar (Geirmundarsonar frá Hvoli) og Ásgauts Jónssonar (bónda á Víðidalsá, Hallvarðssonar. Ásgautur var systursonur Odds), — út af jörðunni Víðidalsá í Steingrímsfirði, er Oddur kallaði til í hendur Ásgauti frænda sínum, vegna sona sinna Jóns og Thómass (Í. F. VI, nr. 569). Svo sýnist, sem Guðni hafi og haft umboð Þorleifs Björnssonar yfir Dalasýslu á árunum 1478—1479 (sbr. Í. F. VI, nr. 156, 196, 198 og víðar).

1489 er Guðni orðinn sýslumaður í Ísafjarðarsýslu (Í. F. VI, nr. 595), og hefur þá líklega sleppt Dalasýslu við bróður sinn

**Páll Jónsson,**

sem getur hér síðar. Páll er talinn meðal sýslumanna, á alþingi (1. júlí) 1491 (Í. F. VI, 754. bls.); mun hann þá hafa haldið Dalasýslu, því að Guðni bróðir Páls, sem einnig er talinn sýslumaður, á fyrgreindu alþingi, hélt þá og lengi síðan Ísafjarðarsýslu. — Páls getur mjög í gerningum frá seinna helmingi 15. aldar, en erfitt er opt að greina hann frá tveim nöfnum hans og samtíðarmönnum, Páli Jónssyni biskupsmági og Páli Jónssyni, föður Ögmundar biskups, sem mjög eru við bréf vestra á seinna hluta 15. aldar.

1479, 5. apríl, leyfir Ólöf Loptsdóttir Páli Jónssyni að kvænast Solveigu Björnsdóttur, dóttur Ólafar (Í. F. VI, nr. 183). Sama ár fær og Páll páfaleyfi til að fá Solveigar (Í. F. VI, nr. 231). — 9. júní 1479 vitnar Páll, ásamt Guðna bróður sínum, um gjöf Ólafar ríku til Arnórs Finnssonar (Í. F. VI, nr. 203).

*Kona*: Þórunn Daðadóttir, Arasonar (sjá hér að framan).
*Börn*: A. Daði [í Snóksdal].
B. Halldór.
C. Ingiríður.
D. Þorbjörg.
E. Bjarni.
F. Guðrún.
(sjá ennfremur hér að framan, við Ara Daðason).

---

1491 bjó **Sigurður** „bóndi" **Daðason** í Snóksdal í Miðdölum, og hafði þá sýslu um Húnavatnsþing, er ekki ólíklegt, að Sigurður hafi haft sýsluumboð í Dölum nálægt 1475, eða litlu síðar, þó að það finnist ekki í gerningum.

**Björn Guðnason**

bónda að Hvammi í Hvammssveit, síðar í Ögri, Jónssonar sýslumanns, Ásgeirssonar (sjá hér fyr), og Þóru laundóttur Björns ríka á Skarði (d. 1467), Þorleifssonar, Árnasonar, — tók sýslu um Dali 1492, því að það ár, 30. janúar, að Hvammi í Hvammssveit, nefnir hann tólf menn í dóm um orðamál Arnórs Finnssonar við Þorkel Jónsson, segist þá Björn að hafa haft »kongsins sýslu og umboð í milli Gilsfjarðar og Gljúfurár« (Í. F. VII, nr. 176). — 20. febrúar sama ár (1492), nefnir Björn sex menn í dóm, að Staðarhóli í Saurbæ, um ábúðarheimild Jóns Eiríkssonar á jörðinni Þverdal í Saurbæ (Í. F. VII, nr. 181). — 1493 29. apríl, að Hvammi í Hvammssveit, nefnir Björn Guðnason sýslumaður »millum Skraumu og Gilsfjarðar« sex menn í dóm um ómagaframfærslumál þeirra Arnórs Finnssonar og Sturlu Þórðarsonar (Í. F. VII, nr. 241).

**Sturla Þórðarson**

»bónda« á Staðarfelli (d. 1493), Helgasonar »bónda« á Staðarfelli og í Sælingsdalstungu (d. 1427), Guttormssonar bónda á Staðarfelli, Örnólfssonar bónda á Staðarfelli, Jónssonar (sjá hér að framan). Móðir Sturlu var Guðfinna Jónsdóttir bónda í Ögri, Ásgeirssonar, Árnasonar, Geirssonar frá Seilu (Ásgeirsætt). Voru þeir Björn Guðnason og Sturla Þórðarson systkinasynir. Sturla hefur tekið við Dalasýslu af Birni frænda sínum, því að snemma árs 1494 finnst dómur Sturlu, sem sýslumanns í Dalasýslu, en sama ár hefur Sturla sleppt sýslunni við Heinrek Kolabekk, vegna deilu þeirrar, er þá var með þeim Sturlu og Arnóri Finnssyni.

Á seinni helmingi 15. aldar, hafa þeir og haft sýsluumboð í Dölum:

**Þorsteinn ‚bóndi' Guðmundarson**; hann er nefndur í skjali um

Í Snóksdalsúttekt 1523, sem séra Halldór Tyrfingsson gerði, ásamt fleiri klerkum, þegar Daði Guðmundarson tók við

Köldukinn á Fellsströnd frá 1. júní 1473, og er hann þá andaður (Í. F. V, nr. 626). Þorsteinn þessi, — er verið hefur valdamaður eða umboðsmaður í Dalasýslu, einhverntíma á 15. öld, — er að líkindum af kyni Skarðverja, líklega sonur Guðmundar frá Skarði Ormssonar, lögmanns Snorrasonar og bróðir Þorbjargar konu Guðna bónda Oddssonar. Þesssi Þorsteinn getur alls eigi verið sá, er höggvinn var 1377, samkvæmt Gottskálksannál, — fyrir víg Halldórs Kolbeinssonar, — því að sá Þorsteinn (d. 1377) er miklu eldri en hinn, er hér ræðir um. Þorsteinn Guðmundarson kemur við bréf á Reykjahólum 22. og 23. júní 1412 (Í. F. III, nr. 620 og 621); hann gæti verið þessi Þorsteinn »bóndi«, sem Köldukinnarbréfið nefnir. Ennfremur nefna gjörningar Þorstein Guðmundarson, sem 1421 hafði umboð Þorsteins hirðstjóra Ólafssonar, í Skagafjarðarsýslu, og kemur við bréf þar nyrðra 1415—1428 (Í. F. III.—IV.), en 14. júní 1428, er hann í dómi Þorsteins hirðstjóra Ólafssonar að Hvammi í Hvammssveit, út af vígi Sigmundar Illugasonar (Í. F. IV, nr. 408). Þorsteinn er og festingarvottur Ólafs tóna og Sigríðar Þorsteinsdóttur, að Hróðnýarstöðum í Laxárdal, 1446 (Í. F. IV, 674. bls.); þessi Þorsteinn Guðmundarson (1412—1446) er óefað sá, er Köldukinnarbréfið nefnir. Ætti hann því að hafa verið valdamaður í Dölum nálægt 1440, en líklegast hefur hann haft þar umboð Þorsteins Ólafssonar, þegar hann var hirðstjóri norðan og vestan á Íslandi.

**Þórður ‚bóndi' Helgason** frá Staðarfelli, Guttormssonar, Örnólfssonar. — Móðir hans var Úlfrún Þorsteinsdóttir úr Snóksdal, Jónssonar. Þórður kemur fyrst við bréf 1449, en tekur við Staðarfelli af Úlfrúnu (móður sinni) 1451; hann var stórbóndi og lögréttumaður og kemur við fjölda gjörninga, einkum þá, er snerta Skarðverja, sem sýnir, að hann hefur verið handgenginn þeim. Hefur Þórður bóndi líklega haft völd nokkur í Dalasýslu í umboði Skarðverja; en hvenær helzt það var, er nú ekki full-ljóst. Þórður andaðist 1493; sonur hans var Sturla sýslumaður, er nýlega var nefndur.

**Halldór ‚bóndi' Þorgeirsson** (sjá Akraætt hér að framan), — bjó um hríð að Melum a Skarðströnd; hans er getið í máldaga bænahússins á Melum 1492. Halldór var auðmaður og líklega valdamaður í Dölum nokkur ár (sjá um hann við Hnappadalssýslu).

## Heinrekur Heinreksson Kolabekkur.

Hverrar ættar hann var, er nú ókunnugt, en eptir nafni hans

Snóksdal eptir Guðmuud föður sinn, nefnist Guðmundur „bóndi“, sem þá var valdsmanna nafnbót; hygg eg því, að Guðmund-

---

mun hann vera útlendrar ættar. Þess skal getið, að Heinrekur Kepkin var hér á landi umboðsmaður og erindreki Kristjáns konungs fyrsta, á árunum 1463—1467, og átti hann á þeim tíma mikil viðskipti við þau Björn ríka og Ólöfu á Skarði. Hefur hann því að líkindum dvalið þar vestra. Síðar (1470—1474) var Heinrekur Kepkin hirðstjóri yfir öllu Íslandi, Mætti vera, að Heinrekur (Hinrik) Kolabekkur, sem nefndur er Heinreksson, væri sonur Heinreks Kepkins, og hefði alizt upp í Dalasýslu, ef til vill á Skarði, en síðan farið utan, og fengið þá konungsumboð yfir Dalasýslu; en um þetta verður ekkert fullyrt, því að ættnöfnin: Kepkin og Kolabekkur gera þetta ekki líklegt. Þó sanna ættnöfnin eigi hið gagnstæða, því að vel gat Heinrekur yngri hafa sleppt kenninafni forfeðra sinna; slík kenninöfn (ættnöfn) héldust þá eigi jafnan við, lið eptir lið.

1494 að Hjarðarholti í Laxárdal, lætur Heinrekur Heinreksson Kolabekkur dæma um mál þeirra Arnórs Finnssonar og Sturlu Þórðarsonar, — út af framfæri Þóru Tannadóttur, er dæmd hafði verið á framfæri Sturlu, — og um heimreið Sturlu í Ljárskóga að Arnóri.

### Sigurður Daðason.

1496 að Hjarðarholti í Laxárdal, dæmir Sigurður Daðason konungsumboðsmaður í Dalasýslu, um umboð það, er Arnór Finnsson hafði tekið á arfi eptir Magnús Þórólfsson.

### Torfi Jónsson

var sonur Jóns sýslumanns í Árnessþingi, Ólafssonar »bónda« í Reykjahlíð (d. 1458), launsonar Lopts ríka. Sagt er, að Kristín Oddsdóttir, frilla Lopts, væri móðir Ólafs Loptssonar, og getur það verið rétt, en þó er Ólafur orðinn fulltíða 1424, og ekki getur Loptur hans, þegar hann gefur öðrum launsonum sínum og Kristínar jarðir; þar nefnir hann að eins þá Orm, Skúla og Sumarliða. Það sýnir, að Ólafur hefur verið eldri en aðrir launsynir Lopts, og það getur því jafnvel talizt efamál, hvort Kristín hefur verið móðir Ólafs.

Móðir Jóns sýslumanns var Guðrún Hrafnsdóttir lögmanns Guðmundarsonar; hún var kona Ólafs bónda Loptssonar. Móðir Torfa Jónssonar var Ingibjörg Eiríksdóttir bónda á Skarði á Landi, Krákssonar hins gamla í Klofa, Jónssonar (sjá Árnessþing og Rangárþing).

12. júní 1497, að Staðarhóli í Saurbæ, nefnir Torfi Jónsson, konungsumboðsmaður milli Gilsfjarðar og Skraumu, sex menn í dóm um það, er Björn Guðnason kallaði til arfs eptir Solveigu

ur hafi verið umboðsmaður í Dalasýslu um hríð, líkast Sturlu sýslumanns Þórðarsonar, — nálægt 1500, en veit það þó eigi með vissu. Guðmundur var og lögréttumaður.

---

Björnsdóttur, móðursystur sína, til móts við Ara bróður sinn*), og aðra, er jafnframt stóðu til arfsins. Dómsmenn voru: Jón Oddsson, Sturla Þórðarson, Oddur Sigurðarson, Þorvarður Jónsson, Þórður Vermundarson og Tyrfingur Jónsson**). Ekki þekki eg aðra dóma Torfa í Dalasýslu, og veit því ekki, hve lengi hann hefur haft þar völd sem sýslumaður, (sjá um hann við Árness- og Rangárþing).

## Hákon Björgólfsson.

Í ættbókum er hann talinn sonur Björgólfs Þorkelssonar Vellings, sem sagt er að væri lögréttumaður og byggi að Fitjum í Skorradal.

Björgólf Þorkelsson hefi eg ekki fundið í gerningum; hann ætti að hafa verið uppi fyrir og um 1480; — þó mun ættgrein þessi rétt rakin.

Þorkell vellingur finnst eigi heldur í skjölum, með því kenninafni, en Þorkell Björgólfsson (Bergúlfsson) kemur við bréf á Hólum í Hjaltadal 12. júní 1430, þar sem 24 menn vitna um það, að veiting Grenjaðarstaðar hafi jafnan, að minnum þeirra, legið undir Hólabiskup, til þess er Jón prestur Pálsson kom þá með erkibiskupsveitingu fyrir staðnum (Í. F. IV, 420. bls.). Það getur naumast leikið efi á, að Þorkell Björgólfsson, sá er bréf þetta getur um, sé hinn sami og Þorkell vellingur, sem ættbækur telja föður Björgólfs, föður Hákonar sýslumanns. Þeir langfegðar hafa því verið norðlenzkir að ætt. Faðir Þorkels vellings hefur verið:

Björgólfur Illugason prestur, er kemur við bréf nyrðra 1380 og síðar. Björgólfur er orðinn prestur að Hvammi í Laxárdal (í Skagafirði) 1386, en hefur tekið við stað á Hrafnagili í Eyjafirði 1389, og haldið Hrafnagil 5 ár (til 1394). Eptir 1394 tók Björgólfur prestur við ráðsmennsku á Reynistaðarklaustri, og hélt því starfi til 1408; hann lifir enn 1413, og var þá gamall maður (sbr. Í. F. III.—IV. bindi). Þau voru börn Björgólfs prests: Illugi, Guðmundur, Þorkell (vellingur) og Steinunn.

---

*) Þ. e. Ara Guðnason, bróður Björns.

**) Tyrfingur Jónsson mun víst vera faðir Halldórs, er síðar varð ábóti á Helgafelli, og Ögmundar, er kemur við bréf um og eptir 1500. Tyrfings þessa er hvergi getið það eg veit, nema í þessum dómi. Tyrfingur hefur verið föðurbróðir Ögmundar Pálssonar biskups í Skálholti (sbr. hér fyr. bls. 547).

## Páll Jónsson.

*Faðir:* Jón Ásgeirsson, Árnasonar (sjá Ísafjarðarsýslu).

*Móðir:* Kristín, dóttir Guðna á Hóli í Bolungarvík, Oddssonar lepps lögmanns.

*Kona:* Solveig, dóttir Björns ríka á Skarði á Skarðsströnd (sjá hér fyr).

*Börn:* A. Jón; hann dó barnlaus, að skrifað er, 1526, en eg hygg það eiga að vera 1506, og ártalið sé villt, eða 1492.

---

Faðir Björgólfs prests hefur verið:

Illugi Þorsteinsson; honum hafði Ormur biskups Ásláksson fengið fullt umboð yfir öllu Hólakirkjugózi, millum Varðgjár (í Eyjafirði) og Helkunduheiðar (í Norður-Þingeyjarsýslu). Illugi bjó á Laxamýri, er hann fékk að léni af Ormi biskupi. Hafði þá Hólastaður eignazt Laxamýri. Töldu þeir Illugi og Ormur biskup, að þeirri jörð fylgdi veiði í Laxárósi og nýtti Illugi sér veiðina á meðan Ormur biskup lifði, en eptir dauða Orms biskups (d. 1356) urðu deilur um veiði þessa, milli Illuga og Böðvars prests Þorsteinssonar, er þá hélt Grenjaðarstað. Kallaði Illugi, að hann hefði veiðina í umboði Hólastóls, en Böðvar prestur taldi hana eign Grenjaðarstaðarkirkju. Þessari deilu lauk svo, að Illugi varð að sleppa veiðinni (1357) og bæta Grenjaðarstaðarkirkju skaða þann, er hún hafði beðið af missi veiðarinnar; auk þess var Illugi dæmdur til Noregs og bannlýstur, til þess er hann hefði bætt kirkjunni skaðan að fullu (Í. F. III, nr. 85).

Illugi hefur verið göfugur maður og auðugur; hann mun hafa haft sýslu í Þingeyjarþingi. Faðir Illuga hefur verið:

Þorsteinn skarðsteinn Illugason, prestur á Breiðabólstað í Vesturhópi 1319*—1331, síðar á Grenjaðarstað 1331—1334), officialis Hólabiskupsdæmis 1313—1315, 1320—1321 og 1330—1331, dó 1334; hann var einn af fremstu prestum í Hólabiskupsdæmi um sína daga. Af kenninafninu skarðsteinn, ræð ég, að Þorsteinn prestur hafi verið ættaður frá Skarði (Geitaskarði) í Langadal, og að faðir hans hafi verið:

Illugi Gunnarsson, bóndi á Geitaskarði (1257—1262 eða lengur). Faðir Illuga var:

Gunnar Klængsson á Þorkelshóli í Víðidal (1228), síðar á Geitaskarði (á lífi 1254); kona hans var dóttir Illuga Bergþórssonar, Þórðarsonar, Ívarssonar, Þórðarsonar, Hafliðasonar, Mássonar.

---

*) Hann hefur tekið við Breiðabólstað, þegar Hafliði Steinsson dó (1319).

B. Þorleifur lögmaður (sjá um hann hér á eptir, sem Dalasýslumann).

C. Guðrún Pálsdóttir, átti Vigfús lögmann á Hlíðarenda, Erlendsson; þeirra börn:

AA. Páll lögmaður, sama staðar (sjá Rangárþing).

BB. Anna.

CC. Kristín.

DD. Guðríður; les um þeirra niðja við Vigfús lögmann, í sýslumannaæfum Rangæinga.

D. Erlendur Pálsson, lét ekki afkvæmi eptir.

---

Þannig teljum vér langfeðga Hákonar sýslumanns Björgólfssonar; en þeir hafa lengi verið með öllu ókunnir.

Hákon hefur tekið sýslu í Dölum eptir Torfa Jónsson, og haft hana að minnsta kosti öðru hvoru á árunum 1498 til 1502, en hvort Hákon hefur haft sýsluna öll þessi ár, veit ég ekki. Í Sauðafellsdómi (1503) getur Sigurður Daðason þess, að Hákon hafi haft sýslu í Dölum litlu áður. Deildu þeir Hákon og Arnór Finnsson um þingfararkaup Arnórs, er Hákon hélt fyrir Arnóri (sjá hér síðar). Hákon var síðar sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu (1507); Hann er enn á lífi 1530. Frá Þorkeli velling föðurföður Hákonar er komin hin fjölmenna Vellingsætt (sjá Borgarfjarðarsýslu).

## Sigurður Daðason

bóndi í Snóksdal, en síðar í Bjarnarhöfn í Helgafellssveit, en nefndur hér að framan, á meðal sýslumanna í Dalasýslu. Sigurður var sonur Daða bónda Arasonar, og konu hans Þorbjargar Bersadóttur sýslumanns í Húnavatnsþingi, Einarssonar á Gunnsteinsstöðum, Bersasonar á Auðólfsstöðum, Sighvatssonar. Móðir Þorbjargar var Sæunn Guðnadóttir, Oddssonar lepps; þeir voru því frændur, Björn Guðnason og Sigurður. Er því líklegt, að Sigurður hafi í fyrstu fengið sýslu í Dölum, með styrk þeirra frænda sinna, Guðna Jónssonar og Bjarnar sonar hans.

1503 nefnir Sigurður sýslumaður Daðason sex menn í dóm að Sauðafelli í Miðdölum, um stefnu Arnórs Finnssonar til Hákonar Björgólfssonar, fyrir þá sök, að Hákon hefði hvorki nefnt Arnór til þings, meðan hann (ɔ. Hákon) var sýslumaður í Dölum, og ekki heldur goldið Arnóri þingfararkaup eða nefnt annan í hans stað. Dæma dómendur Hákon skyldan til að greiða Arnóri þingfararkaup sitt. Þá hefur Arnór verið lögréttumaður fyrir Dalasýslu.

Nokkrir skrifa, að Guðrún Pálsdóttir hafi átt barn áður en hún giptist, en geta þó ekki um heiti barnsins eða föður þess, eða þess afkvæmi. Mun það og villa, og mun sagan að réttu tilheyra Guðrúnu Þorleifsdóttur.

Guðrún Pálsdóttir mun ekki hafa verið sammæðra við þá bræður, Jón og Þorleif, heldur verið eldri en þeir bræður.

*Seinni kona* Páls nefnist Akra-Guðný; ekki er getið barna þeirra, eða hverrar ættar hún hafi verið, en hún gæti hafa verið laundóttir Gríms á Ökrum[1]).

Jafnvel þótt í ættatölum sé sett dauðaár Solveigar Björnsdóttur konu Páls 1526, getur það ekki verið satt, því að Páll,

---

**Arnór Finnson,**

sá er nýlega var getið, og fyr hefur verið nefndur sem sýslumaður í Dölum (1485), dæmir að Hvammi í Hvammssveit, um haustið 1504, »um öreiga leiguliða, sem misst hafa innstæðu«. Arnór nefnist þá sýslumaður í Dalasýslu; hann var lagamaður mikill og átti opt í lagadeilum við höfðingja. Veitti Arnóri optast betur en þeim, er í móti voru. Arnór bjó fyrst í Ljárskógum, eptir Finn Pétursson föður sinn, en síðar bjó hann á Ökrum á Mýrum, og hafði þá sýsluvöld í Mýrasýslu.

**Sturla Þórðarson**

frá Staðarfelli, Helgasonar, sá er getið hefur verið hér að framan, — hefur sýslu á milli Gilsfjarðar og Skraumu 1506, og lætur þá þá sex menn dæma (að Hvammi í Hvammssveit), um kæru Arnórs Finnssonar til Bjarna Halldórssonar út af arfi eptir Ingigerði Þorsteinsdóttur (móður-systur Arnórs); en Bjarni hélt arfinum fyrir Arnóri, því Bjarni var skyldur Ingigerði og þóttist réttur erfingi hennar.

Sýslumannaröðin í Dalasýslu um 1500 er mjög óljós og á reiki hjá Boga, því að hann hefur vantað fjölda heimilda, sem nú þekkjast um það efni. Eg hefi því getið hér dóma framanritaðra sýslumanna eptir hinni réttu tímaröð þeirra, svo að hægra verði að sjá, hvenær hver þeirra hafði völd. Bogi sleppir og sumum þeirra með öllu, því að hann hefur eigi þekkt dóma þeirra né gjörninga.

1) Um seinni konu Páls á Skarði er allt lítt kunnugt, en tímans vegna getur hún alls ekki verið dóttir Gríms lögmanns á Ökrum, sem er að eins fulltíða um það leyti, sem Páll kvænist Guðnýju.

sem féll eptir lát hennar, dó 1498; er því líkast að Solveig hafi dáið 1495[1]) eða 1496, því að í plágunni 1494 flýði Solveig frá Skarði norður að Auðkúlu, um sumarið, við 18. mann, og kom aptur um haustið með 4 af þeim mönnum, en enginn dó úr plágunni á Skarðsströnd, og ekki gekk hún fyrir vestan Holt í Saurbæ, eða um Vestfjörðu.

Solveig átti mörg börn með Jóni skrifara Þorlákssyni, áður en hún átti Pál. Vildi eigi Björn faðir hennar eða Þorleifur bróðir hennar, gefa leyfi til þeirra ektaskapar, því að þeim þótti Jón vera of fátækur. Solveig var orðuð af fleiri karlmönnum, en þegar hún giptist Páli, gerði hún eið þar fyrir 1484. Mælt er, að Jón Þorláksson hafi sent öll börn sín og Solveigar að Skarði, eptir að hún var gipt Páli, og hafi þau hitt bóndann úti, en hann ekki viljað við þeim taka og látið þau fara burt í ýmsar áttir.

Solveig bjó fyrst að Hóli í Bolungarvík og átti þar börnin við téðum Jóni, ráðsmanni sínum, en Þorleifur bróðir hennar sótti hana þangað, lét Pál fá hennar og setti þau niður að Skarði, en bjó sjálfur á Reykjahólum. Solveig og Páll munu hafa gipzt um 1483. Skyldleikar voru með þeim Páli og Solveigu; þannig, að þau voru fjórmenningar[2]). Fengu þau leyfisbréf af páfa 1479, að biskup mætti gera þeirra hjóna-

---

1) Solveig Björnsdóttir hefur dáið 1495.

2) Skyldleiki þeirra Páls og Solveigar var þannig:

Ormur Snorrason lögmaður.

| | | |
|---|---|---|
| 1. | Guðmundur (d. 1388). | Guttormur (d. 1381). |
| 2. | Þorbjörg ∽ Guðni Odsson. | Loptur ríki (d. 1432). |
| 3. | Kristín Guðnadóttir. | Ólöf ríka Loptsdóttir. |
| 4. | Páll Jónsson ∽ (og Kristínar). | Solveig Björnsdóttir (og Ólafar). |

Á annan hátt verður eigi fundin frændsemi með þeim Páli og Solveigu. Þetta er því ein af helztu sönnunum fyrir þeirri áður óþekktu ættfærslu, að Guðmundur Ormsson frá Skarði hafi verið faðir Þorbjargar konu Guðna Oddssonar lepps, eins og eg hefi hér að framan bent á, — og hinu, að Loptur ríki hafi verið sonur Guttorms Ormssonar (sbr. hér að framan, bls. 463—464 neðanmáls).

band löglegt, en Magnús biskup vildi það ekki gera. Því gerði Solveig testamentisbréf til barna sinna, eptir að hún hafði erft Einar bróður sinn eða Páll tekið undir sig fé hans, því hinar sömu jarðir framkoma sumar í testamentisbréfum [Sólveigar], sem Einar áður átti.

Um uppvöxt og menningu Páls veit eg ekkert að skrifa og ekki hefi eg heyrt hans getið í gömlum fræðibókum, fyr en um það leyti er hann eignaðist Solveigu eða komst í kynni við hana, nálægt 1480. Þegar Þorleifur bróðir Solveigar hafði hirðstjórn tekið, er líklegast að Þorleifur hafi sem hirðstjóri útvegað Páli sýsluvöld (þó að eg viti það ei með fullri vissu), og er líkast það hafi verið í Dalasýslu nálægt 1482 (þó eigi utan litla hríð), til þess að útvega honum nafnbót. Eg veit ekki heldur víst, hvort hann hefur, árið 1484, verið kvæntur Solveigu, eða við hana haldið ókvæntur; en það, og fyrirfaranda ár hafa verið einhverjar umræður um Solveigu, og því hefur hún aflagt eiðinn og verið þá fyrir vestan. Ritað er, að Páll hafi, eptir dauða Solveigar, leitað kvonfangs norður, en líklegra er, að Páll hafi leitað þessa kvonfangs, áður en hann fékk Solveigar, og að kona þessi, er menn nefna Akra-Guðnýju, hafi verið fyrri kona Páls[1]) og móðir Guðrúnar, sem Vigfús lögmaður átti. Hefur Guðný orðið skammlíf. — Mælt er, að Eiríkur á Álptanesi, son Halldórs ábóta Ormssonar, hafi í sama stað leitað sér kvonfangs. Er líklegt, að þegar Eiríkur náði ekki þeim ráðahag, hafi hann fengið Kristínar dóttur Þorleifs hirðstjóra Björnssonar, og minnst síðar á fornar á fornan fjandskap við Pál, og gert félag við Björn Þorleifsson, sem sótti eptir fé því, er Páll og Solveig höfðu tekið undir sig af eignum Þorleifs hirðstjóra Björnssonar. Því fé náði Björn son Þorleifs hirðstjóra aldrei sem arfi eptir föður

---

1) Páll mun alls eigi hafa verið kvæntur, áður en hann fékk Solveigar; það sýnir og frásagan um tildrögin að vígi Páls, þar sem það varð vegna deilu þeirra Eiríks á Álptanesi út af því, að þeir höfðu báðir ætlaðað fá Akra-Guðnýjar, er Páll fékk. Þetta kvonfang Páls hefur því orðið eigi fyr en eptir dauða Solveigar Björnsdóttur, sem dó 1495, en Páll var veginn 1498, og hefur þá auðsjáanlega verið nýlega búinn að fá Guðnýjar, þar sem Eiríkur vá Pál í hefnd fyrir það, að Páll varð fyrri til að kvænast henni, svo að Eiríkur missti konunnar.

sinn, sökum þess, að Björn þótti getinn í fjórmenningsmeinum[1]). Sakir alls þessa lagði Björn hinn mesta fjandskap á Pál, og gerði þá félag við Eirík að þeir vægi Pál. Þó dró Björn sig heldur í hlé undir sjálfa atförina.

Sonur Eiríks á Álptanesi og Kristínar Þorleifsdóttur var séra Þorleifur á Melum, sem átti mörg börn. Einar hét og sonur þeirra Eiríks.

Þegar Páll kom aptur norður, og hafði heyrt um bónorðs-

---

1) Frændsemi þeirra Þorleifs hirðstjóra Björnssonar og Ingveldar Helgadóttur er á þessa leið:

A.

Frá Ormi Snorrasyni á Skarði.

Ormur lögmaður (d. 1401).

| | | |
|---|---|---|
| 1. | Guttormur (d. 1381). | Þorbjörg ∽ Ólafur tóni. |
| 2. | Loptur ríki (d. 1432). | N. N. Ólafsdóttir ∽ Guðni. |
| 3. | Ólöf ríka (d. 1479). | Helgi lögmaður Guðnason. |
| 4. | *Þorleifur hirðstjóri.* ∽ | *Ingveldur Helgadóttir.* |

B.

Frá Eiríki ríka á Svalbarði.

Eiríkur ríki (d. 1381).

| | | |
|---|---|---|
| 1. | Soffía ∽ Guttormur. | Málfríður ∽ Björn. |
| 2. | Loptur ríki. | Sigríður Björnsdóttir. |
| 3. | Ólöf ríka. | Akra-Kristín (d. 1490). |
| 4. | *Þorleifur hirðstjóri* ∽ | *Ingveldur Helgadóttir.* |

Á hjónabandi þeirra Þorleifs og Ingveldar voru því tvöfaldir meinbugir, því að samkvæmt lögum katólsku kirkjunnar máttu hjón eigi vera skyldari en að 4. og 5.; — var því eigi að undra, að biskuparnir, sem eigi vildu láta hjúskap í »forboðnum« ættliðum viðgangast, reyndu að ónýta hjónaband þeirra Þorleifs og Ingveldar. Erfingjar að Skarðseignunum, sem þóttust jafnbornir til þeirra sem niðjar Þorleifs, reyndu og að koma því til leiðar, að börn þeirra Þorleifs og Ingveldar yrði dæmd óskilgetin, svo að þau mætti eigi krefja arfs eptir foreldra sína. Út af þessu urðu langvinnar deilur á milli þeirra Bjarnar Þorleifssonar yngra og hins vegar þeirra bræðra Páls Jónssonar og Guðna, og svo Bjarnar sýslumanns Guðnasonar.

för Eiríks, en fékk sjálfur jáyrði konunnar, er mælt að hann hafi ritað vísu þessa á kirkjuhurðina:

Þekkir þú ei Val,
sem bjó í Mosdal,
sauðunum stal; —
Klyppingana hafði' hann sér til þvengja, —
öll skyldi Vala börnin hengja.

Þá er Eiríkur kom aptur norður og sá vísuna, fylltist hann hins mesta fjandskapar til Páls, því að forfaðir ábótans hafði heitið *Valerianus*[1]), og þá er Páll lét flytja ölföng sín norður Sölfamannagötur, kom þar Eiríkur og hjó niður allt ölið. Páll keypti öl aptur nyrðra, og fékk konunnar. — Aðrir segja að Páll hafi niður höggvið ölið fyrir Eiríki, en það held eg missögn; Sölvamannagötur voru ekki á norðurleið frá Álptanesi. — Þetta hefur tilborið um 1497, hafi Guðný verið seinni kona Páls, sem ekki mun hafa verið; þessvegna hefur atburður þessi orðið 20 árum fyr, eða um 1477[2]). 1498 bar svo til, að Páll fór á stóru skipi vestur undir Jökul, erinda sinna, með tólf menn. Lenti hann á Öndverðareyri í Eyrarsveit, og keypti þar hús, sem hann hvíldi í, því honum var uggur á umsátrum Eiríks. Lét Páll menn sína liggja tygjaða í skála fram af svefnhúsi sínu, en lá með skósveini sínum þar innar af í húsinu. Eiríkur var þá staddur á Helgafelli, er hann frétti, að Páll lá á Eyri fyrir andviðri. Fékk Eiríkur sér þegar 60 manna, (sumir segja að eins 18). Þar var Björn Þorleifsson í förinni, því

---

1) Valerianus Þórarinsson handleggur Jóni Þorkelssyni ábóta á Helgafelli 14. marz 1453, þá tiltölu, sem hann þóttist eiga til jarðarinnar Hraunsmúla í Staðarkirkjusókn, klaustrinu á Helgafelli til fullrar eignar (Í. F. VI, nr. 57); getur ekki verið efamál, að hann sé sá »Valur« (Valerianus) sem hér er getið. Að hann hafi verið forfaðir Halldórs ábóta getur naumast verið, öðru vísi en að hann hafi verið móðurfaðir ábóta. Mér þætti þó líklegra, að Eiríkur son Halldórs ábóta hefði verið dóttursonur Valeríanusar, því að það kemur vel heim við tímann, þar sem Eiríkur Valeríanusson (munkur á Helgafelli) er enn á lífi 8. jan. 1493 (Í. F. VII, 157. bls.). En Eiríkur sá hlýtur að vera sonur Valeríanusar Þórarinssonar sem hér er getið.

2) Þetta hefur einmitt orðið um 1497, því að Guðný hefur verið seinni kona Páls.

að illt var milli þeirra Páls út af fé Þorleifs og Einars bróður hans, sem Páll hafði undir sig dregið vegna barna sinna, er menn sögðu í fjórmenningsmeinum borin og óarfgeng, þótt skilgetin væru, þar sem biskup hafði ekki eptir páfabréfinu í þeirra hjónabandi dispenserað. Þegar flokkurinn kom á Eyri um nótt, fór Eiríkur á glugg, þar er Páll hvíldi inni og kallaði: „Er skolli inni?" — Páll svaraði: „Inni er hann og ekki hræddur, bíð þú þess hann er klæddur". Þá brutust Eiríksmenn inn í skálann, og tóku tveir og tveir hvern Páls manna og héldu þeim, en hinir sóttu með Eiríki að svefnhússdyrunum. Skósveinn Páls fékk læst og stóð fyrir hurðinni á meðan Páll klæddist og komst í panzara. Varði Páll dyrnar lengi, svo að enginn komst inn, og ekki varð hann snemma sár. Sá maður var þar með Eiríki, er áður hafði verið sveinn Páls, og hafði þá Páll gefið honum sverð og hanzka; sá maður sótti fast að, og fékk lagt Pál undir panzarann gegnum lærið. Páll mælti þá: „Þú mátt ganga djarflega að, því þú hefur á höndum". Eptir það varð minna af vörn Páls, og féll hann loks af sárum og mæði. Veittu þeir Páli þá mörg sár, og gengu síðan út. Þeir sendu inn til Páls prest einn, að veita honum aflausn og sakramenti, áður en hann andaðist, og sem prestur hafði lokið gerð þeirri, spurði hann Pál að, hvort honum mundi líft. Páll sagði presti í trúnaði, að líft mundi, ef fljótt væri umbúið. Prestur gekk út og spurðu þá hinir, hvernig Páli gengi. Prestur svaraði: „Þér megið gera betur til við hann, ef þér viljið ekki eiga hann síðar yfir höfðum yðar". Fóru þeir þá inn aptur og aflífuðu Pál.

Um sumarið eptir á alþingi, kærði Guðni sýslumaður bróðir Páls vígsmálið, og aðrir frændur hans. Dæmdi Finnbogi lögmaður Jónsson. Voru ger mikil manngjöld og skorti lítið á tvenna tíu tygi hundraða. Var og þeim öllum, sem með Eiríki voru dæmdur sá eiður, að eigi hefði til Eyrar farið með því hugarfari að drepa Pál eða meiða, en 10 hundruð voru dæmd af hverjum, er eigi mátti vinna þann eið, og 5 hundruð af hverjum hinna. Voru þeir allir dæmdir útlægir af Norðurlöndum til páfans náðar. Samþykkti Pétur hirðstjóri dóminn. Fór Eiríkur og tveir aðrir á páfagarð að fá leyfi til landsvistar. Eiríkur dó í Róm og fékk heiðarlegan gröpt. Guðni sýslumaður Jónsson tók að sér umsjón á fé bróður-barna sinna,

en setti Orm bróður sinn að Skarði til búsforráða, meðan þau voru ung. Var Ormur haldinn lítill skörungur. Meðan hann var á Skarði féll niður mikið af byggingum staðarins, sem eigi var lagfært.

Páll var hið mesta afarmenni og harðfengnr. Eptir dauða Páls sóttu erfingjar hans og Solveigar eptir Skarðs-auði, og komst hann í margra eign. Þorleifur Pálsson átti lengi í kærumálum síðar, að ná aptur jarðagózinu.

Lesurum til fróðleiks, læt eg hér með fylgja afskriptir af nokkrum skjölum, sem eg í höndum hefi; eru þau afskriptir af öðrum eldri:[1])

## Testamentisbréf Solveigar Björnsdóttur.

„*In nomine Domini, amen.* Einn guð í algjörðri þrenningu; hann sé mín vernd, varðveizla, vareigð og viðvörun allra minna vondra verka og háskasamlegra hugrenninga, bæði fyrir líf og sál. Ei síður hjálp mín, heilsa og hallkvæm hugarstyrking til allra góðverka, endurbæting og afmáning allra minna misverka og mótstæðilegra afbrota *Geri eg Solveig Björnsdóttir svofellt testamentum*: Í fyrstu kýs eg mér og mínum líkama legstað inni í kirkjunni á Skarði, þar sem S[te] Önnu altari er fyrir framan. Ef það er ei gert áður en eg andast, þá vil eg hvílast frammi fyrir vorri frú, ef þar finnst skil til, að minn herra biskupinn í Skálholti gefur þar leyfi til. — Með sama hætti, ef eg öndumst í Vatnsfirði eða á Hóli í Bolungarvík, gef eg hvorri kirkju, af þessum þremur, sem eg hefi greint, og mig undir hennar miskunnarfaðm kjörið að hvíla, XX hundruð í þarflegu gózi. Item gef

---

1) Hér kemur fyrst afskript af þessum skjölum:

1. Skiptabréf eptir Björn ríka (prentað í Íslenzku fornbréfasafni V, nr. 441).
2. Eiður Solveigar Björnsdóttur frá 2, maí 1484 (Í. F. VI, nr. 454).
3. Bréf Júlíanuss biskups, um hjónabandsleyfi þeirra Páls Jónssonar og Solveigur Björnsdóttur, frá 19. des. 1481 (Í. F. VI, nr. 377). Þessum þrem skjölum er hér sleppt, því að óþarft þótti að prenta þau hér aptur, þar sem þau eru prentuð í Fornbréfasafninu eptir betri heimildum en þeim, er Bogi hefur haft. Skjölin eru og eigi alsstaðar orðrétt í afskript Boga. Testamentisbréf Solveigar, eptir afskript Boga er hér látið fylgja, af því að það hefur ekki verið prentað áður.

eg sonum mínum tveimur, er við Páll minn eigum saman okkar í milli, í þessa mína testamentisgjöf. *In primis:* Jörðina Skarð á Skarðsströnd, með þessum jörðum tilnefndum: Níp, Hvalgröfum, Krossi, Frakkanesi, Reynikeldu, Langey, Langeyjarnesi, Hnjúki, Kvennahóli, Stakkabergi, Ormsstöðum, Svíney, Víghólsstöðum, Vogi, Kjallaksstöðum, Galtardal, Orrahóli; allar áður greindar jarðir fyrir III hundruð hundraða, og þar til II hundruð kúgilda í fríðum peningum og fríðvirtum; þar til Flatey, Bræðratungu, Máfahlíð og þær fleiri jarðir, er undir hana liggja, hverjar svo heita: Lá, Vík[1]), Skerðingsstaðir, Tunga, allar þessar jarðir fyrir III hundruð hundraða, og með þessum greindum jörðum eitt hundrað kúgilda eða kúgilda virði.

Í þriðju grein gef eg Solveig Björnsdóttir fyrnefndum sonum mínum Þorleifi og Jóni í þetta mitt testamentum alla jörðina Vatnsfjörð, er liggur í Ísafirði, með þeim jörðum, er þar liggja undir, er svo heita: Eyri, Gjörfidalur, Bjarnastaðir, Vogur, Svansvík, Hallshús, Sveinshús, Þúfur, Skálavík, Hörshlíð, Botn, Eyri, Hvallátur; allar þessar jarðir, sem mín eign er hér út af og ei eru heilagrar kirkjunnar eign í Vatnsfirði, þá gef eg fyrir II hundruð hundraða og í lausa gózi II hundruð hndr. í fríðum peningum og ófríðum með kúgildum og öðrum aurum. Í fjórðu deild gef eg optnefndum mönnum þeim sonum mínum Hól í Bolungarvík með þessum jörðum, sem þar liggja undir og hér greinir: Hlíðar tvær, Tunga og Miðdalur, Hanhóll, Gil, Ós, Hraun, tvö Breiðaból, Kroppstaðir, tveir Bakkar, Keflavík, Göltur, allar innsettar jarðir fyrir II hundruð hundraða og með eitt hundrað hndr. í vöruvirtu gózi, fríðu og ófríðu með kúgildum. Sérdeilis gef eg Jóni og Þorleifi bróður hans jörðina

1) Í Ísl. Fornbr.s. VII bls. 243, þar sem testamentisbréfið nú er prentað (VII 242—247) stendur hér á þessum stað Lauik (þ. e. Lávík) í einu orði, en líklega er réttara, að jarðirnar hafi verið tvær: Lá (eða Lág) í Eyrarsveit og Vík (ef til vill Látravík í Eyrarsveit). Bæjarnafnið Lávík þekkist nú að minnsta kosti ekki. Annars skal þess getið, að testamentisbréf þetta er að mun fyllra og orðfleira, eins og það er prentað í Fornbréfas., heldur en hér eptir afskript Boga, er samsvarar hér um bil hdr. því, er merkt er b í Fbr.s. og orðamunur þar tekinn eptir því. Það hefði því mátt sleppa bréfinu hér, en það var ekki unnt, því að upphaf þess var prentað í síðasta hepti þessa rits, en þá (1903) var bréfið enn óprentað í Fornbréfas.

Ögur í Ísafirði með jörðum, er þar til liggja og svo heita: Blámýrar, Efstidalur, Hrafnabjörg, Sel, Birnistaður, Kleifar, Borg, Hjallar, Kálfavík; allar þessar jarðir fyrir II hundruð hundraða, eptir því sem eg hef eigandi að orðið, og Páll Jónsson bóndi minn hefur lagt mér greindan Ögur fyrir Ás í Holtum með þessum jörðum, sem áður greinir, svo sé I hundrað hundraða, sem Ás er dýr til. Hér til gef eg tilnefndum sonum mínum Stað í Aðalvík fyrir I hundrað hundraða, og hér með jörðunum Ögri og Aðalvík, sem þar fylgir með LXXX hundruð í lausagózi, og þar til tvær jarðir norður í Bug í Blöndudal fyrir I hundrað hundraða. Þar til ánafna eg þeim til eignar Bólstaðarhlíð og Eyvindarstaði fyrir I hundrað hundraða, þar til XXX kúgildi, Furufjörður og XVI hundraða jörð, þar til XXX hundruð í lausu fé. Allt það fyrir I hundrað hundraða. Gef eg Solveig Björnsdóttir þeim sonum mínum þessar jarðir og allar áðurgreindar til fullrar eignar og frjáls forræðis, undan mér og undir þá, með öllum gögnum og gæðum, hlutum og hlunnindum, sem þessum jörðum fylgir og fylgt hefur að fornu og nýju og eg hef fremst eigandi að orðið, með greindu lausagózi með svofelldum skilmála: Að eg vil frjáls bíhalda og brúka allt þetta góz, jarðir og lausafé með öllu tilliggjandi, svo lengi sem eg vil sjálf þessa fjárforræði hafa, án nokkurs tiltals eða klögunar, utan eg vilji fyr sjálf af höndum selja eður viðskiljast, eptir því sem þá er minn vilji til, utan mig kunni fyr við að missa, þá skal þetta mitt testamenti standa óbrigðanlegt, þeim frjálst og liðugt til nytsemdar og frjáls forræðis og fullrar eignar og þeirra umboðsmanni löglegum til liðugra viðtekta þeirra vegna, ef þeir eru þá eigi fulltíða menn.

Í svo máta ef svo kann til að bera eður ske fyrir nokkurskonar hindran ómildra (al. óvildar) manna, eður rofun laganna hins annars ómjúkt miskunarleysi þeirra kann oss upp á að falla, að þeir megi eigi með náðum njótandi verða míns hjúskaparbands, eptir míns herra páfans boði, sem hans náð og réttvísheit hefur útgefið upp á mitt hjónaband með þeim fleirum nytsemdarnáðarbréfum þar um gerð finnast kunna, að þeir megi þar fyrir eins mínir arfar vera, þá skulu þessar greindar gjafir mínar með fleirum gjöfum og gerningum mínum, sem hér eptir standa, snúast uppi í mína testamentisgjöf, sálargjöf, tíundargjöf og allar þær löggjafir, sem Kristinn rétt-

ur ákveður að framast megi gefast og gerast eptir lögmáli. Í svo máta eg lýsi tíund mína XL hundruð hundraða, utan meira finnist með því fé goldið, sem eg á í Austfjörðum undir öðrum mönnum og gef eg sonum mínum hér úr XX hundruð hundraða, ef þeir verða eigi mínir arfar. Hér til gef eg kirkjuprestinum, fátækum og félausum búföstum mönnum, og þeim, er börn sín bera á vonarvöl LXXX hundruð með þeim XX hundruðum, sem greinir um þá kirkju, er eg hvíli að. Hér til gef eg VI hundruð hundraða launsonum mínum og dætrum og veizlu (al. venzla)mönnum, með slíkri miðlun og sundurskipti, sem þá skýtur guð mér í hug og eg vil gert hafa.

Og til sanninda hér um set eg mitt innsigli fyrir þetta mitt testamentisbréf, er gert var að Skarði á Skarðsströnd á Antoníusarmessu um veturinn MCDLXXXV.[1])

Af þessu testamentisbréfi er augljóst:

1. Að þau testamenteruðu XVII hundruð hundraða í jörðum og hartnær VIII hundruð hundraða í lausu fé hafi að nokkru leyti verið af eignum bræðra Solveigar, og hún lifað þá og tekið til sín þeirra góz.

2. Þá hefur verið farið að ösla í arfaþrætum, en einkum, að börn Solveigar væru ei arfgeng, sem ráða má af testamentisbréfinu.

3. Furða er, að í þessu testamenti er eigi nefnd Guðrún dóttir Páls Jónssonar, sem átti Vigfús Erlendsson lögmann; hefur hún þá verið óborin og fæðst litlu þar eptir, hafi hún verið dóttir Solveigar. Líkast er, að Guðrún hafi verið dóttir Páls en ekki Solveigar[2]) og hafi verið fædd áður en Páll og Solveig giptust, af Guðnýju fyrri konu Páls.

---

1) Þ. e. 1485, en þetta ártal er rangt, og á að vera 1495 (17. jan.), því að svo stendur í hinni beztu afskript (transskript á skinni), sem til er af bréfinu og fylgt er í Fbr.s. Frumrit er ekki til af bréfinu. Solveig hefur andazt nokkru eptir, að hún gerði testamentið, snemma árs 1495, því að 28. marz það ár frétti Björn Guðnason lát hennar vestur í Vatnsfjörð.

2) Þetta mun rétt athugað hjá Boga. En hjónabandsbarn Guðnýjar og Páls, eins og Bogi hyggur, getur Guðrún naumast verið, því að þá hefði hún giptzt 14—15 vetra gömul. En það má telja vafalaust, að Guðný hafi verið síðari kona Páls, en ekki fyrri kona hans (sbr. aths. bls. 560), og gæti því Guðrún verið naumast fædd

En testamentisbréfið hefur verið gert um veturinn 1485 og Guðrún fæðst litlu þar eptir[1]). Hún giptist 1511 eða 1512. Páll son þeirra [Vigfúsar lögmanns] borinn 1513 og önnur hans systkin þar eptir.

Guðrún varð ei langlíf og Vigfús giptist aptur Salgerði Snjólfsdóttur. 1521[2]) sigldi Vigfús og lánaði peninga hjá Ögmundi biskupi, er þá vígðist. En 1523 er Vigfús dáinn, því þá fram fór dómur Ögmundar biskups um sektir á fé Vigfúsar fyrir skyldleika hans og Salgerðar. En Páll var 10 vetra, er faðir hans deyði (sjá um Vigfús í Rangárþingi).

1497 er Solveig dáin[3]), því það ár lét Stefán biskup dóm ganga með leikum og lærðum hverjum og hvílíkar gjafir Solveig hefði mátt gefa, og var þá að nokkru leyti ónýtt hennar testamenti.

1511 gerði Stefán biskup skipta- eða skikkunarbréf, hvað launborn Solveigar Björnsdóttur skyldu eignast, hvar í hann skipti Brigetu Jónsdóttur Arnardalina báða, Breiðaból og Bakka, alla fyrir LX hundr. En Kristínu Jónsdóttur: Kirkjuból, Kropstaði, Efstaból, þó hún þess eigi nyti, því Briget hélt því fyrir Kristínu.

1542, þá Þorleifur Pálsson var orðinn lögmaður, gekk dómur á alþingi um nokkrar jarðir á Vestfjörðum, er Þorleifur kallaði eptir, og margar og miklar þrætur, heimreiðir og málssóknir urðu um þetta fé (sjá við Björn Guðnason og Björn Þorleifsson).

---

fyr en 1497. Líklega hefur hún verið laundóttir Páls, áður en hann kvæntist, eða ef til vill hórdóttir hans fram hjá Solveigu. Hefði hún verið dóttir Solveigar hefðu þau hjónin Vigfús Erlendsson og Guðrún verið þremenningar að frændsemi frá Lopti ríka, annarsvegar: Þorvarður — Guðríður — Vigfús, hinsvegar: Ólöf — Solveig — Guðrún, og það hefði ekki leyfzt á þeim tímum.

1) Þessi getgáta er á engu byggð nema röngu ártali bréfsins, enda í mótsögn við það, sem Bogi hefur sagt rétt á undan, að Guðrún muni fædd, áður en Páll og Solveig giptust.

2) Það var 1520, er Vigfús sigldi með Ögmundi biskupi, og kemur hann síðast við bréf í Harvík á Englandi 13. ágúst 1520 (Safn til s. Ísl. II. 109).

3) Hún hefur dáið 1495 (sbr. hér á undan).

## Björn Guðnason.

*Faðir:* Guðni sýslum. Jónsson (sjá hér að framan).

*Móðir:* Þóra laundóttir Björns ríka Þorleifssonar.

*Kona:* Ragnhildur dóttir Bjarna Múlasýslumanns Marteinssonar á Ketilsstöðum. 1507 gerðu þau Björn Guðnason og Ragnhildur helmingafélag með sér; þau giptust um 1487.

*Börn:* A. Guðrún eldri fædd 1489, gipt fyrst 1507 Bjarna Andréssyni (bróður Guðmundar og Ara Andréssonar) í Bæ á Rauðasandi, þ. b.:

a. Solveig gerðist fyrst fylgikona séra Filippusar sonar Jóns Íslendings á móti vilja móður sinnar og átti með honum börn. Sótti séra Filippus hana á skip undir Núp í Dýrafirði 1528 og flutti að Látrum. Ei vildi Guðrún síðar sjá hana þó í sátt tæki. Komst Solveig síðar til Katrínar hálfsystur sinnar og Gissurar biskups í Skálholti og giptist þaðan Ólafi syni Narfa Þorvaldssonar á Eyri[1]), þeirra börn:

aa. Hannes í Hvammi í Kjós[2]) átti Sesselju Ólafsdóttur, þeirra börn:

aaa. Ólafur[3]).

bbb. Jón[4]).

---

1) Ólafur maður Solveigar bjó í Hvammi í Kjós og andaðist 1554. Hann var son Narfa Ívarssonar ábóta á Helgafelli, en ekki Narfa Þorvaldssonar. Ívar hét og einn son Ólafs og Solveigar.

2) Hannes dó 1609. Áður en hann kvæntist Sesselju átti hann barn með Ingu dóttur séra Jóns Þorleifssonar í Vatnsfirði, þá er hann var sveinn hans, en Eggert lögmaður Hannesson, móðurbróðir Hannesar, jafnaði það.

3) Ólafur Hannesson var fyrsti maður Valgerðar dóttur séra Ólafs Einarssonar á Helgafelli, voru saman tæpt ár, þeirra einbirni:
a. Ólafur varð úti fulltíða milli Narfeyrar og Dunks, bl.

4) Jón Hannesson var snikkari og bjó í Hvammi, átti Guðnýju Jónsdóttur frá Kollabæ, þ. b.:
a. Ólafur í Hvammi átti Valgerði Ólafsdóttur og Oddnýjar Narfa-

ccc. Guðrún[1]).
ddd. Guðrún önnur.

dóttur, systur Guðmundar Narfasonar á Hálsi í Kjós og Eyjólfs á Þorláksstöðum, föður séra Odds í Holti, þ. b.:

aa. Ólafur eldri í Hvammi, kvæntist ekki. Laundóttir hans Guðrún átti Guðlaug Halldórsson í Mýdal í Kjós.

bb. Ólafur yngri á Eyri í Kjós, tvíkvæntur. Síðari kona hans Ragnheiður Þórðardóttir, Ormssonar í Eyjum, þ. b. mörg, þar á meðal:

aaa. Ísleifur í Litla-Botni faðir Jóns í Stóra-Botni föður Odds á Reykjum í Lundareykjadal, Úlfdísar kona Finns sýslumanns Jónssonar, og þeirra fleiri systkina.

cc. Eyjólfur kvæntist ekki, var lausamaður á Akranesi 1705.

dd. Guðmundur á Þyrli átti Kristínu Guðmundsdóttur, þ. b.:

aaa. Guðlaug átti fyr Davíð Erlendsson prests að Tjörn á Vatnsnesi Illhugasonar, þeirra börn:

= Guðmundur í Hlíðarhúsum († 1784), tvíkvæntur. Son hans með f. k. Björgu Jónsdóttur var Davíð í Hlíðarhúsum, varð gamall og blindur. Hans börn: a) Jón í Hlíðarhúsum móðurfaðir Jóns Ólafssonar, er þar bjó lengi, b) Guðrún kona Tómasar Bech söðlasmiðs og móðir frú Ástu Duus og c) Björg kona Helga Ólafssonar Bergmanns. Synir Guðmundar Davíðssonar með s. k. Guðfinnu Bjarnadóttur voru Arnkell og Guðlaugur, drukknuðu af tveggja mannafari 16. okt. 1788, báðir ókv. og bl. Systir þeirra Málmfríður var f. k. Ólafs Péturssonar smiðs á Kalastöðum.

= Málfríður († 1767) var miðkona Eyvindar Einarssonar á Skeggjastöðum í Mosfellssveit, giptist 1765, bl.

= Vigdís átti 1757 Þórð Sveinbjörnsson í Akrakoti á Álptanesi, þ. b.:

---

1) Guðrún átti Guðmund Vigfússon á Mófellsstöðum, bróður Orms í Eyjum, þ. b.:

a. Jórunn (hin nafnkennda Höfðabrekku-Jóka) átti Vigfús Magnússon á Höfðabrekku, þ. b.: Ragnhildur, Ólöf, Guðmundur, Þorbjörg, Dómhildur, Guðrún, Gróa, Magnús, og eru ættir frá þeim sumum. Það var Ólöf dóttir Jóku, er átti barn með Guðmundi Þorvaldssyni 1636, sem Jóka reiddist mest af, svo að hún hétzt við manninn, gekk aptur og drap hann 19 árum síðar, að því er þjóðsögur segja. Hafði Jórunn verið svarkur mikill.

bb. Þórey átti Arngrím bónda, þ. s.:
aaa. Björn.

---

a) Sveinbjörn lögréttumaður á Hvítárvöllum faðir Þórðar háyfirdómara.

b) Narfi á Kjaransstöðum á Akranesi átti Höllu Guðmundsdóttur, þ. d. Guðfinna átti Björn Sigurðsson, þeirra börn: Sigurður á Reynimel í Rvík, enn á lífi (1904) og Guðfinna s. k. Jóns Sigurðssonar í Mýrarhúsum og móðir Jóns sagnfræðings.

c) Guðlaug átti Gunnlaug Einarsson í Vogatungu, þ. b. Bergþór í Árdal og mörg fleiri.

Síðari maður Guðlaugar Guðmundsdóttur móður Guðmundar Davíðssonar í Hlíðarhúsum var Snorri Jónsson bóndi á Ketilvöllum í Laugardal, og var hún s. k. hans. Búa þau á Ketilvöllum 1729.

bbb. Jón Guðmundsson bjó á Þyrli.
ccc. Oddný átti 1699 Ólaf Jónsson frá Hvítanesi Ámundasonar prests Ormssonar bróður Hjálms, er átti Málhildi Ólafsdóttur föðursystur hennar.
ee. Guðný átti Gissur Guðmundsson lögréttumann á Valdastöðum, þeirra synir:
= Séra Ólafur á Þingeyrum dó 1734, ókv., bl.
= Sæmundur lögréttumaður á Ölfusvatni í Grafningi, átti Sigríði Brynjólfsdóttur Jónssonar á Reykjum Ásmundssonar af Klofaætt og mörg börn, sem fjöldi manna er frá kominn í Árnesþingi og víðar, og yrði hér oflangt að geta hins helzta.
ff. Sesselja átti Einar á Hvítanesi Þorvarðsson Erlendssonar Þorvarðssonar Þórólfssonar Eyjólfssonar á Hjalla, þeirra synir:
aaa. Þórður á Kiðafelli og
bbb. Þorvarður lögréttum. í Brautarholti († 1769) faðir séra Snæbjarnar á Lundi og séra Odds á Reynivöllum og eru frá þeim bræðrum miklar ættir.
gg. Málhildur († 1742 82 ára) átti fyr Hjálm á Valdastöðum Jónsson frá Hvítanesi Ámundasonar, en síðar Ísleif Þórðarson Ormssonar.
hh. Narfi á Þyrli. Hans synir Hákon, Jón og Eyjólfur.
b. Guðný Jónsdóttir (Hannessonar) var s. k. Sigurðar Núpssonar á Esjubergi og Hvammi í Kjós, bróðursonar Högna Sigurðssonar á Gufunesi, er dó 18. okt. 1671 87 ára, þ. b.:

cc. Kristín átti Jón Erlingsson Gíslasonar (sjá Barðastrandarsýslu) [1]), þ. b.:
aaa. Séra Ólafur á Söndum.
bbb. Jón í Miðskógi.
dd. Guðleif átti Eyjólf bónda [2]), þ. s.:
aaa. Ívar á Neðrabæ [3]).

---

aa. Þorleifur lögréttumaður á Esjubergi. Hans börn: a) Jón lögréttumaður s. st., b) Guðný átti Þorvald í Heiðarbæ († 1770) Eiríksson frá Kringlu Loptssonar Eiríkssonar, þ. b.:
aaa) Loptur í Heiðarbæ († á Elliðavatni 1806) átti Margréti Hákonardóttur, þeirra börn meðal annara Pétur í Heiðarbæ, Hallvarður smiður, Jódís og Þorkell, er síðast var á Litlureykjum í Flóa († 1828) faðir Ögmundar í Oddgeirshólum, Lopts á Kleppi, Sigurðar í Selkoti og þeirra systkina.
bbb) Pétur.
ccc) Ástríður († 1815) átti Pál á Jörfa á Kjalarnesi Filippusson smiðs Húnasonar og börn.
bb. Þórunn dó 1749 96 ára gömul, átti fyr séra Snæbjörn Einarsson á Reynivöllum, þ. b. dóu öll í stórubólu, en síðar séra Jón Halldórsson á Þingvöllum og var s. k. hans, þau bl.
cc. Hildur f. k. Jóns Magnússonar í Marteinstungu.
dd. Snjálaug tvígipt.
ee. Þórunn önnur.

*Aths.:* Ólafur Snókdalín telur sum þessara barna Sigurðar Núpssonar börn f. k. hans Ólafar Erlendsdóttur frá Suður-Reykjum Þorvarðssonar, en það mun miður rétt. Annars er ætt þessi allmjög rugluð hjá honum og telur hann t. d. Högna á Gufunesi son Sigurðar og Guðnýjar, (er hann nefnir Guðrúnu), en hann var föðurbróðir hans. Að Sigurðarnir Núpssynir hafi verið tveir, eins og Ó. Sn. segir, annar í Hvammi og hinn á Esjubergi mun og rangt. Það mun vera einn og sami maður, mun hafa búið fyrst á Esjubergi eptir Núp Sigurðsson föður sinn, en svo í Hvammi, eptir að hann kvæntist Gnðnýju. Þau giptust 1648.

c. Gunnhildur var tvígipt.

1) Bls. 21—22, og eru þar talin börn Jóns og Kristínar.

2) Eyjólfur maður Guðleifar var son Magnúsar prests í Selárdal Eyjólfssonar mókolls Gíslasonar (Safn I. 126).

3) Ívar drukknaði 1604, sagði fyrir dauða sinn, bannaði konu sinni að giptast aptur, en hún brá af því, og gekk þá Ívar aptur (sbr. Bisks. II. 299 og Huld VI. 42—46, þar sem er rækileg frá-

ee. Sigurður.
ff. Helga.
gg. Valgerður.
hh. Anna.
ii. Árni.
kk. Soffía.
ll. Ingibjörg[1]).

Síðan giptist Guðrún Hannesi hirðstjóra Eggertssyni og sigldi með honum. En þá Hannes deyði utanlands um 1532 kom Guðrún inn aptur og sat að eignum sínum helzt á Núpi í Dýrafirði. Hún dó 1563, 74 ára gömul, börn þeirra:

a. Eggert lögmaður (sjá um hann við Gullbringusýslu).
b. Björn Hannesson[2]) átti Þórunni dóttur Daða sýslumanns Guðmundssonar í Snóksdal, þ. b.:
aa. Hannes í Snóksdal átti Guðrúnu Ólafsdóttur[3]), þ. b.:
aaa. Eggert.
bbb. Steinunn.
ccc. Þórunn.
ddd. Ragnheiður.
eee. Ólafur.
bb. Hallbjörg átti Þorleif í Múla á Skálmarnesi, þ. b.:
aaa. Einar eldri, sem átti Guðrúnu Þorláksdóttur, þ. s.:
aaaa. Þórólfur.

---

sögn og allhroðaleg um þessa apturgöngu. Slíku var þá almennt trúað. Frá Ívari eru ættir komnar vestra. Jón sonur hans bjó í Neðrabæ og drukknaði 1677, en Guðrún dóttir hans átti Jón Styrsson, þeirra son séra Jóhann í Otrardal.

1) Þessara 7 barna Ólafs og Solveigar er óvíða getið, og ekki eru ættir frá þeim. Munu þau því dáið hafa ung. En sonur Ólafs og Solveigar er enn talinn

mm. Jón. Hans son Þormóður, hans dóttir Guðríður kona séra Ámunda Ormssonar á Kálfatjörn.

2) Sjá um Björn Hannesson og afkomendur hans hér að framan bls. 22—24.

3) Sjá um afkomendur Hannesar og Guðrúnar bls. 317—320 hér að framan.

bbb. Einar yngri í Skáleyjum átti Ragnhildi í Skáleyjum og börn.
ccc. Björn átti Helgu Guðmundsdóttur og mörg börn.
ddd. Jón á Kirkjubóli í Bæjarnesi átti Helgu og börn.
eee. Þórunn átti séra Árna í Tröllatungu og börn.
fff. Sigríður átti Eirík Finnsson barnlaus.
ggg. Kristín átti Pétur Árnason og börn.
hhh. Guðrún átti Pál Jónsson frá Borg og börn.
cc. Anna Björnsdóttir (dó 1642, 90 ára) átti fyr Árna á Sauðafelli son séra Björns á Melstað, þ. b.:
aaa. Daði þénari Odds biskups, drukknaði í Hvítá.
bbb. Kristín átti Þorleif Bjarnason og börn.
ccc. Þóra átti Sigurð Þorbergsson og börn.
ddd. Guðrún átti Árna Skúlason og börn.
eee. Þuríður átti Einar Ormsson í Hvestu[1]) og börn.
fff. Ingiríður átti fyr Narfa svo Ingvar og börn.
ggg. Steinunn átti Jón á Þverá.
Seinni maður Önnu var séra Jón Fúsason[2]), þ. s.:
aaa. Vigfús átti Ragnheiði Gottskálksdóttur.
c. Guðrún Hannesdóttir átti Þorlák undir Núpi sýslumann Einarssonar (sjá Ísafjarðarsýslu).
d. Katrín Hannesdóttir átti Gissur biskup Einarsson, bl.
e. Margrét fyrri kona séra Halldórs í Selárdal Einarssonar (bróður Gissurar biskups), þ. b.:
aa. Séra Bjarni í Selárdal átti Helgu Einarsdóttur, börn[3]):

---

1) Sbr. bls. 22.

2) Séra Jón var bróðir Orms í Eyjum. Hann var prestur í Miðdalaþingum, kvæntist Önnu 20. ágúst 1610, varð snögglega svo óskýr í máli, að hann varð að hætta prestskap og var kennt töframanni, er hafði heitast við hann. Þau Anna skildu svo. Er séra Jón á lífi 1630, en dáinn er hann 1638. Anna dó í Galtarholti 1642 níræð. Var af sumum kölluð Kjöt-Anna af kjötáti, lét á vetrum lóga þeim sauð optast, sem undan fór af fénu, og hélt að mest frálag væri í honum. Svo segir séra Jón Halldórsson í ættatölum sínum.

3) Sjá um afkomendur séra Bjarna í Selárdal og Helgu Bisks. II. 609—612. S. k. börn séra Halldórs eru talin hér að framan bls. 182—183, en þar er Halldóra ranglega talin barn síðari konu

aaa. Egill átti Jórunni Ólafsdóttur og börn.
bbb. Séra Halldór í Selárdal átti laundóttur.
ccc. Þorlákur átti Guðleifu Sigurðardóttur og börn.
ddd. Anna Bjarnadóttir fyrri kona Páls Skúlasonar.
eee. Dís Bjarnadóttir átti fyr séra Guðmund Skúlason, síðar séra Sigurð Snorrason og börn.
fff. Margrét Bjarnad. átti fyr séra Torfa Bjarnason, síðar séra Sigurð Gíslason, bl.
ggg. Sigríður Bjarnadóttir átti Jón Ívarsson í Neðrabæ[1]) og börn.

Guðrún Björnsdóttir erfði mikið jarðagóz eptir föður sinn og ektamann. Hún hafði og mikil jarðakaup. Það var meðal annars, að hún keypti af Ögmundi biskupi Anno 1534: Lokinhamra, Dalsdal, Sléttanes og Selvoga, hálfa Alviðru og 15 hundr. í Geirseyri. En fékk biskupi þar fyrir: Neðri-Rauðsdal, Arnoddsstaði á Barðaströnd, 23 hundr. í Sveinseyri, Finnbogastaði, Bæ, Ingólfsfjörð, Eyri og Reykjavík á Ströndum. Var ágreiningur um margar af þessum jörðum, og því seldi Guðrún þær biskupi.

Hannes hirðstjóri klagaði upp á jarðir Björns ríka, sagði að Björn Þorleifsson hefði gefið Ögmundi biskupi Stað í Aðalvík sér til málafylgis. En biskup sannaði með konungsbréfi dat. 1529, að hann keypti Aðalvík af H. Kroko, því hefur Hannes lifað fram yfir 1530.

B. Ólöf Björnsdóttir Guðnasonar átti Vigfús (al. Sigfús), hans faðir var Sigurður Brúmann, það fólk átti og bjó á Eyri í Seyðisfirði vel efnað. Vigfús bjó á Hrauni, þ. b.:
a. Torfi á Hrauni og Hvammi í Dýrafirði átti fyr Valgerði Jónsdóttur, börn:
aa. Ragnhildur (dó 1607) átti Daða Jónsson[2]).
bb. Þorvaldur átti Valgerði Þormóðsdóttur og börn.
cc. Guðrún átti Bjarna Bjarnason og börn.

---

hans, því að hún var dóttir fyrri konunnar og alsystir séra Bjarna (sbr. Bisks. II. 612).

1) Hann var son Ívars Eyjólfssonar Magnússonar (sbr. aths. á bls. 572—73).

2) Þ. e. Daði Jónsson silfursmiður (sbr. bls. 331) og var Ragnhildur f. k. hans, þeirra son var séra Halldór prófastur í Hruna.

dd. Ólöf átti Svein Bjarnason.
ee. Vigfús átti Jófríði Ormsdóttur og börn.
Seinni kona Torfa var Vigdís Halldórsdóttir ekkja Þorvaldar Björnssonar frá Æsustöðum nyrðra, þeirra börn voru:
ff. Agnes átti Þorlák (al. Þórð) Jónsson og börn.
gg. Margrét átti Örnólf Ólafsson.
hh. Guðrún yngri átti Sigmund Gunnarsson og börn.
ii. Valgerður átti séra Erlend Snæbjörnsson[1]) og börn.
b. Arndís Vigfúsdóttir átti Guðmund Helgason (sjá ætt Guðmundar við Strandasýslu)[2]), börn:
aa. Ragnhildur átti Gísla sýslumann Árnason og börn.
bb. Ingveldur átti Jón yngra Dan Magnússon og börn.
c. Jórunn Vigfúsdóttir átti Jón Vigfússon í Súðavík, börn:
aa. Bárður átti Helgu Bjarnadóttur og börn[3]).

---

1) Séra Erlendur var prestur á Stað í Súgandafirði. Snæbjörn faðir hans var Gíslason Snæbjörnssonar Gíslasonar í Haga Filippussonar Sigurðssonar. Meðal barna séra Erlendar og Valgerðar var:
a. Snæbjörn átti Guðrúnu Sturludóttur, þ. b.:
aa. Eyjólfur átti Ólöfu Þórðardóttur, þ. b.:
aaa. Erlendur, sem brenndur var fyrir galdur 1669.
bbb. Snæbjörn á Rauðasandi. Börn hans Jón, Aron og Ingveldur (Bisks. II. 301).

2) Bls. 291, sbr. bls. 298.

3) Son Bárðar og Helgu:
a. Magnús í Ögri átti fyr Björgu Björnsd., þ. b.:
aa. Guðmundur, bl.
bb. Jón átti Margréti Gísladóttur, bl.
cc. Andrés hvalveiðari átti Aldísi Eiríksdóttur Gíslasonar prests að Stað á Reykjanesi Einarssonar systur Þorbjargar konu séra Vernharðar Erlendssonar, þ. b.:
aaa. Gísli í Aðalvík átti Ragnheiði Guðmundsdóttur prests í Skarðsþingum Einarssonar, þeirra son:

bb. Vigfús Jónsson átti Agnesi og börn[1]).
cc. Katrín Jónsdóttir átti Guðmund Arnþórsson og börn.
dd. Kristín átti Hannes og börn.
ee. Guðrún Jónsdóttir átti Jón Jónsson[2]) og börn.
ff. Guðrún Jónsdóttir átti Andrés Jónsson og börn[3]).

---

= Andrés prestur í Otrardal († 1739) faðir séra Gísla í Hrepphólum († 1773) föður séra Andrésar aðstoðarprests í Flatey, er andaðist í Haga á Barðaströnd 18. marz 1799.

dd. Snjólfur átti Vigdísi Ólafsdóttur og börn.
ee. Kristín átti séra Einar Jónsson á Hofi á Skagaströnd, þ. b.:
a. Magnús á Jörva í Haukadal, fræðimaður, átti Helgu dóttur Jóns Hákonarsonar á Vatnshorni, bl.
b. Björg átti séra Ólaf Eiríksson (Meh) í Tröllatungu, þ. s.:
aa. Jón prestur á Stað á Reykjanesi faðir Ara bónda á Reykhólum (sbr. bls. 123).
Þessi ættkvísl öll frá Magnúsi Bárðarsyni í Ögri er mjög fjölmenn vestra.

1) Börn Vigfúsar og Agnesar:
a. Vigfús átti Guðrúnu Bjarnadóttur, þ. b.: Bjarni, Þórður, Agnes.
b. Ólöf f. k. Sveins Andréssonar, þeirra son:
aa. Egill á Kvíanesi í Súgandafirði, hans son:
aaa. Jón á Kvíanesi, hans son:
= Páll á Kvíanesi átti Þuríði Bjarnadóttur, þ. b.:
== Páll átti Herdísi Ólafsdóttur og 4 dætur.
== Halldór á Seljalandi í Skutulsfirði. Hans son Páll hreppstjóri í Arnardal († 1827) faðir Guðmundar bónda samastaðar og Maríu móður Ásgeirs Ásgeirssonar eldra kaupmanns á Ísafirði.

2) Son Jóns og Guðrúnar eldri:
a. Torfi á Gerðhömrum, tvíkvæntur. Son hans með s. k.:
aa. Jón prestur á Stað í Súgandafirði föðurfaðir Jóns Ólafssonar Grunnvíkings.

3) Dætur Andrésar og Guðrúnar yngri:
a. Guðrún.
b. Ólöf átti Jón Össurarson í Meðaldal, þ. b.:

d. Herdís Vigfúsdóttir var enn[1]).

C. Sigríður Björnsdóttir Guðnasonar átti Bjarna son Narfa ábóta á Helgafelli Ívarssonar, börn:

a. Þorleifur atti Kristínu frá Mýrum í Dýrafirði, börn:

aa. Bjarni átti Ólöfu Ólafsdóttur og börn.

bb. Guðrún miðkona séra Böðvars Jónssonar í Reykholti, áttu börn.

b. Björn í Vestridal (bróðir Þorleifs) Bjarnason átti Hólmfríði dóttur Snæbjarnar Halldórssonar, barn:

aa. Páll smiður átti Steinunni Bjarnad. og 4 börn.

D. Guðrún yngri runka Björnsdóttir Guðnasonar átti Andrés son Ara í Bæ á Rauðasandi (sjá Barðastrandasýslu)[2]).

E. Torfi deyði fulltíða í hingaðsiglingu 1527, fæddur 1509.

F. Þóra Björnsdóttir Guðnasonar átti Jón sýslumann Ólafsson í Hjarðardal (sjá Ísafjarðarsýslu)[3]).

---

aa. Jón í Meðaldal átti Halldóru Brandsdóttur.

bb. Guðrún átti Jón Kálfarsson, þeirra son:

aaa. Jón í Höfn í Dýrafirði. Hans börn:

= Ívar faðir Herdísar, er átti Andrés Eggertsson, þ. b.: Eggert á Arnarnúpi.

= Kálfar á Eyri í Mjóafirði. Hans son Einar í Botni í Mjóafirði. Hans son Helgi á Laugabóli, er 1817 átti Steinunni Jónsdóttur sýslumanns Arnórssonar (sbr. bls. 241).

bbb. Tyrfingur. Hans son Bjarni faðir Tyrfings föður Elizabetar móður Tyrfings Péturssonar á Seljalandi.

ccc. Helga átti Bjarna Jónsson, þ. b.:

= Guðrún átti fyr Þorvald Sumarliðason, þeirra son Sumarliði á Sveinseyri, síðar Pétur Jónsson frá Höfn.

ddd. Margrét átti Jón Björnsson í Hvammi í Dýrafirði og börn.

cc. Ingibjörg. dd. Kristín. ee. Guðrún önnur, giptust allar.

1) Hún var laungetin.

2) Bls. 16—17 hér að framan.

3) Bls. 178.

G. Jón nefnist og son Björns Guðnasonar. Hann átti börn.

Björn Guðnason er borinn á Hóli í Bolungarvík, síðan var hann á Eyri og seinast í Ögri eptir gátu hans:

„Rann eg frá raupi, rataði síðan á tólf fiska,
þar eptir fékk eg þungan móð".

Lízt mér hann borinn fyrir 1470, því 1492 er hann orðinn sýslumaður og 1507 giptist Guðrún dóttir hans (hún var þá 18 vetra), því hefur hann verið giptur fyrir 1490. Um hans ungdómsár veit eg ekkert að skrifa. Er eigi ólíklegt, að Björn hafi hafst við um hríð í Múlasýslu, því þaðan fékk hann sér konu.

Fyrst finn eg getið valda Björns í Dalasýslu 1492[1]), þó mun það ei hafa verið lengi og óljóst, hvort hann hafði veitingu eða var þar annars umboðsmaður. Um 1500 var hann dómsmaður föður síns á Mýrum í Ísafjarðarsýslu, og þar eptir fékk hann sér veitta þá sýslu 1502.

Eptir lát föður síns gerðist Björn mesti höfðingi á Vestfjörðum að harðfengi og yfirgangi og auðæfum. En áður en Guðni deyði andaðist Þorleifur, er hirðstjóri hafði verið og bjó á Reykhólum. Hann hafði átt Ingveldi Helgadóttur fjórmenning sinn og þóttu meinbugir á þeirra ráðahag. Hafði því Þorleifur fengið páfa-, konungs- og erkibiskupsbréf, að þeirra hjónaband skyldi löggilt vera, þá Magnús biskup fullgilti það, hvað biskup gerði með proession og gerði börn þeirra arfgeng, en tiltók eigi bæði borin og óborin. Er mælt, að Þorleifur hafi því tvisvar fastnað Ingveldi. Þá Þorleifur dó tók Björn og systkin hans Þorleifs börn, að sér allan arf eptir Þorleif föður sinn. Sátu þá aðrir ættingjar og tengdamenn Þorleifs litla hríð um kyrrt, til þess að Björn Guðnason í Ögri reið með flokk manna heim í Vatnsfjörð og Stað í Aðalvík og tók til sín báða þessa garða með kúgildum og öðru lausafé dómlaust. Björn á Reykhólum Þorleifsson hafði áður lagt undir dóm Finnboga lögmanns 1499, hver réttur erfingi

---

1) Í bréfi gerðu í Hvammi 30. jan. 1492 um orðbragð Þorkels Jónssonar við Arnór Finnsson o. fl., er Björn nefndur konungs umboðsmaður milli Gilsfjarðar og Gljúfurár (þ. e. í Dalasýslu) Ísl. Fornbrs. VII. 92—97 bls.

væri að fé Þorleifs hirðstjóra, og því er Solveig hafði undir sig tekið. En lögmaður dæmdi málið undir konung, sem ályktaði Birni Þorleifssyni og hans systrum arfinn. Eptir téðu konungsbréfi dæmdi Finnbogi lögmaður þeim arfinn, en því undu aðrir tengdamenn Björns Þorleifssonar illa, og gerðu nokkurskonar samtök móti honum, að ná fénu, og varð Björn Guðnason flokksforingi. Hann veitti og heimreið að Reykhólum. Björn Þorleifsson frambar fyrir Stefáni biskupi bréf páfans legáta og beiddi hann að gera sér á slíkum yfirgangi lög og rétt. Útnefndi því biskup 12 prestadóm í Skálholti, sem dæmdu að biskupi tilheyrði, að enda með sínum úrskurði þá þrætu, hvað löglega Björn Þorleifsson væri til arfs kominn. Um sumarið ákvarðaði biskup á alþingi með úrskurði sínum dóm Finnboga lögmanns með 12 lögréttumönnum réttan og fullgildan í alla staði, að Björn Þorleifsson og hans systir ættu allan arf eptir foreldra sína og föðursystur sína Solveigu. Dæmdu þeir þá feðga Guðna og Björn skylduga aptur að láta allar þær eignir, er þeir héldu af þeim peningum. Einnig dæmdi biskup Stefán með sínum dómsprestum hjónaband Páls Jónssonar og Solveigar Bjarnardóttur ólöglegt verið hafa og þeirra börn ei arfgeng, þar sem Magnús Skálholtsbiskup hefði ekki eptir páfans forlagi dispenserað um þeirra hjúskap. Björn Guðnason skeytti þessu lítið, og hafði hann útvegað sér konungsbréf, að mega taka arf eptir foreldra sína etc.

Jón lögmaður Sigmundarson, (er var í málum við Gottskálk biskup og hélst eigi við fyrir norðan) lét Björn dæma sektir þeim mönnum, er héldu með ofbeldi jörðum og annara jarðagózi etc. (sjá um Jón í Húnavatnsþingi).

Biskup neytti sér þessar deilur og lét dæma Vatnsfjörð til Beneficíum, sem yfir 200 ár hafði verið haldið sem bóndaeign. Keypti og Stað í Aðalvík og fleiri þrætujarðir. Björn Guðnason gaf sig þar um lítið; en gerði að engu síður sókn á Vatnsfjörð, (hvar biskup Stefán hafði þá sett séra Jón Eiríksson fyrir officialem yfir Vestfjörðu) og háði þar fjárupptektir, af því óx fullkominn fjandskapur með Birni og biskupi, og af því hörðnuðu viðskipti þeirra. Kom þá Björn í Skálholt margmennur, en biskup hafði fleiri menn fyrir. Sá þá Björn sér eigi annan kost, en láta liggja í því skauti, er biskup vildi,

lofaði að borga Vatnsfjarðar- og Aðalvíkurkirkju aptur alla þá peninga, sem þær hefðu misst fyrir sér eða sínum mönnum, og þær kirkjur skyldu framvegis fyrir sér eða sínum mönnum mega halda öllu sínu. En hann skyldi vera biskupi til gagns og öllum hans klerkum, og þar með gera iðran og yfirbót, eptir sem biskup til segði; og hér upp á skyldi hann hafa svarið.

Í þessum sáttmála er og getið Guðna Jónssonar, sem meðverkandi syni sínum og máske hvatamaður. Hann deyði þetta ár 1508. Það sýnist sem Jón Dan hafi verið í ferð með Birni Guðnasyni, og hafi heitið 1508 að gefa Hrafnseyri til Beneficíum sér til sálubótar, fyrir fylgi við Björn Guðnason, og ei er þar eptir getið fylgis hans við Björn, enda dó hann skömmu þar eptir, því 1508 er getið þess gernings, að húsfrú Kristín Sumarliðadóttir og Björn Guðnason lögðu fé Jóns Dans Björnssonar til helminga með sér; og litlu þar eptir gerðust Gríms Jónssonar samningar. (Að sönnu er skrifað, að Jón hafi lifað 6 vetur eptir gjöfina, en það hygg eg misskript, og Kristín kona hans Sumarliðadóttir 9 vetur).

Nú víkur sögunni til Björns Guðnasonar, hann efldist enn meir við samband Jóns Sigmundssonar, sem inn kom sem lögmaður 1509 eða 1510, þar Finnbogi lögmaður hafði verið mjög affluttur við kong af séra Eiríki Sumarliðasyni (sjá Þingeyjarþing). Hélzt Jón Sigmundsson ekki við í Norðlendingafjórðungi fyrir bannfæringu Gottskálks biskups, varð og lítið af lögsögn hans, og var Finnbogi lögmaður sem fyr. Skaut Jón lögmaður sér þá undir vernd Björns sýslumanns Guðnasonar. En Björn lét á alþingi 1510 framfara 6 manna vitnisburð um skilríki sitt fyrir arfi eptir Guðna föður sinn og Jón Dan. Enginn hafði þar á móti. 1512 fór Jón lögmaður Sigmundsson til Björns Guðnasonar og var í skjóli hans, því hann hafði óþokka beggja biskupa. Björn sýslumaður Þorleifsson kærði hann þá, að hann hefði verið með Birni Guðnasyni og Jóni Dan í heimreiðum á garða sína og fjárupptektum og dæmt marga dóma á móti sér, en Birni Guðnasyni í vil, og hafi þeir þannig styrkt hver annan: Jón með dómum sínum, en Björn hann aptur með ríki sínu og hlífðarskildi. — 1512 dæmdi þó Jón Sigmundsson 22 manna dóm vestra að Núpi í Vatnsdal, um ákæru til Jóns Jónssonar, er Björn Guðnason

stefndi um það, að hann tók Jón Þórðarson í framfæri, er móðirin misfórst, og að hann hefði eigi skatt goldið í 9 ár, er Björn hafði sýslu haft, einnig verið í heimreið til Eyrar í Seyðisfirði með flokk manna með rán og yfirgang. Hann var dæmdur réttækur og útlægur og hálft fé hans undir konung[1]). Sama ár 1512 er mælt, að Ólafur Diðriksson hafi verið hirðstjóri og úrskurðaði dóma Björns Guðnasonar gilda og friðhelgað hann. 1513 nefndi Jón Sigmundsson 12 manna dóm á Leiðarhólmi í Breiðafjarðardölum um ákæru Björns Guðnasonar til Auðkúlu og allra peninga í Húnavatnsþingi, er þar með fylgdu, sem Björn hafði fengið Jóni Sigmundssyni til umboðs og Birni hafði dæmt verið vegna Ólafs Filippussonar, en Ólafur afgreiddi Jóni, hvert umboð þá var úti að næstum fardögum; hafði Ólafur rænt og gripið Kúlu, og þau önnur fé undan Jóns valdi og selt öðrum. Dæmdu þeir Birni féð og gerninga Ólafs ónýta um það, og að hann hefði aldrei mátt giptast að lögum, því Ólafur og Gísli bróðir hans hefðu aldrei leitt lögleg vitni fyrir Ólafi biskupi um kirkjugarðssaurgun í Víðidalstungu, þá eptir 12 manna dómi að Seilu í Skagafirði. Dæmdu þeir Jón og Ólaf útlæga til konungsnáðar, því Ásgeir hafði ákært son Ásgríms, er veginn var, en bróðurson Jóns. Horfðist þá svo á, sem allir gerningar og jarðakaup við Ólaf biskup mundi ónýtast, og Einar son Ólafs missa alls arfsins, er faðir hans var útlægur. En til þess að kaup á Auðkúlu gengi ei aptur, bjargaði Gottskálk biskup máli Ólafs, og fékk af Jóni Einarssyni, er þá hafði Húnavatnssýslu, að dæma Ólafi sjöttareið að Bólstaðarhlíð. Sór Ólafur, að hann hefði ei í það sinn farið með þeim huga til Víðidalstungu, at Ásgrímur Sigmundsson væri lífi sínu at firr eða nokkurrar skömm at nær, og ei réði hann honum banaráð.

---

1) Við þetta gerir Bogi svolátandi athugun: »Þessi var Jón Íslendingur son Jóns skrifara Þorlákssonar og Solveigar dóttur Björns ríka. Þessi Jón var seinna maktarmaður og var í Sauðlauksdal 1533, getur verið að hann hafi um það leyti eða nokkuð fyr haft völd í Barðastrandarsýslu. Ei mun hann hafa orðið útlægur eða misst eignir sínar, þó Jón Sigmundsson dæmdi það«. — Þessi aths. hjá Boga mun tæpast rétt, sbr. hér framar bls. 346.

En Gottskálk biskup gerði það aptur til óþokka við Jón, að hann stefndi honum fyrir sting og áverka á kirkjuhurð og þili í Víðidalstungu, er Jón og hans fylgjarar höfðu í það sinn gert, er hann sótti eptir Smið Jónssyni banamanni Ásgríms bróður síns, þá hann hljóp í kirkju þá fyrir 30 vetrum, og dæmdi Jón sekan fyrir þá kirkjugarðssaurgun. Hann dæmdi og Einar son Jóns í bann fyrir það, að hann gaf föður sínum bannfærðum umboð sitt, þó Einar væri ei með fullri skynsemi, dæmdi hann og í stórsektir.

Frá Birni Guðnasyni er það að segja, að hann tók að gera heimreiðir og fjárupptektir á jörðum Björns Þorleifssonar, bæði Reykhólum, eign hans, er faðir hans hafði gefið honum án arfs og öðrum, einnig í Vatnsfirði hans eignarjörð, og tók þar fé og peninga, er bæði kirkjan og Jón prestur Eiríksson áttu, þrútnaði þá meir og meir óvild milli hans og Stefáns biskups, enda sparði Jón Sigmundsson ekki að gera biskupi til mótþægju það sem hann mátti og í fylgi við Björn. Það sama sumar 1513 fór Björn utan á fund Kristjáns konungs annars, og fékk af honum eptir þeirri undirvísan, er hann gaf konungi, þrjú bréf, er hann hafði út hingað. Eitt var um það, að konungur skipaði honum góz hans, garða og arf eptir foreldri sitt, er honum hefði verið frátekið ranglega, og var þar með Vatnsfjörður. Þá er Björn kom út með bréf sín 1514, lét hann upplesa þau í Vatnsfirði mánudaginn fyrir Ólafsmessu seinni, og Jón lögmaður Sigmundsson nefndi þar þá 12 manna dóm, þar Björn klagaði upp á eignir foreldra sinna, Jóns Dans og Solveigar arf. Úrskurðuðu dómsmenn þeim sektir miklar, er héldu eignunum með ofríki eða keyptu þær vísvitandi. Annað kongsbréf Björns Guðnasonar var til Stefáns biskups og Vigfúsar lögmanns Erlendssonar, að þeir skyldu rannsaka um Stað í Aðalvík, og aðrar fleiri af þeim jörðum með hverri heimild Björn Þorleifsson hefði þær seldar. Útnefndi þá Stefán biskup 12 presta dóm og Vigfús lögmaður 12 lögréttumanna-dóm í Skálholti og stefndu þeim báðum Birni Guðnasyni og Birni Þorleifssyni fyrir sig. Hafði Björn Þorleifsson í utanferðum sínum selt jarðirnar í Noregi Hannesi Krako og Sunnefu frú hans fyrir gull, silfur og aðra peninga. Varð þeirra sameiginlegur dómur, að

jarðirnar hefðu verið eign og eigindómur Björns Þorleifssonar og hann hefði haft lagaheimild að selja.

Hið þriðja bréf var til Jóns lögmanns Sigmundssonar, að hann skyldi dæma lög og rétt milli Björns Guðnasonar og Björns Þorleifssonar. Stefndi Jón lögmaður þeim báðum fyrir sinn dóm að Hvammi í Hvammssveit, kom ekki Björn Þorleifsson, því hann kallaði Jón lögmann mótpart sinn og óvildarmann, og í sökum við sig fyrir heimreiðir og fjárupptektir og þar með í sökum við báða biskupa. Dæmdi þó Jón lögmaður, að allt það fé, er átt höfðu þau systkin Þorleifur, Einar og Solveig skyldi vera æfinleg eign Björns Guðnasonar og hans erfingja með hörðum atkvæðum til hinna, er því fé héldu eða keypt höfðu. Fór hann utan með þann dóm síðar til að fá staðfesting konungs á honum.

Við slíka gerninga Jóns lögmanns hvattist Björn Guðnason til meiri mótþróa og annara stórræða móti Stefáni biskupi og öðrum sínum mótstöðumönnum, en biskup aptur á móti til frekari aðgerðar, svo þar kom, að hann forboðaði Björn Guðnason og bannfærði hann með 12 presta dómi, og nokkru síðar forboðaði og bannfærði biskup Jón lögmann Sigmundsson. Stefán biskup sendi prest þann, er Jörundur hét, til að lesa bannfæringarbréfið yfir Birni. Jörundur prestur Steinmóðsson flýði fyrir heitingum Björns og hans manna, er ógnuðu honum inn í hálfkirkjuna í Súðavík. Ógnaði þá Björn honum dauða með stórum heitingum, svo prestur treystist ei að haldast við í kirkjunni. Síðan greip Björn og hans fylgdarmenn prestinn undir áverka prísund. Lét rífa og skera af honum öll klæði og binda síðan, og tvo menn hýða hann, þar til voru yfirkomnir; fékk þá Björn til hinn þriðja, er Loptur hét og var Guðmundarson, var sá tveggja maki að afli, og er hann tók til mælti prestur: „Lin eru höggin þín langi Loptur“. Varð hann svo vel við, að fyr mundi hann dauða þola, en láta á sér heyra. Sá Björn þá, að prestur var að bana kominn og bauð Lopti að hætta; lét leysa prest, leggja hann á sæng og græða, og sat yfir honum sjálfur, meðan hann lá sem hættulegast, og leysti hann síðan vel af garði.

Á alþingi 1515 stefndi Stefán biskup Birni sýslumanni Guðnasyni undir sinn dóm, bæði fyrir dómsrof og harðræði hans við Jörund prest. Kom Björn eigi á stefnudaginn og var dæmdur sekur um mörk í stefnufall og fimm merkur í

dómsrof við biskup, með því hann hefði rofið dóm hans og dóm Vigfúsar lögmanns Erlendssonar. Jörundur prestur og tveir fylgdarmenn sönnuðu þar hrakninga sína með eiði, og var það dæmt bannsverk og óbótamál, og allt fé Björns fast og laust fallið undir konung og biskup, að luktum áður öllum skuldum og sektafjám. En Ormur bóndi Jónsson, föðurbróðir Björns, sem hinn nákunnasti svaramaður hans, var ályktaður afgreiðslumaður allra þeirra skulda, en ef hann vill það ekki, þá séu peningarnir upptækir kongsins og kirkjunnar umboðsmönnum með góðra manna yfirsýn.

Dómsmenn biskups voru: Ögmundur ábóti, séra Einar Snorrason, séra Helgi Jónsson, séra Jón Héðinsson og átta aðrir. Ekki hlýðnaðist Björn þessum dómum og sat að eignum sínum sem áður. En biskup náði Jóni lögmanni Sigmundssyni og þröngvaði honum til að vinna eið um bót og betrun og að apturkalla og ónýta alla sína dóma, sem voru í vil Birni sýslumanni Guðnasyni, en efla og styrkja í öllum hlutum kirkjuna og biskupinn. Leysti hann svo úr banni í margra manna viðurvist, og lýsti því svo opinberlega. Þetta framfór 1516.

Þá Jón lögmaður slapp frá biskupi, klagaði hann fyrir öðrum höfðingjum og kongsmönnum ofríki biskups. Tóku þeir sig þá saman og gerðu samþykkt á Leiðarhólmi, að standa á móti biskupsvaldi, var þar ásamt öðrum Björn Guðnason 1517 (sjá þá samþykkt í Árbóka þriðju deild cap. 34, pag. 44).

Biskupsríkið var þá orðið svo mikið, að téð samþykkt hafði ei framgang, en biskupar hörðnuðu við það.

Nú hugði Stefán biskup að kúga Björn Guðnason sem Jón lögmann. Reið því um sumarið 1517 með 300 manna vestur í Ögur. Björn Guðnason hafði spurt til ferða biskups og safnaði að sér mönnum, varð hann mannfleiri en biskup og hertygjaði sig og sína menn. Biskup tjaldaði fyrir innan Ögursá og reið heim með 12 menn og gekk í kirkju. Björn gekk til fundar við hann jafn margmennur, voru menn hans harðneskjaðir undir stökkum. Biskup varð þess var, og er þeir höfðu heilsazt tók hann á öxlum Björns og mælti: „Og svo eruð þér harðstakkaður Björn“. Hann svaraði: „Hver á með það, hversu eg klæði mig og menn mína? Eruð þér herra mér velkomnir með svo marga menn, sem yður heyrir

til að hafa með yður, eptir réttum kirkjulögum". En þótt ekki horfðist á með þeim sáttsamlega, áttu skynsamir menn og góðgjarnir af beggja flokki svo hlut í með þeim, að ei er annars getið, en að þeir skildu vandræðalaust. Náði þá biskup Vatnsfirði að kallað var, en ei var þar um útkljáð. Skömmu síðar stefndi biskup Birni Guðnasyni fyrir það, hann hefði gert samtök móti sér í Ögri, og lét þar um dóm ganga.

Jón murti Einarsson var og þetta ár útlægur dæmdur og í fleiri bætur, af Stefáni biskupi og Vigfúsi lögmanni fyrir sakir við séra Jón Eiríksson í Vatnsfirði; mun Jón murti hafa fylgt Birni Guðnasyni. Björn Guðnason lét og þetta ár dæma arf Grími syni Jóns Guðmundssonar og Sesselju Sumarliðadóttur Loptssonar eptir foreldra sína, sem Ari Andrésson í Bæ hafði ranglega í sest. Var sá Grímur í Síðumúla seinna, faðir Jóns í Kalmannstungu, er Jón murti Eggertsson vó. Árið 1518 stefnir Stefán biskup ennnú Birni Guðnasyni fyrir margar og þungar sakir, en þá að stefnudegi kom, var Björn andaður, og er svo að heyra, sem margrætt hafi orðið um hans dauða. Biskup lét dæma ei að síður, og læt eg þann og fleiri dóma hér með fylgja, eptir þeirri afskript, sem eg hef fyrir hendi til fróðleiks þeim, er lesa vilja.

Ei lauk arfaþrætunni við dauða Björns, og stóð þá Ragnhildur ekkja Björns í móti, frændur og dætramenn. Einnig Torfi sonur hennar, sem fékk nýja staðfesting konungs á sínum fyrri bréfum um fé Jóns Dans. Torfi deyði á hingaðsiglingu 1527. en bréfin komust til skila. Sóttu því Eggert lögmaður Hannesson og Torfi son Sigfúsar Brúmanns, einnig Jón sýslumaður Ólafsson og fleiri ættingjar eptir fénu; urðu þar um mörg æfintýri, til þess beztu menn ákomu sáttum milli Eggerts lögmanns Hannessonar og Árna sýslumanns Gíslasonar 1560, og mátti Eggert bæta Árna XL hundruð fyrir heimreiðir og ójöfnuð veittan séra Jóni Eiríkssyni, er þá hélt Vatnsfjörð, er mest gekk á með þessi margflæktu arfaþrætumál.

Það hjálpaði Árna, að hann fékk afskript af lofun og eiði Jóns Sigmundssonar, hvar í hann meðgengur, að hafa dæmt rangan dóm milli Björns Guðnasonar og Björns Þorleifssonar. En biskup Guðbrandur tjáir þá afskript hafa verið falska.

Björn Guðnason var einhver hinn harðfengasti ríkismanna hér á landi í sinni tíð, og ærið héraðsríkur við alþýðu.

Brynja hans og stálhúfa hafa til verið fram á miðja 18. öld, og var hvorki svo mikið, að meðalmanni mátti ei hæfa. Umboðsmann hélt Björn. (Sjá um hans völd við Ísafjarðarsýslu)[1]).

---

*Gerningabréf Björns Guðnasonar og Gríms Jónssonar upp á helmingafélag Jóns Dans og Kristínar Sumarliðadóttur:*

Það gerum vér Jón Sighvatsson og Játgeir Helgason góðum mönnum kunnugt með þessu voru opnu bréfi, að vér vorum þar í hjá, sáum og heyrðum á orð og handaband þessara manna Björns bónda Guðnasonar og Gríms Jónssonar, að fyrnefndur Grímur Jónsson gaf Jón Björnsson, er kallaður var Danur, öldungis kvittan og ákærulausan um það helmingafélag, er þau höfðu með sér gert, fyrnefndur Jón Björnsson og Kristín Sumarliðadóttir fyrir sér og sínum erfingjum. Sömuleiðis gaf Grímur Jónsson optnefndan Björn Guðnason kvittan og akærulausan um öll þeirra peningaskipti, er þau gerðu sín á milli fyrnefnd Kristín og Björn Guðnason eptir áðurskrifaðan Jón Dan, fyrir sér og öllum sínum eptirkomendum. Hlotnaðist þráttnefndum Birni í sinn hlut: Sæból, Brekka, Villingadalur, Gerðhamrar, Arnarnes, Gunnastaðir og Skagi, en optnefndri Kristínu hlotnaðist í sinn hlut þeir peningar, sem í Arnarfirði liggja.

---

1) Bls. 175—177. Hér á eptir kemur fyrst hjá Boga helmingafélagsbréf Jóns Dans Björnssonar og Kristínar Sumarliðadóttur frá 30. júlí 1481, en þar eð það er prentað í Íslenzku Fornbréfas. VI. bls. 392 er því sleppt. Við bréf þetta setur Bogi svolátandi athugasemd:

»1508 lögðu Kristín Sumarliðadóttir og Björn Guðnason fé Jóns heitins Dans til helminga með sér. Þá var Jón dáinn. Biskup Ögmundur dæmdi þetta fé af börnum Björns Guðnasonar 1526. Þá stefndi Torfi Björnsson málinu fyrir konung og Þorleifi Björnssyni. Mætti ei Þorleifur, en konungur dæmdi féð erfingjum Björns Guðnasonar. Torfi dó á ferð heim til Íslands, en bréfin komust og voru lesin upp á alþingi og fyrir Ögmundi biskupi; hann skeytti þeim ei og hélt fénu undir Björn Þorleifsson sem áður. En Björns Guðnasonar erfingjar höfðu það þeir gátu náð með harðfylgi þar af«.

[NB. Þessi Grímur Jónsson var sonur Jóns Guðmundssonar og Sesselju laundóttur Sumarliða Loptssonar. Björn Guðnason dæmdi honum arf eptir foreldra sína, sem Ari í Bæ Andrésson hafði í sest. Son Gríms var Jón, er bjó í Norðtungu, en var veginn í Síðumúla af Jóni murta Eggertssyni].

---

*Dómur biskups Stefáns upp á Björn Guðnason:*

Öllum góðum mönnum, sem þetta bréf sjá eður heyra senda bróðir Ögmundur með guðs náð ábóti í Viðey, Einar Snorrason officialis heil. Skálholtskirkju, Helgi Jónsson, Jón Héðinsson, Jón Þorsteinsson, Sæmundur Árnason, Pétur Þorsteinsson, Ásgrímur Þórðarson, Jón Jónsson, Þorlákur Landbjartsson, Steingrímur ..... Stefán Þorgilsson klerkar Skálholtsbiskupsdæmis kveðju guðs og sína kunnugt gerandi, að Anno 1515 mánudaginn næstan fyrir allra heilagra messu í Skálholti vorum vér í dóm nefndir af ærlegum herra og andlegum föður, Stefáni með guðs miskun biskupi í Skálholti, að skoða og dæma um þá klögun, sem biskupinn klagaði til Bjarnar Guðnasonar.

Í fyrstu grein: Að hann hefði rofið þann dóm, sem dæmdar var af herra lögmanninum Vigfúsi Erlendssyni, 6 prestum, 6 lögréttumönnum og 6 bændum, og lesinn var í Ögri að hans heimili. Item í annari grein, að hann hefði ógnað dauða séra Jörundi Steinmóðssyni í hálfkirkjunni í Súðavík, hafandi hann út úr henni með ofríki, undir prísund og áverka, sem hann og hans menn gerðu honum, rifu af honum klæði og skáru, og í mörgu öðru hann svívirtu, þá hann var í kirkjunni og vors herra erindum. Nú sakir þess, að vér heyrðum, að nefndur Björn Guðnason var stefndur í sumar á alþingi, að áheyrandi herra Gottskálk biskupi á Hólum og allri lögréttunni, og af því að svo stendur í Landslagabókinni, að þar sem maður heldur ekki lögsamdan dóm, þá er hann sekur 4 mörkum við kong og mörk við sakarabera og haldi dóm sem áður. Í annari grein kom fram fyrir oss, að Björn Guðnason hefði haft upp kirkjuna að Súðavík með þrengingum, ógnaði prestinum séra Jörundi dauða með mikilli formæling, og fyrir hræðslu sakir hafði hann út af kirkjunni haft, gripinn af Birni og hans fylgjurum, sleginn síðan og barinn, rifin af honum klæðin og skorin. Þetta gerði Björn Guðnason, Jón Sigurðsson og Loptur Guð-

mundsson og fleiri þeirra fylgjarar, og hér upp á sór séra Jörundur fullan bókareið og tveir skilríkir menn með honum, eptir því sem hann var til krafinn af biskupinum, að bera vitni heilagri kirkju; því að heilags anda náð tilkallaðri, og svo prófuðu og fyrir oss komnu, dæmdum vér, fyrnefndir dómsmenn stefnuna löglega og fyrnefndan Björn Guðnason réttilega fyrirkallaðan, var hans beiðst og krafizt, og kom hann ekki og enginn af hans hendi, og því dæmdum vér hann sekan mörk í stefnufall. Item fyrir dómrof dæmum vér hann sekan V mörkum við biskupinn, og skyldugan að halda dóminn með öllum sínum greinum og articulis, og alla aðra dóma, þá sem biskupinn hefur látið dæma yfir honum, einkanlega þá, sem hljóða upp á Vatnsfjörð með þeim greinum, sem þar að lúta. Item í annari grein þær hrakningar, sem hann gerði prestinum séra Jörundi, finnum vér skilvíslega skrifað í lögum heilagrar kirkju, að hver sem misþyrmir klerki eða klausturmanni með heiptugri hendi, hann fellur í bann á sjálfu verkinu, svo ei síður stendur það skrifað í kristnum rétti, að hver sá sem hefur mann út af kirkju með vélum eða valdi eða einhverjum svikum, þá skal hann slíku sæta, sem hann hefði drepið hann í kirkjunni. Lúta hér að og hníga margar aðrar greinir í kirkjunnar lögmáli, að sá verður óbótamaður, sem hennar frið brýtur og raskar. Því dæmum vér með fullu dómsatkvæði öll fé Björns Guðnasonar föst og laus fallin undir kong og biskup, með þeim skilmála, sem lögin útvísa um önnur óbótamál, að öllum skuldum áður aflúktum og sakafjám, hver sem helzt þau þar inni eiga, leikir eða lærðir Dæmum vér Orm bónda Jónsson afgreiðslumann allra skulda, svo og að afgreiða umboðsmenn kongsins og kirkjunnar það sem þeim er tildæmt. En ef hann fyrir næmist og vill ei afgreiða, þá séu upptækir peningarnir kongs umboðsmanni og kirkjunnar, með góðra manna yfirsýn og höldnu því öllu, sem fyr segir um skuldir og sakafé. Samþykkti þennan dóm með oss herra Stefán og setti sitt innsigli með vorum fyrir þetta dómsbréf. Skrifað í Skálholti sama dag og fyr segir.

---

*Lofan og eiður Björns Guðnasonar og Þorleifs Örnúlfssonar:*

Það gerum vér bræður Árni með guðs miskun ábóti í

Viðey, Einar Ingimundarson, Halldór Þorsteinsson og Gísli Jónsson prestar Skálholtsbiskupsdæmis góðum mönnum kunnugt með þessu voru opnu bréfi, að vér vorum þar í hjá hér í Skálholti, að Björn Guðnason lofaði að betala kirkjunni í Vatnsfirði alla þá peninga, sem burt höfðu farið frá henni og staðnum þar, að hans forlagi, dáðum og ráðum eða nokkru hans tilstilli í svo máta, að greind kirkja í Vatnsfirði mætti og behalda alla sína peninga, þá sem hún hefur misst af hans tiltektum og þeirra manna af hans parti hafa verið. Sömuleiðis lofaði hann að kirkjan í Grunnavík (al. Aðalvík) skyldi bíhalda og fá alla sína peninga, þá sem hún hefur misst og hann eða hans menn höfðu frá henni tekið og haft, svo að báðar greindar kirkjur skyldu hafa allt sitt út af greindum Birni og hans mönnum. Item lofaði áður greindur Björn, að vera biskupinum til gagns og góðs og kirkjunnar klerkum og staðarins í Skálholti, og gera hér með bót og betrun, bæði í skriptum og féskiptum, eptir því sem biskupinn segði honum til; og hér upp á sór optnefndur Björn fullan bókareið fyrir nefndum dómsmönnum nærverandi.

Item með sama hætti lofaði Þorleifur Örnúlfsson greindum biskupi Stefáni, að styrkja til, veita hjálp og aðstoð eptir sínu megni, svo áðurskrifaðar kirkjur í Vatnsfirði og Aðalvík fengju aptur alla sína peninga, sem þær höfðu misst af hans aðstöðu og fylgi með Guðna Jónssyni og syni hans Birni. Sór og áðurskrifaður Þorleifur hér upp á fullan bókareið, að nærverandi öllu staðarins fólki í Skálholti.

Og til sannindamerkis hér um setjum vér fyrnefndir kennimenn vor innsigli fyrir þetta bréf, skrifað í Skálholti Anno 1516, [ef til vill réttara 1507 eða 1508 B. B.].

---

*Dómur upp á erfingja Björns heitins Guðnasonar:*

Öllum mönnum, sem þetta bréf sjá eður heyra senda bræður Narfi með guðs náð áboti á Helgafelli, Ögmundur með sömu náð áboti í Viðey, Einar Snorrason, Helgi Jónsson, Halldór Tyrfingsson, Þórður Guðmundsson, Þorleifur Eiríksson, Snorri Þorgilsson klerkar Skálholtsbiskupsdæmis kveðju guðs og sína kunnugt gerandi: Að sub Anno gratiæ 1518 vorum vér í dóm nefndir af andlegum föður herra Stefáni með guðs náð biskupi í Skálholti, mánudaginn næstan fyrir Pétursmessu og Páls í almennilegri prestastefnu, að skoða, rannsaka

og fullnaðardóm á að leggja um þá ákæru, sem greindur herra biskup Stefán kærði til Björns Guðnasonar. In primis um dómsrof, forsmán og fyrirlitningu dóma og úrskurða, sem gerðir höfðu verið af heilagri kirkju og biskupinum, sérlega um testamentisgerð Solveigar heitinnar Björnsdóttur og marga aðra. Item að áðurnefndur Björn hefði gert tvær heimreiðir eða heimsóknir með sínum fylgjurum heim og upp á staðinn Vatnsfjörð, dragandi kirkjunnar þjónustumenn nauðuga út af garðinum, færandi þá í bönd og fjötur, og tóku kirkjuna og hennar peninga fasta og lausa. Sömuleiðis prestinn séra Jón Eiríksson, sem biskupinn hafði áður kirkjuna skipað, hér með veitt honum og hans mönnum, þeim sem flýðu upp á kirkjuna með ofríki umsátur með vopnum og hörðum heitingum, bannandi þeim öll hjálpræði eptir sínu megni. Item að Björn Guðnason og hans fylgjarar hefðu gert heimreið og ófrið upp á Maríukirkju í Grunnavík, þar var brotin kirkjan og staðurinn, teknir, rupladir og í burtu bornir peningar nokkrir. Item að sagður Björn Guðnason hafi af óhlýðni og í sínum bannverkum gengið í kirkjuna á helgum dögum og rúmhelgum, hér með teygt marga menn til þessarar óhæfu. Kom stefnan fyrir oss, en margir af hans mönnum heyrðu upp á, að Björn Guðnason var stefndur fyrir áðurgreindar sakir.

Nú þó að vor herra hafi kallað hann til sinnar náðar, þá gerum vér stefnuna löglega, og hans erfingja skylduga að halda eða láta halda öllu löglegu svari hans vegna, var þeirra beiðst og krafizt og kom enginn af þeirra hendi; þar fyrir gerum vér þá seka mörk í stefnufall. Komu þar og fram fyrir oss fjögur dómrof, en nú hið fimmta var áður dæmt. Var og biskupsins úrskurður rofinn í nokkrum greinum um testamentisgerð Solveigar heitinnar Björnsdóttur. Svo og sömuleiðis komu þar fram fyrir oss heimsóknir, fjárupptektir og manna fangelsi, kirknabrot og peningaútburður úr kirkjunni í Vatnsfirði, var þetta nú og optar sem áður sannað fyrir oss. Því að heilags anda náð tilkallaðri og svo prófuðu og fyrir oss komnu dæmdum vér fyrnefndir dómsmenn með fullu dómsatkvæði erfingja Björns heitins Guðnasonar og þeirra umboðsmenn skylduga að halda alla þá dóma og úrskurði, sem áðurnefndur biskup herra Stefán hafði gert og gera látið um kirkjuna í Vatnsfirði og hennar kúgildi. Með sama hætti og

þann dóm, sem dæmdur var um Conspirationem þá, sem ger var í Ögri móti biskupinum með öllum greinum og articulis, sem sá dómur inniheldur. Svo og um testamenti Solveigar heitinnar Björnsdóttur. Item fyrir tvær heimsóknir á Vatnsfjörð, rán á peningum og manna föngun dæmdum vér kirkjunni í Vatnsfirði XII merkur í sitt fullrétti fyrir hverja heimsókn, sömuleiðis séra Jóni Eiríkssyni XII merkur í sitt fullrétti af hverri heimsókn. En heilagri Skálholtskirkju XXX merkur fyrir hverja heimsókn. Item fyrir kirkjubrotið og manna umsátrið í kirkjunni dæmdum vér kirkjunni í Vatnsfirði tvennar XIII merkur og séra Jóni Eiríkssyni tvennar XIII merkur í sitt tvöfalt fullgildi, því hann var officialis, en heilagri Skálholtskirkju níutigu merkur. Item fyrir aðtekt og útburð úr kirkjunni dæmdum vér kirkjunni í Vatnsfirði XII merkur (al. 30 merkur). Item dæmdum vér erfingjana og þeirra umboðsmenn skylduga að gjalda aptur séra Jóni Eiríkssyni alla þá peninga, sem Björn Guðnason og hans menn tóku í Vatnsfirði fyrir kirkjunni og honum, utan kirkju og innan, leigur og landsskuldir, málnytjukúgildi með laga ávexti, en XII álnum geldfjárhundrað með áleitt[1]) og tvígjalda aptur dæmda peninga. Dæmdum vér fyrir hernað og kirkjubrot á Stað í Grunnavík tvennar IX merkur kirkjunni þar, og séra Jóni XV merkur, en heilagri Skálholtskirkju XXX merkur. Item á staðarbrotinu dæmdum vér kirkjunni þar IX merkur. En heilagri Skálholtskirkju XV merkur. Item fyrir kirkjuinngöngu reiknast upp á átta ár LXXVI hundr. Nú ef erfingjar kunna nokkra löglega afbötun að hafa fyrir einhverja grein þessa, þá skulu þeir það gert hafa innan þriggja mánaða að heyrðum dóminum fyrir biskupi eða hans löglegum umboðsmanni. Skulu þeir peningar gjaldast að þrennum jólum, þau fyrstu jól skulu vera að Mikaelsmessu í haust, málnytja gjaldast í fardögum í vor að kemur. En allir þessir peningar séu goldnir að Mikaelsmessu að öðru hausti. Skal það fé Skálholtskirkju tilheyrir gjaldast heim í Skálholti biskupinum eða hans umboðsmanni í hönd. En það fé Vatnsfjarðarkirkju, Grunnavík og séra Jóni Eiríkssyni tilheyrir, skal gjaldast heima

---

1) Þannig handr.

í Vatnsfirði prestinum eða hans umboðsmanni. Samþykkti með oss etc.

---

*Dómur á milli Björns Þorleifssonar og Ragnhildar í Ögri*:
Öllum mönnum, sem bréf þetta sjá eða heyra senda Fúsi Þórðarson, Brandur Einarsson, Jón Magnússon, Ólafur Guðmundsson, Salomon Einarsson, Jón Ólafsson, Ásmundur Klemensson, Skúli Tómasson, Þorvaldur Helgason, Oddur Þorleifsson, Jón Jónsson og Einar Jónsson kveðju guðs og sína. Anno 1515 (mun vera réttara 1518 eða seinna) föstudaginn næstan eptir Pétursmessu og Páls á almennilegu Öxarárþingi vorum vér í dóm nefndir af ærlegum dándismanni Vigfúsi bónda Erlendssyni lögmanni yfir öllu Íslandi, að skoða, rannsaka og fullnaðardóm á að leggja um þá ákæru, er Björn Þorleifsson færði til Ragnhildar Bjarnadóttur og barna hennar, að hún hefði óréttilega haldið fyrir sér ávexti af sínum peningum. Var þá stefnan upplesin og svarin af tveimur vottum. Dæmdum vér hana löglega og þetta mál réttilega fyrirkallað Kom þar fram fyrir oss af hendi Björns Þorleifssonar tvö kongsbréf, kongs Kristjáns og kongs Hans, sem hlýddu upp á hans skilgetningu, svo voru þar upplesnir tveir tylftardómar með úrskurðum. Í annari grein kom fyrir oss í dóm bréf með dándismanna innsiglum svolátandi, að Björn Guðnason hefði lagt lög og dóm fyrir alla þá peninga, sem Solveig heitin Björnsdóttir hafði átt. Kom þar fram af hendi Ragnhildar vel 3 eða 4 kongsbréf upp á þá sömu peninga. Og að öllu svo prófuðu og fyrir oss komnu dæmdum vér fyrgreindir dómsmenn með fullu dómsatkvæði áðurgreind bréf og skilríki fram á kongs náðir með ríkisins ráði í Noregi og svaramenn hvorttveggja, að vera komnir að forfallalausu fyrir minn herra konginn fyrir jól í vetur, er nú næst kemur, undir það skikkelsi, sem minn herra kongurinn vill hér til segja um áðurgreind bréf og skilríki nefndra manna í milli Björns Þorleifssonar og Ragnhildar Bjarnadóttur og barna hennar. En áðurgreind góz og peningar skulu áklögulaus, hvað hvorir höfðu nú að halda til þess er míns herra kongsins skipan og bréf kemur í landið aptur. Samþykkti með oss þennan vorn dóm etc.

(*Aths.* Af fyrskrifuðum dómi sést: 1º að hann er dæmdur eptir lát Björns Guðnasonar, sem deyði snemma árs-

ins 1518; getur því ártalið 1515, sem hér stendur eigi verið rétt, er líkast að það eigi að vera 1519 eða 1520. því 2º eptir dóminum færði Ögmundur biskup bréf Björns Þorleifssonar fram fyrir ríkisráðið í Noregi, þá hann sigldi til biskupsvígslu 1520 og fékk þess staðfesting upp á bréfin, en hefur ei þorað að bera þau fram fyrir kong, sem hafði óvild á Ögmundi. 3º Torfi son Björns Guðnasonar sigldi með bréf föður síns fyrir kong um 1526, og fékk hann staðfesting upp á þau. Hann dó í hingaðsiglingu 1527. En þetta allt gerði lengri þrætuna. 1519 voru bréfin dæmd fram fyrir konung, því sigldi Torfi. (En það var upp á fé Jóns Dans, sem biskup Ögmundur hafði tildæmt Birni Þorleifssyni). Vigfús lögmaður fór utan 1520 eða 21 með Ögmundi biskupi. Ragnhildur sendi þá sín bréf fram fyrir konung, sem staðfesti þau) (sjá Barðastrandarsýslu).

## Björn Þorleifsson.

*Faðir*: Þorleifur hirðstjóri sonur Björns ríka og Ólafar Loptsdóttur ríka.

*Móðir*: Ingveldur dóttir Helga lögmanns á Ökrum í Skagafirði (sjá áður).

*Kona*: Ingibjörg dóttir Páls (hún kallast í ættartölum systir Ögmundar biskups, en í öðrum ættartölum systurdóttir Magnúsar biskups Eyjólfssonar, nefnilega Margrétar dóttur Eyjólfs eldra mókolls)[1]. Þau

---

1) Ingibjörg Pálsdóttir kona Björns Þorleifssonar hefur ekki verið systir Ögmundar biskups, því að foreldrar hennar voru Páll Jónsson og Margrét Eyjólfsdóttir mókolls eldra, systir Magnúsar biskups. Er kaupmáli Páls og Margrétar gerður á Helgafelli 1469 (Í. F. V. 555—56). En foreldrar Ögmundar biskups voru Páll Jónsson (ekki Guðmundsson) sbr. aths. við bls. 547 og Margrét Ögmundsdóttir. Ögmundur Eyjólfsson, er verið hefur son Eyjólfs mókolls eldra, kemur við bréf í Haga á Barðaströnd 31. ágúst 1461 (Í. F. V. bls. 239), en hann er ofungur til að geta verið móðurfaðir Ögmundar biskups, því að Eyjólfur mókollur virðist hafa kvænzt um 1434 (Í. F. IV. 536, 539), nema Eyjólfur hafi verið kvæntur áður og Ögmundur son hans af því hjónabandi eða launson hans. Ögmundur biskup er ekki fæddur síðar en 1465—70, Margrét móðir hans um 1440—45 og Ögmundur faðir hennar ekki síðar en fyrir eða um 1420.

Björn og Ingibjörg giptust um 1501. En 1508 fastnaði Björn á nýjan leik Ingibjörgu konu sína eptir ráðum Stefáns biskups.

*Börn* Björns, sem ættir eru frá komnar:

A. Séra Þorleifur á Reykhólum (prestur á Reykhólum 1546—1577) manna hagastur. Hann hélt við Ragnhildi Jónsdóttur[1]) og tók kvittering fyrir barneignum með henni. En eptir siðaskiptin giptist hann henni 1554, þeirra börn teljast:

a. Ólöf átti Ara son Ólafs Guðmundssonar í Bolungarvík, þeirra börn:

---

1) Jón faðir Ragnhildar var son Þorbjarnar Jónssonar í Kálfanesi og Ingibjargar Sigurðardóttur frá Svalbarði og síðar í Kálfanesi Björnssonar. En Jón átti Guðrúnu dóttur Narfa ábóta Ívarssonar á Helgafelli. Önnur dóttir þeirra var Guðlaug, er fyr átti Andrés Björnsson, en síðan séra Indriða Ámundason í Kálfanesi og var þeirra dóttir Sæunn móðir Jóns Guðmundssonar lærða (sbr. Safn til s. Ísl. III. 708, 715). Getið er þriggja barna, er Ragnhildur hafi svarið upp á séra Þorleif og eru þau nefnd Páll, Guðrún og Ingibjörg. Frá þessu skýrir séra Indriði mágur Ragnhildar í bréfi 31. maí 1561, þar sem hann getur þess, hvílíkan eið hann hafi stafað Ragnhildi, er hún sór. En vel getur verið, að börn séra Þorleifs og hennar hafi verið fleiri. Séra Jón Ólafsson á Lambavatni telur t. d. í ættatölubók sinni séra Greip son séra Þorleifs og Ragnhildar og svo er víðar talið, og dóttur þeirra Ingibjörgu, er átti Magnús Sveinsson í Berufirði vestra, son Hildar Magnúsdóttur systur séra Ólafs á Stað á Reykjanesi, þ. b. Páll og Anna. Séra J. Ó. segir og, að móðir Herdísar dóttur séra Þorleifs hafi verið Jórunn Jónsdóttir systir Sesselju, er Eggert lögmaður Hannesson átti börn með og Sveins á Kirkjubóli föður Halldóru, er átti Skúla Jónsson Hálfdánarsonar. Mun það og rétt, að fylgikona séra Þorleifs önnur en Ragnhildur, hafi heitið Jórunn (en ekki Kristín), eins og Bogi telur o. fl. (t. d. Ó. Snókdalín), nema Kristín hafi verið sú þriðja og hennar börn Ólöf, Jón og Guðrún, eins og Snókdalín telur. Annars mun trautt að fá fulla vissu um móðerni allra barna séra Þorleifs, en telja má þó hér um bil víst, að börn hans og Ragnhildar hafi verið:

a. Greipur prestur.
b. Páll.
c. Guðrún.
d. Ingibjörg, er Magnús Sveinsson átti (sjá hér áður).

aa. Bjarni átti Guðnýju Halldórsdóttur og börn.
bb. Dómhildur átti Pál Halldórsson Þorvaldssonar.
cc. Halldór.

b. Jón.

c. Guðrún, þeirra afsprengi veit eg ei. Nokkrir skrifa, að fylgjandi séu ættleidd frillubörn séra Þorleifs með Kristínu Jónsdóttur. [1557 arfleiddi Þorleifur prestur börn sín Greip, Herdísi[1]), Pál og Guðrúnu].

d. Séra Greipur á Snæfjöllum nærri í 20 ár átti dóttur séra Halldórs á Snæfjöllum næst fyrir hann, börn:

aa. Jón á Haugi[2]) smiður góður átti Kristínu Dagsdóttur, börn:
aaa. Dagur[3]).
bbb. Markús[4]).
ccc. Margrét[5]).

---

1) Laundóttir Herdísar Þorleifsdóttur var Sesselja kölluð Sigurðardóttir, en föstnuð Eggertsdóttir, er hún giptist Birni Björnssyni á Læk (Bisks. II. 379). Hefur hún verið dóttir Eggerts Hannessonar, en því haldið leyndu framan af, með fram ef til vill vegna þess, að móðir Herdísar var systir Sesselju, er Eggert hélt við. Er ekki ósennilegt, að Herdís hafi verið hjá Sesselju móðursystur sinni og Eggert komizt þar yfir hana. Þó er það auðvitað getgáta ein.

2) Þ. e. Haugi á Hjarðarnesi. Jón smíðaði prédikunarstól í Bæjarkirkju.

3) Dagur var lánlítill, flæktist fátækur um Barðaströnd. Hans son a. Guðmundur.

4) Markús var í Skoreyjum.

5) Er ekki nefnd í ættatölum séra Jóns Ólafssonar, en í hennar stað aðrar 2 dætur Jóns:

ddd. Kristín átti Einar Pétursson Engilbertssonar Gamlasonar og börn.
eee. Gríma átti Guðmund, þ. b.
= Bjarni, sigldi til Kaupm.hafnar, var þar eitt ár og lærði skinnasútun.
= Halldór átti Bríet dóttur séra Eyjólfs Ásmundssonar.

bb. Þorgerður seinni kona Andrésar Björnssonar[1]), þau barnlaus. En með Einari Bjarnasyni Björnssonar Jónssonar biskups átti Þorgerður áður son, sá hét Greipur; hann átti Guðrúnu Ásbjörnsdóttur eldri[2]), með henni varð séra Jón Ormsson opinber að hórdómi. Björn sýslumaður Magnússon í Bæ þingaði þar um 1631.

cc. Jón yngri átti Sigríði laundóttur Eyjólfs Einarssonar á Ballará, þeirra son:

---

Ó. Snókdalín telur, að Margrét Jónsdóttir Greipssonar hafi átt Sigmund Arnbjörnsson Sæmundssonar, (er hann telur ranglega Sigmundsson) og Guðríðar Styrsdóttur frá Varmalæk, og telur hann son þeirra Dag á Steinum í Stafholtstungum, sem er rangt, því sá Dagur var Magnússon og kvæntist 1711 Guðrúnu Sigmundsdóttur. En son Sigmundar og Margrétar er eflaust Arnbjörn Sigmundsson, sem er á lífi 75 ára 1729 í Mýrdal í Kolbeinsstaðahreppi, og eru synir hans: Jón í Mýrdal, Sigmundur í Skálg og Runólfur í Mýrdal. Runólfur hét og einn son Dags á Steinum og gæti t. d. Guðrún Sigmundsdóttir kona Dags verið eitthvað af þessari ætt t. d. sonardóttir Sigmundar Arnbjarnarsonar eldra og Margrétar eða Dagur sonarson Sigmundar þess. Frá Dag á Steinum er komin allmikil ætt í Borgarfirði. Séra Jón Halldórsson nefnir ekki Sigmund meðal barna Arnbjarnar Sæmundssonar og Guðríðar Styrsdóttur og yfirleitt er ætt þessi mjög rugluð hjá Snókdalín, en vel getur eitthvað verið hæft í því, að Dagur á Steinum hafi verið kominn af þessari Greipsætt á einhvern hátt, því að Dagsnafnið er t. d. í henni, þótt á því sé auðvitað ekki mikið að byggja.

1) Björn faðir Andrésar var Konráðsson Jónssonar Íslendings. Ó. Snókdalín telur, að Þorgerður hafi fyr átt Snjólf Oddsson á Hríshóli, en þess getur séra Jón Ólafsson ekki, og mun þar málum blandað. Ef til vill er sú Þorgerður dóttir Greips á Gillastöðum, er Snókdalín telur son Jóns Greipssonar eldra á Haugi.

2) Börn Greips Einarssonar og Guðrúnar:
a. Bjarni.
b. Andrés, munu báðir hafa dáið bl.
c. Þorbjörg átti Tómas Jónsson í Bröttuhlíð á Rauðasandi, þ. b.:
aa. Magnús.
bb. Greipur bjó með móður sinni í Bröttuhlíð um 1680.

aaa. Oddur í Tungu í Tálknafirði[1]).
dd. Þorsteinn var og launsonur Þorleifs.
B. Jón[2]).
C. Margrét[3]).
D. Ólöf[4]).
E. Andrés hét og sonur Björns Þorleifssonar, hann giptist 1537 Guðlaugu Jónsdóttur[5]).

---

1) Oddur átti Guðrúnu yngri Eyjólfsdóttur Snæbjarnarsonar Erlendssonar prests Snæbjarnarsonar (sjá athgr. við bls. 576), þ. b.:
a. Jón (Bisks. II. 301).
b. Sigríður átti Svein í Tungu son Jóns Tómassonar.
c. Valgerður.
d. Eyjólfur.

2) Jón Björnsson bjó í Flatey og átti hana, átti Kristínu Finnsdóttur frá Ökrum Arnórssonar, þ. b.:
a. Finnur í Flatey. Hans synir:
aa. Torfi prestur í Hvammi í Hvammssveit. Hans son:
aaa. Jón í Flatey. Hans son:
= Torfi sýslumaður í Flatey (sjá ætt frá honum bls. 97—98).
bb. Jón. Hans synir:
aaa. Tómas.
bbb. Loptur. Frá þeim ættir.
b. Björn.
c. Árni prestur í Flatey, dó 1655 95 ára gamall. Hans son meðal annara:
aa. Sveinbjörn faðir Gísla föður Sveinbjarnar föður Einars yngra í Svefneyjum föður Eyjólfs dbrm. í Svefneyjum föður Hafliða samastaðar og bræðra hans. Er fjöldi manna kominn frá Jóni Björnssyni í Flatey og má rekja beinan karllegg margra manna, er nú lifa, frá Birni riddara hinum ríka, þótt ekki sé hér rakin nema að eins ein grein af Svefneyjaættliðnum.

3) Margrét átti Jón Einarsson á Melgraseyri, þ. b.:
a. Sigríður átti Einar Gíslason í Hvestu og börn.
b. Þorgerður átti Bjarna Magnússon á Melgraseyri og börn.

4) Ólöf atti Bjarna Guðmundsson á Dunk, bróður Daða í Snóksdal og börn.

5) Guðlaug var dóttir Jóns Þorbjarnarsonar og Guðrúnar Narfadóttur (sbr. aths. á bls. 595). Hún átti síðar séra Indriða Ámundason.

Björn Þorleifsson var ungur, þá faðir hans deyði og þar með utanlands. Urðu þá margir af tengdamönnum og afkomendum Björns ríka, sem sóttu eptir fé Þorleifs, svo sem Einar bróðir hans, Guðni og Björn sonur hans, Jón Dan og þeir feðgar frá Felli í Kollafirði. Náði hann því ei sínum föðurarfi, hvern Einar bróðir hans tók fyrst og síðan Solveig föðursystir hans. En Páll hélt fénu til handa börnum sínum eptir Solveigu með óvild mikilli Björns Þorleifssonar, var því Björn að vígi Páls með Eiríki á Álptanesi 1498.

Björn Þorleifsson hafði páfabréf og svo bréf Kristjáns konungs og Hans konungs, Gauta erkibiskups og Magnúsar biskups, og þar eptir dæmdi Finnbogi lögmaður og fleiri seinna Birni allt fé foreldra sinna.

Þá Páll var fallinn lét Guðni sýslumaður Jónsson dæma sér til trausts og halds þetta umþráttaða af Solveigar fé, til þess útgerðist, hver væri réttur erfingi Solveigar, þar sem og Páll hefði í fjórmenningsmeinum getið börn saman og þótti þau ekki arfgeng. Björn Þorleifsson hafði ei haft þrek til að kalla eptir fénu í hendur Páli. En nú, þá Guðni hafði það undir höndum, þótti honum það illa komið. Stefndi því Birni Guðnasyni til alþingis 1498 sín og systra sinna vegna málinu fyrir dóm Finnboga lögmanns. En lögmanni þótti vandi ákominn og dæmdi málið fyrir kong. Fóru báðir þeir nafnar utan og báru málið undir Hans kong. En er kongur heyrði málsástæður Björns Þorleifssonar úrskurðaði hann honum og systrum hans arfinn 1499, og eptir því bréfi dæmdi Finnbogi lögmaður á alþingi 1499 með 6 lögréttumönnum, að fén skyldu laus látast af þeim, er þau héldu við Björn Þorleifsson og systur hans og það gerðu margir, en af ofurkappi Björns Guðnasonar varð ei endir á þeim málum.

[1498 sættist Björn Þorleifsson við Andrés og sonu hans Guðmund, Ara og Bjarna, skeði það í Saurbæ á Rauðasandi. Lagði Björn þeim allar jarðir í Ísafjarðar- og Strandasýslum, er Guðmundur Andrésson hafði átt. En þeir bræður Birni allar jarðir í Barðastrandarsýslu og þar syðra[1]).

Ólafur Filippusson hafði fengið Vigdísar laundóttur Solveigar Björnsdóttur ríka með Jóni Þorlákssyni, hét þeirra son Einar, en er ágreiningur varð um arf Björns

1) Frá [ bætt við á spássíunni hjá B. B.

ríka, var Einar hinn ungi Ólafsson dæmdur erfingi Solveigar að þeim hlut, er henni stóð til. Það lét Einar Oddsson dæma, er þá hafði Húnavatnsþing 1497. En þótt þeir feðgar Guðni og Björn vildu hrekja Ólaf og Einar son hans frá þeim arfi settist Ólafur í fén, og hélt þeim sem lágu norðanlands og nærri honum voru. En Gottskálk biskup keypti af þeim Auðkúlu og fleiri jarðir. En þá Björn Þorleifsson hafði fengið kongs úrskurð og dóm Finnboga lögmanns fyrir arfi Solveigar, reið Björn Guðnason ei að síður með flokk manna heim í Vatnsfjörð, er Björn Þorleifsson kallaði sinn föðurarf, og Stað í Aðalvík og tók að sér báða þessa garða dómlaust, jarðirnar og kúgildi þau, er fylgdu og sérhvað annað, er þar samanstóð fémætt. Hann veitti og heimreið að Reykhólum. Við þennan yfirgang þóttist Björn Þorleifsson ei mega búa, reið í Skálholt og beiddist af Stefáni biskupi, eptir boði og bréfi páfans legáta, er hann fram bar, að gera sér lög og rétt í slíku. Útnefndi þá biskup í Skálholti 12 prestadóm. Dæmdu þeir að biskupi til kæmi að enda þessar þrætur með úrskurði, hversu lögleg þau systkin, Þorleifs börn, væru til arfs komin. Um sumarið á alþingi úrskurðaði biskup slíkt hið sama og Finnbogi lögmaður: að Björn Þorleifsson og systur hans ættu arf eptir foreldri sitt og föðursystur sína Solveigu. En eptir hana er mælt verið hafa XXIV hundr. hundraða í jörðum og XXVI hundruð hundraða í kúgildum og virðingafé, er hún hafði undir sig tekið eptir frændur sína. Dæmdu þeir þá feðga Guðna og Björn skylduga að láta aptur allar þær eignir, er þeir héldu af þeim peningum. Vestfirðingar sendu þá skarpa klögun til Finnboga lögmanns yfir hans röngum dómum og lögvillum með fleiru. Biskup Stefan nýtti sér þessa þrætu og lét dæma Vatnsfjörð til Beneficíum, eins og gert var af Staða-Árna fyr, og fékk (1503) þar upp á Gauta erkibiskups staðfestingu síðar.

Þá tók sig upp Jón Dan (launsonur Björns ríka), er bjó á Hrafnseyri og átti hana og miklar aðrar eignir. Kvinna hans var Kristín Sumarliðadóttir Loptssonar ríka; ei áttu þau börn, er lifðu.

Téður Jón Dan gerði heimreið á Reykhóla að Birni Þorleifssyni, svo hann með mönnum sínum varð að flýja um nótt frá staðnum, en Jón hafði þar gripdeildir nokkrar, reið

síðan burt. Þar um fram fór vitnaleiðsla 1503. Kaj von Ahlefeld hirðstjóri gaf Birni á Reykhólum Þorleifssyni griðabréf 1504 kongdómsins vegna til alþingis, fyrir það, er Björn hafði áður verið í ferð með Eiríki á Álptanesi að vígi Páls Jónssonar frá Skarði, hvar um Björn var nú ákærður. Gaf Hans kongur 1506 full grið Birni þar fyrir af hirðstjórans milligöngu.

Björn Þorleifsson hafði varið Vatnsfjörð og aðrar sínar eignir eptir mætti að lögum, en þá biskup dæmdi Vatnsfjörð til Beneficíum og það fram gekk 1506 sleppti Björn Þorleifsson, en ei Björn Guðnason tilkalli til hans. Svo að Björn Þorleifsson hefði í færru að standa við sína mótstöðumenn, skipti hann burt þeim jörðum, sem honum voru fjarlægar í Ísafjarðar- og Strandasýslum fyrir aðrar jarðir sér nærliggjandi við Guðmund Andrésson undir Felli í Kollafirði og gerðist honum það góð hagnaðarskipti. En Björn Guðnason hélt fram fjárupptektum og ágangi við nafna sinn og séra Jón Eiríksson, sem biskup hafði sett yfir Vatnsfjarðarstað.

Þá Jón Dan deyði tók Björn Guðnason hálft fé eptir hann eptir þeim bréfum, sem hann þóttist fyrir sér hafa. En Björn Þorleifsson þóttist nær standa arfi eptir föðurbróður sinn eptir kongsbréfum þeim, er hlýddu upp á skilgetningu hans og systra hans. Um þessar mundir stefndi Stefán biskup Birni Guðnasyni fyrir margar þungar sakir, að mæta í Skálholti fyrir tilnefndum dómsmönnum 1518. Þá að stefnudegi kom var Björn Guðnason dáinn, lét biskup engu að síður dæma málið og Björn í stórar sektir (sjá um Björn Guðnason).

Björn Þorleifsson stefndi Ragnhildi ekkju Björns Guðnasonar til alþingis fyrir Vigfús lögmann Erlendsson fyrir ranglegt hald á eignum þeim, er þeir nafnar höfðu um deilt. Frambar hann tvö kongsbréf fyrir eignunum Kristjáns I. og Hans. En Ragnhildur lét frambera 3 eða 4 bréf Kristjáns II., er hún hafði fyrir sér, og dæmdi þá Vigfús lögmaður málið og málsparta fram fyrir kong og hans ríkisráð í Noregi og undir hans úrskurð, hver bréfin væru gildari. Ragnhildur sendi þá bréfin samsumars fram fyrir Kristján kong II. og fékk staðfestingu hans þar upp á sem þau fyrri. En Ögmundur biskup hafði tekið að sér bréf Björns Þorleifssonar, þá hann fór til vígslu 1521 og borið þau fyrir ríkisráðið í Björgvin og Oslo, einnig fyrir erkibiskup í Niðarósi og studdi það trúlega.

Fékk hann þá nýjan staðfestingarúrskurð allra þeirra gerninga og bréfa. Þetta jók allt þrætuna, þar þeir mæltust aldrei við fyrir hinum sama höfðingja báðir í senn, né lögðu í gerð eptir fornmanna sið. Orsakaðist þar af heimreiðir og fjárupptektir. 1524 fékk Ögmundur biskup Birni Þorleifssyni í hendur arfafé eptir Jón Dan, en hann hét að láta óskert sem undir kirkjuna var komið.

Eptir dauða Björns Guðnasonar þóttist Björn Þorleifsson eiga fé Jóns Dans, og gaf þar af í arflausn mót öðrum börnum sínum Þorleifi syni sínum, er prestur varð á Reykhólum, Sæból með algerfu, Villingadal, Brekku og enn fleiri jarðir. En börn Björns Guðnasonar héldu þeim jörðum. Torfi sonur Björns Guðnasonar var þá tvítugur; honum stefndi Þorleifur son Björns Þorleifssonar til alþingis undir dóm Ögmundar biskups, fyrir hald á jörðum þessum og peningum. (Þorleifur var þá enn ei orðinn prestur til Staðar, utan máske heimilisprestur á Reykhólum). Dæmdi Ögmundur biskup á prestastefnu á alþingi Torfa og þá menn, sem héldu þeim jörðum skylduga að skila þeim Þorleifi og svo fríðum peningum, hvorttveggja með lagaárepti innan hálfsmánaðar að heyrðum þeim dómi. Einnig dæmdi hann Sigríði dóttur Björns Guðnasonar til að skila aptur Gerðhömrum, Arnarnesi og Skaga og öllum þeim jörðum, sem voru af eignum Jóns Dans og þau systkin héldu, með landskuldum, tollum og lagaárepti öllum innan hálfsmánaðar að áðurheyrðum dómi. En ef þau vildu það ei gera skyldi Þorleifur mega að sér taka téðar jarðir og peninga, hvar sem hann stæði þá.

Eptir það stefndi Torfi Birni Þorleifssyni utan og fyrir Friðrik kong, fór og sjálfur utan, en ei Björn Þorleifsson og enginn af hans hendi, því fékk Torfi staðfestingu konungs upp á sín mál. Síðan dó Torfi, en bréfin komu út ei að síður og voru lesin upp á alþingi í lögréttu, var þeim ekki sinnt og kváðu það niðjar Björns Guðnasonar makt og ríki Ögmundar biskups, því hann efldi Björn Þorleifsson að öllu því máli. Var þó að kenna sjálfum þeim, er þeir báðir báru ei undir sama höfðingja í senn sín mál, þó þetta væri um 1524 og þrætan hafði svo lengi staðið. Stóð svo enn um hríð og hver hafði það af fénu, er náði. Björn Þorleifsson hafði selt Hannesi Krako Stað í Aðalvík og fleiri þrætujarðir. Jóhann

Krako í Björgvin erfði bróður sinn og seldi Ögmundi biskupi Stað í Aðalvík og fleiri þessar þrætujarðir fyrir 600 mörk í gulli, silfri og varningi.

Guðrún eldri dóttir Björns Guðnasonar var þá gipt sínum eldra manni Hannesi Eggertssyni, sem frá 1513 til 1524 var ýmist hirðstjóri eða í hirðstjóra stað. Hann sigldi með konu sína eptir að hann hafði sleppt hirðstjórn og klagaði fyrir kongi, að biskup Ögmundur hefði fyrir sér og konu sinni haldið Vatnsfirði, Stað í Aðalvík, Hvammi í Hvammssveit, Ásgarði og fleiri jörðum, og að Björn Þorleifsson hefði gefið biskupi Stað í Aðalvík til málafylgis. Kom þetta mál fyrir Erlend lögmann Þorvarðsson á alþingi 1530 — með Erlendi lögmanni var þá af kongi tilsettur Þorleifur Pálsson sem yfirdómari — sem með 24 mönnum dæmdu þar í sama ár; lagði Ögmundur biskup fram rök, að Vatnsfjörður hefði þrem sinnum verið dæmdur beneficíum Skálholtskirkju af erkibiskupinum í Niðarósi, dæmdist hann því fullkomin eign Skálholtskirkju etc. Um Hvamm og Ásgarð leiddi Ögmundur biskup vitni fram, að Ragnhildur ekkja Björns Guðnasonar hefði með samþykki Torfa sonar síns goldið báða þá garða í sakferli Björns bónda síns etc.

Ei fékk Hannes heldur sannað gjöf á Stað í Aðalvík, því biskup frambar og sannaði, að hann hefði þann garð keypt fyrir sína eigin peninga af erfingjum Hannesar Krako. Dæmdi dómurinn þá báða Hannes Eggertsson og Björn Þorleifsson skylduga að forfallalausu að fara fram fyrir kong með þau bréf, sem þeir höfðu og fá hans úrskurð um Stað. Diðrich höfuðsmaður samþykkti þennan dóm.

Rógsök þá, er biskup Ögmundur kærði til Hannesar um sig og sinn forverjara Stefán biskup fyrir kongi ofurgaf biskup fyrir bænastað dómsmanna og annara með því skilyrði, að Hannes væri sér aldrei mótsnúinn eða heil. Skálholtskirkju.

Ei getur þess, að Björn Þorleifsson hafi siglt með bréf sín fyrir kong, og Hannes girntist ei að eiga í málum við Ögmund biskup fulltrúa Björns Þorleifssonar. Líka deyði Hannes utanlands 1533, þá var enn ei þessum málum lokið. Birni Þorleifssyni var ljúft að selja þær jarðir með góðu verði, sem honum lágu fjærst og hann fékk lítinn ágóða af, en fáir treystust að kaupa þær fyrir ágangi niðja og mága Björns

Guðnasonar, sem Eggert Hannesson hans dóttursonur, Sigfús Sigurðsson Brúmann, Jón Ólafsson og Bjarni Narfason Ívarssonar, er áttu Ólöfu, Þóru og Sigríði dætur Björns Guðnasonar. Pétur Loptsson og Björn Þorleifsson höfðu jarðaskipti 1536, voru kaupvottar Ólafur Magnússon og Eiríkur í Ásgarði Guðmundsson Andréssonar; 1539 fékk Björn Þorleifsson séra Jóni Eiríkssyni Heydal og 1/2 Skálavík (þá hafa þeir báðir lifað). Nokkru þar á eptir mun Björn hafa látizt eptir miklar jarðaþrætur, hélt hann þó til dauða miklu af fé sínu með fylgi Stefáns og Ögmundar Skálholtsbiskupa.

Það er víst, að Björn hefur um hríð haldið Barðastrandarsýslu eptir föður sinn, þó hef eg engan hans dóm séð, og ei er víst að hann hafi þar verið í sífellu. Meiri efi er á, hvort hann hefur nokkurntíma haldið Dalasýslu öðruvísi en máske lítið eitt.

Hvað Björn Þorleifsson hefur haft til saka, þá Ögmundur biskup gaf honum landsvistarbréf 1531 vita menn ekki, en það gefur til kynna, að margar skærur og víg hafi í gamla daga orðið á milli manna, hvar um nú er sagnafátt, og líklegast er, að Björn hafi vegið eða sært einhvern í jarðaþrætumálum, því svo langt var síðan, að hann fylgdi flokk Eiríks á Álptanesi, þá veginn var Páll frá Skarði 1498, að það mál mætti þá vera gleymt og bætt.

Ögmundur biskup sýnist og þá að hafa haft umboð hirðstjórans Diðrich af Bramsted. Ei er ólíklegt, að biskup hafi og eflt Björn til sýsluvalda, einkum í Barðastrandarsýslu, er líkast, að það hafi verið nálægt 1500, sem hann tók þá sýslu fyrst. Kongsmaður kallast Björn og bóndi í gömlum ritum, var það þá jafnast valdsmanna nafnbót. Ei hef eg fundið dómara aðgerðir Björns, og er það gáta mín, að hann hafi um tíma haldið Dalasýslu, en mikil líkindi eru, að hann hafi haft Barðastrandarsýslu.

Þó nokkrir skrifi, að þessi Björn Þorleifsson hafi haft riddaranafnbót efa eg það, en þykir líklegt, að villst sé á nafni afa hans Björns ríka Þorleifssonar. En líkindi eru til þessa Björns sýsluvalda. Birni voru mjög útfalar jarðir þær, er hann deildi um, en færri þorðu að kaupa þó með góðu verði væru utan Skálholtsbiskupar, sem höfðu bæði andleg og veraldleg völd, beittu hvorttveggju óspart eptir sem þeim sýndist.

Björn ríki var riddari og gátu synir hans og sonarsynir erft þá nafnbót, en óvíst er, hvort það hefur á þeim tímum gengið að erfðum.

1501 á Antoniusmessu um veturinn á Reykhólum gerðu þeir Snæbjörn Gíslason, Gísli Jónsson, Arnbjörn Ingimundarson, Þorleifur Gamlason, Oddur Arason og Einar Jónsson kaupmála millum Björns Þorleifssonar og Ingibjargar kvinnu hans. Faðir Ingibjargar, Páll Jónsson, var fyrir dóttur sinnar hönd. Gaf Björn Ingibjörgu Flatey 80 hundruð (al. hundruð hundraða), svo framt Ingibjörg lifði hann og þau ættu ei börn eptir sig, en annars ei utan not Flateyjar meðan hún lifði til fulls halds og meðferðar. Páll Jónsson og hans kona Margrét Eyjólfsdóttir gáfu dóttur sinni Ingibjörgu í heimanfylgju 26 hundruð í lausafé og jörðina Deildará 24 hundruð með sömu skilmálum.

## Torfi Jónsson.

(Sjá um hann við Rangár- og Árnessþing).

Hann bjó síðast í Klofa og hafði um þessar mundir Rangár- og Árnessþing. 1497 tjáist hann hafa verið kongsumboðsmaður milli Gilsfjarðar og Skraumu, því þá lét hann dóm ganga á Staðarhóli í Saurbæ með 6 mönnum og lét dæma Birni Guðnasyni allan arf eptir Solveigu Björnsdóttur, (því börn Páls og hennar væru getin í fjórmenningsmeinum. NB. Dómur sá sannar, að Solveig var þá dáin). Hvenær Torfi tók Dalasýslu eða sleppti henni veit eg ei. En starfsamt varð honum í hinum sýslunum og mun hann hafa stutta stund haldið Dalasýslu. Er líkast, að Sturla Þórðarson hafi hana optast haldið um þessar mundir[1]).

Torfi deyði 1502 eða 1503.

## Ólafur Guðmundsson.

*Faðir:* Guðmundur Þórðarson í Skötufirði.
*Móðir:*
*Kona:* Soffía dóttir Narfa Þorvaldssonar á Narfeyri. Hann gaf dóttur sinni í heimanmund Tjaldanes.

---

1) Um sýslumannaröðina í Dalasýslu á þessum árum sjá hér að framan bls. 552—558 neðanmáls.

*Börn:* A. Jón sýslumaður í Hjarðardal (sjá síðar).
B. Finnur Ólafsson átti Hildi Snorradóttur, þ. b.:
a. Ólafur átti Sigríði Sveinsdóttur (systur Bjarna Sveinssonar, en dóttur Sveins Jónssonar bróður Sesselju, er Eggert lögmaður Hannesson hélt við), þeirra börn:
aa. Sveinn.
bb. Hallbjörg fyrri kona Torfa á Gerðhömrum, áttu afkvæmi.
C. Soffía Ólafsdóttir giptist 1530 Þorgils Jónssyni. Skildi Ólafur til af Þorgilsi fjórðungsgjöf handa dóttur sinni.

Þá Björn bóndi Þorleifsson og Ögmundur Tyrfingsson sömdu um arfstilkall Björns, vegna Páls Jónssonar mágs síns til Sigríðar Jónsdóttur konu Ögmundar, er sest hafði í arf eptir Pétur Jónsson bróður þeirra, samþykkti það Ólafur Guðmundsson í Þernuvík 1515 kongsumboðsmaður milli Gilsfjarðar og Gljúfurár þeirra samning, og 1513 finn eg Ólafs fyrst getið sem sýslumanns í Dalasýslu. En í Ísafjarðarsýslu er hann orðinn sýslumaður 1530, því þá dæmir hann í Önundarfirði um ótekna jörð, sem taldist arfur barna Jóns, sonar Björns Guðnasonar. 1536 dæmir hann í Ögri um barnsframfæri. 1540 dæmir hann um ákæru Guðrúnar Björnsdóttur Guðnasonar til Fúsa Brúmanns. Nær hann tekið hefur eða sleppt Dalasýslu er mér óljóst. (Sjá meira um hann við Ísafjarðarsýslu[1]). 1543 finn eg hans víðast getið sem valdsmanns. Eg hygg hann hafi stutta stund haft Dalasýslu, en tekið Ísafjarðarsýslu nokkru eptir Björn Guðnason. 1524 á Reykhólum var Ólafur bóndi Guðmundsson vottur að gerningi Ögmundar biskups við Björn Þorleifsson.

## Sturla Þórðarson.

(Sjá um hann við Snæfellsnesssýslu).

Hann lét dóm ganga í Dalasýslu 1491 (sjá Halldórsbók) og 1494 lét hann dóm ganga í Hjarðarholti um vígsbætur eptir Böðvar Loptsson dæmt 30 hundruð. 1499 og 1500 hefur hann nefnt menn í dóm í Dalasýslu. 1509 nefnist

---

1) Bls. 177—178 hér að framan.

hann sýslumaður milli Gilsfjarðar og Gljúfurár (sjá Hrafnabjargamáldaga). 1517 er hann í Leiðarhólmssamþykkt og nefnist þá sýslumaður í Dölum. 1524 er hann í brúðkaupi Jóns Þórðarsonar á Hvoli og Sigríðar Halldórsdóttur og undirskrifar þeirra kaupmálabréf. Hann var í seinni tíð haldinn mikill höfðingi og hafði ýmsar sýslur. Ei veit eg víst áratal á hans sýsluvöldum, og ei hvenær hann algerlega sleppti sýslum eða deyði.

## Daði Guðmundsson.

(Sjá um hann við Snæfellsnessýslu).

Þó ei viti eg [með] vissu og efa, hvort hann tók um tíma Dalasýslu nálægt 1530 set eg hann hér um þetta leyti litla hríð. En líkindi eru til þess, að hann hafi máske haldið Dalasýslu fyrir 1540 eitt eða tvö ár, þó er það eigi víst. Hitt var víst, að hann tók Dalasýslu 1554 eða þar um bil og hélt hana ásamt Snæfellsnessýslu 4 eða 5 ár. Hans sýsluvalda í öðrum sýslum get eg ei með vissu sagt, hitt er víst, að hann hafði Mýra-, Hnappadals-, Snæfellsnes-, Dala- og máske Strandasýslur, þó ei allar undir eins[1]). 1560 veiktist Daði og deyði 1563.

## Þorleifur Pàlsson

(sjá um hann hér síðar). En líklegt er, að Þorleifur Pálsson hafi þá haldið Dalasýslu um 1530, því þá var hann af konungi settur yfirdómari í lögréttu.

## Jón Þórðarson.

*Faðir*: Þórður. Ei veit eg hverrar ættar.
*Móðir*: Elín dóttir Páls Guðmundssonar[2]), en systir Ög-

1) Við Daða Guðmundsson hefur Bogi sett svolátandi athugun á spássíu: »Hafi Daði verið sýslumaður í Dalasýslu nálægt 1530 hefur það verið í annara umboði, og 1535 í landamerkjadómi millum Arnarbælis og Dagverðarness kallar Daði sig umboðsmann Ögmundar biskups, en biskup nefnir Daða kongsumboðsmann í Dalasýslu 1535«.

2) Páll var Jónsson (sjá hér að framan bls. 594). Ætt frá Jóni Þórðarsyni á Hvoli systursyni Ögmundar biskups er mjög ítarlega rakin í Biskupas. II. bls. 277—292, og sumstaðar lengra nið-

mundar biskups. Guðmundur þessi faðir Páls bjó fyrir vestan og var nafnbótalaus. Margrét Ögmundardóttir var kona Páls; hún var af ríkum ættum, voru þeirra börn: 1. Ögmundur biskup, 2. séra Egill, 3. Ásdís, 4. Elín nýnefnd og 5. Salný.

*Kvinna Jóns*: Sigríður dóttir Halldórs Tyrfingssonar, sem var prófastur 1502, hélt Staðarhól sem beneficíum í 27 ár, seinast var hann ábóti á Helgafelli, auðmaður.

[Þorleifur Svartsson Þorleifssonar (fæddur 1307 dó 1379) átti Reykhóla og aðrar miklar eignir; hans son Ólafur tóni sá fyrri, sem drukknaði í Steinólfsdalsá 1393. Hans dóttir Guðrún átti Geirmund Herjólfsson, þeirra synir: Ólafur yngri tóni á Rauðamel, fóstraður af Straumfjarðar-Höllu og Sigurður á Hvoli í Saurbæ, sem var dóm maður í þeim 12 manna dómi, er Þorleifur Björnsson útnefndi á Staðarhóli 1479 um arfleiðslu Stefáns Loptssonar. Son Sigurðar var Oddur, átti og bjó á Hvoli. Hann átti fyr Oddnýju Finnsdóttur frá Ökrum, þeirra son: Tómas á Borg átti Guðrúnu laundóttur ríka Fúsa á Borg, þeirra einn son var Oddur í Öskjuholti átti Sesselju dóttur Orms Einarssonar, þeirra son Bjarni Oddsson á Skarði etc.

---

ur en Bogi gerir, en frásögn hans er hér um bil samhljóða Biskupasögunum, því að hann hefur haft fyrir sér ættatölubók séra Jóns Ólafssonar á Lambavatni, sem þáttur Ögmundar biskups (í Biskupas.) er prentaður eptir. Við þennan ættbálk virðist því óþarft að setja frekari athugasemdir hér. Þess skal að eins getið, að athugasemd Jósafats ættfræðings á bls. 547 um skyldleika Ögmundar biskups og Halldórs ábóta Tyrfingssonar, að þeir hafi verið bræðrasynir, getur ekki verið rétt, því að þá hefðu þau hjónin Jón Þórðarson og Sigríður dóttir Halldórs verið þremenningar að frændsemi (öðrumeginn: Páll Jónsson — Elín — Jón, hinu meginn: Tyrfingur Jónsson — Halldór — Sigríður), en það var ekki leyfilegt í pápiskum sið. Þau Jón og Sigríður giptust 1524. Aths. á bls. 547—48 um skyldleika Ögmundar biskup og Halldórs ábóta ætti því að falla burtu, en verið getur, að þeir hafi verið eitthvað fjarskyldari en þar er sagt.

Síðari kvinna Odds Sigurðssonar var Helga Sigurðardóttir, þeirra börn Guðrún og Sigurður rebbi í Búðardal faðir Jóns refs í Búðardal etc. Oddur Sigurðsson deyði á Hvoli 1506, voru þá gerð arfaskipti millum þessara systkina. Tómasi skiptist Hvoll L hundruð og eyjarnar: Eyjólfsey, Heiðarey, Hvítbjarnarey og Álfhildarey og Æðasker, eru það XX hundr. (kallast Oddsnautur). Sigurði skiptist Víðidalsá XXIV hundr., Minni-Kroppur XX hundr. og lausafé XX hundr. og þar til VI hundr. við þann mun, sem Víðidalsá var lakari en Hvoll að jöfnum arfaskiptum Guðrúnar Oddsdóttur. Skiptist Brunná XVI hundr. og lausafé og hafði Tómas umboð systkina sinna.

Tómas var og ríkur maður, og er skrifað hann hafi selt Ögmundi biskupi Staðarhól fyrir XXXIV hundr. í kirkjureikning árið 1524 og þar með jörðina Gilsfjarðarmúla XXX hundr. með VI kúgildum. Hvernig þessum Staðarhólskaupum er varið, að Tómas skyldi eiga og selja Staðarhól er óljóst. Þó er mín meining, að ríki Fúsi á Borg hafi náð hálfum Staðarhól, og haft að engu eða litlu dóm Magnúsar biskups, að hann væri beneficíum, en talið hálfan sem kirkjueign. Staðarhól hefur hann fengið dótturmanni sínum Tómasi, en Tómas illa treyst sér að halda Staðarhól fyrir ríki Ögmundar biskups og kirkjureikningaklögun, upp á hverja hann hefur þá verið orðinn skyldugur. Í arfaskiptum eptir Odd Sigurðsson á Hvoli voru, sem undir hafa skrifað skiptabréfið: Ari Andrésson, (sem máske hefur þá verið sýslumaður), Guðmundur Finnsson, Jón Jónsson, Egill Jónsson, Arnór Finnsson og Jón Oddsson, (sem annars er fyrstur talinn við skiptin á Hvoli 1506)].

Jón áðurnefndur son Þórðar og Elínar var fyrst smásveinn hjá Ögmundi biskupi móðurbróður sínum, hjálpaði biskup svo Jóni til giptingar 1524 og gaf honum til konarmundar Brekkur báðar í Saurbæ XL hundr., einnig Líney, Trésey og Galt-

arey XVI hundr., þar til taldi Jón sér hálfa Saurbæjarfjöru fyrir XX hundr. og enn XLIV hundr. alls eitt hundrað hundraða. En Sigríði Halldórsdóttur voru talin til giptingar Hvoll L hundruð og þar til X hundr. Kaupvottar voru: Ólafur Guðmundsson (í Hjarðarholti), Páll Ólafsson prestur, Sturla Þórðarson (sýslumaður), Þorleifur Pálsson, Sigurður Narfason og Sigurður Oddsson. Líklegt er, að Ögmundur biskup hafi í jarðaskiptum útvegað Jóni Þórðarsyni Hvol frá erfingjum Tómasar.

*Börn* Jóns Þórðarsonar, sem til aldurs komu eru:

A. Guðmundur lögréttumaður (í tíð Orms Sturlusonar). Hann var kallaður lögvitur maður og var í Stóradómi 1564. Hann hafði lengi umboð Gísla biskups Jónssonar á Vestfjörðum. Var spakvitur og nærgætinn um flest. Hann sagði fyrir sinn dauðdaga og ráðstafaði sínu húsi og gaf mörgum ættmönnum sínum gjafir. Hann erfði Hvol og deyði þar 30. október 1595. Hann sagði og fyrir andlát séra Lopts Narfasonar, er dó 4 dögum fyr en hann. Kvinna Guðmundar var Þórunn dóttir Sigurðar Oddssonar í Búðardal og Steinunnar Sturludóttur, þ. b.:

a. Jón lærði innanlands og síðan 5 ár í Kaupenhöfn, svo 3 ár í Bremen, varð Baccalaureus artium, kom út og var 4 ár skólameistari í Skálholti, var í biskupskosningu 1588, fékk vonarbréf fyrir Hítardal og fór þangað 1590, þá séra Loptur uppgaf við hann staðinn. Giptist 1595 Guðríði dóttur Gísla lögmanns Þórðarsonar og Ingibjargar Árnadóttur frá Ytra-Hólmi. Taldi séra Jón sér þá II hundr. hundraða, en henni voru gefin LI hundr. og erfði meir seinna, þar í Indriðastaðir og 1/2 Lambastaðir. Séra Jón átti Hvol og fleiri smájarðir. Hann var prófastur í Mýrasýslu. Varð sjónlaus sín 7 síðustu ár, deyði í Hítardal 7. febrúar 1634 78 ára (al. 86

ára). Guðríður varð á sínum síðustu árum sjúk af spitelskri tegund. Andaðist 1620. Erfingjar þeirra útveguðu frá Holllandi 2 líksteina með latínuletri, kostuðu 40 rd. spec., þeirra börn:

aa. Guðmundur stúderaði í Kaupenhöfn og Brimum, fékk vonarbréf fyrir Hítardal, en deyði óvígður í Kaupenhöfn 1617, hálærður.

bb. Helga varð 1634 seinni kona Jóns sýslumanns Sigurðssonar í Einarsnesi, þeirra börn dóu ung.

cc. Þórunn giptist 1632 séra Gunnari frá Hofi Björnssyni, hann hélt Höskuldsstað, þ. b.:

aaa. Guðríður deyði ung.

bbb. Guðríður önnur giptist Mag. Gísla Vigfússyni Gíslasonar og Katrínar Erlendsdóttur, þ. b.:

= Jón klausturhaldari.

= Guðrún.

dd. Guðrún seinni kona séra Sigurðar Oddssonar 1636, þ. b.:

aaa. Gísli.

bbb. Séra Sigurður á Staðastað (faðir Odds lögmanns).

ccc. Guðríður.

ee. Kristín giptist 1645 Sigurði sýslumanni í Einarsnesi Jónssyni (sjá Mýrasýslu).

ff. Gísli, góðmenni, vel framaður og fallega lærður, lánlítill. Nýkominn úr siglingu sór hann fyrir Hildi Styrsdóttur; mót vilja föður síns giptist hann Þóru dóttur séra Jóns Jónssonar á Staðarhrauni, áttu þau 5 börn, varð bændafólk. Gísli átti 2 börn með seinni konu föður síns. Síðan rataði hann í þjófnaðarmál, var þar fyrir fengið náðarbréf og frelsisbréf kongs. Gísli bjó fyrst á Indriðastöðum, seldi þá fyrir Öskjuholt séra Sigurði

í Stafholti og séra Þórði í Hítardal og flutti þangað.

gg. Þórður lærði hér og síðan í Kaupenhöfn 2 ár og attesteraði. Fékk kongsbréf fyrir Hítardal og var þangað vígður af Oddi biskupi til capellans 1630, fékk brauðið 1634, giptist Helgu dóttur Árna lögmanns 1642. Séra Þórður átti Hvol að erfðum, en keypti Sauðafell og margar aðrar jarðir. Helgu var gefin mestöll Leirá í heimanfylgju. Séra Þórður deyði 1670. Helga bjó síðar í Hjörsey, þeirra börn:

aaa. Þorsteinn á Hrafnabjörgum og síðar á Skarði, átti Arnfríði Eggertsdóttur og börn (sjá Barðastrandarsýslu).

bbb. Guðríður átti Jón biskup Vigfússon (sjá Borgarfjarðarsýslu).

ccc. Jón dó ungur.

hh. Gísli launsonur séra Jóns Guðmundssonar, lauslátur svallari, giptist fyrst Þorbjörgu Nikulásdóttur Jónssonar, þeirra börn:

aaa. Sigmundur drukknaði.

bbb. Herdís átti launson.

ccc. Guðrún giptist.

ddd. Guðrún yngri og

eee. Gísli varð allt bændafólk.

Gísli Jónsson giptist aptur Helgu Einarsdóttur. Gísli giptist í þriðja sinn Ingigerði Þorvaldsdóttur; þ. börn.

fff. Þorvaldur.

ggg. Þorkell.

ii. Bjarni launsonur séra Jóns átti Guðrúnu dóttur séra Jóns Jónssonar á Staðarhrauni og Þóru Högnadóttur, þ. b.:

aaa. Finnur.

bbb. Þóra.
ccc. Þorbjörg.
ddd. Guðmundur.
eee. Jón.
fff. Guðlaug. Margt fólk er komið af téðum börnum.
Launbörn Bjarna með Þóru Jónsdóttur voru hér að auki:
ggg. Jón.
hhh. Ingiríður.

b. Halldóra Guðmundsdóttir systir séra Jóns, giptist séra Guðmundi á Reykjanesi Jónssyni, þeirra börn:
aa. Séra Einar á Stað á Reykjanesi, átti börn.
bb. Tyrfingur vel lærður dó utanlands, bl.
cc. Jón dó ógiptur, barnlaus.
dd. Bjarni giptist og átti mörg börn.
ee. Þórdís átti séra Arnfinn Sigurðsson og mörg börn.
ff. Guðrún átti séra Halldór Jónsson og börn.
gg. Svanborg átti Bjarna á Dunk og börn.

c. Helga Guðmundsdóttir átti Árna Loptsson í Sælingsdalstungu. (Hann átti Ytrafell, Vík í Hrútafirði og Breiðabólsstað), þeirra börn:
aa. Sigríður.
bb. Hallfríður.
cc. Guðmundur, barnlaus.
dd. Pétur giptist og átti börn.
ee. Guðmundur annar giptist og átti mörg börn.
ff. Þuríður giptist og átti börn.
gg. Loptur tvígiptur, átti börn.

d. Helga Guðmundsdóttir önnur átti Eirík Steindórsson frá Ökrum í Hraunhreppi (efnaður), þ. b.:
aa. Jón giptist og átti börn.
bb. Steindór giptist og átti börn.
cc. Vigfús giptist 1654 og átti börn. Hann

var fyrst þénari hjá Pétri Pálssyni og svo hjá Ara Magnússyni.

dd. Ragnhildur tvígipt átti börn.

e. Oddný Guðmundsdóttir átti séra Magnús í Hvammi Pétursson, börn:

aa. Guðrún tvígipt, fyrst séra Jóni í Hítarnesi, átti börn.

bb. Helga átti Guðmund son séra Þórðar Brandssonar og börn.

B. Bjarni Jónsson giptist Guðrúnu Arnfinnsdóttur, börn:

a. Arnfríður.

b. Ögmundur.

c. Gísli.

d. Gunnlaugur.

e. Þorkatla.

f. Sigríður.

g. Björg.

h. Oddný og fleiri. Áttu marga afkomendur.

C. Þorvarður og

D. Eiríkur Jónssynir, dóu báðir barnlausir.

E. Ögmundur drukknaði 15 vetra ásamt fleirum á Gassaskerjum af Staðarhóls-Páli[1]).

F. Guðrún Jónsdóttir átti Jón son Péturs í Saurbæ, börn:

a. Jón.

b. Halldóra.

G. Helga átti Jón Björnsson, þ. b.:

a. Björn.

b. Guðmundur.

c Eiríkur.

H. Þórður Jónsson deyði barnlaus. Alls átti Jón Þórðarson 18 börn, dóu 9 ung, mörg af hans börnum voru frillubörn.

Jón var mesti kvennamaður og eyddist honum fé vegna barneigna sinna, því andlegrar stéttar menn gengu ríkt eptir sektum.

---

1) Sbr. bls. 201 hér að framan.

Af því dr. Hannes biskup Finnsson kallar þennan Jón Þórðarson sýslumann í ættartölu frú Þórunnar Ólafsdóttur pag. 18, set eg hann hér í sýslumannatölu, þó eg hafi ekkert annað fyrir mér í því. Sé það satt, er líkast hann hafi verið um hríð sýslumaður annaðhvort 1531, þá Ögmundur biskup hafði hirðstjóraumboð eða eptir 1536, þá biskupar tóku að sér hirðstjórn. (1535 var Daði í Snóksdal sýslumaður í umboði Ögmundar biskups). Oddur Tómasson í Öskjuholti hefur kvittað Jón Þórðarson 1547 fyrir það tillkall, sem Oddur hafði til Hvols; hefur Jón þá lifað.

Eptir dauða Jóns giptist Sigríður Halldórsdóttir Erlendi Jónssyni.

## Jón Ólafsson.

*Faðir*: Ólafur sýslumaður í Þernuvík (sjá áður).

*Móðir*: Soffía Narfadóttir (sjá áður)

*Fyrri kona*: Þóra dóttir Björns sýslumanns Guðnasonar.

*Son*: Torfi sýslumaður á Kirkjubóli í Langadal atti Þorkötlu Snæbjarnardóttur frá Keldum, hennar móðir var Katrín frá Þykkvabæ (sjá Barðastrandarsýslu).

*Önnur kona*: Ingun dóttir séra Brynjólfs í Odda Halldórssonar, þeirra börn:

A. Brynjólfur átti Bríetu dóttur séra Pantaleons Ólafssonar á Stað í Grunnavík[1]), þeirra dóttir:

a. Guðrún átti séra Ísleif Styrkársson á Stað í Hrútafirði 1594 til 1614, þ. b.:

aa. Guðrún átti Árna son séra Jóns á Snæfjöllum[2]) og börn.

---

1) Síðari maður Bríetar Pantaleonsdóttur var séra Jón Styrkársson á Álptamýri son séra Styrkárs Hallssonar í Vesturhópshólum og bróðir séra Ísleifs á Stað í Hrútafirði, er átti Guðrúnu eldri Brynjólfsdóttur, stjúpdóttur séra Jóns.

2) Séra Jón Þorleifsson á Snæfjöllum var á lífi 1636 eða lengur. Hann giptist Guðrúnu Brynjólfsdóttur eptir séra Ísleif látinn og hefur þá verið gamall og þau bæði. Synir hans Árni og Bjarni með Sesselju f. k. hans áttu stjúpdætur hans, Guðrúnar tvær, dætur séra Ísleifs og Guðrúnar Brynjólfsdóttur.

bb. Guðrún önnur átti Bjarna son Arnórs í Furufirði[1]) og börn.

cc. Bríet átti séra Eyjólf Ásmundsson í Grímsey[2]) og börn. (Bríet giptist aptur þá séra Eyjólfur andaðist).

dd. Þuríður átti Alexíus son Magnúsar Alexíussonar í Gufudalsþingum, bl.[3]).

---

1) Mun réttara Bjarna son séra Jóns Þorleifssonar á Snæfjöllum. En kona Bjarna Arnórssonar í Furufirði er hjá Snókdalín o. fl. talin Guðrún yngri Brynjólfsdóttir, systir Guðrúnar (eldri) konu séra Ísleifs. En að sá Bjarni hafi verið bróðir séra Bjarna Arnórssonar í Dýrafjarðarþingum (sjá hér síðar), eins og Snókdalín telur, mun skakkt.

2) Séra Eyjólfur bjó í Laugardal í Tálknafirði, eptir að hann missti prestskap (á Brjánslæk). Hann var aldrei prestur í Grímsey, en ættaður þaðan, kominn af Hróðnýju Sigurðardóttur, föðursystur Odds biskups Einarssonar (Bisks. II. 673). Þar (í Bisks.) er kona hans talin Bríet Brynjólfsdóttir (dóttir Brynjólfs Jónssonar í Hjarðardal sbr. aths. Bisks. II. 669), en það er skakkt, enda getur það naumast staðizt tímans vegna. Börn séra Eyjólfs og Bríetar Ísleifsdóttur voru:

a. Jón drukknaði ókv. og bl. 1665.

b. Guðrún átti Jón Aronsson.

c. Guðrún önnur átti Torfa Úlfsson Guðmundssonar prests á Gilsbakka Einarssonar og þrjá syni: Jörund, Guðmund og Sigurð.

Síðari kona séra Eyjólfs var Þórunn Vigfúsdóttir, og þeirra börn: Þorlákur, Guðrún og Bríet (sbr. Bisks. II. 673). Það er því ekki rétt, sem Bogi telur, að Bríet hafi gipzt að séra Eyjólfi látnum.

3) Réttara mun, að Alexíus maður Þuríðar hafi verið Sigurðsson Alexíussonar og svo er talið í Bisks. II. 669, en þó er það nokkuð óvíst, því að séra Jón Ólafsson virðist telja hann Magnússon á einum stað. Þuríður giptist aptur Eiríki syni séra Gísla Einarssonar bróður Odds biskups, en ekki er getið um, að þau hafi börn átt. Ingunn er og enn talin dóttir séra Ísleifs og Guðrúnar Brynjólfsdóttur, en í ýmsum ættartölum (þar á meðal séra Jóns Ólafssonar) er þessum dætrum séra Ísleifs og Guðrúnar slengt saman við móðursystkin sín, börn Brynjólfs Jónssonar, og af því stafar ýmiskonar annar ruglingur í þessari ætt, sem illt er úr að greiða, en þó mun það réttast, er hér hefur talið verið.

ee. Þórunn[1]) átti Arnór á Kirkjubóli í Valþjófsdal í Önundarfirði Símonarson Þorgautssonar í Kálfholti og mörg börn.

B. Ólafur Jónsson í Hjarðardal í Dýrafirði átti Ingibjörgu dóttur séra Jóns Þorleifssonar í Gufudal, börn:

a. Þóra giptist fyrst Birni syni Þorvalds Björnssonar. [Björn og hans bróðir Halldór erfðu báðir Stóra- og Litla-Holt samt Hvítadal og Brunná, en Tyrfingur og Björgólfur keyptu bæði Holtin og Brunná fyrir jarðir kvenna sinna (Hvamm LX hundr., Gemlufall XXIV hundr. í Dýrafirði)]; son Björns og Þóru var:

aa. Þorvaldur söngmaður einsýni, sem átti Jarþrúði dóttur Ólafs launsonar Björns Eggertssonar.

Þóra giptist aptur Jóni undir Núpi Gissurarsyni (sjá Ísafjarðarsýslu).

b. Ólöf Ólafsdóttir giptist Bjarna Þorleifssyni, sem átti Mýrar í Dýrafirði og seldi Jóni Magnússyni fyrir Breiðaból, Bakka og Skálavík, börn:

---

1) Þórunn þessi er hér ranglega talin dóttir séra Ísleifs og Guðrúnar, en ættatölur telja hana ýmist dóttur Jóns Ólafssonar sýslumanns og systur Brynjólfs (sjá hér síðar), eða þá dóttur Brynjólfs, og svo telur séra Jón Ólafsson og mun það réttast, þótt hann að öðru leyti ruglist í ætt þessari. Séra Bjarni í Dýrafjarðarþingum son Arnórs og Þórunnar mun fæddur litlu fyrir 1600, en hann andaðist 1656. Kemur þá vel heim, að Þórunn móðir hans sé dóttir Brynjólfs (fædd um 1570), en systir hans getur hún tæplega verið tímans vegna. Hvenær Jón kvæntist í síðara sinn vita menn ekki, en börn hans með s. k. munu þó naumast fædd fyr en á árunum 1540—1550.

Samkvæmt því sem hér hefur verið talið hafa dætur Brynjólfs Jónssonar og Bríetar Pantaleonsdóttur verið: Guðrún kona séra Ísleifs Styrkársonar, Guðrún önnur kona Bjarna Arnórssonar í Furufirði (þó nokkuð óvíst) og Þórunn kona Arnórs Símonarsonar.

aa. Brynjólfur[1]).
bb. Björn[2]).
cc. Vigdís[3]).

---

1) Brynjólfur var skólagenginn, átti Herdísi Jónsdóttur Styrssonar, systur séra Jóhanns í Otrardal, þ. b.:
a. Bjarni prestur í Dýrafjarðarþingum, dó ókv. bl.
b. Þorleifur drukknaði fyrir Sæbóli, kom drukkinn frá ensku skipi, (mun vera sami og Ó. Snókdalín nefnir Þorstein, og átt hafi Ástu Guðmundsd. frá Næfranesi og dáið bl.).

2) Björn átti Ingibjörgu Þorsteinsdóttur Ormssonar, þ. b.:
a. Þorsteinn á Bakka í Skálavík faðir Björns á Bakka föður Páls (föður Jóns í Skálavík), Hákonar á Gelti við Súgandafjörð (föður Jóns og Árna) og Sigríðar móður Unnfríðar Örnólfsdóttur, móður Guðrúnar Sigurðardóttur, er átti Brynjólf Tómasson á Grundarhóli, þ. b.: Bárður, Kjartan, Guðmundur, Sigurður o. fl.
b. Magnús. Hans börn:
  aa. Sigmundur († 1754). Hans synir: a) Jósep faðir Sigmundar, Péturs á Hrafnfjarðareyri, Jóseps á Kerlingarstöðum o. fl. og b) Magnús á Nesi í Grunnavík faðir Ólafs á Höfða í Grunnavík, er átti Bergljótu Hjaltadóttur prests Þorbergssonar.
  bb. Ingveldur átti Jón, þeirra son Guðmundur »blakk«.
  cc. Sigríður átti Einar Jónsson í Reykjarfirði, þ. b.:
    aaa. Júdit átti Þorlák í Minnihlíð Kolbeinsson frá Skálavík Magnússonar Bergssonar lögréttumanns á Hjalla Benediktssonar, þ. b.: a) Jón í Minnihlíð faðir Ásbjarnar, Júditar, Einars o. fl. systkina og b) Sesselja kona Ketils Guðmundssonar.
    bbb. Helga fyrsta kona Jóns Guðmundssonar á Hanhóli bróður Ketils.

3) Vigdís átti Ólaf á Suðureyri Ólafsson Björnssonar Eggertssonar lögmanns Hannessonar, þ. b.:
a. Þórólfur.
b. Ólöf átti Arngrím Jónsson frá Sælingsdalstungu Arngrímssonar lærða á Melstað, þ. b.:
  aa. Margrét átti séra Guðmund Vernharðsson í Selárdal.
  bb. Ingibjörg 1. kona Finns Nikulássonar (sbr. bls. 282 aths. 1).
  cc. Ólafur átti Guðrúnu Ívarsdóttur Sturlusonar (sbr. bls. 282).
  dd. Jón átti Ingibjörgu Þorláksdóttur prests á Staðarbakka Arngrímssonar.

dd. Guðlaug[1]).

C. Bjarni Jónsson á Kirkjubóli í Dýrafirði átti Guðrúnu (eg meina frillu-)dóttur Jóns Björnssonar í Flatey, börn:

a. Guðrún átti fyr Fúsa Fúsason Brúmanns, börn:
aa. Þórður.
bb. Bjarni.
cc. Agnes.
Síðan átti hún Jón Grímsson Tómassonar prests[2]) Pálssonar.

b. Séra Brynjólfur í Hjarðarholti sigldi. Vígðist fyrst til kirkjuprests í Skálholti og giptist þar Bergljótu laundóttur Odds biskups Einarssonar og biskups-Fríðu[3]), börn:
aa. Jón[4]).
bb. Kristín[5]).
Seinna giptist séra Brynjólfur Sigríði dóttur séra Þórðar Moldar-Brandssonar, áttu 2 börn, sem dóu ung. Þriðja kvinna séra Brynjólfs var Valgerður dóttir Guðmundar Þórðarsonar fátæks bónda. Eptir dauða séra Brynjólfs giptist hún lulladreng, sínu jafnræði.

c. Séra Þorleifur Bjarnason á Söndum átti Herdísi dóttur Bjarna Björnssonar á Læk, þ. b.:
aa. Þorleifur.
bb. Bjarni.
cc. Jón.

---

1) Guðlaug átti Hávarð smið Guðbrandsson.

2) Þessi Tómas prestur mun vera séra Tómas Pálsson, er prestur var í Ögurþingum á 16. öld.

3) Þ. e. Hallfríðar Bergsteinsdóttur. Verður hennar síðar getið.

4) Jón var mikill »blótkompán« segir í Bisks. II. 666, bjó í Langadal á Skógarströnd. Eitt barna hans var Björn lögsagnari á Staðarfelli (sjá hér síðar).

5) Kristín átti Guðmund son Björns Guðmundssonar í Stóraskógi.

dd. Ólafur prestur, barnlaus[1]).
ee. Ólöf.
ff. Þórunn[2]).

d. Séra Torfi á Rauðasandi og Stað í Grunnavík átti Margrétu dóttur séra Bjarna í Selárdal, þau barnlaus. Séra Torfi átti launson, hét Einar[3]), hann giptist og átti börn, erfðu þau afa sinn.

---

1) Ólafur var prestur á Söndum eptir föður sinn, dó 1696.

2) Enn var dóttir séra Þorleifs og Herdísar:

gg. Kristín átti Magnús timburmann á Kúlu í Arnarfirði, son Guðmundar prests Skúlasonar á Rafnseyri og Dísar Bjarnadóttur frá Selárdal, þeirra son:

aaa. Torfi lögréttumaður á Keldu faðir Kristínar, er fyr átti séra Andrés Gíslason í Otrardal, en síðar séra Hallgrím Jónsson á Rafnseyri.

3) Móðir Einars Torfasonar var systir Jóhönnu Einarsdóttur, konu séra Gottskálks Oddssonar í Miðdal. Bjó Einar Torfason á Felli í Biskupstungum, dó um 1664. 20. marz 1653 gerði hann í Skálholti kaup við Brynjólf biskup um Bergsholt í Staðarsveit með ráði og samþykki Jóns Brynjólfssonar frænda síns. Kona Einars Torfasonar var Steinunn Einarsdóttir frá Haukadal, Gestssonar á Brekku Gissurarsonar, systir Þorsteins yfirbryta í Skálholti, Hermanns á Iðu (föður Eiríks aðstoðarprests í Miðdal) og Gests í Úthlíð, móðurföður séra Gests Árnasonar á Kjalarnesi. Synir Einars og Steinunnar voru:

a. Sigurður bjó á Vatnsleysu, dó ungur um 1666.
b. Bjarni bjó í Helludal í Biskupstungum. Börn hans munu hafa verið: Egill er bjó á Felli 1729 og átti Ólöfu Grímsdóttur og Halldóra, er átti Lopt Ásbjörnsson í Laugarási, síðar í Fjalli, bróður Jóns í Miðbýli á Skeiðum og Jóns í Borgarholti, en þeir bræður hafa verið synir Ásbjarnar í Lambhúskoti Valgarðssonar í Borgarholti Jónssonar.
c. Torfi.
d. Einar bjó á Vatnsleysu eptir Sigurð bróður sinn. Börn hans munu hafa verið:
aa. Egill, er fyr bjó á Brekku í Biskupstungum, síðar í Eyvík í Grímsnesi, átti Þorbjörgu Freysteinsdóttur frá Laug Guð-

Margrétu átti síðar séra Sigurður Gíslason á Stað í Grunnavík.

e. Þorkatla Bjarnadóttir átti séra Snorra í Tröllatungu (hann drukknaði) son séra Hákonar launsonar séra Ásgeirs á Lundi, þ. b.:

aa. Bjarni.

bb. Rannveig.

Þorkatla giptist aptur séra Jóni á Eyri í Skutulsfirði syni séra Magnúsar Eiríkssonar á Kúlu, börn:

cc. Séra Snorri á Eyri átti Ástríði Torfadóttur, barnlaus. Svo átti hann barn með Ragnhildi Torfadóttur og missti prestskap.

f. Guðlaug Bjarnadóttir átti Þorleif son séra Sveins Símonarsonar, þeirra börn:

aa. Séra Þórður á Þingvöllum[1]).

---

mundssonar í Auðsholti Þórðarsonar s.st. Þorleifssonar s.st Þórðarsonar, en kona Þorleifs var Guðrún Teitsdóttir sterka í Auðsholti Gíslasonar. Son Egils og Þorbjargar var Eyjólfur, frá honum komnar ættir.

bb. Þorbjörg átti Ólaf á Tjörn í Biskupstungum Gíslason frá Úthlíð Ásmundssonar á Minnivöllum Brynjólfssonar; áttu mörg börn, og eru frá sumum þeirra allmiklar ættir komnar eystra. Þetta sem hér er talið um Einar Torfason og börn hans er tekið úr bréfabókum Brynjólfs biskups.

1) Séra Þórður dó 1676; yfir honum er höggvinn legsteinn í Þingvallakirkjugarði. Kona hans var Þóra Árnadóttir frá Staðarfelli Björnssonar, þ. b.:

a. Gottskálk prestur í Keldnaþingum faðir Björns prests á Stað í Grindavík, Teits í Moldartungu og Þórunnar, er átti séra Daða Guðmundsson í Reynisþingum.

b. Jón átti Þuríði Sæmundsdóttur Engilbertssonar prests á Þingvöllum Nikulássonar og börn.

c. Guðrún átti séra Gísla Álfsson í Kaldaðarnesi, þ. b.:

aa. Þórður prestur á Skorrastað († 1730), bl.

bb. Álfur prestur í Kaldaðarnesi († 1733). Frá honum allmikil ætt eystra.

cc. Ingibjörg átti séra Gísla Erlingsson á Ólafsvöllum og mörg börn; eitt þeirra:

bb. Séra Björn í Ögursþingum[1]).
cc. Kristín[2]).
dd. Bjarni.
ee. Þórunn[3]).
ff. Jón.
Guðlaug átti seinna Hávarð Bjarnason, þeirra börn:
gg. Jón annar.
hh. Agnes[4]),

---

aaa. Vigfús á Reykjum á Skeiðum faðir Eiríks dbrm. samastaðar († 1839). Þaðan mjög fjölmenn ætt í Árnessýslu (Reykjaætt).

d. Guðríður átti séra Árna Álfsson í Heydölum, bróður séra Gísla í Kaldaðarnesi, þ. b.: a) Þórður faðir Árna í Hvammi í Fáskrúðsfirði og b) Hallgerður, átti séra Sigurð Sveinsson í Heydölum, þeirra synir Sveinn prestur á Stöð og Gísli prestur í Heydölum faðir séra Brynjólfs föður dr. Gísla á Hólmum og systkina hans. Þessi Heydalaætt frá séra Sigurði Sveinssyni mjög fjölmenn.

e. Guðlaug átti Hannes Sigurðsson í Belgsholti og börn.

f. Helga s. k. séra Gissurar Péturssonar í Vestmanneyjum, þ. b.:
aa. Þóra gipt í Vestmanneyjum, dóttir hennar Úrsula.
bb. Natanael. Synir hans Árni í Effersey og Jón í Vestmannaeyjum. Dóttir Jóns Þorbjörg átti Ólaf Eiríksson á Fit. Einn son þeirra var Engilbert faðir Gísla verzlunarstjóra í Vestmanneyjum.

1) Séra Björn átti Þórunni Árnadóttur systur Þóru konu séra Þórðar bróður hans; þ. b. Gísli, Sigurður, Gottskálk, Halldór, Sigríður.

2) Kristín átti Jón Jónsson og börn.

3) Þórunn átti Odd Tómásson; þeirra synir Jón í Krossdal faðir Þorláks í Sellátrum og Oddur í Sellátrum faðir Guðrúnar, er átti Þórð Einarsson í Sellátrum.

4) Agnes átti Jón Bjarnason úr Álptafirði; þ. b.:
a. Kristrún átti Pantaleon Jónsson.
b. Vigdís átti Pétur Þorleifsson Magnússonar Guðmundssonar prests á Rafnseyri Skúlasonar, eitt barna þeirra.
aa. Kristín átti Torfa á Brekku í Dýrafirði son Mála-Snæbjarnar Pálssonar; þeirra son var Halldór á Arnarnesi í Dýrafirði faðir Torfa kaupmanns á Flateyri.

g. Helgi Bjarnason[1]) átti Guðrúnu Markúsdóttur, þeirra son:
aa. Jón.
h. Kristrún Bjarnadóttir.
D. Þórður í Hænuvík[2]) átti Agnesi dóttur Torfa á Hrauni, þeirra barn:

---

1) Það er vafasamt, að Helgi og Kristrún séu rétt talin börn Bjarna Jónssonar á Kirkjubóli. Hvorki séra Jón Halldórsson né séra Jón Ólafsson geta þeirra í ættartölum sínum. En séra J. H. segir, að Jón og Þóra börn Bjarna hafi dáið barnlaus, og Guðmundur launson hans dáið bl. í Danmörku. Snókdalín nefnir heldur ekki Helga og Kristrúnu meðal barna Bjarna, en telur á einum stað Helgu Bjarnadóttur, er átt hafi Guðmund Markússon, og þeirra son Jón í Botni í Súgandafirði, en þar er auðsjáanlega eitthvað villt, og nöfnunum Helgi og Helga blandað saman, því að á öðrum stað nefnir hann Jón Helgason Bjarnasonar, eins og hér, og hafi hann átt Guðfinnu Jónsdóttur frá Suðureyri í Súgandafirði Þorgilssonar, en meðal barna þeirra telur hann Eirík, kallaðan »prest«, er dáið hafi 1804. En að Bjarni Jónsson á Kirkjubóli hafi verið langafi þess Eiríks, getur ekki staðizt tímans vegna, og hlýtur því ættfærsla þessi að vera röng hjá Snókdalín, enda eru ekki gamlar heimildir fyrir því, að Helgi hafi verið einn son Bjarna.

2) Við þetta gerir Bogi neðanmáls svohljóðandi athugas.: »Sumar ættatölur nefna ekki Þórð í Hænuvík son Jóns sýslumanns, en sumir segja, að dóttir hans (ɔ: Jóns sýslum.) væri:

E. Þórunn*), sem átti Arnór á Kirkjubóli í Valþjófsdal (bróður séra Sveins í Holti) og telja þeirra börn:
a. Séra Bjarni á Mýrum í Dýrafirði dó 1656 átti Ragnhildi Rafnsdóttur, börn: Sigurður, Páll, Kristín, Guðrún.
b. Bjarni yngri átti Guðrúnu Ísleifsdóttur.
c. Einar átti Oddnýju barnsmóður Gvendar Ásmundssonar.
d. Kristín átti Gunnlaug Skeggjason Gunnlaugssonar.
e. Herdís átti Ólaf Sigmundsson í Hjarðardal.
(Sumar ættatölubækur segja öll framanskrifuð börn hafa verið Jóns sýslumanns börn«).

---

*) Sjá um Þórunni þessa hér á undan (bls. 617) og hvernig hún muni réttast talin til ættar. Að Arnór maður Þórunnar hafi verið bróðir séra Sveins í Holti mun rangt.

a. Ingveldur giptist og átti börn.

Jón Ólafsson giptist Þóru Björnsdóttur 1533, taldi hann sér þá 2 hundruð hundraða, en Þóru var talið 1 hundrað hundraða, nefnilega Ögur (al. honum talið 1 hundr. hundr., en Ragnhildur hafi talið dóttur sinni LL hundr.). Þóra var yngst sinna systkina og skammlíf. Jón kallast sýslumaður í Dalasýslu, en ei getur ártals. Er líkast hann hafi haft sýsluvöld fyrir Jón Þórðarson, ef hann hefur verið annað en umboðsmaður Þorleifs Pálssonar eptir 1530. En hafi hann haft veiting höfuðsmannsins, er líkast það hafi verið um árin 1538—1541, því þar eptir varð hann sýslumaður í Ísafjarðarsýslu eða umboðsmaður föður síns til 1545 og síðan Eggerts lögmanns nokkra hríð, eða ei allskamma tíð, því Eggert hafði þá fleiru að gegna.

Jón bjó í Hjarðardal eptir það hann giptist. Hann keypti 1553 það tilkall í báðum Hjarðardölum, sem Guðmundur Guðmundsson og Sigríður kona hans máttu eiga.

## Daði Guðmundsson.

Af dómi þeim, sem hann lét ganga um landamerki millum Arnarbælis og Dagverðarness 1535 sést, að hann hefur þá haldið Dalasýslu, en frá henni var hann árið 1537.

## Þorleifur Pàlsson.

*Faðir*: Páll Jónsson á Skarði féll 1498 (sjá áður).

*Móðir*: Solveig dóttir Björns ríka Þorleifssonar (sjá áður).

*Kvinna*: Steinunn dóttir Eiríks á Keldum Þorsteinssonar á Reyni Helgasonar lögmanns á Keldum og Ökrum.

*Börn*: A. Björn á Keldum (nefnist víðast hvar launson Þorleifs) átti fyr Höllu dóttur Örnólfs Ólafssonar og Kristínar laundóttur Eiríks á Keldum Þorsteinssonar (Halla varð skammlíf barnlaus. Aðrar ættatölur segja þeirra son hafa verið: Eiríkur faðir Torfa föður Guðmundar, er átti Valgerði Halldórsdóttur lögmanns Ólafssonar). Seinni kona Björns Katrín, er búið hafði á Þykkvabæ í Holtamannahrepp, börn:

a. Eiríkur á Keldum átti Þórunni Snæbjarnar-

dóttur (systur Þorkötlu konu Torfa sýslumanns á Kirkjubóli), börn:

aa. Torfi.
bb. Kristín.
cc. Valgerður.
Sumir telja enn:
dd Björn.
ee. Örnólf.
ff. Kristrúnu.

b. Ólafur[1]) í Marteinstungu átti Agnesi Halldórs-

---

1) Ólafur dó 1624 eða 1625. Af skiptagerðum eptir hann sést, að börn hans hafa verið:

a. Björn í Gíslholti átti Kristínu Kjartansdóttur.
b. Skúli.
c. Tómas.
d. Ívar bjó á Landinu. Er hans getið við gerning í Skarði 30. marz 1645, er hann selur Örnólfi Guðmundssyni á Hellum skógarpláss sunnan undir Búrfelli fyrir utan Þjórsá. (Eptir bréfabók Brynjólfs biskups).
e. Jón.
f. Gróa átti Magnús Guðnason Magnússonar á Núpi Jónssonar.

Enn voru tvær dætur Ólafs, sem ekki eru nafngreindar, önnur kona Snorra Jónssonar á Hömrum, hin kona Gísla Sæmundssonar í Hvammi. Bergsteinn er ekki nefndur meðal barna Ólafs, og er hæpið, að hann hafi átt nokkurn son með því nafni, þótt svo sé talið í ættatölum. Og það er algerlega rangt, að Bergsteinn skáld blindi hafi verið son hans, því að hann var Þorvaldsson og ættaður úr Mýrdal. Hann dó mjög gamall á Eyrarbakka 1635, eptir því sem eg hef fundið 1896 í bréfabók Gísla biskups Oddssonar í safni Árna Magnússonar (sbr. ítarlegar um Bergstein þennan í nafnaskrá séra Eyjólfs Jónssonar á Völlum Lbs. 390[4to] hdr.: Þjóðsögur dr. Jóns Þorkelssonar bls. 264—65). Áður vissu menn ekkert um Bergstein þennan.

En þótt Bergsteinn væri gamall, er hann lézt 1635, er mjög hæpið, að Hallfríður barnsmóðir Odds biskups hafi verið dóttir hans, en staðizt gæti það þó, ef Bergsteinn væri fæddur um 1555, Hallfríður dóttir hans um 1575—80 og Bergljót dóttir hennar og Odds biskups um 1600 eða litlu fyr. En að Hallfríður hafi verið sonardóttir Ólafs í Marteinstungu getur enganveginn staðizt. Séra Jón Halldórsson telur bróður Hallfríðar Ívar Bergsteinsson og seg-

dóttur sýslumanns í Skaptárþingi og klausturhaldara, börn:

aa. Bergsteinn blindi skáld faðir Hallfríðar barnsmóður Odds biskups og Ívars.

bb. Valgerður Ólafsdóttir átti Magnús Hjaltason í Teigi.

c. Margrét átti Sigmund Þórólfsson (sjá Rangárþing. Í ýmsum ættum kallast þessi Margrét Björns fyrri konu barn)[1].

---

ir, að Eiríkur nokkur, er bjó í Móakoti hjá Galtafelli í Hreppum um 1686 hafi annaðhvort verið sonur, dóttur- eða bróðursonur Hallfríðar Bergsteinsdóttur, og eptir henni heitin Hallfríður dóttir Eiríks, er átti Valda ferjumann í Skálholti. Það má telja víst, að Eiríkur þessi hafi verið Ívarsson, ef til vill son Ívars Ólafssonar frá Marteinstungu. En synir Eiríks voru Sölmundur í Minni-Márstungum faðir Eiríks lögréttumanns í Hlíð í Eystrihrepp og Ívar í Götu í Ytrihrepp faðir Jóns á Votamýri á Skeiðum föður Hallvarðar í Skálmholti og Svanhildar konu Einars á Iðu Magnússonar frá Þrándarholti Halldórssonar. Mætti rekja ættir þessar miklu lengra niður, ef rúm leyfði. Nöfnin Ívar og Bergsteinn koma svo opt fyrir þar eystra í nánu sambandi, að þau virðast vera ættarnöfn í sama ættbálknum.

2) Það hygg eg rétt, að son Björns Þorleifssonar og bróðir Ólafs í Marteinstungu hafi verið:

d. Guttormur Björnsson, er bjó í Holtum (á Herru eða Hreiðri). Hann er staddur við arfaskipti eptir Ólaf 1625 og virðist þá vera allgamall. Synir hans eru eflaust:

aa. Bjarni Guttormsson, er kemur við úttekt á Efri-Hömrum í Holtum 1651. Hann hefur líklega síðar flutt suður. Sonur hans hefur án efa verið:

aaa. Bergsteinn lögréttumaður í Skildinganesi faðir Bjarna samastaðar föður Þorbjarnar föður Guðrúnar, er átti Guðmund Vigfússon tukthúsráðsmann. Er sú Skildinganesætt allfjölmenn, er frá Bergsteini lögréttumanni er komin. Einn son hans hefur verið Gissur († 1755)

B. Sigríður Þorleifsdóttir átti fyrst launbarn, giptist þar eptir Bjarna (dó 1621) Oddssyni Tómassonar Oddssonar (sjá hér að framan). Fylgdi

---

faðir Snorra í Narfakoti og Þorkels í Miðdal, sem miklar ættir eru frá komnar.

bb. Bergsteinn Guttormsson bjó á Efra-Hofi á Rangárvöllum á síðari hluta 17. aldar, var tvíkvæntur. Er kominn frá honum afarmikill ættbálkur, er nefnist Bergsteinsætt. Börn hans eru talin:

aaa. Guttormur á Minna-Hofi faðir Bergsteins á Árgilsstöðum, Sigurðar og Þorsteins á Grafarbakka föður Örnólfs.

bbb. Guðrún átti Einar Sveinsson í Varmadal, þeirra son Bergsteinn.

ccc. Katrín átti Hallvarð Teitsson á Steinkrossi, þeirra son Guðmundur á Steinkrossi faðir Odds á Fossi föður Hannesar á Gufunesi.

Ívar Bergsteinsson býr í Berjanesi undir Eyjafjöllum 1708, en Jón Bergsteinsson og Tómas Bergsteinsson á Arnarhóli í Reykjavík 1703, og gætu þeir allir verið synir Bergsteins Guttormssonar t. d. af fyrra hjónabandi. En son Tómasar Bergsteinssonar hefur verið Bergsteinn á Mógilsá faðir Kristínar móður Jóns Gíslasonar Mógils læknis í Noregi. Allur þessi ættbálkur hefur hingað til verið lítt kunnur, og ekkert rannsakaður. En það mun sönnu næst, er hér er sagt.

Af þessari ætt mun og Bergsteinn Jónsson, sá er býr á Minna-Ámóti í Flóa 1729. Börn hans voru Jón í Sölvholti, Ívar, Helga kona Ketils Þorgeirssonar í Vaðnesi og móðir Þorgeirs s.st. og Páls í Árhrauni og Ingveldur kona Páls í Vola Magnússonar frá Þrándarholti Halldórssonar. En Bergsteinn þessi mun son Jóns Ívarssonar, er býr í Ásgarði 1709, og verið hefur föðurbróðir Ívars Helgasonar, föður Guðrúnar, móður séra Jóns Sigurðssonar á Rafnseyri († 1821). Mætti færa allmikil rök fyrir ýmsu þessu, ef rúm leyfði og rekja þessa Bergsteinsætt með miklum líkum saman við kunna ættliði. Það er t. d. enginn vafi á, að Skildinganesættin er hér rétt rakin í sambandi við Bergsteinsættina eystra, enda þótt ekki sé öldungis víst, að Guttormur Björnsson, sem ættbálkar þessir tveir eru komnir frá hafi verið sonarson Þorleifs lögmanns Pálssonar.

Daði í Snóksdal fast að því giptumáli og gaf Bjarna fé til giptingar. Eptir dauða Þorleifs lögmanns kom Skarð á Skarðsströnd í hluta Sigríðar. Bjuggu þau Bjarni þar síðan. Börn Bjarna og Sigríðar:

a. Daði á Skarði (dó 1633) átti Arnfríði Benediktsdóttur ríka Halldórssonar (Arnfríður dó 1647), þeirra dóttir:
   aa. Sigríður giptist 1609 Birni sýslumanni í Barðastrandarsýslu Magnússyni.
   (Daði á Skarði fæddist 1565, giptist 1589, dó 1633 á 68. ári. Arnfríður Benediktsdóttir fædd 1569, gipt 1589, dó 1647, 78 ára, þau áttu 7 börn, þar af Sigríður ein lifði og átti erfingja Eggert sýslumann Björnsson á Skarði).
b. Þorleifur Bjarnason í Búðardal (dó 1623) átti Elínu Benediktsdóttur frá Möðruvöllum Halldórssonar ríka, börn:
   aa. Oddur á Borg (dó 1688 88 ára) átti Guðrúnu Sæmundardóttur Árnasonar Gíslasonar, börn:
      aaa. Séra Sæmundur í Hítardal faðir Margrétar, sem átti séra Þórð á Staðastað.
      bbb. Sigríður kona Sigurðar sýslumanns á Skútustöðum Magnússonar, foreldrar Magnúsar í Bræðratungu (sjá Þingeyjarþing).
   bb. Benedikt Þorleifsson á Háeyri lögréttumaður og Skálholtsstaðar ráðsmaður átti 1627 Halldóru Sæmundardóttur Árnasonar Gíslasonar, börn:
      aaa. Bergur[1]) faðir Markúsar sýslumanns.

---

1) Bergur lögréttumaður á Hjalla átti Ingveldi dóttur séra Jóns Daðasonar í Arnarbæli, þ: b.:
a. Magnús faðir Kolbeins í Skálavík.

bbb. Elín[1]).
ccc. Helga[2]).
ddd. Málmfríður[3]).
fff. Sigríður[4]).

cc. Þórunn Þorleifsdóttir átti Magnús sýslumann son Jóns eldra í Haga sýslumanns (sjá Barðastrandarsýslu).

dd. Sigríður Þorleifsdóttir átti Magnús á Hóli í Bolungarvík, (er dó 1636) son Sæmundar á Hóli í Bolungarvík sýslumanns Árnasonar sýslumanns á Hlíðarenda Gíslasonar, börn:

aaa. Sæmundur á Hóli lögréttumaður og lögsagnari um tíma í Ísafjarðarsýslu (sjá Ísafjarðarsýslu).

---

b. Þorlákur átti Guðnýju Þórðardóttur prests í Villingaholti Þorsteinssonar, þ. b.:

aa. Jón í Ferjunesi faðir Guðmundar á Björk í Flóa.

bb. Bjarni í Öndverðarnesi tvíkvæntur. Synir hans með f. k. Ólöfu Arngrímsdóttur (sbr. bls. 306): Þorkell á Kjalvararstöðum, Kláus á Ormsstöðum, Arngrímur í Bakkarholti, Árni í Þorkelsgerði o. fl., en með s. k. Ólöfu Bjarnadóttur: Bjarni á Dísastöðum og Garðbæ.

c. Margrét átti Þorgrím Jónsson lögréttumann í Reykjahlíð.

d. Halldóra átti Guðmund Bjarnason, bl.

e. Sigurður ráðsmaður í Skálholti, dó 1707. Hórson Bergs með Guðrúnu Markúsdóttur konu Hákonar Jónssonar mágs hans var:

f. Markús sýslumaður í Ögri.

1) Elín átti séra Sigurð Torfason á Melum, bl.

2) Helga var s. k. séra Þorláks Bjarnasonar á Helgafelli, bl.

3) Málmfríður átti Sigurð Hákonarson klausturhaldara á Þykkvabæ, bl.

4) Sigríður átti laundóttur með Magnúsi Jónssyni í Þorlákshöfn hét

a. Guðrún átti Guðmund Einarsson lögréttumann á Steinum, son Einars Þorsteinssonar sýslumanns í Skaptafellssýslu, þ. b.:

aa. Kristín átti Brynjólf Jónsson lögréttumann á Litlalandi, þeirra son Jón faðir Ásmundar á Litlalandi.

bbb. Árni Magnússon lögréttumaður og lögsagnari á Ósi í Bolungarvík (sjá Ísafjarðarsýslu).

ccc. Björn.

ddd. Helga.

eee. Sigmundur, voru börn Magnúsar.

Launson Þorleifs í Búðardal Bjarnasonar var:

ee. Guðmundur átti Þorgerði dóttur séra Ólafs Einarssonar, barn:

aaa. Ólöf átti Bjarna Snorrason og börn.

Launsonur Magnúsar Sæmundssonar á Hóli var Björn, vitgrannur, en giptist. (NB. Bjarni Oddsson var sveinn Daða í Snóksdal, því fylgdi hann fast að þeirra giptingu og gaf Bjarna LX hundr. Guðný hét laundóttir Bjarna, sem giptist seinna Nikulási Oddssyni).

C. Guðrún dóttir Þorleifs lögmanns Pálssonar átti barn með sér náskyldum, er kallað var í meinum, útvegaði Árni sýslumaður á Hlíðarenda henni kongs náðarbréf, því fékk hún Árna Hól í Bolungarvík fyrir Stóruborg og Reyni eystra fyrir sekt sína og lausafé. Þar eptir giptist Guðrún Agli á Geitaskarði Jónssyni (sjá þeirra börn við Húnavatnsþing).

Seinni maður Guðrúnar Þorleifsdóttur lögmanns var séra Magnús á Höskuldsstöðum son séra Magnúsar í Goðdölum, þau barnlaus.

Launbörn Þorleifs Pálssonar voru:

D. Ásmundur á Hvoli átti Hólmfríði dóttur Erlendar á Stórólfshvoli sonar Jóns skálds og sýslumanns í Rangárþingi Hallssonar. (Sjá niðja þeirra við Rangárþing).

E. Sigmundur, hans synir eru taldir:

a. Böðvar í Purkey átti Guðrúnu Sveinsdóttur, þeirra dóttir:

aa. Guðrún átti Ögmund Bjarnason og börn.

b. Helgi í Bolungarvík vestra.

c. Guðbrandur. Hans dóttir:
aa. Úlfrún átti Lopt Hákonarson.
F. Ólafur Þorleifsson, hans synir:
a. Jón.
b. Ari.
G. Þórdís og
H. Björn teljast og launbörn Þorleifs.
I. Guðmundur var enn (sjá testamenti Þorleifs).

Þorleifur meinast fæddur um 1483 eða 1484, var hann ungur þá hann missti móður sína 1496, og skömmu þar eptir föður sinn, sem féll á Öndverðareyri 1498, tók því Guðni bróðir Páls sér forráð bróðurbarna sinna; urðu miklar og langvinnar fjárdeilur millum þeirra frænda. Fyrir og eptir dauða Guðna 1508 gekk mest fé af höndum Þorleifs, því þó Ormur föðurbróðir hans væri þá á Skarði til fjárforráða voru margir mikilsháttar menn, einkum Björn Þorleifsson og Björn Guðnason sýslumenn, sem af mætti drógu til sín fé Solveigar. Munaði og mest um fylgi Stefáns biskups við Björn Þorleifsson, svo Ormur gat ei rönd við reist; var hann og ekki sá skörungur, sem Björn sýslumaður Guðnason, er mest þar um deildi við Björn Þorleifsson; gat Ormur haldið því einu, sem Solveigu hafði verið fengið í heimanmund með tilhjálp Vigfúsar lögmanns Erlendssonar, sem átti Guðrúnu dóttur Páls.

Meðan Ormur sat að völdum á Skarði niðurféll mikið af byggingum þeim miklu, er fyrri höfðingjar höfðu þar reist, þó var þar enn stór bær, og þá Þorleifur við tók lét hann á sínum fyrri búskaparárum margt við rétta.

Þá Þorleifur kom til lögaldurs og vildi ná jörðum þeim, er móðir hans hafði gefið honum, vann hann ekki á, vegna ríki Stefáns og Ögmundar biskupa, sem kváðu hann meingetinn og þessvegna ekki þar til borinn.

Þorleifur giptist Steinunni Eiríksdóttur, en bæði áður og eptir hélt hann við frillur og átti börn með þeim, sem áður er umgetið. Óástúðleg gerðist sambúð Þorleifs og konu hans Steinunnar; húsaði hann vel í Stóraholti í Saurbæjarsveit og sat þar löngum. Eg meina, að Þorleifur hafi snemma gerzt valdamaður og máske tekið Dalasýslu eptir Sturlu sýslumann Þórðarson, því valdsmaður hefur hann verið orðinn 1530, þa hann var af konungi skipaður dómari á alþingi með Erlendi

lögmanni Þorvarðssyni í klögunarmáli Hannesar hirðstjóra Eggertssonar. (1535 hélt Daði í Snóksdal Dalasýslu). Er mín meining hann hafi haldið Þórnessþing eða minnsta kosti Dalasýslu eptir Sturlu fyrir 1530, og máske þá ei var sem bezt vinátta milli hans og Ögmundar biskups, að biskup hafi tekið af honum sýsluna og fengið hana Daða og svo Jóni á Hvoli Þórðarsyni nálægt 1536, sem hafi haldið hana fá ár meðan biskup Ögmundur vasaði í mestu völdum, og Þorleifur Pálsson tekið þá aptur sýsluna. En Jón Ólafsson hefur ei verið annað en Þorleifs umboðsmaður.

Hitt er víst, að þá Ari lögmaður Jónsson frá herskipskomu í Hafnarfjörð, þá hann reið til alþingis 1541 (og frá föngun Ögmundar biskups af Otta fyrir kongsvaldinu) frásagði sér lögmannsdæmið. Var Þorleifur á alþingi sama ár 1541 kosinn af yfirvöldum og allri alþýðu fyrir lögmann norðan og vestan. Og sýnist þá sem hann hafi áður verið orðinn sýslumaður. Þorleifur sá fyrir óróa, sem verða mundi, og vildi ekki á sig taka lögmannsdæmið, þó gerði hann það loks með þeim skilmála, að Daði í Snóksdal væri settur sér til styrktar í lögmannsembættinu, og hverju öðru sem hann þyrfti, og það ályktaði þá allur þingheimur. Hvorttveggja þetta staðfesti þá hirðstjórinn og bauð að svo skyldi vera. 1541 er og víst, að Þorleifur hélt Dalasýslu, og líkindi eru, að hann hafi þá og haldið Hnappadals- og Snæfellsnessýslu, því 1542 nefndi hann menn í dóm að Miðgörðum um jarðir, er Solveig móðir hans hafði gefið honum á barnsaldri. Hól í Bolungarvík hafði hún gefin honum í tannfé, þar um tók hann vitnisburð (meinast séra Ólafs Guðmundssonar í Hjarðarholti) svolátandi:

Það geri eg, Ólafur Guðmundsson, góðum mönnum kunnugt með þessu mínu opnu bréfi, að eg meðkennist, að eg hafi heyrt, en ei var eg þar hjá, að Solveig Björnsdóttir hefði gefið Þorleifi syni sínum jörðina Hól í Bolungarvík, þegar á unga aldri í tannfé, og eptir þessari minni lýsingu vil eg sverja, ef þurfa þykir. Og til sanninda hér um skrifa eg hér undir föstudaginn eptir Ægidiusmessu á Hóli.

1542 á Öxarárþingi nefndi Þorleifur og menn í dóm um jarðir í Skálavík.

Öllum mönnum, sem þetta bréf sjá eður heyra senda

Magnús Björnsson, Páll Grímsson, Einar Einarsson, Jón Ólafsson, Gísli Jónsson, Skúli Guðmundsson, Jón Ólafsson, Erlingur Gíslason, Sigurður Oddsson, Þorsteinn Torfason, Ólafur Jónsson og Þorleifur Einarsson kveðju guðs og vora, kunnugt gerandi: að Anno 1542 á almennilegu Öxarárþingi föstudaginn næstan eptir Pétursmessu og Páls vorum vér í dóm nefndir af heiðarlegum dándismanni Þorleifi Pálssyni lögmanni norðan og vestan á Íslandi, til að skoða, rannsaka og fullnaðar-dómsatkvæði á leggja, hvaða afl eða makt hafa skyldi sú klögun, er fyrgreindur lögmaður Þorleifur hafði upp á þær jarðir, sem liggja í Skálavík í Hólskirkjusókn og svo heita: Bakki, Breiðaból og Hraun alls xxxvij hundr. að reikna, hverjum langan tíma hafa haldið bóndinn Ólafur Eiríksson. Kom þar fram hans son Pantaleon Ólafsson og meðkenndist, að hann hefði löglegt ansvar og umboð yfir greindum jörðum og afhending Einars Ólafssonar, er hann reiknaði skilgetinn erfingja Solveigar Björnsdóttur eptir þeim dómi, er hann þar upp las, hvern kong Kristján hefur úrskurðað ómyndugan og birtist í Hans dómi. Í annari grein komu þar fram fyrir oss tveir dómar, hverjir oss lítast skjallegir og myndugir í allan máta og svo innihéldu, að Solveig móðir optnefnds Þorleifs hefði honum og gefið þessar jarðir í hennar testamentisbréfi. Því að heilags anda náð með oss tilkallaðri, að svo prófuðu og fyrir oss komnu, dæmum vér fyrst nefndi rdómsmenn með fullu dómsatkvæði þráttnefndan Þorleif lögmann skyldugan, að brigða eða brigða láta sem löglegan umboðsmann nefndar jarðir og landskuldir að nefndum fardögum til halds og æfinlegrar eignar að sér taka. Samþykkti þennan etc. Skrifað í Lundarreykjadal fimm dögum síðar, en fyr segir.

1542, miðvikudaginn næstan eptir páskaviku á Fáskrúðarbakka í Miklaholtshreppi, dæmt af 6 lögréttumönnum og Þorleifi Pálssyni lögmanni, um það góz fast og laust, sem Þorleifur Pálsson hafði út af haldinn verið og móðir hans hafði honum gefið í sína tíundargjöf, hverjar gjafir löglega dæmdar voru á alþingi, í lögréttu samþykktar af Ara Jónssyni lögmanni Þorleifi til fullrar eignar og löglegrar sóknar fyrir sinn part, upp á rétt erfðagóz Solveigar móður sinnar, hvar helzt þær standa. En eptir það Þorleifur hafði ei greint góz brigðað innan 10 vetra, beiddist hann dóms á, hvort það hefði fyr-

ir nokkra hindrun eða forsómun, forföll eða annað forsómast, hvar upp á dómsmenn gefa það svar: Að nefndur Þorleifur fulla nauðsyn og hindrun haft hafi hér til: 1.) Fyrir þá fyrstu grein: að hann hefði opt beðið biskup Ögmund, að hann mætti ná réttum lögum á þessum peningum, er móðir hans gaf honum í sitt testamentum og fékk ekki. 2.) Að hann hefur ei fengið sín próf eður skilríki, votta eður vitnisburði fyr en nú. Því dæmdu þeir Þorleifi sín óðul kvik og dauð réttilega brigða mega, svo sem nú með fyrstu og hann var úr ómegð, það fyrsta, er hann komst við. (NB. Eg hygg Þorleifur hafi ei lögsögu tekið fyr en nálægt alþingi 1541, en þó hefur hann mátt hafa Snæfellsnessýslu fyrri. Lögmannsnafn bar hann eptir það hann var lögmaður).

1542, föstudaginn næstan eptir krossmessu á Kjallaksstöðum á Fellsströnd, dæmt af 6 lögréttumönnum um þá ákæru, er Þorleifur Pálsson lögmaður hafði til Orms Sturlusonar, að hann héldi þeim jörðum Orrahóli og Kjallaksstöðum fyrir sér ásamt Emburhöfða og Ormsstöðum. Var landabrigðastefnan svarin og nýt dæmd og Orm réttilega fyrirkallaðan og kom þó ei og enginn af hans hendi. Því dæmdu þeir hann sekan mörk í stefnufall. En framkom hans appelleran, hver þeim leizt ei afl hafa, því það stendur hvergi í lögbókinni, að landabrigðabréf skuli appellerast. En fríheitabréf, er hann vændist af konginum kom ei fram, og enginn vissi hann það hafa. Í annari grein kom fram 6 lögréttumannadómur, hvar þeir dæma Þorleifi bónda lögleg forföll til hafa gengið, þó hann hafi ei brigðað sín óðul í þann tíma bók skipar, en nú réttilega brigt hafa; því dæma dómsmenn greindar jarðir eign Þorleifs bónda Pálssonar vera og verið hafa, og hann þær réttilega mega að sér taka að næstum fardögum, en hvern sekan sem fyrir stendur, sem bók segir. Þeir segja, að Þorleifur lögmaður sé skilgetinn og Solveig móðir hans hafi svarið, að enginn annar hafi sig keypt né fastnað en Páll Jónsson og sama bera skilríkir menn.

1552 dæmdi Þorleifur Pálsson lögmaður með 12 vitrum mönnum um kvinnu þá, sem gefið hafði bónda sínum fjórðungsgjöf úr fé sínu, sem var erfðagóz, hvað ónýtt var dæmt. En dæmt að tíundargjöf héldist og greiðist úr öllu erfðagózi, en fjórðungsgjöf úr öllu aflagózi. Því sýnist sem hann hafi

haldið Dalasýslu eptir það hann sleppti lögmannsdæminu, og eg meina allt til 1554 eða 1555, þá Daði við tók.

Þegar vaxa tók ofsi og yfirgangur Jóns biskups Arasonar og sona hans, fór Þorleifi ekki að lítast á óspektir þeirra, og var þá líka mjög hniginn að aldri og vildi losa sig við lögmannsembætti.

1547 á þingi í Ásgarði lét Þorleifur í ljósi við Daða í Snóksdal þá sína fyriræltun, að hann muudi sleppa lögmannsembættinu og vildi, að Daði tækist það á hendur. Var það ekki fjarri skapi Daða fyrst, en þá hann athugaði betur allar kringumstæður breyttist honum hugur og vildi ekki lögmaður verða, heldur skrifaði höfuðsmanninum Laurusi Mule og reið ekki til alþingis um sumarið.

Þetta sumar reið Þorleifur lögmaður til alþingis og ítrekaði bréf það, er hann hafði ritað í Ásgarði sama vor; þess helzta innihald var: Að hann gerði góðum mönnum kunnugt það, að sér þverruðu kraptar til virðuglega að þéna í lögmannsembætti norðan og vestan, sem hann hefði eptir ályktun lögréttumanna, hirðstjórans Kristófer Hvítfelds boði og beiðni með samþykki Gissurar biskups Einarssonar og alls þingheims upp á sig tekið með þeim skilmála, að þéna ei lengur í því, en hann kenndi sig mann til; af þeim og fleiri röksemdum útvaldi hann frænda sinn Daða Guðmundsson í sinn stað til lögmanns norðan og vestan eptir þeirri útvalning, sem af alþingismönnum og hirðstjóra Hvítfeld var ger, svo framt lög leyfa og ei stríðir mót vilja og samþykki þess mildasta konungs, kvaðst hann því útvelja Daða, að hann þekkti engan þar til hæfilegri í þessum landsfjórðungi etc. Þar Daði var ekki á þinginu og vildi ekki taka við lögmannsdæminu fórst það fyrir, og sagði Þorleifur lög sem fyr þetta ár 1547, en fékkst ei til að vera lengur við embættið. Þorleifur hefur verið 65 ára þá hann sleppti lögmannsembætti, var 7 ár lögmaður. Er þá meining flestra, að Ormur hafi utan farið og fengið lögmannsembættið 1548 með fleirum lénum. Ormur hafði fyr setið eptir því embætti og afflutt mjög Þorleif lögmann og Daða fyrir konungi, sem Daði sýslumaður kvartar yfir í bréfi sínu til Laurusar Mule.

Þó Þorleifur brúkaði þessa varkárni og vildi ekki blanda sér í þann ófrið, er hann sá búinn af biskupi Jóni og sonum

hans, gat hann ei umflúið þeirra umsátur, því Jón biskup sendi séra Þorlák á Staðarbakka með 16 menn vestur að Skarði, áttu þeir að fanga Þorleif og flytja norður að Hólum til Jóns biskups. Mælt er, að Þorleifur hafi fengið pata um ferð þeirra, hafi látið reka heim í traðir á Skarði hross sín og ætlað burt að ríða, þar flestir verkamenn hans voru í eyjum við heyskap. En hina bar bráðara að, svo ei varð tóm til burtreiðar, hafi þá Þorleifur látið flest kvennfólk, sem fyrir var klæða sig í karlmannsföt og standa í dyrum með vopnum. Þá aðkomumenn sáu hrossafjölda í tröðunum og menn vopnaða í dyrunum hugðu þeir þar mannfjölda fyrir og hurfu frá. En af niðjum séra Þorláks mun hafa seinna verið fyrirborið, að hann hafi ei viljað gera ófrið. Þorlákur prestur reið norður við svo búið. En er Jón biskup heyrði um ferðir Þorláks kvað hann:

Sendir voru sextán menn
sagan þessi lifir enn,
riðu þeir heim á ríkan garð
rausnarlítið erindið varð,
höldar segja að höfuðból þetta heiti Skarð.

Einn fór heiman elli raumur,
augnastirður, af gjaldi naumur,
aldrei var hann í orustu frægur,
ítum þótti hann ráðaslægur.
Sagt hefur jafnan sína vild í svörunum hægur.

Bissur voru á bænum þrjár
brögnum þótti kátlegt fár.
Karlmaður enginn kom þar út, sem kvæðið gár.

Oddvitinn var ekki frekur,
enginn þeirra gerðist sekur,
hægt er þeim, sem heilum vagni heim að ekur.

Þá Þorleifur heyrði vísur þessar, kvað hann um sitt varnarlið og nefndi fyrst Steinunni konu sína:

Steinunn heitir stoltarkvenndi,
stóra tel eg ekki Þóru,

björgin Þórs- og báðar Siggur,
bendir vísan tveimur Dísum,
Gunnur fimm, eg greini að sönnu,
gefið er mér að telja Ólöfu
Þuríði man eg, en Þórlaugu varla,
þagna bað mig, píkan Ragna.

Óljóst er, hvað Jóni biskupi þótti við Þorleif lögmann, því varla kann það hafa verið af því, að hann var kosinn lögmaður eptir Ara, því Ari hafði sjálfur sagt af sér. Aðrir segja, að Jón biskup hafi átt frilludóttur, sem hét Þuríður, er verið hafði nunna á Reynistað, en vildi vera sjálfráð, enda hafi Solveig abbadís Rafnsdóttir ekki viljað halda henni; hafi hún farið vestur til Þorleifs lögmanns. Hvort þetta er Þuríður, sem Þorleifur nefnir í vísunum er óvíst; eins þessi sögn ei almenn eða fullvís.

Biskup Finnur meinar helztu örsök til óvildar við Þorleif, að Jón biskup hafi viljað gapa yfir fé hans, og er það ekki ólíklegt, því Þorleifur hélt frillur fram hjá konu sinni, og hefði biskup getað haft það til yfirskins sinni fjárfíkn, þá hann tók að sér Skálholtsbiskupsdæmi 1548, því sama gerði hann Daða sýslumanni Guðmundssyni, sama árið (sjá þar um við Snæfellsnessýslu).

1530 þá Rafn lögmaður Brandsson var fallinn, vildu flestir þá Þorleif fyrir lögmann, en Ari sótti þá eptir lögmannsdæminu; vildi Þorleifur þá ekki lögmannsembættið, máske til þess, að ekki yrði óvild af Jóni biskupi eða Ara til sín þar af.

Jón bróðir Þorleifs deyði ungur, erfði því Þorleifur hann og Guðrún systir hans.

Þorleifur deyði á Skarði á Skarðsströnd árið 1560, 77 ára. Hann tjáist að hafa verið spakur maður að viti, gæfur í skapi, lagamaður góður eptir þeirrar aldar hætti, vel gáfaður og vel lærður, kvennamaður, nokkuð féfastur, en drenglyndur og gætinn. Þótti hann höfðingi, og í mörgu mikilmenni. Það er gáta mín, að Guðrún Pálsdóttir muni ekki hafa verið utan hálfsystir Þorleifs lögmanns, því ei getur hennar í testamentisbréfi Solveigar, ekki heldur að Vigfús lögmaður hafi staðið í arfaþrætum um hennar fé, sem þó mundi

hafa orðið tilfellið, hefði hún verið dóttir Solveigar. Það eru gátur, að Páll á Skarði hafi átt áður aðra konu, máske Akra-Guðnýju, sem Eiríkur á Álptanesi vildi eiga.

1525 þá Erlendur lögmaður giptist á Staðarfelli Þórunni dóttur Sturlu sýslumanns Þórðarsonar, er Þorleifur Pálsson fyrsti kaupvottur af leikmönnum, þar næst Pétur Loptsson, þá Hákon sýslumaður Björgúlfsson; er þar af að ráða, sem þeir Þorleifur og Pétur hafi verið orðnir valdamenn, máske umboðsmenn Sturlu. Af klerkum er fyrstur talinn Òlafur prófastur í Hjarðarholti, en Halldór Tyrfingsson, er seinna varð ábóti á Helgafelli telst hinn þriðji. Auðmaður var Þorleifur lögmaður í meira lagi, þar hann lýsir fé sínu 9 hundr. hundraða í testamenti sínu, er hann hefur gert, tveim árum fyrir sinn dauða. Læt eg téð testament hér með fylgja, til fróðleiks þeim, er lesa vilja:

*Testament Þorleifs lögmanns Pálssonar samið 1558.*

In nomine domine Amen. Eins guðs í algerðri þrenningu! Hann sé vernd mín, varðveizla, varygð og viðvörun allra minna vondra verka og háskasamlegra hugrenninga bæði fyrir líf og sál, ekki síður hjálp mín og heilsa, hallkvæmi og hugarstyrking til allra góðra verka, endurbæting, afmáning allra minna misverka og mótstæðilegra afbrota og etc. Geri eg Þorleifur Pálsson, svofelt testamentum, fyrir minni syndugri sálu, Steinunnar minnar, barna minna, feðgina, frænda allra og foreldra, guði til lofs og dýrðar, og hans mildustu móður mey og jungfrú St. Maríu, oss greindum mönnum til æfinlegrar og óendanlegrar gleði og öllum kristnum sálum, heill að viti og vitsmunum og skynsemi. Í fyrstu gef eg mig allsvaldanda guði græðara mínum í vald, og hans háleitu móður, hún virðist að biðja fyrir mér, sinn sætasta son drottinn vorn Jesum Kristum, að hann miskuni mér, og fyrirgefi mér, allar mínar sakir og syndir, sem eg hefi honum á móti gert, með orð og umliðin vond verk. Í fyrstu kýs eg mér og mínum líkama legstað að kirkjunni á Skarði, þar með gef eg greindri kirkju síðan stakk eg á, og vil eg úr honum séu gerðir 2 hauklar, þar til gef eg henni kaleik eg á, með því fororði, ef nokkrir vilja hann í burt hafa, svo kirkjan megi ekki njóta hans, skulu mínir hann aptur til sín taka.

Item gef eg kirkjunni í Garpsdal járn til járnkarls, og 10 álna langar sillur. Item gef eg sonum mínum þremur í þessu mínu testamenti gjöf, svo felda peninga: In primis gef eg Sigmundi syni mínum jörðina Mela, sem liggur á Skarðsströnd, fyrir þrjátiger hundruð og þar til með X málnytjukúgildi, og daggarð fyrir sjöhundruð; þar til þrjú hundruð og tuttugu í geldum peningum, nautum og sauðum, og dauðum þarflegum peningum, með þeim fjórum hundruðum, er eg hefi ánafnað honum, þar tel eg honum tygi, er eg á á Gröfum. Ásmundi syni mínum gef eg jörðina Kleifa, sem liggur í Gilsfirði fyrir IV hundr. og XX og þar með X málnytjukúgildi og stakkshnappa fyrir V hundruð, og V hundr. er eg hefi goldið fyrir hann, og þar til skipa eg honum VI hundr. í dauðum peningum þarflegum. Ólafi syni mínum gef eg jörðina Þórustaði, sem liggur í Bitru, fyrir XVI hundr., og þar með þrjú málnytju kúgildi. Item gef eg Þórdísi dóttur minni jörðina hálfan Kvennahvol. Item gef eg þeim presti, sem mig syngur til moldarinnar kúgildi. Sérdeilis gef eg óríkum fátækum mönnum, þeim sem bera börn sín á vonarvöl fimm hundr. í smjörum, vaðmáli, skóleðri og færleikum, og vil eg goldið sé, að næstu fardögum eptir er guð mig burt kallar. Item léna eg Guðrúnu Pétursdóttur jörðina Efri-Hvítadal, sem liggur í Saurbæi, alla sína lífdaga, án nokkurrar landskuldar eða leigu; en þá hún vill ekki fyrgreinda jörð lengur hafa, skulu mínir erfingjar hana aptur taka. Item gef eg sín tygi hverjum þeirra bræðra Jóni Péturssyni enum eldra og enum yngra. Sveini Sigmundssyni gef eg x aura af landskuld sinni og Jóni Ólafssyni á Geirmundarstöðum aðra x aura. Kúgildi gef eg hverjum þeirra, Tyrfingi og Bjarna. Guðrúnu Pétursdóttur gef eg hest, sem kenndur er við austan jarp. Guðmundi Jónssyni gef eg brúnskjóttan hest eg á. Skulu þessar gjafir mínar, með þeim fleirum gjöfum og gerningum, sem hér eptir standa, snúast upp í mína testamentisgjöf, tíundargjöf og allar þær löggjafir, sem kristinréttur ákveður, að framast megi gefa að lögum. Lýsi eg mína peninga IX hundr. hundraða, með þeim áttatíu hundruðum, sem Steinunn mín á hjá mér. Hér með gef eg Gunnari Einarssyni hundr. uppfæði á mínum peningum. Svo gef eg og æfinlegt borð Vigdísi frændkonu minni, Guðrúnu

Einarsdóttur, og Guðrúnu Þorsteinsdóttur, Guðrúnu Sigurðardóttur og Guðrúnu Ólafsdóttur; skil eg og það til, þær syngi daglega af taulum, pater noster fyrir sálu minni, barna minna, frænda og foreldra. Svo og ei síður skipa eg, að mínir erfingjar gefi fimm aura í kosti árstíðardag minn, svo lengi sem þeir lifa, fátækum mönnum, sem mest þurfa. Svo gef eg Sigríði dóttur minni krossinn þann, sem eg á hjá henni og reiðskap minn. Guðrúnu dóttur minni gef eg festina mína og hestinn þann, sem hún hefur áður gefið mér. Sérdeilis skipa eg Sigríði dóttur minni Skarð á Skarðströnd til fullrar eignar með því móti, að Guðrún dóttir mín fái aðra peninga jafna að löglegri virðingu. Svo umbiðjandi Guðrúnu mína og Sigríði, að þær samþykki þessa mína testamentisgerð og reiðuglega gjaldi sérhverjum það eg hefi ekki sjálfur ánafnað. Hér með gef eg upp allar öreigaskuldir. Svo og biðjandi alla menn, þeir fyrirgefi mér allar mínar vondar tilgerðir, sérdeilis mína undirmenn. Svo er eg og umbiðjandi alla góða menn, sem standa yfir mínum greptri, þeir segi mér nokkrar góðar bænir, svo allir þeir er mitt andlát frétta. Gef eg alla mína undirmenn kvitta, og þá sem mitt hafa þegið án heimildar. Bið eg að þessi mín skipan og testamentisgerð haldist eptir því sem kristinréttur og lögbókin inniheldur um allar þær gjafir, sem í þeim finnast, svo öngvar ónýtist, svo framarlega sem þeir vilja forðast andlega pínu annars heims, og ávítun þeirra manna, sem þessi lítil ölmusa er gefin. Skal þessi mín testamentumgerð standa óbrigðanleg héðan í frá. Og til sanninda hér um, set eg mitt innsigli fyrir þetta testamentisbréf, hvort skrifað var í Holti í Saurbæ tólfta calendas Martii mánaðar, árum eptir Guðs burð MDL og átta.

---

Ofan og framanskrifað eptir heilu og vel læsilegu pergamentisbréfi in orginali með ósködduðu hangandi innsigli Þorleifs Pálmasonar, vitnar að Jörfa þann 3ja Maii 1744.

Ormur Daðason. Magnús Einarsson.

Eptir sömu afskript í flýti uppskrifað að Staðarfelli þann 2. desember 1837 af B. Benediktssen. (NB. Undir afskriptinni var þekkjanlegt eiginhandarnafn Orms sýslumanns Daðasonar).

## Ormur Sturluson.

(Sjá um hann við Snæfellsnessýslu). Hann tjáist að hafa haft Snæfellsnessýslu um 1548, þá hann gerðist lögmaður, en óvíst er, hvort hann hefur haft Dalasýslu nokkurn tíma sem sýslumaður, því Hvammsdóm um fé Daða gekk hann 1548 sem lögmaður. En þar biskup Finnur í Hist. Eccl. T. II. p. 713 og T. III. p. 208 et seqvens samt ættatöl, nefna hann hér sýslumann 1547 (ætti vera 1548) fylgi eg þeirra miklu manna meiningu; hefur hann þá verið Dalasýslumaður 1548 og fram yfir 1550. Lítur það svo út, að Þorleifur Pálsson hafi tekið við af honum 1552 og Ormur ei haft þar eptir Dalasýslu. Í dómi hans (ɔ: Sturlu) árið 1549 nefnist hann lénsmaður í Þórnessþingi, en hvort hér er meint bæði Snæfellsnes- og Dalasýsla eða ei utan Snæfellsnessýsla, get eg ekki víst sagt, en lén höfðu þá flestir lögmenn ásamt.

## Daði Guðmundsson.

(Sjá um hann við Snæfellsnessýslu). Dalasýslu hefur Daði fengið algerlega 1554 eða 1553, (því Þorleifur Pálsson hefur þar verið sýslumaður 1552), í annað sinn og máske ekki sleppt henni fyr en 1558 eða 1559, þá Eggert Hannesson hefur hana tekið. Árni Oddsson í Miðgörðum dæmdi á Staðarhóli um utansveitarmenn 1566. Þá mun hann hafa verið umboðsmaður.

## Eggert Hannesson.

(Sjá um hann við Gullbringusýslu). Næst eptir Daða hefur Eggert Hannesson tekið Dalasýslu, því 1560 hefur Steindór Finnsson sýslumaður í Strandasýslu útnefnt dóm að Sauðafelli í umboði Eggerts, milli Staðarhóls-Páls og Daða út af Staðarhóli eða réttara haldi á Staðarhólseignum, hafi þetta ekki verið sem lögmannsverk Eggerts, að ganga láta téðan dóm. En ei hafði Eggert Dalasýslu eptir 1560.

## Pétur Einarsson.

(Sjá um hann við Gullbringusýslu). Hann bjó fyrst á Arnarstapa, er hann hélt Snæfellsnessýslu 1560. En Stapaumboð og Dalasýslu fékk hann eptir 1560, því Dalasýslumaður var hann orðinn 1562; það ár var hans umboðsmaður í Dalasýslu Eiríkur Guðmundsson í Ásgarði; hann nefndi 1562 í umboði Péturs menn í dóm um veð í

Staðarfelli. 1563 missti Pétur allar sínar veizlur (eg meina Stapaumboð, Snæfellsnes- og Dalasýslur, einnig kongsjarðir, sem hann hafði í léni) af Bessastaðavaldinu, en áður Arnarstapa, sem hann hafði fyr keypt af kongi og vel uppbyggt, þó fékk hann þar fyrir Elliðaey 1565, og meinast hann hafi þar ei búið. Var honum ekki óhætt og því vígðist hann til Hjarðarholts 1564. Hann gerðist þar eptir prófastur og vísitator Gísla biskups um Vestfjörðu 1580, sleppti Hjarðarholti 1581 og lifði þó nokkuð þar eptir, hluta brauðsins inntekta hafði hann samt.

## Eiríkur Guðmundsson.

*Faðir*: Guðmundur Andrésson Guðmundssonar frá Reykhólum Arasonar (sjá Strandasýslu).

*Móðir*: Þrúður dóttir Þorleifs hirðstjóra Björnssonar riddara og hirðstjóra ríka Þorleifssonar Arnasonar.

*Kvinna fyrri*: Margrét Sigurðardóttir, þeirra son:

A. Teitur átti Katrínu dóttur Gleraugna-Péturs Einarssonar prests í Hjarðarholti. [Katrín dó fyrir 1600, þræta varð eptir hana um fjárútsvar arfs til Jóns Sigurðssonar, sem sýnist hafa átt dóttur Katrínar, hverrar þó ei getur í ættatölum, nema hann hafi verið fyrri maður Ingiríðar Teitsdóttur og hafi þau verið barnlaus[1]), þeirra börn:

a. Einar átti Höllu Sigurðardóttur frá Einarsnesi, börn:

aa. Pétur[2]).

---

1) Frá [ b. v. neðanmáls hjá Boga.

2) Pétur var lögréttumaður, bjó á Ballará, tvíkvæntur. Hann var skáldmæltur vel. Börn hans með f. k. Sigríði Gísladóttur prests í Hvammi Guðbrandssonar:

a. Gísli átti Guðrúnu Brandsdóttur. Ein dóttir þeirra:

aa. Guðrún átti Jón Eysteinsson. Eitt þeirra barna Eysteinn í Einholtum faðir Jóns stúdents, er dó í Kaupm.höfn 1771.

b. Steinun átti Daða Þorvaldsson frá Auðbrekku Ólafssonar. Ein dóttir þeirra var:

aa. Hildur átti Svein Guðnason lögréttumann á Þóreyjarnúpi,

bb. Helgi[1]).
cc. Sigurður.
dd. Magnús[2]).
ee. Sesselja[3]).
ff. Katrín[4]).
gg. Guðríður[5]).

---

þ. b.: Þuríður kona séra Halldórs Hallssonar á Breiðabólsstað, Jón á Sveigisstöðum og Björn í Valdarási. Son hans Guðmundur í Höfnum faðir Björns á Auðólfsstöðum föður Ólafs föður séra Arnljóts á Sauðanesi.

1) Synir Helga voru: Sigurður prestur við Hellna og Egill prestur í Skarðsþingum faðir Sigurðar föður Bjarna stúdents í Bjarnarhöfn († 1742). Ein dóttir Helga var Sigríður átti Jón Brandsson, þeirra dóttir Guðrún átti Pétur Guðmundsson, þeirra synir: Helgi, Guðmundur, Árni og Bjarni á Brekku í Bitru faðir Péturs í Bæ á Selströnd föður séra Bjarna á Ólafsvöllum.

2) Magnús bjó í Ásgarði, átti börn.

3) Sesselja átti Þórð Sigurðsson í Hólum í Hvammssveit, þeirra son séra Björn, er missti prestsskap í Mýrdal, og bjó síðan lengi embættislaus á Signýjarstöðum í Hálsasveit; þaðan ættir í Reykholtsdal.

4) Katrín átti séra Eyjólf Jónsson á Lundi, þ. b.:
a. Einar sýslumaður í Árnessýslu (sjá þar).
b. Eiríkur prestur á Lundi, átti Ingveldi Gunnarsdóttur prests á Gilsbakka Pálssonar.
c. Jón eldri prestur á Gilsbakka († 1718) faðir Jóns prests samastaðar († 1771) móðurföður Gunnlaugs Briems sýslumanns, og er sú Gilsbakkaætt mjög fjölmenn, er frá séra Jóni Jónssyni er komin.
d. Jón yngri prestur í Hvammi í Norðurárdal († 1727), átti Sigríði Jónsdóttur prests í Hvammi Ólafssonar, þ. b.:
aa. Jón aðstoðarprestur föður síns, dó nývígður 1711.
bb. Jón annar á Skarðshömrum og Laxfossi átti Ragnhildi Runólfsdóttur.
cc. Eyjólfur átti Guðrúnu Pétursdóttur frá Fellsenda Bjarnasonar.
e. Þorsteinn lögréttumaður á Háeyri. Launson hans Sveinn prestur í Stóradal.

5) Guðríður átti séra Einar Illhugason á Reynivöllum, þ. b.:

hh. Einar[1]).

b. Eiríkur Teitsson giptist í Hollandi, hans kvinna hét Gielt[2]), þeirra börn:
   aa. Jón.
   bb. Teitur.
   cc. Katrín.

c. Guðrún Teitsdóttir átti Þórð Böðvarsson[3]), þeirra börn:
   aa. Halldór.
   bb. Vigfús.
   cc. Katrín.

d. Ingiríður Teitsdóttir átti Þórð Pétursson í Tjaldanesi, börn:
   aa. Einar[4]).
   bb. Teitur[5]).
   cc. Þorbjörg[6]).

---

a. Einar prófastur í Görðum á Álptanesi átti Þóru Torfadóttur prófasts í Gaulverjabæ og börn.

b. Snæbjörn prestur á Reynivöllum átti Þórunni Sigurðardóttur Núpssonar.

c. Guðríður átti fyr Odd Eiríksson annálaritara á Fitjum og var s. k. hans, þeirra son Einar prestur á Lundi faðir Ketils prests samastaðar föður Ólafar móður Guðmundar Torfasonar í Bæ föður séra Sveinbjarnar í Holti. S. m. Guðríðar Einarsdóttur var Þorleifur á Esjubergi Sigurðsson Núpssonar.

1) Einar átti Arnfríði Þórarinsdóttur frá Melum á Skarðsströnd og mörg börn, sem fjölmenn ætt er frá komin vestra.

2) Sjá um Eirík í Bisks. II. bls. 601.

3) Þórður var son séra Böðvars Jónssonar í Reykholti og bjó á Hurðarbaki (Bisks. II. 601).

4) Einar var skipherra í Hollandi.

5) Teitur á Brekku í Gilsfirði. Launson hans með Arnóru Ísaksdóttur hét Einar.

6) Þorbjörg átti Guðmund Þórarinsson. Son þeirra Pétur í Dagverðarnesi faðir Þórðar föður Einars í Hvarfsdal (Hvammsdal) föður Guðbjargar móður Árna Sigurðssonar í Glerárskógum, er átti Maríu Magnúsdóttur skálds á Laugum, er kallaður var Jónsson, en haldinn son Magnúsar Vídalíns Pálssonar lögmanns Vídalíns.

dd. Katrín[1]).
ee. Ólöf[2]).
ff. Guðríður[3]).

*Kvinna seinni*: Guðrún dóttir Gunnlaugs launsonar Teits ríka Gunnlaugssonar í Bjarnanesi austur, þeirra börn:[4])

B. Margrét Eiríksdóttir átti Jón rebba Sigurðsson frá Búðardal. (Jón rebbi vann eið á alþingi 80 ára gamall fyrir sauðamál, er hann var lengi áður hann fór að vestan norður ryktaður fyrir), þeirra börn:

a. Ólafur á Möðruvöllum klausturhaldari átti Þórunni eldri Benediktsdóttur (sjá Þingeyjarþing), þeirra börn:
aa. Halldór lögmaður.
bb. Þorvaldur í Auðbrekku.

b. Steinunn átti fyrst Finn á Ökrum Steindórsson Finnssonar, þeirra börn:
aa. Séra Sigurður í Miklaholti[5]).
bb. Steindór.
cc. Séra Jón.
dd. Eiríkur.
Svo síðasta kvinna séra Böðvars í Reykholti, þeirra börn:
ee. Finnur, dó utanlands.
ff. Séra Jón yngri í Reykholti.

---

1) Katrín átti Ara Þórarinsson, þeirra synir Grímur og Pétur.

2) Ólöf átti Brand Jónsson á Kambi í Breiðuvík og börn.

3) Líkl. réttara Guðrún, átti Indriða Jónsson Þórðarsonar, þ. b.:
a. Eiríkur, son hans Ari kvæntist fyrir norðan.
b. Halldóra átti Ólaf Bjarnason, þ. b.: Teitur faðir Svarthöfða smiðs föður Þorsteins á Harastöðum, Ögmundur og Jarþrúður.
c. Björg átti Eyjólf Þorbjörnsson frá Langey, þeirra synir: Teitur, Ari og Þórður faðir Eyjólfs í Bjarneyjum.

4) Réttara mun, að Teitur hafi einnig verið son Eiríks og s. k. hans Guðrúnar, en að Eiríkur hafi ekki barn átt með f. k. sinni Margrétu.

5) Sjá um þessi börn og afkomendur þeirra bls. 350—356.

gg. Solveig átti Jón yngra son Vigfúsar á Kalastöðum og börn.

C. Ólöf Eiríksdóttir átti Orm á Knerri Þorleifsson, barnlaus.

D. Sigríður Eiríksdóttir laungetin átti Benedikt Teitsson, sem bjó á Ásgeirsá í Víðidal, þ. b.:

a. Magnús, barnlaus.

b. Ingunn átti Björn[1]) Jónsson Arnfinnssonar skagfirzkan, þ. b.:

aa. Ásgrímur[2]).

bb. Magnús.

cc. Ingiríður[3]).

dd. Herdís[4]).

ee. Björg.

ff. Gísli.

gg. Guðrún.

hh. Ingunn.

Eiríkur átti Ásgarð og bjó þar. Hann var lögsagnari Péturs 1562, en hvort hann hefur fengið sýsluna þá Pétur missti hana 1563 til 1566, eða Árni Oddsson, veit eg ekki. Annars var Eiríkur kallaður mikilmenni á sinni tíð, þó nú sé mér fátt um hann kunnugt.

Nokkrir skrifa, að Eiríkur hafi átt aðra konu fyr og hafi hún heitið Margrét Sigurðardóttir, og hafi þau ei barn saman átt. Aðrir, að téð Margrét hafi verið frilla Eiríks og móðir áðurnefndrar Sigríðar. Teitur Eiríksson bjó í Ásgarði eptir föður sinn og þótti mikill bóndi. Hann var jafnast kallaður Ásgarðs-Teitur. 1571 lét Jóhann Bucholt Orm lögmann Sturluson nefna 12 menn í dóm um arf eptir Þorstein á Grund.

---

1) Björn var skólagenginn og bjó í Kalmannstungu.

2) Ásgrímur átti Bryngerði Guðmundsdóttur, synir hans:

a. Tómas faðir Helgu móður Hermanns Jónssonar í Grunnavík og Egidiusar Jónssonar.

b. Björn í Heynesi, er átti Gróu Eyjólfsdóttur prests Arnþórssonar (Bisks. II. 632).

3) Ingiríður átti Stein Þorvaldsson og börn.

4) Herdís átti Jón Jörundsson, þeirra son Jörundur faðir Helga í Munaðarnesi föður Jörundar við Hellna.

Dæmdist arfurinn Nikulási og Jóni sonum séra Odds Þorsteinssonar eptir föðurföður sinn, en undan Eiríki Guðmundssyni í Ásgarði.

Eiríkur lét 1562 (aðrir: 1563) ganga dóm í umboði Péturs Einarssonar sýslumanns í Þórnessþingi um veð í jörðinni Staðarfelli og í Péturs umboði 1563 um veð í Leikskálum.

## Árni Oddsson.

*Faðir*: Oddur[1]).

*Móðir*[2]).

*Kvinna*: Dorothea, hverri hann giptist í Kaupenhöfn 1555 (meinast þýzk eða dönsk)[3]).

*Börn*: A. Guðmundur bóndi í Drápuhlíð; hann átti fyr Margrétu dóttur séra Halldórs Einarssonar. En síðar Björgu dóttur Þórðar í Tungu í Hörðudal[4]). Með hvorri konunni hann átti eptirskrifuð börn er óljóst, en þau eru talin þessi:

---

1) Oddur var Bjarnason og bjó í Staðarsveit, líklega í Miðgörðum (Hofgörðum). Kona hans og móðir Árna hefur verið dóttir séra Einars Snorrasonar Ölduhryggjarskálds og systir Marteins biskups. Það sést af dómi Þorleifs Einarssonar á Hofstöðum 10. maí 1536 (Ártíðaskrár dr. Jóns Þorkelssonar bls. 250—251). Systkin Árna Oddssonar voru Andrés og Hallbjörg. En nafn konu Odds er ekki nefnt í dóminum. Systur Odds Bjarnasonar hafa verið: Guðrún, er átti Einar Guðmundsson, Sesselja, er átti Ólaf Egilsson og Guðlaug, er átti Eirík Sveinsson, og er þeirra allra getið í þessum fyrnefnda dómi um umboð barna Odds Bjarnasonar.

2) Sbr. aths. hér á undan.

3) Dorothea mun hafa verið þýzk að ætt. Hún var Lafranzdóttir. Það sést af eiði, er hún sór í Miðgörðum 25. okt. 1570. út af lauslætisámæli, er á hana var borið. Sór hún þar fyrir alla menn nema bónda sinn (sbr. Ártíðaskrár J. Þ. bls. 251—252). Síðari kona Árna, (er Snókdalín kallar ranglega Ingveldi) var Inga dóttir séra Jóns Þorleifssonar í Gufudal, en ekkja séra Halldórs Einarssonar í Selárdal, bróður Gissurar biskups. Þau Árni áttu ekki börn saman.

4) Þórður í Tungu var son Halldórs Guðmundssonar í Hlíð í Hörðudal bróður Daða í Snóksdal. Sumir telja Guðmund í Drápuhlíð þríkvæntan, hafi miðkona hans verið Helga Bjarnadóttir frá

a. Dorothea átti fyr Gísla Magnússon í Máfahlíð (aðrir í Drápuhlíð), þ. b.:
aa. Guðmundur.
bb. Björg.
cc. Magnús[1]).
Svo Jón norðling drengtetur, þeirra börn:
dd. Guðrún átti Ara, börn:
aaa. Jón.
bbb. Barna-Fúsi.
b. Helga fór norður.

---

Skriðu Pálssonar (sbr. I. B. bls. 488), en Margrét síðasta kona hans, en hæpið mun, að það sé rétt. Og það má telja víst, að Margrét hefur verið hin fyrri (eða 1.) kona hans.

1) Magnús bjó á Hálsi undir Kirkjufelli, átti Guðrúnu Magnúsdóttur úr Rifgirðingum Ívarssonar Magnússonar, þ. b.:
a. Ari á Hálsi á Skógarströnd. Hans börn:
aa. Vigfús á Hálsi. Hans börn: Jón á Hólmlátri faðir Guðrúnar s. k. Jóseps Jónssonar Hjaltalíns á Valshamri, Guðrún kona Odds Arngrímssonar skipasmiðs í Rifgirðingum og Kristín kona Jóhannesar Jónssonar á Hálsi og móðir Jóns á Vörðufelli.
bb. Magnús á Narfeyri kvæntur, bl.
cc. Guðrún átti Jón á Hálsi Jónsson frá Dröngum Bergssonar á Akri Tómassonar Þorsteinssonar prests í Skarðsþingum Oddssonar, þeirra dætur Guðbjörg og Guðrún, er átti Ögmund Jónsson í Klettakoti bróður Guðmundar á Kongsbakka.
dd. Steinunn átti Einar Sæmundsson Þórðarsonar prests á Staðastað Jónssonar biskups Vigfússonar, þeirra börn: Sigurður á Vörðufelli, Vigfús á Bíldhóli faðir Guðmundar s. st. og Guðrún kona Þorgeirs Jónssonar á Selvelli.
b. Guðrún átti Tómas Sigurðsson í Klettakoti móðurbróður Sigurðar stúdents Sigurðssonar í Geitareyjum, bl.
c. Jón á Ytrafelli á Fellsströnd. Hans dóttir:
aa. Kristín átti Ívar Sigmundsson í Klettakoti, þ. b.: a) Jón í Klettakoti faðir Jóns á Örlygsstöðum, Ívars á Kársstöðum, Benedikts í Selárdal, Teits o. fl., b) Ívar í Spjör átti Guðrúnu Böðvarsdóttur og börn, c) Elín átti Jón Arnfinnsson og börn, d) Guðrún átti Bjarna á Ytraleiti Þórðarson Guðmundssonar Hálfdanarsonar, þeirra synir: Ívar hreppstjóri á Hálsi og Bjarni á Klungurbrekku.

c. Einar[1]).
(NB. Helga Bjarnadóttir nefnist enn kona Guðmundar)[2]).

B. Daði Árnason giptist Kristínu dóttur Jóns Björnssonar prófasts Jónssonar biskups. (Hafði hún áður átt barn með Birni Magnússyni bræðrunga sínum, þau fengu kongsnáð). Bjuggu þau Daði á Eyrarlandi; hann sigldi upp á taxtann 1619 og dó í þeirri ferð. — Ritfært er, að Daði hafi haft sýslu nyrðra, annaðhvort umboðsmaður Hrólfssona í Þingeyjarþingi eða Björns sýslumanns Benediktssonar í Vaðlaþingi að líkindum. Börn Daða og Kristínar:

a. Árni lögréttumaður bjó á Ásgeirsá og Stórahóli í Eyjafirði, (hann dó 1703 100 ára hjá séra Þorleifi syni sínum á Kálfafelli, hafði hann þá selt Espihól í Eyjafirði). Hans kona Elín Pétursdóttir Magnússonar, börn:
aa. Séra Þorleifur[3]).
bb. Jón[4]).

---

1) Það er sagt, að Einar þessi stæli úr dönsku húsunum í Helgafellssveit, og því fór jörðin Máfahlíð (aths. Árna Magnússonar Ártíðaskrár J. Þ. bls. 250).

2) Sbr. aths. hér á undan (bls. 647).

3) Séra Þorleifur Árnason var prestur að Kálfafelli í Fljótshverfi og prófastur, dó 1713. Synir hans voru:
a. Þórður klausturhaldari á Kirkjubæjarklaustri. Hans son Bjarni lögréttumaður á Móeiðarhvoli faðir Katrínar konu séra Sigurðar Magnússonar í Miklaholti.
b. Bjarni prófastur á Kálfafelli († 1758) faðir séra Þorleifs í Reykholti († 1783), Jóns lögsagnara Jens Wíums, Kristínar miðkonu Boga Benediktssonar í Hrappsey og Þórunnar konu Guðmundar Sigurðssonar sýslumanns á Ingjaldshóli, og móður Ingibjargar, er Eggert Ólafsson átti.

4) Jón Árnason bjó á Tindum, átti Halldóru Einarsdóttur Skúlasonar, bróðurdóttur Þorláks biskups og börn.

cc. Oddur[1]).
dd. Elín[2]).
ee. Daði[3]).
ff. Sigríður[4]).
gg. Guðrún[5]).

b. Margrét Daðadóttir átti séra Jón á Melum Jónsson, börn:
aa. Daði sýslumaður[6]).
bb. Séra Þorleifur[7]).
cc. Séra Helgi[8]).
dd. Halldóra[9]).

---

1) Sjá um konu Odds snikkara Árnasonar og börn hans I. B. bls. 554—555. Sbr. ennfremur Bisks. II. 371 n.m. athgr. og Árb. Esp. V. 131.

2) Elín átti séra Illhuga Jónsson í Grímsey, þeirra dætur Halldóra móðir Bjarna sýslumanns Halldórssonar á Þingeyrum og Ragnhildur kona séra Þórarins Jónssonar í Nesi í Aðalreykjadal.

3) Daði var skólagenginn, drukknaði í Brúará, er hann reið til vígslu (Bisks. II. 371).

4) Sigríður átti Ólaf Gíslason á Ánastöðum á Vatnsnesi.

5) Guðrún átti Bjarna Jónsson lögréttumann á Eyvindarstöðum í Blöndudal, og er frá þeim allmikil ætt í Húnaþingi.

Enn voru börn Árna Daðasonar og Elínar:

hh. Magnús átti Gróu Illhugadóttur prests á Tjörn Ingjaldssonar, þeirra synir Illugi og Páll á Tindum faðir Illhuga á Tindum.

ii. Málfríður átti Ólaf Jónsson á Skeggsstöðum, þeirra dóttir Elín átti séra Einar Sigurðsson á Hofi á Skagaströnd.

6) Sjá Kjósarsýslu.

7) Séra Þorleifur Jónsson var prestur á Kvennabrekku († 1705). Dóttur hans Sigþrúði átti Pálmi Sigurðsson á Breiðabólsstað í Sökkólfsdal (sbr. bls. 319).

8) Séra Helgi Jónsson var prestur á Melum († 1682) átti Ásu Torfadóttur sýslumanns Erlendssonar, bl.

9) Halldóra átti launson, er Einar hét með hollenzkum sjómanni Jónasi Espensen.

ee. Guðrún[1]).
ff. Jón[2]).
gg. Margrét[3]).
c. Daði Daðason átti Sigríði dóttur Sigurðar Einarssonar, barn:
aa. Halldóra.
Síðan giptist Daði Guðnýju Jónsdóttur ekkju, barnlaus.
d. Þorleifur Daðason medicus dó í Hamborg.
e. Magnús[4]).
f. Oddur sigldi, gerðist snikkari. Fór um mörg lönd, kom út og giptist Ragnheiði Jónsdóttur Jónssonar lögmanns á Reynistað (sjá Húnavatnssýslu). Oddur drukknaði í Svartá 1702.
g. Jón.
h. Elín.
i. Málmfríður.
k. Sigríður.
l. Guðrún, öll barnlaus.

1554 sigldi Árni Oddsson með Marteini biskupi, kom út giptur. Þjónaði sem meðdómsmaður 1556 nyrðra. Þá Arni kom út fór hann að búa á Syðri-Görðum í Staðarsveit, og hefur hann máske þént stundum í sýslumannsstað. Hann hefur fengið sér veitta Dalasýslu 1565 eða 66, því á Staðarhóli í Saurbæ nefnir Árni Oddsson, er þá hafði kongssýslu millum Gilsfjarðar og Gljúfurár 1566 í dóm 6 menn um utansveitarfólk. (Þó Árni Jónsson og Árni Oddsson séu nefndir þetta ár sýslumenn í Dalasýslu, hygg eg það sé ei annað en villa

1) Guðrún átti Jón Þórðarson frá Sólheimatungu Ólafssonar á Svarfhóli (bls. 357); þeirra son Helgi prestur á Stað í Grindavík faðir Guðmundar Ísfold stúdents í Kaupm.höfn.

2) Jón veiktist, dó bl. 1683.

3) Margrét dó ógipt.

4) Þessi börn, sem hér á eptir stafl. (e—l) eru hjá Boga talin börn Daða Árnasonar eru börn Árna Daðasonar á Ásgeirsá og áður talin flest. Samskonar meinloka er og í ættatölum Espólíns.

á föðurnafni Árna Oddssonar og það sé allt sami maðurinn). Daða son sinn brúkaði hann fyrir sinn lögsagnara nálægt 1580.

Árni var kongsumboðsmaður í Dalasýslu 1588, þá hann lét dóm ganga millum séra Þórðar Brandssonar í Hjarðarholti og Daða Jónssonar, er klagaði prest fyrir ágang á jörðu sína Svarðból af selpeningi prests frá Þrándargili. En nálægt eða eptir 1590 sleppti hann Dalasýslu, hafði hann þar eptir sýslumannsembætti á hendi í Snæfellsnessýslu og lét ásamt Oddi biskupi dóm ganga í Snæfellsnessýslu 1594 (sjá prestaannál etc.), kallast hann þá sýslumaður í Þórnessþingi. En 1593 hefur hann verið búinn að sleppa Dalasýslu. Ei veit eg nær hann algerlega hætti sýslumannsverkum í Snæfellsnessýslu, þó hefur hann verið frá þeim 1597. Árni fluttist háaldraður til sonar síns Daða og deyði á Eyrarlandi[1]). Árni hefur og átt son, sem Einar hét, honum gaf Daði í Snóksdal í testamenti sínu 5 hundr. (sjá Snæfellsnessýslu).

Árni afi Árna sýslumanns[2]) átti dóttur með Þuríði Tómasdóttur, hún hét Þórhalla og giptist Snorra Hallgrímssyni. Honum fékk hann 8 hundr. í Brokey, sem Árni keypti 1450 af Bessa sýslumanni. Það var upp í móðurarf Þórhöllu.

## Jón Magnússon eldri.

*Faðir*: Magnús, (sem dó 1591) sýslumaður í Ögri og Bæ á Rauðasandi son Jóns á Svalbarði norður Magnússonar sýslumanns Þorkelssonar.

*Móðir*: Ragnheiður (fædd 1548, giptist 1563, deyði 1642)

---

1) Árni var enn á lífi 1604 og hefur orðið maður gamall. Hann hefur orðið sýslumaður í Dalasýslu um 1563, því að í vitnisburði um tíundargjald presta 1594 segist hann hafa haft Dalasýslu »í næstu 30 ár«. Hefur hann um það leyti eða s. á. sleppt sýslunni, því að þá tók Jón Magnússon við henni. Árni átti jafnan í miklum erjum við frænda sinn séra Einar Marteinsson á Staðastað út af Dórótheu konu Árna (sbr. Ártíðaskrár bls. 249—253).

2) Þessi frásögn mun eitthvað villt, því að eptir því sem sanna má, hefur hvorki föðurfaðir né móðurfaðir Árna heitið Árni. Sé þessi frásögn annars á nokkru byggð, er líkast, (eins og Bogi hefur einnig fyrst skrifað í hdr. sínu), að Árni Oddsson hafi átt þessa Þórhöllu með Þuríði, áður en hann sigldi.

dóttir Eggerts lögmanns (og um hríð í hirðstjórastað) Hannessonar hirðstjóra.

*Kona*: Ástríður (dó 1641) dóttir Gísla lögmanns Þórðarsonar lögmanns Guðmundssonar. Jón Magnússon giptist á Innrahólmi 1598, fylgdi Jón lögmaður Jónsson að því giptumáli. Jón taldi sér 3 hundr. hundraða, gaf í morgungjöf kostulegan linda og síðkápu. Ástríði var talið þá 1 hundr. hundraða.

*Börn*: A. Magnús í Miðhlíð og Haga (dó 1675) sýslumaður í hálfri Barðastrandarsýslu (sjá þar).

B. Eggert lögréttumaður á Ökrum í Skagafirði átti 1631 Steinunni dóttur Þorvalds á Reykjum í Skagafirði Jónssonar (hún dó 1669).

Eggert var skynsemdarmaður, svarharður. Foreldrar hans gáfu honum Sælingsdalstungu, þá talda X tigu hundr. Henni skipti hann við Jón Arngrímsson fyrir Stóru-Akra í Skagafirði, hvar hann bjó síðan. 1631 giptist hann Steinunni einbirni Þorvalds á Reykjum, hverja hann með henni fékk. Eggert drukknaði í Héraðsvötnunum á kveldtíma þ. 27. August 1656 53 ára, en Jón sonur hans komst af. Börn hans og Steinunnar:

a. Jón á Ökrum (fæddur 1643) seinni maður Sigríðar stórráðu, þeirra barn:

aa. Eggert á Ökrum, dó 1719.

b. Ragnheiður á Reykjum, barnlaus.

c. Þórður, barnlaus.

C. Guðmundur lögréttumaður í Hvammi á Barðaströnd (dó 1657) átti Málmfríði Árnadóttur frá Holtastöðum Teitssonar Björnssonar prófasts Jónssonar biskups Arasonar, börn:

a. Árni á Bíldudal átti Þóru Pálsdóttur, börn:

aa. Helga átti fyrst launbarn með Magnúsi capt. Arasyni, það barn dó. Helga giptist Einari yngra bónda á Hóli í Bíldudal Einarssyni, þau barnlaus.

bb. Steinunn giptist ekki, en átti launson

með Þorláki, hét Jón, sem átti Brynhildi Jónsdóttur Eggertssonar Snæbjörnssonar.

D. Sigurður í Rauðsdal átti Herdísi Ásgeirsdóttur frá Ljárskógum, þeirra börn:
   a. Ásgeir á Ósi í Steingrímsfirði átti Helgu Árnadóttur Einarssonar frá Ósi, þ. b.:
      aa. Hallbjörg, átti börn.
      bb. Steinunn, átti börn.
   b. Þorbjörg átti Torfa lögréttumann á Kúlu Magnússon, þeirra dóttir:
      aa. Kristín átti séra Andrés Gíslason.
   c. Sesselja átti Snjólf Magnússon prófasts á Stað í Steingrímsfirði.
   d. Jón átti Ingveldi Jónsdóttur frá Otrardal, bl.
   e. Guðmundur, bl.
   f. Ástríður, bl.

E. Gísli lögréttumaður í Reykjarfirði giptist 1652 Guðnýju Jónsdóttur í Reykjarfirði, þau bl.[1]).

F. Ingibjörg átti fyrst Gunnar Arngrímsson, barnlaus, svo 1644 Jón son Halldórs lögmanns, barnlaus, síðast Þorleif lögmann Kortsson 1652, þeirra börn:
   a. Jón.
   b. Hannes.
   c. Guðmundur.
   d. Þórunn[2]).

G. Halldóra átti séra Jón Jónsson í Holti í Önundarfirði Sveinssonar Símonarsonar, þ. d.:
   a. Ástríður fyrri kona Magnúsar í Vigur[3]), þeirra börn:
      aa. Þorbjörg átti Pál lögmann Vídalín.
      bb. Kristín átti Snæbjörn Pálsson (sjá síðar)[4]).

---

1) Sjá um Gísla í Ísafjarðarsýslu bls. 222—23 hér að framan.

2) Um Þorleif Kortsson og börn hans sjá bls. 227—229.

3) Sjá bls. 78 hér að framan.

4) Börn Mála-Snæbjarnar og Kristínar eru talin bls. 230—231.

H. Jórunn (fædd á Ballará 1603, dó 1666) átti Hannes Eggertsson í Snóksdal, þ. b.:

a. Þórður í Snóksdal giptist 1664 Karítas Jónsdóttur, börn:

aa. Hannes í Arnarbæli.

bb. Halldóra.

cc. Guðrún[1]).

b. Séra Jón í Snóksdal 1673, fyrri maður Guðbjargar Jónsdóttur, (giptist 1671, dó 1686), þeirra börn:

aa. Magnús í Snóksdal (dó 1752)[2]).

---

1) Sjá um börn Þórðar og Karítasar bls. 331. Dóttir Hannesar Þórðarsonar með s. k. Guðlaugu var Þorbjörg móðir Ólafs Guðmundssonar Snókdalíns ættfræðings (sbr. bls. 75).

2) Magnús var skynsemdarmaður og sjónskarpur segir Snókdalín, átti Ingibjörgu Ólafsdóttur Mehe prests í Tröllatungu Eiríkssonar á Ketilsstöðum eystra Rafnssonar, þ. b.:

a. Jón í Snóksdal átti Sesselju Björnsdóttur frá Hrafnabjörgum Jónssonar sýslumanns á Hamraendum, þ. d. Sesselja átti Svein í Snóksdal Hannesson prests á Kvennabrekku Björnssonar.

b. Árni á Geitastekk, flakkaði víða um heim, dó gamall utanlands 1795, hefur ritað ferðasögu. Sonur hans Þorleifur var í Reykjavík, skinnasútari, kallaði sig Hítdal, dó 7. apríl 1802.

c. Jón yngri á Reykhólum átti Guðrúnu Teitsdóttur sýslumanns Arasonar (bls. 124), þeirra son Jón verzlunarstj. á Ísafirði faðir Hermanns sýslumanns í Rangárvallasýslu.

d. Ólafur á Álptavatni átti Iðunni Sigurðardóttur, þeirra son Ólafur í Blönduhlíð.

e. Ingibjörg tvígipt.

f. Þorbjörg átti Illhuga á Laugum Þorbergsson prófasts á Prestbakka í Hrútafirði Illhugasonar, þeirra synir Þorbergur, Einar á Laugum og Magnús, er átti Guðfinnu Þórðardóttur systur Páls amtmanns Melsteðs.

g. Anna átti Þorstein Bjarnason smið á Hrafnabjörgum, þ. b. Bjarni á Dunkárbakka, Anna og Þorsteinn.

Magnús í Snóksdal átti mörg launbörn, því að hann varð fjórðungssekur fyrir barneignir. Einn launson hans var:

h. Vigfús, er lengi var utanlands í þjónustu Jóns Þorkelssonar (Thorchillius).

bb. Jón[1]).

c. Ástríður Hannesdóttir (gipt 1664, dó 1678) átti séra Illhuga Vigfússon[2]), barnlaus.

I. Steinunn Jónsdóttir fyrri kona Jóns Marteinssonar, barnlaus.

K. Þórður deyði utanlands, barnlaus[3]).

Jón Magnússon mun hafa verið elztur af börnum Magnúsar, því hann sótti um fyrir sig og sína erfingja, að mega bera riddaramerki móðurföður síns, aðrir segja Björns ríka, og þar um er kongsbréfið af 15. janúar 1620. Mun Jón vera fæddur 1564. Jón lagði sig á æskuárum eptir lærdómsmenntum. En hvað honum hefur þá viður farizt er mér óljóst. 1598 giptist hann, en hafði áður fengið Dalasýslu, því þar var hann orðinn sýslumaður 1594, það ár lét hann dóm ganga á Ballará, að þeir skuldunautar, sem ei fá borgunarmenn fyrir sig skyldu vinna af sér skuldir[4]). 1600 dæmdi hann á Staðarhóli með 6 dómsmönnum um tíundar misgrun. Einnig 1604 þann 29. janúar lét Jón dóm ganga á Ballará um útsvar á arfi Katrínar sál. Pétursdóttur. Daði Bjarnason var fyrsti dómsmaður. Sama ár 27. júní gekk hann með 6 mönnum dóm á Ballará um gjaldþrotamenn.

Þá Gísli lögmaður Þórðarson tók Snæfellsnessýslu og

---

1) Jón var stúdent, dó ungur 1705. Launson hans með Kristínu Símonardóttur var

a. Jón prestur á Helgastöðum faðir Hólmfríðar f. k. Þorsteins stúdents Jónssonar í Reykjahlíð, þeirra son Jón prestur í Reykjahlíð, síðar í Kirkjubæ í Tungu, faðir þeirra Reykjahlíðarsystkina.

2) Séra Illhugi var prestur á Setbergi, dó 1693.

3) Mun vera sá Þórður Jónsson (»Theodorus Jonæ«), sem skrifaður er í stúdentatölu við háskólann 12. nóv. 1632, talinn útskrifaður úr Skálholtsskóla. Hefur dáið í Kaupm.höfn skömmu síðar.

4) **Nikulás Oddsson** prests í Tröllatungu Þorsteinssonar var umboðsmaður Jóns sýslumanns í Dalasýslu 1596, því að 18. maí það ár útnefndi hann í umboði hans 6 manna dóm á Staðarhóli.

**Pétur Einarsson** á Ballará (sbr. bls. 642) tók við umboði Jóns sýslumanns yfir hálfri sýslunni haustið 1625, hafði hann flutt að Ballará þá um vorið; 1632 útnefndi Pétur í umboði Jóns sýslumanns 6 manna dóm að Ballará um Gísla Hjaltason, fátækan mann.

Stapaumboð 1607, gerðist Jón þar og svo hans umboðsmaður til 1613, þá Gísli sleppti því. 1609 lét hann dóm ganga á Staðarbakka í Helgafellssveit í dulsmáli Jóns Ólafssonar. Sama ár 6. október að Ballará um illt rykti og 11. desember sama ár að Hvammi um sama. Allir með 12 meðdómsmönnum. 1611 lét Jón dóm ganga á Ballará með 6 meðdómsmönnum um rofin og burt flutt hús af leiguliða, án þess að bjóða landsdrottni að kaupa; skyldi leiguliði aptur uppgera húsin. 1616 þann 15. maí í Dölum lét Jón dóm ganga um vanvirðing dóma. 1619 um húsrif leiguliða, sem burt fluttu. 1633 lét hann dóm ganga á Sauðafelli. Var í dómi á alþingi sama ár og 1634. 1635 lét hann dóm ganga um eptirlátið fé húsgangsmanna. 1636 lét hann dóm ganga um grunað barnsmorð. Var sama ár á alþingi og 1637 og 1639. 1640 lét hann dóm ganga í Hvammi. Hann hélt Dalasýslu meðan hann lifði og lét í sinni tíð ganga mikinn fjölda dóma.

Á fyrri búskaparárum sínum hefur Jón búið á Ballará, því þar var Jórunn dóttir hans fædd 1603. En 1604 var Jón kominn að Reykhólum; þar eptir mun hann hafa um hríð búið á Ingjaldshóli, þá hann hafði umboð tengdaföður síns, þar ólst Jórunn upp um hríð. En eptir að Jón hefur sleppt Snæfellsnessýslu hefur hann flutt að Haga á Barðaströnd, og þar deyði hann 1641 og sama ár kona hans Ástríður. Jón hafði og í léni Borgarfjarðarjarðir; þær fékk Torfi Erlendsson eptir hann. Jón sýslumaður Magnússon var einn af þeim fjórum, sem sigldu upp á taxtann 1619. Hann sór sinn eið á alþingi 1620 ásamt öðrum sýslumönnum. Jón var í lögmannskjörum 1606. Þá Jón var í Snæfellsnessýslu og hafði gist 1609 í Ólafsvík á þingaferðum sínum lá honum eptir dómabók sín og saknaði ei fyr en hann kom inn fyrir Fossá, sendi hann þá svein sinn Vigfús eptir bókinni, en Jón með sínum fylgjurum biðu hans á meðan og sátu á hestbaki við Fossárdal, en er þeir litu við sáu þeir Vigfús á fjórum fótum gruflandi í Fossá og að hann stökk á bak hesti sínum, riðu þeir þá af stað, er þeir sáu hann á bak kominn, en þá þeir litu við aptur var hann horfinn og fannst dauður í ánni við sjóinn. Hann var son séra Böðvars í Reykholti. Klögunarmál var millum Jóns sýslumanns og Péturs sýslumanns Pálssonar á Staðarhóli, sem spannst út af Helgu Loptsdóttur um Sælingsdalstungu.

Um þá tíð bjuggu þeir bræður synir Jóns Ólafssonar í Dalasýslu, Gísli á eign sinni Galtardalstungu, Ólafur á eign sinni Svarfhóli og Daði silfursmiður á Staðarfelli, voru þeir haldnir óeirðar- og yfirgangsmenn, og sjaldan sín á millum samþykkir. Sagði Jón sýslumaður, er ekki var smælingi, svo um þá bræður, að ef þeir væru allir samráða, mætti hver hafa Dalasýslu sem vildi fyrir sér, Gísli hefði harðfengi og snarræði fyrir þá alla, Ólafur illsku og áræði fyrir þá alla, en Daði vit fyrir þá alla.

Staðfesting upp á aðalsbréf Björns Þorleifssonar gaf kongur Jóni sýslumanni 1620. (Eg meina það eigi að vera upp á aðalsbréf Eggerts Hannessonar afa síns (ɔ: móðurföður síns), þar til hafði hann kyn sitt, en ei [eins nákomið] til Björns Þorleifssonar, þó svo sé í rit fært).

1616 týndist það stóra farmaskip Jóns sýslumanns með 15 mönnum og farmi, þá þeir komu úr kaupstað hlaðnir.

Ritfært er, að Jón Magnússon hafi haldið Dalasýslu í 48 ár, hefur hann þá tekið sýsluna 1593 eða 1592, því sumir setja að Jón hafi dáið 1640 15. nóvember, aðrir að það hafi verið 1641. Nokkrir rita, að Jón sýslumaður hafi búið (líklega fyrst) á Mýrum í Dýrafirði, en seinast í Hvammi á Barðaströnd og hafi þar dáið 1641[1]).

## Bjarni Pétursson.

*Faðir*: Pétur sýslumaður son Staðarhóls-Páls (sjá Strandasýslu).

*Móðir*: Þorbjörg dóttir séra Bjarna Finnbogasonar.

*Kona*: Guðrún dóttir séra Torfa í Hvammi í Hvammssveit Finnssonar frá Flatey Jónssonar s.st. Björnssonar Þorleifssonar hirðstjóra.

*Börn*: A. Pétur átti Þorbjörgu dóttur Jóns sýslumanns Vigfússonar í Lögmannshlíð Jónssonar s.st. (sjá Þingeyjarþing). Þau giptust 1680, fékk Pétur

1) Jón sýslumaður dó í Haga 15. nóv. 1641 (Ísl. Ártíðaskrár bls. 197). Ástríður kona hans dó í ágúst s. á. Yfir þau hjón var sett þessi grafskript:

Hér liggja þau hjón | Ástríður og Jón
sæll er sá þjón | sem svo kemur fyrir guðs trón.

(Ísl. Ártíðaskrár bls. 212).

með henni lausafé og nokkrar jarðir tileinkaðar, sem þó voru vafa undirorpnar, en máli hennar til giptingar var 90 hundr. í lausafé, en í jörðu mun hafa verið Háls í Kinn, ánafnað til afgjalds Þverá í Fnjóskadal, Ljótsstaðir og Víðivellir. 1690 klagaði Jón Sigurðsson, að Arngrímur sýslumaður gerði sér ei rétt við Pétur, að hann héldi fyrir sér með ofríki téðum jörðum, dæmdist Pétri haldið á jörðunum 1691. Þá Pétur giptist fór hann að búa með konu sinni á Þverfelli í Saurbæjarsveit og bjó þar um hríð, en flutti sig síðar að Tjaldanesi í sömu sveit. 1702 að Lögmannshlíð, þann 20. september afhenti Jón, þá fyrir átta árum búinn að sleppa sýslumannsembætti í hálfri Norðursýslu, dóttur sinni Þorbjörgu til fullkominnar eignar og eigindóms:

| | | |
|---|---|---|
| Ás í Kelduhverfi með hjáleigum | 40 | hundr. |
| Jörðina Byrgi með Byrgisseli í sömu sveit . . . . . . . . | 20 | — |
| Miðvík á Svalbarðsströnd . . | 15 | — |
| Krossanes syðra við Eyjafjörð . | 20 | — |
| er | 95 | hundr. |

Þetta lætur hann fyrir þá fasteign, sem Þorbjörgu hefur borið eptir móður sína Helgu Magnúsdóttur. En tilskilur sér þar á móti, að mega halda til alls ágóða þeim jörðum, sem Þorbjörgu hefðu með réttu tilfallið eptir móður sína. Viðstaddir voru: Bjarni Pétursson, Hákon Árnason og Egill Jónsson. (Af þessu er auðséð, að þræta hefur verið millum Péturs og Jóns í Lögmannshlíð um fé Þorbjargar, og að Pétur hefur sent son sinn Bjarna að afgera þessa þrætu ásamt Hákoni Árnasyni og Agli Jónssyni). Til þess Jón Vigfússon deyði 1714 hefur hann haldið því mesta af fénu, og ei sem skyldi bezt samkomulag mágafólks. Pétur Bjarnason fór ei búferlum að Staðarhóli þá faðir hans deyði 1693, heldur byggði

öðrum heimajörðina og hafði sjálfur not og inntekt af gózinu og bjó á eign sinni Tjaldanesi til dauða síns 1718. Eptir 1700 varð hann blindur. Féll hann þá upp á það hér um 1705, að taka með sér 2 menn (sjálfur orðinn blindur), fara til Staðarhóls og láta uppgrafa leiði kerlingar fóstru sinnar, taka höfuðbein hennar, er hann tjáði til lækningar höfuðverks konu sinnar duga mundu. En hvort hann hefur það brúkað er mér óljóst, var sú kerling fyrir 28 árum áður grafin. Oddur þá vicelögmaður Sigurðsson, sem var stiptamtmanns fullmektugur frétti þetta og ákærði; ferðaðist líka að Tjaldanesi 1709 til að rannsaka um þetta, viðgekk Pétur beinauppgröptinn og kvað á sér skyldi lenda, það þar af hlytist. Varð hér um stapp mikið, sem stóð nokkur ár. Loks kom þar, að Bjarni á Skarði son Péturs og Magnús captain Arason tóku sér af þessu, varð útfallið, að 1714 var Pétur hér fyrir sektaður til Hallbjarnareyrarhospítals 80 rd. Pétur dó 1718, hafði hann þá verið blindur yfir 13 ár, var hann sagður maður stríðlyndur, einarður og bústandsmaður mikill, en ei við alþýðuskap. Lærdómsmaður lítill, en vel ærlegur sem bóndi í því, sem hann fyrir sig tók, en þó yfir höfuð álitinn minni maður en forfeður hans. Kona hans Þorbjörg var þar á móti álitin mesta höfðingskvendi, stórgerð, örlynd, dugnaðarsöm í öllu. Hún fór eptir dauða manns síns til Bjarna sonar síns, stillti stundum hans drykkjuskaparofsa og kom optast fram til góðs. Hún hafði og eptir þeirra aldarmáta mikil auðæfi, og hafði nóg fyrir sig alla æfi. Þorbjörg deyði 93 ára 1754 Börn þeirra Péturs og Þorbjargar voru:

a. Bjarni sýslumaður í hálfri Barðastrandarsýslu (sjá þar).
b. Vigfús námsmaður deyði í stórubólu 1707.

c. Guðrún.
d. Pétur deyði og í stórubólu 1707.

Annað ektabarn Bjarna á Staðarhóli var:

B. Torfi, skarpur lærdómsmaður, dó ungur og barnlaus.

Launbörn Bjarna á Staðarhóli áður en hann giptist voru þessi með Guðrúnu dóttur séra Gísla á Hrafnagili Jónssonar, er hann hélt fyrir frillu sína, þá er hann kom úr siglingu:

C. Herdís, er síðar giptist Hákoni Árnasyni Guðmundssonar á Vatnshorni í Haukadal (Bjarni keypti Vatnshorn 1633 og gaf henni það í heimanmund), þeirra son Jón á Vatnshorni. (Jón Hákonarson á Vatnshorni deyði 1748 93 ára. Á ungdómsárum var hann í siglingu), hans laundóttir Helga á Jörfa móðir Jóns á Vatnshorni[1]), sem átti mörg börn, meðal hverra var Rannveig, sem ektaði Jón sýslumann Espólín hinn fróða, þ. s.: Hákon studiosus átti dóttur séra Jóns á Möðrufelli að nafni Sigríði Jón hét einn son Jóns á Vatnshorni barnlaus. Þórarinn hét annar, hans börn fátæklingar. Jónas hét þriðji, velmegandi á ei börn. Árni á Vatnshorni átti velmegandi afkomendur. Helga giptist, barnlaus. Þetta eru fyrstu konu börn Jóns á Vatnshorni utan Jõnas. Þessi hans kona fyrsta var Þuríður Nikulásdóttir. Önnur kona Jóns á Vatnshorni var Ingiríður Guðmundsdóttir, þeirra börn auk Rannveigar konu Espólíns fróða og Jónasar, sem áður eru talin voru: Egill, Þrúður átti launbarn, giptist ei. Það launbarn deyði.

1) Jón var Egilsson. Hann dó 4. jan. 1807 83 ára, en Helga móðir hans 17. maí 1801 á 100. ári. Börn Jóns urðu flest lítt að manni nema Rannveig kona Espólíns sýslumanns. Börn Jóns á Vatnshorni og Þuríðar voru: Jón, Árni, Þórarinn, Helga, Margrét og Guðrún (hin 2 síðustu telur Bogi ekki). Einar var enn son Jóns og Ingiríðar, albróðir Rannveigar og dó hann ungur. Jón og Ingiríður skildu einnig samvistir.

D. Ingibjörg átti Kolbein í Sælingsdal Sigurðsson á Hólum í Hvammssveit Þórðarsonar frá Vatnsenda Eyjólfssonar, þeirra börn.

a. Kolbeinn.
b. Helga.
c. Ástríður.
d. Guðbjörg.
e. Guðríður.
f. Guðrún.

Síðar tók Bjarni fyrir frillu Guðríði dóttur Harys enska, þ. s.:

E. Sigurður átti Margrétu Snorradóttur, þ. d.:

a. Halldóra átti Kolbein Hildibrandsson.

Bjarni Pétursson fæddur 1613 var ungur við lærdómsmenntir, sigldi síðan og tók góða vitnisburði í lærdómsframa i Kaupmannahöfn og var 7 ár utanlands[1]), kom svo inn og hafði frillur sínar, sem áður er sagt um hríð til þess hann gipti sig 1641. En litlu fyrri tók Bjarni 1/3 af Stapaumboði og hélt það í þrjú ár. — Í nóvember 1641[2]) deyði Ástríður kona Jóns sýslumanns í Haga og í sama mánuði 1641 dó Jón sýslumaður dag 15. nóvembris. Þá lát hans fréttist sendi Bjarni suður að Bessastöðum til Laurusar, sem þá var umboðsmaður Jens Söffrenssonar, og var settur sýslumaður til næsta sumars, en fékk fullkomna veitingu fyrir sýslunni sumarið eptir 1642 og hélt hana í sífellu fram yfir 1680. 1644 lét Bjarni ganga dóm um kaup á Fagradalstungu; sama ár um Búðardalskirkjutillag, dæmdur á Tindum. 1648 er Bjarna i lögréttu skipað, að hjálpa Auðunni Sigurðssyni til laga fyrir níðvísur um hann kveðnar. Einnig að hann hjálpi Jóni Péturssyni til réttar mót Ara Guðmundssyni um arf barns síns. 1649 þann 19. október dæmdi Bjarni undir lögmannsdóm landamerkjafalsbréf Jóns Auðunnarsonar. Dómur Bjarna í

1) Bjarni hefur að minnsta kosti ekki lesið við háskólann, því að hann finnst ekki skrifaður þar í stúdentatölu á árunum 1630—40.

2) Ástríður dó í ágúst 1641 (sjá hér áður), en Jón maður hennar í nóvember s. á.

Dalasýslu 1654 um engjamark millum Hamars og Blönduhlíðar kom til alþingis 1655.

1661 var dómur Bjarna sýslumanns upplesinn í lögréttu um þrjú frillulífis og eitt hórdómsbrot Árna Jónssonar látin varða fjórðungsútlegð, dæmdu lögmenn að mætti leysast með 3 mörkum. 1661 dómur um gjöf Jóns Brynjólfssonar, 1663 dómur um misgrip á á. 1666 um beinbrot kvígu o. s. frv.

1651 veiktist Bjarni með verkjum um sig allan, var hann borinn úr bænum út í kirkju og lá þar í hálfan mánuð, (þóttust menn sjá vofur bæði í kirkjunui og bænum því galdratrú var þá mikil); hafði Bjarni engan frið fyrir verkjum, var vakað yfir honum dag og nótt. Þaðan var hann borinn af 24 mönnum til Hvols, þar lá hann lengi, en batnaði þó smámsaman, svo hann varð alheill. En þá Bjarna batnaði komu veikindi í reiðhest hans.

1652 var óþerrasumar, en á Staðarhóli höfðu í eitt hey verið samanbornir 4 hundr. hestar og brann það upp. Þá stóðu og yfir mál Bjarna, sem risu út af því, að Bjarni var orðaður af laundóttur sinni Herdísi og var honum dæmd undanfærsla. Bauð Magnús lögmaður Björnsson Hannesi lögréttumanni Eggertssyni í Snóksdal að taka eiðinn af Bjarna og hans eiðvottum. Þann eið sór Bjarni, að hann hefði ei holdlegt samræði haft með kenningardóttur sinni Herdísi, og hans eiðvætti 1652.

1663—1664 stóð yfir ærmálið í Dölum, sem kom til alþingis. 1681 þann 16. maí að Blönduhlíð nefndi Bjarni sýslumaður Pétursson 6 menn í dóm um ómagaframfæri. Sama ár lætur hann Magnús Jónsson lögsagnara sinn taka eið af tveimur stúlkum á Sauðafelli, og eptir það meina eg að Bjarni sjálfur hafi ei gert sýslumannsverk, en haldið sína lögsagnara, fyrst téðan Magnús, svo Sigurð Gíslason, þá Björn Jónsson. Hann mun hafa frásagt sér sýsluna nálægt 1687. Magnús lögmaður Jónsson hafði þá og tilhlutun með Bjarna um Dalasýslu. Bjarni deyði háaldraður á Staðarholi árið 1693[1]) rétt áttræður.

Hann var eptir þeirrar aldar máta lærður maður og höfðingi á sinni tíð, en þótti kvennhollur og óviti með öli. Hann

---

1) Bjarni dó á páskadaginn, sem þá bar upp á 16. apríl (1693).

færði stóra og mjög bundna settleturshönd, það eg hefi séð. Hann átti Staðarhól með öllu honum fylgjandi, og þó annað meira jarðagóz að erfðum eptir foreldra sína. Mjög hrumur maður varð hann á elliárum, og varð þó áttræður. Hann var ungur þá móðir hans deyði; var hann síðan undir umsjón föður síns til þess hann deyði 1621. Stjúpa Bjarna hafði Stóraholt í sína tilgjöf.

Á alþingi hefur hann verið 1640 líklega að betala eptir þriðjung af Stapaumboði, sem hann þá hafði, og ekki ólíklegt hann hafi verið að nokkru umboðsmaður Jóns sýslumanns Magnússonar. Yfir þrítugt hefur hann verið þá hann giptist. Scripta ejus: De successione ab intestato, et archaismos qvosdam juridicos explicavit (Sciagraphía pag. 192). Marga átti hann öfundar- og óvildarmenn, sem ríkismaður og höfðingi, og alþýða gerði meira orð á kvennafari hans en vert var, þó nokkuð væri tilhæft, mest af hans óvarkárni í drykkjuskap.

Ósamþykki varð um arf eptir Bjarna Pétursson og Þorbjörgu Jónsdóttur, kongs staðfesting af 16. maí 1707 kom þar upp á.

Bjarni Pétursson og Eggert Björnsson sýslumenn áttu og í miklu þrasi út af framfæri Margrétar Ormsdóttur. En fógetinn Ólafur Klov gat á komið sátt þeirra í milli á alþingi þann 5. júlí 1675.

## Magnús Jònsson.

*Faðir*: Séra Jón Ormsson Jónssonar prests í Gufudal Þorleifssonar (sjá Barðastrandarsýslu).

*Móðir*: Jórunn[1]) dóttir Gísla í Galtardalstungu Jónssonar á Svarfhóli Ólafssonar prests í Hjarðarholti og Strandasýslumanns Guðmundssonar.

*Kona*: Guðrún dóttir Ketils prófasts í Hvammi í Hvammssveit Jörundssonar Hálfdanarsonar á Miðfelli,

*Börn*: A. Séra Jón í Hjarðarholti missti prestskap, gerðist síðan Strandasýslumaður (sjá hér síðar).

B. Árni prófessor og consistoríal assessor, fæddur á Kvennabrekku 13. nóvember 1663, dó 1730 þann 7. janúar, tók theolog. attest. 1685 með

1) Sjá um Jórunni bls. 330 n.m.

haud. Kom út sama ár, fór utan 1686, var hjá Bartholín. 1689 fór hann til Noregs, var um veturinn hjá Þormóði á Stangalandi. Fór til Kaupenhafnar 1690, en 1691 kom hann á Borkscollegium, 1694 fór hann til Þýzkalands, kom til Kaupenhafnar 1696; 1694 varð hann prófessor philosophiæ, 1697 secreteri við leyndarskjöl, 1702 landcommissaríus til 1712, fór þó stundum á haustin til Kaupenhafnar. 1709 giptist hann ekkjunni Mette Fischer. 1710 var hann assessor í consistoríal collegio, 1721 academiins bibliotekarius. 1728 brann mikið af hans bókum. Hann átti ekkert barn.

C. Magnús prófastur í Hvammi íHvammsveit giptist Sigríði Jónsdóttur systur lögmanns Páls Vídalíns, þeirra börn.
   a. Séra Jón á Setbergi[1]) átti Önnu Margrétu Hansdóttur, (séra Jón var prestur í 53 ár), þ. b.:
      aa. Rannveig[2]).
      bb. Hans[3]).
      cc. Anna María[4]).
      dd. Marín[5]).
   b. Þórður gullsmiður deyði í Kaupenhöfn.
   c. Ástríður átti séra Þórarinn í Hjarðarholti Jónsson prests samastaðar Þórarinssonar prests Jónssonar, börn:
      aa. Árni Hólabiskup.

---

1) Séra Jón Magnússon var síðar prestur í Selvogi, dó 1779.

2) Rannveig átti Jón Guðmundsson á Þórdísarstöðum í Eyrarsveit og börn.

3) Hans bjó í Oddagörðum í Flóa og víðar, átti Ingveldi Jónsdóttir Dóttir þeirra:
a. Sigríður átti 1797 Ásgrím Stefánsson í Króki í Ölfusi († 1851), þ. b.: Jón, Hans, Stefán, Kristín.

4) Anna María dó bl.

5) Marín († 1792) átti Halldór Þórðarson í Eymu í Selvogi († 1802) og var f. k. hans. Eitt barna þeirra Símon í Salthól í Selvogi átti Sigríði Þorkelsdóttur frá Skriðufelli Jónssonar.

bb. Séra Hallgrímur á Hrafnseyri[1]).
cc. Steinunn, sem átti Arnór sýslumann Jónsson.
dd. Sesselja átti Ásgeir Jónsson bróður Arnórs.
ee. Jón.
ff. Guðrún.
gg. Halldóra.
hh. Jórunn. Öll barnlaus.

D. Þórður stúdent deyði í Kaupenhöfn[2]).

Magnús var maður skarpur og lærði í Hólaskóla, sigldi síðan[3]) og var 2 ár í Kaupenhöfn við lærdómsiðkanir. Kom hann svo út og giptist Guðrúnu, en fékk Kvennabrekku sér veitta eptir föður sinn 1658[4]). Hann tók fram hjá konu sinni og missti prestskap 1666[5]). Bjó hann þar eptir sem bóndi, fyrst á parti af Hvammi og hafði Akur með, síðan á Sauðafelli um hríð. 1681 tók Bjarni sýslumaður Pétursson á Staðarhóli Magnús fyrir sinn lögsagnara í Dalasýslu; stóð hann eptir það fyrir sýslumannsverkum, en óvíst er, hvort hann

---

1) Þetta er ramskakkt hjá Boga. Séra Hallgrímur á Rafnseyri, Steinunn og Sesselja (stafl. bb.—dd.) voru systkin séra Þórarins Jónssonar í Hjarðarholti, en ekki börn hans og systkin Árna biskups, sem er undarleg meinloka hjá B. Að því er hin 4 síðasttöldu systkin snertir (Jón, Guðrúnu, Halldóru, Jórunni), þá verður ekki sagt, hvers börn þau eru. — Magnús hét son séra Magnúsar í Hvammi og bróðir séra Jóns í Selvogi, og átti hann nokkur launbörn (ættat. séra J. H.). Hann var í Víðidalstungu. Rannveig hét systir hans, dó ung.

2) Þórður er skrifaður í stúdentatölu við háskólann 8. okt. 1691, en hann hefur dáið síðast í desember 1692, því að hann er grafinn 2. jan. 1693. Synir Magnúsar voru enn:

E. Gísli, dó ungur.
F. Gunnar laungetinn, dó ungur. [Eptir ættat. Jóns Magnússonar].

3) Hann mun vera sá Magnús Jónsson (»Magnus Jonæ«) úr Hólaskóla, sem skrifaður er í stúdentatölu við háskólann 7. júní 1655.

4) Séra Jón Ormsson dó 1657.

5) 1665 segir séra Jón Halldórsson lærði.

hafði sýsluveitingu[1]). 1683 var hann kjörinn ásamt þremur öðrum til að sigla upp á taxtann (segir séra Jón Halldórsson, hann hafi þá verið nýbúinn að fá Dalasýslu, en þar með er ei fullvíst, hvort það var veiting). 1684 kom hann inn og var þá fársjúkur; var hann fluttur til heimilis síns Sauðafells, hvar hann andaðist skömmu síðar úr téðri sótt[2]). Hann var maður vel lærður og skrifar magister Hálfdan, að hann hafi eptirlátið skrif um arf og hans gang og um málsfærslu fyrir undirrétti og fleira þesskonar. Vel kann vera, að Bjarni sýslumaður hafi fyr brúkað Magnús til styrktar sér í sýslumannsverkum, þó ei hafi eg fundið það áreiðanlegt, að hann hafi verið Bjarna lögsagnari fyr en 1681, og óvíst er um, hvort hann hefur fengið sýsluveiting 1683. Hann var heldur kvennamaður, sem fleiri hans frændur og afkomendur, hvað þeim stundum kom að gjaldi. Mag. Hálfdan segir hann hafa skrifað 1674 um arfaréttinn og hans tröppugang, 1677 um heimiliskviðavitni. En 1680 um málsfærslu fyrir undirrétti. Sýnist því sem hann hafi stundað lögvísi, áður en hann fékkst við sýslumannsembætti.

## Sigurður Gíslason.

*Faðir*: Gísli Ólafsson á Sauðafelli sonur Hannesar í Snóksdal Björnssonar.

*Móðir*: Sigríður dóttir séra Sigurðar í Miklaholti Finnssonar á Ökrum. (Hún átti fyr Jón launson Péturs sýslumanns á Staðarhóli Pálssonar, þeirra dóttir Ingibjörg kona Arnórs í Ljárskógum Ásgeirssonar).

*Kona*: Kristín Guðmundsdóttir Björnssonar Guðmundssonar[3]).

---

1) Magnús mun að eins hafa verið lögsagnari, en ekki fengið veitingu fyrir sýslunni, þótt séra J. H. kveði svo að orði. Hann lét dóm ganga að Sauðafelli 19. maí 1682 um lögruðning og utansveitarómaga og 25. maí 1683 um mál Ástríðar Vigfúsdóttur.

2) Hann kom út í Rifi fárveikur, var fluttur á skipi inn að Snóksdalspollum, komst lifandi heim til sín að Sauðafelli og dó þegar (Ættat. J. Halldórss.).

3) Þorleifssonar Guðmundssonar undir Felli í Kollafirði Andréssonar (sbr. bls. 280—281). Þeir langfeðgar bjuggu í Stóraskógi í Miðdölum.

*Son:* Jón sýslumaður í Strandasýslu og lögsagnari í Snæfellsnes- og Dalasýslum ógiptur og barnlaus.

Sigurður var fróður maður, skýr og gott skáld. Þá Magnús sigldi var Sigurður 1683 settur lögsagnari í Dalasýslu, en ei veit eg víst, hvað lengi hann hafði sýsluvöldin eða hvenær hann sleppti þeim. Sigurður var kallaður Dalaskáld; hann og Leirulækjar-Fúsi áttu í illdeilum báðum til ills að sögn. 1688 kom Sigurður úr Jöklaferð, og svaf á fiskistakknum, valt út af honum og drukknaði. Sigurður var haldinn rýndur í forneskju; var þetta af hjátrúarmönnum eignað kunnáttu Fúsa á Leirulæk[1]).

## Björn Jónsson yngri.

*Faðir:* Jón skólalærður sonur séra Brynjólfs í Hjarðarholti Bjarnasonar.

*Móðir:* Halldóra dóttir Björns sonar séra Þórðar í Hjarðarholti Brandssonar.

*Kona:* Margrét (dó 1730) dóttir Nikulásar klausturhaldara í Kirkjubæjarklaustri (dó snögglega 1677) Þormóðssonar Kortssonar kaupmanns Lýðssonar.

*Börn:*
A. Nikulás
B. Björn.
C. Herdís.
D. Sigríður.
(A.–D.) dóu öll í stórubólu 1707.

E. Katrín fædd 1684, giptist 1712 og varð seinni kona Gísla Jónssonar í Máfahlíð, hún missti hann 1716, þá hann drukknaði í Tunguós. Bjó hún þar eptir í Máfahlíð um hríð, þar til hún flutti að eignarjörð sinni Staðarfelli um

1) Séra Jón Halldórsson segir að Sigurður hafi verið »æskumikill«. Hann skýrir svo frá drukknun hans (í ættatölum sínum): »1688 nálægt fardögum fór hann með farm inn eptir firðinum (Breiðafirði) steyptist úr skutnum útbyrðis, þar hann stýrði með árinni, svo að hásetar hans fram á skipinu vissu ekki fyr en hann var sokkinn, fannst ei aptur; þetta skeði laugardaginn fyrir hvítasunnu« (þ. e. 2. júní 1688). Séra J. H. getur þess, að hann hafi kveðizt á við Vigfús á Leirulæk, en frekar ekki. Í Ísl. Þjóðsögum I. 534—36 eru sagnir um viðureign þeirra Fúsa og drukknun Sigurðar.

1731 og bjó þar síðan alla æfi, nafnfræg rausnar- og góðgerðakona. Sjálf barnlaus, uppól hún mörg börn, meðal hverra var sú helzta stjúpdóttir hennar Guðríður, er giptist Finni biskupi Jónssyni. Katrín bjó á Staðarfelli til þess hún deyði 1761, erfðu þá Staðarfell hennar föðurbróðurs afkomendur. (Hennar stjúpsonur Magnús amtmaður setti henni grafminning á töflu með gyltu letri í Staðarfellskirkju. Mælt er, að Katrín hafi boðið honum Staðarfell að gjöf og hafi hann ei þiggja viljað frá hennar fátæku föðurfrændum).

Björn var ungur við lærdóm í Skálholti, sigldi síðan til Englands og lærði þar bíldhöggvaraverk, því hann var að náttúru skurðhagur. Björn græddi fé í Englandi og þar tók hann Björn Nikulásson, er seinna var mágur hans af engelskum, sem ætluðu að taka hann til stríðs, og kom honum til Íslands. Þá hann kom út giptist hann Margrétu konu sinni. Þorlákur son Ara sýslumanns Magnússonar hafði átt Staðarfell og Helga Þorláksdóttir erfði það eptir sinn föður. Hún var gipt Jóni sýslumanni eldra Vigfússyni. Margrét Nikulásdóttir átti jarðirnar Kaldaðarnes, Geldingalæk og Keldulæk í Mýrdal til samans 64 hundr.; þeim skipti Björn við Jón sýslumann fyrir jörðina Staðarfell 1680 og flutti að Staðarfelli, hvar hann bjó síðan til síns dauða 1695.

Stapp varð út af kirkjuportion og kúgildum á Staðarfelli eptir dauða Jóns sýslumanns Vigfússonar við Katrínu Erlendsdóttur, hvað biskup Þórður og amtmaður sömdu, svo ei kom til málssókna. Um þessar mundir hafði Magnús lögmaður Jónsson tilhlutan með Dalasýslu og útverkaði, að Björn Jónsson var þar settur lögsagnari (eg meina) 1686 eða fyr til þess Andrés Andrésson fékk veitingu fyrir sýslunni 1688. Það var þá siðvenja forn, að gleði var árlega á hverju hausti haldin á Jörfa í Haukadal fyrir allar Dalasveitir, en á Staðarfelli fyrir allar Strandasveitir; voru við þessar gleðir hafðir í frammi margskonar skrípaleikir og óskikk. Ungt fólk, karlar og konur, sem voru vinnuhjú áskildu við vistarráð, að fá að fara til gleðinnar. Við þetta tækifæri kom saman svo mikill fjöldi ungra karla og kvenna, að húsin rýmdu það ei; dró þá þetta

unga fólk sig saman í útihús eða hvar annarsstaðar því sýndist, og urðu þá mörg skyndibrullaup. Þetta sá Björn og afdæmdi með öllu þessar gleðir bæði á Jörfa og á Staðarfelli, hvar hann bjó sjálfur; þorði fólk því ei lengur að halda hana þar. En á Jörfa hélzt hún lengur við, til þess Jón sýslumaður Magnússon afdæmdi hana á ný eptir 1700.

Dalasýslu-lögsögu missti Björn 1688, þá Andrés Andrésson fékk veitingu fyrir henni. En þegar Andrés hafði fengið Snæfellsnessýslu 1695, veitti kongur Birni Dalasýslu þann 7. maí sama ár, en hann deyði á Staðarfelli 1695 um haustið. Björn var fylgismaður í málum og framkvæmdarsamur bústandsmaður. Ekkja hans Margrét bjó þar eptir á Staðarfelli til þess Katrín dóttir þeirra tók þar við búi og flutti frá Máfahlíð um 1731.

## Andrés Andrésson.

(Sjá um hann við Snæfellsnessýslu). Fyrir Dalasýslu fékk Andrés veitingu 14. apríl 1688, en sleppti henni þá hann fékk Snæfellsnessýslu og Stapaumboð.

## Hákon Árnason.

*Faðir*: Árni sýslumaður í Hnappadal bjó á Stapa son Sæmundar Árnasonar Gíslasonar.

*Móðir*: Guðrún dóttir Nikulásar á Kjallaksstöðum Oddssonar prests Þorsteinssonar (seinasta manns Þórunnar).

*Kona*: Guðríður dóttir séra Guðmundar á Staðarstað og Elínar Sigurðardóttur. (Guðríður átti áður barn með Þorláki Guðmundssyni vinnumanni á staðnum, er sagt hún hafi honum gefið 20 hundr. jörð).

*Börn*:
A. Árni, dó ungur.
B. Valgerður dó fullvaxin, barnlaus.
C. Sigríður giptist séra Jóni á Staðarbakka[1]), barnlaus.
D. Halldís átti Þorberg Þorsteinsson[2]), bl.

---

1) Sigríður var f. k. séra Jóns Bjarnasonar á Staðarbakka († 1705).

2) Þorbergur var skáldmæltur, bjó á Þorgeirsfelli í Staðarsveit. Hann var bróðir séra Hjalta í Vatnsfirði.

E. Elín átti Nikulás Þórðarson, þ. d.:
a. Elín, hennar laundóttir:
aa. Oddhildur[1]).
F. Guðný átti Bjarna Bjarnason í Arnarbæli (sjá síðar).

Hákon átti launson, þá hann var 16 vetra með fóstru sinni, hét Pétur, hann sigldi til Englands. Fram hjá konu sinni átti Hákon barn, hét Herdís[2]) átti Narfa snikkara, þeirra son Árni á Stapa, sem átti Ursulu, þeirra börn mörg[3]). (Guðrún Jónsdóttir á Elliða var móðir Herdísar). Hákon bjó í Syðri-Görðum, en sýnist sem hann hafi síðast dáið í Arnarbæli 1698, því þar voru þá skipti gerð eptir hann. Hákon hefur verið mikill bóndi og lögréttumaður ríkur, en ruslumenni. Hvort hann eða Hákon á Vatnshorni hefur verið lögsagnari Andrésar 1688 veit eg ei víst, og því get eg hér beggja þeirra[4]).

## Hákon Árnason (á Vatnshorni).

*Faðir*: Árni Guðmundsson Þórðarsonar lögmanns (Árni bjó í Hjarðaholti og á Hreðavatni. Hann ætlaði að sækja egg 1634 og drukknaði af hesti þeim, er hann lét synda til vatnshólmans).

*Móðir*: Þorgerður dóttir Tyrfings í Hjörsey Ásgeirssonar prests Hákonarsonar.

*Kona*: Herdís frilludóttir Bjarna sýslumanns Péturssonar á Staðarhóli; af hverri Bjarni var orðaður og fyrir hverja hann sór. Þau Hákon og Herdís

---

1) Oddhildur, er sumir nefna Óshildi var laundóttir Elínar með Magnúsi Hrómundssyni sýslumanni í Hnappadalssýslu.

2) Réttara mun Elís eða Elizabet. Snókdalín telur Pétur og hana launbörn Árna föður Hákonar, en það mun skakkt.

3) Einn son Árna var Þorleifur faðir Guðbrands föður Þorleifs föður Þorleifs dannebrogsmanns í Bjarnarhöfn.

4) Það er enginn efi á, að það hefur verið Hákon Árnason á Vatnshorni en ekki Hákon í Görðum, er lögsögn hafði í Dalasýslu 1688, því að Hákon í Görðum mun dáinn fyrir þann tíma. Hvaðan Bogi hefur heimildir fyrir því, að skiptagerð eptir hann hafi farið fram í Arnarbæli 1698 veit eg ekki.

giptust fyrir 1660 og er Hákon lengi umboðsmaður Bjarna í Dalasýslu.

*Börn:* A. Árni dimissus sigldi[1]); hans laundóttir Kristín átti Jón klausturhaldara Þorsteinsson á Þykkvabæ. (Sjá um þeirra afkvæmi við Skaptafellssýslu).

B. Jón á Vatnshorni (dó 1748, 93 ára) átti Helgu dóttur séra Guðbrandar í Vatnsfirði Jónssonar, bl. Áður en Jón giptist, átti hann laundóttur Anno 1702 með Halldóru yngri dóttur Arnórs í Ljáskógum, hét Helga. Hana arfleiddi hann 1710 og fékk þar upp á konglega staðfesting 1711. Hún átti seinna launson með Agli syni Jóns hreppstjóra í Staðarsveit. Sá varð seinna merkilegur bóndi og bjó í Vatnshorni í Haukadal og átti mörg börn. Helga giptist árið 1725 Magnúsi Einarssyni, áttu ei börn. (Magnús dó 1752). Þeim féll stirt og skildu. Hún bjó alla æfi á Jörfa í Haukadal, mikil kona; deyði 18. maí[2]) 1801 á Vatnshorni 99 ára.

C. Guðrún átti Pál yngsta á Sólheimum í Mýrdal, Ámundason Þormóðssonar; þau barnlaus.

Hákon var orðinn lögréttumaður í Dalasýslu fyrir 1680, vel að sér og vel auðugur; lafa enn nú við auðæfi í þeirri ætt. Hvort þessi eða áður taldi Hákon í Görðum var lögsagnari 1688 er mér óljóst; þó meina eg það væri þessi Hákon. Hann var og umboðsmaður og lögsagnari Bjarna sýslumanns Péturssonar á Staðarhóli, um og eptir 1663 (sjá Þorleifs lögmanns Kortssonar staðfesting um Snóksdals landamerki 1663).

## Sigurður Pálsson.

*Faðir:* Páll landskrifari í Hvanneyri sonur Gísla lögmanns Þórðarsonar.

---

1) Hann er skrifaður í stúdentatölu við háskólann 27. okt. 1681.

2) Réttara 17. maí (sjá aths. á bls. 661).

*Móðir:* Ingibjörg dóttir Bjarna Sigurðssonar á Stokkseyri (seinni kona Páls).

*Kona:* Þórunn dóttir Hjalta Pálssonar í Teigi.

*Börn:* A. Hjalti á Brekku átti Steinunni Álfsdóttur; börn:
a. Sæmundur.
b. Vigfús.
B. Séra Gísli á Kvennabrekku átti Ólöfu dóttur séra Þórðar á Myrká; þeirra dóttir:
a. Ingibjörg, háskynug í tungumálum, átti séra Gunnlaug Snorrason; börn:
aa. Séra Gísli.
bb. Ólöf,
cc. Ingibjörg.
dd. Katrín.
C. Bjarni; hans börn:
a. Hjalti átti Helgu Eiríksdóttur.
b. Halldóra átti séra Guðmund Eiríksson; börn:
aa. Séra Eiríkur á Stað í Hrútafirði (átti Helgu Eggertsdóttur) faðir séra Guðmundar, Gísla, Guðlaugar og Halldóru.
D. Þuríður átti Jón í Stóra-Ási Jónsson; börn:
a. Ingiríður fyrri kona Páls í Deildartungu Sigurðssonar.
b. Salvör átti Jón Bjarnason.
c. Sigurður í Ási, átti Guðrúnu Árnadóttur og börn.

Sigurður þessi segja sumir, að haft hafi lögsögn í Dalasýslu fyrir Andrés 1689—91 og 1693, lét hann þann 21. desbr. sem lögsagnari í Dalasýslu dóm ganga með 8 mönnum, voru 2 menn útnefndir vegna kongs og aðrir 2 vegna kirkjunnar og 4 aðrir, skipta Þorgeirsstaðahlíð millum kongsins og Snóksdalskirkju; var Gísli Ólafsson þá umboðsmaður Sigurðar lögsagnara.

Sumir meina að lögsagnari Andrésar hafi verið (hvað eg þó meina óréttara):

## Sigurður lögrèttumaður Pálsson.

*Faðir:* Páll (dó 1648) Bjarnason í Skógarnesi Egilssonar.

*Móðir*: Þórlaug dóttir séra Sigurðar í Miklaholti Finnssonar.

*Fyrri kona*: Sigríður Guðmundsdóttir Péturssonar.

*Seinni kona*: Kristín Gísladóttir, Ólafssonar; þeirra börn:

A. Jón í Skógarnesi átti Kristínu Ólafsdóttur Guðmundssonar og börn.

B. Skapti samastaðar átti Marsibil Ásgrímsdóttur; börn:

a. Arndís.

b. Þorleifur, giftist.

c. Ásgrímur, barnlaus.

C. Sigurður átti Guðrúnu Asbjörnsdóttur frá Hrossholti; börn:

a. Guðmundur.

b. Guðrún.

c. Ögmundur.

d. Ásgrímur.

D. Guðrún, átti Þórð á Kolviðarnesi; hennar launsonur Halldór.

E. Guðrún yngri, átti Gísla Ásgrímsson Jónssonar frá Miðhrauni.

F. Ingibjörg, átti Gísla á Borg Jónsson Arasonar, barnlaus.

G. Kristín, átti séra Pétur Einarsson; þ. s.:

a. Pétur, átti Arndísi Skaptadóttur (sjá að ofan).

Sigurður var lögréttumaður, bjó í Syðra-Skógarnesi, var skír maður og vel efnaður. En óvíst tel eg, hvort hann hefur nokkurn tíma verið lögsagnari í Dalasýslu. Ættatölur telja hann Dalasýslu lögsagnara 1689. Hann dó 1720.

## Magnús Björnsson

síðar Snæfellssýslumaður er hér talinn lögsagnari eptir 1691.

## Páll Jónsson Vídalín.

*Faðir*: Jón (d. 1695) í Víðidalstungu Þorláksson samastaðar Pálssonar sýslumanns Guðbrandssonar biskups.

*Móðir*: Hildur dóttir séra Arngríms lærða á Melstað of-

ficialis Hólastiptis, hann dó 1648 (Jón og Hildur giptust 1664. Séra Arngrímur var tvígiptur. Hans fyrri kona var Sólveig kvennablómi, dóttir Gunnars sýslumanns og klausturhaldara síðast á Víðivöllum. Sólveig deyði 1627. Þeirra börn: Jón, Gunnar, Helga, seinni kona Björns sýslumanns Magnússonar í Saurbæ. Síðar giptist séra Arngrímur Sigríði dóttur séra Bjarna á Grenjaðarstað Gamalíelssonar; þeirra börn: Séra Þorlákur á Staðarbakka, séra Þorkell í Görðum, séra Bjarni á Höskuldsstöðum, Guðbrandur sýslumaður, Hildur, áður nefnd, dó 1725, 83 ára, Ingibjörg og Sólveig. Systkin Páls Vídalíns voru: Kristín, sem átti síra Jón Magnússon (sjá Strandasýslu og síðar) og Sigríður, átti séra Magnús í Hvammi Magnússon Jónssonar; áttu báðar afkomendur. Sigríður flutti að Glerárskógum eptir lát séra Magnúsar, hjá henni dó Hildur móðir hennar haustið 1725).

*Kona* Páls Vídalíns var Þorbjörg Magnúsdóttur Jónssonsonar prófasts í Vatnsfirði, Arasonar, Magnússonar. (Magnús var bóndi vel auðugur og bjó í Vigur, hann var furðu gildur, og var kallaður Magnús digri; svo voru og fleiri börn séra Jóns í Vatnsfirði, svo sem Oddur digri klausturhaldari á Reynistað og Anna digra, hana báru fáir hestar og þá hún skyldi ferðast, var hafður stigi með, að hún skyldi komast á bak). Magnús giptist í Holti í Önundarfirði Ástríði dóttur Jóns prófasts samastaðar, Jónssonar prófasts samastaðar, Sveinssonar prófasts samastaðar Símonarsonar, var Magnús þá 25 ára. Eptir kaupmálabréfi hans, gert að Holti í Önundarfirði 1. sept. 1662, hefur séra Jón Arason fengið Magnúsi syni sínum tíutíu hundruð í föstu, þar í Ögur og Vigur fyrir 52 hundr., en í lausafé 1 hundr. hundraða. En séra Jón í Holti taldi dóttur sinni, Ástríði, 80 hundr. í jörðum og 60 hundr. í lausafé. Magnús átti að gefa Ástríði fjórðungsgjöf

eptir fjármagni. 1663, 6. september, fóru festar fram og fjárskilmálar ítrekaðir etc. Þau hjón fluttu fyrst í Ögur, síðar 1666 í Vigur, bjó Magnús þar síðan alla æfi.

Stirt var á millum þeirra hjóna og ei gátu þau saman rekkt; þar kom að þau skildu með dómi 1675, því Magnús tók fram hjá, og 1679 átti Magnús launson Sigurð, sem í fyrstu var öðrum kenndur, en 1680 gekk Magnús við honum. Sesselja ekkja Magnúsar fann gjafabréf af dato 1681 hvar með hann gefur Sigurði launsyni sínum Eyri í Skötufirði með 9 vætta landsskuld og 8 kúgildum. Páll Vídalín gat komið Sigurði til að renuncera upp á jörðina 14. maí 1702 staddur í Vigur. Magnús giptist síðar Sesselju dóttur Sæmundar á Hóli í Bolungarvík Magnússonar Sæmundssonar Árnasonar á Hlíðarenda Gíslasonar, þau voru barnlaus. Magnús deyði 1702, en Ástríður þann 30. ágúst 1719. Magnús lét eitt sinn dóm ganga um það, að hann hafði fiskastakk, sem álitinn var 400 vættir. Kvartaði hann yfir, að Ísafjarðarkaupmaður vildi hann ei af sér kaupa og beiddist dóms á, hvort hann mætti ei kaupmönnum í öðrum kaupstöðum selja, hvar upp á féll sá dómur, þar Ísafjarðarkaupmaður vildi ei fiskinn kaupa mætti hann selja í hvern annan kaupstað, er hann gæti. Þetta sýnir aflaföng Magnúsar og ófría höndlun landsmanna.

Börn Magnúsar og Ástríðar: Þorbjörg áður nefnd (fædd 1667, deyði 1737) átti Pál Vídalín og Kristín átti Snæbjörn Pálsson, hún deyði 1712.

*Börn* Páls Vídalíns og Þorbjargar voru:

A. Jón eldri átti Helgu dóttur biskups Steins. Jón varð úti á Hjaltadalsheiði 1726, orðinn settur Vaðlasýslumaður (sjá Vaðlaþing).

B. Jón yngri, dó erlendis 1726, barnlaus. Nafnkenndur að lærdómi.

C. Magnús bjó lengi í Núpdalstungu, en flutti seinna að Ögri við Ísafjörð, og var þar sem

húsmaður hjá Sigurði Ólafssyni og fékk honum Ögur en deyði sjálfur 1769.

D. Hólmfríður átti Bjarna sýslumann Halldórsson (sjá Húnavatnsþing).

Páll Vídalín, fæddur 1667, var snemma námgjarn, skarpur og skáld, en var að líkamansgjörfuleik lítill framfaramaður, sem hann kvað sjálfur 1685: „átján er eg vetra, ýtist vöxtur lítið" etc. En í bóknámi tók hann bráðum framförum bæði utan og innanlands. Hann lagði sig og mikið eptir fornfræðum, sem þá var fátítt, og meina menn, að í þeim fróðleik hafi hann að notið í fyrstu fræðingar Einars Eyjólfssonar sýslumanns. Páll Vídalín fór 18 vetra utan, þar var hann við háskólann 3 ár, kom út 1688, og hafði þá meðmælt kongsbréf til embættis og vildi verða skólameistari í Skálholti og fékk þar upp á kongsveiting 1688, dag 10. marz. en hlaut það embætti 1690, þá Þórður Vídalín sleppti sjálfviljugur skólameistaraembætti.

Til sýsluembætta mun hann fyrst bafa settur verið 1696 í Dalasýslu, en virkilega veiting fyrir þeirri sýslu fékk hann af kongi 17. apríl 1697. En vicelögmanns embættisveiting af 20. apríl 1697 hlotnaðist honum og líka í suður- og austur lögdæmunum, en virkilegur lögmaður varð hann 1705, þá Sigurður Björnsson sagði af sér. Ásamt assessor Árna Magnússyni varð hann landcommissaríus 1702 og gjörðu þeir nýja jarðabók, sem Árni aflauk loks 1714. Í margvíslegum öðrum erindagjörðum fóru þeir og um landið og dæmdu í ýmsum málum. Að upptelja dómara-aðgjörðir Vídalíns vildi vera helzt til langt. Einasta get eg þess, að í norðurlögdæminu var hann opt skikkaður dómari, svo sem 1701, í fémáli Hamraenda-Jóns sýslumanns, einnig 1702 ýmsa aðra dóma í Norðlendingafjórðungi dæmda, samt 1705 í dulmáli Sigríðar Vigfúsdóttur; og Magnúsar Benediktssonar máli um morðgrun á barnsmóður sinni. Það gerði hann í Laurusar Gottrups umdæmi eptir amtmannsskipan. 1711 inngaf landsskrifari Sigurður Sigurðsson klögun yfir Páli, svo kallaðra fullmektugra, Odds Sigurðssonar og Páls Beyers, og 1712 landsskrifarinn og lögmaður Laurus Gottrup klögun til sömu um það, að Vídalín í einu og sömu sök, hafi útgefið 2 votta hvort oðru gagnstætt hvar fyrir téðir menn gerðu sig sjálfa

að sakaráberum Vídalíns, og létu honum innstefna fyrir lögþingisréttinn undir 24 manna dóm 1713 bæði fyrir téða sök og aðrar fleiri þessu óviðkomandi. Stefnuna tók lögmaður Páll til sín, en afhenti stefnuvottunum afskript af henni, hverja hann sjálfur fidimeraði; þar fyrir klöguðu og stefndu greindir menn Páli til sama þings. Litlu áður en þessi mál skyldu fyrirtakast, höfðu þeir Vigfús Hannesson sýslumaður í Árnessýslu, Níels Kjer sýslumaður í Kjósarsýslu, Markús Bergsson sýslumaður í Ísafjarðarsýslu og lögréttumennirnir Axel Friðrik Jónsson, Stefán Jónsson og Brandur Bjarnhéðinsson, inngefið á alþingi memoríal dat 8. júlí 1713, til Odds Sigurðssonar og Páls Beyers og afsagt Vídalín fyrir sinn lögmann, vegna sakagifta þeirra, er þeir ásamt Sigurði landsskrifara höfðu mót honum, og beiddu, að annar væri settur lögmaður í hans stað. Í þessum memoríal brúkuðu þeir nærgangandi grófyrði; þar fyrir utan hafði Brynjólfur Þórðarson skrifað upp á þennan memoríal, þann 12. júlí, að hann vildi ei sín mál undir lögmanns Vídalíns dómi eiga. Sama dag hefur lögmaður Gottrup skrifað upp á þennan memoríal, að hann vildi ei, ásamt lögmanni Vídalín réttinn í lögréttu sitja, og hefur hann þar um inngefið einn á parti memoríal til Odds og Beyers. Sama dag hafa þeir Oddur og Beyer, án undangengins dóms með orði, rekið Vídalín frá sínu lögmannssæti og innþrengt þar aptur vicelögmanni Jóni Eyjólfssyni. Deginum eptir, þann 11. júlí, begjörði Oddur Sigurðsson arrest yfir Vídalín, af því hann vildi ei í eigin persónu mæta fyrir 24 manna rétti; fyrir þetta arrest hafa þeir gengið í caution lögmaður Gottrup og Níels Kjer, þá þann 11. júlí suspenderuðu þeir Oddur og Beyer, Pál Vídalín skriflega frá sínu embætti, með nærgangandi orðatiltækjum. Til dómara í 24 manna réttinum voru þá 6 menn nefndir, sem áðurnefndan memoríal höfðu undirskrifað móti Vídalín, og enn nú einn, sem áður hafði verið brúkaður til að stefna Vídalín í þessari sök. Þegar sökin var fyrir tekin, antóku dómendur ekki Vídalíns contrastefnu til dómsúrskurðar, ekki heldur (segir stefnan) þeir hafi neitt endilegt dæmt í höfuðsökinni, heldur alleina við hvern póst innfært nærgangandi orðatiltæki. Í bísökinni um stefnutökuna dæmdu þeir Vídalín í peningabætur, með hörðum orðatiltækjum. Í dóminum bættu þeir

við, að þeir skulduðu Vídalín fyrir órólegheit, og að hann hjálpaði til nauðsynjalausra þráttana í landinu. Vídalín beiddi um allt þetta útskrifað. Oddur lét einn þénara afskrifa og fidimeraði sjálfur afskriptina, Páll appelleraði málinu til hæstaréttar og stefndi Oddi og Páli og öllum meðdómsmönnum þeirra, sem voru: Laurus Hansson Skeving (frá Vaðlasýslu), Benedikt Þorsteinsson (frá Norðursýslu), Benedikt Magnússon Bech (frá Hegranessýslu), Bjarni Pétursson (hálfri Barðastrandarsýslu), Sigurður Jónsson og Jón Sigurðsson (úr Þverárþingi), Markús Bergsson (úr Ísafjarðarsýslu), Hallgrímur Thorlacíus (úr Múlasýslu), Vigfús Árnason (úr Hnappadalssýslu); þeir höfðu þá allir sýsluveitingu. En lögsagnara og lögréttumenn: Jón Eiríksson (úr Húnavatnsþingi), Sumarliði Klemenzson (úr Strandasýslu), Eiríkur Ólafsson, Sigurður Sigurðsson, Þórður Björnsson, Jón Jónsson, Axel Friðrik Jónsson, Stefán Jónsson, Runólfur Ólafsson, Sigurður Högnason, Jón Gíslason, Jón Magnússon, Stefán Halldórsson, Bergsteinn Bjarnason og Henrich Brandsson. Áður hafði Vídalín protesterað móti að þessir menn sætu í dómarasæti yfir sér: Hallgrímur Thorlacíus of ungur og óeiðsvarinn, þar með skyldur Brynjólfi Þórðarsyni; Jón Sigurðsson án síns vilja innsettur í Dalasýslu, um hverja sýslu nú væri deila með þeim Oddi; Markúsi Bergssyni unglingi í sýslumannsverkum, Þórði Björnssyni, þar til var honum svarað, að hann hefði sjálfur, 1710, tekið Þórð fyrir lögsagnara í Strandasýslu, og af honum dómaraeið tekið. Ei væri á lögþinginu betri mannvöl, en þar voru saman komin etc. Vídalín kvað enn fleiri sína öfundarmenn, en bevís fram komu þá ekki og margt fleira var þar um þrasað. 1714 var Vídalín í stefnuförum lengi. 1715 sigldi hann og Oddur, var þá dæmt málið fyrir hæstarétti og Páli í bætur 300 rd. og lögmannsembættið, en þá tapaði hann máli móti Sigurði fyrr lögmanni Björnssyni, nokkru fyr, voru honum og til dæmdar 300 rd. bætur, hvar af assessor Árni betalaði 100 rd., Oddur 100 rd. og dómsmenn 100 rd. Vídalín vann mál sín fyrir málsfærslu ranga þeirra fullmektugu, þess og annars, að Oddur var lítt nýtur fyrir rétti að svara. En P. Vídalín hafði ferðugasta talsmann, cancellieráð Bostrup Albertin; Vídalín var og sjálfur tölugur og fljótur til svars. 1716 var Páll Vídalín dæmdur í bætur til erfingja Vigfúsar sýslumanns Hannessonar 100 rd. og til

Krists kirkju 50 rd., Brynjólfi Þórðarsyni 100 rd. og til téðrar kirkju 100 rd. og enn 20 rd. fyrir aðferð í máli móti Laurusi lögmanni, og landsþingsskrifara Sigurði. Páll átti og mjög opt í málum; sjálfur mikill lagaflækjumaður, hlutsamur, vitur og undirförull við óvildarmenn sína, en bezti vinur vina sinna, þó undarlegur í lund og kerskinn í orðum, mjóhljóðaður, ágæta skáld. Um hann var kveðið:

Á gráum klæðum skartið skín,
skringilega kvað hann,
virðar segja Vídalín
verða skrækhljóðaðan.

Og líka þessi vísa:

Heldur varstu' hátalaður Hóls á þingi
herra Páll með hárið danska
þá hafðirðu' á lopti reyrinn spanska.

Þetta sýnir að menn hafi þá brúkað puðrað gerðahár og spansreyr. Stirt féll opt millum Vídalíns og Þorbjargar konu hans. Hún stór og stríðlynd, hann breytinn og glettinn. Sögn er að eitt sinn þá þau ætluðu til altaris, hafi hann sagt: „Eigum við ekki að sættast?“ Hún svaraði: „Það má vera hvort þú vilt“. Hann ansaði:

Þó þú lofir fögru fljóð
fer það sem er vani;
sættin verður á sænskan móð
sem þeir gjöra við Dani.

Margt og margvíslegt er það, sem mætti um Pál Vídalín skrifa, á fátt eitt er vikið í Odds lögmanns Sigurðssonar æfiágripi. Sum skrif hans og sálmar sýna hans góða þanka og mikla lærdóm, eins hans snillilega skáldskapargáfu. Þó hann væri blendinn í sumu, mátti hann heita einhver með mestu mönnum á sinni tíð.

Þar er til að taka, sem áður var frá horfið, að Páll Vídalín fékk sér veitta Dalasýslu 20. apríl 1699. En 1708 samdi hann við mág sinn Jón sýslumann Magnússon, að hafa sýsluskipti á Dala- og Strandasýslu, en þá að kom skiptunum, missti Jón sýsluna; vildu þá þeir fullmektugu taka af Páli Dalasýslu og uppbuðu hana 1710; varð Oddur hæstbjóðandi. Um þetta varð þras mikið, svo Páll og Oddur skrifuðu út þar um, en létu þó Páli eptir að halda henni

1710 og 1711, unz svar kæmi. Hafði Páll þá og þessi árin Strandasýslu og setti þar Þórð Björnsson fyrir sinn lögsagnara. 1711 tók Oddur Dalasýslu án dóms og laga af Páli, hver hann vildi að héldi Strandasýslu eptir samningi við Jón Magnússon 1708 og við Odd 1710, hvern þeir Páll og Oddur sýnast báðir að hafa viljað síðan brigða. Vildi nú Páll sleppa Strandasýslu, en halda Dalasýslu. Oddur væntist skipunar Gyldenlöves hér um frá admiral Sehested, og setti Jón Sigurðsson þar fyrir lögsagnara, var hann fyrir sýslunni til 1717 talinn; vildi þó vinga sig við Pál og samdi við hann, að sleppa Dalasýslu 1717 hverja að Páll Beyer hafði veitt honum téð ár 19. júlí ásamt Strandasýslu, því eptir boði Bjarna ríka mótmælti Páll harðlega, þó Bjarni biði í festu 300 rd. Samdi því Oddur við Pál 1717, að sleppa Dalasýslu, en eptirlét Páli hálfa Snæfellsnessýslu og hálft Stapaumboð og undirgekkst þó, að hafa alla lögsögu og ábyrgð á eigin kostnað í Snæfellsnessýslu, en betala árlega Páli 135 vættir; á þessu varð misbrestur, þá til útgjaldsins kom. Hér af reis ágreiningur, svo að Dalasýsla var enn uppboðin 1718 og tilslegin Vídalín fyrir 96 rd. 3 mörk í festu. Bjarni ríki bauð á sama þingi í festu 200 rd., því mótmælti Vídalín sem fyr og hélzt uppboðið, en kongsstaðfesting fékk hann þar upp á 29. apríl 1720, hélt Vídalín þeirri sýslu til síns dauða 1727. 1725 6. janúar gefur kongur leyfi Vídalín og hans kvinnu að behalda Húnavatnssýslujörðum þeirra lífstíð. Jón Arnórsson varð hans lögsagnari 1718 til þess hann deyði 1726, en Páll Vídalín sleppti Strandasýslu 1712, aptur fékk hann veiting Páls Beyers fyrir henni 1717. Oddur fékk af Páli að afstanda hana til Orms Daðasonar 1718. Eptir Bjarna í Arnarbæli gerðist Þorlákur Guðbrandsson Páls Vídalíns lögsagnari í Dalasýslu 1698—99, þá Jón Strandasýslumaður 1700—1707, þá Jón Eiríksson 1708—1711, þá áðurnefndur Jón Sigurðsson 1712—1718, síðan Jón Arnórsson 1718—1726. En 1726—1727 Jón Eiríksson á Núpi í Miðfirði, og í stöku málum Hamraenda-Jón að sagt er. Vídalín elskaði mikið Hólmfríði dóttur sína, og hafði komið henni í Skálholt til enn meiri frama og menningar.

Páll Vídalín varð mótlættur maður af hússásigkomulagi sínu, dauða Jóns sonar síns, sem úti varð á Hjaltadalsheiði

1726 og sjálfs síns fótaveiki og fleirum óþægindum. Til alþingis reið Páll 1727, þó hann væri þá þrotinn að heilsu. Kvað hann þetta þá heiman fór:

Leiðast tekur himinn og hauður
hagur bágur alla daga,
andvana frá mér auð burt vendi
undarlegt er stríð lífsstunda.

Setti Vídalín þá alþing, því Benedikt lögmaður var þá enn ei kominn úr siglingu, en kom litlu seinna og reið frá Eyrarbakka til þingsins. Þar eptir tók Vídalín sótt, svo hann varð rúmliggjandi. Var þá Níels Kjer fyrir dómum í hans stað; amtmaður Fuhrmann höfðaði mál þá móti Vídalín fyrir það hann vildi ekki ljá klukku til yfirréttar hringingar, en andsvör hans voru, að hann hefði lofað séra Jóni Halldórssyni klukkunni, lézt ei mótmælt hafa hringingum síðan prestur leyfði, en vildi engan láta svara fyrir sig. Hafði þó Fuhrmann fram málið og voru Vídalín dæmdar fésektir. Þegar sótt elnaði á Vídalín sendi hann í Skálholt eptir Hólmfríði dóttur sinni til að mæla við sig. Hún var þá orðin kunnug Bjarna Halldórssyni, sem þá var skólameistari í Skálholti og þunguð af hans völdum. En er hún hafði heilsað föður sínum, er sagt hann hafi litið á hana og sagt: „Guð hjálpi mér, hvernig ertu?“ og þau orð hafi hann mælt síðast svo menn heyrðu. Páll Vídalín andaðist þann 18. júlí 1727, 10 dögum eptir hann hafði sett þingið sextugur að aldri. Var hann maður fjöllærður, en þá fyrir öllum í fornfræðalærdómi. Nokkrir telja hann og farið hafa með forneskju, hvar um eg hef ei annað en orðróm, (og eg hef séð eptir hann eða með hans hendi kver þesshattar áhrærandi með svokölluðum galdrastöfum og miklu villuletri, þar á voru fyrirsagnir til margs, sem ónáttúrlegt var, utan svo sterk trú hefði stöfunum fylgt, sem ólíklegt er um svo vitran mann).

Heiðarlegan umbúnað fékk lík hans þar á þinginu, og flutt norður að Víðidalstungu, hvar hann hafði búið, fylgdu hans líki af Þingvelli flestir höfðingjar, sem á þinginu voru og yfir 100 manns af þingheimi.

## Bjarni Pétursson.

1717 þann 21. júlí útgaf Oddur lögmaður Sigurðsson

fullmektugur stiptamtmanns Gyldenlöves Bjarna Péturssyni veitingarbréf fyrir Dalasýslu, sem í lögréttu var upplesið sama ár. En þar Páll Beyer hafði þann 19. júlí sama ár gefið Páli Vídalín veitingu fyrir sömu sýslu og með talsgáfum sínum sýndi, að sú fyrri veiting ætti að standa, og eptirboð Bjarna upp á Dalasýslu 300 rd. yrðu til ills, kom hann því til leiðar, að Bjarna veiting hélzt ekki, en Páll tók sýsluna. Þessi Bjarni Pétursson var fæddur fyrir krossmessu vorið 1680, giptist 1704, deyði á Skarði 1768.

## Bjarni Bjarnason.

*Faðir*: Bjarni á Hesti í Önundarfirði son Jóns yngra Dans á Eyri í Seyðisfirði Magnússonar sýslumanns í Ögri.

*Móðir*: Ingibjörg dóttir Páls á Hafnarhólmi Magnússonar (séra Gunnar á Gilsbakka var bróðir Ingibjargar).

*Kona*: Guðný dóttir Hákonar Árnasonar Sæmundssonar sýslumanns Árnasonar sýslumanns á Hlíðarenda Gíslasonar.

*Börn*: A. Guðlaug seinni kona Hannesar Þórðarsonar í Arnarbæli, börn:
- a. Þorbjörg (dó 1782) átti fyr Ara Teitsson, börn:
  - aa. Teitur.
  - bb. Þórunn, bl.
  - cc. Elín gipt, átti mörg börn.
  
  Seinni maður Þorbjargar Guðmundur Pálsson í Snóksdal, börn:
  - dd. Hannes } dóu barnlaus.
  - ee. Helga. } dóu barnlaus.
  - ff. Ari átti Rannveigu Magnúsdóttur, börn:
    - aaa. Þórunn.
    - bbb. Guðríður.
  - gg. Páll giptist, missti sitt barn.
  - hh. Ólafur Snókdalín (fæddur 1761, giptist 1790 Steinvöru, fæddri 1760, dóttur séra Þorbergs Einarssonar; hún hafði áður átt Magnús assistent á Eyrarbakka son Einars á Bjargi; Magnús dó í bólu 1786.

Einar var fyrst æeonomu á Hólum, svo kongsjarða forpaktari í Miðfirði, dó 1770[1]). Dóttir Magnúsar og Steinvarar Ingibjörg). Börn Ólafs og Steinvarar:

aaa. Magnús.

bbb. Guðmundur.

ccc. Þorbergur[2]).

b. Valgerður átti Ólaf í Arney, barnlaus.

B. Hákon dó í skóla, átti þó laundóttur með Sigríði Jónsdóttur:

a. Lísibet giptist lögréttumanni Halldóri Jónssyni á Víghólsstöðum, þ. b.:

aa. Jón átti Oddnýju Magnúsdóttur, þ. d.:

aaa. Margrét átti börn.

bb. Guðrún átti Kristján Illugason, þeirra börn dóu.

cc. Guðný átti laundóttur með Ólafi Ólafssyni kammersecretera, hét Kristín, hún átti börn en dóu. Síðar giptist Guðný, þá barnlaus.

C. Ingveldur seinni kona Benedikts Jónssonar, son:

a. Bogi í Hrappsey[3]) átti fyrst Þrúði dóttur Bjarna sýslumanns Péturssonar á Skarði, börn:

aa. Torfi dó ungur.

bb. Benedikt }
cc. Margrét } giptust og áttu börn.
dd. Bjarni. }

Miðkona Boga Kristín, barnlaus. Þriðja kona Sigríður átti mörg börn.

D. Guðmundur átti Steinunni dóttur Benedikts Jónssonar, börn:

a. Þorsteinn í Arnarbæli átti launson Jón með Katrínu Aradóttur. Átti fyr Þóru Þorsteins-

---

1) Einar var bróðir Skúla landfógeta Magnússonar.

2) Sjá um þessa ættkvísl bls. 75 og víðar. Afkomendur Ólafs hafa lagt niður Snókdalínsnafnið.

3) Ætt frá honum (Hrappseyjar- og Staðarfellsætt) er orðin afarfjölmenn. Er mikill fjöldi manna kominn frá Bjarna í Arnarbæli.

dóttur, bl. Síðar Sigríði Jónsdóttur, þ. b.:
aa. Þorsteinn dó ungur.
bb. Guðmundur giptist og átti börn.
b. Hákon átti Önnu Guðmundsdóttur, þ. b.:
aa. Hákon giptist Þuríði, átti mörg börn og launbörn.
bb. Jón átti Sigríði Sigurðardóttur, börn:
aaa. Elísabet.
bbb. Lýður.
ccc. Kristján.
Jón átti launson.
cc. Sigríður giptist Vigfúsi, átti börn.
c. Bjarni fyrri maður Signýjar Kolbeinsdóttur, þeirra börn:
aa. Jón átti Þuríði Magnúsdóttur og börn.
bb. Kolbeinn átti Steinku Ólafsdóttur, bl.
cc. Margrét seinni kona Þórðar Þorgeirssonar og börn.
dd. Ragnhildur giptist og átti börn.
d. Kristín átti launson, sem dó barnlaus.
e. Guðríður átti Brynjólf Magnússon og börn mörg.
f. Ögmundur.
g. Valgerður hórgetin, bl.

E. Sigríður átti fyrst launson með Helga, hét Jón, hann giptist og átti börn. Síðan giptist Sigríður Jóni lögréttumanni á Grímsstöðum (hann skrifaði annál) Ólafssyni, börn:
a. Ólafur í Arney (dó 1800, 78 ára) átti fyr Valgerði dóttur Hannesar Þórðarsonar frá Snóksdal, þau barnlaus. Svo Kristínu dóttur Guðmundar bónda á Hrauni eða Stóra-Hrauni í Helgafellssveit Guðmundssonar börn:
aa. Guðmundur í Arney átti Sigríði Sveinsdóttur og börn.
bb. Hólmfríður í Purkey átti Ólaf Sveinsson og börn.

cc. Valgerður fyrri kona Einars Einarssonar frá Hrísum og börn.
dd. Kristján launson Ólafs með Kristínu Þorláksdóttur, barnlaus.
b. Teitur á Knör, skólalærður, átti fyr Guðrúnu dóttur Bjarna Sigurðssonar á Fróðá, börn:
aa. Jón átti Halldóru Jónsdóttur og mörg börn.
bb. Teitur.
cc. Einar.
dd. Ingibjörg.
ee. Guðrún.
Launsonur Teits með Guðrúnu Jónsdóttur hét Oddur, letingi, átti Þorgerði Jónsdóttur og börn.
c. Hákon Jónsson, barnlaus.
F. Launson Bjarna í Arnarbæli Jón, kallaður bóndason, bjó í Laxárdal á Skógarströnd, átti Gróu Þorvarðsdóttur Arasonar Þorvarðssonar Arasonar, börn:
a. Ingveldur átti Benedikt Sturlaugsson, þ. s.:
aa. Benedikt í Laxárdal fyrri maður Ingunnar Björnsdóttur, þ. d.:
aaa. Ingibjörg átti barn með Sveini.
b. Þorvarður Jónsson við Hellna átti Arnfríði Hannesdóttur, þeirra son:
aa. Jón fór norður.

Bjarni Bjarnason var borinn 1639, en á ellefta ári fór hann í Skálholtsskóla. Fannst þá í skólanum galdrakver, skrifað með 80 svo kölluðum galdrastöfum; voru skólapiltar þar um fyrir sökum hafðir, mörgum refsað, og 13 úr skóla reknir, meðal þeirra var Bjarni, sem þá (1651) fór heim til föður síns og dvaldi um hríð hér í landi, sigldi svo til Englands og var mörg ár í siglingu til ýmsra landa, en kom loks út í Austfjörðum 1667. Var hann þá orðinn vel við efni, fékk sér þar hesta og leiðtoga, og ferðaðist vestur til föður síns, að Hesti í Önundarfirði; þótti hann þá vel framaður. Nokkru þar eptir giptist hann Guðnýju, og tók síðan við búi á Hesti og bjó þar um hríð. Hann hafði í heimanmund konu sinnar

fengið Arnarbæli á Fellsströnd; voru þar og fleiri eignir, sem hún stóð til að eignast, hélt Bjarni betra þar syðra. Lét hann því gera sér byrðing af rekavið, eða stóra skútu, fermdi hana af lausafé sínu og lét bát farmaðan með fylgja, hvern hann hafði á eptir, en kvikfé lét hann reka landveg. Um vorið 1688 steig hann með fólki sínu á skútu þessa, fór fyrir framan Vestfjarðaskaga og Bjargtanga, þá hitti hann óveður og varð að skera af sér bátinn, á honum voru fjármunir til XX hundr. (eptir því sem annáll Jóns Ólafssonar segir) Komst hann þó að öðru slysalaust á Breiðafjörð, inn eptir honum til Bjarneyja, þaðan í Krosssund og inn eptir eyjum upp á Arnarbælisvog, hvar hann bjó síðan alla æfi. Hann gerðist lögsagnari Páls Vídalíns í Dalasýslu 1696 og 1697; Bjarni var og lögréttumaður á alþingi 1700.

Það sýnist sem tengdafaðir hans Hákon og Guðríður tengdamóðir hans hafi að Arnarbæli farið sín síðustu ár, því 1698 þann 22. júní hafa skipti gerst að Arnarbæli eptir skipun vicelögmanns Páls Vídalíns á eptirlátinni fasteign og kúgildum Hákonar Árnasonar, er þá voru í höndum ekkjunnar Guðríðar Guðmundsdóttur millum dætra hans Guðnýjar konu lögréttumannsins Bjarna Bjarnasonar og Halldísar konu Þorbergs Þorsteinssonar. (Þar af er auðráðið, að þá hafa önnur ektabörn Hákonar, Árni, Valgerður, Sigríður og Elín, verið dáin barnlaus). Guðný hlaut í sinn arfapart þetta: Arnarbæli XXX hundr. með I hundr. landsskuld og 6 kúgildum, Kjallaksstaði XXIV hundr. með 7 ærgildalandsskuld og 7 kúgildum, hálfan Orrahól XII hundr. með 80 álna landsskuld og 5 kúgildum. [Hálfa] Urriðaá XII hundr. með 70 ál. landskuld og 3 kúgildum. Í Þambárvöllum V hundr. og 80 álnir, með 5 aura landskuld og 1½ kúgildi. Í Gili í Skagafirði (mun vera Gili í Sjávarborgarsókn) VIII hundr. landskuld, 29 álnir og 1 kúgildi. Þar fyrir utan hafði Hakon gefið dóttur sinni Guðnýju III hundr. í Emburhöfða. Halldís hlaut í sinn hlut í arfaskiptum Haga XVI hundr. með I hundr. landskuld og 6 kúgildum. Þorgilsfell XVI hundr. með 1 hundr. landskuld og 6 kúgildum. Þessar báðar jarðir liggja í Staðarsveit). Hálfa Urriðaá á XII hundr. með 70 alna landskuld og 3 kúgildum. Hálfar Fitjar VIII hundr. með 80 áln. landskuld og 4 kúgildum (þessar jarðir liggjandi í Miðfirði). Í Gili í Skagafirði

XII hundr. landskuld, 7 aurar, 1 alin og 4 kúgildi. Í Smirlahóli IV hundr., landskuld 24 áln. og 1/2 kúgildi. Giljaland XVI hndr. standa óskipt. Í sama skiptabréfi hafa þeir sættst Bjarni og Þorbergur, og niðurslegið öllum kala. Undir bréfið hafa skrifað Þorbergur Þorsteinsson, Bjarni Bjarnason, Pétur Guðmundsson, Magnús Ólafsson, Björn Jónsson, Helgi Ögmundsson, Þórhallur Einarsson, Ólafur Sigurðsson. NB. Þorbergur átti ei börn, hefur því Guðný erft systur sína og móður seinna, svo Bjarni hefur orðið maður vel auðugur. Hann átti og Hafurs-Hest í Önundarfirði með hjáleigum LX hundr., og fleiri jarðir. En skipti urðu seinna á því millum hans 6 barna. Þá Ingveldur giptist 1722 Benedikt Jónssyni í Hrappsey, hafði hún í heimanmund Kjallaksstaði XXIV hundr. og Emburhöfða VI hundr. Hannes Þórðarson, er seinna átti Guðlaugu, hlaut Arnarbæli, og hin önnur systkin til jafnaðar.

Opt var Bjarni í málaferlum, og þótti skýr og margfróður maður, sumir hafa og kallað hann fjölkunnugan, sem þá var títt um fróða menn. Hann kunni enska, hollenzka, þýzka og danska tungu (líklega af vana og umgengni utanlands við þessar þjóðir). Bjarni deyði í Arnarbæli 1723 á 84. aldursári, og þótti meðal bænda göfugur maður.

## Þorlákur Guðbrandsson.

*Faðir*: Guðbrandur sýslumaður í 1/2 Húnavatnsþingi, son séra Arngríms lærða á Melstað.

*Móðir*: Ragnheiður dóttir Jóns yngra Egilssonar á Geitaskarði.

*Kona*: Helga dóttir séra Bjarna Arngrímssonar lærða. (Séra Bjarni hélt Höskuldsstaði, átti Sesselju Þorvarðsdóttur).

*Börn*: A. Séra Hannes á Staðarbakka giptist Sesselju Gísladóttur frá Valadal, þ. b.:
- a. Guðbrandur í Tungu[1]) (dó 1800) átti Margrétu Jónsdóttur, þ. s.:
  - aa. Magnús í Syðri-Hraundal átt Jófríði[2]).
- b. Þorlákur[3]).

---

1) Þ. e. Tungu í Hörðudal.

2) Synir Magnúsar Guðbrandssonar voru: Guðbrandur á Hólmlátri, Magnús og Guðmundur á Rauðabjarnarstöðum.

3) Þorlákur bjó á Mýrum í Miðfirði, dó 1808.

c. Guðný[1].

B. Gunnar[2]) átti fyrr Vilborgu Erlendsdóttur; börn:

a. Jón.

b. Kristín.

Síðar átti Gunnar Halldóru Þ. d.[3]), barn:

c. Arngrímur.

C. Bjarni átti Ragnheiði Björnsdóttur prests í Hrepphólum.

D. Elísabet[4]).

Þorlákur var gáfumaður og lærði skólalærdóm, átti síðan barn með Helgu bróðurdóttur föður síns og nokkru síðar annað með henni, þóttu þau ofskyld og voru á sektir, átti Þorlákur þá mjög örðugan fjárhag, reri þá suður sem aðrir bændamenn. Foreldrar hans áttu og jafnan þröngt í búi, svo lítið gátu hjálpað Þorláki. En þá Páll Vídalín settist að í Víðidalstungu, tók hann Þorlák fyrir þénara sinn og lét hann nema lögvísi, útvegaði honum og kongsleyfi að mega ekta Helgu, (sektauppgjöf og giptingarleyfi þeirra er dagsett þann 4. maí 1700) og gerði hann lögsagnara sinn í Dalasýslu 1698 og 1699.

Eitt sinn þá Vídalín sendi Þorlák með fylgdarmanni skyndiferð til alþingis í slæmri færð, og honum þótti fylgdarmaður sinn eigi nógu öruggur, er mælt að Þorlákur hafi kveðið þetta:

Þó slípist jór en slitni gjörð
slettunum ekki kvíddu,
hugsaðu hvorki um himin né jörð,
haltu þér fast og ríddu.

Fyrir tilhlutun Páls Vídalíns fékk Þorlákur sér veittan norðurhluta Ísafjarðarsýslu 1701. Hann og Helga kona hans deyðu bæði í stórubólu 1707. Þorlákur var lipurt skáld, hefur ort fyrrihluta af Úlfarsrímum, Háttalykil og fleira. Er hans kveð-

---

1) Guðný átti barn með Jannesi Guðmundssyni, hét Elín.

2) Gunnar bjó austur á Skeiðum (í Hlemmiskeiðshjáleigu) 1729 og er þá talinn 33 ára gamall. Kristín dóttir hans og Vilborgar átti Bjarna Snorrason í Bár í Flóa.

3) Halldóra s. k. Gunnars var Halldórsdóttir, þeirra son Guðbrandur f. 1729.

4) Elizabet átti Þorkel Magnússon Guðmundssonar frá Leirubakka Magnússonar, bjuggu austur á Landi.

skapur vel vandaður og líkur með margt Páls Vídalíns kveðskap. Þorlákur kallaði sig að viðurnefni Vídalín. Jafnan hafði Þorlákur að búa við óhægan fjárhag, sem faðir hans, eins eptir það hann var orðinn virkilegur sýslumaður.

## Jón Magnússon.

*Faðir*: Séra Magnús, varð prestur á Kvennabrekku 1658, missti prestskap fyrir barneign 1666, gerðist lögsagnari í Dalasýslu 1681, dó 1684. Hann var son séra Jóns á Kvennabrekku Ormssonar í Fremri-Gufudal Jónssonar prests í Gufudal, Þorleifssonar í Þykkvaskógi.

*Móðir*: Guðrún dóttir séra Ketils prófasts á Hvammi í Hvammssveit 1638, sleppti því brauði 1668, dó 1670. Hann var sonur Jörundar brita Hálfdanarsonar á Miðfelli og Guðrúnar dóttur Jóns ráðsmanns og bryta í Skálholti Ásgrímssonar.

Þá Jón var í skóla átti hann barn með Katrínu Snorradóttur 1683, hét Snorri, varð hálærður 1711, heyrari við Hólaskóla í 8 ár og attestatus, síðan prófastur á Helgafelli; mátti séra Þórður víkja fyrir honum, því hann hafði ei fyrir utan höfuðsmannsveitingu, en séra Snorri kongsveitingu. Þá var þetta kveðið:

Séra Snorri setzt að Helgafelli,
Þórður prestur þaðan fer,
þá var gefið hundum smér.

Hvað skulu þussar þessarar sveitar gera
með svo lærðan mysugraut,
míga ofan í töðuna naut.

Einnig var þá kveðið:

Það er ekki lítið lán,
að ljóma á silkihökli,
vera getinn arfs þó án
undir Snæfellsjökli.

Séra Snorri átti Kristínu (dó 1752) dóttur séra Þorláks á Miklabæ, Ólafssonar samastaðar Jónssonar, börn:

a. Séra Gunnlaugur á Helgafelli 1755, deyði

hjá syni sínum á Kirkjubóli 1796, 83 ára, vel lærður, átti Ingibjörgu dóttur séra Gísla á Kvennabrekku, hún var orðlögð fyrir lærdóm í ýmsum tungumálum; þeirra börn:

aa. Séra Gísli, varð fyrst kapellán hjá föður sínum, fékk Kirkjuból í Langadal 1783, giptist ekki, dó 1813 barnlaus.

bb. Ólöf átti fyrst launbörn, giptist síðan Jóni (lang) Jónssyni Ívarssonar[1]), barnlaus.

cc. Ingibjörg átti launbarn, giptist Guðbrandi á Þingvöllum Oddssyni Arngrímssonar, börn:

aaa. Gottskálk[2]).
bbb. Ketill[3]).
ccc. Oddur[4]).
ddd. Margrét[5]).
eee. Guðrún[6]).

dd. Katrín gáfu- og fríðleiksstúlka mikil, átti 2 launbörn, þeirra annað Dósóteus Hún dó að því þriðja barni[7]).

---

1) Jón maður Ólafar var son Jóns Sighvatssonar á Ytraleiti og bróðir Ívars á Melum á Skarðsströnd Snókdalín segir, að hann hafi verið »hvimleiður« og dáið »armur á sveit«.

2) Gottskálk átti Helgu Torfadóttur og börn.

3) Ketill var á Bökkum í Rifi, átti Guðrúnu Þorgilsdóttur frá Saxhóli Jónssonar bl.

4) Oddur bjó á Kjallaksstöðum, átti Þuríði Ormsdóttur og mörg börn. Eitt þeirra var Jón skipasmiður faðir Þorleifs prests á Skinnastöðum.

5) Margrét átti Hákon Hákonarson Gunnarssonar bl.

6) Guðrún átti Ketil Ketilsson Þorleifssonar og börn. Síðari maður Ingibjargar Gunnlaugsdóttur var Guðmundur Jónsson í Elliðaey.

7) Faðir Dósoteusar launsonar Katrínar var Helgi Hafliðason Guðmundssonar, af ætt Stefáns sterka í Lág. Dósóteus bjó á Fremri-

b. Jón Snorrason sýslumaður í Skagafjarðarsýslu (sjá Húnavatnsþing) átti Guðrúnu eldri dóttur Skúla fógeta; þau barnlaus.

c. Séra Gísli í Odda prófastur, officialis 1753, hann fékk Odda 1747, dó 1780; hjá honum dó séra Snorri faðir hans 1756 átti fyr Margrétu dóttur séra Jóns í Stafholti, börn:

aa. Guðmundur átti Önnu Ólafsdóttur frá Lundum, þeirra dóttir Guðrún átti barn með bóndamanni fátækum, giptist í örbyrgð6).

Laundóttir Guðmundar með Ólöfu heitir Ólöf. Enn var Ragnheiður dóttir Guðmundar7).

d. Rósa Snorradóttir átti fyr séra Ísleif Páls-

---

Bakka á Langadalsströnd, dó í Gerfidal 1851, 84 ára. Hans son Timoteus í Gerfidal átti Þórunni Hákonardóttur, þ. b.: Dósoteus, Benedikt, Málfríður, Steinunn, Vigfús. Afkomendur þess fólks eru vestra.

6) Önnur dóttir Guðmundar og Önnu var

a. Margrét átti Magnús Guðlaugsson í Langholti, þ. b.:

aa. Guðmundur í Langholti átti Oddnýju Eleasarsdóttur.

bb. Gísli á Hafþórsstöðum faðir Markúsar prests á Stafafelli.

cc. Jón eldri í Langholti.

dd. Jón annar.

7) Enn var son Guðmundar með Guðnýju Ingimundardóttur:

b. Vigfús á Svanga í Skorradal. Synir hans:

aa. Sigurður bjó fyrst á Vífilsstöðum, síðar lengi góðu búi á Efstabæ í Skorradal, og er enn á lífi í Stóra-Botni, átti Hildi Jónsdóttur Símonarsonar á Hæli í Flókadal Teitssonar á Skálholtshamri Loptssonar. Meðal barna þeirra eru Ásgeir bóndi á Reykjum í Lundareykjadal og Oddný kona Helga bónda í Stóra-Botni Jónssonar prests í Saurbæ Benediktssonar.

bb. Guðmundur í Norðurkoti hjá Krísuvík átti Gróu Finnbogadóttur frá Möðruvöllum í Kjós Jónssonar frá Eyvík í Grímsnesi Þorvarðssonar Sturlusonar.

son í Garpsdal og Þæfusteini, b.l. (sjá Snæfellsnessýslu. Síðar átti Rósa séra Nikulás Magnússon[1]), þ. b.:

aa. Ástríður átti séra Brynjólf á Sandfelli Ólafsson[2]).

bb. Kristín átti séra Brynjólf Gíslason í Eydölum[3]).

Þá Jón var útlærður úr skóla, var hann litla hríð ógiptur til þess hann fékk Kristínu til ekta, dóttur Jóns í Víðidalstungu Þorlákssonar, Pálssonar sýslumanns Guðbrandssonar biskups (systur Páls lögmanns Vídalíns); þeirra börn:

A. Guðrún átti Þorlák Björnsson lögréttumann á Sólheimum, þ. b.:

a. Hákon á Kjalveg átti Guðrúnu Magnúsdóttur, þeirra dóttir:

aa. Kristín átti Hall í Grundarfirði Þorkelsson fríhöndlara, þau barnlaus.

---

1) Séra Nikulás í Berufirði († 6. nóv. 1772) var son Magnúsar Guðmundssonar spítalahaldara í Kaldaðarnesi af hinni svonefndu »Misersætt« (Bisk.s. II, 677) og Sigríðar Guðmundsdóttur frá Miðengi Sæmundssonar á Efri-Brú Engilbertssonar prests á Þingvöllum Nikulássonar.

2) Séra Brynjólfur var síðar prestur á Stöð († 20. okt. 1816). Einn son hans og Ástríðar var

a. Björgólfur faðir Brynjólfs á Skjöldólfsstöðum.

3) Börn séra Brynjólfs og Kristínar voru mörg

a. Snorri prestur á Heydölum faðir Rósu móður Snorra Jónssonar dýralæknis.

b. Gísli prestur á Hólmum dr. phil., faðir Gísla Brynjólfssonar skálds og háskólakennara.

c. Rósa, er fyrr átti séra Jón Bergsson á Hofi í Álptafirði, þeirra synir: séra Bergur í Vallanesi og séra Brynjólfur í Vestmannaeyjum, en síðar séra Bjarna Sveinsson á Stafafelli, þeirra synir séra Jón í Winnipeg og Sveinn bóndi í Þórisdal († 1904).

d. Sigurður á Múla í Álptafirði, átti börn.

e. Ingibjörg s. k. séra Gunnlaugs Þórðarsonar á Hallormsstað, þeirra son:
   Sæmundur stúdent, skrifari í Kaupm.höfn († 1863).

f. Sæmundur stúdent, útskrifaður 1816, dó 1826.

g. Jón stúdent, útskrifaður 1820, dó á Friðriksspítala 14. des. 1823.

b. Halldóra Þorláksdóttir[1]).
c. Þuríður Þorláksdóttir.

B. Guðlaug Jónsdóttir átti Eirík Jónsson norðlenzkan, barn:

a. Jón í Drápuhlíð smiður átti Þóru Einarsdóttur, börn:
aa. Einar í Tanga.
bb. Guðlaug.
cc. Kristín.
(NB. Þessi Guðlaug var hórgetin, þá Jón missti prestskap; móðir hennar var Guðrún Bjarnadóttir[2]) bónda í Miðdölum).

---

1) Jón Magnússon tengdafaðir Þorláks nefnir ekki Halldóru meðal barna hans og Guðrúnar, en í þess stað auk Hákonar og Þuríðar, Björn, Katrínu og Sesselju, og hafi hún dáið ung. Hafa líklega ekki fleiri verið fædd, er hann reit ættatölur sínar. En Espólín nefnir auk þessara Hildi, Solveigu og Vigfús, og hafi Hildur dáið bl. á sveit á Höfðaströnd, en Solveig átt Svein Jónsson frá Mörk í Laxárdal og farið vestur (í Strandasýslu) með honum. Björn, Katrín og Vigfús dóu bl., en Þuríður átti Guðmund Sigurðsson bróður séra Eyjólfs á Brúarlandi og Halldóra átti Erlend Magnússon í Hólakoti á Höfðaströnd, þeirra synir Vigfús, Davíð og Þorlákur á Reykjarhóli, faðir Sölva á Þverá í Deildardal, föður Þorláks á Fjalli, Sölva á Bræðrá, Þórðar á Helgustöðum í Flókadal, Sveins á Skarði í Sauðárhrepp, Sigurðar á Fjalli, Björns á Valdarási, Gunnlaugs og þeirra fleiri systkina.

2) Móðir Guðlaugar var Elín Bjarnadóttir Magnússonar og Solveigar Þorleifsdóttur Péturssonar frá Skarði í Neshrepp Jónssonar. Svo segir Jón Magnússon sjálfur, og mátti hann vita það. Í öllum öðrum ættatölum er hún nefnd Guðrún. Guðlaug átti og laundóttur, áður en hún giptist, er Elín hét, með Páli Ólafssyni frá Lækjamóti Þorvaldssonar í Auðbrekku. Eitt hórbarn Jóns Magnússonar með Guðrúnu Oddsdóttur var

Katrín átti Runólf Oddsson hafnsögumann í Kumbaravogi; þeirra son:

a. Oddur á Straumshlíð og Fjarðarhorni, átti Guðrúnu Tjörfadóttur úr Skagafirði. Meðal barna þeirra voru:
aa. Tjörfi á Gunnarsstöðum í Hörðudal († 1814). Hans son Bjarni hreppstjóri á Hrafnabjörgum († 1817) faðir Bjarna í Bessatungu föður Torfa skólastjóra í Ólafsdal.

Jón Magnússon er borinn 1664; þá hann var nærfelt dimissus átti hann barn 1683, fékk uppreisn 1687 og síðan varð hann prestur til Hjarðarholts í Dölum 1689, en þá hann átti barn framhjá missti hann það brauð 1698, flutti Jón þá bú sitt í Búðardal. Rögnvaldur í Fagradal var þá sýslumaður í Strandasýslu og tók Jón fyrir sinn lögsagnara 1699, sleppti og við hann Strandasýslu fyrir hverri Jón fékk og veiting 1700, og þar hann bjó í Dalasýslu tók Páll Vídalín hann fyrir lögsagnara 1700—1707, hafði hann því þessi árin Strandasýslu að veiting, en Dalasýslu að lögsögu. Jón var þá og umboðsmaður yfir Ísafjarðarsýslujörðum. Snemma ársins 1708 samdi Vídalín við Jón, að Jón skyldi sleppa við sig Strandasýslu að veiting, en taka sér veitta Dalasýslu, hvað af þeim fullmektugu var þeim eptirlátið; þá komst upp Jóns hórdómsbrot annað með Guðrúnu Bjarnadóttur (al. með Guðrúnu Ólafsdóttur Péturssonar). Það barn var Kristín[1]), sem átti Runólf umboðsmann Oddsson (sjá Ísafjarðarsýslu). Missti Jón því sýsluna, en húðlát, sem lög þar við lögðu uppgaf kongur honum, en bauð þó að rýma Skálholtsstipti 1710. Flutti Jón þá í Norðlendingafjórðung 1711 og bjó 6 ár að Ásgeirsá í Víðidal til 1717, var hann þá í nokkurskonar skjóli lögmanns Vídalíns og kenndi skólapiltum. 1717 var honum tilslegið Reynistaðarklaustur, en fékk ei sett veð fyrir, missti því klaustrið 1718, flutti hann þá að Sólheimum í Skagafirði, (Sólheima átti kona Jóns). 1724 heimti sýslumaður Jens Spendrup af Jóni skatt og gjaftoll, er hann vildi ekki borga, átti því sýslumaður Hannes Scheving að þinga þar um á Seilu sama ár, en þá til kom sleppti Spendrup tilkallinu fyrir tillögur Schevings. 1728 fór Jón að Reynistað til Jens Spendrups En nú tók Jón framhjá í þriðja sinn, þá hann var um sjötugt 1730, en kongur uppgaf honum lífstraff fyrir prófessoranna Grams og Bartholins milligöngu.

Rögnvaldur sýslumaður hafði testamenterað Jóni alla sína fjármuni, (staðfesting kongs þar upp á er dagsett 1702 þann

bb. Runólfur á Vaðstakksheiði síðari maður Dagbjartar Guðmundsdóttur Ásgeirssonar Jónssonar Brynjólfssonar prests í Hjarðarholti. Þeirra son Þorsteinn í Keflavík undir Jökli faðir Árna sýslumanns í Krossnesi (✝ 1848).

1) Réttara: Katrín.

13. maí) og þar á framfluttist Jón meðan þeir hrukku, en þar eptir lifði hann í fátækdóm um hríð. Þá hann var þrotinn að fé flutti hann til séra Snorra sonar síns að Helgafelli og deyði þar 74 ára gamall 7. des. 1738. Jón var maður vel gáfaður og að mörgu vel að sér. Assessor Árni bróðir hans og Páll lögmaður Vídalín voru honum liðsinnandi og greiddu úr vandræðum hans. Eptir skrifi Hálfdans skólameistara in Sciagraphia pag 196, hefur hann skrifað margt í lagafræði etc. Hann gekk marga dóma, meðan hann hafði sýsluvöld, meðal hverra hann á ný afdæmdi Jörfagleði, sem Björn sýslumaður Jónsson hafði fyr afdæmt; er mælt að í þeirri síðustu Jörfagleði hafi svo til talizt, að 19 börn hafi komið undir. Yfir höfuð tjáist Jón að hafa verið í mörgu ágætismaður, en ætíð ofmikill kvennamaður og gefinn fyrir ölföng, en lítill bústandsmaður. Jón var maður vel að sér í latínu og grísku tungumáli, einnig gamalli og nýrri norrænu og ættartölum, var og læknir. Til bjó orðabók og íslenzka og latínska grammatic, og skrifaði margt um lagagreina þýðingar, var og brugðinn við kvennavinnu. (Biograph. ass. Árna Magnússonar).

## Jón Eiríksson.

*Faðir:* Eiríkur á Núpi í Miðfirði son Jóns Eiríkssonar Egilssonar á Geitaskarði Jónssonar samastaðar Einarssonar samastaðar (sjá Húnavatnsþing).

*Móðir:* Málmfríður dóttir Jóns Teitssonar Björnssonar officialis á Melstað Jónssonar biskups Arasonar.

*Kona:* Sigþrúður dóttir Jóns Ólafssonar á Yxnakeldu lögréttumanns. (Sigþrúður var systir Böðvars á Yxnakeldu etc.).

*Börn:* A. Helgi átti fyrst launson með Sigríði Bjarnadóttur, hét Jón[1]), hans börn Helgi[2]), Bjarni, Ingveldur.

---

1) Hann var kallaður Jón murti, strauk til Hollands.

2) Snókdalín telur Helga og Ingveldi börn Bjarna Jónssonar murta Helgasonar, en ekki systkin hans. Hann telur og dóttur Jóns murta en systur Bjarna Sigþrúði, er átt hafi Jón á Hamraendakoti í Breiðuvík, þau bl. Son Helga Jónssonar skilgetinn telur hann Helga, föður Eiríks á Hanhóli í Bolungarvík, Helga í Staðarsveit og Ástríðar.

Svo giptist Helgi Guðrúnu Þorsteinsdóttur, bl.
B. Jón.
C. Guðrún, dóu í bólu 1707.
D. Jón annar, hans son Arngrímur lögsagnari (sjá Húnavatnsþing)[1].
Kona önnur Jóns Eiríkssonar hét Mildríður dóttir Tinds Jónssonar[2]), þ. s.:
E. Guðmundur lögréttumaður á Fróðá og fyr hospítalhaldari á Hallbjarnareyri (sjá um hann við Snæfellsnessýslu)

Jón gerðist lögréttumaður, (1680 er hans getið sem lögréttumanns), svo lögsagnari Laurusar Gottrups 1705—1708, þá lögsagnari Páls Vídalíns í Dalasýslu 1708—1711, þá aptur lögsagnari Laurusar Gottrups í Húnavatnssýslu 1711—1714. Jón bjó á Núpi í Miðfirði, hann var vel skír maður, en ólærður á latínu, harðger var hann og lét ei allt fyrir brjósti brenna. Systkin Jóns voru: Teitur lögréttumaður, Málmfríður, Þuríður, Solveig, Elín, giptust öll og áttu börn[3]).

## Jòn Sigurðsson.

(Sjá um hann við Snæfellsnessýslumannatal). Hann varð lögsagnari í Snæfellsnessýslu 1709—1712, fékk veiting fyrir Strandasýslu 1712, gerðist þá sama ár eða 1711 ásamt lögsagnari í Dalasýslu og hafði þar lögsögu til 1718. Hann sleppti Strandasýslu 1713. Drukknaði í Haukadalsá 1720.

---

1) I. B. bls. 619—621.

2) Tindur bjó á Brekkulæk í Miðfirði. Son hans og bróðir Mildríðar var Björn Tindsson á Stóru-Ásgeirsá og Helguhvammi, fæddur um nýár 1701, dó 1799, stór maður vexti. Börn hans voru Guðmundur í Galtarnesi, Sigurður í Þórukoti, Halldór, Eyvindur og Þórunn kona Ara Guðmundssonar á Þverá í Vesturhópi. Eru frá þessum börnum Björns Tindssonar komnar allmiklar ættir í Húnaþingi. En móðir Björns og Mildríðar s. k. Jóns Eiríkssonar var Ingibjörg Jónsdóttir frá Neðri-Fitjum Hallssonar og Guðrúnar Eyvindsdóttur frá Brekkulæk Rafnssonar Bessasonar. En kona Eyvindar var Valgerður Guðmundsdóttir Jónssonar rauðbrota á Söndum í Miðfirði,, sem Rauðbrotaætt er frá komin.

3) Sjá frekar um Jón Eiríksson I. B. bls. 606—607.

## Jón Arnórsson.

*Faðir*: Arnór í Ljárskógum Ásgeirsson samastaðar Arnórssonar samastaðar Loptssonar samastaðar Guðlaugssonar sýslumanns í Strandasýslu Loptssonar Ormssonar Loptssonar ríka Guttormssonar.

*Móðir*: Ingibjörg dóttir Jóns á Vatnshorni Péturssonar Staðarhóls-Pálssonar.

*Kona fyrsta*: Guðrún dóttir séra Sveinbjarnar[1]) sonar séra Árna Jónssonar í Tröllatungu og Flatey (bjó þá í Látrum) Björnssonar.

*Börn*: A. Ásgeir í Ljárskógum (giptist 1727, dó 1753) átti Sesselju dóttur séra Jóns í Hjarðarholti Þórarinssonar prests Jónssonar, þeirra börn:

a. Halldóra í Hrappsey (dó 1808) giptist ei né átti börn.

b. Guðrún átti launbarn, giptist ei.

c. Jón[2]) átti Vigdísi Jónsdóttur frá Vatnshorni, börn:

aa. Guðný[3]) átti Illuga Illugason Jónssonar frá Gríshóli og börn mörg.

bb. Jón á Gríshóli[4]).

---

1) Sveinbjörn þessi var ekki prestur.

2) Jón bjó á Klungurbrekku. Jón faðir Vigdísar konu hans var Jónsson, ættaður úr Skagafirði, en kona hans var Ragnheiður Sigurðardóttir frá Dunk Jónssonar.

3) Illugi á Gríshóli maður Guðnýjar var Jónsson, ekki Illugason. Son þeirra var Illugi, er átti Ragnheiði Ólafsdóttur frá Jónsnesi Péturssonar.

4) Jón átti fyr Guðrúnu Sumarliðadóttur frá Fjarðarhorni Guðmundssonar á Barkarstöðum í Miðfirði Jónssonar í Brandsbúð Þorgilssonar í Árnabúð Árnasonar Ulfssonar Guðmundssonar prests á Gilsbakka Einarssonar, þ. b.:

a. Sesselja átti Teit Jónsson frá Klettakoti Ívarssonar Sigmundssonar, þeirra dóttir Brynhildur.

b. Sveinbjörn átti Valgerði Steindórsdóttur frá Saurum Magnússonar frá Kongsbakka Bjarnasonar í Lækjarbug Magnússonar.

c. Ragnheiður átti Jón Jónsson í Dældarkoti, ættaðan úr Eyjafirði, og börn.

d. Steinun.

d. Þorsteinn[1]) átti Ragnheiði Jónsdóttur, þ. b.:
aa. Hannes[2]).
bb. Þórður[3]).
cc. Jón.
e. Hildur fyrri kona Erlends Loptssonar[4]), þ. d.:
aa. Sesselja[5]).
f. Karítas miðkona Þórólfs Jóhannssonar[6]), þeirra börn:
aa. Rafn.
bb. Halldóra.
Áður átti Karítas launbarn með Daða

---

e. Hildur.
f. Ingibjörg.
S. k. Jóns á Gríshóli var Sigríður Einarsdóttir frá Hrísakoti Einarssonar í Fagurey Pálssonar í Fagurey Gunnarssonar prests í Stafholti Pálssonar; þeirra dóttir:
g. Kristín átti Þorgrím á Staðarbakka í Helgafellssveit Víglundarson frá Hrísum Gíslasonar. Þeirra son Kristján Ólafur, nokkra hríð bæjargjaldkeri í Rvík, og síðar kaupmaður.
Enn var dóttir Jóns Jónssonar á Klungurbrekku og Vigdísar: Guðrún f. k. Sigurðar á Hofsstöðum í Helgafellssveit Jónssonar Ögmundssonar, bróður Steindórs sýslumanns Helgasonar.

1) Þorsteinn bjó í Álfatröðum.

2) Hannes bjó á Kringlu í Náhlíð, átti fyrst Guðrúnu Halldórsdóttur frá Hóli í Hörðudal launsonar Eiríks Steindórssonar við Búðir, en síðar Guðríði Halldórsdóttur frá Bjarghól í Miðfirði Björnssonar prests á Hjaltabakka Þorlákssonar og síðast Guðlaugu Ormsdóttur.

3) Þórður dó bl.

4) Faðir Erlendar var Loptur á Brúsastöðum í Vatnsdal Pétursson s. st. Erlendssonar prests á Tjörn á Vatnsnesi Illhugasonar. Bróðir Erlendar var Björn Loptsson faðir Guðrúnar, er átti Skúla Sveinsson á Efri-Þverá, þeirra synir Björn stúdent á Eyjólfsstöðum og Sveinn prestur í Kirkjubæ.

5) Sesselja átti Brynjólf Brynjólfsson frá Sauðadalsá Erlendssonar frá Klömbur Arasonar.

6) Þórólfur var son Jóhanns prests Þórólfssonar í Gufudal. Hann bjó síðast á Óspakseyri í Bitru, dó 1833 85 ára.

Hannessyni[1]), hét Karítas, átti Jón Auðunnsson í Rifi.

B. Arnór sýslumaður Jónsson (sjá um hann við Borgarfjarðarsýslu) giptist 1730.

*Kona önnur* Jóns í Ljárskógum var Guðrún Þórðardóttir frá Snóksdal Hannessonar Eggertssonar; (þau fengu kongsleyfi til giptingar 1710), þ. b.:

C. Hallgrímur átti Valgerði Grímsdóttur frá Melkoti Snorrasonar, þeirra börn:
   a. Snorri átti Þorgerði dóttur séra Illuga á Kirkjubóli[2]), þ. s.:
      aa. Illugi, sigldi.
   b. Kristín.
   c. Jón.

D. Brynjólfur í Ljárskógum átti Þórunni Einarsdóttur, barnlaus[3]).

E. Karítas átti Bjarna[4]) son Sigurðar í Ásgarði Egilssonar prests á Skarðsströnd, börn:
   a. Jórunn átti Kár í Munaðarnesi Ólafsson[5]), börn:
      aa. Elízabet á Einar smið Sigurðsson frá Munaðarnesi[6]).

---

1) Daði var son Hannesar á Stóra-Hrauni Daðasonar á Leiti Hannessonar á Narfeyri Daðasonar Hannessonar Daðasonar á Hrafnabjörgum Gíslasonar.

2) Snorri var við saltverkið í Reykjarfirði, dó 1792. Síðari maður Þorgerðar var Níels Wandel verzlunarm. á Ísafirði, og þeirra son Pétur Ludvig Wandel var á Álptanesi, átti Salgerði Jónsdóttur frá Hvammi í Ölfusi Helgasonar á Þurá Guðmundssonar, þeirra börn: Brynjólfur í Hjallakoti á Álptanesi og Sigríður koma Marteins Marteinssonar á Neðra-Hliði. Þorgerður Illhugadóttir var systir Hjalta Ísfeldt, Þorsteins málara í Brúnsvík á Þýzkalandi og Karítasar konu Jóns lektors Jónssonar í Lambhúsum.

3) Fósturson Brynjólfs og Þórunnar var Grímur Jónsson Thorkelín leyndarskjalavörður, og arfleiddu þau hann að fé sínu.

4) Bjarni var stúdent og bjó í Bjarnarhöfn.

5) Kári var bróðir Þorbjarnar gullsmiðs á Lundum.

6) Einar var son Sigurðar í Efranesi Jónssonar s. st. Hallgrímssonar. Son Einars í Munaðarnesi og Elízabetar var Eggert, er lengi bjó í Munaðarnesi.

bb. Guðríður átti Árna Jónsson á Borg í Miklaholtshreppi [1]).
cc. Karítas.

b. Ragnhildur, dó 1799, átti séra Arngrím (f. 1737, giptist 1766, dó 1815) á Melum Jónsson (hans fyrri kona), þeirra börn:

---

1) Börn Árna og Guðríðar Kársdóttur:

a. Jón kvæntist, dó bl.

b. Jóhann átti Kristínu Þórðardóttur frá Rauðkollsstöðum, þ. b.:
aa. Þórður í Ameríku.
bb. Guðrún átti Daníel Kristjánsson frá Skógarnesi.
cc. Margrétt átti fyr Magnús Þórðarson frá Rauðkollsstöðum, síðar Níels Lambertsen stúdent.

c. Solveig átti Bárð Sigurðsson á Flesjustöðum, þ. b.:
aa. Ingveldur átti Jónas Jónasson frá Kársstöðum og 1 dóttur.
bb. Elín átti Halldór Guðmundsson á Miðhrauni; þ. b. Lárus Mikael Scheving prestur að Breiðabólstað á Skógarströnd, Þóra kona Jóns Ólafssonar skipstjóra í Rvík, Guðmundur, Oddfríður, Lilja.
cc. Sigurður á Jörfa í Kolbeinsstaðahreppi átti Ingiríði Eiríksdóttur frá Þurstöðum og börn. Sigurður fór til Ameríku.

d. Jórunn átti Jón Sigurðsson á Hjarðarfelli, þeirra son Jón átti Vilborgu Guðmundsdóttur systur Halldórs á Miðhrauni.

e. Ragnheiður átti Jónas á Kársstöðum, þ. b.
aa. Jónas átti Ingveldi Bárðardóttur, systrabörn (sjá hér á undan).
bb. Guðríður átti Sigurð Sigurðsson á Svarfhóli í Miklaholtshrepp, þeirra son Jóhann Gunnar stúdent.
cc. Árni, átti börn.
dd. Guðbjörg.

f. Sesselja átti Gunnar Gunnarsson á Gautastöðum, bl.

g. Guðríður átti Hannes lyfsala, síðast á Görðum í Staðarsveit († 1845) son Árna prests Skaptasonar á Hálsi í Hamarsfirði († 1809) og s. k. hans Helgu Vigfúsdóttur sýslumanns Jónssonar, þ. b.:
aa. Bjarni Kár rokkasmiður í Kaupmannahöfn, kvæntist þar.
bb. Árni Halldór, var lengi í Reykjavík, fróður um margt, átti Margréti Gestsdóttur frá Varmalæk Jónssonar og Helgu Halldórsdóttur prófasts á Melstað Ámundasonar, þ. b. Margrét, Magdalena kona Elleits Kristófers Schrams skipstjóra og Gestur við prentverk.

aa. Séra Jón (fæddur 1769) á Borg átti Mettu Níelsdóttur[1]), barnlaus.
bb. Séra Bjarni (fæddur 1768) á Melum átti Guðrúnu Sigurðardóttur[2]).
cc. Ingibjörg (fædd 1772) seinni kona séra Sæmundar Hálfdanarsonar[3]).
dd. Guðrún (fædd 1774) kona séra Halldórs í Saurbæ Magnússonar sýslumanns[4]).

---

1) Metta var dóttir Níels Jónssonar Hjaltalíns í Hlíðarhúsum. Hún átti síðar Davíð Sörensson beyki á Stapa, bl.

2) Guðrún kona séra Bjarna var dóttir Sigurðar klausturhaldara Ólafssonar sýslumanns í Haga Árnasonar. Son þeirra:
a. Arngrímur, síðast prestur á Brjánslæk († 13. apríl 1885), átti fyr Önnu systurdóttur séra Jóhanns Tómassonar á Hesti, þau skildu og giptist hún aptur Bergi Ólafssyni á Akranesi, en séra Arngrímur kvæntist aptur vestra Málmfríði dóttur Ólafs staupa við Ísafjörð, þ. b.: a) Bjarni, b) María Málmfríður og c) Kristján.

3) Séra Sæmundur á Barkarstöðum dó 29. marz 1821, en Ingibjörg giptist aptur séra Guðmundi prófasti Jónssyni á Staðastað og var 3. kona hans, þau bl.

4) Sbr. I. B. bls. 621—22. Séra Halldór varð úti 22. des. 1836. Börn hans og Guðrúnar:
a. Jón prestur á Breiðabólsstað í Fljótshlíð átti Kristínu Vigfúsdóttur sýslumanns Þórarinssonar, þ. b.:
aa. Sæmundur prófastur í Hraungerði († 1896) átti Stefaníu Siggeirsdóttur prests á Skeggjastöðum († 6. júlí 1866) Pálssonar, þ. b.:
aaa. Ólafur prestur í Hraungerði, kvæntur Sigurbjörgu Matthíasdóttur frá Syðra-Velli Sigurðssonar, eiga 2 börn ung.
bbb. Geir Stefán prestur á Akureyri, kvæntur Sigríði Jónsdóttur háyfirdómara Péturssonar og s. k. hans Sigþrúðar Friðriksdóttur prests Eggertssonar, þ. b. Sæmundur og Heba.
ccc. Páll stúdent í Kaupm.höfn.
bb. Ingibjörg átti Guðmund prest á Stóruvöllum Jónsson smiðs í Reykjavík Illhugasonar frá Bóndhól Einarssonar af Kalastaðaætt, þ. b.:
aaa. Guðmundur læknir í Stykkishólmi, kvæntur Arndísi Jónsdóttur háyfirdómara Péturssonar, þ. b.: Sturla stúdent við háskólann, Sigþrúður, Þóra, Ása.

ee. Málmfríður (fædd 1767).

Séra Arngrímur giptist aptur Þrúði Sigurðardóttur 1801, barnlaus.

Launson Jóns Arnórssonar með Ólöfu Ívarsdóttur:

---

bbb. Helga átti Magnús í Vatnsdal Árnason frá Stóra-Ámóti Magnússonar ríka í Þorlákshöfn Beinteinssonar.

ccc. Margrét á Árna Halldórsson frá Rauðalæk og börn.

ddd. Jón. eee. Vigfús, bl.

cc. Sigríður átti séra Jakob Benediktsson uppgjafarprest frá Glaumbæ, búa á Hallfreðarstöðum, þ. b.:

aaa. Jón forngripavörður í Rvík kvæntur Kristínu Pálsdóttur Vídalíns frá Víðidalstungu og Elinborgar Friðriksdóttur prests Eggertssonar.

bbb. Kristín á Einar prófast Jónsson á Kirkjubæ í Tungu, þeirra son Vigfús, útskrifaður úr skóla 1903.

ccc. Halldór fyrirfór sér. ddd. Ingibjörg.

dd. Anna s. k. Egils í Múla í Biskupstungum Pálssonar í Múla Stefánssonar í Neðradal Þorsteinssonar í Dalbæ Stefánssonar prests í Steinsholti Þorsteinssonar, þ. b.:

aaa. Geir búfræðingur, bóndi í Múla, kvæntur Kristínu Oddsdóttur af Álptanesi Erlendssonar.

bbb. Páll stúdent í Kaupm.höfn.

ccc. Jónína á Grím Thorarensen í Kirkjubæ á Rangárvöllum son Skúla læknis Thorarensen á Móeiðarhvoli og börn.

ee. Málfríður dó ógipt bl. í Hraungerði hjá séra Sæmundi bróður sínum.

Þessara barna séra Jóns Halldórssonar á Breiðabólsstað er stuttlega getið I. B. bls. 622, en hér er talið lengra niður.

b. Jón bjó lengi rausnarbúi á Búrfelli í Grímsnesi síðar á Syðri-Reykjum í Mosfellssveit, varð að lokum snauður að fé og dó á Kiðabergi 4. jan. 1900, hálfníræður, var kvæntur Ragnhildi Jónsdóttur prests í Klausturhólum Jónssonar, ekkja Björns Jónssonar á Búrfelli, þau bl.

c. Magnús var í Reykjavík, átti Ingibjörgu Beinteinsdóttur, þeirra dætur Elín og Kristín Margrét kona Guðmundar Gíslasonar í Nýjabæ í Ölfusi.

d. Arngrímur prestur á Bægisá, dó 1863. (Sja I. B. bls. 622). Son hans var Bjarni faðir Frímanns Anderson, er um hríð var í Ameríku, en nú mun eiga heima í Parísarborg.

e. Ragnhildur átti Sæmund á Búðum vestra son Guðmundar próf-

F. Séra Guðmundur á Prestsbakka átti Þórunni, er dó 1772, 78 ára, dóttur séra Einars á Helgafelli Gíslasonar prests samastaðar, börn:
a. Ólafur[1]) átti fyr Guðrúnu Magnúsdóttur, barnlaus, svo Guðrúnu Þórðardóttur af Langadalsströnd og börn.
b. Einar[2]) átti Kristínu Jónsdóttur, þeirra börn:
aa. Þórunn[3]).
bb. Ragnheiður.
c. Helgi (dó 1784, 63 ára)[4]) átti Guðrúnu Sigurðardóttur, börn:
aa. Steinunn.
bb. Árni.
d. Árni[5]).

---

asts á Staðastað og miðkonu hans Margrétar Pálsdóttur, þeirra einkason:
aa. Halldór snikkari á Búðum, drukknaði 1864, átti Guðrúnu Sæmundsdóttur skipasmiðs Sigurðssonar stúdents í Geitareyjum Sigurðssonar, þeirra einkason:
aaa. Sæmundur kaupmaður í Stykkishólmi á Magdalenu Sörensdóttur Hjaltalíns Pálssonar, þ. b. Gunnar og Ebba.
f. Oddur, dó ungur.

1) Ólafur bjó á Ketilsstöðum í Hörðudal og víðar.

2) Einar bjó á Bugðustöðum í Hörðudal. Kristín kona hans var dóttir Jóns Gíslasonar lögréttumanns í Vogi, Þórðarsonar á Ökrum Finnssonar Sigurðssonar prests í Miklaholti Finnssonar.

3) Þórunn átti launson, er Einar hét, með Árna syni Þorleifs Pálmasonar lögréttumanns á Breiðabólsstað í Sökkólfsdal.

4) Helgi bjó í Hrútsholti í Eyjahrepp, átti Guðrúnu dóttur Sigurðar sýslumanns Högnasonar. Eitt barna þeirra var Steinunn móðir Helga biskups Thordersen og séra Sigurðar Sivertsen á Útskálum. (Sjá meira um afkomendur Helga í Hrútsholti við Mýrasýslu).

5) Árni bjó í Þingnesi, átti Kristínu Hálfdanardóttur prests á Hesti Nikulássonar í Brúsholti Nikulássonar, þ. b.:
a. Guðbjörg átti fyr Sæmund Gunnlaugsson á Geitabergi, þ. b.:
aa. Guðrún átti fyr Helga Guðmundsson á Reyni Brandssonar, þ. b.:
aaa. Sigurður skipasmiður í Vörum átti Solveigu Þorsteins-

e. Jón[1]).
f. Kristín.
g. Þuríður[2]).

Jón Arnórsson gildur bóndi átti og bjó í Ljárskógum, vel skír, og lögréttumaður varð hann 1708. En 1718 gerðist hann lögsagnari Páls lögmanns Vídalíns í Dalasýslu, hélt hann þeirri lögsögu til síns dauða, sem tilféll 1726 (1725 segir í Markúsarannál). Er ei annars getið, en honum farnaðist lögsögnin vel, meðan hann hafði hana fyrir Vídalín.

## Ormur Daðason.

*Faðir*: Séra Daði (dó 1723, var fyrst kapellán í Bolung-

---

dóttur prests á Staðarhrauni Einarssonar, þeirra börn Þorsteinn Niss í Gerðum, Guðmundur smiður á Smærnavelli og Guðbjörg tvígipt.

bbb. Helgi prentari í Viðey átti Guðrúnu Finnbogadóttur systur séra Jakobs í Steinnesi, þ. b.: a) Þorvarður beykir í Keflavík, b) Jakob verrzlunarstj. á Vopnafirði, c) Elín átti Jón Grímsson Laxdal móðir Helga Laxdal í Tungu á Svalbarðsströnd, d) Guðrún átti Einar Einarsson Thorlacius, e) Sigríður.

ccc. Guðmundur í Tungu í Svínadal.

ddd. Sæmundur, eee. Nikulás, fff. Kristín, ggg. Guðbjörg.
Síðari maður Guðrúnar Sæmundsdóttur var Gunnar Vigfússon pósts Jónssonar, þ. b.:

hhh. Magnús faðir Gunnars í Móakoti hjá Útskálum.

iii. Kári í Bræðraparti á Akranesi, kvæntur, bl.
Síðari maður Guðbjargar Árnadóttur frá Þingnesi var Jón Sveinsson á Reyni, þ. b.:

bb. Guðrún átti Svein Helgason og börn.

cc. Sigríður átti Ásmund Ásmundsson Þórhallasonar.

dd. Sæmundur, var suður í Garði.

ee. Jón o. fl.

1) Jón bjó í Skálholtsvík, var síðari maður Þóru Sigurðardóttur, er fyr hafði átt Jón Þorkelsson í Skálholtsvík og var móðir Sigurðar föður Gísla í Bæ á Selströnd og Jóns í Hvítadal föður Sigurðar kaupm. Johnsen í Flatey. Þau Jón Guðmundsson og Þóra voru bl.

2) Kristín og Þuríður dætur séra Guðmundar á Prestbakka hafa daið bl., eptir því sem Espólín segir, en Snókdalín nefnir þær ekki meðal barna hans.

arvík 6 ár, svo prestur í Gufudal 21 ár, síðast í Otrardal 12 ár) son Steindórs á Vatnabúðum Daðasonar Arnórssonar Helgasonar Helgasonar annars bænda.

*Móðir:* Jóhanna dóttir séra Jóns á Kvennabrekku, (sem dó 1657) Ormssonar.

*Kona:* Ragnheiður, dó 1748, dóttir Þorsteins bónda ríka Þórðarsonar prófasts í Hítardal. Þorsteinn bjó á Skarði á Skarðsströnd.

*Börn:* A. Séra Eggert í Selárdal, útlærður innan- og utanlands átti Þorbjörgu dóttur Bjarna ríka á Skarði sýslumanns Péturssonar, börn:

a. Eggert í Bæ á Rauðasandi átti Arnfríði dóttur Brynjólfs í Fagradal, börn:

aa. Þorvarður, (dó 1840) giptist ekki, bl.

bb. Þuríður átti Eggert bónda á Heggstöðum í Miðfirði[1]), þeirra börn:

aaa. Eggert.

bbb. Brynjólfur á Sjöundá[2]).

cc. Jóhanna átti fyrst Þórarinn bóndamann[3]), þeirra börn dóu ung. Svo Eggert son séra Jóns Ormssonar, barn:

aaa. Eggert giptist Guðrúnu Gísladóttur frá Bæ á Selströnd[4]).

Svo Jón bónda Ísleifsson, barnlaus[5]).

---

1) Eggert var son Páls Pálssonar á Ytri-Völlum á Vatnsnesi (sbr. aths. á bls. 377).

2) Brynjólfur bjó síðar á Melanesi og Kirkjuhvammi, átti Helgu Runólfsdóttur prests á Brjánslæk Erlendssonar, þ. b.: Runólfur, Guðbjartur, Þorlákur, Arnfríður, Brynjólfur.

3) Þórarinn var Þórarinsson, og bjó í Bæ á Rauðasandi (sbr. aths. á bls 376). Þau Jóhanna giptust 1810, s. d. sem Eggert Pálsson og Þuríður systir hennar. Guðbjartur, Sumarliði og Þórunn voru börn þeirra, dóu öll ung.

4) Eggert bjó í Bæ, dó 22. des. 1850 29 ára gamall. Son hans og Guðrúnar hét Gísli, dó. bl.

5) Jón Ísleifsson bjó í Bæ á Rauðasandi.

b. Ragnheiður Eggertsdóttir átti Jón prófast Ormsson í Sauðlauksdal[1]), þ. b.:

aa. Séra Daði á Söndum átti Sigríði Þóroddsdóttur[2]), bl.

bb. Eggert í Bæ á Rauðasandi[3]) átti Jóhönnu Eggertsdóttur (sjá fyr).

c. Séra Bjarni Eggertsson (dó 1784) kapellán hjá föður sínum, átti Guðrúnu dóttur Brynjólfs í Fagradal, þau dáin bæði barnlaus[4]).

d. Séra Torfi Eggertsson kapellán í Flatey, átti Ragnhildi dóttur Jóns og Jóhönnu Ormsdóttur Daðasonar, þau dáin barnlaus[5])

B. Jóhanna dóttir Orms sýslumanns giptist ekki, en átti laundóttur með Jóni Sveinssyni[6]), hét Ragnhildur, átti séra Torfa í Flatey, bl. Jóhanna dó 1774.

---

1) Þau séra Jón og Ragnheiður giptust 1779, en hún dó 14. des. 1819.

2) Sigríður kona séra Daða var dóttir Þórodds beykis á Vatneyri Þóroddssonar heyrara á Hólum Þórðarsonar, föðursystir Jóns sýslumanns Thoroddsen; hafði hún fyr átt Jón verzlunarstjóra á Patreksfirði son Þorbergs prests Einarssonar á Eyri í Skutulsfirði, og var einn son þeirra Pétur Lárus Thorberg lögregluþjónn í Kaupmannahöfn faðir leikkonunnar frú Josephine Hortense Nancy Adelaide Eckhardt.

Síðari kona séra Daða var Steinunn Pálsdóttir prests Hjálmarssonar, ekkja Árna Geirsonar Vídalíns. Launson séra Daða með Guðrúnu Guðmundsdóttur frá Kúlu í Arnarfirði Arasonar, er síðar átti séra Jón Ásgeirsson á Rafnseyri, var Benóní bóndi í Meðaldal í Dýrafirði; hann drukknaði.

3) Eggert dó 13. maí 1822, kvæntist Jóhönnu 1819.

4) Séra Bjarni var fæddur 1755, dó 14. nóv. 1784.

5) Séra Torfi var fæddur 1751, vígður aðstoðarprestur til séra Markúsar Snæbjörnssonar í Flatey 1777, drukknaði 1785 á Kvígindisfirði.

6) Jón Sveinsson bjó í Tjaldanesi og Ósi í Steingrímsfirði; hann kvæntist síðar Elínu Einarsdóttur sýslumanns Magnússonar móður Gríms Thorkelíns, og eru börn þeirra talin á bls. 391—392.

Ormur sýslumaður Daðason var borinn að Meirihlíð í Bolungarvík í ágústmánuði 1684, var útlærður úr skóla[1]), og var fyrst í þénustu hjá frænda sínum assessori Árna Magnússyni, og af hans forlagi (að menn meintu) var hann arfleiddur af Þuríði dóttur Sæmundar Eggertssonar. (Kongur staðfesti þá arfleiðslu þann 20. apríl 1709). Hún átti fyrst Eggert Jónsson frá Flatey og eitt barn með honum, svo dó Eggert og síðan barn þeirra, sem hún þá erfði; þar eptir giptist hún 1697 séra Halldóri í Gaulverjabæ, átti með honum eitt barn, svo dó séra Halldór og þar eptir barn þeirra, sem Þuríður erfði, svo hún eignaðist allt fé manna sinna og var þá mjög rík. Hún testamenteraði allt sitt góz Ormi og öðlaðist staðfesting kongs þar upp á. (Testamentið er dagsett að Skipholti í Ytrihrepp 1705). Síðan réðst Ormur til bús með henni, og var um hríð fyrir austan. Þar eptir flutti Ormur sig í Flatey og þar fékk hann Ragnheiðar Þorsteinsdóttur. Af frændum konu sinnar keypti hann Saurbæ á Rauðasandi fyrir konu sinnar jarðagóz og flutti þangað 1725. Um þær mundir varð Fúsi á Leirulæk ringlaður, svo loks var hann einn þar á bæ, brann þá allur bærinn, menn meintu af tóbakspípueldi. Fékk þá Fúsi af Ormi frænda sínum að taka sig og eignir sínar, og dó hjá Ormi í Bæ, en Ormur lét aptur uppbyggja Leirulæk. 1718 þá Strandasýsla var uppboðin, var Ormur hæstbjóðandi að henni og hélt hana um hríð. Þótti hann vitur maður og var settur dómari í Snæfellsnessýslu millum Odds Sigurðssonar og Jóhanns Gottrups, einnig í sumum málum hvar Páll Vídalín var viðriðinn og mörgum öðrum, sem oflangt er hér að telja. Einasta get eg þess, að hann var settur arbitrer dómari ásamt Sigurði sýslumanni Sigurðssyni í skipaaðtektamálinu millum Jóhanns Gottrups og Odds lögmanns Sigurðssonar, kom ei Sigurður sýslumaður, dæmdi því Ormur einn, að Jóhann skyldi betala Oddi í gjald og tvígjald fyrir skipatökuna án dóms og laga. Jóhanni þótti dómurinn of nærgangandi æru sinni og stefndi honum upp, dæmdi þá Benedikt vicelögmaður 1724 Orm í meir en 300 rd. bætur fyrir dóminn. Ormur stefndi þeim dómi upp og voru bæt-

1) Ormur er útskrifaður úr Skálholtsskóla 1706, eptir 7 vetra skólaveru, og hefur þá komið í skóla 1699.

urnar þá niðursettar til 100 rd. Í flestum öðrum sínum dómum var Ormur heppinn. Hann var settur sýslumaður í Barðastrandarsýslu 1723—1724 í útistöðum Teits Arasonar. En þá Páll Vídalín deyði var Ormur settur sýslumaður í Dalasýslu 1727, en fékk kongsveiting fyrir henni 1728 þann 4. júní, hélt hann síðan Dalasýslu til síns dauða 1744. Hann færði sig búferlum að Innri-Fagradal, hvern hann keypti og bjó þar síðan, byggði þar og mjög reisulegan bæ. Ormur hafði tekið 1726 Einar Magnússon fyrir sinn lögsagnara í Strandasýslu; þeirri sýslu sleppti Ormur allshendis 1728, þá hann fékk sér veitta Dalasýslu. 1734 kom eldur í bæ hans, en með miklum dugnaði var því mesta af bæjarhúsum bjargað, en eldhús með öllu sem í var og nokkur önnur smáhús fórust, hvað Ormur lét jafnskjótt aptur uppbyggja. 1737 brunnu 400 hestar heys í Fagradal hjá Ormi. Nálægt þessum tíma er sögn, að Brynjólfur son Bjarna ríka á Skarði og Jóhanna dóttir Orms sýslumanns hafi viljað ná saman, en Ormur brugðizt þar við reiður eða mikið sundurþykki hafa komið millum Orms og Brynjólfs, svo Brynjólfur hvarf þar frá og giptist 1738 Ingibjörgu dóttur séra Páls á Melstað Jónssonar sýslumanns.

Ormur dæmdi Magnús Þorvaldsson fyrir barneign með Þrúði dóttur Bjarna ríka á Skarði, að betala tvöfalt fullrétti, 16 rd. í ráðspjöll, 240 rd. í jarðagózi og 80 hundr. í lausa; skyldi lokið innan tveggja mánaða eða fara landflótta. Magnús fátækur fór utan, þar af lögleiddi kongur hér forordningu af 5. marz 1734 um barneignir.

1741 þann 3. febr. var Ormur af konungi útnefndur meðhjálpari lögmanns Beckers í hans lasleika, og sat því í lögréttu 1741—1742—1743 og vildi ei víkja sæti fyrir vicelögmanni Sveini Sölvasyni 1743.

Ormur var vitur maður, lögspakur og því svo mjög brúkaður til dómaraverka í utansýslumálum. Í sinni sýslu var hann stjórnsamur, sefaði óeirðir, iðjumaður mikill við lærdómssakir, stilltur og stöðuglyndur. Fémaður var hann og auðugur. Síðast var hann grillumaður í þönkum og deyði í Fagradal 1744; hann var talinn með helztu sýslumönnum á sinni tíð. Var haldinn maður kvennhollur.

Séra Hafliði seinast í Hrepphólum son Bergsveins lög-

réttumanns[1]) átti Katrínu dóttur séra Eiríks Eyjólfssonar og mörg börn. Eitt þeirra hét Katrín, er var þjónustustúlka hjá Ormi sýslumanni; vinnumaður var og hjá sýslumanni, er hét Ormur Jónsson. Svo bar við, að þessi Katrín átti sveinbarn, sem Jón nefndist og var kennt Ormi vinnupilti. Ormur sýslumaður og síðan séra Eggert son hans sáu fyrir uppfóstri og menningu sveinsins, varð hann kapellán hjá séra Eggert og átti Ragnheiði dóttur hans (sjá síðar), en seinna prófastur í Barðastrandarsýslu og prestur í Sauðlauksdal, gáfumaður. Var margrætt um hans faðerni. Svo bar við, að Katrín giptist nokkru seinna Eyjólfi bónda syni séra Þórðar Þórðarsonar í Hvammi, þeirra börn voru: 1. Séra Markús á Söndum í Dýrafirði átti Elízabet Þórðardóttur fra Vigur og þrjár dætur[2]). 2. Þorbjörg átti Einar Sveinbjörnsson í Svefneyjum og börn[3]).

---

1) Séra Hafliði dó í Götu í Ytrihrepp hjá Gunnari syni sínum 31. jan 1774 (ekki 1773, eins og venjulega er talið), og var þá kominn á tíræðisaldur.

2) Dætur séra Markúsar og Elizabetar voru:

a. Elín átti fyr Jón Einarsson frá Hvítanesi Magnússonar í Súðavík Ólafssonar, þ. b.:
  - aa. Einar ríki í Ögri átti Þuríði Þiðriksdóttur Ólafssonar, bl.
  - bb. Markús á Melgraseyri átti Guðbjörgu Þorláksdóttur, systur séra Hjalta á Stað á Snæfjallaströnd, þ. d. Elizabet átti Gísla Bjarnason í Ármúla, þeirra son Bjarni í Ármúla.
  - cc. Sigurður í Þernuvík átti Solveigu Ebenezersdóttur, systur Kristjáns í Reykjarfirði.
  - dd. Salóme átti Össur Magnússon frá Bæ í Súgandafirði.
  - ee. Finnbogi þilskipaformaður átti Ingunni Bjarnadóttur systur Gísla í Ármúla.
  - ff. Elín átti Halldór Hafliðason Hafliðasonar og Þórunnar Jónsdóttur læknis í Ármúla Einarssonar, bl.
  - gg. Jón var um tíma verzlunarstjóri á Ísafirði.
  - hh. Hólmfríður.

b. Margrét 1. kona séra Torfa Magnússonar í Kirkjubólsþingum, þeirra börn dóu ung.

c. Elizabet átti Bjarna Jónsson í Ytri-Lambadal í Dýrafirði og börn: Ingibjörgu, Bjarna, Jón, Guðrúnu og Tryggva.

3) Þorbjörg var s. k. Einars í Svefneyjum, þ. b.:

a. Eyjólfur hreppstjóri í Svefneyjum, átti Guðrúnu Jóhannsdóttur prests í Garpsdal Bergsveinssonar prests á Stað í Grunnavík

## Brynjólfur Bjarnason.

*Faðir:* Bjarni ríki á Skarði Pétursson (sjá Barðastrandarsýslu).

---

(† 4. nóv. 1762) Hafliðasonar prests í Hrepphólum, þeirra börn mörg: Hafliði í Svefneyjum, Sveinbjörn prestur í Árnesi, Bergsveinn faðir Þorláks hafnsögumanns í Rúfeyjum, Jóhann í Flatey faðir Eyjólfs kaupm. s. st., Þórður, Jón á Ökrum faðir Helga bankaassistents og Eiríks á Ökrum, Þorbjörg f. k. Eggerts Oddssonar í Langey og Björg kona Ólafs Teitssonar í Sviðnum.

b. Magnús í Skáleyjum átti Sigríði Einarsdóttur í Skáleyjum Ólafssonar, þeirra synir Eggert í Flatey og Sveinbjörn, er lengi var í Skáleyjum faðir séra Jóhanns Lúters prófasts á Hólmum.

c. Katrín átti Þorlák Grímsson í Látrum, þ. b.:
  aa. Grímur tannlæknir í Kaupmannahöfn, hans son Karl (Thorlakson) tannlæknir þar.
  bb. Þorbjörg f. k. Andrésar Vigfússonar Fjeldsted á Hvítárvöllum (sjá um börn þeirra síðar).
  cc. Þórunn.
  dd. Katrín.
  ee. Þórarinn í Látrum átti Ragnheiði Jónsdóttur frá Hvítadal Sigurðssonar, systur Sigurðar kaupm. Johnsen í Flatey.

d. Ragnheiður átti séra Vernharð Þorkelsson í Reykholti († 1863) þ. b.:
  aa. Einar prestur á Stað í Grunnavík, átti Kristínu Guðmundsdóttur prófasts á Staðastað Jónssonar, bl.
  bb. Þorkell í Víðirkeri í Bárðardal þríkvæntur, átti síðast Þuríði Hansdóttur frá Neslöndum Þorsteinssonar, þeirra son: Hans Jóhann dómkirkjuprestur í Reykjavík.
  cc. Ástríður átti Sigurð Jónsson í Möðrudal, þ. b. Elizabet s. k. Einars Ásmundssonar í Nesi o. fl.
  dd. Guðrún s. k. Björns Magnússonar gullsmiðs á Setbergi á Skógarströnd, þ. b.:
    aaa. Vernharður smiður á Setbergi († 1893) átti Steinunni Jósepsdóttur Hjaltalíns, þ. b. Björn og Guðrún.
    bbb. Benedikt á Setbergi.
    Guðrún Vernharðsdóttir átti son, áður en hún giptist, með Vigfúsi nokkrum, hét Jóhannes, var prentari á Ísafirði og fór til Vesturheims.
  ee. Soffía átti Helga Helgason dbrm. í Vogi, þ. b. Bogi Thorarensen búfræðingur o. fl.
  ff. Guðbjörg átti Jón Gunnarsson söðlasmið, föðurbróður séra Sigurðar á Hallormsstað.

*Móðir*: Elín dóttir Þorsteins bónda á Skarði Þórðarsonar[1]).

*Kona*: Ingibjörg (fædd 1703, gipt 1738, dó 1774) dóttir séra Páls á Melstað Jónssonar sýslumanns að Miðhúsum Magnússonar sýslumanns á Reykhólum Arasonar sýslumanns.

*Börn*: A. Elín átti fyr séra Markús á Auðkúlu son séra Páls á Melstað[2]), barnlaus. Svo Magnús sýslumann Ketilsson, barnlaus. Hún lifði báða sína menn og deyði 1827, þá hún hafði testamenterað stjúpbörnum sínum eigur sínar, hvar um seinna varð ágreiningur margbrotinn.

B. Arnfríður átti Eggert í Bæ á Rauðasandi (sjá þeirra afsprengi við Orm sýslumann Daðason næst fyrir framan)

C. Guðrún átti séra Bjarna Eggertsson (sjá að framan).

D. Jórunn (dó 1834)[3]) giptist ekki, en átti tvö launbörn með Jóni þjóðskáldi Þorlákssyni presti að Bægisá, þeirra börn dóu ung.

Brynjólfur var fæddur á Skarði um Mikaelsmessuleyti 1713, uppólst og menntaðist hjá föður sínum og fór 18 vetra (1731) í þénustu hjá Ormi sýslumanni, og var hjá honum 5 ár (til 1736), til þess að sundurlyndi kom þeirra á milli og Brynjólfur giptist 1738. Þa hann var 24 ára (1737) reisti hann bú í Tjaldanesi og bjó þar 13 ár. En þá Ormur sýslumaður deyði (1744) var Brynjólfur settur sýslumaður í Dalasýslu 1744—45 —46 til þess Sigurður Vigfússon viðtók. Förnuðust Brynjólfi allvel sýslumannsverk. Hann flutti að Innri-Fagradal 1749, þar missti hann (1774) konu sína, þá hann var á 61. ári, en hún á 71. ári, og bjó þar til þess hann deyði 27. nóvember 1791 78 ára.

Hann var maður vitur í mörgu, fríður sýnum og höfðing-

---

1) Elín móðir Brynjólfs dó á Skarði 14. marz 1746 68 ára, en Bjarni maður hennar 16. apríl 1768.

2) Séra Markús var ekki son séra Páls á Melstað, heldur dóttursonur hans, son Páls Markússonar á Broddanesi og Halldóru Palsdóttur. Þau hjón Markús og Elín voru því systkinabörn.

3) Jórunn er fædd 14. febr. 1747, og hefur því verið 87 ára gömul, er hún dó.

legur og hafði á sér gamalla höfðingja snið. Auðugur var hann af örfum, hélzt og fé hans við um hans daga. Eptir hann missti konu sína (1774) bjó hann síðan ekkjumaður í Fagradal, var þá Elín dóttir hans fyrir búi með honum. Sumir kölluðu Brynjólf stærilátan og nokkuð kvennhollan. Í útistöðum Einars sýslumanns Magnússonar var Brynjólfur settur lögsagnari í Strandasýslu.

Mælt er, þá Brynjólfur var hjá Ormi sýslumanni hafi Jóhanna og Brynjólfur fellt hugástir hvort til annars; Ormur hafi þar að fundið og mælt, að hún fengi orð af honum, en vildi þó ekki gipta honum hana. Hafi af þessu komið ósamþykkja þeirra á milli.

## Sigurður Vigfússon.

*Faðir*: Vigfús Hnappadalssýslumaður Árnason Vigfússonar Helgasonar (sjá Hnappadalssýslu).

*Móðir*: Helga dóttir Sigurðar Björnssonar Þórðarsonar prests Brandssonar.

*Kona*: Karítas dóttir séra Guðmundar á Helgafelli[1]) Jónssonar prests Guðmundssonar.

*Börn*: A. Þorkatla[2]) átti Þorbjörn gullsmið á Lundum son Ólafs smiðs samastaðar, börn:

a. Séra Sigurður á Rauðamel syðra[3]) átti Ólöfu dóttur séra Guðlaugs í Vatnsfirði, börn:

---

1) Séra Guðmundur á Helgafelli († 1716) var bróðir frú Valgerðar konu Steins biskups. Vegna þeirra mægða mun biskup meðal annars ekki hafa farið í strangan reikning við Sigurð, þótt hann væri ekki skólameistaraembættinu vaxinn, enda var hann ekki lengi við skólann eptir fráfall biskups.

2) Þorkatla dó 7. okt. 1807, 57 ára gömul, og segir Espólín (Árb. XII 13), að hún hafi »lengi verið illa höfð«, sem eflaust er svo að skilja, að Þorbirni manni hennar hafi ekki farizt vel við hana. Þorbjörn var mikill auðmaður. Hann dó 7. marz 1827, 77 ára.

3) Séra Sigurður dó 4. júní 1818, rúmlega fertugur. Hann var fyrst aðstoðarprestur hjá tengdaföður sínum í Vatnsfirði, og þjónaði prestakallinu nokkra hríð eptir lát hans (1807) en var síðar embættislaus optast.

aa. Þorbjörn[1]).
bb. Rannveig[2]).
cc. Sveinn[3]).
dd. Guðlaugur[4]).
ee. Sigurður[5]).

b. Torfi[6]) átti Kristínu Jónsdóttur í Kolviðarnesi, síðar á Höfða, þ. d.:
aa. Þorkatla[7]) á séra Ólaf á Sveinsstöðum.

---

1) Þorbjörn bjó á Helgavatni í Þverárhlíð, átti Margréti Halldórsdóttur gamla á Ásbjarnarstöðum Pálssonar, þ. b.:
a. Sigurður á Helgavatni átti Þórdísi Einarsdóttur Halldórssonar Pálssonar, og Sigríðar Sigurðardóttur, systkinabörn í báðar ættir.
b. Halldór átti Rannveigu Oddsdóttur söðlasmiðs Jónssonar.
c. Ólafur hreppstjóri á Kaðalstöðum átti Þorgerði Jónsdóttur frá Kálfalæk Snorrasonar og Elizabetar Guðlaugsdóttur prests í Hvammi Sveinbjarnarsonar.
d. Þórunn s. k. Sigurðar gullsmiðs Guðlaugssonar.
e. Ólöf kona Jóhannesar Elíassonar á Hömrum í Þverárhlíð.
f. Þórdís kona Sigurðar Þorsteinssonar á Höfða í Þverárhlíð.

2) Rannveig átti Jón Þorleifsson á Ferjubakka, bróður samfeðra Þorleifs læknis í Bjarnarhöfn, þ. b. Þorleifur og Ólöf.

3) Sveinn drukknaði í Haffjarðará, bl.

4) Guðlaugur bjó á Syðra-Rauðamel, átti Rannveigu Jónsdóttur vefara Jónssonar og Elínar Kristínar Erlendsdóttur prests Vigfússonar, þ. b.: Elína Kristín, Margrét, Jón og Ólöf kona Magnúsar Jónssonar í Tjaldanesi bróður Eggerts á Kleifum, þ. b.: Eggert í Tjaldanesi, Benedikt, Ketilbjörn, Kristín.

5) Enn var barn séra Sigurðar Þorbjörnssonar:
ff. Sigríður átti fyr Helga Jónsson á Guðnabakka, bl., svo Einar Halldórsson frá Ásbjarnarstöðum Pálssonar, þ. b.: Þórdís kona Sigurðar Þorbjörnssonar á Helgavatni (sjá hér á undan).

6) Torfi bjó í Kolviðarnesi, drukknaði við selveiði 1814. Kristín kona hans var ekkja Þorleifs Guðbrandssonar í Dufgusdal, og var Þorleifur læknir í Bjarnarhöfn stjúpson Torfa.

7) Þorkatla var fyrri kona séra Ólafs Guðmundssonar, er síðast var á Höskuldsstöðum († 16. jan. 1867), þ. b.: Guðmundur söðlasmiður, Einara, Katrín.

c. Ólafur á Lundum, giptur[1]).
d. Karítas átti séra Guðlaug Sveinbjörnsson Holt[2]).

B. Karítas átti fyrst launbörn með ýmsum, átti síðan Erlend Sigurðsson á Brekkum í Skaga-

---

1) Ólafur á Lundum († 30. júní 1834) átti 1825 Ragnhildi Hinriksdóttur frá Reykjum í Tungusveit Eiríkssonar og Ragnhildar Aradóttur prests Þorleifssonar, þ. b.:

a. Þorbjörn á Steinum átti Kristínu Gunnarsdóttur stúdents á Hlíðarfæti Þorsteinssonar, þeirra son Gunnar kaupmaður í Reykjavík á Önnu dóttur N. Jörgensen veitingamanns.
b. Ragnhildur s. k. Jóns Árnasonar dbrm. á Leirá.
c. Eiríkur á Sleggjulæk († 1883) átti Ragnhildi Þorsteinsdóttur og mörg börn. Einn son hans var Ólafur á Grjóti, átti Ingibjörgu Davíðsdóttur frá Þorgautsstöðum launsonar Þorbjarnar ríka á Lundum Ólafssonar, þeirra synir Davíð og Eiríkur.
d. Ólafur hreppstjóri á Lundum († 29. jan. 1861) átti Ragnhildi Ólafsdóttur frá Bakkakoti í Bæjarsveit Sigurðssonar og Oddnýjar Eleasarsdóttur. Hún átti síðar Ásgeir dbrm. Finnbogason. Börn Ólafs og hennar:
   aa. Ragnhildur átti Pétur í Engey Kristinsson s. st. Magnússonar og börn. Ein dóttir hennar Guðrún er gipt Benedikt stúdent í Reykjavík Sveinssyni Víkings frá Húsavík Magnússonar.
   bb. Ólafur búfræðingur í Lindarbæ í Holtum.
   cc. Ólafur Guðmundur bóndi á Lundum á Guðlaugu Jónsdóttur frá Melum (sbr. bls. 398).
f. Þorkatla átti Guðmund Guðmundsson í Leirárgörðum, þ. b.: Ólafur, Pétur, Guðmundur.

2) Séra Guðlaugur var síðast prestur í Hvammi í Norðurárdal († 1874). Sveinbjörn Holt faðir hans var son Arnórs sýslumanns Jónssonar í Belgsholti (sjá Borgarfjarðarsýslu). Karítas var f. k. séra Guðlaugs, þ. b.:

a. Sigurður gullsmiður, s. k. hans var Þórunn Þorbjarnardóttir frá Helgavatni Sigurðssonar, sjá hér áður, þeirra son Eggert bóndi í Kvíum í Þverárhlíð.
b. Málfríður átti Odd Jónsson Oddssonar.
c. Elizabet átti Jón Snorrason á Kálfalæk, þ. d. Þorgerður átti Ólaf Þorbjarnarson á Kaðalstöðum (sjá hér áður).

firði, þeirra börn sum dóu, en önnur urðu ei að menningu[1]).

C. Helga átti Guðmund Guðmundsson á Saxhóli[2]), börn:

a. Rannveig átti með Brynjólfi Bjarnasyni launson, hét Bjarni[3]), svo með Magnúsi Brandssyni laundóttur, hét Sigríður. Sigríður átti Þórð sterka á Svelgsá og mörg börn[4]).

---

1) Karítas var mesta ræfilsskepna og flæktist víða, giptist fyrst Guðmundi nokkrum, átti barn framhjá með Einari Hannessyni hattasmið á Straumi, og annað, er kennt var manni hennar, strauk svo frá honum norður í land og átti barn með Jóni syni séra Jóns Sigfússonar í Saurbæ, kenndi svo barn Þorláki prófasti Þórarinssyni á Ósi, er hann sór fyrir (Árb. Esp. XI 1.) og varð ei samur maður á eptir, það barn, er hét Björn, var svo kennt Guðbrandi, er hún átti síðar, en síðast giptist hún Erlendi Sigurðssyni kandídat í lögfræði á Brekkum í Skagafirði († 1800) og var hann lítt þokkaður, gekk það hjónaband allilla, því að Karítas var »fráleit óstandskind« segir Espólín í ættatölum sínum, þ. b: Vigfús, Guðmundur, Sigurður.

a. Björn Guðbrandsson bjó í Svarfaðardal, var flækingur, átti Helgu Jónsdóttur frá Hofi Arnfinnssonar. Eitt barna þeirra var Helga, er átti Halldór smið Jónsson frá Sökku Jónssonar, þ. d. Soffía.

b. Vigfús Erlendsson var ólánsgrey, stal og fór í betrunarhúsið, drukknaði við Effersey 1806.

c. Guðmundur Erlendsson og

d. Sigurður Erlendsson dóu báðir ungir, að því er Espólín telur.

2) Guðmundur var »dónakorn«, segir Espólín í ættatölum sínum. Hann var föðurbróðir Víglundar Gíslasonar í Hrísum (afa Kr. Ó. Þorgrímssonar í Rvík, sjá hér áður). Guðmundur bjó á Kaðalstöðum í Stafholtstungum, og þar dó Helga kona hans 29. júní 1809, 74 ára.

3) Bjarni átti 1810 Guðrúnu Helgadóttur frá Hraunsfirði, bróðurdóttur Vigfúsar Helgasonar spítalahaldara á Hallbjarnareyri. Bjarni átti 2 launbörn, Guðbjörgu og Jóhann. Rannveig móðir hans átti síðar Sigurð Sigurðsson Illhugasonar í Drápuhlíð Torfasonar, bl.

4) Þórður var son Jóns Ögmundssonar bróðursonar Steindórs sýslumanns Helgasonar. Var Sigríður f. k. hans, þ. b.: Jónar tveir, Sigurður, Ingibjörg, Sigríður, Helga.

Sigurður lærði í skóla[1]), var óskarpur, sigldi svo útskrifaður um 1720. Sýndi karlmannlega vörn í stríðinu fyrir Kaupenhöfn. Gerðist skólameistari á Hólum 1724 og naut hann að því karlmennsku sinnar; hélt hann því embætti í 18 ár, þótti þó ei þar til vel fallinn síðar. Hann gipti sig og bjó í Gröf á Höfðaströnd. Þá vísitator Harboe kom hér til eptirsjónar lærdómi og framferði 1741, þótti honum Sigurður Vigfússon ei vel fallinn til skólameistara, og fékk hann taldan til að sleppa því embætti 1742, en útvegaði þar til Gunnar Pálsson. Til þess Sigurður hefði embætti útvegaði Harboe honum Dalasýslu, er þá var óveitt, og tók hann við henni 1746[2]), Meðfram var og orsök, að Sigurði var kennt barn og gaf hann sig því sjálfviljugur frá skólameistaraembættinu. Sigurður sýslumaður fór fyrst að Vatnshorni, þá að norðan kom, flutti síðan bú í Þykkva(Stóra)skóg í Dölum og bjó þar til síns dauða 1753[3]).

Sigurður var lítill gáfumaður og heldur einfaldur. Hann var hár vexti, herðamikill, miðmjór, stórbeinóttur í andliti, liðamikill í örmum, fótum og höndum; var hann haldinn sterkasti maður á landi hér í sinni tíð[4]). Ritari var hann góður og að náttúru góður maður. Brúkaði mikið þetta orðatiltæki: „So gú, slétt af, þú dánumaður, þversum þá, stór stórum".

1) Sigurður var fæddur 16. október 1696, eptir því sem segir í prófbók háskólans (»Distinctionsprótókoll«). Hann er einnig talinn 24 ára, þá er hann er skrifaður í stúdentatölu við háskólann 26. nóvember 1720, og hefur hann það s. á. eða litlu fyr útskrifazt úr Hólaskóla. Hann tók embættispróf í guðfræði við háskólann 19. marz 1722 með 2. einkunn, enda hefði hann ekki fengið skólameistaraembætti ella, því að í þann tíð urðu skólameistarar að vera lærðir guðfræðingar frá háskólanum eða »attestati theologiæ«, sem þá var kallað.

2) Hann fékk veitingarbréf fyrir sýslunni 15. marz 1745, og hefur líklega flutt þangað það ár.

3) Það er áreiðanlegt, að Sigurður sýslumaður dó 20. nóvember 1752, þótt dauðaár hans sé víðasthvar talið 1753, eins og hjá Boga.

4) Hann var kallaður Sigurður »Íslandströll«, er hann var ytra. Sjá sagnir um hann í íslenzkum Þjóðsögum II 150—151.

## Jón Eggertsson.

(Sjá um hann við Borgarfjarðarsýslu). Var settur Dalasýslumaður þá Sigurður sýslumaður dó 1753—54 til þess Magnús sýslumaður viðtók. Bæði árin 1753 og 1754 hefur sýslumaður Jón haldið manntalsþing í Dalasýslu, seinna árið frá 24. maí til 21. júní og mun sýslumaður Magnús þá ei hafa verið kominn til landsins. Magnúsar fyrsta þinghald mun hafa verið 29. júlí 1754 að Ballará, einn extraréttur, um ærukreinkjandi orð kaupmanni Julby í Stykkishólmi gefin af Jóni Arasyni á Reykhólum.

## Magnús Ketilsson.

*Faðir*: Ketill prestur í Húsavík norður[1]) son Jóns bónda á Brimnesi eystra Ketilssonar Teitssonar bænda. Móðir Ketils prests var Þóra dóttir Skúla bónda Einarssonar (Fljótaumboðshaldara) Skúlasonar, (sem átti Steinunni laundóttur Guðbrandar biskups) Einarssonar á Eiríksstöðum í Svartárdal.

*Móðir*: Guðrún (giptist 1730, deyði 1738) dóttir séra Magnúsar í Húsavík, (sem dó 1727)[2]) sonar séra Einars í Garði (dó 1742) Skúlasonar prests að Goðdölum (dó 1712)[3]) Magnússonar. En móðir Guðrúnar Magnúsdóttur var Oddný dóttir Jóns í Keldunesi í Kelduhverfi merkisbónda og karlmennis (dó 1700) Árnasonar bónda í Haga Björnssonar Magnússonar.

*Kona fyrri* Magnúsar sýslumanns var Ragnhildur (fædd 1742)[4]), gipt 1765, deyði 6. nóv. 1793) dóttir Eggerts bónda á Skarði á Skarðsströnd Bjarnasonar samastaðar ríka.

[Eggert Bjarnason, fæddur 1705, uppólst á Skarði hjá foreldrum sínum, þar til honum var komið til

1) Séra Ketill dó 24. marz 1778 í Kiðey á Breiðafirði hjá Jóni syni sínum, föður Ketils Melsteðs.

2) Séra Magnús drukknaði 23. febrúar 1728.

3) Réttara: 26. des. 1711.

4) Ragnhildur er talin 14 vetra, þegar hún er fermd 1754, og ætti eptir því að vera fædd 1740.

læringar hjá séra Jóni Halldórssyni í Hítardal. Þaðan fór hann í þénustu til Benedikts lögmanns á Skriðu, giptist og bjó á Yzta-Mói, og varð lögréttumaður í Skagafirði, svo bjó hann á Höfða, þar eptir í Lögmannshlíð, Ballará, Ytrafelli og Skarði. Þar missti hann 1767 10. júní (grafin 18. s. m.) konu sína Ragnheiði dóttur séra Þórðar á Völlum í Svarfaðardal (nafntogaðs fríðleiksmanns) Oddssonar prests Eyjólfssonar á Þorgautsstöðum. Kona séra Þórðar Oddssonar var Valgerður dóttir séra Jóns á Barði Sveinssonar prests samastaðar (báðir yfir 50 ár við prestsskap). Valgerður deyði skömmu eptir lát séra Þórðar og var þá Ragnheiður ungbarn. Eggert sleppti búskap og var í húsmennsku á Skarði eptir 1770. Í elli sinni varð hann hálfringlaður. Nálægt 1780 fór hann til Ragnhildar dóttur sinnar og tengdasonar síns Magnúsar sýslumanns að Búðardal og dó þar 3. janúar 1782 á 77. aldursári, jarðaður á Skarði. Hans börn: séra Jón í Holti, Ragnhildur og Elín fáráð].

*Börn* Magnúsar sýslumanns og Ragnhildar voru:

A. Þorbjörg[1])

B. Eggert[2]), dóu bæði í bólu ung og barnlaus.

C. Skúli sýslumaður (sjá síðar).

D. Sigmundur[3]), fæddur 16. des. 1769, deyði 10. jan. 1837 í Innri-Fagradal, bóndi í Akureyjum við Gilsfjörð, merkissmiður og vel efnaður. Hans kona (1793) Valgerður dóttir séra Jóns í Holti í Önundarfirði, (sem dó 1783) Eggertssonar frá Skarði, börn:

---

1) Þorbjörg var fædd 18. marz 1767, en dó í bólunni 1785. Var hún heitin Jóni stúdent syni Ólafs prests Gíslasonar (Mála-Ólafs), og hafði Magnús sýslumaður alið hann upp og kostað til lærdóms. Hann dó í Búðardal úr bólunni 1786, ári síðar en heitmey hans.

2) Eggert var fæddur 27. ágúst 1772, dó í bólunni 1785.

3) Sigmundur bar nafn Sigmundar Þorlákssonar í Saltvík, fóstra Magnúsar sýslumanns.

a. Valgerður[1]).
b. Sigmundur[2]), dóu ógipt og barnlaus.
c. Þorbjörg (dó 1832) átti Odd í Langey Ormsson[3]) bónda, börn:
aa. Eggert[4]).
bb. Hákon[5]).
cc. Brynjólfur[6]).
dd. Kristín[7]).
d. Helga gipt Ólafi Thorlacíus bónda í Fagradal innri Ólafssyni kaupmanns Þórðarsonar.

---

1) Valgerður dó 1825 ógipt, bl.

2) Sigmundur drukknaði á Önundarfirði 1822 ókv., bl.

3) Þorbjörg var fyrri kona Odds. Ormur faðir hans var son Sigurðar Ormssonar í Langey og Þuríðar Pálsdóttur í Fagurey Narfasonar s. st. Pálssonar.

4) Eggert í Langey átti fyr Þorbjörgu Eyjólfsdóttur dbrm. í Svefneyjum Einarssonar, þ. d.:
a. Þorbjörg átti Þorlák silfursmið og hafnsögumann Bergsveinsson Eyjólfssonar, þau systkinabörn, þ. b.: Grímur, Þorbjörg.
Síðari kona Eggerts í Langey Guðrún Jóhannesdóttir úr Bjarneyjum, þ. b.:
b. Friðrik klæðskeri í Rvík, kvæntur Helgu Jónsdóttur frá Rauðseyjum. Hún fór til Ameríku 1904.

5) Hákon á Kjallaksstöðum átti Kristínu Jónsdóttur frá Á Ormssonar Sigurðssonar, þ. b.:
a. Oddur á Kjallaksstöðum.
b. Jón.
c. Þorbjörg á Jónas söðlasmið í Stykkishólmi Jónasson frá Bíldhóli Guðmundssonar.

6) Brynjólfur í Rúgeyjum og Arnarbæli á Fellsströnd, átti fyr með konungsleyfi móðursystur sína Guðrúnu Sigmundsdóttur, þ b.:
a. Aðalsteinn Páll átti barn með Sigfríði Sigurðardóttur.
b. Björn Þórarinn í Efri-Langey átti Sigríði Gísladóttur Gunnarssonar, bl.
S. k. Brynjólfs Oddssonar Arndís Pétursdóttir ekkja séra Jóns A. Blöndals, bl.

7) Kristín átti Guðmund Gunnarsson í Gröfum (Hvalgröfum), þ. b.: Gunnhildur, Ragnheiður.

(Ólafur Thorlacíus í Innri-Fagradal dó aðfaranóttina 8. febr. 1837), börn.

aa. Ólafur[1]).

bb. Kristján[2]).

cc. Ólafur annar[3]).

dd. Þorleifur[4]).

ee. Árni sigldi[5]).

e. Ragnheiður gipt Stefáni silfursmið á Ballará syni Eggerts prests Jónssonar í Skarðsþingum, ei lifa þeirra börn utan Eggert[6]) og Pétur[7]).

---

1) Ólafur eldri var í Romö á Jótlandi, kvæntist danskri konu og dó þar.

2) Kristján bjó á Hvestu í Arnarfirði, átti Kristínu Guðbrandsdóttur sýslumanns í Feigsdal Jónssonar (sjá Barðastr.sýslu bls. 147), þ. b.: Kristín ógipt, brjáluð, Þorleifur Helgi, Guðbjartur dó ungur, Ólafur, Helga Kristjana, Guðbrandur og Jón.

3) Ólafur yngri bjó í Dufansdal, dó á sjúkrahúsinu í Rvík 1879, átti fyr Steinunni Ólafsdóttur prests í Otrardal Pálssonar prófasts Hjálmarssonar og síðar Filippíu systur hennar.

4) Þorleifur á Litlueyri og Bakka í Dalahreppi átti Jóhönnu Guðbrandsdóttur sýslumanns systur Kristínar (sjá hér á undan), þ. b.: Ólafur, Þorleifur og Kristján Sigmundur.

5) Síðari maður Helgu Sigmundsdóttur var Þorleifur Jónsson kaupmaður á Suðureyri, og var hún s. k. hans, þ. b.:

ff. Jón á Suðureyri átti Þórdísi dóttur Jóns Jónssonar á Steinanesi og Margrétar Sigurðardóttur frá Rafnseyri, systur Jóns Sigurðssonar, þau hjón bræðrabörn, þ. b. mörg.

gg. Valgerður átti Stefán snikkara Benediktsson prests í Selárdal Þórðarsonar, þ. b. Benedikt kaupmaður í Rvík o. fl.

hh. Guðrún átti Pétur á Ballará Stefánsson Eggertssonar prests í Skarðsþingum Jónssonar og Ragnheiðar Sigmundsdóttur, þau systrabörn.

6) Eggert á Staðarhóli og Króksfjarðarnesi átti Kristrúnu Birgittu Þorsteindóttur prófasts Hjálmarsen í Hítardal, þ. b. Guðbjörg s. k. séra Arnórs Árnasonar uppgjafaprests á Ballará, Guðrún kona Indriða Indriðasonar frá Hvoli Gíslasonar og Rögnvaldur.

7) Pétur átti Guðrúnu Þorleifsdóttur (sjá hér á undan).

f. Rögnvaldur[1]).
g. Jón giptist 1833 Ragnheiði dóttur Björns í Dagverðarnesi Einarssonar[2]).
h. Sigríður giptist 1833 Benjamín syni Björns í Dagverðarnesi[3]), barn:
aa. Valgerður.
i. Guðrún[4]).
k. Kristjana[5]).

E. Karítas, fædd 8. jan. 1771, átti fyr Vigfús Fjeldsted gullsmið Sigurðsson, þeirra börn:
a. Andrés[6]) giptur Þorbjörgu Þorláksdóttur í Svefneyjum, börn:

---

Launbörn hans með Þóru Sæmundsdóttur frá Erpsstöðum Steindórssonar voru Guðrún, dó ung, og Kristján.

1) Rögnvaldur gullsmiður í Fagradal, átti fyr Önnu Böðvarsdóttur prófasts á Melstað Þorvaldssonar bl., en síðar frændkonu sína Guðrúnu dóttur séra Friðriks Eggertssonar (Eggerz), þ. b.:
a. Sigþrúður átti Jón Vídalín stúdent í Fagradal son Jóns prests Sigurðssonar á Breiðabólsstað í Vesturhópi, bl.
b. Arndís á Þorlák í Laxnesi Jónatansson frá Marðarnúpi Davíðssonar.
c. Ragnheiður.
d. Rögnvaldur býr í Múla í Saurbæ.

2) Jón og Ragnheiður voru systkinabörn, þau skildu, þ. b.:
a. Friðrik í Þurranesi í Saurbæ átti Þuríði Magnúsdóttur, þ. b.: Eggert, Jón, Kristrún.
Jón Sigmundsson í Króksfjarðarnesi var þríkvæntur, var Ragnheiður 1. kona hans, en 2. kona hans Valgerður Guðmundsdóttir prests á Hólmum Bjarnasonar í Sviðholti, þ. d.:
b. Valgerður. En síðasta kona Jóns var Sólrún Sæmundsdóttir ekkja, bl.

3) Sjá um börn þeirra síðar.

4) Guðrún átti fyr Björn son Böðvars prófasts Þorvaldssonar á Melstað, en síðar Brynjólf Oddsson Ormssonar systurson sinn (sjá hér áður).

5) Kristjana átti 1834 Stefán Björnsson snikkara á Kambi, voru systkinabörn (sjá síðar); þau skildu, en hún fylgdi síðan Sigurði söðlasmið Hákonarsyni.

6) Andrés bjó síðast á Hvítárvöllum († 7. maí 1862). Þorbjörg f. k. hans († 1845) var dóttir Þorláks Grímssonar í Látrum og

aa. Katrín.
bb. Karítas[1]).
b. Eggert[2]) giptur Maríu dóttur Einars dannebrogsmanns í Rauðseyjum Ólafssonar, þ. b.:
aa. Ingibjörg[3]).
bb. Laurus[4]).
cc. Friðrik[5]).

---

Katrínar Einarsdóttur frá Svefneyjum (sjá hér áður bls. 711). Síðari kona Andrésar Fjeldsted var Halldóra Ólafsdóttir ekkja Ellerts Schrams skipstjóra, bl.

1) Karítas s. k. Jóns á Heggstöðum Jónassonar prófasts í Reykholti Jónssonar.

Enn voru börn Andrésar og Þorbjargar.

cc. Andrés óðalsbóndi bjó lengi á Hvítárvöllum, er hann seldi Boilleau barón, býr nú í Trönu hjá Ferjukoti, á Sesselju Kristjánsdóttur frá Vallnakoti Sigurðssonar stúdents í Geitareyjum Sigurðssonar, þ. b.: Kristján fór til Ameríku, Sigurður bóndi á Ferjukoti, Andrés læknir á Dýrafirði, Lárus stúdent o. fl.
dd. Daníel býr á Hvítárósi, á Sigurlaugu Ólafsdóttur Jónassonar prófasts í Reykholti, þ. b.: Guðjón dó í skóla, Vernharður o. fl.
ee. Guðný átti Jón Guðmundsson á Draghálsi, þ. b. Þorbjörg og Ingibjörg.
ff. Þórarinn snikkari.
gg. Þorbergur bjó á Hreðavátni, fór til Ameríku.
hh. Jóhanna Friðrikka. ii. Ragnheiður, hafa dáið ungar.

2) Eggert Fjeldsteð var rennismiður, bjó síðast á Hallbjarnareyri.

3) Ingibjörg átti Sigvalda Þorvaldsson á Kirkjufelli, fóru til Ameríku.

4) Lárus býr á Kolgröfum í Eyrarsveit, kvæntur Sigríði Hannesdóttur frá Hundadal Hannessonar og Guðbjargar Jónsdóttur smiðs Andréssonar, þ. b.: Sigríður kona Stefáns Guðbrandssonar á Hamraendum í Breiðuvík, Larenzía s. k. Salómons Sigurðssonar í Drápuhlíð, Kristján Eggert, Ólafur, Gróa Herdís, Elinborg, Sturlaugur, Gestur, Júlíus.

5) Friðrik bjó á Hjarðarbóli, átti Kristínu Grímsdóttur prófasts á Helgafelli Pálssonar, bl. Hann dó ungur. Kristín ekkja hans

Þar eptir giptist Karítas Páli Benediktssyni[1]) lista-, laga- og fróðleiksmanni, þeirra börn á lífi.

c. Þorsteinn[2]).

d. Ingveldur.

F. Ragnheiður[3]), fædd 20. nóvember 1775, gipt Birni bónda Einarssyni í Dagverðarnesi (af Bustarfellsætt), þeirra börn:

---

giptist síðar Eyþóri kaupm. í Rvík Felixsyni frá Brunná Sveinssonar.

Enn voru börn Eggerts Fjeldsteð og Maríu:

dd. Ari snikkari bjó á Bug í Neshrepp innri og nú á Hellissandi, á Ólöfu Hannesdóttur systur Sigríðar konu Lárusar bróður hans, þ. b.: Guðlaug, Matthildur, Júlíana og Kristín María.

ee. Vigfús drukknaði ókv., bl.

ff. Eggert bjó á Spjör í Eyrarsveit, átti Sigríði Einarsdóttur Hnausa-Bjarnasonar, fóru til Ameríku með börn sín.

gg. Kristján dó fulltíða ókv., bl.

hh. Sturlaugur bjó með Guðrúnu Helgadóttur prests á Melum Sigurðssonar, þeirra son Helgi, fóru öll til Ameríku.

ii. Ingveldur á Lárus Þorgeirsson á Narfeyri, þ. b.: María, Karítas, Jóhanna, Jón, Ólafur og Jens Hjörtur.

1) Páll bjó um hríð á Brimilsvöllum, og síðar á Skallabúðum, dó snögglega í Stykkishólmi 1843. 1809 var hann settur af Jörgensen sýslumaður í Eyjafjarðarsýslu, og var 5 nætur í því embætti (Árb. Esp. XII 38). Sjá um hann Snæfellsnessýslu.

2) Þorsteinn sigldi og lærði rennismíði, bjó í Tungu í Breiðuvík. Hans son Þorsteinn drukknaði í Búðaós 14. okt. 1860.

3) Ragnheiður átti barn ógipt með umrenningi nokkrum Hansteini syni Sýslu-Helgu, og þótti hneisa, var svo gipt Birni hálfnauðug.

a. Benjamín[1]).
b. Jakob[2]).
c. Stefán[3]).
d. Karólína gipt Sigurði Jónssyni 1832[4]); barn:
aa. Karólína.
e. Ragnhildur[5]).
f. Ragnheiður[6]).
G. Séra Jón í Hvammi í Norðurárdal fæddur 18. sept. 1773[7]), giptur Guðrúnu dóttur Guðmundar sýslumanns Ketilssonar, börn:

---

1) Benjamín í Langeyjarnesi átti Sigríði Sigmundsdóttur, þau systkinabörn (sjá hér á undan), þ. b.:
a. Valgerður Sigríður Kristjana átti séra Odd Hallgrímsson í Gufudal, þeirra synir: Hallbjörn, Friðrik.
b. Einar í Langeyjarnesi átti systkinabarn sitt Karólínu Sigurðardóttur (sjá hér síðar).
c. Sigurður átti Jóhönnu Jónsdóttur frá Geirmundarstöðum í Strandasýslu.
d. Brynjólfur. e. Benedikt. f. Sigurður annar.

2) Jakob var söðlasmiður, átti 2 launbörn með Þórdísi Sakaríasdóttur frá Heydalsá Jóhannssonar prests í Garpsdal Bergsveinssonar.

3) Stefán snikkari á Kambi, átti Kristjönu Sigmundsdóttur, þau systkinabörn (sjá hér áður). Óvíst var um faðerni sumra barna Kristjönu, er eignuð voru Stefáni, en haldin börn Sigurðar Hákonarsonar (sjá fyr).

4) Sigurður bjó í Seli á Skarðsströnd. Karólínu Ástríði dóttur hans átti Einar Benjamínsson (sjá hér á undan). Son Sigurðar og Karólínu: Jens Jakob.

5) Ragnhildur átti fyrst launbarn með Bjarna syni Hnausa-Bjarna, er hét Matthildur, átti svo fyr Hákon Pálsson á Reksstöðum á Barðaströnd, bl., en síðar Jón Illhugason á Kambi í Króksfirði, þ. b.: Björn á Miðhúsum á Reykjanesi og Helga kona Jakobs Jakobssonar Richters.

6) Ragnheiður átti fyrst systkinabarn sitt Jón Sigmundsson í Króksfjarðarnesi (sjá hér áður); þau skildu. Launsynir hennar með Jóni Ormssyni á Kleifum voru Stefán í Berufirði og Rögnvaldur. Síðan átti Ragnheiður Sigurð söðlasmið á Kambi í Króksfirði Sakaríasson frá Heydalsá, þ. b.: Jens, Jakob, Björn og Ragnheiður.

7) Séra Jón dó á Hafþórsstöðum 6. jan. 1850.

a. Magnús[1]).
b. Ragnheiður[2]).

H. Guðrún fædd 29. desember 1777, dó 1843, gipt séra Eggert á Ballará Jónssyni[3]), börn:
a. Jón studiosus[4]) giptur Kristínu dóttur sýslumanns Skúla, þeirra son:
aa. Skúli.
b. Séra Friðrik, kapellán föður síns í Skarðsþingum, býr í Búðardal[5]), giptur Arndísi dóttur Péturs prófasts Péturssonar [í Stafholti], þ. b. á lífi:
aa. Sigþrúður[6]).

---

1) Magnús Nordahl var prestur í Meðallandsþingum († 22. apríl 1854) átti Rannveigu († 1. des. 1857) Eggertsdóttur prests í Stafholti Bjarnasonar landlæknis, þ. b.:
a. Guðrún átti fyr Jón Jónsson á Söndum í Meðallandi, þ. b. mörg, síðar Guðmund Loptsson á Söndum og börn.
b. Skúli Nordahl sýslumaður í Dalasýslu (sjá síðar).
c. Guðmundur í Elliðakoti í Mosfellssveit átti Guðrúnu Jónsdóttur frá Oddum í Meðallandi Gissurarsonar, þeirra synir: Eggert á Hólmi, Skúli á Úlfarsfelli og Elliði búfræðingur.
d. Þórunn átti Jón Þórðarson á Úlfljótsvatni, þ. son Magnús cand. jur.
e. Jóhanna dó ung. f. Kristín átti Þórarinn Eiríksson á Flankastöðum.

2) Ragnheiður átti Guðmund Teitsson Snorrasonar frá Kálfalæk. Enn var dóttir séra Jóns:
c. Halldóra dó 8 vetra.

3) Séra Eggert dó 24. júlí 1846.

4) Jón stúdent Eggertsson bjó í Fagradal ytra, dó 1882 (sjá síðar).

5) Séra Friðrik dó í Hvalgröfum 23. apríl 1894 92 ára (f. 26. marz 1802). Hann var 20 ár (1826—46) aðstoðarprestur föður síns, en svo 13 ár embættislaus, unz hann fékk Skarðsþing 1859, lét af prestskap 1873.

6) Sigþrúður (f. 19. marz 1830) átti 1856 Jón Pétursson háyfirdómara og var s. k. hans, þ. b.: Arndís kona Guðmundar Guðmundssonar læknis í Stykkishólmi (sjá bls. 702), Þóra kona Jóns Magnússonar skrifstofustjóra, Sturla og Friðrik kaupmenn í Rvík, Elinborg og Sigríður kona séra Geirs Sæmundssonar á Akureyri (bls. 702).

bb. Pétur[1]).
cc. Guðrún[2]).
dd. Elinborg[3]).
c. Stefán silfursmiður giptur Ragnheiði Sigmundsdóttur fyrnefndri[4]).
d. Torfi deyði 1836 utanlands við lærdóm[5]).

I. Helga fædd 29. sept. 1779, dó 1844, gipt silfursmið Eggert í Sólheimatungu, syni Guðmundar sýslumanns Ketilssonar og Halldóru Þorsteinsdóttur, þeirra börn[6]):
a. Guðmundur.
b. Jón.
c. Pétur.
d. Halldóra.
e. Hólmfríður.

---

1) Pétur Eggerz (f. 11. apríl 1831, † í Rvík 5. apr. 1892), átti fyr Jakobínu dóttur Páls amtmanns Melsted, þ. b.: Páll dó í Ameríku, átti Ragnheiði dóttur séra Sigurðar Sivertsen á Útskálum, Arndís kona séra Páls Ólafssonar í Vatnsfirði, Elinborg, er átti Kristján Hall verzlunarmann á Borðeyri, son Péturs Hall í Reykjavík, Friðrik, Pétur og Ingibjörg († 1898) f. k. séra Magnúsar Blöndals Jónssonar í Vallanesi. S. k. Péturs Eggerz var Sigríður Guðmundsdóttir frá Kollsá í Hrútafirði Einarssonar, þ. b.: Guðmundur cand. jur., Sigurður cand. jur., Solveig kona séra Stefáns Kristinssonar á Völlum í Svarfaðardal og Ragnhildur kona Ólafs Thorlaciusar læknis á Búlandsnesi.

2) Guðrún (f. 12. apríl 1832) var s. k. Rögnvalds Sigmundssonar gullsmiðs í Fagradal og eru börn þeirra áður talin (bls. 722).

3) Elinborg (f. 19. ágúst 1833) átti fyr Pál Friðrik Vídalín Jónsson stúdent í Víðidalstungu († 1873), þ. b.: Jón Friðrik Vídalín brezkur konsúll, Páll Vídalín í Reykjavík, Arndís og Kristín kona Jóns Jakobssonar forngripavarðar. Tvær dætur Ragnheiður Sigþrúður og Sigríður dóu ungar. Síðari maður Elinborgar var Benedikt prófastur Kristjánsson í Múla († í Rvík 6. des. 1903).

4) Börn Stefáns Eggertssonar eru áður talin (bls. 721).

5) Torfi var útskrifaður úr heimaskóla 1830, tók aðgöngupróf við háskólann 1831 og 2. lærdómspróf 1832, hvorttveggja með 1. einkunn, var vel gáfaður maður og glæsimenni.

6) Sjá um þessi börn Eggerts og Helgu síðar (í Mýrasýslu).

K. Sigríður fædd 30. janúar 1781, utanlands ógipt og barnlaus[1]).

*Kona síðari* Magnúsar sýslumanns var Elín dóttir Brynjólfs í Fagradal[2]), barnlaus.

Magnús sýslumaður er borinn í Húsavík 29. janúar 1730[3]), ólst hann í barnæsku upp hjá lögréttumanninum Sigmundi í Saltvík (sem deyði 1785) Þorlákssyni og kvinnu hans Þorbjörgu Stefánsdóttur frá Lýtingsstöðum í Tungusveit, voru þau barnlaus og uppólu hann sem sinn einkason, komu honum til lærdóms og síðan í Hólaskóla með tilstyrk Magnúsar móðurbróður Skúla Magnússonar, þáverandi Skagafjarðarsýslumanns. Nam Magnús þar sinn skólalærdóm og var heiðarlega útskrifaður af skólameistara Gunnari Pálssyni 1749, 10. maí[4]), fór strax sem þénari til Sveins lögmanns Sölvasonar að Munkaþverá, eptir þessa lögmanns vitnisburði 19. júlí 1750, en sigldi til Kaupmannahafnar 1751 ásamt Skúla fógeta (að eg meina), deponeraði hann strax þangað kominn og komst í stúdentatölu í Regense. 1752 tók hann það philologiska og philosophiska examen með góðri heppni, og gaf sig til lögvísinda og tók bachalauræi grad[5]). Þá var orðinn stiptamtmaður yfir Íslandi Otto Manderup greifi af Rantzau; fógeti Skúli var hjá honum í sérlegri náð; stóðu þá og yfir fabriku-

---

1) Hún var vel að sér og lærði latínu, var um hríð hjá Grími Thorkelín. »Hvernig honum fór við hana vissi hann bezt«, segir Espólín í ættatölum sínum. Hún kenndi síðan börnum.

2) Magnús sýslumaður og Elín giptust 1795.

3) Um fæðingardag og fæðingarár Magnúsar sýslumanns ber heimildum ekki saman, því að sumstaðar er hann talinn fæddur 10. ágúst 1730 og jafnvel 1729, en réttast mun, að hann sé fæddur 29. janúar 1732 (sbr. hdr. nr. 300 og 607$^{\underline{to}}$ í safni Jóns Sigurðss. á landsbókasafninu með hendi Þorvaldar Sivertsen í Hrappsey, áteiknað af Kristjáni sýslumanni, sonarsyni Magnúsar). Í innritunarskrá háskólans er hann og talinn á 20. ári 18. des. 1751, og bendir það á, að 1732 sé hið rétta fæðingarár hans, en ekki 1730.

4) Hann var 4 vetur í skóla, kom þangað 1745 og hefur þá verið á 14. ári.

5) Að hann hafi orðið »baccalaureus« tel eg mjög vafasamt.

verksmiðju) innréttingar í Reykjavík. Er ætlun manna, að Skúli hafi haft tillögur með Magnúsi, að hann fengi Dalasýslu eptir Sigurð sýslumann Vigfússon, þótt Magnús væri þá ei búinn að taka það rómverska lagareynslupróf, sem hann hafði asett sér, var hann og fátækur að kosta sig þar, var og ei heldur sýslumönnum í þeirri tíð upp á lagt að attestera. (Þorsteinn sýslumaður a Móeiðarhvoli var sa fyrsti Íslendingur, sem tók attestas i lögvísi um 1742). Magnús sótti um Dalasýslu 24. des. 1753 og var veitt hún 19. febr. 1754, og kom hann inn til að þjóna embætti i henni 1754. Réðst hann það ár til veru hjá Boga bónda i Hrappsey. En 1755 tók hann við jörð og búi í Arnarbæli af Olafi bónda Jónssyni og Kristínu Guðmundsdóttur. Þa hann hafði þar búið í 3 ar, flutti hann að Melum a Skarðsströnd og bjó þar enn ógiptur i 4 ar. Madame Karítas dóttir Bjarna ríka a Skarði, ekkja Þorsteins bónda Pálssonar, bjó þá í Búðardal og hafði með Akureyjar á Gilsfirði til allra nota. Svo tiltalaðist fyrir Magnúsi sýslumanni og Karítas, að hún tók hann til sambýlis við sig a sagðri jörðu og Akureyjum. Var sögn, að hún hefði viljað egta hann, og í því skyni gefið honum hvorutveggja þessar jarðir eptir sig, en ei vitum vér sann þar a. (Testament var þar umgjört 8. agúst 1764, og af kongi staðfest 1. marz 1765). Hvernig sem því var varið, flutti sýslumaður Magnús fra Melum að Búðardal 1762 og bjó á hálflendunni a móti mad. Karítas. Fór svo fram um hríð, að þau giptust ekki. Um þessar mundir bjó á Skarði á Skarðsströnd Eggert son Bjarna ríka Péturssonar; hafði hann tekið við búi af föður sínum, sem þá var orðinn karlægur. Eggert átti gjafvaxna dóttur að nafni Ragnhildi. Til hennar felldi Magnús sýslumaður huga sinn, og fékk hennar haustið 1765, var brúðkaup þeirra haldið á Skarði 28. sept. með mikilli rausn; brúðkaupsvísur voru þa margar kveðnar, og ölkæti mikil. Góðar urðu samfarir þeirra hjóna, og eru aður talin börn þeirra. Bjó Magnús sýslumaður þannig á hálflendu Búðardals og Akureyja meðan Karítas lifði, en eptir lát hennar tók hann hvorutveggja sem eign sína. Eru Akureyjar einhverjar með beztu eyjum á Breiðafirði að flestum hlunnindum, og Búðardalur góð landjörð. Var það ei eptirtalnalaust af erfingjum Karítasar, en lenti þó þar við.

Þá Magnús sýslumaður var búfastur í Búðardal, fór hann að leggja mikla stund á jarðrækt, garðyrkju og þúfnaslèttan, samt túngarðahleðslu og húsabyggingar. Sást fyrir alvöru hvílíkur forstands- og dugnaðarmaður hann var, þá hann fékk efnin í hendur. Hélt hann þeim störfum fram, meðan hann lifði. Þess á millum var hann við bréfa- og embættisskjala, samt bókarit og lestur, skrásetti hann flest markvert, er hann fann í fræðibókum. Stundum framan af æfi sinni var hann við smíðar, en seinna á aldri sínum lagði hann það frá sér. Embættisverk sín forsómaði hann ekki, þó hann hefði mikla búsýslan fyrir stafni. Mikinn part túnsins lét hann slétta og mikið af því umgirða. Mikla jörð lét hann og brjóta til kálgarðsræktar. Tilraun gerði hann með trjáplöntur, sem úti dóu í hörðum vetrum. Með bygg og rúg gerði hann og tilraun, en sjaldan bar það ávexti til hlítar. Stóran og reisulegan bæ lét hann byggja, og þó hann hefði þessi utanhússtörf á hendi, leit hann eptir mjög mörgu innanhúss, þar kona hans var opt svo heilsulasin, að ei gat séð eptir sínu. Opt hafði hann miisjafnt rusl af fólki, sem þurfti góða eptirsjón; tókst honum samt mikið í því. Þeim yngri bræðrum sínum Guðmundi, sem síðar varð sýslumaður, og Jóni, er síðar varð prestur í Hjarðarholti, samt Skúla og Jóni sonum sínum, hver sá fyrri var Dalasýslumaður, hinn prestur í Hvammi í Norðurárdal, einnig og séra Birni Sigurðssyni, er seinna varð prestur í Hítarnesi, kenndi hann undir dimission, og þar að auk fleirum nokkuð í skólalærdómi, svo ótrúlegt mætti virðast, hverju hann gat afkastað. Sigríði dóttur sinni kenndi hann og latínu. Yfir höfuð mátti hann heita mesti maður, bæði sem yfirvald, lærdómsmaður og búhöldur, og í ýmsum tilraunum til nota, þó þær allar lukkuðust ekki í bezta máta. Enda hafði hann undir bú sitt þær arðmestu eyjar, Akureyjar og Skarðslönd á seinni árum. Tilkostnað hafði hann og mikinn, því heimilisfólksfjöldi var ærinn, hér um 30 manns jafnast, fyrir utan komumenn. Hann tók sér vissa tíma til að hressa sig á ölföngum, hélt því fram viku eða lengur, og lá þá jafnan í sæng sinni og var mjög glaðvær, en að því búnu erfiðaði hann í lærdóms og bústandssökum meir en flestir aðrir, og smakkaði ei á ölföngum heilum mánuðum saman. Hann var að ásýndum höfðinglegur, og leit svo út, sem hans undirmenn

hefðu bæði virðingu og ótta fyrir honum. Ef hann átti við þá stórbokka að skipta, sem hann með valdi gat ekki bugað, gerði hann þá að vinum sínum; atti hann því jafnan helztu menn í hverri sveit sér hróðurholla. Heilráður var hann þeim hann vel vildi, en óvinir hans þóttust heldur kenna kulda af ráðum hans.

Börnum sínum kom Magnús sýslumaður til þeirrar menningar, sem hann framast gat. Hann var veitingasamur heim að sækja. Niður dempaði misklíðar þá hann gat og sneiddi hjá óþarfa málum. Stundum var hann settur dómari eður gerðamaður í öðrum sýslum, og fórst honum það allt laglega. Fjárgæzlumaður mikill var hann haldinn og fastur maður með jafnaði, þó sparaði hann ei féföng til nauðsynlegra fyrirtekta, tilrauna og fyrirtækja. Hann þótti stoltlegur í fasi og viðmóti a mannamótum, var það meir af yfirmanna venju á fyrri öld, og teknu sniði eptir þeim, en hann væri að náttúru stoltur; þægilegasti maður viðtals var hann í einrúmi.

Í búnaðarfræði mun hann hafa verið með mestu mönnum hér a landi í sinni tíð. Í föðurlandssögunni með þeim betri. Í tungumálum: latínu og grísku mjög vel að sér, þýzku frönsku og engelsku skildi hann og til hlítar, að ekki að tala um dönsku og svensku, sem honum var eins töm og sitt móðurmál. Í fornaldarfræðum var hann og með þeim betri, eins og í margskonar reikningslist. Í lögspeki þótti hann í meðallagi. Í stuttu máli: hann var hálærður í mörgu og margfróður í flestu. Í þeirri gömlu guðfræði var hann og sterkur. Hann las iðuglega í húsi sínu á eldri árum, kveld og morgna, húslestra á vetrum, og var maður guðrækinn og vandaði ráð sitt. Þolinmóður og jafnlyndur iðjumaður var hann.

Af iktsýki, sem hljóp í hann innvortis meinast hans dauðamein. 1803 um vorið var hann þrotinn að heilsu og tók sótt þá, er hann leiddi til bana 18. júlí á 73.[1]) aldursári. Hann var grafinn innan Búðardalskirkju og útför hans ger hin sæmilegasta.

Hans fyrri kona Ragnhildur Eggertsdóttir var mesta gæzku- og ágætiskona, gjafmild í meira lagi, en þó fylgdi

1) Réttara 72.

henni svoddan guðsblessun, að fyrir utan þann mikla auð, sem hún færði manni sínum auðguðust þau hjón mjög mikið meðan hún lifði, en ei eins eptir hana latna, þó þá væri að sögn sparlega á haldið. Ragnhildur varð ellefu barna móðir, hvar af 8 lifðu hana. Hún deyði sárt söknuð af öllum 6. nóvember 1793 46 ára[1]) gömul og var grafin í Búðardal. Ragnhildur var nettkvendi. í fríðara lagi og sérlega góðmannleg og kom sér vel við alla. Seinni kona Magnúsar sýslumanns var Elín dóttir Brynjólfs í Fagradal, sem áður er sagt. Hafði hún fyrst verið gipt séra Markúsi Pálssyni á Kúlu norður. Eptir lát hans flutti hún til föður síns og gerðist hans bústýra að móður sinni látinni, og þá faðir hennar deyði hélt hún þar búi, til þess hún giptist sýslumanni Magnúsi, og eptir hann látinn bjó hún á hálfum Búðardal til þess hún deyði 1827[2]). Hún var haldin forstandskona mikil og ágæt í margan máta, þó gekk fé af höndum hennar á elliárum hennar eptir dauða Magnúsar sýslumanns, þá hún gat ekki haft næga umsjón með sitt Elín Brynjólfsdóttir var höfðingleg ásýndum, gerðarleg og fríð, þótti hún nokkuð föst, þurlynd og áfram, (sem menn kalla), viðræðisgóð og ráðsvinn í allan máta, fastúðug og vinur vina sinna. Hún testamenteraði börnum Magnúsar mest alla sína eptirlátnu fjármuni, þó varð þar um seinna nokkur ágreiningur.

Sýslumaður Magnús átti ágætt safn, bæði af prentuðum og skrifuðum bókum, og margar upplýsandi athugasemdir og fræðibækur hefur hann sjalfur skrifað, því hann var einhver hinn bezti ritari á sinni tíð. Þetta bókasafn tvístraðist við hans dauða. En þar sem sjást hans skrif og athugasemdir bera þær ljósast merki hans miklu bóklestra, lærdóms og eptirtektar á margvíslegum vísindum.

Þær prentuðu bækur, sem eptir hann liggja og mér er kunnugt um eru þessar eptirfylgjandi:

1. Danakonunga Oldenborgiskrar ættar forordningar og bréf Islandi viðkomandi frá 1448 til 1731 útgefið í 4to., fyrsti

---

1) Hún hefur verið 53 ára gömul, því að hún er fædd um 1740 (sjá hér áður).

2) Elín dó 15. júní.

og annar partur prentaður í Hrappsey 1776—77, þriðji partur prentaður í Kaupenhöfn 1787.

2. Útlegging yfir erfðir norsku laga 5. bókar 2. kapítula, prentað í Hrappsey 1773.
3. Islands Maaneds Tíðindi fra október 1773 til októbers 1775, prentað í Hrappsey.
4. Ítala búfjár í haga, Hrappsey 1776.
5. Sama með viðbæti um hrossabit, hrossaslátur og sláttutíma, sama stað 1777.
6. Um sauðfjárhirðingu, sama stað 1778.
7. Tilraunir um sáðtegundir, prentað samastaðar 1779.
8. Ómagaframfæri, sjá Félagsrit 4. bindi, prentað í Kaupenhöfn 1784.
9. Athugasemdir við sveitabóndann í Félagsrita 7. bindi, prentað í Kaupenhöfn 1787.
10. Um jus patronatus á dönsku snúið eptir Vídalíns skrifi, prentað í Sórey.
11. Umbætt Búalög, undir prentun í Hrappsey 1775.
12. Björns á Skarðsá annalar, undir prentun í Hrappsey 1774 lagfærðir.

Af handskriftum hans, hvar til hann var rithöfundur veit eg þessar:

1. Skrif á dönsku móti Horrebovs skrifi Jesus og Fornuften.
2. Fyrsta uppkast til sýslumannaregisturs í Vestfirðinga-, Sunnlendinga- og Austfirðingafjórðungum, mjög ófullkomið.
3. Um Staðarhólsmál og annað honum viðkomandi; ei hef eg séð það, en heyrði það sagt á mínum ungdómsárum, skyldi það hafa verið sent geheime archivario Thorkelín.
4. Margvíslegar athugasemdir. Samansafn af gömlum dómum og ýmsum skjölum, tilburðir ýmsir, critiqve yfir eitt og annað af honum ritað, og að sumu því er hann höfundur í ýmsum lærdómsgreinum.

## Skúli Magnússon.

*Faðir*: Magnús sýslumaður Ketilsson nýnefndur.
*Móðir*: Ragnhildur Eggertsdóttir nýnefnd.
*Kona*: Kristín dóttir Boga eldra í Hrappsey og Sigríðar systur Jóns sýslumanns á Móeiðarhvoli (sjá Rangárþing). Kristín var áður gipt séra Þórði kapell-

ani föður séra Ólafs prófasts og Skarðsþingaprests Einarssonar, þeirra einkadóttir Guðrún kvinna Ebenezers sýslumanns í Ísafjarðarsýslu (sjá þar).

*Börn* sýslumanns Skúla og Kristínar.

A. Kristján, fæddur 5. desember 1801, sýslumaður í Snæfellsnessýslu og Dalasýslu, giptur 1830 Ingibjörgu Ebenezersdóttur (sjá hér síðar).

B. Ragnhildur, fædd 10. ágúst 1800, gipt 6. júní 1823 Þorvaldi Sigurðssyni umboðshaldara og garðyrkjumanni, þeirra börn á lífi: Katrín, Kristín Ólína.

C. Kristín, fædd 17. júní 1809[1]) á Jón stúdent son séra Eggerts á Ballará, þeirra börn:

a. Guðrún deyði.

b. Skúli.

(Jón býr í Ytri-Fagradal, en Þorvaldur svili hans í Hrappsey).

---

1) Réttara 1808. Jón og Kristín giptust 18. sept. 1824. Börn þeirra: Guðrún († 1831), Jarþrúður († 1831), Eggert († 1833) Skúli, dó ungur, Guðrún önnur († 1839), Eggert annar († 1843), Borghildur, dó ung, Guðrún þriðja, dó einnig ung.

Ólafur Snókdalín segir hiklaust, að laundóttir Skúla sýslumanns með Helgu Agnesardóttur hafi verið:

D. Jófríður († 15. júlí 1843) kona Sigurðar Bjarnasonar í Langeyjarnesi († 1859), en kölluð var hún Einarsdóttir, þ. b.:

a. Þórhalli á Kvennahóli átti Guðfinnu Sigurðardóttur, bl.

b. Eiríkur í Efri-Langey átti Sigríði Jónsdóttur s. st. Helgasonar.

c. Hildigunn(ur) átti Jóhann Guðmundsson.

d. Guðrún s. k. Árna á Ísleifsstöðum Gíslasonar stúdents á Ökrum Vigfússonar.

e. Sigríður.

Helga móðir Jófríðar var kölluð Sýslu-Helga, af því að hún var hingað og þangað í Dalasýslu og víðar, og átti börn með ýmsum. Einn son hennar var Hansteinn (eða Handsteinn) Guðmundsson (sbr. bls. 724) og var hann eldri en Jófríður, sem mun fædd á árunum 1785—1786.

Skúli sýslumaður er fæddur í Búðardal þann 6. apríl 1768. Ólst hann upp og lærði skólalærdóm hjá föður sínum, var dimitteraður af rektor G. Thorlacíus 1791 8. maí, deponeraði í nóvember og komst í Regents 1792, 1793 í apríl tók hann examen philologicum og sama ár í október examen philsophicum með haud illlaudabile, 1794 fór hann til Íslands og utan sama haust. 1796 tók hann examen Danico-juridicum með Bekvem[1]) og var hæstaréttar advocator Chr. Klingberg hans fræðari í lögvísi. Alfarinn kom Skúli inn til Íslands 1796 og gerðist þá föður síns aðstoðarmaður (adjunctus) 12. marz 1796 í sýslumannsembætti. Reisti Skúli fyrst bú í Innri-Fagradal, var þá Karítas systir hans fyrir búi með honum 1796—97. 1797 flutti hann búferlum að Skarði a Skarðsströnd. 1799 14. sept. inngekk hann hjúskap með konu sinni Kristínu. 1803, þá faðir hans deyði, var hann settur Dalasýslumaður, en fékk veitingu kongs fyrir Dalasýslu 18. apríl 1804. Hann innleysti af systkinum sínum þann part af Skarðseignum, sem hann átti ei að erfðum og bjó þar síðan í sæld og blóma. Keypt hafði hann og jarðagóz og annað, sem hans standi sómdi. Bú og eignarjörð sína, höfuðbólið Skarð, hefur hann með margt slag stórum endurbætt. Orð fór af þeirra hjóna forstandi, góðgerðum og velvild við fátæka, kölluðust þau bjargvættir í sinni sveit og höfðu miklar nægtir í búi. Sýslumaður Skúli var höfðinglega lundaður, góðmenni og elskaður af sýslunnar innbyggjurum, leitaðist hann og við eptir megni að bæta og græða óheppni og ólán sérhvers manns og stilla óróa innan sýslu sinnar. Var fremur öðrum sýslumönnum mildur og eptirgefandi í tekjum sér til fjárafla skaða. 1809 var hann settur sýslumaður í Barðastrandarsýslu. 1825 varð hann meðlimur Fornfræðafélagsins; hann var og fleiri félaga meðlimur. Árið 1831 dag 21. maí var sýslumaður Skúli útnefndur af konungi til virkilegs kammerraðs.

Með aldrinum tók sýslumaður Skúli brjóstveikiskrankdæmi. svo hann lagðist um hríð í rekkju, en hrestist þó aptur nokkuð, var samt ekki þingfær, tók því dótturmann sinn,

---

1) Hann tók próf í teoretiska hlutanum 26. janúar með 1. einkunn, en 5. febrúar próf í hinum praktiska hluta með 2. einkunn.

Þorvald administrator Sigurðsson í Hrappsey, sér til aðstoðar og þingferða sín hinnstu ár.

1837 lagðist hann algerlega í rekkju snemma vorsins af téðum sjúkdómi og lést þar af þann 13. júní[2]) næst eptir. Hans útför var hin virðuglegasta gerð á Skarði þann 28. s. m. í viðurvist allra heldri manna, barna og ættingja hans, sem þá var við kostur, voru margir með stórum gjöfum útleystir. Hann var lagður til hvíldar við kirkjukórsgafl á Skarði.

Skúli kammerráð var meðalmaður á hæð og gildleik og gerðist við ellina nokkuð feitur. Hann hafði hendur og fætur í minna lagi eptir vexti, hátt og mikið enni, þykkleitur og samleitur, líka bólugrafinn í andliti. Nef, munnur og haka vel við hæfi og fór vel, ekki augnfríður og kom ský á annað augað í bólunni. Hann hafði á ungu árum gulbjart hár þykkt, sem varð með aldrinum ljósjarpt. Yfir höfuð var hann maður snotur á velli og lánlegur.

Framkvæmdar- og búmaður var hann utanhúss í betra lagi og séður í mörgu, mesti risnumaður, gjöfull við snauða menn og þó veglátur; af náttúru var hann góður maður og vildi bjarga öllum nauðstöddum. Berorður stundum við fólk sitt og sýslubúa, einkum við öl, mjög eptirgefandi í tekjum og þó auðmaður. Hann mun hafa haft meðalgáfur, en lagði sig lítið eptir lærdómsmenntum eða fræðibókum á sínum seinni árum. Sýslubúar hans unnu honum hugástum, einkum bændafólk. Á uppvaxtarárum sínum var hann léttúðigur á fæti, snar og harður, fljótráður og fylginn sér í glímum, en ekki sérlegt hraustmenni að afli. Hann var og á yngri árum skrautmenni, kátur og gamansamur, en með elliárum þungfærari og alvarlegur í viðræðum sínum.

Dalasýslu innbúar sakna hans mjög sem góðs og örláts yfirmanns og höfðingja, og þess er flesta bágstadda styrkti og stundaði sýslubúa velferli og reglusemi. Einn sýslubúa hans setti honum þessa grafskrift:

Hér eru lagðar leifar jarðneskar.
Valinkunna, valdsmanns konungs.
**Skúla Magnússonar.**

---

2) Dánardagur hans er venjulegast talinn 14. júní. Mun hann hafa dáið aðfaranótt hins 14.

Hann var fæddur þann 6. Aprílis 1768.
Dáinn (á Skarði á Skarðsströnd) þann 13. Júnii 1837.
Adjungeraður föður síns Dalasýslumaður 1796.
Settur sýslumaður yfir Dalasýslu 1803.
Fékk kongsveiting fyrir téðri sýslu 18. Apr. 1804.
Gjörðist virkilegt kammerráð konungs 1831.

---

Inngekk hjónaband þann 14. Septembris 1799 með nú sárt syrgjandi frú, Kristínu Bogadóttur, og aflaði með henni núlifandi þriggja barna, nefnil. Hr. Kristjáns Snæfellinga-sýslumanns. Mad[me.] Ragnhildar, og Mad[me.] Kristínar, sem ásamt ekkjufrúnni syrgja látna göfugmennið.

---

**Skúli sýslumaður Magnússon**

var: Mikill að lærdómi, risnu og ríkmennsku
Meiri að hússtjórn, skyldurækt og guðrækne
Mestur að góðmennsku, höfðingskap og góðgerðum.
við nauðstadda

---

Öldunga, er reyna aldar stjá, vorra daga, vél og baga
langa mun þar leysast frá,
Völd þó þér Drottinn veitti hér, meiri sóma og meginblóma,
mun þig krýna um eilífðer
Innan skamms (von mín allt eins er) í aðalfriði og englaliði,
veitist mér að vera hjá þér.

---

Svo minntist þess heiðraða öldungs hryggur frændi. B. B.
(Í dag þér, á morgun mér.)

---

Frú Kristín Magnusen, fædd 24. maí[1]) 1767, giptist fyr séra Þórði Ólafssyni kapellán í Skarðsþingum, þau bjuggu í Hrappsey, þeirra dóttir Guðrún, gipt Ebenezer Þorsteinssyni sýslumanni í Ísafjarðarsýslu, þeirra dætur: Anna gipt merkisbónda Kristjáni Guðmundssyni í Vigur og Ingibjörg gipt Kristjáni sýslumanni Magnusen. Frú Kristín flutti með sínum seinna manni að Skarði 1800, og var álitin mesta bússtands-, driftar-, sannsýnis- og höfðingskona. Hún missti sjón

---

1) Réttara: 24. marz.

sína eptir 1836, hætti því búskap, þá maður hennar lést og flutti í Hrappsey til dótturmanns síns administrator Þ. Sívertsen vorið 1838[1]).

## Þorvaldur Sigurðsson.

*Faðir:* Sigurður yngri, fæddur 1763 að Núpi, giptist þar 1789, var hreppstjóri um 30 ár, gildur bóndi á Núpi í Haukadal, svo á Melum og Fjarðarhorni í Hrútafirði, þar deyði Sigurður 1826; hann var sonur Sigurðar Brandssonar á Núpi og Þórunnar Egilsdóttur. Brandur faðir Sigurðar var Egilsson, Brandssonar, Árnasonar, Þorvaldssonar, Péturssonar, Oddssonar bænda. Faðir Þórunnar var Egill bóndi á Vatni í Haukadal, Sturlaugsson, Þorgrímssonar bónda frá Höskuldsstöðum.

*Móðir:* Katrín, fædd á Þingvöllum í Helgafellssveit 1765, dó á Melum í Hrútafirði 1819, (bæði hjónin voru grafin á Stað í Hrútafirði), dóttir Þorvaldar bónda á Þingvöllum í Helgafellssveit, Jónssonar bónda á Dröngum á Skógarströnd, Bergssonar bónda á Akri í Hvammssveit, Tómassonar bónda Þorsteinssonar prests, Oddssonar prests í Tröllatungu.

*Kona:* Ragnhildur, dóttir kammerráðs og sýslumanns Skúla Magnússonar.

*Börn* þeirra (lifandi 1837) eru þrjú:

A. Katrín fædd 3. apríl 1829[2]).

B. Kristín Ólína fædd 24. júní 1833[3]).

---

1) Hún dó í Hrappsey 9. nóvember 1851 84 ára.

2) Katrín dó í Rvík 23. des. 1895, átti fyr 23. maí 1849 séra Lárus Sigmundsson Johnsen prófast í Skarðsþingum († 12. jan. 1859) bl., en síðar 25. ágúst 1866 Jón Árnason landsbókasafnsvörð († 4. sept. 1888), þ. b.:

a. Þorvaldur, var kominn upp í 3. bekk lærða skólans, er hann dó 25. sept. 1883, 15 ára gamall.

3) Kristín Ólína dó í Rvík 27. nóv. 1879, átti 29. ágúst 1854 Jón Þórðarson Thoroddsen sýslumann í Borgarfjarðarsýslu (sjá um börn þeirra þar).

C. Skúli Sigurður fæddur 22. nóvember 1835[1]). Börn þeirra sem dáin eru, voru: Katrín, fædd 26. apríl 1825: dó 13. maí 1828, Skúli fæddur 19. maí 1830, dó 10. júní sama ár.

Systkin Þorvaldar Sigurðssonar voru:

1. Síra Ólafur prófastur í Flatey, fæddur 10. júní 1790, lærði í heimaskóla hjá séra Páli Hjálmarssyni, sem dimitteraði hann 1814, var svo um hríð hjá kaupmanni G. Scheving. Vígðist til prests 1823, giptist 1820 Jóhönnu dóttur séra Eyjólfs Kolbeinssonar á Skutulsfjarðareyri; börn: 1. Eiríkur Kúld prestur giptur, 2. Katrín gipt séra Guðmundi Einarssyni.
2. Matthías fæddur 1. nóvember 1800, varð bókþrykkjarasveinn, gaf sig þar frá og giptist, gjörðist svo bóndi á Kjörseyri og hreppstjóri.
3. Margrét eldri, 4. Margrét yngri, 5. Arnfriður, 6. Sigurður, deyðu öll ung,

Þorvaldur Sigurðsson er borinn í þennan heim að Núpi í Haukadal 29. marz 1798 og skírður af séra Benedikt Árnasyni þann 4. apríl næst eptir. Árið 1804 fluttist hann með foreldrum sínum að Melum í Hrútafirði og þaðan aptur 1813 að Fjarðarhorni. Árið 1812 var hann comfirmeraður af Þorkeli presti Guðnasyni. Af amtmanni Stepháni Stephensen var hann árið 1817 þann 1. október valinn og útnefndur, að fara utan til Kaupmannahafnar og njóta þar undirvísunar

---

1) Skúli S. Sívertsen bjó lengi í Hrappsey, en er nú í Reykjavík hjá dóttur sinni, átti 1856 Hlíf († 1895) Jónsdóttur frá Helgavatni Ólafssonar, þ. b.:

a. Ragnhildur dó í Reykjavík 1899, ógipt, bl.
b. Katrín Sigríður á Guðmund Magnússon læknaskólakennara í Reykjavík.
c. Þorvaldur í Hrappsey giptur Helenu Ebenezersdóttur Kristjánssonar kammerráðs, þ. b.: Ingibjörg, Skúli Sigurður, Hlíf, Jón kominn í skóla, Ebenezer, Þorleifur, Katrín.
d. Kristín Svanhildur dó hálfsmánaðargömul 1860.
e. Kristín Svanlaug tvíburi við d., dó vikugömul.
f. Ingunn Hlíf dó 3 ára 1864.
g. Lárus Sigurður dó rúml. hálfsmánaðargamall 1863.

á kongl. kostnað í jarðarrækt og fleiru. — Ì þessu skyni fó
Þorvaldur utan með Flateyjarskipi þann 16. september 181
og komst til Kaupmannahafnar 11. nóvember sama haus
Í Kaupmannahöfn á Amager, Friðriksbergi og Strandmyln
dvaldist Þorvaldur með siðprýði og ástundan í námi, ekki a
eina við jarðarræktina heldur og í öðrum lærdómsgreinum
svo sem Geometri, Mathematik, Geographie, Dyre-Chemie
Náttúrufræði, veraldarsögunni, Astronomi, Mechanik, þýzk
tungu og fleiru, hvar um nóglega vitna hans ágætu vit
isburðir, útgefnir 1821 af Lieutenant og skólakennara I. V
Bruun af 11. apríl og af prófessor C. Viborg af 7. apr
og af Præsident Collin af 14. apríl, til þess um vorið 182
að hann í maí kom út með Flateyjarskipi. Sama ár gjörði
hann þénari hjá sýslumanni og kammerráði Skúla Magnússy
á Skarði, hvar hann hagaði sér svo vel, að eptir tvegg
ára þarveru, gaf kammerráðið honum dóttur sína Ragnhild
var þeirra brúðkaup haldið á Skarði þann 6. júní 182
og byrjaði næsta ár búskap á Hrappseyjarhjálendu, en al
Hrappsey og Kiðey tók hann undir bú sitt 1834, þá sar
býlismaður hans valmennið Björn Gottskálksson bilaðist t
heilsu og sleppti búskap. Þorvaldur gerðist administrato
Skógarstrandarumboðs þann 15. marz 1824. 1829 þann 2
október var hann eptir beiðni kammerráðs og sýslumann
Skúla Magnúsen settur af amtmanni B. Thorsteinsson til styrk
ar tengdaföður sínum í hans elli og lasleika, í öllum extr
judiciell sökum og þeirri adjunction hélt hann meðan sá
kammerráð Sk. Magnúsen lifði á 8. ár. 1837 þann 4. jú
var administrator og adjunctus Þorv. Sigurðsson settur sýsl
maður í Dalasýslu af amtmanni Thorsteinsson til þess ko
ungur veitti sjálfur téða sýslu. Áður var og Þorvaldur u
tíma af nokkrum sumrum, styrktarmaður kaupmanns A
Thorlaciusar við innanbúðar höndlunar reikninga (svo han
var við margt brugðinn). Efnamaður er hann góður, búhöld
ur mikill, góðgjörðasamur og snillingur í mörgu.

Árið þetta og eptirkomanda ár til þess 8. júní 1838 stó
velnefndur Sivertsen einn fyrir öllum sýslumannsverkum
Dalasýslu, þar póstskipið með hverju veitingarbréf sýslumann
Kristjáns barst ei til Íslands fyr en þann 26. marz 1838 o
menn voru í óvissu, hverjum sýslan mundi veitast.

1838 þá sýslumaður C. Magnusen fékk veitingarbréf sitt og flutti að Skarði búferlum, afhenti Sívertsen honum sýsluskjöl öll.

1842 var Sívertsen kosinn fyrir alþingismann í Dalasýslu og gegndi þeim störfum árin 1845 og 1847[1]).

1848 þá konferenzráð amtmaður Bjarni Thorsteinsson var utanlands að leita sér lækningar við bagri sjón sinni, og hafði með cancellisleyfi fengið sýslumanninn í Borgarfjarðarsýslu Jón Pétursson að annast og gegna amtmannsembætti í sinni fraveru, tilféll það, að Árni sýslumaður Thorsteinsson í Krossnesi deyði; greindur sýslumaður J. Pétursson setti þá fyrir Snæfellsnessýslu og Stapa-umboð alþingismann og administrator Th. Sívertsen í Hrappsey, tók Sívertsen þa móti téðri constitution fyrir Snæfellsnessýslu, en frabað sér constitution fyrir Stapaumboði. var því fyrir umboðið settur kaupmaður Árni Thorlacius, fyrst um sinn[2]).

## Kristján Skúlason Magnusen.

*Faðir*: Skúli Dalasýslumaður og kammerráð son Magnúsar Dalasýslumanns Ketilssonar prests.

*Móðir*: Kristín dóttir Boga gamla í Hrappsey Benediktssonar, Jónssonar.

*Kona*: Ingibjörg dóttir Ebenezers sýslumanns í Ísafjarðarsýslu Þorsteinssonar. Þau giptust 24. september 1830 í Hjarðardal í Önundarfirði.

Kristján er borinn á Skarði á Skarðsströnd árið 1801, þann 5. desember. Ólst hann að miklu leyti upp hjá dannebrogsmanni Einari Ólafssyni í Rauðseyjum, var svo komið til læringar hjá fyrv. skólameistara, en þá presti á Stað á Reykjanesi séra Pali Hjálmarssyni, svo var hann einn vetur

---

1) Hann sat og á alþingi 1849 og á þjóðfundinum 1851, en 1853—1857 var hann varaþingn aður fyrir Dalasýslu, en sat þau árin ekki á þingi.

2) Þorvaldur var settur sýslumaður í Strandasýslu 1854 og þjónaði henni eitt ár (sbr. bls. 402—403). Hann dó í Hrappsey 30. apríl 1863. Í Þjóðólfi 15. árg. bls. 105 er honum svo lýst: »Hann þótti hvívetna gerðarmaður og merkur, þar sem hann kom fram í hinum margbreyttu opinberu störfum sínum, og eigi síður ágætis »prívat«maður að stjórnsemi, ráðdeild og röggsemi, tryggð og gestrisni«.

eða tvo á Hvítárvöllum hjá amtmanni Stepháni hvers þénar
átti að kenna honum skólalærdóm. þar eptir var hann lærð
ur og útskrifaður af Helga presti Guðmundssyni Thordersen
er þá hélt Saurbæ við Hvalfjörð, en tók seinna Odda á Rang
árvöllum og gerðist prófastur í Rangárþingi og síðar biskup
1823 var Kristján af Helga útskrifaður í skólalærdómi, og fó
þá heim til foreldra sinna, var þó ástundum með Einari fóstr
sínum, en 1825 fór hann utan til meiri lærdómsframa, va
hann þá fyrst á hendi Ólafs Stephensens, sem var auditeu
og regimentskvartermester.

Svo heyrði hann Kaupmannahafnar prófessora í lögví
indum og tók reynslupróf með góðri heppni í dönskum lag
vísindum 1827, var Volunteur í Rentukammerinu 1 ár. Snæ
fellsnessýslu fékk hann sér veitta 1828 þann 24. maí, þ
Sverrissen slepti henni og kom út samsumars, settist að
Stykkishólmi, en bú setti hann í Bjarnarhöfn 1830 og gip
ist þá. Árið 1831 flutti hann búferlum að Narfeyri á Skóg
arströnd. Kristján sýslumaður kallaði sig Magnusen ept
afa sínum. Þá amtmaður Bjarni Thorsteinsson fór utan set
hann sýslumann Kr. Magnusen í júní 1834 til að gegna am
mannsverkum í Vesturamtinu til þess amtmaður kom út 183
Ábýlisjörð sína Narfeyri keypti hann 1835, einnig hálfa Fróð
og fleiri jarðir.

Vegna þess að sýslumaður Kristján hlaut í föðurarf sin
nærfelt hálft höfuðbólið Skarð á Skarðsströnd, sótti hann á
ið 1837 um Dalasýslu og fékk veitingu fyrir henni 7. októb
sama ár. Árið 1838 flutti hann frá Narfeyri að Skarði
Skarðsströnd og tók við embættinu í Dalasýslu af admin
strator Sívertsen sama ár. Kristján sýslumaður gjörðist bra
umfangsmikill búsýslumaður á Skarði og hinn mesti útsjóna
maður, bæði til sjós og lands, tillagði sér fjölda kvikfja
dekkbát til fiskiafla, og hafði rausnarbú, var fjárgæzlumað
mikill og höfðinglega sinnaður. 1847 þá Jón sýslumað
Pétursson sleppti Strandasýslu, var K. Magnusen fyrir ha
settur af amtmanni konferenzráði B. Thorsteinsson, sem
fór utan, en téður sýslumaður J. Pétursson gegndi þá am
mannsverkum og var á Stapa, en fékk mann fyrir sér vei
Borgarfjarðarsýslu. 1843 var K. Magnusen kosinn vara
þingismaður í Snæfellsnessýslu og gegndi störfum á alþi

1845. Árni kaupmaður Thorlacius var að nafninu alþingismaður Snæfellinga og hreppstjóri, hafði og litla höndlan, hverja hann vildi ei heldur yfirgefa sumarið 1847. En K. Magnusen stóð þá í kirkjubyggingu og settur fyrir Strandasýslu gat ei farið þá til þingsins, svo enginn var það ár fyrir Snæfellsnessýslu á alþingi.

Konungur gaf sýslumanni K. Magnusen kammerraðs nafnbót 1848[1]).

---

## Viðauki.

Kristjan kammerráð sat einnig a alþingi 1849 sem varaþingmaður, en 10. október 1859 fékk hann lausn fra syslumannsembætti fra næstu fardögum og andaðist á Skarði 3. juli 1871 á 70. aldursari.

*Börn* hans og konu hans Ingibjargar Ebenezersdóttur (f. 2. ágúst 1812, † 21. nóv. 1899) voru:

A. Magnús Skúli Ebenezer Einar f. 9. ág. 1831, † 3. sept. s. á.

B. Kristín f. 5. ágúst 1832, † 12. s. m.

C. Kristína Ólína f. 20. ágúst 1833, dó ung.

---

1) Hann fékk kammerráðsnafnbótina 25. maí. Frá 8. júlí 1847 til fardaga 1849 þjónaði hann Strandasýslu jafnframt sínu embætti. Að skírnarnafn hans hafi verið Kristján Klingenberg, eins og stendur i lögfræðingatali M. Stephensen og víðar er skakkt. Hann mun hafa tileinkað sér Klingenbergsnafnið að gamni sínu og aðrir trúað því, að það væri skírnarnafn hans. Kristján kammerráð var einkennilegur maður á ýmsan hátt, og eru ýmsar sagnir um látbragð hans kátlegt og orðatiltæki, þótt nokkuð kunni að vera ýkt um það. Hann var fjáður vel og hafði á sér ríkismannaháttu. Kona hans var mesta sæmdar- og höfðingskona. Móðir hennar var Guðrún Þórðardóttir aðstoðarprests Ólafssonar, systir sammæðra Kristjáns kammerráðs og varð hann því að fá konungsleyfi til að kvongast systurdóttur sinni.

D. Guðrún Andriana f. 23. sept. 1835, † 27. s. m.
E. Einar Skúli f. 12. sept. 1836, † 18. s. m.
F. Kristjana f. 29. jan. 1838, † 6. febr. s. á.
G. Anna Sigríður f. 4. júní 1839, † 10. s. m.
H. Elinborg f. 1843, † 14. marz 1902, átti séra Jónas Guðmundsson á Staðarhrauni († á Skarði 23. okt. 1897), þ. b.:
  1. Ingibjörg á séra Svein Guðmundsson fyr prest í Goddölum, nú við verzlun í Skarðsstöð, þ. b.: Jónas o. fl.
  2. Margrét á séra Guðlaug Guðmundsson í Dagverðarnesi og 9 börn á lífi, elzt þeirra Jónas stud. art.
  3. Kristján í Skarðsstöð, kvæntur Friðborgu Friðriksdóttur frá Hvammi Nikulássonar á Hóli á Fellsströnd Ólafssonar, þ. b. Jónas, Elinborg.
  4. Guðmundur kaupmaður í Skarðsstöð.
  5. Einar Magnusen stud. jur. í Kaupm.höfn.
  6. Kristín Guðrún Borghildur á móðurbróður sinn Boga Kristjánsson á Skarði (sjá hér síðar).
I. Ebenezer f. 1845, dó 1875 ókvæntur, laundóttir hans með Matthildi Jónsdóttur:
  1. Helena á frænda sinn Þorvald Skúlason Sívertsen í Hrappsey (sjá hér áður bls. 739).
K. Skúli Theodor f. 28. des. 1844, bjó í Frakkanesi, átti Birgittu Tómasdóttur prests að Reynistaðarklaustri Þorsteinssonar, þeirra synir:
  1. Kristján Ebenezer í Kaupm.höfn.
  2. Tómas Skagfjörð cand. jur.
L. Einar f. 8. sept. 1850, dó ungur.
M. Bogi f. 21. ágúst 1851, býr á Skarði, kvæntur Kristínu Jónasdóttur systurdóttur sinni (sjá hér áður), þ. b.: Ingibjörg Elinborg, dó ung, Elinborg og Ebenezer.
N. Kristína Guðrún f. 28. maí 1853, gipt Preben Theodor Emanuel Böving héraðsfógeta í Lunde og Skamhéruðum á Fjóni, fyrrum sýslumanni

í Norður-Múlasýslu (sjá þar). Þau hjón búa í Odense.

## Bogi Bjarnason Thorarensen.

*Faðir*: Bjarni Thorarensen amtmaður nyrðra Vigfússon sýslumanns á Hlíðarenda Þórarinssonar (sjá Rangárvallasýslu).

*Móðir*: Hildur Bogadóttir stúdents á Staðarfelli Benediktssonar.

*Kona*: Antonía Jósefína († 21. febr. 1901) dóttir Árna Ólafssonar Thorlaciusar kaupmanns í Stykkishólmi. Þau giptust 4. október 1855.

*Börn*: A. Anna Magdalena, dó ógipt og bl.
B. Hildur f. k. Hjartar Jónssonar héraðslæknis í Stykkishólmi, bl.
C. Herdís á Jósep Hjaltalín organista í Stykkishólmi Jónsson hreppstjóra á Narfeyri Jónssonar og s. k. hans Málmfríðar Jósepsdóttur Hjaltalíns á Valshamri Jónssonar.
D. Anna Guðrún, dó tæpra 9 ára.

Bogi Thorarensen var fæddur á Gufunesi í Mosfellssveit 18. ágúst 1822, útskrifaður úr Bessastaðaskóla 1846, og sigldi þá þegar til háskólans, tók þar aðgönguspróf (examen artium) 1847 með 2. einkunn og 2. lærdómspróf í okt. og nóv. 1848 einnig með 2. einkunn, en embættispróf í lögum 18. júní 1853 með 2. einkunn í báðum prófum, fékk veitingu fyrir Snæfellsnessýslu 30. apríl 1854 og settist að í Stykkishólmi, en Mýrasýslu fékk hann 11. maí 1855 og var þá fyrsta veturinn í Stafholti og loks Dalasýslu 8. maí 1860. Hann var settur amtmaður í vesturamtinu frá 11. júlí 1861 til 8. maí 1865 og þjónaði Magnús stúdent Gíslason Dalasýslu á meðan. Bogi sýslumaður bjó í Hjarðarholti í Stafholtstungum 4 ár (1856—60), en síðan á Staðarfelli og andaðist þar 3. júlí 1867. Hann var fjörmaður og gleðimaður, en mjög hneigður fyrir ölföng.

## Magnús Gíslason.

*Faðir*: Gísli Guðmundsson prestur í Hítarnesþingum († 8. febr. 1836).

*Móðir*: Ragnhildur († 24. jan. 1856 83 ára) Gottskálksdóttir frá Efraási í Hjaltadal Jónssonar, systir Björns dbrm. í Hrappsey.

*Kona*: Helga (f. 1. marz 1833) Ámundadóttir smiðs á Kirkjubóli í Langadal Halldórssonar prófasts á Melstað Ámundasonar og Guðbjargar Jónsdóttur prests Hjaltalíns á Breiðabólsstað Oddssonar. Var Helga systir sammæðra Hermannius E. Johnsons sýslumanns í Rangárvallasýslu, og er hún enn á lífi á Ísafirði.

*Börn*: A. Ásgeir Helgi fæddur í Álptártungu 31. okt. 1858, sigldi ungur til útlanda.

B. Þorbjörn f. s.st. 28. des. 1859, fór austur í Múlasýslu og dó þar.

C. Magnús Húnbogi f. s.st. 23. sept. 1861, dó á Velli í Hvolhrepp 26 ára, ókv., bl.

D. Rögnvaldur f. á Hrafnabjörgum 1866, dó á Ísafirði hjá móður sinni, ókv., bl.

Launbörn Magnúsar Gíslasonar, áður en hann kvæntist, með Steinunni Gísladóttur frá Hraunhöfn í Staðarsveit Árnasonar, er síðar átti Helga bónda Sveinbjarnarson á Hlíðarfæti í Svínadal voru:

E. Eyjólfur (f. í Hraunhöfn 6. júní 1841) lengi barnakennari í Borgarfirði, víða kunnur á Suðurlandi, hefur síðustu árin lengstum dvalið hjá hálfsystur sinni Rannveigu Helgadóttur, konu Einars bónda Eyjólfssonar á Kotströnd í Ölfusi.

F. Charlotta Elín f. í Hítardal 28. sept. 1848, dó þar 29. jan. 1850.

Magnús Gíslason var fæddur á Signýjarstöðum í Hálsasveit 9. júní 1814, lærði undir skóla hjá föður sínum, kom í Bessastaðaskóla 1832 og var útskrifaður þaðan 1837 með ágætum vitnisburði fyrir fjölhæfar gáfur og góða hegðun, varð s. á. skrifari hjá Bjarna amtmanni Þorsteinssyni á Stapa, en 1842 skrifari hjá Lund sýslumanni í Mýrasýslu, er bjó í Vogi í Hraunhrepp og flutti Magnús þangað með Steinunni barnsmóður sinni. Hann var settur sýslumaður í Mýrasýslu 1847 og þjónaði henni þangað til Jón Pétursson tók við henni

árið eptir. Það ár (1848) flutti Magnús frá Vogi að Hítardal, og bjó þar með Steinunni bústýru sinni í sambýli við séra Þorstein Hjalmarsen. 1848 var Magnús settur af amtmanni til að þjóna Ísafjarðarsýslu og fór vestur þangað samsumars einhleypur, en 19. maí 1849 setti stjórnin hann til að þjóna sýslunni næstu 3 ár. Þó fór hann þaðan 1850 til bús síns í Hítardal og var þá þegar settur sýslumaður í Mýrasýslu, þá er Jón sýslumaður Pétursson varð dómari í landsyfirréttinum. Þjónaði Magnús sýslunni þangað til um haustið 1851, að hann fór vestur aptur sem settur sýslumaður að nýju í Ísafjarðarsýslu (4. okt. 1851) og þjónaði henni til 1854, að Erlendur sýslumaður Þórarinsson tók við. Þessi árin (1848—54) hafði Steinunn bústýra hans verið í Hítardal, en flutti 1854 að Brúarfossi og giptist Helga syni Sveinbjarnar prests á Staðarhrauni. En Magnús staðnæmdist þá fyrst um sinn vestra og kvæntist Helgu konu sinni 4. október 1855, fóru þau að búa á Hallsstöðum á Langadalsströnd. 1848 hafði Magnús fengið umboð Barðastrandar- og Álptafjarðarjarða og hélt hann því umboði til 1857, að hann flutti búferlum suður að Álptártungu í Hraunhrepp. Þá er Bogi Thorarensen sýslumaður fékk Dalasýslu 1860 varð Magnús lögsagnari í Mýrasýslu og þjónaði henni eitt ár í umboði Boga, en 1861 var hann settur sýslumaður í Dalasýslu og þjónaði þar 4 ár, meðan Bogi sýslumaður gegndi amtmannsembætti vestra. Vorið 1864 flutti Magnús alfarinn frá Álptártungu og reisti bú að Hrafnabjörgum ytri í Hörðudal, og þar andaðist hann 5. júní 1867 53 ára gamall. Hann sat á þjóðfundinum 1851 sem þingmaður Mýramanna.

Magnús Gíslason var skarpgáfaður maður, og vel að sér um margt, skörulegur á velli og mikilúðugur, hraustur að afli og lét ekki allt fyrir brjósti brenna[1]), en spillti heilsu sinni með ofnautn áfengra drykkja. Var þó jafnan vel þokkaður, því að hann var drengur hinn bezti og trygglyndur. Hann var og fræðimaður og hefur meðal annars ritað Stúdentatal frá 1743—1846, og er allmargt á því að græða, þótt ófullkomið sé.

---

1) Einn skólabróðir Magnúsar hefur komizt svo að orði um hann, að hann hafi verið »heljarmenni til sálar og líkama«.

## Sigurður E. Sverrisson

sýslumaður í Strandasýslu var jafnaðarlegast settur um tíma sýslumaður í Dalasýslu, þá er þar var sýslumannslaust. Í fyrsta skipti var hann settur þar 4. júlí 1867 eptir lát Boga sýslumanns, en þjónaði sýslunni ekki nema 2 mánuði, því að Lárus Blöndal tók við þá um sumarið. Aptur var Sigurðnr settur í Dalasýslu 1877, þangað til Skúli Magnússon tók við 6. júní 1878 og enn 16. júní 1881 eptir lát Skúla, en þjónaði þá sýslunni að eins til 1. sept. s. á. 30. júní 1887 var hann enn á ný settur til að þjóna sýslunni, og var þá talað um að sameina Dalasýslu og Strandasýslu til fulls, en ekkert varð af því, og var Dalasýsla veitt Birni Bjarnarson 1891. En þessi 4 ár (1887—91) þjónaði Sigurður Sverrisson stöðugt sýslunni, jafnframt sínu embætti. Hann var sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar 1. desember 1896 en andaðist í Bæ 27. janúar 1899. (Sjá um hann Strandasýslu).

## Lárus Þórarinn Björnsson Blöndal.

*Faðir:* Björn Auðunsson Blöndal sýslumaður í Húnavatnssýslu (sjá þar).

*Móðir:* Guðrún Þórðardóttir kaupmanns Helgasonar.

*Kona:* Kristín (f. 26. febr. 1838) Ásgeirsdóttir dbrm. á Lambastöðum á Seltjarnarnesi og síðar Lundum Finnbogasonar og f. k. hans Sigríðar Þorvaldsdóttur prófasts Böðvarssonar. Þau Lárus Blöndal og Kristín giptust í Reykjavík 24. ágúst 1857.

*Börn:*

A. Ásgeir (f. á Lambastöðum 10. febr. 1858) héraðslæknir í Eyrarbakkahéraði, býr á Eyrarbakka, tvíkvæntur, fyr Emilíu dóttur Péturs Gudjohnsens organleikara, síðar bróðurdóttur hennar Kirstínu dóttur Þórðar Gudjohnsen fyr verzlunarstjóra á Húsavík, bl.

B. Sigríður (f. í Kaupm.höfn 11. apríl 1865) kona séra Bjarna Þorsteinssonar á Siglufirði, eiga börn.

C. Björn prestur í Hvammi í Laxárdal (f. á Staðarfelli 3. júlí 1870), kvæntur Bergljótu Tómasdóttur.

D. Ágúst Theodor (f. á Staðarfelli 5. júlí 1871),

bóndi á Hlaðhamri í Hrútafirði og sýsluskrifari í Strandasýslu, kvæntur Ólafíu Theodorsdóttur verzlunarmanns á Borðeyri Ólafssonar prests á Melstað Pálssonar

E. Kristján Júlíus (f. í Fagradal innri 2. júlí 1872) bóndi á Gilsstöðum í Vatnsdal, kvæntur Jósefínu Magnúsdóttur óðalsbónda í Hnausum Steindórssonar.

F. Guðrún (f. í Fagradal 26. júlí 1873) ógipt.

G. Ingunn Ragnheiður (f. í Fagradal 26. júlí 1874 † 27. okt. s. á.).

H. Jósep (f. í Fagradal 19. ágúst 1875). Er við klæðaverksmiðjuna »Iðunni« í Reykjavík.

I. Ragnheiður (f. í Fagradal 19. des. 1876) gipt Guðmundi verzlunarmanni á Eyrarbakka Guðmundssyni bóksala í Reykjavík Guðmundssonar frá Hofi á Rangárvöllum Péturssonar.

K. Jósefína Antonía (f. í Fagradal 25. apríl 1878) kona Jóhannesar Jóhannessonar sýslumanns og bæjarfógeta á Seyðisfirði (sjá Norður-Múlasýslu).

L. Haraldur ljósmyndari (f. á Kornsá 10. sept. 1882).

Lárus Blöndal var fæddur að Hvammi í Vatnsdal 16. nóvember 1836, útskrifaður úr Reykjavíkurskóla 1857 með 1. einkunn, og sigldi þá samsumars til háskólans, tók próf í heimspeki 24. júní 1858, og embættispróf í lögum 19. júní 1865 með 2. einkunn í báðum prófum. Hann var síðan á skrifstofu stiptamtmanns og landfógeta, en var settur sýslumaður í Dalasýslu 23. ágúst 1867 og fékk veitingu fyrir sýslunni 12. maí 1868. Haustið 1870 var hann jafnframt settur til að þjóna Barðastrandarsýslu, þá er Gunnlaugur Blöndal bróðir hans fèkk lausn frá henni, en árið eptir var Gunnlaugur settur fyrir hana. Lárus sýslumaður bjó fyrst á Staðarfelli, en síðar í Innri-Fagradal (1872—78). Hann fékk veitingu fyrir Húnavatnssýslu 12. apríl 1877, en flutti ekki búslóð sína norður fyr en vorið eptir (1878) og var þá fyrst eitt ár á Stóruborg, en flutti síðan að Kornsá í Vatnsdal. Hann sat á alþingi 1881, 1883 og 1885 sem 1. þingmaður

Húnvetninga. 8. apríl 1891 var hann sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar og 26. febrúar 1894 var honum veitt amtmannsembættið nyrðra og eystra, án þess að hann sækti um það, en hann tók aldrei við því embætti, því að hann andaðist á Kornsá 12. maí s. a. (1894) úr influenzasóttinni, er þá gekk yfir. Lárus Blöndal var höfðingi í lund og mjög vinsæll af sýslubúum sínum, glaðvær og skemmtinn. Var heimili hans eitthvert hið mesta rausnarheimili á Norðurlandi í þann tíð.

## Skúli Magnússon Nordahl.

*Faðir* Magnús Nordahl prestur í Meðallandsþingum Jónsson prests í Hvammi í Norðurárdal Magnússonar sýslumanns Ketilssonar (sjá hér áður).

*Móðir*: Rannveig Eggertsdóttir prests í Stafholti Bjarnasonar landlæknis Pálssonar. Síðari maður hennar var Gísli Magnússon í Rofabæ og voru þau rúmt ár saman, en hún dó 1. des. 1857.

Skúli Nordahl var fæddur í Hvammi í Norðurárdal 5. janúar 1842, en faðir hans var þar þá aðstoðarprestur hjá föður sínum. Þaðan flutti Skúli með foreldrum sínum að Sandfelli í Öræfum 1844 og 8 árum síðar með þeim að Rofabæ í Meðallandi, missti föður sinn 1854 og var svo hjá móður sinni í Rofabæ, lærði undir skóla hjá séra Jóni Bjarnasyni, þá presti í Meðallandsþingum, kom í skóla 1856, en eptir lát móður sinnar fór hann 1858 að Skarði til Kristjáns kammerráðs, er kostaði skólaveru hans. Hann var útskrifaður 1862 með 1. einkunn, sigldi samsumars til háskólans og tók próf í heimspeki 11. júní 1863, en embættispróf í lögfræði 13. janúar 1869 með 2. einkunn í báðum prófum. Hann var síðan skrifari hjá landfógetanum í Reykjavík, en fékk veitingu fyrir Snæfellsness- og Hnappadalssýslu 22. maí 1871 og settist að í Stykkishólmi, en 5. nóvember 1877 var honum veitt Dalasýsla, og tók hann við henni vorið 1878. Hann andaðist í Dagverðarnesi 1. júní 1881, ókvæntur og bl. Hann var gáfumaður en drykkhollur um of.

## Ásmundur Sveinsson.

*Faðir*: Sveinn bóndi á Bæjarstæði í Seyðisfirði Sæbjörns-

son frá Mýrnesi í Eiðaþinghá Þorsteinssonar í Austdal Sigurðssonar Eyjólfssonar hins spaka í Eyvindarmúla Guðmundssonar, kominn í beinan karlegg frá Eyjólfi Einarssyni í Dal (Stóradal), er átti Helgu Jónsdóttur biskups Arasonar.

*Móðir*: Helga Sigurðardóttir frá Bæjarstæði Eiríkssonar, en sá Sigurður var í rauninni (eptir sögn Einars prófasts Jónssonar í Kirkjubæ) son Einars í Mýrnesi Jónssonar prests á Hjaltastað Oddssonar[1]).

*Kona*: Guðrún dóttir Péturs Hall verzlunarmanns í Reykjavík og Önnu Margrétar Norgaard, systurdóttur Helga biskups Thordersen, en Norgaard var norskur.

*Börn*: A. Helga gipt Ingólfi Sigurðssyni bakara í Reykjavík.
B. Anna.
C. Sveinn. D. Kristján. E. Óli. F. Ásta.

Ásmundur Sveinsson var fæddur á Bæjarstæði í Seyðisfirði 18. marz 1846, útskrifaður úr lærða skólanum 1874 með 1. einkunn, sigldi s. á. til háskolans og tók þar próf í heimspeki 21. júní 1875 með 1. einkunn, las lögfræði, en tók ekki embættispróf, var settur sýslumaður í Barðastrandarsýslu 28. júlí 1879 og þjónaði henni til 1881, að Fischer tók við henni. Hinn 4. ágúst s. á. (1881) var hann svo settur sýslumaður í Dalasýslu frá 1. sept., og þjónaði þar til 31. maí 1882, en 31. ágúst það ár var hann skipaður umboðsmaður Arnarstapa- og Skógarstrandarjarða og jarðarinnar Hallbjarnareyrar, en var vikið frá þeirri sýslan fyrir vanskil 29. ágúst 1885. Dvaldi Ásmundur síðan í Reykjavík við hitt og þetta, helzt málsfærslu og skriptir, fyrst hjá bæjarfógetanum og síðan hjá öðrum. Óljóst er, hvernig dauða hans bar að, en hann fannst látinn í Reykjavíkurlæk að morgni 13. febrúar 1896. Var helzt ætlun manna, að hann hefði dottið út af brúnni neðan við svonefndan Amtmannsstíg, er hann ætlaði heim til sín um nóttina, eða ekki hitt brúna og fallið í lækinn. Hann var vel gáfaður maður, vel að sér í mörgu og góðmenni.

---

1) Annarsstaðar hér á undan (bls. 149) hefur Jón Pétursson rakið föður- og móðurætt Ásmundar, en ekki fullkomlega rétt. Þar er t. d. föðurættin rakin til »Eyjólfs frá Dal í Skaptafellssýslu«, en á að vera til Eyjólfs í Eyvindarmúla.

## Guðlaugur Guðmundsson.

Hann var settur sýslumaður í Dalasýslu 13. apríl 1882 frá 1. júní s. á., og þjónaði henni rúmlega eitt ár, þangað til Halldór Daníelsson tók við 1883. Guðlaugur varð síðar málfærslumaður við landsyfirréttinn og svo sýslumaður í Skaptafellssýslu (sjá um hann þar) og síðar í Eyjafjarðarsýslu. Meðan hann þjónaði Dalasýslu, var hann í húsmennsku á Staðarfelli.

## Halldór Daníelsson.

Hann fékk veitingu fyrir Dalasýslu 25. júlí 1883, nýbakaður kandídat, en 28. júlí 1886 var hann skipaður bæjarfógeti í Reykjavík, og hefur gegnt því embætti síðan (sjá um hann aptan við sýslumannatal í Gullbringusýslu). Meðan hann hélt Dalasýslu var hann til heimilis á Staðarfelli.

## Hannes Þórður Hafstein.

*Faðir*: Jörgen Pétur Havsteen amtmaður yfir Norður- og Austuramtinu († 24. júní 1875).

*Móðir*: Kristjana Gunnarsdóttir prests í Laufási († 24. júlí 1853) Gunnarssonar prests samastaðar († 15. febr. 1828) Hallgrímssonar og Jóhönnu Kristjönu Gunnlaugsdóttur Briems kammeráðs Guðbrandssonar, (sjá Eyjafjarðarsýslu).

*Kona*: Ragnheiður (f. 3. apríl 1871) Stefánsdóttir prests Thordersen í Vestmannaeyjum († 3. apríl 1889) Helgasonar biskups, kjördóttir Sigurðar Melsteðs lektors og konu hans Ástríðar Helgadóttur (biskups). Þau Hannes og Ragnheiður giptust 15. október 1889.

*Börn*:
A. Sigurður f. 4. apríl 1891, † 2. febr. 1900.
B. Kristjana f. 27. marz 1892, † 27. jan. 1904.
C. Ástríður f. 30. ágúst 1893.
D. Þórunn f. 19. okt. 1895.
E. Sigríður f. 3. des. 1896.
F. Soffía Laura f. 17. des. 1899.
G. Elín Jóhanna Guðrún f. 25. des. 1900.
H. Ragnheiður f. 4. jan. 1903.

Hannes Hafstein er fæddur á Möðruvöllum í Hörgárdal 4. desember 1861, kom í skóla 1874 og var útskrifaður vorið

1880 með 1. einkunn, sigldi þa þegar til háskólans og tók próf í heimspeki 16. júní 1881 með ágætiseinkunn, en embættispróf í lögfræði 19. júní 1886 með 2. einkunn, kom þá þegar út hingað og var settur sýslumaður í Dalasýslu 23. ágúst s. á., for þá vestur þangað og dvaldi á Staðarfelli, en þegar Páll Briem fékk veitingu fyrir sýslunni um haustið, kom Hannes suður aptur og var settur málsfærslumaður við landsyfirréttinn 27. desember s. á. (1886) en landshöfðingjaritari varð hann 3. nóvember 1889. Frá 1. janúar 1890 var hann jafnframt skipaður endurskoðandi við landsbankann og hélt þeirri sýslan til 8. mai 1896. Hinn 13. sept 1890 var hann ennfremur settur af landshöfðingja til að gegna fyrst um sinn málsfærslumannsstörfum við landsyfirrettinn asamt sínu eigin embætti, og gegndi hann því starfi til 30. sept. 1893. Hinn 26. september 1895 var hann skipaður sýslumaður í Ísafjarðarsýslu og bæjarfógeti í Ísafjarðarkaupstað og fluttist vestur á Ísafjörð vorið 1896. Snemma árs 1899 sigldi hann til Noregs, Svíþjóðar og Danmerkur í skemmtiferð, en bróðir hans Marino Hafstein cand. jur. þjónaði sýslunni á meðan. Haustið 1899 varð hann fyrir hrakningum af ensku botnvörpuskipi á Dýrafirði og komst þar í mikla lífshættu, eins og alkunnugt er. Haustið 1900 kusu Ísfirðingar hann a þing og sat hann á alþingi 1901, þá er hið svonefnda valtýska frumvarp var samþykkt. Var hann þá sendur til Hafnar eptir þing sem fulltrúi heimastjórnarflokksins a þingi til að na betri stjórnarbótarkjörum hjá stjórninni, en hið samþykkta frumvarp alþingis hafði inni að halda. Kom hann aptur úr þeirri för i október s. á. og er enginn efi á, að tilboð stjórnarinnar í konungsbréfi 10. janúar 1902 um ráðherra, búsettan í Reykjavík, var mikið þessari sendiför að þakka. Á aukaþinginu 1902 atti Hannes Hafstein ekki sæti, en vorið 1903 naði hann kosningu í Eyjafirði og sat á þingi það ár, er stjórnarskráin var samþykkt til fullnaðar og síðan staðfest af konungi 3. október. Í þeim mánuði sigldi Hannes Hafstein til Hafnar boðaður á fund Íslandsráðgjafans til að taka við raðherraembætti hér á landi og kom hann út hingað aptur í nóvember með bráðabirgðarvald til að skipa í embætti o fl. En 30. janúar 1904 var hann af konungi skipaður *ráðherra Íslands* frá 1. febrúar, þá er nýja stjórnarskráin gekk í gildi og s. d.

sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar, sigldi þá í febrúar til Hafnar og kom aptur í apríl, en sigldi aptur seint í ágúst s. á. til að gera nauðsynlegar ráðstafanir áhrærandi væntanlegri fréttaþráðarlagningu til Íslands, og kom aptur snemma í október með góðum árangri.

Ljóðmæli H. Hafsteins eru prentuð í Reykjavík 1892. En síðan hefur hann ort ýms ágæt kvæði, þar á meðal Aldamótaljóð 1900—1901. Hann átti og mikinn þátt í útgáfu ritsins „Verðandi" í Kaupm.höfn 1882.

## Pàll Jakob Eggertsson Briem.

Honum var veitt Dalasýsla 5. nóvember 1886, og fór hann þá vestur þangað, og var á Staðarfelli um veturinn, en afsalaði sér sýslunni þegar næsta vor og var skipaður málaflutningsmaður við landsyfirréttinn 25. maí 1887, en 21. júní 1890 var honum veitt Rangárvallasýsla frá 1. sept. s. á. (sjá um hann þar).

---

Eins og fyr er getið þjónaði *Sigurður E. Sverrisson* sýslumaður Dalasýslu næst eptir Pál Briem frá 30. júní 1887 til vorsins 1891.

## Björn Stefánsson Bjarnarson.

*Faðir:* Stefán Björnsson síðast sýslumaður í Árnessýslu († 3. júlí 1891) sjá um hann þar. Hann var bróðir sammæðra Magnúsar Eiríkssonar cand. theol. í Kaupmannahöfn.

*Móðir:* Karen Emilia Jörgensen, dóttir gózeiganda í Kauphöfn.

*Kona:* Guðný dóttir Jóns Jónssonar Borgfirðings bókfræðings, fyrrum lögregluþjóns í Reykjavík, systir Finns prófessors í Kaupmannahöfn og Klemens landritara. Þau giptust í Reykjavík 26. júlí 1890.

*Börn:* A. Stefán f. 17. sept. 1891, dó 11 ára.
B. Anna Guðrún f. 13. nóv. 1892.
C. Jón f. 14. maí 1894.
D. Ragnar f. 4. ágúst 1895.
E. Stefán f. 1903.
F. Karen Emilía dó á 2. ári.

Björn Bjarnarson er fæddur í Kaupmannahöfn 23. desember 1853, kom í Reykjavíkurskóla 1869 og var þar 7 vetur (1869—76), en veturinn 1876—77 var hann ekki í skólanum og útskrifaðist utanskóla vorið 1877 með 2. einkunn, sigldi samsumars til háskólans og tók þar próf í heimspeki 12. júní 1878 með ágætiseinkunn, en embættispróf í lögfræði 31. maí 1883 með 2. einkunn, dvaldi svo fyrst um sinn í Kaupmannahöfn við ritstörf og jafnvel bókaútgáfur, var ritstjóri „Heimdalls" 1884 og síðar danska blaðsins „Vort Hjem", er hann stofnaði ásamt dönskum manni. Sumarið 1887 gegndi hann sýslumannsverkum í Þingeyjarsýslu fyrir Benedikt Sveinsson, meðan hann sat á þingi, en 1888—1890 var hann aðstoðarmaður föður síns við sýslumannsstörf í Árnessýslu. 23. apríl 1890 var hann settur til að gegna sýslumannsembættinu í Rangarvallasýslu frá 1. maí, þá er Hermannías Johnson sýslumaður fékk lausn, og þjónaði Björn sýslunni 4 mánuði, þangað til Páll Briem tók við 1. sept. s. a. En 9. janúar 1891 var honum veitt Dalasýsla og tók við henni þá um vorið. Býr á Sauðafelli, er hann keypti af erfingjum séra Jakobs Guðmundssonar. Hann hefur setið á 3 síðustu þingum (1901, 1902 og 1903) sem þingmaður Dalamanna.

---

